# BIBLÍA

ÞAÐ ER

# HEILÖG RITNING.

NÝ ÞÝÐING ÚR FRUMMÁLUNUM.

REYKJAVÍK.

Á KOSTNAÐ HINS BREZKA OG ERLENDA BIBLÍUFÉLAGS.

PRENTSMIÐJAN GUTENBERG.

1908.

# EFNISYFIRLIT.

## 1. GAMLA TESTAMENTIÐ.



## 2. NÝJA TESTAMENTIÐ.

# Fyrsta bók Móse
## (Genesis).

---

### Sköpun heimsins.

1 Í upphafi skapaði Guð himin og jörð. 2 En jörðin var þá auð og
tóm, og myrkur grúfði yfir djúpinu og Guðs andi sveif yfir vötn-
unum. 3 Þá sagði Guð: Verði ljós! og það varð ljós. 4 Og Guð sá, að
ljósið var gott; og Guð greindi ljósið frá myrkrinu. 5 Og Guð kallaði
ljósið dag, en myrkrið kallaði hann nótt. Og það varð kveld og það
varð morgunn, — hinn fyrsti dagur.
6 Og Guð sagði: Verði festing milli vatnanna og hún greini vötn
frá vötnum. Og það varð svo.* 7 Þá gjörði Guð festinguna og greindi
vötnin, sem voru undir festingunni, frá þeim vötnum, sem voru yfir
henni. 8 Og Guð kallaði festinguna himin. Og það varð kveld og það
varð morgunn, — hinn annar dagur.
9 Og Guð sagði: Safnist vötnin undir himninum í einn stað, svo
að þurlendið sjáist. Og það varð svo. 10 Og Guð kallaði þurlendið
jörð, en safn vatnanna kallaði hann sjó. Og Guð sá, að það var gott.
11 Og Guð sagði: Láti jörðin af sér spretta græn grös, sáðjurtir og
aldintré, sem hvert beri ávöxt eftir sinni tegund með sæði í á jörðunni.
Og það varð svo. 12 Þá lét jörðin á sér spretta græn grös, jurtir með
sæði í, hverja eftir sinni tegund, og aldintré með sæði í sér, hvert eftir
sinni tegund. Og Guð sá, að það var gott. 13 Og það varð kveld og
það varð morgunn, — hinn þriðji dagur.
14 Og Guð sagði: Verði ljós á festingu himinsins, að þau greini
dag frá nóttu, og séu til tákns og til að marka tíðir, daga og ár. 15 Og
þau séu ljós á festingu himinsins, til að lýsa jörðina. Og það varð
svo. 16 Þá gjörði Guð tvö stóru ljósin: hið stærra ljósið, til að ráða
degi, og hið minna ljósið, til að ráða nóttu, svo og stjörnurnar. 17 Og
Guð setti þau á festingu himinsins, að þau skyldu lýsa jörðunni 18 og
ráða degi og nóttu, og greina sundur ljós og myrkur. Og Guð sá, að
það var gott. 19 Og það varð kveld og það varð morgunn, — hinn
fjórði dagur.
20 Og Guð sagði: Vötnin verði kvik af lifandi skepnum, og fuglar
fljúgi yfir jörðina undir festingu himinsins. 21 Þá skapaði Guð hin stóru

---

**1, 1:** Job 38, 4—7. Sálm. 33, 6. Jes. 42, 5; 45, 18. Jóh. 1, 1. 3. Post. 14, 15; 17, 24. Kól. 1, 16—17. Hebr. 1, 10; 11, 3. Opinb. 4, 11. **2:** Jer. 4, 23. **3:** 2 Kor. 4, 6. **6:** Job 37, 18. Sálm. 136, 5. Jer. 10, 12; 51, 15. * Þessi orð (»Og það varð svo«) standa í frumtextanum síðast í 7. versi, en virðast eiga að standa hér, sbr. 3. 9. 11. 15. og 24. v. **7:** Orðskv. 8, 27—29. Sálm. 148, 4. **9:** Job 38, 8—11. Sálm. 33, 7; 136, 6; 2 Pét. 3, 5. **11:** Sálm. 104, 14. **14:** Sálm. 104, 19. **16:** 5 Mós. 4, 19. Sálm. 136, 7—9. **18:** Jer. 31, 35. **21:** Sálm. 104, 25. 26.

lagardýr og allar hinar lifandi skepnur, sem hrærast og vötnin eru kvik
af, eftir þeirra tegund, og alla fleyga fugla eftir þeirra tegund. Og Guð
sá, að það var gott. [22] Og Guð blessaði þau og sagði: Frjóvist og
fjölgið og fyllið vötn sjávarins, og fuglar fjölgi á jörðunni. [23] Og það
varð kveld og það varð morgunn, — hinn fimti dagur.
[24] Og Guð sagði: Jörðin leiði fram lifandi skepnur, hverja eftir
sinni tegund: fénað, skriðkvikindi og villidýr, hvert eftir sinni tegund.
Og það varð svo. [25] Þá gjörði Guð villidýrin, hvert eftir sinni tegund,
fénaðinn eftir sinni tegund og alls konar skriðkvikindi jarðarinnar eftir
sinni tegund. Og Guð sá, að það var gott. [26] Og Guð sagði: Vér vilj-
um gjöra menn eftir vorri mynd, líka oss, og þeir skulu drotna yfir
fiskum sjávarins og yfir fuglum loftsins og yfir fénaðinum og yfir villi-
dýrunum, og yfir öllum skriðkvikindum, sem skríða á jörðunni. [27] Og
Guð skapaði manninn eftir sinni mynd, hann skapaði hann eftir Guðs
mynd; hann skapaði þau karl og konu. [28] Og Guð blessaði þau, og
Guð sagði við þau: Verið frjósöm, margfaldist og uppfyllið jörðina,
og gjörið ykkur hana undirgefna, og drotnið yfir fiskum sjávarins og
yfir fuglum loftsins og yfir öllum dýrum, sem hrærast á jörðunni!
[29] Og Guð sagði: Sjá, eg gef ykkur alls konar sáðberandi jurtir á allri
jörðunni, og alls konar tré, sem bera ávöxtu með sæði í, — það sé
ykkur til fæðu. [30] Og öllum villidýrum og öllum fuglum loftsins og
öllum skriðkvikindum á jörðunni, öllu því, sem hefir lifandi sál, gef
eg öll grös og jurtir til fæðu. Og það varð svo. [31] Og Guð leit alt,
sem hann hafði gjört, og sjá, það var harla gott. Og það varð kveld
og það varð morgunn, — hinn sjötti dagur.
2 Þannig algjörðist himinn og jörð og allur þeirra her. [2] Og Guð
lauk á hinum sjöunda degi verki sínu, er hann hafði gjört, og
hvíldist hinn sjöunda dag af öllu verki sínu, er hann hafði gjört. [3] Og
Guð blessaði hinn sjöunda dag og helgaði hann, því að á honum
hvíldist Guð af verki sínu, sem hann hafði skapað og gjört. [4] Þetta er
sagan um uppruna himins og jarðar, er þau voru sköpuð.

### Paradís og syndafallið.

Þegar Jahve Guð gjörði jörðina og himininn, — [5] en þá var
enn alls enginn runnur merkurinnar til á jörðunni og engar jurtir
spruttu enn á mörkinni; því að Jahve Guð hafði ekki enn látið rigna
á jörðina og engir menn voru til þess að yrkja jörðina; [6] en þoku
lagði upp af jörðunni, og vökvaði hún alt yfirborð jarðarinnar, — [7] þá
myndaði Jahve Guð manninn af leiri jarðar og blés lífsanda í nasir
hans, og þannig varð maðurinn lifandi sál. [8] Og Jahve Guð plantaði
aldingarð í Eden langt austur frá og setti þar manninn, sem hann hafði
myndað. [9] Og Jahve Guð lét upp vaxa af jörðunni alls konar tré, sem
voru girnileg á að líta og góð að eta af, og lífsins tré í miðjum aldin-
garðinum og skilnings-tréð góðs og ills. [10] Og fljót rann frá Eden, til
að vökva aldingarðinn, og þaðan kvíslaðist það og varð að fjórum
stórám. [11] Hin fyrsta heitir Píson; hún fellur um alt landið Havíla,
þar sem gullið fæst. [12] Og gull lands þess er gott; þar fæst bedolak-
harpeis og sjóam-steinar. [13] Önnur stóráin heitir Gíkon; hún fellur um

---

**22:** kap. 8, 17; 9, 1. **26:** kap. 5, 1; 9, 6; 1 Kor. 11, 7. Kól. 3, 10. Jak. 3, 9. 1 Mós. 9, 2. Sálm. 8, 6—8. **27:** kap. 2, 18. 21—23; 5, 2. Matt. 19, 4. Mark. 10, 6. **28:** kap. 9, 1. 7. **29:** kap. 9, 3. **30:** Sálm. 147, 9. **31:** 1 Tím. 4, 4. — **2, 1:** 5 Mós. 4, 19. Sálm. 33, 6. **2:** 2 Mós. 20, 8—11; 31, 17; 5 Mós. 5, 12—14. Hebr. 4, 4. **7:** Préd. 12, 7. 1 Kor. 15, 47. 1 Mós. 7, 22. Job 33, 4; 27, 3; 1 Kor. 15, 45. **8:** Jes. 51, 3. Esek. 28, 13; 31, 8. Jóel 2, 3. **9:** kap. 3, 22. Opinb. 2, 7; 22, 2. 14.

alt Kúsland. 14 Þriðja stóráin heitir Kíddekel; hún fellur fyrir vestan
Assúr. Fjórða stóráin er Evfrat. 15 Þá tók Jahve Guð manninn og
setti hann í aldingarðinn Eden, til að yrkja hann og gæta hans. 16 Og
Jahve Guð bauð manninum og sagði: Af öllum trjám í aldingarðinum
máttu eta eftir vild; 17 en af skilnings-trénu góðs og ills — af því mátt
þú ekki eta; því að jafnskjótt og þú etur af því, skalt þú vissulega
deyja. 18 Og Jahve Guð sagði: Eigi er það gott, að maðurinn sé ein-
samall; eg vil gjöra honum meðhjálp við hans hæfi. 19 Þá myndaði
Jahve Guð af jörðunni öll dýr merkurinnar og alla fugla loftsins, og
lét þau koma fyrir manninn, til þess að sjá, hvað hann nefndi þau,
og hvert það heiti, sem maðurinn gæfi hinum lifandi skepnum, skyldi
vera nafn þeirra. 20 Og maðurinn gaf nafn öllum fénaðinum og fuglum
loftsins og öllum dýrum merkurinnar; en meðhjálp fyrir mann fann
hann enga við sitt hæfi. 21 Þá lét Jahve Guð fastan svefn falla á mann-
inn; og er hann var sofnaður, tók hann eitt af rifjum hans og fylti
aftur með holdi. 22 Og Jahve Guð myndaði konu af rifinu, er hann
hafði tekið úr manninum, og leiddi hana til mannsins. 23 Þá sagði
maðurinn: Þetta er loks bein af mínum beinum og hold af mínu holdi;
hún skal karlynja kallast, af því að hún er af karlmanni tekin. 24 Þess
vegna yfirgefur maður föður sinn og móður sína og býr við eiginkonu
sína, svo að þau verði eitt hold. 25 Og þau voru bæði nakin, maður-
inn og kona hans, og blygðuðust sín ekki.

3 En höggormurinn var slægari en öll önnur dýr merkurinnar, sem
Jahve Guð hafði gjört. Og hann mælti við konuna: Er það satt,
að Guð hafi sagt: »Þið megið ekki eta af neinu tré í aldingarðinum«?
2 Þá sagði konan við höggorminn: Af ávöxtum trjánna í aldingarðinum
megum við eta; 3 en af ávexti trésins, sem stendur í miðjum aldin-
garðinum — af honum, sagði Guð, megið þið ekki eta og ekki snerta
hann, ella munuð þið deyja. 4 Þá sagði höggormurinn við konuna:
Vissulega munuð þið ekki deyja! 5 En Guð veit, að jafnskjótt sem þið
etið af honum, munu augu ykkar upp ljúkast og þið munuð verða
eins og Guð og vita skyn góðs og ills. 6 En er konan sá, að tréð var
gott að eta af, fagurt á að líta og girnilegt til fróðleiks, þá tók hún af
ávexti þess og át, og hún gaf einnig manni sínum, sem með henni var,
og hann át. 7 Þá lukust upp augu þeirra beggja og þau urðu þess
vör, að þau voru nakin, og þau festu saman fíkjuviðarblöð og gjörðu
sér mittisskýlur. 8 En er þau heyrðu til Jahve Guðs, sem var á gangi
í aldingarðinum í kveldsvalanum, þá reyndi maðurinn og kona hans
að fela sig fyrir Jahve Guði millum trjánna í aldingarðinum. 9 En
Jahve Guð kallaði á manninn og sagði við hann: Hvar ertu? 10 Og
hann svaraði: Eg heyrði til þín í aldingarðinum og varð hræddur, af
því að eg er nakinn, og eg faldi mig. 11 En hann mælti: Hver hefir
sagt þér, að þú værir nakinn? Hefir þú etið að trénu, sem eg bannaði
þér að eta af? 12 Þá svaraði maðurinn: Konan, sem þú gafst mér til
sambúðar, hún gaf mér af trénu, og eg át. 13 Þá sagði Jahve Guð við
konuna: Hvað hefir þú gjört? Og konan svaraði: Höggormurinn tældi
mig, svo að eg át. 14 Þá sagði Jahve Guð við höggorminn: Af því að þú
gjörðir þetta, skalt þú vera bölvaður meðal alls fénaðarins og allra
dýra merkurinnar; á kviði þínum skalt þú skríða og mold eta alla þína
lífdaga. 15 Og fjandskap vil eg setja milli þín og konunnar, milli þíns

---

**17:** Róm. 6, 23. Jak. 1, 15. **18:** 1 Kor. 11, 9. 1 Tím. 2, 13. **21:** kap. 15, 12; 1 Sam. 26, 12. **23:** 1 Kor. 11, 8. **24:** Matt. 19, 5. Mark. 10, 7; 1 Kor. 6, 16. Ef. 5, 31. — **3, 1:** 2 Kor. 11, 3. Opinb. 12, 9; 20, 2. **3:** kap. 2, 17. **12:** kap. 2, 18. Job 31, 33. **14:** Jes. 65, 25. Mík. 7, 17. **15:** Róm. 16, 20.

sæðis og hennar sæðis; það skal merja höfuð þitt og þú skalt merja hæl þess.
16 En við konuna sagði hann: Mikla mun eg gjöra þjáningu þína, er
þú verður barnshafandi; með þraut skalt þú börn fæða, og þó hafa
löngun til manns þíns, en hann skal drotna yfir þér. 17 Og við mann-
inn sagði hann: Af því að þú hlýddir röddu konu þinnar og ázt af því
tré, sem eg bannaði þér, er eg sagði: Þú mátt ekki eta af því, — þá
sé jörðin bölvuð þín vegna; með erfiði skalt þú þig af henni næra alla
þína lífdaga; 18 þyrna og þistla skal hún bera þér, og þú skalt eta
jurtir merkurinnar. 19 Í sveita andlitis þíns skalt þú neyta brauðs þíns,
þangað til þú hverfur aftur til jarðarinnar, því að af henni ert þú tek-
inn; því að mold ert þú og til moldar skalt þú aftur hverfa! 20 Og
maðurinn nefndi konu sína Evu, því að hún varð móðir allra, sem lifa.
21 Og Jahve Guð gjörði manninum og konu hans skinnkyrtla og lét þau
klæðast þeim. 22 Og Jahve Guð sagði: Sjá, maðurinn er orðinn sem
einn af oss, þar sem hann veit skyn góðs og ills. Aðeins að hann
rétti nú ekki út hönd sína og taki einnig af lífsins tré og eti, og lifi
eilíflega! 23 Þá lét Jahve Guð hann í burt fara úr aldingarðinum Eden,
til að yrkja jörðina, sem hann var tekinn af. 24 Og hann rak mann-
inn burt og setti kerúbana fyrir austan Eden-garð og loga hins svip-
anda sverðs, til að geyma vegarins að lífsins tré.

### Kain og Abel. Ættleggur Kains.

4 Og maðurinn kendi konu sinnar Evu, og hún varð þunguð og
fæddi Kain og mælti: Sveinbarn hefi eg eignast með hjálp Jahve.
2 Og hún fæddi annað sinn, bróður hans, Abel. Og Abel varð hjarð-
maður, en Kain jarðyrkjumaður. 3 Og er fram liðu stundir, færði Kain
Jahve fórn af ávexti jarðarinnar. 4 En Abel færði einnig fórn af frum-
burðum hjarðar sinnar og af feiti þeirra. 5 Og Jahve leit með velþóknun til
Abels og fórnar hans, en til Kains og fórnar hans leit hann ekki með vel-
þóknun. Þá reiddist Kain ákaflega og varð niðurlútur. 6 Þá mælti Jahve til
Kains: Hví reiðist þú og hví ert þú niðurlútur? 7 Er því ekki þannig farið:
ef þú gjörir rétt, þá getur þú verið upplitsdjarfur; en ef þú gjörir ekki
rétt, þá liggur syndin við dyrnar og hefir hug á þér, en þú átt að
drotna yfir henni? 8 Þá sagði Kain við Abel bróður sinn: Göngum út
á akurinn! Og er þeir voru á akrinum, réð Kain á Abel bróður sinn
og drap hann. 9 Þá sagði Jahve við Kain: Hvar er Abel bróðir þinn?
En hann mælti: Það veit eg ekki; á eg að gæta bróður míns? 10 Og
hann sagði: Hvað hefir þú gjört? Heyr, blóð bróður þíns hrópar til
mín af jörðunni! 11 Og skalt þú nú vera bölvaður og burt rekinn af
akurlendinu, sem opnaði munn sinn til að taka á móti blóði bróður
þíns af þinni hendi. 12 Þegar þú yrkir akurlendið, skal það eigi framar
gefa þjer gróður sinn; landflótta og flakkandi skalt þú vera á jörðunni.
13 Og Kain sagði við Jahve: Sekt mín er meiri en svo, að eg fái borið
hana! 14 Sjá, nú rekur þú mig burt af akurlendinu, og eg verð að
felast fyrir augliti þínu og vera landflótta og flakkandi á jörðunni; og
hver, sem hittir mig, mun drepa mig. 15 Þá sagði Jahve við hann:
Fyrir því skal hver, sem drepur Kain, sæta sjöfaldri hegningu. Og
Jahve setti Kain merki þess, að enginn, sem hitti hann, skyldi drepa

---

**16:** 1 Kor. 11, 3; 14, 34. Ef. 5, 22—24. Kól. 3, 18. 1 Tím. 2, 11. 12. Tit. 2, 5; 1 Pét. 3, 1. 5. 6. **17:** Préd. 2, 22. 23. **19:** kap. 2, 7. Job 34, 15. Sálm. 104, 29. Préd. 3, 20; 12, 7. **22:** v. 5; kap. 2, 9. **24:** Sálm. 18, 10. 2 Mós. 25, 18—22. Esek. 28, 16. — **4, 4:** Hebr. 11, 4. **5:** Orðskv. 21, 27. **8:** Matt. 23, 35. Hebr. 12, 24; 1 Jóh. 3, 12. Júd. 11. **10:** Hebr. 12, 24. **14:** Job 15, 20—24. **15:** Esek. 9, 4. 6.

hann. 16 Þá gekk Kain burt frá augliti Jahve og settist að í landinu
Nód fyrir austan Eden.
17 Og Kain kendi konu sinnar, og hún varð þunguð og fæddi
Henok; en hann var að byggja borg, og nefndi borgina eftir nafni sonar
síns Henok. 18 Og Henoki fæddist Írad, og Írad gat Mehújael, og Me-
hújael gat Metúsael, og Metúsael gat Lamek. 19 Og Lamek tók sér tvær
konur; hét önnur Ada, en hin Silla. 20 Og Ada ól Jabal; hann varð
ættfaðir þeirra, sem í tjöldum búa og fénað eiga. 21 En bróðir hans
hét Júbal; hann varð ættfaðir allra þeirra, sem leika á gígjur og hjarð-
pípur. 22 Og Silla ól einnig son, Túbal-Kain, sem smíðaði úr kopar
og járni alls konar tól; og systir Túbal-Kains var Naama. 23 Og
Lamek sagði við konur sínar:

Ada og Silla, heyrið orð mín,
  konur Lameks, gefið gaum ræðu minni!
Mann drep eg fyrir hvert mitt sár
  og ungmenni fyrir hverja þá skeinu, sem eg fæ.
24 Verði Kains hefnt sjö sinnum,
  þá skal Lameks hefnt verða sjö og sjötíu sinnum!

25 Og Adam kendi enn af nýju konu sinnar, og hún ól son og
kallaði hann Set; því að nú hefir Guð, kvað hún, gefið mér annað
afkvæmi í stað Abels, þar eð Kain drap hann. 26 En Set fæddist og
sonur og nefndi hann nafn hans Enos. Þá hófu menn að ákalla
nafn Jahve.

## Ættir frá Adam til Nóa.

5 Þetta er ættarskrá Adams. Þegar Guð skapaði Adam, gjörði
Guð hann sér líkan. 2 Hann skóp þau mann og konu, og blessaði
þau og nefndi þau »menn«, er þau voru sköpuð. 3 Og Adam lifði
hundrað og þrjátíu ár; þá gat hann son í líking sinni, eftir sinni mynd,
og nefndi hann Set. 4 Og dagar Adams, eftir að hann gat Set, voru
átta hundruð ár, og hann gat sonu og dætur. 5 Og allir dagar Adams,
sem hann lifði, voru níu hundruð og þrjátíu ár. Þá dó hann. 6 Þegar
Set var orðinn hundrað og fimm ára gamall, gat hann Enos. 7 Eftir
að Set gat Enos, lifði hann átta hundruð og sjö ár, og gat sonu og
dætur. 8 Og allir dagar Sets voru níu hundruð og tólf ár; þá andaðist
hann. 9 Og Enos var níutíu ára, er hann gat Kenan. 10 Og eftir að
Enos gat Kenan, lifði hann átta hundruð og fimtán ár, og gat sonu og
dætur. 11 Og allir dagar Enoss voru níu hundruð og fimm ár; þá
andaðist hann. 12 Þá er Kenan var sjötíu ára, gat hann Mahalalel.
13 Og Kenan lifði, eftir að hann gat Mahalalel, átta hundruð og
fjörutíu ár, og gat sonu og dætur. 14 Og allir dagar Kenans urðu níu
hundruð og tíu ár; þá andaðist hann. 15 En er Mahalalel var sextíu
og fimm ára, gat hann Jared. 16 Og Mahalalel lifði, eftir að hann gat
Jared, átta hundruð og þrjátíu ár, og gat sonu og dætur. 17 Og allir
dagar Mahalalels voru átta hundruð níutíu og fimm ár; þá andaðist
hann. 18 Og er Jared var hundrað sextíu og tveggja ára, gat hann
Enok. 19 Og Jared lifði, eftir að hann gat Enok, átta hundruð ár, og
gat sonu og dætur. 20 Og allir dagar Jareds voru níu hundruð sextíu
og tvö ár; þá andaðist hann. 21 Og er Enok var sextíu og fimm ára,
gat hann Metúsala. 22 Og eftir að Enok gat Metúsala, gekk hann með
Guði þrjú hundruð ár, og gat sonu og dætur. 23 Og allir dagar Enoks
voru þrjú hundruð sextíu og fimm ár. 24 Og Enok gekk með Guði og

---

**24:** v. 15. — **5, 1:** 1 Kron. 1, 1 n. **18:** Júd. 14. **24:** Hebr. 11, 5. 2 Kong. 2, 11.

hvarf, af því að Guð nam hann burt. 25 Og er Metúsala var hundrað
áttatíu og sjö ára, gat hann Lamek. 26 Og Metúsala lifði, eftir að hann
gat Lamek, sjö hundruð áttatíu og tvö ár, og gat sonu og dætur. 27 Og
allir dagar Metúsala voru níu hundruð sextíu og níu ár; þá andaðist
hann. 28 Og er Lamek var hundrað áttatíu og tveggja ára, gat hann
son, 29 og hann nefndi hann Nóa og mælti: Þessi mun hugga oss í
erfiði voru og striti handa vorra, er jörðin, sem Jahve bölvaði, bakar
oss. 30 Og Lamek lifði, eftir að hann gat Nóa, fimm hundruð níutíu
og fimm ár, og gat sonu og dætur. 31 Og allir dagar Lameks voru sjö
hundruð sjötíu og sjö ár; þá andaðist hann. 32 Og er Nói var fimm
hundruð ára, gat hann Sem, Kam og Jafet.

**Synir Guðs kvongast dætrum mannanna. Guð boðar flóð og skipar að byggja örkina.**

6 En er mennirnir tóku að fjölga á jörðunni og þeim fæddust
dætur, 2 sáu synir Guðs, að dætur mannanna voru fríðar, og tóku
sér konur meðal þeirra, allar sem þeim geðjuðust. 3 Þá sagði Jahve:
Andi minn skal ekki æfinlega búa* í manninum, með því að hann
einnig er hold; veri dagar hans nú hundrað og tuttugu ár. 4 Á þeim
tímum voru risarnir á jörðunni, og einnig síðar, er synir Guðs höfðu
samfarir við dætur mannanna og þær fæddu þeim sonu; það eru
kapparnir, sem í fyrndinni voru víðfrægir.
5 Og er Jahve sá, að ilska mannsins var mikil á jörðunni og
að allar hugrenningar hjarta hans voru ekki annað en ilska alla daga,
6 þá iðraðist Jahve þess, að hann hafði skapað mennina á jörðunni, og
honum sárnaði það í hjarta sínu. 7 Og Jahve sagði: Eg vil afmá af
jörðunni mennina, sem eg skapaði: bæði mennina, fénaðinn, skriðkvik-
indin og fugla loftsins; því að mig iðrar, að eg hefi skapað þau. 8 En
Nói fann náð í augum Jahve.
9 Þetta er saga Nóa: Nói var maður réttlátur og vandaður á sinni
öld; Nói gekk með Guði. 10 Og Nói gat þrjá sonu: Sem, Kam og Jafet.
11 Og jörðin var spilt í augsýn Guðs og jörðin fyltist glæpaverkum.
12 Og Guð leit á jörðina, og sjá, hún var spilt orðin; því að alt holt
hafði spilt vegum sínum á jörðunni. 13 Þá mælti Guð við Nóa: Endir
alls holds er kominn fyrir minni augsýn, því að jörðin er full af glæpa-
verkum þeirra; sjá, eg vil afmá þá af jörðunni. 14 Gjör þú þér örk
af góferviði; smáhýsi skalt þú gjöra í örkinni og bræða hana biki utan
og innan. 15 Og gjör hana svo: lengd arkarinnar sé þrjú hundruð álnir,
breidd hennar fimtíu álnir og hæð hennar þrjátíu álnir. 16 Glugga skalt
þú gjöra á örkinni og búa hann til á henni ofanverðri, alt að alin á
hæð; og dyr arkarinnar skalt þú setja á hlið hennar, og búa til þrjú
loft í henni: neðst, í miðju og efst. 17 Því sjá, eg læt vatnsflóð koma
yfir jörðina, til að tortíma öllu holdi undir himninum, sem lífsandi er í;
alt, sem á jörðunni er, skal deyja. 18 En við þig mun eg gjöra sátt-
mála minn, og þú skalt ganga í örkina, þú og synir þínir, og kona
þín og sonakonur þínar með þér. 19 Af öllum lifandi skepnum, af öllu
holdi, skalt þú láta inn í örkina tvent af hverju, svo að það haldi lífi
með þér; karldýr og kvendýr skulu þau vera: 20 af fuglunum eftir
þeirra tegund, af fénaðinum eftir hans tegund og af öllum skriðkvik-
indum jarðarinnar eftir þeirra tegund; tvent af öllu skal til þín inn

---

**29:** kap. 3, 17. — **6, 3:** * Eða: auvirðast. Sálm. 78, 39. **5:** kap. 8, 21. Job 14, 4; 15, 14. Sálm. 51, 5. Matt. 15, 19. Róm. 3, 23. **9:** Esek. 14, 14. 20. 2 Pét. 2, 5. 1 Mós. 5, 22. 24.

ganga, til þess að það haldi lífi. [21] En tak þú þér af allri fæðu, sem
etin er, og safna að þér, að það sé þér og þeim til viðurværis. [22] Og
Nói gjörði svo; alt gjörði hann eins og Guð bauð honum.

## Flóðið.

7 Og Jahve sagði við Nóa: Gakk þú og alt fólk þitt í örkina, því
að þig hefi eg séð réttlátan fyrir augliti mínu í þessari kynslóð.
[2] Tak þú til þín af öllum hreinum dýrum sjö og sjö, karldýr og kven-
dýr; en af þeim dýrum, sem ekki eru hrein, tvö og tvö, karldýr og
kvendýr; [3] einnig af fuglum loftsins sjö og sjö, karlkyns og kvenkyns,
til að viðhalda lífsstofni á allri jörðunni. [4] Því að sjö dögum liðn-
um mun eg láta rigna á jörðina fjörutíu daga og fjörutíu nætur, og eg
mun afmá af jörðunni sérhverja skepnu, sem eg hefi gjört. [5] Og Nói
gjörði alt eins og Jahve bauð honum. [6] En Nói var sex hundruð ára
gamall, þegar vatnsflóðið kom yfir jörðina. [7] Og Nói gekk í örkina
og synir hans og kona hans og sonakonur hans með honum, undan
vatnsflóðinu. [8] Af hreinum dýrum og af þeim dýrum, sem ekki voru
hrein, og af fuglum og af öllu, sem skríður á jörðunni, [9] kom tvent og
tvent til Nóa í örkina, karlkyns og kvenkyns, eins og Guð hafði boðið
Nóa. [10] Og eftir sjö daga kom vatnsflóðið yfir jörðina. [11] Á sexhundr-
aðasta aldursári Nóa, í öðrum mánuðinum, á seytjánda degi mánaðar-
ins, á þeim degi opnuðust allar uppsprettur hins mikla undirdjúps og
flóðgáttir himinsins lukust upp. [12] Og steypiregn dundi yfir jörðina
fjörutíu daga og fjörutíu nætur. [13] Einmitt á þeim degi gekk Nói og
Sem, Kam og Jafet, synir Nóa, og kona Nóa og þrjár sonakonur hans
með þeim í örkina, — [14] þau og öll villidýrin eftir sinni tegund og
allur fénaðurinn eftir sinni tegund og öll skriðkvikindin, sem skríða á
jörðunni, eftir sinni tegund, og allir fuglarnir eftir sinni tegund, allir
smáfuglar, alt fleygt. [15] Og þau komu til Nóa í örkina tvö og tvö af
öllu holdi, sem lífsandi var í. [16] Og þau, sem komu, gengu inn karl-
kyns og kvenkyns af öllu holdi, eins og Guð hafði boðið honum. Og
Jahve læsti eftir honum. [17] Og flóðið var á jörðunni fjörutíu daga, og
vatnið óx og lyfti örkinni, og hún hófst yfir jörðina. [18] Og vötnin
mögnuðust og uxu stórum á jörðunni, en örkin flaut ofan á vatninu.
[19] Og vötnin mögnuðust ákaflega á jörðunni, svo að öll hin háu fjöll,
sem eru undir öllum himninum, fóru í kaf. [20] Fimtán álna hátt óx
vatnið, svo að fjöllin fóru í kaf. [21] Þá dó alt hold, sem hreyfðist á
jörðunni, bæði fuglar, fénaður, villidýr og allir ormar, sem skriðu á
jörðunni, og allir menn.
[22] Alt, sem hafði lífsanda í nösum sínum, alt, sem var á þurlend-
inu, það dó. [23] Og þannig afmáði hann sérhverja skepnu, sem var á
jörðunni, bæði menn og fénað, skriðkvikindi og fugla loftsins. Það
var afmáð af jörðunni. En Nói einn varð eftir og það, sem með
honum var í örkinni. [24] Og vötnin mögnuðust á jörðunni hundrað og
fimtíu daga.

## Flóðinu linnir.

8 Þá mintist Guð Nóa og allra dýranna og alls fénaðarins, sem
með honum var í örkinni, og Guð lét vind blása yfir jörðina, svo
að vatnið sjatnaði. [2] Og uppsprettur undirdjúpsins luktust aftur og

---

**22:** Hebr. 11, 7. — **7, 1:** 2 Pét. 2, 5. Hebr. 11, 7. **5:** kap. 6, 22. **7:** Matt. 24,
37 n. Lúk. 17, 27. 1 Pét. 3, 20. **16:** kap. 6, 20. **21:** Matt. 24, 38 n. 1 Pét. 3, 20.
2 Pét. 3, 6. **23:** 2 Pét. 2, 9. — **8, 1:** kap. 30, 22. 1 Sam. 1, 19. **2:** kap. 7, 11.

flóðgáttir himinsins, og steypiregninu úr loftinu linti. 3 Og vatnið rénaði
meir og meir á jörðunni og þvarr eftir hundrað og fimtíu daga. 4 Og
örkin nam staðar í sjöunda mánuðinum, á seytjánda degi mánaðarins,
á Araratsfjöllunum. 5 Og vatnið var að réna alt til hins tíunda mán-
aðar; í tíunda mánuðinum, á fyrsta degi mánaðarins, sáust fjallatind-
arnir. 6 En eftir fjörutíu daga lauk Nói upp glugga arkarinnar, sem
hann hafði gjört, 7 og lét út hrafn; hann flaug fram og aftur, þangað
til vatnið þornaði á jörðunni. 8 Þá sendi hann út frá sér dúfu, til að
vita, hvort vatnið væri þorrið á jörðunni. 9 En dúfan fann ekki hvíldar-
stað fæti sínum og hvarf til hans aftur í örkina, því að vatn var enn
yfir allri jörðunni; og hann rétti út hönd sína og tók hana og fór með
hana inn til sín í örkina. 10 Og hann beið enn aðra sjö daga og sendi
svo dúfuna aftur úr örkinni. 11 Þá kom dúfan til hans aftur undir
kveld, og var þá með grænt olíuviðarblað í nefinu. Þá sá Nói, að
vatnið var þorrið á jörðunni. 12 Og enn beið hann aðra sjö daga og
lét þá dúfuna út; en hún hvarf ekki framar til hans aftur. 13 Og á
sexhundraðasta og fyrsta ári, í fyrsta mánuðinum, á fyrsta degi mán-
aðarins, var vatnið þornað á jörðunni; og Nói tók þakið af örkinni
og litaðist um, og var þá yfirborð jarðarinnar orðið þurt. 14 Í öðrum
mánuðinum, á tuttugasta og sjöunda degi mánaðarins, var jörðin þur.
15 Þá talaði Guð við Nóa og mælti: 16 Gakk þú úr örkinni, þú og kona
þín og synir þínir og sonakonur þínar með þér. 17 Og láttu fara út
með þér öll dýr, sem með þér eru, af öllu holdi, bæði fuglana og fén-
aðinn og öll skriðkvikindin, sem skríða á jörðunni; verði krökt af þeim
á jörðunni, verði þau frjósöm og fjölgi á jörðunni. 18 Þá gekk Nói út
og synir hans og kona hans og sonakonur hans með honum. 19 Öll
dýr, öll skriðkvikindi, allir fuglar, alt, sem bærist á jörðunni, hvað eftir
sinni tegund, gekk út úr örkinni. 20 Nói reisti þá Jahve altari og tók
af öllum hreinum dýrum og hreinum fuglum, og fórnaði brennifórn á
altarinu. 21 Og Jahve kendi þægilegan ilm, og Jahve sagði við sjálfan
sig: Eg vil upp frá þessu ekki bölva jörðunni framar vegna mannsins,
því að hugrenningar mannshjartans eru illar frá bernsku hans, og eg
mun upp frá þessu ekki framar deyða alt, sem lifir, eins og eg hefi
gjört. 22 Meðan jörðin stendur, skal ekki linna sáning og uppskera,
frost og hiti, sumar og vetur, dagur og nótt.

### Sáttmáli Guðs við Nóa. Nói bölvar Kanaan.

9 Þá blessaði Guð Nóa og sonu hans og sagði við þá: Verið frjó-
samir, margfaldist og uppfyllið jörðina. 2 Ótti við yður og skelfing
skal vera yfir öllum dýrum jarðarinnar, yfir öllum fuglum loftsins, yfir
öllu, sem hrærist á jörðunni, og yfir öllum fiskum sjávarins; á yðvart
vald er þetta gefið. 3 Alt, sem hrærist og lifir, skal vera yður til fæðu;
eg gef yður það alt, eins og grænu jurtirnar. 4 Aðeins hold, sem sálin,
það er blóðið, er í, skuluð þér ekki eta. 5 En yðar eigin blóðs mun eg
hins vegar krefjast*; af hverri skepnu mun eg þess krefjast, og af
manninum, af bróður hans, mun eg krefjast lífs mannsins. 6 Hver, sem
út hellir mannsblóði, hans blóði skal af manni út helt verða; því að
eftir Guðs mynd gjörði hann manninn. 7 En ávaxtist þér og margfaldist
og fjölgið stórum á jörðunni og margfaldist á henni. 8 Og Guð mælti

---

**4:** Jes. 37, 38. Jer. 51, 27. **17:** kap. 7, 22. 23; 9, 1. 7; 35, 11. **18:** 1 Pét. 3, 20. 2 Pét. 2, 5. **21:** kap. 6, 5n. Matt. 15, 19. Róm. 3, 23. 1 Mós. 9, 11. Jes. 54, 9. — **9, 1:** kap. 1, 22. 28; 8, 17; 35, 11. **2:** kap. 1, 28. **3:** kap. 1, 29. Róm. 14, 2. **4:** 3 Mós. 3, 17 (sbr. 17, 11). 5 Mós. 12, 16. Post. 15, 20. 29. **5:** * þ. e. hefna. **6:** 2 Mós. 21, 12. Matt. 26, 52. 1 Mós. 5, 1. Jak. 3, 9. **7:** kap. 1, 22. 28; 8, 17.

þannig við Nóa og sonu hans, sem voru með honum: [9] Sjá, eg gjöri
minn sáttmála við yður og við niðja yðar eftir yður [10] og við allar
lifandi skepnur, sem með yður eru, bæði við fuglana og fénaðinn og
öll villidýrin, sem hjá yður eru, alt, sem út gekk úr örkinni, það er:
öll dýr jarðarinnar. [11] Minn sáttmála vil eg gjöra við yður: Aldrei
framar skal alt hold tortímast af vatnsflóði, og aldrei framar mun flóð
koma til að eyða jörðina. [12] Og Guð sagði: Þetta er merki sáttmál-
ans, sem eg gjöri milli mín og yðar og allra lifandi skepna, sem hjá
yður eru, um allar ókomnar aldir: [13] Boga minn set eg í skýin, að
hann sé merki sáttmálans milli mín og jarðarinnar. [14] Og þegar eg
dreg ský saman yfir jörðunni og boginn sést í skýjunum, [15] þá mun
eg minnast sáttmála míns, sem er milli mín og yðar og allra lifandi
sálna í öllu holdi, og aldrei framar skal vatnið verða að flóði, til að
tortíma öllu holdi. [16] Og boginn skal standa í skýjunum og eg mun
horfa á hann, til þess að minnast hins eilífa sáttmála milli Guðs og
allra lifandi sálna í öllu holdi, sem er á jörðunni. [17] Og Guð sagði
við Nóa: Þetta er teikn sáttmálans, sem eg hefi gjört milli mín og alls
holds, sem er á jörðunni. [18] Og synir Nóa, sem gengu úr örkinni,
voru þeir Sem, Kam og Jafet, en Kam var faðir Kanaans. [19] Þessir
eru synir Nóa þrír, og frá þeim bygðist öll jörðin. [20] En Nói gjörðist
akuryrkjumaður og plantaði víngarð. [21] Og hann drakk af víninu og
varð drukkinn og lá nakinn í tjaldi sínu. [22] Og Kam, faðir Kanaans,
sá nekt föður síns og sagði báðum bræðrum sínum frá, sem úti voru.
[23] Þá tóku þeir Sem og Jafet skikkjuna og lögðu á herðar sér og gengu
aftur á bak og huldu nekt föður síns, en andlit þeirra sneru undan,
svo að þeir sáu ekki nekt föður síns. [24] En er Nói vaknaði af vím-
unni, varð hann þess áskynja, hvað sonur hans hinn yngri hafði gjört
honum. [25] Þá mælti hann:

Bölvaður sé Kanaan;
  auvirðilegur þræll sé hann bræðra sinna.

[26] Og hann sagði:

Lofaður sé Jahve, Sems Guð;
  en Kanaan sé þræll þeirra.
[27] Guð gefi Jafet mikið landrými,
  og hann búi í tjaldbúðum Sems;
  en Kanaan sé þræll þeirra.

[28] Og Nói lifði eftir flóðið þrjú hundruð og fimtíu ár; [29] og allir dagar
Nóa voru níu hundruð og fimtíu ár. Þá andaðist hann.

## Þjóðatalið.

10 Þetta er ættartala Nóa sona: Sems, Kams og Jafets; og þeim
fæddust synir eftir flóðið. [2] Synir Jafets eru: Gómer, Magog,
Madaí, Javan, Túbal, Mesek og Tíras. [3] Og synir Gómers: Askenas,
Rífat og Tógarma. [4] Og synir Javans: Elísa, Tarsis, Kittar og
Ródanítar. [5] Út frá þeim kvísluðust þeir, sem byggja eylönd heiðing-
janna. Þetta eru synir Jafets eftir löndum þeirra, hver eftir sinni
tungu, eftir kynþáttum þeirra og samkvæmt þjóðerni þeirra. [6] Og synir
Kams: Kúsk, Mísraím, Pút og Kanaan. [7] Og synir Kúsks: Seba,
Havíla, Sabta, Raema og Sabteka. Og synir Raema: Séba og Dedan.
[8] Og Kúsk gat Nimrod; hann tók að gjörast voldugur á jörðunni.
[9] Hann var mikill veiðimaður fyrir Jahve. Því er máltækið: mikill

---

**11:** kap. 8, 21. Jes. 54, 9. **15:** Jes. 54, 9. — **10, 1:** kap. 5, 32; 6, 10. **2:** 1 Kron. 1, 5. **8:** 1 Kron. 1, 10.

veiðimaður fyrir Jahve, eins og Nimrod. 10 Og upphaf ríkis hans var
Babel, Erek, Akkad og Kalne í Sínear-landi. 11 Frá þessu landi hélt
hann til Assúr og bygði Níníve, Rehóbót-Ír og Kala, 12 og Resen milli
Níníve og Kala, — það er borgin mikla. 13 Og Mísraím gat Lúdíta,
Anamíta, Lekabíta, Naftúkíta, 14 Patrúsíta, Kaslúkíta (þaðan eru komnir
Filistar) og Kaftóríta. 15 Og Kanaan gat Zídon, frumgetning sinn, og
Het, 16 og Jebúsíta, Amóríta, Gírgasíta, 17 Hívíta, Arkíta, Síníta, 18 Arvad-
íta, Zemaríta og Hamatíta; og síðan breiddust út kynkvíslir Kanaanít-
anna. 19 Landamerki Kanaanítanna eru: frá Zídon um Gerar alt til
Gasa, þá er stefnan til Sódómu og Gómorru og Adma og Zebóím, alt
til Lasa. 20 Þetta eru synir Kams eftir kynþáttum þeirra, eftir tungum
þeirra, samkvæmt löndum þeirra og þjóðerni. 21 En Sem, ættfaðir allra
Ebers sona, eldri bróðir Jafets, eignaðist og sonu. 22 Synir Sems eru:
Elam, Assúr, Arpaksad, Lúd og Aram. 23 Og synir Arams: Ús, Húl,
Geter og Mas. 24 Og Arpaksad gat Sela og Sela gat Eber. 25 Og
Eber fæddust tveir synir: hét annar Peleg, því að á hans dögum
greindist fólkið á jörðunni, en bróðir hans hét Joktan. 26 Og Joktan
gat Almódad, Salef, Hasarmavet, Jara, 27 Hadóram, Úsal, Dikla, 28 Óbal,
Abímael, Seba, 29 Ófír, Havíla og Jóbab. Þessir allir eru synir Joktans.
30 Og bústaður þeirra var frá Mesa til Sefar, til austurfjallanna. 31 Þetta
eru synir Sems, eftir ættkvíslum þeirra, eftir tungum þeirra, samkvæmt
löndum þeirra, eftir þjóðerni þeirra. 32 Þetta eru ættkvíslir Nóa sona
eftir ættartölum þeirra, samkvæmt þjóðerni þeirra; og frá þeim kvísl-
uðust þjóðirnar út um jörðina eftir flóðið.

## Babel-turninn. Ættartal Sems að Abram.

11 En öll jörðin hafði eitt tungumál og ein og sömu orð. 2 Og
svo bar við, er þeir fóru stað úr stað í austurlöndum, að þeir
fundu láglendi í Sínear-landi og settust þar að. 3 Og þeir sögðu hver
við annan: Gott og vel, vér skulum hnoða tigulsteina og herða í eldi.
Og þeir notuðu tigulsteina í stað grjóts og jarðbik í stað kalks. 4 Og
þeir sögðu: Gott og vel, vér skulum byggja oss borg og turn, sem nái
til himins, og gjörum oss minnismerki, svo að vér tvístrumst ekki um
alla jörðina. 5 Þá steig Jahve niður, til þess að sjá borgina og turninn,
sem mannanna synir voru að byggja. 6 Og Jahve mælti: Sjá, þeir
eru ein þjóð og hafa allir sama tungumál og þetta er hið fyrsta fyrir-
tæki þeirra; og nú mun þeim ekkert ófært verða, sem þeir taka sér
fyrir hendur að gjöra. 7 Gott og vel, stígum niður og ruglum þar
tungumál þeirra, svo að enginn skilji framar annars mál. 8 Og Jahve
tvístraði þeim þaðan út um alla jörðina, svo að þeir urðu af að láta
að byggja borgina. 9 Þess vegna heitir hún Babel, því að þar ruglaði
Jahve tungumál allrar jarðarinnar, og þaðan tvístraði hann þeim um
alla jörðina.
10 Þetta er ættartal Sems. Sem var hundrað ára gamall, er hann
gat Arpaksad, tveim árum eftir flóðið. 11 Og Sem lifði, eftir að hann
gat Arpaksad, fimm hundruð ár og gat sonu og dætur. 12 Og er Ar-
paksad var þrjátíu og fimm ára, gat hann Sela. 13 Og Arpaksad lifði,
eftir að hann gat Sela, fjögur hundruð og þrjú ár og gat sonu og
dætur. 14 Og er Sela var þrjátíu ára, gat hann Eber. 15 Og Sela
lifði, eftir að hann gat Eber, fjögur hundruð og þrjú ár og gat sonu

---

**10:** Am. 6, 2. **12:** Jón. 1, 2; 3, 3. **13:** 1 Kron. 1, 11. **22:** 1 Kron. 1, 17. **24:** kap. 11, 12. 1 Kron. 1, 18. **25:** kap. 11, 16. 8. **32:** Post. 17, 26. — **11, 4:** 5 Mós. 1, 28; 9, 1. **8:** kap. 10, 25. Lúk. 1, 51. **10:** 1 Kron. 1, 17. Lúk. 3, 36. **12:** kap. 10, 24. 1 Kron. 1, 18.

og dætur. 16 Og er Eber var þrjátíu og fjögurra ára, gat hann Peleg.
17 Og Eber lifði, eftir að hann gat Peleg, fjögur hundruð og þrjátíu ár
og gat sonu og dætur. 18 Og er Peleg var þrjátíu ára, gat hann Reú.
19 Og Peleg lifði, eftir að hann gat Reú, tvö hundruð og níu ár og
gat sonu og dætur. 20 Og er Reú var þrjátíu og tveggja ára, gat hann
Serúg. 21 Og Reú lifði, eftir að hann gat Serúg, tvö hundruð og sjö
ár og gat sonu og dætur. 22 Og er Serúg var þrjátíu ára, gat hann
Nahor. 23 Og Serúg lifði, eftir að hann gat Nahor, tvö hundruð ár og
gat sonu og dætur. 24 Og er Nahor var tuttugu og níu ára, gat hann
Tara. 25 Og Nahor lifði, eftir að hann gat Tara, hundrað og nítján
ár og gat sonu og dætur. 26 Og er Tara var sjötíu ára, gat hann
Abram, Nahor og Haran. 27 Og þetta er saga Tara: Tara gat Abram,
Nahor og Haran, en Haran gat Lot. 28 Og Haran dó á undan Tara
föður sínum í ættlandi sínu, í Úr í Kaldeu. 29 Og Abram og Nahor
tóku sér konur; kona Abrams hét Saraí, en kona Nahors Milka, dóttir
Harans, föður Milku og föður Ísku. 30 En Saraí var óbyrja; hún átti
eigi börn. 31 Þá tók Tara Abram son sinn og Lot Haransson, sonar-
son sinn, og Saraí tengdadóttur sína, konu Abrams sonar síns, og
lagði af stað með þau frá Úr í Kaldeu áleiðis til Kanaanlands; og þau
komu til Haran og settust þar að. 32 Og dagar Tara voru tvö hundruð
og fimm ár. Þá andaðist Tara í Haran.

### Abram og Lot koma til Kanaanlands og Egiptalands.

12 Og Jahve sagði við Abram: Far þú burt úr landi þínu og frá
ættfólki þínu og úr húsi föður þíns, til landsins, sem eg mun
vísa þér á. 2 Og eg mun gjöra þig að mikilli þjóð og blessa þig og
gjöra nafn þitt mikið, og blessun skalt þú vera. 3 Og eg mun blessa
þá, sem þig blessa, en bölva þeim, sem þér formælir, og af þér skulu
allar ættkvíslir jarðarinnar blessun hljóta.* 4 Þá lagði Abram af stað,
eins og Jahve hafði sagt honum, og Lot fór með honum. En Abram
var sjötíu og fimm ára að aldri, er hann fór úr Haran. 5 Og Abram
tók Saraí konu sína og Lot bróðurson sinn og alla fjárhluti, sem þeir
höfðu eignast, og þær sálir, er þeir höfðu fengið í Haran. Og þeir
lögðu af stað og héldu til Kanaanlands, og þeir komu til Kanaanlands.
6 Og Abram fór um landið, alt þangað er Síkem heitir, alt til Móre-
lundar; en þá voru Kanaanítar í landinu. 7 Þá birtist Jahve Abram og
sagði við hann: Niðjum þínum vil eg gefa þetta land. Og hann reisti
þar altari Jahve, sem hafði birzt honum. 8 Þaðan hélt hann til fjall-
anna fyrir austan Betel og setti þar tjöld sín, svo að Betel var í vestur,
en Ai í austur; og hann reisti þar Jahve altari og ákallaði nafn Jahve.
9 Og Abram færði sig smátt og smátt suður eftir. 10 En hallæri varð í
landinu; þá fór Abram til Egiptalands, til að dveljast þar um hríð, því
að hallærið var mikið í landinu. 11 Og er hann var kominn langt á
leið til Egiptalands, sagði hann við Saraí konu sína: Sjá, eg veit að
þú ert kona fríð sýnum; 12 það mun því fara svo, að þegar Egiptar
sjá þig, þá munu þeir segja: Þetta er kona hans, og drepa mig, en

---

**16:** kap. 10, 25. **26:** Jós. 24, 2, **27:** 1 Kron. 1, 26. 27. Lúk. 3, 34. **29:** kap. 22, 20. **31:** kap. 15, 7. Jós. 24, 3. Nehem. 9, 7. Hebr. 11, 8. — **12, 1:** Jós. 24, 3. Nehem. 9, 7. Jes. 51, 2. Post. 7, 3. Hebr. 11, 8. Matt. 19, 29. Lúk. 14, 26. **2:** kap. 28, 4. **3:** kap. 27, 29. 4 Mós. 24, 9. 1 Mós. 18, 18; 22, 18; 26, 4; 28, 14. Post. 3, 25. Gal. 3, 8. 16. * Önnur þýðing: með þínu nafni munu allar ættkvíslir jarðarinnar óska sér blessunar. **7:** kap. 13, 15; 15, 18; 17, 8; 24, 7; 26, 3n. 5 Mós. 34, 4. Jós. 21, 43. Nehem. 9, 8. Post. 7, 5. **8:** kap. 28, 19; 33, 20; 4, 26. **9:** kap. 20, 1. **10:** kap. 26, 1; 41, 57. **11:** kap. 26, 7.

þig munu þeir láta lífi halda. 13 Segðu fyrir hvern mun að þú sért
systir mín, svo að mér megi líða vel fyrir þínar sakir og eg megi
lífi halda þín vegna. 14 Og er Abram kom til Egiptalands, sáu Egiptar,
að konan var mjög fríð. 15 Og höfðingjar Faraós sáu hana og létu
mikið af henni við Faraó; og konan var tekin í hús Faraós. 16 Og
hann gjörði vel við Abram hennar vegna, og hann eignaðist sauði,
naut og asna, þræla og ambáttir, ösnur og úlfalda. 17 En Jahve þjáði
Faraó og hús hans með miklum plágum vegna Saraí, konu Abrams.
18 Þá kallaði Faraó Abram til sín og mælti: Hví hefir þú gjört mér
þetta? hví sagðir þú mér ekki, að hún væri kona þín? 19 Hví sagðir
þú: »Hún er systir mín«, svo að ég tók hana mér fyrir konu? En
þarna er nú konan þín, tak þú hana og far burt. 20 Og Faraó skipaði
svo fyrir um Abram, að menn sínir skyldu fylgja honum á braut og
konu hans með öllu, sem hann átti.

## Abram og Lot skilja.

13 Og Abram fór frá Egiptalandi með konu sína og alt, sem hann
átti, og Lot með honum, til suðurlandsins.* 2 Og Abram var stór-
auðugur að kvikfé, silfri og gulli. 3 Og hann flutti sig smátt og smátt
sunnan að alt til Betel, til þess staðar, er tjald hans hafði áður verið,
milli Betel og Aí, 4 til þess staðar, þar sem hann áður hafði reist altarið.
Og Abram ákallaði þar nafn Jahve. 5 En Lot, sem fór með Abram,
átti og sauði, naut og tjöld. 6 Og landið bar þá ekki, svo að þeir gætu
saman verið, því að eign þeirra var mikil og þeir gátu ekki saman
verið. 7 Og sundurþykkja reis milli fjárhirða Abrams og fjárhirða Lots.
En Kanaanítar og Peresítar bjuggu þá í landinu. 8 Þá mælti Abram
við Lot: Heyrðu, engin misklíð sé milli mín og þín og milli minna og
þinna fjárhirða, því að við erum bræður. 9 Liggur ekki alt landið opið
fyrir þér? Skil þig heldur við mig. Viljir þú fara til vinstri handar,
þá fer eg til hægri; og viljir þú fara til hægri handar, þá fer eg til
vinstri. 10 Þá hóf Lot upp augu sín og sá, að alt Jórdan-sléttlendið var
vatnsríkt land, áður en Jahve eyddi Sódómu og Gómorru, eins og
aldingarður Jahve, eins og Egiptaland, alt til Zóar. 11 Og Lot kaus
sér alt Jórdan-sléttlendið, og Lot flutti sig austur á við, og þannig
skildu þeir. 12 Abram bjó í Kanaanlandi, en Lot bjó í borgunum á
sléttlendinu og færði tjöld sín alt til Sódómu. 13 En mennirnir í Só-
dómu voru vondir og stórsyndarar fyrir Jahve. 14 Og Jahve sagði við
Abram, eftir að Lot hafði skilið við hann: Hef þú upp augu þín og
litast um frá þeim stað, sem þú ert á, til norðurs, suðurs, austurs og
vesturs. 15 Því að alt landið, sem þú sér, mun eg gefa þér og niðjum
þínum æfinlega. 16 Og eg mun gjöra niðja þína sem duft jarðar, svo
að geti nokkur talið duft jarðarinnar, þá skulu einnig niðjar þínir
verða taldir. 17 Tak þig nú upp og far þú um landið þvert og endi-
langt; því að þér mun eg gefa það. 18 Og Abram færði sig með tjöld
sín og kom og settist að í Mamre-lundi, sem er í Hebron, og reisti
Jahve þar altari.

---

**13:** kap. 20, 2. 12n. 26, 7. **16:** kap. 13, 2. **17:** Sálm. 105, 14. **18:** kap. 29, 25.
Lúk. 2, 48. **19:** kap. 20, 14. — **13, 1:** kap. 12, 9. * Þ. e. suðurhluta Kanaan-
lands. **2:** kap. 12, 16; 24, 35. **3:** kap. 12, 8; 28, 19; 35, 15. **4:** kap. 12, 7n. **6:**
kap. 36, 7n. **13:** kap. 18, 20n. 19, 4n. Esek. 16, 49n. **15:** kap. 12, 7; 15, 18;
17, 8; 24, 7; 26, 3. Post. 7, 5. **16:** kap. 15, 5. 1 Kong. 4, 20. **18:** kap. 18, 1.

### Herferð Kedorlaómers. Melkísedek blessar Abram.

14 Þegar Amrafel var konungur í Sínear, Aríok konungur í Ellasar,
Kedorlaómer konungur í Elam og Tídeal konungur í Gojím*, bar
það til, [2] að þeir herjuðu á Bera, konung í Sódómu, og á Birsa, kon-
ung í Gómorru, og á Síneab, konung í Adma, og á Semeber, konung
í Zebóím, og konunginn í Bela, það er Zóar. [3] Allir þessir hittust á
Siddímsvöllum; þar er nú Saltisjór*. [4] Í tólf ár höfðu þeir verið lýð-
skyldir Kedorlaómer; en á hinu þrettánda ári höfðu þeir gjört uppreist.
[5] Og á fjórtánda ári kom Kedorlaómer og þeir konungar, sem með
honum voru, og sigruðu Refaítana í Astarot-Karnaím og Súsítana í
Ham og Emítana á Kírjataímsvöllum, [6] og Hórítana á fjalli þeirra Seír
alt til El-Paran, sem er við eyðimörkina. [7] Síðan sneru þeir við og
komu til En-Mispat, það er Kades, og fóru herskildi yfir land Amalekíta
og sömuleiðis Amoríta, sem bjuggu í Hasason-Tamar. [8] Þá lögðu þeir
af stað, konungurinn í Sódómu og konungurinn í Gómorru og konung-
urinn í Adma og konungurinn í Zebóím og konungurinn í Bela, það
er Zóar; og þeir fylktu liði sínu móti þeim á Siddímsvöllum, [9] móti
Kedorlaómer, konungi í Elam, og Tídeal, konungi í Gojím, og Amrafel,
konungi í Sínear, og Aríok, konungi í Ellasar, fjórir konungar móti
fimm. [10] En á Siddímsvöllum var hver jarðbiksgröfin við aðra. Og
konungarnir í Sódómu og Gómorru lögðu á flótta og féllu ofan í þær,
en þeir, sem af komust, flýðu til fjalla. [11] Þá tóku hinir alla fjárhluti,
sem voru í Sódómu og Gómorru, og öll matvæli og fóru burt. [12] Þeir
tóku og Lot, bróðurson Abrams, og fjárhluti hans og fóru burt; hann
átti sem sé heima í Sódómu. [13] Þá kom maður af flóttanum og sagði
Abram hinum hebreska tíðindin; en hann bjó þá í lundi Amorítans
Mamre, bróður Eskols og Aners, og þeir voru bandamenn Abrams.
[14] En er Abram frétti, að bróðir hans var hertekinn, bjó hann í skyndi
þrjú hundruð og átján reynda menn sína, fædda í húsi hans, og elti
þá alt til Dan. [15] Skifti hann liði sínu í flokka og réðst á þá á náttar-
þeli, hann og menn hans, og sigraði þá og rak flóttann alt til Hóba,
sem er fyrir norðan Damaskus. [16] Sneri hann því næst heimleiðis með
alla fjárhlutina, og bróðurson sinn Lot og fjárhluti hans hafði hann
einnig heim með sér, sömuleiðis konurnar og fólkið. [17] En er hann
hafði unnið sigur á Kedorlaómer konungi og þeim konungum, sem með
honum voru, og hélt heimleiðis, fór konungurinn í Sódómu til fundar
við hann í Save-dal; þar heitir nú Kongsdalur. [18] Og Melkísedek,
konungur í Salem, kom með brauð og vín; en hann var prestur hins
hæsta Guðs. [19] Og hann blessaði hann og sagði: Blessaður sé Abram
af hinum hæsta Guði, skapara himins og jarðar! [20] Og lofaður sé hinn
hæsti Guð, sem gaf óvini þína þér í hendur! Og Abram gaf honum
tíund af öllu. [21] Og konungurinn í Sódómu sagði við Abram: Gef mér
mennina, en tak þú fjárhlutina. [22] Þá mælti Abram við konunginn í
Sódómu: Eg upp lyfti höndum mínum til Jahve, hins hæsta Guðs,
skapara himins og jarðar: [23] Eg tek hvorki þráð né skóþveng, né
nokkuð af öllu, sem þér til heyrir, svo að þú skulir ekki segja: »Eg
hefi gjört Abram ríkan«. [24] Ekkert handa mér! Aðeins það, sem
sveinarnir hafa neytt, og hlut þeirra manna, sem með mér fóru: Aners,
Eskols og Mamre; þeir mega taka sinn hlut.

---

**14, 1:** * Eða: konungur heiðingjanna. **2:** kap. 19, 22. **3:** * Þ. e. Dauðahafið.
**7:** kap. 36, 16. **12:** kap. 11, 31. **18:** Sálm. 110, 4. Hebr. 7, 1. **19:** Hebr. 7, 6.
**20:** Hebr. 7, 2. 4. 6. **22:** 5 Mós. 32, 40. Opinb. 10, 5n.

## Jahve gjörir sáttmála við Abram.

15 Eftir þessa atburði kom orð Jahve til Abrams í sýn, svohljóð-
andi: Óttast þú ekki, Abram, eg er þinn skjöldur — laun þín
munu mjög mikil verða. 2 Og Abram mælti: Drottinn Jahve, hvað
ætlar þú að gefa mér? Eg fer héðan barnlaus og Elíeser* verður
erfingi húss míns. 3 Og Abram mælti: Sjá, mér hefir þú ekkert af-
kvæmi gefið og húskarl minn mun erfa mig. 4 Og sjá, orð Jahve kom
til hans svohljóðandi: Ekki skal hann erfa þig, heldur sá, sem af þér
mun getinn verða, hann mun erfa þig. 5 Og hann leiddi hann út og
mælti: Lít þú upp til himins og tel þú stjörnurnar, ef þú getur talið
þær. Og hann sagði við hann: Svo margir skulu niðjar þínir verða.
6 Og hann trúði Jahve, og hann reiknaði honum það til réttlætis. 7 Þá
sagði hann við hann: Eg er Jahve, sem leiddi þig út frá Ur í Kaldeu,
til þess að gefa þér þetta land til eignar. 8 Og hann mælti: Drottinn
Jahve, hvað skal eg hafa til marks um, að eg muni eignast það? 9 Og
hann mælti við hann: Fær mér þrevetra kvígu, þrevetra geit, þrevetran
hrút, turtildúfu og unga dúfu. 10 Og hann færði honum öll þessi dýr
og hlutaði þau sundur í miðju og lagði hvorn hlutinn gegnt öðrum;
en fuglana hlutaði hann ekki sundur. 11 Og hræfuglar flugu að ætinu,
en Abram fældi þá burt. 12 En er sól var að renna, leið þungur svefn-
höfgi á Abram, og sjá: felmti, miklu myrkri, sló yfir hann. 13 Þá
sagði hann við Abram: Vit það fyrir víst, að niðjar þínir munu lifa
sem útlendingar í landi, sem þeir eiga ekki; og þeir munu þjóna þeim*,
og þeir** þjá þá í fjögur hundruð ár. 14 En einnig þá þjóð, sem þeir
munu þjóna, mun eg dæma, og síðar munu þeir þaðan fara með mik-
inn fjárhlut. 15 En þú skalt fara í friði til feðra þinna; þú skalt verða
jarðaður í góðri elli. 16 Hinn fjórði ættliður þeirra mun koma hingað
aftur, því að enn hafa Amórítar eigi fylt mæli synda sinna. 17 En er sól
var runnin og myrkt var orðið, kom reykur sem úr ofni og eldslogi,
er leið fram á milli þessara fórnar-stykkja. 18 Á þeim degi gjörði Jahve
sáttmála við Abram og mælti: Þínu afkvæmi gef eg þetta land, frá
Egiptalandsánni til árinnar miklu, árinnar Evfrat: 19 land Keníta,
Kenissíta, Kadmóníta, 20 Hetíta, Peresíta, Refaíta, 21 Amóríta, Kanaaníta,
Gírgasíta og Jebúsíta.

## Hagar elur Ísmael.

16 Og Saraí kona Abrams ól honum ekki börn; en hún hafði
egipzka ambátt, sem hét Hagar. 2 Og Saraí sagði við Abram:
Heyrðu nú, Jahve hefir varnað mér barngetnaðar; gakk því inn til
ambáttar minnar; vera má að hún afli mér afkvæmis. Og Abram
hlýddi orðum Saraí. 3 Þá tók Saraí, kona Abrams, Hagar hina egipzku,
ambátt sína, er Abram hafði búið tíu ár í Kanaanlandi, og gaf manni
sínum Abram hana fyrir konu. 4 Og hann gekk inn til Hagar og hún
varð þunguð; en er hún vissi, að hún var með barni, fyrirleit hún
húsmóður sína. 5 Þá sagði Saraí við Abram: Sá óréttur, sem eg verð

---

**15, 1:** Jes. 41, 10. **2:** * Hin fyrri þýðing: »Elieser *frá Damaskus*« stafar af því, að orðinu »Damaskus« hefir af misskilningi verið skotið inn í hebreska textann. **5:** kap. 13, 16; 17, 2. 2 Mós. 32, 13. 5 Mós. 10, 22. **6:** Róm. 4, 3. 18. Gal. 3, 6. **7:** kap. 11, 31. **13:** * Þ. e. Egiptum. ** Þ. e. Egiptar. 2 Mós. 12, 40. Post. 7, 6. **14:** 2 Mós. 3, 21; 11, 2; 12, 35n. **15:** kap. 25, 8. **16:** 5 Mós. 9, 4. **17:** 2 Mós. 19, 18. Jer. 34, 18. **18:** kap. 12, 7; 13, 15; 17, 8; 26, 4. 5 Mós. 34, 4. 2 Mós. 23, 31. 1 Kong. 4, 21. Sálm. 80, 12. 1 Mós. 2, 14. 5 Mós. 1, 7. **20:** 5 Mós. 7, 1. Jós. 24, 11. 1 Mós. 14, 5. — **16, 2:** kap. 30, 3. 9. **5:** kap. 31, 53. Dóm. 11, 27. 1 Sam. 24, 16.

að þola, bitni á þér! Eg hefi gefið ambátt mína þér í faðm; en er
hún nú veit, að hún er með barni, fyrirlítur hún mig. Jahve dæmi
milli mín og þín! 6 En Abram sagði við Saraí: Sjá, ambátt þín er á
þínu valdi; gjör þú við hana sem þér gott þykir. Þá þjáði Saraí hana,
svo að hún flýði í burtu frá henni. 7 Þá fann engill Jahve hana hjá
vatnslind í eyðimörkinni, hjá lindinni á veginum til Súr. 8 Og hann
mælti: Hagar, ambátt Saraí, hvaðan kemur þú og hvert ætlar þú að
fara? Hún svaraði: Eg er á flótta frá Saraí, húsmóður minni. 9 Og
engill Jahve sagði við hana: Hverf þú heim aftur til húsmóður þinnar
og gef þig undir hennar vald. 10 Og engill Jahve sagði við hana: Eg
mun margfalda afkvæmi þitt, svo að það verði eigi talið fyrir fjölda
sakir. 11 Og engill Jahve sagði við hana: Sjá, þú ert þunguð og munt
son fæða; hans nafn skalt þú kalla Ísmael*, því að Jahve hefir heyrt
kveinstafi þína. 12 Hann mun verða maður ólmur sem villiasni; hönd
hans mun vera uppi á móti hverjum manni og hvers manns hönd
uppi á móti honum; og hann mun búa fyrir austan alla bræður sína.
13 Og hún kallaði Jahve, sem við hana talaði: »Þú ert Guð, sem sér«.
Því að hún sagði: Ætli eg hafi einnig hér horft á eftir honum, sem
hefir séð mig? 14 Þess vegna heitir brunnurinn Beer-lakaj-róí*; en hann
er á milli Kades og Bered. 15 Og Hagar ól Abram son, og Abram
nefndi son sinn, sem Hagar ól honum, Ísmael. 16 En Abram var átta-
tíu og sex ára gamall, þegar Hagar ól honum Ísmael.

## Umskurn boðin. Heitið fæðingu Ísaks.

17 Og er Abram var níutíu og níu ára gamall, birtist Jahve hon-
um og sagði: Eg er almáttugur Guð; gakk þú fyrir mínu augliti
og ver grandvar, 2 þá vil eg gjöra sáttmála milli mín og þín, og marg-
falda þig mikillega. 3 Þá féll Abram fram á ásjónu sína og Guð talaði
við hann og sagði: 4 Sjá, það er eg, sem hefi gjört við þig sáttmála,
og þú skalt verða faðir margra þjóða. 5 Því skalt þú eigi lengur nefn-
ast Abram, heldur skalt þú heita Abraham; því að föður margra þjóða
gjöri eg þig. 6 Og eg mun gjöra þig mjög frjósaman og gjöra þig að
þjóðum; og af þér skulu konungar koma. 7 Og eg gjöri sáttmála milli
mín og þín og þinna niðja eftir þig, frá einum ættlið til annars, æfin-
legan sáttmála: að vera þinn Guð og þinna niðja eftir þig. 8 Og eg
mun gefa þér og niðjum þínum eftir þig það land, sem þú nú býr í
sem útlendingur, alt Kanaanland til æfinlegrar eignar, og eg skal vera
Guð þeirra. 9 Og Guð sagði við Abraham: En þú skalt halda minn
sáttmála, þú og niðjar þínir eftir þig, frá einum ættlið til annars.
10 Þetta er minn sáttmáli, sem þér skuluð halda, milli mín og yðar og
niðja þinna eftir þig: alt karlkyn meðal yðar skal umskera. 11 Yður
skal umskera á holdi yfirhúðar yðar, og það sé merki sáttmálans milli
mín og yðar. 12 Átta daga gömul skal öll sveinbörn umskera meðal
yðar, ættlið eftir ættlið, bæði þau, er heima eru fædd, og eins hin, sem
keypt eru verði af einhverjum útlendingi, er eigi er af þínum ættlegg.
13 Umskera skal bæði þann, sem fæddur er í húsi þínu, og eins þann,
sem þú hefir verði keyptan, og þannig sé minn sáttmáli í yðar holdi
sem æfinlegur sáttmáli. 14 En óumskorinn karlmaður, sá er ekki er
umskorinn á holdi yfirhúðar sinnar, — hann skal upprættur verða úr

---

7: 2 Mós. 15, 22. 8: Dóm. 19, 17. 11: Dóm. 13, 5. Jes. 7, 14. * Það þýðir:
Guð heyrir. 14: * Þ. e. brunnur hins lifandi, sem sér mig. Kap. 24, 62; 25, 11.
— 17, 1: kap. 35, 11; 24, 40. 1 Kong. 2, 4. 2: kap. 13, 16; 15, 5. 5: Nehem. 9, 7.
Jes. 51, 2. Róm. 4, 17. 8: kap. 15, 18; 12, 7; 35, 27. Hebr. 11, 9. 13. 10: 3 Mós.
12, 3. Lúk. 2, 21. Jóh. 7, 22. Post. 7, 8. Róm. 4, 11.

þjóð sinni; sáttmála minn hefir hann rofið. 15 Og Guð sagði við Abra-
ham: Saraí konu þína skalt þú ekki lengur nefna Saraí, heldur skal
hún heita Sara. 16 Og eg mun blessa hana og með henni mun eg
einnig gefa þér son; og eg mun blessa hana og hún skal verða ætt-
móðir heilla þjóða; þjóðkonungar skulu rekja kyn sitt til hennar. 17 Þá
féll Abraham fram á ásjónu sína og hló og hugsaði með sjálfum sér:
Mun hundrað ára gamall maður eignast barn, og mun Sara níræð
barn ala? 18 Og Abraham sagði við Guð: Eg vildi að Ísmael mætti
lifa fyrir þínu augliti! 19 Og Guð mælti: Vissulega skal Sara kona þín
fæða þér son, og þú skalt nefna hann Ísak, og eg mun gjöra sáttmála
við hann sem æfinlegan sáttmála fyrir niðja hans eftir hann. 20 Og að
því er Ísmael snertir, hefi eg bænheyrt þig; sjá, eg mun blessa hann
og gjöra hann frjósaman og margfalda hann mikillega; tólf þjóðhöfð-
ingja mun hann geta, og eg mun gjöra hann að mikilli þjóð. 21 En
minn sáttmála mun eg gjöra við Ísak, sem Sara mun fæða þér í þetta
mund á næsta ári. 22 Og er hann hafði lokið tali sínu við hann, sté
Guð upp frá Abraham. 23 Þá tók Abraham son sinn Ísmael og alla,
sem fæddir voru í hans húsi, og alla, sem hann hafði verði keypta,
alt karlkyn meðal heimamanna Abrahams, og umskar hold yfirhúðar
þeirra á þessum sama degi, eins og Guð hafði boðið honum. 24 En
Abraham var níutíu og níu ára gamall, er hann var umskorinn á holdi
yfirhúðar sinnar. 25 Og Ísmael sonur hans var þrettán ára, er hann
var umskorinn á holdi yfirhúðar sinnar. 26 Á þessum sama degi voru
þeir umskornir Abraham og Ísmael sonur hans. 27 Og allir hans heima-
menn, bæði þeir, er heima voru fæddir, og eins þeir, sem verði voru
keyptir af útlendingum, voru umskornir með honum.

### Jahve birtist Abraham í Hebron; heitir enn að nýju fæðing Ísaks og boðar eyðing Sódómu. Fyrirbón Abrahams.

18 Og Jahve birtist honum í Mamre-lundi, er hann sat í tjald-
dyrum sínum í miðdegishitanum. 2 Og hann hóf upp augu sín
og litaðist um, og sjá, þrír menn stóðu gagnvart honum; og er hann sá
þá, skundaði hann til móts við þá úr tjalddyrum sínum og laut þeim
til jarðar, 3 og mælti: Drottinn, hafi eg fundið náð í augum þínum,
þá gakk eigi fram hjá þjóni þínum. 4 Leyfið, að sótt sé lítið eitt af
vatni, að þér megið þvo fætur yðar, og hvílið yður undir trénu. 5 Og
eg ætla að sækja brauðbita, að þér megið styrkja hjörtu yðar, — síðan
getið þér haldið áfram ferðinni, — úr því að þér fóruð hér um hjá
þjóni yðar. Og þeir svöruðu: Gjörðu eins og þú hefir sagt. 6 Þá
flýtti Abraham sér inn í tjaldið til Söru og mælti: Sæktu nú sem
skjótast þrjá mæla hveitimjöls, hnoðaðu það og bakaðu kökur. 7 Og
Abraham skundaði til nautanna og tók kálf ungan og vænan og fékk
sveini sínum, og hann flýtti sér að matbúa hann. 8 Og hann tók rjóma
og mjólk og kálfinn, sem hann hafði matbúið, og setti fyrir þá, en sjálfur
stóð hann frammi fyrir þeim undir trénu, meðan þeir mötuðust. 9 Þá
sögðu þeir við hann: Hvar er Sara kona þín? Hann svaraði: Þarna inni í
tjaldinu. 10 Og hann sagði: Vissulega mun eg aftur koma til þín að ári
liðnu í sama mund, og mun þá Sara kona þín hafa eignast son. En
Sara heyrði þetta í dyrum tjaldsins, sem var að baki hans. 11 En

---

**17:** kap. 18, 12; 21, 6. Lúk. 1, 18. **19:** kap. 18, 10; 21, 3. **20:** kap. 25, 16. —
**18, 1:** kap. 13, 18. **2:** kap. 19, 1. **3:** kap. 19, 19. Hebr. 13, 2. **4:** kap. 19, 2;
43, 23; 1 Tím. 5, 10. **6:** 1 Sam. 28, 24. **10:** kap. 17, 19; 21, 1. Róm. 9, 9.
2 Kong. 4, 16.

Abraham og Sara voru gömul og hnigin á efra aldur, svo að kvenlegir
eðlishættir voru horfnir frá Söru. 12 Og Sara hló með sjálfri sér og
mælti: Eftir að eg er gömul orðin, skyldi eg þá á munuð hyggja, þar
sem bóndi minn og er gamall? 13 Þá sagði Jahve við Abraham: Hví
hlær Sara og segir: »Mun það satt, að eg skuli barn fæða svo gömul«?
14 Er Jahve nokkuð ómáttugt? Í þetta mund mun eg aftur koma til
þín að ári, og Sara hefir þá eignast son. 15 Og Sara neitaði því og
sagði: Eigi hló eg, því að hún var hrædd. En hann sagði: Jú, víst
hlóst þú. 16 Því næst tóku mennirnir sig upp þaðan og horfðu niður
til Sódómu — en Abraham gekk með þeim, til að fylgja þeim á veg.
17 Þá sagði Jahve: Skyldi eg dylja Abraham þess, sem eg ætla að gjöra,
18 þar sem Abraham mun verða að mikilli og voldugri þjóð, og allar
þjóðir jarðarinnar munu af honum blessun hljóta*? 19 Því að eg hefi
útvalið hann, til þess að hann bjóði börnum sínum og húsi sínu eftir
sig, að þau varðveiti vegu Jahve með því að iðka rétt og réttlæti, til
þess að Jahve láti koma fram við Abraham það, sem hann hefir hon-
um heitið. 20 Og Jahve mælti: Hrópið yfir Sódómu og Gómorru, það
er vissulega mikið, og synd þeirra, hún er vissulega mjög þung. 21 Eg ætla
því að stíga niður þangað, til þess að sjá, hvort þeir hafa fullkomlega
að hafst það, sem þeir eru hrópaðir um fyrir mér*; eða sé eigi svo,
þá vil eg vita það. 22 Og mennirnir sneru í brott þaðan og héldu til
Sódómu, en Abraham stóð enn þá frammi fyrir Jahve. 23 Og Abraham
gekk nær honum og mælti: Hvort munt þú afmá hina réttlátu með
hinum óguðlegu? 24 Vera má að fimtíu réttlátir séu í borginni; hvort
munt þú afmá þá og ekki þyrma staðnum vegna þeirra fimtíu réttlátu,
sem þar eru? 25 Fjarri sé það þér að gjöra slíkt, að deyða hina rétt-
látu með hinum óguðlegu, svo að eitt gangi yfir réttláta og óguðlega;
fjarri sé það þér! Mun dómari alls jarðríkis ekki gjöra rétt? 26 Og
Jahve mælti: Finni eg í Sódómu fimtíu réttláta innan borgar, þá þyrmi
eg öllum staðnum þeirra vegna. 27 Abraham svaraði og sagði: Æ, eg
hefi byrjað að tala við drottin, þótt eg sé duft eitt og aska. 28 Vera
má að fimm skorti á fimtíu réttláta; munt þú eyða alla borgina vegna
þessara fimm? Þá mælti hann: Eigi mun eg eyða hana, finni eg þar
fjörutíu og fimm. 29 Og hann hélt áfram að tala við hann og mælti:
Vera má að þar finnist ekki nema fjörutíu. En hann svaraði: Vegna
þeirra fjörutíu mun eg láta það ógjört. 30 Og hann sagði: Eg bið þig,
drottinn, að þú reiðist ekki, þó að eg tali. Vera má að þar finnist
ekki nema þrjátíu. Og hann svaraði: Eg mun ekki gjöra það, finni
eg þar þrjátíu. 31 Og hann sagði: Æ, eg hefi byrjað að tala við drottin!
Vera má að þar finnist ekki nema tuttugu. Og hann mælti: Eg mun
ekki eyða hana vegna þeirra tuttugu. 32 Og hann mælti: Eg bið þig,
drottinn, að þú reiðist ekki, þó að eg tali enn aðeins í þetta sinn.
Vera má að þar finnist aðeins tíu. Og hann sagði: Eg mun ekki
eyða hana vegna þeirra tíu. 33 Og Jahve gekk í brott, er hann hafði
lokið tali sínu við Abraham; en Abraham hvarf aftur heimleiðis.

---

**12:** kap. 17, 17. 1 Pét. 3, 6. **14:** Jer. 32, 27. Lúk. 1, 37. **18:** * Önnur þýðing: svo að allar þjóðir jarðarinnar munu óska sér hans blessunar. Kap. 12, 3. **19:** 5 Mós. 6, 7. **20:** kap. 19, 13; 13, 13. Esek. 16, 48. 50. **21:** kap. 11, 5. * Annar lesháttur: hvort þeir *allir* hafa að hafst það, sem þeir eru hrópaðir um fyrir mér. **25:** Sálm. 7, 9. Jóh. 5, 27. Post. 17, 31. Róm. 3, 6. **26:** Am. 7, 3. **30:** Dóm. 6, 39.

**Eyðing Sódómu. Lot frelsast. Glæpur hans.**

19 En báðir englarnir komu um kveldið til Sódómu; sat Lot í
borgarhliði; og er hann sá þá, stóð hann upp í móti þeim og
hneigði ásjónu sína til jarðar. 2 Því næst mælti hann: Heyrið, herrar
mínir, sýnið lítillæti og komið inn í hús þjóns ykkar, og verið hér í
nótt og þvoið fætur ykkar; getið þið þá risið árla á morgun og farið
leiðar ykkar. En þeir sögðu: Nei, við ætlum að hafast við á strætinu
í nótt. 3 Þá lagði hann mikið að þeim, unz þeir fóru inn til hans og
gengu inn í hús hans. Og hann bjó þeim máltíð og bakaði ósýrðar
kökur, og þeir neyttu. 4 En áður en þeir gengu til hvíldar, slógu
borgarmenn, mennirnir í Sódómu, hring um húsið, bæði ungir og
gamlir, allur múgurinn hvaðanæfa. 5 Og þeir kölluðu á Lot og sögðu
við hann: Hvar eru mennirnir, sem komu til þín í kveld? leið þú þá
út til vor, að vér megum kenna þeirra. 6 Lot gekk þá út til þeirra, út
fyrir dyrnar, og lokaði hurðinni að baki sér. 7 Og hann sagði: Fyrir
hvern mun, bræður mínir, fremjið ekki óhæfu. 8 Sjá, eg á tvær dætur,
sem ekki hafa karlmann kent; eg skal leiða þær út til yðar, gjörið við
þær sem yður gott þykir; aðeins megið þér ekkert gjöra þessum
mönnum, úr því að þeir eru komnir undir skugga þaks míns. 9 Þá
æptu þeir: Haf þig á burt! og sögðu: þessi eini maður er hingað
kominn, til þess að dveljast hér sem útlendingur og vill nú stöðugt vera
að siða oss; nú skulum vér leika þig enn ver en þá. Og þeir gjörðu
ákaflega þröng að manninum, að Lot, og gengu nær, til að brjóta upp
dyrnar. 10 Þá seildust mennirnir út og drógu Lot til sín inn í húsið
og lokuðu dyrunum. 11 En mennina, sem voru úti fyrir dyrum húss-
ins, slógu þeir með blindu, smáa og stóra, svo að þeir urðu að gefast
upp við að finna dyrnar. 12 Og mennirnir sögðu við Lot: Átt þú hér
nokkra fleiri þér nákomna? Tengdasonu þína og dætur þínar og alla í
borginni, sem þér eru áhangandi — haf þá burt héðan; 13 því að við
munum eyða þennan stað, af því að hrópið yfir þeim fyrir Jahve er
mikið, og Jahve hefir sent okkur, til að eyða borgina. 14 Þá gekk Lot
út og talaði við tengdasonu sína, sem ætluðu að ganga að eiga dætur
hans, og mælti: Standið upp skjótt og farið úr þessum stað, því að
Jahve mun eyða borgina. En tengdasynir hans hugðu, að hann væri
að gjöra að gamni sínu. 15 En er dagur rann, ráku englarnir eftir Lot
og sögðu: Statt þú upp skjótt! tak þú konu þína og báðar dætur þínar,
sem hjá þér eru, svo að þú fyrirfarist ekki vegna syndar borgarinnar.
16 En er hann hikaði við, tóku mennirnir í hönd honum og í hönd
konu hans og í hönd báðum dætrum hans, af því að Jahve vildi
þyrma honum, og leiddu hann út og létu hann út fyrir borgina. 17 Og
er þeir höfðu leitt þau út, sagði hann*: Forða þér; líf þitt liggur við!
lít ekki aftur fyrir þig og nem hvergi staðar á öllu sléttlendinu; forða
þér á fjöll upp, að þú farist eigi. 18 Þá sagði Lot við þá: Æ nei, herra
minn! 19 Sjá, þjónn þinn hefir fundið náð í augum þínum og þú hefir
sýnt á mér mikla miskunn, að láta mig halda lífi; en eg get ekki
forðað mér á fjöll upp; ógæfan getur komið yfir mig og eg dáið. 20 Sjá,
þarna er borg í nánd; þangað gæti eg flúið, og hún er lítil; eg vil
forða mér þangað — er hún ekki lítil? — að eg megi halda lífi. 21 Og
hann sagði við hann: Sjá, eg hefi einnig veitt þér þessa bæn, að leggja
ekki í eyði borgina, sem þú talaðir um. 22 Flýt þér! forða þér þangað,

---

**19, 1:** kap. 18, 2. **2:** Hebr. 13, 2. 1 Mós. 18, 4; 43, 23. Lúk. 7, 44. **4:** kap. 13, 13. Dóm. 19, 22. **7:** Dóm. 19, 23. **9:** 2 Pét. 2, 7. **11:** 2 Kong. 6, 18. **13:** kap. 18, 20. Esek. 16, 49 n. Opinb. 18, 5. **15:** 2 Pét. 2, 6 n. **17:** * Annar lesháttur: sögðu *þeir*. **19:** kap. 6, 8; 18, 3.

því að eg get ekkert gjört, fyr en þú kemst þangað. Þess vegna nefna
menn borgina Zóar*. [23] Sólin var runnin upp yfir jörðina, er Lot kom
til Zóar. [24] Og Jahve lét rigna yfir Sódómu og Gómorru brennisteini
og eldi frá Jahve, af himni. [25] Og hann gjöreyddi þessar borgir og
alt sléttlendið og alla íbúa borganna og gróður jarðarinnar. [26] En kona
hans leit við að baki honum og varð að saltstöpli. [27] En Abraham
gekk snemma morguns þangað, er hann hafði staðið frammi fyrir Jahve.
[28] Og er hann horfði niður á Sódómu og Gómorru og yfir alt slétt-
lendið, þá sá hann að reyk lagði upp af jörðunni, því líkast sem reykur
úr ofni. [29] En er Guð eyddi borgirnar á sléttlendinu, mintist Guð
Abrahams og leiddi Lot út úr eyðingunni, þá er hann lagði í eyði
borgirnar, sem Lot hafði búið í. [30] En Lot fór frá Zóar upp á fjöllin
og staðnæmdist þar og báðar dætur hans með honum; því að hann
óttaðist að vera kyrr í Zóar, og hann hafðist við í helli, hann og báðar
dætur hans. [31] Þá sagði hin eldri við hina yngri: Faðir okkar er
gamall og enginn karlmaður er eftir á jörðunni, sem samfarir megi við
okkur hafa, eins og siðvenja er til alstaðar á jörðunni. [32] Kom þú,
við skulum gefa föður okkar vín að drekka og leggjast hjá honum,
að við megum kveikja kyn af föður okkar. [33] Síðan gáfu þær föður
sínum vín að drekka þá nótt, og hin eldri fór og lagðist hjá föður
sínum; en hann varð hvorki var við, að hún lagðist niður, né að hún
reis á fætur. [34] Og morguninn eftir sagði hin eldri við hina yngri:
Sjá, í nótt lá eg hjá föður mínum; við skulum nú og í nótt gefa hon-
um vín að drekka; far þú síðan inn og legst hjá honum, að við
megum kveikja kyn af föður okkar. [35] Síðan gáfu þær föður sínum
vín að drekka einnig þá nótt, og hin yngri tók sig til og lagðist hjá
honum, en hann varð hvorki var við, að hún lagðist niður, né að hún
reis á fætur. [36] Þannig urðu báðar dætur Lots þungaðar af völdum
föður síns. [37] Og hin eldri ól son og nefndi hann Móab; hann er ætt-
faðir Móabíta alt til þessa dags. [38] Og hin yngri ól einnig son og
nefndi hann Ben-Ammí; hann er ættfaðir Ammóníta alt til þessa dags.

### Abraham kemur til Gerar. Abímelek tekur Söru, en skilar henni aftur.

**20** Nú flutti Abraham sig þaðan suður í landið og settist að milli
Kades og Súr, og dvaldist um hríð í Gerar. [2] Og Abraham sagði
um Söru konu sína: Hún er systir mín. Þá sendi Abímelek konungur
í Gerar menn og lét sækja Söru. [3] En Guð kom til Abímeleks í draumi
um nóttina og sagði við hann: Sjá, þú skalt deyja vegna konu þeirrar,
sem þú hefir tekið, því að hún er gift kona. [4] En Abímelek hafði ekki
komið nærri henni. Og hann sagði: Drottinn, munt þú einnig vilja
deyða saklaust fólk? [5] Hefir hann ekki sagt við mig: Hún er systir
mín? og hún sjálf hefir einnig sagt: Hann er bróðir minn. Í einlægni
hjarta míns og með hreinum höndum hefi eg gjört þetta. [6] Og Guð
sagði við hann í draumnum: Víst veit eg, að þú gjörðir þetta í ein-
lægni hjarta þíns, og eg hefi einnig varðveitt þig frá að syndga gegn
mér; fyrir því leyfði eg þér ekki að snerta hana. [7] Fá því nú mann-
inum konu hans aftur, því að hann er spámaður; og mun hann biðja
fyrir þér, að þú megir lífi halda; en ef þú skilar henni ekki aftur, þá

---

**22:** * Það þýðir: lítilræði, sbr. kap. 19, 20; 14, 2. **24:** 5 Mós. 29, 23. Sálm. 11, 6. Jes. 13, 19. Jer. 50, 40. Esek. 16, 49—50. Hós. 11, 8. Am. 4, 11. Lúk. 17, 29. 2 Pét. 2, 6. Júd. 7. **25:** Harm. 4, 6. **26:** Lúk. 9, 62; 17, 32. **32:** 3 Mós. 18, 7. **37:** 5 Mós. 2, 9. — **20, 1:** kap. 12, 9; 25, 18. **2:** kap. 12, 13; 26, 7. **7:** Sálm. 105, 14—15. Job 42, 8.

skalt þú vita, að þú munt vissulega deyja, þú og allir, sem þér til
heyra. 8 Og Abímelek reis árla um morguninn og kallaði til sín alla
þjóna sína og greindi þeim frá öllu þessu; og mennirnir urðu mjög
óttaslegnir. 9 Og Abímelek lét kalla Abraham til sín og sagði við hann:
Hvað hefir þú gjört oss? og hvað hefi eg misgjört við þig, að þú
skyldir leiða svo stóra synd yfir mig og ríki mitt? Verk, sem enginn
skyldi fremja, hefir þú framið gegn mér. 10 Og Abímelek sagði við
Abraham: Hvað gekk þér til að gjöra þetta? 11 Þá mælti Abraham:
Eg hugsaði: Vart mun nokkur guðsótti vera á þessum stað, og þeir
munu drepa mig vegna konu minnar. 12 Og þar að auki er hún sann-
lega systir mín, samfeðra, þótt eigi séum við sammæðra, og hún varð
kona mín. 13 Og þegar Guð lét mig fara úr húsi föður míns, sagði eg við
hana: Þessa góðsemi verður þú að sýna mér: hvar sem við komum,
þá segðu um mig: Hann er bróðir minn. 14 Þá tók Abímelek sauði,
naut, þræla og ambáttir, og gaf Abraham og fékk honum aftur Söru
konu hans. 15 Og Abímelek sagði: Sjá, land mitt stendur þér til boða;
bú þú þar sem þér bezt líkar. 16 Og við Söru sagði hann: Sjá, eg gef
bróður þínum þúsund sikla silfurs. Sjá, það sé þér uppreist í augum
allra þeirra, sem með þér eru, og ert þú þannig réttlætt fyrir öllum.
17 Og Abraham bað til Guðs fyrir honum, og Guð læknaði Abímelek og
konu hans og ambáttir, svo að þær ólu börn. 18 Því að Jahve hafði
lokað sérhverjum móðurkviði í húsi Abímeleks sakir Söru, konu
Abrahams.

### Ísak fæðist. Hagar og Ísmael rekin burt. Abraham gjörir sáttmála við Abímelek.

21 Og Jahve vitjaði Söru, eins og hann hafði lofað, og Jahve
gjörði við Söru, eins og hann hafði sagt. 2 Og Sara varð þunguð
og fæddi Abraham son í elli hans, í það mund, sem Guð hafði sagt
honum. 3 Og Abraham gaf nafn syni sínum, þeim er honum fæddist,
sem Sara fæddi honum, og kallaði hann Ísak*. 4 Og Abraham umskar
Ísak son sinn, þá er hann var átta daga gamall, eins og Guð hafði
boðið honum. 5 En Abraham var hundrað ára gamall, þegar Ísak
sonur hans fæddist honum. 6 Og Sara sagði: Guð hefir gjört mig að
athlægi; hver, sem heyrir þetta, mun hlæja að mér. 7 Og hún mælti:
Hver skyldi hafa sagt við Abraham, að Sara mundi hafa börn á brjósti,
og þó hefi eg alið honum son í elli hans. 8 Og sveinninn óx og var
vaninn af brjósti, og Abraham gjörði mikla veizlu þann dag, sem Ísak
var tekinn af brjósti. 9 En er Sara sá, að sonur Hagar hinnar egipzku,
er hún hafði fætt Abraham, hló, 10 þá sagði hún við Abraham: Rek
þú burt ambátt þessa og son hennar, því að ekki skal sonur þessarar
ambáttar taka arf með syni mínum, með Ísak. 11 En Abraham sárnaði
þetta mjög vegna sonar síns*. 12 Þá sagði Guð við Abraham: Lát þig
ekki taka sárt til sveinsins og ambáttar þinnar; hlýð þú Söru í öllu
því, er hún segir þér; því að afkomendur Ísaks einir munu verða taldir
niðjar þínir. 13 En eg mun einnig gjöra ambáttarsoninn að þjóð, því
að hann er þitt afkvæmi. 14 Og Abraham reis árla næsta morgun,
tók brauð og vatnsbelg og fékk Hagar; en sveininn lagði hann á herðar

---

**9:** kap. 12, 18; 26, 10. Lúk. 2, 48. **11:** Sálm. 36, 2. 1 Mós. 12, 12. **14:** kap. 12, 19. — **21, 1:** kap. 25, 21; 30, 22; 17, 19; 18, 10. **2:** kap. 25, 19. 1 Kron. 1, 34. Matt. 1, 2. Post. 7, 8. Gal. 4, 22. Hebr. 11, 11. **3:** * Það þýðir: hlátur. Kap. 17, 19. **4:** kap. 17, 11 n. **6:** kap. 17, 17; 18, 12. **10:** Gal. 4, 30. Dóm. 11, 2. **11:** * Þ. e. Ísmaels. **12:** kap. 17, 21. Róm. 9, 7. Gal. 4, 28. Hebr. 11, 18. **13:** kap. 16, 10; 17, 20; 25, 16.

henni og lét hana í burtu fara. Hún hélt þá af stað og reikaði um
eyðimörkina Beerseba. 15 En er vatnið var þrotið á leglinum, lagði
hún sveininn inn undir einn runninn. 16 Því næst gekk hún burt og
settist þar gegnt við, svo sem í örskots fjarlægð, því að hún sagði:
Eg get ekki horft á að barnið deyi. Og hún settist þar gegnt við og
tók að gráta hástöfum*. 17 En er Guð heyrði hljóð sveinsins, þá kall-
aði engill Guðs til Hagar af himni og mælti til hennar: Hvað gengur
að þér, Hagar? vertu óhrædd, því að Guð hefir heyrt til sveinsins, þar
sem hann liggur. 18 Statt þú upp, reistu sveininn á fætur og leiddu
hann þér við hönd, því að eg mun gjöra hann að mikilli þjóð. 19 Og
Guð lauk upp augum hennar, svo að hún sá vatnsbrunn; fór hún þá
og fylti belginn vatni og gaf sveininum að drekka. 20 Og Guð var með
sveininum, og hann óx upp og hafðist við í eyðimörkinni og gjörðist
bogmaður. 21 Og hann hafðist við í Paran-eyðimörk og móðir hans
tók honum konu af Egiptalandi. 22 Um sömu mundir bar svo til, að
Abímelek og hershöfðingi hans Píkól mælti þannig við Abraham: Guð
er með þér í öllu, sem þú gjörir. 23 Vinn þú mér nú hér eið að því
við Guð, að þú skulir eigi breyta sviksamlega hvorki við mig né af-
komendur mína; eins og eg hefi auðsýnt þér góðsemi, svo skalt þú
breyta við mig og það land, sem þú hefir staðnæmst í. 24 Og Abraham
mælti: Eg skal vinna þér eið að því. 25 En Abraham átaldi Abímelek
fyrir vatnsbrunninn, sem þrælar Abímeleks höfðu tekið með ofríki.
26 Þá sagði Abímelek: Ekki veit eg, hver það hefir gjört; hvorki hefir
þú sagt mér það og ekki hefi eg heldur heyrt það fyr en í dag. 27 Þá
tók Abraham sauði og naut og gaf Abímelek; og þeir gjörðu sáttmála
sín í milli. 28 Og Abraham tók frá sjö gimbrar af hjörðinni. 29 Þá
mælti Abímelek til Abrahams: Hvað skulu þessar sjö gimbrar, sem þú
hefir tekið frá? 30 Og hann svaraði: Við þessum sjö gimbrum skalt
þú taka af minni hendi, til vitnis um að eg hefi grafið þennan brunn.
31 Þess vegna heitir sá staður Beerseba*, af því að þeir sóru þar báðir.
32 Þannig gjörðu þeir sáttmála í Beerseba. Síðan tók Abímelek sig upp
og Píkól hershöfðingi hans og sneru aftur til Filistalands. 33 Og hann
gróðursetti tamarisk-runn í Beerseba og ákallaði þar nafn Jahve, hins
eilífa Guðs. 34 Og Abraham dvaldist lengi í Filistalandi.

## Sonarfórnin. Ættkvísl Nahors.

22 Eftir þessa atburði reyndi Guð Abraham og mælti til hans:
Abraham! og hann svaraði: Hér er eg. 2 Og hann sagði: Tak
þú einkasoninn þinn, sem þú elskar, hann Ísak, og far þú til Móría-
lands og fórna honum þar að brennifórn á einu af fjöllunum, sem eg
mun segja þér til. 3 Og Abraham var árla á fótum næsta morgun og
lagði á asna sinn, og tók með sér tvo sveina sína og Ísak son sinn;
og hann klauf viðinn til brennifórnarinnar, tók sig upp og hélt af stað,
þangað sem Guð sagði honum. 4 Á þriðja degi hóf Abraham upp augu
sín og sá staðinn álengdar. 5 Þá sagði Abraham við sveina sína:
Bíðið hér hjá asnanum; en við smásveinninn munum ganga þangað,
til að biðjast fyrir, og komum svo til ykkar aftur. 6 Og Abraham tók
brennifórnarviðinn og lagði syni sínum Ísak á herðar, en tók eldinn
og hnífinn sér í hönd; og svo gengu þeir báðir saman. 7 Þá mælti

**14:** kap. 21, 31. **16:** * Annar lesháttur: Og hún settist þar gegnt við; en sveinn-
inn tók að gráta hástöfum (sbr. 17. v.). **22:** kap. 26, 26. **23:** 1 Sam. 24, 22.
**25:** kap. 26, 15. 18. **31:** * Þ. e. sjöbrunnur eða svardagabrunnur. Kap. 26, 33.
**33:** Jes. 57, 15. — **22, 1:** Hebr. 11, 17. **5:** 2 Mós. 22, 14.

Ísak við Abraham föður sinn: Faðir minn! og hann svaraði: Hér er
eg, sonur minn! Og hann mælti: Hér er eldurinn og viðurinn, en
hvar er sauðurinn til brennifórnarinnar? 8 Og Abraham sagði: Guð
mun sjá sér fyrir sauð til brennifórnarinnar, sonur minn! og svo gengu
þeir báðir saman. 9 En er þeir komu þangað, er Guð hafði sagt
honum, reisti Abraham þar altari og lagði viðinn á, og batt son sinn
Ísak og lagði hann upp á altarið, ofan á viðinn. 10 Og Abraham rétti
út hönd sína og tók hnífinn, til að slátra syni sínum. 11 Þá kallaði
engill Jahve til hans af himni og mælti: Abraham! Abraham! Og hann
svaraði: Hér er eg. 12 Hann sagði þá: Legg þú ekki hönd á svein-
inn og gjör þú honum ekkert, því að nú veit eg að þú óttast Guð,
þar sem þú synjaðir mér ekki um einkason þinn. 13 Þá varð Abraham
litið upp og hann sá hrút einn*, sem var fastur á hornunum í hrís-
runni; og Abraham fór og tók hrútinn og fram bar hann að brenni-
fórn í stað sonar síns. 14 Og Abraham kallaði þennan stað »Jahve sér«,
svo að það er máltæki alt til þessa dags: »á fjallinu, þar sem Jahve
birtist«. 15 Og engill Jahve kallaði annað sinn af himni til Abrahams
16 og mælti: Eg sver við sjálfan mig, segir Jahve, að fyrst þú gjörðir
þetta og synjaðir mér eigi um einkason þinn, 17 þá skal eg ríkulega
blessa þig og stórum margfalda kyn þitt, sem stjörnur á himni, sem
sand á sjávarströnd. Og niðjar þínir skulu eignast borgarhlið óvina
sinna. 18 Og af þínu afkvæmi skulu allar þjóðir á jörðunni blessun
hljóta*, vegna þess að þú hlýddir minni röddu. 19 Eftir það fór Abra-
ham aftur til sveina sinna; og þeir tóku sig upp og fóru allir saman til
Beerseba; og Abraham bjó enn um hríð í Beerseba.
20 Eftir þetta bar svo við, að Abraham var sagt: Sjá, Milka hefir
og fætt bróður þínum Nahor sonu: 21 Ús, frumgetning hans, og Bús,
bróður hans, og Kemúel, ættföður Aramea, 22 og Kesed, Kasó, Píldas,
Jídlaf og Betúel. 23 En Betúel gat Rebekku. Þessa átta fæddi Milka
Nahor, bróður Abrahams. 24 Og hann átti hjákonu, sem hét Reúma;
hún ól honum og sonu: þá Teba, Gaham, Tahas og Maaka.

### Sara andast og er grafin.

23 Og dagar Söru voru hundrað tuttugu og sjö ár, það var aldur
Söru. 2 Og Sara dó í Kirjat-Arba — það er Hebron — í Kanaan-
landi; og Abraham fór inn*, til að harma Söru og gráta hana. 3 Síðan
gekk hann burt frá líkinu, og kom að máli við Hetíta og sagði: 4 Eg
er aðkomandi og útlendingur meðal yðar; látið mig fá legstað til
eignar hjá yður, að eg megi koma líkinu frá mér og jarða það. 5 Þá
svöruðu Hetítar Abraham og sögðu: 6 Heyr oss fyrir hvern mun, herra
minn; þú ert Guðs höfðingi vor á meðal; jarða þú líkið í hinum bezta
af legstöðum vorum; enginn meðal vor skal meina þér legstað sinn,
að þú megir jarða líkið. 7 Þá stóð Abraham upp og hneigði sig fyrir
landslýðnum, fyrir Hetítum, 8 og mælti við þá og sagði: Ef það er
yðar vilji, að eg megi jarða líkið og koma því frá mér, þá heyrið mig
og biðjið fyrir mig Efron Zóarsson, 9 að hann láti mig fá Makpela-helli,
sem hann á og er yzt í landeign hans; hann láti mig fá hann fyrir

---

**9:** kap. 12, 8. **10:** Jak. 2, 21. **11:** kap. 31, 11; 46, 2. 2 Mós. 3, 4. 1 Sam. 3, 10. **12:** Róm. 8, 32. **13:** * Annar lesháttur: sá hrút bak við sig. **16:** Sálm. 105, 9. Lúk. 1, 73. Hebr. 6, 13. **17:** kap. 12, 2; 13, 15 n. 15, 5; 24, 60; 26, 4; 32, 12. **18:** kap. 12, 3. Gal. 3, 14. 16. Hebr. 11, 8. 17. * Eða: allar þjóðir á jörðunni skulu óska sér blessunar, slíkrar sem þíns afkvæmis. **20:** kap. 11, 29; 24, 24. **21:** Job 1, 1; 32, 2. **23:** kap. 24, 15. 24. **24:** 2 Sam. 10, 8. — **23, 2:** Jós. 15, 13. * Þ. e. í tjaldið. Kap. 50, 10. **4:** 1 Kron. 29, 15. Post. 7, 5. Hebr. 11, 9. 13.

fult verð til grafreits meðal yðar. 10 En Efron sat þar meðal Hetíta.
Þá svaraði Hetítinn Efron Abraham, í viðurvist Hetíta, frammi fyrir
öllum þeim, sem gengu út og inn um borgarhlið hans, og mælti: 11 Nei,
herra minn, heyr mig! Landið gef eg þér, og hellinn, sem í því er,
hann gef eg þér líka; í augsýn samlanda minna gef eg þér hann.
Jarða þú þar líkið. 12 Þá hneigði Abraham sig fyrir landslýðnum;
13 mælti því næst til Efrons í viðurvist landslýðsins á þessa leið:
Heyr nú, gef gaum að máli mínu! Eg greiði fé fyrir landið; tak þú
við því af mér, að eg megi jarða líkið þar. 14 Þá svaraði Efron Abraham
og mælti: 15 Herra minn, gef fyrir hvern mun gaum að máli
mínu¹! Jörð, sem er fjögur hundruð silfur-sikla virði, hvað er það
okkar í milli? jarða þú líkið. 16 Og Abraham lét að orðum Efrons, og
Abraham vó Efron silfrið, sem hann hafði til tekið í viðurvist Hetíta,
fjögur hundruð sikla í gangsilfri. 17 Þannig var landeign Efrons, sem
er hjá Makpela gegnt Mamre: landeignin og hellirinn, sem í henni var,
og öll trén, er í landeigninni voru, innan takmarka hennar hringinn í
kring, — 18 fest Abraham til eignar, í viðurvist Hetíta, frammi fyrir
öllum, sem út og inn gengu um borgarhlið hans. 19 Og eftir það jarðaði
Abraham Söru konu sína í helli Makpela-lands gegnt Mamre —
það er Hebron — í Kanaanlandi. 20 Þannig fékk Abraham landið og
hellinn, sem í því var, hjá Hetítum til eignar fyrir grafreit.

## Ísak fær Rebekku.

24 En Abraham var gamall og hniginn að aldri, og Jahve hafði
blessað Abraham í öllu. 2 Þá sagði Abraham við þjón sinn,
þann er elztur var í húsi hans og umsjónarmaður yfir öllu, sem hann
átti: Legg þú hönd þína undir lend mína, 3 og vinn mér eið að því við
Jahve, Guð himinsins og Guð jarðarinnar, að þú skulir ekki taka syni
mínum til handa konu af dætrum Kanaaníta, er eg bý á meðal;
4 heldur skaltu fara til föðurlands míns og til ættfólks míns, og taka
konu handa Ísak syni mínum. 5 En þjónninn svaraði honum: En ef
konan vill ekki fara með mér til þessa lands, á eg þá að fara með
son þinn aftur í það land, sem þú fórst úr? 6 Og Abraham sagði við
hann: Varastu að hafa son minn þangað! 7 Jahve, Guð himinsins,
sem tók mig úr húsi föður míns og úr ættlandi mínu, sem hefir talað
við mig og svarið mér og sagt: »Þínum niðjum mun eg gefa þetta
land«, — hann mun senda engil sinn á undan þér, að þú megir þaðan
fá syni mínum konu. 8 Og vilji konan ekki fara með þér, þá ertu
leystur af eiðnum. En með son minn mátt þú ekki fyrir nokkurn
mun fara þangað aftur. 9 Þá lagði þjónninn hönd sína undir lend
Abrahams húsbónda síns og vann honum eið að þessu. 10 Þá tók
þjónninn tíu úlfalda af úlföldum húsbónda síns og lagði af stað, og
hafði með sér alls konar dýrgripi húsbónda síns; og hann tók sig upp
og hélt til Mesópótamíu, til borgar Nahors. 11 Og hann áði úlföldunum
utan borgar hjá vatnsbrunni að kveldi dags, í það mund, er konur
voru vanar að ganga út að ausa vatn. 12 Og hann mælti: Jahve, Guð
húsbónda míns Abrahams, lát mér hepnast erindi mitt í dag og auðsýn
miskunn húsbónda mínum Abraham. 13 Sjá, eg stend við vatnslind og
dætur bæjarmanna ganga út að ausa vatn; 14 og ef sú stúlka, sem eg

---

15: ¹ Annar lesháttur: Nei, herra minn, gef gaum að máli mínu! 17: kap. 49, 30; 50, 13. Post. 7, 16. 19: kap. 25, 9n. — 24, 1: kap. 18, 11. 2: kap. 15, 2. 3: kap. 21, 23; 28, 1. 7: kap. 12, 7; 13, 15; 15, 18; 26, 4. 2 Mós. 23, 20; 33, 2. 10: kap. 25, 20.

segi við: Tak niður skjólu þína, að eg megi drekka, svarar: »Drekk þú,
og eg vil líka brynna úlföldum þínum«, — hún sé sú, sem þú hefir
fyrirhugað þjóni þínum Ísak; og af því mun eg marka, að þú auð-
sýnir miskunn húsbónda mínum. 15 En áður en hann hafði lokið máli
sínu, sjá, þá kom Rebekka, dóttir Betúels, sonar Milku, konu Nahors,
bróður Abrahams, og bar hún skjólu sína á öxlinni. 16 En stúlkan
var einkar fríð sýnum, mey og enginn maður hafði kent hennar; og
hún gekk niður að lindinni, fylti skjólu sína og gekk aftur upp frá
lindinni. 17 Þá hljóp þjónninn móti henni og mælti: Gef mér vatnssopa
að drekka úr skjólu þinni. 18 Og hún svaraði: Drekk, herra minn!
og hún tók jafnskjótt skjóluna niður af öxlinni í hönd sér og gaf
honum að drekka. 19 Og er hún hafði gefið honum að drekka, mælti
hún: Líka skal eg ausa vatn úlföldum þínum, unz þeir hafa drukkið
nægju sína. 20 Og hún flýtti sér og steypti úr skjólu sinni í vatns-
stokkinn, og hljóp svo aftur að brunninum að ausa vatn; og hún jós
vatn öllum úlföldum hans. 21 En maðurinn starði á hana þegjandi, til
þess að komast að raun um, hvort Jahve hefði látið ferð hans hepnast
eða ekki. 22 En er úlfaldar hans höfðu drukkið nægju sína, tók mað-
urinn nefhring úr gulli, sem vó hálfan sikil, og tvö armbönd og dró
á hendur henni; vógu þau tíu sikla gulls. 23 Því næst mælti hann:
Hvers dóttir ert þú? segðu mér það. Er rúm í húsi föður þíns, til að
hýsa oss í nótt? 24 Og hún sagði við hann: Eg er dóttir Betúels, sonar
Milku, sem hún ól Nahor. 25 Þá sagði hún við hann: Vér höfum yfrið
nóg bæði af hálmi og fóðri, og einnig húsrúm til gistingar. 26 Þá laut
maðurinn höfði, bað til Jahve 27 og mælti: Lofaður sé Jahve, Guð
Abrahams húsbónda míns, sem hefir ekki dregið í hlé miskunn sína
og trúfesti við húsbónda minn. Mig hefir Jahve leitt veginn til húss
bræðra húsbónda míns. 28 Og stúlkan skundaði heim og sagði í húsi
móður sinnar frá því, sem við hafði borið. 29 En Rebekka átti bróður,
sem Laban hét, og Laban hljóp til mannsins út að lindinni. 30 Og
er hann sá hringinn og armböndin á höndum systur sinnar og heyrði
orð Rebekku systur sinnar, sem sagði: »Svona talaði maðurinn við
mig«, þá fór hann til mannsins. Og sjá, hann stóð hjá úlföldunum
við lindina*. 31 Og hann sagði: Kom þú inn, blessaður af Jahve, hví
stendur þú hér úti. Eg hefi rýmt til í húsinu og pláss er fyrir úlfalda
þína. 32 Þá gekk maðurinn inn í húsið, og hann spretti af úlföldunum
og gaf þeim hálm og fóður, en færði honum vatn til að þvo fætur
sína og fætur þeirra manna, sem voru með honum. 33 Og matur var
fram borinn fyrir hann, en hann sagði: Eigi vil eg matar neyta, fyr
en eg hefi borið upp erindi mitt. Og hann svaraði: Tala þú! 34 Og
hann mælti: Eg er þjónn Abrahams. 35 Jahve hefir ríkulega blessað
húsbónda minn, svo að hann er orðinn auðmaður, og hann hefir gefið
honum sauði og naut, silfur og gull, þræla og ambáttir, úlfalda og
asna. 36 Og Sara, kona húsbónda míns, hefir alið húsbónda mínum
son í elli sinni, og honum hefir hann gefið alt, sem hann á. 37 Og
húsbóndi minn tók af mér eið og sagði: Þú mátt eigi konu taka syni
mínum af dætrum Kanaaníta, er eg bý hjá; 38 heldur skalt þú fara í
hús föður míns og til ættingja minna og taka syni mínum konu.

---

**15**: kap. 22, 23. **17**: Jóh. 4, 7. **24**: kap. 22, 20. 23. **29**: kap. 28, 5. **30**: * Sýnilega hefir orðaröðin í 29. og 30. versi frumtextans raskast og ætti að vera þannig: En Rebekka átti bróður, sem Laban hét; og er hann sá hringinn og armböndin á höndum systur sinnar og hann heyrði orð Rebekku systur sinnar, sem sagði: »Svona talaði maðurinn við mig«, þá hljóp Laban til mannsins út að lindinni og kom til mannsins; og sjá, hann stóð enn hjá úlföldunum við lindina. **31**: kap. 26, 29. Sálm. 115, 15. **35**: kap. 13, 2. **36**: kap. 21, 2.

39 Og eg sagði við húsbónda minn: Vera má að konan vilji ekki fara
með mér. 40 Og hann svaraði mér: Jahve, fyrir hvers augsýn eg hefi
gengið, mun senda engil sinn með þér og láta ferð þína hepnast, svo
að þú megir fá konu til handa syni mínum af ætt minni og úr húsi
föður míns; 41 þá skaltu vera laus við þann eið, sem þú vinnur mér,
ef þú fer til ættingja minna; og vilji þeir ekki gefa þér hana, þá ertu
laus við eiðinn, sem eg tek af þér. 42 Og er eg í dag kom að lindinni,
sagði eg: Jahve, Guð Abrahams húsbónda míns, ætlir þú að láta þá
för lánast, sem eg nú er að fara, 43 þá sjá, eg stend við þessa lind,
og fari svo, að sú stúlka, sem kemur hingað til að sækja vatn og eg
segi við: »Gef mér að drekka vatnssopa úr skjólu þinni«, 44 svarar mér:
Drekk þú, og líka skal eg ausa úlföldum þínum vatn, — hún sé sú
kona, sem Jahve hefir fyrirhugað syni húsbónda míns. 45 En áður en
eg hafði lokið þessu tali við sjálfan mig, sjá, þá kom Rebekka út
þangað með skjólu sína á öxlinni og gekk niður að lindinni og bar
upp vatn; og eg sagði við hana: Gef mér að drekka! 46 Og óðara tók
hún skjóluna niður af öxlinni og sagði: Drekk þú, og líka skal eg
brynna úlföldum þínum. Og eg drakk, og hún brynti líka úlföldunum.
47 Þá spurði eg hana og mælti: Hvers dóttir ert þú? Og hún sagði:
Dóttir Betúels, sonar Nahors, sem Milka ól honum. Lét eg þá hring-
inn í nef hennar og armböndin á hendur hennar. 48 Og eg laut höfði
og bað til Jahve; og eg lofaði Jahve, Guð Abrahams húsbónda míns,
sem hafði leitt mig hinn rétta veg, til að taka bróðurdóttur húsbónda
míns syni hans til handa. 49 Og nú, ef þér viljið sýna vináttu og trygð
húsbónda mínum, þá segið mér það; en viljið þér það ekki, þá segið
mér og það, svo að eg geti snúið mér til hægri eða vinstri.
50 Þá svöruðu þeir Laban og Betúel og sögðu: Þetta er frá Jahve
komið; við getum ekkert við þig sagt, hvorki ilt né gott. 51 Sjá, Re-
bekka er á þínu valdi, tak þú hana og far þína leið, að hún verði kona
sonar húsbónda þíns, eins og Jahve hefir sagt. 52 Og er þjónn Abrahams
heyrði þessi orð, laut hann til jarðar fyrir Jahve. 53 Og þjónninn tók
upp skartgripi af silfri og skartgripi af gulli og klæði, og gaf Rebekku,
en bróður hennar og móður gaf hann gersemar. 54 Því næst átu þeir
og drukku, hann og mennirnir, sem með honum voru, og gistu þar um
nóttina. Og er þeir voru risnir úr rekkju um morguninn, mælti hann:
Látið mig nú fara heim til húsbónda míns. 55 Þá svöruðu bróðir hen-
ar og móðir: Leyf þú stúlkunni að vera hjá oss enn nokkurn tíma
eða eina tíu daga. Þá má hún fara. 56 En hann svaraði þeim: Tefjið
mig ekki! Jahve hefir látið ferð mína hepnast; leyfið mér að fara heim
til húsbónda míns. 57 Þau sögðu þá: Við skulum kalla á stúlkuna og
spyrja hana sjálfa. 58 Þá kölluðu þau á Rebekku og sögðu við hana:
Vilt þú fara með þessum manni? Og hún sagði: Eg vil fara. 59 Þá
létu þau Rebekku systur sína og fóstru hennar fara með þjóni Abra-
hams og mönnum hans. 60 Og þau blessuðu Rebekku og sögðu við
hana: Systir vor, vaxi af þér þúsundir þúsunda og eignist niðjar þínir
borgarhlið fjandmanna sinna! 61 Þá tók Rebekka sig upp með þernum
sínum og þær riðu úlföldunum og fóru með manninum; og þjónninn
tók Rebekku og fór leiðar sinnar. 62 En Ísak hafði gengið út í eyði-
mörkina að Beer-lakaj-róí*, því að hann bjó í suðurhluta landsins**.
63 Og Ísak hafði gengið út að áliðnum degi, til að gjöra bæn sína* úti
á mörkinni, og hann hóf upp augu sín og sá úlfalda koma. 64 Og
Rebekka leit upp og sá Ísak; sté hún þá jafnskjótt niður af úlfaldanum.

---

**40**: kap. 17, 1. 5 Mós. 8, 6. Jós. 22, 5. **60**: kap. 22, 17. **62**: * Sbr. kap. 16, 14 og 25, 11. ** Sbr. kap. 13, 1. **63**: * Eða: kveina, telja sér harmatölur (sbr. 67. v.).

65 Og hún sagði við þjóninn: Hver er þessi maður, sem kemur á móti
oss þarna á mörkinni? Og þjónninn svaraði: Það er húsbóndi minn.
Þá tók hún skýluna og huldi sig. 66 Og þjónninn sagði Ísak frá öllu
því, sem hann hafði gjört. 67 Og Ísak leiddi hana í tjald Söru móður
sinnar, og tók Rebekku og hún varð kona hans og hann elskaði hana.
Og Ísak huggaðist af harmi þeim, er hann bar eftir móður sína.

### Abraham kvongast í annað sinn, deyr og er grafinn.

25 Og Abraham tók sér enn konu; hún hét Ketúra. 2 Og hún
ól honum Símran, Joksan, Medan, Midían, Jísbak og Súa. 3 Og
Joksan gat Séba og Dedan, og synir Dedans voru Assúrítar, Letúsítar
og Leúmmítar. 4 Og synir Midíans voru: Efa, Efer, Hanok, Abída og
Eldaa; allir þessir eru niðjar Ketúru. 5 Og Abraham gaf Ísak alt, sem
hann átti. 6 En sonum þeim, sem Abraham hafði átt með hjákon-
unum, gaf hann gjafir og lét þá, meðan hann enn var á lífi, fara burt
frá Ísak syni sínum í austurátt, til austurlanda. 7 Þetta eru æfidagar
Abrahams, sem hann lifði: hundrað sjötíu og fimm ár. 8 Og Abraham
andaðist og dó í góðri elli, gamall og saddur lífdaga, og safnaðist til
síns fólks. 9 Og Ísak og Ísmael synir hans jörðuðu hann í Makpela-
helli í landi Efrons, sonar Hetítans Zóars, sem er gegnt Mamre, 10 í
landi því, sem Abraham hafði keypt af Hetítum; þar var Abraham jarð-
aður og Sara kona hans. 11 Og eftir andlát Abrahams blessaði Guð Ísak
son hans. En Ísak bjó hjá Beer-lakaj-rói.

### Ættkvísl Ísmaels.

12 Þetta er ættartal Ísmaels Abrahamssonar, sem Hagar hin egipzka,
ambátt Söru, ól honum. 13 Og þessi eru nöfn Ísmaels sona, samkvæmt
nöfnum þeirra, eftir kynþáttum þeirra. Nebajót var hans frumgetinn
son, þá Kedar, Adbeel, Míbsam, 14 Misma, Dúma, Massa, 15 Hadar*,
Tema, Jetúr, Nafis og Kedma. 16 Þessir eru synir Ísmaels og þessi eru
nöfn þeirra, eftir þorpum þeirra og tjaldbúðum, tólf höfðingjar, eftir
ættkvíslum þeirra. 17 Og þetta voru æfiár Ísmaels: hundrað þrjátíu og
sjö ár, þá andaðist hann og dó, og safnaðist til síns fólks. 18 Og þeir
bjuggu frá Havíla til Súr, sem er fyrir austan Egiptaland, í stefnu til
Assúr; fyrir austan alla bræður sína tók hann* sér bústað.

### Esaú og Jakob fæðast. Esaú selur frumburðarréttinn.

19 Þetta er saga Ísaks Abrahamssonar: Abraham gat Ísak. 20 Og
Ísak var fertugur að aldri, er hann gekk að eiga Rebekku, dóttur Betú-
els hins aramíska frá Paddan-aram, systur Labans hins aramíska. 21 Og
Ísak bað Jahve fyrir konu sinni, því að hún var óbyrja, og Jahve bæn-
heyrði hann og Rebekka kona hans varð þunguð. 22 Og er börnin hnitl-
uðust í kviði hennar, sagði hún: Sé það svona, hví lifi eg þá? Gekk hún
þá til frétta við Jahve. 23 En Jahve svaraði henni:

Þú gengur með tvær þjóðir
og tveir ættleggir munu af skauti þínu kvíslast;
annar verður sterkari en hinn,
og hinn eldri mun þjóna hinum yngri.

---

**25, 2**: 1 Kron. 1, 32. **8**: kap. 15, 15; 35, 29. **9**: kap. 49, 31. **10**: kap. 23, 16 n. **11**: kap. 16, 14; 24, 62. **12**: 1 Kron. 1, 29 n. **13**: kap. 28, 9. Jes. 60, 7. **15**: * Eða: Hadad. **16**: kap. 17, 20. **18**: * Þ. e. Ísmael. **20**: kap. 24, 10. 67. **21**: kap. 21, 1. **23**: kap. 27, 29. Mal. 1, 2. Róm. 9, 10—12.

[24] Og er dagar hennar fullnuðust, að hún skyldi fæða, sjá, þá voru tví-
burar í kviði hennar. [25] Og hinn fyrri kom í ljós, rauður að lit og
allur sem loðfeldur, og var hann nefndur Esaú*. [26] Og eftir það kom
bróðir hans í ljós og hélt hann um hælinn á Esaú, og var hann nefnd-
ur Jakob*. En Ísak var sextíu ára, er hún ól þá. [27] En er sveinarnir
voru vaxnir, gjörðist Esaú slyngur veiðimaður og hafðist við á heiðum;
en Jakob var maður gæfur og bjó í tjöldum. [28] Og Ísak unni Esaú,
því að villibráð þótti honum góð; en Rebekka unni Jakob. [29] Og einu
sinni hafði Jakob soðið rétt nokkurn; kom þá Esaú af heiðum og var
dauðþreyttur. [30] Þá sagði Esaú við Jakob: Gef mér fljótt að eta hið
rauða, þetta rauða þarna; því að eg er dauðþreyttur. Fyrir því nefndu
menn hann Edóm*. [31] En Jakob mælti: Seldu mér fyrst frumburðar-
rétt þinn. [32] Og Esaú mælti: Eg er kominn í dauðann; hvað stoðar
mig frumburðarréttur minn? [33] Og Jakob mælti: Vinn þú mér þá fyrst
eið að því! Og hann vann honum eiðinn og seldi Jakob frumburðar-
rétt sinn. [34] En Jakob gaf Esaú brauð og baunarétt, og hann át og
drakk og stóð upp og gekk burt. Þannig lítilsvirti Esaú frumburðar-
rétt sinn.

## Dvöl Ísaks í Gerar og sáttmáli hans við Abímelek. Konur Esaú.

26 Og hallæri varð í landinu, — annað hallæri en hið fyrra, sem
var á dögum Abrahams. Fór þá Ísak til Abímeleks, Filista kon-
ungs í Gerar. [2] Og Jahve birtist honum og mælti: Far þú ekki til Egipta-
lands, ver þú kyrr í því landi, sem eg segi þér. [3] Dvel þú um hríð í
þessu landi, og eg mun vera með þér og blessa þig; því að þér og nið-
jum þínum mun eg gefa öll þessi lönd, og eg mun halda þann eið,
sem eg sór Abraham, föður þínum. [4] Og eg mun margfalda niðja þína
sem stjörnur himinsins og gefa niðjum þínum öll þessi lönd, og af þínu
afkvæmi skulu allar þjóðir á jörðunni blessun hljóta*, [5] af því að Abra-
ham hlýddi minni röddu og varðveitti boðorð mín, skipanir mínar, á-
kvæði og lög. [6] Og Ísak staðnæmdist í Gerar. [7] Og er menn þar spurðu
um konu hans, sagði hann: Hún er systir mín; því að hann þorði
ekki að segja: hún er kona mín; ella kynnu, hugsaði hann, menn þar
að myrða mig vegna Rebekku, af því að hún er fríð sýnum. [8] Og svo
bar við, er hann hafði verið þar um hríð, að Abímelek Filista kon-
ungur leit út um gluggann og sá, að Ísak lét vel að Rebekku konu
sinni. [9] Þá kallaði Abímelek á Ísak og mælti: Sjá, vissulega er hún
kona þín; og hvernig gazt þú sagt: »Hún er systir mín«? Og Ísak sagði
við hann: Eg hugsaði, að ella mundi eg láta lífið fyrir hennar sakir.
[10] Og Abímelek mælti: Hví hefir þú gjört oss þetta? Hæglega gat það
viljað til, að einhver af lýðnum hefði lagst með konu þinni, og hefðir
þú þá leitt yfir oss syndasekt. [11] Síðan bauð Abímelek öllum lands-
lýðnum og mælti: Hver, sem snertir þennan mann og konu hans, skal
vissulega deyja. [12] Og Ísak sáði í þessu landi og uppskar hundraðfalt
á því ári, því að Jahve blessaði hann. [13] Og maðurinn efldist og auðg-
aðist meir og meir, unz hann var orðinn stórauðugur. [14] Og hann átti
sauðahjarðir og nautahjarðir og margt þjónustufólk, svo að Filistar öf-
unduðu hann. [15] Og alla þá brunna, sem þjónar föður hans höfðu
grafið á dögum Abrahams föður hans, byrgðu Filistar og fyltu með

**25:** * Þ. e. loðinn. **26:** Hós. 12, 4. * Þ. e. hælhaldari. Kap. 27, 36. **30:** kap. 36, 1. 19. * Þ. e. rauður. **33:** kap. 27, 36. Hebr. 12, 16. — **26, 1:** kap. 12, 10; 20, 2. **3:** kap. 12, 7 n. **4:** kap. 15, 5; 22, 17. * Sbr. kap. 22, 18; 12, 3; 18, 18. **5:** Hebr. 11, 8. 3 Mós. 18, 30. **7:** kap. 12, 13 n. **9:** kap. 20, 11. **10:** kap. 20, 9. **11:** Sálm. 105, 15. **12:** Lúk. 8, 8. **15:** kap. 21, 25.

mold. 16 Og Abímelek sagði við Ísak: Far þú burt frá oss, því að þú
ert orðinn miklu voldugri en vér. 17 Þá fór Ísak þaðan og tók sér
bólfestu í Gerar-dal og bjó þar. 18 Og Ísak lét aftur grafa upp brunn-
ana, sem þeir höfðu grafið á dögum Abrahams föður hans og Filistar
höfðu aftur byrgt eftir dauða Abrahams, og gaf þeim hin sömu heiti
sem faðir hans hafði gefið þeim. 19 Og þrælar Ísaks grófu í dalnum og
fundu þar brunn lifandi vatns. 20 En fjárhirðar í Gerar deildu við fjár-
hirða Ísaks og sögðu: Vér eigum vatnið. Og hann nefndi brunninn
Esek*, af því að þeir höfðu þráttað við hann. 21 Þá grófu þeir annan
brunn, en deildu einnig um hann, og hann nefndi hann Sitna*. 22 Eftir
það fór hann þaðan og gróf enn brunn; en um hann deildu þeir ekki,
og hann nefndi hann Rehóbót* og sagði: Nú hefir Jahve rýmkað um
oss, svo að vér megum vaxa í landinu. 23 Og þaðan fór hann upp til
Beerseba. 24 Þá hina sömu nótt birtist Jahve honum og mælti: Eg er
Guð Abrahams föður þíns; óttast þú eigi, því að eg er með þér; og eg
mun blessa þig og margfalda afkvæmi þitt fyrir sakir Abrahams, þjóns
míns. 25 Og hann reisti þar altari og ákallaði nafn Jahve og setti þar
tjald sitt; og þrælar Ísaks grófu þar brunn. 26 Þá kom Abímelek til
hans frá Gerar og Akúsat vinur hans og Píkól hershöfðingi hans. 27 Þá
sagði Ísak við þá: Hví komið þér til mín, þar sem þér þó hatið mig
og hafið rekið mig burt frá yður? 28 En þeir svöruðu: Vér höfum ber-
lega séð að Jahve er með þér; fyrir því sögðum vér: Eiður sé milli
vor, milli vor og þín, og vér viljum gjöra við þig sáttmála: 29 þú skalt
oss ekki mein gjöra, svo sem vér höfum eigi snortið þig og svo sem
vér höfum eigi gjört þér nema gott og látið þig fara í friði; því að þú
ert nú blessaður af Jahve. 30 Eftir það gjörði hann þeim veizlu, og
þeir átu og drukku. 31 Og árla morguninn eftir unnu þeir hver öðrum
eiða; og Ísak lét þá í burt fara og þeir fóru frá honum í friði. 32 Þann
sama dag bar svo við, að þrælar Ísaks komu og sögðu honum frá
brunninum, sem þeir höfðu grafið, og mæltu við hann: Vér höfum
fundið vatn. 33 Og hann nefndi hann Síba; fyrir því heitir borgin Beer-
seba alt til þessa dags. 34 En er Esaú var fertugur að aldri, gekk hann
að eiga Júdít, dóttur Hetítans Beerí, og Basmat, dóttur Hetítans Elons.
35 Og var þeim Ísak og Rebekku sár skapraun að þeim.

### Jakob nær blessun föður síns.

27 Og svo bar til, er Ísak var orðinn gamall og augu hans döpr-
uðust, svo að hann gat ekki séð, að hann kallaði á Esaú, eldri
son sinn, og mælti til hans: Sonur minn! Og hann svaraði honum: Hér
er eg. 2 Og hann sagði: Sjá, eg er orðinn gamall og veit ekki, nær eg
muni deyja. 3 Tak þú nú veiðigögn þín: örvamæli þinn og boga, og
far þú á heiðar og veið mér villidýr; 4 og tilreið mér ljúffengan rétt,
sem mér geðjast að, og fær mér hann, að eg megi eta, svo að sál mín
blessi þig, áður en eg dey. 5 En Rebekka heyrði, hvað Ísak talaði við
Esaú son sinn. Og er Esaú var farinn út á heiðar, til að veiða villi-
dýr og hafa heim með sér, 6 mælti Rebekka við Jakob son sinn á þessa
leið: Sjá, eg heyrði föður þinn tala við Esaú bróður þinn og segja:
7 »Fær þú mér villibráð og tilreið mér ljúffengan rétt, að eg megi eta og
blessa þig í augsýn Jahve, áður en eg dey«. 8 Og hlýð þú mér nú,

---

**20:** * Þ. e. præta. **21:** * Þ. e. óvinátta. **22:** * Þ. e. landrými. **23:** kap. 46, 1—3. **24:** kap. 15, 1. Jes. 41, 10; 43, 1. **25:** kap. 12, 8. **26:** kap. 21, 22. **27:** Dóm. 11, 7. **29:** kap. 24, 31. Sálm. 115, 15. **33:** kap. 21, 31. **34:** kap. 36, 2. — **27, 1:** kap. 48, 10. 1 Sam. 4, 15. 1 Kong. 14, 4.

fært hann aftur föður sínum. [23] En er Jósef kom til bræðra sinna,
færðu þeir hann úr kyrtli hans — dragkyrtlinum, sem hann var í, —
[24] tóku hann og köstuðu honum í gryfjuna; en gryfjan var tóm; ekkert
vatn var í henni. [25] Settust þeir nú niður að neyta matar. En er
þeim varð litið upp, sáu þeir Ísmaelíta lest koma frá Gíleað og báru
úlfaldar þeirra reykelsi, balsam og myrru; voru þeir á leið með þetta
til Egiptalands. [26] Þá mælti Júda við bræður sína: Hver ávinningur
er oss það, að drepa bróður vorn og leyna morðinu? [27] Komið, vér
skulum selja hann Ísmaelítum, en ekki leggja hendur á hann, því að
hann er bróðir vor, hold vort og blóð. Og bræður hans féllust á það.
[28] En mídíanítiskir kaupmenn fóru þar fram hjá, tóku Jósef og drógu
hann upp úr gryfjunni; og þeir seldu Jósef Ísmaelítunum fyrir tuttugu
sikla silfurs; en þeir fóru með Jósef til Egiptalands. [29] En er Rúben
kom aftur að gryfjunni, þá var Jósef ekki í gryfjunni; reif hann þá
klæði sín. [30] Og hann sneri aftur til bræðra sinna og mælti: Sveinninn
er horfinn; og hvert skal eg nú fara? [31] Þá tóku þeir kyrtil Jósefs,
skáru geithafur og velktu kyrtilinn í blóðinu. [32] Því næst sendu þeir
dragkyrtilinn og létu færa hann föður sínum með þeirri orðsending:
Þetta höfum vér fundið; gæt þú að, hvort það muni vera kyrtill sonar
þíns eða ekki. [33] Og hann skoðaði hann og mælti: Það er kyrtill
sonar míns; óarga dýr hefir etið hann; sannlega er Jósef sundur rifinn.
[34] Þá reif Jakob klæði sín og lagði hærusekk um lendar sínar og harm-
aði son sinn langan tíma. [35] Og allir synir hans og allar dætur hans
leituðust við að hugga hann; en hann vildi ekki huggast láta og sagði:
Með harmi mun eg niður stíga til sonar míns til heljar. Og faðir hans
grét hann. [36] En Mídíanítar seldu hann til Egiptalands, Pótífar hirð-
manni Faraós og lífvarðarforingja.

## Júda og Tamar.

38 Um þessar mundir bar svo við, að Júda fór frá bræðrum
sínum og lagði lag sitt við mann nokkurn í Adúllam, sem Híra
hét. [2] Þar sá Júda dóttur kanversks manns, sem Súa hét, og tók hana
og hafði samfarir við hana. [3] Og hún varð þunguð og ól son, og hún
nefndi hann Ger. [4] Og hún varð þunguð í annað sinn og ól son, og
hún nefndi hann Ónan. [5] Og enn ól hún son og nefndi hann Sela;
en hún var í Kesíb, er hún ól hann. [6] Og Júda tók konu til handa
Ger, frumgetnum syni sínum; hún hét Tamar. [7] En Ger, frumgetinn
son Júda, var vondur í augum Jahve, svo að Jahve lét hann deyja.
[8] Þá mælti Júda við Ónan: Gakk þú inn til konu bróður þíns og gegn
þú mágskyldunni við hana, að þú megir afla bróður þínum afkvæmis.
[9] En með því að Ónan vissi, að afkvæmið skyldi eigi verða hans, þá
lét hann sæðið spillast á jörðu í hvert sinn er hann gekk inn til konu
bróður síns, til þess að hann aflaði eigi bróður sínum afkvæmis. [10] En
Jahve mislíkaði það, er hann gjörði, og lét hann einnig deyja. [11] Þá
sagði Júda við Tamar tengdadóttur sína: Ver þú sem ekkja í húsi
föður þíns, þangað til Sela sonur minn verður fulltíða; því að hann
hugsaði: ella mun hann og deyja, eins og bræður hans. Fór Tamar
þá burt og var í húsi föður síns.
[12] En er fram liðu stundir, andaðist dóttir Súa, kona Júda; og er
Júda lét af harminum, fór hann upp til Timna, til sauðaklippara sinna,

---

**24:** Jer. 38, 6. Sak. 9, 11. **28:** kap. 39, 1. Sálm. 105, 17. Post. 7, 9. **29:** kap. 44, 13. Jós. 7, 6. 1 Kong. 21, 27. Job 1, 20. Jes. 37, 1. — **38, 3:** kap. 46, 12. **8:** 5 Mós. 25, 5. 6.

hann og Híra vinur hans frá Adúllam. 13 Var þá Tamar sagt svo frá:
Sjá, tengdafaðir þinn fer upp til Timna að klippa sauði sína. 14 Þá
fór hún úr ekkjubúningi sínum, huldi sig blæju og hjúpaði sig og
settist við hlið Enaímborgar, sem er við veginn til Timna; því að hún
sá, að Sela var orðinn fulltíða og hún var þó ekki honum gefin fyrir
konu. 15 Og Júda sá hana og hugði, að hún væri skækja, því að hún
hafði hulið andlit sitt. 16 Og hann vék til hennar við veginn og mælti:
Leyf mér að leggjast með þér! því að hann vissi ekki, að hún var
tengdadóttir hans. Hún svaraði: Hvað viltu gefa mér til þess, að þú
megir leggjast með mér? 17 Og hann mælti: Ég skal senda þér hafur-
kið úr hjörðinni. Hún svaraði: Fáðu mér þá pant, þangað til þú
sendir það. 18 Þá mælti hann: Hvaða pant skal eg fá þér? En hún
svaraði: Innsiglishring þinn og festi þína og staf þinn, sem þú hefir í
hendinni. Og hann fékk henni þetta og lagðist með henni, og hún
varð þunguð af hans völdum. 19 Því næst stóð hún upp, gekk burt
og lagði af sér blæjuna og fór aftur í ekkjubúning sinn. 20 Og Júda
sendi hafurkiðið með vini sínum frá Adúllam, svo að hann fengi aftur
pantinn af hendi konunnar; en hann fann hana ekki. 21 Og hann
spurði menn í þeim stað og sagði: Hvar er portkonan, sem sat við
veginn hjá Enaím? En þeir svöruðu: Hér hefir engin portkona verið.
22 Fór hann þá aftur til Júda og mælti: Eg fann hana ekki, enda sögðu
menn í þeim stað: »Hér hefir engin portkona verið«. 23 Þá mælti Júda:
Haldi hún því, sem hún hefir, að vér verðum ekki hafðir að spotti;
sjá, eg sendi þetta kið, en þú hefir ekki fundið hana. 24 En að þrem
mánuðum liðnum var Júda sagt: Tamar tengdadóttir þín hefir drýgt
hór, og meira að segja: hún er þunguð orðin í hórdómi. Þá mælti
Júda: Leiðið hana út, að hún verði brend. 25 En er hún var út leidd,
gjörði hún tengdaföður sínum þessa orðsending: Af völdum þess manns,
sem þetta á, er eg þunguð orðin; og hún sagði: Hygg þú að, hver
eiga muni innsiglishring þennan, festi og staf. 26 En Júda kannaðist
við gripina og mælti: Hún hefir betri málstað en eg, fyrir þá sök að
eg hefi eigi gift hana Sela syni mínum. Og hann kendi hennar ekki
upp frá því. 27 En er hún skyldi verða léttari, sjá, þá voru tvíburar í
kviði hennar. 28 Og í fæðingunni rétti annar út höndina; tók þá ljós-
móðirin rauðan þráð og batt um hönd hans og sagði: Þessi kom fyr
í ljós. 29 En svo fór, að hann kipti aftur að sér hendinni og þá kom
bróðir hans í ljós. Þá mælti hún: Hví hefir þú brotist svo fram þér
til góða? Og hún nefndi hann Perez. 30 Eftir það fæddist bróðir hans,
og var rauði þráðurinn um hönd hans; og hún nefndi hann Sera.

### Jósef hjá Pótífar; settur í myrkvastofu vegna skírlífis.

39 En Jósef var fluttur til Egiptalands og Pótífar, hirðmaður
Faraós og lífvarðarforingi, maður egipzkur, keypti hann af Ís-
maelítum, sem hann höfðu þangað flutt. 2 En Jahve var með Jósef,
svo að hann varð maður lángefinn; og hann var í húsi húsbónda síns,
hins egipzka manns. 3 Og er húsbóndi hans sá, að Jahve var með
honum og að Jahve lét honum hepnast alt, sem hann tók sér fyrir
hendur, 4 þá fann Jósef náð í augum hans og þjónaði honum; og hann
setti hann yfir hús sitt og fékk honum í hendur alt, sem hann átti.
5 Og upp frá þeirri stundu, er hann hafði sett Jósef yfir hús sitt og
yfir alt, sem hann átti, blessaði Jahve hús hins egipzka manns sakir

---

**15:** Orðskv. 7, 12. **16:** 3 Mós. 18, 15; 20, 12. **27:** 1 Kron. 2, 4. Matt. 1, 3. —
**39, 1:** kap. 37, 28. Sálm. 105, 17. **2:** Post. 7, 9. **3:** kap. 21, 22. **5:** kap. 30, 27.

Jósefs; og blessun Jahve var yfir öllu, sem hann átti innan húss og
utan. 6 Og hann fól Jósef til umráða allar eigur sínar og var afskifta-
laus um alt hjá honum og gekk aðeins að máltíðum.
En Jósef var vel vaxinn og fríður sýnum. 7 Og eftir þetta bar
svo til, að kona húsbónda hans rendi augum til Jósefs og mælti:
Legstu með mér! 8 En hann færðist undan og sagði við konu hús-
bónda síns: Sjá, húsbóndi minn lítur ekki eftir neinu í húsinu hjá mér
og allar eigur sínar hefir hann fengið mér í hendur. 9 Hann hefir ekki
meira vald í þessu húsi en eg, og hann fyrirmunar mér ekkert nema
þig, með því að þú ert kona hans; hvernig skyldi eg þá að hafast þessa
miklu óhæfu og syndga á móti Guði? 10 Og þó að hún leitaði til við
Jósef með þessum orðum dag eftir dag, þá lét hann ekki að vilja
hennar, að leggjast með henni og hafa samfarir við hana. 11 Þá bar
svo til einn dag, er hann gekk inn í húsið til starfa sinna og enginn
heimilismanna var þar inni, 12 að hún greip í skikkju hans og mælti:
Legstu með mér! En hann lét skikkjuna eftir í hendi hennar og flýði
og hljóp út. 13 En er hún sá, að hann hafði látið eftir skikkjuna í
hendi hennar og var flúinn út, 14 þá kallaði hún á heimafólk sitt og
mælti við það: Sjáið, hann hefir fært oss hebreskan mann til þess að
dára oss. Hann kom inn til mín og vildi hafa lagst með mér; en eg
æpti hástöfum. 15 Og er hann heyrði að eg hrópaði og kallaði, lét
hann skikkju sína eftir hjá mér og flýði og hljóp út. 16 Því næst
geymdi hún skikkju hans hjá sér þangað til húsbóndi hans kom heim.
17 Sagði hún honum þá sömu söguna og mælti: Hebreski þrællinn, sem
þú hefir til vor haft, kom til mín til þess að dára mig. 18 En þegar
eg hrópaði og kallaði, lét hann eftir skikkju sína hjá mér og flýði út.
19 En er húsbóndi hans heyrði orð konu sinnar, er hún talaði við
hann svo mælandi: »Þannig hefir þræll þinn hegðað sér við mig«, þá
varð hann ákaflega reiður. 20 Og húsbóndi Jósefs tók hann og setti
hann í myrkvastofu, þar sem bandingjar konungs voru geymdir, og
hann sat þar í myrkvastofunni. 21 En Jahve var með Jósef og veitti
honum mannahylli og lét hann finna náð í augum forstjóra myrkva-
stofunnar. 22 Og forstjóri myrkvastofunnar fékk Jósef á vald alla band-
ingjana, sem voru í myrkvastofunni; og hvað eina, sem þeir gjörðu
þar, gjörðu þeir að hans fyrirlagi. 23 Forstjóri myrkvastofunnar leit
ekki eftir neinu, sem var undir hans hendi, því að Jahve var með
honum; og hvað sem hann gjörði, það lét Jahve hepnast.

## Jósef ræður drauma bandingjanna.

40 Eftir þetta varð sá atburður, að byrlari konungsins í Egipta-
landi og bakarinn brutu á móti herra sínum, Egiptalands kon-
ungi. 2 Og Faraó reiddist báðum hirðmönnum sínum, yfirbyrlaranum
og yfirbakaranum, 3 og lét setja þá í varðhald í húsi lífvarðarforing-
jans, í myrkvastofuna, þar sem Jósef var í haldi. 4 Og lífvarðarforing-
inn setti Jósef til þess að þjóna þeim og voru þeir nú um hríð í varð-
haldi. 5 Þá dreymdi þá báða draum, byrlara og bakara konungsins
í Egiptalandi, sem haldnir voru í myrkvastofunni, sinn drauminn hvorn
sömu nóttina, og hafði hvor draumurinn sína þýðingu. 6 Og er Jósef
kom inn til þeirra um morguninn, sá hann að þeir voru óglaðir. 7 Spurði
hann þá hirðmenn Faraós, sem voru með honum í varðhaldi í húsi
húsbónda hans, og mælti: Hvers vegna eruð þið svo daprir í bragði í

---

20: Sálm. 105, 18. 21: Post. 7, 9. 23: Sálm. 1, 3. — 40, 3: kap. 39, 20.

dag? [8] En þeir svöruðu honum: Okkur hefir dreymt draum og hér er
enginn, sem geti ráðið hann. Þá sagði Jósef við þá: Er það ekki Guðs
að ráða drauma? Segið mér þó. [9] Þá sagði yfirbyrlarinn Jósef draum
sinn og mælti við hann: Mér þótti í svefninum sem vínviður stæði
fyrir framan mig. [10] Á vínviðinum voru þrjár greinar og jafnskjótt sem
hann skaut frjóöngum, spruttu blóm hans út og klasar hans báru full-
vaxin vínber. [11] En eg hélt á bikar Faraós í hendinni og tók vínberin
og sprengdi þau í bikar Faraós og rétti svo bikarinn að Faraó. [12] Þá
sagði Jósef við hann: Ráðning draumsins er þessi: þrjár vínviðar-
greinarnar merkja þrjá daga. [13] Að þrem dögum liðnum mun Faraó
hefja höfuð þitt og setja þig aftur inn í embætti þitt; munt þú þá rétta
Faraó bikarinn, eins og áður var venja, er þú varst byrlari hans. [14] En
minstu mín, er þér gengur í vil, og gjör þá miskunn á mér að minn-
ast á mig við Faraó, svo að þú megir frelsa mig úr þessu húsi. [15] Því
að mér var með leynd stolið úr landi Hebrea og eigi hefi eg heldur hér
neitt það til saka unnið, að eg yrði settur í þessa dýflissu. [16] En er
yfirbakarinn sá, að ráðning hans var góð, sagði hann við Jósef: Mig
dreymdi líka að eg bæri á höfðinu þrjár karfir með hveitibrauði; [17] og
í efstu körfunni var alls konar sælgætisbrauð handa Faraó og fuglarn-
ir átu það úr körfunni á höfði mér. [18] Þá svaraði Jósef og mælti:
Ráðning draumsins er þessi: þrjár karfirnar merkja þrjá daga. [19] Að
þrem dögum liðnum mun Faraó hefja höfuð þitt af þér og festa þig á
gálga, og fuglarnir munu eta af þér hold þitt. [20] Og það bar til á þriðja
degi, á afmælisdegi Faraós, að hann hélt öllum þjónum sínum veizlu;
hóf hann þá upp höfuð yfirbyrlarans og höfuð yfirbakarans í viðurvist
þjóna sinna. [21] Setti hann yfirbyrlarann aftur í embætti hans, að hann
mætti aftur bera Faraó bikarinn; [22] en yfirbakarann lét hann hengja,
eins og Jósef hafði ráðið drauminn fyrir þá. [23] En eigi mintist yfir-
byrlarinn Jósefs, heldur gleymdi honum.

### Draumar Faraós. Jósef kemst til virðinga.

41 En svo bar við að tveim árum liðnum, að Faraó dreymdi
draum. Hann þóttist standa við ána*. [2] Og sjá, upp úr ánni
komu sjö kýr, fallegar útlits og feitar á hold, og fóru að bíta sefgresið.
[3] Og sjá, á eftir þeim komu sjö aðrar kýr upp úr ánni, ljótar útlits og
magrar á hold, og staðnæmdust hjá hinum kúnum á árbakkanum.
[4] Og kýrnar, sem ljótar voru útlits og magrar á hold, átu upp hinar
sjö kýrnar, sem voru fallegar útlits og feitar á hold. Þá vaknaði Faraó.
[5] Og hann sofnaði aftur og dreymdi í annað sinn, og sjá, sjö öx uxu
á einni stöng, þrýstileg og væn. [6] Og sjá: sjö öx, grönn og skrælnuð
af austvindi, spruttu á eftir þeim. [7] Og hin grönnu öxin svelgdu í sig
þau sjö þrýstilegu og fullu. Þá vaknaði Faraó, og sjá: það var draum-
ur. [8] En um morguninn var honum órótt í skapi; sendi hann því og
lét kalla alla spásagnamenn Egiptalands og alla vitringa þess; og Faraó
sagði þeim drauma sína; en enginn gat ráðið þá fyrir Faraó. [9] Þá tók
yfirbyrlarinn til máls og sagði við Faraó: Eg minnist í dag synda
minna. [10] Faraó reiddist þjónum sínum og setti þá í varðhald í húsi
lífvarðarforingjans, mig og yfirbakarann. [11] Þá dreymdi okkur sömu
nóttina draum, mig og hann, sinn drauminn hvorn okkar, og hafði
hvor draumurinn sína þýðingu. [12] Þar var með okkur hebreskur sveinn,
þjónn hjá lífvarðarforingjanum; honum sögðum við drauma okkar og
hann réð þá fyrir okkur; hvorum fyrir sig réð hann eins og draumur

---

8: kap. 41, 16. 15: kap. 37, 28. — 41, 1: * Þ. e. Níl. 9: kap. 40, 1 n.

hans þýddi. 13 Og svo fór sem hann hafði ráðið okkur draumana, því
að eg var aftur settur í embætti mitt, en hinn var hengdur. 14 Þá sendi
Faraó og lét kalla Jósef og leiddu þeir hann í skyndi út úr myrkva-
stofunni; því næst lét hann skera hár sitt og fór í önnur klæði; gekk
síðan inn fyrir Faraó. 15 Þá sagði Faraó við Jósef: Mig hefir dreymt
draum og enginn getur ráðið hann; en það hefi eg af þér frétt, að þú
ráðir hvern draum, sem þú heyrir. 16 Þá svaraði Jósef Faraó og mælti:
Eigi er það á mínu valdi; Guð mun birta Faraó það, er honum má
til heilla verða. 17 Og Faraó sagði við Jósef: Mig dreymdi að eg stæði
á árbakkanum. 18 Og sjá, upp úr ánni komu sjö kýr, feitar á hold og
fallegar útlits, og fóru að bíta sefgresið. 19 Og sjá, á eftir þeim komu
upp sjö aðrar kýr, renglulegar og mjög ljótar útlits og magrar á hold;
hefi eg engar séð jafnljótar á öllu Egiptalandi. 20 Og hinar mögru og
ljótu kýrnar átu sjö fyrri feitu kýrnar. 21 En er þær höfðu etið
þær, var það ekki á þeim að sjá, að þær hefðu etið þær, heldur voru
þær ljótar útlits sem áður. Þá vaknaði eg. 22 Og eg sá í draumi mín-
um og sjá: sjö öx uxu á einni stöng, full og væn. 23 Og sjö öx korn-
laus, grönn og skrælnuð af austanvindi, spruttu á eftir þeim. 24 Og hin
grönnu öxin svelgdu í sig sjö vænu öxin. Eg hefi sagt spásagnamönn-
unum frá þessu, en enginn getur úr leyst. 25 Þá mælti Jósef við Faraó:
Draumur Faraós er einn; það, sem Guð ætlar að gjöra, hefir hann boð-
að Faraó. 26 Sjö vænu kýrnar merkja sjö ár og sjö vænu öxin merkja
sjö ár; þetta er einn og sami draumur. 27 Og sjö mögru og ljótu kýrn-
ar, sem á eftir hinum komu, merkja sjö ár, og sjö tómu öxin, sem
skrælnuð voru af austanvindi, munu vera sjö hallærisár. 28 Það er það,
sem eg sagði við Faraó: það, sem Guð ætlar að gjöra, hefir hann sýnt
Faraó. 29 Sjá, sjö ár munu koma; munu þá verða miklar nægtir um
alt Egiptaland. 30 En eftir þau munu koma sjö hallærisár; munu þá
gleymast allar nægtirnar í Egiptalandi og hungrið eyða landið. 31 Og
eigi mun nægtanna gæta í landinu sakir hallærisins, sem á eftir kem-
ur; því að það mun verða mjög mikið. 32 En þar sem Faraó dreymdi
tvisvar sinnum hið sama, þá er það fyrir þá sök, að þetta er fastráðið
af Guði og Guð mun skjótlega framkvæma það. 33 Fyrir því velji nú
Faraó til hygginn og vitran mann og setji hann yfir Egiptaland. 34 Faraó
gjöri þetta og skipi umsjónarmenn yfir landið og taki fimtung af af-
rakstri Egiptalands á sjö nægtaárunum. 35 Og þeir skulu safna öllum
vistum frá góðu árunum, sem fara í hönd, og draga saman kornbirgðir
í borgirnar undir umráð Faraós og geyma. 36 Og vistirnar skulu vera
forði fyrir landið á sjö hallærisárunum, sem koma munu yfir Egipta-
land, að landið farist eigi af hungrinu. 37 Þetta líkaði Faraó vel
og öllum þjónum hans. 38 Og Faraó sagði við þjóna sína: Munum
vér finna slíkan mann sem þennan, er Guðs andi býr í? 39 Og Faraó
sagði við Jósef: Með því að Guð hefir birt þér alt þetta, þá er eng-
inn svo hygginn og vitur sem þú. 40 Þig set eg yfir hús mitt og þínum
boðum skal öll mín þjóð hlýða, — að hásætinu einu skal eg þér æðri
vera. 41 Og Faraó sagði við Jósef: Sjá, eg set þig yfir alt Egiptaland.
42 Og Faraó tók innsiglishring sinn af hendi sér og dró á hönd Jósefs
og lét færa hann í dýrindis línklæði og lét gullmen um háls honum.
43 Og hann lét aka konum í öðrum vagni sínum og menn hrópuðu
fyrir honum »abrek«*, og hann setti hann yfir alt Egiptaland. 44 Og
Faraó sagði við Jósef: Eg er Faraó, en án þíns vilja skal enginn hreyfa

---

**14:** Sálm. 105, 20. **16:** kap. 40, 8. Dan. 2, 30. **32:** Jes. 46, 10. 11. **40:** kap. 45, 8. Sálm. 105, 21. Post. 7, 10. **43:** * Það þýðir að líkindum: Lútið honum. Kap. 45, 9.

hönd eða fót í öllu Egiptalandi. 45 Og Faraó kallaði Jósef Zafenat-
panea og gaf honum fyrir konu Asnat, dóttur Pótífera, prests í Ón.
Og Jósef ferðaðist um Egiptaland. 46 En Jósef var þrítugur að aldri,
er hann stóð frammi fyrir Faraó, Egiptalands konungi. Því næst fór Jósef
burt frá augliti Faraós og ferðaðist um alt Egiptaland. 47 Og afrakstur
landsins var afarmikill sjö nægtaárin. 48 Þá safnaði hann saman öllum
vistum þeirra sjö ára, er nægtir voru í Egiptalandi, og safnaði vistum
í borgirnar; í sérhverja borg safnaði hann vistunum af þeim ökrum,
sem umhverfis hana voru. 49 Og Jósef hrúgaði saman korni sem sandi
á sjávarströndu, ákaflega miklu, þar til hann hætti að telja, því að tölu
varð eigi á komið. 50 En Jósef fæddust tveir synir áður en fyrsta hall-
ærisárið kom; þá sonu fæddi honum Asnat, dóttir Pótífera, prests í
Ón. 51 Og Jósef nefndi hinn frumgetna Manasse; því að Guð hefir,
sagði hann, látið mig gleyma öllum þrautum mínum og öllu húsi föð-
ur míns. 52 En hinn nefndi hann Efraím; því að Guð hefir, sagði hann,
gjört mig frjósaman í landi eymdar minnar. 53 Og sjö nægtaárin, sem
voru í Egiptalandi, liðu á enda; 54 og sjö hallærisárin gengu í garð,
eins og Jósef hafði sagt; var þá hallæri í öllum löndum, en í öllu
Egiptalandi var brauð. 55 En er hungur gekk yfir alt Egiptaland, heimt-
aði lýðurinn brauð af Faraó. Þá sagði Faraó við alla Egipta: Farið
til Jósefs; gjörið það, sem hann segir yður. 56 Og hungrið gekk yfir
allan heiminn og Jósef opnaði öll forðabúrin og seldi Egiptum korn,
og hungrið svarf að í Egiptalandi. 57 Komu menn þá úr öllum lönd-
um til Egiptalands, til þess að kaupa korn hjá Jósef, því að hungrið
svarf að í öllum löndum.

## Fyrri för Jakobs sona til Egiptalands.

42 En er Jakob frétti, að korn var til í Egiptalandi, þá sagði
hann við sonu sína: Hví horfið þér hver á annan? 2 Og hann
mælti: Eg hefi sannfrétt, að korn sé til í Egiptalandi; farið þangað
og kaupið oss þar korn, að vér megum lífi halda og deyjum ekki.
3 Þá lögðu tíu bræður Jósefs af stað, til að kaupa korn í Egiptalandi.
4 En Benjamín, bróður Jósefs, lét Jakob ekki fara með bræðrum hans,
því að hann var hræddur um, að honum kynni að vilja eitthvert slys
til. 5 Og synir Ísraels komu að kaupa korn meðal annara, sem komu;
því að hungur var í Kanaanlandi. 6 En Jósef var stjórnari landsins;
hann var sá, sem seldi öllum landslýðnum korn. Og bræður Jósefs
komu og lutu honum og hneigðu sig til jarðar. 7 Og er Jósef sá bræð-
ur sína, þekti hann þá, en vék ókunnuglega að þeim og talaði harð-
lega til þeirra og mælti við þá: Hvaðan komið þér? Þeir svöruðu:
Frá Kanaanlandi, til að kaupa vistir. 8 Og Jósef þekti bræður sína, en
þeir þektu hann ekki. 9 Og Jósef mintist draumanna, sem hann hafði
dreymt um þá, og sagði við þá: Þér eruð njósnarmenn; þér eruð
komnir til þess að sjá, hvar landið er varnarlaust fyrir. 10 En þeir
svöruðu honum: Eigi er svo, herra minn, heldur eru þjónar þínir
komnir til að kaupa vistir. 11 Vér erum allir synir sama manns; vér
erum hrekklausir menn; þjónar þínir eru ekki njósnarmenn. 12 En hann
sagði við þá: Eigi er svo, heldur eruð þér komnir til þess að sjá, hvar
landið er varnarlaust fyrir. 13 Þeir svöruðu: Vér þjónar þínir erum
tólf bræður, synir sama manns í Kanaanlandi; og sjá, hinn yngsti er
nú hjá föður vorum og einn er eigi framar á lífi. 14 Og Jósef sagði

50: kap. 41, 45. 54: Sálm. 105, 16. — 42, 2: Post. 7, 12. 6: kap. 41, 40. 9: kap. 37, 7. 9. 13: kap. 37, 33.

við þá: Svo er sem eg sagði við yður: þér eruð njósnarmenn. 15 Með
þessu skuluð þér reyndir verða: svo sannarlega sem Faraó lifir, skuluð
þér ekki héðan fara, nema yngsti bróðir yðar komi hingað. 16 Sendið
einn yðar til að sækja bróður yðar; en þér hinir skuluð vera í varð-
haldi, svo að orð yðar verði reynd, hvort þér talið satt. En sé eigi
svo, þá eruð þér njósnarmenn, svo sannarlega sem Faraó lifir. 17 Síð-
an lét hann hafa þá alla í haldi í þrjá daga. 18 En á þriðja degi sagði
Jósef við þá: Þetta skuluð þér gjöra, að þér megið lífi halda, því að
eg óttast Guð. 19 Ef þér eruð hrekklausir, þá verði einn af yður bræðr-
um eftir í böndum í dýflissunni, þar sem þér voruð, en farið þér hinir
og flytjið heim korn til bjargar þurfandi heimilum yðar; 20 komið svo
til mín með yngsta bróður yðar; þá munu orð yðar reynast sönn og
þér eigi lífi týna. Og þeir gjörðu svo. 21 Þá sögðu þeir hver við ann-
an: Sannlega erum vér í sök fallnir fyrir bróður vorn; því að vér sá-
um sálarangist hans, þegar hann bað oss vægðar, en vér daufheyrð-
umst við; þess vegna erum vér komnir í þessar nauðir. 22 En Rúben
svaraði þeim og mælti: Sagði eg ekki við yður: »Syndgist ekki á svein-
inum«, en þér daufheyrðust við, og sjá: nú er einnig blóðs hans krafist.
23 En þeir vissu ekki, að Jósef skildi þá, því að þeir höfðu túlk. 24 Þá
vék hann frá þeim og grét. Síðan sneri hann til þeirra aftur og talaði
við þá og tók Símeon úr flokki þeirra og batt hann fyrir augum þeirra.
25 Síðan bauð Jósef að fylla sekki þeirra korni og láta silfur hvers eins
þeirra aftur í sekk hans og fá þeim nesti til ferðarinnar. Og var svo
gjört við þá. 26 Þá létu þeir korn sitt upp á asna sína og fóru af stað.
27 En er einn af þeim opnaði sekk sinn, til að gefa asna sínum fóður
á gistingarstaðnum, sá hann silfur sitt, og sjá: það lá ofan á í sekk
hans. 28 Og hann sagði við bræður sína: Silfur mitt er komið aftur,
sjá: það liggur hér í sekk mínum. Þá félst þeim hugur og skjálfandi
litu þeir hver á annan og sögðu: Hví hefir Guð gjört oss þetta?
29 Og þeir komu til Jakobs föður síns í Kanaanlandi og sögðu
honum frá öllu, sem fyrir þá hafði komið, með þessum orðum: 30 Mað-
urinn, landsherrann, talaði harðlega til vor og fór með oss sem værum
vér komnir til landsins í njósnarerindum. 31 En vér sögðum við hann:
Vér erum hrekklausir; vér erum ekki njósnarmenn. 32 Vér erum tólf
bræður, synir föður vors; einn er ekki framar á lífi og sá yngsti er nú
hjá föður vorum í Kanaanlandi. 33 Þá sagði maðurinn, landsherrann,
við oss: »Af þessu skal eg marka, hvort þér eruð hrekklausir: látið
einn af yður bræðrum verða eftir hjá mér, og takið korn til bjargar
þurfandi heimilum yðar og farið leiðar yðar. 34 En komið með yngsta
bróður yðar til mín, svo að eg sjái, að þér eruð ekki njósnarmenn,
heldur að þér eruð hrekklausir; þá skal eg skila yður bróður yðar
aftur og þér megið fara allra yðar ferða um landið«. 35 En er þeir
heltu úr sekkjum sínum, sjá, þá var sjóður hvers eins í sekk hans, og
er þeir og faðir þeirra sáu sjóði þeirra, urðu þeir óttaslegnir. 36 Og
Jakob faðir þeirra sagði við þá: Þér gjörið mig barnlausan; Jósef er
farinn, Símeon er farinn og nú ætlið þér að taka Benjamín; alt kemur
þetta yfir mig. 37 Þá sagði Rúben við föður sinn: Þú mátt deyða báða
sonu mína, ef eg færi þér hann ekki aftur; trúðu mér fyrir honum og
eg skal aftur koma með hann til þín. 38 En Jakob sagði: Ekki skal
sonur minn fara með yður, því að bróðir hans er dáinn og hann er
einn eftir, og verði hann fyrir slysi á þeirri leið, sem þér farið, þá leiðið
þér hærur mínar með harmi niður til heljar.

---

22: kap. 37, 21. 22. 38: kap. 44, 22. 29 n.

## Síðari för Jakobs sona til Egiptalands.

43 En hallærið var mikið í landinu. 2 Og er þeir höfðu etið upp
kornið, sem þeir höfðu sótt til Egiptalands, sagði faðir þeirra
við þá: Farið aftur og kaupið oss nokkuð af vistum. 3 Þá svaraði
Júda honum og mælti: Maðurinn lagði ríkt á við oss og sagði: »Þér
skuluð ekki sjá auglit mitt, nema bróðir yðar sé með yður«. 4 Ef þú
sendir bróður vorn með oss, þá skulum vér fara og kaupa þér vistir;
5 en ef þú vilt ekki senda hann með, þá förum vér hvergi; því að mað-
urinn sagði við oss: »Þér skuluð ekki sjá auglit mitt, nema bróðir yðar
sé með yður«. 6 Og Ísrael mælti: Hví hafið þér gjört mér svo illa til,
að segja manninum, að þér ættuð einn bróður enn? 7 Þeir svöruðu:
Maðurinn spurði ítarlega um oss og ætt vora og sagði: »Er faðir yðar
enn á lífi? eigið þér einn bróður enn?« Og vér sögðum honum eins
og var; gátum vér vitað, að hann mundi segja: »Komið hingað með
bróður yðar«? 8 En Júda sagði við Ísrael föður sinn: Láttu sveininn
fara með mér; þá skulum vér taka oss upp og fara af stað, svo að vér
megum lífi halda og ekki deyja, bæði vér og þú og börn vor. 9 Eg
skal ábyrgjast hann; af minni hendi skalt þú krefjast hans; komi eg
ekki með hann aftur til þín og leiði eg hann ekki fram fyrir þig, skal
eg vera sekur við þig alla æfi; 10 því að hefðum vér ekki tafið, þá vær-
um vér nú komnir aftur í annað sinn. 11 Þá sagði Ísrael faðir þeirra
við þá: Ef svo verður að vera, þá gjörið þetta: takið af gæðum lands-
ins í sekki yðar og færið manninum að gjöf lítið eitt af balsami og
lítið eitt af hunangi, reykelsi og myrru, pistasíu-hnetur og möndlur.
12 Og takið með yður tvöfalt gjald og hafið aftur með yður silfrið, sem
kom aftur ofan á í sekkjum yðar; vera má að það hafi verið af vangá.
13 Og takið bróður yðar; leggið því næst upp og farið aftur til manns-
ins. 14 Og almáttugur Guð gefi, að maðurinn sýni yður nú miskunn-
semi og láti lausan við yður hinn bróður yðar og Benjamín; eg hefi
hvort sem er þegar orðið fyrir sonamissi. 15 Og mennirnir tóku þessa
gjöf; líka tóku þeir tvöfalt gjald með sér og Benjamín. Og þeir lögðu
af stað og fóru til Egiptalands og gengu fyrir Jósef. 16 Og er Jósef sá
Benjamín með þeim, sagði hann við ráðsmann sinn: Far þú með þessa
menn inn í húsið og slátra þú og matreið, því að þessir menn skulu
eta með mér miðdegisverð í dag. 17 Og maðurinn gjörði sem Jósef
bauð og fór með mennina inn í hús Jósefs. 18 Og mennirnir urðu
hræddir, af því að þeir voru leiddir inn í hús Jósefs, og sögðu: Sakir
silfursins, sem aftur kom í sekki vora hið fyrra sinnið, erum vér hing-
að leiddir, svo að hann geti ráðist að oss og vaðið upp á oss og gjört
oss að þrælum og tekið asna vora. 19 Þá gengu þeir til ráðsmanns
Jósefs og töluðu við hann úti fyrir dyrum hússins 20 og sögðu: Æ, herra
minn, vér komum hingað í fyrra skiftið að kaupa vistir. 21 En svo
bar til, er vér komum í áfangastað og opnuðum sekki vora: sjá, þá var
silfur hvers eins ofan á í sekk hans, silfur vort með fullri vigt; og vér
erum nú komnir með það aftur. 22 Og annað silfur höfum vér með
oss til að kaupa vistir. Eigi vitum vér, hver látið hefir silfrið í sekki
vora. 23 Hann svaraði: Verið ókvíðnir, óttist ekki! Yðar Guð og Guð
föður yðar hefir gefið yður fjársjóð í sekki yðar. Silfur yðar er komið
til mín. Síðan leiddi hann Símeon út til þeirra. 24 Og maðurinn fór
með þá inn í hús Jósefs og gaf þeim vatn, að þeir mættu þvo fætur
sína, og ösnum þeirra gaf hann fóður. 25 Og tóku þeir nú gjöfina
fram, að hún væri til taks, er Jósef kæmi um miðdegið; því að þeir

---

**43, 3:** kap. 42, 20. **23:** kap. 42, 24.

höfðu heyrt, að þeir ættu að matast þar. [26] En er Jósef kom heim,
færðu þeir honum gjöfina, sem þeir höfðu meðferðis, inn í húsið og
hneigðu sig til jarðar fyrir honum. [27] En hann spurði, hvernig þeim
liði, og mælti: Líður yðar aldraða föður vel, sem þér gátuð um? er
hann enn á lífi? [28] Þeir svöruðu: Þjóni þínum, föður vorum, líður vel;
hann er enn á lífi. Og þeir hneigðu sig og lutu honum. [29] Og hann
hóf upp augu sín og sá Benjamín bróður sinn, son móður sinnar, og
mælti: Er þetta yngsti bróðir yðar, sem þér gátuð um við mig? Og
hann sagði: Guð sé þér náðugur, son minn! [30] Og Jósef hraðaði sér
burt, því að hjarta hans brann af ást til bróður hans, og hann vék
burt til þess að gráta, og fór inn í innra herbergið og grét þar. [31] Síð-
an þvoði hann andlit sitt og gekk út; og hann lét ekki á sér sjá og
mælti: Berið á borð! [32] Og menn báru á borð fyrir hann sér í lagi
og fyrir þá sér í lagi og sér í lagi fyrir þá Egipta, sem með honum
mötuðust, því að ekki mega Egiptar eta með Hebreum, fyrir því að
Egiptar hafa andstygð á því. [33] Og þeim var skipað til sætis gegnt
honum, hinum frumgetna eftir frumburðarrétti hans og hinum yngsta
eftir æsku hans; og mennirnir litu með undrun hver á annan. [34] Og
hann lét bera skamta frá sér til þeirra; en skamtur Benjamíns var
fimm sinnum stærri en skamtur nokkurs hinna. Og þeir drukku með
honum og urðu hreifir.

### Jósef reynir bræður sína.

44 Síðan bauð hann ráðsmanni sínum og mælti: Fyll þú sekki
mannanna vistum, svo mikið sem þeir geta með sér flutt, og
láttu silfur hvers eins ofan á í sekk hans. [2] Og bikar minn, silfurbik-
arinn, skalt þú láta ofan á í sekk hins yngsta og silfrið fyrir korn
hans. Og hann gjörði eins og Jósef bauð honum. [3] Og er bjart var
orðið næsta morgun, voru mennirnir látnir fara, þeir og asnar þeirra.
[4] Og er þeir voru komnir út úr borginni, en skamt burt farnir, sagði
Jósef við ráðsmann sinn: Bregð þú við og veit mönnunum eftirför, og
þegar þú nær þeim, skalt þú segja við þá: »Hví hafið þér launað gott
með illu? hví hafið þér stolið silfurbikar mínum? [5] Er það ekki sá,
sem herra minn drekkur af og hann spáir í? þar hafið þér illa
gjört«. [6] Og er hann náði þeim, talaði hann þessi orð til þeirra. [7] En
þeir sögðu við hann: Hví talar herra minn þannig? Fjarri sé það þjón-
um þínum að gjöra slíkt. [8] Sjá, það silfur, sem vér fundum ofan á í
sekkjum vorum, færðum vér þér aftur frá Kanaanlandi; og hvernig
skyldum vér þá stela silfri eða gulli úr húsi herra þíns? [9] Hver sá af
þjónum þínum, sem hann* finst hjá, skal deyja og þar að auki skulum
vér hinir vera þrælar herra míns. [10] Og hann svaraði: Sé þá svo sem
þér segið: sá, sem hann finst hjá, veri þræll minn, en þér skuluð vera
lausir. [11] Þá flýttu þeir sér að taka ofan hver sinn sekk og þeir opnuðu hver
sinn sekk. [12] Og hann leitaði; hann byrjaði á hinum elzta og endaði á hin-
um yngsta, og fanst þá bikarinn í sekk Benjamíns. [13] Þá rifu þeir klæði sín,
létu hver upp á sinn asna og fóru aftur til borgarinnar. [14] Og Júda og bræð-
ur hans gengu inn í hús Jósefs, en hann var þar enn þá, og þeir féllu fram
fyrir honum til jarðar. [15] Þá sagði Jósef við þá: Hvílík óhæfa er þetta,
sem þér hafið framið? Vissuð þér ekki að annar eins maður og eg
kann að spá? [16] Og Júda mælti: Hvað skulum vér segja við herra
minn, hvað skulum vér tala og hvernig skulum vér réttlæta oss? Guð
hefir fundið misgjörð þjóna þinna; sjá, vér erum þrælar herra míns,

---

**32:** kap. 46, 34. 2 Mós. 8, 26. — **44, 9:** * Þ. e. bikarinn.

bæði vér og sá, sem bikarinn fanst hjá. [17] Og hann svaraði: Fjarri
sé mér að gjöra slíkt; sá maður, sem bikarinn fanst hjá, hann sé þræll
minn; en farið þér í friði til föður yðar.
[18] Þá gekk Júda nær honum og mælti: Æ, herra minn, leyf þjóni
þínum að tala nokkur orð í áheyrn herra míns og reiði þín upptendr-
ist ekki gegn þjóni þínum, því að þú ert sem Faraó. [19] Herra minn
spurði þjóna sína og mælti: »Eigið þér föður eða bróður?« [20] Og vér
sögðum við herra minn: »Vér eigum aldraðan föður og ungan bróður,
sem hann gat í elli sinni; og bróðir hans er dáinn og hann er einn á
lífi eftir móður sína og faðir hans elskar hann«. [21] Og þú sagðir við
þjóna þína: »Komið með hann hingað til mín, að eg fái litið hann með
augum mínum«. [22] Og vér sögðum við herra minn: »Sveinninn má
ekki yfirgefa föður sinn; því að yfirgæfi hann föður sinn, mundi það
draga hann til dauða«. [23] Þá sagðir þú við þjóna þína: »Ef yngsti
bróðir yðar kemur ekki hingað með yður, þá skuluð þér ekki framar
fá að sjá auglit mitt«. [24] Og þegar vér komum heim til þjóns þíns,
föður míns, þá sögðum vér honum ummæli herra míns. [25] Og faðir
vor sagði: »Farið aftur og kaupið oss lítið eitt af vistum«. [26] Þá svör-
uðum vér: »Vér getum ekki farið þangað; megi yngsti bróðir vor fara
með oss, þá skulum vér fara þangað, því að vér fáum ekki að sjá aug-
lit mannsins, ef yngsti bróðir vor er ekki með oss«. [27] Og þjónn þinn,
faðir minn, sagði við oss: »Þér vitið, að kona mín ól mér tvo sonu.
[28] Annar þeirra fór að heiman frá mér, og eg sagði: Vissulega er hann
sundur rifinn; og hefi eg ekki séð hann síðan. [29] Og ef þér takið nú
þennan líka burt frá mér og verði hann fyrir slysi, þá munuð þér
leiða hærur mínar með hörmung til heljar«. [30] Og komi eg nú til þjóns
þíns, föður míns, og sé sveinninn ekki með oss, — því að hann ann
honum sem lífi sínu — [31] þá mun svo fara, að sjái hann að sveinninn
er eigi með oss, þá deyr hann, og þjónar þínir munu leiða hærur þjóns
þíns, föður vors, með harmi til heljar. [32] Því að þjónn þinn tók á-
byrgð á sveininum við föður minn og sagði: »Ef eg kem ekki með hann
aftur, skal eg vera sekur við föður minn alla æfi«. [33] Og lát þú því
þjón þinn verða hér eftir sem þræl herra míns í stað sveinsins, en leyf
sveininum að fara heim með bræðrum sínum. [34] Því að hvernig gæti
eg farið heim til föður míns, sé sveinninn ekki með mér? Eg yrði þá
að sjá þá hörmung, sem koma mundi yfir föður minn.

## Jósef segir til sín.

45 En Jósef gat þá ekki lengur haldið sér í augsýn allra, sem
viðstaddir voru, og kallaði: Látið alla ganga út frá mér! Og
enginn maður var inni hjá honum, þegar hann sagði bræðrum sínum
hver hann væri. [2] Og hann grét hástöfum, svo að Egiptar heyrðu það
og hirðmenn Faraós heyrðu það. [3] Og Jósef mælti við bræður sína:
Eg er Jósef. Er faðir minn enn á lífi? En bræður hans gátu ekki
svarað honum, svo hræddir urðu þeir við hann. [4] Og Jósef sagði við
bræður sína: Komið hingað til mín! Og þeir gengu til hans. Hann
mælti þá: Eg er Jósef bróðir yðar, sem þér selduð til Egiptalands. [5] En
látið það nú ekki fá yður hrygðar og setjið það ekki fyrir yður, að
þér hafið selt mig hingað, því að til lífs viðurhalds hefir Guð sent mig
hingað á undan yður; [6] því að nú hefir hallærið verið í landinu í tvö
ár og enn munu líða svo fimm ár, að hvorki verði plægt né uppskorið.
[7] En Guð hefir sent mig hingað á undan yður, til þess að halda við

**45, 5:** kap. 50, 20.

kyni yðar á jörðunni og sjá lífi yðar borgið, til mikils hjálpræðis.
8 Það er því ekki þér, sem hafið sent mig hingað, heldur Guð; og hann
hefir látið mig verða Faraó sem föður og herra alls húss hans og höfð-
ingja yfir öllu Egiptalandi. 9 Hraðið yður nú og farið heim til föður
míns og segið við hann: Svo segir Jósef sonur þinn: »Guð hefir gjört
mig að herra alls Egiptalands; kom þú til mín og tef eigi. 10 Og þú
skalt búa í Gósenlandi og vera í nánd við mig, þú og synir þínir og
sonasynir þínir og sauðfé þitt og nautgripir þínir og alt, sem þitt er,
11 En eg skal sjá þér þar fyrir viðurværi — því að enn verður hall-
æri í fimm ár —, svo að þú komist ekki í örbirgð, þú og þitt hús og
alt, sem þitt er«. 12 Og sjá: augu yðar og augu Benjamíns bróður míns
sjá, að eg með eigin munni tala við yður. 13 Og segið föður mínum
frá allri vegsemd minni á Egiptalandi og frá öllu, sem þér hafið séð;
og flýtið yður nú og komið hingað með föður minn. 14 Og hann féll
um háls Benjamín bróður sínum og grét, og Benjamín grét um háls
honum. 15 Og hann mintist við alla bræður sína, faðmaði þá og grét;
eftir það töluðu bræður hans við hann. 16 Og þau tíðindi bárust til
hirðar Faraós: Bræður Jósefs eru komnir! og lét Faraó og þjónar hans
vel yfir því. 17 Og Faraó sagði við Jósef: Seg þú við bræður þína: Þetta
skuluð þér gjöra: klyfjið eyki yðar og haldið af stað og farið til Kana-
anlands. 18 Takið föður yðar og fjölskyldur yðar og komið til mín og
skal eg gefa yður beztu afurðir Egiptalands, og þér skuluð eta feiti
landsins. 19 Og bjóð þú þeim: Gjörið svo: takið yður vagna í Egipta-
landi handa börnum yðar og konum yðar og flytjið föður yðar og
komið. 20 Og hirðið eigi um búshluti yðar, því að hið bezta í öllu
Egiptalandi skal vera yðar. 21 Og synir Ísraels gjörðu svo, og Jósef
fékk þeim vagna eftir boði Faraós og hann gaf þeim nesti til ferðar-
innar. 22 Hann gaf og sérhverjum þeirra alklæðnað, en Benjamín gaf
hann þrjú hundruð sikla silfurs og fimm alklæðnaði. 23 Og föður
sínum sendi hann sömuleiðis tíu asna klyfjaða hinum beztu afurðum
Egiptalands og tíu ösnur klyfjaðar korni og brauði og vistum handa
föður hans til ferðarinnar. 24 Lét hann síðan bræður sína fara og þeir
héldu af stað. Og hann sagði við þá: Deilið ekki á leiðinni. 25 Og
þeir fóru frá Egiptalandi og komu til Kanaanlands, heim til Jakobs
föður síns. 26 Og þeir færðu honum tíðindin og sögðu: Jósef er enn
á lífi og er höfðingi yfir öllu Egiptalandi. En hjarta hans komst
ekki við, því að hann trúði þeim ekki. 27 En er þeir báru honum öll
orð Jósefs, sem hann hafði við þá talað, og hann sá vagnana, sem
Jósef hafði sent til að flytja hann á, þá lifnaði yfir Jakob föður þeirra.
28 Og Ísrael sagði: Mér er það nóg, að Jósef sonur minn er enn
á lífi. Eg vil fara og sjá hann áður en eg dey.

### Jakob fer til Egiptalands. Ættleggur hans.

46 Og Ísrael lagði af stað með alt sitt, og hann kom til Beer-
seba og færði þar Guði Ísaks föður síns sláturfórn. 2 Og Guð
talaði við Ísrael í sýn um nóttina og sagði: Jakob, Jakob! Og hann
svaraði: Hér er eg. 3 Og hann sagði: Eg er Guð, Guð föður þíns.
Óttast þú ekki að fara til Egiptalands, því að þar mun eg gjöra þig
að mikilli þjóð. 4 Eg mun fara með þér til Egiptalands og eg mun
líka flytja þig þaðan aftur og Jósef skal veita þér nábjargirnar. 5 Þá
tók Jakob sig upp frá Beerseba, og Ísraels synir fluttu Jakob föður
sinn og börn sín og konur sínar á vögnunum, sem Faraó hafði sent

28: kap. 46, 30. — 46, 1: *Sálm.* 105, 23. 3: kap. 35, 11. 4: kap. 50, 1.

til að flytja hann á. 6 Og þeir tóku fénað sinn og fjárhluti, sem þeir
höfðu aflað sér í Kanaanlandi, og komu til Egiptalands, Jakob og allir
niðjar hans með honum; 7 sonu sína og sonasonu, dætur sínar og
sonadætur og alla niðja sína flutti hann með sér til Egiptalands.
8 Þessi eru nöfn Ísraels sona, sem komu til Egiptalands: Jakob
og synir hans. Rúben, frumgetinn son Jakobs. 9 En synir Rúbens
voru: Hanok, Pallú, Hezron og Karmí. 10 Og synir Símeons: Jemúel,
Jamín, Óhad, Jakín, Zóar og Sál, sonur kanversku konunnar. 11 Og
synir Leví: Gerson, Kahat og Merarí. 12 Og synir Júda: Ger, Ónan,
Sela, Perez og Sera; en Ger og Ónan dóu í Kanaanlandi; en synir
Perez voru: Hesron og Hamúl. 13 Og synir Íssakars: Tóla, Púva, Job
og Símron. 14 Og synir Sebúlons: Sered, Elon og Jahleel. 15 Þessir eru
synir Leu, sem hún fæddi Jakob í Mesópótamíu, ásamt Dínu dóttur
hans; allir synir hans og dætur voru að tölu þrjátíu og þrjú. 16 Og
synir Gaðs: Zífjón, Haggí, Súní, Ezbon, Erí, Aródí og Arelí. 17 Og synir
Assers: Jímna, Jísva, Jísví, Bría og Sera systir þeirra; en synir Bría
voru: Heber og Malkíel. 18 Þessir eru synir Silpu, sem Laban gaf Leu
dóttur sinni; hún ól Jakob þessa, sextán sálir. 19 Synir Rakelar, konu
Jakobs: Jósef og Benjamín. 20 En Jósef fæddust synir í Egiptalandi:
Manasse og Efraím, sem Asnat, dóttir Pótífera prests í Ón, ól honum.
21 Og synir Benjamíns: Bela, Beker, Asbel, Gera, Naaman, Ehí, Rós,
Múppím, Húppím og Ard. 22 Þetta eru synir Rakelar, sem hún ól
Jakob, alls fjórtán sálir. 23 Og synir Dans: Húsín. 24 Og synir Naftalí:
Jahzeel, Gúní, Jezer og Sillem. 25 Þessir eru synir Bílu, sem Laban
gaf Rakel dóttur sinni, og þessa ól hún Jakob, sjö sálir alls. 26 Og
allar þær sálir, sem komu með Jakob til Egiptalands og af honum
voru komnar, voru sextíu og sex að tölu, auk sonakvenna Jakobs.
27 Og synir Jósefs, sem honum höfðu fæðst í Egiptalandi, voru tveir að
tölu. Allar þær sálir af ætt Jakobs, sem komu til Egiptalands, voru
sjötíu að tölu.
28 Og hann sendi Júda á undan sér til Jósefs, að hann vísaði sér
til Gósen*. Og þeir komu til Gósenlands. 29 Þá lét Jósef beita fyrir
vagn sinn og fór á móti Ísrael föður sínum til Gósen, og er fundum
þeirra bar saman, féll hann um háls honum og grét lengi um háls
honum. 30 Og Ísrael sagði við Jósef: Nú vil eg glaður deyja, fyrst eg
hefi séð auglit þitt, að þú ert enn á lífi. 31 Og Jósef sagði við bræður
sína og við frændlið föður síns: Nú vil eg fara og láta Faraó vita og
segja við hann: Bræður mínir og frændlið föður míns, sem var í
Kanaanlandi, er til mín komið; 32 og mennirnir eru hjarðmenn, því að
þeir hafa stundað kvikfjárrækt, og sauði sína og nautpening sinn og
alt, sem þeir eiga, hafa þeir haft hingað með sér. 33 Þegar nú Faraó
lætur kalla yður og spyr: »Hver er atvinna yðar?« 34 þá skuluð þér
svara: »Kvikfjárrækt hafa þjónar þínir stundað frá barnæsku alt til
þessa dags, bæði vér og feður vorir«, — til þess að þér fáið að búa
í Gósenlandi; því að Egiptar hafa andstygð á öllum hjarðmönnum.

## Jakob er leiddur fyrir Faraó. Hungrið sverfur að.

47 Því næst gekk Jósef fyrir Faraó, sagði honum frá og mælti:
Faðir minn og bræður mínir eru komnir úr Kanaanlandi með
sauði sína og nautgripi og alt, sem þeir eiga, og eru nú í Gósenlandi.
2 En hann hafði tekið fimm af bræðrum sínum með sér og leiddi þá

---

8: 2 Mós. 6, 14 n. 4 Mós. 26, 5 n. 1 Kron. 2—8. 20: kap. 41, 50 n. 27: 2 Mós.
1, 5. 28: * Annar lesháttur: að hann kæmi á móti sér til Gósen.

fyrir Faraó. [3] Þá mælti Faraó við bræður Jósefs: Hver er atvinna yð-
ar? Og þeir svöruðu Faraó: Þjónar þínir eru hjarðmenn, bæði vér og
feður vorir. [4] Og þeir sögðu við Faraó: Vér erum komnir til að stað-
næmast um hríð í landinu; því að enginn hagi er fyrir sauði þjóna
þinna, af því að hallærið er mikið í Kanaanlandi; leyf því þjónum þín-
um að búa í Gósenlandi. [5] Og Faraó sagði við Jósef: Faðir þinn og
bræður þínir eru komnir til þín. [6] Egiptaland er þér heimilt, lát þú
föður þinn og bræður þína búa þar sem landkostir eru beztir; búi þeir
í Gósenlandi, og ef þú þekkir nokkra duglega menn meðal þeirra, þá
fel þeim yfirumsjón hjarða minna. [7] Þá fór Jósef inn með Jakob föð-
ur sinn og leiddi hann fyrir Faraó. Og Jakob heilsaði Faraó með
blessunaróskum. [8] Og Faraó sagði við Jakob: Hversu gamall ert þú?
[9] Og Jakob svaraði Faraó: Vegferðartími minn er hundrað og þrjátíu
ár; fáir og illir hafa dagar lífs míns verið og ná ekki þeirri áratölu,
er feður mínir náðu á vegferð sinni. [10] Síðan kvaddi Jakob Faraó
með blessunaróskum og gekk út frá honum. [11] Og Jósef fékk föður
sínum og bræðrum bústaði og gaf þeim fasteign í Egiptalandi, þar sem
beztir voru landkostir, í Ramses-landi, eins og Faraó hafði boðið. [12] Og
Jósef sá föður sínum og bræðrum sínum og öllu skuldaliði föður síns
fyrir viðurværi eftir tölu barnanna. [13] Og algjör skortur var á neyzlu-
korni um alt landið, því að hallærið var mjög mikið og Egiptaland
og Kanaanland voru að þrotum komin af hungrinu. [14] Og Jósef dró
saman alt það silfur, sem til var í Egiptalandi og Kanaanlandi, fyrir
kornið, sem þeir keyptu; og Jósef skilaði silfrinu í hús Faraós. [15] Og
er silfur þraut í Egiptalandi og í Kanaanlandi, þá komu allir Egiptar
til Jósefs og sögðu: Lát oss fá brauð! hví skyldum vér deyja fyrir aug-
um þér? því að silfur þrýtur. [16] Og Jósef mælti: Komið hingað með
fénað yðar; eg skal gefa yður korn til neyzlu fyrir fénað yðar, ef silf-
ur þrýtur. [17] Þá fóru þeir með fénað sinn til Jósefs og hann lét þá fá
neyzlukorn fyrir hestana, sauðféð, nautpeninginn og asnana, og hann
birgði þá upp með korni það árið fyrir allan fénað þeirra. [18] Og er
það árið var liðið, komu þeir til hans næsta ár og sögðu við hann:
Eigi viljum vér leyna herra vorn því, að silfrið er alt þrotið og kvik-
fénaður vor er orðinn eign herra vors; nú er ekki annað eftir handa
herra vorum en líkamir vorir og ekrur vorar. [19] Hví skyldum vér far-
ast fyrir augsýn þinni, bæði vér og ekrur vorar? Kaup þú oss og
ekrur vorar fyrir brauð, þá viljum vér með ekrum vorum vera þrælar
Faraós; og gef þú oss sáðkorn, að vér megum lífi halda og ekki deyja
og ekrurnar leggist ekki í auðn. [20] Þá keypti Jósef allar ekrur Egipta
handa Faraó, því að Egiptar seldu hver sinn akur, þar eð hungrið
svarf að þeim. Og þannig eignaðist Faraó landið. [21] Og landslýðinn
gjörði hann að þrælum frá einum enda Egiptalands til annars. [22] Ekr-
ur prestanna einar keypti hann ekki; því að prestarnir höfðu ákveðnar
tekjur frá Faraó og þeir lifðu af hinum ákveðnu tekjum sínum, sem
Faraó gaf þeim; fyrir því seldu þeir ekki ekrur sínar. [23] Þá sagði Jósef
við lýðinn: Sjá, nú hefi eg keypt yður og ekrur yðar Faraó til handa;
hér er sáðkorn handa yður og sáið nú ekrurnar. [24] En af ávextinum
skuluð þér skila Faraó fimta hluta, en hina fjóra fimtuhlutana skuluð
þér hafa til þess að sá akrana og yður til viðurlífis og heimafólki yðar
og börnum yðar til framfærslu. [25] Og þeir svöruðu: Þú hefir haldið í
oss lífinu. Lát oss finna náð í augum þínum, herra minn, og þá vil-
jum vér vera þrælar Faraós. [26] Og Jósef leiddi það í lög, sem haldast
alt til þessa dags, að Faraó skyldi fá fimta hlutann af akurlendi Egipta;

---

**47, 3:** kap. 46, 33. 34. **9:** 1 Kron. 29, 15. Sálm. 39, 13; 119, 19. Hebr. 11, 13.

ekrur prestanna einar urðu ekki eign Faraós. [27] Og Ísrael bjó í Egipta-
landi, í Gósenlandi, og þeir festu þar bygð og juku kyn sitt, svo að
þeim fjölgaði mjög. [28] En Jakob lifði í seytján ár í Egiptalandi; og
dagar Jakobs, æfiár hans, voru hundrað fjörutíu og sjö ár. [29] Og er
dró að dauða Ísraels, lét hann kalla Jósef son sinn og sagði við hann:
Hafi eg fundið náð í augum þínum, þá legg hönd þína undir lend
mína og auðsýn mér elsku og trúfesti: jarða mig ekki í Egiptalandi;
[30] eg vil hvíla hjá feðrum mínum, og skalt þú flytja mig burt úr Egipta-
landi og jarða mig í gröf þeirra. Og hann svaraði: Eg vil gjöra svo
sem þú hefir fyrir mælt. [31] Þá sagði hann: Vinn þú mér eið að því!
Og hann vann honum eiðinn. Og Ísrael hallaði sér niður að höfðalaginu.

## Jakob ættleiðir Manasse og Efraím og blessar þá.

48 Eftir þetta bar svo til, að Jósef var sagt: Sjá, faðir þinn er
sjúkur. Tók hann þá með sér báða sonu sína, Manasse og
Efraím. [2] Þetta tjáðu menn Jakob og sögðu: Sjá, Jósef sonur þinn
kemur til þín. Þá hreysti Ísrael sig og settist upp í rúminu. [3] Og
Jakob sagði við Jósef: Almáttugur Guð birtist mér í Lús í Kanaanlandi
og blessaði mig [4] og sagði við mig: »Sjá, eg vil gjöra þig frjósaman og
margfalda þig og gjöra þig að fjölda þjóða og gefa niðjum þínum eftir
þig þetta land til æfinlegrar eignar«. [5] Og nú skulu báðir synir þínir,
sem þér fæddust í Egiptalandi áður en eg kom til þín til Egiptalands,
heyra mér til; Efraím og Manasse skulu heyra mér til, eins og Rúben
og Símeon. [6] En það afkvæmi, sem þú hefir getið eftir þá, skal til-
heyra þér; með nafni bræðra sinna skulu þeir nefndir verða í erfð
þeirra. [7] Þegar eg kom heim frá Mesópótamíu, misti eg Rakel í Kanaan-
landi á leiðinni, þegar eg átti skamt eftir ófarið til Efrat, og eg jarð-
aði hana þar við veginn til Efrat, það er Betlehem. [8] Þá sá Jakob
sonu Jósefs og mælti: Hverjir eru þessir? [9] Og Jósef sagði við föður
sinn: Það eru synir mínir, sem Guð hefir gefið mér hér. Og hann
mælti: Leiddu þá til mín, að eg blessi þá. [10] En Ísrael var orðinn
sjóndapur af elli og sá ekki. Og Jósef leiddi þá til hans, og hann
kysti þá og faðmaði þá. [11] Og Ísrael sagði við Jósef: Eg hafði eigi
búist við að sjá þig framar, og nú hefir Guð meira að segja látið mig
sjá afkvæmi þitt. [12] Og Jósef færði þá frá knjám hans og hneigði
ásjónu sína til jarðar. [13] Og Jósef tók þá báða, Efraím sér við hægri
hönd, svo að hann stóð Ísrael til vinstri handar, og Manasse sér við
vinstri hönd, svo að hann stóð Ísrael til hægri handar, og leiddi þá til
hans. [14] En Ísrael rétti fram hægri hönd sína og lagði á höfuð Efraím,
þótt hann væri yngri, og vinstri hönd sína á höfuð Manasse; hann
lagði hendur sínar í kross, því að Manasse var hinn frumgetni. [15] Og
hann blessaði Jósef og sagði: Sá Guð, fyrir hvers augliti feður mínir
Abraham og Ísak gengu, sá Guð, sem hefir varðveitt mig frá barnæsku
alt fram á þennan dag, [16] sá engill, sem hefir frelsað mig frá öllu illu,
hann blessi sveinana; og þeir beri nafn mitt og nafn feðra minna Abra-
hams og Ísaks; og afsprengi þeirra verði stórmikið í landinu. [17] En er
Jósef sá, að faðir hans lagði hægri hönd sína á höfuð Efraím, mislík-
aði honum það og tók um höndina á föður sínum, til þess að færa
hana af höfði Efraíms yfir á höfuð Manasse. [18] Og Jósef sagði við föð-
ur sinn: Eigi svo, faðir minn, því að þessi er hinn frumgetni; legg
hægri hönd þína á höfuð honum. [19] En faðir hans færðist undan því

---

**27:** Sálm. 105, 24. Post. 7, 17. **29:** kap. 24, 2. **31:** 1 Kong. 1, 47. Hebr. 11, 21. — **48, 3:** kap. 35, 6. 9—13. **5:** kap. 46, 20. **7:** kap. 35, 16. 19. **14:** kap. 48, 19.

og sagði: Eg veit það, sonur minn, eg veit það; einnig hann mun verða
að þjóð og einnig hann mun mikill verða; en þó mun yngri bróðir
hans verða honum meiri og afsprengi hans mun verða fjöldi þjóða.
20 Og hann blessaði þá á þessum degi og mælti: Með þínu nafni munu
Ísraelsmenn óska blessunar og segja: »Guð gjöri þig sem Efraím og
Manasse!« og setti þannig Efraím framar Manasse. 21 Og Ísrael sagði
við Jósef: Sjá, nú dey eg; en Guð mun vera með yður og flytja yður
aftur í land feðra yðar. 22 En eg gef þér fram yfir bræður þína einn
landshluta*, sem eg hefi unnið frá Amórítum með sverði mínu og boga.

### Jakob blessar sonu sína og andast.

49 Þá lét Jakob kalla sonu sína og mælti: Safnist saman, að
eg megi birta yður það, sem fyrir yður liggur á komandi tímum.
2 Skipist saman og hlýðið til, synir Jakobs,
hlýðið á Ísrael föður yðar!
3 Rúben, þú ert frumgetningur minn,
kraftur minn og frumgróði styrkleika míns,
fremstur að virðingum og fremstur að völdum.
4 En þar eð þú ólgar sem vatnið,
skalt þú eigi fremstur vera;
því að þú gekst í hvílu föður þíns,
þá flekkaðir þú hana — í hjónasæng mína hefir hann gengið!
5 Símeon og Leví eru bræður;
tól ofbeldis eru sverð þeirra.
6 Sál mín komi ekki á ráðstefnu þeirra,
sæmd* mín hafi eigi félagsskap við söfnuð þeirra;
því að í reiði sinni drápu þeir menn
og í ofsa sínum skáru þeir á hásinar nautanna.
7 Bölvuð sé reiði þeirra, því að hún var römm,
og bræði þeirra, því að hún var grimm.
Eg vil dreifa þeim í Jakob
og tvístra þeim í Ísrael.
8 Júda, þig munu bræður þínir vegsama;
hönd þín mun vera á hálsi óvina þinna;
synir föður þíns skulu lúta þér.
9 Júda er ljónshvolpur —
frá ránum ert þú stiginn upp, sonur minn;
hann legst niður, hann hvílist sem ljón og sem ljónynja;
hver þorir að reka hann á fætur?
10 Ekki mun veldissprotinn víkja frá Júda,
né ríkisvöndurinn frá fótum hans,
unz hann kemur til Síló*
og þjóðirnar ganga honum á hönd.
11 Hann bindur við víntré ösnufola sinn
og við gæða-vínvið son ösnu sinnar;
hann þvær klæði sín í víni
og möttul sinn í vínberjablóði;
12 vínmóða er í augum hans
og tennur hans hvítar af mjólk.

---

22: * Eða: fjallshrygg (á hebresku: Sikem, Öxl). Jóh. 4, 5. — 49, 1: 5 Mós. 33, 1 n. 3: kap. 29, 32. 4: kap. 35, 22. 1 Kron. 5, 1. 6: * Þ. e. sál. Kap. 34, 25 n. 7: Jós. 19, 1; 21, 2 n. 8: 1 Kron. 5, 2. 9: 5 Mós. 33, 7. 10: * Annar lesháttur: unz sá kemur, er hann er ætlaður. Jes. 9, 6. 7.

13 Sebúlon mun búa við sjávarströndina,
við ströndina þar sem skipin liggja,
og land hans vita að Zídon.
14 Íssakar er beinasterkur asni,
sem liggur á milli fjárgirðinganna.
15 Og hann sá, að hvíldin var góð
og að landið var unaðslegt;
og hann beygði herðar sínar undir byrðar
og varð vinnuskyldur þræll.
16 Dan mun rétta hluta þjóðar sinnar,
sem hver önnur Ísraels ættkvísl.
17 Verði Dan höggormur á veginum
og naðra í götunni,
sem hælbítur hestinn,
svo að reiðmaðurinn fellur aftur á bak.
18 Þinni hjálp treysti eg, Jahve!
19 Gað — ræningjaflokkur fer að honum,
en hann rekur þá á flótta.
20 Asser — feit er fæða hans
og hann veitir konungakrásir.
21 Naftalí er rásandi hind,
frá honum koma fegurðarorð*.
22 Jósef er ungur aldinviður,
ungur aldinviður við uppsprettulind;
greinar hans teygja sig upp yfir múrinn.
23 Bogmenn veittust að honum,
skutu að honum og ofsóttu hann;
24 en bogi hans reyndist stinnur
og handleggir hans voru fimir,
— sá styrkur kom frá Jakobs volduga*,
þaðan, frá þeim, sem gætir Ísraels steins,
25 frá Guði föður þíns — og hann hjálpi þér —
frá almáttugum Guði — og hann blessi þig,
með blessun himinsins að ofan,
með blessun djúpsins, er undir hvílir,
með blessun brjósta og móðurlífs.
26 Blessunin, sem faðir þinn hlaut, gnæfði hærra en hin öldnu fjöll,
hærra en unaður hinna eilífu hæða;
hún komi yfir höfuð Jósefs
og í hvirfil hans, sem er höfðingi meðal bræðra sinna.
27 Benjamín er úlfur, sem sundurrífur:
á morgnana etur hann bráð
og á kveldin skiftir hann herfangi.

28 Allir þessir eru tólf kynþættir Ísraels og þetta er það, sem faðir
þeirra talaði við þá; og hann blessaði þá; sérhvern blessaði hann með
þeirri blessun, er honum bar. 29 Og hann bauð þeim og mælti við þá:
Eg safnast nú til míns fólks; jarðið mig hjá feðrum mínum, í hellinum,
sem er í landi Efrons Hetíta, 30 í hellinum, sem er í Makpela-landi og
liggur gegnt Mamre í Kanaanlandi og Abraham keypti með akrinum

---

**13:** Jós. 19, 10. 11; 5 Mós. 33, 18. 19. **14:** 5 Mós. 33, 18. **16:** Dóm. 16, 31. **18:** Sálm. 119, 166. **20:** 5. Mós. 33, 24. **21:** Dóm. 4, 6; 5, 1. * Annar lesháttur: Naftalí er beinvaxin eik, sem þenur út fagrar greinar. **24:** * Þ. e. Guði. Kap. 28, 11 n. **27:** Dóm. 20, 25. 1 Sam. 9, 1. 2; 14, 47. **30:** kap. 23, 16. 19. 20; 50, 13.

af Efron Hetíta fyrir grafreit. 31 Þar hafa þeir jarðað Abraham og Söru
konu hans; þar hafa þeir jarðað ísak og Rebekku konu hans og þar
hefi eg jarðað Leu. 32 Akurinn og hellirinn, sem á honum er, hafði
keyptur verið af Hetítum. 33 Og er Jakob hafði lokið þessum fyrirmæl-
um við sonu sína, lagði hann fætur sína upp í hvíluna og andaðist og
safnaðist til síns fólks.

## Jakob er jarðaður í Hebron. Veglyndi Jósefs og andlát hans.

50 Jósef laut þá ofan að andliti föður síns og grét yfir honum
og kysti hann. 2 Og Jósef bauð þjónum sínum, læknunum, að
smyrja föður sinn. Og læknarnir smurðu Ísrael. 3 Og til þess gengu
fjörutíu dagar, því að svo lengi stendur á smurningunni. Og Egiptar
syrgðu hann sjötíu daga. 4 Og er sorgardagarnir voru liðnir, kom Jósef
að máli við hirðmenn Faraós og mælti: Hafi eg fundið náð í augum
yðar, þá berið Faraó þessi orð mín: 5 Faðir minn tók eið af mér og
sagði: »Sjá, nú mun eg deyja; í gröf minni, sem eg gróf handa mér í
Kanaanlandi, — þar skaltu jarða mig«. Leyf mér því að fara og jarða
föður minn; að því búnu skal eg koma aftur. 6 Og Faraó sagði: Far
þú og jarða föður þinn, eins og hann lét þig vinna eið að. 7 Og Jósef
fór að jarða föður sinn og með honum fóru allir þjónar Faraós, öld-
ungar hirðarinnar og allir öldungar Egiptalands 8 og allir heimilismenn
Jósefs, svo og bræður hans og heimilismenn föður hans; aðeins létu
þeir börn sín, sauði sína og nautgripi eftir verða í Gósenlandi. 9 Í för
með honum voru vagnar og riddarar, og var það stór-mikið föruneyti.
10 En er þeir komu til Góren-haatad, sem er hinumegin við Jórdan,
þá hófu þeir þar harmakvein mikið og hátíðlegt mjög; og hann hélt
sorgarhátíð eftir föður sinn í sjö daga. 11 Og er landsbúar, Kanaanít-
ar, sáu sorgarhátíðina í Góren-haatad, sögðu þeir: Þar halda Egiptar
mikla sorgarhátíð. Fyrir því var sá staður nefndur Abel-Mísraím;
liggur hann hinumegin við Jórdan. 12 Og synir hans gjörðu svo við
hann sem hann hafði boðið þeim. 13 Og synir hans fluttu hann til
Kanaanlands og jörðuðu hann í helli Makpela-lands, sem Abraham
hafði keypt ásamt akrinum fyrir grafreit af Efron Hetíta, gegnt Mamre.
14 Og Jósef fór aftur til Egiptalands, er hann hafði jarðað föður sinn,
hann og bræður hans og allir, sem með honum höfðu farið að jarða
föður hans.

15 En er bræður Jósefs sáu að faðir þeirra var dáinn, hugsuðu þeir:
En ef Jósef nú fjandskapaðist við oss og launaði oss alt hið illa, sem
vér höfum gjört honum! 16 Og þeir gjörðu Jósef svolátandi orðsend-
ing: Faðir þinn mælti svo fyrir, áður en hann dó: 17 Þannig skuluð
þjer mæla við Jósef: »Æ, fyrirgef bræðrum þínum misgjörð þeirra og
synd, að þeir gjörðu þér ilt«. Fyrirgef því misgjörðina þjónum þess
Guðs, sem faðir þinn dýrkaði. Og Jósef grét, er þeir mæltu svo til
hans. 18 Því næst komu bræður hans sjálfir og féllu fram fyrir honum
og sögðu: Sjá, vér erum þrælar þínir. 19 En Jósef sagði við þá: Óttist
ekki! því að er eg í Guðs stað? 20 Þér ætluðuð að gjöra mér ilt, en
Guð sneri því til góðs, til að gjöra það, sem nú er fram komið, að
halda lífinu í mörgu fólki. 21 Verið því óhræddir; eg skal annast yður
og börn yðar. Síðan hughreysti hann þá og talaði við þá blíðlega.

22 Og Jósef bjó í Egiptalandi, hann og ættlið föður hans. Og Jósef
varð hundrað og tíu ára gamall. 23 Og Jósef sá niðja Efraíms í þriðja

---

**31:** kap. 25, 9; 23, 19; 35, 29. — **50, 1:** kap. 46, 4. **3:** 5 Mós. 34, 8. **5:** kap. 47, 29 n. **13:** kap. 23, 16 n. **20:** kap. 45, 5 n.

lið. Og synir Makírs, sonar Manasse, fæddust á kné Jósefs. [24] Og Jósef
sagði við bræður sína: Nú mun eg deyja; en Guð mun vissulega vitja
yðar og flytja yður úr þessu landi til þess lands, sem hann hefir svarið
Abraham, Ísak og Jakob. [25] Og Jósef tók eið af Ísraels sonum og mælti:
Sannlega mun Guð vitja yðar; flytjið þá bein mín héðan. [26] Og Jósef
dó hundrað og tíu ára gamall; og þeir smurðu hann og hann var
kistulagður í Egiptalandi.

---

# Önnur bók Móse
## (Exodus).

### Ánauð Ísraelsmanna í Egiptalandi.

1 Og þessi eru nöfn Ísraels sona, sem komu til Egiptalands; með
Jakob komu þeir, hver með sitt heimilisfólk: [2] Rúben, Símeon, Leví
og Júda; [3] Íssakar, Sebúlon og Benjamín; [4] Dan og Naftalí, Gað og
Asser. [5] En alls voru niðjar Jakobs sjötíu manns, og Jósef var fyrir
í Egiptalandi. [6] Og Jósef dó og allir bræður hans og öll sú kynslóð.
[7] Og Ísraelsmenn voru frjósamir, jukust, margfölduðust og fjölguðu
stórum, svo að landið varð fult af þeim. [8] Þá hófst til ríkis í Egipta-
landi nýr konungur, sem engin deili vissi á Jósef. [9] Hann sagði við
þjóð sína: Sjá, þjóð Ísraelsmanna er fjölmennari og aflmeiri en vér.
[10] Látum oss fara kænlega að við hana, ella kynni hún að fjölga um
of, og ef til ófriðar kæmi, kynni hún jafnvel að ganga í lið með óvin-
um vorum og berjast móti oss og fara síðan af landi burt. [11] Og þeir
settu verkstjóra yfir hana, til þess að þjá hana með þrælavinnu, og
hún bygði vistaborgir handa Faraó, Pítóm og Raamses. [12] En því
meir sem þeir þjáðu hana, því meir fjölgaði hún og breiddist út, svo
að þeir tóku að óttast Ísraelsmenn. [13] Og Egiptar þrælkuðu Ísraels-
menn vægðarlaust, [14] og gjörðu þeim lífið leitt með þungri þrælavinnu
við leireltu og tigulsteinagjörð og með alls konar akurvinnu, með allri
þeirri vinnu, er þeir vægðarlaust þrælkuðu þá með.

[15] En Egiptalands konungur mælti til hinna hebresku ljósmæðra
— hét önnur Sifra, en hin Púa: [16] Þegar þið sitjið yfir hebreskum
konum, mælti hann, þá lítið á burðarsetið; sé barnið sveinbarn, þá
deyðið það, en sé það meybarn, þá má það lifa. [17] En ljósmæðurnar
óttuðust Guð og gjörðu eigi það, sem Egiptalands konungur bauð þeim,
heldur létu sveinbörnin lifa. [18] Þá lét Egiptalands konungur kalla ljós-
mæðurnar og sagði við þær: Hví hafið þér svo gjört, að láta svein-
börnin lifa? [19] Ljósmæðurnar svöruðu Faraó: Hebreskar konur eru ó-
líkar egipzkum, því að þær eru hraustar; áður en ljósmóðirin kemur
til þeirra, eru þær búnar að fæða. [20] Og Guð lét ljósmæðrunum vel
farnast og fólkið fjölgaði og efldist mjög. [21] Og fyrir þá sök, að ljós-

---

**24:** Hebr. 11, 22. **25:** 2 Mós. 13, 19. Jós. 24, 32. — **1, 1:** 1 Mós. 46, 8 n. **5:** 1 Mós. 46, 27. 5 Mós. 10, 22. **7:** Sálm. 105, 24. Post. 7, 17. **18:** 1 Mós. 15, 13. 4 Mós. 20, 15. **17:** Post. 5, 29.

mæðurnar óttuðust Guð, gaf hann þeim* fjölda niðja. 22 Þá bauð Faraó
öllum lýð sínum og sagði: Kastið í ána öllum þeim sveinbörnum, sem
fæðast meðal Hebrea; en öll meybörn mega lífi halda.

### Fæðing Móse, uppfóstur, flótti og kvonfang.

2 En maður nokkur af Leví-ætt gekk að eiga dóttur Leví. 2 Og
konan varð þunguð og fæddi son; og er hún sá að sveinninn var
fríður, þá leyndi hún honum í þrjá mánuði. 3 En er hún mátti eigi
leyna honum lengur, tók hún handa honum örk af reyr, bræddi hana
með jarðlími og biki, lagði sveininn í hana og lét örkina út í sefið hjá
árbakkanum. 4 En systir hans stóð þar álengdar, til að vita, hvað um
hann yrði. 5 Þá gekk dóttir Faraós ofan að ánni til að lauga sig og
gengu þjónustumeyjar hennar eftir árbakkanum; hún leit örkina í
sefinu og sendi þernu sína að sækja hana. 6 En er hún lauk upp
örkinni, sá hún barnið; og sjá, það var sveinbarn og var að gráta.
Og hún kendi í brjósti um það og sagði: Þetta er eitt af börnum
Hebrea. 7 Þá sagði systir sveinsins við dóttur Faraós: Á eg að fara
og sækja fyrir þig barnfóstru, einhverja hebreska konu, að hún hafi
sveininn á brjósti fyrir þig? 8 Og dóttir Faraós svaraði henni: Já,
far þú. En mærin fór og sótti móður sveinsins. 9 Og dóttir Faraós
sagði við hana: Tak svein þennan með þér og haf hann á brjósti fyrir
mig og skal eg launa þér fyrir. Tók konan þá sveininn og hafði hann
á brjósti. 10 En er sveinninn var vaxinn, fór hún með hann til dóttur
Faraós; tók hún hann í sonar stað og nefndi hann Móse, því að hún
sagði: Eg hefi dregið hann upp úr vatninu.
11 Um þær mundir bar svo við, þegar Móse var orðinn fulltíða
maður, að hann fór á fund ættbræðra sinna og sá þrældóm þeirra.
Sá hann þá egipzkan mann ljósta hebreskan mann, einn af ættbræðr-
um hans. 12 Hann skimaði þá í allar áttir, og er hann sá, að þar
var enginn, drap hann Egiptann og huldi hann í sandinum. 13 Daginn
eftir gekk hann út og sá tvo Hebrea vera að þrátta sín á milli; þá
mælti hann við þann, sem á röngu hafði að standa: Hví slær þú ná-
unga þinn? 14 En hann sagði: Hver skipaði þig höfðingja og dómara
yfir okkur? er þér í hug að drepa mig, eins og þú drapst Egiptann? Þá
varð Móse hræddur og hugsaði með sér: Það er þá orðið uppvíst!
15 En er Faraó frétti þennan atburð, leitaði hann eftir að drepa Móse;
en Móse flýði undan Faraó og tók sér bústað í Midíanslandi, og settist
að hjá vatnsbólinu. 16 En presturinn í Midíanslandi átti sjö dætur;
þær komu þangað, jusu vatn og fyltu þrórnar, til að brynna
fénaði föður síns. 17 Þá komu að hjarðmenn og bægðu þeim
frá; en Móse tók sig til og hjálpaði þeim og brynti fénaði þeirra. 18 Og
er þær komu heim til Regúels föður síns, mælti hann: Hví komið
þér svo snemma heim í dag? 19 Þær svöruðu: Egipzkur maður hjálp-
aði oss móti hjarðmönnunum, jós líka vatnið upp fyrir oss og brynti
fénaðinum. 20 Hann sagði þá við dætur sínar: Hvar er hann þá?
hvers vegna skilduð þér manninn eftir? bjóðið honum heim, að hann
neyti matar. 21 Og Móse lét sér vel líka að vera hjá þessum manni,
og hann gifti Móse Zippóru dóttur sína. 22 Hún ól son og hann nefndi
hann Gersóm; því að hann sagði: Gestur er eg í ókunnu landi.

---

**21:** * Þ. e. Ísraelsmönnum. **22:** Post. 7, 19. — **2, 1:** kap. 6, 20. 4 Mós. 26, 59.
**2:** Post. 7, 20. Hebr. 11, 23. **4:** kap. 15, 20. **10:** Post. 7, 21. **11:** Post. 7, 23 n.
Hebr. 11, 24. 25. **15:** Hebr. 11, 27. **17:** 1 Mós. 29, 10. **18:** 4 Mós. 10, 29. **21:**
kap. 18, 2 n.

## Köllun Móse.

23 Löngum tíma eftir þetta dó Egiptalands konungur. En Ísraels-
menn andvörpuðu undir ánauðinni og kveinuðu, og ánauðarkvein þeirra
sté upp til Guðs. 24 Og Guð heyrði andvarpanir þeirra og mintist sátt-
mála síns við Abraham, Ísak og Jakob. 25 Og Guð leit til Ísraelsmanna
og kendist við þá.

3 En Móse gætti sauða Jetró tengdaföður síns, prests í Midíans-
landi; og hann hélt fénu vestur yfir eyðimörkina og kom til Guðs fjalls,
til Hóreb. 2 Þá birtist honum engill Jahve í eldsloga, sem lagði út af
þyrnirunni nokkrum; og er hann gætti að, sá hann að þyrnirunnurinn
stóð í ljósum loga, en brann ekki. 3 Þá sagði Móse: Eg vil ganga nær
og sjá þessa miklu sýn, hvað til þess kemur, að þyrnirunnurinn brenn-
ur ekki. 4 En er Jahve sá, að hann vék þangað, til að skoða þetta,
þá kallaði Guð til hans úr þyrnirunninum og sagði: Móse, Móse! Hann
svaraði: Hér er eg. 5 Hann sagði: Gakk ekki hingað! Drag skó þína
af fótum þér, því að sá staður, er þú stendur á, er heilög jörð. 6 Því
næst mælti hann: Eg er Guð föður þíns, Guð Abrahams, Guð Ísaks og
Guð Jakobs. Þá byrgði Móse andlit sitt, því að hann þorði ekki að
líta upp á Guð. 7 En Jahve sagði: Eg hefi sannlega séð ánauð þjóð-
ar minnar í Egiptalandi og heyrt hversu hún kveinar undan þeim, sem
þrælka hana; eg veit, hversu bágt hún á. 8 Eg er ofan farinn til að
frelsa hana af hendi Egipta og til að leiða hana úr þessu landi og til
þess lands, sem er gott og víðlent, til þess lands, sem flýtur í mjólk og
hunangi, á stöðvar Kanaaníta, Hetíta, Amóríta, Peresíta, Hevíta og Jeb-
úsíta. 9 Nú með því að kvein Ísraelsmanna er komið til mín og eg auk
þess hefi séð, hversu harðlega Egiptar þjaka þeim, 10 þá far þú nú; eg
vil senda þig til Faraós, og þú skalt leiða þjóð mína, Ísraelsmenn, út
af Egiptalandi. 11 En Móse sagði við Guð: Hver er eg, að eg fari til
fundar við Faraó og að eg leiði Ísraelsmenn út af Egiptalandi? 12 Þá
sagði hann: Sannlega mun eg vera með þér; og það skalt þú til marks
hafa, að eg hefi sent þig, að þá er þú hefir leitt fólkið út af Egiptalandi,
munuð þér þjóna Guði á þessu fjalli. 13 Og Móse sagði við Guð: En
þegar eg kem til Ísraelsmanna og segi við þá: »Guð feðra yðar sendi
mig til yðar«, og þeir segja við mig: »Hvert er nafn hans?« hverju
skal eg þá svara þeim? 14 Þá sagði Guð við Móse: »Eg er sá, sem eg
er«. Og hann sagði: Svo skalt þú segja Ísraelsmönnum: »Eg er« sendi
mig til yðar. 15 Og Guð sagði enn fremur við Móse: Svo skalt þú
segja Ísraelsmönnum: Jahve, Guð feðra yðar, Guð Abrahams, Guð Ís-
aks og Guð Jakobs sendi mig til yðar;. þetta er nafn mitt um aldur
og þetta er heiti mitt frá kyni til kyns. 16 Far nú og safna saman öld-
ungum Ísraels og mæl við þá: Jahve, Guð feðra yðar birtist mér, Guð
Abrahams, Ísaks og Jakobs, og sagði: Eg hefi vitjað yðar og séð, hversu
með yður hefir verið farið í Egiptalandi. 17 Og eg hefi sagt: Eg vil
leiða yður úr ánauð Egiptalands inn í land Kanaaníta, Hetíta, Amóríta,
Peresíta, Hevíta og Jebúsíta, í það land, sem flýtur í mjólk og hunangi.
18 Þeir munu skipast við orð þín og skaltu þá ganga með öldungum
Ísraels fyrir Egiptalands konung og skuluð þér segja við hann: Jahve,
Guð Hebrea, hefir komið til móts við oss; fyrir því leyf oss nú að fara
þrjár dagleiðir á eyðimörkina, að vér færum fórnir Jahve, Guði vorum.

---

**23:** 4 Mós. 20, 16. — **3, 1:** 5 Mós. 4, 10. 15. Mal. 4, 4. **2:** Post. 7, 30. **5:** Post. 7,
33. **6:** Matt. 22, 32. Mark. 12, 26. Lúk. 20, 37. Post. 7, 32. 1 Kong. 19, 13. **7:**
Post. 7, 34. **8:** kap. 13, 5. 1 Mós. 15, 18—21. **10:** Sálm. 105, 26. **14:** Opinb. 1,
4. 8. **15:** Jes. 42, 8. Sálm. 135, 13. **16:** 1 Mós. 50, 24. **18:** kap. 5, 3.

19 Veit eg þó, að Egiptalands konungur mun eigi leyfa yður burtförina,
og jafnvel ekki þótt hart sé á honum tekið*. 20 En eg vil útrétta hönd
mína og ljósta Egiptaland með öllum undrum mínum, sem eg mun
fremja þar, og þá mun hann láta yður fara. 21 Og eg skal láta þessa
þjóð öðlast hylli Egipta, svo að þá er þér farið, skuluð þér eigi tóm-
hentir burt fara; 22 heldur skal hver kona biðja grannkonu sína og
sambýliskonu um silfurgripi og gullgripi og klæði, og það skuluð þér
láta sonu yðar og dætur bera, og þannig skuluð þér ræna Egipta.

4 En Móse svaraði og sagði: Sjá, þeir munu eigi trúa mér og eigi
skipast við orð mín, heldur segja: Guð hefir ekki birzt þér! 2 Þá
sagði Jahve við hann: Hvað er það, sem þú hefir í hendi þér? Hann
svaraði: Stafur er það. 3 Hann sagði: Kasta þú honum til jarðar! Og
hann kastaði honum til jarðar, og stafurinn varð að höggormi, og
hrökk Móse undan honum. 4 Þá sagði Jahve við Móse: Rétt þú út
hönd þína og gríp um ormshalann, — þá rétti hann út hönd sína og
tók um hann, og varð hann þá aftur að staf í hendi hans — 5 að
þeir megi trúa því, að Jahve, Guð feðra þeirra, Guð Abrahams, Guð Ís-
aks og Guð Jakobs hafi birzt þér. 6 Og Jahve sagði enn fremur við
hann: Sting hendi þinni í barm þér! Og hann stakk hendi sinni í
barm sér; en er hann tók hana út aftur, var höndin orðin líkþrá og
hvít sem snjór. 7 Og hann sagði: Sting aftur hendi þinni í barm þér.
Og hann stakk hendinni aftur í barm sér; en er hann tók hana aftur
út úr barminum, var hún aftur orðin sem annað hold hans. 8 Vilji
þeir nú ekki trúa þér eða skipast við hina fyrri jarteinina, þá munu
þeir skipast við hina síðari. 9 En ef þeir vilja hvorugri þessari jartein
trúa eða skipast láta við orð þín, þá skalt þú taka vatn úr ánni og
ausa því upp á þurt land, og mun þá það vatn, er þú tekur úr ánni,
verða að blóði á þurlendinu. 10 Þá sagði Móse við Jahve: Æ, drottinn,
aldrei hefi eg málsnjall maður verið, hvorki áður fyr né heldur síðan
þú talaðir við þjón þinn, því að mér er tregt um málfæri og tungu-
tak. 11 En Jahve sagði við hann: Hver gefur manninum málið, eða
hver gjörir hann mállausan eða daufan eða skygnan eða blindan? er
það ekki eg, Jahve, sem gjöri það? 12 Far nú, eg skal vera með munni
þínum og kenna þér, hvað þú skalt mæla. 13 En hann svaraði: Æ,
drottinn, send þú einhvern annan. 14 Þá reiddist Jahve Móse og sagði:
Þá er Aron bróðir þinn, Levítinn! eg veit að hann er vel máli farinn.
Og meira að segja, sjá, hann fer til móts við þig, og þá er hann sér
þig, mun hann fagna í hjarta sínu. 15 Þú skalt tala til hans og leggja
honum orðin í munn, en eg mun vera með munni þínum og munni
hans og kenna ykkur, hvað þið skuluð gjöra. 16 Hann skal tala fyrir
þig til lýðsins, og hann skal vera þér sem munnur, en þú skalt vera
honum sem Guð. 17 Staf þennan skalt þú hafa í hendi þér; með hon-
um skalt þú jarteinirnar gjöra.

18 Síðan fór Móse heim aftur til Jetró tengdaföður síns og mælti
til hans: Leyf mér að fara og hverfa aftur til ættbræðra minna, sem á
Egiptalandi eru, svo að eg viti, hvort þeir eru enn á lífi Og Jetró
sagði við Móse: Far þú í friði! 19 Og Jahve sagði við Móse í Midíans-
landi: Far þú og hverf aftur til Egiptalands, því að þeir eru allir dauðir,
sem leituðu eftir lífi þínu. 20 Þá tók Móse konu sína og sonu, setti
þau upp á asna og fór aftur til Egiptalands; og Móse tók Guðs staf í

---

**19:** * Annar lesháttur: nema hart sé á honum tekið. **21:** 1 Mós. 15, 14. **22:** kap. 11, 2; 12, 35. 36. Sálm. 105, 37. — **4, 8:** kap. 7, 10. **5:** kap. 3, 6. **9:** kap. 7, 17. **10:** kap. 6, 12. **12:** Matt. 10, 19. **14:** kap. 4, 27. **16:** kap. 7, 1. 2. **19:** Matt. 2, 20. **20:** v. 17.

hönd sér. [21] Og Jahve sagði við Móse: Sjá svo til, þá er þú kemur
aftur í Egiptaland, að þú fremjir öll þau undur fyrir Faraó, sem eg hefi
gefið þér vald til; en eg mun herða hjarta hans, svo að hann mun
eigi leyfa fólkinu að fara. [22] En þú skalt segja við Faraó: Svo segir
Jahve: Ísraelslýður er minn frumgetinn sonur. [23] Eg segi þér: lát son
minn fara, að hann megi þjóna mér; en viljir þú hann eigi lausan
láta, sjá, þá skal eg deyða frumgetinn son þinn.
[24] En á leiðinni bar svo við í gistingarstað einum, að Jahve réðst
í móti honum og vildi deyða hann. [25] Þá tók Zippóra hvassan stein
og afsneið yfirhúð sonar síns og lagði fyrir fætur honum* og sagði:
Þú ert sannlega minn blóðbrúðgumi! [26] Þá slepti hann honum; en
»blóðbrúðgumi« sagði hún vegna umskurnarinnar.
[27] Og Jahve sagði við Aron: Far þú út í eyðimörkina til móts
við Móse. Og hann fór og mætti honum á Guðs fjalli og mintist við
hann. [28] Sagði Móse þá Aroni öll orð Jahve, er hann hafði fyrir hann
lagt, og allar þær jarteinir, sem hann hafði boðið honum að gjöra.
[29] Þeir Móse og Aron fóru nú og stefndu saman öllum öldungum
Ísraelsmanna; [30] og flutti Aron öll þau orð, er Jahve hafði mælt við
Móse, og hann gjörði táknin í augsýn fólksins. [31] Og fólkið trúði; og
er þeir heyrðu að Jahve hafði vitjað Ísraelsmanna og litið á eymd
þeirra, féllu þeir fram og tilbáðu.

### Móse gjörður afturreka af Faraó; ánauð Ísraelsmanna harðnar.

5 Eftir það gengu þeir Móse og Aron á fund Faraós og sögðu:
Svo segir Jahve, Guð Ísraelsmanna: Gef fólki mínu fararleyfi, að
það megi halda mér hátíð í eyðimörkinni. [2] En Faraó sagði: Hver er
Jahve, að eg skuli hlýða honum til þess að leyfa Ísrael að fara; eg
þekki ekki Jahve og Ísrael leyfi eg eigi heldur að fara. [3] Og þeir sögðu:
Guð Hebrea hefir komið til móts við oss; leyf oss að fara þriggja daga
leið út í eyðimörkina, til að færa fórnir Jahve, Guði vorum, að hann
láti eigi yfir oss koma drepsótt eða sverð. [4] En Egiptalands konung-
ur sagði við þá: Hví viljið þið, Móse og Aron, taka fólkið úr vinnunni?
Farið til erfiðis yðar! [5] Og Faraó sagði: Nú, þegar fólkið er orðið svo
margt í landinu, þá viljið þið láta það hætta að erfiða! [6] Sama dag
bauð Faraó verkstjórum þeim, er settir voru yfir fólkið, og tilsjónar-
mönnum þess og sagði: [7] Upp frá þessu skuluð þér eigi fá fólkinu
hálmstrá til að gjöra tigulsteina við, eins og hingað til; þeir skulu
sjálfir fara og safna sér stráum; [8] en þó skuluð þér setja þeim fyrir
að gjöra jafnmarga tigulsteina og þeir hafa gjört hingað til, og minkið
ekki af við þá, því að þeir eru latir; þess vegna kalla þeir og segja:
Vér viljum fara og færa fórnir Guði vorum. [9] Það verður að þyngja
vinnuna á fólkinu, svo að það hafi nóg að starfa og hlýði ekki á lygi-
fortölur. [10] Þá gengu verkstjórar fólksins og tilsjónarmenn þess út og
mæltu þannig til fólksins: Svo segir Faraó: Eg læt eigi fá yður nein
hálmstrá; [11] farið sjálfir og fáið yður strá, hvar sem þér finnið, en þó
skal alls ekkert minka vinnu yðar. [12] Þá fór fólkið víðsvegar um alt
Egiptaland að leita sér hálmleggja, til að hafa í stað stráa. [13] En verk-
stjórarnir ráku eftir þeim og sögðu: Ljúkið dag hvern við yðar ákveðna
dagsverk, eins og meðan þér höfðuð stráin. [14] Og tilsjónarmenn Ísra-
elsmanna, sem verkstjórar Faraós höfðu sett yfir þá, voru barðir og
sagt við þá: Hví hafið þér eigi lokið við yðar ákveðna tigulgerðarverk

---

**23:** kap. 11, 5; 12, 29. **25:** * Þ. e. Móse. 1 Mós. 17, 14. **27:** kap. 3, 1. **31:** kap.
3, 16. — **5, 1:** kap. 3, 18. **2:** Dan. 3, 15. **4:** kap. 1, 11. **5:** kap. 1, 7. 12.

hvorki í gær né í dag, eins og áður fyr? [15] Tilsjónarmenn Ísraels-
manna gengu þá fyrir Faraó, báru sig upp við hann og sögðu: Hví fer
þú svo með þjóna þína? [16] Þjónum þínum eru engin strá fengin, og
þó er sagt við oss: »Gjörið tigulsteina«. Og sjá, þjónar þínir eru barðir
og er þitt fólk sök í þessu*. [17] En hann sagði: Þér eruð latir og nennið
engu! Þess vegna segið þér: Látum oss fara og færa Jahve fórnir.
[18] Farið nú og erfiðið! og engin strá skal fá yður, en þó skuluð þér
inna af hendi hina ákveðnu tigulsteina. [19] Þá sáu tilsjónarmenn Ísra-
elsmanna, í hvert óefni komið var fyrir þeim, þegar sagt var við þá:
þér skuluð engu færri tigulsteina gjöra, hinu ákveðna dagsverki skal
aflokið hvern dag! [20] Þegar þeir komu út frá Faraó, mættu þeir þeim
Móse og Aroni, sem stóðu þar og biðu þeirra. [21] Og þeir sögðu við þá:
Jahve líti á ykkur og dæmi, þar eð þið hafið gjört oss illa þokkaða
hjá Faraó og þjónum hans og fengið þeim sverð í hendur, til að drepa
oss með. [22] Þá sneri Móse sér aftur til Jahve og sagði: Drottinn, hví
gjörir þú svo illa við þetta fólk? hví hefir þú þá sent mig? [23] Því síð-
an eg gekk fyrir Faraó, til að tala í þínu nafni, hefir hann misþyrmt
6 þessum lýð og þú hefir þó alls ekki frelsað lýð þinn. [1] En Jahve sagði
við Móse: Þú skalt nú sjá, hvað eg vil gjöra Faraó; því að fyrir
voldugri hendi skal hann þá lausa láta, fyrir voldugri hendi skal hann
reka þá burt úr landi sínu.

## Guð birtist Móse á Egiptalandi.

[2] Og Guð talaði við Móse og sagði við hann: Eg er Jahve! [3] Eg
birtist Abraham, Ísak og Jakob sem »almáttugur Guð«*, en undir nafn-
inu Jahve hefi eg eigi opinberast þeim. [4] Eg gjörði og við þá sáttmála,
að gefa þeim Kanaanland, dvalarland þeirra, er þeir dvöldust í sem út-
lendingar. [5] Eg hefi og heyrt kveinstafi Ísraelsmanna, sem Egiptar hafa
að þrælum gjört, og eg hefi minst sáttmála míns. [6] Seg því Ísraels-
mönnum: Eg er Jahve; eg vil leysa yður undan ánauð Egipta og hrífa
yður úr þrældómi þeirra og frelsa yður með útréttum armlegg og mikl-
um refsidómum. [7] Eg vil útvelja yður til að vera mitt fólk og eg vil
vera yðar Guð, og þér skuluð reyna, að eg er Jahve, Guð yðar, sem
leysi yður undan ánauð Egipta. [8] Og eg vil leiða yður inn í það land,
sem eg sór að gefa Abraham, Ísak og Jakob, og eg vil gefa yður það
til eignar; eg er Jahve. [9] Móse sagði Ísraelsmönnum þetta, en þeir
sintu honum ekki sökum hugleysis og vegna hins stranga þrældóms.
[10] Þá talaði Jahve við Móse og sagði: [11] Gakk á tal við Faraó, Egipta-
lands konung, og bið hann leyfa Ísraelsmönnum burt úr landi sínu.
[12] Og Móse talaði frammi fyrir augliti Jahve og mælti: Sjá, Ísraelsmenn
vilja eigi gefa gaum að orðum mínum; hversu mun þá Faraó skipast við
þau, þar sem eg er maður málstirður. [13] Þá talaði Jahve við Móse og
Aron og fékk þeim það erindi til Ísraelsmanna og Faraós, Egiptalands
konungs, að þeir skyldu út leiða Ísraelsmenn af Egiptalandi.

## Ættartala Móse og Arons.

[14] Þessir eru ætthöfðingjar meðal forfeðra þeirra: Synir Rúbens,
frumgetins sonar Ísraels, voru þeir Hanok, Pallú, Hezron og Karmí;
þetta eru kynþættir Rúbens. [15] Og synir Símeons voru þeir Jemúel,
Jamín, Óhad, Jakín, Zóhar og Sál, sonur konunnar kanversku; þetta

---

**16:** * Annar lesháttur: og gjörir þú ranglega við fólk þitt. Kap. 9, 27. — **6, 1:** kap. 11, 1; 12, 33. **3:** * Á hebresku: El-Sjaddaj. 1 Mós. 17, 1; 35, 11. 2 Mós. 3, 15. **4:** 1 Mós. 17, 8; 26, 3; 35, 12. **5:** kap. 2, 24. **8:** Esek. 20, 5. 6. **12:** kap. 4, 10. **14:** 1 Mós. 46, 9 n. 4 Mós. 26, 5 n. 1 Kron. 5, 3. **15:** 1 Kron. 4, 24.

eru kynþættir Símeons. 16 Þessi eru nöfn Leví sona eftir ættbálkum
þeirra: Gerson, Kahat og Merarí; en Leví varð hundrað þrjátíu og sjö
ára gamall. 17 Synir Gersons voru þeir Líbní og Símeí eftir kynþáttum
þeirra. 18 Synir Kahats voru þeir Amram, Jízehar, Hebron og Ússíel;
en Kahat varð hundrað þrjátíu og þriggja ára gamall. 19 Synir Merarí
voru þeir Mahelí og Músí; þetta eru kynþættir Levítanna eftir ættbálk-
um þeirra. 20 Amram fékk Jókebedar, föðursystur sinnar, og átti hún
við honum þá Aron og Móse; en Amram varð hundrað þrjátíu og sjö
ára gamall. 21 Synir Jízehars voru þeir Kóra, Nefeg og Síkrí. 22 Synir
Ússíels voru þeir Mísael, Elzafan og Sítrí. 23 Aron fékk Elísebu, dóttur
Ammínadabs, systur Nahsons, og átti hún við honum þá Nadab, Abíhú,
Eleasar og Ítamar. 24 Synir Kóra voru þeir Assír, Elkana og Abíasaf
þetta eru kynþættir Kóraíta. 25 Og Eleasar, sonur Arons, gekk að eiga;
eina af dætrum Pútíels og hún ól honum Pínehas. Þetta eru ætthöfð-
ingjar Levítanna eftir kynþáttum þeirra. 26 Það var þessi Aron og
Móse, sem Jahve bauð: leiðið Ísraelsmenn út af Egiptalandi eftir her-
sveitum þeirra. 27 Það voru þeir, sem boðuðu Faraó, Egiptalands kon-
ungi, að þeir mundu leiða Ísraelsmenn út úr Egiptalandi, þessi Móse
og Aron.

### Jarteinirnar.

28 Og er Jahve talaði við Móse í Egiptalandi, 29 mælti hann til hans
þessum orðum: Eg er Jahve! Seg Faraó, Egiptalands konungi, alt,
sem eg segi þér. 30 Og Móse sagði frammi fyrir augliti Jahve: Sjá, eg
er maður málstirður, hversu má Faraó þá skipast við orð mín?
7 En Jahve sagði við Móse: Sjá, eg gjöri þig sem Guð fyrir Faraó,
en Aron bróðir þinn skal vera spámaður þinn. 2 Þú skalt tala alt
sem eg býð þér, en Aron bróðir þinn skal flytja við Faraó, að hann
gefi Ísraelsmönnum fararleyfi úr landi sínu. 3 En eg vil herða hjarta
Faraós og fremja margar jarteinir og stórmerki í Egiptalandi. 4 Faraó
mun ekki skipast við orð ykkar og skal eg þá leggja hönd mína á
Egiptaland og leiða herskara mína, þjóð mína, Ísraelsmenn með mikl-
um refsidómum út úr Egiptalandi. 5 Skulu Egiptar fá að vita, að eg
er Jahve, þegar eg rétti út hönd mína yfir Egiptaland og leiði Ísraels-
menn burt frá þeim. 6 Og Móse og Aron gjörðu þetta, þeir fóru að
öllu svo sem Jahve hafði fyrir þá lagt. 7 Var Móse áttræður, en Aron
hafði þrjá um áttrætt, er þeir töluðu við Faraó.
8 Því næst talaði Jahve við þá Móse og Aron og sagði: 9 Þegar
Faraó segir við ykkur: »Látið sjá stórmerki nokkur«, þá seg þú við
Aron: »Tak staf þinn og kasta honum frammi fyrir Faraó«, skal hann
þá verða að höggormi. 10 Þá gengu þeir Móse og Aron inn fyrir Faraó
og gjörðu svo sem Jahve hafði boðið þeim; og kastaði Aron staf sín-
um frammi fyrir Faraó og þjónum hans og varð stafurinn að högg-
ormi. 11 Þá lét Faraó og kalla vitringana og töframennina og þeir,
spásagnamenn Egipta, gjörðu slíkt hið sama með fjölkyngi sinni: 12 kast-
aði hver þeirra staf sínum og urðu stafirnir að höggormum; en stafur
Arons gleypti þeirra stafi. 13 En hjarta Faraós harðnaði og hann hlýddi
þeim ekki, eins og Jahve hafði sagt.

---

**16:** 4 Mós. 3, 17 n. 1 Kron. 6, 1 n. **17:** 1 Kron. 6, 17. **19:** 4 Mós. 26, 58. 1 Kron.
6, 19. **21:** 4 Mós. 16, 1. **22:** 3 Mós. 10, 4. **23:** 4 Mós. 3, 1 n. **24:** 1 Kron 6, 22 n.
**25:** 4 Mós. 25, 7. **30:** kap. 6, 12. — **7, 1:** kap. 4, 15 n. **3:** kap. 14, 4. **4:** kap. 8,
15. 19. **5:** kap. 14, 4. 18. **10:** kap. 4, 3. **11:** 1 Mós. 41, 8. 2 Tím. 3, 8. **13:** kap. 3, 19.

### Fyrsta plágan: vatn verður að blóði.

14 Þá sagði Jahve við Móse: Hjarta Faraós er ósveigjanlegt; hann
vill eigi leyfa fólkinu að fara. 15 Far þú á morgun á fund Faraós;
sjá, hann mun ganga til vatns; skalt þú þá ganga í veg fyrir hann á
árbakkanum, og haf í hendi þér staf þann, er varð að höggormi. 16 Og
þú skalt segja við hann: Jahve, Guð Hebrea hefir sent mig til þín
með þessa orðsending: Leyf fólki mínu að fara, að það megi þjóna mér
á eyðimörkinni. En hingað til hefir þú ekki látið skipast. 17 Svo segir
Jahve: Af þessu skaltu vita mega, að eg er Jahve: með staf þeim, sem
eg hefi í hendi mér, lýst eg á vatnið, sem er í ánni, og skal það þá
verða að blóði. 18 Fiskarnir í ánni skulu deyja og áin fúlna, svo að
Egipta skal velgja við að drekka vatn úr ánni. 19 Þá mælti Jahve
við Móse: Seg við Aron: Tak staf þinn og rétt hönd þína út yfir vötn
Egiptalands, yfir fljót þess og ár, tjarnir og allar vatnsstæður, og skulu
þau þá verða að blóði, og um alt Egiptaland skal blóð vera bæði í
tré-ilátum og steinkerum. 20 Og Móse og Aron gjörðu sem Jahve hafði
boðið þeim; hann reiddi upp stafinn og laust vatnið í ánni að ásjáandi
Faraó og þjónum hans, og alt vatnið í ánni varð að blóði. 21 Fiskarnir
í ánni dóu, og áin fúlnaði, svo að Egiptar gátu ekki drukkið vatn úr
ánni, og blóð var um alt Egiptaland. 22 En spásagnamenn Egipta gjörðu
slíkt hið sama með fjölkyngi sinni; harðnaði þá hjarta Faraós, og
hann hlýddi þeim ekki, eins og Jahve hafði sagt. 23 Sneri Faraó þá
burt og fór heim til sín og lét þetta ekki heldur á sig fá. 24 En allir
Egiptar grófu með fram ánni eftir neyzluvatni; því að þeir gátu eigi
drukkið vatnið úr ánni. 25 Liðu svo sjö dagar eftir það að Jahve hafði
lostið ána.

### Önnur plágan: froskarnir.

8 Því næst sagði Jahve við Móse: Gakk fyrir Faraó og seg við
hann: Svo segir Jahve: Gef lýð mínum fararleyfi, að þeir megi
þjóna mér. 2 En ef þú synjar honum fararleyfis, þá skal eg þjá alt
þitt land með froskum. 3 Áin skal mora af froskum; þeir skulu fara
á land upp og skríða inn í höll þína og í svefnherbergi þitt og upp í
rekkju þína, inn í hús þjóna þinna og upp á fólk þitt, í baksturofna
þína og deigtrog. 4 Og froskarnir skulu skríða upp á þig og fólk þitt
og upp á alla þjóna þína.
5 Og Jahve sagði við Móse: Seg við Aron: Rétt út hönd þína og
hald staf þínum uppi yfir fljótunum, ánum og tjörnunum, og lát froska
koma yfir Egiptaland. 6 Og Aron rétti út hönd sína yfir vötn Egipta-
lands; komu þá upp froskar og huldu Egiptaland. 7 En spásagna-
mennirnir gjörðu slíkt hið sama með fjölkyngi sinni og létu froska
koma yfir Egiptaland. 8 Þá lét Faraó kalla Móse og Aron og sagði:
Biðjið Jahve, að hann láti þessa froska víkja frá mér og frá þjóð minni;
þá skal eg láta fólkið fara, að það megi færa Jahve fórnir. 9 Móse
sagði við Faraó: Þér skal veitast sú virðing að ákveða, nær eg skuli
biðja fyrir þér og fyrir þjónum þínum og fyrir fólki þínu, að frosk-
arnir víki frá þér og úr húsum þínum og verði hvergi eftir nema í
ánni. 10 Hann svaraði: Á morgun. Og Móse sagði: Svo skal vera sem
þú mælist til, svo að þú vitir, að enginn er sem Jahve, Guð vor.
11 Froskarnir skulu víkja frá þér og úr húsum þínum, frá þjónum
þínum og frá fólki þínu; hvergi nema í ánni skulu þeir eftir verða.

---

**16:** kap. 5, 1 n. **17:** kap. 4, 9. **20:** Sálm. 78, 44; 105, 29. — **8, 6:** Sálm. 78, 45; 105, 30. **7:** kap. 7, 11. 22. **8:** kap. 10, 16 n. 12, 31. **10:** kap. 9, 14; 15, 11.

12 Síðan gengu þeir Móse og Aron burt frá Faraó og Móse ákallaði
Jahve út af froskunum, sem hann hafði koma látið yfir Faraó. 13 Og
Jahve gjörði sem Móse beiddist, og dóu froskarnir í húsunum, í görð-
unum og á ökrunum. 14 Hrúguðu menn þeim saman í marga hauga
og varð af illur daunn í landinu. 15 En er Faraó sá að af létti, herti
hann hjarta sitt og hlýddi þeim ekki, eins og Jahve hafði sagt.

## Þriðja plágan: mýbitið.

16 Því næst sagði Jahve við Móse: Seg við Aron: Rétt út staf
þinn og slá duft jarðarinnar, og skal það þá verða að mýi um alt
Egiptaland. 17 Og þeir gjörðu svo; rétti Aron út hönd sína og laust
stafnum á duft jarðarinnar, og varð það að mýi á mönnum og fénaði;
alt duft jarðarinnar varð að mýi um alt Egiptaland. 18 Og spásagna-
mennirnir gjörðu slíkt hið sama með fjölkyngi sinni, til þess að fram-
leiða mý, en gátu ekki. En mýið lagðist bæði á menn og fénað. 19 Þá
sögðu spásagnamennirnir við Faraó: Þetta er Guðs fingur; en hjarta
Faraós harðnaði, og hann hlýddi þeim ekki, eins og Jahve hafði sagt.

## Fjórða plágan: flugurnar.

20 Þá sagði Jahve við Móse: Rís upp árla á morgun og far til
fundar við Faraó, er hann gengur til vatns, og seg við hann: Svo
segir Jahve: Gef fólki mínu fararleyfi, að þeir megi þjóna mér. 21 En
leyfir þú eigi fólki mínu að fara, skal eg láta flugur koma yfir þig og
þjóna þína, yfir fólk þitt og í hús þín; og hús Egipta skulu full verða
af flugum og jafnvel jörðin undir fótum þeirra. 22 En á þeim degi vil
eg undan taka Gósenland, þar sem mitt fólk hefst við, svo að þar
skulu engar flugur vera, til þess að þú vitir að eg er drottinn á jörð-
unni. 23 Og eg vil gjöra aðskilnað milli míns fólks og þíns fólks. Á
morgun skal þetta tákn verða. 24 Og Jahve gjörði svo; kom þá fjöldi
flugna í hús Faraós og hús þjóna hans og yfir alt Egiptaland, svo að
landið spiltist af flugunum. 25 Þá lét Faraó kalla þá Móse og Aron og
sagði: Farið og færið fórnir Guði yðar hér innanlands. 26 En Móse
svaraði: Ekki hæfir að vér gjörum svo; því að vér færum Jahve, Guði
vorum, þær fórnir, sem eru Egiptum andstygð; ef vér nú bærum fram
þær fórnir, sem eru Egiptum andstygð, að þeim ásjáandi, mundu þeir
þá ekki grýta oss? 27 Vér verðum að fara þrjár dagleiðir út á eyði-
mörkina, til að færa fórnir Jahve, Guði vorum, eins og hann hefir
boðið oss. 28 Þá mælti Faraó: Eg vil leyfa yður að fara burt, svo að
þér færið fórnir Jahve, Guði yðar, á eyðimörkinni; aðeins megið
þér ekki fara of langt í burt; biðjið fyrir mér! 29 Móse svaraði: Sjá,
þegar eg kem út frá þér, vil eg biðja til Jahve, að flugurnar víki frá
Faraó og frá þjónum hans og frá fólki hans á morgun; en þá má
Faraó ekki oftar prettast um að leyfa fólkinu að fara burt til að færa
Jahve fórnir. 30 Þá gekk Móse út frá Faraó og bað til Jahve. 31 Og
Jahve gjörði sem Móse bað og lét flugurnar víkja frá Faraó og þjón-
um hans og fólki hans, svo að ekki ein varð eftir. 32 En Faraó herti
þá enn hjarta sitt og ekki leyfði hann fólkinu að fara.

---

**15:** kap. 7, 13. **19:** Sálm. 64, 10. 2 Mós. 7, 13. **25:** v. 8. **26:** 1 Mós. 43, 32; 46, 34.
**27:** kap. 3, 18.

### Fimta plágan: fjársýkin.

9 Því næst sagði Jahve við Móse: Gakk fyrir Faraó og seg við
hann: Svo segir Jahve, Guð Hebrea: Gef fólki mínu fararleyfi, að
þeir megi þjóna mér; 2 en synjir þú þeim fararleyfis og haldir þú þeim
enn lengur, 3 sjá, þá skal hönd Jahve koma yfir kvikfénað þinn, sem
er í haganum, yfir hesta og asna og úlfalda, nautpening og sauðfé, með
harðla þungu faraldri. 4 Og Jahve mun gjöra þann mun á kvikfénaði
Ísraelsmanna og kvikfénaði Egipta, að engin skepna skal deyja af öllu
því, sem Ísraelsmenn eiga. 5 Og Jahve tók til ákveðinn tíma og sagði: Á
morgun mun Jahve láta þetta fram fara í landinu. 6 Og Jahve lét
þetta fram fara að næsta morgni; dó þá allur kvikfénaður Egipta, en
engin skepna dó af fénaði Ísraelsmanna. 7 Þá sendi Faraó menn og
sjá: engin skepna hafði farist af fénaði Ísraelsmanna; en hjarta Faraós
var ósveigjanlegt og hann gaf fólkinu eigi fararleyfi.

### Sjötta plágan: kýlin.

8 Því næst sagði Jahve við Móse og Aron: Takið handfylli ykkar
af ösku úr ofninum og skal Móse dreifa henni í loft upp að Faraó á-
sjáandi. 9 Skal hún þá verða að dufti um alt Egiptaland; en af því
skal koma bólga, sem brýzt út í kýli, bæði á mönnum og fénaði um alt
Egiptaland. 10 Þeir tóku þá ösku úr ofninum og gengu fyrir Faraó;
dreifði þá Móse öskunni í loft upp, og kom þá á menn og fénað bólga,
sem brauzt út í kýli. 11 En spásagnamennirnir gátu ekki komið á fund
Móse sökum bólgunnar, því að bólga kom á spásagnamennina, eins og
á alla Egipta. 12 En Jahve herti hjarta Faraós og hann hlýddi þeim
ekki, eins og Jahve hafði sagt Móse.

### Sjöunda plágan: haglið.

13 Þá mælti Jahve við Móse: Rís upp árla á morgun, gakk fyrir
Faraó og seg við hann: Svo segir Jahve, Guð Hebrea: Gef fólki mínu
fararleyfi, að þeir megi þjóna mér. 14 Því að í þetta sinn ætla eg að
senda allar plágur mínar yfir þig sjálfan, yfir þjóna þína og yfir fólk
þitt, svo að þú vitir, að enginn er minn líki á allri jörðunni. 15 Því að eg
hefði þegar getað rétt út hönd mína og slegið þig og fólk þitt með
drepsótt, svo að þú yrðir afmáður af jörðinni. 16 En þess vegna hefi
eg þig standa látið, til þess að eg sýndi þér mátt minn og til þess að
nafn mitt yrði kunngjört um alla veröld. 17 Þú stendur enn í móti
fólki mínu, með því að vilja ekki gefa þeim fararleyfi. 18 Sjá, á morg-
un í þetta mund vil eg láta dynja yfir svo stórfelt hagl, að aldrei hefir
slíkt komið á Egiptalandi, síðan landið varð til og alt til þessa dags.
19 Fyrir því send nú og tak sem skjótast inn fénað þinn og alt það, er
þú átt úti; allir menn og skepnur, sem úti verða staddar og ekki eru
í hús inn látnar og fyrir haglinu verða, munu deyja. 20 Sérhver af
þjónum Faraós, sem óttaðist orð Jahve, hýsti inni hjú sín og fénað.
21 En þeir, sem ekki gáfu gaum að orðum Jahve, létu hjú sín og fénað
vera úti. 22 Þá sagði Jahve við Móse: Rétt hönd þína til himins og
þá skal hagl drífa yfir alt Egiptaland, yfir menn og skepnur, og yfir
allan jarðargróða í Egiptalandi. 23 Þá lyfti Móse staf sínum til himins
og Jahve lét þegar koma reiðarþrumur og hagl; og eldingum laust
á jörð niður og Jahve lét hagl dynja yfir Egiptaland. 24 Og haglið

---

**9,12:** 2 Mós. 4, 21. **14:** kap. 8, 6. **16:** Róm. 9, 17. **23:** Sálm. 105, 32 n. 78, 47 n.
Jós. 10, 11.

dundi og eldingunum laust í sífellu niður innan um haglið, er var svo
geysi-stórt, að slíkt hafði ekki komið á öllu Egiptalandi, síðan það
bygðist. [25] Og haglið laust til bana alt það, sem úti var í öllu Egipta-
landi, bæði menn og skepnur; og haglið lamdi allan jarðargróða og
braut hvert tré merkurinnar. [26] Aðeins í Gósenlandi, þar sem Israels-
menn bjuggu, kom ekkert hagl. [27] Þá sendi Faraó og lét kalla þá Móse
og Aron og sagði við þá: Að þessu sinni hefi eg syndgað; Jahve er
réttlátur, en eg og mitt fólk höfum á röngu að standa. [28] Biðjið til
Jahve; nóg er komið af reiðarþrumum og hagli; vil eg þá gefa yður
fararleyfi og skuluð þér ekki bíða lengur. [29] Móse svaraði honum:
Jafnskjótt sem eg er kominn út úr borginni, skal eg fórna höndum til
Jahve og mun þá reiðarþrumunum linna og hagl ekki framar koma, svo
að þú vitir, að jörðin tilheyrir Jahve. [30] Og veit eg þó að þú og þjónar
þínir óttast ekki enn Jahve Guð. [31] Hör og bygg var niður slegið, því
að öx voru komin á byggið og knappar á hörinn. [32] En hveiti og speldi
var ekki niður slegið, því að þau koma seint upp. [33] Því næst gekk
Móse burt frá Faraó og út úr borginni og fórnaði höndum til Jahve;
linti þá reiðarþrumunum og haglinu, og regn streymdi ekki lengur nið-
ur á jörðina. [34] En er Faraó sá, að regninu, haglinu og reiðarþrum-
unum linti, hélt hann áfram að syndga og herti hjarta sitt, hann og
þjónar hans. [35] Og hjarta Faraós harðnaði og hann gaf Ísraelsmönn-
um eigi fararleyfi, eins og Jahve hafði sagt fyrir munn Móse.

### Áttunda plágan: engispretturnar.

10 Því næst sagði Jahve við Móse: Gakk inn fyrir Faraó; því að
eg hefi hert hjarta hans og hjörtu þjóna hans, til þess að eg fremji
þessi tákn mín meðal þeirra, [2] og til þess að þú getir sagt börnum þín-
um og barnabörnum frá því, hvernig eg hefi farið með Egipta, og frá
þeim táknum, sem eg hefi á þeim gjört, svo að þér vitið, að eg er
Jahve. [3] Síðan gengu þeir Móse og Aron inn fyrir Faraó og sögðu við
hann: Svo segir Jahve, Guð Hebrea: Hve lengi vilt þú færast undan að
auðmýkja þig fyrir mér? Gef fólki mínu fararleyfi, að þeir megi þjóna
mér; [4] því að færist þú undan að leyfa fólki mínu að fara, þá skal eg
á morgun láta engisprettur færast inn yfir landamæri þín. [5] Og þær
skulu hylja yfirborð landsins, svo að ekki skal sjást til jarðar; skulu þær
upp eta leifarnar, sem bjargað var og þér eigið eftir óskemdar af hagl-
inu, og naga öll tré yðar, sem spretta á mörkinni. [6] Þær skulu fylla
hús þín og hús allra þjóna þinna og hús allra Egipta, og hafa hvorki
feður þínir né feður feðra þinna séð slíkt, frá því þeir fæddust í heim-
inn og alt til þessa dags. Síðan sneri hann sér við og gekk út frá
Faraó. [7] Þá sögðu þjónar Faraós við hann: Hversu lengi á þessi mað-
ur að verða oss að meini? gef mönnunum fararleyfi, að þeir megi þjóna
Jahve, Guði sínum! Veiztu ekki enn, að Egiptaland er í eyði lagt?
[8] Þá voru þeir Móse og Aron sóttir aftur til Faraós og sagði hann við
þá: Farið og þjónið Jahve, Guði yðar! En hverjir eru það, sem ætla að
fara? [9] Móse svaraði: Vér ætlum að fara með börn vor og gamalmenni;
með sonu vora og dætur, sauðfé vort og nautgripi ætlum vér að fara,
því að vér eigum að halda Jahve hátíð. [10] En hann sagði við þá: Svo
framt sé Jahve með yður, sem eg gef yður og börnum yðar fararleyfi!
Sannlega hafið þér ilt í huga. [11] Eigi skal svo vera; farið þér karl-
mennirnir og þjónið Jahve, því að um það hafið þér beðið. Síðan voru
þeir reknir út frá Faraó.

---

27: kap. 10, 16. Dan. 9, 7. 28: kap. 8, 4.

12 Þá mælti Jahve við Móse: Rétt út hönd þína yfir Egiptaland,
svo að engisprettur komi yfir landið og upp eti allan jarðargróða, alt
það, sem haglið eftir skildi. 13 Þá rétti Móse út staf sinn yfir Egipta-
land, og Jahve lét austanvind blása inn yfir landið allan þann dag og
alla nóttina; en með morgninum kom austanvindurinn með engisprett-
urnar. 14 Engispretturnar komu yfir alt Egiptaland og mesti aragrúi
af þeim kom niður í öllum héruðum landsins; hafði aldrei áður verið
slíkur urmull af engisprettum og mun ekki hér eftir verða. 15 Þær
huldu alt landið, svo að hvergi sá til jarðar, og þær átu alt gras jarð-
arinnar og allan ávöxt trjánna, sem haglið hafði eftir skilið, svo að í
öllu Egiptalandi varð ekkert grænt eftir, hvorki á trjánum né á jurtum
merkurinnar. 16 Þá gjörði Faraó í skyndi boð eftir Móse og Aroni og
sagði: Eg hefi syndgað á móti Jahve, Guði yðar, og á móti yður. 17 En
fyrirgefið mér synd mína aðeins í þetta sinn og biðjið Jahve, Guð
yðar, að hann fyrir hvern mun létti þessari voðaplágu af mér. 18 Síð-
an gekk hann út frá Faraó og bað til Jahve. 19 Þá sneri Jahve veðr-
inu í mjög hvassan vestanvind, sem tók engispretturnar og fleygði þeim
í Rauðahafið, svo að ekki var eftir ein engispretta nokkursstaðar í Egipta-
landi. 20 En Jahve herti hjarta Faraós, svo að hann leyfði ekki Ísra-
elsmönnum burt að fara.

## Níunda plágan: myrkrið.

21 Því næst sagði Jahve við Móse: Rétt hönd þína til himins og
skal þá koma þreifandi myrkur yfir alt Egiptaland. 22 Móse rétti þá
hönd sína til himins og varð þá niðamyrkur í öllu Egiptalandi í þrjá
daga. 23 Enginn sá annan og enginn hreyfði sig þaðan sem hann var
staddur í þrjá daga; en bjart var hjá öllum Ísraelsmönnum, í híbýlum
þeirra. 24 Þá lét Faraó kalla Móse og sagði: Farið og þjónið Jahve,
látið aðeins sauðfénað yðar og nautgripi eftir verða; börn yðar mega
einnig fara með yður. 25 En Móse svaraði: Þú verður einnig að fá oss
dýr til sláturfórnar og brennifórnar, að vér megum fórnir færa Jahve,
Guði vorum. 26 Kvikfé vort skal og fara með oss; ekki skal ein klauf
eftir verða; því að af því verðum vér að taka, til þess að þjóna Jahve,
Guði vorum; en eigi vitum vér, hverju vér skulum fórnfæra Jahve, fyr
en vér komum þangað. 27 En Jahve herti hjarta Faraós og hann vildi
ekki gefa þeim fararleyfi. 28 Og Faraó sagði við hann: Haf þig á burt
frá mér og varast að koma oftar fyrir mín augu, því að á þeim degi,
sem þú kemur í augsýn mér, skaltu deyja. 29 Móse svaraði: Rétt segir
þú; eg skal aldrei framar koma þér fyrir augu.

## Tíunda plágan: frumburðir deyddir.

11 Þá sagði Jahve við Móse: Eg vil enn láta eina plágu koma yfir
Faraó og Egiptaland; eftir það mun hann leyfa yður að fara
héðan; þegar hann gefur yður fult fararleyfi, þá mun hann jafnvel reka
yður burt héðan. 2 Seg nú í áheyrn fólksins, að hver maður skuli
biðja granna sinn og hver kona grannkonu sína um silfurgripi og
gullgripi. 3 En Jahve lét fólkið öðlast hylli Egipta; enda var Móse
mjög mikils virtur maður í Egiptalandi, bæði af þjónum Faraós og
lýðnum. 4 Þá sagði Móse: Svo segir Jahve: Um miðnætti vil eg ganga

---

10, 12: Sálm. 78, 46; 105, 34. 16: kap. 9, 27 n. 17: kap. 8, 8. 22: Sálm. 105, 28.
24: kap. 10, 10. — 11, 1: kap. 12, 31—33. 39. 2: kap. 3, 21 n. 12, 35 n.

mitt í gegnum Egiptaland, 5 og þá skulu allir frumburðir í Egiptalandi
deyja, frá frumgetnum syni Faraós, sem situr í hásæti sínu, til frum-
getnings ambáttarinnar, sem stendur við kvörnina, og allir frumburðir
fénaðarins. 6 Þá skal verða svo mikið harmakvein um alt Egiptaland,
að jafnmikið hefir ekki verið og mun aldrei verða. 7 En eigi skal svo
mikið sem rakki gelta að nokkrum Ísraelsmanna, hvorki að mönnum
né skepnum, svo að þér vitið, að Jahve gjörir greinarmun á Ísraels-
mönnum og Egiptum. 8 Þá skulu allir þessir þjónar þínir koma til
mín, falla til jarðar fyrir mér og segja: Far þú á burt og alt það fólk,
sem þér fylgir; og eftir það mun eg á burt fara. Síðan gekk hann út
frá Faraó og var hinn reiðasti. 9 En Jahve sagði við Móse: Faraó
mun ekki láta að orðum yðar, svo að stórmerki mín verði mörg í
Egiptalandi. 10 En þeir Móse og Aron gjörðu öll þessi stórmerki fyrir
Faraó; en Jahve herti hjarta Faraós og ekki leyfði hann Ísraelsmönn-
um að fara burt úr landi sínu.

## Páskahátíðin og burtförin af Egiptalandi. Frumburðir helgaðir.

12 Þá mælti Jahve við þá Móse og Aron í Egiptalandi á þessa
leið: 2 Þessi mánuður skal vera upphafsmánuður hjá yður, hann
skal vera fyrsti mánuður ársins hjá yður. 3 Talið til alls safnaðar
Ísraelsmanna og segið: Á tíunda degi þessa mánaðar skal hver hús-
bóndi taka lamb fyrir fjölskyldu sína, eitt lamb fyrir hvert heimili.
4 En sé eitt lamb ofmikið fyrir heimilið, þá taki hann og granni hans,
sá er næstur honum býr, lamb saman eftir tölu heimilismanna; eftir
því sem hver etur, skuluð þér ætla á um lambið. 5 Lambið skal vera
gallalaust, hrútlamb veturgamalt, og má vera hvort sem vill ásauðar-
lamb eða hafurkið. 6 Og þér skuluð varðveita það til hins fjórtánda
dags þessa mánaðar, þá skal öll samkoma Ísraelssafnaðar slátra því
um sólsetur. 7 Þá skulu þeir taka nokkuð af blóðinu og ríða því á
báða dyrustafi og dyratré húsa þeirra, þar sem þeir eta lambið. 8 Sömu
nóttina skulu þeir eta kjötið, steikt við eld; með ósýrðu brauði og
beiskum jurtum skulu þeir eta það. 9 Ekki skuluð þér eta neitt af því
hrátt eða soðið í vatni, heldur steikt við eld, höfuðið með fótum og
innýflum. 10 Ekkert af því skuluð þér leifa til morguns, en hafi nokkuð
af því leift verið til morguns, þá skuluð þér brenna það í eldi. 11 Og
þannig skuluð þér neyta þess: þér skuluð vera gyrtir um lendar yðar,
hafa skó á fótum og stafi í höndum; þér skuluð eta það í flýti; það
eru páskar* Jahve. 12 Því að þessa sömu nótt vil eg fara um Egipta-
land og deyða alla frumburði í Egiptalandi, bæði menn og fénað; og
refsidóma vil eg láta fram koma á öllum goðum Egiptalands. Eg er
Jahve. 13 Og blóðið skal vera yður tákn á þeim húsum, þar sem þér
eruð: er eg sé blóðið, mun eg ganga fram hjá yður; og engin skæð
plága skal yfir yður koma, þegar eg slæ Egiptaland. 14 Þessi dagur
skal vera yður endurminningardagur og þér skuluð halda hann sem
hátíð Jahve; kynslóð eftir kynslóð skuluð þér hann hátíðlegan halda
eftir ævarandi lögmáli. 15 Í sjö daga skuluð þér eta ósýrt brauð;
þegar á fyrsta degi skuluð þér flytja súrdeig burt úr húsum yðar; því
að hver sem etur sýrt brauð frá fyrsta degi til hins sjöunda, hann
skal upprættur verða úr Ísrael. 16 Á hinum fyrsta degi skuluð þér
halda helga samkomu og sömuleiðis á hinum sjöunda degi helga sam-

---

**5:** kap. 4, 23; 12, 29. **9:** kap. 3, 19. 20. — **12, 2:** kap. 13, 4. **6:** 5 Mós. 16, 6. **8:** 1 Kor. 5, 8. **10:** 4 Mós. 9, 12. **11:** * Þ. e. framhjáganga. Kap. 12, 13. 23. **12:** 4 Mós. 33, 4. **14:** 1 Kor. 11, 24. 25. **15:** kap. 34, 18. 3 Mós. 23, 5 n. 4 Mós. 28, 17 n.

komu; á þeim dögum skal ekkert verk vinna; nema það megið þér
tilreiða, sem hver og einn þarf sér til matar. [17] Þér skuluð halda helga
hátíð hinna ósýrðu brauða, því að einmitt á þessum degi leiddi eg
herskara yðar út af Egiptalandi; fyrir því skuluð þér halda heilagt
þennan dag, kynslóð eftir kynslóð, eftir ævarandi lögmáli. [18] Í fyrsta
mánuðinum skuluð þér ósýrt brauð eta frá því um kveldið hinn fjór-
tánda dag mánaðarins og til þess um kveldið hinn tuttugasta og fyrsta
dag mánaðarins. [19] Í sjö daga skal súrdeig ekki finnast í húsum yðar;
því að hver, sem þá etur sýrt brauð, sá maður skal upprættur verða
úr söfnuði Ísraels, hvort sem hann er útlendur eða innlendur. [20] Þér
skuluð ekkert sýrt brauð eta; í öllum bústöðum yðar skuluð þér eta
ósýrt brauð.

[21] Þá stefndi Móse saman öllum öldungum Ísraelsmanna og sagði
við þá: Farið og takið yður sauðkindur handa heimilum yðar og
slátrið páskalambinu. [22] Takið ísóps-vönd og drepið honum í blóðið,
sem er í troginu, og ríðið blóði úr troginu á dyratréð og báða dyra-
stafina; og enginn yðar skal fara út fyrir dyr á húsi sínu, fyr en að
morgni. [23] Því að Jahve mun fara yfir landið, til þess að ljósta Egipta;
hann mun sjá blóðið á dyratrénu og báðum dyrastöfunum og mun þá
Jahve ganga fram hjá dyrunum og ekki láta eyðandann* koma í hús
yðar til að ljósta yður. [24] Gætið þessa sem æfinlegrar skipunar fyrir
þig og börn þín. [25] Og þegar þér komið í landið, sem Jahve mun
gefa yður, eins og hann hefir heitið, þá skuluð þér halda þennan sið.
[26] Og þegar börn yðar segja við yður: Hvaða siður er þetta, sem þér
haldið? [27] þá skuluð þér svara: Þetta er páskafórn Jahve, sem gekk
fram hjá húsum Ísraelsmanna í Egiptalandi, þá er hann laust Egipta,
en hlífði vorum húsum. Þá féll lýðurinn fram og tilbað. [28] Og Ísraels-
menn fóru og gjörðu þetta; þeir gjörðu eins og Jahve hafði boðið þeim
Móse og Aroni.

[29] Um miðnæturskeið laust Jahve alla frumburði í Egiptalandi, frá
frumgetnum syni Faraós, sem sat í hásæti sínu, alt til frumgetnings
bandingjans, sem í myrkvastofu sat, og alla frumburði fénaðarins. [30] Þá
reis Faraó upp um nóttina, hann og allir þjónar hans, og allir Egipt-
ar; gjörðist þá mikið harmakvein í Egiptalandi, því að ekki var það
hús, að eigi væri lík inni. [31] Lét hann kalla þá Móse og Aron um
nóttina og sagði: Takið yður upp og farið burt frá minni þjóð, bæði
þið og Ísraelsmenn; farið og þjónið Jahve, eins og þið hafið um talað.
[32] Takið með yður bæði sauðfé yðar og nautgripi, eins og þið hafið um
talað, farið því næst af stað og biðjið einnig mér blessunar. [33] Og
Egiptar ráku hart eftir fólkinu, til þess að koma þeim sem fyrst burt
úr landinu, því að þeir sögðu: Vér munum allir deyja. [34] Fólkið tók
þá deigið, sem það hafði, áður en það sýrðist, batt deigtrogin innan í
klæði sín og bar þau á öxlum sér. [35] En Ísraelsmenn höfðu gjört
eftir fyrirmælum Móse og beðið Egipta um gullgripi og silfurgripi og
klæði, [36] og hafði Jahve látið fólkið öðlast hylli Egipta, svo að þeir
urðu við bæn þeirra og þannig ræntu þeir Egipta. [37] Tóku Ísrelsmenn
sig nú upp frá Ramses og fóru til Súkkót, hér um bil sex hundruð
þúsund fótgangandi manna, auk barna. [38] Þar að auki fór með þeim
mikill fjöldi af alls konar lýð, svo og stórar hjarðir sauða og nauta.
[39] Og þeir bökuðu ósýrðar kökur af deiginu, sem þeir höfðu með sér
úr Egiptalandi, því að deigið hafði ekki sýrst, þar eð þeir voru reknir burt

---

**23:** Hebr. 11, 28. * Þ. e. morðengilinn, sbr. 2 Sam. 24, 16. **29:** kap. 4, 23. Sálm. 78, 51; 105, 36. **31:** kap. 11, 1. **35:** kap. 11, 2. **36:** kap. 3, 21. 22. **37:** 4 Mós. 33, 5; 1, 46.

úr Egiptalandi og máttu engar viðtafir hafa og höfðu því ekkert búið
sér til veganestis. 40 En Ísraelsmenn höfðu þá búið í Egiptalandi fjögur
hundruð og þrjátíu ár. 41 Og að liðnum þeim fjögur hundruð og
þrjátíu árum, einmitt á þeim degi, fóru allir herskarar Jahve út af
Egiptalandi. 42 Þetta er vökunótt Jahve, með því að hann leiddi þá
út af Egiptalandi; þessa sömu nótt halda allir Ísraelsmenn helga sem
vökunótt Jahve frá kyni til kyns.
43 Og Jahve sagði við þá Móse og Aron: Þetta eru ákvæðin um
páskalambið: Enginn útlendur maður má af því eta; 44 en sérhver þræll,
sem er verði keyptur og hafir þú umskorið hann, má eta af því;
45 enginn útlendur búandi eða daglaunamaður má eta af því. 46 Menn
skulu eta það í einu húsi; ekkert af kjötinu mátt þú bera út úr húsinu
og ekkert bein í því megið þér brjóta. 47 Allur söfnuður Ísraels skal
svo gjöra. 48 En ef nokkur útlendingur býr hjá þér og vill halda Jahve
páska, þá skal umskera alt karlkyn hjá honum, og má hann þá koma
og halda hátíðina, og skal hann vera sem innborinn maður; en enginn
óumskorinn skal þess neyta. 49 Sömu lög skulu vera fyrir innborna
menn sem fyrir þá útlendinga, er meðal yðar búa. 50 Allir Ísraels-
menn gjörðu svo; þeir gjörðu svo sem Jahve hafði boðið þeim Móse
og Aroni. 51 Einmitt á þessum degi leiddi Jahve Ísraelsmenn út af
Egiptalandi eftir herskörum þeirra.
13 Þá talaði Jahve við Móse og sagði: 2 Þú skalt helga mér alla
frumburði, hvað eina sem opnar móðurlíf meðal Ísraelsmanna,
hvort heldur er menn eða fénaður; það er mitt.
3 Og Móse sagði við fólkið: Verið minnugir þessa dags, er þér
föruð burt úr Egiptalandi, út úr þrælahúsinu; því með voldugri hendi
leiddi Jahve yður út þaðan: sýrð brauð má eigi eta. 4 Í dag farið þér
af stað, í abíb-mánuði; 5 og þegar Jahve leiðir þig inn í land
Kanaaníta, Hetíta, Amóríta, Hevíta og Jebúsíta, sem hann sór feðrum
þínum að gefa þér, í það land, sem flýtur í mjólk og hunangi, þá
skaltu halda þennan sið í þessum sama mánuði. 6 Sjö daga skaltu eta
ósýrt brauð og á hinum sjöunda degi skal vera hátíð Jahve. 7 Ósýrt
brauð skal eta í þá sjö daga, ekkert sýrt brauð má sjást hjá þér, og
ekki má heldur súrdeig sjást nokkurstaðar hjá þér innan þinna landa-
merkja. 8 Á þeim degi skaltu gjöra syni þínum grein fyrir þessu og
segja: Það er sökum þess, sem Jahve gjörði fyrir mig, þá er eg fór
út af Egiptalandi. 9 Og þetta skal vera þér til merkis á hendi þinni
og til minningar á milli augna þinna, svo að lögmál Jahve sé þér æ á
vörum, því með voldugri hendi leiddi Jahve þig út af Egiptalandi.
10 Þessa skipun skaltu því halda á ákveðnum tíma ár frá ári. 11 Þegar
Jahve leiðir þig inn í land Kanaaníta, eins og hann sór þér og feðrum
þínum, og gefur þér það, 12 þá skaltu eigna Jahve alt það, sem opnar
móðurlíf; og allir frumburðir, sem koma undan þeim fénaði, er þú átt,
skulu heyra Jahve til, séu þeir karlkyns. 13 Alla frumburði undan
ösnum skaltu leysa með lambi; leysir þú ekki, skaltu brjóta þá úr
hálsliðum; en alla frumburði manna meðal barna þinna skaltu leysa.
14 Og þegar sonur þinn spyr þig á síðan og segir: Hvað á þetta að
þýða? þá svara honum: Með voldugri hendi leiddi Jahve oss út af
Egiptalandi, úr þrælahúsinu; 15 því þegar Faraó synjaði oss þverlega
fararleyfis, þá deyddi Jahve alla frumburði í Egiptalandi, bæði frum-

---

**40:** 1 Mós. 15, 13. Gal. 3, 17. **46:** 4 Mós. 9, 12. Jóh. 19, 36. — **13, 2:** kap. 22, 29; 34, 19 n. 3 Mós. 27, 26 n. 4 Mós. 3, 13. Lúk. 2, 23. **4:** kap. 12, 2. **5:** 1 Mós. 17, 8. 2 Mós. 3, 8. **6:** kap. 12, 15. **8:** kap. 12, 26 n. **9:** sbr. v. 16. 5 Mós. 6, 8; 11, 18. **12:** sbr. v. 2. **15:** kap. 12, 29.

burði manna og frumburði fénaðar; þess vegna fórnfæri eg Jahve öllu,
sem opnar móðurlíf, en alla frumburði barna minna leysi eg. [16] Og
það skal vera merki á hendi þér og minningarband á milli augna
þinna um það, að Jahve leiddi oss út af Egiptalandi með voldugri
hendi.

### Förin yfir Rauðahafið.

[17] Þegar Faraó hafði gefið fólkinu fararleyfi, leiddi Guð þá ekki á
leið til Filistalands, þótt sú leið væri skemst; því að Guð sagði: Vera
má að fólkið iðrist eftir, þegar það sér að ófriðar er von, og snúi svo
aftur til Egiptalands. [18] Heldur lét Guð fólkið fara í bug eyðimerkur-
veginn til Rauðahafsins; og fóru Ísraelsmenn vígbúnir af Egiptalandi.
[19] Og Móse tók með sér bein Jósefs, því að hann hafði tekið eið af Ísra-
elsmönnum og sagt: Sannlega mun Guð vitja yðar; flytjið þá bein mín
héðan burt með yður. [20] Og þeir tóku sig upp frá Súkkót og settu
búðir sínar í Etam, þar sem eyðimörkina þrýtur. [21] En Jahve gekk
fyrir þeim á daginn í skýstólpa, til að vísa þeim veg, en á nóttunni í
eldstólpa, til að lýsa þeim, svo að þeir gætu ferðast nótt sem dag;
[22] skýstólpinn veik ekki frá fólkinu á daginn, né heldur eldstólpinn á
nóttunni.

14 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Seg Ísraelsmönnum, að
þeir snúi aftur og setji búðir sínar fyrir framan Pí-Hakíról, milli
Migdóls og hafsins, gegnt Baal-Zefón; þar andspænis skuluð þér setja
búðir yðar við hafið. [3] Og Faraó mun segja um Ísraelsmenn: Þeir
fara villir vega í landinu, eyðimörkin hefir innibyrgt þá. [4] Og eg vil
herða hjarta Faraós og hann skal veita þeim eftirför; eg vil sýna dýrð
mína á Faraó og öllum liðsafla hans, svo að Egiptar skulu vita, að eg
er Jahve. Og þeir gjörðu svo. [5] Þegar Egiptalandskonungi var sagt,
að fólkið væri flúið, varð hugur Faraós og þjóna hans mótsnúinn fólk-
inu og þeir sögðu: Hví höfum vér gjört þetta, að sleppa ísrael úr þjón-
ustu vorri? [6] Lét hann þá beita fyrir vagna sína og tók menn sína
með sér. [7] Og hann tók sex hundruð valda vagna og alla vagna Egipta-
lands og setti kappa á hvern þeirra. [8] En Jahve herti hjarta Faraós,
Egiptalands konungs, svo að hann veitti Ísraelsmönnum eftirför, því að
Ísraelsmenn höfðu farið burt með upplyftri hendi. [9] Egiptar sóttu nú
eftir þeim, allir hestar og vagnar Faraós, riddarar hans og her hans,
og náðu þeim þar sem þeir höfðu sett búðir sínar við hafið, hjá Pí-
Hakíról, gegnt Baal-Zefón. [10] Þegar Faraó nálgaðist, hófu Ísraelsmenn
upp augu sín og sjá: Egiptar sóttu eftir þeim; urðu Ísraelsmenn þá
mjög óttaslegnir og hrópuðu til Jahve. [11] Og þeir sögðu við Móse:
Tókst þú oss burt til þess að deyja hér á eyðimörku, af því að engar
væru grafir til í Egiptalandi? Hví hefir þú gjört oss þetta, að fara
með oss burt af Egiptalandi? [12] Kemur nú ekki fram það, sem vér
sögðum við þig á Egiptalandi: Lát oss vera kyrra og viljum vér þjóna
Egiptum, því að betra er fyrir oss að þjóna Egiptum en að deyja í
eyðimörkinni? [13] Þá sagði Móse við lýðinn: Óttist ekki; standið stöð-
ugir og munuð þér sjá hjálpræði Jahve, er hann í dag mun láta fram
við yður koma; því að eins og þér sjáið Egiptana í dag, munuð þér
aldrei nokkurn tíma framar sjá þá. [14] Jahve mun berjast fyrir yður,
en þér skuluð vera kyrrir.

---

**16:** sbr. v. 9. **19:** 1 Mós. 50, 25. Jós. 24, 32. **21:** 4 Mós. 14, 14. Nehem. 9, 12. Sálm. 78, 14; 105, 39. 1 Kor. 10, 1. — **14, 2:** 4 Mós. 33, 7. **4:** kap. 7, 5. **8:** 4 Mós. 15, 30; 33, 3. **11:** Sálm. 106, 7. **18:** 2 Kron. 20, 17. **14:** 5 Mós. 1, 30.

[15] Þá sagði Jahve við Móse: Hví hrópar þú til mín? Seg Ísraels-
mönnum, að þeir haldi áfram; [16] en lyft þú upp staf þínum og rétt út
hönd þína yfir hafið og kljúf það, og Ísraelsmenn skulu ganga á þurru
mitt í gegnum hafið. [17] Sjá, eg mun herða hjörtu Egipta, svo að þeir
skulu sækja á eftir þeim, og eg vil sýna dýrð mína á Faraó og öllum
liðsafla hans, á vögnum hans og riddurum. [18] Og Egiptar skulu vita,
að eg er Jahve, þá er eg sýni dýrð mína á Faraó, á vögnum hans og
riddurum. [19] Og engill Guðs, sem gekk á undan liði Ísraels, færði sig
og gekk aftur fyrir þá, og skýstólpinn, sem var fyrir framan þá, færðist
og stóð að baki þeim; [20] og hann bar á milli herbúða Egipta og herbúða
Ísraels og var skýið myrkt annars vegar, en annars vegar lýsti það upp nótt-
ina; og færðust hvorugir nær öðrum alla þá nótt. [21] En Móse rétti út hönd
sína yfir hafið og Jahve lét hvassan austanvind blása alla nóttina og bægja
sjónum burt og gjörði hafið að þurlendi, og vötnin klofnuðu. [22] Og
Ísraelsmenn gengu á þurru mitt í gegn um hafið og vötnin stóðu eins
og veggur til hægri og vinstri handar þeim. [23] Og Egiptar veittu þeim
eftirför og sóttu eftir þeim mitt út í hafið, allir hestar Faraós, vagnar
hans og riddarar. [24] En á morgunvökunni leit Jahve yfir lið Egipta í
elds- og skýstólpanum, og sló felmti í lið Egipta; [25] og hann lét vagna
þeirra ganga af hjólunum, svo að þeim sóttist leiðin erfiðlega. Þá sögðu
Egiptar: Flýjum fyrir Ísrael, því að Jahve berst með þeim móti Egipt-
um. [26] Þá sagði Jahve við Móse: Rétt út hönd þína yfir hafið og skulu
þá vötnin aftur falla yfir Egipta, yfir vagna þeirra og riddara. [27] Og
Móse rétti hönd sína út yfir hafið, og sjórinn féll aftur undir morgun-
inn í farveg sinn, en Egiptar flýðu beint í móti aðfallinu og keyrði
Jahve þá mitt í hafið. [28] Og vötnin féllu að og huldu vagnana og
riddarana, allan liðsafla Faraós, sem eftir þeim hafði farið út í hafið;
ekki nokkur einn þeirra komst lífs af. [29] En Ísraelsmenn gengu á þurru
mitt í gegnum hafið og vötnin stóðu eins og veggur til hægri og vinstri
handar þeim. [30] Þannig frelsaði Jahve Ísrael á þeim degi undan valdi
Egipta og Ísrael sá Egipta liggja dauða á sjávarströndinni. [31] Og er
Ísrael sá hið mikla undur, sem Jahve hafði gjört á Egiptum, þá ótt-
aðist fólkið Jahve, og þeir trúðu á Jahve og þjón hans Móse.

**15** Þá söng Móse og Ísraelsmenn Jahve þennan lofsöng og sögðu:

Eg vil lofsyngja Jahve, því að hann hefir sig dýrlegan gjört,
hestum og riddurum steypti hann niður í hafið.
[2] Jahve er styrkur minn og lofsöngur,
og hann varð mitt hjálpræði;
hann er minn Guð, og eg vil vegsama hann,
Guð föður míns, og eg vil tigna hann.
[3] Jahve er stríðshetja, Jahve er hans nafn.
[4] Vögnum Faraós og herliði hans varpaði hann í hafið,
og hinir völdustu kappar hans druknuðu í Hafinu rauða;
[5] undirdjúpin huldu þá,
þeir sukku niður í sjávardjúpið eins og steinn.
[6] Þín hægri hönd, Jahve, hefir sýnt sig dýrlega í krafti,
þín hægri hönd, Jahve, sundurkremur fjandmennina.
[7] Og með mikilleik þinnar hátignar leggur þú mótstöðumenn þína að velli;
þú útsendir þína reiði og hún eyðir þeim eins og hálmleggjum.
[8] Og fyrir blástri nasa þinna hlóðust vötnin upp,
rastirnar stóðu eins og veggur,

---

**19:** kap. 23, 20. 23. **21:** Sálm. 66, 6; 114, 3. Jes. 63, 12. 13. Jós. 3, 16. **22:** Jós. 4, 23. Sálm. 78, 13; 106, 9. 1 Kor. 10, 1. Hebr. 11, 29. — **15, 2:** Sálm. 118, 14. Jes. 12, 2. **8:** kap. 3, 15. Hós. 12, 6.

öldurnar stirðnuðu mitt í hafinu.
9 Óvinurinn sagði: Eg skal elta þá, eg skal ná þeim;
eg skal skifta herfangi, eg skal skeyta skapi mínu á þeim.
Eg skal bregða sverði mínu, hönd mín skal eyða þeim.
10 Þú blést með þínum anda, hafið huldi þá;
þeir sukku sem blý niður í hin miklu vötn.
11 Hver er sem þú, Jahve, meðal guðanna?
Hver er sem þú, dýrlegur að heilagleik,
dásamlegur til lofsöngva, þú sem stórmerkin gjörir?
12 Þú útréttir þína hægri hönd, jörðin svalg þá.
13 Þú hefir leitt fólkið, sem þú frelsaðir, með miskunn þinni,
þú fylgdir því með þínum krafti til þíns heilaga bústaðar.
14 Þjóðirnar heyrðu það og urðu felmtsfullar,
ótti gagntók íbúa Filisteu.
15 Þá skelfdust ætthöfðingjarnir í Edóm,
hræðsla greip forystumennina í Móab;
allir íbúar Kanaanlands létu hugfallast.
16 Skelfing og ótta sló yfir þá;
fyrir mikilleik þíns armleggs urðu þeir hljóðir sem steinninn,
meðan fólk þitt, Jahve, fór leiðar sinnar,
meðan fólkið, sem þú hefir aflað þér, fór leiðar sinnar.
17 Þú leiddir þá inn og gróðursettir þá á fjalli arfleifðar þinnar,
þeim stað, sem þú, Jahve, hefir gjört að þínum bústað,
þeim helgidóm, sem þínar hendur, drottinn, hafa reist.
18 Jahve skal ríkja um aldur og að eilífu!

19 Því að þegar hestar Faraós ásamt vögnum hans og riddurum
fóru út í hafið, lét Jahve vötn sjávarins flæða yfir þá, en Ísraels-
menn gengu á þurru mitt í gegnum hafið.
20 Þá tók Mirjam spákona, systir Arons, bumbu í hönd sér og all-
ar konurnar gengu á eftir henni með bumbum og dansi. 21 Og Mirjam
söng fyrir þeim*:
Lofsyngið Jahve, því að hann hefir sig dýrlegan gjört,
hestum og riddurum steypti hann í hafið.

## Ferð Ísraelsmanna til Mara og Elím.

22 Síðan lét Móse Ísrael hefja ferð sína frá Rauðahafinu og héldu
þeir til Súr-eyðimerkur; gengu þeir þrjá daga um eyðimörkina og fundu
ekkert vatn. 23 Þá komu þeir til Mara; en þeir gátu ekki drukkið vatn-
ið fyrir beiskju; því að það var beiskt; fyrir því var sá staður kallað-
ur Mara. 24 Þá möglaði fólkið móti Móse og sagði: Hvað eigum vér að
drekka? 25 En hann hrópaði til Jahve, og vísaði Jahve honum þá á
tré nokkurt; kastaði hann því í vatnið og varð vatnið þá sætt. Þar
setti hann því* lög og rétt, og þar reyndi hann það. 26 Og hann sagði:
Ef þú hlýðir gaumgæfilega raust Jahve, Guðs þíns, og gjörir það, sem
rétt er fyrir honum, gefur gaum boðorðum hans og heldur allar skipanir
hans, þá vil eg engan þann sjúkdóm á þig leggja, sem eg lagði á Egipta,
því eg er Jahve, græðari þinn. 27 Síðan komu þeir til Elím; þar voru
tólf vatnslindir og sjötíu pálmar, og settu þeir búðir sínar þar við
vatnið.

---

**11:** kap. 9, 14; 18, 11. 1 Kron. 16, 25. Sálm. 96, 4. **14:** Jós. 2, 10. 11. **16:** 5 Mós. 32, 6. **17:** Sálm. 132, 13 n. 78, 54. **18:** Sálm. 22, 29; 93, 1. **20:** Sálm. 68, 26. **21:** * Þ. e. Móse og Ísraelsmönnum, sbr. v. 1. **22:** 4 Mós. 33, 8. **25:** * Þ. e. fólkinu. **26:** kap. 23, 25. **27:** 4 Mós. 33, 9.

### Manna. Lynghæns.

16 Því næst héldu þeir af stað frá Elím, og allur söfnuður Ísra-
elsmanna kom til Sín-eyðimerkur, sem liggur milli Elím og Sínaí,
á fimtánda degi hins annars mánaðar eftir burtför þeirra úr Egipta-
landi. 2 Þá möglaði allur söfnuður Ísraelsmanna gegn Móse og Aroni
í eyðimörkinni; 3 og Ísraelsmenn sögðu við þá: Betur að vér hefðum
dáið fyrir hendi Jahve í Egiptalandi, er vér sátum við kjötkatlana og
átum oss sadda af brauði; því að þið hafið farið með oss út á þessa
eyðimörk, til þess að láta allan þennan mannfjölda deyja af hungri.
4 Þá sagði Jahve við Móse: Sjá, eg vil láta rigna brauði af himni handa
yður og skal fólkið fara út og safna hvern dag svo miklu sem þarf
þann daginn, svo að eg reyni það, hvort það vill breyta eftir mínu lög-
máli eða ekki. 5 Og er þeir þá á hinum sjötta degi tilreiða það, sem þeir
koma heim með, skal það vera tvöfalt við það, sem þeir annars safna
daglega. 6 Þá sagði Móse og Aron við alla Ísraelsmenn: Í kveld skul-
uð þér viðurkenna, að Jahve hefir leitt yður út af Egiptalandi. 7 Og á
morgun skuluð þér sjá dýrð Jahve, með því að hann hefir heyrt mögl-
anir yðar gegn Jahve; því að hvað erum við, að þér möglið gegn okk-
ur? 8 Og Móse sagði: Þetta verður, þegar Jahve gefur yður að kveldi
kjöt að eta og brauð til saðnings að morgni; því að Jahve hefir heyrt
möglanir yðar, sem þér beinið gegn honum; því að hvað erum við?
Þér möglið ekki gegn okkur, heldur gegn Jahve. 9 Og Móse sagði við
Aron: Seg við allan söfnuð Ísraelsmanna: Gangið nær í augsýn Jahve;
því að hann hefir heyrt möglanir yðar. 10 Og er Aron talaði þetta til
alls safnaðar Ísraelsmanna, sneru þeir sér í móti eyðimörkinni og sjá:
dýrð Jahve birtist í skýinu. 11 Og Jahve talaði við Móse og sagði:
12 Eg hefi heyrt möglanir Ísraelsmanna; tala til þeirra og seg: Um sól-
setur skuluð þér kjöt eta og að morgni skuluð þér fá saðning yðar af
brauði, og þér skuluð viðurkenna, að eg er Jahve, Guð yðar. 13 Og
um kveldið bar svo við, að lynghæns komu og huldu búðirnar;
en um morguninn var döggmóða umhverfis búðirnar. 14 En er upp
létti döggmóðunni, lá eitthvað þunt, smákornótt yfir eyðimörkinni,
þunt eins og héla á jörðu. 15 Þegar Ísraelsmenn sáu þetta, sögðu
þeir hver við annan: Hvað er þetta? Því að þeir vissu ekki, hvað það
var. Þá sagði Móse við þá: Þetta er brauðið, sem Jahve gefur yður
til fæðu. 16 En þessi er skipun Jahve: Safnið því, eftir því sem hver
þarf að eta; þér skuluð taka einn gómer á mann eftir fólksfjölda yðar,
hver handa þeim, sem hann hefir í tjaldi sínu. 17 Og Ísraelsmenn gjörðu
svo, og söfnuðu sumir meira, sumir minna. 18 En er þeir mældu það
í gómer-máli, hafði sá ekkert afgangs, sem miklu hafði safnað, og þann
skorti ekki, sem litlu hafði safnað, heldur hafði hver safnað eftir því
sem hann þurfti sér til fæðu. 19 Og Móse sagði við þá: Enginn má
leifa neitt af því til morguns. 20 En þeir hlýddu ekki Móse, heldur
leifðu sumir nokkuð af því til morguns; en þá kviknuðu maðkar í því,
svo að það fúlnaði; og varð Móse þá reiður þeim. 21 Þeir söfnuðu því
þá hvern morgun, hver eftir því sem hann þurfti sér til fæðu; en þeg-
ar sólin skein heitt, bráðnaði það. 22 En á sjötta deginum söfnuðu þeir
tvöfalt meira af brauði, tvo gómera á mann. Komu þá allir foringjar
lýðsins og sögðu Móse frá. 23 En hann sagði við þá: Þetta er það, sem
Jahve sagði: Á morgun er hvíldardagur, heilagur hvíldardagur Jahve;
bakið það, sem þér viljið baka, og sjóðið það, sem þér viljið sjóða, en

---

**16, 3:** kap. 14, 11. **7:** 4 Mós. 16, 11. **10:** 4 Mós. 12, 5; 14, 10; 16, 19. **13:** Sálm. 78, 26 n. 105, 40. **14:** Nehem. 9, 15. Sálm. 78, 24 n. **15:** Jóh. 6, 31. 1 Kor. 10, 3. **18:** 2 Kor. 8, 15.

alt það, sem af gengur, skuluð þér leggja fyrir og geyma til morguns.
[24] Þeir lögðu það þá fyrir til næsta morguns, eins og Móse bauð, og
fúlnaði það ekki né maðkaði. [25] Þá sagði Móse: Í dag skuluð þér eta
það, því að í dag er hvíldardagur Jahve; í dag finnið þér það ekki á
mörkinni. [26] Sex daga skuluð þér safna því, en sjöundi dagurinn er
hvíldardagur, þá mun ekkert finnast. [27] Og sjöunda daginn gengu nokkrir
af fólkinu út til að safna, en fundu ekkert. [28] Þá sagði Jahve við Móse:
Hversu lengi tregðist þér við að varðveita boðorð mín og lög? [29] Lítið
á, vegna þess að Jahve hefir gefið yður hvíldardaginn, þess vegna gef-
ur hann yður sjötta daginn brauð til tveggja daga; haldi hver maður
kyrru fyrir á sínum stað; enginn fari að heiman á sjöunda deginum.
[30] Og fólkið hvíldist á hinum sjöunda degi. [31] Og Ísraelsmenn kölluðu
þetta brauð manna*; það líktist kóríander-fræi, var hvítt og á bragðið
sem hunangskaka. [32] Og Móse sagði: Þetta er það, sem Jahve hefir
boðið: Fyllið einn gómer af því, til þess að geyma það handa eftir-
komendum yðar, svo að þeir sjái það brauð, sem eg gaf yður að eta í
eyðimörkinni, er eg leiddi yður út af Egiptalandi. [33] Þá sagði Móse við
Aron: Tak eitt ker og lát í það fullan gómer af manna, og legg það
til geymslu frammi fyrir Jahve, svo að það varðveitist handa eftirkom-
endum yðar. [34] Aron lagði það fyrir framan sáttmálið*, til þess að það
væri þar geymt, eins og Jahve hafði boðið Móse. [35] En Ísraelsmenn
átu manna í fjörutíu ár, unz þeir komu í bygt land; þeir átu manna,
unz þeir komu að landamærum Kanaanlands. [36] En gómer er tíundi
partur af efu.

## Móse slær vatn af kletti.

17 Allur söfnuður Ísraelsmanna tók sig nú upp frá Sín-eyðimörku
og fóru þeir í áföngum að boði Jahve og settu herbúðir sínar í
Refidím; en þar var ekkert vatn handa fólkinu að drekka. [2] Þá þrátt-
aði fólkið við Móse og sagði: Gef oss vatn að drekka! En Móse sagði
við þá: Hví þráttið þér við mig? hví freistið þér Jahve? [3] Og fólkið
þyrsti þar eftir vatni; og fólkið möglaði gegn Móse og sagði: Hví fórstu
með oss frá Egiptalandi, til þess að láta oss og börn vor og fénað
deyja af þorsta? [4] Þá hrópaði Móse til Jahve og sagði: Hvað skal eg
gjöra við þetta fólk? Það vantar lítið á að þeir grýti mig. [5] En Jahve
sagði við Móse: Gakk þú fram fyrir fólkið og tak með þér nokkra af
öldungum Ísraels; og tak í hönd þér staf þinn, er þú laust með ána,
og gakk svo af stað. [6] Sjá, eg mun standa frammi fyrir þér þar á
klettinum á Hóreb, en þú skalt ljósta á klettinn og mun þá vatn spretta
af honum, svo að fólkið megi drekka. Og Móse gjörði svo í augsýn
öldunga Ísraels. [7] Og hann kallaði þennan stað Massa* og Meríba**
sökum þráttanar Ísraelsmanna og fyrir því að þeir höfðu freistað Jahve
og sagt: Hvort mun Jahve vera meðal vor eður ekki?

## Unninn sigur á Amalekítum.

[8] Þá komu Amalekítar og áttu orustu við Ísraelsmenn í Refidím.
[9] Þá sagði Móse við Jósúa: Vel oss menn, og far út og berst við
Amalekíta; á morgun mun eg standa efst uppi á hæðinni og hafa staf Guðs

---

**31:** * Á hebresku »man«, sem þýðir: hvað? sbr. v. 15. 4 Mós. 11, 7. **34:** * Þ. e. sáttmálsörkina. Kap. 25, 16. 21. Hebr. 9, 4. **35:** Jós. 5, 12. — **17, 1:** 4 Mós. 33, 14. **2:** 5 Mós. 6, 16. Matt. 4, 7. **4:** 4 Mós. 14, 10. **5:** kap. 7, 20. **6:** 4 Mós. 20, 11. 5 Mós. 8, 15. Sálm. 78, 15. 16; 105, 41. Jes. 48, 21. 1 Kor. 10, 4. **7:** * Þ. e. freistni. ** Þ. e. þráttan. Sálm. 95, 8. 9.

í hendi mér. 10 Og Jósúa gjörði sem Móse hafði sagt honum og lagði
til orustu við Amalekíta; en þeir Móse, Aron og Húr gengu efst upp á
hæðina. 11 Þá gjörðist það, að alla þá stund, er Móse hélt upp hendi
sinni, veitti Ísraelsmönnum betur, en þegar er hann lét síga hönd-
ina, veitti Amalekítum betur. 12 En með því að Móse urðu þungar
hendurnar, tóku þeir stein og létu undir hann, og settist hann á stein-
inn; en þeir Aron og Húr studdu hendur hans, sinn á hvora hlið;
og héldust þannig hendur hans stöðugar alt til sólarlags. 13 En Jósúa
lagði Amalekíta og lið þeirra að velli með sverðseggjum. 14 Þá sagði
Jahve við Móse: Rita þú þetta í bók til minningar og gjör Jósúa það
hugfast, því að eg vil vissulega afmá nafn Amalekíta af jörðunni. 15 Og
Móse reisti þar altari og nefndi það Jahve-nisí*. 16 Og hann sagði:
Með upplyftri hendi að hásæti Jah* sver eg: Ófrið mun Jahve heyja
við Amalekíta frá kyni til kyns.

## Jetró kemur til Móse; settir dómarar.

18 En er Jetró prestur í Midíanslandi, tengdafaðir Móse, heyrði
alt það, sem Guð hafði gjört Móse og lýð sínum Ísrael, að Jahve
hafði leitt Ísrael út af Egiptalandi, 2 þá tók Jetró, tengdafaðir Móse,
Zippóru konu Móse — hafði hann sent hana aftur — 3 og tvo sonu
hennar; hét annar Gersóm, því að hann hafði sagt: Gestur er eg í
ókunnu landi; 4 hinn hét Elíeser, því að hann hafði sagt: Guð föður
míns var mín hjálp, og hann frelsaði mig frá sverði Faraós. 5 En er
Jetró, tengdafaðir Móse, kom með sonu hans og konu til hans í eyði-
mörkina, þar sem hann hafði sett búðir sínar hjá Guðs fjalli, 6 þá lét
hann segja Móse: Eg Jetró, tengdafaðir þinn, er kominn til þín, og
kona þín og báðir synir hennar með henni. 7 Gekk þá Móse út á
móti tengdaföður sínum, laut honum og kysti hann; og þegar þeir
höfðu heilsast, gengu þeir inn í tjaldið. 8 Og Móse sagði tengdaföður
sínum frá öllu því, sem Jahve hafði gjört Faraó og Egiptum fyrir
sakir Ísraels, frá öllum þeim þrautum, sem þeim höfðu mætt á leið-
inni, og hversu Jahve hafði frelsað þá. 9 Og Jetró gladdist af öllum
þeim velgjörðum, sem Jahve hafði auðsýnt srael, þar sem hann hafði
frelsað hann undan valdi Egipta. 10 Og Jetró sagði: Lofaður sé Jahve
fyrir það, að hann frelsaði yður undan valdi Egipta og undan valdi
Faraós, fyrir það, að hann frelsaði fólkið undan valdi Egipta. 11 Nú
veit eg, að Jahve er öllum guðum meiri, því að hann lét Egiptum
hefnast fyrir ofdramb þeirra gegn Ísraelsmönnum. 12 Þá tók Jetró,
tengdafaðir Móse, brennifórn og sláturfórnir Guði til handa; kom þá
Aron og allir öldungar Ísraels, til þess að matast með tengdaföður
Móse frammi fyrir Guði.

13 Daginn eftir settist Móse til að mæla lýðnum lögskil, og stóð
fólkið frammi fyrir Móse frá morgni til kvelds. 14 En er tengdafaðir
Móse sá alt það, sem hann gjörði við fólkið, þá sagði hann: Hvað er
þetta, sem þú gjörir við fólkið? hvers vegna situr þú einn saman, en
alt fólkið stendur frammi fyrir þér frá morgni til kvelds? 15 Móse
svaraði tengdaföður sínum: Fólkið kemur til mín, til þess að leita
Guðs atkvæða. 16 Þegar mál gjörist þeirra á milli, koma þeir á fund
minn, og eg dæmi milli manna og kunngjöri lög Guðs og boðorð hans.

---

**14**: 4 Mós. 24, 20. 5 Mós. 25, 19. 1 Sam. 15, 2. 3. 20. **15**: * Þ. e. Jahve er mitt hermerki. **16**: 5 Mós. 32, 40. * Jah er stytt mynd af Jahve, sbr. Hallelújah, Sálm. 104, 35. — **18, 2**: kap. 2, 21. 22; 4, 20. **3**: kap. 2, 22. 1 Kron. 23, 15. **5**: kap. 3, 1. **11**: kap. 15, 11. Sálm. 86, 8. 2 Mós. 1, 22. Nehem. 9, 10.

17 Þá sagði tengdafaðir Móse við hann: Eigi er það gott, sem þú gjörir;
18 bæði þreytist þú og eins fólkið, sem hjá þér er; því að þetta starf
er þér um megn; þú fær því ekki afkastað einn saman. 19 Hlýð nú
orðum mínum, eg vil leggja þér ráð og mun Guð vera með þér. Þú
skalt ganga fram fyrir Guð í nafni fólksins og fram bera málin fyrir
Guð. 20 Og þú skalt kenna þeim lögin og boðorðin, og sýna þeim
þann veg, sem þeir skulu ganga, og þau verk, sem þeir skulu gjöra.
21 Og þú skalt velja meðal alls fólksins dugandi menn og guðhrædda,
áreiðanlega menn og ósérplægna, og skipa þá foringja yfir lýðinn,
suma yfir þúsund, suma yfir hundrað, suma yfir fimtíu og suma yfir
tíu. 22 Og þeir skulu mæla lýðnum lögskil á öllum tímum; öll hin
stærri mál skulu þeir láta koma fyrir þig, en sjálfir skulu þeir dæma
í öllum smærri málum; skaltu þannig gjöra þér hægra fyrir, og þeir
skulu létta undir með þér. 23 Ef þú gjörir þetta, og Guð býður þér
það, þá muntu fá risið undir því og þá mun og alt þetta fólk fara
ánægt til heimila sinna. 24 Og Móse hlýddi orðum tengdaföður síns og
gjörði alt, sem hann hafði sagt. 25 Og Móse valdi dugandi menn af
öllum Ísraels lýð og skipaði þá foringja yfir lýðinn, suma yfir þúsund,
suma yfir hundrað, suma yfir fimtíu, suma yfir tíu. 26 Og mæltu þeir
lýðnum lögskil á öllum tímum; vandamálunum skutu þeir til Móse,
en sjálfir dæmdu þeir í hinum smærri málum. 27 Lét Móse síðan
tengdaföður sinn frá sér fara og hélt hann aftur heim í sitt land.

### Ísraelsmenn koma til Sínaí; undirbúin birting lögmálsins.

19 Á þriðja mánuði eftir brottför Ísraelsmanna frá Egiptalandi, á
þeim degi komu þeir í Sínaí-eyðimörk. 2 Þeir tóku sig upp frá
Refidím og komu í Sínaí-eyðimörk og settu búðir sínar í eyðimörk-
inni; og Ísrael setti búðir sínar þar gegnt fjallinu. 3 Gekk Móse þá
upp til Guðs, og kallaði Jahve til hans af fjallinu og sagði: Svo skalt
þú segja Jakobs niðjum og kunngjöra Ísraelsmönnum: 4 Þér hafið
sjálfir séð, hvað eg hefi gjört Egiptum og hversu eg hefi borið yður
á arnarvængjum og flutt yður til mín. 5 Nú ef þér hlýðið minni röddu
grandgæfilega og haldið minn sáttmála, þá skuluð þér vera mín eigin-
leg eign um fram allar þjóðir, því að öll jörðin er mín. 6 Og þér skuluð
vera mér prestaríki og heilagur lýður. Þetta eru þau orð, sem þú skalt
flytja Ísraelsmönnum. 7 Og Móse fór og stefndi saman öldungum lýðs-
ins og flutti þeim öll þau orð, er Jahve hafði boðið honum. 8 Þá
svaraði allur lýðurinn einum munni og sagði: Vér viljum gjöra alt það,
sem Jahve býður. Og Móse flutti Jahve aftur orð fólksins. 9 Þá sagði Jahve
við Móse: Sjá, eg vil koma til þín í dimmu skýi, svo að fólkið
heyri, er eg tala við þig, og trúi þér æfinlega. Og Móse flutti Jahve
orð lýðsins. 10 Þá mælti Jahve við Móse: Far til fólksins og helga þá
í dag og á morgun, og lát þá þvo klæði sín; 11 og skulu þeir vera
búnir á þriðja degi, því að á þriðja degi mun Jahve ofan stíga á Sínaí-
fjall í augsýn alls lýðsins. 12 En þú skalt marka fólkinu svið um-
hverfis og segja: Varist að ganga upp á fjallið eða snerta fjallsræturnar;
hver sem snertir fjallið, skal vissulega láta líf sitt. 13 Engin manns-
hönd skal snerta hann, heldur skal hann grýttur eða skotinn til bana;
hvort það er heldur skepna eða maður, þá skal það ekki lífi halda.
Þegar lúðurinn kveður við, skulu þeir stíga upp á fjallið. 14 Þá gekk

---

19, 2: 4 Mós. 33, 15. 3: Post. 7, 38. 4: 5 Mós. 29, 2; 32, 11. 12. 5: Sálm. 24, 1;
50, 12. 1 Kor. 10, 26. 6: 5 Mós. 7, 6; 14, 2. 1 Pét. 2, 9. Opinb. 1, 6; 5, 10.
8: kap. 24, 3. 5 Mós. 5, 27. 13: Hebr. 12, 20. 2 Mós. 24, 1.

Móse ofan af fjallinu til fólksins og helgaði fólkið, og þeir þvoðu klæði
sín. 15 Og hann sagði við fólkið: Verið búnir á þriðja degi: komið
ekki nærri nokkurri konu. 16 En á þriðja degi, þegar ljóst var orðið,
gengu reiðarþrumur og eldingar og þykt ský lá á fjallinu og heyrðist
mjög sterkur lúðurþytur. Skelfdist þá alt fólkið, sem var í búðunum.
17 Þá leiddi Móse fólkið út úr búðunum til móts við Guð, og tóku
menn sér stöðu undir fjallinu. 18 En Sínaí-fjall var alt í einum reyk,
fyrir því að Jahve sté niður á það í eldinum; mökkurinn stóð upp af
því, eins og reykur úr ofni, og alt fjallið lék á reiðiskjálfi. 19 Og lúð-
urþyturinn varð æ sterkari og sterkari: Móse talaði og Guð svaraði
honum hárri röddu. 20 Og Jahve sté niður á Sínaí-fjall, á fjallstindinn.
Og Jahve kallaði Móse upp á fjallstindinn og gekk Móse þá upp.
21 Þá sagði Jahve við Móse: Stíg ofan og legg ríkt á við fólkið, að það
brjótist ekki upp hingað til Jahve fyrir forvitni sakir og fjöldi af þeim
farist. 22 Einnig prestarnir, sem annars nálgast Jahve, skulu helga sig,
svo að Jahve gjöri eigi skarð í hóp þeirra. 23 En Móse sagði við Jahve:
Fólkið getur ekki stigið upp á Sínaí-fjall, því að þú hefir lagt ríkt á
við oss og sagt: Set vébönd umhverfis fjallið og helga það. 24 Og
Jahve sagði við hann: Far nú og stíg ofan, og kom því næst upp
aftur og Aron með þér; en prestarnir og fólkið má ekki brjótast upp
hingað til Jahve, að hann gjöri ekki skarð í hóp þeirra. 25 Móse gekk
þá ofan til fólksins og sagði þeim þetta.

## Boðorðin.

20 Og Guð talaði öll þessi orð og sagði: 2 Eg er Jahve, Guð
þinn, sem leiddi þig út af Egiptalandi, út úr þrælahúsinu. 3 Þú
skalt ekki hafa aðra guði en mig. 4 Þú skalt engar líkneskjur gjöra
þér né nokkrar myndir eftir því, sem er á himnum uppi, eður því, sem
er á jörðu niðri, eður því, sem er í vötnunum undir jörðunni; 5 þú
skalt ekki tilbiðja þær og ekki dýrka þær; því að eg Jahve, Guð þinn,
er vandlátur Guð, sem vitja misgjörða feðranna á börnunum, já í þriðja
og fjórða lið, þeirra sem mig hata; 6 en auðsýni miskunn þúsundum,
þeirra sem elska mig og varðveita boðorð mín. 7 Þú skalt ekki leggja
nafn Jahve, Guðs þíns, við hégóma, því að Jahve mun ekki láta þeim
óhegnt, sem leggur nafn hans við hégóma. 8 Minstu þess, að halda
hvíldardaginn heilagan. 9 Sex daga skalt þú erfiða og vinna alt þitt
verk; 10 en sjöundi dagurinn er hvíldardagur helgaður Jahve, Guði þín-
um; þá skalt þú ekkert verk vinna og ekki sonur þinn eða dóttir þín,
þræll þinn eða ambátt þín eða skepnur þínar, eða nokkur útlendingur,
sem hjá þér er innan borgarhliða þinna; 11 því að á sex dögum gjörði
Jahve himin og jörð, hafið og alt sem í þeim er, og hvíldist sjöunda
daginn; fyrir því blessaði Jahve hvíldardaginn og helgaði hann. 12 Heiðra
föður þinn og móður þína, svo að þú verðir langlífur í því landi, sem
Jahve, Guð þinn, gefur þér. 13 Þú skalt ekki morð fremja. 14 Þú skalt
ekki drýgja hór. 15 Þú skalt ekki stela. 16 Þú skalt ekki bera ljúgvitni
gegn náunga þínum. 17 Þú skalt ekki girnast hús náunga þíns. Þú skalt

---

**16:** Hebr. 12, 18. 19. **17:** 5 Mós. 4, 11. **21:** kap. 19, 12. 13; 33, 20. — **20, 2:** 5 Mós. 5, 6—21. 3 Mós. 11, 45. Sálm. 81, 11. Mík. 6, 4. **3:** Sálm. 81, 10. **4:** 3 Mós. 26, 1. 5 Mós. 4, 15—19; 27, 15. **5:** kap. 34, 7. 14. 4 Mós. 14, 18. Nah. 1, 2. **6:** Nehem. 1, 5. Jer. 32, 18. Dan. 9, 4. **7:** 3 Mós. 19, 12; 24, 16. Matt. 5, 34—37. **8:** kap. 23, 12; 31, 13 n; 35, 2 n. Jer. 17, 21 n. Esek. 20, 12. **11:** 1 Mós. 2, 2. 3. **12:** Orðskv. 4, 10. Matt. 15, 4. Ef. 6, 2. 3. **13:** Matt. 5, 21 n. 19, 18. 1 Jóh. 3, 15. **14:** 3 Mós. 20, 10 n. Matt. 5, 27. 28. Hebr. 13, 4. **15:** 3 Mós. 19, 35; 25, 36. Ef. 4, 28. 1 Þess. 4, 6. **16:** kap. 23, 1. Orðskv. 19, 5.

ekki girnast konu náunga þíns, ekki þræl hans eða ambátt, ekki uxa
hans eða asna, né nokkuð það, sem náungi þinn á.
18 Og alt fólkið heyrði og sá reiðarþrumurnar og eldingarnar og
lúðurþytinn og fjallið rjúkandi; og er fólkið sá þetta, skelfdust þeir
og stóðu langt í burtu. 19 Þeir sögðu þá við Móse: Tala þú við oss og
vér skulum hlýða; en lát ekki Guð tala við oss, að vér deyjum ekki.
20 Og Móse sagði við fólkið: Óttist ekki, því að Guð er kominn til þess
að reyna yður og til þess að hans ótti sé yður fyrir augum, svo að
þér syndgið ekki. 21 Stóð fólkið þá kyrt langt í burtu, en Móse gekk að
dimma skýinu, sem Guð var í. 22 Og Jahve mælti við Móse: Svo skalt
þú segja Ísraelsmönnum: Þér hafið sjálfir séð, að eg hefi talað til yðar
af himnum. 23 Þér skuluð eigi til búa aðra guði jafnhliða mér; guði
af silfri eða guði af gulli skuluð þér ekki búa yður til. 24 Þú skalt
gjöra mér altari af torfi, og á því skalt þú fórna brennifórnum þínum
og þakkarfórnum, sauðum þínum og nautum; alstaðar þar sem eg læt
minnast nafns míns, mun eg koma til þín og blessa þig. 25 En gjörir
þú mér altari af steinum, þá mátt þú ekki hlaða það af högnu grjóti;
því að berir þú meitil á það, þá vanhelgar þú það. 26 Og eigi mátt þú
þrep upp ganga að altari mínu, svo að blygðun þín opinberist þar ekki.

## Lagaákvæði.

21 Þetta eru þau lög, sem þú skalt leggja fyrir þá: 2 Þegar þú
kaupir hebreskan þræl, skal hann þjóna þér sex ár, en á sjöunda
ári skal hann frjáls burt fara án endurgjalds. 3 Hafi hann komið ein-
hleypur, skal hann og einhleypur burt fara; en hafi hann kvongaður
verið, skal kona hans fara burt með honum. 4 Hafi húsbóndi hans
fengið honum konu og hafi hún fætt honum sonu eða dætur, þá skal
konan og börn hennar heyra húsbónda sínum til, en hann skal fara
burt einhleypur. 5 En ef þrællinn segir skýlaust: Eg elska húsbónda
minn, konu mína og börn mín; eg vil ekki frjáls í burtu fara; 6 þá
skal húsbóndi hans færa hann til Guðs* og leiða hann að dyrunum
eða að dyrastafnum, og skal húsbóndi hans stinga al í gegnum eyra
honum, og skal hann síðan vera þræll hans æfinlega. 7 Þegar maður
selur dóttur sína að ambátt, skal hún ekki burt fara á sama hátt
sem þrælar. 8 Geðjist hún eigi húsbónda sínum, sem ætlað hefir hana
sjálfum sér, þá skal hann leyfa að hún sé leyst; ekki skal hann hafa
vald til að selja hana útlendum lýð, með því að hann hefir brugðið
heiti við hana. 9 En ef hann ætlar hana syni sínum, þá skal hann
gjöra við hana sem dóttur sína. 10 Taki hann sér aðra konu, skal
hann ekki minka af við hana í kosti eða klæðnaði eða sambúð. 11 Veiti
hann henni ekki þetta þrent, þá fari hún burt ókeypis, án endurgjalds.
12 Hver sem lýstur mann, svo að hann fær bana af, skal líflátinn verða;
13 en hafi hann ekki setið um líf hans, en Guð látið hann verða fyrir
honum, þá skal eg setja þér griðastað, sem hann megi í flýja. 14 En
fremji nokkur þá óhæfu að drepa náunga sinn með svikum, þá skalt
þú taka hann jafnvel frá altari mínu, að hann verði líflátinn. 15 Hver
sem lýstur föður sinn eða móður sína, skal líflátinn verða. 16 Hver sem
stelur manni og selur hann, eða hann finst í hans vörzlu, hann skal

---

17: Róm. 7, 7. 20: Orðskv. 14, 27. 21: 1 Kong. 8, 12. Hebr. 12, 18. 23: kap. 20, 4. 24: 5 Mós. 12, 5. 11. 25: 5 Mós. 27, 5. Jós. 8, 31. — 21, 2: 5 Mós. 15, 12. Jer. 34, 14. 6: * Þ. e. fyrir dómarana. Kap. 18, 15. 16. 5 Mós. 1, 17. Sálm. 82, 6. Jóh. 10, 34. 12: 1 Mós. 9, 6. 3 Mós. 24, 17. 4 Mós. 35, 16 n. Matt. 26, 52. 13: 4 Mós. 35, 6. 5 Mós. 4, 41 n. 14: 1 Kong. 2, 29 n. 16: 5 Mós. 24, 7.

líflátinn verða. [17] Hver sem bölvar föður sínum eða móður sinni, skal
líflátinn verða. [18] Og þegar menn deila og annar lýstur hinn steini eða
hnefa, og fær hann ekki bana af, heldur legst í rekkju; [19] ef hann þá
kemst á fætur og gengur úti við staf sinn, þá sé sá sýkn saka, er laust;
en bæta skal hann honum verkfallið og láta græða hann til fulls. [20] Ef
maður lýstur þræl sinn eða ambátt með staf, svo að hann deyr undir
hendi hans, þá skal hann refsingu sæta. [21] En sé hann með lífi einn
dag eða tvo, þá skal hann þó eigi refsingu sæta; því að þrællinn er
eign hans verði keypt. [22] Ef menn fljúgast á og stjaka við þungaðri konu,
svo að henni leysist höfn, en verður ekki annað mein af, þá haldi hann
bótum uppi, slíkum sem bóndi konunnar kveður á hann, og greiði eftir
mati gjörðarmanna. [23] En ef skaði hlýzt af, þá skalt þú láta líf fyrir
líf, [24] auga fyrir auga, tönn fyrir tönn, hönd fyrir hönd, fót fyrir fót,
[25] bruna fyrir bruna, sár fyrir sár, skeinu fyrir skeinu. [26] Ef maður
slær þræl sinn eða ambátt á auga og skemmir það, þá skal hann gefa
honum frelsi sitt fyrir augað; [27] og ef hann lýstur tönn úr þræli sínum
eða ambátt, þá gefi hann honum frelsi fyrir tönn sína. [28] Ef uxi stang-
ar mann eða konu til bana, þá skal grýta uxann og ekki neyta kjöts-
ins, og er eigandi uxans þá sýkn saka. [29] En hafi uxinn verið mann-
ýgur áður og eigandinn verið látinn vita það og geymir hann ekki ux-
ans að heldur, svo að hann verður manni eða konu að bana, þá skal
grýta uxann, en eigandi skal og líflátinn verða. [30] En gjörist honum
að bæta með fé, þá leysi hann líf sitt með svo miklum bótum sem
honum verður gjört að greiða. [31] Hvort sem uxinn stangar son eða
dóttur, skal með hann fara eftir þessu lagaákvæði. [32] Ef uxinn stangar
þræl manns eða ambátt, þá skal eigandi gjalda húsbónda þeirra þrjá-
tíu sikla silfurs, og skal grýta uxann. [33] Ef maður opnar brunn eða
grefur brunn og byrgir eigi aftur, og uxi eða asni fellur í hann, [34] þá
skal eigandi brunnsins bæta; hann skal greiða eigandanum fé fyrir,
en hafa sjálfur hið dauða. [35] Ef uxi manns stangar uxa annars manns
til bana, þá skulu þeir selja þann uxann, sem lifir, og skifta verði hans;
og einnig skulu þeir skifta dauða uxanum. [36] En ef það var kunnugt,
að uxinn var mannýgur áður, og eigandi gætti hans ekki að heldur,
þá bæti hann uxa fyrir uxa, en hafi sjálfur hinn dauða.

22 Ef maður stelur nauti eða sauð, og slátrar eða selur, þá gjaldi
hann aftur fimm uxa fyrir einn uxa og fjóra sauði fyrir einn
sauð. [2] Ef þjófur er staðinn að innbroti og lostinn til bana, þá er veg-
andinn eigi blóðsekur. [3] En ef sól er á loft komin, þá er hann blóð-
sekur. Þjófurinn skal greiða fullar bætur, en eigi hann ekkert til,
skal selja hann í bætur fyrir stuldinn. [4] Ef hið stolna finst lifandi hjá
honum, hvort heldur það er uxi, asni eða sauður, þá skal hann gjalda
tvöfalt aftur. [5] Ef maður beitir akur eða víngarð og lætur fénað sinn
ganga lausan og hann gengur í akri annars manns, þá skal hann bæta
með því, sem bezt er á akri hans eða í víngarði hans. [6] Ef eldur kvikn-
ar og kemst í þyrna, og brennur kerfaskrúf, kornstangir eða akur, þá
bæti sá fullum bótum, er eldinn kveikti. [7] Nú selur maður öðrum
manni silfur eða nokkra gripi til varðveizlu og því er stolið úr húsi
hans, og finnist þjófurinn, þá skal hann gjalda tvöfalt aftur. [8] En finn-
ist þjófurinn ekki, þá skal leiða húseigandann fram fyrir Guð* og synji
hann fyrir með eiði, að hann hafi lagt hendur á eign náunga síns.
[9] Fari einhver óráðvandlega með uxa, asna, sauð, klæðnað eða hvað

---

17: 3 Mós. 20, 9. 5 Mós. 27, 16. Orðskv. 20, 20; 30, 17. Matt. 15, 4. **25:** 3 Mós. 24, 19. 20. 5 Mós. 19, 21. Matt. 5, 38 n. — **22, 1:** 2 Sam. 12, 6. Lúk. 19, 8. **8:** * Sbr. 21, 6.

annað, er tapast hefir og einhver segir um: »Það er þetta«*, þá skal
mál þeirra beggja koma fyrir Guð, og sá sem Guð dæmir sekan, skal
gjalda náunga sínum tvöfalt. [10] Ef maður selur öðrum manni asna eða
naut eða sauð eða nokkra aðra skepnu til varðveizlu og hún deyr eða
lestist eða er tekin svo að enginn sér, [11] þá skal til koma eiður við
Jahve þeirra í millum, að hann lagði ekki hönd á eign náunga síns,
og skal eigandi þann eið gildan taka, en hinn bæti engu; [12] en hafi því
verið stolið frá honum, þá gjaldi hann bætur eigandanum. [13] Ef það
er dýrrifið, þá skal hann koma með það til sannindamerkis: það sem
dýrrifið er, skal hann ekki bæta. [14] Ef maður hefir fengið einhvern
grip léðan hjá öðrum manni og hann lestist eða deyr; sé eigandi ekki
viðstaddur, þá bæti hinn fullum bótum; [15] en sé eigandi við, bæti hann
engu; ef það var leigugripur, þá eru bæturnar fólgnar í leigunni.
[16] Ef maður glepur mey, sem ekki er föstnuð manni, og legst með
henni, þá skal hann hana mundi kaupa sér að eiginkonu. [17] En ef
faðir hennar vill eigi gifta honum hana, þá skal hann greiða svo mik-
ið silfur sem meyjar-mundi svarar.
[18] Eigi skalt þú láta galdrakonu lífi halda.
[19] Hver sem hefir samlag við fénað, skal líflátinn verða.
[20] Hver sem færir fórnir nokkrum guði, öðrum en Jahve einum,
skal bannfærður verða.
[21] Útlendum manni skalt þú eigi sýna ójöfnuð né veita honum á-
gang, því að þér voruð sjálfir útlendingar í Egiptalandi. [22] Þér skuluð
ekki leggjast á ekkjur eða munaðarleysingja. [23] Ef þú legst á þau og
þau hrópa til mín, mun eg vissulega heyra neyðarkvein þeirra; [24] þá
skal reiði mín upptendrast, og eg skal drepa yður með sverði, svo að
konur yðar verði ekkjur og börn yðar föðurlaus. [25] Ef þú lánar pen-
inga fólki mínu, hinum fátæka, sem hjá þér er, þá skalt þú ekki vera
við hann eins og okrari; þér skuluð ekki taka leigu af honum. [26] Ef
þú tekur yfirhöfn náunga þíns að veði, þá skila þú honum henni aftur
áður sól sezt; [27] því að hún er hið eina, sem hann hefir til að hylja
sig með; hún skýlir líkama hans; hvað á hann annars að hafa yfir
sér, er hann legst til hvíldar. Þegar hann hrópar til mín, skal eg
heyra, því að eg er miskunnsamur. [28] Þú skalt ekki lastmæla Guði*
og ekki bölva höfðingja þíns fólks. [29] Lát eigi undan dragast að færa
fórn af korngnótt þinni og aldinsafa. Frumgetning sona þinna skalt
þú mér gefa. [30] Hið sama skalt þú gjöra af nautum þínum og sauð-
um; sjö daga skal frumburðurinn vera hjá móður sinni, en hinn átt-
unda dag skalt þú færa mér hann. [31] Helgir menn skuluð þér vera
fyrir mér. Það kjöt, sem rifið er af dýrum úti á víðavangi, skuluð þér
eigi eta, heldur kasta því fyrir hunda.
23 Þú skalt ekki fara með lygikvittu; þú skalt ekki leggja lið
þeim, er með rangt mál fer, til að gjörast ljúgvottur. [2] Þú
skalt ekki fylgja fjöldanum til illra verka; ef þú átt svör að veita í
sök nokkurri, þá skalt þú ekki á eitt leggjast með margnum til þess
að halla réttu máli. [3] Ekki skalt þú vera hliðdrægur manni, þótt fá-
tækur sé, í máli hans. [4] Ef þú finnur uxa óvinar þíns eða asna hans,
sem vilst hefir, þá fær þú honum hann aftur. [5] Sjáir þú asna fjand-
manns þíns liggja uppgefinn undir byrði sinni, þá skalt þú hverfa frá

**9:** * Þ. e. lýsir eign sína. **16:** 5 Mós. 22, 28. 29. **18:** 3 Mós. 19, 31; 20, 27. **19:** 3 Mós. 18, 23. 5 Mós. 27, 21. **21:** kap. 23, 9. 3 Mós. 19, 33. 34. 5 Mós. 10, 18. 19; 24, 17. 19 n. **22:** Jes. 1, 17. Sak. 7, 10. **25:** 3 Mós. 25, 35 n. 5 Mós. 23, 19. 20. Sálm. 15, 5. **26:** 5 Mós. 24, 12. 13. **28:** * Sbr. 21, 6. Préd. 10, 20. Post. 23, 5. **29:** kap. 13, 2. **30:** 3 Mós. 22, 27. — **23,** 1: kap. 20, 16. 3 Mós. 19, 16. **3:** 3 Mós. 19, 15. **4:** 5 Mós. 22, 1 n. Orðskv. 25, 21.

og fara í önnur klæði og bera öskuna út fyrir herbúðirnar á hreinan
stað. [12] Og eldinum á altarinu skal haldið lifandi með því; hann skal
eigi slokna. Og presturinn skal á hverjum morgni leggja við að eld-
inum, og hann skal raða brennifórninni ofan á hann og brenna mör-
inn úr heillafórnunum á honum. [13] Eldurinn skal sífelt brenna á alt-
arinu og aldrei slokna.
[14] Og þetta eru ákvæðin um matfórnina: Synir Arons skulu fram
bera hana fyrir Jahve, að altarinu. [15] Og hann* skal taka af því
hnefafylli sína, af fínamjöli matfórnarinnar og olíunni, og alla reyk-
elsiskvoðuna, sem er á matfórninni, og brenna á altarinu til þægilegs
ilms, sem ilmhluta hennar fyrir Jahve. [16] En það, sem eftir er af
henni, skulu Aron og synir hans eta; ósýrt skal það etið á helgum
stað; í forgarði samfundatjaldsins skulu þeir eta það. [17] Eigi má baka
það með súrdeigi; eg gef þeim það í þeirra hluta af eldfórnum mínum;
það er háheilagt, eins og syndafórnin og sektarfórnin. [18] Alt karlkyn
meðal Arons niðja má eta það; frá kyni til kyns ber yður það af eld-
fórnum Jahve um aldur og æfi; hver sem snertir það, skal vera
heilagur.
[19] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [20] Þessi er fórnargjöf Arons
og sona hans, sem þeir skulu færa Jahve á smurningardegi sínum:
tíundi partur úr efu af fínu mjöli í stöðuga matfórn, helmingurinn af
því að morgni og helmingurinn að kveldi. [21] Skal tilreiða hana á pönnu
með olíu; þú skalt fram bera hana samanhrærða; þú skalt brjóta hana
í stykki og fórna henni til þægilegs ilms fyrir Jahve. [22] Og presturinn,
sá af sonum hans, sem smurður er í hans stað, skal tilreiða hana; er
það ævarandi lögmál Jahve; öll skal hún brend. [23] Allar matfórnir presta
skulu vera alfórnir; þær má ekki eta.
[24] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [25] Mæl til Arons og sona
hans og seg: Þessi eru ákvæðin um syndafórnina: Á þeim stað, sem
brennifórnunum er slátrað, skal syndafórninni slátrað, frammi fyrir Jahve;
hún er háheilög. [26] Presturinn, sem fram ber syndafórnina, skal eta
hana; á helgum stað skal hún etin, í forgarði samfundatjaldsins.
[27] Hver sá, er snertir kjöt hennar, skal vera heilagur; og þegar eitt-
hvað af blóðinu spýtist á klæðin, þá skalt þú þvo það, sem spýzt
hefir á, á helgum stað. [28] Og leirkerið, sem hún hefir verið soðin í,
skal brjóta; en hafi hún verið soðin í eirkeri, þá skal fægja það og
skola í vatni. [29] Alt karlkyn meðal prestanna má eta hana; hún er
háheilög. [30] En enga syndafórn má eta, hafi nokkuð af blóði hennar
verið borið inn í samfundatjaldið til friðþægingar í helgidóminum,
heldur skal hún brend í eldi.

### Enn um syndafórnir og heillafórnir. Mörneyzla bönnuð.

**7** Og þessi eru ákvæðin um sektarfórnina; er hún háheilög. [2] Þar
sem brennifórninni er slátrað, skal og sektarfórninni slátrað, og skal
stökkva blóði hennar alt í kring utan á altarið. [3] Og öllum mörnum
úr henni skal fórna: rófunni, netjunni, sem hylur iðrin, [4] báðum nýr-
unum, nýrnamörnum, sem liggur innan á mölunum, og stærra lifrar-
blaðinu; við nýrun skal taka það frá. [5] Og presturinn skal brenna
þetta á altarinu sem eldfórn Jahve til handa, er það sektarfórn. [6] Alt
karlkyn meðal prestanna má eta hana; á helgum stað skal hún etin;

---

**14:** kap. 2, 1 n. **15:** * Þ. e. presturinn. **16:** kap. 2, 3. 10. **17:** kap. 2, 11. **21:** kap. 2, 6. **25:** kap. 4, 2 n. 1, 3. 5. **30:** kap. 4, 3—21; 16, 27. Hebr. 13, 11. — **7, 2:** kap. 1, 3. 5; 6, 25. **4:** kap. 3, 4. 10. 15. **6:** kap. 6, 29.

hún er háheilög. [7] Skal með sektarfórn farið á sama hátt og synda-
fórn; eru sömu ákvæði um báðar: presturinn, sem með þeim friðþægir,
skal fá þær. [8] Og presturinn, sem fram ber brennifórn einhvers manns,
skal fá skinnið af brennifórninni, sem hann fram ber. [9] Og sérhverja
matfórn, sem í ofni er bökuð eða tilreidd í suðupönnu eða á steikar-
pönnu, fái presturinn, sem fram ber hana. [10] En sérhver matfórn, olíu-
blönduð eða þur, skal tilheyra öllum sonum Arons, svo einum sem öðrum.
[11] Og þessi eru ákvæðin um heillafórnina, sem Jahve er færð:
[12] Ef einhver fram ber hana til þakkargjörðar, þá skal hann auk þakk-
arfórnarinnar fram bera ósýrðar kökur olíublandaðar og ósýrð flatbrauð
olíusmurð og olíublandaðar kökur, hrærðar úr fínu mjöli. [13] Ásamt
kökum úr sýrðu deigi skal hann fram bera þessa fórnargáfu sína, auk
heilla-þakkarfórnarinnar. [14] Og hann skal af henni fram bera eina köku
af hverri tegund fórnargáfunnar sem lyftifórn Jahve til handa; skal
presturinn, er stökkvir blóði heillafórnarinnar, fá hana. [15] En kjötið af
heilla-þakkarfórninni skal etið sama dag sem fórnin er fram borin; eigi
skal geyma neitt af því til morguns. [16] En sé sláturfórn hans heitfórn
eða sjálfviljug fórn, þá skal hún etin sama dag sem hann fram ber slát-
urfórn sína; þó má eta það, sem af gengur, daginn eftir. [17] En það,
sem verður eftir af kjöti sláturfórnarinnar á þriðja degi, skal brenna í
eldi. [18] En sé á þriðja degi nokkuð etið af kjöti heillafórnarinnar, þá
mun það eigi verða velþóknanlegt; það skal eigi tilreiknast þeim, er
fram bar það; það skal talið skemt kjöt; á hverjum þeim, er etur af
því, skal misgjörð hvíla. [19] Og það kjöt, sem komið hefir við eitthvað
óhreint, skal eigi eta, heldur skal brenna það í eldi. Hvað kjötið að
öðru leyti snertir, þá má hver, sem hreinn er, kjöt eta. [20] En hver sá,
sem etur kjöt af heillafórn, sem Jahve er færð, á meðan hann er ó-
hreinn, hann skal upprættur verða úr þjóð sinni. [21] Og hver sem
snertir nokkuð óhreint, hvort heldur það er óhreinn maður eða óhrein
skepna, eða hvaða óhrein viðurstygð sem er, og etur þó af heillafórn-
arkjöti, sem Jahve er fært, hann skal upprættur verða úr þjóð sinni.
[22] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [23] Tala þú til Ísraelsmanna
og seg: Engan mör úr nautum, sauðum eða geitum megið þér eta.
[24] En mör úr sjálfdauðum skepnum eða dýrrifnum má nota til hvers
sem vera skal, en með engu móti megið þér eta hann. [25] Því að hver
sá, sem etur mör úr þeirri skepnu, sem Jahve er færð eldfórn af, — sá
sem etur hann, skal upprættur verða úr þjóð sinni. [26] Eigi skuluð þér
heldur nokkurs blóðs neyta í neinum af bústöðum yðar, hvorki úr fugl-
um né fénaði. [27] Hver sá, er nokkurs blóðs neytir, hann skal upprætt-
ur verða úr þjóð sinni.
[28] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [29] Tala til Ísraelsmanna og
seg: Sá, sem færir Jahve heillafórn, skal sjálfur fram bera fórnargjöf
sína fyrir Jahve af heillafórninni. [30] Með sínum eigin höndum skal
hann fram bera eldfórnir Jahve: mörinn ásamt bringunni skal hann
fram bera, bringuna til þess að veifa henni sem veififórn frammi fyrir
Jahve; [31] og skal presturinn brenna mörinn á altarinu, en bringuna skal
Aron og synir hans fá. [32] Og af heillafórnum yðar skuluð þér gefa
prestinum hægra lærið að lyftifórn. [33] Sá af sonum Arons, er fram ber
blóðið úr heillafórninni og mörinn, skal fá hægra lærið í sinn hluta.
[34] Því að veifi-bringuna og lyfti-lærið hefi eg tekið af Ísraelsmönnum,
af heillafórnum þeirra, og gefið það Aroni presti og sonum hans; er
það æfinleg skyldugreiðsla, sem á Ísraelsmönnum hvílir. [35] Þetta er

7: kap. 6, 25 n. 9: kap. 2, 4 n. 10: kap. 2, 1 n. 14 n. 11: kap. 3, 1 n. 14: v. 12.
16: kap. 19, 5 n. 21: kap. 11, 4 n. 23: kap. 3, 17. 24: kap. 22, 8. 26: kap. 3, 17.

hluti Arons og hluti sona hans af eldfórnum Jahve, á þeim degi, sem
hann leiddi þá fram, til þess að þjóna Jahve í prestsembætti, 36 sem
Jahve bauð að Ísraelsmenn skyldu greiða þeim, á þeim degi, sem hann
smurði þá; er það æfinleg skyldugreiðsla hjá þeim frá kyni til kyns.
37 Þetta eru ákvæðin um brennifórnir, matfórnir, syndafórnir, sektar-
fórnir, vígslufórnir og heillafórnir, 38 sem Jahve setti Móse á Sínaí-fjalli,
þá er hann bauð Ísraelsmönnum, að þeir skyldu færa Jahve fórnar-
gjafir sínar í Sínaí-eyðimörku.

### Vígsla Arons og sona hans. Fyrstu fórnir Arons.

8 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tak Aron og sonu hans
með honum, klæðin og smurningarolíuna, syndafórnaruxann, báða
hrútana og körfuna með ósýrðu brauðunum, 3 og stefn þú saman öll-
um söfnuðinum við dyr samfundatjaldsins. 4 Og Móse gjörði eins og
Jahve bauð honum; og söfnuðurinn kom saman við dyr samfunda-
tjaldsins. 5 Og Móse sagði við söfnuðinn: Þetta er það, sem Jahve hefir
boðið að gjöra. 6 Því næst leiddi Móse fram Aron og sonu hans og
þvoði þá í vatni. 7 Og hann lagði yfir hanu kyrtilinn, gyrti hann belt-
inu og færði hann í möttulinn, lagði yfir hann hökulinn og gyrti hann
hökullindanum og batt hann þannig að honum. 8 Þá festi hann á
hann brjóstskjöldinn og lét úrím og túmmím í brjóstskjöldinn. 9 Og
hann setti vefjarhöttinn á höfuð honum; og framan á vefjarhöttinn
setti hann gullspöngina, ennishlaðið helga, svo sem Jahve hafði boðið
Móse. 10 Og Móse tók smurningarolíuna og smurði tjaldbúðina og alt,
sem í henni var, og helgaði það. 11 Og hann stökti henni sjö sinnum
á altarið og smurði altarið og öll áhöld þess, svo og kerið og stétt
þess, til að helga það. 12 Því næst helti hann smurningarolíu á höfuð
Aroni og smurði hann, til þess að helga hann. 13 Síðan leiddi Móse
fram sonu Arons, færði þá í kyrtla, gyrti þá belti og batt á þá höfuð-
dúka, svo sem Jahve hafði boðið Móse. 14 Þá leiddi hann fram synda-
fórnaruxann, og Aron og synir hans lögðu hendur sínar á höfuð
syndafórnaruxans. 15 En Móse slátraði honum, tók blóðið og reið því
með fingri sínum á horn altarisins alt í kring, og syndhreinsaði altarið,
en því sem eftir var af blóðinu helti hann niður við altarið; og hann
helgaði það með því að friðþægja fyrir það. 16 Því næst tók hann
allan innýflamörinn, stærra lifrarblaðið, bæði nýrun og nýrnamörinn;
og Móse brendi það á altarinu. 17 En uxann sjálfan, bæði húðina af
honum, kjötið og gorið, brendi hann í eldi fyrir utan herbúðirnar, svo
sem Jahve hafði boðið Móse. 18 Því næst leiddi hann fram brenni-
fórnarhrútinn, og Aron og synir hans lögðu hendur sínar á höfuð
hrútsins. 19 Síðan slátraði Móse honum og stökti blóðinu alt um kring
á altarið. 20 Og hann hlutaði hrútinn sundur; og Móse brendi höf-
uðið, stykkin og mörinn. 21 En innýflin og fæturna þvoði hann í vatni;
síðan brendi Móse allan hrútinn á altarinu; það var brennifórn þægi-
legs ilms, það var eldfórn Jahve til handa, svo sem Jahve hafði boðið
Móse. 22 Þessu næst leiddi hann fram hinn hrútinn, vígsluhrútinn,
og Aron og synir hans lögðu hendur sínar á höfuð hrútsins. 23 Og
Móse slátraði honum, og tók nokkuð af blóði hans og reið því á hægri

---

35: 2 Mós. 29, 27. 28. 3 Mós. 10, 14. 15. 37: kap. 1, 3 n. 6, 9 n. 2, 1 n. 6, 14 n. 4, 2 n. 6, 25 n. 5, 14 n. 8, 28. 33. — 8, 2: 2 Mós. 29, 1 n. 6: 2 Mós. 29, 4 n. 8: 2 Mós. 28, 30. 9: 2 Mós. 28, 36 n. 10: 2 Mós. 30, 25 n. 12: 2 Mós. 29, 7. 13: 2 Mós. 29, 8 n. 14: 2 Mós. 29, 10 n. 15: 2 Mós. 29, 12. 36 n. 17: 2 Mós. 29, 14. 18: 2 Mós. 29, 15 n. 22: 2 Mós. 29, 19 n.

eyrnasnepil Arons, á þumalfingur hægri handar hans og á stóru tá
hægri fótar hans. [24] Þá leiddi Móse fram sonu Arons og reið nokkuru
af blóðinu á hægri eyrnasnepil þeirra og á þumalfingur hægri handar
þeirra og á stóru tá hægri fótar þeirra. Og Móse stökti blóðinu alt um
kring á altarið. [25] Og hann tók mörinn: rófuna, allan innýflamörinn,
stærra lifrarblaðið, bæði nýrun og nýrnamörinn og hægra lærið;
[26] sömuleiðis tók hann úr körfunni með ósýrðu brauðunum, sem stóð
frammi fyrir Jahve, eina ósýrða köku og eina olíuköku og eitt flat-
brauð og lagði það ofan á mörinn og hægra lærið. [27] Og hann lagði
það alt í hendur Aroni og í hendur sonum hans, og veifaði því til
veififórnar frammi fyrir Jahve. [28] Síðan tók Móse það af höndum
þeirra og brendi það á altarinu ofan á brennifórninni. Það var vígslu-
fórn til þægilegs ilms, það var eldfórn Jahve til handa. [29] Því næst
tók Móse bringuna og veifaði henni til veififórnar frammi fyrir Jahve.
Fékk Móse hana í sinn hluta af vígsluhrútnum, svo sem Jahve hafði
boðið Móse. [30] Og Móse tók nokkuð af smurningarolíunni og nokkuð
af blóðinu, sem var á altarinu, og stökti því á Aron og klæði hans,
og á sonu hans og á klæði sona hans ásamt honum; og hann helgaði
Aron og klæði hans, og sonu hans og klæði sona hans ásamt honum.
[31] Og Móse sagði við Aron og sonu hans: Sjóðið kjötið fyrir dyrum
samfundatjaldsins og etið það þar ásamt brauðinu, sem er í vígslu-
fórnarkörfunni, svo sem eg bauð, er eg sagði: Aron og synir hans
*skulu* eta það. [32] En leifarnar af kjötinu og brauðinu skuluð þér
brenna í eldi. [33] Og sjö daga skuluð þér ekki ganga burt frá dyrum
samfundatjaldsins, unz vígsludagar yðar eru á enda, því að sjö daga
skal fylla hendur yðar. [34] Svo sem gjört hefir verið í dag hefir Jahve
boðið að gjöra, til þess að friðþægja fyrir yður. [35] Og við dyr sam-
fundatjaldsins skuluð þér vera sjö daga, bæði dag og nótt, og varð-
veita boðorð Jahve, svo að þér deyið ekki, því að svo hefir mér verið
boðið. [36] Og Aron og synir hans gjörðu alt það, sem Jahve hafði
boðið fyrir Móse.

9 Og á áttunda degi kallaði Móse fyrir sig Aron og sonu hans og
öldunga Ísraels [2] og sagði við Aron: Tak þér nautkálf í syndafórn
og hrút í brennifórn, gallalausa, og leið þá fram fyrir Jahve. [3] En til
Ísraelsmanna skalt þú tala á þessa leið: Takið geithafur í syndafórn,
og kálf og sauðkind, bæði veturgömul og gallalaus, í brennifórn, [4] og
uxa og hrút í heillafórn, til þess að slátra þeim frammi fyrir Jahve,
og matfórn olíublandaða; því að í dag mun Jahve birtast yður. [5] Og
þeir færðu það, sem Móse hafði boðið, fram fyrir samfundatjaldið, og
allur söfnuðurinn kom og nam staðar frammi fyrir Jahve. [6] Og Móse
sagði: Þetta er það, sem Jahve hefir boðið; gjörið það, og mun dýrð
Jahve birtast yður. [7] Því næst mælti Móse til Arons: Gakk þú að
altarinu og fórna syndafórn þinni og brennifórn þinni, og friðþæg þú
fyrir þig og fyrir lýðinn; fram ber því næst fórnargjöf lýðsins og frið-
þæg fyrir þá, svo sem Jahve hefir boðið. [8] Aron gekk þá að altarinu
og slátraði kálfinum, er honum var ætlaður til syndafórnar. [9] En synir
Arons færðu honum blóðið; og hann drap fingri sínum í blóðið og
reið því á horn altarisins, en hinu blóðinu helti hann niður við altarið.
[10] En mörinn, nýrun og stærra lifrarblaðið úr syndafórninni brendi
hann á altarinu, svo sem Jahve hafði boðið Móse. [11] En kjötið og
húðina brendi hann í eldi fyrir utan herbúðirnar. [12] Síðan slátraði
hann brennifórninni; og synir Arons réttu að honum blóðið, en hann
stökti því alt um kring á altarið. [13] Þeir réttu og að honum brenni-

---

30: 2 Mós. 29, 21. 31: 2 Mós. 29, 32. 33: 2 Mós. 29, 35.

fórnina í stykkjum og höfuðið, og hann brendi hana á altarinu. 14 Og
hann þvoði innýflin og fæturna og brendi á altarinu, ofan á brenni-
fórninni. 15 Þá bar hann fram fórnargjöf lýðsins, tók hafurinn, sem
ætlaður var lýðnum til syndafórnar, slátraði honum og færði hann í
syndafórn, eins og kálfinn áður. 16 Hann fram bar og brennifórnina
og fórnaði henni að réttum sið. 17 Og hann fram bar matfórnina, tók
af henni hnefafylli sína og brendi á altarinu auk morgun-brennifórn-
arinnar. 18 Því næst slátraði hann uxanum og hrútnum til heillafórnar
fyrir lýðinn; en synir Arons réttu að honum blóðið, — en hann stökti
því alt í kring á altarið — 19 svo og mörstykkin úr uxanum og af hrútnum
rófuna, netjuna, sem hylur iðrin, nýrun og stærra lifrarblaðið; 20 og
þeir lögðu mörinn ofan á bringurnar; en hann brendi mörinn á altar-
inu. 21 En bringunum og hægra lærinu veifaði Aron til veififórnar
frammi fyrir Jahve, svo sem Móse hafði boðið.

22 Síðan hóf Aron upp hendur sínar yfir fólkið og blessaði það;
og hann sté niður, er hann hafði fórnað syndafórninni, brennifórninni
og heillafórninni. 23 Og Móse og Aron gengu inn í samfundatjaldið; og
er þeir komu út aftur, blessuðu þeir fólkið; birtist þá dýrð Jahve öllum
lýðnum. 24 Og eldur gekk út frá Jahve og eyddi brennifórninni og
mörnum á altarinu. En er allur lýðurinn sá þetta, hófu þeir upp fagn-
aðaróp og féllu fram á ásjónur sínar.

### Misgjörð Nadabs og Abíhú. Prestunum settar ýmsar reglur.

10 En Nadab og Abíhú, synir Arons, tóku hvor sína eldpönnu og
létu eld í þær og lögðu reykelsi ofan á og báru fram fyrir Jahve
óvígðan eld*, sem hann eigi hafði boðið þeim. 2 Gekk þá eldur út frá
Jahve og eyddi þeim, og þeir dóu frammi fyrir Jahve. 3 Þá sagði Móse
við Aron: Nú er það fram komið, sem Jahve sagði:

Heilagleik minn vil eg sýna á þeim, sem nálægjast mig,
og birta dýrð mína frammi fyrir öllum lýð.

Og Aron þagði. 4 Og Móse kallaði á Mísael og Elsafan, sonu Ússíels,
föðurbróður Arons, og sagði við þá: Komið og berið burt úr helgi-
dóminum frændur ykkar út fyrir herbúðirnar. 5 Og þeir komu og báru
þá í kyrtlum þeirra út fyrir herbúðirnar, eins og Móse hafði sagt. 6 Og
Móse sagði við Aron og við Eleasar og Ítamar, sonu hans: Þér
skuluð eigi láta hár yðar flaka, eigi heldur sundur rífa klæði yðar, að
þér ekki deyið og hann* reiðist ekki öllum söfnuðinum; en bræður
yðar, allur Ísraels lýður, gráti yfir þeim eldi, sem Jahve hefir kveikt.
7 Og eigi skuluð þér fara út fyrir dyr samfundatjaldsins, ella munuð
þér deyja, því að smurningarolía Jahve er á yður. Og þeir gjörðu
sem Móse bauð.

8 Og Jahve talaði við Aron og sagði: 9 Hvorki skalt þú né synir
þínir drekka vín eða áfengan drykk, þegar þér gangið inn í samfunda-
tjaldið, svo að þér deyið ekki. Það er ævarandi lögmál hjá yður frá
kyni til kyns. 10 Og þér skuluð gjöra greinarmun á því, sem er heilagt
og óheilagt, og á því, sem er hreint og óhreint; 11 og þér skuluð kenna
Ísraelsmönnum öll þau lög, er Jahve hefir gefið þeim fyrir Móse.

12 Og Móse sagði við Aron og þá Eleasar og Ítamar, sonu hans,
er eftir voru á lífi: Takið matfórnina, sem eftir er af eldfórnum Jahve,
og etið hana ósýrða hjá altarinu, því að hún er háheilög. 13 Og þér

---

**9, 17:** 2 Mós. 29, 39. 40. **22:** 4 Mós. 6, 23 n. **23:** v. 6. **24:** 1 Kong. 18, 38. 39.
2 Kron. 7, 1. — **10, 1:** * Eða: ótilhlýðilega eldfórn. **2:** 4 Mós. 3, 4; 26, 61. **3:**
4 Mós. 20, 13. Am. 3, 2. **4:** 2 Mós. 6, 22. **6:** kap. 21, 1 n. * Þ. e. Jahve. **9:**
Esek. 44, 21. 1 Tím. 3, 3. Tít. 1, 7. **10:** Orðskv. 31, 4—5. Esek. 44, 23.

skuluð eta hana á helgum stað, því að hún er hinn ákveðni hluti þinn
og sona þinna af eldfórnum Jahve. Því að svo er mér boðið. 14 En
veifi-bringuna og lyfti-lærið skuluð þér eta á hreinum stað, þú og synir
þínir og dætur þínar með þér, því að þetta er sá ákveðni hluti, sem
þér er gefinn og sonum þínum af heillafórnum Ísraelsmanna. 15 Lyfti-
lærið og veifi-bringuna skulu þeir fram bera ásamt mörstykkja-eldfórn-
unum, til þess að veifa því til veififórnar frammi fyrir Jahve; síðan
skalt þú fá það og synir þínir með þér, sem æfinlega skyldugreiðslu,
eins og Jahve hefir boðið.
16 Og Móse leitaði vandlega að syndafórnarhafrinum, og sjá: hann
var uppbrendur; þá reiddist hann Eleasar og Ítamar, sonum Arons,
er eftir voru á lífi, og sagði við þá: 17 Hvers vegna átuð þið ekki synda-
fórnina á helgum stað? því að hún er háheilög og hann hefir gefið
ykkur hana til þess að burt taka misgjörð safnaðarins og friðþægja
fyrir þá frammi fyrir Jahve. 18 Sjá, blóð hennar hefir ekki verið borið
inn í helgidóminn; þið áttuð þó að eta hana á helgum stað, eins og eg
hafði boðið. 19 En Aron sagði við Móse: Sjá, í dag hafa þeir fram
borið syndafórn sína og brennifórn fyrir Jahve, og mér hefir slíkt* að
höndum borið; hefði eg nú etið syndafórnina í dag, mundi Jahve hafa
þóknast það? Og er Móse heyrði þetta, lét hann sér það vel líka.

## Um hrein og óhrein dýr.

11 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði við þá: 2 Talið til
Ísraelsmanna og segið: Þessi eru þau dýr, er þér megið eta af öll-
um ferfættum dýrum, sem eru á jörðunni: 3 öll ferfætt dýr, sem hafa
klaufir — og þær alklofnar — og jórtra, megið þér eta. 4 Af þeim, sem
jórtra og klaufir hafa, megið þér þó ekki þessi eta: úlfaldann, því að
hann jórtrar að sönnu, en er eigi klaufhæfður; hann sé yður óhreinn;
5 stökkhérann, því að hann jórtrar að sönnu, en hefir eigi klaufir; hann
sé yður óhreinn; 6 hérann, því að hann jórtrar að sönnu, en hefir eigi
klaufir; hann sé yður óhreinn; 7 og svínið, því að það hefir að sönnu
klaufir — og þær alklofnar —, en jórtrar ekki; það sé yður óhreint.
8 Kjöt þeirra skuluð þér ekki eta og hræ þeirra skuluð þér ekki snerta;
þau skulu vera yður óhrein.
9 En af lagardýrunum megið þér eta þessi: öll lagardýr, sem hafa
sundugga og hreistur, hvort heldur er í sjó eða ám, megið þér eta.
10 En af öllu því, sem kvikt er í vötnunum, og af öllum þeim lifandi
skepnum, sem eru í vötnunum, séu öll þau dýr í sjó eða ám, sem eigi
hafa sundugga og hreistur, yður viðurstygð. 11 Viðurstygð skulu þau
vera yður: ekki skuluð þér eta kjöt þeirra og við hræjum þeirra skal
yður stugga. 12 Öll lagardýr, sem ekki hafa sundugga og hreistur,
skulu vera yður viðurstygð.
13 Og af fuglunum skal yður stugga við þessum — þér skuluð eigi
eta þá, þeir eru viðurstygð —: örninn, skegg-gammurinn og gammur-
inn; 14 gleðan og valakynið; 15 alt hrafnakynið; 16 strúturinn, svalan, máf-
urinn og haukakynið; 17 uglan, súlan og náttuglan; 18 hornuglan, pelí-
kaninn og hrægammurinn; 19 storkurinn og lóukynið, herfuglinn og leð-
urblakan. 20 Öll fleyg skriðkvikindi ferfætt séu yður viðurstygð. 21 Af
öllum fleygum skriðkvikindum ferfættum megið þér þau ein eta, er
hafa leggi upp af afturfótunum, til þess að stökkva með um jörðina, 22 af
þeim megið þér eta þessi: arbe-engisprettur, sólam-engisprettur, kargól-

---

**13:** kap. 2, 3. 10; 6, 9. **14:** kap. 7, 34 n. 4 Mós. 18, 11. **16:** kap. 9, 3. 15. **17:** kap. 6, 26. 29. **18:** kap. 6, 26. 30. **19:** * Sjá v. 1—5. — **11, 2:** 5 Mós. 14, 4 n.

engisprettur og kagab-engisprettur. 23 En öll önnur fleyg skriðkvikindi fer-
fætt séu yður viðurstygð. 24 Og af þessum dýrum verðið þér óhreinir;
hver sem snertir hræ þeirra, verður óhreinn til kvelds. 25 En hver sá, sem
ber hræ þeirra, hann skal þvo klæði sín og er óhreinn til kvelds. 26 Hvert
það ferfætt dýr, sem hefir klaufir, þó eigi alklofnar, og eigi jórtrar, sé
yður óhreint; hver sem þau snertir, verður óhreinn. 27 Og öll þau,
sem ganga á hrömmum sínum, meðal allra dýra ferfættra, séu yður ó-
hrein; hver sem snertir hræ þeirra, er óhreinn til kvelds. 28 Og sá,
sem ber hræ þeirra, skal þvo klæði sín og er óhreinn til kvelds. Þau
skulu vera yður óhrein.

29 Og þessi skulu vera yður óhrein á meðal skriðkvikindanna, sem
skríða á jörðunni: hreysivislan, músin og eðlukynið, 30 anaka, kóak,
letaa, kómet og tinsemet*. 31 Þessi skulu vera yður óhrein meðal allra
skriðkvikindanna; hver sem snertir þau, þegar þau eru dauð, verður
óhreinn til kvelds. 32 Og sérhvað það, er eitthvert af þeim fellur ofan
á, þegar þau eru dauð, verður óhreint, hvort heldur er tréílát, klæði,
skinn eða sekkur, — öll þau áhöld, sem til einhvers eru notuð; skal
það í vatn leggja og er óhreint til kvelds; þá er það hreint. 33 Falli
eitthvert af þeim ofan í leirker, þá verður alt, sem í því er, óhreint,
og kerið skuluð þér brjóta; 34 allur matur, sem etinn er og vatn er
látið í, verður óhreinn, og allur drykkur, sem drukkinn er, verður ó-
hreinn, í hvaða keri sem hann er*. 35 Og sérhvað það, sem hræ þeirra
fellur á, verður óhreint; hvort heldur er ofn eða eldstó, skal það rifið
niður; það er óhreint og óhreint skal það yður vera. 36 Lindir einar
og brunnar, það er vatnsstæður, skulu hreinar vera, en sá, sem hræin
snertir, verður óhreinn. 37 En þó að eitthvað af hræjunum falli á út-
sæði, sem á að sá, þá er það hreint. 38 En ef vatn er látið á sæðið
og eitthvað af hræjunum fellur ofan í það, þá sé það yður óhreint.

39 Og þegar einhver af þeim skepnum deyr, sem yður eru til fæðu,
þá skal sá, er snertir dauðan skrokkinn, vera óhreinn til kvelds; 40 og
sá, sem etur af skrokknum, skal þvo klæði sín og er óhreinn til kvelds;
og sá, sem ber skrokkinn, skal þvo klæði sín og er óhreinn til kvelds.
41 Og öll skriðkvikindi, sem skríða á jörðunni, skulu vera yður viður-
stygð; eigi skal þau eta. 42 Öll þau, er skríða á kviðnum, og öll þau,
er ganga á fjórum fótum, svo og allar margfætlur meðal allra skrið-
kvikinda, er skríða á jörðinni, — þau skuluð þér eigi eta, því að þau
eru viðurstygð. 43 Látið eigi nokkurt skriðkvikindi gjöra yður sjálfa
viðurstyggilega og saurgið yður ekki á þeim, svo að þér verðið óhreinir
af þeim. 44 Því að eg er Jahve, Guð yðar; og helgist og verið heilagir,
því að eg er heilagur; og þér skuluð ekki saurga sjálfa yður á nokk-
uru því skriðkvikindi, sem skríður á jörðunni. 45 Því að eg er Jahve,
sem leiddi þig út af Egiptalandi, til þess að vera yðar Guð. Og þér
skuluð vera heilagir, því að eg er heilagur.

46 Þessi eru ákvæðin um ferfættu dýrin, fuglana og allar lifandi
skepnur, sem hrærast í vötnunum, og um allar lifandi skepnur, sem
jörðin er kvik af, 47 svo að menn viti grein óhreinna og hreinna dýra,
svo og ætra dýra og óætra.

## Um sængurkonur.

12 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg: Þegar kona verður léttari og elur sveinbarn, þá skal hún
vera óhrein sjö daga; skal hún vera óhrein, eins og þá daga, sem hún

**24:** kap. 5, 2. **30:** * Að líkindum eðlutegundir. **34:** * Þ. e. a. s.: ef eitthvað af nefndum skriðkvikindum fellur ofan í það. **40:** kap. 17, 15. **44:** kap. 19, 2 n. 20, 7 n. 1 Pét. 1, 16. **45:** kap. 19, 36; 22, 32 n. — **12, 2:** kap. 15, 19.

er saurug af klæðaföllum. 3 Og á áttunda degi skal umskera hold yfir-
húðar hans. 4 En konan skal halda sér heima þrjátíu og þrjá daga,
meðan á blóðhreinsuninni stendur; hún skal ekkert heilagt snerta og
eigi inn í helgidóminn koma, unz hreinsunardagar hennar eru úti. 5 En
ef hún elur meybarn, þá skal hún vera óhrein hálfan mánuð, sem þá
er hún er saurug af klæðaföllum, og hún skal halda sér heima sextíu
og sex daga, meðan á blóðhreinsuninni stendur. 6 En þegar hreinsun-
ardagar hennar eru úti, hvort heldur er fyrir son eða dóttur, þá skal
hún færa prestinum að dyrum samfundatjaldsins sauðkind veturgamla
í brennifórn og unga dúfu eða turtildúfu í syndafórn; 7 skal hann fram
bera það fyrir Jahve og friðþægja fyrir hana, og er hún þá hrein af
blóðlátum sínum.

Þessi eru ákvæðin um sængurkonuna, hvort heldur barnið er svein-
barn eða meybarn. 8 En ef hún á ekki fyrir sauðkind, þá færi hún
tvær turtildúfur eða tvær ungar dúfur, aðra í brennifórn, en hina í
syndafórn, og skal presturinn friðþægja fyrir hana og er hún þá hrein.

## Um líkþrá.

13 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: 2 Nú tekur ein-
hver þrota, hrúður eða gljádíla í skinnið á hörundi sínu og verður
að líkþrárskellu í skinninu á hörundi hans, þá skal leiða hann fyrir
Aron prest eða einhvern af prestunum, sonum hans. 3 Og prestur skal
líta á skelluna í skinninu á hörundinu, og hafi hárin í skellunni gjörst
hvít og beri skelluna dýpra en skinnið á hörundi hans, þá er það lík-
þrárskella. Og prestur skal líta á hann og dæma hann óhreinan. 4 En
sé hvítur gljádíli í skinninu á hörundi hans og beri ekki dýpra en
skinnið og hafi hárin í honum ekki gjörst hvít, þá skal prestur byrgja
inni sjö daga þann, er skelluna hefir tekið. 5 Og prestur skal líta á
hann á sjöunda degi, og sjái hann að jafnmikið ber á skellunni og hafi
skellan ekki færst út í skinninu, þá skal prestur byrgja hann enn inni
sjö daga. 6 Og prestur skal enn líta á hann á sjöunda degi og sjái
hann þá, að skellan hefir dökknað og hafi skellan ekki færst út í
skinninu, skal prestur dæma hann hreinan; þá er það hrúður; og hann
skal þvo klæði sín og er þá hreinn. 7 En færist hrúðrið út í skinninu
eftir að hann sýndi sig prestinum, til þess að verða dæmdur hreinn,
þá skal hann aftur sýna sig prestinum. 8 Og prestur skal líta á og sjái
hann, að hrúðrið hefir færst út í skinninu, þá skal prestur dæma hann
óhreinan; þá er það líkþrá.

9 Nú tekur einhver líkþrárskellu og skal leiða hann fyrir prest.
10 Og prestur skal líta á og sjái hann, að hvítur þroti er í skinninu og
hefir gjört hárin hvít, og lifandi kvika er í þrotanum, 11 þá er það gömul
líkþrá í skinninu á hörundi hans, og skal prestur dæma hann óhreinan.
Hann skal eigi byrgja hann inni, því að hann er óhreinn. 12 En brjót-
ist líkþráin út um skinnið og hylji líkþráin alt skinnið frá hvirfli til
ilja á þeim, er skellurnar hefir tekið, hvar sem prestur rennir augum
til, 13 þá skal prestur líta á, og sjái hann, að líkþráin hefir hulið alt
hörund hans, þá skal hann dæma hreinan þann, er skellurnar hefir
tekið; hann hefir þá allur gjörst hvítur og er þá hreinn. 14 En þegar
er ber á kviku holdi á honum, skal hann vera óhreinn. 15 Og prestur
skal líta á kvika holdið og dæma hann óhreinan; kvika holdið er ó-
hreint; þá er það líkþrá. 16 En hverfi kvika holdið og gjörist hvítt, þá
skal hann ganga fyrir prest. 17 Og prestur skal líta á hann, og sjái

---

3: 1 Mós. 17, 12. 8: kap. 5, 7. Lúk. 2, 24. — 13, 2: 5 Mós. 24, 8.

hann að skellurnar hafa gjörst hvítar, þá skal prestur dæma hreinan
þann, er skellurnar hefir tekið; þá er hann hreinn.
[18] Nú kemur kýli í hörundið, út í skinnið, og grær [19] og kemur í
stað kýlisins hvítur þroti eða gljádíli ljósrauður, þá skal hann sýna sig
presti. [20] Og prestur skal líta á og sjái hann, að dílann ber lægra en
skinnið og hárin í honum hafa gjörst hvít, skal prestur dæma hann ó-
hreinan; þá er það líkþrársótt, sem brotist hefir út í kýlinu. [21] En ef
prestur lítur á hann og sér, að engin hvít hár eru í honum og hann
er ekki lægri en skinnið og hefir dökknað, þá skal prestur byrgja hann
inni sjö daga. [22] En færist hann út í skinninu, skal prestur dæma hann
óhreinan; þá er það líkþrársótt. [23] En ef gljádílinn stendur í stað og
færist eigi út, þá er það kýlis-ör og prestur skal dæma hann hreinan.
[24] En ef brunasár kemur á hörundið og brunakvikan verður að
gljádíla ljósrauðum eða hvítum, [25] þá skal prestur líta á hann; og sjái
hann, að hárin í gljádílanum hafa gjörst hvít og ber hann dýpra en
skinnið, þá er það líkþrá, sem hefir brotist út í brunanum og skal
prestur dæma hann óhreinan; þá er það líkþrársótt. [26] En ef prestur
lítur á hann og sér, að engin hvít hár eru í gljádílanum og hann er
ekki lægri en skinnið og hefir dökknað, þá skal prestur byrgja hann
inni sjö daga. [27] Og prestur skal líta á hann á sjöunda degi; hafi hann
þá færst út í skinninu, skal prestur dæma hann óhreinan; þá er það
líkþrársótt. [28] En ef gljádílinn stendur í stað og hefir eigi færst út í
skinninu, en dökknað, þá er það brunaþroti og skal prestur dæma hann
hreinan, því að þá er það bruna-ör.
[29] Nú tekur karl eða kona skellu í höfuðið eða skeggið, [30] þá skal
prestur líta á skelluna og sjái hann, að hana ber dýpra en skinnið og
gulleit visin hár eru í henni, þá skal prestur dæma hann óhreinan; þá
er það skurfa; það er líkþrá í höfði eða skeggi. [31] Og er prestur lítur
á skurfuskelluna og sér, að hana ber ekki dýpra en skinnið, og engin
svört hár eru í henni, þá skal prestur byrgja inni sjö daga þann, er
skurfuskelluna hefir tekið. [32] Og prestur skal líta á skelluna á sjöunda
degi og sjái hann, að skurfan hefir eigi færst út og engin gulleit hár
eru í henni og skurfuna ber eigi dýpra en skinnið, [33] þá skal hann raka
sig, en skurfuna skal hann ekki raka, og prestur skal enn byrgja inni
sjö daga þann, er skurfuna hefir tekið. [34] Og prestur skal líta á skurf-
una á sjöunda degi og sjái hann, að skurfan hefir eigi færst út í skinn-
inu og hana ber ekki dýpra en skinnið, þá skal prestur dæma hann
hreinan; og hann skal þvo klæði sín og er þá hreinn. [35] En ef skurfan
færist út í skinninu eftir að hann hefir verið dæmdur hreinn, [36] þá skal
prestur líta á hann og sjái hann, að skurfan hefir færst út í skinninu,
þá skal prestur ekki leita að gulleitu hárunum; þá er hann óhreinn.
[37] En ef jafnmikið ber á skurfunni og svört hár hafa sprottið í henni,
þá er skurfan gróin; hann er þá hreinn, og prestur skal dæma hann
hreinan.
[38] Nú tekur karl eða kona gljádíla, hvíta gljádíla í skinnið á hör-
undi sínu, [39] þá skal prestur líta á og sjái hann, að gljádílarnir í skinn-
inu á hörundi þeirra eru dumb-hvítir, þá er það hringormur, sem hefir
brotist út í skinninu; þá er hann hreinn.
[40] Nú verður einhver sköllóttur ofan á höfðinu, þá er hann hvirf-
ilskalli og er hreinn. [41] Og ef hann verður sköllóttur framan á höfð-
inu, þá er hann ennisskalli og er hreinn. [42] En sé ljósrauð skella í
hvirfilskallanum eða ennisskallanum, þá er það líkþrá, er út brýzt í
hvirfilskalla hans eða ennisskalla. [43] Prestur skal þá líta á hann, og
sjái hann að skelluþrotinn í hvirfilskalla hans eða ennisskalla er ljós-
rauður, á að sjá sem líkþrá í skinninu á hörundinu, [44] þá er hann

maður líkþrár og er óhreinn; prestur skal sannlega dæma hann óhreinan; líkþrársóttin er í höfði honum.
[45] Og líkþrár maður, er sóttina hefir, — klæði hans skulu vera rifin og hár hans flakandi og hann skal hylja kamp sinn og hrópa: óhreinn, óhreinn! [46] Alla þá stund, er hann hefir sóttina, skal hann óhreinn vera; hann er óhreinn; hann skal búa sér; bústaður hans skal vera fyrir utan herbúðirnar.
[47] Nú kemur líkþrárskella á fat, hvort heldur er ullarfat eða línfat, [48] eða vefnað eða prjónles af líni eða ullu, eða skinn eða eitthvað það, sem af skinni er gjört, [49] og sé skellan grænleit eða rauðleit á fatinu eða skinninu eða vefnaðinum eða prjónlesinu eða nokkrum hlut af skinni gjörvum, þá er það líkþrárskella og skal sýna það prestinum. [50] Og prestur skal líta á skelluna og byrgja inni sjö daga það, er skellan er á. [51] Og hann skal líta á skelluna á sjöunda degi: hafi skellan færst út á fatinu eða vefnaðinum eða prjónlesinu eða skinninu, til hverra nota sem skinnið er haft, þá er skellan skæð líkþrá; þá er það óhreint. [52] Og skal brenna fatið eða vefnaðinn eða prjónlesið, hvort það er heldur af ullu eða líni, eða hvern hlut af skinni gjörvan, er skellan er á, því að það er skæð líkþrá; það skal í eldi brenna. [53] En ef prestur lítur á og sér, að skellan hefir eigi færst út í fatinu eða vefnaðinum eða prjónlesinu eða á einhverjum hlut af skinni gjörvum, [54] þá skal prestur bjóða að þvo það, sem skellan er á, og hann skal enn byrgja það inni sjö daga. [55] Og prestur skal líta á eftir að það, sem skellan er á, er þvegið og sjái hann, að skellan hefir eigi breytt lit og skellan hefir eigi færst út, þá er það óhreint; þú skalt brenna það í eldi; þá er það áta, hvort það er heldur á úthverfunni eða rétthverfunni. [56] En ef prestur lítur á og sér, að skellan hefir dökknað, eftir að hún var þvegin, þá skal hann rífa hana af fatinu eða skinninu eða vefnaðinum eða prjónlesinu. [57] En komi hún enn í ljós á fatinu eða vefnaðinum eða prjónlesinu eða á nokkrum hlut af skinni gjörvum, þá er það líkþrá, sem er að brjótast út; þú skalt brenna í eldi það, er skellan er á. [58] En það fat eða vefnaður eða prjónles, eða sérhver hlutur af skinni gjör, sem skellan gengur af, ef þvegið er, það skal þvo annað sinn og er þá hreint.
[59] Þessi eru ákvæðin um líkþrársótt í ullarfati eða línfati eða vefnaði eða prjónlesi eða nokkrum hlut af skinni gjörvum, er það skal dæma hreint eða óhreint.

### Um hreinsun líkþrárra manna.

**14** Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Þetta skulu vera ákvæðin um líkþráan mann, þá er hann er hreinsaður: Skal leiða hann fyrir prest; [3] og prestur skal ganga út fyrir herbúðirnar, og prestur skal líta á, og sjái hann að líkþrár-skellan á hinum líkþráa er gróin, [4] þá skal presturinn bjóða að taka fyrir þann, er lætur hreinsa sig, tvo hreina fugla lifandi, sedrusvið, skarlat og ýsópsvönd. [5] Og prestur skal bjóða að slátra öðrum fuglinum í leirker yfir rennandi vatni. [6] En lifandi fuglinn, sedrusviðinn, skarlatið og ýsópsvöndinn skal hann taka og drepa því, ásamt lifandi fuglinum, í blóð fuglsins, er slátrað var yfir rennandi vatni. [7] Og hann skal stökkva sjö sinnum á þann, sem lætur hreinsa sig af líkþránni, og dæma hann hreinan, en sleppa lifandi fuglinum út á víðavang. [8] Og sá, er lætur hreinsa sig, skal þvo klæði sín, raka alt hár sitt og lauga sig í vatni, og er þá hreinn; og síðan gangi

---

**45:** Esek. 24, 17. 22. Mík. 3, 7. **46:** 4 Mós. 5, 2 n. 12, 14. — **14, 2:** Matt. 8, 4.

hann í herbúðirnar, en skal þó sjö daga hafast við fyrir utan tjald
sitt. [9] Og á sjöunda degi skal hann raka alt hár sitt, bæði höfuð sitt,
skegg og augabrýr, — alt hár sitt skal hann raka; og hann skal þvo
klæði sín og lauga líkama sinn í vatni og er þá hreinn.
[10] En á áttunda degi skal hann taka tvö hrútlömb gallalaus og
eina gimbur veturgamla gallalausa og þrjá tíunduparta úr efu af fínu
mjöli, blönduðu við olíu, í matfórn og einn lóg af olíu. [11] Og prest-
urinn, er hreinsar, skal færa manninn, er lætur hreinsa sig, ásamt
þessu fram fyrir Jahve að dyrum samfundatjaldsins. [12] Og presturinn
skal taka annað hrútlambið og fórna því í sektarfórn, ásamt olíu-lóg-
inum, og veifa hvorutveggju að veififórn frammi fyrir Jahve. [13] Og
lambinu skal slátra á þeim stað, þar sem syndafórninni er slátrað og
brennifórninni, á helgum stað; því að eins og syndafórn heyrir presti,
svo er og um sektarfórn; hún er háheilög. [14] Og prestur skal taka nokk-
uð af blóði sektarfórnarinnar og prestur skal ríða því á hægri eyrna-
snepil þess, er lætur hreinsa sig, og á þumalfingur hægri handar hans
og á stóru tá hægri fótar hans. [15] Og prestur skal taka nokkuð af olíu-
lóginum og hella í vinstri lófa sér. [16] Og prestur skal drepa hægri
fingri sínum í olíuna, sem er í vinstri lófa hans, og stökkva olíunni
með fingri sínum sjö sinnum frammi fyrir Jahve. [17] Og af leifunum
af olíunni, sem er í lófa hans, skal prestur ríða á hægri eyrnasnepil
þess, er lætur hreinsa sig, og á þumalfingur hægri handar hans og á
stóru tá hægri fótar hans, ofan á blóðið úr sektarfórninni. [18] Og því,
sem leift er af olíunni í lófa prestsins, skal hann ríða á höfuð þess,
sem lætur hreinsa sig, og prestur skal friðþægja fyrir hann frammi
fyrir Jahve. [19] Þá skal prestur fórna syndafórninni og friðþægja fyrir
þann, er lætur hreinsa sig, vegna óhreinleika hans; og síðan skal hann
slátra brennifórninni. [20] Og prestur skal fram bera á altarið brenni-
fórnina og matfórnina; og þannig skal presturinn friðþægja fyrir hann,
og er hann þá hreinn.
[21] En sé hann fátækur og á ekki fyrir þessu, þá skal hann taka
eitt hrútlamb í sektarfórn til veifunar, til þess að friðþægt verði fyrir
hann, og einn tíunda part úr efu af fínu mjöli, blönduðu við olíu, í
matfórn og lóg af olíu, [22] og tvær turtildúfur eða tvær ungar dúfur,
eftir því sem efni hans leyfa; skal önnur vera til syndafórnar, en hin
til brennifórnar. [23] Og hann skal færa þær prestinum á áttunda degi
frá hreinsun sinni að dyrum samfundatjaldsins, fram fyrir Jahve. [24] Og
prestur skal taka sektarfórnarlambið og olíu-lóginn, og prestur skal
veifa því til veififórnar frammi fyrir Jahve. [25] Síðan skal sektarfórnar-
lambinu slátrað; og prestur skal taka nokkuð af blóði sektarfórnar-
innar og ríða á hægri eyrnasnepil þess, er lætur hreinsa sig, og á
þumalfingur hægri handar hans og á stóru tá hægri fótar hans. [26] Og
nokkuru af olíunni skal prestur hella í vinstri lófa sér. [27] Og prestur
skal stökkva nokkuru af olíunni, sem er í vinstri lófa hans, með hægri
fingri sínum sjö sinnum frammi fyrir Jahve. [28] Og prestur skal ríða
nokkuru af olíunni, sem er í lófa hans, á hægri eyrnasnepil þess, er
lætur hreinsa sig, og á þumalfingur hægri handar hans og á stóru tá
hægri fótar hans, á þann stað þar sem blóðið úr sektarfórninni er.
[29] En því, sem leift er af olíunni í lófa prestsins, skal hann ríða á
höfuð þess, er lætur hreinsa sig, til þess að friðþægja fyrir hann frammi
fyrir Jahve. [30] Þá skal hann fórna annari turtildúfunni eða annari
ungu dúfunni, eftir því sem hann hafði efnin til, [31] annari í syndafórn
og hinni í brennifórn, ásamt matfórninni, og þannig skal presturinn

---

**18:** kap. 7, 6 n. **22:** kap. 5, 7; 12, 8.

friðþægja fyrir þann, er lætur hreinsa sig, frammi fyrir Jahve. 32 Þetta
eru ákvæðin um þann, sem hefir líkþrársótt og ekki á fyrir hreinsun
sinni.

## Um líkþrá á húsum.

33 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: 34 Þá er þér komið
í Kanaanland, sem eg mun gefa yður til eignar, og eg læt koma lík-
þrárskellu á hús í eignarlandi yðar, 35 þá skal sá fara, sem húsið á,
og greina presti frá og segja: Mér virðist sem skella sé á húsinu.
36 Og prestur skal bjóða að láta ryðja húsið áður en prestur gengur
inn til þess að líta á skelluna, svo að ekki verði alt óhreint, sem í
húsinu er. Síðan skal prestur ganga inn til þess að skoða húsið.
37 Og hann skal líta á skelluna, og sjái hann að skellan á veggjum
hússins eru dældir grænleitar eða rauðleitar, og þær ber lægra en vegg-
inn, 38 þá skal prestur ganga út úr húsinu að dyrum hússins og byrgja
húsið sjö daga. 39 Og prestur skal koma aftur á sjöunda degi og líta
á, og sjái hann að skellan hefir færst út á veggjum hússins, 40 þá skal
prestur bjóða að brjóta þá steina út, sem skellan er á, og varpa þeim
á óhreinan stað utan borgar. 41 Og húsið skal hann láta skafa alt að
innan, og skulu þeir steypa niður vegglíminu, er þeir skafa af, á ó-
hreinan stað utan borgar. 42 Og þeir skulu taka aðra steina og setja
í stað hinna steinanna, og annað vegglím skal taka og ríða á húsið.
43 En ef skellan kemur aftur og brýzt út á húsinu eftir að steinarnir
hafa verið brotnir úr og eftir að húsið hefir verið skafið og síðan verið
riðið á vegglími, 44 þá skal prestur koma og líta á, og sjái hann að
skellan hefir færst út á húsinu, þá er það skæð líkþrá á húsinu; það
er óhreint. 45 Og skal rífa húsið, steinana í því, viðina og alt vegglím
hússins, og færa út fyrir borgina á óhreinan stað. 46 Og hver sem
gengur inn í húsið alla þá stund, sem það er byrgt, skal vera óhreinn
til kvelds. 47 Og hver sem hvílir í húsinu, skal þvo klæði sín; og hver
sem matar neytir í húsinu, skal þvo klæði sín. 48 En ef prestur kemur
og lítur á og sér, að skellan hefir ekki færst út á húsinu eftir að riðið
var vegglími á húsið, þá skal prestur dæma húsið hreint, því að skellan
er þá læknuð. 49 Og hann skal taka tvo fugla, sedrusvið, skarlat og
ýsópsvönd, til þess að syndhreinsa húsið. 50 Og hann skal slátra öðr-
um fuglinum í leirker yfir rennandi vatni. 51 En sedrusviðinn, ýsóps-
vöndinn, skarlatið og lifandi fuglinn skal hann taka og drepa þeim í
blóð fuglsins, er slátrað var, og í rennandi vatnið og stökkva á húsið
sjö sinnum. 52 Og hann skal syndhreinsa húsið með blóði fuglsins og
rennandi vatninu, með lifandi fuglinum, sedrusviðinum, ýsópsvendinum
og skarlatinu. 53 En lifandi fuglinum skal hann sleppa út fyrir borg-
ina, út á víðavang, og friðþægja þannig fyrir húsið, og er það þá hreint.
54 Þetta eru ákvæðin um hvers konar líkþrársótt og skurfu, 55 um
líkþrá í fati og á húsi, 56 um þrota, hrúður og gljádíla, 57 til leiðbein-
ingar um það, hve nær eitthvað er óhreint og hve nær það er hreint.
Þetta eru ákvæðin um líkþrá.

## Um rensli, sáðlát og blóðmissi.

15 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: 2 Mælið til Ísraels-
manna og segið við þá: Nú hefir einhver rensli úr hörundi sínu,
og er hann óhreinn vegna renslisins. 3 Og skal svo vera um óhrein-
leika hans, þá er hann hefir rensli: hvort sem renslið úr hörundi hans
gengur út eða stemmist, þá er hann óhreinn. 4 Sérhver hvíla skal ó-
hrein vera, ef maður með rensli hefir legið í henni, og sérhvað það

skal óhreint vera, er hann situr á. [5] Og hver sem snertir hvílu hans,
skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn til kvelds.
[6] Og sá er sezt á nokkuð það, sem maður með rensli hefir setið á,
skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn til kvelds.
[7] Og sá sem snertir líkama þess, er rensli hefir, skal þvo klæði sín og
lauga sig í vatni og vera óhreinn til kvelds. [8] Og hræki sá, er rensli
hefir, á hreinan mann, þá skal hann þvo klæði sín og lauga sig í vatni
og vera óhreinn til kvelds. [9] Og sérhver söðull skal óhreinn vera, ef
maður með rensli ríður í honum. [10] Og hver sá, er snertir eitthvað
það, sem hefir verið undir honum, skal vera óhreinn til kvelds; og sá,
er ber það, skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn
til kvelds. [11] Og hver sá, er maður með rensli hefir snortið og hafi
hann eigi skolað hendur sínar í vatni, skal þvo klæði sín og lauga sig
í vatni og vera óhreinn til kvelds. [12] Og leirker skal brjóta, ef maður
með rensli snertir það, en tré-ílát öll skola í vatni.

[13] En er sá, er rensli hefir, verður hreinn af rensli sínu, skal
hann telja sjö daga frá hreinsun sinni og þvo klæði sín og lauga lík-
ama sinn í rennandi vatni og er þá hreinn. [14] Og á áttunda degi skal
hann taka tvær turtildúfur eða tvær ungar dúfur og ganga fram fyrir
Jahve að dyrum samfundatjaldsins og færa þær presti. [15] Og prestur
skal fórna þeim, annari í syndafórn og hinni í brennifórn; og prestur
skal friðþægja fyrir hann frammi fyrir Jahve vegna renslis hans.

[16] Nú lætur einhver sæði og skal hann lauga allan líkama sinn í
vatni og vera óhreinn til kvelds. [17] Og hvert það fat eða skinn, sem
sæðið hefir komið á, skal þvegið í vatni og vera óhreint til kvelds.
[18] Og leggist maður með konu og hafi samfarir við hana, þá skulu
þau lauga sig í vatni og vera óhrein til kvelds.

[19] Nú hefir kona rensli og renslið úr holdi hennar er blóð, þá skal
hún vera saurug sjö daga, og hver sem snertir hana, skal vera óhreinn
til kvelds. [20] Og alt það, sem hún liggur á, meðan hún er saurug, skal
vera óhreint; og alt, sem hún situr á, skal vera óhreint. [21] Og hver
sem snertir hvílu hennar, skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og
vera óhreinn til kvelds. [22] Og hver sem snertir nokkuð það, sem hún
hefir setið á, skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn
til kvelds. [23] Og snerti hann eitthvað, sem er í hvílunni eða á því, sem
hún situr á, þá skal hann vera óhreinn til kvelds. [24] Og ef einhver
samrekkir henni og tíðablóð hennar kemur á hann, þá er hann óhreinn
sjö daga, og hver sú hvíla skal óhrein vera, er hann liggur í.

[25] Nú missir kona blóð marga daga á öðrum tíma en þeim, er hún
hefir tíðir, eða hún hefir rensli fram yfir tíðir sínar, þá skal hún alla
þá stund, er hún hefir óhreint rensli, haga sér eins og þá daga, er hún
hefir tíðir; hún er óhrein. [26] Hverja hvílu, sem hún liggur í alla þá
stund, sem hún hefir rensli, skal hún fara með eins og hvílu sína, þá
er hún hefir tíðir; og sérhvað það, er hún situr á, skal vera óhreint,
eins og þegar hún er saurug af klæðaföllum. [27] Hver sem snertir þetta,
skal vera óhreinn; og hann skal þvo klæði sín og lauga sig í vatni og
vera óhreinn til kvelds. [28] En þá er hún er hrein orðin af rensli sínu,
skal hún telja sjö daga, og eftir það er hún hrein. [29] Og á áttunda
degi skal hún taka sér tvær turtildúfur eða tvær ungar dúfur og færa
þær prestinum að dyrum samfundatjaldsins. [30] Og prestur skal fórna
annari í syndafórn og hinni í brennifórn; og prestur skal friðþægja fyrir
hana frammi fyrir Jahve vegna hins óhreina renslis hennar.

[31] Og þannig skuluð þér vara Ísraelsmenn við óhreinleika þeirra,

---

**15, 14:** kap. 12, 8. **26:** v. 20. **29:** v. 14.

að þeir deyi ekki í óhreinleika sínum, ef þeir saurga búð mína, sem er
meðal þeirra.
32 Þetta eru ákvæðin um þann, sem hefir rensli, og þann, sem hefir
sáðlát, svo að hann verður óhreinn af, 33 og um konu, sem hefir tíðir,
og þann, sem hefir rensli, hvort heldur er karl eða kona, og um mann,
sem samrekkir konu óhreinni.

## Um hina miklu friðþægingarhátíð.

16 Og Jahve talaði við Móse eftir dauða tveggja sona Arons, er
þeir gengu fram fyrir Jahve og dóu. 2 Og Jahve sagði við Móse:
Seg þú Aroni bróður þínum, að hann megi ekki á hverjum tíma sem
er ganga inn í helgidóminn inn fyrir fortjaldið, fram fyrir lokið, sem
er yfir örkinni, ella muni hann deyja; því að eg mun birtast í skýinu
yfir lokinu. 3 Með þetta skal Aron koma inn í helgidóminn: með ung-
neyti í syndafórn og hrút í brennifórn; 4 hann skal klæðast helgum lín-
kyrtli og hafa línbrækur yfir holdi sínu og gyrða sig línbelti og setja á
sig vefjarhött af líni. Þetta eru helg klæði; og skal hann lauga líkama
sinn í vatni og klæðast þeim. 5 Og af söfnuði Ísraelsmanna skal hann
taka tvo geithafra í syndafórn og einn hrút í brennifórn. 6 Og Aron
skal leiða fram uxann, sem honum er ætlaður til syndafórnar, og frið-
þægja fyrir sig og hús sitt. 7 Þá skal hann taka báða geithafrana og
færa þá fram fyrir Jahve að dyrum samfundatjaldsins. 8 Og Aron skal
leggja hluti á báða hafrana, einn hlut fyrir Jahve og hinn annan hlut
fyrir Asasel. 9 Og Aron skal leiða fram hafurinn, sem hlutur Jahve féll
á, og fórna honum í syndafórn. 10 En hafurinn, sem hlutur Asasels féll
á, skal færa lifandi fram fyrir Jahve, til þess að friðþæging fari fram
yfir honum og honum sé slept til Asasels út á eyðimörkina.
11 Og Aron skal leiða fram uxann, sem honum er ætlaður til
syndafórnar, og friðþægja fyrir sig og hús sitt, og hann skal slátra ux-
anum, sem honum er ætlaður til syndafórnar. 12 Og hann skal taka
eldpönnu fulla af eldsglóðum af altarinu frammi fyrir Jahve og lúkur
sínar fullar af smámuldu ilmreykelsi og bera inn fyrir fortjaldið. 13 Og
hann skal láta reykelsið á eldinn frammi fyrir Jahve, svo að reykelsis-
skýið hylji lokið, sem er yfir sáttmálinu, og hann deyi ekki. 14 Og
hann skal taka nokkuð af blóði uxans og stökkva því með fingri sín-
um ofan á lokið framanvert; og fyrir framan lokið skal hann stökkva
sjö sinnum nokkuru af blóðinu með fingri sínum. 15 Þessu næst skal
hann slátra hafrinum, er ætlaður er lýðnum til syndafórnar, og bera
blóð hans inn fyrir fortjaldið og fara með blóðið úr honum á sama
hátt, eins og hann fór með blóðið úr uxanum, og stökkva því á lokið
og fyrir framan lokið, 16 og friðþægja þannig fyrir helgidóminn, vegna
óhreinleika Ísraelsmanna og vegna misgjörða þeirra, í hverju sem þeir
kunna að hafa syndgað; og eins skal hann fara með samfundatjaldið,
sem stendur meðal þeirra, mitt í óhreinleika þeirra. 17 Og enginn mað-
ur má vera inni í samfundatjaldinu, er hann gengur inn til þess að
friðþægja í helgidóminum, til þess er hann fer út og hefir friðþægt fyrir
sig og hús sitt og fyrir allan Ísraels söfnuð. 18 Og hann skal ganga út
að altarinu, sem stendur frammi fyrir Jahve, og friðþægja fyrir það;
og hann skal taka nokkuð af blóði uxans og nokkuð af blóði hafurs-
ins og ríða á horn altarisins alt í kring. 19 Og hann skal stökkva nokkuru
af blóðinu á það sjö sinnum með fingri sínum og hreinsa það og helga

---

**16, 1:** kap. 10, 1 n. **2:** Hebr. 9, 7. **6:** Hebr. 7, 27. **12:** 2 Mós. 30, 34. 35. **13:** Opinb. 5, 8. **14:** Hebr. 9, 13; 10, 4. **17:** Hebr. 9, 7.

það, vegna óhreinleika Ísraelsmanna. 20 Og er hann þannig hefir lokið
friðþæging helgidómsins, samfundatjaldsins og altarisins, skal hann leiða
fram lifandi hafurinn. 21 Og Aron skal leggja báðar hendur sínar á
höfuð hins lifandi hafurs og játa yfir honum öll afbrot Ísraelsmanna
og allar misgjörðir þeirra, í hverju sem þeir kunna að hafa syndgað;
og hann skal leggja þær á höfuð hafursins og senda hann út á eyði-
mörk með manni, sem til þess er ferðbúinn. 22 Og hafurinn skal bera
á sér öll afbrot þeirra til óbygða, og hann skal sleppa hafrinum á eyði-
mörku. 23 Og Aron skal ganga inn í samfundatjaldið og færa sig úr
línklæðunum, sem hann fór í, er hann gekk inn í helgidóminn, og
skilja þau þar eftir. 24 Og hann skal lauga líkama sinn í vatni á helg-
um stað og fara í klæði sín, ganga síðan út og fórna brennifórn sjálfs
sín og brennifórn lýðsins, og friðþægja fyrir sig og fyrir lýðinn. 25 Og
mör syndafórnarinnar skal hann brenna á altarinu. 26 Og sá, er fór
burt með hafurinn til Asasels, skal þvo klæði sín og lauga líkama sinn
í vatni; síðan gangi hann í herbúðirnar. 27 En syndafórnar-uxann og
syndafórnar-hafurinn, hverra blóð var borið inn til friðþægingar í helgi-
dóminum, skal færa út fyrir herbúðirnar og brenna í eldi skinnin af
þeim, kjötið og gorið. 28 Og sá, er brennir þetta, skal þvo klæði sín
og lauga líkama sinn í vatni; síðan gangi hann í herbúðirnar.
29 Og þetta skal vera yður ævarandi lögmál: Í sjöunda mánuðinum,
á tíunda degi mánaðarins skuluð þér þjá yður* og ekkert verk vinna,
hvorki innbornir menn né útlendingar, er meðal yðar búa. 30 Því að á
þessum degi skal friðþægt verða fyrir yður, til þess að hreinsa yður;
af öllum syndum yðar skuluð þér hreinir vera fyrir Jahve. 31 Það skal
vera yður algjör hvíldardagur og þér skuluð þjá yður; það er ævar-
andi lögmál. 32 En friðþæginguna skal gjöra sá prestur, er smyrja á og
vígjast skal, til þess að hann þjóni í prestsembætti í stað föður síns;
og skal hann klæðast línklæðunum, hinum helgu klæðum. 33 Og hann
skal friðþægja fyrir hið helgasta; og hann skal friðþægja fyrir sam-
fundatjaldið og altarið; og hann skal friðþægja fyrir prestana og alt
fólk safnaðarins. 34 Og þetta skal vera yður ævarandi lögmál: að frið-
þægja einu sinni á ári fyrir Ísraelsmenn, vegna allra synda þeirra. Og
hann gjörði svo sem Jahve hafði boðið Móse.

### Hvar fórna skuli. Bannað að neyta blóðs.

17 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú við Aron og
sonu hans og alla Ísraelsmenn og seg við þá: Þetta er það, sem
Jahve hefir boðið og sagt: 3 Hver sá af húsi Ísraels, sem slátrar naut-
grip eða sauðkind eða geitsauð í herbúðunum, eða slátrar því fyrir ut-
an herbúðirnar, 4 og leiðir það ekki að dyrum samfundatjaldsins, til
þess að færa Jahve það að fórnargjöf fyrir framan búð Jahve, sá mað-
ur skal vera blóðsekur; hann hefir út helt blóði, og sá maður skal
upprættur verða úr þjóð sinni, 5 til þess að Ísraelsmenn færi sláturfórnir
sínar, er þeir eru vanir að fórna á bersvæði, — að þeir færi þær prest-
inum að dyrum samfundatjaldsins Jahve til handa, og fórni þeim í
heillafórnir Jahve til handa. 6 Og prestur skal stökkva blóðinu á altari
Jahve við dyr samfundatjaldsins og brenna mörinn til þægilegs ilms
fyrir Jahve. 7 Og þeir skulu eigi framar færa fórnir skógartröllunum,
er þeir nú taka fram hjá með. Þetta skal vera þeim ævarandi lögmál
frá kyni til kyns.

---

**27:** kap. 4, 11 n. 6, 30; 8, 17. Esek. 43, 21. Hebr. 13, 11 n. **29:** kap. 23, 27. 4 Mós. 29, 7. * Þ. e. fasta, sbr. Sálm. 35, 13. Jes. 58, 3. 5. **31:** kap. 23, 32. — **17, 7:** 2 Mós. 34, 15. 3 Mós. 20, 5. 6.

8 Og þú skalt segja við þá: Hver sá af húsi Ísraels eða af útlend-
um mönnum, er búa meðal þeirra, sem fórnar brennifórn eða slátur-
fórn 9 og færir hana ekki að dyrum samfundatjaldsins, til þess að fórna
Jahve henni, sá maður skal upprættur verða úr þjóð sinni.
10 Og hver sá af húsi Ísraels og af útlendum mönnum, er búa
meðal þeirra, sem neytir nokkurs blóðs, — gegn þeim manni, sem
neytir blóðs, vil eg snúa augliti mínu og uppræta hann úr þjóð sinni.
11 Því að líf líkamans er í blóðinu, og eg hefi gefið yður það á altarið,
til þess að með því sé friðþægt fyrir yður; því að blóðið friðþægir með
lífinu. 12 Fyrir því hefi eg sagt við Ísraelsmenn: Enginn maður meðal
yðar skal blóðs neyta, né heldur skal nokkur útlendingur, er býr með-
al yðar, neyta blóðs. 13 Og hver sá Ísraelsmanna og þeirra manna út-
lendra, er meðal yðar búa, sem veiðir villidýr eða fugl ætan, hann
skal hella niður blóðinu og hylja það moldu. 14 Því að svo er um líf
alls holds, að saman fer blóð og líf, og fyrir því hefi eg sagt við Ísra-
elsmenn: Þér skuluð ekki neyta blóðs úr nokkuru holdi, því að líf
sérhvers holds, það er blóð þess; — hver sá, er þess neytir, skal upp-
rættur verða.
15 Og hver sá, er etur sjálfdauða skepnu eða dýrrifna, hvort heldur
er innborinn maður eða útlendur, skal þvo klæði sín og lauga sig í
vatni og vera óhreinn til kvelds; þá er hann hreinn. 16 En þvoi hann
þau ekki og laugi ekki hold sitt, þá bakar hann sér sekt.

## Um hjónaband og skírlífi.

18 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú við Ísraelsmenn
og seg við þá: Eg er Jahve, Guð yðar. 3 Þér skuluð ekki gjöra
að háttum Egiptalands, þar sem þér bjugguð, og þér skuluð ekki gjöra
að háttum Kanaanlands, er eg mun leiða yður inn í, né heldur skuluð
þér breyta eftir setningum þeirra. 4 Lög mín skuluð þér halda og setn-
ingar mínar skuluð þér varðveita, svo að þér breytið eftir þeim; eg er
Jahve, Guð yðar. 5 Þér skuluð því varðveita setningar mínar og lög;
sá, sem breytir eftir þeim, skal lifa fyrir þau; eg er Jahve.
6 Enginn yðar skal koma nærri nokkuru nánu skyldmenni til þess
að bera blygðan þeirra; eg er Jahve. 7 Þú skalt eigi bera blygðan föður
þíns og blygðan móður þinnar; hún er móðir þín, þú skalt eigi bera blygð-
an hennar. 8 Þú skalt eigi bera blygðan konu föður þíns; það er blygðan
föður þíns. 9 Blygðan systur þinnar, dóttur föður þíns eða dóttur móður
þinnar, hvort heldur hún er fædd heima eða utan heimilis, — blygðan
þeirra skalt þú eigi bera. 10 Blygðan sonardóttur þinnar eða dótturdóttur,
blygðan þeirra skalt þú eigi bera, því að það er þín blygðan. 11 Blygð-
an dóttur konu föður þíns, afkvæmis föður þíns — hún er systir þín —,
blygðan hennar skalt þú eigi bera. 12 Eigi skalt þú bera blygðan föð-
ursystur þinnar; hún er náið skyldmenni föður þíns. 13 Eigi skalt þú
bera blygðan móðursystur þinnar, því að hún er náið skyldmenni
móður þinnar. 14 Eigi skalt þú bera blygðan föðurbróður þíns, eigi
koma nærri konu hans, því að hún er sifkona þín. 15 Eigi skalt þú
bera blygðan tengdadóttur þinnar; hún er kona sonar þíns; eigi skalt
þú bera blygðan hennar. 16 Eigi skalt þú bera blygðan konu bróður
þíns; það er blygðan bróður þíns. 17 Eigi skalt þú bera blygðan konu

---

**9**: 5 Mós. 12, 5 n. 13 n. **10**: kap. 3, 17. **11**: 1 Mós. 9, 4. 5 Mós. 12, 23. Hebr. 9, 22. **14**: 1 Mós. 9, 4. 3 Mós. 3, 17; 7, 27. **15**: kap. 11, 40. — **18, 5**: Nehem. 9, 29. Esek. 20, 11. Róm. 10, 5. **7**: 1 Mós. 2, 24; 19, 33. Esek. 22, 10. **8**: kap. 20, 11. 1 Mós. 35, 22. 5. Mós. 22, 30; 27, 20. 2 Sam. 16, 22. 1 Kor. 5, 1. **9**: kap. 20, 17. 2 Sam. 13, 14. Esek. 22, 11. **14**: kap. 20, 20. **15**: 1 Mós. 38, 18. Esek. 22, 11. **16**: kap. 20, 21. Mark. 6, 18.

og dóttur hennar; sonardóttur hennar eða dótturdóttur skalt þú eigi
taka, til þess að bera blygðan þeirra; þær eru náin skyldmenni; það
er óhæfa. 18 Né heldur skalt þú taka konu auk systur hennar, henni
til eljurígs, með því að bera blygðan hennar auk hinnar, meðan hún
er á lífi.
19 Og eigi skalt þú koma nærri konu til að bera blygðan hennar,
þá er hún er saurug af klæðaföllum. 20 Þú skalt og eigi hafa holdlegt
samræði við konu náunga þíns, svo að þú saurgist af. 21 Og eigi skalt
þú gefa nokkurt afkvæmi þitt til þess, að það sé helgað Mólok, svo að
þú vanhelgir eigi nafn Guðs þíns; eg er Jahve. 22 Og eigi skalt þú
leggjast með karlmanni sem kona væri; það er viðurstygð. 23 Þú skalt
og ekki eiga samlag við nokkura skepnu, svo að þú saurgist af. Né
heldur skal kona standa fyrir skepnu til samræðis við hana; það er
svívirðing.
24 Saurgið yður ekki með nokkuru þvílíku, því að með öllu þessu
hafa heiðingjarnir saurgað sig, sem eg mun reka á burt undan yður.
25 Og landið saurgaðist, og fyrir því vitjaði eg misgjörðar þess á því,
og landið spjó íbúum sínum. 26 Varðveitið því setningar mínar og lög,
og fremjið enga af þessum viðurstygðum, hvorki innborinn maður né
útlendingur, er býr meðal yðar. 27 Því að allar þessar viðurstygðir hafa
landsbúar, er fyrir yður voru, framið og landið saurgaðist; 28 svo að
landið spúi yður ekki, er þér saurgið það, eins og það spjó þeirri þjóð,
er fyrir yður var. 29 Því að hver sá, er fremur einhverja af þessum
viðurstygðum, — þær sálir, sem það gjöra, skulu upprættar verða úr
þjóð sinni. 30 Varðveitið því boðorð mín, svo að þér fylgið eigi nein-
um af þeim andstyggilegu venjum, er hafðar voru í frammi fyrir yðar
tíð, og saurgið yður ekki með því; eg er Jahve, Guð yðar.

## Ákvæði ýmislegs efnis.

19 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú til alls safnaðar
Ísraelsmanna og seg við þá: Þér skuluð vera heilagir, því að eg
Jahve, Guð yðar, er heilagur. 3 Þér skuluð hver og einn óttast móður
sína og föður sinn, og þér skuluð halda hvíldardaga mína; eg er Jahve,
Guð yðar. 4 Snúið yður eigi til falsguða og gjörið yður eigi steypta
guði; eg er Jahve, Guð yðar. 5 Og er þér slátrið heillafórn Jahve til
handa, þá slátrið henni þannig, að hún afli yður velþóknunar. 6 Skal
eta hana daginn, sem þér fórnið henni, og daginn eftir; en það, sem
leift er til þriðja dags, skal brenna í eldi. 7 En sé þó etið af því á
þriðja degi, þá skal það talið skemt kjöt; það mun eigi verða vel-
þóknanlegt. 8 Og hver, sem etur það, bakar sér sekt, því að hann
hefir vanhelgað það, sem helgað er Jahve, og sá maður skal upprættur
verða úr þjóð sinni.
9 Og er þér skerið upp jarðargróður yðar, þá skalt þú eigi skera
akur þinn út í hvert horn, né heldur skalt þú tína eftirtíning uppskeru
þinnar. 10 Og eigi skalt þú gjörtína víngarð þinn, né heldur tína upp
niður fallin ber í víngarði þínum; þú skalt skilja það eftir handa fá-
tækum og útlendingum; eg er Jahve, Guð yðar.
11 Þér skuluð eigi stela, eigi svíkja, né heldur ljúga hver að öðr-

---

**17**: kap. 20, 14. **19**: kap. 20, 18. **20**: kap. 20, 10. 2 Sam. 11, 4; 12, 9, **21**: kap. 20, 2. 5 Mós. 18, 10. 2 Kong. 23, 10. Jer. 7, 31; 32, 35. **22**: kap. 20, 13. Róm. 1, 27. 1 Kor. 6, 9. **23**: kap. 20, 15 n. 2 Mós. 22, 18. 5 Mós. 27, 21. **30**: kap. 19, 37; 20, 8. 22. — **19, 2**: kap. 11, 44. 45. **3**: 2 Mós. 20, 12; 20, 8 n. 31, 13. **4**: 2 Mós. 20. 3—5. 23. **5**: kap. 7, 11 n. **9**: kap. 23, 22. 5 Mós. 24, 19 n. Rut 2, 2 n. **11**: 2 Mós. 20, 15. 16. Ef. 4, 25. 28. Kól. 3, 9. 1 Þess. 4, 6.

um. 12 Og þér skuluð eigi sverja ranglega við nafn mitt, svo að þú
vanhelgir nafn guðs þíns; eg er Jahve. 13 Þú skalt eigi beita náunga
þinn ofríki, né ræna hann; og kaup daglaunamanns skal eigi vera hjá
þér náttlangt til morguns. 14 Þú skalt ekki bölva daufum manni, né
leggja fótakefli fyrir blindan mann, heldur skalt þú óttast Guð þinn;
eg er Jahve.

15 Eigi skuluð þér ranglæti fremja í dómi; þú skalt eigi draga
taum lítilmagnans, né heldur vera hliðdrægur hinum volduga; með
réttvísi skalt þú dæma náunga þinn. 16 Þú skalt eigi ganga um sem
rógberi meðal fólks þíns og eigi krefjast blóðs náunga þíns; eg er Jahve.
17 Þú skalt ekki hata bróður þinn í hjarta þínu; einarðlega skalt þú
ávíta náunga þinn, að þú eigi bakir þér synd hans vegna. 18 Eigi
skalt þú hefnisamur vera né langrækinn við samlanda þína; en þú
skalt elska náunga þinn eins og sjálfan þig; eg er Jahve.

19 Þér skuluð varðveita setningar mínar. Þú skalt eigi láta tvær
tegundir fénaðar þíns eiga samlag; þú skalt eigi sá akur þinn tvenns
konar sæði og eigi skalt þú bera klæði, sem ofin eru af tvenns
konar efni.

20 Nú hefir einhver holdlegt samræði við konu og sé hún ambátt
manni föstnuð, en hvorki leysingi né frelsingi, þá liggur refsing við;
eigi skal lífláta þau, fyrir því að hún var eigi frelsingi. 21 En hann
skal færa Jahve sektarfórn sína að dyrum samfundatjaldsins, hrút í
sektarfórn. 22 Og presturinn skal friðþægja fyrir hann með sektarfórnar-
hrútnum frammi fyrir Jahve vegna syndar hans, sem hann hefir drýgt;
og honum mun fyrirgefin verða synd hans, sem hann hefir drýgt.

23 Og er þér komið inn í landið og gróðursetjið alls konar aldin-
tré, þá skuluð þér telja aldinin á þeim sem yfirhúð þeirra; þrjú ár
skuluð þér halda þau fyrir óumskorin; eigi skal neyta þeirra. 24 Fjórða
árið skulu öll aldin þeirra vera helguð Jahve til lofgjörðar. 25 En
fimta árið skuluð þér eta aldin þeirra, svo að þau veiti yður þess
meiri arð; eg er Jahve, Guð yðar.

26 Þér skuluð ekkert með blóði eta. Þér skuluð eigi fara með
spár né fjökyngi. 27 Þér skuluð eigi kringluskera höfuð yðar, né heldur
skalt þú skerða skeggrönd þína. 28 Og þér skuluð eigi skera skurði í
hold yðar fyrir sakir dauðs manns, né heldur gjöra hörundsflúr á
yður; eg er Jahve. 29 Vanhelga eigi dóttur þína með því, að halda
henni til saurlifnaðar, að eigi drýgi landið hór og landið fyllist óhæfu.

30 Þér skuluð halda hvíldardaga mína og bera lotningu fyrir helgi-
dómi mínum; eg er Jahve. 31 Leitið eigi til særingaranda né spásagn-
aranda; farið eigi til frétta við þá, svo að þér saurgist ekki af þeim;
eg er Jahve, Guð yðar.

32 Þú skalt standa upp fyrir hinum gráhærða og heiðra gamal-
mennið, og þú skalt óttast Guð þinn; eg er Jahve. 33 Og ef útlendur
maður býr hjá þér í landi yðar, þá skuluð þér eigi sýna honum ó-
jöfnuð. 34 Útlendan mann, sem hjá yður býr, skuluð þér svo með fara
sem innborinn mann meðal yðar, og þú skalt elska hann eins og sjálfan
þig, því að þér voruð útlendingar í Egiptalandi; eg er Jahve, Guð yðar.
35 Eigi skuluð þér ranglæti fremja í dómi, stiku, vigt og mæli. 36 Þér
skuluð hafa réttar vogir, rétta vogarsteina, rétta efu og rétta hín; eg er

---

**12:** 2 Mós. 20, 7. **13:** 5 Mós. 24, 14 n. Jer. 22, 13. Jak. 5, 4. **14:** 5 Mós. 27, 18. **15:** 2 Mós. 23, 3. 5 Mós. 1, 17; 16, 19. Orðskv. 24, 23 n. **16:** Sálm. 15, 3; 50, 20. Jer. 9, 8. Esek. 22, 9. **17:** 1 Jóh. 2, 11; 3, 15. Matt. 18, 15. Lúk. 17, 3. **18:** Matt. 5, 43 n. 22, 39. Róm. 12, 19; 13, 9. Gal. 5, 14. **19:** 5 Mós. 22, 9. 11. **26:** kap. 3, 17, 5 Mós. 18, 10 n. 2 Kong. 21, 6 n. **28:** 5 Mós. 14, 1. **31:** kap. 20, 6. 27. 1 Sam. 28, 7 n. Jes. 8, 19. **32:** 1 Tím. 5, 1 n. **33:** 2 Mós. 22, 20; 23, 9.

Jahve, Guð yðar, sem leiddi yður út af Egiptalandi. [37] Og þér skuluð
varðveita allar setningar mínar og öll lög mín og halda þau; eg er
Jahve.

## Um hegningu fyrir ýmsar syndir.

**20** Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Og þú skalt segja við
Ísraelsmenn: Hver sá Ísraelsmanna, eða útlendra manna, er búa
í Ísrael, sem færir Mólok nokkurt afkvæmi sitt, skal líflátinn verða;
landslýður skal lemja hann grjóti. [3] Og eg vil snúa augliti mínu gegn
þeim manni og uppræta hann úr þjóð sinni, fyrir þá sök að hann
hefir fært Mólok afkvæmi sitt, til þess að saurga helgidóm minn og
vanhelga heilagt nafn mitt. [4] En ef landslýður hilmir yfir með slíkum
manni, er hann færir Mólok afkvæmi sitt, og líflætur hann ekki, [5] þá
vil eg snúa augliti mínu gegn slíkum manni og gegn ætt hans; og eg
mun uppræta hann og alla þá, er verða honum samsekir í því að
taka fram hjá með Mólok, úr þjóð þeirra. [6] Og sá sem leitar til sær-
ingaranda og spásagnaranda, til þess að taka fram hjá með þeim, —
gegn honum vil eg snúa augliti mínu og uppræta hann úr þjóð sinni.
[7] Og helgist og verið heilagir, því að eg er Jahve, Guð yðar. [8] Fyrir
því skuluð þér varðveita setningar mínar og halda þær; eg er Jahve,
sá er yður helgar. [9] Því að hver sá, sem bölvar föður sínum eða móður
sinni, skal líflátinn verða; föður sínum eða móður sinni hefir hann
bölvað; blóðsök hvílir á honum. [10] Og þá er einhver drýgir hór með
konu annars manns, drýgir hór með konu náunga síns, þá skal líflát-
inn verða bæði hórkarlinn og hórkonan. [11] Og leggist maður með
konu föður síns, þá hefir hann berað blygðan föður síns; þau skulu
bæði líflátin verða, blóðsök hvílir á þeim. [12] Og leggist maður með
tengdadóttur sinni, þá skulu þau bæði líflátin verða; svívirðing hafa
þau framið, blóðsök hvílir á þeim. [13] Og leggist maður með karlmanni
sem kona væri, þá fremja þeir báðir viðurstygð; þeir skulu líflátnir
verða; blóðsök hvílir á þeim. [14] Og taki maður bæði konu og móður
hennar, þá er það óhæfa; skal brenna hann í eldi ásamt þeim, svo að
eigi gangist við óhæfa meðal yðar. [15] Og eigi maður samlag við skepnu,
þá skal hann líflátinn verða, og skepnuna skuluð þér drepa. [16] Og ef
kona kemur nærri einhverri skepnu til samræðis við hana, þá skalt
þú deyða konuna og skepnuna; þau skulu líflátin verða, blóðsök hvílir
á þeim. [17] Nú tekur einhver systur sína, dóttur föður síns eða dóttur
móður sinnar, og sér blygðan hennar og hún sér blygðan hans, þá er
það skömm; þau skulu upprætt verða í augsýn samlanda sinna; blygðan
systur sinnar hefir hann berað og bakað sér sekt. [18] Og leggist maður
með konu, sem hefir tíðir, og berar blygðan hennar — hefir beran
gjört brunn hennar og hún hefir sjálf berað brunn blóðs síns —, þá
skulu þau bæði upprætt verða úr þjóð sinni. [19] Eigi skalt þú bera
blygðan móðursystur þinnar eða föðursystur; því að sá maður hefir
bert gjört náið skyldmenni sitt; þau hafa bakað sér sekt. [20] Og ef
einhver legst með sifkonu sinni, þá hefir hann berað blygðan föður-
bróður síns; þau hafa bakað sér synd; barnlaus skulu þau deyja.

---

**36:** 5 Mós. 25, 13 n. Orðskv. 11, 1; 16, 11; 20, 10. Mík. 6, 10. 11. **37:** kap. 18, 30. — **20, 2:** kap. 18, 21. **6:** kap. 19, 31. 5 Mós. 18, 10 n. **7:** kap. 11, 44. 45; 19, 2. **8:** kap. 19, 37. **9:** 2 Mós. 21, 17. 5 Mós. 27, 16. Orðskv. 20, 20; 30, 17. **10:** kap. 18, 20. 2 Mós. 20, 14. 5 Mós. 22, 22. Matt. 5, 27. Jóh. 8, 5. **11:** kap. 18, 8, **12:** kap. 18, 15. **13:** kap. 18, 22. **14:** kap. 18, 17. **15:** kap. 18, 23. **17:** kap. 18, 9. 5 Mós. 27, 22. **18:** kap. 18, 19. **19:** kap. 18, 12. 13. **20:** kap. 18, 14.

21 Og ef einhver tekur konu bróður síns, þá er það saurgun; blygðan
bróður síns hefir hann berað; barnlaus skulu þau vera.
22 Varðveitið því allar setningar mínar og öll lög mín og haldið
þau, svo að landið, sem eg mun leiða yður inn í, til þess að þér byggið
það, spúi yður ekki. 23 Og þér skuluð ekki breyta eftir setningum þeirrar
þjóðar, sem eg rek burt undan yður, því að þeir frömdu alt þetta og
þess vegna bauð mér við þeim. 24 Fyrir því sagði eg yður: Þér skuluð
eignast land þeirra, og eg vil gefa yður það til eignar, land, sem flýtur
í mjólk og hunangi. Eg er Jahve, Guð yðar, sem hefi skilið yður frá
þjóðunum. 25 Gjörið því grein hreinna ferfætlinga og óhreinna, og ó-
hreinna fugla og hreinna, og gjörið yður eigi viðurstyggilega á skepnum,
fuglum né neinu, sem hrærist á jörðunni, því sem eg hefi greint frá, til
þess að það væri yður óhreint. 26 Og þér skuluð vera heilagir fyrir
mér, því að eg, Jahve, er heilagur, og hefi skilið yður frá þjóðunum,
til þess að þér skuluð vera mínir.
27 Og hafi maður eða kona særingaranda eða spásagnaranda, þá
skulu þau líflátin verða; skal lemja þau grjóti; blóðsök hvílir á þeim.

## Um presta.

21 Og Jahve sagði við Móse: Mæl þú til prestanna, sona Arons,
og seg við þá: Prestur skal eigi saurga sig á líki meðal fólks síns,
2 nema það sé skyldmenni hans, honum mjög náið: móðir hans, faðir
hans, sonur hans, dóttir hans, bróðir hans 3 eða systir hans, sem er
mey og honum nákomin, og eigi er manni gefin, — vegna hennar má
hann saurga sig. 4 Eigi skal hann saurga sig, þar eð hann er höfðingi
meðal fólks síns, svo að hann vanhelgi sig. 5 Eigi skulu þeir gjöra
skalla á höfði sér, eigi raka skeggrönd sína, né heldur skera skurði í
hold sitt. 6 Þeir skulu vera heilagir fyrir Guði sínum og ekki vanhelga
nafn Guðs síns; því að þeir bera fram eldfórnir Jahve, mat Guðs síns;
fyrir því skulu þeir vera heilagir. 7 Eigi skulu þeir ganga að eiga skækju
eða mey spjallaða, né heldur skulu þeir ganga að eiga konu, er maður
hennar hefir rekið frá sér; því að prestur er heilagur fyrir Guði sínum.
8 Fyrir því skalt þú halda hann heilagan, því að hann ber fram mat
Guðs þíns; hann skal vera þér heilagur, því að eg er heilagur, Jahve,
sá er yður helgar. 9 Og ef prestsdóttir vanhelgar sig með saurlífnaði,
þá vanhelgar hún föður sinn; hana skal brenna í eldi.
10 Og sá, sem er æðsti prestur meðal bræðra sinna og smurningar-
olíu hefir verið helt yfir höfuð honum og hönd hans fylt, að hann
klæðist hinum helgu klæðum, hann skal eigi láta hár sitt flaka og eigi
rífa sundur klæði sín. 11 Og eigi skal hann koma nærri nokkuru líki;
vegna föður síns og vegna móður sinnar skal hann eigi saurga sig. 12 Og
eigi skal hann ganga út úr helgidóminum, svo að hann vanhelgi ekki
helgidóm Guðs síns; því að vígsla smurningarolíu Guðs hans er á honum;
eg er Jahve. 13 Og hann skal ganga að eiga konu í meydómi hennar.
14 Ekkju eða konu brott rekna eða mey spjallaða, skækju — eigi skal
hann slíkum kvænast; heldur skal hann taka sér fyrir konu mey af þjóð
sinni; 15 eigi skal hann vanhelga afkvæmi sitt meðal fólks síns; því að
eg er Jahve, sá er helgar hann.
16 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 17 Mæl þú til Arons og seg:

---

**21:** kap. 18, 16. **22:** kap. 19, 37; 18, 28. **24:** 2 Mós. 3, 8. 1 Kong. 8, 53. **25:** kap. 11, 2 n. **26:** kap. 11, 44 n. 2 Mós. 19, 5. **27:** kap. 20, 6. — **21, 1:** Esek. 44, 25. **5:** kap. 19, 27 n. Esek. 44, 20. **7:** Esek. 44, 22. **8:** kap. 19, 2. **10:** 2 Mós. 28, 41. 3 Mós. 8, 12; 10, 6. **12:** kap. 10, 7. 4 Mós. 6, 7. **14:** kap. 21, 7.

Hafi einhver niðja þinna, nú eða í komandi kynslóðum, lýti á sér, þá
skal hann eigi ganga fram til þess að bera fram mat Guðs síns. [18] Því
að enginn sá, er lýti hefir á sér, skal ganga fram, sé hann blindur eða
haltur eða örkumlaður í andliti eða hafi ofskapaðan lim, [19] eða sé hann
fótbrotinn eða handleggsbrotinn, [20] eða hafi hann herðakistil eða sé
dvergvaxinn* eða hafi vagl á auga eða kláða eða útbrot eða eistnamar.
[21] Enginn af niðjum Arons prests, sem lýti hefir á sér, skal koma fram
til þess að bera fram eldfórnir Jahve; lýti er á honum; eigi skal hann
koma fram til þess að bera fram mat Guðs síns. [22] Mat Guðs síns, bæði
af því, sem háheilagt er og heilagt, má hann eta. [23] En þó skal hann
hvorki ganga inn að fortjaldinu né koma nærri altarinu, því að lýti er
á honum, að hann eigi vanhelgi helga dóma mína; því að eg er Jahve,
sá er helgar þá. [24] Þannig talaði Móse við Aron og sonu hans og við
alla Ísraelsmenn.

## Um helgigjafirnar.

22 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Seg þú Aroni og sonum
hans að þeir skuli halda sér frá helgigjöfum Ísraelsmanna, þeim
er þeir helga mér, svo að þeir vanhelgi eigi heilagt nafn mitt; eg er
Jahve. [3] Seg við þá: Hver sá af niðjum yðar, nú og í komandi kyn-
slóðum, er kemur nærri helgigjöfum þeim, er Ísraelsmenn helga Jahve,
meðan hann er óhreinn, skal upprættur verða frá augliti mínu; eg er
Jahve. [4] Eigi skal neinn sá af niðjum Arons, sem líkþrár er eða hefir
rensli, eta af helgigjöfunum, unz hann er hreinn. Og sá, er snertir
einhvern þann, sem saurgaður er af líki, eða mann sem hefir sáðlát,
[5] eða sá, sem snert hefir eitthvert skriðkvikindi og saurgast af því eða
mann og saurgast af honum, hverrar tegundar sem óhreinleiki hans
er, — [6] sá er snert hefir slíkt, skal vera óhreinn til kvelds; og eigi skal
hann eta af helgigjöfunum, nema hann laugi líkama sinn í vatni. [7] En
jafnskjótt og sól er sezt, er hann hreinn; og síðan eti hann af helgi-
gjöfunum, því að það er matur hans. [8] Sjálfdauða skepnu eða dýr-
rifna skal hann eigi eta, svo að hann saurgist af; eg er Jahve. [9] Þeir
skulu því varðveita boðorð mín, svo að þeir baki sér eigi synd fyrir
slíkt og deyi vegna þess, fyrir því að þeir vanhelguðu það; eg er Jahve,
sá er helgar þá. [10] Og enginn annarlegur* skal eta helgan dóm; hvorki
hjábýlingur prests né kaupamaður skal eta helgan dóm. [11] En kaupi
prestur þræl verði, þá skal hann eta af því, svo og sá, er fæddur er í
húsi hans, — þeir skulu eta af mat hans. [12] Og eigi skal prestsdóttir,
sé hún leikmanni gefin, eta af lyftifórn helgigjafanna. [13] En sé dóttir
prests ekkja eða kona brott rekin og eigi ekki barna og sé horfin aftur
í hús föður síns, eins og í æsku hennar, skal hún eta af mat föður
síns; en enginn annarlegur skal eta af honum. [14] Nú etur einhver af
vangá helgan dóm, og skal hann þá færa presti hinn helga dóm og
greiða fimtung um fram. [15] Og þeir skulu eigi vanhelga helgigjafir Ísra-
elsmanna, það er þeir færa Jahve í lyftifórn, [16] svo að þeir baki þeim
eigi sekt með misgjörð sinni, er þeir eta helgigjafir þeirra, því að eg er
Jahve, sá er helgar þá.

## Um fórnardýrin.

[17] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [18] Mæl þú til Arons og sona
hans og allra Ísraelsmanna og seg við þá: Þá er einhver af húsi Ísra-

---

17: 1 Tím. 3, 2. Tít. 1, 6. 7. 20: * Eða: tærður. — 22, 8: Esek. 44, 31. 10: * Þ. e.
sem eigi heyrir skylduliði prests. 14: kap. 5, 16.

els eða útlendum mönnum í Ísrael ber fram fórnargjöf sína — hvort
sem það er einhver heitfórn þeirra eða sjálfviljafórn, sem þeir færa
Jahve að brennifórn —, 19 þá skuluð þér bera hana svo fram, að hún
afli yður velþóknunar: gallalausa, karlkyns, af nautum, sauðum eða
geitum. 20 Eigi skuluð þér bera fram neitt það, er lýti hefir á sér, því
að það mun eigi afla yður velþóknunar. 21 Nú vill einhver fórna Jahve
heillafórn af nautum eða sauðfénaði, hvort heldur er til að efna heit
sitt eða í sjálfviljafórn, þá skal það vera gallalaust, til þess að það afli
honum velþóknunar; ekkert lýti sé á því. 22 Það sem blint er eða bein-
brotið eða sært eða með kýlum eða kláða eða útbrotum, — það skul-
uð þér eigi færa Jahve, og eigi skuluð þér bera Jahve eldfórn af því á
altarið. 23 En nautkind eða sauðkind, sem hefir lim ofskapaðan eða
vanskapaðan, mátt þú fórna í sjálfviljafórn, en sem heitfórn mun hún
eigi verða þóknanleg. 24 Það, sem vanað er með kramningu, marningu,
sliti eða skurði, skuluð þér eigi færa Jahve; og þér skuluð eigi slíkt
gjöra í landi yðar. 25 Né heldur skuluð þér fá neitt af þessu hjá út-
lendum manni og bera það fram svo sem mat Guðs yðar, því að skemd
er á því; lýti er á því, það mun eigi afla yður velþóknunar.
26 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 27 Þá er kálfur, lamb eða
kið fæðist, skal það ganga sjö daga undir móðurinni, en átta daga gam-
alt og þaðan af eldra mun það verða þóknanlega meðtekið sem eld-
fórnargjöf Jahve til handa. 28 Og þér skuluð eigi slátra kú eða á sama
daginn og afkvæmi hennar. 29 Og er þér fórnið Jahve þakkarfórn, þá
fórnið henni svo, að hún afli yður velþóknunar. 30 Skal hún etin sam-
dægurs; eigi skuluð þér leifa neitt af henni til morguns; eg er Jahve.
31 Varðveitið því skipanir mínar og haldið þær; eg er Jahve. 32 Og
eigi skuluð þér vanhelga heilagt nafn mitt, svo að eg helgist meðal
Ísraelsmanna; eg er Jahve, sá er yður helgar, 33 sá er leiddi yður út
af Egiptalandi, til þess að vera Guð yðar; eg er Jahve.

### Um hátíðir.

23 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Mæl þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Löghátíðir Jahve, er þér skuluð boða sem helgar
samkomur — þessar eru löghátíðir mínar. 3 Sex daga skal verk vinna,
en sjöunda daginn skal vera helgihvíld, helg samkoma; þér skuluð
ekkert verk vinna; það er hvíldardagur Jahve í öllum bústöðum yðar.
4 Þessar eru löghátíðir Jahve, helgar samkomur, er þér skuluð
boða, hverja á sínum tíma. 5 Í fyrsta mánuðinum, hinn fjórtánda dag
mánaðarins um sólsetur hefjast páskar Jahve. 6 Og fimtánda dag hins
sama mánaðar skal halda Jahve hátíð hinna ósýrðu brauða; sjö daga
skuluð þér eta ósýrt brauð. 7 Fyrsta daginn skuluð þér halda helga
samkomu; eigi skuluð þér þá vinna neina stritvinnu. 8 Og þér skuluð
færa Jahve eldfórn sjö daga; sjöunda daginn er helg samkoma; eigi
skuluð þér þá fást við neina stritvinnu.
9 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 10 Mæl þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Þá er þér komið í land það, sem eg mun gefa yður,
og þér skerið þar upp korn, skuluð þér færa presti fyrsta kornbundin-
ið af uppskeru yðar. 11 Og hann skal veifa kornbundininu frammi
fyrir Jahve, svo að það afli yður velþóknunar; daginn eftir hvíldar-
daginn skal presturinn veifa því. 12 Og þann dag, er þér veifið bund-

---

20: 5 Mós. 15, 21; 17, 1. Mal. 1, 8 n. 13 n. 27: 2 Mós. 22, 29. 30: kap. 7, 15; 19,
6—23, 3: 2 Mós. 20, 8 n. 5: 2 Mós. 12, 6. 18. 4 Mós 9, 2 n. 28, 16 n. 5 Mós. 16,
1 n. 6: 2 Mós. 12, 15; 13, 6; 23, 15.

ininu, skuluð þér fórna veturgamalli sauðkind gallalausri í brennifórn
Jahve til handa. 13 Og matfórnin með henni skal vera tveir tíundu-
partar úr efu af fínu mjöli, blönduðu við olíu, eldfórn þægilegs ilms
fyrir Jahve, og dreypifórnin fjórðungur úr hín af víni. 14 Og eigi skul-
uð þér eta brauð, bakað korn eða korn úr nýslegnum kornstöngum
alt til þess dags, alt til þess er þér hafið fært fórnargjöf Guði yðar.
Það skal vera yður ævarandi lögmál frá kyni til kyns í öllum bústöð-
um yðar.
15 Og þér skuluð telja frá næsta degi eftir hvíldardaginn, frá þeim
degi, er þér færið bundinið í veififórn, — sjö vikur fullar skulu það
vera; 16 til næsta dags eftir sjöunda hvíldardaginn skuluð þér telja fim-
tíu daga; þá skuluð þér færa Jahve nýja matfórn. 17 Frá bústöðum
yðar skuluð þér færa tvö brauð til veififórnar; skulu þau vera gjörð
af tveim tíundu-pörtum úr efu af fínu mjöli; þau skulu vera bökuð
með súrdeigi — frumgróðafórn Jahve til handa. 18 Og ásamt brauðinu
skuluð þér fram bera sjö sauðkindur veturgamlar gallalausar, eitt ung-
neyti og tvo hrúta. Þau skulu vera brennifórn Jahve til handa ásamt
matfórn og dreypifórnum þeim, er til þeirra heyra, eldfórn þægilegs
ilms Jahve til handa. 19 Og þér skuluð fórna einum geithafri í synda-
fórn og tveim sauðkindum veturgömlum í heillafórn. 20 Og presturinn
skal veifa þeim með frumgróðabrauðinu að veififórn frammi fyrir Jahve
ásamt sauðkindunum tveimur; skal það vera Jahve helgað handa prest-
inum. 21 Þennan sama dag skuluð þér láta boð út ganga, þér skuluð
halda helga samkomu; þér skuluð eigi vinna neina stritvinnu; það er
ævarandi lögmál fyrir yður í öllum bústöðum yðar frá kyni til kyns.
22 Og er þér skerið upp jarðargróður yðar, þá skalt þú eigi skera akur
þinn út í hvert horn, né heldur skalt þú tína eftirtíning uppskeru þinnar;
þú skalt skilja það eftir handa fátækum og útlendingum; eg er Jahve,
Guð yðar.
23 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 24 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg: Í sjöunda mánuðinum, hinn fyrsta dag mánaðarins, skuluð þér
halda helgihvíld, minningardag með básúnublæstri, helga samkomu.
25 Þér skuluð eigi vinna neina stritvinnu og þér skuluð færa Jahve
eldfórn.
26 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 27 En tíunda dag þessa
hins sjöunda mánaðar er friðþægingardagurinn; skuluð þér þá halda
helga samkomu og þjá yður og færa Jahve eldfórn. 28 Og þennan sama
dag skuluð þér ekkert verk vinna, því að hann er friðþægingardagur,
til þess að friðþægja fyrir yður frammi fyrir Jahve, Guði yðar. 29 Því
að hver sá, er eigi þjáir sig þennan dag, skal upprættur verða úr þjóð
sinni. 30 Og hvern þann, er eitthvert verk vinnur þennan dag, hann
vil eg afmá úr þjóð hans. 31 Þér skuluð ekkert verk vinna; það er
ævarandi lögmál fyrir yður frá kyni til kyns í öllum bústöðum yðar.
32 Það skal vera yður helgihvíld og þér skuluð þjá yður; hinn níunda
dag mánaðarins að kveldi — frá aftni til aftans — skuluð þér halda
hvíldardag yðar.
33 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 34 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg: Á fimtánda degi þessa hins sjöunda mánaðar skal halda Jahve
laufskálahátíð sjö daga. 35 Fyrsta daginn skal vera helg samkoma; þá
skuluð þér eigi vinna neina stritvinnu. 36 Sjö daga skuluð þér færa
Jahve eldfórn; áttunda daginn skuluð þér halda helga samkomu og færa

---

**15:** 2 Mós. 23, 16. 5 Mós. 16, 9 n. **16:** 2 Mós. 34, 22. **22:** kap. 19, 9 n. **24:** 4 Mós. 29, 1 n. **27:** kap. 16, 29 n. 4 Mós. 29, 7 n. **34:** 2 Mós. 23, 16. 4 Mós. 29, 12 n. 5 Mós. 16, 13 n. Nehem. 8, 14 n. **36:** 2 Kron. 7, 8 n. Jóh. 7, 37.

Jahve eldfórn; það er hátíðafundur; þá skuluð þér eigi vinna neina
stritvinnu.
[37] Þetta eru lögháhtíðir Jahve, er þér skuluð boða sem helgar sam-
komur, til þess að færa Jahve eldfórn, brennifórn og matfórn, sláturfórn
fórn og dreypifórnir, hverja fórn á sínum degi, [38] auk hvíldardaga Jahve
og auk gjafa yðar og auk allra heitfórna yðar og auk allra sjálfvilja-
fórna yðar, er þér færið Jahve.
[39] En á fimtánda degi hins sjöunda mánaðar, er þér hafið hirt
gróður landsins, skuluð þér halda hátíð Jahve sjö daga; fyrsta daginn
skal vera helgihvíld og áttunda daginn skal vera helgihvíld. [40] Og fyrsta
daginn skuluð þér taka yður aldin af fögrum trjám, pálmviðargreinar
og lim af þéttlaufguðum trjám og lækjarpíl, og þér skuluð fagna frammi
fyrir Jahve, Guði yðar, í sjö daga. [41] Og þér skuluð halda hana helga
sem hátíð Jahve sjö daga á ári; það er ævarandi lögmál fyrir yður frá
kyni til kyns: í sjöunda mánuðinum skuluð þér halda hana. [42] Skuluð
þér búa í laufskálum sjö daga; allir innbornir menn í Ísrael skulu þá
búa í laufskálum, [43] svo að niðjar yðar viti, að eg lét Ísraelsmenn búa
í laufskálum, þá er eg leiddi þá út af Egiptalandi; eg er Jahve, Guð yðar.
[44] Og Móse sagði Ísraelsmönnum lögháhtíðir Jahve.

## Um ljósastikuna og skoðunarbrauðin.

24 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Bjóð þú Ísraelsmönn-
um að færa þér tæra olíu af steyttum olíuberjum til ljósastik-
unnar, svo að lampar verði ávalt settir upp. [3] Fyrir utan fortjald sátt-
málsins í samfundatjaldinu skal Aron tilreiða þá frá kveldi til morguns
frammi fyrir Jahve stöðuglega; það er ævarandi lögmál fyrir yður frá
kyni til kyns. [4] Hann skal raða lömpunum á gull-ljósastikuna frammi
fyrir Jahve stöðuglega.
[5] Og þú skalt taka fínt mjöl og baka úr því tólf kökur; skulu
vera tveir tíundu-partar úr efu í hverri köku. [6] Og þú skalt leggja
þær í tvær raðir — sex í hvora röð — á gullborðið frammi fyrir Jahve.
[7] Og þú skalt láta hjá hvorri röð hreina reykelsiskvoðu; og skal hún
vera sem ilmhluti af brauðinu, eldfórn Jahve til handa. [8] Á hverjum
hvíldardegi skal hann raða þessu frammi fyrir Jahve stöðuglega; er
það æfinlegur sáttmáli af hálfu Ísraelsmanna. [9] Skal Aron og synir
hans fá það og eta það á helgum stað, því að það heyrir honum
sem háhelgur hluti af eldfórnum Jahve eftir æfinlegu lögmáli.

## Um guðlast, morð og veittan áverka.

[10] Og sonur ísraelskrar konu gekk út meðal Ísraelsmanna, en
faðir hans var egipzkur; lenti þá sonur ísraelsku konunnar í deilu við
ísraelskan mann í herbúðunum. [11] Og sonur ísraelsku konunnar last-
mælti nafninu* og formælti; og þeir leiddu hann fyrir Móse. En móðir
hans hét Selómít Díbrísdóttir, af ættkvísl Dans. [12] Og þeir settu hann
í varðhald, til þess að þeim kæmi úrskurður fyrir munn Jahve. [13] Og
Jahve talaði við Móse og sagði: [14] Leið þú lastmælandann út fyrir
herbúðirnar, og allir þeir, er heyrt hafa, skulu leggja hendur sínar á
höfuð honum; og því næst skal allur söfnuðurinn grýta hann. [15] Og þú
skalt tala við Ísraelsmenn og segja: Hver sá, er formælir Guði sínum,
bakar sér synd. [16] Og sá er lastmælir nafni Jahve, skal líflátinn verða;

---

**40:** Nehem. 8, 14 n. — **24, 2:** 2 Mós. 27, 20 n. **5:** 2 Mós. 25, 30. **11:** * Sjá v. 16.
**12:** 4 Mós. 15, 34.

allur söfnuðurinn skal vægðarlaust grýta hann. Hvort heldur er út-
lendur maður eða innborinn — lastmæli hann nafninu, skal hann líf-
látinn. 17 Og ljósti einhver mann til bana, skal hann líflátinn verða.
18 Og sá, er lýstur skepnu til bana, skal bæta hana — líf fyrir líf. 19 Og
veiti maður náunga sínum áverka, þá skal honum gjört hið sama, sem
hann hefir gjört: 20 beinbrot fyrir beinbrot, auga fyrir auga, tönn fyrir
tönn; hinn sami áverki, er hann hefir veitt öðrum, skal honum veittur.
21 Og sá, er lýstur skepnu til bana, skal bæta hana; en sá, er lýstur
mann til bana, skal líflátinn. 22 Þér skuluð hafa ein lög, hvort heldur
útlendur maður eða innborinn á í hlut; því að eg er Jahve, Guð yðar.
23 Og Móse talaði við Ísraelsmenn, og þeir leiddu lastmælandann
út fyrir herbúðirnar og lömdu hann grjóti. Og Ísraelsmenn gjörðu svo
sem Jahve hafði boðið Móse.

### Um hvíldarár og fagnaðarár.

25 Og Jahve talaði við Móse á Sínaí-fjalli og sagði: 2 Tala þú til
Ísraelsmanna og seg við þá: Þegar þér komið í land það, sem
eg mun gefa yður, þá skal landið halda Jahve hvíld. 3 Sex ár skalt
þú sá akur þinn og sex ár skalt þú sniðla víngarð þinn og safna gróð-
anum. 4 En sjöunda árið skal vera helgihvíld fyrir landið, hvíldartími
Jahve til handa; akur þinn skalt þú ekki sá og víngarð þinn skalt þú
ekki sniðla. 5 Korn það, er vex sjálfsáið eftir uppskeru þína, skalt þú
eigi skera, og vínber óskorins vínviðar þíns skalt þú eigi lesa; það skal
vera hvíldarár fyrir landið. 6 Gróður landsins um hvíldartímann skal
vera yður til fæðu: þér, þræli þínum og ambátt, kaupamanni þínum
og útlendum búanda, er hjá þér dvelja. 7 Og fénaði þínum og villi-
dýrunum, sem í landi þínu eru, skal allur gróður þess vera til fæðu.
8 Og þú skalt telja sjö hvíldarár, sjö ár sjö sinnum, svo að tími
þeirra sjö hvíldarára verði fjörutíu og níu ár. 9 Og þá skaltu í sjöunda
mánuðinum, tíunda dag mánaðarins, láta hvellilúðurinn gjalla; frið-
þægingardaginn skuluð þér láta lúðurinn gjalla um gjörvalt land yðar,
10 og helga þannig hið fimtugasta árið og boða frelsi í landinu fyrir
alla íbúa þess. Það skal vera yður fagnaðarár; þá skuluð þér hverfa
aftur hver og einn til óðals síns, og þá skuluð þér hverfa aftur hver
og einn til ættar sinnar. 11 Fagnaðarár skal fimtugasta árið vera yður;
þér skuluð eigi sá og eigi upp skera það, sem vex sjálfsáið það ár, né
heldur skuluð þér þá lesa vínber af óskornum vínviðum. 12 Því að
það er fagnaðarár; það sé yður heilagt; skuluð þér eta af jörðunni það
er á henni sprettur.
13 Á þessu fagnaðarári skuluð þér hverfa aftur hver og einn til
óðals síns. 14 Þá er þú selur náunga þínum eitthvað eða þú kaupir
eitthvað af náunga þínum, þá skuluð þér eigi sýna hver öðrum ójöfn-
uð. 15 Eftir því, hve mörg ár eru liðin frá fagnaðarári, skalt þú kaupa
af náunga þínum; eftir því, hve uppskeruárin eru mörg, skal hann selja
þér. 16 Því fleiri sem árin eru, því hærra skalt þú setja verðið, og því
færri sem árin eru, því lægra skalt þú setja það; því að það er upp-
skerufjöldinn, sem hann selur þér. 17 Og þér skuluð eigi sýna hver
öðrum ójöfnuð, heldur skalt þú óttast Guð þinn; því að eg er Jahve,
Guð yðar. 18 Fyrir því skuluð þér halda setningar mínar og varðveita
lög mín og halda þau, svo að þér megið óhultir búa í landinu. 19 Þá
mun landið gefa gróður sinn og þér eta yður sadda og búa óhultir í

---

**16:** 2 Mós. 20, 7. — **17:** 2 Mós. 20, 13; 21, 12. 4 Mós. 35, 16 n. **20:** 2 Mós. 21, 23 n. Matt. 5, 38 n. **21:** 1 Mós. 9, 6. **22:** 2 Mós. 12, 49. — **25, 8:** 2 Mós. 23, 10 n. **9:** kap. 23, 24. 27. **10:** kap. 27, 24. **16:** v. 50—52. **17:** 1 Þess. 4, 6. **18:** 1 Kong. 4, 25. **19:** kap. 26, 5. Jes. 1, 19.

því. [20] Og ef þér segið: Hvað skulum vér eta sjöunda árið, þá er vér
sáum eigi og hirðum eigi gróður vorn? — [21] þá vil eg senda yður
blessun mína sjötta árið, og mun það leiða fram gróður til þriggja
ára. [22] Og áttunda árið skuluð þér sá og eta af ávextinum, gamla
forðanum; til hins níunda árs — til þess er gróður þess fæst, skuluð
þér eta gamla forðann. [23] Og landið skal eigi selt fyrir fult og alt, því
að landið er mín eign; því að þér eruð dvalarmenn og hjábýlingar hjá
mér. [24] Fyrir því skuluð þér í öllu eignarlandi yðar láta land falt til
lausnar. [25] Ef bróðir þinn gjörist snauður og hann selur nokkuð af
óðali sínu, þá skal lausnarmaður hans koma til, sá er það stendur
næst, og leysa það, er bróðir hans hefir selt. [26] Nú hefir einhver eng-
an lausnarmann, en er kominn svo í efni, að hann á fyrir lausnar-
gjaldinu, [27] þá skal hann telja árin frá því, er hann seldi; en það, sem
yfir hefir, skal hann endurgreiða manni þeim, er hann seldi; og hverf-
ur hann þá aftur til óðals síns. [28] En hafi hann ekki efni til að leysa,
þá skal það, er hann hefir selt, vera í höndum kaupanda til fagnaðar-
árs; en á fagnaðarárinu gengur það úr eigu hans, og hverfur hann þá
aftur til óðals síns.
[29] Nú selur einhver íbúðarhús í múrgirtri borg, og skal honum
heimilt að leysa það í heilt ár frá því, er hann seldi; lausnarréttur
hans skal vera tímabundinn. [30] En sé það ekki leyst áður en fult ár
er liðið, þá skal hús í múrgirtri borg verða full eign kaupanda og niðja
hans; það skal eigi ganga úr eigu hans fagnaðarárið. [31] En hús í þorp-
um, sem eigi eru múrgirt alt í kring, skulu talin með landi sveitarinn-
ar; þau skal jafnan heimilt að leysa, og þau skulu ganga úr eigu kaup-
anda á fagnaðarárinu. [32] En borgir Levítanna — húsin í eignarborg-
um þeirra skal Levítunum heimilt að leysa á hverjum tíma sem er.
[33] Og ef einhver af Levítunum leysir eigi, þá skal selt hús ganga úr
eigu kaupanda á fagnaðarárinu, sé það í eignarborg hans; því að húsin
í borgum Levítanna eru óðalseign þeirra meðal Ísraelsmanna. [34] En
landið, er liggur undir borgir þeirra, skal eigi selja, því að það er æfin-
leg eign þeirra.
[35] Ef bróðir þinn kemst í fátækt og verður ósjálfbjarga hjá þér,
þá skalt þú styðja hann sem dvalarmann og hjábýling, svo að hann
geti lifað hjá þér. [36] Þú skalt eigi taka fjárleigu af honum né auka-
gjald, heldur skalt þú óttast Guð þinn, svo að bróðir þinn geti lifað
hjá þér. [37] Þú skalt eigi ljá honum silfur þitt gegn leigu, né heldur
hjálpa honum um matvæli þín gegn aukagjaldi. [38] Eg er Jahve, Guð
yðar, sem leiddi yður út af Egiptalandi, til þess að gefa yður Kanaan-
land og vera Guð yðar.
[39] Og komist bróðir þinn í fátækt hjá þér og selur sig þér, þá
skalt þú ekki láta hann vinna þrælavinnu. [40] Sem kaupamaður, sem
hjábýlingur skal hann hjá þér vera; hann skal vinna hjá þér til fagn-
aðarárs. [41] En þá skal hann fara frá þér, og börn hans með honum, og
hverfa aftur til ættar sinnar; og hann skal hverfa aftur til óðals feðra
sinna. [42] Því að þeir eru þjónar mínir, sem eg hefi leitt út af Egipta-
landi; eigi skulu þeir seldir mansali. [43] Þú skalt eigi drotna yfir hon-
um með hörku, heldur skalt þú óttast Guð þinn. [44] Og viljir þú fá
þér þræla og ambáttir, þá skuluð þér kaupa þræla og ambáttir af
þjóðunum, sem umhverfis yður búa. [45] Svo og af börnum hjábýlinga,
er hjá yður dvelja, af þeim skuluð þér kaupa og af ættliði þeirra, sem

---

**23:** 1 Mós. 23, 4. 1 Kron. 29, 15. Sálm. 39, 13. **25:** Rut 4, 1 n. **27:** v. 50—52. **32:** 4 Mós. 35, 4. **34:** 4 Mós. 35, 4 n. **35:** 5 Mós. 15, 7 n. **36:** 2 Mós. 22, 25. 5 Mós. 23, 19 n. Sálm. 15, 5. Orðskv. 28, 8. **39:** 2 Mós. 21, 2 n. 5 Mós. 15, 12 n. **42:** v. 55. **43:** Ef. 6, 9.

hjá yður er og þeir hafa getið í landi yðar; og þau skulu verða eign
yðar. 46 Og þér skuluð láta þá ganga í arf til barna yðar eftir yður,
svo að þau verði eign þeirra; þér skuluð hafa þau að æfinlegum
þrælum. En yfir bræðrum yðar, Ísraelsmönnum, skuluð þér eigi
drotna með hörku, einn yfir öðrum.
47 Og komist dvalarmaður eða hjábýlingur í efni hjá þér, en
bróðir þinn kemst í fátækt hjá honum og selur sig dvalarmanni eða
hjábýlingi hjá þér eða afkomanda dvalarmanns ættar, 48 þá skal heimilt
að leysa hann eftir að hann hefir selt sig; heimilt skal einhverjum af
bræðrum hans að leysa hann, 49 eða föðurbróður hans eða bræðrungi
hans eða einhverjum náfrænda í ætt hans, eða komist hann sjálfur í
efni, þá er honum heimilt að leysa sig. 50 Og við þann, sem keypti
hann, skal hann reikna frá árinu, er hann seldi sig honum, til fagn-
aðarársins; og söluverðið skal fara eftir árafjöldanum; skal hann vera
hjá honum ákveðinn tíma, svo sem kaupamaður væri. 51 Ef enn eru
mörg ár eftir, þá skal hann að tiltölu við árafjöldann endurgreiða
lausnargjald sitt af fé því, er hann var keyptur fyrir; 52 en ef fá ár
eru eftir til fagnaðarárs, þá skal hann og reikna honum þau; eftir
áratölunni skal hann endurgreiða lausnargjald sitt. 53 Skal hann sæta
sömu kjörum hjá honum eins og sá, sem er kaupamaður ár eftir ár;
hann skal eigi drotna yfir honum með hörku að þér ásjáandi. 54 En
sé hann ekki leystur með þessum hætti, þá skal hann ganga úr eigu
kaupanda fagnaðarárið, hann og börn hans með honum. 55 Því að
Ísraelsmenn eru þjónar mínir; mínir þjónar eru þeir, sem eg hefi leitt
út af Egiptalandi; eg er Jahve, Guð yðar.

### Bönnuð skurðgoð. Boðið að halda hvíldardaginn. Blessun eða bölvun.

26 Þér skuluð eigi gjöra yður falsguði, né heldur reisa yður
skurðgoð eða merkissteina, og eigi setja upp myndasteina í landi
yðar, til þess að tilbiðja hjá þeim; því að eg er Jahve, Guð yðar.
2 Mína hvíldardaga skuluð þér halda og fyrir mínum helgidómi lotn-
ingu bera; eg er Jahve.
3 Ef þér breytið eftir mínum setningum og varðveitið mínar skip-
anir og haldið þær, 4 þá skal eg jafnan senda yður regn á réttum tíma
og landið mun gefa ávöxt sinn og trén á mörkinni bera aldin sín.
5 Skal þá ná saman hjá yður þresking og vínberjatekja, og vínberja-
tekja og sáning; og þér skuluð eta yður sadda af brauði og búa ör-
uggir í landi yðar. 6 Og eg vil gefa frið í landinu, og þér skuluð
leggjast til hvíldar og enginn skal hræða yður; óarga dýrum vil eg
eyða úr landinu og sverð skal ekki fara um land yðvart. 7 Og þér
skuluð elta óvini yðar og frammi fyrir yður skulu þeir fyrir sverði
hníga. 8 Og fimm af yður skulu elta hundað, og hundrað af yður
skulu elta tíu þúsundir, og óvinir yðar skulu frammi fyrir yður fyrir
sverði hníga. 9 Og eg vil snúa mér til yðar og gjöra yður frjósama
og margfalda yður, og eg vil gjöra sáttmála minn við yður. 10 Og
þér munuð eta fyrnt korn, gamlan forða, og þér munuð bera fyrnda
kornið út fyrir hinu nýja. 11 Og eg mun reisa búð mína meðal yðar
og sál mín skal ekki hafa óbeit á yður. 12 Og eg mun ganga meðal
yðar og vera Guð yðar, og þér skuluð vera mín þjóð. 13 Eg er Jahve,

---

**50:** v. 53. — **26, 1:** 2 Mós. 20, 3 n. Sálm. 81, 10. **2:** 2 Mós. 20, 8. 3 Mós. 19, 30. **3:** 5 Mós. 11, 13 n. 28, 1 n. **4:** Jer. 5, 24. **5:** kap. 25, 18. 19. **6:** Job 11, 19. Sálm. 4, 9. **8:** 5 Mós. 32, 30. 2 Kron. 14, 9. 12. **12:** 2 Kor. 6, 16.

Guð yðar, sem leiddi yður út af Egiptalandi, til þess að þér væruð eigi
þrælar þeirra; og eg braut sundur ok-stengur yðar og lét yður ganga
beina.
14 En ef þér hlýðið mér ekki og haldið ekki allar þessar skipanir,
15 og ef þér hafnið setningum mínum og sál yðar hefir óbeit á dómum
mínum, svo að þér haldið ekki allar skipanir mínar, en rjúfið sátt-
mála minn, 16 þá vil eg gjöra yður þetta: Eg vil vitja yðar með skelf-
ingu, tæringu og köldu, svo að augun slokna og lífið fjarar út. Og
þér skuluð sá sæði yðar til einskis, því að óvinir yðar skulu eta það.
17 Og eg vil snúa augliti mínu gegn yður og þér skuluð bíða ósigur
fyrir óvinum yðar; og fjandmenn yðar skulu drotna yfir yður og þér
skuluð flýja, þótt enginn elti yður.
18 En ef þér viljið þá enn ekki hlýða mér, þá vil eg enn refsa
yður sjö sinnum fyrir syndir yðar. 19 Og eg vil brjóta ofurdramb yðar;
og eg vil gjöra himininn yfir yður sem járn og land yðar sem eir.
20 Þá mun kraftur yðar eyðast til ónýtis; land yðar skal eigi gefa á-
vöxt sinn og trén á jörðunni eigi bera aldin sín.
21 Og ef þér gangið í gegn mér og viljið ekki hlýða mér, þá vil
eg enn slá yður sjö sinnum, eins og syndir yðar eru til. 22 Og eg vil
hleypa dýrum merkurinnar inn á meðal yðar og þau skulu gjöra yður
barnlausa, drepa fénað yðar og gjöra yður fámenna; og vegir yðar
skulu verða auðir.
23 Og ef þér skipist ekki við þessa tyftun mína, heldur gangið í
gegn mér, 24 þá vil eg einnig ganga gegn yður; þá vil eg einnig slá
yður sjö sinnum fyrir syndir yðar. 25 Og eg vil láta sverð koma yfir
yður, er hefna skal sáttmálans; munuð þér þá þyrpast inn í borgir
yðar, en eg vil senda drepsótt meðal yðar og þér skuluð seldir í óvina
hendur. 26 Þá er eg brýt staf brauðsins fyrir yður, munu tíu konur
baka yður brauð í einum ofni og færa yður brauðið aftur eftir vigt;
og þér munuð eta og ekki verða mettir.
27 Og ef þér hlýðið mér eigi þrátt fyrir þetta og gangið í gegn
mér, 28 þá vil eg einnig ganga í gegn yður með þungri reiði og refsa
yður sjö sinnum fyrir syndir yðar. 29 Og þér skuluð eta hold sona
yðar, og hold dætra yðar skuluð þér eta. 30 Og eg vil leggja fórnar-
hæðir yðar í eyði og kollvarpa sólsúlum yðar og kasta hræjum yðar
ofan á búkana af skurðgoðum yðar, og sálu minni mun bjóða við yð-
ur. 31 Og eg vil leggja borgir yðar í rústir og eyða helgidóma yðar
og ekki kenna þægilegan ilm af fórnum yðar. 32 Og eg vil eyða landið,
svo að óvinum yðar, sem í því búa, skal ofbjóða. 33 En yður vil eg
tvístra meðal þjóðanna og bregða sverði á eftir yður; og land yðar
skal verða auðn og borgir yðar rústir. 34 Þá skal landið fá hvíldarár
sín bætt upp alla þá stund, sem það er í eyði og þér eruð í landi ó-
vina yðar; þá skal landið hvílast og bæta upp hvíldarár sín. 35 Alla
þá stund, sem það er í eyði, skal það njóta hvíldar, þeirrar hvíldar,
sem það eigi naut á hvíldarárum yðar, er þér bjugguð í því. 36 Og
þá af yður, sem eftir verða, vil eg gjöra svo huglausa í löndum óvina
þeirra, að þyturinn af fjúkandi laufblaði skal reka þá á flótta og þeir
flýja eins og menn flýja undan sverði; og þeir skulu falla, þó að eng-
inn elti. 37 Og þeir skulu hrasa hver um annan, eins og flýja skyldi
undan sverði, þó að enginn elti; og þér skuluð eigi fá staðist fyrir ó-
vinum yðar. 38 Og þér skuluð farast meðal þjóðanna og land óvina

---

**13:** Esek. 34, 27. **14:** 5 Mós. 28, 15 n. 30, 17 n. **19:** 5 Mós. 11, 17. **22:** Esek. 14, 15. **25:** Jes. 1, 20. **26:** Esek. 4, 16; 14, 13. Hós. 4, 10. **29:** 5 Mós. 28, 53. Jer. 19, 9. **30:** Esek. 6, 4 n. **33:** 5 Mós. 28, 64 n. Jer. 9, 16. **34:** kap. 25, 4. **35:** 2 Kron. 36, 21. **37:** 5 Mós. 32, 30. Jes. 30, 17.

yðar skal upp eta yður. 39 Og þeir af yður, sem eftir verða, skulu
fyrir sakir misgjörðar sinnar veslast upp í löndum óvina yðar, og þeir
skulu veslast upp sakir misgjörða feðra sinna, eins og þeir. 40 Þá
munu þeir játa misgjörð sína og misgjörð feðra sinna, er þeir frömdu
með því að rjúfa trygðir við mig, og hversu þeir hafa gengið í gegn
mér — 41 fyrir því gekk eg og í gegn þeim og flutti þá í land óvina
þeirra; já, þá mun óumskorið hjarta þeirra auðmýkja sig og þeir fá mis-
gjörð sína bætta upp. 42 Og þá vil eg minnast sáttmála míns við Jakob;
og sáttmála míns við Ísak og sáttmála míns við Abraham vil eg einn-
ig minnast; og landsins vil eg minnast. 43 Og landið skal verða yfir-
gefið af þeim og fá hvíldarár sín bætt upp, meðan það er í eyði og
þeir eru á brottu; og þeir skulu fá misgjörð sína bætta upp fyrir þá
sök og vegna þess, að þeir höfnuðu lögum mínum og sál þeirra hafði
óbeit á setningum mínum. 44 En jafnvel þá, er þeir eru í landi óvina
sinna, hafna eg þeim ekki og býður mér ekki við þeim, svo að eg vilji
aleyða þeim og rjúfa þannig sáttmála minn við þá; því að eg er Jahve,
Guð þeirra. 45 Og sökum þeirra vil eg minnast sáttmálans við forfeður
þeirra, er eg leiddi út af Egiptalandi í augsýn þjóðanna, til þess að
vera Guð þeirra; eg er Jahve.

46 Þetta eru setningar þær, ákvæði og lög, sem Jahve setti milli
sín og Ísraelsmanna á Sínaí-fjalli fyrir Móse.

## Um heitgjöld og tíundir.

27 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Ef maður gjörir heit og heitir Jahve mönnum
eftir mati þínu, 3 þá skalt þú meta karlmann frá tvítugsaldri til sex-
tugs á fimtíu sikla silfurs eftir helgidóms sikli. 4 En sé það kona, þá
skalt þú meta hana á þrjátíu sikla. 5 Og sé það frá fimm til tuttugu
ára að aldri, þá skalt þú meta pilt á tuttugu sikla, en stúlku á tíu
sikla. 6 Og sé það frá eins mánaðar til fimm ára að aldri, þá skalt
þú meta svein á fimm sikla silfurs, en mey skalt þú meta á þrjá sikla
silfurs. 7 Og sé það sextugt og þaðan af eldra, þá skalt þú, sé það
karlmaður, meta hann á fimtán sikla, en kvenmann á tíu sikla. 8 En
eigi hann ekki fyrir því, er þú metur, þá skal leiða hann fyrir prest
og prestur skal meta hann; eftir efnahag þess, er heitið gjörir, skal
prestur meta hann.

9 Og færi menn Jahve fórnargjöf af fénaði, þá skal alt það af
honum heilagt vera, sem Jahve er gefið. 10 Eigi má hafa kaup á því
eða skifta því, vænu fyrir rýrt eða rýru fyrir vænt. Nú eru skifti höfð
á skepnum og skulu þær vera heilagar, bæði sú, er látin er í skiftin,
og sú, er fyrir kemur. 11 En sé það einhver óhreinn fénaður, er eigi
má færa Jahve að fórnargjöf, þá skal leiða skepnuna fyrir prest. 12 Og
prestur skal meta hana, eftir því sem hún er væn eða rýr til, og skal
mat þitt, prestur, standa. 13 En vilji hann leysa hana, skal hann gjalda
fimtungi meira en þú metur.

14 Nú helgar maður Jahve hús sitt að helgigjöf, og skal þá prest-
ur virða það eftir því sem það er gott eða lélegt til; skal standa við
það, sem prestur metur. 15 En vilji sá, er hús sitt hefir helgað, leysa
það, skal hann gjalda fimtung um fram virðingarverð þitt, og er það
þá hans.

16 Og helgi maður Jahve nokkuð af óðalslandi sínu, þá skal mat
þitt fara eftir útsæðinu: kómer útsæðis af byggi á fimtíu sikla silfurs.

---

**40:** 5 Mós. 4, 30; 30, 2 n. Dan. 9, 4 n. **42:** 2 Mós. 2, 24. 2 Kong. 13, 23. Lúk. 1, 55. 72.

[17] Helgi hann land sitt frá fagnaðarári, þá skal standa við mat þitt.
[18] En helgi hann land sitt eftir fagnaðarár, þá skal prestur reikna honum verðið eftir árunum, sem eftir eru til fagnaðarárs, og skal þá dregið af mati þínu.
[19] En vilji sá, er helgað hefir land sitt, leysa það, skal hann gjalda fimtung um fram verð það, er þú metur, og skal hann þá halda því.
[20] En leysi hann eigi landið, en selur landið öðrum manni, skal eigi heimilt að leysa það framar;
[21] heldur skal landið, er það losnar á fagnaðarárinu, verða helgað Jahve, eins og bannfært land; skal það verða eign prests.
[22] Og helgi hann Jahve keypt land, sem eigi er af óðalslandi hans,
[23] þá skal prestur reikna fyrir hann, hve mikil upphæðin verði eftir mati þínu til fagnaðarárs, og skal hann þann dag greiða það, er þú metur, svo sem helgigjöf Jahve til handa.
[24] En fagnaðarárið hverfur landið aftur undir þann, er hann keypti það af, undir þann, er á það með óðalsrétti.
[25] Og alt mat þitt skal vera í helgidóms siklum; skulu vera tuttugu gerur í sikli.
[26] En frumburði af fénaði, sem Jahve heyra, fyrir því að þeir eru frumbornir, skal enginn helga; hvort heldur er nautgripur eða sauðkind, þá heyrir það Jahve.
[27] En sé það af hinum óhreina fénaði, þá skal hann leysa það eftir mati þínu og gjalda fimtung um fram; en sé það ekki leyst, skal selja það eftir mati þínu.
[28] Þó skal eigi selja eða leysa nokkurn hlut bannfærðan, það er einhver helgar Jahve með bannfæringu af einhverju því, er hann á, hvort heldur er maður, skepna eða óðalsland hans; sérhver hlutur bannfærður er alhelgaður Jahve.
[29] Engan bannfærðan mann má leysa; hann skal líflátinn verða.
[30] Og öll jarðartíund heyrir Jahve, hvort heldur er af ávexti jarðar eða aldinum trjáa; hún er helguð Jahve.
[31] En vilji einhver leysa nokkuð af tíund sinni, þá skal hann gjalda fimtung um fram.
[32] Og öll tíund af nautgripum og sauðfé, öllu því, er gengur undir hirðis-stafinn, — hver tíunda skepna skal vera helguð Jahve.
[33] Skal eigi skoða, hvort hún sé væn eða rýr, og eigi hafa skifti á henni; en séu höfð skifti á henni, þá skal bæði hún og sú, er fyrir kemur, vera heilög; eigi má leysa hana.
[34] Þetta eru skipanir þær, sem Jahve bauð Móse að flytja Ísraelsmönnum á Sínaí-fjalli.

---

# Fjórða bók Móse

## (Numeri).

### Taldir herfærir menn. Levítar skipaðir.

1 Og Jahve talaði við Móse í Sínaí-eyðimörk, í samfundatjaldinu, á fyrsta degi annars mánaðar á öðru ári eftir brottför þeirra af Egiptalandi og mælti:
[2] Takið manntal alls safnaðar Ísraelsmanna eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, alla karl-

---

**27, 21:** v. 28. 29. Kap. 25, 24 n. **24:** kap. 25, 10. **26:** 2 Mós. 13, 2 n. **28:** 5 Mós. 3, 6; 7, 2. Jós. 6, 18. Mík. 4, 13. **29:** 1 Sam. 15, 3. 9 n. **30:** 4 Mós. 18, 21. 5 Mós. 14, 22. — **1, 2:** kap. 26, 2.

menn mann fyrir mann. [3] Alla herfæra menn í Ísrael frá tvítugs aldri
og þaðan af eldri skuluð þér telja eftir hersveitum þeirra, þú og Aron.
[4] Og með ykkur skal vera einn maður af ættkvísl hverri, og sé hann
höfuð ættar sinnar. [5] Og þessi eru nöfn þeirra manna, er ykkur skulu
aðstoða: Af Rúben: Elízúr Sedeúrsson; [6] af Símeon: Selúmíel Zúrí-
saddaíson; [7] af Júda: Nahson Ammínadabsson; [8] af Íssakar: Netanel
Zúarsson; [9] af Sebúlon: Elíab Helónsson; [10] af Jósefssonum: af Efraím:
Elísama Ammíhúdsson; af Manasse: Gamlíel Pedazúrsson; [11] af Benja-
mín: Abídan Gídeóníson; [12] af Dan: Akíeser Ammísaddaíson; [13] af
Asser: Pagíel Okransson; [14] af Gað: Eljasaf Degúelsson; [15] af Naftalí:
Akíra Enansson. [16] Þessir voru til nefndir af söfnuðinum, höfðingjar
yfir ættkvíslum feðra sinna; voru þeir höfuð Ísraels þúsunda. [17] Og
Móse og Aron tóku menn þessa, sem nafngreindir eru; [18] og þeir stefndu
saman öllum söfnuðinum á fyrsta degi annars mánaðar; og þeir létu
skrifa sig á ættarskrárnar eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra,
samkvæmt nafnatölu, frá tvítugsaldri og þaðan af eldri, maður fyrir
mann. [19] Svo sem Jahve hafði boðið Móse, taldi hann þá í Sínaí-
eyðimörk.

[20] En synir Rúbens, frumgetins sonar Ísraels, niðjar þeirra eftir
kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, maður
fyrir mann, allir karlmenn frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir
herfærir menn — [21] þeir er taldir voru af ættkvísl Rúbens, voru fjöru-
tíu og sex þúsundir og fimm hundruð. [22] Synir Símeons, niðjar þeirra
eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, maður
fyrir mann, allir karlmenn frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir
herfærir menn — [23] þeir er taldir voru af ættkvísl Símeons, voru fim-
tíu og níu þúsundir og þrjú hundruð. [24] Synir Gaðs, niðjar þeirra eftir
kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs
aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn — [25] þeir er taldir voru af
ættkvísl Gaðs, voru fjörutíu og fimm þúsundir sex hundruð og fimtíu.
[26] Synir Júda, niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra,
samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir herfærir
menn — [27] þeir er taldir voru af ættkvísl Júda, voru sjötíu og fjórar
þúsundir og sex hundruð. [28] Synir Íssakars, niðjar þeirra eftir kyn-
kvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs
aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn — [29] þeir er taldir voru af
ættkvísl Íssakars, voru fimtíu og fjórar þúsundir og fjögur hundruð.
[30] Synir Sebúlons, niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum
þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir
herfærir menn — [31] þeir er taldir voru af ættkvísl Sebúlons, voru fim-
tíu og sjö þúsundir og fjögur hundruð. [32] Synir Jósefs: synir Efraíms,
niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt
nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn —
[33] þeir er taldir voru af ættkvísl Efraíms, voru fjörutíu þúsundir og
fimm hundruð. [34] Synir Manasse, niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra,
eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af
eldri, allir herfærir menn — [35] þeir er taldir voru af ættkvísl Manasse,
voru þrjátíu og tvær þúsundir og tvö hundruð. [36] Synir Benjamíns,
niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt
nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn —
[37] þeir er taldir voru af ættkvísl Benjamíns, voru þrjátíu og fimm þús-
undir og fjögur hundruð. [38] Synir Dans, niðjar þeirra eftir kynkvísl-
um þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs aldri

---

7: Rut 4, 19. 20. Matt. 1, 4.

og þaðan af eldri, allir herfærir menn — [39] þeir er taldir voru af ætt-
kvísl Dans, voru sextíu og tvær þúsundir og sjö hundruð. [40] Synir
Assers, niðjar þeirra eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, sam-
kvæmt nafnatölu, frá tvítugs aldri og þaðan af eldri, allir herfærir
menn — [41] þeir er taldir voru af ættkvísl Assers, voru fjörutíu og eitt
þúsund og fimm hundruð. [42] Synir Naftalí, niðjar þeirra eftir kyn-
kvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, samkvæmt nafnatölu, frá tvítugs
aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn — [43] þeir er taldir voru af
ættkvísl Naftalí, voru fimtíu og þrjár þúsundir og fjögur hundruð.
[44] Þessir eru þeir, er taldir voru, sem þeir Móse, Aron og höfðingjar
Ísraels töldu; voru þeir tólf, einn fyrir hverja ættkvísl hans. [45] Og
allir þeir af Ísraelsmönnum, er taldir voru eftir ættum þeirra, frá tví-
tugs aldri og þaðan af eldri, allir herfærir menn, voru — [46] allir þeir
er taldir voru, voru sex hundruð og þrjár þúsundir fimm hundruð og
fimtíu. [47] En Levítarnir, eftir ættbálki sínum, voru eigi taldir meðal
þeirra.

[48] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [49] Þú skalt þó eigi telja
ættkvísl Leví og eigi taka manntal þeirra meðal Ísraelsmanna. [50] En
þú skalt setja Levítana yfir sáttmálsbúðina og yfir öll áhöld hennar og
yfir alt, sem til hennar heyrir; þeir skulu bera búðina og öll áhöld
hennar, og þeir skulu þjóna að henni og þeir skulu tjalda umhverfis
búðina. [51] Og er búðin tekur sig upp, skulu Levítarnir taka hana nið-
ur, og þegar reisa skal búðina, skulu Levítarnir setja hana upp; en
komi nokkur annar þar nærri, skal hann líflátinn verða. [52] Og Ísra-
elsmenn skulu tjalda hver á sínum stað í herbúðunum og hver hjá
sínu merki, eftir hersveitum sínum. [53] En Levítarnir skulu tjalda um-
hverfis sáttmálsbúðina, að reiði komi eigi yfir söfnuð Ísraelsmanna, og
Levítarnir skulu annast sáttmálsbúðina.

[54] Og Ísraelsmenn gjörðu svo, þeir gjörðu í alla staði svo sem
Jahve hafði boðið Móse.

## Skipun herbúðanna.

2 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: [2] Sérhver Ísraels-
manna skal tjalda hjá merki sínu, við einkenni ættar sinnar; skulu
þeir tjalda gegnt samfundatjaldinu hringinn í kring. [3] Og að austan-
verðu, gegnt upprás sólar, skulu tjalda: merki Júda herbúða eftir her-
sveitum þeirra, og höfuðsmaður Júda sona sé Nahson Ammínadabs-
son. [4] Og hersveit hans og taldir liðsmenn þeirra voru sjötíu og fjórar
þúsundir og sex hundruð. [5] Og næst honum skal tjalda ættkvísl Íss-
akars og höfuðsmaður Íssakars sona sé Netanel Zúarsson. [6] Og her-
sveit hans og taldir liðsmenn hans voru fimtíu og fjórar þúsundir og
fjögur hundruð. [7] Enn fremur ættkvísl Sebúlons, og höfuðsmaður Sebú-
lons sona sé Elíab Helónsson. [8] Og hersveit hans og taldir liðsmenn
hans voru fimtíu og sjö þúsundir og fjögur hundruð. [9] Allir taldir liðs-
menn í Júda herbúðum voru hundrað áttatíu og sex þúsundir og fjög-
ur hundruð, eftir hersveitum þeirra; skulu þeir taka sig upp fyrstir.

[10] Að sunnanverðu skal merki Rúbens herbúða vera eftir hersveit-
um þeirra, og höfuðsmaður Rúbens sona Elízúr Sedeúrsson. [11] Og her-
sveit hans og taldir liðsmenn hans voru fjörutíu og sex þúsundir og
fimm hundruð. [12] Og næst honum skal tjalda ættkvísl Símeons, og
höfuðsmaður Símeons sona sé Selúmíel Zúrísaddaíson. [13] Og hersveit
hans og taldir liðsmenn þeirra voru fimtíu og níu þúsundir og þrjú

---

**46:** 2 Mós. 12, 37; 38, 26. 4 Mós. 2, 32 n. **51:** kap. 3, 10. 38; 18, 7. **52:** kap. 2, 2 n.

hundruð. [14] Enn fremur ættkvísl Gaðs, og höfuðsmaður Gaðs sona sé
Eljasaf Regúelsson. [15] Og hersveit hans og taldir liðsmenn þeirra voru
fjörutíu og fimm þúsundir sex hundruð og fimtíu. [16] Allir taldir liðs-
menn í Rúbens herbúðum voru hundrað fimtíu og eitt þúsund fjögur
hundruð og fimtíu, eftir hersveitum þeirra; skulu þeir taka sig upp
næstir hinum fyrstu. [17] Þá skal samfundatjaldið taka sig upp, ásamt
búðum Levítanna, í miðjum hernum; eins og þeir tjalda, svo skulu
þeir taka sig upp, hver á sínum stað, eftir merkjum sínum.

[18] Að vestanverðu skal merki Efraíms herbúða vera eftir hersveit-
um þeirra, og höfuðsmaður yfir Efraíms sonum Elísama Ammíhúdsson.
[19] Og hersveit hans og taldir liðsmenn þeirra voru fjörutíu þúsundir og
fimm hundruð. [20] Og næst honum ættkvísl Manasse, og höfuðsmaður
yfir Manasse sonum sé Gamlíel Pedazúrsson. [21] Og hersveit hans og
taldir liðsmenn þeirra voru þrjátíu og tvær þúsundir og tvö hundruð.
[22] Enn fremur ættkvísl Benjamíns, og höfuðsmaður yfir Benjamíns son-
um sé Abídan Gídeónísson. [23] Og hersveit hans og taldir liðsmenn þeirra
voru þrjátíu og fimm þúsundir og fjögur hundruð. [24] Allir taldir liðs-
menn í Efraíms herbúðum voru hundrað og átta þúsundir og eitt hundr-
að, eftir hersveitum þeirra; og þeir skulu hefja ferð sína hinir þriðju.

[25] Að norðanverðu skal merki Dans herbúða vera eftir hersveitum
þeirra, og höfuðsmaður yfir Dans sonum sé Akíeser Ammísaddaíson.
[26] Og hersveit hans og taldir liðsmenn þeirra voru sextíu og tvær þús-
undir og sjö hundruð. [27] Og næst honum tjaldi ættkvísl Assers, og
höfuðsmaður yfir Assers sonum sé Pagíel Okranson. [28] Og hersveit
hans og taldir liðsmenn þeirra voru fjörutíu og eitt þúsund og fimm
hundruð. [29] Enn fremur ættkvísl Naftalí, og höfuðsmaður yfir Naftalí
sonum sé Akíra Enansson. [30] Og hersveit hans og taldir liðsmenn
þeirra voru fimtíu og þrjár þúsundir og fjögur hundruð. [31] Allir taldir
liðsmenn í Dans herbúðum voru hundrað fimtíu og sjö þúsundir og
sex hundruð; skulu þeir hefja ferð sína síðastir, eftir merkjum sínum.

[32] Þessir eru taldir liðsmenn Ísraelsmanna eftir ættum þeirra; allir
taldir liðsmenn í herbúðunum eftir hersveitum þeirra voru sex hundr-
uð og þrjár þúsundir fimm hundruð og fimtíu. [33] En Levítarnir voru
ekki taldir meðal Ísraelsmanna, svo sem Jahve hafði boðið Móse. [34] Og
Ísraelsmenn gjörðu svo; að öllu svo sem Jahve hafði boðið Móse tjöld-
uðu þeir eftir merkjum sínum og hófu ferð, hver eftir kynkvísl sinni,
hjá sinni ætt.

## Levítar taldir; frumburðir leystir.

3 Og þessir eru niðjar Arons og Móse, þá er Jahve talaði við Móse
á Sínaí-fjalli. [2] Og þessi eru nöfn Arons sona: Nadab frumgetinn
og Abíhú, Eleasar og Ítamar. [3] Þessi eru nöfn Arons sona, hinna smurðu
presta, sem vígðir voru til prestþjónustu. [4] En þeir Nadab og Abíhú
dóu fyrir augliti Jahve, þá er þeir báru óvígðan eld fram fyrir Jahve
í Sínaí-eyðimörku; en þeir áttu enga sonu; þeir Eleasar og Ítamar
þjónuðu því í prestembætti frammi fyrir Aroni, föður sínum.

[5] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [6] Lát þú Leví-ættkvísl koma
og leið þú hana fyrir Aron prest, að þeir þjóni honum. [7] Og þeir skulu
annast það, sem annast þarf fyrir hann, og það sem annast þarf fyrir
allan söfnuðinn fyrir framan samfundatjaldið, til þess að gegna þjón-
ustu í búðinni. [8] Og þeir skulu sjá um öll áhöld samfundatjaldsins og

---

**2, 32**: kap. 1, 46 n. — **3, 2**: 2 Mós. 6, 23. **3**: 2 Mós. 28, 41. 3 Mós. 8, 6 n. **4**: 3 Mós. 10, 1. 2. **7**: kap. 1, 53; 16, 9.

það, sem annast þarf fyrir Ísraelsmenn, til þess að gegna þjónustu í
búðinni. [9] Og þú skalt gefa Levítana Aroni og sonum hans; þeir eru
honum gefnir af Ísraelsmönnum til fullkominnar eignar. [10] Og Aron
og sonu hans skalt þú setja til þess að annast prestembætti þeirra;
en komi óvígður maður þar nærri, skal hann líflátinn verða.

[11] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [12] Sjá, eg hefi sjálfur af
Ísraelsmönnum tekið Levítana í stað allra frumburða Ísraelsmanna —
þá er opna móðurlíf, og skulu Levítarnir vera mín eign. [13] Því að eg
á alla frumburði; á þeim degi, er eg laust alla frumburði í Egiptalandi,
helgaði eg mér alla frumburði í Ísrael, bæði menn og skepnur; mínir
skulu þeir vera; eg er Jahve.

[14] Og Jahve talaði við Móse í Sínaí-eyðimörku og sagði: [15] Tel þú
sonu Leví eftir ættum þeirra og kynkvíslum; alla karlmenn mánaðar-
gamla og þaðan af eldri skalt þú telja. [16] Og Móse taldi þá að boði
Jahve, eins og fyrir hann var lagt. [17] Og þessir voru synir Leví eftir
nöfnum þeirra: Gerson og Kahat og Merarí. [18] Og þessi eru nöfn Ger-
sons sona eftir kynkvíslum þeirra: Libní og Símeí. [19] Og synir Kahats
eftir kynkvíslum þeirra: Amram og Jízehar, Hebron og Ússíel. [20] Og
synir Merarí eftir kynkvíslum þeirra: Mahelí og Músí. Þessar eru kyn-
kvíslir Leví eftir ættum þeirra.

[21] Til Gersons telst kynkvísl Libníta og kynkvísl Símeíta; þessar
eru kynkvíslir Gersóníta. [22] Þeir er taldir voru af þeim — eftir tölu á
öllum karlkyns, mánaðargömlum og þaðan af eldri —, þeir er taldir
voru af þeim, voru sjö þúsund og fimm hundruð. [23] Kynkvíslir Ger-
sóníta tjölduðu að baki búðarinnar, að vestanverðu. [24] Og höfuðsmað-
ur yfir ætt Gersóníta var Eljasaf Laelsson. [25] Og það, sem Gersons
synir áttu að annast í samfundatjaldinu, var búðin og tjaldið, þakið á
því og dúkbreiðan fyrir dyrum samfundatjaldsins, [26] forgarðstjöldin og
dúkbreiðan fyrir dyrum forgarðsins, sem liggur alt í kring um búðina
og altarið, og stögin, sem þar til heyra — alt sem að því þurfti að
þjóna.

[27] Og til Kahats telst kynkvísl Amramíta, kynkvísl Jízeharíta, kyn-
kvísl Hebróníta og kynkvísl Ússíelíta. Þessar eru kynkvíslir Kahatíta.
[28] Eftir tölu á öllum karlkyns, mánaðargömlum og þaðan af eldri, voru
þeir átta þúsund og sex hundruð, og höfðu á hendi að annast helgi-
dóminn. [29] Kynkvíslir Kahats sona tjölduðu á hlið við búðina, að sunn-
anverðu. [30] Og ætthöfðingi yfir kynkvíslum Kahatíta var Elízafan Ússí-
elsson. [31] Og það, sem þeir áttu að annast, var örkin, borðið, ljósa-
stikan, ölturin og hin helgu áhöld, er þeir hafa við þjónustugjörðina,
og dúkbreiðan og alt, sem að því þurfti að þjóna. [32] Og höfðingi yfir
höfðingjum Levítanna var Eleasar Aronsson prests; hann hafði umsjón
yfir þeim, er höfðu á hendi að annast helgidóminn.

[33] Til Merarí telst kynkvísl Mahelíta og kynkvísl Músíta; þessar
eru kynkvíslir Merarí. [34] Og þeir, er taldir voru af þeim, eftir tölu á
öllum karlkyns, mánaðargömlum og þaðan af eldri, voru sex þúsundir
og tvö hundruð. [35] Og ætthöfðingi yfir kynkvíslum Merarí var Zúríel
Abihaílsson; tjölduðu þeir á hlið við búðina, að norðanverðu. [36] Og
Merarí sonum var falin hirðing á þiljuborðum búðarinnar, á slám henn-
ar, stólpum og undirstöðum, og öllum áhöldum hennar, og alt, sem að
því þurfti að þjóna, [37] á stólpum forgarðsins alt í kring og undirstöð-
um þeirra, hælum og stögum. [38] En fyrir framan búðina, að austan-

---

**9:** kap. 8, 16; 18, 6. **10:** kap. 1, 51. **13:** 2 Mós. 13, 2; 22, 29; 34, 19. **17:** 2 Mós. 6, 16 n. 4 Mós. 26, 57 n. **25:** 2 Mós. 35, 11. 4 Mós. 4, 25. **30:** 2 Mós. 6, 22; 3 Mós. 10, 4. **31:** kap. 4, 4 n. **32:** kap. 4, 16.

verðu, fyrir framan samfundatjaldið, móti upprás sólar, tjölduðu þeir
Móse og Aron og synir hans, og höfðu á hendi að annast helgidóminn,
það er annast þurfti fyrir Ísraelsmenn; en komi óvígður maður þar
nærri, skal hann líflátinn verða. 39 Allir þeir, er taldir voru af Levít-
unum, sem þeir Móse og Aron töldu eftir boði Jahve, eftir kynkvíslum
þeirra — allir karlkyns, mánaðargamlir og þaðan af eldri, voru tutt-
ugu og tvær þúsundir.
40 Og Jahve sagði við Móse: Tel þú alla frumburði karlkyns með-
al Ísraelsmanna, mánaðargamla og þaðan af eldri, og haf þú tölu á
nöfnum þeirra. 41 Og þú skalt taka Levítana mér til handa — eg er
Jahve — í stað allra frumburða meðal Ísraelsmanna, og fénað Levít-
anna í stað allra frumburða af fénaði Ísraelsmanna. 42 Og Móse taldi,
svo sem Jahve hafði boðið honum, alla frumburði meðal Ísraelsmanna.
43 Og allir frumburðir karlkyns, eftir nafnatölu, mánaðargamlir og það-
an af eldri, þeir er taldir voru af þeim, voru tuttugu og tvær þúsundir
tvö hundruð sjötíu og þrír.
44 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 45 Tak þú Levítana í stað
allra frumburða meðal Ísraelsmanna og fénað Levítanna í stað fénað-
ar þeirra, og skulu Levítarnir vera mín eign; eg er Jahve. 46 Og að
því er snertir lausnargjald þeirra tvö hundruð sjötíu og þriggja, þeirra
af frumburðum Ísraelsmanna, sem um fram eru Levítana, 47 þá skalt
þú taka fimm sikla fyrir hvert höfuð; eftir helgidóms sikli skalt þú taka,
tuttugu gerur í sikli. 48 Og þú skalt fá Aroni og sonum hans féð, til
lausnar þeim, sem um fram eru meðal þeirra. 49 Og Móse tók lausn-
argjaldið af þeim, er um fram voru þá, er leystir voru fyrir Levítana.
50 Tók hann féð af frumburðum Ísraelsmanna, eitt þúsund þrjú hundr-
uð sextíu og fimm sikla, eftir helgidóms sikli. 51 Og Móse seldi lausn-
argjaldið Aroni og sonum hans í hendur eftir boði Jahve, svo sem
Jahve hafði boðið Móse.

## Störf Levítanna, aldur þeirra og tala.

4 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: 2 Takið tölu Kahats
sona meðal Leví sona, eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra,
3 frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til fimtugs aldurs, alla herfæra menn,
til þess að gegna störfum við samfundatjaldið. 4 Þetta er þjónusta Ka-
hats sona við samfundatjaldið: hið háheilaga. 5 Þegar herinn tekur sig
upp, skulu þeir Aron og synir hans ganga inn og taka niður fortjalds-
dúkbreiðuna og láta hana yfir sáttmálsörkina; 6 og þeir skulu leggja
þar yfir ábreiðu af sækýrskinni og breiða yfir klæði, sem alt er gjört
af bláum purpura, og setja stengurnar í. 7 Og yfir skoðunarbrauða-
borðið skulu þeir breiða klæði af bláum purpura og setja þar á fötin,
bollana, kerin og dreypifórnarskálarnar, og stöðuga brauðið skal vera á
því. 8 Og yfir þetta skulu þeir breiða skarlatsklæði og leggja þar yfir
ábreiðu af sækýrskinnum og setja stengurnar í. 9 Og þeir skulu taka
klæði af bláum purpura og láta það yfir ljósastikuna, lampa hennar,
ljósasöx og skarpönnur, og öll olíukerin, sem notuð eru við hana. 10 Og
þeir skulu sveipa hana og öll áhöld hennar í ábreiðu af sækýrskinn-
um og leggja á börur. 11 Og yfir gullaltarið skulu þeir breiða klæði af
bláum purpura og leggja þar yfir ábreiðu af sækýrskinnum og setja
stengurnar í. 12 Og þeir skulu taka öll áhöld þjónustugjörðarinnar, þau
er höfð eru til þjónustugjörðar í helgidóminum, og sveipa þau í klæði
af bláum purpura og leggja þar yfir ábreiðu af sækýrskinnum og leggja
á börurnar. 13 Og þeir skulu sópa öskunni af altarinu og breiða yfir

4, 3: kap. 8, 24. 25.

það klæði af rauðum purpura. [14] Og þeir skulu leggja á það öll áhöld þess, sem höfð eru til þjónustu á því, eldpönnurnar, soðkrókana, eldspaðana og fórnarskálarnar, öll áhöld altarisins, og skulu þeir breiða yfir það ábreiðu af sækýrskinnum og setja stengurnar í. [15] Og er þeir Aron og synir hans hafa lokið því að breiða yfir helgidóminn og öll áhöld helgidómsins, þá er herinn tekur sig upp, skulu Kahats synir þessu næst koma, til þess að bera; en eigi skulu þeir koma við helgidóminn, svo að þeir deyi ekki. Þetta er það, sem Kahats synir eiga að bera við samfundatjaldið. [16] En Eleasar, sonur Arons prests, skal hafa umsjón yfir olíunni til ljósastikunnar, ilmreykelsinu, hinni stöðugu matfórn og smurningarolíunni, umsjón yfir allri búðinni og öllum helgum hlutum, sem í henni eru, og áhöldum, er þar til heyra.

[17] Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: [18] Látið ekki kynþátt Kahatítanna upprættan verða úr Levítunum; [19] heldur farið með þá á þessa leið, að þeir haldi lífi og deyi ekki, er þeir nálgast hið háhelga: Aron og synir hans skulu ganga inn og skipa hverjum sína þjónustu og sinn burð. [20] En eigi skulu þeir sjálfir ganga inn, til þess að sjá helgidóminn, jafnvel eigi eitt augnablik, svo að þeir deyi ekki.

[21] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [22] Tak þú einnig tölu Gersons sona eftir ættum þeirra, eftir kynkvíslum þeirra; [23] skalt þú telja þá frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til fimtugs aldurs, alla þá, sem koma til þess að gegna herþjónustu og inna af hendi störf við samfundatjaldið. [24] Þetta er þjónusta Gersóníta kynkvíslanna, það sem þeir eiga að annast og bera: [25] Þeir skulu bera dúka búðarinnar og samfundatjaldið, þakið á því og ábreiðuna af sækýrskinnum, sem utan yfir því er, og dúkbreiðuna fyrir dyrum samfundatjaldsins; [26] enn fremur forgarðstjöldin og dúkbreiðuna fyrir dyrum forgarðsins, sem liggur alt í kring um búðina og altarið, og stögin, sem þar til heyra, og öll áhöld við þjónustu þeirra; og alt, sem við þetta þarf að gjöra, skulu þeir inna af hendi. [27] Eftir boði Arons og sona hans skal öll þjónusta sona Gersóníta fram fara, að því er snertir alt það, er þeir eiga að bera, og alt það, er þeir eiga að annast; og þér skuluð vísa þeim á alt, sem þeir eiga að bera, með nafni. [28] Þetta er þjónusta kynkvísla Gersóníta sona við samfundatjaldið; og það, sem þeir eiga að annast, skal vera undir umsjón Ítamars, sonar Arons prests.

[29] Sonu Merarí skalt þú telja eftir kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra; [30] skalt þú telja þá frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til fimtugs aldurs, alla þá, er ganga í herþjónustu, til þess að inna af hendi störf við samfundatjaldið. [31] Og þetta er það, sem þeir eiga að sjá um að bera, alt það sem þeim ber að annast við samfundatjaldið: þiljuborð búðarinnar, slár hennar, stólpar og undirstöður; [32] enn fremur stólpar forgarðsins alt í kring og undirstöður þeirra, hælar og stög, ásamt öllum áhöldum, er til þess heyra, og öllu því, er við þetta þarf að annast. Og þér skuluð vísa þeim á öll áhöld þau, er þeir eiga að bera, með nafni. [33] Þetta er þjónusta kynkvísla Merarí sona, öll þjónusta þeirra við samfundatjaldið undir umsjón Ítamars, sonar Arons prests.

[34] Og Móse og Aron og höfðingjar safnaðarins töldu sonu Kahatítanna eftir kynkvíslum þeirra og eftir ættum þeirra, [35] frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til fimtugs aldurs, alla þá sem ganga í herþjónustu, til þess að inna af hendi störf við samfundatjaldið. [36] Og þeir, er taldir voru af þeim eftir kynkvíslum þeirra, voru tvö þúsund sjö hundruð og fimtíu. [37] Þetta eru þeir, er taldir voru af kynkvíslum Kahatíta, allir þeir, er þjónustu gegndu við samfundatjaldið og þeir Móse og Aron töldu að boði Jahve fyrir Móse.

---

**15**: kap. 7, 9. 1 Kron. 15, 15. **20**: 1 Sam. 6, 19. **23**: v. 3. **24**: kap. 3, 25 n.

[38] Og þeir, sem taldir voru af Gersons sonum eftir kynkvíslum
þeirra og eftir ættum þeirra, [39] frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til
fimtugs aldurs, allir þeir, sem ganga í herþjónustu, til þess að inna af
hendi störf við samfundatjaldið — [40] þeir er taldir voru af þeim eftir
kynkvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, voru tvö þúsund sex hundruð og
þrjátíu. [41] Þetta eru þeir, er taldir voru af kynkvíslum Gersons sona,
allir þeir, er þjónustu gegndu við samfundatjaldið og þeir Móse og
Aron töldu eftir boði Jahve.
[42] Og þeir, sem taldir voru af kynkvíslum Merarí sona, eftir kyn-
kvíslum þeirra, eftir ættum þeirra, [43] frá þrítugs aldri og þaðan af eldri
til fimtugs aldurs, allir þeir, sem ganga í herþjónustu, til þess að inna
af hendi störf við samfundatjaldið — [44] þeir er taldir voru af þeim eftir
kynkvíslum þeirra, voru þrjú þúsund og tvö hundruð. [45] Þetta eru
þeir, er taldir voru, af kynkvíslum Merarí sona og þeir Móse og Aron
töldu eftir boði Jahve fyrir Móse.
[46] Allir þeir, er taldir voru af Levítunum og þeir Móse og Aron
og höfðingjar Ísraels töldu, eftir kynkvíslum þeirra og eftir ættum þeirra,
[47] frá þrítugs aldri og þaðan af eldri til fimtugs aldurs, allir þeir, sem
komu, til þess að inna af hendi þjónustustörf eða burðarstörf við sam-
fundatjaldið — [48] þeir er taldir voru af þeim, voru átta þúsund fimm
hundruð og áttatíu. [49] Eftir boði Jahve var þeim hverjum einum undir
umsjón Móse vísað á það, er þeir áttu að annast og þeir áttu að bera;
og þeir voru taldir, svo sem Jahve hafði boðið Móse.

## Um óhreina menn í herbúðunum. Um bætur fyrir rangfengið fé. Um konu, sem grunuð er um hórdóm.

5 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Bjóð þú Ísraelsmönnum
að láta burt fara úr herbúðunum alla menn líkþráa og alla, er rensli
hafa, svo og alla þá, er saurgaðir eru af líki; [3] skuluð þér láta burt fara
bæði karla og konur; þér skuluð láta þá fara út fyrir herbúðirnar, svo
að þeir saurgi ekki herbúðir sínar, með því að eg bý á meðal þeirra.
[4] Og Ísraelsmenn gjörðu svo og létu þá fara út fyrir herbúðirnar; eins
og Jahve hafði boðið Móse, svo gjörðu Ísraelsmenn.
[5] Og Jahve talaði við Móse og sagði: Tala þú til Ísraelsmanna:
[6] Þá er karl eða kona drýgir einhverja þá synd, er menn hendir, með
því að sýna sviksemi gegn Jahve, og sá hinn sami verður sekur, [7] þá
skulu þau játa synd sína, er þau hafa drýgt, og bæta skulu þau sekt
sína fullu verði og gjalda fimtungi meira og greiða það þeim, er þau
hafa orðið sek við. [8] En eigi maðurinn engan nákominn ættingja, er
sektin verði greidd, þá skal sektin, er greiða skal, heyra Jahve og falla
undir prest, auk friðþægingarhrútsins, sem friðþægt er með fyrir þau.
[9] Og sérhver lyftifórn af öllum helgigjöfum Ísraelsmanna, sem þeir færa
prestinum, skal vera hans eign; [10] og það, sem sérhver helgar,
skal vera hans eign; það, sem einhver gefur prestinum, skal vera
hans eign.
[11] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [12] Tala þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Nú gjörist kona marglát og reynist ótrú manni sínum,
[13] og annar maður hefir samræði við hana, en maður hennar veit eigi
af og hún verður eigi uppvís að og hefir þó saurgað sig, og engin vitni
eru mót henni og hún er eigi að því staðin; [14] og yfir hann kemur af-
brýðisandi, svo að hann verður hræddur um konu sína og hún hefir

---

**5, 2:** 3 Mós. 13, 46. **3:** kap. 35, 34. **7:** 3 Mós. 5, 15 n. 21 n. Sálm. 32, 5. Orðskv. 28, 13.

saurgað sig, eða afbrýðisandi kemur yfir mann og hann verður hrædd-
ur um konu sína, þótt hún hafi eigi saurgað sig, 15 þá fari maðurinn
með konu sína til prestsins, og færi honum fórnargjöfina fyrir hana:
tíunda-part úr efu af byggmjöli; eigi skal hann hella yfir það olíu né
leggja reykelsiskvoðu ofan á það; því að það er afbrýðis-matfórn, minn-
ingarmatfórn, sem minnir á misgjörð. 16 Og presturinn skal taka hana
og leiða hana fram fyrir Jahve. 17 Og prestur skal taka heilagt vatn í
leirker; og prestur skal taka mold af gólfi búðarinnar og láta í vatnið.
18 Og prestur skal leiða konuna fram fyrir Jahve og leysa hár konunn-
ar og fá henni í hendur minningarmatfórnina — það er afbrýðis-
matfórn; en á beiskju-vatninu, er bölvan veldur, skal presturinn halda.
19 Og prestur skal særa hana og segja við konuna: Hafi enginn maður
hjá þér legið og hafir þú eigi saurgað þig með lauslæti í hjúskap þín-
um, þá verði þetta beiskju-vatn, sem bölvan veldur, þér ósaknæmt.
20 En hafir þú verið lauslát í hjúskapnum og hafir þú saurgast og ein-
hver annar en maður þinn hefir haft samræði við þig, 21 þá skal prest-
ur láta konuna vinna bölvunarsæri, og prestur skal segja við konuna:
Jahve gjöri þig að bölvan og að særi meðal fólks þíns, er Jahve lætur
lendar þínar hjaðna og kvið þinn þrútna. 22 Og vatn þetta, er bölvan
veldur, skal fara í innýfli þín, svo að kviðurinn þrútni og lendarnar
hjaðni. Og konan skal segja: Amen, amen! 23 Síðan skal prestur rita
formælingu þessa í bók og strjúka hana út í beiskju-vatnið; 24 og hann
*skal láta* konuna drekka beiskju-vatnið, er bölvan veldur, svo að vatn-
ið, *sem* bölvan veldur, fari ofan í hana og verði að beiskju. 25 Og
presturinn skal taka við afbrýðis-matfórninni úr hendi konunnar, og
hann skal veifa matfórninni frammi fyrir Jahve og bera hana á altarið.
26 Og presturinn skal taka hnefafylli af matfórninni sem ilmhluta henn-
ar og brenna á altarinu; síðan skal hann láta konuna drekka vatnið.
27 Og þegar hann hefir látið hana drekka vatnið, þá skal svo fara, að
hafi hún saurgað sig og verið manni sínum ótrú, þá skal vatnið, er
bölvan veldur, fara ofan í hana og verða að beiskju, og kviður hennar
þrútna og lendar hennar hjaðna; og konan skal verða að bölvan með-
al fólks síns. 28 En hafi konan ekki saurgað sig og sé hún hrein, þá
skal það ekki saka hana, og hún mun geta fengið getnað.

29 Þetta eru lögin um afbrýðisemi, þegar gift kona gjörist marg-
lát og saurgar sig, 30 eða þegar afbrýðisandi kemur yfir mann og hann
verður hræddur um konu sína, þá skal hann leiða konuna fram fyrir
Jahve, og prestur skal með hana fara í alla staði eftir lögum þessum.
31 Maðurinn skal vera sýkn saka, en konan skal bera sekt sína.

## Um Nasírea. Hin prestlega blessan.

6 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Nú vill karl eða kona vinna heit Nasírea, til þess
að helga sig Jahve, 3 og skal hann halda sér frá víni og áfengum
drykk; hann skal hvorki drekka vínsýru né sýru úr áfengum drykk,
né heldur skal hann drekka nokkurn vínberjalög, og vínber ný eða
þurkuð skal hann eigi eta. 4 Allan bindindistíma sinn skal hann eigi
eta neitt það, sem búið er til af vínviði, hvorki kjarna né hýði. 5 Allan
tíma bindindisheitis hans skal rakhnífur eigi koma á höfuð honum;
unz þeir dagar eru fullnaðir, er hann hefir helgað sig Jahve, skal hann
vera heilagur; skal hann láta höfuðhár sitt vaxa sitt. 6 Alla þá stund,
er hann hefir helgað sig Jahve, skal hann ekki koma nærri líki.

**15**: 3 Mós. 5, 11. **21**: Jer. 24, 9; **42**, 18. — **6**, **5**: Dóm. 13, 5.

7 Hann skal ekki saurga sig vegna föður síns, vegna móður sinnar,
vegna bróður síns eða vegna systur sinnar, er þau deyja; því að helgun
Guðs hans er á höfði honum. 8 Allan bindindistíma sinn er hann
helgaður Jahve.

9 Og verði einhver maður bráðkvaddur hjá honum, svo að helgað
höfuð hans saurgast, þá skal hann raka höfuð sitt á hreinsunardegi
sínum; á sjöunda degi skal hann raka það. 10 Og á áttunda degi skal
hann færa prestinum tvær turtildúfur eða tvær ungar dúfur að dyrum
samfundatjaldsins. 11 Og prestur skal fórna annari í syndafórn, en
hinni í brennifórn og friðþægja fyrir hann, vegna þess að hann hefir
syndgast á líki; og hann skal helga höfuð sitt samdægurs. 12 Og hann
skal helga sig Jahve bindindistíma sinn, og færa veturgamla kind í
sektarfórn; en fyrri tíminn skal ónýttur, því að helgun hans var
saurguð.

13 Og þetta eru ákvæðin um Nasíreann: Þegar bindindistími hans
er liðinn, skal leiða hann að dyrum samfundatjaldsins. 14 Og hann
skal færa Jahve fórn sína: veturgamalt hrútlamb gallalaust í brenni-
fórn og veturgamla gimbur gallalausa í syndafórn og hrút gallalausan
í heillafórn, 15 og körfu með ósýrðu brauði úr fínu mjöli, kökur olíu-
blandaðar og ósýrð flatbrauð olíusmurð, ásamt matfórninni og dreypi-
fórnunum. 16 Og presturinn skal bera það fram fyrir Jahve og fórna
syndafórn hans og brennifórn. 17 Og hann skal fórna Jahve hrútnum
í heillafórn ásamt körfunni með ósýrða brauðinu; og presturinn skal
fórna matfórn hans og dreypifórn. 18 Og Nasíreinn skal raka helgað
höfuð sitt við dyr samfundatjaldsins og taka helgað höfuðhár sitt og
kasta því á eldinn undir heillafórninni. 19 Og prestur skal taka soðna
bóginn af hrútnum og eina ósýrða köku úr körfunni og eitt ósýrt
flatbrauð og fá Nasíreanum það í hendur, þá er hann hefir rakað
helgað hár sitt. 20 Og prestur skal veifa því sem veififórn frammi fyrir
Jahve; það er heilagt og heyrir presti, ásamt veifi-bringunni og lyfti-
lærinu; upp frá því má Nasíreinn drekka vín. 21 Þetta eru ákvæðin
um Nasírea, sem gjörir heit, um fórnargjöf hans Jahve til handa vegna
helgunar hans, auk þess sem hann annars hefir efni á; samkvæmt
heitinu, sem hann hefir unnið, skal hann gjöra, eftir ákvæðunum um
bindindi hans.

22 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 23 Mæl þú til Arons og
sona hans og seg: Með þessum orðum skuluð þér blessa Ísraelsmenn:

24 Jahve blessi þig og varðveiti þig!

25 Jahve láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sé þér náðugur!

26 Jahve upplyfti sínu augliti yfir þig og gefi þér frið!

27 Þannig skulu þeir leggja nafn mitt yfir Ísraelsmenn, og eg mun
blessa þá.

## Vígslugjafir ætthöfðingjanna.

7 Þá er Móse hafði lokið við að reisa búðina og hafði smurt hana
og vígt og öll áhöld hennar, og smurt og vígt altarið og öll áhöld
þess, 2 færðu höfuðsmenn Ísraels fórnir, foringjar fyrir ættum þeirra —
það er höfuðsmenn ættkvíslanna, forstöðumenn hinna töldu; 3 og þeir
færðu fórnargjöf sína fram fyrir Jahve, sex skýlisvagna og tólf naut,
einn vagn fyrir hverja tvo höfuðsmenn, og naut fyrir hvern þeirra;
færðu þeir þetta fram fyrir búðina. 4 Og Jahve talaði við Móse og

---

7: v. 18. 18: Post. 18, 18; 21, 24. 20: 2 Mós. 29, 27. 23: 3 Mós. 7, 34. 25: Sálm. 67, 2. — 7, 1: 2 Mós. 40, 17 n. 2: kap. 1, 4—16.

sagði: 5 Tak þú við þessu af þeim, og það sé haft til þjónustugjörðar
við samfundatjaldið, og fá þú þetta Levítunum, eftir því sem þjónusta
hvers eins er til. 6 Þá tók Móse vagnana og nautin og seldi það Levít-
unum í hendur. 7 Gersons sonum fékk hann tvo vagna og fjögur naut,
eftir þjónustu þeirra. 8 Og Merarí sonum fékk hann fjóra vagna og
átta naut, eftir þjónustu þeirra, undir umsjón Ítamars, Arons sonar
prests. 9 En Kahats sonum fékk hann ekkert, því að á þeim hvíldi
þjónusta hinna helgu dóma; skyldu þeir bera þá á herðum sér. 10 Og
höfuðsmennirnir færðu gjafir til vígslu altarisins daginn sem það var
smurt; og höfuðsmennirnir færðu fórnargjöf sína fram fyrir altarið.
11 Þá sagði Jahve við Móse: Höfuðsmennirnir skulu bera fram fórnar-
gjafir sínar sinn daginn hver til vígslu altarisins.
12 Sá er færði fórnargjöf sína fyrsta daginn, var Nahson Ammína-
dabsson af ættkvísl Júda. 13 Og fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað
og þrjátíu siklar að þyngd, silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir
helgidóms sikli, hvorttveggja fylt fínu mjöli olíublönduðu til matfórnar,
14 bolli, tíu gullsiklar að þyngd, fullur af reykelsi, 15 ungneyti, hrútur
og sauðkind veturgömul til brennifórnar, 16 geithafur til syndafórnar,
17 og til heillafórnar tvö naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm
sauðkindur veturgamlar. Þetta var fórnargjöf Nahsons Ammínadabs-
sonar.
18 Annan daginn færði Netanel Zúarsson, höfuðsmaður Íssakars,
*fórn sína.* 19 Færði hann að fórnargjöf silfurfat, hundrað og þrjátíu
*sikla* að þyngd, silfurskál, sjötíu sikla að þyngd eftir helgidóms sikli,
hvorttveggja fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 20 bolla, tíu
gullsikla að þyngd, fullan af reykelsi, 21 ungneyti, hrút og sauðkind
veturgamla til brennifórnar, 22 geithafur til syndafórnar, 23 og til heilla-
fórnar tvö naut, fimm hrúta, fimm kjarnhafra og fimm sauðkindur
veturgamlar. Þetta var fórnargjöf Netanels Zúarssonar.
24 Þriðja daginn höfuðsmaður Sebúlons sona, Elíab Helónsson.
25 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd,
silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja
fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 26 bolli, tíu gullsiklar að
þyngd, fullur af reykelsi, 27 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul
til brennifórnar, 28 geithafur til syndafórnar, 29 og til heillafórnar tvö
naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar.
Þetta var fórnargjöf Elíabs Helónssonar.
30 Fjórða daginn höfuðsmaður Rúbens sona, Elízúr Sedeúrsson.
31 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd,
silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja fult
af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 32 bolli, tíu gullsiklar að þyngd,
fullur af reykelsi, 33 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul til brenni-
fórnar, 34 geithafur til syndafórnar, 35 og til heillafórnar tvö naut, fimm
hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar. Þetta var
fórnargjöf Elízúrs Sedeúrssonar.
36 Fimta daginn höfuðsmaður Símeons sona, Selúmíel Zúrísaddaí-
son. 37 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að
þyngd, silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvort-
tveggja fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 38 bolli, tíu gull-
siklar að þyngd, fullur af reykelsi, 39 ungneyti, hrútur og sauðkind vet-
urgömul til brennifórnar, 40 geithafur til syndafórnar, 41 og til heillafórn-
ar tvö naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur vet-
urgamlar. Þetta var fórnargjöf Selúmíels Zúrísaddaísonar.

---

7: kap. 4, 24 n. 8: kap. 4, 31 n. 9: kap. 4, 4 n.

42 Sétta daginn höfuðsmaður Gaðs sona, Eljasaf Degúelsson. 43 Fórn-
argjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd, silfur-
skál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja fult af
fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 44 bolli, tíu gullsiklar að þyngd,
fullur af reykelsi, 45 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul til brenni-
fórnar, 46 geithafur til syndafórnar, 47 og til heillafórnar tvö naut, fimm
hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar. Þetta var
fórnargjöf Eljasafs Degúelssonar.
48 Sjöunda daginn höfuðsmaður Efraíms sona, Elísama Ammíhúds-
son. 49 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að
þyngd, silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja
fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 50 bolli, tíu gullsiklar að
þyngd, fullur af reykelsi, 51 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul
til brennifórnar, 52 geithafur til syndafórnar, 53 og til heillafórnar tvö
naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar.
Þetta var fórnargjöf Elísama Ammíhúdssonar.
54 Áttunda daginn höfuðsmaður Manasse sona, Gamlíel Pedazúrs-
son. 55 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að
þyngd, silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvort-
tveggja fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 56 bolli, tíu gull-
siklar að þyngd, fullur af reykelsi, 57 ungneyti, hrútur og sauðkind vet-
urgömul til brennifórnar, 58 geithafur til syndafórnar, 59 og til heillafórn-
ar tvö naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur vetur-
gamlar. Þetta var fórnargjöf Gamlíels Pedazúrssonar.
60 Níunda daginn höfuðsmaður Benjamíns sona, Abídan Gídeónison.
61 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd,
silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja fult
af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 62 bolli, tíu gullsiklar að þyngd,
fullur af reykelsi, 63 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul til brenni-
fórnar, 64 geithafur til syndafórnar, 65 og til heillafórnar tvö naut, fimm
hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar. Þetta var
fórnargjöf Abídans Gídeónísonar.
66 Tíunda daginn höfuðsmaður Dans sona, Akíeser Ammísaddaí-
son. 67 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að
þyngd, silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvort-
tveggja fult af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 68 bolli, tíu gull-
siklar að þyngd, fullur af reykelsi, 69 ungneyti, hrútur og sauðkind vet-
urgömul til brennifórnar, 70 geithafur til syndafórnar, 71 og til heilla-
fórnar tvö naut, fimm hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur
veturgamlar. Þetta var fórnargjöf Akíesers Ammísaddaísonar.
72 Ellefta daginn höfuðsmaður Assers sona, Pagíel Okransson.
73 Fórnargjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd,
silfurskál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja fult
af fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 74 bolli, tíu gullsiklar að þyngd,
fullur af reykelsi, 75 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul til brenni-
fórnar, 76 geithafur til syndafórnar, 77 og til heillafórnar tvö naut, fimm
hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar. Þetta var
fórnargjöf Pagíels Okranssonar.
78 Tólfta daginn höfuðsmaður Naftalísona, Akíra Enansson. 79 Fórn-
argjöf hans var: silfurfat, hundrað og þrjátíu siklar að þyngd, silfur-
skál, sjötíu siklar að þyngd eftir helgidóms sikli, hvorttveggja fult af
fínu mjöli olíublönduðu, til matfórnar, 80 bolli, tíu gullsiklar að þyngd,
fullur af reykelsi, 81 ungneyti, hrútur og sauðkind veturgömul til brenni-
fórnar, 82 geithafur til syndafórnar, 83 og til heillafórnar tvö naut, fimm
hrútar, fimm kjarnhafrar og fimm sauðkindur veturgamlar. Þetta var
fórnargjöf Akíra Enanssonar.

[84] Þetta voru gjafirnar frá höfuðsmönnum Ísraels til vígslu altar-
isins daginn sem það var smurt: tólf silfurföt, tólf silfurskálar, tólf
gullbollar; [85] vó hvert fat hundrað og þrjátíu sikla silfurs og hver skál
sjötíu; alt silfur ílátanna vó tvö þúsund og fjögur hundruð sikla eftir
helgidóms sikli; [86] tólf gullbollar, fullir af reykelsi, hver bolli tíu siklar
eftir helgidóms sikli; alt gullið í bollunum vó hundrað og tuttugu sikla.
[87] Öll nautin til brennifórnarinnar voru tólf uxar, auk þess tólf hrútar,
tólf sauðkindur veturgamlar, ásamt matfórninni, er þeim fylgdi, og
tólf geithafrar í syndafórn. [88] Og öll nautin til heillafórnarinnar voru
tuttugu og fjórir uxar, auk þess sextíu hrútar, sextíu kjarnhafrar og
sextíu sauðkindur veturgamlar. Þetta voru gjafirnar til vígslu altaris-
ins, eftir að það hafði verið smurt.
[89] Og þegar Móse gekk inn í samfundatjaldið, til þess að tala við
hann, heyrði hann röddina tala til sín ofan af lokinu, sem er yfir sátt-
málsörkinni, fram á milli kerúbanna tveggja; og hann talaði við hann.

## Um ljósastikuna. Vígsla Levítanna.

8 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Tala þú við Aron og seg
við hann: Þá er þú setur upp lampana, skulu sjö lamparnir varpa
ljósi sínu fram undan ljósastikunni. [3] Og Aron gjörði svo; hann setti
lampana upp framan á ljósastikuna, eins og Jahve hafði boðið Móse.
[4] Og þetta var smíðið á ljósastikunni: hún var gjör af gulli með drifnu
smíði; bæði stétt hennar og blóm var drifið smíði; hafði hann gjört
ljósastikuna eftir fyrirmynd þeirri, er Jahve hafði sýnt Móse.
[5] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [6] Skil þú Levítana úr Ísraels-
mönnum og hreinsa þá. [7] Og þetta skalt þú við þá gjöra, til þess að
hreinsa þá: Stökk þú á þá syndhreinsunarvatni, og þeir skulu láta
rakhníf ganga yfir allan líkama sinn og þvo klæði sín og hreinsa sig.
[8] Og þeir skulu taka ungneyti og matfórn, er því fylgir, fínt mjöl olíu-
blandað, og annað ungneyti skalt þú taka í syndafórn. [9] Síðan skalt
þú leiða Levítana fram fyrir samfundatjaldið og safna saman öllum
söfnuði Ísraelsmanna. [10] Og þú skalt leiða Levítana fram fyrir Jahve,
og Ísraelsmenn skulu leggja hendur sínar yfir Levítana. [11] Og Aron
skal veifa Levítunum sem veififórn frammi fyrir Jahve af hendi Ísraels-
manna, og skulu þeir takast á hendur að gegna þjónustu Jahve. [12] En
Levítarnir skulu leggja hendur sínar á höfuð nautanna; og fórna þú
öðru í syndafórn og hinu í brennifórn Jahve til handa, til þess að
friðþægja fyrir Levítana. [13] Og þú skalt leiða Levítana fram fyrir Aron
og fram fyrir sonu hans og veifa þeim sem veififórn Jahve til handa.
[14] Og þú skalt greina Levítana frá Ísraelsmönnum, svo að Levítarnir
heyri mér. [15] Því næst skulu Levítarnir ganga inn, til þess að gegna
þjónustu við samfundatjaldið; og þú skalt hreinsa þá og veifa þeim
sem veififórn. [16] Því að þeir eru gefnir mér til fullkominnar eignar af
Ísraelsmönnum; í stað alls þess er opnar móðurlíf, í stað allra frum-
burða meðal Ísraelsmanna hefi eg tekið þá mér til eignar. [17] Því að
eg á alla frumburði meðal Ísraelsmanna, bæði menn og skepnur; á
þeim degi, er eg laust alla frumburði í Egiptalandi, helgaði eg mér þá.
[18] Og eg tók Levítana í stað allra frumburða meðal Ísraelsmanna.
[19] Og eg gaf Levítana Aroni og sonum hans til eignar af Ísraels-
mönnum, til þess að þeir gegni þjónustu fyrir Ísraelsmenn í samfunda-
tjaldinu og til þess að þeir friðþægi fyrir Ísraelsmenn, svo að eigi

**89:** 2 Mós. 25, 20—22. 1 Sam. 4, 4. Sálm. 80, 2. — **8, 2:** 2 Mós. 25, 37. **3:** 2 Mós. 27, 20 n. **4:** 2 Mós. 25, 31. 40. **7:** kap. 19, 9. Hebr. 9, 13. 14. **14:** kap. 3, 45. **16:** kap. 3, 9. 12. 13. **17:** kap. 3, 13. **19:** kap. 1, 53; 3, 9; 18, 22. 23.

komi plága yfir Ísraelsmenn, þá er Ísraelsmenn koma nærri helgidóm-
inum. 20 Og Móse og Aron og allur söfnuður Ísraelsmanna gjörði svo
við Levítana; gjörðu Ísraelsmenn að öllu leyti svo við Levítana sem
Jahve hafði boðið Móse um þá. 21 Og Levítarnir syndhreinsuðu sig
og þvoðu klæði sín, og Aron veifaði þeim sem veififórn frammi fyrir
Jahve, og Aron friðþægði fyrir þá, til þess að hreinsa þá. 22 Gengu
Levítarnir því næst inn, til þess að gegna þjónustu sinni í samfunda-
tjaldinu fyrir augliti Arons og fyrir augliti sona hans; gjörðu þeir svo
við Levítana sem Jahve hafði boðið Móse um þá.
23 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 24 Þetta gildir um Levítana:
Frá því þeir eru tuttugu og fimm ára og þaðan af eldri skulu þeir
koma, til þess að gegna herþjónustu með þjónustu í samfundatjaldinu;
25 en frá því þeir eru fimtugir, skulu þeir láta af þjónustunni og eigi
þjóna framar. 26 Þeir mega veita bræðrum sínum aðstoð í samfunda-
tjaldinu, til þess að annast það, sem annast ber, en þjónustu skulu
þeir eigi gegna. Þannig skalt þú fara með Levítana, að því er kemur
til sýslunar þeirra.

### Um páskahald óhreinna manna og fjarverandi, svo og útlendra manna. Skýstólpinn.

9 Og Jahve talaði við Móse í Sínaí-eyðimörk á öðru ári eftir brott-
för þeirra af Egiptalandi, í fyrsta mánuðinum, og sagði: 2 En
Ísraelsmenn skulu halda páska á tilteknum tíma. 3 Á fjórtánda degi
þessa mánaðar um sólsetur skuluð þér halda þá á hinum tiltekna tíma;
eftir öllum skipunum og öllum ákvæðum um þá skuluð þér halda þá.
4 Og Móse bauð Ísraelsmönnum að halda páskana. 5 Og þeir héldu
páska í fyrsta mánuðinum, hinn fjórtánda dag mánaðarins, um sólset-
ur, í Sínaí-eyðimörk. Ísraelsmenn gjörðu að öllu leyti svo sem Jahve
hafði boðið Móse.
6 En þar voru menn, er saurgast höfðu af líki framliðins manns
og gátu því eigi haldið páska þennan dag. Gengu þeir fyrir Móse og
Aron þennan dag. 7 Og menn þessir sögðu við hann: Vér erum óhrein-
ir af líki framliðins manns; hví skulum vér verða út undan og eigi
mega bera fram fórnargjöf Jahve meðal Ísraelsmanna á tilteknum tíma?
8 Og Móse sagði við þá: Bíðið þér, eg ætla að heyra, hvað Jahve skip-
ar fyrir um yður.
9 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 10 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg: Ef einhver meðal yðar eða meðal niðja yðar er óhreinn af
líki eða hann er í langferð, þá skal hann þó halda Jahve páska. 11 Á
fjórtánda degi hins annars mánaðar, um sólsetur, skulu þeir halda þá;
með ósýrðu brauði og beiskum jurtum skulu þeir eta það*. 12 Ekkert
skulu þeir leifa af því til morguns og ekkert bein í því skulu þeir
brjóta; skulu þeir halda þá eftir öllum páskalögunum, 13 En hver sem
er hreinn og ekki á ferð og vanrækir að halda páska, hann skal upp-
rættur verða úr þjóð sinni; því að hann færði Jahve eigi fórnargjöf á
tilteknum tíma; sá maður skal bera synd sína. 14 Nú dvelur útlendur
maður hjá yður og vill hann halda Jahve páska, skal hann þá svo
gjöra sem fyrir er mælt í páskalögunum og ákvæðunum um þá. Skulu
vera ein lög hjá yður bæði fyrir útlenda menn og innborna.
15 Og á þeim degi, sem búðin var reist, huldi skýið búðina—sáttmáls-
tjaldið—og um kveldið var það yfir búðinni eins og eldbjarmi alt til morg-

---

**24**: kap. 4, 3. 23. — **9, 1**: 2 Mós. 13, 4 n. 3 Mós. 23, 5 n. **5**: 2 Mós. 12, 3 n. **6**: 3 Mós. 21, 1. 11. **8**: 3 Mós. 24, 12. **11**: * Þ. e. páskalambið. 2 Mós. 12, 8. 2 Kron. 30, 2 n. **12**: 2 Mós. 12, 10. 46. Jóh. 19, 36. **14**: 2 Mós. 12, 49. **15**: 2 Mós. 40, 38.

uns. [16] Svo var það ávalt: skýið huldi hana um daga og eldbjarmi
um nætur. [17] Og í hvert sinn, er skýið hófst upp frá tjaldinu, lögðu
Ísraelsmenn upp; og þar sem skýið nam staðar, þar settu Ísraelsmenn
herbúðir sínar. [18] Að boði Jahve lögðu Ísraelsmenn upp, og að boði
Jahve settu þeir herbúðir sínar; alla þá stund, er skýið hvíldi yfir
búðinni, héldu þeir kyrru fyrir í herbúðunum. [19] Og þegar skýið var
yfir búðinni marga daga samfleytt, gættu Ísraelsmenn skipunar Jahve og
lögðu ekki upp. [20] Stundum var skýið aðeins fáa daga yfir búðinni;
að boði Jahve héldu þeir kyrru fyrir í herbúðunum og að boði Jahve
lögðu þeir upp. [21] Stundum var skýið frá kveldi alt til morguns, og
er skýið hófst upp með morgninum, lögðu þeir upp; eða það var dag-
inn og nóttina: þegar skýið hófst, þá lögðu þeir upp. [22] Eða að skýið
var tvo daga eða mánuð eða lengri tíma: þegar það var langdvölum
yfir búðinni og hvíldi yfir henni, héldu Ísraelsmenn kyrru fyrir í her-
búðunum og lögðu ekki upp; en er það hófst, lögðu þeir upp. [23] Að
boði Jahve settu þeir herbúðir sínar og að boði Jahve lögðu þeir upp;
skipunar Jahve gættu þeir að boði Jahve fyrir Móse.

## Um silfurlúðrana tvo. Brottförin frá Sínaí.

10 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Gjör þér tvo lúðra af
silfri; með drifnu smíði skalt þú gjöra þá; skalt þú hafa þá til
að kalla saman söfnuðinn og þá er herinn tekur sig upp. [3] Og þegar
blásið er í þá báða, skal allur söfnuðurinn koma saman hjá þér, fyrir
dyrum samfundatjaldsins. [4] En sé eigi blásið nema í annan þeirra, þá
skulu foringjarnir koma til þín, höfuðsmenn Ísraels þúsunda. [5] Og
þegar þér blásið hvelt, skal herinn, sem tjaldar að austanverðu, leggja
upp. [6] Og þegar þér blásið hvelt í annað sinn, skal herinn, sem tjald-
ar að sunnanverðu, leggja upp; skal blása hvelt, þegar leggja skal upp.
[7] En þegar safna á saman söfnuðinum, skulu þér blása, en þó eigi
hvelt. [8] Og synir Arons, prestarnir, skulu blása í lúðrana, og skal það
vera ævarandi lögmál fyrir yður frá kyni til kyns. [9] Og þá er þér farið
í stríð í landi yðar móti óvinum yðar, sem á yður herja, skuluð þér
blása hvelt í lúðrana, og mun yðar minst verða af Jahve, Guði yðar,
og þér frelsaðir verða frá fjandmönnum yðar. [10] Á gleðidögum yðar,
á löghátíðum yðar og í mánaðarbyrjun skuluð þér og blása í lúðrana
við brennifórnir yðar og heillafórnir, og skulu þeir vera yður til minn-
ingar frammi fyrir Guði yðar; eg er Jahve, Guð yðar.
[11] Á öðru ári, í öðrum mánuðinum, á tuttugasta degi mánaðarins
hófst skýið upp frá sáttmálsbúðinni. [12] Tóku Ísraelsmenn sig þá upp
eftir röð úr Sínaí-eyðimörk, og skýið nam staðar í Paran-eyðimörk.
[13] Þannig lögðu þeir upp í fyrsta skiftið að boði Jahve fyrir Móse.
[14] Tók merki herbúða Júda sona sig fyrst upp eftir hersveitum þeirra;
en fyrir her hans var Nahson Ammínadabsson. [15] Og fyrir her ætt-
kvíslar Íssakars sona var Netanel Zúarsson. [16] Og fyrir her ættkvíslar
Sebúlons sona var Elíab Helónsson. [17] Og er búðin var ofan tekin, tóku
Gersons synir og Merarí synir sig upp; báru þeir búðina. [18] Og merki
Rúbens herbúða tók sig upp eftir hersveitum þeirra; en fyrir her hans
var Elízúr Sedeúrsson. [19] Og fyrir her ættkvíslar Símeons sona var
Selúmíel Zúrísaddaíson. [20] Og fyrir her ættkvíslar Gaðs sona var Eljasaf
Degúelsson. [21] Þá tóku Kahatítar sig upp; báru þeir hina helgu dóma;
og hinir settu upp búðina, þangað til þeir komu. [22] Og merki herbúða

16: kap. 10, 34. 17: 2 Mós. 40, 36 n. — 10, 9: kap. 31, 6. 2 Kron. 13, 12. 14. 10: 2 Kron. 7, 6. 12: kap. 12, 16. 17: kap. 4, 24 n. 29 n. 7, 6 n. 21: kap. 4, 4 n.

Efraíms sona tók sig upp eftir hersveitum þeirra; en fyrir her hans var
Elísama Ammíhúdsson. 23 Og fyrir her ættkvíslar Manasse sona var
Gamlíel Pedazúrsson. 24 Og fyrir her ættkvíslar Benjamíns sona var
Abídan Gídeóníson. 25 Og merki herbúða Dans sona tók sig upp eftir
hersveitum þeirra; fór það síðast allra herbúðanna; en fyrir her hans
var Akíeser Ammísaddaíson. 26 Og fyrir her ættkvíslar Assers sona var
Pagíel Okransson. 27 Og fyrir her ættkvíslar Naftalísona var Akíra En-
ansson. 28 Þessi var röðin á Ísraelsmönnum eftir hersveitum þeirra, er
þeir lögðu upp.

29 Þá sagði Móse við Hóbab Regúelsson Midíaníta, tengdaföður
Móse: Vér leggjum nú upp áleiðis til þess staðar, sem Jahve hefir sagt
um: »Eg mun gefa yður hann«; kom þú með oss og munum vér
gjöra vel við þig, því að Jahve hefir heitið Ísrael góðu. 30 Og hann
sagði við hann: Eigi vil eg fara; heldur mun eg halda heim í land
mitt og til ættfólks míns. 31 En hann sagði: Eigi mátt þú yfirgefa oss,
af því að þú veizt, hvar vér getum tjaldað í eyðimörkinni, og skalt þú
vera oss sem auga. 32 Og farir þú með oss og oss hlotnast þau gæði,
sem Jahve vill veita oss, þá munum vér gjöra vel við þig.

33 Héldu þeir nú frá fjalli Jahve þrjár dagleiðir, en sáttmálsörk
Jahve fór á undan þeim þrjár dagleiðir, til þess að velja hvíldarstað
handa þeim. 34 Og ský Jahve var yfir þeim á daginn, er þeir tóku sig
upp úr herbúðunum. 35 En er örkin tók sig upp, sagði Móse: Rís þú
upp, Jahve, svo að óvinir þínir tvístrist og fjendur þínir flýi fyrir þér.
36 Og er hún nam staðar, sagði hann: Hverf þú aftur, Jahve, til hinna
tíu þúsund þúsunda Ísraels.

## Kurr og grægi lýðsins. Sjötíu öldungar settir Móse til aðstoðar. Lynghæns.

11 Og lýðurinn möglaði hátt gegn Jahve yfir böli sínu; og er Jahve
heyrði það, upptendraðist reiði hans. Kviknaði þá eldur frá Jahve
meðal þeirra og eyddi yzta hluta herbúðanna. 2 Þá kveinaði lýðurinn
fyrir Móse, og Móse bað til Jahve; tók þá eldurinn að slokna. 3 Var
staður þessi kallaður Tabera*, því að eldur Jahve kviknaði meðal þeirra.

4 Og skríllinn, sem með þeim var, fyltist lysting; tóku Ísraelsmenn
þá og aftur að gráta og sögðu: Hver gefur oss nú kjöt að eta? 5 Víst
munum vér eftir fiskinum, sem vér átum á Egiptalandi fyrir ekki neitt,
eftir agúrkunum, melónunum, graslauknum, blómlauknum og hnapp-
lauknum. 6 En nú örmagnast sála vor; hér er alls ekki neitt, vér sjá-
um ekkert nema þetta manna. 7 En manna var eins og kóríanderfræ
og að útliti sem bedolak-harpeis. 8 Fólkið fór á víð og dreif og tíndi
og þeir möluðu það í handkvörnum eða steyttu það í mortéli, suðu
því næst í pottum og gjörðu úr því kökur; en það var á bragðið eins
og olíukökur. 9 Og þegar dögg féll á nóttum yfir herbúðirnar, þá féll
og manna yfir þær. 10 Og Móse heyrði fólkið gráta, hvern með sitt
skuldalið fyrir dyrum tjalds síns; upptendraðist þá reiði Jahve ákaf-
lega, og féll Móse það illa. 11 Og Móse sagði við Jahve: Hví gjörir þú
svo illa við þjón þinn, og hví hefi eg eigi fundið náð í augum þínum,
að þú skulir leggja á mig byrði alls þessa fólks? 12 Hefi eg gengið
þungaður að öllu þessu fólki, hefi eg borið það í heiminn, að þú skulir
segja við mig: Ber það í faðmi þér, eins og barnfóstri ber brjóstmylk-

**29:** 2 Mós. 2, 18; 3, 1; 18, 1 n. **35:** Sálm. 68, 2. — **11, 1:** 3 Mós. 10, 2. 2 Kong. 1, 10. **2:** Am. 7, 5. **3:** * Þ. e. bruni. **4:** 2 Mós. 12, 38; 16, 3. Sálm. 106, 14. 1 Kor. 10, 6. **7:** 2 Mós. 16, 31. 1 Mós. 2, 12. **9:** 2 Mós. 16, 13. 14. **12:** 5 Mós. 1, 31.

ing, inn í landið, sem þú sórst feðrum þeirra? [13] Hvaðan á eg að fá
kjöt, til að gefa öllu þessu fólki? Því að þeir gráta fyrir mér og segja:
Gef oss kjöt að eta! [14] Eg rís ekki einn undir öllu þessu fólki, því að
það er mér of þungt. [15] Og ef þú ætlar að fara svona með mig, þá
deyð mig heldur hreinlega, ef eg hefi fundið náð í augum þínum, svo
að eg þurfi eigi að horfa upp á ógæfu mína.
[16] Þá sagði Jahve við Móse: Safna þú mér sjötíu mönnum af
öldungum Ísraels, sem þú veizt að eru öldungar meðal fólksins og til-
sjónarmenn þess, og skalt þú fara með þá að samfundatjaldinu, svo
að þeir skipi sér þar ásamt þér. [17] Og eg vil stíga niður og tala þar
við þig, og eg vil taka af anda þeim, sem yfir þér er, og leggja yfir
þá, svo að þeir beri með þér byrði fólksins og þú berir hana ekki einn.
[18] Og til fólksins skalt þú mæla: Helgið yður til morguns; þá skuluð
þér fá kjöt að eta; því að þér hafið kveinað í eyru Jahve og sagt:
Hver gefur oss kjöt að eta? því að vel leið oss í Egiptalandi. Og
Jahve mun gefa yður kjöt að eta. [19] Þér skuluð ekki eta það einn dag,
og ekki tvo daga, og ekki fimm daga, og ekki tíu daga, og ekki tutt-
ugu daga, [20] heldur heilan mánuð, þangað til það gengur út af nösum
yðar og yður býður við því, af því að þér hafið hafnað Jahve, sem
meðal yðar er, og kveinað fyrir augliti hans og sagt: Hví fórum vér
burt úr Egiptalandi? [21] Þá sagði Móse: Fólkið, sem eg er með, er sex
hundruð þúsund fótgangandi manna, og þú segir: Eg vil gefa þeim
kjöt að eta í heilan mánuð. [22] Á þá að slátra sauðum og nautum handa
þeim, svo að þeim nægi? eða á að safna saman öllum fiskum í sjónum
handa þeim, svo að þeim nægi? [23] Og Jahve sagði við Móse: Er þá
hönd Jahve stutt orðin? Nú skalt þú sjá, hvort orð mín koma fram
við þig eða ekki. [24] Og Móse gekk burt og bar fólkinu orð Jahve og
safnaði saman sjötíu manns af öldungum fólksins og lét þá skipa sér
umhverfis tjaldið. [25] Og Jahve sté niður í skýinu og talaði við hann;
og hann tók af anda þeim, sem yfir honum var, og lagði hann yfir
öldungana sjötíu. Og er andinn kom yfir þá, spáðu þeir, og aldrei
síðan. [26] Og tveir menn höfðu orðið eftir í herbúðunum; hét annar
Eldad, en hinn Medad, og andinn kom yfir þá; voru þeir meðal hinna
skráðu, en höfðu ekki gengið út að tjaldinu; og þeir spáðu í herbúð-
unum. [27] Þá kom ungmenni hlaupandi og sagði Móse og mælti: Eldad
og Medad eru að spá í herbúðunum. [28] Og Jósúa Núnsson, er þjónað
hafði Móse frá æsku, svaraði og sagði: Móse, herra minn, bannaðu
þeim það! [29] En Móse sagði við hann: Tekur þú upp þykkjuna fyrir
mig? Eg vildi að allur lýður Jahve væri spámenn, svo að Jahve legði
anda sinn yfir þá. [30] Og Móse gekk aftur í herbúðirnar, hann og öld-
ungar Ísraels.
[31] Þá tók að blása vindur frá Jahve, og flutti hann lynghæns frá
sjónum og varp þeim yfir herbúðirnar, svo sem dagleið í allar áttir,
hringinn í kring um herbúðirnar, og um tvær álnir frá jörðu. [32] Og
fólkið fór til allan þann dag og alla nóttina og allan daginn eftir og
safnaði lynghænsum. Sá, sem minstu safnaði, safnaði tíu kómer; og
þeir breiddu þau alt í kring um herbúðirnar. [33] Meðan kjötið var enn
milli tanna þeirra, áður en það var upp unnið, upptendraðist reiði
Jahve gegn fólkinu, og Jahve lét þar verða mjög mikinn mannfelli
meðal fólksins. [34] Og staður þessi var nefndur Kibrót-hattava*, því að
þar grófu þeir fólkið, er fylst hafði græðgi. [35] Frá Kibrót-hattava hélt
lýðurinn til Hazerót, og þeir staðnæmdust í Hazerót.

---

**13:** Matt. 15, 33. **18:** 2 Mós. 19, 10. **20:** kap. 21, 5. **23:** Jes. 50, 2; 59, 1. **25:** kap. 12, 5; 14, 10. 1 Sam. 10, 5. 6. Jóel 3, 1. Post. 2, 17. **27:** Mark. 9, 38 n. **28:** 2 Mós. 24, 13. **31:** 2 Mós. 16, 13. **33:** Sálm. 78, 30. 31. **34:** * Þ. e. græðgi-grafir. **35:** kap. 33, 16 n.

### Aron og Mirjam rísa í gegn Móse. Mirjam verður líkþrá.

12 Og Mirjam og Aron mæltu í gegn Móse vegna blálenzku kon-
unnar, er hann hafði gengið að eiga; því að hann hafði gengið
að eiga blálenzka konu. [2] Og þau sögðu: Hefir Jahve aðeins talað
við Móse? hefir hann ekki talað við okkur líka? Og Jahve heyrði
það. [3] En maðurinn Móse var einkar-hógvær, framar öllum mönnum
á jörðu. [4] Þá talaði Jahve alt í einu til Móse, Arons og Mirjam:
Farið þið þrjú til samfundatjaldsins! Og þau gengu þangað þrjú.
[5] Þá sté Jahve niður í skýstólpanum og nam staðar í tjalddyrunum og
kallaði á Aron og Mirjam, og þau gengu bæði fram. [6] Og hann sagði:
Heyrið orð mín! Þegar spámaður er meðal yðar, þá birtist eg honum
í sýn, eða tala við hann í draumi. [7] Ekki er því þannig farið um
þjón minn Móse; honum er trúað fyrir öllu húsi mínu. [8] Eg tala við
hann munni til munns, berlega og eigi í ráðgátum; og hann sér mynd
Jahve. Og hví skirðust þið þá eigi við að mæla í gegn þjóni mínum,
í gegn Móse? [9] Og reiði Jahve upptendraðist gegn þeim, og hann fór
burt. [10] Og skýið veik burt frá tjaldinu, og sjá, Mirjam var orðin lík-
þrá, hvít sem snjór. Og Aron sneri sér að Mirjam, og sjá, hún
var orðin líkþrá. [11] Þá sagði Aron við Móse: Æ, herra minn! lát
okkur eigi gjalda þess, að við breyttum heimskulega og syndguðum.
[12] Æ, lát hana eigi vera sem andvana burð, sem helmingurinn af hold-
inu er rotnaður á, þá er hann kemur af móðurlífi. [13] Og Móse hróp-
aði til Jahve og sagði: Æ, Guð! gjör hana aftur heila! [14] Þá sagði Jahve
við Móse: Ef faðir hennar hefði hrækt í andlit henni, mundi hún þá
eigi hafa orðið að bera kinnroða í sjö daga? Skal hún í sjö daga
vera inni byrgð utan herbúða, en eftir það má taka hana inn aftur.
[15] Og Mirjam var byrgð inni sjö daga fyrir utan herbúðirnar, og lýð-
urinn lagði ekki upp fyr en Mirjam var aftur inn tekin. [16] Eftir þetta
lagði lýðurinn upp frá Hazerót og setti herbúðir sínar í Paran-
eyðimörk.

### Njósnarmenn sendir til Kanaanlands.

13 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Send þú menn til að
kanna Kanaanland, er eg mun gefa Ísraelsmönnum. Einn skuluð
þér senda af ættkvísl hverri, og sé hver þeirra höfðingi meðal þeirra.
[3] Og Móse sendi þá úr Paran-eyðimörk að boði Jahve; þeir menn
voru allir höfuðsmenn meðal Ísraelsmanna. [4] Og þessi eru nöfn þeirra:
af ættkvísl Rúbens: Sammúa Sakkúrsson; [5] af ættkvísl Símeons: Safat
Hórison; [6] af ættkvísl Júda: Kaleb Jefúnneson; [7] af ættkvísl Íssakars:
Jígeal Jósefsson; [8] af ættkvísl Efraíms: Hósea Núnsson; [9] af ættkvísl
Benjamíns: Paltí Rafúson; [10] af ættkvísl Sebúlons: Gaddíel Sódíson;
[11] af ættkvísl Jósefs: af ættkvísl Manasse: Gaddí Súsíson; [12] af ætt-
kvísl Dans: Ammíel Gemallíson; [13] af ættkvísl Assers: Setúr Míkaelsson;
[14] af ættkvísl Naftalí: Nakbí Vofsíson; [15] af ættkvísl Gaðs: Geúel Makí-
son. [16] Þessi eru nöfn þeirra manna, sem Móse sendi til að kanna
landið. En Móse kallaði Hósea Núnsson Jósúa. [17] Og Móse sendi þá
til að kanna Kanaanland og sagði við þá: Farið þér inn í suðurlandið
og gangið á fjöll upp [18] og skoðið landið, hvernig það er, og fólkið, sem
í því býr, hvort það er hraustlegt eða veiklegt, fátt eða margt, [19] og
hvernig landið er, sem það býr í, hvort það er gott eða ilt, og hvernig

---

**12, 2**: 2 Mós. 15, 20. Mík. 6, 4. **5**: kap. 11, 25. **7**: Hebr. 3, 2. **8**: 2 Mós. 33, 11.
5 Mós. 34, 10. **10**: 5 Mós. 24, 9. **14**: 3 Mós. 13, 46. **16**: kap. 10, 12. – **13, 2**: 5
Mós. 1, 22. **6**: Jós. 14, 6. 7.

bæirnir eru, sem það býr í, hvort það eru tjöld eða víggirtar borgir,
[20] og hvernig landið er, hvort það er feitt eða magurt, hvort þar eru
skógar eða ekki; og verið hugrakkir og komið með nokkuð af ávöxt-
um landsins. En þetta var á öndverðum vínberjatíma. [21] Héldu þeir
nú norður eftir og könnuðu landið frá Zín-eyðimörk alt til Rehób,
þangað sem leið liggur til Hamat. [22] Og þeir fóru inn í suðurlandið
og komu til Hebron; þar voru þeir Ahíman, Sesaí og Talmaí Anaks-
synir; en Hebron var reist sjö árum fyr en Zóan í Egiptalandi. [23] Og
þeir komu í Eskóldal og sniðu þar af vínviðargrein með einum vín-
berjaklasa og báru hann tveir á stöng milli sín, þar að auki nokkur
granatepli og nokkurar fíkjur. [24] Var staður þessi kallaður Eskóldalur*
vegna klasans, sem Ísraelsmenn skáru þar af. [25] Og þeir sneru aftur að
fjörutíu dögum liðnum og höfðu þá kannað landið. [26] Og þeir héldu
heimleiðis og komu til Móse og Arons og alls safnaðar Ísraelsmanna í
Paran-eyðimörk, til Kades; og þeir sögðu þeim og öllum söfnuðinum
af ferðum sínum, og sýndu þeim ávöxtu landsins. [27] Og þeir sögðu
honum frá og mæltu: Vér komum í landið, þangað sem þú sendir oss,
og að sönnu flýtur það í mjólk og hunangi, og þetta er ávöxtur þess;
[28] en það er hraust þjóð, sem í landinu býr, og borgirnar eru víggirtar
og stórar mjög, og Anakssonu sáum vér þar einnig. [29] Amalekítar
byggja suðurlandið; og Hetítar, Jebúsítar og Amórítar byggja fjalllendið,
og Kanaanítar búa við sjóinn og með fram Jórdan. [30] Og Kaleb stöð-
vaði kurr lýðsins gegn Móse og mælti: Förum þangað og leggjum það
undir oss, því að vér munum fá unnið það. [31] En þeir menn, er með
honum höfðu farið, sögðu: Oss er ofvaxið að fara mót þessari þjóð,
því að hún er sterkari en vér. [32] Og þeir, sem kannað höfðu landið,
sögðu Ísraelsmönnum ilt af því og mæltu: Landið, sem vér fórum um,
til þess að kanna það, er land, sem etur upp íbúa sína, og alt fólkið,
sem vér sáum þar, eru risavaxnir menn. [33] Og vér sáum þar risa,
Anakssonu, sem eru risa ættar, og vér vorum í augum sjálfra vor sem
engisprettur, og eins vorum vér í þeirra augum.

### Kurr lýðsins.

14 Þá æpti allur söfnuðurinn upp yfir sig, og fólkið grét þá nótt.
[2] Og allir Ísraelsmenn mögluðu gegn Móse og Aroni, og allur
söfnuðurinn sagði við þá: Guð gæfi að vér hefðum dáið í Egiptalandi
eða vér hefðum dáið í þessari eyðimörku! [3] Hví leiðir Jahve oss inn
í þetta land, til þess að falla fyrir sverði? Konur vorar og börn munu
verða að herfangi. Mun oss eigi betra að snúa aftur til Egiptalands?
[4] Og þeir sögðu hver við annan: Tökum oss foringja og hverfum aftur
til Egiptalands! [5] Þá féllu þeir Móse og Aron á ásjónur sínar frammi
fyrir allri samkomu safnaðar Ísraelsmanna. [6] En Jósúa Núnsson og
Kaleb Jefúnneson, tveir þeirra, sem kannað höfðu landið, rifu klæði sín.
[7] Og þeir sögðu við allan söfnuð Ísraelsmanna: Land það, sem vér
fórum um, til þess að kanna það, er mesta ágætisland. [8] Ef Jahve
hefir á oss velþóknun, þá mun hann flytja oss inn í þetta land og gefa
oss það, — landið, sem flýtur í mjólk og hunangi. [9] Gjörið aðeins
ekki uppreisn móti Jahve og hræðist ekki landsfólkið, því að þeir eru
brauð vort; vikin er frá þeim vörn þeirra, en Jahve er með oss; hræð-

---

**22:** 5 Mós. 1, 28; 9, 2. 1 Mós. 13, 18. **24:** * Þ. e. þrúgnadalur. **27:** 2 Mós. 3, 8. 17. **30:** kap. 14, 6 n. **33:** 5 Mós. 9, 2. — **14, 1:** kap. 21, 5. 5 Mós. 1, 27. Sálm. 106, 25. **2:** 2 Mós. 16, 3. **6:** kap. 13, 30. **8:** kap. 13, 27. **9:** 5 Mós. 20, 3 n. Sálm. 56, 5.

ist þá eigi! 10 En allur söfnuðurinn vildi berja þá grjóti; birtist þá
dýrð Jahve í samfundatjaldinu öllum Ísraelsmönnum.
11 Og Jahve sagði við Móse: Hversu lengi mun þessi þjóð halda
áfram að fyrirlíta mig, og hversu lengi munu þeir vantreysta mér,
þrátt fyrir öll þau tákn, sem eg hefi gjört meðal þeirra? 12 Mun eg nú
slá þá með drepsótt og tortíma þeim, en þig mun eg gjöra að þjóð,
meiri og voldugri en þeir eru. 13 Og Móse sagði við Jahve: En Egiptar
hafa heyrt, að þú hafir með mætti þínum flutt þennan lýð burt frá
þeim, 14 og þeir hafa sagt það íbúum þessa lands. Þeir hafa heyrt, að
þú, Jahve, sért meðal þessa fólks, að þú, Jahve, hafir birzt þeim aug-
liti til auglitis, og að ský þitt standi yfir þeim og að þú gangir fyrir
þeim í skýstólpa um daga og í eldstólpa um nætur. 15 Ef þú nú
drepur fólk þetta sem einn mann, munu þjóðir þær, er spurnir hafa
af þér haft, mæla á þessa leið: 16 Af því að Jahve megnaði eigi að
leiða þennan lýð inn í landið, sem hann hafði svarið þeim, þá slátraði
hann þeim í eyðimörkinni. 17 Og sýn nú mátt þinn mikinn, drottinn
minn, eins og þú hefir heitið, þá er þú sagðir: 18 Jahve er þolinmóður
og gæzkuríkur, fyrirgefur misgjörðir og afbrot, en lætur þau þó eigi
með öllu óhegnd, heldur vitjar misgjörða feðranna á börnunum, já í
þriðja og fjórða lið. 19 Fyrirgef misgjörðir þessa fólks eftir mikilli
miskunn þinni og eins og þú hefir fyrirgefið þessu fólki frá Egipta-
landi og hingað. 20 Og Jahve sagði: Eg fyrirgef, eins og þú biður.
21 En svo sannarlega sem eg lifi og öll jörðin er full af dýrð Jahve:
22 allir þeir menn, sem séð hafa dýrð mína og tákn mín, þau er eg
gjörði í Egiptalandi og í eyðimörkinni, og nú hafa freistað mín tíu
sinnum og óhlýðnast röddu minni, 23 þeir skulu vissulega ekki sjá land-
ið, sem eg sór feðrum þeirra; og engir þeirra manna, sem mig hafa
fyrirlitið, skulu sjá það. 24 En af því að annar andi er yfir þjóni mín-
um Kaleb og af því að hann hefir fylgt mér trúlega, þá vil eg leiða
hann inn í landið, sem hann fór til; og niðjar hans skulu eignast það.
25 En Amalekítar og Kanaanítar búa á láglendinu. Snúið við á morg-
un og farið í eyðimörkina leiðina til Rauðahafs.
26 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: 27 Hversu lengi á
eg að umbera þennan illa lýð, sem möglar í gegn mér? Eg hefi heyrt
kurr Ísraelsmanna, er þeir hafa gjört í gegn mér. 28 Seg þú þeim: Svo
sannarlega sem eg lifi, segir Jahve: eins og þér hafið talað í mín eyru,
svo mun eg við yður gjöra. 29 Í þessari eyðimörku skuluð þér dauðir
hníga, allir þér, sem taldir voruð, með fullri tölu, frá tvítugs aldri og
þaðan af eldri, þér sem möglað hafið í gegn mér. 30 Þér skuluð vissu-
lega ekki koma inn í landið, sem eg sór að gefa yður til bústaðar,
nema Kaleb Jefúnneson og Jósúa Núnsson. 31 En börn yðar, er þér
sögðuð að verða mundu að herfangi, þau mun eg flytja þangað, og
þau munu fá að kynnast landinu, sem þér höfnuðuð. 32 En sjálfir
skuluð þér dauðir hníga í þessari eyðimörku. 33 Og synir yðar skulu
fara með hjarðir um eyðimörkina í fjörutíu ár og gjalda fráhvarfs yð-
ar, unz þér allir liggið dauðir í eyðimörkinni. 34 Eins og þér voruð í
fjörutíu daga að kanna landið, svo skuluð þér bera misgjörð yðar í
fjörutíu ár, eitt ár fyrir hvern dag, og fá að reyna, hvað það er, að
vera yfirgefinn af mér. 35 Eg Jahve hefi sagt: Sannarlega mun eg svo

**10:** 2 Mós. 17, 4. 1 Sam. 30, 6. 4 Mós. 12, 5. **12:** 2 Mós. 32, 10 n. **14:** Jós. 9, 9. 2 Mós. 13, 21; 40, 38. **16:** 5 Mós. 9, 28. Esek. 20, 14. **18:** 2 Mós. 20, 5; 34, 6. 7. Sálm. 86, 5. 15. **19:** 5 Mós. 9, 26. **21:** Jes. 6, 3. **23:** kap. 26, 65. 5. Mós. 1, 35. Sálm. 95, 11. **24:** Jós. 14, 6—14. **27:** Sálm. 106, 25 n. **28:** v. 2. **29:** kap. 1, 45. 46; 32, 11. 12. **30:** kap. 26, 65. **31:** v. 3. 5. Mós. 1, 39. **33:** Sálm. 95, 10. 11. 1 Kor. 10, 5. Hebr. 3, 17. Júd. 5. **34:** kap. 13, 25.

gjöra við allan þennan illa lýð, sem gjört hefir samblástur móti mér; í
þessari eyðimörk skulu þeir farast og þar skulu þeir deyja. 36 Og þeir
menn, sem Móse hafði sent til að kanna landið og aftur hurfu, og
komu öllum lýðnum til að mögla móti honum, með því að segja ilt af
landinu, — 37 þeir menn, sem lastað höfðu landið, biðu bráðan bana
fyrir augliti Jahve. 38 En Jósúa Núnsson og Kaleb Jefúnneson lifðu
eftir af þeim mönnum, sem farið höfðu að kanna landið.
39 Og Móse flutti öllum Ísraelsmönnum þessi orð; varð fólkið þá
mjög sorgbitið. 40 Og þeir risu árla um morguninn og gengu upp á
fjallshrygginn og sögðu: Hér erum vér; viljum vér nú fara til þess stað-
ar, sem Jahve hefir talað um; því að vér höfum syndgað. 41 Þá mælti
Móse: Hví brjótið þér boð Jahve? Það mun eigi lánast! 42 Farið eigi,
því að Jahve er eigi meðal yðar, svo að þér bíðið eigi ósigur fyrir ó-
vinum yðar; 43 því að Amalekítar og Kanaanítar eru þar fyrir yður, og
þér munuð falla fyrir sverði; sökum þess að þér hafið snúið baki við
Jahve, mun Jahve eigi með yður vera. 44 En þeir létu eigi af þrályndi
sínu og fóru upp á fjallstindinn; en sáttmálsörk Jahve og Móse viku
eigi úr herbúðunum. 45 Þá komu Amalekítar og Kanaanítar, er á fjalli
þessu bjuggu, ofan, unnu sigur á þeim og tvístruðu þeim alla leið til
Horma.

## Ýmisleg lagaákvæði.

15 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú til Ísraelsmanna
og seg við þá: Þegar þér komið í land það, sem eg mun gefa
yður til bólfestu, 3 og þér færið Jahve eldfórn, hvort heldur er
brennifórn eða sláturfórn, til að efna heit eða í sjálfviljafórn
eða í tilefni af löghátíðum yðar, til þess að gjöra Jahve þægilegan
ilm af nautum eða sauðfénaði, 4 þá skal sá, er færir Jahve fórnar-
gjöf sína, jafnframt bera fram í matfórn einn tíunda part úr efu af
fínu mjöli, blönduðu við einn fjórða part úr hín af olíu. 5 En af
víni í dreypifórn skalt þú fórna einum fjórða parti úr hín með brenni-
fórn eða sláturfórn, með hverri sauðkind. 6 Eða sé það með hrút, þá
skalt þú fórna tveim tíundu pörtum úr efu af fínu mjöli, blönduðu við
þriðjung hínar af olíu, í matfórn; 7 en af víni í dreypifórn þriðjung
hínar; skalt þú fram bera það sem þægilegan ilm Jahve til handa.
8 Og þegar þú fórnar ungneyti í brennifórn eða sláturfórn, til þess að
efna heit, eða í heillafórn Jahve til handa, 9 þá skal fram bera í mat-
fórn með ungneytinu þrjá tíundu parta úr efu af fínu mjöli, blönduðu
við hálfa hín af olíu; 10 en af víni skalt þú fram bera í dreypifórn hálfa
hín sem eldfórn þægilegs ilms Jahve til handa. 11 Skal svo gjört við
sérhvern uxa, sérhvern hrút, við sérhvert lamb, hvort heldur er af
sauðkindum eða geitum. 12 Eftir tölunni á því, sem þér fórnið, skuluð
þér svo gjöra við hverja skepnu eftir tölu þeirra. 13 Sérhver innborinn
maður skal fara eftir þessu, þegar hann færir Jahve eldfórn þægilegs
ilms. 14 Og ef útlendingur dvelur um hríð meðal yðar eða einhver,
sem tekið hefir sér fastan bústað meðal yðar, og hann fórnar Jahve
eldfórn þægilegs ilms, þá skal hann gjöra svo sem þér gjörið. 15 Að
því, er söfnuðinn snertir, þá skulu vera ein lög bæði fyrir yður og út-
lendan mann, er hjá yður dvelur; er það ævarandi lögmál frá kyni til
kyns; fyrir Jahve gildir hið sama um útlendan mann sem um yður.
16 Ein lög og einn réttur skal vera bæði fyrir yður og útlendan mann,
sem með yður dvelur.

---

37: kap. 13, 32. 38: v. 30. 40: 5 Mós. 1, 41 n. 44: 5 Mós. 1, 43 n. 45: kap. 21, 3.
— 15, 5: 2 Mós. 29, 40 n. 15: 2 Mós. 12, 49. 3 Mós. 24, 22. 4 Mós. 9, 14.

[17] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [18] Tala þú við Ísraelsmenn
og seg við þá: Þegar þér komið í land það, er eg mun leiða yður inn
í, [19] þá skuluð þér fórna Jahve lyftifórn, er þér etið af brauði landsins.
[20] Sem frumgróða af deigi yðar skuluð þér fórna köku í lyftifórn; eins
og lyftifórninni af láfanum, svo skuluð þér fórna henni. [21] Af frum-
gróðanum af deigi yðar skuluð þér gefa Jahve lyftifórn frá kyni til kyns.
[22] Og ef yður yfirsést og þér haldið eigi öll þessi boðorð, sem
Jahve hefir lagt fyrir Móse, [23] alt það, sem Jahve hefir boðið yður
fyrir Móse, frá þeim degi, er Jahve bauð það og upp frá því, frá kyni
til kyns, [24] og ef misgjörðin er framin án þess söfnuðurinn viti af, þá
skal allur söfnuðurinn fórna ungneyti í brennifórn, til þægilegs ilms
fyrir Jahve, ásamt matfórn og dreypifórn, er því fylgja, að réttum sið,
og geithafri í syndafórn. [25] Og presturinn skal friðþægja fyrir allan
söfnuð Ísraelsmanna, og þeim mun fyrirgefið verða. Því að það var
yfirsjón, og þeir hafa fram borið fórnargjöf sína, eldfórn Jahve til
handa, svo og syndafórn sína fram fyrir Jahve vegna yfirsjónar sinn-
ar. [26] Og öllum söfnuði Ísraelsmanna mun fyrirgefið verða, svo og út-
lendum manni, er meðal yðar dvelur; því að yfirsjónin féll á allan
söfnuðinn. [27] En ef einhver maður syndgar af vangá, skal hann fórna
veturgamalli geit í syndafórn. [28] Og presturinn skal frammi fyrir Jahve
friðþægja fyrir þann, er yfirsjón hefir hent og syndgað hefir af vangá,
til þess að friðþægja fyrir hann, og honum mun fyrirgefið verða. [29] Þér
skuluð hafa ein lög fyrir þann, er gjörir eitthvað af vangá, bæði fyrir
mann innborinn meðal Ísraelsmanna og fyrir útlending, er dvelur með-
al þeirra. [30] En sá maður, er fremur eitthvað með uppreiddri hendi*,
hvort heldur er innborinn maður eða útlendingur, hann smánar Jahve,
og skal sá maður upprættur verða úr þjóð sinni. [31] Því að hann hefir
virt orð Jahve að vettugi og brotið boðorð hans; slíkur maður skal
vægðarlaust upprættur verða; misgjörð hans hvílir á honum.
[32] Og meðan Ísraelsmenn voru í eyðimörkinni, stóðu þeir mann
að því, að bera saman við á hvíldardegi. [33] Og þeir sem hittu hann,
þar sem hann var að bera saman viðinn, færðu hann fyrir Móse og
Aron og fyrir allan söfnuðinn. [34] Og þeir settu hann í varðhald, því
að enginn úrskurður var til um það, hversu með hann skyldi fara.
[35] En Jahve sagði við Móse: Manninn skal af lífi taka; allur söfnuður-
inn skal berja hann grjóti fyrir utan herbúðirnar. [36] Þá færði allur
söfnuðurinn hann út fyrir herbúðirnar og barði hann grjóti til bana,
eins og Jahve hafði boðið Móse.
[37] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [38] Tala þú við Ísraelsmenn
og seg við þá, að þeir skuli gjöra sér skúfa á skaut klæða sinna, frá
kyni til kyns, og festa snúru af bláum purpura við skautskúfana. [39] Og
það skal vera yður merkiskraut: þegar þér horfið á það, skuluð þér
minnast allra boðorða Jahve, svo að þér breytið eftir þeim og hlaupið
ekki eftir fýsnum hjarta yðvarra né augna, en með því leiðist þér til
hjáguðadýrkunar; [40] til þess að þér munið öll mín boðorð og breytið
eftir þeim og séuð heilagir fyrir Guði yðar. [41] Eg er Jahve, Guð yðar,
sem leiddi yður út af Egiptalandi, til þess að vera yðar Guð; eg er
Jahve, Guð yðar.

---

**20:** 3 Mós. 23, 10. 11. **24:** 3 Mós. 4, 13 n. **27:** 3 Mós. 4, 27 n. **30:** * Þ. e. af ásetningi. **32:** 2 Mós. 20, 8. **34:** 3 Mós. 24, 12. 4 Mós. 9, 8. **38:** 5 Mós. 22, 12. Matt. 23, 5. **41:** 2 Mós. 20, 2.

## Þeir Kóra og fylgismenn hans gjöra uppreisn.

16 En Kóra, sonur Jízehars, Kahats sonar, Leví sonar, gjörði
uppreisn, ásamt þeim Datan og Abíram, sonum Elíabs, Pallú
sonar, Rúbens sonar. 2 Og þeir risu upp í móti Móse og með þeim
tvö hundruð og fimtíu manns af Ísraelsmönnum; voru það höfuðs-
menn safnaðarins og fulltrúar, nafnkunnir menn. 3 Og þeir söfnuðust
saman í gegn þeim Móse og Aroni og sögðu við þá: Nú er nóg komið!
því að allur söfnuðurinn — allir eru þeir heilagir, og Jahve er meðal
þeirra; hví hefjið þið ykkur þá upp yfir söfnuð Jahve? 4 Og er Móse
heyrði þetta, féll hann fram á ásjónu sína. 5 Því næst mælti hann við
Kóra og allan flokk hans og sagði: Á morgun mun Jahve kunnugt
gjöra, hver hans er og hver heilagur er og hvern hann lætur nálgast
sig, og þann, sem hann kýs sér, mun hann láta nálgast sig. 6 Gjörið
þetta: Takið yður eldpönnur, Kóra og allur flokkur hans; 7 látið eld í
þær og leggið á reykelsi fyrir augliti Jahve á morgun; og sá, sem
Jahve kýs sér, hann skal vera heilagur. Nú er nóg komið, Leví synir!
8 Og Móse sagði við Kóra: Heyrið, Leví synir! 9 Sýnist yður það
lítils vert, að Ísraels Guð greindi yður frá söfnuði Ísraels, til þess að
láta yður nálgast sig, til þess að þér skylduð gegna þjónustu við búð
Jahve og standa frammi fyrir söfnuðinum, til að þjóna honum; 10 og
hann lét þig nálgast sig og alla bræður þína, Leví sonu, með þér; og
nú viljið þér einnig ná í prestembættið? 11 Fyrir því hefir þú og allur
þinn flokkur gjört samblástur í gegn Jahve; því að hvað er Aron, að
þér möglið í gegn honum?
12 Og Móse lét kalla þá Datan og Abíram, Elíabs sonu, en þeir
svöruðu: Eigi munum vér koma. 13 Sýnist þér það lítils vert, að þú
leiddir oss brott úr því landi, er flýtur í mjólk og hunangi, til þess
að láta oss deyja í eyðimörkinni, úr því þú vilt einnig gjörast drotnari
yfir oss? 14 Þú hefir og eigi leitt oss inn í land, er flýtur í mjólk og
hunangi, né gefið oss akra og víngarða til eignar. Hvort ætlar þú,
að þú megir stinga augun úr mönnum þessum? Eigi munum vér
koma! 15 Þá varð Móse afar-reiður og sagði við Jahve: Lít ekki við
fórn þeirra! Eigi hefi eg tekið svo mikið sem asna frá þeim, né gjört
nokkurum þeirra mein.
16 Þá sagði Móse við Kóra: Þú og allur flokkur þinn skuluð á
morgun koma fram fyrir Jahve — þú og þeir og Aron. 17 Og takið
hver sína eldpönnu og leggið á reykelsi og færið því næst hver sína
eldpönnu fram fyrir Jahve — tvö hundruð og fimtíu eldpönnur; þú
og Aron skuluð og hafa hver sína eldpönnu. 18 Tóku þeir nú hver
sína eldpönnu og létu eld í þær og lögðu á reykelsi; og þeir námu
staðar fyrir dyrum samfundatjaldsins, svo og þeir Móse og Aron. 19 Og
Kóra safnaði í móti þeim öllum söfnuðinum fyrir dyrum samfunda-
tjaldsins; birtist þá dýrð Jahve öllum söfnuðinum. 20 Og Jahve talaði
við þá Móse og Aron og sagði: 21 Skiljið ykkur frá þessum söfnuði,
og mun eg á augabragði eyða þeim. 22 En þeir féllu fram á ásjónur
sínar og sögðu: Guð, Guð lífsandans í öllu holdi! Hvort munt þú
reiðast öllum söfnuðinum, þótt einn maður syndgi? 23 Þá talaði Jahve
við Móse og sagði: 24 Mæl þú til safnaðarins og seg: Farið burt af
búðarsvæði þeirra Kóra, Datans og Abírams.
25 Og Móse stóð upp og gekk til Datans og Abírams, og öldungar
Ísraels fylgdu honum. 26 Og hann talaði til safnaðarins og sagði:
Víkið burt frá tjöldum þessara óguðlegu manna og komið ekki nærri

---

**16, 2:** kap. 1, 16; 26, 9. **5:** kap. 17, 5. **9:** kap. 3, 6 n. **11:** 2 Mós. 16, 7. **14:** kap. 13, 27. **15:** 1 Sam. 12, 3. **22:** kap. 27, 16. 2 Sam. 24, 17. Job 12, 10. **26:** 2 Kor. 6, 17. Opinb. 18, 4.

neinu því, er þeir eiga, að þér farist eigi vegna allra synda þeirra.
27 Fóru þeir þá burt af búðarsvæði þeirra Kóra, Datans og Abírams.
En þeir Datan og Abíram höfðu gengið út og stóðu úti fyrir tjald-
dyrum sínum og konur þeirra, synir og ungbörn. 28 Móse mælti þá:
Af þessu skuluð þér vita mega, að Jahve hefir sent mig til að gjöra
öll þessi verk, og að eg hefi eigi gjört þau eftir hugþótta mínum.
29 Ef þessir menn deyja á sama hátt og allir menn eru vanir að deyja,
og verði þeir fyrir hinu sama, sem allir menn verða fyrir, þá hefir
Jahve ekki sent mig. 30 En ef Jahve gjörir nýjan hlut og jörðin lýkur
upp munni sínum og svelgir þá og alt, sem þeir eiga, svo að þeir fara
lifandi niður til helju, þá megið þér af því marka, að þessir menn
hafa smáð Jahve. 31 Og er hann hafði lokið máli sínu, þá sprakk
jörðin undir fótum þeirra; 32 og jörðin opnaði munn sinn og svalg þá
og fjölskyldur þeirra, svo og alla menn Kóra og allan fjárhlut þeirra.
33 Og þeir fóru lifandi niður til helju og alt, sem þeir áttu, og jörðin
luktist saman yfir þeim, og þeir fórust mitt úr söfnuðinum. 34 En allur
Ísrael, er umhverfis þá var, flýði við óp þeirra; því að þeir hugsuðu:
ella mun jörðin svelgja oss. 35 Og eldur gekk út frá Jahve og eyddi
þeim tvö hundruð og fimtíu mönnum, er báru fram reykelsið.

## Gjörðar plötur úr eldpönnunum. Kurr lýðsins og hegning Guðs. Stafur Arons.

36 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 37 Seg þú Eleasar, syni
Arons prests, að hann skuli taka eldpönnurnar út úr brunanum, en
dreif þú eldinum langt burt, því að þær eru heilagar. 38 Eldpönnur
þessara syndara, sem fyrirgjört hafa lífi sínu, skulu beittar út í þunnar
plötur og klætt með þeim altarið; því að þeir báru þær fram fyrir
Jahve og eru þær því heilagar; skulu þær vera Ísraelsmönnum til tákns.
39 Og Eleasar prestur tók eirpönnurnar, er þeir höfðu borið fram, sem
brunnið höfðu; og þeir beittu þær út og klæddu með þeim altarið,
40 Ísraelsmönnum til minningar um það, að enginn annarlegur* maður,
sem eigi er af ætt Arons, má ganga fram til þess að bera reykelsi
fram fyrir Jahve, að eigi fari eins fyrir honum og Kóra og flokki hans,
eins og Jahve hafði sagt honum fyrir Móse.
41 Daginn eftir möglaði allur söfnuður Ísraelsmanna í gegn þeim
Móse og Aroni og sagði: Þið hafið myrt lýð Jahve. 42 En er múgur-
inn safnaðist saman í gegn þeim Móse og Aroni, varð þeim litið til
samfundatjaldsins, og sjá, skýið huldi það og dýrð Jahve birtist.
43 Gengu þeir Móse og Aron þá fram fyrir samfundatjaldið. 44 Og Jahve
talaði við Móse og sagði: 45 Víkið burt frá þessum söfnuði og mun eg
eyða þeim á augabragði! En þeir féllu fram á ásjónur sínar. 46 Og
Móse sagði við Aron: Tak eldpönnuna og lát eld í hana af altarinu,
legg á reykelsi og far í skyndi til safnaðarins og friðþæg fyrir þá, því
að reiði er út gengin frá Jahve, plágan byrjuð. 47 Og Aron tók hana,
eins og Móse bauð, og hljóp inn í miðjan söfnuðinn, og sjá, plágan
var byrjuð meðal fólksins; og hann lagði á reykelsið og friðþægði fyrir
lýðinn. 48 Og er hann stóð milli hinna dauðu og hinna lifandi, þá
staðnaði plágan. 49 En þeir sem fórust í plágunni, voru fjórtán þús-
undir og sjö hundruð, auk þeirra, er fórust sökum Kóra. 50 Og Aron
gekk aftur til Móse að dyrum samfundatjaldsins og var plágan
stöðnuð.

---

**33:** kap. 26, 10. 5 Mós. 11, 6. Sálm. 106, 17. Júd. 11. **35:** 3 Mós. 10, 1. 2. 4 Mós. 11, 1. **40:** kap. 1, 51; 3, 10. * Sjá 3 Mós. 22, 10. **48:** Sálm. 106, 30.

17 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Tala þú við Ísraelsmenn
og fá hjá þeim tólf stafi, einn staf hjá ættkvísl hverri, hjá öllum
höfuðsmönnum ættkvísla þeirra; rita þú nafn hvers eins á staf hans.
3 En nafn Arons skalt þú rita á staf Leví, því að einn stafur skal vera
fyrir höfuð ættkvíslar þeirra. 4 Og þú skalt leggja þá niður í sam-
fundatjaldinu, fyrir framan sáttmálið, þar sem eg á samfundi við yður.
5 Og það skal verða, að stafur þess manns, sem eg kýs, skal laufgast,
að eg megi hefta kurr Ísraelsmanna, er þeir mögla í gegn yður. 6 Og
Móse talaði við Ísraelsmenn, og allir höfuðsmenn þeirra fengu honum
stafi, hver höfðingi einn staf eftir ættkvíslum þeirra, tólf stafi alls, og
var stafur Arons meðal stafa þeirra. 7 Og Móse lagði stafina fram
fyrir Jahve í sáttmálstjaldinu. 8 En er Móse gekk inn í sáttmálstjaldið
daginn eftir, sjá, þá var stafur Arons, stafur Leví-ættar, laufgaður;
voru blöð sprottin á honum, blóm sprungin út og bar hann fullvaxnar
möndlur. 9 Bar Móse nú alla stafina út frá augliti Jahve til allra
Ísraelsmanna, svo að þeir sæju þá, og tóku þeir hver sinn staf. 10 Þá
sagði Jahve við Móse: Ber staf Arons inn aftur fram fyrir sáttmálið,
að hann sé þar geymdur til tákns fyrir þá, sem óhlýðnir eru, og kurr
þeirra gegn mér taki enda, ella munu þeir deyja. 11 Og Móse gjörði
svo; hann gjörði svo sem Jahve bauð honum. 12 En Ísraelsmenn sögðu
við Móse: Sjá, vér förumst, það er úti um oss, það er úti um oss alla!
13 Hver sem kemur nærri, hver sem kemur nærri búð Jahve, týnir lífi.
Munum vér þá allir farast?

## Skyldur og réttindi presta og Levíta.

18 Og Jahve sagði við Aron: Þú og synir þínir og ættleggur feðra
þinna með þér skulu sæta hegningu fyrir það, sem brotið er á
móti helgidóminum, og þú og synir þínir með þér skuluð sæta hegn-
ingu fyrir það, sem yður verður á í prestembætti yðar. 2 Þú skalt og
taka með þér bræður þína, kynkvísl Leví, ættkvísl föður þíns; þeir
skulu vera þér við hönd og þjóna þér, þegar þú og synir þínir með
þér eruð frammi fyrir sáttmálstjaldinu. 3 Og þeir skulu gegna því, er
við þarf við þína þjónustu og við þjónustu alls tjaldsins; þó skulu
þeir eigi koma nærri hinum helgu áhöldum né altarinu, ella munu
þeir deyja, bæði þeir og þér. 4 Og þeir skulu vera þér við hönd og
annast það, sem annast þarf við samfundatjaldið, alla þjónustu við
tjaldið; en eigi skal óvígður maður koma til yðar. 5 En þér skuluð
annast það, sem annast þarf í helgidóminum og við altarið, svo að
eigi komi reiði framar yfir Ísraelsmenn. 6 Og sjá, eg hefi tekið bræður
yðar, Levítana, úr Ísraelsmönnum sem gjöf yður til handa, sem þá,
er gefnir hafa verið Jahve, til þess að gegna þjónustu við samfunda-
tjaldið. 7 En þú og synir þínir með þér skuluð annast prestembætti
yðar í öllum þeim hlutum, er varða altarið og þjónustuna fyrir innan
fortjaldið, þar skuluð þér gegna þjónustu. Eg fel yður prestdóminn
og veiti yður þá þjónustu að gjöf; komi nokkur annar þar nærri, skal
hann lífi týna.
8 Og Jahve sagði við Aron: Sjá, eg gef þér það, sem varðveitast
á af lyftifórnum mínum; af öllum helgigjöfum Ísraelsmanna gef eg
þér og sonum þínum þær í þeirra hlut; er það æfinleg skyldugreiðsla.
9 Þetta skal heyra þér af hinum háhelgu gjöfum, að því frá teknu, sem
brenna skal: allar fórnargjafir þeirra, bæði matfórnir, syndafórnir og

---

17, 4: 2 Mós. 16, 34; 25, 22. 5: kap. 16, 5. 10: Hebr. 9, 4. — 18, 1: v. 23. Kap. 8, 19. 2: kap. 3, 6 n. 5: kap. 1, 53. 6: kap. 3, 9. 12. 7: kap. 1, 51; 3, 10. 38.

sektarfórnir, er þeir færa mér í bætur; eru þær háhelgar og skulu heyra
þér og sonum þínum. 10 Þú skalt eta þær á háhelgum stað; alt karl-
kyn skal eta þær; skulu þær vera þér heilagar. 11 Og þetta skal heyra
þér sem lyftifórn af öðrum gjöfum þeirra, af öllum veififórnum Ísra-
elsmanna: eg gef þér þær, og sonum þínum og dætrum með þér; er
það æfinleg skyldugreiðsla; allir hreinir menn í húsi þínu skulu eta
þær. 12 Alt hið bezta af olíunni og alt hið bezta af aldinleginum og
korninu, frumgróðann af því — það er þeir gefa Jahve —, það hefi
eg gefið þér. 13 Frumgróðinn af öllu því, er vex í landi þeirra og þeir
færa Jahve, skal heyra þér; allir hreinir menn í húsi þínu skulu eta
hann. 14 Sérhver hlutur bannfærður í Ísrael skal heyra þér. 15 Alt það,
sem opnar móðurlíf, af öllu holdi, er menn færa Jahve, hvort heldur
er menn eða skepnur, skal heyra þér; þó skalt þú leysa láta frumburði
manna, og frumburði óhreinna dýra skalt þú og leysa láta. 16 Og að
því er snertir lausnargjald þeirra, þá skalt þú láta leysa þá, úr því
þeir eru mánaðargamlir, eftir mati þínu, með fimm siklum, eftir helgi-
dóms sikli, tuttugu gerur í sikli. 17 En frumburði af nautum, sauðum
eða geitum skalt þú ekki leysa láta; þeir eru heilagir; blóði þeirra skalt
þú stökkva á altarið, og mörinn úr þeim skalt þú brenna sem eldfórn
þægilegs ilms Jahve til handa. 18 En kjötið af þeim skal heyra þér;
það skal heyra þér, eins og veififbringan og hægra lærið. 19 Allar lyfti-
fórnir af helgigjöfunum, sem Ísraelsmenn færa Jahve, hefi eg gefið þér
og sonum þínum og dætrum með þér; er það æfinleg skyldugreiðsla;
það er æfinlegur saltsáttmáli fyrir augliti Jahve fyrir þig og niðja þína
ásamt þér.

20 Og Jahve sagði við Aron: Þú skalt ekkert óðal eignast í landi
þeirra og ekki eiga hlutskifti meðal þeirra. Eg er hlutskifti þitt og
óðal þitt meðal Ísraelsmanna. 21 Og sjá, eg gef Levítunum alla tíund
í Ísrael til eignar fyrir þjónustuna, er þeir inna af hendi, þjónustuna
við samfundatjaldið. 22 Og Ísraelsmenn skulu eigi framar koma nærri
samfundatjaldinu, svo að þeir baki sér ekki synd og deyi. 23 Heldur
skulu Levítarnir gegna þjónustu við samfundatjaldið, og skulu sæta
hegningu fyrir það, sem þeim verður á; skal það vera ævarandi lög-
mál hjá yður frá kyni til kyns; en þeir skulu ekki eiga óðul meðal
Ísraelsmanna. 24 Því að tíund Ísraelsmanna, er þeir færa Jahve í lyfti-
fórn, hefi eg gefið Levítunum til eignar; þess vegna hefi eg sagt þeim,
að þeir skuli ekki eiga óðul meðal Ísraelsmanna.

25 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 26 En þú skalt tala við
Levítana og segja við þá: Þegar þér meðtakið tíundina frá Ísraels-
mönnum, er eg hefi gefið yður til eignar og þeir skulu greiða yður,
þá skuluð þér færa Jahve lyftifórn af henni, tíund af tíundinni. 27 Og
þessi lyftifórn yðar skal reiknast yður sem væri það korn af láfanum
eða gnótt úr vínþrönginni. 28 Þannig skuluð og þér færa Jahve lyfti-
fórn af allri þeirri tíund, er þér meðtakið frá Ísraelsmönnum; og af
henni skuluð þér fá Aroni presti lyftifórn Jahve. 29 Af öllu því,
sem yður gefst, skuluð þér færa Jahve lyftifórn, af öllu hinu bezta
af því, helgigjöfina, sem af því skal fram bera. 30 Og þú skalt segja
við þá: Þegar þér hafið fram borið hið bezta af því, þá skal hitt reikn-
ast Levítunum sem afurðir úr láfanum eða afurðir úr vínþrönginni.
31 Þér megið eta það hvar sem þér viljið, bæði þér og skyldulið yðar,
því að það eru laun yðar fyrir þjónustu yðar við samfundatjaldið.

---

**10:** 3 Mós. 6, 11. 22; 7, 6. **11:** 3 Mós. 22, 11. **14:** 3 Mós. 27, 28. **15:** 2 Mós. 13,
12. 13; 34, 19. **19:** 3 Mós. 2, 13. 2 Kron. 13, 5. **20:** 5 Mós. 10, 9; 12, 12. Jós.
13, 14. 33. Esek. 44, 28. **21:** 3 Mós. 27, 30. **22:** kap. 17, 28. **24:** Nehem. 10, 37 n.
**27:** 2 Mós. 22, 29. **30:** v. 27. **31:** Matt. 10, 10. 1 Kor. 9, 13.

[32] Og þér munuð ekki baka yður synd vegna þess, ef þér fram berið
hið bezta af því, og þá munuð þér eigi vanhelga helgigjafir Ísraels-
manna og eigi deyja.

### Um hreinsunarvatnið.

19 Og Jahve talaði við Móse og Aron og sagði: [2] Þetta er á-
kvæði í lögmálinu, er Jahve hefir boðið, er hann sagði: Seg við
Ísraelsmenn, að þeir skuli færa þér rauða kvígu gallalausa, sem engin
lýti hefir og ekki hefir verið leidd undir ok. [3] Skuluð þér fá hana Ele-
asar presti, og skal því næst færa hana út fyrir herbúðirnar og slátra
henni í augsýn hans. [4] Og Eleasar prestur skal taka af blóði hennar
með fingri sínum og stökkva sjö sinnum af blóði hennar mót framhlið
samfundatjaldsins. [5] Síðan skal brenna kvíguna fyrir augum hans; skal
brenna bæði húðina, kjötið og blóðið, ásamt gorinu. [6] Þá skal prestur
taka sedrusvið, ýsópsvönd og skarlat og kasta á bálið, þar sem kvígan
brennur. [7] Því næst skal prestur þvo klæði sín og lauga líkama sinn
í vatni; síðan gangi hann í herbúðirnar; þó skal prestur vera óhreinn
til kvelds. [8] Sömuleiðis skal sá, sem brennir hana, þvo klæði sín í
vatni og lauga líkama sinn í vatni; hann skal og vera óhreinn til kvelds.
[9] Síðan skal einhver, sem hreinn er, safna saman öskunni af kvígunni
og láta hana á hreinan stað fyrir utan herbúðirnar, svo að hún sé
geymd handa söfnuði Ísraelsmanna í hreinsunarvatn; þetta er synda-
fórn. [10] En sá, sem safnar saman öskunni af kvígunni, skal þvo klæði
sín og vera óhreinn til kvelds.
Þetta skal vera æfinlegt lögmál fyrir Ísraelsmenn og fyrir þá út-
lendinga, er dvelja meðal þeirra: [11] Sá sem snertir lík, af hvaða manni
sem vera skal, hann skal vera óhreinn sjö daga. [12] Hann skal synd-
hreinsa sig með því* á þriðja degi og á sjöunda degi, og er þá hreinn.
En ef hann syndhreinsar sig ekki á þriðja degi og sjöunda degi, mun
hann eigi hreinn verða. [13] Hver sem snertir dauðan mann, lík af dauð-
um manni, og syndhreinsar sig ekki, hann saurgar búð Jahve, og skal
sá maður upprættur verða úr Ísrael; af því að hreinsunarvatninu var
ekki stökt á hann, er hann óhreinn; óhreinleiki hans loðir enn við
hann.
[14] Þetta skulu lög vera, þegar maður deyr í tjaldi: hver sem inn
í tjaldið gengur og hver sem í tjaldinu er, skal vera óhreinn sjö daga.
[15] Og hvert opið ílát, sem ekki er bundið yfir, skal vera óhreint. [16] Og
hver sem úti á víðavangi snertir lík af vegnum manni eða látnum
manni eða mannabein eða gröf, hann skal vera óhreinn sjö daga. [17] En
handa þeim, er saurgað hefir sig, skal taka ösku af brendu syndafórn-
inni, láta hana í ker og hella yfir hana rennandi vatni. [18] Síðan skal
hreinn maður taka ýsópsvönd, dýfa í vatnið og stökkva á tjaldið og
öll ílátin og á þá menn, sem þar voru inni, svo og á þann, er snert
hefir mannabein eða lík af vegnum manni eða látnum eða gröf. [19] Og
skal hinn hreini stökkva á hinn óhreina á þriðja degi og á sjöunda
degi; og hann skal syndhreinsa hann á sjöunda degi. Því næst skal
hann þvo klæði sín og lauga sig í vatni, og er hann þá hreinn að
kveldi. [20] En ef einhver saurgar sig og syndhreinsar sig ekki, sá
maður skal upprættur verða úr söfnuðinum, því að hann hefir saurg-
að helgidóm Jahve; hreinsunarvatni hefir ekki verið stökt á hann;
hann er óhreinn. [21] Skal þetta vera yður æfinlegt lögmál. Og sá, sem
stökkvir hreinsunarvatninu, skal þvo klæði sín; og sá, sem snertir

---

19, 2: Hebr. 9, 13. 4: 3 Mós. 4, 6. 17. 5: 2 Mós. 29, 14. 6: 3 Mós. 14, 4. 6. 51.
11: kap. 31, 19. 12: * Þ. e. hreinsunarvatninu, sjá v. 9.

hreinsunarvatnið, skal vera óhreinn til kvelds. 22 Og alt það, sem hinn
óhreini snertir, skal vera óhreint, og ef maður snertir hann, skal hann
vera óhreinn til kvelds.

## Mirjam deyr. Móse slær vatn af kletti. Edómítar banna yfirför yfir land sitt. Aron deyr.

20 Og Ísraelsmenn, allur söfnuðurinn, komu í eyðimörkina Zín í
fyrsta mánuðinum, og lýðurinn settist um kyrt í Kades; þar dó
Mirjam og var þar grafin. 2 Og fólkið hafði ekki vatn; söfnuðust þeir
þá saman í gegn Móse og Aroni. 3 Og lýðurinn þráttaði við Móse og
sagði: Guð gæfi að vér hefðum dáið, þá er bræður vorir dóu fyrir
augliti Jahve. 4 Hví leidduð þið söfnuð Jahve í eyðimörk þessa, að
vér og fénaður vor dæjum þar? 5 Hví létuð þið oss í burt fara af Egipta-
landi, til þess að leiða oss í þennan vonda stað, þar sem eigi verður
sáð, engar fíkjur vaxa né vínviður né granatepli, og eigi er vatn til
að drekka? 6 Móse og Aron gengu þá burt frá söfnuðinum að dyrum
samfundatjaldsins og féllu fram á ásjónur sínar; birtist þeim þá dýrð
Jahve. 7 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 8 Tak stafinn og safna
saman lýðnum, þú og Aron bróðir þinn, og mælið við klettinn í á-
heyrn þeirra, og mun hann vatn gefa. Og þú skalt leiða út vatn handa
þeim af klettinum og gefa fólkinu og fénaði þeirra að drekka. 9 Þá
sótti Móse stafinn inn í helgidóminn, eins og hann hafði boðið honum.
10 Og Móse og Aron söfnuðu saman lýðnum við klettinn, og hann sagði
við þá: Heyrið þér, þrjózkir menn, hvort munum vér leiða mega vatn
út af kletti þessum handa yður? 11 Síðan hóf Móse upp hönd sína og
laust klettinn tveim sinnum með staf sínum; spratt þá upp vatn mikið,
svo að fólkið drakk og fénaður þeirra. 12 Þá sagði Jahve við Móse og
Aron: Fyrir því að þið trúðuð mér eigi, svo að þið helguðuð mig í
augum Ísraelsmanna, þá skuluð þið eigi leiða söfnuð þennan inn í
landið, sem eg hefi gefið þeim. 13 Þetta eru Meríba-vötn, þar sem Ísra-
elsmenn þráttuðu við Jahve og hann sýndi heilagleik sinn á þeim.
14 Og Móse sendi frá Kades menn á fund Edóm-konungs: Svo
mælir bróðir þinn Ísrael: Þú þekkir allar þær þrautir, er oss hafa mætt.
15 Feður vorir fóru suður til Egiptalands, og vér höfum verið í Egipta-
landi langa æfi og hafa Egiptar þjáð oss, sem og feður vora. 16 En
vér hrópuðum til Jahve og hann heyrði bæn vora og sendi engil, og
leiddi hann oss brott af Egiptalandi. Og sjá, nú erum vér í Kades,
borginni við landamæri þín. 17 Leyf oss að fara um land þitt; eigi
munum vér fara yfir akra né víngarða og eigi munum vér drekka vatn
úr brunnum; heldur munum vér fara konungsgötur og eigi hneigja af
til hægri handar eða vinstri, þar til er vér erum komnir út úr landi
þínu. 18 En Edóm svaraði honum: Eigi mátt þú fara um land mitt,
ella mun eg fara í móti þér með sverði. 19 Þá sögðu Ísraelsmenn við
hann: Vér munum þræða brautarveginn, og ef vér drekkum af vatni
þínu, eg og fénaður minn, þá mun eg fé fyrir gjalda; hér er eigi til
meira mælst en að eg megi fara um fótgangandi. 20 En hann sagði:
Eigi mátt þú fara um landið. Og Edóm fór í móti honum með miklu
liði og sterkri hendi. 21 Og er Edóm skoraðist undan að leyfa Ísrael
yfirför um land sitt, þá sneri Ísrael af leið frá honum.

---

**20, 2:** 2 Mós. 17, 1 n. 14, 11 n. 16, 3. **6:** kap. 12, 5. **8:** 1 Kor. 10, 4. **10:** Sálm. 106, 33. **11:** 2 Mós. 17, 6 n. Jes. 48, 21. Sálm. 78, 15 n. 105, 41. **12:** kap. 27, 13 n. 5 Mós. 1, 37; 3, 26; 4, 21; 32, 49 n. 34, 4. Sálm. 106, 32. **13:** 2 Mós. 17, 7. 3 Mós. 10, 3. **14:** Dóm. 11, 17. 1 Mós. 25, 25. 26. **15:** 2 Mós. 1, 13 n. **16:** 2 Mós. 14, 19; 23, 20. 23. **21:** Dóm. 11, 18.

[22] Nú lögðu þeir upp frá Kades, og Ísraelsmenn, allur söfnuður-
inn, komu til fjallsins Hór. [23] Og Jahve talaði við Móse og Aron á
Hór-fjalli, við landamæri Edóm-lands, og sagði: [24] Aron skal safnast
til fólks síns, því að eigi skal hann komast í það land, sem eg hefi
gefið Ísraelsmönnum, af því að þið þrjózkuðust gegn skipan minni
hjá Meríba-vötnum. [25] Tak þú Aron og Eleasar son hans og leið þá
upp á Hórfjall. [26] Fær þú Aron úr klæðum sínum og skrýð Eleasar
son hans þeim; en Aron skal safnast til fólks síns og deyja þar. [27] Og
Móse gjörði svo sem Jahve bauð honum; og þeir gengu upp á Hór-
fjall í augsýn alls fólksins. [28] Og Móse færði Aron úr klæðum hans
og skrýddi Eleasar son hans þeim. Og Aron dó þar á háfjallinu;
gengu þeir Móse og Eleasar þá niður af fjallinu. [29] En er alt fólkið
sá að Aron var andaður, grétu allir Ísraelsmenn Aron þrjátíu daga.

## Ófriður við konunginn í Arad. Eirormurinn.

21 En er Kanaanítinn, konungurinn í Arad, sem bjó í suðurland-
inu, spurði að Ísrael kæmi Atarím-veginn, þá réð hann á Ísrael
og hertók nokkura þeirra. [2] Þá gjörði Ísrael Jahve heit og sagði: Ef
þú gefur lýð þennan á mitt vald, skal eg banni helga borgir þeirra.
[3] Og Jahve heyrði raust Ísraels og seldi Kanaanítana þeim í hendur.
Og þeir helguðu þá banni og borgir þeirra, og var staðurinn kallaður
Horma.

[4] Lögðu þeir þá upp frá Hór-fjalli leiðina til Rauðahafs, til þess
að fara í kring um Edóm-land; en lýðnum félst hugur á leiðinni. [5] Og
lýðurinn talaði í gegn Guði og í gegn Móse: Hví leidduð þið oss brott
af Egiptalandi, til þess að vér dæjum í eyðimörkinni, því að hér er
hvorki brauð né vatn og vér erum orðnir leiðir á þessu léttmeti. [6] Þá
sendi Jahve eitraða höggorma meðal lýðsins, og þeir bitu fólkið, svo
að margt manna dó af Ísrael. [7] Þá gekk lýðurinn til Móse og sagði:
Vér höfum syndgað, því að vér höfum talað í gegn Jahve og í gegn
þér; bið þú til Jahve, að hann taki höggormana frá oss. Móse bað
þá fyrir lýðnum. [8] Og Jahve sagði við Móse: Gjör þér eiturorm og set
hann á stöng, og það skal verða, að hver sem bitinn er og lítur á
hann, skal lífi halda. [9] Og Móse gjörði höggorm af eiri og setti á
stöng; og það varð, að ef höggormur hafði bitið einhvern og hann leit
til eirormsins, þá hélt hann lífi. [10] Eftir þetta lögðu Ísraelsmenn upp
og settu búðir sínar í Óbót. [11] Og þeir lögðu upp frá Óbót og settu
búðir sínar í Íje-Haabarím í eyðimörkinni, sem er fyrir austan Móab.
[12] Þaðan lögðu þeir upp og settu búðir sínar í Sered-dal. [13] Þaðan
lögðu þeir upp og settu búðir sínar hinumegin við Arnon, sem er í
eyðimörkinni og kemur upp í landi Amóríta, því að Arnon skilur lönd
Móabíta og Amóríta. [14] Fyrir því segir svo í bókinni um bardaga Jahve:

Vaheb í Súfa og Arnondali,
[15] og dalahlíðarnar, er ná þangað, sem Ar liggur,
og liggja upp að löndum Móabíta.

[16] Og þaðan héldu þeir til Beer; það er brunnurinn, sem Jahve talaði
um við Móse: Safna saman lýðnum; eg vil gefa þeim vatn. [17] Þá söng
Ísrael þetta kvæði:

---

**22:** kap. 33, 37. **24:** v. 12. 13. **26:** 2 Mós. 28, 2 n. 29, 5 n. **28:** kap. 33, 38. 5 Mós. 10, 6. **29:** 5 Mós. 34, 8. — **21, 1:** kap. 33, 40. **2:** 3 Mós. 27, 28. 29. **3:** Dóm. 1, 17. **4:** kap. 20, 21. **5:** 2 Mós. 16, 3. 4 Mós. 14, 2 n. **6:** 1 Kor. 10, 9. **9:** 2 Kong. 18, 4. Jóh. 3, 14. **10:** kap. 33, 43 n. **12:** 5 Mós. 2, 13. **13:** Dóm. 11, 18.

Vell þú upp, brunnur! Syngið í móti honum!
18 Brunnur, sem höfðingjarnir grófu
og göfugmenni þjóðarinnar holuðu innan
með veldissprota, með stöfum sínum.

Og frá eyðimörkinni héldu þeir til Mattana; 19 og frá Mattana til
Nahalíel, og frá Nahalíel til Bamót; 20 og frá Bamót í dalinn, sem ligg-
ur í Móabslandi, að Pisgatindi, sem mænir yfir öræfin.
21 Og Ísrael sendi menn á fund Síhons, Amóríta konungs, og lét
segja honum: 22 Leyf mér að fara um land þitt; eigi munum vér hneigja
af út á akra né víngarða, og eigi munum vér drekka vatn úr brunn-
um, heldur munum vér fara konungsgötur, þar til vér erum komnir
út úr landi þínu. 23 En Síhon leyfði eigi Ísrael að fara um land sitt;
og Síhon safnaði að sér öllum lýð sínum og fór í móti Ísrael inn í
eyðimörkina; og er hann kom til Jahza, lagði hann til orustu við
Ísrael. 24 En Ísrael vann sigur á honum með sverðseggjum og lagði
undir sig land hans frá Arnon til Jabbok, alt að Ammónítum, því að
landamerki Ammóníta voru ekki auðunnin. 25 Og Ísrael tók allar þess-
ar borgir og Ísrael settist að í öllum borgum Amóríta, í Hesbon og
öllum þorpunum þar í kring. 26 Því að Hesbon var borg Síhons Amóríta
konungs; hafði hann átt í ófriði við hinn fyrri konung Móabíta og
tekið frá honum alt land hans að Arnon. 27 Fyrir því sögðu háðskáldin:

Komið til Hesbon!
Endurreist og grundvölluð verði borg Síhons!
28 Því að eldur gekk út frá Hesbon,
logi frá borg Síhons;
hann eyddi Ar í Móab,
lávörðum Arnon-hæða.
29 Vei þér, Móab!
Það er úti um þig, Kamoss lýður!
Hann lét sonu sína verða flóttamenn
og dætur sínar herteknar verða af Síhon, Amóríta konungi.
30 Vér skutum á þá; gjöreydd var Hesbon alt til Díbon;
og vér fórum herskildi yfir, svo að eldurinn bálaðist upp alt til Medeba.

31 Og Ísrael settist að í landi Amóríta. 32 En Móse sendi njósnar-
menn til Jaser, og þeir unnu hana og þorpin þar í kring; og hann
rak burt Amórítana, sem þar bjuggu. 33 Sneru þeir nú við og héldu
veginn, sem liggur til Basan. En Óg, konungur í Basan, fór í móti
þeim með öllu liði sínu, til þess að heyja bardaga hjá Edreí. 34 Þá
sagði Jahve við Móse: Eigi skalt þú óttast hann; því að eg gef hann
og lið hans alt og land hans í þínar hendur, og skalt þú svo fara
með hann, eins og þú fórst með Síhon, Amóríta konung, er bjó í Hes-
bon. 35 Og þeir feldu hann og sonu hans og alt hans lið, svo að eng-
inn var eftir skilinn, er undan kæmist, og lögðu þeir land hans und-
ir sig.

## Um Bíleam.

22 Og Ísraelsmenn lögðu upp og settu búðir sínar á Móabsheið-
um, hinumegin Jórdanar gegnt Jeríkó.
2 En Balak Zippórsson sá alt það, sem Ísrael gjörði Amórítum.
3 Urðu Móabítar þá næsta hræddir við lýðinn, því að hann var fjöl-

---

33: 5 Mós. 3, 1 n. 29, 7 n.

mennur; og Móabítum stóð sluggur af Ísraelsmönnum. [4] Þá sögðu
Móabítar við öldunga Midíansmanna: Nú mun mannfjöldi þessi upp eta
alt í kring um oss, eins og uxar eta grængresi í haga. En Balak Zipp-
órsson var um þær mundir konungur í Móab. [5] Sendi hann þá menn
á fund Bíleams Beórssonar, til Petór, sem er við fljótið*, í land sam-
landa sinna, til þess að sækja hann, og lét segja honum: Sjá, þjóð
nokkur er komin frá Egiptalandi; þekur hún land alt og hefir nú tek-
ið sér bólfestu gagnvart mér. [6] Kom því og bölva þjóð þessari fyrir
mig, því að hún er mér ofurefli; vera má, að eg fái þá sigrast á henni
og stökt henni úr landi, því að eg veit, að sá er blessaður, sem þú
blessar, og sá bölvaður, sem þú bölvar. [7] Öldungar Móabíta og öld-
ungar Midíansmanna fóru nú af stað og höfðu með sér spásagnarlaun-
in. Komu þeir til Bíleams og fluttu honum orð Balaks. [8] En hann
sagði við þá: Verið hér í nótt, og mun eg svara yður, eftir því sem
Jahve segir mér. Og höfðingjar Móabíta voru hjá Bíleam um nóttina.
[9] En Guð kom til Bíleams og sagði: Hvaða menn eru það, sem hjá
þér eru? [10] Og Bíleam sagði við Guð: Balak Zippórsson, konungur í
Móab, hefir gjört mér þessa orðsending: [11] »Sjá, þjóð nokkur er hér
komin af Egiptalandi og þekur hún landið alt; kom því og bið henni
bölbæna fyrir mig; vera má, að eg geti þá barist við hana og stökt
henni burt«. [12] En Guð sagði við Bíleam: Eigi skalt þú fara með þeim,
og eigi skalt þú bölva þessari þjóð, því að hún er blessuð. [13] Morg-
uninn eftir reis Bíleam árla og sagði við höfðingja Balaks: Farið heim
í land yðar, því að Jahve vill ekki leyfa mér að fara með yður. [14] Og
höfðingjar Móabíta héldu af stað og komu til Balaks og sögðu: Bíleam
færðist undan að fara með oss. [15] Balak sendi þá enn höfðingja, fleiri
og göfuglegri en þessir voru. [16] Og er þeir komu á fund Bíleams,
sögðu þeir við hann: Balak Zippórsson mælir svo: Lát þú ekkert aftra
þér frá að koma á minn fund. [17] Því að eg vil veita þér mikla sæmd,
og alt, sem þú segir mér, skal eg gjöra; kom því og bið lýð þessum
bölbæna. [18] En Bíleam svaraði og sagði við þjóna Balaks: Þó að
Balak gæfi mér hús sitt fult af silfri og gulli, gæti eg samt ekki brugð-
ið af boði Jahve, Guðs míns, hvorki i smáu né stóru. [19] En verið þér
nú einnig hér í nótt, að eg megi vita, hvað Jahve enn vill við mig
tala. [20] Þá kom Guð til Bíleams um nóttina og sagði við hann: Ef
menn þessir eru komnir til að sækja þig, þá rís þú upp og far með
þeim, og gjör þó það eitt, er eg býð þér. [21] Bíleam reis því árla um
morguninn, söðlaði ösnu sína og fór með höfðingjum Móabíta. [22] En
reiði Guðs upptendraðist af því, að hann fór; og engill Jahve stóð í
götunni fyrir honum; en hann reið ösnu sinni, og tveir sveinar hans
voru með honum. [23] Og er asnan sá engil Jahve standa í götunni
með brugðnu sverði í hendi, sneri hún af götunni og fór út á grund-
ina, en Bíleam barði ösnuna, til þess að koma henni aftur á götuna.
[24] Þá gekk engill Jahve í öngvegið milli víngarðanna, og var grjótgarð-
ur á báðar hliðar. [25] Og er asnan sá engil Jahve, þrengdi hún sér
upp að garðinum og varð fótur Bíleams í milli; barði hann hana þá
aftur. [26] Þá gekk engill Jahve enn fram fyrir og nam staðar í einstigi,
þar sem ekki varð vikið til hægri né vinstri. [27] Og er asnan sá engil
Jahve, lagðist hún undir Bíleam. Þá reiddist Bíleam og barði hana
með staf sínum. [28] Jahve lauk þá upp munni ösnunnar, og hún sagði
við Bíleam: Hvað hefi eg gjört þér, er þú hefir nú barið mig þrisvar?
[29] En Bíleam sagði við ösnuna: Af því að þú hefir dregið dár að mér.
Væri svo vel, að eg hefði sverð í hendi, mundi eg óðara drepa þig.

---

22, 5: * Þ. e. Evfrat. Jós. 24, 9. Mik. 6, 5. 7: 2 Pét. 2, 15. 28: 2 Pét. 2, 16.

30 Þá sagði asnan við Bíleam: Er eg eigi asna þín, er þú hefir riðið
alla þína æfi fram á þennan dag? Hefi eg nokkurn tíma verið vön að
gjöra þér þetta? En hann sagði: Nei. 31 Þá lauk Jahve upp augum
Bíleams, svo að hann sá engil Jahve standa í götunni með brugðnu
sverði í hendi, og hann laut honum og féll fram á ásjónu sína 32 En
engill Jahve sagði við hann: Hví hefir þú nú barið ösnu þína þrisvar
sinnum? Sjá, það er eg, sem kominn er til að standa fyrir þér, því
að þessi för er háskaleg í mínum augum. 33 Asnan sá mig og veik
þrisvar úr vegi fyrir mér; hefði hún ekki vikið fyrir mér, mundi eg
nú þegar hafa deytt þig, en hana mundi eg hafa látið lífi halda. 34 Þá
sagði Bíleam við engil Jahve: Eg hefi syndgað, því að eg vissi ekki að
þú stóðst fyrir mér á veginum; vil eg því snúa aftur, ef þér mislíkar.
35 En engill Jahve sagði við Bíleam: Far þú með mönnunum, en ekki
mátt þú tala annað en það, sem eg mun segja þér. Bíleam fór þá
með höfðingjum Balaks. 36 Og er Balak frétti að Bíleam kæmi, fór
hann út í móti honum til Ír-Móab, sem liggur á landamærunum við
Arnon, á yztu landamærunum. 37 Og Balak sagði við Bíleam: Sendi
eg ekki menn til þín, til þess að sækja þig? Hví komst þú þá ekki
til mín? Mun eg eigi þess megnugur, að veita þér sæmd fyrir? 38 En
Bíleam sagði við Balak: Sjá, eg er nú kominn til þín. En mun eg fá
mælt nokkuð? Þau orð, sem Guð leggur mér í munn, þau mun eg
mæla. 39 Bíleam fór þá með Balak, og þeir komu til Kirjat-Kúzót.
40 Og Balak fórnaði nautum og sauðum og sendi Bíleam og höfðing-
jum þeim, sem með honum voru. 41 Um morguninn eftir tók Balak
Bíleam með sér og fór með hann upp til Bamót-Baal; en þaðan sá
hann yzta hluta lýðsins.

23 Þá mælti Bíleam við Balak: Gjör þú mér hér sjö ölturu og fá
mér hingað sjö uxa og sjö hrúta. 2 Og Balak gjörði sem Bíleam
sagði; og Balak og Bíleam fórnuðu uxa og hrút á altari hverju. 3 Og
Bíleam sagði við Balak: Statt þú hér hjá brennifórn þinni, eg ætla að
ganga burt; vera má að Jahve kunni að koma til móts við mig; en
hvað sem hann birtir mér, skal eg tjá þér. Fór hann þá upp á skóg-
lausa hæð. 4 Og Guð kom til móts við Bíleam, og hann sagði við
hann: Eg hefi búið sjö ölturu og fórnað uxa og hrút á hverju altari.
5 Jahve lagði þá Bíleam orð í munn og sagði: Far þú aftur til Balaks
og mæl svo. 6 Fór hann þá aftur til hans; og sjá, hann stóð hjá
brennifórn sinni og allir höfðingjar Móabs með honum. 7 Flutti hann
þá kvæði sitt og mælti:

Til Mesópótamíu lætur Balak sækja mig,
konungur Móabs til hinna austlægu fjalla.
Kom þú, bölva Jakob fyrir mig,
kom þú, formæl Ísrael!
8 Hvernig má eg biðja bölbæna þeim, er Guð eigi biður bölbæna,
og hvernig má eg formæla þeim, er Jahve, eigi formælir?
9 Því að af fjallstindinum sé eg hann
og af hæðunum lít eg hann.
Það er þjóðflokkur, sem býr einn sér
og telur sig eigi meðal hinna þjóðanna.
10 Hver mun telja mega duft Jakobs,
og hver mun fá tölu komið á fjórða partinn af Ísrael?
Deyi önd mín dauða réttlátra
og verði endalok mín sem hans.

---

**32:** v. 22. **38:** kap. 23, 12. 26. — **23, 7:** 5 Mós. 23, 4. **9:** v. 3. 5 Mós. 4, 34. **10:**
1 Mós 13, 16; 28, 14.

11 Þá sagði Balak við Bíleam: Hvað hefir þú gjört mér? Eg fékk þig,
til þess að biðja óvinum mínum bölbæna, og sjá, þú hefir margblessað
þá. 12 En hann svaraði og sagði: Hvort hlýt eg eigi að mæla það eitt,
er Jahve leggur mér í munn? 13 Þá sagði Balak við hann: Kom með
mér á annan stað, þar er þú mátt sjá þá; þó munt þú aðeins fá séð
yzta hluta þeirra; alla munt þú eigi sjá þá; og bið þeim þar bölbæna
fyrir mig. 14 Og hann tók hann með sér upp á Njósnarvöll, upp á
Písgatind, og reisti þar sjö ölturu og fórnaði. 15 Mælti hann þá við
Balak: Statt þú hér hjá brennifórn þinni, meðan eg fer þangað til móts
við Guð. 16 Og Jahve kom til móts við Bíleam og lagði honum orð í
munn og sagði: Far þú aftur til Balaks og mæl svo. 17 Gekk hann þá
til hans, og sjá, hann stóð hjá brennifórn sinni og höfðingjar Móabs
með honum. Og Balak mælti við hann: Hvað sagði Jahve? 18 Flutti
hann þá kvæði sitt og mælti:

Rís þú upp, Balak, og hlýð á!
Hlusta þú á mig, Zippórs sonur!
19 Guð er ekki maður, að hann ljúgi,
né sonur manns, að hann sjái sig um hönd.
Skyldi hann segja nokkuð og gjöra það eigi,
tala nokkuð og efna það eigi?
20 Sjá, að blessa var mér falið,
fyrir því blessa eg og tek það eigi aftur.
21 Eigi sést ólán með Jakob,
né heldur má mein líta með Ísrael.
Jahve, Guð hans, er með honum,
og konungsfögnuður er hjá honum.
22 Sá Guð, sem leiddi þá af Egiptalandi,
er honum sem horn vísundarins.
23 Því að eigi er galdur með Jakob
né fjölkyngi með Ísrael.
Nú verður það eitt sagt um Jakob og Ísrael:
Hversu mikla hluti hefir Guð gjört!
24 Það er þjóðflokkur, sem rís upp eins og ljónynja
og reisir sig sem ljón;
hann legst ekki niður fyr en hann hefir etið bráð
og drukkið blóð veginna manna.

25 Þá sagði Balak við Bíleam: Þú skalt hvorki biðja honum böl-
bæna né blessa hann. 26 En Bíleam svaraði og sagði við Balak: Hefi
eg ekki sagt þér: Alt það, sem Jahve býður, það mun eg gjöra? 27 Þá
mælti Balak við Bíleam: Kom þú, eg vil fara með þig á annan stað;
vera má að Guði þóknist, að þú biðjir þeim þar bölbæna fyrir mig.
28 Tók Balak þá Bíleam með sér upp á Peór-tind, sem mænir yfir
öræfin. 29 Þá mælti Bíleam við Balak: Gjör þú mér hér sjö ölturu og
fá mér hingað sjö uxa og sjö hrúta. 30 Og Balak gjörði sem Bíleam
mælti og fórnaði uxa og hrút á altari hverju.

24 Þegar Bíleam sá, að það var gott í augum Guðs að blessa
Ísrael, gekk hann ekki burt, eins og í fyrri skiftin, til að leita
spáfrétta, heldur hélt á leið til eyðimerkurinnar. 2 Og er Bíleam hóf
upp augu sín og sá Ísrael þar sem hann lá í herbúðum eftir kyn-
kvíslum sínum, kom andi Guðs yfir hann. 3 Flutti hann þá kvæði
sitt og mælti:

---

12: kap. 22, 38. 14: kap. 21, 20. 19: 1 Sam. 15, 29. Sálm. 33, 4. Jes. 45, 23. Tít. 1, 2.
22: kap. 24, 8 n. 23: 5 Mós. 18, 14 n. 24: 1 Mós. 49, 9. 26: kap. 22, 38. — 24, 1:
kap. 23, 3. 15.

Svo mælir Bíleam Beórsson,
svo mælir maðurinn, sem byrgð hefir augun.
4 Svo mælir hann, sem heyrir orð Guðs,
sem sér sýn hins almáttuga,
hnígandi niður og með upp loknum augum.
5 Hve fögur eru tjöld þín, Jakob!
bústaðir þínir, Ísrael!
6 Eins og víðir árdalir,
eins og aldingarðar á fljótsbökkum,
eins og alóetré, er Jahve hefir gróðursett,
eins og sedrustré við vötn.
7 Vatn rennur úr skjólum hans,
og sáð hans hefir nægt vatn.
Konungur hans mun meiri verða en Agag,
og konungdómur hans mun verða vegsamlegur.
8 Sá Guð, sem leiddi hann af Egiptalandi,
er honum sem horn vísundarins.
Hann upp etur óvinaþjóðir,
og bein þeirra brýtur hann
og nístir þá með örvum sínum.
9 Hann legst niður, hvílist sem ljón
og sem ljónynja; hver þorir að reka hann á fætur?
Blessaður sé hver sá, sem blessar þig,
en bölvaður sé hver sá, sem bölvar þér.

10 Balak reiddist þá Bíleam mjög og barði saman hnefunum; og
Balak sagði við Bíleam: Til þess að biðja bölbæna óvinum mínum
kallaði eg þig, en sjá, þú hefir nú blessað þá þrem sinnum. 11 Far
þú því sem skjótast heim til þín; eg hugðist að veita þér mikla sæmd,
en sjá, Jahve hefir svift þig þeirri sæmd. 12 Þá sagði Bíleam við Balak:
Mælti eg eigi þegar við sendimenn þá, er þú gjörðir til mín, þessum
orðum: 13 »Þó að Balak gæfi mér hús sitt fult af silfri og gulli, gæti
eg samt ekki brugðið af boði Jahve, til þess að gjöra gott eða ilt eftir
hugþótta mínum; það sem Jahve mælir, það mun eg mæla«? 14 Og
sjá, nú fer eg til minnar þjóðar; kom, eg vil segja þér fyrir, hvað
þessi þjóð mun gjöra þinni þjóð á komandi tímum. 15 Flutti hann
þá kvæði sitt og mælti:

Svo mælir Bíleam Beórsson,
svo mælir maðurinn, sem byrgð hefir augun.
16 Svo mælir hann, sem heyrir orð Guðs
og þekkir ráð hins hæsta,
sem sér sýn hins almáttuga,
hnígandi niður og með upp loknum augum.
17 Eg sé hann, þó eigi nú,
eg lít hann, þó eigi í nánd.
Stjarna rennur upp af Jakob,
og veldissproti rís af Ísrael;
hann lýstur sundur þunnvangann á Móab
og hvirfilinn á öllum hávaðamönnum.
18 Og Edóm mun verða þegnland
og Seír mun verða þegnland — þessir óvinir hans;
en Ísrael eykur vald sitt.

---

**7:** Jes. 58, 11. **8:** kap. 23, 22. 5 Mós. 33, 17. **9:** kap. 23, 24. 1 Mós. 49, 9; 12, 3; 27, 29. **13:** kap. 22, 18. 38. **14:** 1 Mós. 49, 1. **15:** v. 3. **17:** Matt. 2, 2 n. 2 Sam. 8, 2. Sálm. 110, 5. 6. **18:** 2 Sam. 8, 14. Am. 9, 11. 12. Obad. 18 n.

19 Frá Jakob mun drotnari koma
og eyða flóttamönnunum í borgunum.

20 En er hann leit Amalekíta, flutti hann kvæði sitt og mælti:

Fremstur af þjóðunum er Amalek,
en að lyktum hnígur hann í valinn.

21 Og er hann leit Keníta, flutti hann kvæði sitt og mælti;

Traustur er bústaður þinn,
og hreiður þitt er bygt á kletti.
22 Og þó er Kain eyðingin vís.
Hve langt er þess að bíða? Assúr mun flytja þig burt hernuminn.

23 Og hann flutti kvæði sitt og mælti:

Vei, hver mun fá lífi haldið, er Guð lætur þetta að bera!
24 Og skip koma vestan frá Kípur,
og þau lægja Assúr og þau lægja Eber,
en hann mun og hníga í valinn.

25 Síðan tók Bíleam sig upp, hélt af stað og hvarf aftur heimleiðis, og
Balak fór einnig leiðar sinnar.

### Hjáguðadýrkun Ísraelsmanna. Vandlæting Pínehasar.

25 Meðan Ísrael dvaldi í Sittím, tók lýðurinn að drýgja hór með
Móabs dætrum; 2 buðu þær lýðnum til fórnarmáltíða goða sinna;
og lýðurinn át og tilbað goð þeirra. 3 Og Ísrael hafði mök við Baal-
Peór; upptendraðist þá reiði Jahve gegn Ísrael. 4 Og Jahve sagði við
Móse: Tak með þér alla höfðingja lýðsins og ber þá* út undir beran
himin fyrir Jahve**, svo að hin ákafa reiði Jahve hverfi í brott frá
Ísrael. 5 Móse sagði þá við dómarana í Ísrael: Drepi nú hver um sig
þá af sínum mönnum, er mök hafa haft við Baal-Peór.
6 Og sjá, einn af Ísraelsmönnum kom og hafði með sér midíanska
konu til bræðra sinna í augsýn Móse og alls safnaðar Ísraelsmanna,
er þeir voru grátandi fyrir dyrum samfundatjaldsins. 7 En er Pínehas,
sonur Eleasars Aronssonar prests, sá það, gekk hann fram úr söfnuð-
inum og tók spjót í hönd sér. 8 Fór hann á eftir Ísraelsmanninum
inn í svefnhýsið og lagði þau bæði í gegn, Ísraelsmanninn og konuna,
gegnum kviðinn; staðnaði þá plágan meðal Ísraelsmanna. 9 En þeir,
sem dóu í plágunni, voru tuttugu og fjórar þúsundir.
10 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 11 Pínehas, sonur Eleasar
Aronssonar prests, hefir bægt reiði minni frá Ísraelsmönnum, með því
að vandlæta meðal þeirra með mínu vandlæti; hefi eg því eigi gjöreytt
Ísraelsmönnum í vandlæti mínu. 12 Seg því: Sjá, eg gef honum minn
friðarsáttmála. 13 Hann og niðjar hans eftir hann skulu hljóta sátt-
mála ævarandi prestdóms fyrir það, að hann vandlætti vegna Guðs
síns og friðþægði fyrir Ísraelsmenn. 14 En hinn vegni Ísraelsmaður,
sá er veginn var ásamt midíönsku konunni, hét Simrí Salúson; var
hann höfðingi eins ættleggs meðal Símeoníta. 15 Og midíanska konan,
sem vegin var, hét Kosbí Zúrsdóttir, en hann var höfðingi yfir smá-
flokkum, það er ættstofni einum, í Midían.
16 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 17 Kreppið að Midíansmönn-

---

19: v. 17. Sálm. 72, 8. Mík. 5, 1. 20: 2 Mós. 17, 14. 5 Mós, 25, 19. 1 Sam. 15, 7. — 25, 2: kap. 31, 16. 3: 5 Mós. 4, 3. Jós. 22, 17. Sálm. 106, 28. Hós. 9, 10. 4: * Þ. e. hina seku. ** Þ. e. til lífláts. 5 Mós. 21, 22. 23. 7: Sálm. 106, 30. 9: 1 Kor. 10, 8. 13: Sálm. 106, 31. 15: kap. 31, 8. 17: kap. 31, 2.

um og fellið þá. [18] Því að þeir hafa komið yður í krappan stað með
brögðum þeim, er þeir beittu yður, bæði að því er snertir Peór og
Kosbí, dóttur midíanska höfðingjans, landa þeirra, sem vegin var, þá
er plágan reið yfir sökum Peórs.

## Lýðurinn talinn annað sinn.

**26** Og eftir pláguna sagði Jahve við Móse og Eleasar Aronsson
prests: [2] Takið manntal alls safnaðar Ísraelsmanna, þeirra er tví-
tugir eru og þaðan af eldri, eftir ættum þeirra, allra þeirra sem vopn-
færir eru í Ísrael. [3] Og Móse og Eleasar prestur skoruðu þá á Mó-
abs-heiðum, við Jórdan gegnt Jeríkó, [4] frá tvítugs aldri og þaðan
af eldri, eins og Jahve hafði boðið Móse. En Ísraelsmenn, þeir er
fóru af Egiptalandi, voru:
[5] Rúben, frumgetinn sonur Ísraels. Synir Rúbens voru: Hanok,
frá honum er komin kynkvísl Hanokíta, frá Pallú kynkvísl Pallúíta;
[6] frá Hezrón kynkvísl Hezróníta, frá Karmí kynkvísl Karmíta. [7] Þessar
eru kynkvíslir Rúbeníta. En þeir, sem taldir voru af þeim, voru fjöru-
tíu og þrjár þúsundir sjö hundruð og þrjátíu. [8] Og synir Pallú voru:
Elíab; [9] og synir Elíabs: Nemúel, Datan og Abíram; það voru þessi
Datan og Abíram, fulltrúar safnaðarins, sem þráttuðu við Móse og
við Aron í flokki Kóra, þá er þeir þráttuðu við Jahve. [10] Opnaði
jörðin þá munn sinn og svalg þá og Kóra, þá er flokkurinn fórst, með
því að eldur eyddi tvö hundruð og fimtíu manns, og urðu þeir til
tákns. [11] En synir Kóra fórust þó ekki.
[12] Synir Símeons, eftir kynkvíslum þeirra: frá Nemúel er komin
kynkvísl Nemúelíta; frá Jamín kynkvísl Jamíníta, frá Jakín kynkvísl
Jakíníta; [13] frá Sera kynkvísl Seraíta, frá Sál kynkvísl Sálíta. [14] Þess-
ar eru kynkvíslir Símeoníta: tuttugu og tvær þúsundir og tvö hundruð.
[15] Synir Gaðs, eftir kynkvíslum þeirra: frá Zefón er komin kynkvísl
Zefóníta, frá Haggí kynkvísl Haggíta, frá Súní kynkvísl Súníta; [16] frá
Osní kynkvísl Osníta, frá Erí kynkvísl Eríta; [17] frá Aród kynkvísl
Aródíta, frá Arelí kynkvísl Arelíta. [18] Þessar eru ættkvíslir Gaðs sona,
þeir er taldir voru af þeim: fjörutíu þúsundir og fimm hundruð.
[19] Synir Júda voru Ger og Ónan; en Ger og Ónan dóu í Kanaan-
landi. [20] En synir Júda, eftir kynkvíslum þeirra: frá Sela er komin
kynkvísl Selaníta, frá Perez kynkvísl Perezíta, frá Sera kynkvísl Sera-
íta. [21] Og synir Perez voru: frá Hezrón kynkvísl Hezróníta, frá Hamúl
kynkvísl Hamúlíta. [22] Þessar eru kynkvíslir Júda, þeir er taldir voru
af þeim: sjötíu og sex þúsundir og fimm hundruð.
[23] Synir Íssakars, eftir kynkvíslum þeirra: frá Tóla er komin kyn-
kvísl Tólaíta, frá Púva kynkvísl Púníta; [24] frá Jasjúb kynkvísl Jasjúb-
íta, frá Símron kynkvísl Símroníta. [25] Þessar eru kynkvíslir Íssakars,
þeir er taldir voru af þeim: sextíu og fjórar þúsundir og þrjú hundruð.
[26] Synir Sebúlons, eftir kynkvíslum þeirra: frá Sered er komin kyn-
kvísl Seredíta, frá Elon kynkvísl Eloníta, frá Jahleel kynkvísl Jahle-
elíta. [27] Þessar eru kynkvíslir Sebúloníta, þeir er taldir voru af þeim:
sextíu þúsundir og fimm hundruð.
[28] Synir Jósefs, eftir kynkvíslum þeirra: Manasse og Efraím. [29] Synir
Manasse: frá Makír er komin kynkvísl Makíríta, en Makír gat Gíleað;
frá Gíleað er komin kynkvísl Gíleaðíta. [30] Þessir eru synir Gíleaðs:
Jeser, frá honum er komin kynkvísl Jesríta, frá Helek kynkvísl Helek-
íta, [31] frá Asríel kynkvísl Asríelíta, frá Sekem kynkvísl Síkemíta, [32] frá

**26, 4:** kap. 1, 2. **5:** 2 Mós. 6, 14. 1 Kron. 5, 3. **9:** kap. 16, 1 n. Sálm. 106, 16 n.
**10:** kap. 16, 31 n. 5 Mós. 11, 6. **12:** 1 Mós. 46, 10. **19:** 1 Mós. 38, 3 n. **21:** Rut
4, 18. 1 Kron. 2, 5. **30:** Jós. 17, 2.

Semída kynkvísl Semídaíta og frá Hefer kynkvísl Hefríta. [33] En Zelof-
hað sonur Hefers átti enga sonu, heldur aðeins dætur; og dætur Zelof-
haðs hétu Mahla, Nóa, Hogla, Milka og Tirza. [34] Þessar eru kynkvíslir
Manasse, og þeir sem taldir voru af þeim, voru fimtíu og tvær þús-
undir og sjö hundruð.

[35] Þessir eru synir Efraíms eftir kynkvíslum þeirra: frá Sútela er
komin kynkvísl Sútelaíta, frá Beker kynkvísl Bekeríta, frá Tahan kyn-
kvísl Tahaníta. [36] En þessir voru synir Sútela: frá Eran kynkvísl Er-
aníta. [37] Þessar eru kynkvíslir Efraíms sona, þeir er taldir voru af
þeim: þrjátíu og tvær þúsundir og fimm hundruð. Þessir eru synir Jós-
efs eftir kynkvíslum þeirra.

[38] Synir Benjamíns, eftir kynkvíslum þeirra: frá Bela er komin
kynkvísl Belaíta, frá Asbel kynkvísl Asbelíta, frá Ahíram kynkvísl Ahír-
amíta; [39] frá Sefúfam kynkvísl Súfamíta, frá Húfam kynkvísl Húfamíta.
[40] En synir Bela voru Ard og Naaman; frá Ard er komin kynkvísl Ard-
íta og frá Naaman kynkvísl Naamíta. [41] Þessir eru synir Benjamíns
eftir kynkvíslum þeirra, og þeir sem taldir voru af þeim, voru fjöru-
tíu og fimm þúsundir og sex hundruð.

[42] Þessir eru synir Dans eftir kynkvíslum þeirra: frá Súham er
komin kynkvísl Súhamíta; þessar eru kynkvíslir Dans eftir kynkvíslum
þeirra. [43] Allar kynkvíslir Súhamíta, þeir er taldir voru af þeim, voru
sextíu og fjórar þúsundir og fjögur hundruð.

[44] Synir Assers, eftir kynkvíslum þeirra: frá Jímna er komin kyn-
kvísl Jímníta, frá Jísví kynkvísl Jísvíta, frá Bría kynkvísl Bríita; [45] frá
sonum Bría: frá Heber kynkvísl Hebríta, frá Malkíel kynkvísl Malkí-
elíta. [46] Og dóttir Assers hét Sera. [47] Þessar eru kynkvíslir Assers
sona, þeir er taldir voru af þeim: fimtíu og þrjár þúsundir og fjögur
hundruð.

[48] Synir Naftalí, eftir kynkvíslum þeirra: frá Jahzeel er komin
kynkvísl Jahzeelíta, frá Gúní kynkvísl Gúníta; [49] frá Jezer kynkvísl
Jizríta, frá Sillem kynkvísl Sillemíta. [50] Þessar eru kynkvíslir Naftalí
eftir kynkvíslum þeirra, og þeir sem taldir voru af þeim, voru fjörutíu
og fimm þúsundir og fjögur hundruð. [51] Þetta voru þeir, sem taldir
voru af Ísraelsmönnum: sex hundruð og eitt þúsund sjö hundruð og
þrjátíu.

[52] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [53] Meðal þessara skal land-
inu skifta til eignar eftir nafnatölu. [54] Þeirri kynkvísl, sem mannmörg
er, skalt þú fá mikið land til eignar, en þeirri, sem fámenn er, lítið
land til eignar; sérhverjum skal land gefið til eignar í réttu hlutfalli
við talda menn hans. [55] Þó skal landinu skift með hlutkesti, svo að
þeir hljóti það til eignar eftir nöfnum ættstofnanna. [56] Eftir því sem
hlutkestið segir til skal eignum skift milli þeirra, svo sem þeir eru
margir og fáir til.

[57] Og þessir eru Levítarnir, sem taldir voru, eftir kynkvíslum
þeirra: frá Gerson er komin kynkvísl Gersoníta, frá Kahat kynkvísl
Kahatíta, frá Merarí kynkvísl Meraríta. [58] Þessar eru kynkvíslir Leví:
kynkvísl Libníta, kynkvísl Hebroníta, kynkvísl Mahelíta, kynkvísl Mús-
íta, kynkvísl Kóraíta; en Kahat gat Amram. [59] Og kona Amrams hét
Jókebed, dóttir Leví; fæddist hún Leví í Egiptalandi; en hún fæddi
Amram þá Aron og Móse og systur þeirra Mirjam. [60] Og Aroni fædd-
ust Nadab, Abíhú, Eleasar og Ítamar. [61] En Nadab og Abíhú dóu, er
þeir báru annarlegan eld fram fyrir Jahve. [62] Og þeir, sem taldir voru

---

33: kap. 27, 1; 36, 11. 48: 1 Kron. 7, 13. 51: 2 Mós. 12, 37. 54: kap. 33, 54.
57: 2 Mós. 6, 16 n. 4 Mós. 3, 17 n. 59: 2 Mós. 2, 1 n. 6, 20 n. 1 Kron. 6, 2. 3.
61: 3 Mós. 10, 1. 2.

af þeim, voru tuttugu og þrjár þúsundir, alt karlkyn mánaðargamalt
og þaðan af eldra. Því að þeir voru ekki taldir með Ísraelsmönnum,
af því að þeim var eigi fengið land til eignar meðal Ísraelsmanna.
63 Þetta eru þeir, sem skoraðir voru af Móse og Eleasar presti, þá
er þeir skoruðu Ísraelsmenn á Móabsheiðum, við Jórdan gegnt Jeríkó.
64 Og meðal þessara var enginn þeirra, sem skoraðir voru af Móse og
Aroni presti, þá er þeir skoruðu Ísraelsmenn í Sínaí-eyðimörku. 65 Því að
Jahve hafði sagt um þá: Þeir skulu vissulega deyja í eyðimörkinni;
enda var enginn orðinn eftir af þeim nema Kaleb Jefúnneson og Jósúa
Núnsson.

### Um erfðir kvenna. Jósúa skipaður eftirmaður Móse.

27 Þá komu dætur Zelofhaðs Heferssonar, Gíleaðssonar, Makírs-
sonar, Manassesonar, af kynkvíslum Manasse Jósefssonar; en þær
hétu Mahla, Nóa, Hogla, Milka og Tirza. 2 Gengu þær fyrir Móse og
Eleasar prest og fyrir höfuðsmennina og allan söfnuðinn, fyrir dyrum
samfundatjaldsins, og sögðu: 3 Faðir vor dó í eyðimörkinni og var
hann þó ekki í flokki þeirra manna, er samblástur gjörðu gegn Jahve,
í flokki Kóra, því að hann dó vegna sinnar eigin syndar; en hann
átti enga sonu. 4 Hvers vegna á nú nafn föður vors að hverfa úr ætt
hans, af því að hann átti engan son? Fá oss óðal meðal bræðra föð-
ur vors.
5 Og Móse flutti mál þeirra fyrir Jahve. 6 Og Jahve sagði við
Móse: 7 Dætur Zelofhaðs hafa rétt að mæla. Fá þeim óðalsland meðal
bræðra föður þeirra, og þú skalt láta eignarland föður þeirra ganga
til þeirra. 8 En til Ísraelsmanna skalt þú mæla þessum orðum: Nú
deyr maður og á ekki son, skuluð þér þá láta eignarland hans ganga
til dóttur hans. 9 En eigi hann enga dóttur, þá skuluð þér fá bræðr-
um hans eignarland hans. 10 En eigi hann enga bræður, þá skuluð
þér fá föðurbræðrum hans eignarland hans. 11 En eigi faðir hans enga
bræður, þá skuluð þér fá nánasta skyldmenni hans í ættinni eignar-
land hans; hann skal eignast það. Þetta skulu lög vera með Ísraels-
mönnum, svo sem Jahve hefir boðið Móse.
12 Og Jahve sagði við Móse: Gakk þú hér upp á Abarímfjall og
lít yfir landið, sem eg hefi gefið Ísraelsmönnum. 13 Og er þú hefir
litið það, skalt þú einnig safnast til þíns fólks, eins og Aron bróðir
þinn gjörði, 14 sökum þess að þið þrjózkuðust gegn skipan minni í
Zín-eyðimörku, þá er lýðurinn möglaði og þið skylduð helga mig fyrir
augum þeirra með vatninu. Þar eru nú Meríba-vötn hjá Kades í Zín-
eyðimörku. 15 En Móse talaði við Jahve og sagði: 16 Jahve, Guð lífs-
andans í öllu holdi, setji mann yfir lýðinn, 17 sem gangi út fyrir þeim
og gangi inn fyrir þeim, sem leiði þá út og leiði þá inn, svo að söfn-
uður Jahve sé eigi eins og hjörð, sem engan hirði hefir. 18 Þá sagði
Jahve við Móse: Tak þú Jósúa Núnsson, mann sem andi er í, og legg
hönd þína yfir hann; 19 leið hann fyrir Eleasar prest og fram fyrir allan
söfnuðinn og skipa hann í embætti í augsýn þeirra; 20 og þú skalt
leggja yfir hann af tign þinni, svo að allur söfnuður Ísraelsmanna
hlýði honum. 21 Og hann skal ganga fyrir Eleasar prest, en hann leita
úrskurðar með úrím fyrir hann frammi fyrir Jahve; að hans boði
skulu þeir ganga út og að hans boði skulu þeir ganga inn, hann og

---

**64:** kap. 1, 2 n. **65:** kap. 14, 22—24. 29—33; 32, 11. 12. 1 Kor. 10, 5. — **27, 1:** kap. 26, 33. Jós. 17, 3 n. **8:** kap. 16, 1 n. 14, 29. **5:** 3 Mós. 24, 12. **12:** 5 Mós. 32, 48. 49. **13:** kap. 20, 28. **14:** kap. 20, 12. 24. **16:** kap. 16, 22. **18:** 1 Mós. 41, 38. 5 Mós. 3, 21; 34, 9. **21:** 2 Mós. 28, 30. 3 Mós. 8, 8.

allir Ísraelsmenn með honum og allur söfnuðurinn. 22 Og Móse gjörði
eins og Jahve hafði boðið honum; tók hann Jósúa og leiddi hann fyrir
Eleasar prest og fram fyrir allan söfnuðinn, 23 lagði því næst hendur
sínar yfir hann og skipaði hann í embætti, eins og Jahve hafði sagt
fyrir Móse.

## Lög um fórnir.

**28** Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Bjóð þú Ísraelsmönnum
og seg við þá: Þér skuluð gæta þess að færa mér á tilteknum
tíma fórnargjöf mína, mat minn af eldfórnunum til þægilegs ilms, er
mér bera. 3 Og þú skalt segja við þá: Þetta er eldfórnin, sem þér
skuluð færa Jahve: tvær sauðkindur veturgamlar gallalausar á dag í
stöðuga brennifórn. 4 Annari sauðkindinni skalt þú fórna að morgni,
hinni skalt þú fórna að kveldi um sólsetur, 5 og tíunda parti úr efu af
fínu mjöli, blönduðu við fjórðung úr hín af olíu úr steyttum olíuber-
jum, í matfórn. 6 Er það hin stöðuga brennifórn, sem færð var undir
Sínaí-fjalli til þægilegs ilms, sem eldfórn Jahve til handa. 7 Og í dreypi-
fórn skal fylgja hverri sauðkind fjórðungur úr hín. Í helgidóminum
skalt þú dreypa Jahve dreypifórn af áfengum drykk. 8 Hinni sauð-
kindinni skalt þú fórna um sólsetur, með sömu matfórn sem um morg-
uninn og þeirri dreypifórn, er henni fylgir, sem eldfórn þægilegs ilms
Jahve *til* handa.

9 Og á hvíldardegi tveim sauðkindum veturgömlum gallalausum
og tveim tíundu pörtum úr efu af fínu mjöli, blönduðu við olíu, í mat-
fórn og dreypifórninni, er henni fylgir. 10 Þetta er brennifórnin, sem
færa skal á hverjum hvíldardegi auk hinnar stöðugu brennifórnar og
dreypifórnarinnar, er henni fylgir.

11 Á fyrsta degi mánaða yðvarra skuluð þér færa Jahve í brenni-
fórn tvö ungneyti, einn hrút og sjö sauðkindur veturgamlar gallalausar,
12 og þrjá tíundu parta úr efu af fínu mjöli, blönduðu við olíu, í mat-
fórn með hverju nauti, tvo tíundu parta af fínu mjöli, blönduðu við
olíu, í matfórn með hrútnum, 13 og einn tíunda part af fínu mjöli,
blönduðu við olíu, í matfórn með hverri sauðkind — sem brennifórn
þægilegs ilms, sem eldfórn Jahve til handa. 14 En dreypifórnirnar, er
þeim fylgja, skulu vera hálf hín af víni með hverju nauti, þriðjungur
úr hín með hrútnum og fjórðungur úr hín með hverri sauðkind. Þetta
er brennifórnin, sem fórna skal á hverjum mánuði árið um kring.
15 Auk þess einn geithafur í syndafórn Jahve til handa; skal fórna
honum auk hinnar stöðugu brennifórnar og dreypifórnarinnar, er
henni fylgir.

16 En í fyrsta mánuðinum, á fjórtánda degi mánaðarins, eru páskar
Jahve. 17 Og á fimtánda degi hins sama mánaðar er hátíð; í sjö daga
skal eta ósýrt brauð. 18 Fyrsta daginn er haldin helg samkoma; eigi
skuluð þér þá vinna neina stritvinnu. 19 Og þér skuluð færa Jahve í
eldfórn, í brennifórn, tvö ungneyti, einn hrút og sjö sauðkindur vetur-
gamlar — skuluð þér hafa þær gallalausar; 20 og í matfórn með þeim
fínt mjöl, blandað við olíu; skuluð þér fórna þremur tíundu pörtum
með hverju nauti og tveimur tíundu pörtum með hrútnum; 21 einum
tíunda parti skalt þú fórna með hverri hinna sjö sauðkinda. 22 Enn
fremur einn hafur í syndafórn, til þess að friðþægja fyrir yður.
23 Þessu skuluð þér fórna, auk morgun-brennifórnarinnar, sem fram er

---

**23:** kap. 8, 10. Post. 13, 3. — **28, 3:** 2 Mós. 29, 38 n. **16:** 2 Mós. 12, 18. 3 Mós. 23, 5 n. 5 Mós. 16, 1 n.

borin í hina stöðugu brennifórn. 24 Þessu skuluð þér fórna á degi
hverjum í sjö daga sem eldfórnarmat þægilegs ilms Jahve til handa;
skal fórna því auk hinnar stöðugu brennifórnar og dreypifórnarinnar,
er honum fylgir. 25 En sjöunda daginn skuluð þér halda helga sam-
komu; eigi skuluð þér þá vinna neina stritvinnu.

26 Og frumgróðadaginn, þegar þér færið Jahve nýja matfórn, á
viknahátíð yðar, skuluð þér halda helga samkomu; eigi skuluð þér þá
vinna neina stritvinnu. 27 Og í brennifórn þægilegs ilms Jahve til
handa skuluð þér færa tvö ungneyti, einn hrút og sjö sauðkindur
veturgamlar; 28 og í matfórn með þeim fínt mjöl, blandað við olíu,
þrjá tíundu parta með hverju nauti, tvo tíundu parta með hrútnum,
29 einn tíunda part með hverri hinna sjö sauðkinda; 30 einn geithafur,
til þess að friðþægja fyrir yður. 31 Auk hinnar stöðugu brennifórnar
og matfórnarinnar, er henni fylgir, skuluð þér fórna þessu, ásamt
dreypifórnunum, er því fylgja; skuluð þér hafa það gallalaust.

29 En í sjöunda mánuðinum, á fyrsta degi mánaðarins, skuluð
þér halda helga samkomu; eigi skuluð þér þá vinna neina strit-
vinnu; þann dag skal blásið í básúnur hjá yður. 2 Í brennifórn til
þægilegs ilms fyrir Jahve skuluð þér þá fórna einu ungneyti, einum
hrút og sjö veturgömlum sauðkindum gallalausum; 3 og í matfórn með
þeim fínt mjöl blandað við olíu, þrjá tíundu parta með nautinu, tvo
tíundu parta með hrútnum, 4 og einn tíunda part með hverri hinna
sjö sauðkinda; 5 enn fremur einn geithafur í syndafórn, til þess að
friðþægja fyrir yður, — 6 auk tunglkomu-brennifórnarinnar og matfórn-
arinnar, er henni fylgir, og hinnar stöðugu brennifórnar og matfórnar-
innar, er henni fylgir, og dreypifórnanna, er þeim fylgja, að réttum
sið — til þægilegs ilms, sem eldfórn Jahve til handa.

7 Og tíunda daginn í þessum sama sjöunda mánuði skuluð þér
halda helga samkomu og þjá yður; þá skuluð þér ekkert verk vinna.
8 En í brennifórn skuluð þér færa Jahve, til þægilegs ilms, eitt ung-
neyti, einn hrút og sjö sauðkindur veturgamlar — skuluð þér hafa þær
gallalausar. 9 Og í matfórn með þeim fínt mjöl blandað við olíu, þrjá
tíundu parta með nautinu, tvo tíundu parta með hrútnum, 10 einn tí-
unda part með hverri hinna sjö sauðkinda; 11 enn fremur einn geit-
hafur í syndafórn, auk friðþægingar-syndafórnarinnar og stöðugu
brennifórnarinnar og matfórnarinnar, er henni fylgir, og dreypifórn-
anna, er þeim fylgja.

12 Og á fimtánda degi hins sjöunda mánaðar skuluð þér halda
helga samkomu; eigi skuluð þér þá vinna neina stritvinnu, heldur
halda Jahve hátíð í sjö daga. 13 Og þér skuluð færa í brennifórn, í
eldfórn þægilegs ilms Jahve til handa, þrettán ungneyti, tvo hrúta og
fjórtán sauðkindur veturgamlar — skulu þær vera gallalausar, 14 og í
matfórn með þeim fínt mjöl olíublandað, þrjá tíundu parta með hverju
hinna þrettán nauta, tvo tíundu parta með hvorum hinna tveggja
hrúta 15 og einn tíunda part með hverri hinna fjórtán sauðkinda; 16 enn
fremur einn geithafur í syndafórn, auk stöðugu brennifórnarinnar og
matfórnarinnar og dreypifórnarinnar, er henni fylgja. 17 Annan dag-
inn tólf ungneyti, tvo hrúta og fjórtán veturgamlar sauðkindur galla-
lausar, 18 og matfórn og dreypifórnir með nautunum, hrútunum og sauð-
kindunum, eftir tölu þeirra, að réttum sið; 19 enn fremur einn geithafur
í syndafórn, auk stöðugu brennifórnarinnar og matfórnarinnar, er henni
fylgir, og dreypifórnanna, er þeim fylgja. 20 Þriðja daginn ellefu naut,

---

**26:** 3 Mós. 23, 15 n. — **29, 1:** 3 Mós. 23, 24. 25. **6:** kap. 28, 3—8. 11—15. **7:** 3
Mós. 16, 29 n. 23, 27. 28. **12:** 3 Mós. 23, 34 n.

tvo hrúta og fjórtán veturgamlar sauðkindur gallalausar, [21] og matfórn
og dreypifórnir með nautunum, hrútunum og sauðkindunum, eftir tölu
þeirra, að réttum sið; [22] enn fremur einn hafur í syndafórn, auk stöð-
ugu brennifórnarinnar og matfórnarinnar og dreypifórnarinnar, er henni
fylgja. [23] Fjórða daginn tíu naut, tvo hrúta og fjórtán veturgamlar sauð-
kindur gallalausar, [24] matfórn og dreypifórnir með nautunum, hrútunum
og sauðkindunum, eftir tölu þeirra, að réttum sið; [25] enn fremur einn
geithafur í syndafórn, auk stöðugu brennifórnarinnar og matfórnarinnar
og dreypifórnarinnar, er henni fylgja. [26] Fimta daginn níu naut, tvo
hrúta og fjórtán veturgamlar sauðkindur gallalausar, [27] og matfórn og
dreypifórnir með nautunum, hrútunum og sauðkindunum, eftir tölu
þeirra, að réttum sið; [28] enn fremur einn hafur í syndafórn, auk stöð-
ugu brennifórnarinnar og matfórnarinnar og dreypifórnarinnar, er henni
fylgja. [29] Sétta daginn átta naut, tvo hrúta og fjórtán veturgamlar
sauðkindur gallalausar, [30] og matfórn og dreypifórnir með nautunum,
hrútunum og sauðkindunum, eftir tölu þeirra, að réttum sið; [31] enn
fremur einn hafur í syndafórn, auk stöðugu brennifórnarinnar og mat-
fórnarinnar og dreypifórnanna, er henni fylgja. [32] Sjöunda daginn sjö
naut, tvo hrúta og fjórtán veturgamlar sauðkindur gallalausar, [33] og
matfórn og dreypifórnir með nautunum, hrútunum og sauðkindunum,
eftir tölu þeirra, að réttum sið; [34] enn fremur einn hafur í syndafórn,
auk stöðugu brennifórnarinnar og matfórnarinnar og dreypifórnarinnar,
er henni fylgja. [35] Áttunda daginn skuluð þér halda hátíðastefnu;
eigi skuluð þér vinna neina stritvinnu. [36] Og þér skuluð færa í brenni-
fórn, í eldfórn þægilegs ilms Jahve til handa, eitt naut, einn hrút
og sjö veturgamlar sauðkindur gallalausar, [37] matfórn og dreypi-
fórnir með nautinu, hrútnum og sauðkindunum, eftir tölu þeirra, að
réttum sið; [38] enn fremur einn hafur í syndafórn, auk stöðugu brenni-
fórnarinnar og matfórnarinnar og dreypifórnarinnar, er henni fylgja.
[39] Þessu skuluð þér fórna Jahve á löghátíðum yðar, auk heitfórna yðar
og sjálfviljafórna, hvort heldur eru brennifórnir, matfórnir, dreypifórnir
eða heillafórnir.
[40] Og Móse lagði að öllu leyti svo fyrir Ísraelsmenn sem Jahve
hafði boðið Móse.

## Um heit.

30 Og Móse talaði við höfuð ættkvísla Ísraelsmanna á þessa
leið: Þetta er það, sem Jahve hefir boðið. [2] Nú gjörir maður
Jahve heit eða vinnur eið að því, að leggja á sig bindindi, og skal
hann þá eigi bregða orði sínu; hann skal að öllu leyti svo gjöra sem
hann hefir talað. [3] En ef kona gjörir Jahve heit og leggur á sig bind-
indi, meðan hún er í æsku í föðurhúsum, [4] og faðir hennar veit af
heitinu eða bindindinu, er hún hefir á sig lagt, en segir ekkert við hana,
þá skulu öll heit hennar standa og hvert það bindindi, er hún hefir á
sig lagt. [5] En ef faðir hennar bannar henni jafnskjótt sem hann fær
vitneskju um það, þá skulu öll heit hennar ógild vera og hvert það
bindindi, er hún hefir á sig lagt, og Jahve mun fyrirgefa henni, af því
að faðir hennar bannaði henni. [6] En giftist hún og heit hvíla á henni
og óvarlega töluð orð, er hún hefir bundið sig með; [7] og maður henn-
ar heyrir það og segir ekkert við hana, þá skulu heit hennar standa
og hvert það bindindi, er hún hefir á sig lagt. [8] En ef maður hennar
bannar henni jafnskjótt sem hann fær vitneskju um, ógildir hann heitið,

**35:** 3 Mós. 23, 36. Jóh. 7, 37. — **30, 2:** 5 Mós. 23, 21. Préd. 5, 3. 4.

sem á henni hvílir, og óvarkárnisorðin, er hún hefir bundið sig með,
og Jahve mun fyrirgefa henni. 9 En heit ekkju eða konu brottrekinn-
ar — alt sem hún hefir bundist, er skuldbindandi fyrir hana. 10 En
gjöri hún heit í húsi manns síns eða leggi á sig bindindi með eiði,
11 og maður hennar heyrir það og segir ekkert við hana og bannar
henni ekki, þá skulu öll heit hennar standa og hvert það bindindi, er
hún hefir á sig lagt. 12 En ef maður hennar ógildir jafnskjótt og hann
fær vitneskju um, þá skal alt, sem komið hefir yfir varir hennar, ógilt
vera, hvort heldur eru heit eða bindindisskuldbinding; maður hennar
hefir ógilt það, og Jahve mun fyrirgefa henni. 13 Sérhvert heit og sér-
hvern skuldbindingareið um að þjá sig getur maður hennar staðfest
eða ógilt. 14 En ef maður hennar segir alls ekkert við hana dag eftir
dag, þá staðfestir hann öll heit hennar eða allar þær skuldbindingar,
er á henni hvíla; hann hefir staðfest þær með því að segja ekkert við
hana, þá er hann fékk vitneskju um það. 15 En ef hann ógildir þær
eftir að hann hefir fengið vitneskju um, þá tekur hann á sig misgjörð
hennar.

16 Þetta eru þau ákvæði, er Jahve bauð Móse að gilda skyldu
milli manns og konu, milli föður og dóttur, meðan hún er í æsku og
í föðurhúsum.

## Ísraelsmenn hefna sín á Midíanítum.

31 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 2 Hefn þú Ísraelsmanna
á Midíanítum; eftir það skalt þú safnast til þíns fólks. 3 Og
Móse talaði við lýðinn og sagði: Hervæðið menn af yður til herfarar,
og skulu þeir fara á móti Midíansmönnum, til þess að koma fram
hefnd Jahve á Midíansmönnum. 4 Skuluð þér senda þúsund manns af
ættkvísl hverri af öllum ættkvíslum Ísraels til herfararinnar. 5 Voru þá
látnir til af þúsundum Ísraels þúsund af ættkvísl hverri, tólf þúsund
herbúinna manna. 6 Og Móse sendi þá, þúsund manns af ættkvísl
hverri, til herfarar og með þeim Pínehas, son Eleasars prests, til her-
farar, og hafði hann með sér hin helgu áhöld og hvellilúðrana. 7 Og
þeir börðust við Midíansmenn, eins og Jahve hafði boðið Móse, og
drápu alla karlmenn. 8 Þeir drápu og konunga Midíansmanna, auk
annara, er þeir feldu: Eví, Rekem, Zúr, Húr og Reba, fimm konunga
Midíansmanna; Bíleam Beórsson drápu þeir og með sverði. 9 Og Ísra-
elsmenn tóku að herfangi konur Midíansmanna og börn þeirra og
rændu öllum eykjum þeirra, öllum fénaði þeirra og öllum eigum þeirra.
10 En þeir lögðu eld í allar borgir þeirra, sem þeir bjuggu í, og í allar
tjaldbúðir þeirra. 11 Og þeir tóku alt ránsféð og alt herfangið, bæði
menn og skepnur, 12 og færðu Móse og Eleasar presti og söfnuði Ísra-
elsmanna hið hertekna fólk, herfangið og ránsféð í herbúðirnar, til
Móabsheiða, sem eru við Jórdan gegnt Jeríkó.

13 En Móse og Eleasar prestur og allir höfuðsmenn safnaðarins
gengu í móti þeim út fyrir herbúðirnar. 14 Reiddist Móse þá hersveitar-
foringjunum, bæði þeim er settir voru yfir þúsundir og þeim er settir
voru yfir hundruð og komu úr leiðangrinum, 15 og sagði við þá: Gáf-
uð þér öllum konum líf? 16 Sjá, það voru einmitt þær, sem urðu til-
efni til þess, að Ísraelsmenn að ráði Bíleams sýndu Jahve ótrúmensku
vegna Peórs, svo að plágan kom yfir söfnuð Jahve. 17 Drepið því öll
piltbörn; drepið og allar þær konur, er samræði hafa átt við karl-
mann; 18 en látið öll stúlkubörn, er eigi hafa átt samræði við karl-

---

**31, 2:** kap. 25, 17 n. 27, 12 n. **6:** kap. 10, 9. **8:** Jós. 13, 21 n. 4 Mós. 22, 5 n.
**9:** 5 Mós. 20, 14. **16:** kap. 25, 1 n.

mann, lifa handa yður. 19 En sjálfir skuluð þér hafast við fyrir utan
herbúðirnar í sjö daga; hver sem drepið hefir mann og hver sem snert
hefir veginn mann, þér skuluð syndhreinsa yður á þriðja degi og sjö-
unda degi, svo og þeir, er þér hafið tekið að herfangi. 20 Þér skuluð
og syndhreinsa allan klæðnað, alla hluti af skinni gjörva, alt sem
gjört er úr geitahárum, svo og öll tréílát. 21 Og Eleasar prestur sagði
við hermennina, er gengið höfðu í bardagann: Þetta er ákvæði í lög-
málinu, er Jahve hefir boðið Móse. 22 En láta skuluð þér gull, silfur,
eir, járn, tin og blý — 23 alt sem eld þolir — ganga í gegnum eld, og
er það þá hreint; þó skal það enn syndhreinsað með hreinsunarvatni. En
alt, sem eigi þolir eld, skuluð þér láta ganga í gegnum vatn. 24 Og þér
skuluð þvo klæði yðar á sjöunda degi, og eruð þá hreinir; eftir það
megið þér koma í herbúðirnar.
25 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 26 Tel þú herfangið, bæði
menn og skepnur, þú og Eleasar prestur og ætthöfðingjar safnaðarins;
27 og skift þú herfanginu til helminga milli þeirra, er vopnaviðskiftin
áttu, þeirra er í leiðangurinn fóru, og alls safnaðarins. 28 Og þú skalt
taka í skattgjald Jahve til handa af bardagamönnunum, þeim er í leið-
angurinn fóru, eina sál af hverjum fimm hundruðum — af mönnum,
nautgripum, ösnum og smáfénaði. 29 Takið það af þeirra helmingi, og
skalt þú fá það Eleasar presti sem lyftifórn Jahve. 30 En af helmingi
Ísraelsmanna skalt þú taka frá eina af hverjum fimtíu — af mönnum,
*nautgripum*, ösnum og smáfénaði, af öllum skepnum, og fá Levítun-
*um*, sem annast búð Jahve.
31 Og Móse og Eleasar prestur gjörðu eins og Jahve hafði boðið
Móse. 32 En herfangið — það sem eftir var af ránsfé því, er herfólkið
hafði rænt — voru sex hundruð sjötíu og fimm þúsundir af sauðfénaði,
33 sjötíu og tvær þúsundir af nautgripum 34 og sextíu og eitt þúsund
asnar; 35 og alls þrjátíu og tvö þúsund manns, konur er eigi höfðu átt
samræði við karlmann. 36 En helmingshlutur þeirra, er í leiðangurinn
fóru, var að tölu þrjú hundruð þrjátíu og sjö þúsundir og fimm hundr-
uð af sauðfénaði, 37 og skattgjaldið til handa Jahve af sauðfénaðinum
var sex hundruð sjötíu og fimm, 38 af nautgripum þrjátíu og sex þús-
undir, og skattgjaldið af þeim Jahve til handa sjötíu og tveir, 39 asn-
arnir þrjátíu þúsund og fimm hundruð, og skattgjaldið af þeim Jahve
til handa sextíu og einn; 40 og mennirnir sextán þúsundir, og skatt-
gjaldið af þeim Jahve til handa þrjátíu og tvær sálir. 41 Og Móse fékk
Eleasar presti lyftifórnarskattgjaldið Jahve til handa, eins og Jahve
hafði boðið Móse. 42 Og af helmingnum, er Ísraelsmenn fengu og
Móse skifti frá hermönnunum — 43 en í hluta safnaðarins kom: af sauð-
fénaði þrjú hundruð þrjátíu og sjö þúsundir og fimm hundruð,
44 af nautgripum þrjátíu og sex þúsundir, 45 af ösnum þrjátíu þúsundir
og fimm hundruð 46 og af mönnum sextán þúsundir — 47 af helmingn-
um, er Ísraelsmenn fengu, tók Móse frá einn af hverjum fimtíu, bæði
af mönnum og skepnum, og fékk Levítunum, er annast búð Jahve,
eins og Jahve hafði boðið Móse.
48 Höfuðsmennirnir yfir þúsundum hersins, fyrirliðarnir fyrir þús-
undunum og fyrirliðarnir fyrir hundruðunum, gengu nú fram fyrir
Móse 49 og sögðu við Móse: Vér þjónar þínir höfum talið bardaga-
mennina, er vér áttum yfir að ráða, og vér söknum eigi neins af þeim.
50 Fyrir því færum vér Jahve að fórnargjöf hver það, er hann hefir
komist yfir af gullgripum: armhringa, armbönd, fingurgull, eyrnagull
og hálsmen, til þess að friðþægja fyrir sálir vorar fyrir Jahve. 51 En

**19**: kap. 19, 11. 16. **23**: kap. 19, 9. **41**: v. 28. 29.

þeir Móse og Eleasar tóku við gullinu af þeim; var það alls konar
listasmíði. 52 En gullið, sem þeir færðu Jahve að lyftifórn, var alls
sextán þúsund sjö hundruð og fimtíu siklar og var það frá fyrirliðun-
um fyrir þúsundunum og frá fyrirliðunum fyrir hundruðunum. 53 Her-
mennirnir höfðu rænt hver handa sér. 54 Og þeir Móse og Eleasar
prestur tóku við gullinu af fyrirliðunum fyrir þúsundunum og hundr-
uðunum og færðu það í samfundatjaldið, Ísraelsmönnum til minningar
frammi fyrir Jahve.

## Ættkvíslir þeirra Rúbens og Gaðs og hálf Manasse-ættkvísl fá land til bólfestu.

32 En synir Rúbens og synir Gaðs áttu mikið kvikfé og mjög
vænt; og er þeir litu Jaser-land og Gílead-land, sáu þeir að það
var gott búfjárland. 2 Synir Gaðs og synir Rúbens komu þá og sögðu
við þá Móse og Eleasar prest og höfuðsmenn safnaðarins á þessa leið:
3 Atarót, Díbon, Jaser, Nimra, Hesbón, Eleale, Sebam, Nebó og Beón,
4 landið, sem Jahve laust fyrir söfnuði Ísraels, er búfjárland gott og
þjónar þínir eiga búfé. 5 Og þeir sögðu: Ef vér höfum fundið náð í
augum þínum, þá fái þjónar þínir land þetta til eignar; far eigi með
oss yfir Jórdan. 6 Þá sagði Móse við sonu Gaðs og sonu Rúbens: Eiga
bræður yðar að fara í hernað, en þér setjast hér að? 7 Hví teljið þér
hug úr Ísrelsmönnum að fara yfir um, inn í landið, sem Jahve hefir
gefið þeim? 8 Svo gjörðu og feður yðar, þá er eg sendi þá frá Kades-
Barnea til að skoða landið. 9 Þeir fóru alla leið norður í Eskóldal og
skoðuðu landið, en töldu svo hug úr Ísraelsmönnum, að þeir vildu ekki
fara inn í landið, sem Jahve hafði gefið þeim. 10 Þann dag upptendr-
aðist reiði Jahve, svo að hann sór og sagði: 11 Þeir menn, er fóru
af Egiptalandi tvítugir og þaðan af eldri, skulu ekki fá að sjá landið,
sem eg sór Abraham, Ísak og Jakob, því að þeir hafa ekki fylgt mér
trúlega, 12 nema Kaleb Jefúnneson Kenissíti og Jósúa Núnsson, því að
þeir hafa trúlega fylgt Jahve. 13 Og reiði Jahve upptendraðist gegn Ís-
rael og hann lét þá reika um eyðimörkina í fjörutíu ár, þar til er öll
sú kynslóð var liðin undir lok, er gjört hafði það, sem ilt var fyrir
augliti Jahve. 14 Og sjá, nú hafið þér risið upp í stað feðra yðar, þér
afsprengi syndugra manna, til þess að gjöra hina brennandi reiði Jahve
gegn Ísrael enn þá meiri. 15 Því að ef þér snúið yður frá honum, þá
mun hann láta þá reika enn lengur um eyðimörkina, og þér munuð
steypa öllum þessum lýð í glötun. 16 Og þeir gengu til hans og sögðu:
Vér viljum byggja hér fjárbyrgi fyrir búsmala vorn og bæi handa
börnum vorum. 17 En sjálfir munum vér fara vígbúnir fyrir Ísraels-
mönnum, þar til er vér höfum komið þeim á sinn stað; en börn vor
skulu búa í víggirtum borgum, sökum íbúa landsins. 18 Eigi munum
vér snúa heim aftur fyr en Ísraelsmenn hafa hlotið hver sinn erfðahlut.
19 Því að vér munum eigi taka eignarland með þeim þar hinumegin Jór-
danar, því að vér höfum hlotið til eignar landið hér austanmegin Jór-
danar. 20 Þá sagði Móse við þá: Ef þér viljið gjöra þetta, ef þér viljið
búast til bardaga fyrir augliti Jahve, 21 og ef sérhver vígbúinn maður
meðal yðar fer yfir Jórdan fyrir augliti Jahve, unz hann hefir rekið
óvini sína burt frá sér, 22 og þér snúið ekki aftur fyr en landið er
undirokað fyrir augliti Jahve, þá skuluð þér vera sýknir saka fyrir
Jahve og fyrir Ísrael, og land þetta skal verða yðar eign fyrir augliti
Jahve. 23 En ef þér gjörið eigi svo, sjá, þá syndgið þér gegn Jahve, og

---

**32, 3:** kap. 21, 32. **9:** kap. 13, 3 n. 5 Mós. 9, 23. **11:** kap. 14, 28 n. 26, 65. Jós. 14, 6. **17:** Jós. 4, 12. 13. **20:** Jós. 1, 13 n.

þér munuð fá að kenna á synd yðar, er yður mun í koll koma.
24 Byggið yður bæi handa börnum yðar og byrgi handa fé yðar, og
gjörið svo sem þér hafið látið um mælt. 25 Þá sögðu synir Gaðs og
synir Rúbens við Móse: Þjónar þínir munu gjöra eins og þú býður,
herra. 26 Börn vor, konur vorar, fénaður vor og allir eykir vorir skulu
verða eftir hér í bæjunum í Gíleað. 27 En þjónar þínir skulu fara yfir
um, allir þeir sem herbúnir eru, fyrir augliti Jahve til hernaðar, eins
og þú býður, herra.
28 Og Móse gaf Eleasar presti, Jósúa Núnssyni og ætthöfðingjum
Ísraelsmanna skipun um þá; 29 og Móse sagði við þá: Ef synir Gaðs og
synir Rúbens, allir þeir sem vígbúnir eru, fara með yður yfir Jórdan
til hernaðar fyrir augliti Jahve og þér undirokið landið, þá gefið þeim
Gíleað-land til eignar. 30 En ef þeir fara eigi vígbúnir yfir um með
yður, þá skulu þeir fá eignarlönd með yður í Kanaanlandi. 31 En synir
Gaðs og synir Rúbens svöruðu og sögðu: Það sem Jahve hefir sagt
þjónum þínum, það viljum vér gjöra. 32 Vér viljum fara yfir um víg-
búnir fyrir augliti Jahve, inn í Kanaanland, en óðalseign vor skal vera
fyrir handan Jórdan. 33 Þá fékk Móse þeim sonum Gaðs, sonum
Rúbens og hálfri ættkvísl Manasse Jósefssonar konungsríki Síhons Am-
óríta konungs og konungsríki Ógs, konungs í Basan, landið og borgirn-
ar í því, ásamt umhverfunum, borgir landsins alt í kring. 34 Þá reistu
synir Gaðs Díbon, Atarót, Aróer, 35 Aterót-Sófan, Jaser, Jogbeha, 36 Bet-
Nimra og Bet-Haran; voru það víggirtar borgir og fjárbyrgi. 37 En syn-
ir Rúbens reistu Hesbón, Eleale, Kirjataím, 38 Nebó, Baal-Meon, með
breyttu nafni, og Síbma; og þeir gáfu borgunum, er þeir reistu, ný
nöfn. 39 En synir Makírs Manassesonar fóru til Gíleað og unnu það
og ráku burt Amóríta, sem þar voru. 40 Og Móse fékk Makír Man-
assesyni Gíleað, og festi hann þar bygð. 41 En Jaír, sonur Manasse,
fór og vann þorp þeirra og nefndi þau Jaírs-þorp. 42 Og Nóba fór og
vann Kenat og borgirnar þar umhverfis og nefndi það Nóba eftir nafni
sínu.

## Áfangastaðir Ísraelsmanna.

33 Þessir voru áfangar Ísraelsmanna, er þeir fóru af Egiptalandi,
hver hersveit fyrir sig, undir forystu þeirra Móse og Arons.
2 Og Móse færði í letur að boði Jahve staðina, sem þeir lögðu upp frá,
eftir áföngum þeirra; og þessir voru áfangar þeirra frá einum áfanga-
stað til annars. 3 Þeir lögðu upp frá Ramses í fyrsta mánuðinum, á
fimtánda degi hins fyrsta mánaðar; daginn eftir páska lögðu Ísraels-
menn af stað með lyftri hendi að Egiptum öllum ásjáandi, 4 meðan
Egiptar voru að jarða alla frumburðina, er Jahve hafði fyrir þeim deytt;
og Jahve hafði látið refsidóma ganga yfir goð þeirra. 5 Og Ísraels-
menn lögðu upp frá Ramses og settu búðir sínar í Súkkót. 6 Og þeir
lögðu upp frá Súkkót og settu búðir sínar í Etam, þar sem eyðimörk-
ina þrýtur. 7 Og þeir lögðu upp frá Etam og sneru leið sinni til Pí-
Hakírót, sem er fyrir austan Baal-Zefón, og þeir settu búðir sínar
fyrir austan Mígdól. 8 Og þeir lögðu upp frá Pí-Hakírót og fóru þvert
yfir hafið inn í eyðimörkina; og þeir fóru þriggja daga leið í Etam-
eyðimörk og settu búðir sínar í Mara. 9 Og þeir lögðu upp frá Mara
og komu til Elím; en í Elím voru tólf vatnslindir og sjötíu pálmaviðir;

---

**24:** v. 16. 17. **33:** 5 Mós. 3, 12 n. Jós. 13, 7. 8. **39:** 1 Mós. 50, 23. **41:** Dóm. 10, 4. 1 Kron. 2, 21. 22. — **33, 3:** 2 Mós. 12, 37; 14, 8. **4:** 2 Mós. 12, 12. **5:** 2 Mós. 12, 37. **6:** 2 Mós. 13, 20. **7:** 2 Mós. 14, 2. **8:** 2 Mós. 14, 22. 29; 15, 23. **9:** 2 Mós. 15, 27.

þar settu þeir búðir sínar. [10] Og þeir lögðu upp frá Elím og settu
búðir sínar við Rauðahafið. [11] Og þeir lögðu upp frá Rauðahafinu og
settu búðir sínar í Sín-eyðimörku. [12] Og þeir lögðu upp frá Sín-
eyðimörk og settu búðir sínar í Dofka. [13] Og þeir lögðu upp frá
Dofka og settu búðir sínar í Alús. [14] Og þeir lögðu upp frá Alús og
settu búðir sínar í Refídím; þar hafði lýðurinn ekki vatn að drekka.
[15] Og þeir lögðu upp frá Refídím og settu búðir sínar í Sínaí-eyðimörk.
[16] Og þeir lögðu upp frá Sínaí-eyðimörk og settu búðír sínar í Kibrót-
hattava. [17] Og þeir lögðu upp frá Kibrót-hattava og settu búðir sínar
í Hazerót. [18] Og þeir lögðu upp frá Hazerót og settu búðir sínar í
Ritma. [19] Og þeir lögðu upp frá Ritma og settu búðir sínar í Rimmón-
Perez. [20] Og þeir lögðu upp frá Rimmón-Perez og settu búðir sínar í
Líbna. [21] Og þeir lögðu upp frá Líbna og settu búðir sínar í Rissa.
[22] Og þeir lögðu upp frá Rissa og settu búðir sínar í Kehelata. [23] Og
þeir lögðu upp frá Kehelata og settu búðir sínar á Seferfjalli. [24] Og
þeir lögðu upp frá Seferfjalli og settu búðir sínar í Harada. [25] Og þeir
lögðu upp frá Harada og settu búðir sínar í Makhelót. [26] Og þeir
lögðu upp frá Makhelót og settu búðir sínar í Tahat. [27] Og þeir lögðu
upp frá Tahat og settu búðir sínar í Tera. [28] Og þeir lögðu upp frá
Tera og settu búðir sínar í Mitka. [29] Og þeir lögðu upp frá Mitka og
settu búðir sínar í Hasmóna. [30] Og þeir lögðu upp frá Hasmóna og
settu búðir sínar í Móserót. [31] Og þeir lögðu upp frá Móserót og settu
búðir sínar í Bene-Jaakan. [32] Og þeir lögðu upp frá Bene-Jaakan og
settu búðir sínar í Hór-Haggiðgað. [33] Og þeir lögðu upp frá Hór-
Haggiðgað og settu búðir sínar í Jotbata. [34] Og þeir lögðu upp frá
Jotbata og settu búðir sínar í Abróna. [35] Og þeir lögðu upp frá Abróna
og settu búðir sínar í Ezjón-Geber. [36] Og þeir lögðu upp frá Ezjón-
Geber og settu búðir sínar í Zín-eyðimörku, það er Kades. [37] Og þeir
lögðu upp frá Kades og settu búðir sínar á Hór-fjalli, á landamærum
Edóm-lands. [38] Og Aron prestur fór að boði Jahve upp á Hór-fjall og
andaðist þar, á fertugasta ári eftir brottför Ísraelsmanna af Egiptalandi,
í fimta mánuðinum, á fyrsta degi mánaðarins. [39] Og Aron var hundrað
tuttugu og þriggja ára gamall, þegar hann andaðist á Hór-fjalli. [40] Og
Kanaanítinn, konungurinn í Arad, sem bjó í suðurhluta Kanaanlands,
spurði komu Ísraelsmanna. [41] Og þeir lögðu upp frá Hór-fjalli og settu
búðir sínar í Zalmóna. [42] Og þeir lögðu upp frá Zalmóna og settu
búðir sínar í Fúnón. [43] Og þeir lögðu upp frá Fúnón og settu búðir
sínar í Óbót. [44] Og þeir lögðu upp frá Óbót og settu búðir sínar í
Íje-Haabarím, í Móabslandi. [45] Og þeir lögðu upp frá Íjím og settu
búðir sínar í Díbon-Gað. [46] Og þeir lögðu upp frá Díbon-Gað og settu
búðir sínar í Almón-Díblataím. [47] Og þeir lögðu upp frá Almón-
Díblataím og settu búðir sínar í Abarím-fjöllum, fyrir austan Nebó.
[48] Og þeir lögðu upp frá Abarím-fjöllum og settu búðir sínar á Móabs-
heiðum við Jórdan, gegnt Jerikó. [49] Settu þeir búðir sínar við Jórdan
frá Bet-Hajesímót til Abel-Hasittím á Móabs-heiðum.

## Um brottrekstur landsbúa og skifting landsins.

[50] Og Jahve talaði við Móse á Móabs-heiðum við Jórdan, gegnt
Jerikó, og sagði: [51] Mæl þú til Ísraelsmanna og seg við þá: Þegar þér
eruð komnir yfir um Jórdan inn í Kanaanland, [52] skuluð þér stökkva

---

**11:** 2 Mós. 16, 1. **14:** 2 Mós. 17, 1. **15:** 2 Mós. 19, 1. **16:** kap. 11, 34. 35. **18:** kap. 12, 16. **31:** 5 Mós. 10, 6 n. **36:** kap. 20, 1. **37:** kap. 20, 22. **38:** kap. 20, 25 n. 5 Mós. 10, 6; 32, 50. **40:** kap. 21, 1. **43:** kap. 21, 10. **44:** kap. 21, 11.

burt undan yður öllum íbúum landsins og eyða öllum myndasteinum
þeirra; þér skuluð og eyða öllum steyptum líkneskjum þeirra og leggja
fórnarhæðir þeirra í eyði; [53] og þér skuluð kasta eign yðar á landið og
festa bygð í því; því að yður hefi eg gefið landið til eignar. [54] Og þér
skuluð fá erfðahluti í landinu eftir hlutkesti, hver ættkvísl fyrir sig;
þeirri ættkvísl, sem mannmörg er, skuluð þér fá mikinn erfðahlut, en
þeirri, sem fámenn er, skuluð þér fá lítinn erfðahlut; þar sem hlutur
hvers eins fellur, það skal verða hans; eftir kynkvíslum feðra yðar
skuluð þér fá það í erfðahlut. [55] En ef þér stökkvið ekki íbúum lands-
ins burt undan yður, þá munu þeir af þeim, er þér skiljið eftir, verða
þyrnar í augum yðar og broddar í síðum yðar og þeir munu veita
yður þungar búsifjar í landinu, sem þér búið í; [56] og þá mun svo fara,
að eg mun gjöra svo við yður sem eg hafði fyrirhugað að gjöra við þá.
34 Og Jahve talaði við Móse og sagði: [2] Bjóð þú Ísraelsmönn-
um og seg við þá: Þegar þér komið inn í Kanaanland, þá skal
það vera landið, sem þér hljótið til eignar, Kanaanland til yztu um-
merkja. [3] Suðurhliðin skal vera: frá Zín-eyðimörk með fram Edóm;
og austurendi suður-takmarkanna skal vera suðurendi Saltasjós; [4] þaðan
skulu takmörkin liggja í boga fyrir sunnan Sporðdrekaskarð og ná yfir
til Zin og endir þeirra vera fyrir sunnan Kades-Barnea; skulu þau
liggja til Hazar-Adar og ná yfir til Azmón. [5] Frá Azmón skulu tak-
mörkin liggja í boga til Egiptalandsár og alla leið til sjóar. [6] Og að
*vestur-tak*mörkum skuluð þér hafa hafið mikla; þetta skulu vera *vest-
ur-tak*mörkin. [7] En norður-takmörkin skulu vera þessi: frá hafinu
mikla skuluð þér taka stefnu á Hór-fjall; [8] frá Hór-fjalli skuluð þér
taka stefnu þangað sem leið liggur til Hamat, og þaðan alla leið til
Zedad. [9] Skulu takmörkin ná til Sífrón og enda í Hazar-Enan. Þetta
skulu vera landamerki yðar að norðanverðu. [10] Og að austanverðu skul-
uð þér setja merkjalínuna frá Hazar-Enan til Sefam; [11] en frá Sefam
skulu landamerkin liggja suður til Ribla, fyrir austan Aín; þaðan skulu
landamerkin liggja niður eftir og nema við fjallhrygginn fyrir austan
Kíneret-vatn*. [12] Og landamerkin skulu liggja niður með Jórdan og
enda við Saltasjó. Þessi skulu merki vera lands yðar hringinn í kring.
[13] Og Móse bauð Ísraelsmönnum og sagði: Þetta er landið, sem
þér skuluð fá til eignar með hlutkesti og Jahve bauð að gefa níu ætt-
kvíslunum og hálfri. [14] Því að ættkvísl Rúbens sona, hver ætt fyrir sig,
og ættkvísl Gaðs sona, hver ætt fyrir sig, og hálf ættkvísl Manasse hafa
fengið sinn eignarhluta. [15] Tvær ættkvíslirnar og hálf hafa fengið sinn
eignarhluta hinumegin Jórdanar, gegnt Jerikó, austanmegin.
[16] Og Jahve talaði við Móse og sagði: [17] Þessi eru nöfn þeirra
manna, er skifta skulu landinu milli yðar: Eleasar prestur og Jósúa
Núnsson. [18] Enn fremur skuluð þér taka einn höfðingja af ættkvísl
hverri, til að skifta landinu. [19] Og þessi eru nöfn mannanna: af ætt-
kvísl Júda Kaleb Jefúnneson; [20] af ættkvísl Símeons sona Samúel Ammí-
húdsson; [21] af ættkvísl Benjamíns Elídad Kislónsson; [22] höfðingi af
ættkvísl Dans sona Búkí Joglíson; [23] af sonum Jósefs: höfðingi af ætt-
kvísl Manasse sona Hanníel Efóðsson, [24] og höfðingi af ættkvísl Efra-
íms sona Kemúel Siftansson; [25] höfðingi af ættkvísl Sebúlons sona Elíza-
fan Parnaksson; [26] höfðingi af ættkvísl Íssakars sona Paltíel Asansson;
[27] höfðingi af ættkvísl Assers sona Akíhúð Selómíson; [28] og höfðingi af
ættkvísl Naftalí sona Pedahel Ammíhúdsson. [29] Þessir voru þeir, er

---

**52:** 2 Mós. 23, 32. 33; 34, 12 n. 5 Mós. 7, 2 n. **54:** kap. 26, 54. 55. Jós. 14, 1 n.
**55:** 2 Mós. 34, 12. 15. 16. Jós. 23, 13. Dóm. 2, 3. — **34, 2:** 2 Mós. 23, 31. 5 Mós.
11, 24. Jós. 1, 4. **3:** Jós. 15, 1. **11:** * Þ. e. Genesaretvatn. **14:** kap. 32, 33.

Jahve bauð að skifta skyldu landeignum milli Ísraelsmanna í Kana-
anlandi.

•

## Um borgir Levítanna og griðastaði.

35 Og Jahve talaði við Móse á Móabs-heiðum við Jórdan, gegnt
Jerikó, og sagði: 2 Bjóð þú Ísraelsmönnum, að þeir fái Levítun-
um borgir til íbúðar af óðalseignum sínum; og til beitar skuluð þér fá
Levítunum landið kring um borgirnar. 3 Og borgirnar skulu vera þeim
til íbúðar og beitilandið, er undir þær liggur, skal vera fyrir gripi þeirra,
fénað þeirra og allar aðrar skepnur þeirra. 4 Og beitilandið hjá borg-
unum, er þér fáið Levítunum, skal vera þúsund álnir út frá borgar-
veggnum hringinn í kring. 5 Og fyrir utan borgina skuluð þér mæla
austurhliðina tvö þúsund álnir, suðurhliðina tvö þúsund álnir, vestur-
hliðina tvö þúsund álnir og norðurhliðina tvö þúsund álnir, en borgin
sjálf sé í miðju. Þetta beitiland í kring um borgirnar skulu þeir fá.
6 Og að því er kemur til borganna, er þér eigið að fá Levítunum, þá
skuluð þér láta af hendi griðastaðina sex, til þess að þangað megi
flýja menn, er víg hafa unnið, en auk þeirra skuluð þér fá þeim fjöru-
tíu og tvær borgir. 7 Borgirnar, er þér fáið Levítunum, skulu vera
fjörutíu og átta borgir alls, ásamt með beitilandi því, er undir þær
liggur. 8 Og að því er kemur til borganna, er þér eigið að láta af óð-
ali Ísraelsmanna, þá skuluð þér láta mannmörgu ættkvíslirnar leggja
til fleiri, en hinar fámennu færri; hver einn skal fá Levítunum af borg-
um sínum í réttu hlutfalli við erfðahlut þann, er hann hefir fengið.
9 Og Jahve talaði við Móse og sagði: 10 Tala þú til Ísraelsmanna og
seg við þá: Þegar þér eruð komnir yfir um Jórdan inn í Kanaanland,
11 þá veljið yður haganlegar borgir; skulu það vera yður griðastaðir,
að þangað megi flýja vegendur, þeir er óviljandi hafa orðið manni að
bana. 12 Og borgirnar skulu vera yður hæli fyrir hefnanda, svo að
vegandinn týni eigi lífi áður en hann hefir komið fyrir dóm safnaðar-
ins. 13 En griðastaðirnir, sem þér látið af hendi, skulu vera sex.
14 Skuluð þér láta þrjár borgir hinumegin Jórdanar og þrjár borgir í
Kanaanlandi; griðastaðir skulu þær vera. 15 Skulu þessar sex borgir
vera griðastaðir bæði fyrir Ísraelsmenn og dvalarmenn og hjábýlinga
meðal yðar, svo að þangað megi flýja hver sá, er orðið hefir manni að
bana óviljandi. 16 Hafi hann lostið hann með járntóli, svo að hann
beið bana af, þá er hann manndrápari; og manndrápara skal vissulega
af lífi taka. 17 Hafi hann lostið hann með stein í hendi, er getur orðið
manni að bana, svo að hann beið bana af, þá er hann manndrápari;
manndrápara skal vissulega af lífi taka. 18 Eða hafi hann lostið hann
með trétól í hendi, er getur orðið manni að bana, svo að hann beið
bana af, þá er hann manndrápari; manndrápara skal vissulega af lífi
taka. 19 Hefndarmaðurinn skal drepa vegandann; hann skal drepa
hann, ef hann hittir hann. 20 Og hrindi hann honum af hatri eða kasti
í hann af ásetningi, svo að hann bíður bana af, 21 eða ljósti hann af
fjandskap með hendinni, svo að hann bíður bana af, þá skal sá, er
laust hann, vissulega líflátinn verða; hann er manndrápari; hefndar-
maðurinn skal drepa vegandann, þegar hann hittir hann.
22 En hafi hann hrundið honum óvart, en eigi af fjandskap, eða
kastað í hann einhverju verkfæri, þó eigi af ásettu ráði, 23 eða hann
kastar til hans steini, sem getur orðið manni að bana, án þess að sjá

---

**35, 6:** 2 Mós. 21, 13. 5 Mós. 4, 41 n. 19, 2 n. Jós. 20, 2 n. **8:** Jós. 21, 3—42.
**10:** 5 Mós. 19, 1—13. **16:** 2 Mós. 21, 12. 3. Mós. 24, 17.

hann, svo að hann bíður bana af, og var þó ekki óvinur hans og ætl-
aði ekki að gjöra honum mein, 24 þá dæmi söfnuðurinn milli vegand-
ans og hefndarmannsins eftir lögum þessum. 25 Og söfnuðurinn skal
forða veganda undan hefndarmanninum og söfnuðurinn skal láta flytja hann
aftur í griðastað þann, er hann hafði flúið í, og skal hann dvelja þar
unz æðsti presturinn deyr, sem smurður hefir verið með heilagri olíu.
26 En ef vegandi fer út fyrir landamerki griðastaðar þess, er hann hefir
í flúið, 27 og hefndarmaður hittir hann fyrir utan landamerki griðastað-
ar hans, og hefndarmaður vegur veganda, þá er hann eigi blóðsekur.
28 Því að hann skal dvelja í griðastað sínum, unz æðsti prestur deyr;
en eftir dauða æðsta prests má vegandinn hverfa aftur til óðalslands
síns. 29 Þetta skulu vera lög hjá yður frá kyni til kyns í öllum bú-
stöðum yðar.
30 Nú drepur einhver mann, og skal þá manndráparann af lífi taka
eftir framburði votta; þó má ekki kveða upp dauðadóm yfir manni
eftir framburði eins vitnis. 31 Og eigi skuluð þér taka bætur fyrir líf
manndrápara, sem er dauðasekur, heldur skal hann af lífi tekinn verða.
32 Eigi skuluð þér heldur leyfa manni að leysa sig með fébótum undan
því að flýja í griðastað sinn, heldur megi hverfa aftur og búa í land-
inu áður en prestur deyr. 33 Og þér skuluð eigi vanhelga landið, sem
þér eruð í; því að blóðið vanhelgar landið, og landið fær eigi frið-
þæging fyrir það blóð, sem úthelt er í því, nema með blóði þess, sem
*úthelti* því. 34 Og þú skalt ekki saurga landið, sem þér búið í, með
*því að* eg bý í því; því að eg, Jahve, bý meðal Ísraelsmanna.

## Um arftöku Zelofhaðsdætra.

36 En ætthöfðingjarnir af kynkvísl Gíleaðs sona, Makírssonar,
Manassesonar, af kynkvíslum Jósefs sona, gengu fram og töluðu
fyrir augliti Móse og fyrir augliti höfuðsmannanna, ætthöfðingja Ísraels-
manna, 2 og sögðu: Jahve hefir boðið þér, herra, að fá Ísraelsmönnum
landið til eignar með hlutkesti; þér var og, herra, boðið af Jahve að
fá eignarhluta Zelofhaðs bróður vors dætrum hans í hendur. 3 Giftist
þær nú einhverjum af sonum annara ættkvísla Ísraelsmanna, þá tekst
erfð þeirra af erfð feðra vorra og bætist við erfð þess ættleggs, er þær
giftast í, og tekst þannig af erfðahluta vorum. 4 Og þegar fagnaðarár Ís-
raelsmanna kemur, þá verður erfð þeirra bætt við erfð þess ættleggs,
er þær giftast í, og erfð þeirra tekst af erfð ættleggs feðra vorra.
5 Þá gaf Móse Ísraelsmönnum svofeld fyrirmæli að boði Jahve:
Ættleggur Jósefs sona hefir rétt að mæla. 6 Þetta eru fyrirmæli Jahve
um dætur Zelofhaðs: Þær mega giftast hverjum sem þær vilja; aðeins
skulu þær giftast einhverjum úr föðurætt sinni, 7 svo að erfð Ísraels-
manna gangi eigi frá einum ættlegg til annars; heldur skulu allir Ísra-
elsmenn halda fast í erfð föðurættar sinnar. 8 Og sérhver dóttir af
ættkvíslum Ísraelsmanna, er erfð hlýtur, skal giftast í föðurætt sína,
svo að hver Ísraelsmanna erfi föðurleifð sína 9 og erfð gangi eigi frá
einum ættlegg til annars; heldur skulu allir ættleggir Ísraelsmanna
halda fast í erfð sína.
10 Dætur Zelofhaðs gjörðu svo sem Jahve hafði boðið Móse, 11 og
giftust þær Mahla, Tirza, Hogla, Milka og Nóa, dætur Zelofhaðs,

---

**30**: 5 Mós. 17, 6; 19, 15. 2 Kor. 13, 1. Hebr. 10, 28. **33**: 1 Mós. 9, 6. **34**: 2 Mós. 29, 45. 3 Mós. 26, 11. — **36**, 1: kap. 26, 29. **2**: kap. 26, 55. 56; 27, 6. 7. Jós. 17, 3 n. **4**: 3 Mós. 25, 10 n.

sonum föðurbræðra sinna. [12] Giftust þær mönnum af kynkvísl sona
Manasse Jósefssonar, og varð erfð þeirra kyr í ættlegg föðurættar þeirra.
[13] Þetta eru skipanir þær og ákvæði, er Jahve setti Ísraelsmönnum
fyrir Móse á Móabs-heiðum við Jórdan, gegnt Jerikó.

---

# Fimta bók Móse

## (Deuteronomium).

---

### Yfirlit yfir för Ísraelsmanna frá því, er þeir fóru af Egiptalandi.

1 Þessi eru þau orð, er Móse talaði við allan Ísrael hinumegin Jór-
danar í eyðimörkinni, á sléttlendinu gegnt Súf, á milli Paran, Tófel,
Laban, Hazeról og Dí-Sahab. [2] Eru ellefu dagleiðir frá Hóreb til Kades-
Barnea, þegar farin er leiðin, sem liggur til Seír-fjalla. [3] Á fertugasta
ári, á fyrsta degi hins ellefta mánaðar, birti Móse Ísraelsmönnum alt
það, er Jahve hafði boðið honum um þá, [4] eftir að hann hafði unnið
á Síhon Amóríta konungi, sem hafði aðsetur í Hesbon, og Óg, konungi
í Basan, sem hafði aðsetur í Astaról, hjá Edreí. [5] Hinumegin Jórdanar,
í Móabslandi, tók Móse að skýra lögmál þetta og mælti: [6] Jahve, Guð
vor, talaði við oss á Hóreb á þessa leið: Þér hafið nú dvalið nógu
lengi á þessu fjalli. [7] Snúið á leið, leggið af stað og haldið til fjall-
lendis Amóríta og allra nábúa þeirra: á sléttlendinu, í fjalllendinu, á
láglendinu, í suðurlandinu, á sjávarströndinni, inn í land Kanaaníta og
til Líbanon, alt til fljótsins mikla, Evfratfljótsins. [8] Sjá, eg fæ yður
landið. Farið og takið til eignar landið, sem Jahve sór feðrum yðar:
Abraham, Ísak og Jakob, að gefa þeim og niðjum þeirra eftir þá.
[9] Þá sagði eg við yður: Eg rís ekki einn undir yður. [10] Jahve, Guð
yðar, hefir margfaldað yður, og sjá, þér eruð í dag að fjölda til sem
stjörnur himins. [11] Jahve, Guð feðra yðar, gjöri yður þúsund sinnum
fleiri en þér eruð og blessi yður, eins og hann hefir heitið yður.
[12] Hvernig fæ eg einn borið þyngslin af yður, þunga yðar og deilur
yðar! [13] Veljið til vitra menn, skynsama og valinkunna af hverri kyn-
kvísl yðar, og mun eg skipa þá höfðingja yfir yður. [14] Þá svöruðuð
þér mér og sögðuð: Það er vel til fallið að gjöra það, sem þú talar
um. [15] Tók eg þá ætthöfðingja yðar, vitra menn og valinkunna, og
skipaði þá höfðingja yfir yður, suma yfir þúsund, suma yfir hundrað,
suma yfir fimtíu, suma yfir tíu, og tilsjónarmenn meðal ættkvísla yðar.
[16] Og eg lagði þá svo fyrir dómendur yðar: Hlýðið á mál bræðra yðar
og dæmið réttlátlega, hvort heldur mann greinir á við bróður sinn eða
útlending, er hjá honum dvelur. [17] Gjörið yður eigi mannamun í dóm-
um; hlýðið jafnt á lágan sem háan; hræðist engan mann; því að dóm-
urinn er Guðs; en ef eitthvert mál er yður ofvaxið, þá skjótið því til
mín, og skal eg sinna því. [18] Þannig lagði eg þá fyrir yður alt það, er
þér skylduð gjöra.

---

**1, 4:** 4 Mós. 21, 21—35. **6:** 2 Mós. 19, 1. 4 Mós. 10, 11. 12. **7:** 1 Mós. 15, 18. **8:** 1 Mós. 12, 7. **9:** 4 Mós. 11, 14. 2 Mós. 18, 18. **10:** kap. 10, 22. 1 Mós. 15, 5; 22, 17. **16:** kap. 16, 18. 19. **17:** Orðskv. 24, 23. 2 Kron. 19, 6. Jóh. 7, 24. 2 Mós. 23, 3. 3 Mós. 19, 15

19 Því næst lögðum vér upp frá Hóreb og fórum yfir alla eyði-
mörkina miklu og hræðilegu, sem þér hafið séð, leiðina til fjalllendis
Amóríta, eins og Jahve, Guð vor, hafði fyrir oss lagt; og vér komum
til Kades-Barnea. 20 Þá sagði eg við yður: Þér eruð komnir að fjall-
lendi Amóríta, sem Jahve, Guð vor, gefur oss. 21 Sjá, Jahve, Guð þinn,
hefir fengið þér landið; far þú og tak það til eignar, eins og Jahve,
Guð feðra þinna, hefir boðið þér; óttast þú eigi og lát eigi hugfallast.
22 Þá genguð þér allir til mín og sögðuð: Sendum menn á undan oss,
að þeir megi kanna landið fyrir oss og færa oss fregnir af veginum,
sem vér eigum að fara, og af borgunum, er vér munum koma til.
23 Mér féll þetta vel í geð, og tók eg tólf menn af yður, einn mann af
ættkvísl hverri. 24 Og þeir fóru af stað og héldu norður til fjalla og
komust í Eskóldal og könnuðu landið. 25 Tóku þeir með sér nokkuð
af ávöxtum landsins og færðu oss; og þeir fluttu oss fregnir og sögðu:
Gott er landið, sem Jahve, Guð vor, gefur oss. 26 En þér vilduð eigi
fara þangað og óhlýðnuðust skipun Jahve, Guðs yðar. 27 Og þér mögl-
uðuð í tjöldum yðar og sögðuð: Af því að Jahve hataði oss, hefir
hann leitt oss burt af Egiptalandi, til þess að selja oss í hendur
Amóritum, svo að þeir eyði oss. 28 Hvert erum vér að fara? Bræður
vorir hafa skelft hjörtu vor með því að segja: Fólkið er stærra og
hærra að vexti en vér; borgirnar eru stórar og víggirtar hátt í loft upp;
vér höfum meira að segja séð þar Anakíta. 29 Þá sagði eg við yður:
Látið eigi hugfallast og hræðist þá ekki. 30 Jahve, Guð yðar, sem fyrir
yður fer, mun berjast fyrir yður, eins og hann hjálpaði yður bersýni-
lega í Egiptalandi 31 og á eyðimörkinni, þar sem þú sást hvernig Jahve,
Guð þinn, bar þig, eins og faðir ber barn sitt, alla þá leið, er þér hafið
farið, þar til er þér komuð hingað. 32 En þrátt fyrir alt þetta vilduð
þér ekki treysta Jahve, Guði yðar, 33 sem gekk á undan yður á leiðinni,
til að leita upp tjaldstaði handa yður, á næturnar í eldi, til þess að
vísa yður veginn, sem þér ættuð að halda, en á daginn í skýi.
34 En er Jahve heyrði umtölur yðar, varð hann reiður, sór og
sagði: 35 Sannlega skal enginn af þessum mönnum, af þessari illu kyn-
slóð fá að sjá landið góða, sem eg sór að gefa feðrum yðar, 36 nema
Kaleb Jefúnneson, hann skal fá að sjá það; honum mun eg gefa landið,
sem hann hefir stigið fæti á, og sonum hans, sökum þess að hann
hefir fylgt Jahve trúlega. 37 Jahve reiddist mér einnig yðar vegna og
sagði: Þú skalt ekki heldur komast þangað. 38 Jósúa Núnsson, sem
stendur fyrir augliti þínu, hann skal komast þangað; tel þú hug í hann,
því að hann mun úthluta því Ísrael til eignar. 39 Börn yðar, sem þér
sögðuð að mundi verða fjandmönnunum að bráð, og synir yðar, sem
í dag vita eigi grein góðs og ills, munu komast þangað; þeim vil eg
gefa það, og þeir skulu fá það til eignar. 40 En þér skuluð snúa á leið
og halda inn í eyðimörkina, leiðina til Rauðahafsins. 41 Þá svöruðuð
þér og sögðuð við mig: Vér höfum syndgað gegn Jahve; vér viljum fara
og berjast, eins og Jahve, Guð vor, hefir boðið oss. Og þér gyrtuð
yður, hver sínum hervopnum, og tölduð það hægðarleik að leggja upp
á fjöllin. 42 Þá sagði Jahve við mig: Seg þeim: Þér skuluð eigi fara
þangað og eigi berjast, því að eg er eigi meðal yðar, svo að þér bíðið
eigi ósigur fyrir óvinum yðar. 43 Og eg talaði til yðar, en þér gegnduð
ekki, heldur óhlýðnuðust skipun Jahve og gjörðuð yður svo djarfa að
leggja upp á fjöllin. 44 Fóru þá Amóritar, sem bjuggu á fjöllum þess-

---

**22:** 4 Mós. 13, 1 n. **24:** 4 Mós. 13, 21 n. **26:** 4 Mós. 14, 1 n. **28:** kap. 9, 1. 2. **30:** 2 Mós. 14, 14. 25. Jós. 10, 14. 42. **31:** kap. 32, 10 n. **33:** 2 Mós. 13, 21. 4 Mós. 10, 33 n. **36:** 4 Mós. 14, 21 n. 26, 64 n. 32, 11 n. **37:** 4 Mós. 20, 12; 27, 13. 14. **39:** 4 Mós. 14, 31. **41:** 4 Mós. 14, 40 n.

um, í móti yður, eltu yður, eins og býflugur gjöra, og tvístruðu yður
alla leið frá Seír til Horma. [45] Og þér hurfuð aftur og grétuð frammi
fyrir Jahve, en Jahve heyrði ekki bænir yðar og hlýddi ekki á yður.
[46] Þannig hélduð þér kyrru fyrir í Kades langan tíma, eins langan tíma
og þér dvölduð þar.
2 Síðan snerum vér á leið og héldum inn í eyðimörkina, leiðina
til Rauðahafsins, eins og Jahve hafði boðið mér; og vér fórum í
kring um Seír-fjöll marga daga. [2] Þá sagði Jahve við mig: [3] Þér hafið
farið nógu lengi í kring um fjöll þessi; haldið nú í norður. [4] En bjóð
þú lýðnum og seg: Þér farið nú yfir landamerki bræðra yðar, Esaú
sona, sem búa í Seír, og þeir munu verða hræddir við yður; en gætið
þess vandlega [5] að gjöra þeim engan ófrið, því að ekki mun eg gefa
yður svo mikið sem þverfet af landi þeirra, því að eg hefi gefið Esaú
Seír-fjöll til eignar. [6] Mat skuluð þér kaupa af þeim fyrir silfur, að
þér megið eta, og vatn skuluð þér einnig kaupa af þeim fyrir silfur,
að þér megið drekka. [7] Því að Jahve, Guð þinn, hefir blessað þig í
öllu, sem þú hefir tekið þér fyrir hendur; hann hefir borið umhyggju
fyrir för þinni um þessa miklu eyðimörk; í fjörutíu ár hefir Jahve,
Guð þinn, nú verið með þér; ekkert hefir þig skort. [8] Síðan héldum
vér áfram burt frá bræðrum vorum Esaú sonum, sem búa í Seír, burt
frá veginum yfir sléttlendið, burt frá Elat og Esjón-Geber, og beygðum
við og héldum leiðina til Móabs-eyðimerkur.
[9] Þá sagði Jahve við mig: Leitið eigi á Móabíta og hefjið engan
ófrið við þá, því að eigi mun eg gefa þér neitt af landi þeirra til eignar,
með því að eg hefi gefið Lots sonum Ar til eignar. [10] (Emítar bjuggu
þar forðum, mikil þjóð og fjölmenn og stórvaxin, eins og Anakítar.
[11] Þeir voru og taldir Refaítar, eins og Anakítar, en Móabítar kölluðu
þá Emíta. [12] Hórítar bjuggu og forðum í Seír, en Esaú synir hröktu þá
burt og eyddu þeim, en settust sjálfir að löndum þeirra, eins og Ísrael
gjörði við eignarland sitt, er Jahve hafði gefið þeim). [13] Takið yður
nú upp og farið yfir Seredá. Og vér fórum yfir Seredá. [14] Í þrjátíu
og átta ár vorum vér á leiðinni frá Kades-Barnea, til þess er vér fór-
um yfir Seredá, unz öll kynslóðin, hinir vopnfæru menn, var dáin úr
herbúðunum, eins og Jahve hafði svarið þeim. [15] Hönd Jahve var
einnig á móti þeim, svo að hann eyddi þeim úr herbúðunum, unz
enginn þeirra var eftir.
[16] En er allir vopnfærir menn af lýðnum voru dánir, [17] þá mælti Jahve
til mín þessum orðum: [18] Þú fer í dag um land Móabíta, fram hjá Ar,
[19] og munt þú þá koma í nánd við Ammóníta, en eigi skalt þú leita
á þá né gjöra þeim nokkurn ófrið, því að eigi mun eg gefa þér neitt
af landi Ammóníta til eignar, með því að eg hefi gefið Lots sonum
það til eignar. [20] (Það er og talið land Refaíta; Refaítar bjuggu þar
forðum og kölluðu Ammónítar þá Samsúmmíta, [21] mikil þjóð og fjöl-
menn og stórvaxin, eins og Anakítar; en Jahve eyddi þeim fyrir Am-
mónítum, svo að þeir eignuðust lönd þeirra og settust að í þeirra stað,
[22] eins og hann gjörði fyrir Esaú sonu, sem búa í Seír, þá er hann
eyddi Hórítum fyrir þeim, svo að þeir eignuðust lönd þeirra og settust
að í þeirra stað, og er svo enn í dag. [23] Svo var og um Avíta, sem
bjuggu í þorpum alt til Gaza; Kaftórítar komu frá Kaftór og eyddu
þeim og settust sjálfir að löndum þeirra). [24] Takið yður nú upp og
haldið af stað og farið yfir Arnoná. Sjá, eg hefi gefið á þitt vald
Amórítann Síhon, konung í Hesbon, og land hans; tak nú til að vinna

---

2, 1: 4 Mós. 14, 25; 21, 4. Dóm. 11, 18. 9: 1 Mós. 19, 37. 18: 4 Mós. 21, 12.
19: 1 Mós. 19, 38.

landið og legg til orustu við hann. [25] Skal eg láta það hefjast í dag,
að öllum þjóðum undir himninum standi af þér ótti og hræðsla: ef
þær heyra þig nefndan á nafn, skulu þær fá í sig hræðslu og kvíða
fyrir þér.
[26] Þá gjörði eg menn úr Kedemót-eyðimörk á fund Síhons, kon-
ungs í Hesbon, með svolátandi friðarorð: [27] Leyf mér að fara um land
þitt; mun eg fara rétta þjóðleið og skal eg eigi sveigja af til hægri né
vinstri. [28] Mat munt þú selja mér fyrir silfur, að eg megi eta; og vatn
skalt þú láta mig fá fyrir silfur, að eg megi drekka; leyf mér aðeins
að fara um fótgangandi — [29] eins og þeir leyfðu mér, Esaú synir, sem
búa í Seír, og Móabítar, sem búa í Ar —, unz eg fer yfir Jórdan inn
í landið, sem Jahve, Guð vor, gefur oss. [30] En Síhon, konungur í
Hesbon, vildi ekki leyfa oss að fara um land sitt; því að Jahve, Guð
þinn, herti anda hans og gjörði hjarta hans þverúðarfult, af því að
hann vildi gefa hann í þínar hendur, eins og nú er fram komið. [31] Og
Jahve sagði við mig: Sjá, eg hefi byrjað að selja þér í hendur Síhon
og land hans; tak nú til að vinna það, svo að þú megir eignast land
hans. [32] Fór Síhon þá í móti oss með öllu liði sínu og átti orustu
við oss hjá Jahaz. [33] En Jahve, Guð vor, gaf hann á vort vald, svo
að vér unnum sigur á honum, sonum hans og öllu liði hans. [34] Þá
unnum vér og á sama tíma allar borgir hans og gjöreyddum hverja
borg að karlmönnum, konum og börnum; vér létum engan undan
komast. [35] Fénaðinn einn tókum vér að herfangi, svo og ránsfenginn
úr borgunum, er vér höfðum unnið. [36] Frá Aróer, sem liggur á bakka
Arnonár, og frá borginni, sem liggur í dalnum, alla leið til Gíleað
var engin sú borg, er oss væri ókleift að vinna; Jahve, Guð vor, gaf
þær allar á vort vald. [37] Aðeins komst þú ekki nærri landi Ammóníta,
héraðinu fram með Jabboká, borgunum í fjalllendinu, né nokkuru því,
sem Jahve, Guð vor, hafði bannað oss.
3 Snerum vér nú á leið og héldum veginn, sem liggur til Basan.
En Óg, konungur í Basan, fór í móti oss með öllu liði sínu, til
þess að heyja bardaga hjá Edreí. [2] Þá sagði Jahve við mig: Eigi
skalt þú óttast hann; því að eg gef hann og lið hans alt og land hans
í þínar hendur, og skalt þú svo fara með hann, eins og þú fórst með
Síhon, Amóríta konung, er bjó í Hesbon. [3] Jahve, Guð vor, gaf oss þannig
og í hendur Óg, konung í Basan, og lið hans alt, og vér feldum hann,
svo að enginn var eftir skilinn, er undan kæmist. [4] Þá unnum vér
allar borgir hans; var engin sú borg, að vér eigi næðum henni frá
þeim: sextíu borgir, alt Argób-hérað, konungsríki Ógs í Basan. [5] Alt
voru þetta borgir víggirtar háum múrveggjum, hliðum og slagbröndum,
auk mikils fjölda af óumgirtum þorpum. [6] Og vér gjöreyddum þær,
eins og vér höfðum áður gjört við Síhon, konung í Hesbon, með því
að gjöreyða hverja borg að karlmönnum, konum og börnum. [7] En
fénaðinn allan og ránsfenginn úr borgunum tókum vér að herfangi.
[8] Þannig tókum vér í það skifti úr höndum beggja Amóríta konunga
land alt hinumegin Jórdanar frá Arnoná til Hermon-fjalls — [9] Hermon
kalla Zídoningar Sirjon, en Amórítar kalla það Senír —, [10] allar borgir
á sléttlendinu, Gíleað alt og Basan, alla leið til Salka og Edreí, þær
borgir í Basan, er heyrðu konungsríki Ógs. [11] Því að Óg, konungur í
Basan, var sá eini, sem eftir var af Refaítum; sjá, steinlíkkista hans
var gjör úr stuðlabergi og er enn til í Rabba hjá Ammónítum; hún
er níu álna löng og fjögra álna breið eftir venjulegu alinmáli. [12] Þetta

---

**28**: 4 Mós. 21, 21 n. **32**: kap. 29, 7 n. — **3, 1**: 4 Mós. 21, 33 n. 5 Mós. 29, 7 n.
**6**: kap. 2, 34. 35. **11**: Jós. 13, 12. 1 Mós. 14. 5.

land tókum vér þá til eignar. Frá Aróer, sem liggur við Arnoná, og
hálft Gíleað-fjalllendi og borgirnar í því gaf eg Rúbenítum og Gaditum;
[13] en það, sem eftir var af Gíleað, og alt Basan, konungsríki Ógs, gaf
eg hálfri ættkvísl Manasse, alt Argób-hérað; þetta Basan alt er kallað
Refaítaland. [14] Jaír, son Manasse, nam alt Argób-hérað alt að landa-
mærum Gesúríta og Maakatíta og kallaði það, sem sé Basan, eftir nafni
sínu Jaírs-þorp, og helzt það nafn enn í dag. [15] Makír gaf eg Gíleað; [16] og
Rúbenítum og Gadítum gaf eg land frá Gíleað suður að Arnoná, í
dalinn miðjan, — voru það suðurtakmörkin — og alla leið að Jabboká,
sem er á landamærum Ammóníta; [17] enn fremur sléttlendið með Jór-
dan á mörkum, frá Kinneret-vatni suður að vatninu á sléttlendinu,
Saltasjó, undir Pisga-hlíðum, austanmegin.
[18] Þá bauð eg yður og sagði: Jahve, Guð yðar, hefir gefið yður
þetta land til eignar; farið vígbúnir fyrir bræðrum yðar, Ísraelsmönn-
um, allir þér sem vopnfærir eruð. [19] En konur yðar og börn og bú-
smali yðar — eg veit að þér eigið mikinn fénað — skal verða eftir í
borgunum, sem eg hefi gefið yður; [20] þar til er Jahve, Guð yðar, veitir
bræðrum yðar hvíld, eins og yður, og þeir hafa líka tekið til eignar
land það, er Jahve, Guð yðar, gefur þeim hinumegin Jórdanar; þá
megið þér snúa aftur, hver til óðals síns, er eg hefi gefið yður. [21] Og
Jósúa bauð eg þá og sagði: Þú hefir séð alt það með eigin augum,
sem Jahve, Guð yðar, hefir gjört þessum tveimur konungum; eins mun
Jahve fara með öll þau konungaríki, sem þú ert á leið til. [22] Eigi
skuluð þér óttast þau, því að Jahve, Guð yðar, berst fyrir yður.
[23] Þá bað eg Jahve líknar og sagði: [24] Ó drottinn Jahve! þú hefir
nú þegar sýnt þjóni þínum, hve mikill þú ert og hve sterk hönd þín
er; því að hver er sá guð á himni eða jörðu, sem gjöri önnur eins
verk og þú og jafnmikil máttarverk? [25] Æ, leyf mér að fara yfir um
og sjá landið góða, sem er hinumegin Jórdanar, þetta fagra fjalllendi
og Líbanon. [26] En Jahve reiddist mér yðar vegna og bænheyrði mig
ekki; og Jahve sagði við mig: Nóg um það; tala eigi meira um þetta
mál við mig. [27] Far þú upp á Pisga-tind og horf þú í vestur, norður,
suður og austur og lít það með augum þínum; því að þú munt ekki
komast yfir hana Jórdan. [28] En skipa þú Jósúa foringja og tel hug í
hann og gjör hann öruggan, því að hann skal fara yfir um fyrir þessu
fólki og hann skal skifta milli þeirra landinu, sem þú sér.
[29] Dvöldum vér nú um hríð í dalnum á móts við Bet-Peór.

## Áminningar og aðvaranir.

4 Heyr þú nú, Ísrael, lög þau og ákvæði, sem eg kenni yður, til
þess að þér haldið þau, svo að þér megið lifa og komast inn í það
land, sem Jahve, Guð feðra yðar, gefur yður, og fá það til eignar.
[2] Þér skuluð engu auka við þau boðorð, sem eg legg fyrir yður, né
heldur draga nokkuð frá, svo að þér varðveitið skipanir Jahve, Guðs
yðar, sem eg legg fyrir yður. [3] Þér hafið séð með eigin augum, hvað
Jahve gjörði sakir Baal-Peór; því að öllum þeim mönnum, sem fylgdu
Baal-Peór, eyddi Jahve, Guð þinn, úr samfélagi yðar. [4] En þér, sem
hélduð yður fast við Jahve, Guð yðar, lifið allir fram á þennan dag.
[5] Sjá, eg hefi kent yður lög og ákvæði, eins og Jahve, Guð minn, lagði
fyrir mig, til þess að þér breytið eftir þeim í því landi, sem þér haldið

**12:** 4 Mós. 32, 33 n. **14:** 4 Mós. 32, 41. **15:** 4 Mós. 32, 40. **17:** 4 Mós. 34, 11.
Jós. 12, 2 n. **18:** 4 Mós. 32, 17. **20:** Jós. 22, 4. **24:** Sálm. 86, 8; 89, 7. **26:** kap.
1, 37. 4 Mós. 20, 12. **27:** kap. 34, 1. 4. **28:** kap. 31, 7. Jós. 1, 6. — **4, 2:** kap.
12, 32. Orðskv. 30, 6. **3:** 4 Mós. 25, 3 n.

nú inn í, til þess að taka það til eignar. 6 Varðveitið þau því og hald-
ið þau; því að það mun koma á yður orði hjá öðrum þjóðum fyrir
vizku og skynsemi; þegar þær heyra öll þessi lög, munu þær segja:
Það er vissulega viturt og skynsamt fólk, þessi mikla þjóð. 7 Því að
hvaða stór-þjóð er til, sem hafi guð, er henni sé eins nálægur, eins og
Jahve, Guð vor, er oss, hve nær sem vér áköllum hann? 8 Og hver
er sú stór-þjóð, er hafi svo réttlát lög og ákvæði, eins og alt þetta lög-
mál er, sem eg legg fyrir yður í dag?

9 En vara þig og gæt vandlega sálar þinnar, að eigi gleymir þú
þeim hlutum, sem þú hefir séð með eigin augum, og að það ekki liði
þér úr minni alla æfidaga þína; og þú skalt gjöra þá kunna börnum
þínum og barnabörnum.* 10 Gleym þú eigi deginum, þegar þú stóðst
frammi fyrir Jahve, Guði þínum, hjá Hóreb, og Jahve sagði við mig:
Safna þú lýðnum saman fyrir mig; eg ætla að láta þá heyra orð mín,
svo að þeir læri að óttast mig alla þá daga, sem þeir lifa á jörðunni,
og kenni það einnig börnum sínum. 11 Þér komuð þá fram og námuð
staðar undir fjallinu, en fjallið logaði alt í eldi upp í háan himin,
fylgdi því myrkur, ský og sorti. 12 Og Jahve talaði við yður út úr
eldinum; hljóm orðanna heyrðuð þér, en mynd sáuð þér enga; þér
heyrðuð aðeins hljóminn. 13 Þá birti hann yður sáttmála sinn, sem
hann bauð yður að halda, tíu boðorðin; og hann reit þau á tvær stein-
töflur. 14 Þá bauð Jahve mér að kenna yður lög og ákvæði, svo að
*þér gætuð* breytt eftir þeim í því landi, er þér haldið nú yfir til, til
þess að taka það til eignar. 15 Gætið yðar því vandlega, líf yðar liggur
við — því að þér sáuð enga mynd á þeim degi, þegar Jahve talaði
við yður hjá Hóreb út úr eldinum —, 16 að þér ekki mannspillið yður
á því að búa yður til skurðgoð í mynd einhvers líkneskis, hvort held-
ur er í líki karls eða konu, 17 í líki einhvers ferfætlings, sem til er á
jörðunni, í líki einhvers fleygs fugls, er flýgur í loftinu, 18 í líki ein-
hvers dýrs, sem skríður á jörðunni, eða í líki einhvers fisks, sem til
er í vötnunum undir jörðunni, 19 og að þú eigi, þegar þú lyftir augum
þínum til himins og sér sólina, tunglið og stjörnurnar, allan himinsins
her, látir tælast til þess að falla fram fyrir þeim og dýrka þau; því
að Jahve, Guð þinn, hefir skift þeim meðal allra þjóða undir himnin-
um. 20 En yður hefir Jahve tekið að sér og leitt yður út úr járn-
bræðsluofninum, út úr Egiptalandi, svo að þér skylduð verða eignar-
þjóð hans, sem og hefir verið til þessa. 21 Og Jahve reiddist mér yðar
vegna, svo að hann sór, að eg skyldi ekki komast yfir Jórdan og ekki
komast inn í góða landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar;
22 heldur hlýt eg að deyja í þessu landi og fæ ekki að komast yfir Jór-
dan. En þér munuð komast yfir um og fá þetta góða land til eignar.
23 Gætið yðar, að þér gleymið ekki sáttmálanum, er Jahve, Guð yðar,
hefir við yður gjört, og búið yður til skurðgoð í mynd einhvers þess,
er Jahve, Guð þinn, hefir bannað þér. 24 Því að Jahve, Guð þinn, er
eyðandi eldur, vandlátur Guð.

25 Þegar þú hefir getið börn og barnabörn, og þér hafið ílengst
í landinu, ef þér þá mannspillið yður á því að búa til skurðgoð í
einhverri mynd og gjörið það, sem ilt er í augum Jahve, Guðs þíns,
svo að þér egnið hann til reiði, 26 þá kveð eg í dag bæði himin og
jörð til vitnis móti yður, að þá munuð þér brátt eyðast úr því landi,
er þér haldið nú inn í yfir Jórdan, til þess að fá það til eignar; þér

**7:** 2 Sam. 7, 23. Sálm. 145, 18. **8:** Sálm. 147, 19. 20. **10:** 2 Mós. 19, 17 n. 5 Mós. 6, 7; 11, 19. **13:** 2 Mós. 31, 18; 34, 28. 5 Mós. 9, 10. **16:** 2 Mós. 20, 4 n. **17:** Róm. 1, 23. **19:** kap. 17, 3. **20:** 2 Mós. 19, 5. 1 Kong. 8, 51. **21:** kap. 3, 26. **22:** kap. 34, 4. 5. **24:** kap. 9, 3. Hebr. 12, 29. 2 Mós. 20, 5; 34, 14. **26:** kap. 30, 19; 31, 28; 8, 19; 11, 16 n.

munuð þá eigi lifa þar mörg árin, heldur verða gjöreyddir. 27 Og
Jahve mun þá dreifa yður meðal þjóðanna, svo að af yður skal ein-
ungis eftir verða lítill hópur meðal heiðingja þeirra, er Jahve leiðir
yður burt til. 28 Þar munuð þér þjóna þeim guðum, sem eru handa-
verk manna, stokkar og steinar, sem eigi sjá og eigi heyra og eigi eta
og eigi finna lykt. 29 Þar munt þú leita Jahve, Guðs þíns, og þú munt
finna hann, ef þú leitar hans af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni.
30 Þegar þú ert í nauðum staddur og alt þetta kemur yfir þig, þá munt
þú, á komandi tímum, snúa þér til Jahve, Guðs þíns, og hlýða hans
röddu. 31 Því að Jahve, Guð þinn, er miskunnsamur Guð; hann mun
eigi yfirgefa þig né afmá þig, og hann mun eigi gleyma sáttmálanum,
er hann sór feðrum þínum.

32 Því spyr þig fyrir um fyrri tíma, sem verið hafa á undan þér,
alt frá þeim tíma, er Guð skóp mennina á jörðunni, og frá einu heims-
skauti til annars, hvort nokkurn tíma hafi orðið svo miklir hlutir eða
nokkuð slíkt heyrst, 33 hvort nokkur þjóð hafi heyrt raust Guðs tala
út úr eldinum, eins og þú hefir heyrt, og þó haldið lífi? 34 Eða hvort
Guð hefir til reynt nokkurn tíma að koma sjálfur, til þess að ná þjóð
af annari þjóð með máttarverkum, táknum og undrum, með styrjöld,
sterkri hendi, útréttum armlegg og miklum skelfingum, eins og Jahve,
Guð þinn, gjörði við yður í Egiptalandi í augsýn þinni. 35 Þetta hefir
þú fengið að sjá, svo að þú mættir vita, að Jahve, hann er Guð, og
enginn nema hann einn. 36 Af himni hefir hann látið þig heyra sína
raust, til þess að kenna þér, og á jörðu hefir hann látið þig sjá hinn
mikla eld sinn, og þú hefir heyrt orð hans út úr eldinum. 37 Og fyrir
því að hann elskaði feður þína og útvaldi niðja þeirra eftir þá og leiddi
þig sjálfur af Egiptalandi með hinum mikla mætti sínum, 38 til þess að
stökkva burt undan þér þjóðum, sem eru stærri og sterkari en þú
ert, en leiða þig þangað og gefa þér land þeirra til eignar, eins og nú
er fram komið, — 39 þá ber þér í dag að kannast við það og hugfesta
það, að Jahve, hann er Guð á himnum uppi og á jörðu niðri og eng-
inn annar. 40 Og þú skalt varðveita boð hans og skipanir, sem eg
legg fyrir þig í dag, svo að þér vegni vel og börnum þínum eftir þig,
og til þess að þú alla daga megir dvelja langa æfi í landinu, sem
Jahve, Guð þinn, gefur þér.

41 Þá skildi Móse frá þrjár borgir hinumegin Jórdanar, austan-
megin, 42 til þess að þangað mætti flýja hver sá vegandi, er óviljandi
hefði vegið náunga sinn og eigi verið óvinur hans áður — að hann
mætti flýja í einhverja af borgum þessum og halda lífi: 43 Bezer í eyði-
mörkinni á sléttlendinu handa Rúbenítum, Ramót í Gíleað handa Gad-
ítum og Gólan í Basan handa Manassítum.

44 Og þetta er lögmálið, sem Móse lagði fyrir Ísraelsmenn. 45 Þetta
eru fyrirmæli þau, lög og ákvæði, sem Móse birti Ísraelsmönnum, þá
er þeir fóru af Egiptalandi, 46 hinumegin Jórdanar, í dalnum gegn Bet-
Peór í landi Síhons Amóríta konungs, sem hafði aðsetur í Hesbon og
Móse og Ísraelsmenn feldu, er þeir fóru af Egiptalandi; 47 og þeir lögðu
undir sig land hans, svo og land Ógs, konungs í Basan, land Amóríta
konunganna beggja, hinumegin Jórdanar, austanmegin, 48 frá Aróer, sem
liggur á bakka Arnonár, alt til Síón, það er Hermon, 49 og alt slétt-
lendið hinumegin Jórdanar, austanmegin, alt að vatninu á sléttlendinu
undir Pisga-hlíðum.

---

**27:** kap. 28, 62. 64. **28:** kap. 28, 36. 64. **30:** 3 Mós. 26, 40 n. 5 Mós. 30, 1 n. Hós. 3, 5. **31:** Jós. 1, 5. Hebr. 13, 5. **33:** 2 Mós. 19, 18 n. **34:** kap. 7, 19. **35:** kap. 32, 39. Jes. 45, 5. **37:** 2 Mós. 33, 14. **40:** kap. 5, 33. **41:** 4 Mós. 35, 6 n. 14. Jós. 20, 2 n. 8. **47:** 4 Mós. 21, 33 n. **48:** kap. 3, 8 n. **49:** kap. 3, 17.

## Boðorðin.

5 Og Móse kallaði saman allan Ísrael og sagði við þá: Heyr þú,
Ísrael, lög þau og ákvæði, sem eg birti yður í dag; lærið þau og
varðveitið þau, svo að þér haldið þau. 2 Jahve, Guð vor, gjörði við
oss sáttmála á Hóreb. 3 Ekki gjörði Jahve þennan sáttmála við feður
vora, heldur við oss, oss sem hér erum allir lifandi í dag. 4 Jahve
talaði við yður á fjallinu augliti til auglitis út úr eldinum. 5 Eg stóð
þá á milli Jahve og yðar, til þess að flytja yður orð Jahve, því að þér
hræddust eldinn og fóruð ekki upp á fjallið. Hann sagði:
6 Eg er Jahve, Guð þinn, sem leiddi þig út af Egiptalandi, út úr
þrælahúsinu.
7 Þú skalt ekki hafa aðra guði en mig.
8 Þú skalt engar líkneskjur gjöra þér, engar myndir eftir því, sem
er á himnum uppi, eða því, sem er á jörðu niðri, eða því, sem er í
vötnunum undir jörðunni; 9 þú skalt ekki tilbiðja þær og ekki dýrka
þær, því að eg Jahve, Guð þinn, er vandlátur Guð, sem vitja misgjörða
feðranna á börnunum, og í þriðja og fjórða lið, þeirra sem mig hata,
10 en auðsýni miskunn þúsundum, þeirra sem elska mig og varðveita
boðorð mín.
11 Þú skalt ekki leggja nafn Jahve, Guðs þíns, við hégóma, því
að Jahve mun ekki láta þeim óhegnt, sem leggur nafn hans við hégóma.
12 Gættu þess að halda hvíldardaginn heilagan, eins og Jahve, Guð
þinn, hefir boðið þér. 13 Sex daga skalt þú erfiða og vinna alt þitt
verk; 14 en sjöundi dagurinn er hvíldardagur helgaður Jahve, Guði þín-
um; þá skalt þú ekkert verk vinna og ekki sonur þinn eða dóttir þín,
þræll þinn eða ambátt þín, uxi þinn eða asni eða nokkur skepna, eða
útlendingur, sem hjá þér er innan þinna borgarhliða, svo að þræll þinn
og ambátt þín geti hvílt sig, eins og þú. 15 Og minstu þess að þú varst
þræll á Egiptalandi og að Jahve, Guð þinn, leiddi þig út þaðan með
sterkri hendi og útréttum armlegg. Þess vegna bauð Jahve, Guð þinn,
þér að halda hvíldardaginn.
16 Heiðra föður þinn og móður þína, eins og Jahve, Guð þinn,
hefir boðið þér, svo að þú verðir langlífur og svo að þér vegni vel í
því landi, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér.
17 Þú skalt ekki morð fremja.
18 Og þú skalt ekki drýgja hór.
19 Og þú skalt ekki stela.
20 Og þú skalt ekki bera falsvitni gegn náunga þínum.
21 Og þú skalt ekki girnast konu náunga þíns, og ekki ágirnast
hús náunga þíns, ekki land hans, ekki þræl hans eða ambátt, ekki uxa
hans eða asna, né nokkuð það, sem náungi þinn á.
22 Þessi orð talaði Jahve með hárri röddu til alls safnaðar yðar á
fjallinu út úr eldinum, skýinu og sortanum; bætti hann þar engu við;
og hann ritaði þau á tvær steintöflur og fékk mér þær.

## Lýðurinn beiðist meðalgöngu Móse.

23 En er þér heyrðuð röddina út úr myrkrinu og fjallið stóð í
björtu báli, þá genguð þér til mín, allir höfðingjar ættkvísla yðar og
öldungar yðar, 24 og sögðuð: Sjá, Jahve, Guð vor, hefir sýnt oss dýrð
sína og mikilleik, og vér heyrðum rödd hans úr eldinum; vér höfum

---

**5, 2:** 2 Mós. 19, 5 n. 5 Mós. 29, 1. **4:** 2 Mós. 19, 19; 20, 1. **5:** 2 Mós. 19, 16; 20, 19 n **6:** 2 Mós. 20, 2—17. **7:** kap. 6, 14. **10:** kap. 7, 9. **22:** 2 Mós. 31, 18. **23:** 2 Mós. 20, 18 n.

séð það í dag, að Guð getur talað við mann, og maðurinn þó haldið
lífi. [25] Hví skulum vér þá deyja? því að þessi mikli eldur ætlar að
eyða oss; ef vér höldum áfram að hlusta á raust Jahve, Guðs vors,
munum vér deyja. [26] Því að hver er sá af öllu holdi, að hann hafi
heyrt rödd hins lifandi Guðs tala út úr eldinum, eins og vér, og þó
haldið lífi? [27] Far þú og hlýð þú á alt það, sem Jahve, Guð vor, segir,
og seg þú oss alt það, er Jahve, Guð vor, talar við þig, svo að vér
megum hlýða á það og breyta eftir því. [28] Og Jahve heyrði ummæli
yðar, er þér töluðuð við mig, og Jahve sagði við mig: Eg heyrði um-
mæli þessa fólks, er þeir töluðu við þig; er það alt vel mælt, sem þeir
sögðu. [29] Ó að þeir hefðu slíkt hugarfar, að þeir óttuðust mig og varð-
veittu allar skipanir mínar alla daga, svo að þeim vegni vel og börn-
um þeirra um aldur og æfi. [30] Far þú og seg þeim: Hverfið aftur í
tjöld yðar! [31] En þú, þú skalt standa hér hjá mér meðan eg legg fyrir
þig allar þær skipanir, lög og ákvæði, sem þú átt að kenna þeim, svo
að þeir breyti eftir þeim í því landi, sem eg gef þeim til eignar. [32] Gætið
því þess að gjöra svo sem Jahve, Guð yðar, hefir boðið yður; víkið
eigi frá því, hvorki til hægri né vinstri. [33] Gangið í öllu þann veg, sem
Jahve, Guð yðar, hefir boðið yður, svo að þér megið lífi halda og yður
vegni vel og þér lifið lengi í landinu, sem þér fáið til eignar.

## Jahve einn ber að tilbiðja og elska.

6 Þetta eru þá skipanir þær, lög og ákvæði, sem Jahve, Guð yðar,
hefir boðið að þér skylduð læra og breyta eftir í því landi, er þér
haldið nú yfir til, til þess að fá það til eignar, [2] svo að þú óttist Jahve,
Guð þinn, og varðveitir öll lög hans og skipanir, sem eg legg fyrir þig,
bæði þú sjálfur og sonur þinn og sonarsonur þinn, alla æfidaga þína
og svo að þú verðir langlífur. [3] Heyr því, Ísrael, og gæt þess að breyta
eftir þeim, svo að þér vegni vel og þér megið fjölga stórum, eins og
Jahve, Guð feðra þinna, hefir heitið þér, í landi, sem flýtur í mjólk og
hunangi.

[4] Heyr Ísrael! Jahve er vor Guð, Jahve einn! [5] Og þú skalt elska
Jahve, Guð þinn, af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni og af öllum
mætti þínum. [6] Þessi orð, sem eg legg fyrir þig í dag, skulu vera þér
hugföst; [7] og þú skalt brýna þau fyrir börnum þínum og tala um þau,
þegar þú ert heima og þegar þú ert á ferðalagi, þegar þú legst til hvíldar
og þegar þú fer á fætur. [8] Þú skalt binda þau til merkis á hönd þér
og hafa þau sem minningarbönd á milli augna þinna; [9] og þú skalt
skrifa þau á dyrustafi húss þíns og á borgarhlið þín.

[10] Þegar Jahve, Guð þinn, leiðir þig inn í landið, sem hann sór
feðrum þínum, Abraham, Ísak og Jakob, að gefa þér, stórar og fagrar
borgir, sem þú ekki hefir reist, [11] og hús full af öllum góðum hlutum,
án þess að þú hafir fylt þau, og úthöggna brunna, sem þú eigi hefir út
höggið, víngarða og olíutré, sem þú ekki hefir gróðursett, og þú etur og
verður saddur, [12] þá gæt þú þín, að þú gleymir ekki Jahve, sem leiddi
þig út af Egiptalandi, út úr þrælahúsinu. [13] Jahve, Guð þinn, skalt þú
óttast, og hann skalt þú dýrka og við nafn hans skalt þú sverja. [14] Eigi
skuluð þér elta neina aðra guði af guðum þjóða þeirra, er umhverfis
yður búa; [15] því að Jahve, Guð þinn, sem býr hjá þér, er vandlátur

---

**25:** 2 Mós. 20, 19. **27:** 2 Mós. 24, 3. 7. **29:** Sálm. 81, 14. **32:** kap. 28, 14. Jós. 1, 7. **33:** kap. 4, 40; 11, 9. — **6, 2:** kap. 5, 33. **3:** 2 Mós. 3, 8. **4:** kap. 4, 35. Mark. 12, 29. 1 Kor. 8, 4. 6. Gal. 3, 20. **5:** kap. 10, 12. Matt. 22, 37. Mark. 12, 30. **7:** 1 Mós. 18, 19. 5 Mós. 4, 10. **8:** kap. 11, 18. 2 Mós. 13, 16. **9:** kap. 11, 20. **13:** kap. 10, 20. Matt. 4, 10. **14:** 2 Mós. 23, 13; 34, 12 n.

Guð; til þess að eigi upptendrist reiði Jahve, Guðs þíns, í gegn þér og
hann eyði þér úr landinu.
16 Eigi skuluð þér freista Jahve, Guðs yðar, eins og þér freistuðuð
hans í Massa. 17 Varðveitið kostgæfilega skipanir Jahve, Guðs yðar, og
fyrirmæli hans og lög, þau er hann hefir fyrir þig lagt. 18 Og þú skalt
gjöra það, sem rétt er og gott í augum Jahve, svo að þér vegni vel
og þú komist inn í og fáir til eignar landið góða, sem Jahve sór feðr-
um þínum, 19 með því hann stökkvir burt öllum óvinum þínum undan
þér, eins og Jahve hefir heitið.
20 Þegar sonur þinn spyr þig á síðan og segir: Hvað eiga fyrirmælin,
lögin og ákvæðin að þýða, sem Jahve, Guð vor, hefir fyrir yður lagt?
21 þá skalt þú segja við son þinn: Vér vorum þrælar Faraós í Egipta-
landi, en Jahve leiddi oss af Egiptalandi með sterkri hendi. 22 Og Jahve
gjörði mikil og skæð tákn og undur á hendur Egiptalandi, Faraó og
öllu húsi hans að oss ásjáandi. 23 Og hann leiddi oss út þaðan, til
þess að fara með oss hingað og gefa oss landið, sem hann sór feðrum
vorum. 24 Og Jahve bauð oss að halda öll þessi lög, með því að óttast
Jahve, Guð vorn, svo að oss mætti vegna vel alla daga og hann halda
oss á lífi, eins og alt til þessa. 25 Og vér munum taldir verða réttlátir,
ef vér gætum þess að breyta eftir öllum þessum skipunum fyrir augliti
Jahve, Guðs vors, eins og hann hefir boðið oss.

### *Íbúum* landsins skal stökt burt og helgistaðir þeirra eyddir.

7 Þegar Jahve, Guð þinn, leiðir þig inn í landið, sem þú heldur
nú inn í, til þess að taka það til eignar, og hann hefir stökt burt
undan þér mörgum þjóðum: Hetítum, Girgasítum, Amórítum, Kana-
anítum, Peresítum, Hevítum og Jebúsítum, sjö þjóðum, sem eru fjöl-
mennari og voldugri en þú, 2 og er Jahve, Guð þinn, gefur þær á vald
þitt og þú sigrast á þeim, þá skalt þú gjöreyða þeim; þú skalt eigi
gjöra sáttmála við þær né sýna þeim vægð. 3 Og eigi skalt þú mægjast
við þær; þú skalt hvorki gefa sonum þeirra dætur þínar né heldur taka
dætur þeirra til handa sonum þínum. 4 Því að þær mundu snúa son-
um þínum frá hlýðni við mig og koma þeim til að dýrka aðra guði;
mundi reiði Jahve þá upptendrast í gegn yður og hann eyða þér skyndi-
lega. 5 Heldur skuluð þér svo með þá fara: þér skuluð rífa niður ölt-
uru þeirra, brjóta í sundur merkissteina þeirra, höggva sundur asérur
þeirra og brenna skurðgoð þeirra í eldi. 6 Því að þú ert Jahve, Guði
þínum, helgaður lýður; þig hefir Jahve, Guð þinn, kjörið til að vera
eignarlýður hans um fram allar þjóðir, sem eru á yfirborði jarðarinnar.
7 Ekki var það fyrir þá sök, að þér væruð fjölmennari en allar aðrar
þjóðir, að Jahve lagði ást á yður og kjöri yður, því að þér eruð allra
þjóða minstir; 8 en sökum þess að Jahve elskar yður og af því að hann
vildi halda eiðinn, sem hann sór feðrum yðar, þá leiddi Jahve yður
burt með sterkri hendi og leysti þig úr þrælahúsinu, undan valdi Faraós,
Egiptalands konungs. 9 Fyrir því skalt þú vita, að Jahve, Guð þinn, er
hinn sanni Guð, hinn trúfasti Guð, er heldur sáttmálann og miskunn-
semina í þúsund ættliðu við þá, sem elska hann og varðveita boðorð
hans. 10 En þeim, sem hann hata, geldur hann líka hverjum og einum
sjálfum með því að láta þá farast; hann dregur það eigi fyrir þeim,
sem hata hann; hverjum og einum geldur hann þeim sjálfum. 11 Fyrir

**15:** 2 Mós. 20, 5; 34, 14. **16**: Matt. 4, 7. 2 Mós. 17, 2. 7. **19:** 2 Mós. 23, 27 n. **21:** 2 Mós. 1, 11 n. — **7, 3:** Dóm. 3, 6. Esr. 9, 1 n. **4:** 1 Kong. 11, 2. **5:** 2 Mós. 23, 24 n. 34, 12 n. **6:** 2 Mós. 19, 6. 5 Mós. 4, 20. 37. 1 Pét. 2, 9. **9:** 2 Mós. 34, 7. **10:** Nah. 1, 2.

því skalt þú varðveita skipanir þær, lög og ákvæði, sem eg legg fyrir
þig í dag, svo að þú breytir eftir þeim.
12 Ef þér nú hlýðið lögum þessum og varðveitið þau og breytið
eftir þeim, þá mun Jahve, Guð þinn, halda við þig þann sáttmála og
miskunnsemi, sem hann sór feðrum þínum; 13 hann mun elska þig,
blessa þig og margfalda þig, og hann mun blessa ávöxt kviðar þíns og
ávöxt lands þíns, korn þitt, aldinlög þinn og olíu þína, viðkomu naut-
gripa þinna og burði hjarðar þinnar, í landinu sem hann sór feðrum
þínum að gefa þér. 14 Þú munt blessuð verða öllum þjóðum framar;
meðal karlmanna þinna og kvenmanna skal enginn vera ófrjósamur,
né heldur meðal fénaðar þíns. 15 Og Jahve mun bægja frá þér hvers
konar sjúkleik, og enga af hinum vondu egipzku sóttum, sem þú þekkir,
mun hann á þig leggja, heldur mun hann senda þær öllum þeim, er
þig hata.
16 En þú skalt eyða öllum þeim þjóðum, sem Jahve, Guð þinn,
gefur á þitt vald; þú skalt ekki líta þær vægðarauga og þú skalt eigi
dýrka guði þeirra, því að það mundi verða þér að tálsnöru. 17 Ef þú
skyldir segja í hjarta þínu: þessar þjóðir eru fjölmennari en eg; hvernig
fæ eg rekið þær burt? 18 þá ver þú ekki hræddur við þær; minstu þess,
hvað Jahve, Guð þinn, gjörði við Faraó og alla Egipta, — 19 hinna miklu
máttarverka, er þú sást með eigin augum, táknanna og stórmerkjanna,
og hvernig Jahve, Guð þinn, leiddi þig út með sterkri hendi og útrétt-
um armlegg; eins mun Jahve, Guð þinn, fara með allar þær þjóðir,
sem þú nú ert hræddur við. 20 Já, jafnvel geitunga mun Jahve, Guð
þinn, senda meðal þeirra, unz allir þeir eru dauðir, sem eftir hafa orðið
og falið hafa sig fyrir þér. 21 Þú skalt ekki hræðast þá, því að Jahve,
Guð þinn, er með þér, hinn mikli og ógurlegi Guð. 22 Og Jahve, Guð
þinn, mun stökkva þessum þjóðum á burt undan þér smám saman; þú
mátt ekki eyða þeim skjótlega, svo að villidýrunum fjölgi eigi um of
fyrir þig. 23 En Jahve, Guð þinn, mun gefa þær á þitt vald og koma
miklum ruglingi á þær, unz þær eru gjöreyddar. 24 Og hann mun gefa
konunga þeirra í hendur þér, og þú munt afmá nöfn þeirra undir himn-
inum; enginn mun standast fyrir þér, unz þú hefir gjöreytt þeim.
25 Skurðlíkneski guða þeirra skalt þú brenna í eldi; þú skalt eigi girnast
silfrið og gullið, sem á þeim er, né taka það handa þér, svo að það
verði þér eigi að tálsnöru; því að slíkt er andstyggilegt fyrir Jahve,
Guði þínum; 26 og eigi skalt þú færa andstyggilegan hlut inn í hús þitt,
svo að þú fallir ekki í sama bannið, sem hann er í; þú skalt hafa
megnan viðbjóð og andstygð á því, því að það er bannfærður hlutur.

### Velgjörðir Jahve eiga að hvetja Ísraelsmenn til stöðugrar hlýðni.

8 Öll þau boðorð, sem eg legg fyrir yður í dag, skuluð þér varð-
veita til eftirbreytni, svo að þér megið lifa og margfaldast og
komast inn í landið, sem Jahve sór feðrum yðar, og fá það til
eignar. 2 Og þú skalt minnast þess, hversu Jahve, Guð þinn, hefir
leitt þig alla leiðina þessi fjörutíu ár í eyðimörkinni, til þess að auð-
mýkja þig og reyna þig, svo að hann kæmist að raun um, hvað þér
býr í hjarta, hvort þú mundir halda boðorð hans eða ekki. 3 Hann
auðmýkti þig og lét þig þola hungur og gaf þér síðan manna að eta,
sem þú eigi þektir áður né heldur feður þínir þektu, svo að þú skyldir
sjá, að maðurinn lifir eigi á einu saman brauði, heldur að maðurinn

**15**: 2 Mós. 15, 26. **20**: 2 Mós. 23, 28. **22**: 2 Mós. 23, 29. **24**: Jós. 10, 23 n. 12, 7 n.
**26**: kap. 13, 17. - **8, 3**: 2 Mós. 16, 14 n. 35. Matt. 4, 4.

lifir á sérhverju því, er fram gengur af munni Jahve. 4 Klæði þín hafa
ekki slitnað á þér og fætur þínir hafa ekki þrútnað í þessi fjörutíu ár.
5 Ver því sannfærður um það, að eins og maður agar son sinn, svo
agar Jahve, Guð þinn, þig; 6 og varðveittu boðorð Jahve, Guðs þíns,
svo að þú gangir á hans vegum og óttist hann. 7 Því að Jahve, Guð
þinn, leiðir þig inn í gott land, inn í land, þar sem nóg er af vatns-
lækjum, lindum og djúpum vötnum, sem spretta upp í dölum og á
fjöllum, 8 inn í land, þar sem nóg er af hveiti og byggi, vínviði, fíkju-
trjám og granateplatrjám, inn í land, þar sem nóg er af olíutrjám og
hunangi, 9 inn í land, þar sem þú munt ekki eiga við fátækt að búa
og þar sem þig mun ekkert bresta, inn í land, þar sem steinarnir eru
járn og þar sem þú getur grafið kopar úr fjöllunum. 10 Og þegar þú
hefir etið og ert orðinn mettur, þá skalt þú vegsama Jahve, Guð þinn,
fyrir landið góða, sem hann gaf þér. 11 Gæt þín, að þú gleymir ekki
Jahve, Guði þínum, og haldir svo eigi boðorð hans, ákvæði og lög,
sem eg legg fyrir þig í dag. 12 Lát eigi, þegar þú hefir etið og ert mett-
ur orðinn og hefir reist fögur hús og býr í þeim, 13 þegar nautgripir
þínir og sauðfénaður þinn fjölgar, þegar silfur þitt og gull eykst og alt
sem þú átt, — 14 lát þá eigi hjarta þitt ofmetnast og gleym eigi Jahve,
Guði þínum, sem leiddi þig út af Egiptalandi, út úr þrælahúsinu, 15 sem
leiddi þig um eyðimörkina miklu og hræðilegu, þar sem voru eitraðir
höggormar og sporðdrekar og vatnslaust þurlendi, og leiddi fram vatn
handa þér af tinnuhörðum klettinum, 16 hann sem gaf þér manna að
eta í eyðimörkinni, er feður þínir eigi þektu, svo að hann gæti auð-
mýkt þig, og svo að hann gæti reynt þig, en gjört síðan vel við þig á
eftir; 17 og seg þú ekki í hjarta þínu: Minn eigin kraftur og styrkur
handar minnar hefir aflað mér þessara auðæfa. 18 Minstu heldur Jahve,
Guðs þíns, því að hann er sá sem veitir þér kraft til að afla auðæf-
anna, til þess að hann fái haldið þann sáttmála, er hann sór feðrum
þínum, eins og líka fram hefir komið til þessa. 19 En ef þú gleymir
Jahve, Guði þínum, og eltir aðra guði, dýrkar þá og fellur fram fyrir
þeim, þá votta eg yður í dag, að þér munuð gjörsamlega farast. 20 Eins
og þjóðirnar, er Jahve eyðir fyrir yður, svo munuð þér og farast, af
því að þér hlýdduð ekki röddu Jahve, Guðs yðar.

## Ísraelsmenn hafa eigi unnið til velgjörða Guðs.

9 Heyr, Ísrael! Þú fer nú í dag yfir Jórdan, til þess að leggja
undir þig þjóðir, sem eru stærri og voldugri en þú ert, stórar borg-
ir og víggirtar hátt í loft upp, 2 stórt og hávaxið fólk, Anakítana, sem
þú þekkir og hefir sjálfur heyrt sagt um: Hver fær staðist fyrir An-
akssonum? 3 Vit það því nú, að það er Jahve, Guð þinn, er fyrir þér
fer sem eyðandi eldur; hann mun eyða þeim og leggja þær að velli
fyrir augliti þínu, svo að þú skjótlega getir rekið þær burt og gjöreytt
þeim, eins og Jahve hefir heitið þér. 4 Þegar Jahve, Guð þinn, hefir
rekið þær á burt undan þér, þá mátt þú ekki segja í hjarta þínu:
Sökum míns eigin réttlætis hefir Jahve leitt mig inn í þetta land og
fengið mér það til eignar, þar eð það er vegna guðleysis þessara þjóða,
að Jahve stökkvir þeim á burt undan þér. 5 Það er ekki vegna rétt-
lætis þíns eða hreinskilni hjarta þíns, að þú fær land þeirra til eignar,
heldur er það vegna guðleysis þessara þjóða, að Jahve, Guð þinn,

---

**4**: kap. 29, 5. Nehem. 9, 21. **5**: kap. 1, 31. **14**: kap. 6, 12. **15**: 4 Mós. 21, 6; 20, 11.
2 Mós. 17, 6. **17**: Am. 6, 13. **18**: kap. 4, 31. **19**: kap. 28, 15 n. Jós. 23, 16. —
**9, 1**: kap. 1, 28. **2**: 4 Mós. 13, 33. **3**: kap. 4, 24. **4**: 1 Mós. 15, 16. 3 Mós. 18,
24 n. **5**: 1 Mós. 22, 16 n. 26, 3 n.

stökkvir þeim á burt undan þér, og til þess að halda það loforð, er
Jahve sór feðrum þínum, Abraham, Ísak og Jakob.
[6] Vita skaltu því, að það er ekki vegna réttlætis þíns, að Jahve, Guð
þinn, gefur þér þetta góða land til eignar, því að þú ert harðsvíraður
lýður. [7] Minstu þess og gleym því eigi, hvernig þú reittir Jahve, Guð
þinn, til reiði í eyðimörkinni. Frá því þú fyrst lagðir af stað úr
Egiptalandi og þar til, er þér komuð hingað, hafið þér óhlýðnast Jahve.
[8] Hjá Hóreb reittuð þér Jahve til reiði, og Jahve reiddist yður svo, að
hann ætlaði að tortíma yður. [9] Eg var þá farinn upp á fjallið, til þess
að taka á móti steintöflunum, töflunum, sem sáttmálinn var á, er Jahve
hafði gjört við yður, og eg dvaldi á fjallinu í fjörutíu daga og fjörutíu
nætur, án þess að neyta matar eða drekka vatn. [10] Og Jahve fékk
mér tvær steintöflur, ritaðar með fingri Guðs, og á þeim voru öll þau
orð, er Jahve hafði talað til yðar á fjallinu út úr eldinum, daginn sem
þér voruð þar saman komnir. [11] Og er fjörutíu dagar og fjörutíu næt-
ur voru liðnar, fékk Jahve mér báðar steintöflurnar, sáttmálstöflurnar.
[12] Og Jahve sagði við mig: Statt þú upp, far þú skjótt niður héðan,
því að fólk þitt, sem þú leiddir burt af Egiptalandi, hefir misgjört;
skjótt hafa þeir vikið af þeim vegi, sem eg bauð þeim; þeir hafa gjört
sér steypt líkneski. [13] Og Jahve sagði við mig: Eg sé nú að þessi lýð-
ur er harðsvírað fólk. [14] Lát mig í friði, svo að eg geti gjöreytt þeim
og afmáð nöfn þeirra undir himninum, og eg mun gjöra þig að sterk-
ari og fjölmennari þjóð en þessi er. [15] Þá sneri eg á leið og gekk of-
an af fjallinu, en fjallið stóð í björtu báli, og hélt eg á báðum sátt-
málstöflunum í höndunum. [16] Og eg leit til, og sjá: þér höfðuð synd-
gað móti Jahve, Guði yðar; þér höfðuð gjört yður steyptan kálf og
höfðuð þannig skjótt vikið af þeim vegi, sem Jahve hafði boðið yður.
[17] Þá þreif eg báðar töflurnar og þeytti þeim af báðum höndum og
braut þær í sundur fyrir augunum á yður. [18] Og eg varp mér niður
fyrir augliti Jahve, eins og hið fyrra sinnið, fjörutíu daga og fjörutíu
nætur, og át ekki brauð og drakk ekki vatn, vegna allra yðar synda,
sem þér höfðuð drýgt, með því að gjöra það sem ilt var í augum
Jahve, svo að þér egnduð hann til reiði. [19] Því að eg var hræddur
við þá reiði og heift, sem Jahve bar til yðar, að hann ætlaði að tor-
tíma yður. Og Jahve bænheyrði mig einnig í þetta sinn. [20] Jahve
reiddist einnig mjög Aroni, svo að hann ætlaði að tortíma honum, en
eg bað og fyrir Aroni í það sama sinn. [21] En synd yðar, kálfinn, sem
þér höfðuð gjört, tók eg og brendi í eldi og muldi hann vandlega í smátt,
unz hann varð að fínu dufti; og duftinu kastaði eg í lækinn, sem
rann þar ofan af fjallinu.
[22] Enn fremur reittuð þér Jahve til reiði í Tabera, í Massa og
hjá Kibrót-hattava. [23] Og þegar Jahve sendi yður frá Kades-Barnea
og sagði: »Farið og takið til eignar landið, sem eg hefi gefið yður«,
þá óhlýðnuðust þér skipun Jahve, Guðs yðar, og trúðuð honum ekki
og hlýdduð ekki raustu hans. [24] Þér hafið verið Jahve óhlýðnir frá
því eg þekti yður fyrst.
[25] Svo féll eg fram fyrir augliti Jahve þá fjörutíu daga og fjörutíu
nætur, sem eg varp mér niður, því að Jahve kvaðst mundu tortíma
yður. [26] Og eg bað Jahve og sagði: Drottinn Jahve! eyðilegg eigi þinn
lýð og þína eign, sem þú frelsaðir með þínum mikla krafti, sem þú út
leiddir af Egiptalandi með voldugri hendi. [27] Minstu þjóna þinna,

---

**6**: kap. 31, 27. 2 Mós. 32, 9. **7**: 2 Mós. 14, 11; 15, 24; 16, 2; 17, 2. 4 Mós. 11, 4 n. 25, 1 n. **8**: 2 Mós. 32, 1 n. **9**: 2 Mós. 24, 18. **12**: 2 Mós. 32, 7 n. **18**: 2 Mós. 34, 28. **21**: 2 Mós. 32, 20. **22**: 2 Mós. 17, 7. 4 Mós. 11, 3. 34. **23**: 4 Mós. 13, 3; 14, 1 n.

Abrahams, Ísaks og Jakobs! Lít ekki á þvermóðsku þessa fólks, guð-
leysi þess og synd, [28] svo að menn geti eigi sagt í landi því, sem þú
leiddir oss út úr: Af því að Jahve megnaði eigi að leiða þá inn í land-
ið, sem hann hafði heitið þeim, og af því að hann hataði þá, hefir
hann farið með þá burt, til þess að láta þá deyja í eyðimörkinni.
[29] Því að þín þjóð eru þeir og þín eign, sem þú út leiddir með mikl-
um mætti þínum og útréttum armlegg þínum.

10 Í það sama sinn sagði Jahve við mig: Högg þér tvær töflur
af steini, eins og hinar fyrri voru, og kom til mín upp á fjallið;
þú skalt og gjöra þér örk af tré. [2] Eg ætla að rita á töflurnar þau
orð, sem stóðu á hinum fyrri töflunum, er þú brauzt í sundur, og
skalt þú síðan leggja þær í örkina. [3] Eg gjörði þá örk af akasíuviði
og hjó tvær töflur af steini, eins og hinar fyrri, gekk því næst upp á
fjallið með báðar töflurnar í hendi mér. [4] Þá ritaði hann á töflurnar,
með sama letri og áður, tíu boðorðin, þau er Jahve hafði talað til
yðar á fjallinu út úr eldinum daginn sem þér voruð þar saman komnir;
síðan fékk Jahve mér þær. [5] Þá sneri eg á leið og gekk ofan af fjall-
inu og lagði töflurnar í örkina, er eg hafði gjört, og þar voru þær
geymdar, eins og Jahve hafði fyrir mig lagt.

[6] Og Ísraelsmenn fóru frá Beerót-Bene-Jaakan til Mósera. Þar dó
Aron og var jarðaður þar, og Eleasar sonur hans varð prestur í hans
stað. [7] Þaðan fóru þeir til Gúdgóda, og frá Gúdgóda til Jotbata, þar
sem gnægð er vatnslækja.

[8] Þá skildi Jahve ættkvísl Leví frá til þess að bera sáttmálsörk
Jahve, til þess að standa frammi fyrir Jahve og þjóna honum, og til
að blessa í hans nafni, og er svo enn í dag. [9] Fyrir því fékk Leví
eigi hlut né óðal með bræðrum sínum; Jahve er óðal hans, eins og
Jahve, Guð þinn, hefir heitið honum.

[10] En eg dvaldi á fjallinu fjörutíu daga og fjörutíu nætur, eins og
hið fyrra sinnið, og Jahve bænheyrði mig einnig í þetta skiftið: Jahve
vildi ekki tortíma þér. [11] Og Jahve sagði við mig: Tak þig upp og
hald af stað, til þess að þú megir fara fyrir lýðnum, er hann leggur
upp, svo að þeir komist inn í og fái til eignar land það, sem eg sór
feðrum þeirra að gefa þeim.

## Áminning um að halda boð Jahve trúlega.

[12] Og nú, Ísrael, hvers krefst Jahve, Guð þinn, af þér nema þess,
að þú óttist Jahve, Guð þinn, og gangir því ávalt á hans vegum, og
að þú elskir hann og að þú þjónir Jahve, Guði þínum, af öllu hjarta
þínu og af allri sálu þinni, [13] með því að halda skipanir Jahve og lög
hans, þau er eg legg fyrir þig í dag, og þér er fyrir beztu? [14] Sjá,
Jahve, Guði þínum, heyrir himininn og himnanna himnar, jörðin og
alt, sem á henni er; [15] og þó hneigðist Jahve að feðrum þínum einum,
svo að hann elskaði þá, og hann útvaldi yður, niðja þeirra, eftir þá
af öllum þjóðum, og er svo enn í dag. [16] Umskerið því yfirhúð hjarta
yðvars, og verið ekki lengur harðsvíraðir. [17] Því að Jahve, Guð yðar,
hann er Guð guðanna og drottinn drotnanna, hinn mikli, voldugi og
óttalegi Guð, sem eigi gjörir sér mannamun og þiggur eigi mútur.
[18] Hann rekur réttar munaðarleysingjans og ekkjunnar og elskar út-

---

**28:** 4 Mós. 14, 16. – **10, 1:** 2 Mós. 34, 1 n. **2:** 2 Mós. 25, 16. 21. **5:** 2 Mós. 40, 20. Hebr. 9, 4. **6:** 4 Mós. 33, 31 n. 20, 28. **8:** 4 Mós. 3, 6 n. 4, 15; 6, 22 n. **9:** 4 Mós. 18, 20 n. **12:** kap. 6, 5. Mik. 6, 8. **16:** kap. 30, 6. Jer. 4, 4. **17:** Sálm. 89, 7. 9. 1 Tím. 6, 15. 5 Mós. 7, 21. 2 Kron. 19, 7. Job 34, 19. Post. 10, 34. **18:** Sálm. 68, 6.

lendinginn, svo að hann gefur honum fæði og klæði. 19 Elskið því út-
lendinginn, því að þér voruð sjálfir útlendingar í Egiptalandi. 20 Jahve,
Guð þinn, skalt þú óttast, hann skalt þú dýrka, við hann skalt þú
halda þér fast og við nafn hans skalt þú sverja. 21 Hann er þinn lofs-
tír og hann er þinn Guð, sá er gjört hefir fyrir þig þessa miklu og
óttalegu hluti, sem augu þín hafa séð. 22 Sjötíu að tölu voru feður
þínir, þá er þeir fóru til Egiptalands, en nú hefir Jahve, Guð þinn,
gjört þig að fjölda til sem stjörnur himins.

11 Fyrir því skalt þú elska Jahve, Guð þinn, og varðveita boðorð
hans, lög, ákvæði og skipanir alla daga; 2 og viðurkennið í dag —
því að ekki á eg orðastað við börn yðar, sem eigi hafa þekt það né
séð —, viðurkennið ögun Jahve, Guðs yðar, mikilleik hans, hina sterku
hönd hans og útréttan armlegg hans, 3 tákn hans og verk, sem hann
gjörði í Egiptalandi á Faraó, Egiptalands konungi, og öllu landi hans,
4 hversu hann fór með herlið Egipta, hesta þeirra og vagna, hversu
hann lét vötn Rauðahafs flæða yfir þá, er þeir veittu yður eftirför, og
tortímdi þeim fram á þennan dag, 5 og hversu hann gjörði til yðar í
eyðimörkinni alt til þess er þér komuð hingað, 6 og hversu hann fór
með Datan og Abíram, sonu Elíabs Rúbenssonar, hversu jörðin lauk
upp munni sínum og svalg þá mitt á meðal allra Ísraelsmanna, ásamt
fjölskyldum þeirra og tjöldum og öllum lifandi skepnum, sem voru í
fylgd með þeim. 7 Því að augu yðar hafa séð öll hin miklu verk, sem
Jahve hefir gjört.

8 Fyrir því skuluð þér varðveita allar þær skipanir, sem eg legg
fyrir þig í dag, til þess að þér verðið sterkir, komist inn í og fáið til
eignar land það, er þér haldið nú yfir til, til þess að taka það til
eignar, 9 og til þess að þér megið lifa langa æfi í landinu, sem Jahve
sór feðrum yðar að gefa þeim og niðjum þeirra, — landi, sem flýtur
í mjólk og hunangi. 10 Því að landið, sem þú heldur nú inn í, til
þess að taka það til eignar, það er ekki eins og Egiptaland, þaðan sem
þér fóruð, þar sem þú sáðir sæði þínu og vökvaðir landið með fæti
þínum* eins og kálgarð, 11 heldur er land það, er þér haldið nú yfir
til, til þess að taka það til eignar, fjallaland og dala, og drekkur vatn
af himnum þegar rignir, 12 land, sem Jahve, Guð þinn, annast; stöð-
uglega hvíla augu Jahve, Guðs þíns, yfir því frá ársbyrjun til ársloka.

13 Ef þér hlýðið skipunum mínum trúlega, þeim er eg legg fyrir
yður í dag: að elska Jahve, Guð yðar, og þjóna honum af öllu hjarta
yðar og af allri sálu yðar, 14 þá mun eg gefa landi yðar regn á réttum
tíma, haustregn og vorregn, svo að þú megir hirða korn þitt, aldinlög
þinn og olíu þína. 15 Þá mun eg og láta gras spretta í högum þínum
handa skepnum þínum, svo að þú megir eta og saddur verða. 16 Gætið
yðar, að hjarta yðar láti ekki tælast og þér víkið ekki af leið og
dýrkið aðra guði og fallið fram fyrir þeim; 17 ella mun reiði Jahve
upptendrast í gegn yður, og hann mun loka himninum, svo að eigi
komi regn og jörðin gefi eigi ávöxt sinn, og þér munuð skjótlega eyðast
úr landinu góða, sem Jahve gefur yður.

18 Fyrir því skuluð þér leggja þessi orð mín á hjarta yðar og
huga, og þér skuluð binda þau til merkis á hönd yðar og hafa þau
sem minningarbönd á milli augna yðar. 19 Og þér skuluð kenna þau
börnum yðar, með því að tala um þau, þegar þú ert heima og þegar
þú ert á ferðalagi, þegar þú legst til hvíldar og þegar þú fer á fætur.

---

**19**: 2 Mós. 22, 21; 23, 9. **20**: kap. 6, 13. **22**: 1 Mós. 46, 27; 15, 5; 22, 17. — **11, 4**: 2 Mós. 14, 25. 27. **6**: 4 Mós. 16, 31 n. **7**: kap. 29, 2. **9**: 2 Mós. 3, 17. **10**: * Hjól voru stigin með fæti til að ná vatni upp á akrana. **13**: kap. 28, 1 n. 3 Mós. 26, 3 n. **14**: Jer. 5, 24. Jóel 2, 23. **17**: 3 Mós. 26, 19. **18**: kap. 6, 6 n. Orðskv. 6, 21 n.

[20] Og þú skalt skrifa þau á dyrustafi húss þíns og á borgarhlið þín,
[21] til þess að þér og börn yðar megið lifa í landinu, sem Jahve sór
feðrum yðar að gefa þeim, svo lengi sem himinn er yfir jörðu. [22] Því
að ef þér varðveitið kostgæfilega allar þessar skipanir, sem eg legg
fyrir yður að halda: að elska Jahve, Guð yðar, að ganga ávalt á hans
vegum og halda yður fast við hann, [23] þá mun Jahve stökkva burt
undan yður öllum þessum þjóðum, og þér munuð leggja undir yður
þjóðir, sem eru stærri og voldugri en þér. [24] Hver sá staður, er þér
stigið fæti á, skal verða yðar eign, frá eyðimörkinni alt til Líbanon,
frá fljótinu, Evfratfljótinu, alt til vesturhafsins skal land yðar ná.
[25] Enginn mun standast fyrir yður; ótta við yður og skelfingu mun
Jahve, Guð yðar, láta koma yfir hvert það land, er þér stigið fæti á,
eins og hann hefir heitið yður.
[26] Sjá, eg legg fyrir yður í dag blessun og bölvun: [27] blessunina,
ef þér hlýðið skipunum Jahve, Guðs yðar, sem eg býð yður í dag,
[28] en bölvunina, ef þér hlýðið ekki skipunum Jahve, Guðs yðar, og
víkið af þeim vegi, sem eg býð yður í dag, til þess að elta aðra guði,
sem þér eigi hafið þekt. [29] Og þegar Jahve, Guð þinn, leiðir þig inn í
landið, sem þú heldur nú inn í, til þess að taka það til eignar, þá
skalt þú leggja blessunina á Garísím-fjall og bölvunina á Ebal-fjall.
[30] En þau eru hinumegin Jórdanar, vestanvert við sólarlagsveginn, í
landi Kanaanítanna, þeirra er búa á sléttlendinu, gegnt Gílgal, hjá
Móre-lundi. [31] Því að þér farið nú yfir Jórdan, til þess að komast
inn í og taka til eignar landið, sem Jahve, Guð yðar, gefur yður; og
þér munuð fá það til eignar og setjast að í því. [32] Gætið þess þá að
halda öll þau lög og ákvæði, sem eg legg fyrir yður í dag.

### Jahve má aðeins dýrka á einum stað.

12 Þetta eru lög þau og ákvæði, sem þér skuluð gæta að breyta
eftir í landi því, sem Jahve, Guð feðra þinna, gefur þér til eignar,
alla þá daga sem þér lifið á jörðinni.
[2] Þér skuluð gjöreyða alla þá staði, þar sem þjóðirnar, er þér
leggið undir yður, hafa dýrkað guði sína, á háum fjöllum, á hæðum
og undir hverju grænu tré. [3] Þér skuluð rífa niður ölturu þeirra,
brjóta í sundur merkissteina þeirra, brenna asérur þeirra í eldi, höggva
sundur skurðlíkneski guða þeirra og afmá nafn þeirra úr þeim stað.
[4] Eigi skuluð þér svo breyta við Jahve, Guð yðar; [5] heldur skuluð þér
leita til þess staðar, sem Jahve, Guð yðar, mun til velja úr öllum kyn-
kvíslum yðar, til þess að láta nafn sitt búa þar, og þangað skalt þú
fara. [6] Þangað skuluð þér færa brennifórnir yðar og sláturfórnir, tí-
undir yðar og það sem þér færið í lyftifórn, heitfórnir yðar og sjálf-
viljafórnir, og frumburði nautgripa yðvarra og sauðfénaðar. [7] Og þar
skuluð þér halda fórnarmáltíð frammi fyrir Jahve, Guði yðar, og gleðja
yður ásamt fjölskyldum yðar yfir öllu því, er þér hafið aflað, yfir því,
sem Jahve, Guð þinn, hefir blessað þig með. [8] Þér megið ekki hegða
yður þá, eins og vér hegðum oss hér nú, er hver gjörir það, sem
honum gott þykir; [9] því að þér eruð ekki enn komnir á hvíldarstaðinn
né til arfleifðarinnar, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér. [10] En þegar
þér eruð komnir yfir Jórdan og hafið sezt að í landinu, sem Jahve,

---

**23:** kap. 7, 1. **24:** Jós. 1, 3 n. 4 Mós. 32, 2 n. **25:** 2 Mós. 23, 27. Jós. 2, 11. **26:** kap. 30, 1. 15. 19. **27:** kap. 28, 2 n. **28:** kap. 27, 15 n. **29:** kap. 27, 12 n. Jós. 8, 33 n. **30:** 1 Mós. 12, 6. — **12, 3:** kap. 7, 5. **5:** 1 Kong. 8, 29 n. 9, 3. 2 Kong. 21, 4. 2 Kron. 7, 12. 16.

Guð yðar, lætur yður fá til eignar, og þegar hann hefir veitt yður frið
fyrir öllum óvinum yðar alt í kring og þér búið óhultir, [11] þá skal sá
staður, er Jahve, Guð yðar, velur til þess að láta nafn sitt búa þar,
vera staðurinn, sem þér færið til alt sem eg býð yður: brennifórnir
yðar og sláturfórnir, tíundir yðar og það sem þér færið í lyftifórn og
allar útvaldar heitfórnir yðar, er þér heitið Jahve. [12] Og þér skuluð
gleðjast frammi fyrir Jahve, Guði yðar, þér og synir yðar og dætur,
þrælar yðar og ambáttir, ásamt Levítunum, sem eru innan borgarhliða
yðar, því að þeir hafa eigi hlutskifti né óðal með yður.

[13] Gæt þín, að þú fórnir ekki brennifórnum þínum á hverjum þeim
stað, er þér ræður við að horfa, [14] heldur á þeim stað, er Jahve velur
í einhverri af kynkvíslum þínum, þar skalt þú fórna brennifórnum
þínum og þar skalt þú gjöra alt það, sem eg býð þér. [15] Þó mátt þú
slátra og eta kjöt eftir eigin vild þinni innan allra borgarhliða þinna,
eftir þeirri blessun, er Jahve, Guð þinn, gefur þér; bæði óhreinn mað-
ur og hreinn mega eta það, sem væri það skógargeit eða hjörtur. [16] Að-
eins megið þér ekki eta blóðið; þú skalt hella því á jörðina sem vatni.
[17] En þú mátt eigi eta innan borgarhliða þinna tíund af korni þínu,
aldinlegi þínum og olíu þinni, né frumburði nautgripa þinna og sauð-
fénaðar, né nokkuð af heitfórnum þínum, er þú hefir heitið, né sjálf-
viljafórnir þínar, né nokkuð, sem þú færir í lyftifórn, [18] heldur skalt
þú eta það frammi fyrir Jahve, Guði þínum, á þeim stað, sem Jahve,
Guð þinn, velur, þú og sonur þinn og dóttir þín og þræll þinn og am-
bátt þín og Levítinn, sem er innan borgarhliða þinna, og þú skalt
gleðjast frammi fyrir Jahve, Guði þínum, yfir öllu því, sem þú hefir
aflað. [19] Gæt þín, að þú setjir ekki Levítana hjá alla þá daga, sem
þú lifir í landi þínu.

[20] Þegar Jahve, Guð þinn, færir út landamerki þín, eins og hann
hefir heitið þér, og þú segir: Eg vil eta kjöt! af því að þig lystir að
eta kjöt, þá mátt þú eta kjöt, eins og þig lystir. [21] Ef sá staður, sem
Jahve, Guð þinn, velur, til þess að láta nafn sitt búa þar, er mjög
langt í burtu frá þér, þá skalt þú slátra af nautum þínum og sauðum,
sem Jahve hefir gefið þér, eins og eg hefi fyrir þig lagt, og þú skalt
eta það innan borgarhliða þinna eins og þig lystir. [22] Aðeins skalt þú
eta það eins og menn eta skógargeit eða hjört; bæði óhreinn maður og
hreinn mega eta það. [23] En þó skalt þú varast það grandgæfilega, að
neyta blóðsins, því að blóðið er lífið, og þú skalt ekki eta lífið með
kjötinu. [24] Þú skalt ekki neyta þess, þú skalt hella því á jörðina sem
vatni. [25] Þú skalt ekki neyta þess, svo að þér vegni vel og börnum
þínum eftir þig, er þú gjörir það sem rétt er í augum Jahve.

[26] En helgigjafir þínar, þær er þér ber að færa, og heitfórnir þín-
ar skalt þú taka og fara með þær til þess staðar, sem Jahve velur;
[27] og þú skalt fram bera brennifórnir þínar, kjötið og blóðið, á altari Jahve,
Guðs þíns, og blóðinu úr sláturfórnum þínum skal hella á altari Jahve,
Guðs þíns, en kjötið skalt þú eta. [28] Varðveit þú og hlýð þú öllum þess-
um boðorðum, sem eg legg fyrir þig, svo að þér vegni vel og börnum
þínum eftir þig æfinlega, er þú gjörir það, sem gott er og rétt í augum
Jahve, Guðs þíns.

---

**12:** 4 Mós. 18, 20. 24. 5 Mós. 10, 9; 14, 27. **15:** kap. 15, 22 n. **16:** 3 Mós. 3, 17; 7, 26. **19:** kap. 14, 27. **23:** 3 Mós. 17, 10 n.

**Bönnuð heiðingleg guðsdýrkun.**

29 Þegar Jahve, Guð þinn, upprætir þær þjóðir fyrir þér, er þú
heldur nú til, til þess að leggja þær undir þig, og er þú hefir lagt þær
undir þig og ert seztur að í landi þeirra, 30 þá gæt þín, að þú freistist
ekki til þess að taka upp siðu þeirra, eftir að þeir eru eyddir burt frá
þér, og að þú farir ekki að spyrjast fyrir um guði þeirra og segja:
Hvernig dýrkuðu þessar þjóðir guði sína, svo að eg geti og farið eins
að? 31 Þú skalt eigi breyta svo við Jahve, Guð þinn, því að alt, sem
andstyggilegt er Jahve, það er hann hatar, hafa þær gjört til heiðurs
guðum sínum; því að jafnvel sonu sína og dætur hafa þeir brent í
eldi til heiðurs guðum sínum.
32 Þér skuluð gæta þess að halda öll þau boðorð, sem eg legg
fyrir yður; þú skalt engu auka við þau né heldur draga nokkuð undan.
13 Ef spámaður eða draumamaður rís upp meðal yðar og boðar
þér tákn eða undur, 2 og táknið eða undrið rætist, það er hann
hafði boðað þér og sagt um leið: Vér skulum snúa oss til annara guða
— þeirra er þú hefir eigi þekt — og vér skulum dýrka þá! 3 þá skalt
þú ekki hlýða á orð þess spámanns eða draumamanns, því að Jahve,
Guð yðar, reynir yður, til þess að vita, hvort þér elskið Jahve, Guð
yðar, af öllu hjarta yðar og af allri sálu yðar. 4 Jahve, Guði yðar,
skuluð þér fylgja og hann skuluð þér óttast, og skipanir hans skuluð
þér varðveita og raustu hans skuluð þér hlýða, og hann skuluð þér
dýrka og við hann skuluð þér halda yður fast. 5 En spámann þann
eða draumamann skal deyða, því að hann hefir prédikað uppreisn gegn
Jahve, Guði yðar, sem leiddi yður út af Egiptalandi og leysti þig úr
þrælahúsinu, til þess að tæla þig burt af þeim vegi, sem Jahve, Guð
þinn, bauð þér að ganga. Þannig skalt þú útrýma hinu illa burt
frá þér.
6 Ef bróðir þinn, sonur móður þinnar, eða sonur þinn eða dóttir
þín eða konan í faðmi þínum eða vinur þinn, sem þú elskar eins og
lífið í brjósti þínu, ginnir þig einslega og segir: Vér skulum fara og
dýrka aðra guði — þá er hvorki þú né feður þínir hafa þekt, 7 af guð-
um þeirra þjóða, sem kring um yður eru, hvort heldur þær eru nálæg-
ar þér eða fjarlægar þér, frá einu heimsskauti til annars —, 8 þá skalt
þú eigi gjöra að vilja hans og eigi hlýða á hann, og þú skalt ekki líta
hann vægðarauga og þú skalt ekki þyrma honum né hylma yfir með
honum; 9 heldur skalt þú drepa hann, þín hönd skal fyrst á lofti vera
gegn honum, til þess að deyða hann, og því næst hönd alls lýðsins;
10 þú skalt lemja hann grjóti til bana, af því að hann leitaðist við að
tæla þig frá Jahve, Guði þínum, sem leiddi þig út af Egiptalandi, út
úr þrælahúsinu. 11 Og allur Ísrael skal heyra það og skelfast, svo að
enginn hafist framar að slíkt ódæði þín á meðal.
12 Ef þú heyrir sagt um einhverja af borgum þínum, þeim er
Jahve, Guð þinn, gefur þér til þess að búa í: 13 Varmenni nokkur
eru upp komin þín á meðal og hafa þau tælt samborgara sína og sagt:
Vér skulum fara og dýrka aðra guði, þá er þér þekkið ekki, — 14 þá
skalt þú rækilega rannsaka það, grenslast eftir og spyrjast fyrir, og ef
það reynist satt vera, að slík svívirðing hafi framin verið þín á meðal,
15 þá skalt þú fella íbúa þeirrar borgar með sverðseggjum, bannfæra
borgina og alt, sem í henni er, og fénaðinn í henni með sverðseggjum.
16 Alt herfangið úr henni skalt þú bera saman á torgið og brenna sið-
an borgina og alt herfangið í eldi sem eldfórn Jahve, Guði þínum, til

30: kap. 7, 16. Jós. 23, 7. Dóm. 2, 3. 31: 3 Mós. 18, 21. 32: kap. 4, 2. — 13, 4: kap. 10, 20. 5: kap. 18, 20. 9: kap. 17, 2 n.

handa; og hún skal verða ævarandi rúst og aldrei framar endurreist
verða. 17 Og ekkert af hinu bannfærða skal loða við hendur þínar, til
þess að Jahve megi láta af hinni brennandi reiði sinni og auðsýni þér
miskunnsemi, og til þess að hann miskunni þér og margfaldi þig, eins
og hann sór feðrum þínum, 18 er þú hlýðir raustu Jahve, Guðs þíns,
með því að varðveita allar skipanir hans, þær er eg legg fyrir þig í
dag, og gjörir það sem rétt er í augum Jahve, Guðs þíns.

## Bannaðir heiðinglegir sorgarsiðir og óhrein fæða.

14 Þér eruð börn Jahve, Guðs yðar; þér skuluð eigi rista skinn-
sprettur á yður né raka yður krúnu eftir framliðinn mann. 2 Því
að þú ert Jahve, Guði þínum, helgaður lýður, og þig hefir Jahve kjör-
ið til að vera eignarlýður hans um fram allar þjóðir, sem á jörðunni eru.
3 Þú skalt ekki eta neitt viðbjóðslegt. 4 Þessi eru þau ferfætt dýr,
sem þér megið eta: naut, sauðfé og geitfé, 5 hirtir, skógargeitur, dá-
hirtir, steingeitur, fjallageitur, antílópur og gemsur. 6 Öll ferfætt dýr,
sem hafa klaufir -- og þær alklofnar — og jórtra, megið þér eta. 7 Af
þeim sem jórtra, og af þeim sem alklofnar klaufir hafa, megið þér þó
ekki þessi eta: úlfaldann, hérann og stökkhérann; því að þeir jórtra að
sönnu, en hafa eigi klaufir; þeir séu yður óhreinir; 8 og svínið, því að
það hefir að sönnu klaufir, en jórtrar ekki; það sé yður óhreint. Kjöt
þeirra skuluð þér ekki eta og hræ þeirra skuluð þér ekki snerta.
9 En af lagardýrunum megið þér eta þessi: öll þau, sem hafa
sundugga og hreistur, megið þér eta; 10 en öll þau, sem ekki hafa sund-
ugga og hreistur, megið þér ekki eta; þau séu yður óhrein.
11 Alla hreina fugla megið þér eta; 12 en þessa megið þér ekki eta:
örninn, skegg-gamminn og gamminn, 13 gleðuna og fálkakynið, 14 alt
hrafnakynið, 15 strútinn, svöluna, máfinn og haukakynið, 16 ugluna, nátt-
ugluna og hornugluna, 17 pelíkaninn, hrægamminn og súluna, 18 stork-
inn og lóukynið, herfuglinn og leðurblökuna. 19 Öll fleyg skriðkvikindi
séu yður óhrein; þau má eigi eta. 20 Öll hrein flugdýr megið þér eta.
21 Þér skuluð ekki eta neitt sjálfdautt; útlendum manni, sem er innan
borgarhliða þinna, mátt þú gefa það til að eta, eða selja það aðkomn-
um manni, því að þú ert Jahve, Guði þínum, helgaður lýður. Þú skalt
ekki sjóða kið í mjólk móður sinnar.

## Um tíund og umlíðunarár.

22 Þú skalt tíunda vandlega allan ávöxt af útsæði þínu, alt það
er vex á mörkinni, á ári hverju, 23 og þú skalt eta frammi fyrir Jahve,
Guði þínum, á þeim stað, sem hann velur, til þess að láta nafn sitt
búa þar, tíundina af korni þínu, aldinlegi þínum og olíu þinni og frum-
burði nautgripa þinna og sauðfénaðar, svo að þú lærir að óttast Jahve,
Guð þinn, alla daga. 24 Og sé vegurinn of langur fyrir þig og getir þú
eigi borið það, af því að staðurinn, sem Jahve, Guð þinn, velur, til
þess að láta nafn sitt búa þar, er langt í burtu frá þér, þegar Jahve,
Guð þinn, hefir blessað þig, 25 þá skalt þú koma því í peninga, taka
silfrið með þér og geyma þess vel og fara til þess staðar, er Jahve,
Guð þinn, velur; 26 og fyrir silfrið skalt þú kaupa hvað sem þig lystir:
nautgripi, sauðfé, vín, áfengan drykk, eða hvað annað, sem þig langar
í, og þú skalt neyta þess þar frammi fyrir Jahve, Guði þínum, og gleðja

---

**17:** kap. 7, 25. 26. — **14, 1:** 3 Mós. 19, 27. 28. **2:** kap. 4, 20; 7, 6 n. **4:** 3 Mós. 11, 2 n. **20:** 3 Mós. 11, 21 n. **21:** 2 Mós. 23, 19. **22:** 3 Mós. 27, 30. 5 Mós. 26, 12. **23:** kap. 12, 17 n.

þig ásamt fjölskyldu þinni. [27] Og Levítana, sem eru innan borgarhliða
þinna, skalt þú ekki setja hjá, því að þeir hafa ekki hlut né óðal
með þér.
[28] Þriðja hvert ár skalt þú færa út alla tíund af ávexti þínum það
árið og leggja hana niður innan borgarhliða þinna, [29] svo að Levítar
— því að þeir hafa ekki hlut né óðal með þér —, útlendingar, mun-
aðarleysingjar og ekkjur þær, sem eru innan borgarhliða þinna, megi
koma og eta sig mett, til þess að Jahve, Guð þinn, blessi þig í öllu
því, er þú tekur þér fyrir hendur að gjöra.
15 Sjöunda hvert ár skalt þú veita umlíðun skulda. [2] En þeirri
umlíðun er svo farið: sérhver lánardrottinn skal veita umlíðun á
því, sem hann hefir lánað náunga sínum; hann skal eigi ganga hart
að náunga sínum og bróður, því að umlíðun hefir boðuð verið Jahve
til dýrðar. [3] Að útlendum manni mátt þú ganga hart, en það, sem
þú átt hjá bróður þínum, skalt þú líða hann um. [4] En reyndar mun
enginn fátækur hjá þér vera, því að Jahve mun blessa þig ríkulega í
landi því, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér sem arf til eignar, [5] ef þú
aðeins hlýðir kostgæfilega raustu Jahve, Guðs þíns, með því að gæta
þess að halda allar þessar skipanir, sem eg legg fyrir þig í dag. [6] Því
að Jahve, Guð þinn, hefir blessað þig, eins og hann hefir heitið þér,
svo að þú munt lána mörgum þjóðum, en sjálfur eigi þurfa að taka
lán, og þú munt drotna yfir mörgum þjóðum, en þær munu eigi drotna
yfir þér.
[7] Ef með þér er fátækur maður, einhver af bræðrum þínum, í
einhverri af borgum þínum í landi þínu, því er Jahve, Guð þinn, gef-
ur þér, þá skalt þú ekki herða hjarta þitt og eigi afturlykja hendi þinni
fyrir fátækum bróður þínum, [8] heldur skalt þú upp ljúka hendi þinni
fyrir honum og lána honum fúslega það, er nægi til að bæta úr skorti
hans. [9] Gæt þín, að eigi komi sú ódrengskapar-hugsun upp í hjarta
þínu: Sjöunda árið, umlíðunarárið, er fyrir hendi! og að þú lítir eigi
fátækan bróður þinn óblíðu auga og gefir honum ekkert; svo að hann
hrópi til Jahve yfir þér, og það verði þér til syndar. [10] Miklu fremur
skalt þú gefa honum og eigi gjöra það með illu geði, því að fyrir það
mun Jahve, Guð þinn, blessa þig í öllu verki þínu og í öllu, sem þú
tekur þér fyrir hendur; [11] því að aldrei mun fátækra vant verða í land-
inu. Fyrir því býð eg þér og segi: Þú skalt fúslega upp ljúka hendi
þinni fyrir bróður þínum, fyrir þurfamanninum og hinum fátæka í
landi þínu.
[12] Ef bróðir þinn, hebreskur maður eða hebresk kona, selur sig
þér, þá skal hann þjóna þér í sex ár; en sjöunda árið skalt þú láta
hann lausan frá þér fara. [13] Og þegar þú lætur hann lausan frá þér
fara, þá skalt þú ekki láta hann fara tómhentan. [14] Þú skalt gjöra
hann vel úr garði og gefa honum af hjörð þinni, úr láfa þínum og
vínþröng þinni; þú skalt gefa honum af því, sem Jahve, Guð þinn,
hefir blessað þig með; [15] og þú skalt minnast þess, að þú varst þræll
í Egiptalandi og að Jahve, Guð þinn, leysti þig; fyrir því legg eg þetta
fyrir þig í dag. [16] En segi hann við þig: Eg vil ekki fara frá þér, —
af því að honum er orðið vel við þig og skyldulið þitt, með því að
honum líður vel hjá þér, — [17] þá skalt þú taka al og stinga í gegn um eyra
honum inn í hurðina, og skal hann síðan vera þræll þinn æfinlega;
á sömu leið skalt þú og fara með ambátt þína. [18] Lát þér eigi fallast
um það, þótt þú eigir að láta hann lausan frá þér fara, því að í sex

---

**27:** kap. 12, 12. 19. **29:** Orðskv. 10, 22. — **15, 1:** 2 Mós. 23, 11 n. 3 Mós. 25, 3 n.
**6:** kap. 28, 12. **7:** 3 Mós. 25, 35 n. 1 Jóh. 3, 17. **8:** Matt. 5, 42. Lúk. 6, 34 n. **10:**
2 Kor. 9, 7 n. **11:** Matt. 26, 11. **12:** 2 Mós. 21, 2 n.

ár hefir hann unnið þér tvöfalt, miðað við kaup kaupamanns; og Jahve,
Guð þinn, mun blessa þig í öllu, sem þú gjörir.
19 Alla frumburði karlkyns, sem fæðast á meðal nautgripa þinna
og sauðfjár þíns, skalt þú helga Jahve, Guði þínum; frumburði nauta
þinna skalt þú ekki hafa til vinnu né klippa frumburði sauðfjár þíns.
20 Frammi fyrir augliti Jahve, Guðs þíns, skalt þú eta þá á ári hverju
á þeim stað, sem Jahve velur, ásamt skylduliði þínu. 21 En ef einhver
lýti eru á þeim, ef þeir eru haltir eða blindir eða hafa einhvern ann-
an slæman galla, þá skalt þú eigi fórna þeim Jahve, Guði þínum.
22 Innan borgarhliða þinna skalt þú eta þá, og það jafnt óhreinn sem
hreinn, sem væri það skógargeit eða hjörtur. 23 Blóðsins eins skalt þú
ekki neyta; þú skalt hella því á jörðina sem vatni.

## Um stórhátíðirnar þrjár.

16 Gæt þess, að halda Jahve, Guði þínum, páska í abíbmánuði;
því að í abíbmánuði leiddi Jahve, Guð þinn, þig á náttarþeli út
af Egiptalandi. 2 Og þú skalt slátra sauðum og nautum í páskafórn
til handa Jahve, Guði þínum, á þeim stað, sem Jahve velur, til þess
að láta nafn sitt búa þar. 3 Þú mátt ekki eta sýrt brauð með því; í
sjö daga skalt þú eta með því ósýrð brauð, neyðarbrauð — því að í
flýti fórst þú af Egiptalandi —, til þess að þú minnist brottfarardags
þíns af Egiptalandi alla æfi þína. 4 Ekki má súrdeig sjást nokkur-
staðar hjá þér innan þinna landamerkja í sjö daga, og ekkert af kjöti
því, er þú fórnar að kveldi fyrsta daginn, skal liggja náttlangt til
morguns. 5 Þú mátt eigi slátra páskafórninni í einhverri af borgum
þeim, er Jahve, Guð þinn, gefur þér, 6 heldur skalt þú slátra páska-
fórninni á þeim stað, sem Jahve, Guð þinn, velur, til þess að láta nafn
sitt búa þar, að kveldi um sólarlagsbil — í það mund, er þú fórst af
Egiptalandi; 7 og þú skalt sjóða það og eta á þeim stað, sem Jahve,
Guð þinn, velur, og morguninn eftir skalt þú snúa á leið og halda
heim til tjalda þinna. 8 Sex daga skalt þú eta ósýrð brauð, og sjöunda
daginn skal vera hátíðafundur til handa Jahve, Guði þínum; þá skalt
þú ekkert verk vinna.
9 Sjö vikur skalt þú telja; frá þeim tíma, er sigðin fyrst var borin
að kornstöngunum, skalt þú byrja að telja sjö vikur; 10 þá skalt þú
halda Jahve, Guði þínum, viknahátíðina með sjálfviljagjöfum þeim, er
þú innir af hendi, eftir því sem Jahve, Guð þinn, hefir blessað þig.
11 Og þú skalt gleðjast frammi fyrir Jahve, Guði þínum, þú og sonur
þinn og dóttir þín, þræll þinn og ambátt þín og Levítinn, sem er innan
borgarhliða þinna, og útlendingurinn, munaðarleysinginn og ekkjan,
sem með þér eru, á þeim stað, sem Jahve, Guð þinn, velur, til þess
að láta nafn sitt búa þar. 12 Og þú skalt minnast þess, að þú varst
þræll í Egiptalandi, og þú skalt gæta þess að halda þessi lög.
13 Laufskálahátíðina skalt þú halda í sjö daga, er þú alhirðir af
láfa þínum og úr vínþröng þinni. 14 Og þú skalt gleðjast á hátíð þinni,
þú og sonur þinn og dóttir þín, þræll þinn og ambátt þín, og Levít-
inn, útlendingurinn, munaðarleysinginn og ekkjan, sem eru innan
borgarhliða þinna. 15 Í sjö daga skalt þú halda Jahve, Guði þínum,
hátíð á þeim stað, sem Jahve velur; því að Jahve, Guð þinn, mun

---

**19:** 2 Mós. 13, 2; 22, 29 n. 34, 19. **20:** kap. 12, 11. 12. **21:** kap. 17, 1. 3 Mós. 22, 20 n. Mal. 1, 8. 13. **22:** kap. 12, 15 n. 22 n. — **16, 1:** 3 Mós. 23, 5 n. **8:** 2 Mós. 12, 15. **4:** 2 Mós. 12, 10. **8:** 2 Mós. 13, 6. 7. **9:** 3 Mós. 23, 15 n. **13:** 2 Mós. 23, 16. 3 Mós. 23, 34 n. 4 Mós. 29, 12 n. **14:** kap. 12, 12. 18.

láta þér blessast allan jarðargróða þinn og öll handaverk þín; fyrir því skalt þú gleðjast mikillega.
16 Þrem sinnum á ári skal alt þitt karlkyn birtast frammi fyrir Jahve, Guði þínum, á þeim stað, sem hann mun velja: á hátíð hinna ósýrðu brauða, á viknahátíðinni og á laufskálahátíðinni, og fyrir Jahve skal enginn koma tómhentur;
17 hver og einn skal koma með það, er hann getur látið af hendi rakna, eftir þeirri blessun, sem Jahve, Guð þinn, hefir veitt þér.

## Um dómgæzlu.

18 Dómendur og tilsjónarmenn skalt þú skipa í öllum borgum þínum, þeim er Jahve, Guð þinn, gefur þér, eftir ættkvíslum þínum, og þeir skulu dæma lýðinn réttlátum dómi.
19 Þú skalt eigi halla réttinum, þú skalt eigi gjöra þér mannamun og eigi þiggja mútu, því að mútan blindar augu hinna vitru og umhverfir máli hinna réttlátu.
20 Réttlætinu einu skalt þú fram fylgja, til þess að þú megir lifa og fá til eignar landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér.
21 Þú skalt ekki gróðursetja aséru af neins konar tré hjá altari Jahve, Guðs þíns, því er þú gjörir þér,
22 og þú skalt ekki reisa þér neinn merkisstein, þann er Jahve, Guð þinn, hatar.
17 Þú skalt ekki fórna Jahve, Guði þínum, nokkuru því nauti eða sauð, sem lýti er á, einhver slæmur galli, því að það er andstyggilegt Jahve, Guði þínum.
2 Ef hjá þér finst, í einhverri af borgum þínum, þeim er Jahve, Guð þinn, gefur þér, maður eða kona, er gjörir það sem ilt er í augum Jahve, Guðs þíns, með því að rjúfa sáttmála hans,
3 og fer og dýrkar aðra guði og fellur fram fyrir þeim, eða fyrir sólinni, eða tunglinu, eða öllum himinsins her, er eg hefi eigi leyft,
4 og verði þér sagt frá þessu og þú heyrir það, þá skalt þú rækilega rannsaka það, og ef það reynist satt vera, að slík svívirðing hafi framin verið í Ísrael,
5 þá skalt þú leiða mann þann eða konu, er slíkt ódæði hafa framið, að borgarhliðinu — manninn eða konuna, og lemja þau grjóti til bana.
6 Eftir framburði tveggja eða þriggja vitna skal sá líflátinn verða, er fyrir dauðasök er hafður; eigi skal hann líflátinn eftir framburði eins vitnis.
7 Vitnin skulu fyrst reiða hönd gegn honum, til þess að deyða hann, og því næst allur lýðurinn. Þannig skalt þú útrýma hinu illa burt frá þér.
8 Ef þér er um megn að dæma í einhverju máli: manndrápsmáli, máli um eignarrétt, meiðslamáli — í einhverjum þrætumálum innan borgarhliða þinna, þá skalt þú hafa þig til vegar og fara til þess staðar, er Jahve, Guð þinn, velur,
9 og þú skalt ganga fyrir Levíta-prestana og dómarann, sem þá er, og þú skalt spyrja þá ráða, og þeir skulu segja þér dómsatkvæðið.
10 Og þú skalt fara eftir því atkvæði, sem þeir segja þér á þeim stað, sem Jahve velur, og þú skalt gæta þess að gjöra alt eins og þeir segja þér fyrir.
11 Eftir þeim fyrirmælum, sem þeir tjá þér, og eftir þeim dómi, sem þeir segja þér, skalt þú fara; þú skalt eigi víkja frá atkvæðinu, sem þeir segja þér, hvorki til hægri né vinstri.
12 En ef nokkur gjörir sig svo djarfan, að hann vill eigi hlýða á prestinn, sem stendur þar í þjónustu Jahve, Guðs þíns, eða á dómarann — sá maður skal deyja, og þú skalt útrýma hinu illa úr Ísrael,
13 svo að allur lýðurinn heyri það og skelfist og enginn sýni framar slíka ofdirfsku.

---

**16:** 2 Mós. 23, 17. **19:** 2 Mós. 23, 6 n. 3 Mós. 19, 15. 5 Mós. 1, 16 n. Orðskv. 15, 27. **22:** 3 Mós. 26, 1. — **17, 1:** kap. 15, 21. 3 Mós. 22, 20 n. **2:** kap. 13, 6 n. **3:** kap. 4, 19. **6:** kap. 19, 15. 4 Mós. 35, 30.

## Um konunga.

[14] Þegar þú ert kominn inn í landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur
þér, og þú hefir fengið það til eignar og ert seztur þar að og segir:
Eg vil taka mér konung, eins og allar þjóðirnar, sem í kring um mig
eru, [15] þá skalt þú taka þann til konungs yfir þig, sem Jahve, Guð þinn,
útvelur. Mann af bræðrum þínum skalt þú taka til konungs yfir þig;
eigi mátt þú setja útlendan mann yfir þig, þann sem eigi er bróðir
þinn. [16] En eigi skal hann hafa marga hesta, né heldur fara aftur
með lýðinn til Egiptalands, til þess að afla sér margra hesta, með því
að Jahve hefir sagt við yður: Þér skuluð aldrei snúa aftur þessa leið.
[17] Hann skal og eigi hafa margar konur, svo að hjarta hans gjörist
eigi fráhverft, og hann skal eigi draga saman ógrynni af silfri og gulli.
[18] Og þegar hann nú er seztur í hásæti konungdóms síns, þá skal hann
fá lögmál þetta hjá Levíta-prestunum og rita eftirrit af því handa sér
í bók; [19] og hann skal hafa hana hjá sér og lesa í henni alla æfidaga
sína, til þess að hann læri að óttast Jahve, Guð sinn, og gæti þess að
halda öll fyrirmæli þessa lögmáls og þessi ákvæði, [20] að hann ofmetnist
eigi í hjarta sínu yfir bræður sína og víki eigi frá boðorðunum, hvorki
til hægri né vinstri, svo að hann megi um langa æfi ríkjum ráða í
Ísrael, hann og synir hans.

## Um presta.

18 Eigi skulu Levíta-prestarnir, öll kynkvísl Leví, fá hlut og óðal
með Ísrael; á eldfórnum Jahve og erfðahluta hans skulu þeir
lifa. [2] En óðal skulu þeir eigi fá meðal bræðra sinna; Jahve er óðal
þeirra, eins og hann hefir heitið þeim. [3] Og þessi skulu vera réttindi
prestanna af hálfu lýðsins, af hálfu þeirra manna, er fórna sláturfórn,
hvort heldur er nauti eða sauð: presti skal gefa bóginn, báða kjamm-
ana og vinstrina. [4] Frumgróðann af korni þínu, aldinlegi þínum og
olíu þinni og fyrstu ullina, sem þú klippir af sauðfé þínu, skalt þú
gefa honum. [5] Því að Jahve, Guð þinn, hefir útvalið hann af öllum
kynkvíslum þínum, til þess að hann og synir hans gegni þjónustu í
nafni Jahve alla daga.

[6] Nú kemur Levíti úr einhverri af borgum þínum í öllum Ísrael,
þar er hann dvelur sem útlendingur — og hann má koma eftir vild
sinni — til þess staðar, er Jahve velur, [7] og má hann þá gegna þjón-
ustu í nafni Jahve, Guðs síns, eins og allir bræður hans, Levítarnir,
er standa þar frammi fyrir Jahve. [8] Þeir skulu fá jafnan hlut til við-
urværis, án tillits til þess, er hann fær fyrir selda séreign sína.

[9] Þegar þú kemur inn í landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér,
þá skalt þú ekki taka upp svívirðingar þessara þjóða. [10] Eigi skal
nokkur finnast hjá þér, sá er láti son sinn eða dóttur ganga gegn um eld-
inn, eða sá er fari með galdur eða spár eða fjölkyngi, eða töframaður,
[11] eða gjörningamaður eða særingamaður eða spásagnamaður, eða sá er
leiti frétta af framliðnum. [12] Því að hver sá, er slíkt gjörir, er Jahve and-
styggilegur, og fyrir slíkar svívirðingar rekur Jahve, Guð þinn, þá burt
undan þér. [13] Þú skalt vera grandvar gagnvart Jahve, Guði þínum.
[14] Því að þessar þjóðir, er þú rekur nú burt, hlýða á spásagnamenn og
galdramenn, en þér hefir Jahve, Guð þinn, eigi leyft slíkt. [15] Spámann

---

**14:** 1 Sam. 8, 5 n. **16:** 1 Kong. 10, 28. Jes. 31, 1. 3. 5 Mós. 28, 68. **17:** 1 Kong. 11, 1. — **18, 1:** 1 Kor. 9, 13. **9:** 1 Kong. 14, 24. 2 Kong. 16, 3. **10:** 3 Mós. 18, 21; 19, 26. **11:** 3 Mós. 19. 31; 20, 6. 27. 1 Sam. 28, 7 n. **13:** Sálm. 119, 1.

mun Jahve, Guð þinn, upp vekja meðal þín, af bræðrum þínum, slíkan
sem eg er; á hann skuluð þér hlýða. [16] Mun þannig fyllilega rætast
það, er þú baðst Jahve, Guð þinn, um hjá Hóreb, daginn sem þér
voruð þar saman komnir, er þú sagðir: Eigi vildi eg lengur þurfa að
heyra raust Jahve, Guðs míns, né oftar að sjá þennan mikla eld, svo
að eg deyi ekki. [17] Þá sagði Jahve við mig: Vel er það mælt, sem þeir
segja. [18] Eg vil upp vekja þeim spámann meðal bræðra þeirra, slíkan
sem þú ert; og eg mun leggja honum mín orð í munn og hann skal
mæla til þeirra alt það, er eg býð honum. [19] Og hvern þann, er eigi
vill hlýða á orð mín, þau er hann mun flytja í mínu nafni, hann mun
eg krefja reikningsskapar. [20] En sá spámaður, sem dirfist að tala í
mínu nafni það, er eg hefi eigi boðið honum að tala, og sá sem talar
í nafni annara guða — sá spámaður skal deyja. [21] Og ef þú segir í
hjarta þínu: Hvernig fáum vér þekt úr þau orð, er Jahve hefir ekki
talað? [22] þá vit, að þegar spámaður talar í nafni Jahve og það rætist
eigi né kemur fram, þá eru það orð, sem Jahve hefir eigi talað; af
ofdirfsku sinni hefir spámaðurinn talað það; þú þarft ekki að hræð-
ast hann.

## Um manndráp.

19 Þegar Jahve, Guð þinn, upprætir þær þjóðir, hverra land Jahve,
Guð þinn, gefur þér, og er þú hefir lagt þær undir þig og ert
seztur að í borgum þeirra og húsum, [2] þá skalt þú skilja frá þrjár
borgir í landi þínu, því er Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar. [3] Þú
skalt leggja veg að þeim og skifta gjörvöllu landi þínu, því er Jahve,
Guð þinn, lætur þig eignast, í þrjá hluti, og skal það vera til þess, að
þangað megi flýja hver sá, er mann vegur. [4] En svo skal vera um
veganda þann, er þangað flýr, til þess að forða lífi sínu: Ef maður
drepur náunga sinn óviljandi og hefir eigi verið óvinur hans áður, [5] svo
sem þegar maður fer með náunga sínum í skóg að fella tré, og hann
reiðir upp öxina til að höggva tréð, en öxin hrýtur af skaftinu og lendir
á náunga hans, svo að hann fær bana af — sá maður má flýja í ein-
hverja af borgum þessum og forða svo lífi sínu, [6] til þess að hefndar-
maðurinn elti ekki vegandann meðan móðurinn er á honum og nái
honum, af því að vegurinn er langur, og drepi hann, þótt hann sé ekki
dauðasekur, með því að hann var ekki óvinur hans áður. [7] Fyrir því
býð eg þér og segi: þú skalt skilja þrjár borgir frá. [8] Og ef Jahve,
Guð þinn, færir út landamerki þín, eins og hann hefir svarið feðrum
þínum, og hann gefur þér gjörvalt landið, sem hann hét að gefa feðr-
um þínum, [9] svo framarlega sem þú gætir þess að halda allar þessar
skipanir, sem eg legg fyrir þig í dag, með því að elska Jahve, Guð
þinn, og ganga á hans vegum alla daga, þá skalt þú enn bæta þrem
borgum við þessar þrjár, [10] til þess að saklausu blóði verði eigi úthelt
í landi þínu, því er Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar, og blóðsök
falli eigi á þig.
[11] En ef maður hatast við náunga sinn og situr um hann, ræðst
á hann og lýstur hann til bana og flýr síðan í einhverja af borgum
þessum, [12] þá skulu öldungar þeirrar borgar, er hann á heima í, senda
þangað og sækja hann og selja í hendur hefndarmanni til lífláts. [13] Þú
skalt ekki líta hann vægðarauga, heldur útrýma saklausu blóði úr Ísr-
ael, svo að þér vegni vel.

---

**15:** Jóh. 1, 46; 6, 14. Post. 3, 22 n. 7, 37. Matt. 17, 5. **16:** 2 Mós. 20, 19. **20:** kap. 13, 5. Jer. 14, 15. — **19, 2:** 4 Mós. 35, 10 n. Jós. 20, 2 n. **4:** 2 Mós. 21, 13 n. **11:** 4 Mós. 35, 20 n. **12:** 1 Mós. 9, 6. 2 Mós. 21, 12. 14.

### Um merkjafærslu og ljúgvitni.

14 Þú skalt eigi færa úr stað landamerki náunga þíns, þau er for-
feðurnir hafa sett, á arfleifð þinni, er þú munt eignast í landinu, sem
Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar.
15 Eigi skal eitt vitni koma fram gegn manni, þá er um einhvern
glæp eða einhverja synd er að ræða — hvaða synd sem það nú er,
sem hann hefir drýgt; því að eins skal framburður gildur vera, að tveir
eða þrír vottar beri. 16 Nú rís falsvottur gegn einhverjum og ber á
hann lagabrot, 17 og skulu þá báðir þeir, er kærumálið eiga saman,
ganga fram fyrir Jahve, fyrir prestana og dómarana, sem þá eru í
þann tíma, 18 og dómararnir skulu rannsaka það rækilega, og ef þá
reynist svo, að votturinn er ljúgvottur, að hann hefir borið lygar á
bróður sinn, 19 þá skuluð þér gjöra svo við hann sem hann hafði
hugsað að gjöra við bróður sinn, og þannig skalt þú útrýma hinu illa
burt frá þér. 20 Og hinir munu heyra það og skelfast og eigi framar
hafast að slíkt ódæði þín á meðal. 21 Eigi skalt þú líta slíkt vægðar-
auga: líf fyrir líf, auga fyrir auga, tönn fyrir tönn, hönd fyrir hönd,
fót fyrir fót.

### Hernaðarreglur.

20 Þegar þú fer í hernað við óvini þína og þú sér hesta og
vagna og liðfleiri her en þú ert, þá skalt þú ekki óttast þá, því
að Jahve, Guð þinn, er með þér, hann sem leiddi þig burt af Egipta-
landi. 2 Og þegar að því er komið, að þér leggið til orustu, þá skal
presturinn ganga fram og mæla til lýðsins 3 og segja við þá: Heyr, Ís-
rael! Þér leggið í dag til orustu við óvini yðar; látið ekki hugfallast,
óttist ekki, skelfist ekki og hræðist þá ekki; 4 því að Jahve, Guð yðar,
fer með yður, til þess að berjast fyrir yður við óvini yðar og veita
yður fulltingi. 5 Því næst skulu tilsjónarmennirnir mæla til lýðsins og
segja: Hver sá maður, er reist hefir nýtt hús, en hefir ekki vígt það,
skal fara og snúa heim aftur, svo að hann falli ekki í orustunni og
annar maður vígi það. 6 Hver sá maður, sem plantað hefir víngarð,
en hefir engar hans nytjar haft, skal fara og snúa heim aftur, svo að
hann falli ekki í orustunni og annar maður hafi hans not. 7 Hver sá
maður, er fastnað hefir sér konu, en hefir ekki enn gengið að eiga
hana, skal fara og snúa heim aftur, svo að hann falli ekki í orust-
unni og annar maður gangi að eiga hana. 8 Enn fremur skulu til-
sjónarmennirnir mæla til lýðsins og segja: Hver sá maður, sem hræddur
er og hugdeigur, skal fara og snúa heim aftur, svo að bræðrum hans
fallist ekki hugur eins og honum. 9 Og er tilsjónarmennirnir hafa lokið
því að mæla til lýðsins, skal skipa hershöfðingja yfir liðið.
10 Þegar þú býst til að herja á borg, þá skalt þú bjóða henni
frið. 11 Og ef hún veitir friðsamleg andsvör og lýkur upp fyrir þér,
þá skal allur lýðurinn, sem í henni finst, vera þér ánauðugur og þjóna
þér. 12 En vilji hún ekki gjöra frið við þig, heldur eiga ófrið við þig,
þá skalt þú setjast um hana, 13 og þegar Jahve, Guð þinn, gefur hana
í hendur þér, skalt þú deyða með sverðseggjum alt karlkyn, sem í
henni er; 14 en konum, börnum og fénaði og öllu, sem er í borginni,
öllu herfanginu, mátt þú ræna handa þér og neyta herfangs óvina
þinna, þess er Jahve, Guð þinn, gefur þér. 15 Svo skalt þú fara með

---

**14:** kap. 27, 17. Orðskv. 22, 28. **15:** 4 Mós. 35, 30. Jóh. 8, 17. **19:** Orðskv. 19, 5.
**21:** 2 Mós. 21, 23 n. 3 Mós. 24, 20. — **20, 8:** 4 Mós. 14, 9. **7:** kap. 24, 5. **8:** Dóm.
7, 3.

allar þær borgir, sem eru mjög í fjarska við þig og ekki eru af borg-
um þessara þjóða. [16] En í borgum þessara þjóða, sem Jahve, Guð
þinn, gefur þér til eignar, skalt þú enga mannssál láta lífi halda;
[17] miklu fremur skalt þú gjöreyða þeim: Hetítum, Amórítum, Kanaan-
ítum, Peresítum, Hevítum og Jebúsítum, eins og Jahve, Guð þinn, hefir
fyrir þig lagt, [18] til þess að þeir kenni yður ekki að taka upp allar
þær svívirðingar, er þeir hafa í frammi haft guðum sínum til veg-
semdar, og þér syndgið gegn Jahve, Guði yðar.
[19] Þegar þú verður að sitja lengi um einhverja borg, til þess að
taka hana herskildi, þá skalt þú ekki spilla trjám hennar með því að
bera að þeim exi, því að þú getur etið af þeim aldinin, og þú skalt
ekki höggva þau; því að hvort munu tré merkurinnar vera menn, svo
að þau þurfi að vera í umsát þinni? [20] Þau tré ein, er þú veizt að
eigi bera æt aldin, þeim mátt þú spilla og höggva þau, til þess að
reisa úr þeim hervirki gegn borg þeirri, er á í ófriði við þig, unz
hún fellur.

### Um morð, er enginn veit hver framið hefir.

21 Ef maður finst veginn í landi því, er Jahve, Guð þinn, gefur
þér til eignar, liggjandi úti á víðavangi, en enginn veit, hver
hann hefir drepið, [2] þá skulu öldungar þínir og dómendur fara út og
mæla fjarlægðina til borganna, er liggja hringinn í kring um hinn
vegna. [3] Og sú borg, sem næst er hinum vegna — öldungar þeirrar
borgar skulu taka kvígu, sem eigi hefir höfð verið til vinnu né gengið
hefir undir oki; [4] því næst skulu öldungar borgarinnar fara með kvíg-
una ofan í dal með sírennandi vatni, sem hvorki er yrktur né sáinn,
og þar í dalnum skulu þeir brjóta kvíguna úr hálsliðnum. [5] Þá skulu
prestarnir, synir Leví, ganga fram — því að þá hefir Jahve, Guð þinn,
útvalið til að þjóna sér og til þess að blessa í nafni Jahve, og eftir
atkvæði þeirra skal skera úr öllum þrætumálum og meiðslamálum —,
[6] og allir öldungar þeirrar borgar, þeir er næstir eru hinum vegna,
skulu þvo hendur sínar yfir kvígunni, sem hálsbrotin var í dalnum,
[7] og þeir skulu taka til orða og segja: Vorar hendur hafa ekki úthelt
þessu blóði og augu vor hafa ekki séð það. [8] Fyrirgef, Jahve, lýð
þínum, Ísrael, er þú hefir leyst, og lát ekki lýð þinn Ísrael gjalda
saklauss blóðs! Og þeim skal blóðsökin upp gefin verða. [9] Þannig
skalt þú útrýma saklausu blóði burt frá þér, svo að þér vegni vel, er
þú gjörir það sem rétt er í augum Jahve.

### Um herteknar konur, réttindi frumgetins sonar og foreldravaldið.

[10] Þegar þú fer í hernað við óvini þína og Jahve, Guð þinn, gefur
þá í hendur þér, og þú hertekur fólk meðal þeirra, [11] og þú sér meðal
hinna herteknu konu fríða sýnum og fellir hug til hennar og vilt taka
hana þér fyrir konu, [12] þá skalt þú leiða hana inn í hús þitt; og hún
skal raka höfuð sitt og skera neglur sínar [13] og fara úr fötum þeim,
er hún var hernumin í; síðan skal hún dvelja í húsi þínu og gráta
föður sinn og móður heilan mánuð; eftir það mátt þú ganga inn til
hennar og samrekkja henni, og hún vera kona þín. [14] En fari svo,
að þú hafir eigi lengur þokka til hennar, þá skalt þú láta hana al-
gjörlega lausa og mátt alls eigi selja hana við verði; þú skalt ekki
fara með hana sem ambátt, fyrir því að þú hefir spjallað hana.

16: Jós. 10, 40; 11, 11. 14. — 21, 5: kap. 17, 8 n.

[15] Ef maður á tvær konur, og hefir mætur á annari, en lætur sér
fátt um hina, og þær fæða honum sonu, bæði sú er hann hefir mætur
á og sú er hann lætur sér fátt um, og frumgetni sonurinn er sonur
þeirrar, er hann lætur sér fátt um, [16] þá skal honum ekki heimilt vera,
er hann skiftir því, sem hann á, meðal sona sinna, að gjöra son kon-
unnar, sem hann hefir mætur á, frumgetinn fram yfir son þeirrar, er
hann lætur sér fátt um, og frumgetinn er; [17] heldur skal hann viður-
kenna frumgetninginn, son þeirrar, er hann lætur sér fátt um, og gefa
honum tvöfaldan hlut af öllu því, er hann á; því að hann er frum-
gróði styrkleika hans, honum heyrir frumburðarrétturinn.
[18] Ef maður á þrjózkan son og ódælan, sem eigi vill hlýða föður
sínum og móður, og hann hlýðnast þeim ekki að heldur, þótt þau
hirti hann, [19] þá skal faðir hans og móðir taka hann og fara með hann
til öldunga borgar hans, að borgarhliðinu, þar sem hann á heima,
[20] og segja við öldunga borgar hans: Þessi sonur okkar er þrjózkur
og ódæll, og vill ekki hlýða okkur; hann er svallari og drykkjurútur.
[21] Skulu þá allir borgarmenn lemja hann grjóti til bana; og þannig
skalt þú útrýma hinu illa burt frá þér, og allur Ísrael skal heyra það
og skelfast.

## Um greftrun manns, sem hengdur hefir verið.

[22] Þegar maður drýgir synd, sem varðar lífláti, og hann er líflát-
inn, og þú hengir hann á tré, [23] þá skal líkami hans ekki vera nátt-
langt á trénu, heldur skalt þú jarða hann samdægurs, því að sá er
bölvaður af Guði, sem hengdur er, og þú skalt ekki saurga land þitt,
það er Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar.

## Ýmisleg ákvæði.

22 Þegar þú sér naut eða sauð bróður þíns á slæðingi, þá skalt þú
ekki ganga fram hjá þeim, heldur skalt þú reka þau aftur til bróður
þíns. [2] En ef bróðir þinn býr eigi í grend við þig eða ef þú þekkir
hann ekki, þá skalt þú taka það heim til þín og hafa hjá þér, unz
bróðir þinn leitar þess; þá skalt þú fá honum það aftur. [3] Eins skalt
þú og fara með asna hans, og eins skalt þú fara með klæðnað hans,
og eins skalt þú fara með hvern þann týndan hlut, er bróðir þinn hefir
mist og þú fundið; þú mátt eigi leiða það hjá þér.
[4] Ef þú sér asna eða uxa bróður þíns liggja afvelta á veginum,
þá skalt þú ekki ganga fram hjá þeim; þú skalt vissulega hjálpa hon-
um til að reisa þá á fætur.
[5] Eigi skal kona ganga í karlmannsbúningi og eigi skal karlmað-
ur fara í kvenmannsföt; því að hver sá, er slíkt gjörir, er Jahve Guði
þínum andstyggilegur.
[6] Ef fuglshreiður verður fyrir þér á leið þinni, uppi í tré eða á
jörðunni, með ungum í eða eggjum, og móðirin liggur á ungunum eða
eggjunum, þá skalt þú ekki taka móðurina ásamt ungunum; [7] þú skalt
sleppa móðurinni, en taka ungana eina, til þess að þér vegni vel og
þú lifir langa æfi.
[8] Þegar þú reisir nýtt hús, skalt þú gjöra brjóst-rið alt í kring uppi
á þakinu, svo að ekki bakir þú húsi þínu blóðsekt, ef einhver kynni
að detta ofan af því. [9] Þú skalt eigi sá víngarð þinn tvenns konar

---

**15:** 1 Mós. 29, 30 n. **23:** Gal. 3, 13. — **22, 1:** 2 Mós. 23, 4. **4:** 2 Mós. 23, 5. **7:** 3 Mós. 22, 28.

sæði, svo að alt falli ekki undir helgidóminn, sæðið sem þú sáir og
eftirtekjan af víngarðinum.
10 Þú skalt ekki plægja með uxa og asna saman. 11 Þú skalt ekki
fara í föt, sem ofin eru af tvenns konar efni, af ullu og hör saman.
12 Þú skalt gjöra þér skúfa á fjögur skaut skikkju þinnar, þeirrar er
þú sveipar um þig.
13 Nú gengur maður að eiga konu, en fær óbeit á henni, er hann
hefir samrekt henni, 14 og ber á hana svívirðilegar sakir og ófrægir hana
og segir: Eg gekk að eiga þessa konu, en er eg kom nærri henni, fann
eg ekki meydómsmerki hjá henni, 15 þá skulu foreldrar stúlkunnar taka
meydómsmerki hennar og fara með þau til öldunga borgarinnar í borg-
arhliðið, 16 og faðir stúlkunnar skal segja við öldungana: Dóttur mína
gaf eg þessum manni að eiginkonu, en hann hefir óbeit á henni; 17 nú
ber hann svívirðilegar sakir á hana og segir: Eg fann eigi meydóms-
merki hjá dóttur þinni. En hér eru sannanir fyrir meydómi dóttur
minnar! og þau skulu breiða út rekkjuklæðið í augsýn öldunga borg-
arinnar. 18 Og öldungar borgarinnar skulu taka manninn og refsa
honum; 19 og þeir skulu gjöra bætur á hendur honum, hundrað sikla
silfurs, og greiða þá föður stúlkunnar, fyrir það að hann ófrægði mey
í Ísrael; og hún skal vera kona hans; honum skal eigi heimilt að
skilja við hana alla æfi sína. 20 En ef það reynist satt, og sönnur verða
eigi á það færðar að stúlkan hafi hrein mey verið, 21 þá skal fara með
stúlkuna að húsdyrum föður hennar, og borgarmenn skulu lemja hana
grjóti til bana, því að hún hefir framið óhæfuverk í Ísrael, með því
að hórast í föðurgarði. Þannig skalt þú útrýma hinu illa burt frá þér.
22 Ef maður er staðinn að því að liggja hjá konu annars manns,
þá skulu þau bæði deyja, maðurinn, sem lá hjá konunni, og konan
sjálf. Þannig skalt þú útrýma hinu illa úr Ísrael.
23 Nú er mey manni föstnuð, og karlmaður hittir hana innan
borgar og legst með henni, 24 þá skuluð þér leiða þau bæði að borg-
arhliðinu og lemja þau grjóti til bana, stúlkuna vegna þess að hún
kallaði ekki, þó að hún væri inni í borginni, og manninn vegna þess,
að hann spjallaði konu náunga síns. Þannig skalt þú útrýma hinu
illa burt frá þér. 25 En ef maðurinn hittir föstnuðu stúlkuna úti á
víðavangi, og hann tekur hana með valdi og legst með henni, þá skal
maðurinn einn deyja, sá er með henni lagðist. 26 En stúlkunni skalt
þú ekkert gjöra; hún hefir ekki framið neitt það, sem dauða sé vert;
því að hér stóð eins á og þegar maður ræðst á náunga sinn og drepur
hann. 27 Því að þar sem hann hitti hann úti á víðavangi, kann fastn-
aða stúlkan að hafa kallað, en enginn verið við til að hjálpa henni.
28 Ef maður hittir mey, sem eigi er föstnuð, og hann tekur hana
og legst með henni og komið er að þeim, 29 þá skal maðurinn, er lagð-
ist með henni, greiða föður stúlkunnar fimtíu sikla silfurs; en hún skal
verða kona hans, fyrir því að hann hefir spjallað hana; honum skal
eigi heimilt að skilja við hana alla æfi sína.
30 Eigi skal maður ganga að eiga konu föður síns, né fletta upp
ábreiðu föður síns.

### Um það hverja skuli útiloka úr söfnuði Guðs, og um að saurga ekki herbúðirnar.

23 Enginn sá, er meiddur hefir verið eistnamari eða hreðurskor-
inn, má vera í söfnuði Jahve. 2 Enginn bastarður má vera í
söfnuði Jahve, jafnvel ekki tíundi maður frá honum má vera í söfnuði

9: 3 Mós. 19, 19. 11: 3 Mós. 19, 19. 12: 4 Mós. 15, 38 n. 22: 3 Mós. 20, 10. 29: 2 Mós. 22, 16. 30: 3 Mós. 18, 8. 5 Mós. 27, 20.

Jahve. [3] Enginn Ammóníti eða Móabíti má vera í söfnuði Jahve; jafn-
vel ekki tíundi maður frá þeim má vera í söfnuði Jahve að eilífu,
[4] vegna þess að þeir komu ekki í móti yður með brauð og vatn, þá
er þér voruð á leiðinni frá Egiptalandi, og vegna þess að þeir keyptu
í móti þér Bíleam Beórsson frá Petór í Mesópótamíu, til þess að bölva
þér. [5] En Jahve, Guð þinn, vildi ekki hlýða á Bíleam, og Jahve, Guð
þinn, sneri bölvaninni í blessan fyrir þig, af því að Jahve, Guð þinn,
elskaði þig. [6] Þú skalt aldrei alla æfi þína láta þér ant um farsæld
þeirra og velgengni.
[7] Þú skalt eigi hafa andstygð á Edómítum, því að þeir eru bræð-
ur þínir; þú skalt eigi hafa andstygð á Egiptum, því að þú dvaldir
sem útlendingur í landi þeirra. [8] Afkomendur þeirra í þriðja lið mega
vera í söfnuði Jahve.
[9] Þegar þú fer í hernað móti óvinum þínum, þá skalt þú gæta
þín við öllum illum hlutum. [10] Ef einhver, sem með þér er, er ekki
hreinn vegna þess, sem hann hefir hent um nóttina, þá skal hann
ganga út fyrir herbúðirnar og má eigi koma inn í herbúðirnar; [11] en
að áliðnum degi skal hann lauga sig í vatni, og er sól er sezt, má
hann aftur ganga inn í herbúðirnar. [12] Þú skalt og hafa afvikinn stað
fyrir utan herbúðirnar; þangað skalt þú fara erinda þinna; [13] og þú skalt
hafa spaða í tækjum þínum, og er þú þarft að setjast niður úti, þá
skalt þú grafa holu með honum, moka því næst aftur yfir og hylja
saurindin. [14] Því að Jahve, Guð þinn, er á gangi um herbúðir þínar,
til þess að frelsa þig og gefa óvini þína á þitt vald; fyrir því skulu
herbúðir þínar helgar vera, svo að hann sjái ekkert óþokkalegt hjá þér
og snúi sér burt frá þér.

## Um strokuþræla og hofskækjur.

[15] Þú skalt eigi framselja í hendur húsbónda þræl, sem flúið hefir
til þín frá húsbónda sínum. [16] Hann skal setjast að hjá þér, í landi
þínu, á þeim stað er hann sjálfur velur, í einhverri af borgum þínum,
þar sem honum bezt líkar; þú skalt ekki sýna honum ójöfnuð.
[17] Á meðal Ísraels dætra má engin vera, sú er helgi sig saurlifnaði,
og á meðal Ísraels sona má enginn vera, sá er helgi sig saurlifnaði.
[18] Þú skalt eigi bera skækjulaun eða hundsgjald inn í hús Jahve, Guðs
þíns, eftir neinu heiti, því að einnig hvorttveggja þetta er Jahve, Guði
þínum, andstyggilegt.

## Um fjárleigu, heit og afnot af annara eign.

[19] Þú skalt ekki taka fjárleigu af bróður þínum, hvorki fyrir pen-
inga, matvæli né nokkurn hlut annan, er ljá má gegn leigu. [20] Af út-
lendum manni mátt þú taka fjárleigu, en af bróður þínum mátt þú
ekki taka fjárleigu, til þess að Jahve, Guð þinn, blessi þig í öllu því,
er þú tekur þér fyrir hendur, í landinu sem þú heldur nú inn í, til
þess að taka það til eignar.
[21] Þegar þú gjörir Jahve, Guði þínum, heit, þá skalt þú ekki láta
dragast að efna það; því að ella mun Jahve, Guð þinn, krefjast þess
af þér og það verða þér til syndar. [22] En þótt þú sleppir því að gjöra
heit, þá hvílir engin sekt á þér fyrir það. [23] Það sem komið hefir yfir
varir þínar, skalt þú halda og breyta eftir því, eins og þú sjálfviljug-

**23, 8:** Nehem. 13, 1. 23 n. **4:** 4 Mós. 22, 5 n. Jós. 24, 9 n. **7:** 1 Mós. 25, 25. 26. **10:** 3 Mós. 15, 16. **18:** Róm. 1, 27. Opinb. 22, 15. **19:** 2 Mós. 22, 25. 3 Mós. 25, 35. 36. Sálm. 15, 5. **21:** 4 Mós. 30, 2. Préd. 5, 3.

lega hefir heitið Jahve, Guði þínum, það sem þú hefir talað með
munni þínum.
24 Þegar þú kemur í víngarð náunga þíns, þá mátt þú eta vínber
eins og þig lystir, þar til er þú ert mettur; en í ker þitt mátt þú ekk-
ert láta. 25 Þegar þú kemur á kornakur náunga þíns, þá mátt þú tína
öx með hendinni, en sigð mátt þú ekki sveifla yfir kornstöngum ná-
unga þíns.

**Um hjónaskilnað, nýkvænta menn, veð, mannstuld, líkþrá, kaupamenn, útlendinga, snauða menn, ekkjur og munaðarleysingja.**

24 Ef maður gengur að eiga konu og samrekkir henni, en hún
finnur síðan ekki náð í augum hans, af því að hann verður
var við eitthvað viðbjóðslegt hjá henni, og hann skrifar henni skilnað-
arskrá og fær henni í hendur og lætur hana fara burt af heimili sínu,
— 2 ef hún því næst, eftir að hún er farin burt af heimili hans, fer og
giftist öðrum manni, 3 en þessi seinni maður leggur líka óvild á hana
og skrifar henni skilnaðarskrá og fær henni í hendur, og lætur hana
fara burt af heimili sínu —, eða ef seinni maðurinn, sem kvæntist
henni, deyr: 4 þá má ekki fyrri maður hennar, sá er við hana skildi,
taka hana aftur sér að eiginkonu, eftir að hún er saurguð orðin, því
að slíkt er andstyggilegt fyrir Jahve, og þú skalt eigi flekka landið,
sem Jahve, Guð þinn, gefur þér til eignar.
5 Þegar maður er nýkvæntur, þá skal hann ekki fara í hernað og
engar álögur skulu á hann lagðar; hann skal vera frjáls maður fyrir
heimili sitt eitt ár, svo að hann gleðji konu sína, er hann hefir gengið
að eiga.
6 Eigi skal taka kvörn eða efri kvarnarstein að veði, því að það
væri að taka líf mannsins að veði.
7 Ef maður verður uppvís að því, að stela einhverjum af bræðrum
sínum, einhverjum af Ísraelsmönnum, og hann fer með hann sem þræl
eða selur hann, þá skal slíkur þjófur deyja; þannig skalt þú útrýma
hinu illa burt frá þér.
8 Gæt þín í líkþrárveikindum að athuga vandlega og fara eftir
öllu því, sem Levíta-prestarnir tjá yður; þér skuluð gæta þess að gjöra
svo sem eg hefi fyrir þá lagt. 9 Minstu þess, hvað Jahve, Guð þinn,
gjörði við Mirjam á leiðinni, þá er þér fóruð af Egiptalandi.
10 Þegar þú lánar náunga þínum eitthvað, hvað sem það svo er,
þá skalt þú eigi ganga inn í hús hans, til þess að taka veð af honum;
11 þú skalt staðnæmast úti fyrir, og sá, er þú lánar, skal færa þér veðið
út. 12 Og ef það er snauður maður, þá skalt þú ekki leggjast til
hvíldar með veð hans, 13 heldur skalt þú skila honum aftur veðinu um
sólarlagsbil, svo að hann geti lagst til hvíldar í yfirhöfn sinni og blessi
þig, og það mun talið verða þér til réttlætis fyrir augliti Jahve,
Guðs þíns.
14 Þú skalt eigi beita fátækan og þurfandi daglaunamann ofríki,
hvort sem hann er einn af bræðrum þínum eða útlendingum þeim,
er dvelja í landi þínu innan borgarhliða þinna. 15 Þú skalt greiða
honum kaup hans sama daginn áður en sól sezt, því að hann er fá-
tækur og hann langar til að fá það, svo að hann hrópi ekki til Jahve
yfir þér og það verði þér til syndar.

---

**25:** Matt. 12, 1. — **24, 1:** Matt. 5, 31; 19, 7. **4:** Jer. 3, 1. **5:** kap. 20, 7. **7:** 2 Mós. 21, 16. 1 Tím. 1, 10. **8:** 3 Mós. 13, 1 n. 14, 1 n. **9:** 4 Mós. 12, 10 n. **13:** 2 Mós. 22, 26. 5 Mós. 6, 25. **14:** 3 Mós. 19, 13. Mal. 3, 5. Jak. 5, 4.

[16] Feður skulu ekki líflátnir verða ásamt börnunum, og börn skulu
ekki líflátin verða ásamt feðrunum; hver skal líflátinn verða fyrir sína
eigin synd.
[17] Þú skalt ekki halla rétti útlends manns eða munaðarleysingja,
og þú skalt ekki taka fatnað ekkjunnar að veði. [18] Og þú skalt minn-
ast þess, að þú varst þræll í Egiptalandi og að Jahve, Guð þinn, leysti
þig þaðan; fyrir því býð eg þér að gjöra þetta.
[19] Þegar þú sker upp korn á akri þínum og gleymir kornbundini
úti á akrinum, þá skalt þú ekki snúa aftur til að sækja það; útlend-
ingurinn, munaðarleysinginn og ekkjan mega fá það, til þess að Jahve,
Guð þinn, blessi þig í öllu, sem þú tekur þér fyrir hendur. [20] Þegar
þú slær ávexti af olíutrjám þínum, þá skalt þú ekki gjöra eftirleit í
greinum trjánna; útlendingurinn, munaðarleysinginn og ekkjan mega fá
það. [21] Þegar þú tínir víngarð þinn, þá skalt þú ekki gjöra eftirleit;
útlendingurinn, munaðarleysinginn og ekkjan mega fá það. [22] Og þú
skalt minnast þess, að þú varst þræll í Egiptalandi, fyrir því býð eg
þér að gjöra þetta.

### Um húðstroku, um mágskyldu við ekkju bróður síns o. fl.

25 Þegar deila rís milli manna og þeir koma fyrir dóm, og dómur
hefir upp kveðinn verið yfir þeim með þeim hætti, að hinn sak-
lausi hefir verið sýknaður, en hinn seki dæmdur sekur, [2] og hinn seki
hefir unnið til húðstroku, þá skal dómarinn láta leggja hann niður og
láta slá hann í viðurvist sinni eins mörg högg og hæfir misgjörð hans.
[3] Hann má láta slá hann fjörutíu högg, en ekki fleiri, til þess að bróðir
þinn verði ekki fyrirlitlegur í augum þínum, ef haldið er áfram að slá
hann enn mörg högg.
[4] Þú skalt ekki múlbinda uxann, er hann þreskir.
[5] Þegar bræður búa saman og einn þeirra deyr og á engan son,
þá skal kona hins látna ekki giftast neinum manni úrættis; mágur
hennar skal ganga inn til hennar og taka hana sér fyrir konu og gegna
mágskyldunni við hana. [6] En fyrsti sonurinn, er hún fæðir, skal teljast
sonur hins látna bróður hans, svo að nafn hans afmáist ekki úr Ísrael.
[7] En ef manninn fýsir eigi að ganga að eiga bróðurkonu sína, þá skal
hún ganga upp í borgarhliðið, til öldunganna, og segja: Mágur minn
færist undan að halda við nafni bróður síns í Ísrael; hann vill ekki
gegna mágskyldunni við mig. [8] Öldungar borgar hans skulu þá kalla
hann fyrir og tala við hann, og ef hann stendur fastur fyrir og segir:
Mig fýsir eigi að ganga að eiga hana, [9] þá skal mágkona hans ganga
að honum í viðurvist öldunganna, draga skóinn af fæti honum, hrækja
framan í hann, taka til máls og segja: Svo skal fara með hvern þann,
er eigi vill reisa við ætt bróður síns. [10] Og ætt hans skal í Ísrael nefnd
Berfótsætt.
[11] Þegar tveir menn eru í áflogum, og kona annars hleypur að,
til þess að hjálpa manni sínum úr höndum þess er slær hann, og hún
réttir út höndina og tekur um hreðjar honum, [12] þá skalt þú höggva
af henni höndina og eigi líta hana vægðarauga.
[13] Þú skalt ekki hafa tvenns konar vogarsteina í sjóði þínum,
annan stærri og annan minni. [14] Þú skalt ekki hafa tvenns konar efu

---

**16:** 2 Kong 14, 6. Jer. 31, 30. Esek. 18, 18—20. **17:** 2 Mós. 22, 21. 22; 23, 9.
5 Mós. 27, 19. Jes. 1, 17. Jer. 5, 28. Esek. 22, 29. Job 24, 3. **18:** kap. 15, 15;
16, 12. **19:** 3 Mós. 19, 9 n. 23, 22. — **25, 1:** Orðskv. 17, 15. **3:** 2 Kor. 11, 24.
**4:** 1 Kor. 9, 9. 1 Tím. 5, 18. **5:** Rut 4, 4 n. Matt. 22, 24. **13:** 3 Mós. 19, 35 n.
Esek. 45, 10.

í húsi þínu, aðra stærri og aðra minni. 15 Þú skalt hafa nákvæma og
rétta vog, þú skalt hafa nákvæma og rétta efu, til þess að þú lifir
lengi í landinu, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér. 16 Því að hver sá, er
slikt gjörir, hver sá er ranglæti fremur, er Jahve, Guði þínum, andstyggilegur.
17 Minstu þess, hvernig Amalekítar fóru með þig á leiðinni, þá er
þér fóruð af Egiptalandi, 18 hvernig þeir réðu á þig á leiðinni og unnu
á þeim, er aftastir fóru, öllum þeim er þreyttir voru og aftur úr dróg-
ust, þegar þú varst orðinn lúinn og uppgefinn, — og óttuðust ekki
Guð. 19 Fyrir því skalt þú, þegar Jahve, Guð þinn, veitir þér hvíld
fyrir öllum óvinum þínum alt í kring um þig í landinu, sem Jahve,
Guð þinn, gefur þér sem arf til eignar, afmá nafn Amalekíta af jörðunni; gleym því ekki.

## Um frumgróðafórn.

26 Þegar þú ert kominn inn í landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur
þér til eignar, og þú hefir tekið það til eignar og ert seztur að
í því, 2 þá skalt þú taka nokkuð af frumgróða alls ávaxtar landsins, er
þú fær af landi þínu, því er Jahve, Guð þinn, gefur þér, láta það í
körfu og fara með það til þess staðar, er Jahve, Guð þinn, velur, til
þess að láta nafn sitt búa þar. 3 Og þú skalt fara til prestsins, sem
þá er, og segja við hann: Eg játa í dag fyrir Jahve, Guði þínum, að
eg er kominn inn í landið, sem Jahve sór feðrum vorum að gefa oss.
4 Og presturinn skal taka körfuna af hendi þér og setja hana niður
fyrir framan altari Jahve, Guðs þíns. 5 Þá skalt þú taka til máls og
segja frammi fyrir Jahve, Guði þínum: Faðir minn var umreikandi
Aramei, og hann fór suður til Egiptalands fáliðaður og dvaldist þar sem
útlendingur og varð þar að mikilli, sterkri og fjölmennri þjóð. 6 En
Egiptar fóru illa með oss og þjáðu oss og lögðu á oss þunga þrælavinnu.
7 Þá hrópuðum vér til Jahve, Guðs feðra vorra, og Jahve
heyrði raust vora og sá eymd vora, þraut og ánauð. 8 Og Jahve flutti
oss af Egiptalandi með sterkri hendi og útréttum armlegg, með mikilli
skelfingu og með táknum og undrum. 9 Og hann leiddi oss hingað
og gaf oss þetta land, land, sem flýtur í mjólk og hunangi. 10 Og nú
færi eg hér frumgróðann af ávexti landsins, þess er þú, Jahve, hefir
gefið mér. Því næst skalt þú setja það niður frammi fyrir Jahve,
Guði þínum, og falla fram fyrir Jahve, Guði þínum. 11 Og þú skalt
gleðjast yfir öllum þeim gæðum, sem Jahve, Guð þinn, hefir gefið þér,
þú og skyldulið þitt, og Levítinn og útlendingurinn, sem hjá þér eru.

## Um tíund til Levíta og fátækra.

12 Þegar þú hefir greitt alla tíund af afrakstri þínum þriðja árið,
tíundarárið, og hefir fengið hana í hendur Levítanum, útlendingnum,
munaðarleysingjanum og ekkjunni, svo að þau megi eta hana innan
borgarhliða þinna og verða mett, 13 þá skalt þú segja frammi fyrir Jahve,
Guði þínum: Eg hefi flutt hið heilaga burt úr húsinu og fengið það
í hendur Levítanum, útlendingnum, munaðarleysingjanum og ekkjunni
og farið þannig nákvæmlega eftir boðorði þínu, því er þú hefir fyrir
mig lagt; eg hefi eigi breytt út af neinu boðorða þinna né gleymt nokkuru
þeirra. 14 Eg hefi eigi etið neitt af því í sorg minni, eigi flutt neitt af

---

**16:** Orðskv. 11, 1. **17:** 2 Mós. 17, 8 n. **19:** 2 Mós. 17, 16. 1 Sam. 15, 2 n. 1 Kron. 4, 43. — **26, 2:** 2 Mós. 23, 19; 34, 26. 3 Mós. 23, 10 n. **5:** 2 Mós. 1, 7. **6:** 2 Mós. 1, 13. 14. **7:** 2 Mós. 2, 23. 24. **9:** 2 Mós. 3, 8. **11:** kap. 16, 11. 14. **12:** kap. 14, 28 n.

því burt, er eg var óhreinn, og eigi gefið dauðum manni neitt af því. Eg
hefi hlýtt raustu Jahve, Guðs míns, og gjört alt eins og þú hefir fyrir
mig lagt. 15 Lít niður frá þínum heilaga bústað, frá himnum, og blessa
þú lýð þinn Ísrael og landið, sem þú hefir gefið oss, eins og þú sórst
feðrum vorum, land, sem flýtur í mjólk og hunangi.

### Niðurlagsorð.

16 Í dag býður Jahve, Guð þinn, þér að halda þessi lög og ákvæði;
þú skalt því varðveita þau og halda þau af öllu hjarta þínu og af allri
sálu þinni. 17 Þú hefir látið Jahve lýsa yfir því í dag, að hann vilji
vera þinn Guð og að þér skulið ganga á hans vegum og varðveita lög
hans, skipanir og ákvæði og hlýða hans raustu; 18 og Jahve hefir látið
þig lýsa yfir því í dag, að þú viljir vera hans eignarlýður, eins og hann
hefir boðið þér, og að þú viljir varðveita allar skipanir hans, 19 svo að
hann geti hafið þig yfir allar þjóðir, er hann hefir skapað, til lofs,
frægðar og heiðurs, og þú sért Jahve, Guði þínum, helgaður lýður, eins
og hann hefir sagt.

### Boðið að reisa lögmálssteina og lýsa blessan og bölvan.

27 En Móse og öldungar Ísraels buðu lýðnum og sögðu: Varð-
veitið allar þær skipanir, sem eg legg fyrir yður í dag. 2 Og
þegar þér eruð komnir yfir Jórdan inn í landið, sem Jahve, Guð þinn,
gefur þér, þá skalt þú reisa upp stóra steina og strjúka þá utan kalki
3 og rita á þá öll orð lögmáls þessa, þá er þú ert kominn yfir um, til
þess að þú komist inn í landið, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér, land,
sem flýtur í mjólk og hunangi, eins og Jahve, Guð feðra þinna, hefir
heitið þér. 4 Og þegar þér eruð komnir yfir Jórdan, þá skuluð þér
reisa upp þessa steina, sem eg hefi mælt fyrir um í dag, á Ebal-fjalli,
og strjúka þá utan kalki. 5 Þú skalt og reisa Jahve, Guði þínum, þar
altari, altari af steinum; þú mátt ekki bera að þeim járntól. 6 Af ó-
höggnum steinum skalt þú reisa altari Jahve, Guðs þíns, og á því skalt
þú fórna Jahve, Guði þínum, brennifórnum; 7 og þú skalt slátra heilla-
fórnum og eta þær þar og gleðjast frammi fyrir Jahve, Guði þínum.
8 Og þú skalt rita á steinana öll orð þessa lögmáls mjög greinilega.
9 Og Móse og Levíta-prestarnir töluðu til alls Ísraels og sögðu:
Ver hljóður og hlýð á, Ísrael! Í dag ert þú orðinn lýður Jahve, Guðs
þíns; 10 fyrir því skalt þú hlýða raustu Jahve, Guðs þíns, og halda
skipanir hans og lög, sem eg legg fyrir þig í dag.
11 Þennan sama dag bauð Móse lýðnum og sagði: 12 Þessir skulu
standa á Garísím-fjalli, til þess að blessa lýðinn, þegar þér eruð komnir
yfir Jórdan: Símeon, Leví, Júda, Íssakar, Jósef og Benjamín; 13 og þessir
skulu standa á Ebal-fjalli til að lýsa bölvan: Rúben, Gað, Asser, Seb-
úlon, Dan og Naftalí. 14 Og Levítarnir skulu taka til máls og segja
með hárri raustu við alla Ísraelsmenn:
15 Bölvaður er sá maður, sem býr til skurðgoð eða steypt líkneski,
andstygð Jahve, handaverk smiðs, og reisir það á laun! Og allur lýð-
urinn skal svara og segja: Amen.
16 Bölvaður er sá, sem óvirðir föður sinn eða móður sína! Og
allur lýðurinn skal segja: Amen.
17 Bölvaður er sá, sem færir úr stað landamerki náunga síns! Og
allur lýðurinn skal segja: Amen.

---

18: kap. 7, 6; 14, 2. 19: kap. 28, 1. Zef. 3, 20. — 27, 2: Jós. 8, 30. 5: 2 Mós. 20, 25. 9: kap. 26, 16 n. 12: kap. 11, 29. 15: 2 Mós. 20, 4. 16: 2 Mós. 21, 17. 3 Mós. 20, 9. 17: kap. 19, 14. Orðskv. 23, 10.

18 Bölvaður er sá, sem leiðir blindan mann af réttri leið! Og all-
ur lýðurinn skal segja: Amen.
19 Bölvaður er sá, sem hallar rétti útlends manns, munaðarleys-
ingja eða ekkju! Og allur lýðurinn skal segja: Amen.
20 Bölvaður er sá, sem legst með konu föður síns, því að hann
hefir flett upp ábreiðu föður síns! Og allur lýðurinn skal segja: Amen.
21 Bölvaður er sá, sem hefir samlag við nokkura skepnu! Og allur
lýðurinn skal segja: Amen.
22 Bölvaður er sá, sem legst með systur sinni, hvort heldur hún
er dóttir föður hans eða dóttir móður hans! Og allur lýðurinn skal
segja: Amen.
23 Bölvaður er sá, sem legst með tengdamóður sinni! Og allur
lýðurinn skal segja: Amen.
24 Bölvaður er sá, sem vegur náunga sinn á laun! Og allur lýð-
urinn skal segja: Amen.
25 Bölvaður er sá, sem lætur múta sér til þess að vega saklausan
mann! Og allur lýðurinn skal segja: Amen.
26 Bölvaður er sá, sem eigi heldur í gildi orðum þessa lögmáls
með því að breyta eftir þeim! Og allur lýðurinn skal segja: Amen.

## Blessan og bölvan.

28 Ef þú hlýðir grandgæfilega raustu Jahve, Guðs þíns, svo að
þú varðveitir og heldur allar skipanir hans, þær er eg legg fyrir
þig í dag, þá mun Jahve, Guð þinn, hefja þig yfir allar þjóðir á jörðu,
2 og þá munu fram við þig koma og á þér rætast allar þessar blessanir, ef
þú hlýðir raustu Jahve, Guðs þíns: 3 Blessaður ert þú í borginni og
blessaður ert þú á akrinum. 4 Blessaður er ávöxtur kviðar þíns og á-
vöxtur lands þíns og ávöxtur fénaðar þíns, viðkoma nautgripa þinna
og burðir hjarðar þinnar. 5 Blessuð er karfa þín og deigtrog þitt.
6 Blessaður ert þú, þegar þú gengur inn, og blessaður ert þú, þegar þú
gengur út. 7 Jahve mun láta óvini þína bíða ósigur fyrir þér, þá er
upp rísa í móti þér; um einn veg munu þeir fara í móti þér, en um
sjö vegu munu þeir flýja undan þér. 8 Jahve láti blessun fylgja þér í
forðabúrum þínum og í öllu, sem þú tekur þér fyrir hendur, og hann
blessi þig í landinu, sem Jahve, Guð þinn, gefur þér. 9 Jahve gjöri
þig að lýð, sem heilagur er fyrir honum, eins og hann hefir svarið þér,
ef þú varðveitir skipanir Jahve, Guðs þíns, og gengur á hans vegum.
10 Og allar þjóðir á jörðunni munu þá sjá, að þú hefir nefndur verið
eftir nafni Jahve, og þær munu óttast þig. 11 Og Jahve mun veita þér
gnægð gæða í ávexti kviðar þíns og í ávexti fénaðar þíns og í ávexti
lands þíns í landi því, sem Jahve sór feðrum þínum að gefa þér. 12 Jahve
mun upp ljúka fyrir þér forðabúrinu sínu hinu góða, himninum, til
þess að gefa landi þínu regn á réttum tíma og blessa öll verk handa
þinna; og þú munt fé lána mörgum þjóðum, en sjálfur eigi þurfa að
taka fé að láni. 13 Og Jahve mun gjöra þig að höfði og eigi að hala,
og þú skalt stöðugt stíga upp á við, en aldrei færast niður á við, ef
þú hlýðir skipunum Jahve, Guðs þíns, þeim er eg legg fyrir þig í dag,
til þess að þú varðveitir þær og breytir eftir þeim, 14 og ef þú víkur
ekki frá neinu boðorða þeirra, er eg legg fyrir yður í dag, hvorki til
hægri né vinstri, til þess að elta aðra guði og þjóna þeim.

---

**18**: 3 Mós. 19, 14. **19**: 2 Mós. 22, 21. 3 Mós. 19, 33. Jer. 7, 6. **20**: kap. 22, 30. 3 Mós. 18, 8; 20, 11. **21**: 3 Mós. 18, 23 n. **22**: 3 Mós. 18, 9. **24**: kap. 19, 11 n. 4 Mós. 35, 20 n. **25**: 2 Mós. 23, 7. 8. Sálm. 26, 10. **26**: Jer. 11, 3. Gal. 3, 10. — **28,1**: 3 Mós. 26, 3 n. **6**: Sálm. 121, 8. **7**: 3 Mós. 26, 7. 8. **9**: 2 Mós. 19, 6. 5 Mós. 7, 6. **12**: kap. 11, 14; 15, 6. **14**: kap. 5, 32.

15 En ef þú hlýðir ekki raustu Jahve, Guðs þíns, svo að þú varð-
veitir og haldir allar skipanir hans og lög, er eg legg fyrir þig í dag,
þá munu fram við þig koma og á þér hrína allar þessar bölvanir:
16 Bölvaður ert þú í borginni og bölvaður ert þú á akrinum. 17 Bölvuð
er karfa þín og deigtrog þitt. 18 Bölvaður er ávöxtur kviðar þíns og
ávöxtur lands þíns, viðkoma nautgripa þinna og burðir hjarðar þinn-
ar. 19 Bölvaður ert þú, þegar þú gengur inn, og bölvaður ert þú, þeg-
ar þú gengur út. 20 Jahve mun senda yfir þig bölvun, skelfing og ógn-
un í öllu því, er þú tekur þér fyrir hendur að gjöra, unz þú gjöreyð-
ist og fyrirferst skyndilega sökum illra verka þinna — sökum þess, að
þú yfirgafst mig. 21 Jahve mun láta drepsóttina við þig loða, þar til er
hann eyðir þér úr landi því, er þú heldur nú inn í, til þess að taka
það til eignar. 22 Jahve mun slá þig með tæring og köldu, hita og
bruna, með ofþurki, korndrepi og gulnan, og mun þetta ásækja þig,
unz þú líður undir lok. 23 Himininn yfir höfði þér skal verða sem
eir og jörðin undir fótum þér sem járn. 24 Í stað regns mun Jahve
láta ryk og sandfok koma yfir land þitt; það mun falla yfir þig af
himni, unz þú ert gjöreyddur. 25 Jahve mun láta þig bíða ósigur fyrir
óvinum þínum; um einn veg munt þú fara í móti þeim, en um sjö
vegu munt þú flýja undan þeim, og þú munt verða grýla fyrir öll
konungsríki jarðarinnar. 26 Og hræ þín munu verða æti fyrir alla fugla
himinsins og fyrir dýr jarðarinnar, og enginn mun fæla þau burt.
27 Jahve mun slá þig með egipzkum kaunum: með kýlum, kláða og
útbrotum, svo að þú skalt verða ólæknandi. 28 Jahve mun slá þig með
vitfirring, blindni og hugarsturlan. 29 Þú munt fálma um hábjartan
dag, eins og blindur maður fálmar í myrkri, og þú munt enga gæfu
hljóta á vegum þínum; og þú munt alla daga sæta tómri undirokun
og ránskap, og enginn mun hjálpa þér. 30 Þú munt festa þér konu,
en annar maður mun leggjast með henni; þú munt reisa hús, en eigi
búa í því; þú munt planta víngarð, en engar hans nytjar hafa. 31 Uxa
þínum mun slátrað verða fyrir augunum á þér, en þú munt ekki fá
neitt af honum að eta; asna þínum mun rænt verða að þér ásjáandi,
en hann mun eigi hverfa aftur til þín; sauðir þínir munu seldir verða
í hendur óvinum þínum, og enginn mun hjálpa þér. 32 Synir þínir
og dætur munu seldar verða í hendur annari þjóð, og augu þín skulu
horfa á það og daprast af þrá eftir þeim allan daginn, en þú skalt
eigi fá að gjört. 33 Ávöxt lands þíns og alt það, er þú hefir aflað
þér með striti þínu, mun þjóð ein eta, sem þú ekki þekkir, og þú
munt sæta áþján einni og undirokun alla daga; 34 og þú munt verða
vitstola út af því, er þú verður að horfa upp á. 35 Jahve mun slá
þig með illkynjuðum ólæknandi kaunum á knjám og fótleggjum,
frá iljum og alt upp á hvirfil. 36 Jahve mun leiða þig og konung þinn,
þann er þú munt taka yfir þig, til þeirrar þjóðar, er hvorki þú né
feður þínir hafa þekt, og þar munt þú þjóna öðrum guðum, stokkum
og steinum. 37 Og þú munt verða að undri, orðskvið og spotti meðal
allra þjóða, þeirra er Jahve leiðir þig til.
38 Mikið kornsæði munt þú færa út á akrana, en litlu skalt þú
aftur inn safna, því að engisprettur skulu upp eta það. 39 Þú munt
planta víngarða og yrkja þá, en vín munt þú hvorki drekka né leggja
fyrir til geymslu, því að maðkurinn mun eyða því. 40 Þú munt hafa
olíutré um alt land þitt, en með olíu munt þú eigi smyrja þig, því að
olíuber þín munu detta af. 41 Þú munt geta sonu og dætur, en ekki

**15:** kap. 30, 17 n. 3 Mós. 26, 14 n. Dan. 9, 11. Mal. 2, 2. **22:** Am. 4, 9. Hagg. 2, 17. **23:** kap. 11, 17. **27:** 2 Mós. 9, 9. **33:** Dóm. 6, 3 n. **36:** kap. 4, 27. 28. **37:** 1 Kong. 9, 7. Jer. 24, 9. **38:** Mík. 6, 15. Hagg. 1, 6.

fá að njóta þeirra, því að þau munu fara í útlegð. [42] Öll tré þín og
ávöxt lands þíns munu engispretturnar leggja undir sig. [43] Útlending-
urinn, sem hjá þér er, mun stíga hærra og hærra upp yfir þig, en þú
færast lengra og lengra niður á við. [44] Hann mun lána þér, en þú munt
eigi lána honum; hann mun verða höfuðið, en þú munt verða halinn.
[45] Allar þessar bölvanir munu koma fram á þér, elta þig og á þér
hrína, unz þú ert gjöreyddur, af því að þú hlýddir ekki raustu Jahve,
Guðs þíns, að varðveita skipanir hans og lög, þau er hann fyrir þig
lagði, [46] og þær skulu fylgja þér og niðjum þínum æfinlega sem tákn
og undur.
[47] Fyrir því að þú þjónaðir ekki Jahve, Guði þínum, með gleði
og fúsu geði, af því að þú hafðir alls nægir, [48] þá skalt þú þjóna ó-
vinum þínum, þeim er Jahve sendir í móti þér, hungraður og þyrstur,
klæðlaus og farandi alls á mis, og hann mun leggja járnok á háls þér,
unz hann hefir gjöreytt þér. [49] Jahve mun stefna í móti þér þjóð einni
úr fjarlægð, frá enda jarðarinnar, og kemur hún fljúgandi eins og örn,
þjóð, hverrar tungu þú ekki skilur, [50] illúðlegri þjóð, sem eigi skeytir
manngrein gamalmenna og enga vægð sýnir ungmennum. [51] Og hún
mun eta ávöxt fénaðar þíns og ávöxt lands þíns, unz þú ert gjöreydd-
ur; hún mun ekki leifa þér korni, aldinlegi og olíu, viðkomu nauta
þinna, né burðum hjarðar þinnar, unz hún hefir gjört út af við þig.
[52] Hún mun gjöra umsát um þig í öllum borgum þínum, unz hinir
háu og rammgjörvu múrar þínir, sem þú treystir á, eru hrundir um
land þitt alt; og hún mun gjöra umsát um þig í öllum borgum þín-
um alstaðar í landi þínu, því er Jahve, Guð þinn, gefur þér. [53] Og þú
munt eta ávöxt kviðar þíns, holdið af sonum þínum og dætrum, þeim
er Jahve, Guð þinn, hefir gefið þér; svo nærri mönnum mun umsátrið
ganga og þær hörmungar, er þú munt sæta af óvinum þínum. [54] Jafn-
vel sá maður meðal þín, sem mjúklífur er og mjög kveifarlegur, mun
óblíðu auga líta bróður sinn, konuna í faðmi sínum og þau börnin
sín, er hann enn á eftir, [55] og eigi tíma að gefa neinu af þeim neitt
af holdi barna sinna, sem hann etur, af því að hann hefir ekkert ann-
að til; svo nærri mönnum mun umsátrið ganga og þær hörmungar, er
þú munt sæta af óvinum þínum í öllum borgum þínum. [56] Mjúklíf og
kveifarleg kona meðal þín, sem aldrei hefir reynt að tylla fæti sínum
á jörðina af kveifarhætti og tepruskap, mun óblíðu auga líta manninn
í faðmi sínum, son sinn og dóttur sína, [57] og fylgjuna, sem út gengur
af skauti hennar, og börn sín, þau er hún elur, því að hún etur þau
sjálf á laun, þegar allar bjargir eru bannaðar; svo nærri mönnum mun
umsátrið ganga og þær hörmungar, er þú munt sæta af óvinum þín-
um í öllum borgum þínum.
[58] Ef þú gætir þess eigi, að halda öll fyrirmæli þessa lögmáls, þau er
rituð eru í þessari bók, með því að óttast þetta dýrlega og hræðilega nafn,
JAHVE, GUÐ ÞINN, [59] þá mun Jahve slá þig og niðja þína með feikna-
plágum, með miklum plágum og þrálátum, með illkynjuðum sjúkdómum og
þrálátum; [60] og hann mun aftur láta yfir þig koma allar hinar egipzku sóttir,
þær er þú hræðist, og þær munu við þig loða. [61] Auk þess mun Jahve
láta yfir þig koma alla þá sjúkdóma og allar þær plágur, sem ekki eru
ritaðar í þessari lögmálsbók, unz þú ert gjöreyddur. [62] Aðeins fá-
mennur hópur skal eftir verða af yður, í stað þess að þér áður voruð
sem stjörnur himins að fjölda til, af því að þú hlýddir eigi raustu
Jahve, Guðs þíns. [63] Og eins og Jahve áður fyrri hafði yndi af því að
gjöra vel við yður og margfalda yður, eins mun Jahve hafa yndi af

**49:** Jer. 5, 15 n. 6, 22 n. **53:** 3 Mós. 26, 29. 2 Kong. 6, 28. 29. Harm. 2, 20; 4, 10. **60:** 2 Mós. 9, 9; 7, 15. **62:** kap. 4, 27; 10, 22. **63:** Orðskv. 1, 26.

að tortíma yður og gjöreyða; og þér munuð verða reknir burt úr því
landi, er þér haldið nú inn í, til þess að taka það til eignar. [64] Og
Jahve mun dreifa þér meðal þjóðanna frá einu heimsskauti til annars,
og þar munt þú þjóna öðrum guðum, sem hvorki þú né feður þínir
hafa þekt, stokkum og steinum. [65] Og meðal þessara þjóða munt þú
eigi mega búa í næði, og hvergi mun hvíldarstaður vera fæti þínum,
heldur mun Jahve gefa þér þar skjálfandi hjarta, þrotnandi augu
og ráðþrota sál. [66] Líf þitt mun leika fyrir þér sem á þræði, og þú
munt hræddur vera nótt og dag og aldrei vera ugglaus um líf þitt.
[67] Á morgnana muntu segja: Ó, að það væri komið kveld! og á kveld-
in muntu segja: Ó, að það væri kominn morgunn! sökum hræðslu
þeirrar, er gagntekið hefir hjarta þitt, og sökum þess, er þú verður að
horfa upp á. [68] Jahve mun flytja þig aftur til Egiptalands á skipum,
þá leið, er eg sagði um við þig: Þú skalt aldrei framar líta hana! og
þar munuð þér boðnir verða óvinum yðar til kaups að þrælum og
ambáttum, en enginn vilja kaupa.
29 Þessi eru orð sáttmálans, sem Jahve bauð Móse að gjöra við
Ísraelsmenn í Móabslandi, auk sáttmálans, sem hann gjörði við
þá hjá Hóreb.

### Áminning um að halda lögmálið.

[2] Og Móse kallaði saman allan Ísrael og sagði við þá: Þér hafið
séð alt það, sem Jahve gjörði fyrir augum yðar í Egiptalandi við
Faraó og alla þjóna hans og alt land hans: [3] hin miklu máttarverk, er
þú hefir séð með eigin augum, hin miklu tákn og undur. [4] En alt
fram á þennan dag hefir Jahve ekki gefið yður hjarta til að skilja með,
augu til að sjá eða eyru til að heyra. [5] Eg leiddi yður í fjörutíu ár
um eyðimörkina: föt yðar slitnuðu ekki á yður og skór þínir slitnuðu
ekki á fótum þér; [6] brauð átuð þér ekki, og vín eða áfengan drykk
drukkuð þér ekki, til þess að þér mættuð skilja að eg er Jahve, Guð
yðar. [7] Og er þér komuð hingað og Síhon, konungur í Hesbon, og
Óg, konungur í Basan, fóru í móti oss til orustu, þá unnum vér sigur
á þeim [8] og tókum land þeirra og gáfum það Rúbenítum, Gadítum og
hálfri ættkvísl Manasse til eignar. [9] Varðveitið því orð þessa sáttmála
og breytið eftir þeim, til þess að yður lánist vel alt, sem þér gjörið.
[10] Þér standið í dag allir frammi fyrir Jahve, Guði yðar: höfuðs-
menn yðar, ættkvíslir yðar, öldungar yðar, tilsjónarmenn yðar, allir
karlmenn í Ísrael, [11] börn yðar og konur og útlendingar þínir, sem
eru í herbúðum þínum — bæði viðarhöggsmenn og vatnsberar þínir —
[12] til þess að gangast undir sáttmála Jahve, Guðs þíns, og í eiðfest
samfélag við hann, er Jahve, Guð þinn, gjörir við þig í dag, [13] til þess
að hann gjöri þig í dag að sínum lýð og hann sé þinn Guð, eins og
hann hefir heitið þér og eins og hann hefir svarið feðrum þínum,
Abraham, Ísak og Jakob. [14] En eg gjöri ekki þennan sáttmála og þetta
eiðfesta samfélag við yður eina, [15] heldur bæði við þá, sem standa hér
með oss í dag frammi fyrir Jahve, Guði vorum, og einnig við þá, sem
ekki eru hér með oss í dag. [16] Því að þér vitið sjálfir, að vér bjuggum
á Egiptalandi og hvernig vér komumst mitt í gegnum þær þjóðir, er
þér urðuð að fara gegnum; [17] og þér sáuð viðurstygðir þeirra og skurð-
goð þeirra, úr tré og steinum, silfri og gulli, sem hjá þeim voru. [18] Að-
eins að eigi sé meðal yðar karl eða kona eða heimili eða ættkvísl,

---

**68:** kap. 17, 16. — **29, 1:** kap. 5, 2. 3. **2:** kap. 4, 34. 2 Mós. 19, 4. **4:** Jes. 6, 10.
**5:** kap. 8, 2 n. **7:** 4 Mós. 21, 21 n. 33 n. **8:** 4 Mós. 32, 33.

sem í dag snúi hjarta sínu frá Jahve, Guði vorum, og gangi að dýrka
guði þessara þjóða! Aðeins að eigi sé meðal yðar rót, sem beri eitur
og malurt að ávexti! — 19 enginn sem telji sig sælan í hjarta sínu og
segi, er hann heyrir orð þessa eiðfesta sáttmáls: Mér mun vel farnast,
þótt eg gangi fram í þrjózku hjarta míns — slíkt mundi leiða til þess,
að hið vökvaða yrði afmáð ásamt hinu þurra. 20 Jahve mun eigi
vilja fyrirgefa honum, heldur mun reiði Jahve og vandlæting þá bálast
gegn slíkum manni, og öll bölvunin, sem rituð er í þessari bók, mun
þá á honum hvíla, og Jahve mun afmá nafn hans af jörðinni. 21 Og
Jahve mun skilja slíka ættkvísl úr öllum ættkvíslum Ísraels henni til
glötunar, samkvæmt öllum bölvunum sáttmálans, sem ritaður er í
þessari lögmálsbók. 22 Og hin komandi kynslóð, börn yðar, sem upp
munu vaxa eftir yður, og útlendir menn, sem koma munu af fjarlægu
landi, munu segja, er þeir sjá plágur þær og sóttir, er Jahve hefir lagt
á land þetta — 23 landið er alt orðið að brennisteini, salti og bruna-
skellum, þar verður eigi sáð og ekkert sprettur þar og engin jurt kemur
þar upp úr jörðinni, en alt er umturnað eins og Sódóma og Gómorra,
Adma og Zebóím, er Jahve umturnaði í reiði sinni og heift —, 24 já
allar þjóðir munu segja: Hvers vegna hefir Jahve farið svo með þetta
land? Hvernig stendur á þessari miklu ofsareiði? 25 Þá munu menn
svara: Af því að þeir yfirgáfu sáttmála Jahve, Guðs feðra þeirra, sem
hann gjörði við þá, er hann leiddi þá af Egiptalandi, 26 en gengu að
dýrka aðra guði og falla fram fyrir þeim, guði, er þeir þektu eigi og
hann hafði eigi úthlutað þeim. 27 Fyrir því upptendraðist reiði Jahve
gegn landi þessu, svo að hann lét yfir þá koma alla þá bölvun, sem
rituð er í þessari bók; 28 og Jahve sleit þá upp úr landi þeirra í reiði
og heift og mikilli gremju og þeytti þeim í annað land, og er svo
enn í dag.
29 Hinir leyndu hlutir heyra Jahve, Guði vorum, en það, sem
opinberað er, heyrir oss og börnum vorum æfinlega, svo að vér megum
breyta eftir öllum orðum lögmáls þessa.

30 Og þegar alt þetta, blessunin og bölvunin, sem eg hefi lagt
fyrir þig í dag, kemur fram við þig, og þú hugfestir það meðal
allra þeirra þjóða, er Jahve, Guð þinn, rekur þig til, 2 og þú snýr þér
aftur til Jahve, Guðs þíns, og hlýðir raustu hans í öllu, sem eg býð
þér í dag, bæði þú og börn þín, af öllu hjarta þínu og af allri sálu
þinni, 3 þá mun Jahve, Guð þinn, snúa við högum þínum og miskunna
þér og safna þér aftur saman frá öllum þjóðum, þeim er Jahve, Guð
þinn, hefir dreift þér á meðal. 4 Þótt þínir brottreknu væru yzt við
skaut himins, þá mun Jahve, Guð þinn, saman safna þér þaðan og
sækja þig þangað; 5 og Jahve Guð þinn, mun leiða þig inn í landið,
sem feður þínir áttu, og þú skalt taka það til eignar, og hann mun
gjöra enn betur til þín og fjölga þér enn meir en feðrum þínum. 6 Og
Jahve, Guð þinn, mun umskera hjarta þitt og hjarta niðja þinna, svo
að þú elskir Jahve, Guð þinn, af öllu hjarta þínu og af allri sálu
þinni, til þess að þú megir lifa. 7 Og Jahve, Guð þinn, mun láta allar
þessar bölvanir bitna á óvinum þínum og fjendum, þeim er hafa ofsótt
þig. 8 En þú munt aftur hlýða raustu Jahve og halda allar skipanir
hans, þær er eg legg fyrir þig í dag; 9 og Jahve, Guð þinn, mun veita
þér gnægð gæða í öllu, sem þú tekur þér fyrir hendur, í ávexti kviðar
þíns og í ávexti fénaðar þíns og í ávexti lands þíns, því að Jahve

---

**18:** Hebr. 12, 15. **19:** Jer. 44, 17. **20:** kap. 28, 15 n. **23:** 1 Mós. 19, 24 n. Hós. 11, 8. **24:** 1 Kong. 9, 8 n. Jer. 22, 8. **29:** Sálm. 147, 19. 20. — **30, 1:** kap. 28, 2 n. **2:** kap. 4, 30. 3 Mós. 26, 40. **3:** Jer. 29, 14; 31, 23; 32, 37. Sálm. 106, 45 n. **6:** kap. 10, 16. Jer. 4, 4; 32, 39. Esek. 11, 19. Róm. 2, 29. Fil. 3, 3. Kól. 2, 11. **9:** kap. 28, 11.

mun aftur gleðjast yfir þér, þér til heilla, eins og hann gladdist yfir
feðrum þínum, [10] ef þú hlýðir raustu Jahve, Guðs þíns, og varðveitir
skipanir hans og lög, sem rituð eru í þessari lögmálsbók, ef þú snýr
þér til Jahve, Guðs þíns, af öllu hjarta þínu og af allri sálu þinni.
[11] Því að þetta boðorð, sem eg legg fyrir þig í dag, er þér eigi
um megn og það er eigi fjarlægt þér. [12] Ekki er það uppi í himninum,
svo að þú þurfir að segja: Hver ætli fari fyrir oss upp í himininn og
sæki það handa oss og kunngjöri oss það, svo að vér megum breyta
eftir því? [13] Og það er eigi hinumegin hafsins, svo að þú þurfir að
segja: Hver ætli fari fyrir oss yfir hafið og sæki það handa oss og
kunngjöri oss það, svo að vér megum breyta eftir því? [14] Heldur er
orðið harla nærri þér, í munni þínum og hjarta þínu, svo að þú getur
breytt eftir því.
[15] Sjá, eg hefi í dag lagt fyrir þig líf og heill, dauða og óheill.
[16] Ef þú hlýðir skipunum Jahve, Guðs þíns, þeim er eg legg fyrir þig
í dag: að elska Jahve, Guð þinn, ganga á hans vegum og varðveita
skipanir hans, lög og ákvæði, þá munt þú lifa og margfaldast, og
Jahve, Guð þinn, mun blessa þig í landi því, er þú heldur nú inn í,
til þess að taka það til eignar. [17] En ef hjarta þitt gjörist fráhverft og
þú verður óhlýðinn og lætur tælast til að falla fram fyrir öðrum guðum
og dýrka þá, [18] þá boða eg yður í dag, að þér munuð gjörsamlega
farast; þér munuð þá eigi lifa mörg árin í landi því, er þér haldið nú
inn í yfir Jórdan, til þess að taka það til eignar. [19] Eg kveð í dag
bæði himin og jörð til vitnis móti yður, að eg hefi lagt fyrir þig lífið
og dauðann, blessunina og bölvunina; veldu þá lífið, til þess að þú
og niðjar þínir megi lifa, [20] með því að elska Jahve, Guð þinn, hlýða
raustu hans og halda þér fast við hann — því að undir því er líf
þitt komið og langgæður aldur þinn, svo að þú megir búa í landinu,
sem Jahve sór feðrum þínum: Abraham, Ísak og Jakob, að gefa þeim.

**Jósúa skipaður eftirmaður Móse. Um varðveizlu og lestur lögmálsins. Móse-ljóð.**

31 Og Móse fór og flutti öllum Ísrael þessi orð [2] og sagði við þá:
Eg er nú hundrað og tuttugu ára gamall; eg get ekki lengur
gengið út og inn, og Jahve hefir sagt við mig: Þú skalt ekki komast
yfir hana Jórdan. [3] Jahve, Guð þinn, fer sjálfur yfir um fyrir þér;
hann mun sjálfur eyða þessum þjóðum fyrir þér, svo að þú getir tekið
lönd þeirra til eignar. Jósúa skal fara yfir um fyrir þér, eins og Jahve
hefir sagt. [4] Og Jahve mun fara með þær eins og hann fór með Síhon
og Óg, konunga Amóríta, og land þeirra, sem hann eyddi. [5] Og Jahve
mun gefa þær yður á vald, og þér skuluð fara með þær nákvæmlega
eftir skipun þeirri, er eg hefi fyrir yður lagt. [6] Verið hughraustir og
öruggir, óttist eigi og hræðist þá eigi, því að Jahve, Guð þinn, fer sjálfur
með þér; hann mun ekki sleppa af þér hendinni né yfirgefa þig.
[7] Móse kallaði þá á Jósúa og sagði við hann í augsýn alls Ísraels:
Vertu hughraustur og öruggur, því að þú munt leiða þetta fólk inn í
landið, sem Jahve sór feðrum þeirra að gefa þeim, og þú munt skifta
því milli þeirra. [8] Og Jahve mun sjálfur fara fyrir þér; hann mun vera
með þér, hann mun eigi sleppa af þér hendinni né yfirgefa þig; óttast
þú eigi og lát eigi hugfallast.

---

Jer. 32, 41. **12:** Róm. 10, 6 n. **15:** kap. 11, 26 n. 28, 2 n. **18:** Jós. 23, 16. **20:** kap. 4, 40; 5, 33. 1 Mós. 50, 24. — **31, 2:** kap. 34, 7. 4 Mós. 20, 12. 5 Mós. 1, 37 n. 3, 27. **3:** 4 Mós. 27, 18 n. **4:** 4 Mós. 21, 24. 35. **5:** kap. 7, 2 n. **6:** kap. 7, 21. Jós. 1, 5. Hebr. 13, 5. **7:** kap. 3, 28. Jós. 1, 6.

[9] Og Móse ritaði lögmál þetta og fékk það í hendur prestunum,
sonum Leví, er bera sáttmálsörk Jahve, og öllum öldungum Ísraels.
[10] Og Móse lagði svo fyrir þá: Sjöunda hvert ár, umlíðunarárið, á lauf-
skálahátíðinni, [11] þegar allur Ísrael kemur til að birtast fyrir augliti
Jahve, Guðs þíns, á þeim stað, sem hann velur, þá skalt þú lesa lög-
mál þetta fyrir öllum Ísrael í heyranda hljóði. [12] Safna þú saman
lýðnum, bæði körlum, konum og börnum, og útlendingum þeim, sem
hjá þér eru innan borgarhliða þinna, til þess að þeir hlýði á og til
þess að þeir læri að óttast Jahve, Guð yðar, og gæti þess að halda öll
orð þessa lögmáls. [13] Og börn þeirra, þau er enn ekki þekkja það,
skulu hlýða á og læra að óttast Jahve, Guð yðar, alla þá daga, sem
þér lifið í því landi, er þér haldið nú inn í yfir Jórdan, til þess að
taka það til eignar.

[14] Og Jahve sagði við Móse: Sjá, andlátstími þinn nálgast; kalla
þú á Jósúa og gangið inn í samfundatjaldið, svo að eg megi leggja
fyrir hann skipanir mínar. Þá fóru þeir Móse og Jósúa og gengu inn
í samfundatjaldið. [15] En Jahve birtist í tjaldinu í skýstólpa, og ský-
stólpinn nam staðar við tjalddyrnar. [16] Og Jahve sagði við Móse:
Sjá, þú munt nú leggjast til hvíldar hjá feðrum þínum; þá mun lýður
þessi rísa upp og taka fram hjá með útlendum guðum lands þess, er
hann heldur nú inn í, en yfirgefa mig og rjúfa sáttmála minn, þann er
eg við hann gjörði. [17] Þá mun reiði mín upptendrast gegn þeim, og
eg mun yfirgefa þá og byrgja auglit mitt fyrir þeim, og lýðurinn mun
eyddur verða og margs konar böl og þrengingar yfir hann koma. Þá
mun hann segja: Vissulega er þetta böl yfir mig komið, af því að Guð
minn er ekki hjá mér. [18] En á þeim degi mun eg byrgja auglit mitt
vandlega vegna allrar þeirrar ilsku, sem hann hefir í frammi haft, er
hann sneri sér til annara guða. [19] En skrifið nú upp kvæði þetta og
kenn það Ísraelsmönnum, legg þeim það í munn, til þess að kvæði
þetta megi verða mér til vitnisburðar gegn Ísraelsmönnum. [20] Því að
eg mun leiða þá inn í landið, sem eg sór feðrum þeirra, sem flýtur í
mjólk og hunangi, og þeir munu eta og verða saddir og feitir, og snúa
sér til annara guða og dýrka þá; en mér munu þeir hafna og rjúfa
sáttmála minn. [21] Og þegar margs konar böl og þrengingar koma yfir
hann, þá mun kvæði þetta bera vitni gegn honum, því að það mun
eigi gleymast í munni niðja hans; því að eg veit, hvað þeim býr innan
brjósts nú þegar, áður en eg hefi leitt þá inn í landið, sem eg sór
feðrum þeirra. [22] Og Móse skrifaði upp kvæði þetta þann hinn sama
dag og kendi það Ísraelsmönnum.

[23] Og hann lagði skipanir sínar fyrir Jósúa Núnsson og sagði:
Vertu hughraustur og öruggur, því að þú munt leiða Ísraelsmenn inn
í landið, sem eg sór þeim, og eg mun vera með þér.

[24] Þegar Móse hafði algjörlega lokið því að rita orð þessa lögmáls
í bók, [25] þá bauð Móse Levítunum, sem bera sáttmálsörk Jahve, og
sagði: [26] Takið lögmálsbók þessa og leggið hana við hliðina á sáttmálsörk
Jahve, Guðs yðar, svo að hún geymist þar til vitnisburðar gegn þér.
[27] Því að eg þekki mótþróa þinn og þrjózku; sjá, meðan eg enn er
lifandi hjá yður í dag, hafið þér óhlýðnast Jahve, og hvað mun þá
síðar verða að mér dauðum! [28] Safnið saman til mín öllum öldungum
ættkvísla yðar og tilsjónarmönnum yðar, að eg megi flytja þeim þessi
orð í heyranda hljóði og kveðja himin og jörð til vitnis móti þeim.
[29] Því að eg veit, að eftir dauða minn munuð þér gjörspillast og víkja
af þeim vegi, sem eg hefi boðið yður; þá mun og ógæfan koma yfir

---

**10:** kap. 15, 1 n. **11:** kap. 16, 16. **28:** kap. 30, 19; 32, 1 n.

yður á komandi tímum, er þér gjörið það sem ilt er í augum Jahve,
svo að þér egnið hann til reiði með athæfi yðar.
30 Móse flutti þá öllum söfnuði Ísraels orð þessa kvæðis, unz
því var lokið.

32 Hlustið, þér himnar, því að nú mun eg mæla,
og jörðin hlýði á mál munns míns!
2 Kenning mín streymi sem regn,
ræða mín drjúpi sem dögg,
eins og gróðrarskúrir á grængresið
og sem þungaregn á jurtirnar.
3 Því að eg vil kunngjöra nafn Jahve:
Gefið Guði vorum dýrðina!
4 Bjargið — fullkomin eru verk hans,
því að allir vegir hans eru réttlæti.
Trúfastur Guð og tállaus,
réttlátur og réttvís er hann.

5 Synir hans eru spiltir orðnir, blettur er á þeim,
rangsnúin og ramspilt kynslóð.
6 Ætlið þér að launa Jahve þannig,
þú heimska og óvitra þjóð?
Er hann ekki faðir þinn, sá er skóp þig,
sá er gjörði þig og myndaði?

7 Minstu fyrri tíða,
hyggið að árum liðinna alda!
Spyr föður þinn, að hann megi fræða þig,
gamalmenni þín, að þau megi segja þér frá!
8 Þá er hinn hæsti skifti óðulum meðal þjóðanna,
þá er hann greindi í sundur mannanna börn,
þá skipaði hann löndum þjóðflokkanna
eftir tölu Ísraels sona.
9 Því að hlutskifti Jahve er lýður hans,
Jakob úthlutuð arfleifð hans.
10 Hann fann hann í eyðimerkurlandi
og í óbygðum, innan um öskrið á öræfunum.
Hann verndaði hann, hugði að honum,
hann varðveitti hann sem sjáaldur auga síns.
11 Eins og örn, sem vekur upp hreiður sitt
og svífur yfir ungum sínum,
svo útbreiddi hann vængi sína, tók hann upp
og bar hann á flugfjöðrum sínum.
12 Jahve einn leiddi hann,
og enginn annar guð var með honum.
13 Hann lét hann fram bruna á hæðum landsins
og lét hann njóta ávaxtar akursins.
Hann lét hann sjúga hunang úr klettunum
og olíu úr tinnusteinunum,
14 hann ól hann á kúarjóma og sauðamjólk,
ásamt feitu kjöti af dilkum og hrútum.
Hann gaf honum Basan-uxa og kjarnhafra,
ásamt nýrnafeiti hveitisins*;
og þrúgnablóð drakst þú sem kostavín.

---

**32, 1:** kap. 31, 28. Jes. 1, 2. **3:** Sálm. 34, 4. Opinb. 14, 7. **4:** Sálm. 25, 8; 92, 16. **5:** Jes. 1, 3 n. **6:** Mal. 1, 6. **10:** Sak. 2, 12. **11:** 2 Mós. 19, 4. 5 Mós. 1, 31. Jes. 63, 9. **14:** * Þ. e. hinu ágætasta hveiti.

15 En Jesjúrún varð feitur og sparkaði aftur undan sér;
— feitur varðst þú, digur og sællegur!
Þá hafnaði hann Guði, skapara sínum,
og fyrirleit bjarg hjálpræðis síns.
16 Þeir vöktu vandlæti hans með útlendum guðum,
egndu hann til reiði með andstygðum.
17 Þeir færðu fórnir vættum, sem ekki eru Guð,
guðum, sem þeir höfðu eigi þekt,
nýjum guðum, nýlega upp komnum,
er feður yðar höfðu engan beyg af.
18 Um bjargið, sem þig hafði getið, hirtir þú ekki
og gleymdir þeim Guði, sem þig hafði alið.

19 Og Jahve sá það og hafnaði þeim,
af gremju við sonu sína og dætur.
20 Og hann sagði: Eg vil byrgja auglit mitt fyrir þeim,
eg ætla að sjá, hver afdrif þeirra verða.
Því að þeir eru rangsnúin kynslóð,
börn, sem engin trygð er í.
21 Þeir hafa vakið vandlæti mitt með því, sem ekki er Guð,
egnt mig til reiði með hinum fánýtu goðum sínum.
Nú mun eg vekja vandlæti þeirra með því, sem ekki er þjóð,
egna þá til reiði með heiðnum lýð.
22 Því að eldur kviknaði í nösum mér,
og hann logar lengst niður í undirheima,
eyðir jörðina og ávöxtum hennar
og kveikir í undirstöðum fjallanna.
23 Eg vil hrúga yfir þá margs konar böli,
eyða á þá öllum örvum mínum.
24 Þótt þeir séu megraðir af hungri og tærðir af sýki
og eitraðri sótt,
þá mun eg hleypa tönnum villidýranna á þá,
ásamt eitri þeirra, er í duftinu skríða.
25 Sverðið mun eyða þeim úti fyrir,
en hræðslan í húsum inni,
bæði yngismönnum og meyjum,
brjóstmylkingum og gráhærðum öldungum.
26 Eg mundi segja: Eg vil blása þeim burt,
afmá minning þeirra meðal mannanna!
27 ef eg óttaðist ekki, að mér mundi gremjast við óvinina,
að mótstöðumenn þeirra mundu leggja það út á annan veg,
að þeir mundu segja: Hönd vor var á lofti,
og það var ekki Jahve, sem gjörði alt þetta!

28 Því að þeir eru ráðþrota þjóð,
og hjá þeim eru engin hyggindi.
29 Ef þeir væru vitrir, þá mundu þeir sjá þetta,
hyggja að, hver afdrif þeirra munu verða.
30 Hvernig gæti einn maður elt þúsund
og tveir rekið tíu þúsundir á flótta,
ef bjarg þeirra hefði ekki selt þá
og Jahve ofurselt þá?

---

15: kap. 31, 20. Nehem. 9, 25. 26. 17: Sálm. 106, 37. 1 Kor. 10, 20. 20: kap. 31, 17 n. 21: Róm. 10, 19. 22: Esek. 14, 21. 24: kap. 28, 22. 27: 4 Mós. 14, 13—16. Esek. 20, 14. 30: Jes. 30, 17.

31 Því að bjarg þeirra er ekki eins og vort bjarg
— um það geta óvinir vorir dæmt.
32 Því að vínviður þeirra er af vínviði Sódómu,
af akurlöndum Gómorru.
Vínber þeirra eru eitruð vínber,
þrúgur þeirra beiskar.
33 Vín þeirra er höggorms-ólyfjan
og banvænt nöðru-eitur.

34 Er það ekki geymt hjá mér,
innsiglað í forðabúrum mínum?
35 Mín er hefndin og mitt að endurgjalda,
þá er þeir gjörast valtir á fótum.
Því að glötunardagur þeirra er nálægur,
og það ber óðfluga að, er fyrir þeim liggur.
36 Því að Jahve mun rétta hluta þjóðar sinnar
og aumkast yfir þjóna sína,
þá er hann sér, að öll hjálp er úti
og enginn er framar til, þræll né frelsingi.
37 Þá mun hann segja: Hvar eru nú guðir þeirra,
bjargið, er þeir leituðu hælis hjá,
38 sem átu feiti fórna þeirra
og drukku vín dreypifórna þeirra?
Rísi þeir nú upp og hjálpi yður,
veri þeir yður nú hlíf!
39 Sjáið nú, að eg, eg er hann
og að enginn guð er til nema eg!
Eg deyði og eg lífga,
eg særi og eg græði,
og enginn getur frelsað af minni hendi.
40 Því að eg lyfti hendi minni til himins
og segi: Svo sannarlega sem eg lifi eilíflega —
41 Þegar eg hefi hvest mitt blikandi sverð,
og eg legg hönd á dóminn,
þá mun eg efna hefnd við mótstöðumenn mína
og endurgjalda þeim, er mig hata!
42 Eg vil gjöra örvar mínar druknar af blóði,
og sverð mitt skal hold eta
— af blóði veginna manna og hertekinna,
af höfði fyrirliða óvinanna.

43 Vegsamið, þjóðir, lýð hans!
því að hann hefnir blóðs þjóna sinna.
Hann efnir hefnd við mótstöðumenn sína
og friðþægir fyrir land síns lýðs.

## Enn áminning um að halda lögmálið. Móse boðið að fara upp á Nebó.

44 Og Móse kom og flutti lýðnum öll orð þessa kvæðis í heyranda
hljóði, hann og Hósea Núnsson.
45 Og er Móse hafði lokið að mæla öll þessi orð til alls Ísraels,
46 sagði hann við þá: Hugfestið öll þau orð, sem eg flyt yður í dag, til

**35:** Róm. 12, 19. Hebr. 10, 30. **38:** Dóm. 10, 14. 1 Sam. 12, 21. Jer. 2, 28. **39:** kap. 4, 35. Jes. 45, 5. 14. 1 Sam. 2, 6. Hós. 6, 1. 2. **43:** Róm. 15, 10. Sálm. 9, 13. Opinb. 19, 2. **44:** 4 Mós. 13, 16.

þess að þér getið brýnt þau fyrir börnum yðar, svo að þau gæti þess
að halda öll orð þessa lögmáls. [47] Því að það er ekkert hégómamál
fyrir yður, heldur er það líf yðar, og fyrir hið sama munuð þér lifa
langa æfi í landinu, sem þér haldið nú inn í yfir Jórdan, til þess að
taka það til eignar.
[48] Þann hinn sama dag talaði Jahve við Móse og sagði: [49] Far
þú þarna upp á Abarím-fjall, upp á Nebó-fjall, sem er í Móabslandi
gegnt Jeríkó, og lít yfir Kanaanland, sem eg gef Ísraelsmönnum til
eignar. [50] Og þú skalt deyja á fjallinu, er þú fer upp á, og safnast til
þíns fólks, eins og Aron bróðir þinn dó á Hór-fjalli og safnaðist til
síns fólks, [51] af því að þið sýnduð mér ótrúmensku mitt á meðal Ísra-
elsmanna hjá Meríba-vötnum við Kades í Zín-eyðimörku, af því að þið
helguðuð mig ekki meðal Ísraelsmanna. [52] Því að handan yfir skalt
þú fá að líta landið, en inn í landið, sem eg gef Ísraelsmönnum, skalt
þú ekki komast.

## Blessun Móse.

33 Þessi er blessunin, er guðsmaðurinn Móse blessaði með Ís-
raelsmenn, áður en hann andaðist. [2] Hann mælti:

Jahve kom frá Sínaí
og rann upp fyrir þeim á Seír.
Hann lét ljós sitt skína frá Paran-fjöllum
og kom frá hinum helgu tíu þúsundum,
eldingarnar í hægri hendi hans voru þeim til varnar.
[3] Já, hann elskar sinn lýð;
allir hans heilögu eru í hans hendi,
og þeir fara eftir leiðsögu þinni,
sérhver þeirra meðtekur af orðum þínum.
[4] Móse setti oss lögmál,
óðal Jakobs safnaðar.
[5] Og hann* varð konungur í Jesjúrún,
þá er höfðingjar lýðsins söfnuðust saman,
ættkvíslir Ísraels allar samt.

[6] Lifi Rúben og deyi ekki,
þannig að menn hans verði fáir að tölu.

[7] Og þetta er blessunin um Júda. Hann mælti:

Heyr, Jahve, bænir Júda,
og leið hann aftur til þjóðar sinnar;
— með höndum sínum hefir hann barist fyrir hana —
og ver þú honum hjálp gegn fjendum hans.

[8] Og um Leví sagði hann:

Túmmím þín og úrím heyra mönnum hollvinar þíns,
þess er þú reyndir hjá Massa
og barðist fyrir hjá Meríba-vötnum;
[9] heyra þeim, er sagði um föður og móður: Eg sá þau ekki,
er eigi kannaðist við bræður sína
og leit eigi við börnum sínum.
Því að þeir varðveittu orð þitt
og héldu sáttmála þinn.

---

47: Jóh. 6, 63. 49: 4 Mós. 27, 12 n. 50: 4 Mós. 20, 25 n. 51: 4 Mós. 20, 13. 52: kap. 34, 4. — 33, 2: 2 Mós. 19, 20. Hab. 3, 3. 4: Sálm. 147, 19. 5: * Þ. e. Guð. 5 Mós. 32, 15. 8: 2 Mós. 28, 30; 17, 2—7. 4 Mós. 20, 2—13. 9: 2 Mós. 32, 26—29.

10 Þeir kenna Jakob dóma þína
og Ísrael lögmál þitt;
þeir bera reykelsi fyrir vit þín
og alfórn á altari þitt.
11 Blessa, Jahve, styrkleik hans
og lát þér þóknast verk handa hans.
Myl sundur lendar óvina hans
og þeirra er hata hann, svo að þeir fái eigi risið upp aftur.

12 Um Benjamín sagði hann:

Ljúflingur Jahve
býr óhultur hjá honum.
Hann verndar hann alla daga
og hefir tekið sér bólfestu milli hálsa hans.

13 Og um Jósef sagði hann:

Blessað af Jahve er land hans
með himinsins dýrmætustu gjöf, dögginni,
og með djúpinu, er undir hvílir,
14 með hinu dýrmætasta, er sólin framleiðir,
og með hinu dýrmætasta, sem tunglin láta spretta,
15 með hinu bezta á hinum eldgömlu fjöllum
og með hinu dýrmætasta á hinum eilífu hæðum,
16 með hinu dýrmætasta af jörðunni og öllu því, sem á henni er!
Og þóknun hans, sem bjó í þyrnirunninum,
komi yfir höfuð Jósefs
og í hvirfil hans, sem er höfðingi meðal bræðra sinna!
17 Prýðilegur er frumgetinn uxi hans,
og horn hans eru sem horn vísundarins.
Með þeim rekur hann þjóðir undir,
öll endimörk jarðarinnar.
Þetta eru tíu þúsundir Efraíms
og þetta eru þúsundir Manasse!

18 Og um Sebúlon sagði hann:

Gleðst þú, Sebúlon, yfir sæförum þínum,
og þú, Íssakar, yfir tjöldum þínum!
19 Þjóðflokkum bjóða þeir til fjallsins,
þar fórna þeir réttum fórnum,
því að þeir munu sjúga í sig nægtir hafsins
og hina huldustu fjársjóðu sandsins.

20 Og um Gað sagði hann:

Blessaður sé sá, sem veitir Gað landrými!
Hann hefir lagst niður sem ljónynja,
og rífur sundur arm og hvirfil.
21 Hann valdi sér landið, er fyrst var tekið,
því að þar var landshluti geymdur ætthöfðingja.
Og hann kom með höfðingjum lýðsins,
hann framkvæmdi réttlæti Jahve
og dóma hans ásamt Ísrael.

---

**10:** kap. 17, 9 n. Mal. 2, 6. 7. **13:** 1 Mós. 49, 25. 26. **16:** 2 Mós. 3, 2 n. **17:** 1 Mós. 48, 19 n. **18:** 1 Mós. 49, 13. 14. **21:** 4 Mós. 32, 1 n.

22 Og um Dan sagði hann:

Dan er ljónshvolpur,
sem kemur stökkvandi frá Basan.

23 Og um Naftalí sagði hann:

Naftalí, saddur velþóknunar
og fullur af blessun Jahve,
tak þú sjó og suðurland til eignar!

24 Og um Asser sagði hann:

Blessaðastur af sonunum sé Asser!
Veri hann eftirlæti bræðra sinna
og vökvi fót sinn í olíu!
25 Slár þínar séu af járni og eir,
og afl þitt réni eigi fyr en æfin þrýtur!

26 Enginn er sem Guð Jesjúrúns,
er ekur yfir himininn til hjálpar þér
og á skýjunum í tign sinni!
27 Hæli er hinn eilífi Guð,
og hið neðra eru eilífir armar.
Hann stökti óvinum þínum undan þér
og sagði: Gjöreyð!
28 Og síðan bjó Ísrael óhultur,
lind Jakobs ein sér,
í landi korns og vínlagar,
þar sem himininn lætur dögg drjúpa.
29 Heill þér, Ísrael! Hver er sem þú?
— lýður, sigursæll fyrir hjálp Jahve!
Hann er skjöldur þíns fulltingis,
og hann er sverð tignar þinnar.
Óvinir þínir munu smjaðra fyrir þér
og þú munt fram bruna á hæðum þeirra.

## Andlát Móse.

34 Og Móse gekk neðan af Móabsheiðum upp á Nebó-fjall,
Pisgatind, sem er gegnt Jeríkó; þaðan sýndi Jahve honum gjörv-
alt landið: Gíleað alt til Dan, 2 alt Naftalí og Efraímsland og Manasse,
og alt Júda-land alt til vesturhafsins, 3 og suðurlandið og Jórdan-
sléttlendið, dalinn hjá Jeríkó, pálmaborginni, alt til Zóar. 4 Og Jahve
sagði við hann: Þetta er landið, sem eg sór Abraham, Ísak og Jakob,
er eg sagði: Niðjum þínum vil eg gefa það! Eg hefi látið þig líta það
eigin augum, en yfir um þangað skalt þú ekki komast.
5 Og Móse, þjónn Jahve, dó þar í Móabslandi, eins og Jahve hafði
sagt, 6 og hann var grafinn í dalnum í Móabslandi, gegnt Bet-Peór, en
enginn maður veit enn til þessa dags, hvar gröf hans er. 7 Og Móse
var hundrað og tuttugu ára gamall, er hann andaðist; eigi glapnaði
honum sýn og eigi þvarr þróttur hans.
8 Og Ísraelsmenn grétu Móse á Móabsheiðum í þrjátíu daga; þá
enduðu sorgargrátsdagarnir eftir Móse. 9 En Jósúa Núnsson var fullur

---

22: 1 Mós. 49, 17. Dóm. 13, 2 n. 24: 1 Mós. 49, 20. 26: kap. 32, 15. 27: Sálm. 90, 1. 5 Mós. 31, 3. 28: 4 Mós. 23, 9. — 34, 1: kap. 3, 27. 3: Dóm. 1, 16. 2 Kron. 28, 15. 4: 1 Mós. 12, 7. 5 Mós. 32, 52. 6: Júd. 9. 8: 4 Mós. 20, 29.

vísdómsanda, því að Móse hafði lagt hendur sínar yfir hann; og Ísraelsmenn hlýddu honum og gjörðu svo sem Jahve hafði boðið Móse.
10 En eigi reis framar upp í Ísrael annar eins spámaður og Móse,
er Jahve umgekst augliti til auglitis, — 11 þegar litið er til allra þeirra
tákna og undra, er Jahve hafði sent hann til að gjöra í Egiptalandi á
Faraó og öllum þjónum hans og öllu landi hans, 12 og þegar litið er
til alls hins volduga máttar og allra hinna miklu og hræðilegu verka,
er Móse gjörði í augsýn alls Ísraels.

---

# Jósúabók.

### Boðið að fara yfir Jórdan.

1 Eftir andlát Móse, þjóns Jahve, mælti Jahve við Jósúa Núnsson,
þjónustumann Móse, á þessa leið: 2 Móse, þjónn minn, er andaður;
en rís þú nú upp og far yfir hana Jórdan með allan þennan lýð, inn
í landið, sem eg gef þeim, Ísraelsmönnum. 3 Hvern þann stað, er þér
stígið fæti á, mun eg gefa yður, eins og eg sagði Móse. 4 Frá eyðimörkinni
og Líbanon þarna alt til fljótsins mikla, Evfratfljótsins — alt
land Hetíta — alt til hafsins mikla mót sólar setri skal land yðar ná.
5 Enginn mun standast fyrir þér alla æfidaga þína; svo sem eg var
með Móse, svo mun eg og með þér vera; eg mun eigi sleppa af þér
hendinni né yfirgefa þig. 6 Ver þú hughraustur og öruggur, því að þú
skalt skifta meðal þessa lýðs landi því, er eg sór feðrum þeirra að
gefa þeim. 7 Ver þú aðeins hughraustur og harla öruggur að gæta
þess, að breyta eftir öllu lögmálinu, því er Móse þjónn minn fyrir þig
lagði; vík eigi frá því, hvorki til hægri né vinstri, til þess að þér lánist
vel alt, sem þú tekur þér fyrir hendur. 8 Eigi skal lögmálsbók þessi
víkja úr munni þínum, heldur skalt þú hugleiða hana um daga og
nætur, til þess að þú gætir þess að gjöra alt það, sem í henni er
skrifað; því að þá munt þú gæfu hljóta á vegum þínum og breyta
viturlega. 9 Hefi eg ekki boðið þér: Ver þú hughraustur og öruggur?
Lát eigi hugfallast og óttast eigi; því að Jahve, Guð þinn, er með þér
í öllu, sem þú tekur þér fyrir hendur.
10 Þá bauð Jósúa tilsjónarmönnum lýðsins á þessa leið: 11 Farið
um allar herbúðirnar og bjóðið lýðnum og segið: Búið yður veganesti,
því að þrem dögum liðnum skuluð þér fara yfir hana Jórdan, svo að
þér komist inn í og fáið til eignar landið, sem Jahve, Guð yðar, gefur
yður til eignar.
12 En við Rúbeníta, Gadíta og hálfa ættkvísl Manasse mælti Jósúa
á þessa leið: 13 Minnist þess, sem Móse, þjónn Jahve, bauð yður, er
hann sagði: Jahve, Guð yðar, mun veita yður hvíld og gefa yður þetta
land. 14 Konur yðar, börn yðar og búsmali skal eftir verða í landi

---

**9:** 4 Mós. 27, 18 n. **10:** 2 Mós. 33, 11. 4 Mós. 12, 8. — **1, 1:** 4 Mós. 11, 28. 5 Mós. 1, 38. **3:** 5 Mós. 11, 24 n. **5:** 5 Mós. 31, 8. Hebr. 13, 5. **6:** 5 Mós. 31, 7 n. 1, 38. Jós. 19, 51. **7:** 5 Mós. 5, 32. Orðskv. 4, 27. 1 Kong. 2, 3 n. **8:** Sálm. 1, 2. 3. **13:** 4 Mós. 32, 20 n.

því, er Móse gaf yður hinumegin Jórdanar; en þér skuluð fara her-
týgjaðir fyrir bræðrum yðar, allir þér sem vopnfærir eruð, og veita
þeim fulltingi, 15 þar til er Jahve veitir bræðrum yðar hvíld, eins og
yður, og þeir hafa líka tekið til eignar land það, sem Jahve, Guð yðar,
gefur þeim; þá skuluð þér snúa aftur í eignarland yðar og setjast þar
að, í landinu, sem Móse, þjónn Jahve, gaf yður hinumegin Jórdanar,
austan-megin. 16 En þeir svöruðu Jósúa á þessa leið: Vér skulum
gjöra alt, sem þú býður oss, og fara hvert sem þú sendir oss. 17 Eins
og vér í öllu hlýddum Móse, svo viljum vér og hlýða þér; veri Jahve,
Guð þinn, aðeins með þér, eins og hann var með Móse. 18 Hver sá,
er þverskallast gegn skipun þinni og hlýðir ekki orðum þínum í öllu,
sem þú býður oss, skal líflátinn verða; vertu aðeins hughraustur og
öruggur.

## Rahab kemur njósnarmönnunum undan.

2 Og Jósúa Núnsson sendi tvo njósnarmenn leynilega frá Sittím
og sagði: Farið og skoðið landið og Jeríkó! Þeir fóru og komu í
hús portkonu einnar, er Rahab hét, og tóku sér þar gistingu. 2 Og
konunginum í Jeríkó var sagt: Sjá, hingað komu menn nokkurir í kveld
af Ísraelsmönnum, til þess að kanna landið. 3 Sendi þá konungurinn
í Jeríkó til Rahab og lét segja henni: Sel fram mennina, sem til þín
eru komnir, þá er komnir eru í hús þitt; því að þeir eru komnir til
þess að kanna alt landið. 4 En konan tók mennina báða og leyndi
þeim; og hún sagði: Satt er það, menn komu til mín, en eigi vissi eg,
hvaðan þeir voru; 5 og er loka skyldi borgarhliðinu í rökkrinu, fóru
mennirnir burt; eigi veit eg, hvert mennirnir hafa farið. Veitið þeim
eftirför sem skjótast, þá munuð þér ná þeim. 6 En hún hafði leitt þá
upp á þakið og falið þá undir hörjurtarleggjum, sem breiddir voru á
þakið. 7 Mennirnir veittu þeim eftirför veginn til Jórdanar, að vöð-
unum, og borgarhliðinu var lokað þá er leitarmennirnir voru út farnir.
8 En áður en komumenn gengu til hvílu, gekk hún til þeirra upp á
þakið 9 og sagði við þá: Eg veit að Jahve hefir gefið yður land þetta
og að ótti við yður er yfir oss kominn og að allir landsbúar hræðast
yður. 10 Því að frétt höfum vér, að Jahve þurkaði fyrir yður vatnið í
Rauðahafi, þá er þér fóruð af Egiptalandi, og hvað þér hafið gjört við
Amóríta konungana tvo, þá Síhon og Óg, hinumegin Jórdanar, að þér
eydduð þeim með öllu. 11 Síðan vér heyrðum þetta, er æðra komin í
brjóst vor og enginn hugur er í nokkurum manni, þegar yður skal
mæta, því að Jahve, Guð yðar, er Guð á himnum uppi og á jörðu
niðri. 12 Sverjið mér nú við Jahve, að fyrst eg sýndi ykkur miskunn,
þá skuluð þið og miskunn sýna húsi föður míns, og gefið mér um
það óbrigðult merki, 13 að þið viljið láta föður minn og móður, bræður
mína og systur halda lífi, og alla, sem þeim heyra, og frelsa oss frá
dauða! 14 Og mennirnir svöruðu henni: Við setjum líf okkar í veð
fyrir yður, ef þér látið ekki vitnast erindi okkar, og þegar Jahve gefur
oss land þetta, þá skulum vér auðsýna þér miskunn og trúfesti. 15 Þá
lét hún þá síga í festi út um gluggann, því að hús hennar stóð við
borgarmúrinn og sjálf bjó hún úti við múrinn. 16 Og hún sagði við
þá: Haldið til fjalla, svo að leitarmennirnir finni ykkur ekki, og leynist
þar þrjá daga, unz leitarmennirnir eru aftur horfnir; eftir það getið
þið farið leiðar ykkar. 17 Og mennirnir sögðu við hana: Lausir viljum

---

2, 1: Hebr. 11, 31. Jak. 2, 25. 9: 2 Mós. 15, 15. 16; 23, 27. 5 Mós. 11, 25. 10:
2 Mós. 14, 21 n. 4 Mós. 21, 23 n. 33 n. 11: kap. 5, 1.

við vera eiðs þess, er þú lézt okkur sverja þér: 18 Sjá, þegar vér kom-
um inn í landið, þá skalt þú binda í gluggann, þann er þú lézt okkur
síga út um, festina þessa rauðu, og hafa saman kallað í hús þitt föður
þinn og móður, og bræður þína og alt heimilisfólk föður þíns; 19 en
gangi nokkur út fyrir húsdyr þínar, þá er hann sjálfur valdur að dauða
sínum, en við sýknir; en verði hönd lögð á nokkurn þann, sem í þínu
húsi er, þá skal dauði hans verða gefinn okkur að sök. 20 Og ef þú
lætur vitnast erindi okkar, þá erum við lausir þess eiðs, er þú lézt
okkur sverja þér. 21 En hún sagði: Svo skal vera sem þið segið! Lét
hún þá síðan fara, og þeir gengu burt, en hún batt rauðu festina í
gluggann. 22 Gengu þeir þá á burt og héldu til fjalla og dvöldust þar þrjá
daga, unz leitarmennirnir voru aftur heim horfnir; höfðu leitarmenn-
irnir leitað þeirra alla leiðina, en ekki fundið. 23 Hurfu þá þessir tveir
menn aftur og gengu niður af fjöllunum og fóru yfir um og komu til
Jósúa Núnssonar, og sögðu honum frá öllu, er fyrir þá hafði komið.
24 Og þeir sögðu við Jósúa: Jahve hefir gefið alt landið oss í hendur,
enda hræðast allir landsbúar oss.

### Förin yfir Jórdan. Reistir tólf minningarsteinar.

3 Morguninn eftir reis Jósúa árla; lögðu þeir nú upp frá Sittím og
komu að Jórdan, hann og allir Ísraelsmenn, og voru þar um nótt-
ina, áður þeir færu yfir um. 2 En að þremur dögum liðnum fóru til-
sjónarmennirnir um allar herbúðirnar 3 og buðu lýðnum og sögðu:
Þegar þér sjáið sáttmálsörk Jahve, Guðs yðar, og Levíta-prestana bera
hana, þá leggið upp frá yðar stað og farið á eftir henni. 4 Látið þó
vera um tveggja þúsund álna bil millum yðar og hennar — komið ekki
nærri henni — til þess að þér megið vita, hvaða veg þér eigið að fara,
því að þér hafið aldrei farið þann veg áður. 5 Þá sagði Jósúa við lýð-
inn: Helgið yður, því að á morgun mun Jahve gjöra undursamlega
hluti meðal yðar. 6 Og við prestana sagði Jósúa: Takið upp sáttmáls-
örkina og farið yfir um á undan lýðnum. Þeir tóku þá upp sáttmáls-
örkina og fóru yfir um á undan lýðnum. 7 Og Jahve sagði við Jósúa:
Í dag mun eg taka til að mikla þig í augsýn alls Ísraels, svo að þeir
megi vita, að eg er með þér, eins og eg var með Móse. 8 En bjóð þú
prestunum, sem bera sáttmálsörkina, á þessa leið: Þegar þér komið í
vatnsbrúnina í Jórdan, þá nemið þar staðar í ánni. 9 Og Jósúa sagði
við Ísraelsmenn: Komið hingað og heyrið orð Jahve, Guðs yðar! 10 Og
Jósúa mælti: Af þessu skuluð þér vita mega, að lifandi Guð er á með-
al yðar og að hann vissulega mun stökkva burt undan yður Kanaan-
ítum, Hetítum, Hevítum, Peresítum, Gírgasítum, Amórítum og Jebúsít-
um: 11 Sjá, sáttmálsörk hans, sem er drottinn allrar veraldar, mun
fara á undan yður út í Jórdan. 12 Veljið yður nú tólf menn af ætt-
kvíslum Ísraels, einn mann af ættkvísl hverri. 13 Og þegar prestarnir,
sem bera sáttmálsörk Jahve, hans sem er drottinn allrar veraldar, stíga
fæti í vatn Jórdanar, þá mun vatnið í Jórdan stöðvast — vatnið, sem
ofan að kemur — og standa sem veggur. 14 Og er fólkið nú tók sig
upp úr tjöldum sínum, til þess að fara yfir um Jórdan, og prestarnir,
berandi sáttmálsörkina, fóru fyrir lýðnum; 15 og er þeir, sem örkina báru,
komu að Jórdan, og prestarnir, sem báru örkina, drápu fótum sínum
í vatnsbrúnina — en Jórdan flóði yfir alla bakka allan kornskurðar-
tímann —, 16 þá stóð vatnið kyrt, það er ofan að kom, og hófst upp
sem veggur mjög langt burtu, við Adam, borgina, sem liggur hjá Zart-

---

3,1: kap. 2, 1. 2: kap. 1, 11. 7: kap. 4, 14; 1, 5. 12: kap. 4, 2 n. 13: 2 Mós. 15, 8.

an; en það sem rann niður til vatnsins á sléttlendinu, Saltasjós, rann
alt til þurðar; og lýðurinn fór yfir um gegnt Jeríkó. 17 En prestarnir,
sem báru sáttmálsörk Jahve, stóðu kyrrir á þurru mitt í Jórdan, með-
an allur Ísrael fór yfir um á þurru, þar til er alt fólkið var komið
yfir um Jórdan.

4 Og er alt fólkið var komið yfir um Jórdan, mælti Jahve við
Jósúa á þessa leið: 2 Veljið yður tólf menn af lýðnum, einn mann
af ættkvísl hverri, 3 og bjóðið þeim og segið: Takið upp tólf steina hér
úr Jórdan miðri, á þeim stað, þar sem prestarnir stóðu kyrrir, og berið
þá yfir um með yður og setjið þá niður þar sem þér hafið náttstað í
nótt. 4 Þá kallaði Jósúa tólf menn, sem hann kvaddi til af Ísraels-
mönnum, einn mann af ættkvísl hverri. 5 Og Jósúa sagði við þá:
Farið fyrir örk Jahve, Guðs yðar, út í Jórdan miðja, og taki hver yðar
einn stein sér á herðar, eftir tölu ættkvísla Ísraelsmanna. 6 Skal þetta
vera tákn meðal yðar. Þegar synir yðar spyrja á síðan og segja:
Hvað eiga steinar þessir að jarteina? 7 þá skuluð þér segja við þá:
Það, að vatnið í Jórdan stöðvaðist fyrir sáttmálsörk Jahve, þá er hún
fór yfir Jórdan. Vatnið í Jórdan stöðvaðist; og þessir steinar skulu
vera Ísraelsmönnum til minningar æfinlega. 8 Og Ísraelsmenn gjörðu
svo sem Jósúa bauð, og tóku tólf steina upp úr Jórdan miðri, eins og
Jahve hafði lagt fyrir Jósúa, eftir tölu ættkvísla Ísraelsmanna, og báru
þá yfir um með sér, þangað er þeir höfðu náttstað, og settu þá þar
niður. 9 Og Jósúa reisti tólf steina í Jórdan miðri á þeim stað, sem
prestarnir, þeir er sáttmálsörkina báru, höfðu staðið, og eru þeir þar
enn í dag. 10 En prestarnir, sem örkina báru, stóðu í Jórdan miðri,
unz öllu því var lokið, sem Jahve hafði boðið Jósúa að segja lýðnum
samkvæmt öllu því, sem Móse hafði boðið Jósúa; og lýðurinn flýtti sér
að fara yfir um. 11 Og er allur lýðurinn var kominn yfir um, þá fór
og örk Jahve yfir um og prestarnir, og fór hún fram fyrir lýðinn.
12 Og Rúbens synir, Gaðs synir og hálf ættkvísl Manasse fóru hertýg-
jaðir fyrir Ísraelsmönnum, eins og Móse hafði fyrir þá lagt. 13 Um fjöru-
tíu þúsundir vígbúinna manna að tölu héldu þeir yfir á Jeríkó-völlu
fyrir augliti Jahve til hernaðar. 14 Á þeim degi miklaði Jahve Jósúa í
augsýn alls Ísraels, og þeir óttuðust hann alla æfi hans, eins og þeir
höfðu óttast Móse.

15 Og Jahve sagði við Jósúa: 16 Bjóð þú prestunum, sem bera
sáttmálsörkina, að stíga upp úr Jórdan. 17 Bauð Jósúa þá prestunum
og mælti: Stígið upp úr Jórdan. 18 Og jafnskjótt sem prestarnir, er
báru sáttmálsörk Jahve, voru komnir upp úr Jórdan og þeir höfðu
stigið fótum á þurt land, féll vatnið í Jórdan aftur í farveg sinn, og
hún flóði sem áður yfir alla bakka. 19 En lýðurinn kom upp úr Jór-
dan á tíunda degi hins fyrsta mánaðar, og setti búðir sínar í Gilgal,
við austurtakmörkin á Jeríkó. 20 Og steinana tólf, er þeir höfðu tekið
upp úr Jórdan, reisti Jósúa í Gilgal. 21 Mælti hann þá til Ísraelsmanna
á þessa leið: Þegar synir yðar á síðan spyrja feður sína og segja:
Hvað eiga steinar þessir að jarteina? 22 þá skuluð þér gjöra það kunn-
ugt og segja: Ísrael gekk á þurru yfir hana Jórdan, 23 með því að Jahve,
Guð yðar, þurkaði vatnið í Jórdan fyrir yður, þar til er þér voruð
komnir yfir um, eins og Jahve, Guð yðar, gjörði við Rauðahafið,
er hann þurkaði það fyrir oss, þar til er vér vorum komnir yfir um, 24 til
þess að allar þjóðir á jörðu mættu vita, að hönd Jahve er sterk, svo
að þær óttuðust Jahve, Guð yðar, alla daga.

---

**16:** 2 Mós. 14, 21 n. Sálm. 114, 3. — **4, 2:** kap. 3, 12. **12:** 4 Mós. 32, 21. 29. **19:** kap. 5, 9. **23:** 2 Mós. 14, 21 n.

## Ísraelsmenn umskornir og halda páska í Gilgal.

5 Og þegar allir konungar Amóríta, þeirra er bjuggu fyrir vestan
Jórdan, og allir konungar Kanaaníta, sem búa við hafið, heyrðu,
að Jahve hefði þurkað vatnið í Jórdan fyrir Ísraelsmönnum, unz þeir
voru komnir yfir um, þá kom þeim æðra í brjóst og þeim félst hugur
fyrir Ísraelsmönnum.
[2] Í það mund sagði Jahve við Jósúa: Gjör þér steinknífa og um-
sker ísraelsmenn öðru sinni. [3] Jósúa gjörði sér þá steinknífa og um-
skar Ísraelsmenn á Yfirhúðahæð. [4] En sú var orsök til þess, að Jósúa
umskar þá: allur lýðurinn, sem af Egiptalandi fór, karlmennirnir, allir
vígir menn, höfðu dáið í eyðimörkinni á leiðinni, eftir að þeir voru
farnir af Egiptalandi. [5] Því að allir þeir, er þaðan fóru, höfðu verið
umskornir, en allir þeir, sem fæðst höfðu í eyðimörkinni á leiðinni
eftir brottför þeirra af Egiptalandi, höfðu eigi verið umskornir. [6] Því að
í fjörutíu ár fóru Ísraelsmenn um eyðimörkina, unz alt það fólk, allir
vígir menn, er farið höfðu af Egiptalandi, voru dánir, fyrir því að þeir
hlýddu ekki raust Jahve. Því að Jahve hafði svarið þeim, að þeir
skyldu ekki fá að sjá landið, sem Jahve sór feðrum þeirra að gefa oss
— land, sem flýtur í mjólk og hunangi. [7] En hann hafði látið sonu
þeirra koma í þeirra stað; þá umskar Jósúa, því að þeir voru óum-
skornir, þar eð þeir höfðu eigi verið umskornir á leiðinni. [8] Og er
gjörvalt fólkið hafði verið umskorið, héldu þeir kyrru fyrir, hver á
sínum stað, í herbúðunum, unz þeir voru grónir. [9] Þá sagði Jahve
við Jósúa: Í dag hefi eg velt af yður brigzli Egipta! Fyrir því heitir
þessi staður Gilgal fram á þennan dag.
[10] Þegar Ísraelsmenn höfðu sett búðir sínar í Gilgal, héldu þeir
páska á Jeríkó-völlum hinn fjórtánda dag mánaðarins, að kveldi. [11] Og
daginn eftir páska átu þeir ósýrð brauð og bakað korn af gróðri lands-
ins, einmitt þennan dag. [12] Daginn eftir þraut manna, er. þeir átu af
gróðri landsins, og upp frá því fengu Ísraelsmenn ekki manna, heldur
átu þeir af gróðri Kanaanlands það árið.
[13] Það bar til, er Jósúa var staddur hjá Jeríkó, að hann leit upp
og sá, hvar maður stóð gegnt honum með brugðnu sverði í hendi.
Jósúa gekk til hans og sagði við hann: Hvort ert þú vor maður eða
af óvinum vorum? [14] Hann svaraði: Nei! heldur er eg fyrirliði fyrir
hersveit Jahve; nú er eg kominn! Þá féll Jósúa fram á ásjónu sína
til jarðar, laut og sagði: Hvað vilt þú, herra, mæla við þjón þinn?
[15] Þá sagði fyrirliðinn fyrir hersveit Jahve við Jósúa: Drag skó þína
af fótum þér, því að það er heilagur staður, er þú stendur á! Og
Jósúa gjörði svo.

## Unnin Jeríkó.

6 En Jeríkó hafði lokað hliðum sínum og var harðlokuð vegna
Ísraelsmanna, svo að enginn maður komst þar út né inn. [2] Þá
sagði Jahve við Jósúa: Sjá, nú gef eg Jeríkó í þínar hendur, konung
hennar og kappa. [3] Og þér skuluð, allir vígir menn, ganga kring um
borgina, hringinn í kring um borgina einu sinni; svo skalt þú gjöra í
sex daga. [4] Og sjö prestar skulu bera sjö lúðra úr hrútshornum fyrir
örkinni; og sjöunda daginn skuluð þér ganga sjö sinnum kring um
borgina, og prestarnir þeyta lúðrana. [5] En þegar hrútshornið kveður
við, þá skal allur lýðurinn æpa heróp mikið, jafnskjótt og þér heyrið
lúðurhljóminn; mun þá borgarmúrinn hrynja til grunna, og lýðurinn
mega upp ganga, hver þar sem hann er staddur. [6] Þá lét Jósúa Núns-

---

**5, 6:** 4 Mós. 14, 23. 30. **9:** 2 Mós. 32, 12. 4 Mós. 14, 13 n. 5 Mós. 9, 28. **10:** 2 Mós. 12, 6. 4 Mós. 9, 5. **12:** 2 Mós. 16, 35. **14:** Sálm. 148, 2. **15:** 2 Mós. 3, 5.

son kalla prestana og sagði við þá: Þér skuluð bera sáttmálsörkina,
og sjö prestar skulu bera sjö lúðra úr hrútshornum fyrir örk Jahve.
7 Og við lýðinn sagði hann: Farið og gangið kring um borgina, en þeir
sem hertýgjaðir eru, skulu fara fyrir örk Jahve. 8 Og er Jósúa hafði
talað til lýðsins, gengu sjö prestarnir, þeir eru báru lúðrana sjö úr
hrútshornunum, fram fyrir augliti Jahve og þeyttu lúðrana; en sátt-
málsörk Jahve fór á eftir þeim. 9 En þeir, sem hertýgjaðir voru, gengu
á undan prestunum, þeim sem lúðrana þeyttu, en múgurinn fylgdi eftir
örkinni og var í sífellu blásið í lúðrana. 10 Og Jósúa bauð lýðnum á
þessa leið: Þér skuluð ekki æpa heróp og enga háreysti gjöra og ekkert
orð mæla, fyr en eg segi við yður: Æpið nú heróp! þá skuluð þér æpa
heróp. 11 Og hann lét fara með örk Jahve hringinn í kring um borgina
einu sinni; síðan gengu menn til herbúðanna og voru um nóttina í
herbúðunum. 12 Og Jósúa reis árla um morguninn; tóku nú prestarnir
örk Jahve, 13 og prestarnir sjö, þeir er báru lúðrana sjö úr hrútshorn-
unum fyrir örk Jahve, gengu og þeyttu lúðrana í sífellu, og þeir, sem
hertýgjaðir voru, gengu á undan þeim, en múgurinn fylgdi eftir örk
Jahve og var í sífellu blásið í lúðrana. 14 Þeir gengu og einu sinni
kring um borgina annan daginn, fóru síðan aftur til herbúðanna; svo
gjörðu þeir í sex daga. 15 Hinn sjöunda dag risu þeir, þegar er lýsti
af degi, og gengu með sama hætti kring um borgina sjö sinnum; þenn-
an daginn gengu þeir sjö sinnum kring um borgina. 16 En í sjöunda
sinnið þeyttu prestarnir lúðrana. Þá sagði Jósúa við lýðinn: Æpið nú
heróp; því að Jahve hefir gefið yður borgina. 17 En borgin skal með
banni helguð Jahve og alt sem í henni er; portkonan Rahab ein skal
lífi halda, svo og allir þeir, sem með henni eru í húsinu, því að hún
leyndi sendimönnunum, er vér sendum. 18 Gætið yðar aðeins fyrir hinu
bannfærða, að þér eigi girnist neitt af hinu bannfærða og takið það,
og leiðið með því bannfæring yfir herbúðir Ísraels og stofnið þeim í
ógæfu. 19 Alt silfur og gull, og allir hlutir, sem af eiri eða járni eru
gjörðir, skulu vera Jahve helgaðir og koma í féhirzlu Jahve. 20 Þá
æpti lýðurinn heróp, og þeir þeyttu lúðrana. Og er lýðurinn heyrði
lúðurhljóminn, æpti lýðurinn heróp mikið. Hrundi þá múrinn til
grunna, en lýðurinn gekk inn í borgina, hver þar sem hann var
staddur; þannig unnu þeir borgina. 21 Og þeir bannfærðu alt, sem
í borginni var, bæði karla og konur, unga og gamla, naut og sauði og
asna, með sverðseggjum. 22 En við mennina tvo, er kannað höfðu
landið, sagði Jósúa: Farið í hús portkonunnar og leiðið burt þaðan
konuna og alla, sem henni heyra, eins og þér sóruð henni. 23 Fóru
þá sveinarnir, þeir er njósnað höfðu, og leiddu Rahab burt, föður
hennar og móður, bræður hennar og alla, sem henni heyrðu; þeir leiddu
og burt alla ættmenn hennar og settu þá fyrir utan herbúðir Ísraels.
24 En borgina brendu þeir í eldi og alt, sem í henni var; aðeins silfur
og gull og hluti þá, sem af eiri eða járni voru gjörðir, lögðu þeir í fé-
hirzlu húss Jahve. 25 En portkonunni Rahab og ættliði föður hennar
gaf Jósúa líf, svo og öllum þeim, er henni heyrðu, og bjó hún og nið-
jar hennar meðal Ísraels upp frá því fram á þennan dag, fyrir því að
hún leyndi sendimönnunum, er Jósúa hafði sent, til þess að kanna
Jeríkó. 26 Í það mund lýsti Jósúa þessari bölvun: Bölvaður sé sá mað-
ur fyrir Jahve, sem fer til og reisir af nýju þessa borg, Jeríkó! Frum-
getning sinn skal hann missa, þegar hann leggur undirstöður hennar, og
yngsta son sinn, er hann reisir hlið hennar.
27 En Jahve var með Jósúa og barst orðstír hans um alt landið.

---

**6, 17:** kap. 2, 12 n. **20:** Hebr. 11, 30. **22:** kap. 2, 12 n. **23:** Hebr. 11, 31. **25:** Dóm. 1, 25. **26:** 1 Kong. 16, 34.

## Akan stelur af herfanginu.

7 En Ísraelsmenn fóru sviksamlega með hið bannfærða; Akan
Karmíson, Sabdísonar, Serasonar, af Júda ættkvísl, tók af hinu
bannfærða. Upptendraðist þá reiði Jahve gegn Ísraelsmönnum. 2 Nú
sendi Jósúa menn frá Jerikó til Aí, sem er hjá Betaven, fyrir austan
Betel, og sagði við þá: Farið og kannið landið. Og mennirnir fóru
og könnuðu Aí. 3 Og þeir sneru aftur til Jósúa og sögðu við hann:
Lát ekki allan lýðinn fara upp þangað; hér um bil tvær eða þrjár
þúsundir manna geta farið og unnið Aí; ómaka eigi allan lýðinn
þangað, því að þeir eru fáliðaðir fyrir. 4 Þá fóru þangað hér um bil
þrjár þúsundir manns af lýðnum, en þeir flýðu fyrir Aí-mönnum. 5 Og
Aí-menn feldu hér um bil þrjátíu og sex menn af þeim, og eltu þá frá borg-
arhliðinu alla leið að grjótnámunum og unnu sigur á þeim í hlíðinni;
þá æðraðist lýðurinn og varð að gjalti. 6 En Jósúa reif klæði sín og
féll fram á ásjónu sína til jarðar fyrir örk Jahve og lá þar alt til
kvelds, hann og öldungar Ísraels, og jusu mold yfir höfuð sér. 7 Og
Jósúa sagði: Æ, drottinn Jahve, hví leiddir þú lýð þennan yfir Jórdan,
ef þú selur oss nú í hendur Amórítum, til þess að þeir gjöri út af
við oss? Ó, að vér hefðum látið oss það lynda, að vera kyrrir hinu-
megin Jórdanar! 8 Æ, drottinn, hvað á eg að segja, nú þegar Ísrael
hefir orðið að flýja fyrir óvinum sínum? 9 Og þegar Kanaanítar og aðrir
landsbúar spyrja þetta, munu þeir umkringja oss og afmá nafn vort
af jörðunni. Hvað ætlar þú þá að gjöra til að halda uppi þínu mikla
nafni? 10 En Jahve sagði við Jósúa: Rís þú upp! Hví liggur þú hér
fram á ásjónu þína? 11 Ísrael hefir syndgað, þeir hafa rofið sáttmála
minn, þann er eg bauð þeim að halda; þeir hafa tekið af hinu bann-
færða, þeir hafa stolið, þeir hafa leynt því og lagt það hjá sínum
munum. 12 Fyrir því fá Ísraelsmenn eigi staðist fyrir óvinum sínum,
heldur leggja þeir á flótta fyrir óvinum sínum, því að þeir eru í banni; eg
vil eigi vera með yður eftir þetta, ef þér eyðið eigi hinu bannfærða,
sem meðal yðar er. 13 Rís þú upp, helga þú lýðinn og seg: Helgið
yður til morgundagsins, því að svo segir Jahve, Ísraels Guð: Bannfærðir
hlutir eru hjá þér, Ísrael! Þú munt eigi fá staðist fyrir óvinum þínum,
unz þér hafið komið hinum bannfærðu hlutum burt frá yður. 14 Á morg-
un snemma skuluð þér leiddir verða fram eftir ættkvíslum yðar, og sú
ættkvísl, sem Jahve lætur hlut falla á, skal ganga fram eftir kynþátt-
um, og sá kynþáttur, sem Jahve lætur hlut falla á, skal ganga fram
eftir ættum, og af þeirri ætt, sem Jahve lætur hlut falla á, skulu karl-
mennirnir ganga fram, hver út af fyrir sig. 15 En þann skal brenna í
eldi, sem hið bannfærða finst hjá, svo og alt, sem hann á; því að
hann hefir rofið sáttmála Jahve og framið óhæfuverk í Ísrael.
16 Og Jósúa reis árla morguninn eftir og leiddi Ísrael fram, hverja
ættkvísl út af fyrir sig; kom þá upp hlutur Júda-ættkvíslar. 17 Þá
leiddi hann fram kynþáttu Júda og kom upp hlutur Seraks kynþáttar.
Því næst leiddi hann fram kynþátt Seraks, hverja ætt út af fyrir sig,
og kom upp hlutur Sabdí-ættar. 18 Síðan leiddi hann fram ætt hans,
hvern karlmann út af fyrir sig, og kom þá upp hlutur Akans Karmí-
sonar, Sabdísonar, Serakssonar, af Júda ættkvísl. 19 Þá sagði Jósúa
við Akan: Sonur minn, gef þú Jahve, Ísraels Guði, dýrðina og gjör
játningu fyrir honum. Seg mér, hvað þú hefir gjört; leyn mig engu.
20 Og Akan svaraði Jósúa og sagði: Sannlega hefi eg syndgað gegn

---

**7, 1:** kap. 22, 20. 1 Kron. 2, 7. 5 Mós. 13, 17. **6:** 1 Mós. 37, 34. 4 Mós. 14, 6.
**9:** 2 Mós. 32, 12. 4 Mós. 14, 13 n. **15:** 5 Mós. 13, 16. 17. **16:** 1 Sam. 14, 41 n.
**17:** 4 Mós. 26, 20.

Jahve, Ísraels Guði; svo og svo hefi eg gjört. 21 Eg sá meðal herfangs-
ins fagra skikkju sínearska, tvö hundruð sikla silfurs og gulltungu
eina, er vó fimtíu sikla. Eg ágirntist þetta og tók það; og sjá: það
er fólgið í jörðu í tjaldi mínu og silfrið undir. 22 Jósúa sendi þá sendi-
menn þangað; þeir runnu til tjaldsins, og sjá: það var fólgið í tjaldi
hans, og silfrið undir. 23 Og þeir tóku það úr tjaldinu og færðu það
Jósúa og öllum Ísraelsmönnum og lögðu það niður frammi fyrir Jahve.
24 Þá tók Jósúa Akan Seraksson, silfrið, skikkjuna, gulltunguna, sonu
hans og dætur, uxa hans, asna og sauðfé, svo og tjald hans og alt,
sem hann átti, í viðurvist alls Ísraels, og fór með það upp í Akor-dal.
25 Þá sagði Jósúa: Hví hefir þú stofnað oss í ógæfu? Jahve stofni þér
í ógæfu í dag! Og allur Ísrael lamdi hann grjóti, og þeir brendu þá
í eldi og grýttu þá. 26 Gjörðu þeir steindys mikla yfir hann og er hún
þar enn í dag; og Jahve lét af hinni brennandi reiði sinni. Fyrir því
heitir þessi staður Akor-dalur alt fram á þennan dag.

## Unnin Aí.

8 Og Jahve sagði við Jósúa: Óttast þú eigi og lát eigi hugfallast.
Tak með þér alt herliðið, og tak þig upp og far til Aí; sjá, eg
mun gefa konunginn í Aí, fólk hans, borg og land í þínar hendur.
2 Og þú skalt fara með Aí og konung hennar eins og þú fórst með
*Jerikó* og konung hennar; þó megið þér taka herfang það og fénað
þann, sem þar er, yður til handa. Settu launsátur að baki borgarinnar.
3 Þá tók Jósúa sig upp með alt herliðið og hélt til Aí. En Jósúa valdi
úr þrjátíu þúsundir hraustra manna og sendi þá af stað um nóttina;
4 og hann lagði svo fyrir þá: Sjáið til! þér skuluð liggja í launsátri að
baki borgarinnar, en verið ekki mjög langt frá borginni og verið allir
viðbúnir. 5 Sjálfur mun eg fara til borgarinnar með alla mína menn,
og er þeir fara út í móti oss, eins og hið fyrra sinnið, munum vér
flýja undan þeim. 6 Og þeir munu veita oss eftirför, unz vér höfum
teygt þá burt frá borginni, því að þeir munu segja: »Nú flýja þeir
fyrir oss, eins og hið fyrra sinnið«, og vér munum flýja fyrir þeim.
7 Þá skuluð þér spretta upp úr launsátrinu og taka borgina, því
að Jahve, Guð yðar, mun gefa hana á yðar vald. 8 En er þér hafið
tekið borgina herskildi, skuluð þér leggja eld í borgina. Gjörið það,
sem Jahve segir. Gefið nú gætur að, eg hefi boðið yður það. 9 Sendi
Jósúa þá nú af stað, og fóru þeir í launsátrið og námu staðar milli
Betel og Aí, vestanvert við Aí. En Jósúa hafðist við um nóttina
meðal lýðsins.
10 Morguninn eftir reis Jósúa árla og kannaði liðið; fór hann því
næst sjálfur og öldungar Ísraels fyrir liðinu upp til Aí. 11 Og alt her-
liðið, sem með honum var, fór upp þangað; héldu þeir fram, þar til
er þeir komu gegnt borginni; þar settu þeir herbúðir sínar fyrir norðan
Aí, og var dalurinn milli þeirra og Aí. 12 Því næst tók hann um fimm
þúsundir manns og setti þá í launsátur milli Betel og Aí, vestanvert
við borgina. 13 Þeir fylktu nú liðinu, öllum hernum, sem var fyrir
norðan borgina, og afturliðinu fyrir vestan borgina. En Jósúa fór
þessa sömu nótt ofan í dalinn miðjan. 14 Og er konungurinn í Aí
varð þessa vís, höfðu borgarmenn hraðan á, risu árla og fóru út í
móti Ísrael til orustu, hann og alt hans lið, á ákveðnum stað fyrir
austan sléttlendið. En hann vissi ekki, að honum var búin launsát að
borgar baki. 15 En Jósúa og allur Ísrael létust bíða ósigur fyrir þeim

**8, 2:** kap. 6, 21. **5:** kap. 7, 5.

og flýðu á leið til eyðimerkurinnar. 16 Voru þá allir menn, er í borg-
inni voru, kvaddir til að reka flóttann, og veittu þeir Jósúa eftirför og
létu teygjast burt frá borginni; 17 varð enginn maður eftir í Aí og Betel,
sá er eigi færi eftir Ísrael; skildu þeir eftir opna borgina og veittu
Ísrael eftirför. 18 Þá sagði Jahve við Jósúa: Rétt þú út spjót það, sem
þú hefir í hendi þér, gegn Aí, því að eg mun gefa hann þér á vald.
Og Jósúa rétti út spjótið, sem hann hafði í hendi sér, gegn borginni.
19 Þá spratt launsátursliðið hratt upp úr stað sínum; skunduðu þeir
að, er hann rétti út höndina, fóru inn í borgina og tóku hana; lögðu
því næst sem skjótast eld í borgina. 20 En er Aí-menn sneru sér við,
sáu þeir að reyk lagði upp af borginni til himins og brast þá nú
þróttur, svo að þeir máttu í hvoruga áttina flýja, og liðið, sem flúið
hafði til eyðimerkurinnar, snerist nú í móti þeim, er rekið höfðu flótt-
ann. 21 En er Jósúa og allur Ísrael sáu, að launsáturslíðið hafði tekið
borgina og að reykinn lagði upp af borginni, þá hurfu þeir aftur og gjörðu
áhlaup á Aí-menn. 22 Hinir komu þá og úr borginni út í móti þeim,
og urðu þeir nú milli Ísraelsmanna, sem umkringdu þá á alla vegu; feldu
þeir þá, svo að enginn var eftir skilinn, sá er undan kæmist eða forð-
aði lífi sínu. 23 En konunginum í Aí náðu þeir lifandi á sitt vald og
fóru með hann til Jósúa. 24 Og er Ísrael hafði drepið alla Aí-búa úti
á víðavangi, í eyðimörkinni, þangað sem þeir höfðu veitt þeim eftirför,
og þeir voru allir fallnir fyrir sverðseggjum, svo að enginn þeirra var
eftir, þá hurfu allir Ísraelsmenn aftur til Aí og feldu íbúana með sverðs-
eggjum. 25 Og allir þeir, sem féllu á þeim degi, bæði karlar og konur,
voru tólf þúsund manns, allir Aí-búar. 26 En Jósúa dró ekki að sér
höndina, sem hann hélt í spjótinu, unz hann hafði gjöreytt öllum
Aí-búum. 27 En fénaðinn og herfangi því, er í borginni var, ræntu
Ísraelsmenn sér til handa eftir boði Jahve, því er hann hafði lagt fyrir
Jósúa. 28 Og Jósúa brendi Aí og gjörði hana að æfinlegri grjóthrúgu,
eyðirúst, fram á þennan dag. 29 Og konunginn í Aí lét hann hengja á
tré og lét hann hanga til kvelds; en um sólarlagsbil bauð Jósúa að
taka líkama hans ofan af trénu; köstuðu þeir honum út fyrir borgar-
hliðið og gjörðu yfir hann steindys mikla, og er hún þar enn í dag.

### Jósúa reisir Jahve altari á Ebal-fjalli.

30 Þá reisti Jósúa Jahve, Ísraels Guði, altari á Ebal-fjalli, 31 eins
og Móse, þjónn Jahve, hafði boðið Ísraelsmönnum, samkvæmt því sem
skrifað er í lögmálsbók Móse, altari af óhöggnum steinum, er járntól
hafði ekki verið borið að; og þeir fórnuðu Jahve brennifórnum á því
og slátruðu heillafórnum. 32 Og hann skrifaði þar á steinana eftirrit
af lögmáli Móse, því er hann hafði skrifað í augsýn Ísraelsmanna.
33 Og allur Ísrael, öldungar hans, tilsjónarmenn og dómarar stóðu
báðumegin við örkina, gegnt Levíta-prestunum, er báru sáttmálsörk
Jahve, bæði útlendir menn og innbornir, annar helmingurinn utan í
Garísím-fjalli og hinn helmingurinn utan í Ebal-fjalli, samkvæmt því
sem Móse, þjónn Jahve, hafði boðið, að blessa Ísraelslýð fyrst. 34 Og
eftir það las hann upp öll orð lögmálsins, blessunina og bölvunina,
samkvæmt öllu því, sem skrifað er í lögmálsbókinni. 35 Ekkert orð
af því, er Móse hafði boðið, var úr felt; Jósúa las það alt upp fyrir
öllum söfnuði Ísraels, einnig fyrir konum og börnum og útlendingum
þeim, er með þeim höfðu farið.

---

**26**: 2 Mós. 17, 11 n. **29**: 5 Mós. 21, 22 n. Jós. 10, 27. **31**: 2 Mós. 20, 25. 5 Mós. 27, 5. **32**: 5 Mós. 27, 2—8; 31, 9. **33**: 5 Mós. 11, 29; 27, 12 n. **34**: 5 Mós. 28, 1 n. 15 n.

## Slægð Gíbeoníta.

9 Þegar allir konungar þeir, sem bjuggu hinumegin Jórdanar, í
fjalllendinu, á láglendinu og á öllu strandlendinu við hafið mikla
gegnt Líbanon—Hetítar, Amórítar, Kanaanítar, Peresítar, Hevítar og Je-
búsítar — spurðu þetta, 2 þá söfnuðust þeir saman allir sem einn mað-
ur, til þess að berjast við Jósúa og Ísrael.
3 En íbúar Gíbeon fréttu og, hvernig Jósúa hafði farið með
Jeríkó og Aí. 4 Beittu þeir nú líka slægð; fóru þeir og fengu sér
veganesti, tóku gamla sekki á asna sína, og gamla, rifna og sam-
anbundna vínbelgi, 5 og gamla, bætta skó á fætur sér og fóru í gömul
föt, og alt brauð, sem þeir höfðu í nesti, var hart og komið í mola.
6 Fóru þeir á fund Jósúa í herbúðirnar í Gilgal og sögðu við hann og
Ísraelsmenn: Vér erum komnir frá fjarlægu landi; gjörið nú sáttmála
við oss! 7 Þá svöruðu Ísraelsmenn Hevítunum: Vera má að þér búið
meðal vor; hvernig megum vér þá gjöra sáttmála við yður? 8 Þá sögðu
þeir við Jósúa: Vér erum þjónar þínir. Og Jósúa sagði við þá: Hverjir
eruð þér og hvaðan komið þér? 9 Og þeir sögðu við hann: Vér þjón-
ar þínir erum komnir frá mjög fjarlægu landi fyrir sakir nafns Jahve,
Guðs þíns, því að vér höfum heyrt hans getið, svo og alls þess, er
hann gjörði Egiptum, 10 sem og þess, hvernig hann fór með báða Am-
óríta konungana, sem bjuggu hinumegin Jórdanar, þá Síhon konung í
Hesbon og Óg konung í Basan, sem bjó í Astarót. 11 Fyrir því sögðu
öldungar vorir og allir íbúar lands vors við oss: Takið yður vega-
nesti og farið til fundar við þá og segið við þá: Vér erum þjónar yðar;
gjörið nú sáttmála við oss. 12 Sjáið hér brauð vort; vér tókum það
nýbakað oss til nestis að heiman, þá er vér lögðum af stað á yðvarn
fund, en sjá, nú er það orðið hart og komið í mola. 13 Og vínbelgir
þessir voru nýir, þegar vér létum á þá, en sjá, nú eru þeir farnir að
rifna; og þessi klæði vor og skór vorir eru slitnir orðnir á þessari af-
arlöngu leið. 14 Þá tóku mennirnir* nokkuð af nesti þeirra, en atkvæða
Jahve leituðu þeir ekki. 15 Hét Jósúa þeim þá friði og gjörði þann
sáttmála við þá, að hann skyldi láta þá lífi halda; og höfuðsmenn
safnaðarins bundu það svardögum við þá. 16 En þremur dögum eftir
að þeir höfðu gjört þennan sáttmála við þá, spurðist það, að þeir væru
þar úr grendinni og að þeir byggju mitt á meðal þeirra. 17 Ísraelsmenn
lögðu nú upp og komu á þriðja degi til borga þeirra; en borgir þeirra
voru Gíbeon, Kefíra, Beeról og Kirjat-Jearím. 18 Og Ísraelsmenn drápu
þá eigi, því að höfuðsmenn safnaðarins höfðu svarið þeim grið í nafni
Jahve, Ísraels Guðs; möglaði þá allur söfnuðurinn gegn höfuðsmönn-
unum. 19 Þá sögðu allir höfuðsmennirnir við gjörvallan söfnuðinn:
Vér höfum svarið þeim grið í nafni Jahve, Ísraels Guðs; fyrir því meg-
um vér nú eigi snerta þá. 20 Þetta munum vér við þá gjöra og láta
þá lífi halda, svo að eigi komi yfir oss reiði vegna eiðsins, er vér sór-
um þeim. 21 Þá sögðu höfuðsmennirnir við þá: Þeir skulu lífi halda!
Og þeir urðu viðarhöggsmenn og vatnsberar fyrir allan söfnuðinn, eins
og höfuðsmennirnir höfðu sagt þeim. 22 Þá lét Jósúa kalla þá og mælti
við þá á þessa leið: Hví svikuð þér oss, er þér sögðuð: »Vér eigum
heima mjög langt í burtu frá yður«, þar sem þér þó búið mitt á meðal
vor? 23 Fyrir því skuluð þér nú vera bölvaðir og jafnan vera þrælar
upp frá þessu, bæði viðarhöggsmenn og vatnsberar fyrir hús Guðs
míns. 24 Þá svöruðu þeir Jósúa og sögðu: Oss þjónum þínum var frá

---

**9, 3:** kap. 6, 21 n. 8, 26 n. **7:** kap. 11, 19. 5 Mós. 7, 2. 2 Mós. 23, 32 n. **10:** 4 Mós. 21, 24. 35. **14:** * Þ. e. Ísraelsmenn. 4 Mós. 27, 21. **15:** 2 Sam. 21, 2. **19:** Sálm. 15, 4.

því sagt, að Jahve, Guð þinn, hefði heitið því Móse, þjóni sínum, að
gefa yður alt landið, en eyða öllum landsbúum fyrir yður. Fyrir því
urðum vér hræddir um líf vort fyrir yður og tókum því þetta til bragðs.
25 En nú erum vér á þínu valdi; far þú með oss svo sem þér þykir
gott og rétt vera. 26 Og hann fór svo með þá og frelsaði þá úr hönd-
um Ísraelsmanna, svo að þeir dræpu þá ekki. 27 Og Jósúa gjörði þá
á þeim degi að viðarhöggsmönnum og vatnsberum fyrir söfnuðinn og
fyrir altari Jahve, og er svo enn í dag, á þeim stað, er hann mundi
til velja.

### Jósúa vinnur sigur á fimm konungum Amóríta.

10 En er Adónízedek, konungur í Jerúsalem, frétti að Jósúa hefði
unnið Aí og gjöreytt hana, að hann hefði farið með Aí og kon-
ung hennar eins og hann fór með Jerikó og konung hennar, og að
Gíbeon-búar hefðu gjört frið við Ísrael og byggju meðal þeirra, 2 þá
urðu þeir mjög hræddir; því að Gíbeon var stór borg, engu minni en
konungaborgirnar, og hún var stærri en Aí og allir borgarbúar hreysti-
menn. 3 Sendi Adónízedek, konungur í Jerúsalem, þá til Hóhams kon-
ungs í Hebron, til Pírams, konungs í Jarmút, til Jafía, konungs í La-
kís, og til Debírs, konungs í Eglon, og lét segja þeim: 4 Komið til móts
við mig og veitið mér fulltingi, að vér megum vinna Gíbeon, því að
hún hefir gjört frið við Jósúa og Ísraelsmenn. 5 Þá söfnuðust saman
fimm konungar Amóríta og fóru þangað með öllu liði sínu; konung-
urinn í Jerúsalem, konungurinn í Hebron, konungurinn í Jarmút, kon-
ungurinn í Lakís og konungurinn í Eglon; settust þeir um Gíbeon og
tóku að herja á hana. 6 Gíbeon-menn sendu þá til Jósúa í herbúðirn-
ar í Gilgal, og létu segja honum: Slá ekki hendi þinni af þjónum þín-
um. Kom sem skjótast oss til hjálpar og veit oss fulltingi, því að allir
konungar Amóríta, þeirra er búa í fjalllendinu, hafa safnast saman í
móti oss. 7 Þá fór Jósúa frá Gilgal með alt lið sitt og alla kappa sína.
8 Og Jahve sagði við Jósúa: Þú skalt ekki hræðast þá, því að eg mun
gefa þá í þínar hendur; enginn þeirra mun fá staðist fyrir þér. 9 Jósúa
kom nú að þeim óvörum, því að hann hélt áfram ferðinni alla nótt-
ina frá Gilgal. 10 Og Jahve gjörði þá felmtsfulla fyrir Ísrael og biðu
þeir mikinn ósigur við Gíbeon, en hinir eltu þá í áttina til stígsins, er
liggur upp að Bet-Hóron, og feldu menn á flóttanum alt til Aseka og
Makeda. 11 En er þeir flýðu fyrir Ísrael og voru á leið niður frá Bet-
Hóron, þá lét Jahve stóra steina falla yfir þá af himni alla leið til
Aseka, svo að þeir dóu; voru þeir fleiri, er féllu fyrir haglsteinunum,
en þeir, er Ísraelsmenn drápu með sverðseggjum. 12 Þá talaði Jósúa
við Jahve, þann dag er Jahve gaf Amóríta á vald Ísraelsmönnum; og
hann mælti í áheyrn Ísraels:

> Sól, statt þú kyr í Gíbeon,
> og þú, tungl, í Ajalon-dal!
> 13 Og sólin stóð kyr og tunglið staðnaði,
> unz lýðurinn hafði hefnt sín á óvinum sínum.

Svo er skrifað í Bók hinna réttlátu. Þá staðnaði sólin á miðjum himni
og hraðaði sér eigi að ganga undir nær því heilan dag. 14 Og enginn
dagur hefir þessum degi líkur verið, hvorki fyr né síðar, að Jahve
skyldi láta að orðum manns; því að Jahve barðist fyrir Ísrael. 15 Jósúa
fór þá aftur til herbúðanna í Gilgal og allur Ísrael með honum.

---

**24**: 5 Mós. 7, 1 n. **27**: 5 Mós. 29, 11. — **10, 11**: 2 Mós. 9, 18. 23. 24. **13**: Jes. 28, 21. 2 Sam. 1, 18.

16 En konungarnir fimm, er fyr var getið, flýðu og leyndust í hell-
inum hjá Makeda. 17 Þá var Jósúa sagt svo frá: Konungarnir fimm
eru fundnir; þeir leynast í hellinum hjá Makeda. 18 Þá sagði Jósúa:
Veltið stórum steinum fyrir hellismunnann og setjið menn við hann,
til að gæta þeirra. 19 En sjálfir skuluð þér eigi staðar nema; veitið ó-
vinum yðar eftirför, vinnið á þeim, sem aftastir fara, og látið þá ekki
komast inn í borgir sínar, því að Jahve, Guð yðar, hefir gefið þá yður
á vald. 20 Og er Jósúa og Ísraelsmenn höfðu unnið mikinn sigur á
þeim, svo að þeir voru frá með öllu — en þeir af þeim, er undan
höfðu komist, höfðu farið inn í víggirtu borgirnar —, 21 þá sneri alt
liðið aftur til Jósúa í herbúðirnar við Makeda heilu og höldnu; þorði
enginn framar orð að mæla gegn Ísraelsmönnum. 22 Þá sagði Jósúa:
Opnið hellismunnann og leiðið þessa fimm konunga út til mín úr hell-
inum. 23 Þeir gjörðu svo og leiddu þessa fimm konunga til hans úr
hellinum: konunginn í Jerúsalem, konunginn í Hebron, konunginn í
Jarmút, konunginn í Lakís og konunginn í Eglon. 24 Og er þeir höfðu
leitt konunga þessa út til Jósúa, þá kallaði Jósúa saman alla menn í
Ísrael og sagði við fyrirliða hermannanna, þá er með honum höfðu
farið: Komið hingað og stígið fæti á háls konungum þessum! Þeir
gengu þá fram og stigu fæti á háls þeim. 25 Þá sagði Jósúa við þá:
Óttist ekki og látið ekki hugfallast; verið hughraustir og öruggir, því
að svo mun Jahve fara með alla óvini yðar, er þér berjist við. 26 Eftir
það lét Jósúa drepa þá, og er hann hafði líflátið þá, lét hann hengja
þá á fimm tré; og þeir héngu á trjánum alt til kvelds. 27 En er kom-
ið var undir sólarlag, bauð Jósúa að taka þá ofan af trjánum; þá
köstuðu þeir þeim í hellinn, sem þeir höfðu leynst í, og báru síðan
stóra steina fyrir hellismunnann, og eru þeir þar enn í dag.
28 Þennan sama dag vann Jósúa Makeda og tók hana herskildi,
og hann bannfærði konung hennar, svo og borgina og alla þá menn,
sem í henni voru; lét hann engan komast undan; og með konunginn
í Makeda fór hann, eins og hann hafði farið með konunginn í Jerikó.
29 Síðan fór Jósúa og allur Ísrael með honum frá Makeda til Líbna,
og herjaði á Líbna. 30 Og Jahve gaf einnig hana í hendur Ísrael, svo
og konung hennar, og hann tók hana herskildi og drap alla þá menn,
er í henni voru; lét hann þar engan komast undan; og hann fór með
konung hennar, eins og hann hafði farið með konunginn í Jerikó.
31 Því næst fór Jósúa og allur Ísrael með honum frá Líbna til Lakís
og settist um hana og herjaði á hana. 32 Og Jahve gaf Lakís í hendur
Ísrael; og hann vann hana á öðrum degi og tók hana herskildi og
drap alla menn, sem í henni voru, öldungis eins og hann hafði farið
með Líbna. 33 Þá fór Hóram, konungur í Geser, til liðs við Lakís, en
Jósúa feldi hann og lið hans, svo að enginn þeirra komst undan.
34 Því næst fór Jósúa og allur Ísrael með honum frá Lakís til Eglon,
og þeir settust um hana og herjuðu á hana. 35 Og þeir unnu hana
samdægurs og tóku hana herskildi; og alla menn, er í henni voru,
bannfærði hann þennan sama dag, öldungis eins og hann hafði farið
með Lakís. 36 Þá fór Jósúa og allur Ísrael með honum frá Eglon til
Hebron, og þeir herjuðu á hana. 37 Og þeir unnu hana og tóku hana
herskildi; og þeir feldu konung hennar og alla íbúana í borgunum þar
umhverfis og alla menn, sem í henni voru, svo að enginn komst und-
an, öldungis eins og hann hafði farið með Eglon; og hann bannfærði
borgina og alla menn, er í henni voru. 38 Þá sneri Jósúa og allur
Ísrael með honum aftur til Debír og herjaði á hana. 39 Náði
hann henni og konungi hennar og öllum borgunum þar umhverfis á

---

28: kap. 8, 29.

sitt vald; feldu þeir þá með sverðseggjum og bannfærðu alla menn, er
í henni voru, svo að enginn komst undan. Eins og hann hafði farið
með Hebron, svo fór hann og með Debír og konung hennar, og eins
og hann hafði farið með Líbna og konung hennar. 40 Þannig braut
Jósúa undir sig landið alt: fjalllendið, suðurlandið, láglendið og hlíð-
arnar; og hann feldi alla konunga þeirra, svo að enginn komst und-
an; og hann bannfærði alt, sem lífsanda dró, eins og Jahve, Ísraels
Guð, hafði boðið honum. 41 Og Jósúa lagði undir sig land alt frá
Kades-Barnea til Gasa og alt Gósenland til Gíbeon. 42 Og alla þessa
konunga og land þeirra vann Jósúa í einu, því að Jahve, Ísraels Guð,
barðist fyrir Ísrael. 43 Sneri nú Jósúa og allur Ísrael með honum aftur
til herbúðanna í Gilgal.

**Frá Jabín konungi. Yfirlit yfir sigurvinningar Ísraels.**

11 Þegar Jabín, konungur í Hazór, spurði þessi tíðindi, gjörði
hann orð Jóbab, konungi í Madón, svo og konunginum í Simron
og konunginum í Aksaf 2 og konungunum, sem fyrir norðan bjuggu, í
fjalllendinu, á sléttlendinu fyrir sunnan Kínerót, á láglendinu og á Dór-
hæðum úti við hafið, 3 Kanaanítum, bæði fyrir austan og vestan, Am-
orítum, Hetítum, Peresítum, Jebúsítum í fjalllendinu og Hevítum
neðan undir Hermon í Mizpalandi. 4 Héldu þeir af stað með allan
sinn her; var það mannfjöldi svo mikill sem sandur á sjávarströnd;
höfðu þeir fjölda hesta og vagna. 5 Allir þessir konungar áttu með sér
stefnu, fóru síðan og settu herbúðir sínar allir samt hjá Merómvötn-
um og bjuggust að eiga orustu við Ísrael. 6 Þá sagði Jahve við Jósúa:
Ekki skalt þú hræðast þá, því að á morgun í þetta mund mun eg
láta þá alla liggja fallna frammi fyrir Ísrael; þú skalt skera sundur
hásinarnar á hestum þeirra og brenna vagna þeirra í eldi. 7 Og Jósúa
kom að þeim óvörum hjá Merómvötnum með allan sinn her, og gjörðu
þeir áhlaup á þá. 8 Og Jahve gaf þá í hendur Ísrael; og þeir unnu
sigur á þeim og eltu þá alt til Zídon hinnar miklu og til Misrefót-
Majím og alt austur í Mizpe-dal, og þeir feldu þá, svo að enginn af
þeim komst undan. 9 Og Jósúa fór með þá, eins og Jahve hafði sagt
honum: hann skar sundur hásinarnar á hestum þeirra og brendi vagna
þeirra í eldi.

10 Þá sneri Jósúa aftur og vann Hazór og feldi konung hennar
með sverði; en Hazór var fyrrum höfuðborg allra þessara konungs-
ríkja. 11 Og þeir feldu alla menn, er í henni voru, með sverðseggjum,
með því að þeir bannfærðu þá; var engin lifandi sála eftir skilin, og
Hazór brendi hann í eldi. 12 Og Jósúa náði á sitt vald öllum borgum
þessara konunga, svo og konungunum sjálfum, og hann feldi þá með
sverðseggjum, með því að hann bannfærði þá, eins og Móse, þjónn
Jahve, hafði boðið. 13 Þó lögðu Ísraelsmenn ekki eld í neinar þær
borgir, sem stóðu uppi á hæðum, nema Hazór eina; hana brendi Jósúa.
14 En öllu herfangi úr borgum þessum rændu Ísraelsmenn sér til handa,
svo og fénaðinum; en menn alla feldu þeir með sverðseggjum, unz
þeir höfðu gjöreytt þeim; létu þeir enga lifandi sálu eftir. 15 Eins og
Jahve hafði boðið Móse, þjóni sínum, svo hafði Móse boðið Jósúa, og
svo gjörði Jósúa; hann lét ekkert ógjört af því, sem Jahve hafði boð-
ið Móse. 16 Þannig lagði Jósúa undir sig alt þetta land: fjalllendið,
alt suðurlandið, alt Gósenland, láglendið, sléttlendið, svo og Ísraels-

---

**40**: 5 Mós. 20, 16. **41**: kap. 15, 51. — **11, 12**: 4 Mós. 33, 51 n. 5 Mós. 7, 2. **15**: 2 Mós. 23, 31 n. **16**: kap. 10, 41.

fjöll og láglendið, sem að þeim liggur, 17 frá Skallabergi, sem liggur
upp til Seír, til Baal-Gað í Líbanonsdal undir Hermonfjalli; og öllum
konungum þeirra náði hann á sitt vald, vann sigur á þeim og lét
drepa þá. 18 Um langa hríð átti Jósúa í orustum við konunga þessa.
19 Engin var sú borg, er friðsamlega gengi Ísraelsmönnum á vald, nema
Hevítar, þeir er bjuggu í Gíbeon; alt unnu þeir með hernaði. 20 Því
að það var frá Jahve komið, að hann stælti hjörtu þeirra til að fara
í móti Ísrael til bardaga, til þess að þeir yrðu vægðarlaust bannfærðir
og gjöreyddir, eins og Jahve hafði boðið Móse. 21 Í það mund fór og
Jósúa og eyddi Anakítum úr fjalllendinu, úr Hebron, úr Debír, úr Anab
og úr öllum Júdafjöllum og úr öllum Ísraelsfjöllum; Jósúa bannfærði
þá, ásamt borgum þeirra. 22 Engir Anakítar urðu eftir í landi Ísraels-
manna; aðeins í Gasa, Gat og Asdód urðu nokkurir eftir. 23 Og Jósúa
vann alt landið, öldungis eins og Jahve hafði boðið Móse; og Jósúa
gaf það Ísraelsmönnum til eignar, hverri ættkvísl sinn hluta. Eftir
það létti ófriði af landinu.

12 Þessir eru konungar landsins, þeir er Ísraelsmenn unnu sigur á
og tóku lönd af hinumegin Jórdanar, austanmegin, frá Arnoná til
Hermonfjalls og alt sléttlendið austanmegin: 2 Síhon, Amóríta konungur,
sem bjó í Hesbon og réð landi frá Aróer, sem liggur á bakka Arnonár,
og dalnum miðjum og hálfu Gíleað að Jabboká, sem er á landamær-
um Ammóníta, 3 og sléttlendinu að Kinerótvatni að austanverðu og að
vatninu á sléttlendinu, Saltasjó, að austanverðu, suður undir Bet-Jesí-
mót, og til suðurs að Pisga-hlíðum. 4 Sömuleiðis land Ógs, konungs
í Basan, sem var einn þeirra Refaíta, er eftir voru, og bjó í Astarót
og Edreí 5 og réð yfir Hermonfjöllum, Salka og öllu Basan, að landa-
mærum Gesúra og Maakatíta, og yfir hálfu Gíleað, að landamærum
Síhons, konungs í Hesbon. 6 Móse, þjónn Jahve, og Ísraelsmenn höfðu
unnið sigur á þeim, og Móse, þjónn Jahve, hafði gefið Rúbenítum,
Gaðítum og hálfri ættkvísl Manasse landið til eignar.

7 Og þessir eru konungar landsins, þeir er Jósúa og Ísraelsmenn
unnu sigur á fyrir vestan Jórdan, frá Baal-Gað í Líbanonsdal til Skalla-
bergs, sem liggur upp til Seír — en landið gaf Jósúa ættkvíslum Ísra-
els til eignar eftir skiftingu þeirra — 8 í fjalllendinu, á láglendinu, á
sléttlendinu, í fjallahlíðunum, í eyðimörkinni og í suðurlandinu, —
land Hetíta, Amóríta, Kanaaníta, Peresíta, Hevíta og Jebúsíta: 9 kon-
ungurinn í Jeríkó einn, konungurinn í Aí, sem er hjá Betel, einn,
10 konungurinn í Jerúsalem einn, konungurinn í Hebron einn, 11 kon-
ungurinn í Jarmút einn, konungurinn í Lakís einn, 12 konungurinn í
Eglon einn, konungurinn í Geser einn, 13 konungurinn í Debír einn,
konungurinn í Geder einn, 14 konungurinn í Horma einn, konungurinn
í Arad einn, 15 konungurinn í Líbna einn, konungurinn í Adúllam einn,
16 konungurinn í Makeda einn, konungurinn í Betel einn, 17 konungur-
inn í Tappúa einn, konungurinn í Hefer einn, 18 konungurinn í Afek einn,
konungurinn í Saron einn, 19 konungurinn í Madón einn, konungurinn
í Hazór einn, 20 konungurinn í Simrón-Meróm einn, konungurinn í
Aksaf einn, 21 konungurinn í Taanak einn, konungurinn í Megíddó
einn, 22 konungurinn í Kedes einn, konungurinn í Jokneam hjá Karmel
einn, 23 konungurinn í Dór í Dórshæðum einn, konungur heiðing-
janna í Gilgal einn, 24 konungurinn í Tirza einn, — alls þrjátíu og
einn konungur.

---

**19:** kap. 9, 15. **20:** 5 Mós. 2, 30. **21:** 4 Mós. 13, 22. 5 Mós. 1, 28. — **12, 1:** 4 Mós. 21, 13. **2:** 4 Mós. 21, 23 n. 5 Mós. 3, 16. **4:** 5 Mós. 1, 4. **6:** 4 Mós. 32, 33. 5 Mós. 3, 12.

**Jahve býður Jósúa að skifta landinu fyrir vestan Jórdan. Land ættkvíslanna tveggja og hálfrar fyrir austan Jórdan.**

13 Þegar Jósúa var orðinn gamall og hniginn að aldri, sagði
Jahve við hann: Þú ert orðinn gamall og hniginn að aldri, en
mjög mikið af landinu er enn óunnið. 2 Þetta er landið, sem enn er
eftir: Öll héruð Filista og alt land Gesúra; 3 frá Síhór, sem rennur
fram með Egiptalandi að austanverðu, til landamæra Ekron í norðri —
það telst með landi Kanaaníta —, fimm höfðingjar Filistanna í Gasa,
Asdód, Askalon, Gat og Ekron, svo og Avítar í suðri; 4 enn fremur alt
land Kanaaníta og Meara, sem heyrir Zídoningum, alt til Afek, til
landamæra Amóríta, 5 og land Giblíta og allur Líbanon í austri, frá
Baal-Gað undir Hermonfjalli alt þangað, er leið liggur til Hamat.
6 Allir fjallabúarnir frá Líbanon til Misrefót-Majím, allir Zidoningar;
eg mun stökkva þeim burt undan Ísraelsmönnum; en þú legg á hluti
og skift því meðal Ísraels til eignar, eins og eg hefi boðið þér. 7 Skift
þú nú landi þessu til eignar níu ættkvíslunum og hálfri ættkvísl Manasse.
8 Með henni hafa Rúbenítar og Gadítar fengið sinn eignarhluta, er
Móse gaf þeim hinumegin Jórdanar, austanmegin, eins og Móse, þjónn
Jahve, gaf þeim hann, 9 frá Aróer, sem liggur á bakka Arnonár, og
borginni, sem liggur í dalnum miðjum og alt sléttlendið — Medeba til
Díbon —, 10 svo og allar borgir, er átti Síhon, Amóríta konungur, er
sat í Hesbon, alt til landamæra Ammóníta; 11 enn fremur Gíleað og
land Gesúra og Maakatíta, Hermonfjöll öll og alt Basan til Salka,
12 alt konungsríki Ógs í Basan, sem sat í Astarót og Edreí. Hann var
einn eftir af Refaítum; en Móse vann sigur á þeim og stökti þeim burt.
13 Aftur á móti stöktu Ísraelsmenn Gesúrum og Maakatítum ekki burt,
heldur búa Gesúrar og Maakatítar meðal Ísraels alt fram á þennan
dag. 14 En ættkvísl Leví gaf hann ekkert óðal; eldfórnir Jahve, Ísraels
Guðs, eru óðal hans, eins og hann hét honum.
15 Og Móse fékk kynkvíslum Rúbens sona land eftir ættum þeirra;
16 fengu þeir land frá Aróer, sem liggur á bakka Arnonár, og frá borg-
inni, sem liggur í dalnum miðjum, og alt sléttlendið hjá Medeba,
17 Hesbon og allar borgirnar þar umhverfis, sem liggja á sléttlendinu,
Díbon, Bamót-Baal, Bet-Baal-Meon, 18 Jahza, Kedemót, Mefaat, 19 Kirja-
taím, Síbma, Zeret-Sahar á fellinu í dalnum, 20 og Bet-Peór, Pisga-
hlíðar og Bet-Jesímót, 21 enn fremur allar borgir á sléttlendinu og alt
konungsríki Síhons, Amóríta konungs, sem sat í Hesbon og Móse vann
sigur á ásamt höfðingjum Midíaníta: Eví, Rekem, Zúr, Húr og Reba,
jörlum Síhons, sem bjuggu í landinu. 22 Ísraelsmenn drápu og spá-
sagnamanninn Bíleam Beórsson með sverði, auk annara, er þeir feldu.
23 Og vesturtakmörkum Rúbens sona réð Jórdan alla leið. Þetta er
óðal Rúbens sona eftir ættum þeirra, borgirnar og þorpin, sem að liggja.
24 Og Móse fékk kynkvísl Gaðs, Gaðs sonum, land eftir ættum
þeirra; 25 fengu þeir land sem hér segir: Jaser og allar borgirnar í
Gíleað og hálft land Ammóníta, alt til Aróer, sem liggur fyrir austan
Rabba, 26 og frá Hesbon til Ramat-Mizpe og Betóním, og frá Mahanaím
til Lídebír landamæra. 27 Enn fremur í dalnum: Bet-Haram, Bet-Nimra,
Súkkót og Zafón, leifarnar af konungsríki Síhons, konungs í Hesbon,
og Jórdan á mörkum alt að suðurenda Kinneret-vatns, austanmegin
Jórdanar. 28 Þetta er óðal Gaðs sona eftir ættum þeirra, borgirnar og
þorpin, er að liggja.

---

**13, 2:** 1 Sam. 27, 8. **8:** 4 Mós. 32, 33 n. 5 Mós. 3, 12 n. **9:** 5 Mós. 2, 36. **12:** 5 Mós. 3, 11. **14:** 4 Mós. 18, 20. 5 Mós. 10, 9; 18, 1 n. **21:** 4 Mós. 31, 8.

[29] Og Móse fékk hálfri ættkvísl Manasse land; fékk hálf kynkvísl
Manasse sona land eftir ættum sínum sem hér segir. [30] Og land þeirra
náði frá Mahanaím yfir alt Basan, alt konungsríki Ógs, konungs í
Basan, og öll Jaírs-þorp, sem liggja í Basan, sextíu borgir; [31] enn fremur yfir hálft Gíleað og Astaról og Edreí, höfuðstaði konungsríkis Ógs
í Basan. Þetta fengu Makírs synir, Manassesonar, helmingurinn af
Makírs sonum eftir ættum þeirra. [32] Þetta voru lönd þau, er Móse úthlutaði á Móabs-völlum hinumegin Jórdanar gegnt Jerikó, austanmegin.
[33] En ættkvísl Leví gaf Móse ekkert óðal; Jahve, Ísraels Guð, er óðal
þeirra, eins og hann hefir heitið þeim.

## Arfleifð Kalebs.

14 Og þetta er það, sem Ísraelsmenn fengu að arfleifð í Kanaanlandi, það sem Eleasar prestur, Jósúa Núnsson og ætthöfðingjar
kynkvísla Ísraelsmanna úthlutuðu þeim [2] með hlutkesti til arfleifðar,
eins og Jahve hafði skipað fyrir Móse um níu kynkvíslirnar og hálfa.
[3] Því að Móse hafði gefið tveimur kynkvíslunum og hálfri óðul hinumegin Jórdanar, en Levítunum hafði hann eigi gefið óðal meðal þeirra.
[4] Því að Jósefs synir voru tvær kynkvíslir, Manasse og Efraím, og
Levítunum gáfu þeir ekki hlut í landinu, heldur aðeins borgir til að
búa í og beitilandið, er lá undir þær, handa fénaði þeirra og skepnum.
[5] Eins og Jahve hafði boðið Móse, svo gjörðu Ísraelsmenn og skiftu
landinu.

[6] Þá gengu Júda synir fyrir Jósúa í Gilgal, og Kaleb Jefúnneson,
Kenisíti, sagði við hann: Þér er kunnugt um, hvað Jahve sagði við
guðsmanninn Móse um mig og þig í Kades-Barnea. [7] Þá var eg fertugur að aldri, er Móse, þjónn Jahve, sendi mig frá Kades-Barnea að
kanna landið, og bar eg honum það, er eg vissi sannast. [8] En bræður
mínir, sem með mér fóru, skelfdu hjörtu lýðsins, en eg fylgdi Jahve,
Guði mínum, trúlega. [9] Og þann dag sór Móse og sagði: Sannlega skal
land það, sem þú steigst fæti á, vera þín eign og sona þinna æfinlega,
því að þú fylgdir Jahve, Guði mínum, trúlega. [10] Og sjá, nú hefir
Jahve látið mig lifa, eins og hann lofaði, í þessi fjörutíu og fimm ár,
síðan Jahve sagði þetta við Móse, meðan Ísrael hefir farið um eyðimörkina; og sjá, nú hefi eg fimm um áttrætt. [11] Og enn í dag er eg
eins hraustur og þegar Móse sendi mig; orka mín er enn hin sama og
hún var þá til að berjast og til að ganga út og inn. [12] Gef mér nú
fjalllendi þetta, sem Jahve talaði um þann dag, — því að þú hlýddir
sjálfur á þann dag. Því að Anakítar eru þar og stórar, víggirtar
borgir. Vera má að Jahve veiti mér fulltingi, svo að eg fái stökt þeim
burt, eins og Jahve hefir heitið. [13] Og Jósúa blessaði hann og gaf
Kaleb Jefúnnesyni Hebron að arfleifð. [14] Fyrir því fékk Kaleb Jefúnneson, Kenisíti, Hebron að arfleifð, og er svo enn í dag, sökum þess að
hann fylgdi Jahve, Ísraels Guði, trúlega. [15] En Hebron hét áður Kirjat-Arba, eftir Arba þeim er mestur var meðal Anakíta. Eftir það létti
ófriði af landinu.

---

14, 1: 4 Mós. 34, 17 n. 2: 4 Mós. 33, 54; 34, 13. 3: 5 Mós. 3, 12 n. 10, 9. 4: 1 Mós. 48, 5. 4 Mós. 35, 2—5. Jós. 21, 2 n. 6: 4 Mós. 14, 24. 30. 7: 4 Mós. 13, 30; 14, 6 n. 8: 4 Mós. 13, 31 n. 13: kap. 15, 13.

## Hlutur Júda-ættkvíslar.

15 En hlutur sá, er kynkvísl Júda sona fékk eftir ættum þeirra,
lá að landamærum Edóms, suður undir Zín-eyðimörku, syðst í
landinu. 2 Og suðurtakmörkin að landi þeirra voru frá enda Saltasjós,
frá víkinni, er snýr til suðurs, 3 og lágu fyrir sunnan Sporðdrekaskarð
og yfir til Zín og upp eftir fyrir sunnan Kades-Barnea og yfir til
Hezron, þaðan upp til Adar og því næst í boga til Karka; 4 þaðan
lágu þau yfir til Azmón og alla leið til Egiptalandsár, og síðast lágu
takmörkin til sjávar; þetta skulu vera landamerki yðar að sunnan-
verðu. 5 Landamerkin að austanverðu voru Saltisjór alt til þess er
Jórdan fellur í hann; en takmörkin að norðanverðu lágu frá nyrztu
vík vatnsins, þar sem Jórdan fellur í það. 6 Þaðan lágu takmörkin
upp til Bet-Hogla og fram hjá Bet-Araba að norðanverðu og þaðan
upp til steins Bóhans, Rúbenssonar. 7 Þá lágu takmörkin upp til Debír
úr Akor-dal, þaðan í norður til Gilgal, sem liggur þar gegnt sem upp
er gengið til Adúmmím, sem er sunnanvert við lækinn; þaðan lágu
takmörkin yfir til En-Semes-vatns og þaðan alla leið að Rógel-lind.
8 Þaðan lágu landamerkin upp til Hinnomssonar-dals, að Jebúsíta-öxl
sunnanverðri; þar heitir nú Jerúsalem; þaðan lágu landamerkin upp á
fjallstindinn, sem er beint í vestur frá Hinnomsdal og við norðurend-
ann á Refaímdal. 9 Frá fjallstindinum beygðust landamerkin til Neftóa-
vatnslindar og lágu þaðan til borganna á Efronfjalli; þaðan beygðust
landamerkin til Baala; þar heitir nú Kirjat-Jearím. 10 Frá Baala lágu
landamerkin í boga vestur til Seírfjalls og þaðan yfir að öxl Jearím-
fjalls norðanverðri; það er Kesalon; og þaðan ofan til Bet-Semes og
yfir til Timna. 11 Þá lágu landamerkin norður til Ekron-axlar; þaðan
beygðust þau til Síkrón og yfir til Baala-fjalls og alla leið til Jabneel,
og síðast lágu takmörkin til sjávar. 12 En vesturtakmörkunum réð
hafið mikla alla leið. Þetta voru landamerki Júda sona hringinn í
kring, eftir ættum þeirra.
13 En Kaleb Jefúnnesyni gaf hann hlut meðal Júda sona, eins og
Jahve hafði boðið Jósúa, sem sé borg Arba, föður Anaks; það er
Hebron. 14 Og Kaleb rak þaðan þrjá sonu Anaks: Sesaí, Ahíman og
Talmaí, afkomendur Anaks. 15 Þaðan fór hann móti Debír-búum; en
Debír hét áður Kirjat-Sefer. 16 Og Kaleb sagði: Hver sem leggur
Kirjat-Sefer undir sig og vinnur hana, honum skal eg gefa Aksa dóttur
mína að konu. 17 Þá vann Otníel Kenasson, bróðir Kalebs, borgina,
og hann gaf honum Aksa dóttur sína að konu. 18 Þegar hún skyldi
heim fara með bónda sínum, eggjaði hún hann þess, að hann skyldi
beiðast lands nokkurs af föður hennar. Steig hún þá niður af asnan-
um. Kaleb spurði hana þá: Hvað viltu? 19 Hún svaraði: Gef mér gáfu
nokkura, af því að þú hefir gefið mig til suðurlandsins; gef mér því
vatnsbrunna! Gaf hann henni þá brunna hið efra og brunna hið neðra.
20 Þetta er óðal kynkvíslar Júda sona, eftir ættum þeirra.
21 En syðstu borgirnar í kynkvísl Júda sona, við landamæri
Edóms, í suðurlandinu, voru: Kabzeel, Eder, Jagúr, 22 Kína, Dímóna,
Adada, 23 Kedes, Hazór og Jitnan; 24 Síf, Telem, Bealót, 25 Hazór-
Hadatta og Keríjót-Hezron; það er Hazór; 26 Amam, Sema, Mólada,
27 Hazar-Gadda, Hesmon, Bet-Pelet, 28 Hazar-Súal, Beerseba og Bisjótja;
29 Baala, Ijím, Ezem, 30 Eltólað, Kesíl, Horma, 31 Ziklag, Madmanna,
Sansanna, 32 Lebaót, Silhím, Aín og Rimmon, alls tuttugu og níu borgir
og þorpin, er að liggja.

---

15, 1: 4 Mós. 34, 3. 6: kap. 18, 17. 13: kap. 14, 13. 14: Dóm. 1, 10 n.

[33] Á láglendinu: Estaól, Zorea, Asna, [34] Sanóa og En-Ganním,
Tappúa og Enam, [35] Jarmút og Adúllam, Sókó, Aseka, [36] Saaraím,
Aditaím, Gedera og Gederótaím — fjórtán borgir og þorpin, er að liggja.
[37] Enn fremur Zenan, Hadasa, Migdal-Gað; [38] Dílean, Mizpe og Jokteel;
[39] Lakís, Bozkat, Eglon, [40] Kabbón, Lahmas, Kitlís [41] og Gederót; Bet-
Dagón, Naama og Makeda — sextán borgir og þorpin, er að liggja.
[42] Enn fremur Líbna, Eter, Asan, [43] Jifta, Asna, Nezíb, [44] Kegíla, Aksíb
og Maresa — níu borgir og þorpin, er að liggja. [45] Ekron með smá-
borgum hennar og þorpum. [46] Frá Ekron og vestur að hafi alt það,
sem er á hlið við Asdód, og þorpin, er að liggja, [47] Asdód með smá-
borgum hennar og þorpum, Gaza með smáborgum hennar og þorpum,
alt til Egiptalandsár, en vesturtakmörkum réð hafið mikla.
[48] En í fjalllendinu: Samír, Jattír, Sókó, [49] Danna, Kirjat-Sanna,
það er Debír, [50] Anab, Estemó, Aním, [51] Gósen, Hólon og Giló — ellefu
borgir og þorpin, er að liggja. [52] Enn fremur Arab, Dúma, Esean,
[53] Janúm, Bet-Tappúa, Afeka, [54] Húmta, Kirjat-Arba, það er Hebron,
og Zíór — níu borgir og þorpin, er að liggja. [55] Enn fremur Maon,
Karmel, Síf, Júta, [56] Jesreel, Jokdeam, Sanóa, [57] Kaín, Gíbea og Timna
— tíu borgir og þorpin, er að liggja. [58] Enn fremur Halhúl, Bet-Zúr,
Gedór, [59] Maarat, Bet-Anót og Eltekón — sex borgir og þorpin, er að
liggja. [60] Enn fremur Kirjat-Baal, það er Kirjat-Jearím, og Rabba —
tvær borgir og þorpin, er að liggja.
[61] Í eyðimörkinni: Bet-Araba, Middín, Sekaka, [62] Nibsan, Salt-
borgin og Engedí — sex borgir og þorpin, er að liggja. [63] En Jebús-
ítana, sem bjuggu í Jerúsalem, gátu Júda synir ekki rekið burt; fyrir
því hafa Jebúsítar búið í Jerúsalem ásamt Júda sonum fram á þenn-
an dag.

## Landeign Efraíms.

16 Síðan kom upp hlutur Jósefs sona og hlutu þeir land austan
frá Jórdan, gegnt Jeríkó, til Jeríkó-vatna, eyðimörkina, sem ligg-
ur frá Jeríkó upp á Betelfjöll. [2] Frá Betel lágu landamerkin til Lús,
þaðan yfir til lands Arkíta, til Atarót, [3] þaðan ofan á við og í vestur,
til lands Jafletíta, að landamærum Bet-Hóron neðri og alt til Geser,
og þaðan alla leið til sjávar. [4] Og synir Jósefs, Manasse og Efraím,
fengu óðal sitt. [5] Og þetta var land Efraíms sona, eftir ættum þeirra:
Takmörk ættaróðals þeirra voru að austan Aterót-Addar til Bet-Hóron
efri; [6] og takmörkin lágu út að hafi; að norðan var Mikmetat; þaðan
beygðu landamerkin af austur á við til Taanat-Síló og þar fram hjá
austur fyrir Janóha. [7] En frá Janóha lágu þau ofan á við til Atarót
og Naarat, lentu hjá Jeríkó og lágu þaðan að Jórdan. [8] Frá Tappúa
lágu landamerkin í vestur til Kana-lækjar og þaðan alla leið til sjávar.
Þetta er óðal kynkvíslar Efraíms sona, eftir ættum þeirra; [9] auk þess
borgirnar, sem skildar voru frá handa Efraíms sonum í ættaróðali
Manasse sona — allar borgirnar og þorpin, er að lágu. [10] En ekki
ráku þeir burt Kanaanítana, sem bjuggu í Geser; fyrir því búa Kana-
anítar meðal Efraíms fram á þennan dag, og urðu vinnuskyldir
þrælar.

---

47: 4 Mós. 34, 6. 63: Dóm. 1, 21. 2 Sam. 5, 6 n. — 16, 9: kap. 17, 8—10. 10:
kap. 13, 13; 17, 13. Dóm. 1, 29. 1 Kong. 9, 16. 21.

## Landeign Manasse.

17 Og kynkvísl Manasse fékk sinn hlut, því að hann var frum-
getningur Jósefs; Makír, frumgetningur Manasse, faðir Gíleaðs,
fékk Gíleað og Basan, því að hann var bardagamaður. 2 Og hinir
synir Manasse fengu sinn hluta eftir ættum þeirra: synir Abíesers, synir
Heleks, synir Asríels, synir Sekems, synir Hefers og synir Semída.
Þessir voru synir Manasse Jósefssonar í karlegginn, eftir ættum þeirra.
3 En Zelofhað Hefersson, Gíleaðssonar, Makírssonar, Manassesonar, átti
enga sonu, heldur dætur einar, og hétu þær Mahla, Nóa, Hogla, Milka
og Tirza. 4 Þær gengu fyrir Eleasar prest, Jósúa Núnsson og höfuðs-
mennina og sögðu: Jahve bauð Móse að gefa oss óðal meðal bræðra
vorra. Gaf hann þeim þá eftir boði Jahve óðal meðal bræðra föður
þeirra. 5 Komu þá tíu hlutir á Manasse — auk Gíleað-lands og Bas-
ans, sem liggja hinumegin Jórdanar —, 6 með því að dætur Manasse
fengu óðal meðal sona hans; en Gíleað-land fengu hinir synir
Manasse.
7 En landamerki Manasse lágu frá Asser til Mikmetat, sem liggur
fyrir austan Síkem; þaðan lágu landamærin til hægri, til þeirra sem
bjuggu í En-Tappúa. 8 Tappúa-sveit fékk Manasse, en Tappúa-borg,
sem lá við takmörk Manasse, fengu Efraíms synir. 9 Þá lágu landa-
merkin niður að Kana-læk, fyrir sunnan lækinn; þessar borgir heyra
Efraím mitt á meðal borga Manasse; þaðan lágu landamerki Manasse
norðan með læknum og alla leið til sjávar. 10 Það, sem var að sunn-
anverðu, átti Efraím, en það, sem var að norðanverðu, átti Manasse,
og hafið réð takmörkum hans. Að norðanverðu lágu lönd þeirra að
Asser og að austanverðu að Íssakar. 11 En í Íssakar og Asser fékk
Manasse: Bet-Sean og smáborgirnar, er að liggja, Jibleam og smá-
borgirnar, er að liggja, íbúana í Dór og smáborgirnar, er að liggja,
íbúana í Endór og smáborgirnar, er að liggja, íbúana í Taanak og
smáborgirnar, er að liggja, og íbúana í Megiddó og smáborgirnar, er
að liggja, — hæðirnar þrjár. 12 En ekki gátu Manasse synir stökt í-
búum þessara borga burt, og þannig fengu Kanaanítar haldið bústað
í landi þessu. 13 En þegar Ísraelsmenn efldust, gjörðu þeir Kanaaníta
sér vinnuskylda, en ráku þá ekki algjörlega burt.
14 Þá báru Jósefs synir sig upp við Jósúa og sögðu: Hví hefir þú
ekki gefið mér nema eitt hlutskifti og einn hlut að óðali, og er eg þó
fjölmennur, þar sem Jahve hefir blessað mig alt til þessa? 15 En Jósúa
sagði við þá: Ef þú ert orðinn svo fjölmennur, þá far þú upp í skóg-
inn og ryð þér þar til bólstaða í landi Peresíta og Refaíta, ef of þröngt
er orðið um þig á Efraím-fjöllum. 16 Þá sögðu Jósefs synir: Fjalllend-
ið nægir oss eigi, því að allir Kanaanítar, þeir er á sléttlendinu búa,
hafa járnvagna, bæði þeir sem búa í Bet-Sean og þorpunum, er að
liggja, og þeir sem búa á Jesreel-sléttunni. 17 Þá sagði Jósúa við hús
Jósefs, við Efraím og Manasse: Þú ert orðinn fjölmennur og styrkur
þinn er mikill; þú skalt fá meira en einn erfðahluta; 18 því að fjall-
lendið skal vera þitt; ef það er skógi vaxið, þá verður þú að ryðja
hann; þá munt þú og eignast fjalladrögin. Því að þú verður að reka
Kanaanítana burt, fyrst þeir hafa járnvagna og fyrst þeir eru sterkir.

---

**17, 1:** 4 Mós. 32, 39 n. 5 Mós. 3, 13. **2:** 4 Mós. 26, 29 n. **3:** 4 Mós. 26, 33; 27, 1 n. 36, 2. 10 n. **9:** kap. 16, 9. **12:** Dóm. 1, 27 n.

### Óskift land skrifað upp. Hlutur Benjamíns.

18 Og allur söfnuður Ísraelsmanna safnaðist saman í Síló, og
reistu þeir þar samfundatjaldið, enda höfðu þeir nú lagt landið
undir sig. [2] En enn þá voru eftir sjö ættkvíslir meðal Ísraelsmanna,
sem eigi höfðu skift arfleifð sinni. [3] Jósúa sagði þá við Ísraelsmenn:
Hversu lengi ætlið þér að vera svo tómlátir, að fara ekki og taka til
eignar land það, sem Jahve, Guð feðra yðar, hefir gefið yður. [4] Veljið
nú þrjá menn af ættkvísl hverri, og mun eg senda þá út; skulu þeir
halda af stað og fara um landið og skrifa það upp með tilliti til þess,
að því á að skifta meðal þeirra; skulu þeir síðan koma aftur til mín.
[5] Því næst skulu þeir skifta því í sjö hluti. Júda skal halda
sínu landi í suðri og hús Jósefs skal halda sínu landi í norðri. [6] En
þér skuluð skrifa landið upp í sjö hluti og færa mér hingað, síðan
mun eg varpa hlutum fyrir yður hér frammi fyrir augliti Jahve, Guðs
vors. [7] Því að Levítarnir fá eigi hlut meðal yðar, heldur er prestdómur
Jahve óðal þeirra. En Gað og Rúben og hálf ættkvísl Manasse
hafa fengið sinn erfðahluta hinumegin Jórdanar, austanmegin, þann er
Móse, þjónn Jahve, gaf þeim.

[8] Þá tóku mennirnir sig upp og héldu af stað, og Jósúa bauð þeim,
er fóru, að skrifa upp landið, og mælti: Farið nú og ferðist um landið
og skrifið það upp, komið síðan aftur til mín; mun eg þá varpa hlutum
fyrir yður hér frammi fyrir Jahve í Síló. [9] Og mennirnir héldu
af stað og fóru um landið og skrifuðu það upp í bók eftir borgunum
í sjö hluti; síðan komu þeir til Jósúa í herbúðirnar í Síló. [10] Og Jósúa
varpaði hlutum fyrir þá í Síló frammi fyrir Jahve, og Jósúa skifti þar
landinu meðal Ísraelsmanna eftir skiftingu þeirra.

[11] Kom nú upp hlutur kynkvíslar Benjamíns sona eftir ættum þeirra,
og lá land það, er þeim hlotnaðist, milli Júda sona og Jósefs sona.
[12] Landamerki þeirra að norðanverðu lágu frá Jórdan og upp á hálsinn
fyrir norðan Jeríkó, og þaðan vestur á fjöllin og alla leið til eyðimerkurinnar
hjá Betaven. [13] Þaðan lágu landamerkin yfir til Lús, yfir
á hálsinn fyrir sunnan Lús, það er Betel; þaðan lágu landamerkin niður
til Aterót-Addar, yfir á fjallið, sem er fyrir sunnan Bet-Hóron neðri.
[14] Þá beygðust landamerkin við og lágu í suðvestur frá fjallinu, sem
er fyrir sunnan Bet-Hóron, og lágu alla leið til Kirjat-Baal, það er
Kirjat-Jearím, borg Júda sona; þetta voru vesturtakmörkin. [15] Suðurtakmörkin
lágu frá útjaðrinum á Kirjat-Jearím og lágu þau í vestur og
gengu út að Neftóa-vatnslind. [16] Þá lágu landamerkin niður að enda
fjallsins, sem liggur andspænis Hinnomssonardal og norðanvert í Refaím-dal,
þaðan niður Hinnomsdal að Jebúsíta-öxl sunnanverðri og þaðan
niður að Rógel-lind. [17] Þaðan beygðust þau norður á við og lágu til
En-Semes og þaðan til Gelílót, sem liggur þar gegnt sem upp er gengið
til Adúmmím, þaðan niður til steins Bóhans, Rúbenssonar, [18] þaðan
yfir á hálsinn, sem liggur gegnt Araba norðanvert, og þaðan niður til
Araba. [19] Þaðan lágu landamerkin norðan fram með hálsinum hjá
Bet-Hogla og alla leið að nyrztu vík Saltasjós, þar sem Jórdan fellur
suður í hann. Þetta voru suðurtakmörkin. [20] En að austanverðu réð
Jórdan mörkum. Þessi voru landamærin hringinn í kring um arfleifð
Benjamíns, eftir ættum þeirra.

[21] En borgir kynkvíslar Benjamíns sona, eftir ættum þeirra, voru:
Jerikó, Bet-Hogla, Emek-Keziz, [22] Bet-Araba, Zemaraím, Betel, [23] Avím,
Para, Ofra, [24] Kefar-Ammóní, Ofní og Geba — tólf borgir og þorpin,

---

**18, 7:** kap. 13, 14 n. **13:** 1 Mós. 28, 19. **16:** kap. 15, 6 n.

er að liggja, [25] Gíbeon, Rama, Beerót, [26] Mizpe, Kefíra, Móza, [27] Rekem,
Jirpeel, Tarala, [28] Zela, Elef, Jebúsítaborg, það er Jerúsalem, Gíbeat og
Kirjat — fjórtán borgir og þorpin, er að liggja. Þetta var arfleifð
Benjamíns sona eftir ættum þeirra.

### Land hinna ættkvíslanna sex.

19 Þá kom næst upp hlutur Símeons, kynkvíslar Símeons sona
eftir ættum þeirra; en arfleið þeirra lá inni í arfleið Júda sona
miðri. [2] En þeir fengu að arfleifð: Beerseba og Seba, Mólada, [3] Hazar-
Súal, Bala, Ezem, [4] Eltólað, Betúl, Horma, [5] Ziklag, Bet-Markabót,
Hazar-Súsa, [6] Bet-Lebaót og Sarúhen — þrettán borgir og þorpin, er
að liggja. [7] Aín, Rimmon, Eter og Asan — fjórar borgir og þorpin, er
að liggja, [8] auk þess öll þau þorp, er lágu kring um borgir þessar alt
til Baalat-Beer, Rama suðurlandsins. Þetta var arfleifð kynkvíslar Síme-
ons sona, eftir ættum þeirra. [9] Arfleifð Símeons sona var nokkur hluti
af landshluta Júda sona; því að hluti Júda sona var of stór fyrir þá,
og fyrir því fengu Símeons synir arfleifð í miðri arfleifð þeirra.
[10] Þá kom upp þriðji hluturinn; það var hlutur Sebúlons sona
eftir ættum þeirra, og náðu landamerki arfleifðar þeirra alt til Saríd.
[11] Og landamerki þeirra lágu í vestur upp til Marala, þaðan út til
Dabbeset og lentu hjá læknum, sem rennur fyrir austan Jokneam.
[12] Til austurs aftur á móti, gegn upprás sólar, lágu þau frá Saríd til
landamæra Kíslót-Tabors, þaðan til Daberat og þaðan upp til Jafía.
[13] Þaðan lágu þau í austur, mót upprás sólar, yfir til Gat-Hefer, til Et-
Kazín, síðan til Rimmon, sem nær alt til Nea. [14] Og landamerkin
beygðu þar við, norður til Hannatón, og alla leið til Jifta-El-dals.
[15] .... Katat, Nahalal, Simron, Jidala og Betlehem — tólf borgir og
þorpin, er að liggja. [16] Þetta var arfleifð Sebúlons sona, eftir ættum
þeirra: þessar borgir og þorpin, er að liggja.
[17] Þá kom upp fjórði hluturinn; það var hlutur Íssakars, Íssak-
ars sona eftir ættum þeirra. [18] Og land þeirra tók yfir: Jesreel, Kesúl-
lót, Súnem, [19] Hafaraím, Síón, Anaharat, [20] Rabbít, Kisjon, Ebez, [21] Re-
met, En-Ganním, En-Hadda og Bet-Pazzez. [22] Og landamerkin náðu
til Tabor, Sahazíma og Bet-Semes, og alla leið til Jórdanar — sextán
borgir og þorpin, er að liggja. [23] Þetta var arfleifð kynkvíslar Íssak-
ars sona eftir ættum þeirra, borgirnar og þorpin, er að liggja.
[24] Þá kom upp fimti hluturinn; það var hlutur kynkvíslar Assers
sona, eftir ættum þeirra. [25] Og land þeirra tók yfir: Helkat, Halí, Beten,
Aksaf, [26] Allammelek, Amead og Míseal, og þau náðu vestur að Karmel
og Síhór-Libnat. [27] Þaðan lágu þau í austur til Bet-Dagón, og náðu að
Sebúlon og Jifta-El-dal í norðri, Bet-Emek og Negíel, og lágu norður
til Kabúl, [28] Ebron, Rehób, Hammon og Kana, alt til hinnar miklu
Zídon. [29] Þaðan beygðust landamerkin til Rama og alt til hinnar víg-
girtu borgar Týrus, og þaðan aftur til Hósa og þaðan alla leið til
sjávar, frá því er Aksíb-héraði sleppir. [30] Auk þess Akkó, Afek og
Rehób — tuttugu og tvær borgir og þorpin, er að liggja. [31] Þetta var
arfleifð kynkvíslar Assers sona, eftir ættum þeirra; þessar borgir og
þorpin, er að liggja.
[32] Þá kom upp sétti hluturinn; það var hlutur Naftalí sona, Naftalí
sona eftir ættum þeirra. [33] Og landamerki þeirra lágu frá Helef, frá
eikunum hjá Zaananním, Adamí-Nekeb og Jabneel alt til Lakkúm og
alla leið að Jórdan. [34] Þaðan gengu landamærin í vestur til Asnót-

**19, 1:** 1 Mós. 49, 7.

Tabor, þaðan út til Húkkók, náðu til Sebúlons að sunnanverðu, til
Assers að vestanverðu og til Júda við Jórdan gegnt upprás sólar. [35] Og
víggirtar borgir voru þar: Zíddím, Zer, Hammat, Rakkat, Kinneret,
[36] Adama, Rama, Hazór, [37] Kedes, Edreí, En-Hazór, [38] Jirón, Migdal-El,
Horem, Bet-Anat og Bet-Semes — nítján borgir og þorpin, er að liggja.
[39] Þetta var arfleifð kynkvíslar Naftalí sona eftir ættum þeirra, borgirnar og þorpin, er að liggja.

[40] Loks kom upp sjöundi hluturinn og var það hlutur kynkvíslar
Dans sona, eftir ættum þeirra. [41] Og landamerkin að arfleifð þeirra
voru: Zorea, Estaól, Ír-Semes, [42] Saalabbín, Ajalon, Jitla, [43] Elón, Timnat, Ekron, [44] Elteke, Gibbetón, Baalat, [45] Jehúd, Bene-Berak, Gat-Rimmon, [46] Me-Jarkón og Rakkon, ásamt landinu gegnt Jafó. [47] Og land
Dans sona gekk undan þeim. Þá fóru Dans synir og herjuðu á Lesem,
unnu hana og tóku hana herskildi, slógu síðan eign sinni á hana og
settust þar að, og nefndu hana Dan eftir nafni Dans, föður þeirra.
[48] Þetta var arfleifð kynkvíslar Dans sona eftir ættum þeirra: þessar
borgir og þorpin, er að liggja.

[49] Og er Ísraelsmenn höfðu skift landinu öllu til yztu ummerkja,
gáfu þeir Jósúa Núnssyni óðal meðal sín. [50] Eftir boði Jahve gáfu
þeir honum borg þá, er hann sjálfur kaus, en það var Timnat-Sera í
Efraím-fjöllum. Hann bygði upp borgina og bjó þar síðan.

[51] Þessar voru arfleifðirnar, er þeir Eleasar prestur, Jósúa Núnsson og ætthöfðingjar kynkvísla Ísraelsmanna úthlutuðu með hlutkesti
í Síló frammi fyrir Jahve, við dyr samfundatjaldsins. Höfðu þeir nú
lokið því að skifta landinu.

## Settir griðastaðir.

20 Og Jahve talaði við Jósúa á þessa leið: [2] Tala þú til Ísraelsmanna og seg: Takið nú til griðastaðina, þá er eg hefi talað
um við yður fyrir Móse, [3] að þangað megi flýja vegandi, sá er af vangá, óviljandi, hefir orðið manni að bana, svo að þeir séu yður hæli
fyrir hefnanda. [4] Hann má flýja í einhverja af borgum þessum og
nema staðar rétt fyrir utan borgarhliðið og skýra þar frá máli sínu í
áheyrn öldunga borgar þeirrar; skulu þeir taka við honum inn í borgina og fá honum stað, svo að hann megi búa hjá þeim. [5] Og ef hefnandinn eltir hann, þá skulu þeir eigi framselja vegandann í hendur
honum, þar eð hann óviljandi hefir orðið náunga sínum að bana og
eigi verið óvinur hans áður. [6] Og hann skal hafa aðsetur í borg þeirri,
þar til er hann hefir komið fyrir dóm safnaðarins, þar til sá æðsti
prestur er dáinn, sem þá er; þá má vegandinn hverfa aftur og fara
heim til sinnar borgar og síns húss, þeirrar borgar, er hann flýði úr.

[7] Þá helguðu þeir Kedes í Galíl á Naftalí-fjöllum, Sikem á Efraímfjöllum og Kirjat-Arba, það er Hebron, á Júda-fjöllum. [8] En hinumegin Jórdanar, gegnt Jeríkó að austanverðu, létu þeir af hendi Bezer
í eyðimörkinni, á sléttlendinu, af kynkvísl Rúbens, Ramót í Gíleað af
kynkvísl Gaðs og Gólan í Basan af kynkvísl Manasse. [9] Þetta voru
borgirnar, sem tilteknar voru handa öllum Ísraelsmönnum og útlendingum þeim, er meðal þeirra dvöldust, að þangað mætti flýja hver sá
maður, sem óviljandi hefði orðið manni að bana, svo að hann þyrfti
ekki að deyja fyrir hendi hefnandans, þar til er hann hefði staðið fyrir
máli sínu frammi fyrir söfnuðinum.

---

**47:** Dóm. 1, 34; 18, 27 n. **51:** kap. 18, 1. — **20, 3:** 4 Mós. 35, 6 n. **6:** 4 Mós. 35,
12. 24. 25. **8:** 5 Mós. 4, 41—43.

### Levítaborgirnar.

21 Þá gengu ætthöfðingjar Levítanna fyrir þá Eleasar prest, Jós-
úa Núnsson og ætthöfðingja kynkvísla Ísraelsmanna [2] og töluðu
þannig til þeirra í Síló í Kanaanlandi: Jahve bauð fyrir Móse að oss
skyldi borgir gefa til bústaða, svo og beitilandið, er að þeim liggur,
handa fénaði vorum. [3] Þá gáfu Ísraelsmenn Levítunum af óðulum
sínum, eftir boði Jahve, þessar borgir og beitilönd þau, er að þeim lágu.
[4] Nú kom upp hlutur ætta Kahatíta, og fengu þá meðal Levítanna
synir Arons prests með hlutkesti þrettán borgir hjá Júda-kynkvísl,
Símeons-kynkvísl og Benjamíns-kynkvísl. [5] En hinir synir Kahats
fengu með hlutkesti tíu borgir frá ættum Efraíms-kynkvíslar og frá
Dans-kynkvísl og frá hálfri kynkvísl Manasse. [6] Synir Gersons fengu
með hlutkesti þrettán borgir frá ættum Íssakars-kynkvíslar, frá Assers-
kynkvísl, frá Naftalí-kynkvísl og frá hálfri kynkvísl Manasse í Basan.
[7] Og Merarí synir fengu tólf borgir eftir ættum þeirra frá Rúbens-
kynkvísl, frá Gaðs-kynkvísl og frá Sebúlons-kynkvísl. [8] En Ísraels-
menn gáfu Levítunum borgir þessar og beitilandið, er að þeim liggur,
eftir hlutkesti, eins og Jahve hafði boðið fyrir Móse. [9] Gáfu þeir af
kynkvísl Júda sona og af kynkvísl Símeons sona þessar borgir, sem
hér eru nafngreindar: [10] Af ættum Kahatíta meðal Leví sona fengu
Arons synir — því að fyrsti hluturinn hlotnaðist þeim —, [11] þeim
gáfu þeir Kirjat-Arba, er átt hafði Arba, faðir Anaks, það er Hebron,
á Júda-fjöllum og beitilandið umhverfis hana. [12] En akurland borgar-
innar og þorpin, er að henni lágu, gáfu þeir Kaleb Jefúnnesyni til
eignar. [13] Og sonum Arons prests gáfu þeir Hebron, sem var griða-
staður vígsekra, og beitilandið, er að henni lá, Líbna og beitilandið,
er að henni lá, [14] Jattír og beitilandið, er að henni lá, Estemóa og
beitilandið, er að henni lá, [15] Hólon og beitilandið, er að henni lá,
Debír og beitilandið, er að henni lá, [16] Asan og beitilandið, er að
henni lá, Jútta og beitilandið, er að henni lá, og Bet-Semes og beiti-
landið, er að henni lá — níu borgir frá þessum tveimur ættkvíslum.
[17] Og af Benjamíns-kynkvísl: Gíbeon og beitilandið, er að henni lá,
Geba og beitilandið, er að henni lá, [18] Anatót og beitilandið, er að
henni lá, og Almón og beitilandið, er að henni lá — fjórar borgir.
[19] Þannig hlutu synir Arons, prestarnir, þrettán borgir alls og beitilönd
þau, er að þeim lágu.
[20] Og að því er snertir ættir þeirra Kahats sona, er töldust
til Levítanna, hinna Kahats sona, þá fengu þær borgir þær, er
þeim hlotnuðust frá Efraíms-kynkvísl. [21] Og þeir gáfu þeim Síkem,
sem var griðastaður vígsekra, og beitilandið, er að henni lá, á Efraím-
fjöllum, Geser og beitilandið, er að henni lá, [22] Kibzaím og beitilandið,
er að henni lá, og Bet-Hóron og beitilandið, er að henni lá — fjórar
borgir. [23] Og frá kynkvísl Dans: Elteke og beitilandið, er að henni lá,
Gibbetón og beitilandið, er að henni lá, [24] Ajalon og beitilandið, er að
henni lá, og Gat-Rimmon og beitilandið, er að henni lá — fjórar borgir.
[25] Og frá hálfri kynkvísl Manasse: Taanak og beitilandið, er að henni
lá, og Jibleam og beitilandið, er að henni lá — tvær borgir. [26] Ættir
hinna Kahats sona hlutu þannig tíu borgir alls og beitilönd þau,
er að þeim lágu.
[27] Af ættum Levítanna fengu Gersons synir frá hálfri kynkvísl
Manasse: Gólan í Basan, griðastað vígsekra, og beitilandið, er að henni
lá, og Beestera og beitilandið, er að henni lá — tvær borgir. [28] Og

---

**21, 2:** 4 Mós. 35, 2 n. **10:** 1 Kron. 6, 54 n. **12:** kap. 14, 14; 15, 13.

frá Íssakars-kynkvísl: Kisjón og beitilandið, er að henni lá, Daberat
og beitilandið, er að henni lá, 29 Jarmút og beitilandið, er að henni lá,
og En-Ganním og beitilandið, er að henni lá — fjórar borgir. 30 Og
frá Assers-kynkvísl: Míseal og beitilandið, er að henni lá, Abdón og
beitilandið, er að henni lá, 31 Helkat og beitilandið, er að henni lá,
og Rehób og beitilandið, er að henni lá — fjórar borgir. 32 Og frá
Naftalí-kynkvísl: Kedes í Galíl, griðastað vígsekra, og beitilandið, er að
henni lá, Hammót-Dór og beitilandið, er að henni lá, og Kartan og beiti-
landið, er að henni lá — þrjár borgir. 33 Þannig hlutu Gersonítar, eftir
ættum þeirra, þrettán borgir alls og beitilönd þau, er að þeim lágu.
34 Ættir Merarí sona, þeirra Leví sona, er enn voru eftir, fengu
frá Sebúlons-kynkvísl: Jokneam og beitilandið, er að henni lá, Karta
og beitilandið, er að henni lá, 35 Dimna og beitilandið, er að henni lá,
og Nahalal og beitilandið, er að henni lá — fjórar borgir. 36 Og frá
Rúbens-kynkvísl: Bezer í eyðimörkinni, griðastað vígsekra, og beiti-
landið, er að henni lá, Jahza og beitilandið, er að henni lá, 37 Kede-
mót og beitilandið, er að henni lá, og Mefaat og beitilandið, er að henni
lá — fjórar borgir. 38 Og frá Gaðs-kynkvísl: Ramót í Gíleað, griðastað víg-
sekra, og beitilandið, er að henni lá, Mahanaím og beitilandið, er að henni
lá, 39 Hesbon og beitilandið, er að henni lá, og Jaeser og beitilandið,
er að henni lá — fjórar borgir alls. 40 Þannig fengu Merarí synir,
eftir ættum þeirra, þeir er enn voru eftir af ættum Levítanna, í sitt
*hlutskifti* tólf borgir alls. 41 Borgir þær, er Levítarnir fengu inni í
eignarlöndum Ísraelsmanna, voru fjörutíu og átta alls, og beitilöndin,
er að þeim lágu, 42 Og allar þessar borgir voru hver um sig ein borg
með beitilandi umhverfis; var svo um allar þessar borgir.
43 Og Jahve gaf Ísrael alt landið,. er hann hafði svarið að gefa
feðrum þeirra, og þeir tóku það til eignar og settust þar að. 44 Og
Jahve lét þá búa í friði á alla vegu, öldungis eins og hann hafði svarið
feðrum þeirra. Enginn af öllum óvinum þeirra fékk staðist fyrir þeim;
Jahve gaf alla óvini þeirra í hendur þeim. 45 Ekkert brást af öllum
fyrirheitum þeim, er Jahve hafði gefið húsi Ísraels: þau rættust öll.

## Ættkvíslirnar austan Jórdanar fá heimfararleyfi og reisa altari.

22 Þá kallaði Jósúa Rúbeníta, Gadíta og hálfa kynkvísl Manasse
fyrir sig 2 og sagði við þá: Þér hafið haldið alt það, sem Móse,
þjónn Jahve, bauð yður; þér hafið og hlýtt röddu minni í öllu því,
er eg hefi fyrir yður lagt. 3 Þennan langa tíma alt fram á þennan dag
hafið þér fylgi veitt bræðrum yðar, og varðveitt hlýðni við boðorð
Jahve, Guðs yðar. 4 En nú hefir Jahve, Guð yðar, veitt bræðrum yðar
hvíld, eins og hann hafði heitið þeim; snúið því nú á leið og farið
til tjalda yðar, til eignarlands yðar, þess er Móse, þjónn Jahve, gaf
yður hinumegin Jórdanar. 5 Gætið þess einungis, að þér haldið vel
boðorð það og lögmál, er Móse, þjónn Jahve, fyrir yður lagði: að
þér elskið Jahve, Guð yðar, gangið ávalt á vegum hans, geymið boð
hans, haldið yður fast við hann og þjónið honum af öllu hjarta yðar
og af allri sálu yðar. 6 Síðan blessaði Jósúa þá og lét þá burt fara,
og þeir héldu til tjalda sinna.
7 Hálfri ættkvísl Manasse hafði Móse gefið land í Basan; en hin-
um helmingnum hafði Jósúa gefið land með bræðrum þeirra vestan-
megin Jórdanar. Og þegar Jósúa lét þá burt fara til tjalda sinna,

---

**41:** 4 Mós. 35, 7. **43:** 1 Mós. 12, 7; 13, 17; 15, 18 n. **44:** 5 Mós. 11, 25. **45:** kap. 23, 14. 1 Kong. 8, 56. — **22, 2:** 4 Mós. 32, 20 n. 5 Mós. 3, 18 n. Jós. 1, 12n. **4:** 5 Mós. 3, 12 n. **5:** 5 Mós. 10, 12; 13, 4. **7:** kap. 17, 1 n.

blessaði hann þá enn fremur [8] og sagði við þá: Hverfið nú aftur til
tjalda yðar með mikil auðæfi, mjög mikinn fénað, með silfur og gull,
eir og járn, og með mjög mikið af klæðnaði; miðlið bræðrum yðar
nokkuru af því, er þér hafið tekið að herfangi af óvinum yðar. [9] Þá
sneru þeir Rúbens synir, Gaðs synir og hálf ættkvísl Manasse aftur
og skildu við Ísraelsmenn í Síló, sem er í Kanaanlandi, og héldu til
Gíleað-lands, eignarlands síns, þar sem þeir höfðu fest bygð eftir boði
Jahve fyrir Móse. [10] En er þeir komu til Gelílót við Jórdan, sem er í
Kanaanlandi, þá reistu þeir Rúbens synir og Gaðs synir og hálf ætt-
kvísl Manasse þar altari við Jórdan, og var það mikið til að sjá.
[11] Ísraelsmenn fengu þá svolátandi fregn: Sjá, Rúbens synir og Gaðs
synir og hálf ættkvísl Manasse hafa reist altari gegnt Kanaanlandi í
Gelílót við Jórdan, hinumegin við Ísraelsmenn. [12] Og er Ísraelsmenn
spurðu það, þá safnaðist allur lýður Ísraelsmanna saman í Síló, til
þess að fara í móti þeim til hernaðar. [13] Þá sendu Ísraelsmenn Pínehas,
son Eleasar prests, til Rúbens sona og Gaðs sona og hálfrar ættkvíslar
Manasse til Gíleað-lands, [14] og með honum tíu höfuðsmenn, einn höf-
uðsmann af ætt hverri af öllum kynkvíslum Ísraels; var hver þeirra
höfðingi yfir ættum feðra sinna meðal þúsunda Ísraels. [15] Og er þeir
komu til Rúbens sona og Gaðs sona og hálfrar ættkvíslar Manasse til
Gíleað-lands, þá mæltu þeir við þá á þessa leið: [16] Svo segir allur
söfnuður Jahve: Hvílík er sú ótrúmenska, sem þér hafið sýnt gegn
Guði Ísraels, að þér í dag hafið snúið yður burt frá Jahve, er þér
hafið reist yður altari, að þér í dag hafið gjört uppreisn gegn Jahve?
[17] Er oss ekki nógur glæpur sá, að vér tilbáðum Peór, og höfum vér
ekki hreinsað oss af þeim glæp fram á þennan dag og fyrir hann kom
plágan yfir söfnuð Jahve. [18] Og þér snúið yður í dag burt frá Jahve!
Mun þá svo fara: þér gjörið í dag uppreisn gegn Jahve, og á morgun
mun hann úthella reiði sinni yfir allan söfnuð Ísraels. [19] En sé annars
land það óhreint, er þér hafið hlotið til eignar, þá komið yfir í eignar-
land Jahve, þar sem búð Jahve hefir aðsetur, og setjist að meðal vor.
En gjörið ekki uppreisn gegn Jahve og gjörið ekki uppreisn gegn oss,
með því að reisa yður altari, annað en altari Jahve, Guðs vors.
[20] Kom ekki reiði Guðs yfir allan söfnuð Ísraels, þá er Akan Serason
fór sviksamlega með hið bannfærða, svo að hann dó ekki einn fyrir
glæp sinn?

[21] Þá svöruðu þeir Rúbens synir og Gaðs synir og hálf ættkvísl
Manasse og sögðu við höfðingja Ísraels þúsunda: [22] Hinn máttki, Guð,
Jahve — Hinn máttki, Guð, Jahve, hann veit það, og Ísrael skal vita
það: Ef það er gjört í uppreisnar eða sviksemi skyni við Jahve —
hjálpa þú oss þá eigi í dag! — [23] að vér höfum reist oss altari, til
þess að snúa oss burt frá Jahve; ef það er gjört til þess, að færa þar
brennifórn og matfórn, eða til þess að fórna þar heillafórnum, þá
hefni Jahve þess! [24] Heldur höfum vér gjört það af hræðslu við, hvernig
fara kynni, með því að vér hugsuðum: Á síðan kynnu synir yðar að
segja við sonu vora: »Hvað kemur Jahve, Ísraels Guð, yður við?
[25] Jahve hefir sett Jórdan sem landamerki milli vor og yðar Rúbens
sona og Gaðs sona. Þér eigið enga hlutdeild í Jahve!« Kynnu þá
synir yðar að koma sonum vorum til þess, að hætta að óttast Jahve.
[26] Fyrir því sögðum vér: Vér skulum reisa oss altari, ekki til brenni-
fórna og ekki til sláturfórna, [27] heldur skal það vera til vitnis fyrir oss
og fyrir yður, og fyrir niðja vora eftir oss, að vér viljum gegna þjón-
ustu Jahve fyrir augliti hans með brennifórnum vorum, sláturfórnum

---

**17:** 4 Mós. 25, 3n. **20:** kap. 7, 1 n.

og heillafórnum, og að synir yðar geti ekki á síðan sagt við sonu vora:
»Þér eigið enga hlutdeild í Jahve!« 28 Og vér sögðum: Ef þeir á síðan
mæla svo til vor eða niðja vorra, þá munum vér segja: Lítið á lögun-
ina á því Jahve-altari, sem feður vorir hafa gjört, ekki til brennifórna
eða sláturfórna, heldur átti það að vera til vitnis fyrir oss og yður.
29 Því fer fjarri, að vér vildum gjöra uppreisn gegn Jahve og snúa oss
burt frá Jahve í dag, með því að reisa altari til brennifórna, matfórna
og sláturfórna, annað en altari Jahve, Guðs vors, það er stendur fyrir
framan búð hans.
30 Þegar Pínehas prestur og höfuðsmenn safnaðarins, höfðingjar
Ísraels þúsunda, sem með honum voru, heyrðu andsvör þau, er Rúb-
ens synir og Gaðs synir og Manasse synir veittu, þá létu þeir sér það
vel líka. 31 Og Pínehas, sonur Eleasar prests, sagði við Rúbens sonu
og Gaðs sonu og Manasse sonu: Í dag höfum vér sannreynt, að Jahve
er á meðal vor, þar sem þér hafið ekki sýnt ótrúmensku gegn Jahve
í þessu; nú hafið þér frelsað Ísraelsmenn undan hendi Jahve. 32 Síðan
sneri Pínehas, sonur Eleasar prests, og höfuðsmennirnir heim aftur frá
Rúbens sonum og Gaðs sonum í Gileað-landi til Kanaanlands til Ísraels-
manna og færðu þeim þessi svör. 33 Létu Ísraelsmenn sér það vel líka,
og Ísraelsmenn lofuðu Guð og hugðu ekki framar á að fara herför á
móti þeim, til þess að eyða land það, er Rúbens synir og Gaðs synir
bjuggu í. 34 Og Rúbens synir og Gaðs synir nefndu altarið Galeð, því
að það er vitni þess milli vor, að Jahve er hinn sanni Guð.

### Jósúa áminnir lýðinn í síðasta sinn.

23 Löngum tíma eftir þetta, þá er Jahve hafði veitt Ísrael frið
fyrir öllum óvinum þeirra hringinn í kring, og Jósúa var orð-
inn gamall og hniginn að aldri, 2 þá kallaði Jósúa saman allan Ísrael,
öldunga hans og höfðingja, dómendur hans og tilsjónarmenn og sagði
við þá: Eg gjörist nú gamall og aldurhniginn. 3 Þér hafið sjálfir séð
alt það, sem Jahve, Guð yðar, hefir gjört öllum þessum þjóðum yðar
vegna; því að Jahve, Guð yðar, hefir sjálfur barist fyrir yður. 4 Sjáið,
með hlutkesti hefi eg úthlutað þjóðir þessar yður til handa, sem enn
eru eftir, ættkvíslum yðar til eignar, frá Jórdan, og allar þjóðirnar,
sem eg hefi eytt, alt til mikla hafsins gegnt sólar setri. 5 Og Jahve,
Guð yðar, mun sjálfur reka þá burt frá yður og stökkva þeim undan
yður, og þér munuð fá land þeirra til eignar, eins og Jahve, Guð yð-
ar, hefir heitið yður. 6 Reynist nú mjög staðfastir í því að halda og
gjöra alt það, sem ritað er í lögmálsbók Móse, án þess að víkja frá
því til hægri né vinstri, 7 svo að þér blandist eigi við þessar þjóðir,
sem enn eru eftir hjá yður, nefnið eigi guði þeirra á nafn, sverjið eigi
við þá, þjónið þeim eigi og fallið eigi fram fyrir þeim; 8 heldur haldið
yður fast við Jahve, Guð yðar, eins og þér hafið gjört fram á þennan
dag. 9 Fyrir því stökti Jahve undan yður miklum og voldugum þjóð-
um, og enginn hefir getað staðist fyrir yður fram á þennan dag. 10 Einn
yðar elti þúsund, því að Jahve, Guð yðar, barðist sjálfur fyrir yður,
eins og hann hefir heitið yður. 11 Gætið þess því vandlega — líf yðar
liggur við — að elska Jahve, Guð yðar. 12 Því ef þér gjörist fráhverfir
og samlagið yður leifum þjóða þessara, sem enn eru eftir hjá yður,
mægist við þær og blandist við þær, og þær við yður, 13 þá vitið fyrir

---

**23, 1:** kap. 21, 44; 13, 1. **3:** 5 Mós. 1, 30; 3, 22. **5:** 2 Mós. 23, 30. 5 Mós. 6, 19.
**6:** kap. 1, 7. 5 Mós. 5, 32. **7:** 2 Mós. 23, 13. 24. 5 Mós. 12, 3. **9:** 5 Mós. 4, 38;
7, 24. Jós. 1, 5. Am. 2, 9. **10:** 3 Mós. 26, 8. 5 Mós. 1, 30; 28, 7; 32, 30.

víst, að Jahve, Guð yðar, mun eigi halda áfram að stökkva þessum
þjóðum burt undan yður, heldur munu þær verða yður snara og fóta-
kefli, svipa á síður yðar og þyrnar í augum yðar, unz þér eruð af-
máðir úr þessu góða landi, sem Jahve, Guð yðar, hefir gefið yður.
14 Sjá, eg geng nú veg allrar veraldar, en þér skuluð vita af öllu hjarta
yðar og af allri sálu yðar, að ekkert hefir brugðist af öllum þeim fyr-
irheitum, er Jahve, Guð yðar, hefir gefið yður; öll hafa þau ræzt, ekk-
ert af þeim hefir brugðist. 15 En eins og öll þau fyrirheit, sem Jahve,
Guð yðar, hefir gefið yður, hafa ræzt á yður, eins mun Jahve láta
allar hótanir sínar á yður rætast, unz hann hefir gjöreytt yður úr
þessu góða landi, sem Jahve, Guð yðar, hefir gefið yður. 16 Ef þér
rjúfið sáttmála Jahve, Guðs yðar, þann er hann fyrir yður lagði, og
farið og þjónið öðrum guðum og fallið fram fyrir þeim, þá mun reiði
Jahve upptendrast í gegn yður, og þér munuð fljótt hverfa úr landinu
góða, sem hann hefir gefið yður.

### Sáttmálinn endurnýjaður. Jósúa andast. Bein Jósefs grafin. Eleasar andast.

24 Því næst stefndi Jósúa saman öllum ættkvíslum Ísraels í
Sikem og kallaði fyrir sig öldunga Ísraels og höfðingja hans,
dómendur hans og tilsjónarmenn, og þeir gengu fram fyrir auglit Guðs.
2 Þá mælti Jósúa við allan lýðinn: Svo segir Jahve, Ísraels Guð: For-
feður yðar bjuggu í fyrndinni fyrir handan fljótið, þeir Tara, faðir
Abrahams og Nahors, og dýrkuðu aðra guði. 3 Þá tók eg Abraham
forföður yðar handan yfir fljótið, og lét hann fara fram og aftur um
alt Kanaanland, og eg margfaldaði kyn hans og gaf honum Ísak. 4 Og
Ísak gaf eg þá Jakob og Esaú, og Esaú gaf eg Seír-fjöll, að hann skyldi
taka þau til eignar; en Jakob og synir hans fóru suður til Egiptalands.
5 Síðan sendi eg Móse og Aron, og laust Egiptaland með undrum þeim,
er eg framdi þar; síðar leiddi eg yður út þaðan. 6 Og eg leiddi feður
yðar út af Egiptalandi, og þér komuð að hafinu. En Egiptar veittu
feðrum yðar eftirför með vögnum og riddurum til Rauðahafs. 7 Þá
hrópuðu þeir til Jahve, og hann setti myrkur milli yðar og Egipta;
og hann lét hafið falla yfir þá, svo að það huldi þá. Og þér sáuð
með eigin augum, hvernig eg fór með Egipta; eftir það dvölduð þér
langa hríð í eyðimörkinni. 8 Síðan leiddi eg yður inn í land Amóríta,
sem bjuggu hinumegin Jórdanar, og þeir börðust við yður; en eg gaf
þá í hendur yður, og þér tókuð land þeirra til eignar, og eg eyddi
þeim fyrir yður. 9 Þá reis upp Balak Zippórsson, konungur í Móab,
og barðist við Ísrael. Sendi hann þá og lét kalla Bíleam Beórsson,
til þess að bölva yður. 10 En eg vildi ekki heyra Bíleam, og hann
blessaði yður þvert á móti; frelsaði eg yður þannig úr höndum hans.
11 Þá fóruð þér yfir Jórdan og komuð til Jeríkó; og Jeríkó-búar börð-
ust við yður, þeir Amórítar, Peresítar, Kanaanítar, Hetítar, Gírgasítar,
Hevítar og Jebúsítar, en eg gaf þá í yðar hendur. 12 Þá sendi eg geit-
unga á undan yður, og þeir stöktu þeim burt undan yður, Amóríta
konungunum tveimur, en hvorki sverð þitt né bogi þinn. 13 Og eg gaf
yður land, sem þér ekkert höfðuð fyrir haft, og borgir, sem þér höfð-

13: 2 Mós. 23, 33; 34, 15 n. 4 Mós. 33, 55. 5 Mós. 7, 3 n. Dóm. 2, 3. 5 Mós. 11, 17. 14: kap. 21, 45. 15: 3 Mós. 26, 14 n. 5 Mós. 28, 15 n. — 24, 2: 1 Mós. 11, 26. 31. 3: 1 Mós. 12, 1 n. 21, 2. 4: 1 Mós. 25, 24 n. 36, 8. 5 Mós. 2, 5. 1 Mós. 46, 6 n. 5: 2 Mós. 7—10. 1 Sam. 12, 8. 6: 2 Mós. 12, 37. 41. 51; 14, 5 n. 7: 2 Mós. 14, 10 n. 8: 4 Mós. 21, 24. 31. 9: 4 Mós. 22—24. 5 Mós. 23, 4 n. 11: kap. 3, 14 n. 10, 1 n. 11, 1 n. 12: 2 Mós. 23, 28. 5 Mós. 7, 20. Sálm. 44, 4.

uð ekki reist, en þó tókuð þér yður bólfestu í þeim; þér njótið nú ávaxtanna af víngörðum og olíutrjám, sem þér hafið ekki gróðursett.
[14] Óttist því Jahve og þjónið honum einlæglega og dyggilega, og kastið burt guðum þeim, er feður yðar þjónuðu fyrir handan fljótið og í Egiptalandi, og þjónið Jahve. [15] En líki yður ekki að þjóna Jahve, kjósið þá í dag, hverjum þér viljið þjóna, hvort heldur guðum þeim, er feður yðar þjónuðu, þeir er bjuggu fyrir handan fljótið, eða guðum Amóríta, hverra land þér nú byggið; en eg og mínir ættmenn munum þjóna Jahve.

[16] Þá svaraði lýðurinn og sagði: Fjarri sé það oss að yfirgefa Jahve, til að þjóna öðrum guðum. [17] Því að Jahve er vor Guð, hann sem leitt hefir oss og feður vora af Egiptalandi, úr þrælahúsinu, og gjört hefir þessi miklu undur að oss ásjáandi og varðveitt oss á allri þeirri leið, sem vér höfum nú farið, og meðal allra þeirra þjóða, þar sem vér höfum lagt um leið vora. [18] Og Jahve stökti burt undan oss öllum þjóðunum og Amórítum, íbúum landsins. Vér viljum einnig þjóna Jahve, því að hann er vor Guð! [19] Jósúa sagði þá við lýðinn: Þér getið ekki þjónað Jahve, því að hann er heilagur Guð; vandlátur Guð er hann; hann mun ekki fyrirgefa misgjörðir yðar og syndir.
[20] Ef þér yfirgefið Jahve og þjónið útlendum guðum, þá mun hann snúa við og láta ilt yfir yður koma og tortíma yður, í stað þess að hann áður hefir gjört vel til yðar. [21] Þá sagði lýðurinn við Jósúa: Nei, því að Jahve viljum vér þjóna. [22] Þá sagði Jósúa við lýðinn: Þér eruð vottar að því gegn sjálfum yður, að þér hafið kosið að þjóna Jahve. Og þeir sögðu: Vér erum það. [23] Og kastið nú burt útlendu guðunum, sem hjá yður eru, og hneigið hjörtu yðar til Jahve, Ísraels Guðs. [24] Og lýðurinn sagði við Jósúa: Jahve, Guði vorum, viljum vér þjóna og hlýða hans röddu.

[25] Og Jósúa gjörði sáttmála við lýðinn á þeim degi og setti honum lög og rétt þar í Sikem. [26] Og Jósúa ritaði þessi orð í lögmálsbók Guðs, tók því næst stein mikinn og reisti hann þar upp undir eikinni, sem stóð í helgidómi Jahve. [27] Og Jósúa sagði við allan lýðinn: Sjá, steinn þessi skal vera vitni gegn oss, því að hann hefir heyrt alt, sem Jahve hefir við oss talað, og hann skal vera vitni gegn yður, til þess að þér afneitið ekki Guði yðar. [28] Síðan lét Jósúa fólkið fara, hvern til síns óðals.

[29] Eftir þessa atburði andaðist Jósúa Núnsson, þjónn Jahve, hundrað og tíu ára gamall, [30] og var hann grafinn í eignarlandi sínu, hjá *Timnat*-Sera, sem liggur á Efraím-fjöllum, fyrir norðan Gaas-fjall. [31] Og Ísrael þjónaði Jahve meðan Jósúa var á lífi og öldungar þeir, er lifðu Jósúa og þektu öll þau verk, er Jahve hafði gjört fyrir Ísrael.

[32] En bein Jósefs, sem Ísraelsmenn höfðu haft með sér sunnan af Egiptalandi, grófu þeir í Sikem, í landspildu þeirri, sem Jakob hafði keypt af sonum Hemors, föður Sikems, fyrir hundrað kesíta, og varð hún eign Jósefs sona.

[33] Og Eleasar, sonur Arons, andaðist og var grafinn í Gibeu, er átti Pínehas sonur hans og honum hafði gefin verið á Efraím-fjöllum.

---

**13:** 5 Mós. 6, 10—12. **14:** 2 Mós. 20, 3. **19:** 2 Mós. 23, 21. **20:** kap. 23, 15—16. **23:** 1 Sam. 7, 3. **25:** 2 Mós. 15, 25. **26:** 1 Mós. 35, 4. **28:** Dóm. 2, 6 n. **30:** kap. 19, 50. **32:** 1 Mós. 50, 25. 2 Mós. 13, 19. Post. 7, 16. 1 Mós. 33, 19.

# Dómarabókin.

---

### Unnið Kanaanland.

1 Eftir andlát Jósúa spurðu Ísraelsmenn Jahve og sögðu: Hver af
oss skal fyrstur fara í móti Kanaanítum, til þess að berjast við þá?
2 Jahve sagði: Júda skal fara í móti þeim; sjá, eg gef landið í hendur
honum. 3 En Júda sagði við Símeon, bróður sinn: Far þú með mér
inn í minn hluta, svo að við báðir megum berjast við Kanaanítana;
þá skal eg líka fara með þér inn í þinn hluta. Fór þá Símeon með
honum. 4 Og Júda fór, og Jahve gaf Kanaaníta og Peresíta í hendur
þeirra, og lögðu þeir þá að velli í Besek, — tíu þúsundir manna. 5 Og
þeir fundu Adóní-Besek í Besek og börðust við hann og unnu sigur á
Kanaanítum og Peresítum. 6 En Adóní-Besek flýði og veittu þeir hon-
um eftirför, tóku hann höndum og hjuggu af honum þumalfingurna og
stóru tærnar. 7 Þá mælti Adóní-Besek: Sjötíu konungar, sem höggnir
voru af þumalfingur og stóru tær, urðu að tína upp mola undir borði
mínu; eins og eg hefi gjört, svo geldur Guð mér. Síðan fóru þeir með
hann til Jerúsalem og þar dó hann. 8 En Júda synir herjuðu á Jerú-
salem og unnu hana, feldu íbúana með sverðseggjum og lögðu síðan
eld í borgina. 9 Eftir það héldu Júda synir ofan þaðan, til þess að
berjast við Kanaaníta, þá er bjuggu á fjöllunum, í suðurlandinu og á
láglendinu. 10 Og Júda fór móti Kanaanítunum, sem bjuggu í Hebron;
en Hebron hét áður Kirjat-Arba. Og þeir unnu sigur á Sesaí, Ahíman og
Talmaí. 11 Þaðan fór hann móti Debír-búum; en Debír hét áður Kir-
jat-Sefer. 12 Og Kaleb sagði: Hver sem leggur Kirjat-Sefer undir sig
og vinnur hana, honum skal eg gefa Aksa dóttur mína að konu.
13 Otníel Kenasson, bróðir Kalebs og honum yngri, vann þá borgina,
og hann gaf honum Aksa dóttur sína að konu. 14 Þegar hún skyldi
heim fara með bónda sínum, eggjaði hún hann þess, að hann skyldi
beiðast lands nokkurs af föður hennar. Steig hún þá niður af asnan-
um; Kaleb spurði hana þá: Hvað viltu? 15 Hún svaraði honum: Gef
mér gáfu nokkura, af því að þú hefir gefið mig til suðurlandsins; gef
mér því vatnsbrunna. Gaf hann henni þá brunna hið efra og brunna
hið neðra.

16 Og synir Kenítans, mágs Móse, höfðu farið úr pálmaborginni
með sonum Júda upp í Júda-eyðimörk, sem liggur fyrir sunnan Arad;
og þeir fóru og settust að meðal lýðsins. 17 En Júda fór með Símeon
bróður sínum, og þeir unnu sigur á Kanaanítunum, sem bjuggu í Zefat,
og helguðu hana banni; fyrir því var borgin nefnd Horma. 18 Og
Júda vann Gasa og land það, er undir hana lá, og Askalon og land
það, er undir hana lá, og Ekron og land það, er undir hana lá. 19 Og
Jahve var með Júda, svo að hann náði undir sig fjalllendinu; en þá,
sem bjuggu á sléttlendinu, fékk hann eigi rekið burt, því að þeir höfðu
járnvagna. 20 Og þeir gáfu Kaleb Hebron, eins og Móse hafði boðið,
og hann rak þaðan þá Anaks sonu þrjá. 21 En Jebúsítana, sem bjuggu
í Jerúsalem, gátu Benjamíns synir ekki rekið burt; fyrir því hafa Jeb-
úsítar búið í Jerúsalem ásamt Benjamíns sonum fram á þennan dag.

22 Og ættmenn Jósefs fóru líka upp móti Betel, og Jahve var með
þeim. 23 Og ættmenn Jósefs létu njósna í Betel; en borgin hét áður

---

1, 1: 4 Mós. 27, 21. Dóm. 20, 18. **10:** Jós. 15, 13 n. **11:** Jós. 15, 15—19. **16:** kap. 4, 11. 4 Mós. 10, 29. 5 Mós. 34, 3. **17:** 4 Mós. 21, 3. **19:** Jós. 17, 16. **20:** Jós. 14, 13; 15, 13. 4 Mós. 14, 24. **21:** Jós. 15, 63. **23:** 1 Mós. 28, 19.

Lús. [24] Þá sáu njósnarmennirnir mann koma út úr borginni og sögðu
við hann: Sýn oss, hvar komast má inn í borgina og munum vér sýna
þér miskunn. [25] Og hann sýndi þeim, hvar komast mætti inn í borg-
ina, og þeir tóku borgina herskildi, en manninum og öllu fólki hans
leyfðu þeir brottgöngu. [26] Maðurinn fór til lands Hetíta og reisti þar
borg og nefndi hana Lús; heitir hún svo enn í dag.

[27] Og Manasse rak eigi burt íbúana í Bet-Sean og smáborgunum,
er að lágu, í Taanak og smáborgunum, er að lágu, íbúana í Dór og
smáborgunum, er að lágu, íbúana í Jibleam og smáborgunum, er að
lágu, né íbúana í Megiddó og smáborgunum, er að lágu; og þannig
fengu Kanaanítar haldið bústað í landi þessu. [28] En er Ísrael efldist,
gjörði hann Kanaaníta sér vinnuskylda, en rak þá ekki algjörlega burt.
[29] Og Efraím rak eigi burt Kanaanítana, sem bjuggu í Geser; þannig
héldu Kanaanítar áfram að búa í Geser meðal þeirra. [30] Sebúlon rak
eigi burt íbúana í Kitrón né íbúana í Nahalól; þannig héldu Kanaan-
ítar áfram að búa meðal þeirra og urðu þeim vinnuskyldir. [31] Asser
rak eigi burt íbúana í Akkó né íbúana í Zídon, eigi heldur í Ahlab,
Aksíd, Helba, Afík og Rehób. [32] Fyrir því bjuggu Asserítar meðal
Kanaaníta, er fyrir voru í landinu, því að þeir ráku þá eigi burt.
[33] Naftalí rak eigi burt íbúana í Bet-Semes né íbúana í Bet-Anat; fyrir
því bjó hann meðal Kanaaníta, er fyrir voru í landinu; en íbúarnir í
Bet-Semes og Bet-Anat urðu þeim vinnuskyldir. [34] En Amórítar þrengdu
*Dans* sonum upp í fjöllin og liðu þeim ekki að koma niður á slétt-
lendið. [35] Þannig fengu Amórítar haldið bústað í Har-Heres, í Ajalon
og Saalbím; en með því að ætt Jósefs var þeim yfirsterkari, urðu þeir
vinnuskyldir. [36] En landamæri Amóríta lágu frá Sporðdrekaskarði, frá
klettinum og þar upp eftir.

2 Og engill Jahve kom frá Gilgal til Bókím og mælti: Eg leiddi
yður út af Egiptalandi og færði yður í það land, sem eg sór feðr-
um yðar, og eg sagði: »Eg mun aldrei rjúfa sáttmála minn við yður;
[2] en þér megið ekki gjöra sáttmála við íbúa þessa lands, heldur skuluð
þér rífa niður ölturu þeirra«. En þér hafið ekki hlýtt raustu minni.
Hví hafið þér gjört þetta? [3] Fyrir því segi eg og: Eg mun ekki stökkva
þeim burt undan yður, og þeir munu verða broddar í síðum yðar og
guðir þeirra verða yður að tálsnöru. [4] Og er engill Jahve hafði mælt
þessum orðum til allra Ísraelsmanna, þá hóf lýðurinn upp raust sína
og grét. [5] Og þeir nefndu stað þennan Bókím; og þeir færðu þar
Jahve fórn.

## Ástandið á dögum dómaranna.

[6] Síðan lét Jósúa fólkið frá sér fara, og héldu þá Ísraelsmenn
hver til síns óðals, til þess að taka landið til eignar. [7] Og lýðurinn
þjónaði Jahve meðan Jósúa var á lífi og meðan öldungar þeir, sem
lifðu Jósúa, voru á lífi, þeir er séð höfðu öll hin miklu verk Jahve,
er hann gjörði fyrir Ísrael. [8] Þá andaðist Jósúa Núnsson, þjónn Jahve,
hundrað og tíu ára gamall. [9] Og hann var grafinn í eignarlandi sínu,
hjá Timnat-Heres á Efraím-fjöllum, fyrir norðan Gaas-fjall. [10] En er
öll sú kynslóð hafði líka safnast til feðra sinna, reis upp önnur kyn-
slóð eftir hana, er eigi þekti Jahve né þau verk, er hann hafði gjört
fyrir Ísrael. [11] Þá gjörðu Ísraelsmenn það, sem ilt var í augum Jahve

---

**25:** Jós. 6, 25. **27:** Jós. 17, 11 n. **29:** Jós. 16, 10. — **2, 1:** 1 Mós. 17, 7. 8. **2:** 2 Mós. 23, 32; 34, 12 n. 5 Mós. 7, 5. **3:** 4 Mós. 33, 55. Jós. 23, 13. **6:** Jós. 24, 28 n. **10:** 5 Mós. 31, 16.

og þjónuðu Baölum, [12] og yfirgáfu Jahve, Guð feðra sinna, er leitt
hafði þá af Egiptalandi, og eltu aðra guði, af guðum þjóða þeirra, er
bjuggu umhverfis þá, og féllu fram fyrir þeim og egndu Jahve til reiði.
[13] Og þeir yfirgáfu Jahve og þjónuðu Baal og Astörtum. [14] Þá upp-
tendraðist reiði Jahve gegn Ísrael, og hann gaf þá á vald ránsmönnum
og þeir rændu þá, og hann seldi þá í hendur óvinum þeirra alt í kring
um þá, svo að þeir fengu eigi framar staðist fyrir óvinum sínum.
[15] Hvert sem þeir fóru, var hönd Jahve í móti þeim til óhamingju,
eins og Jahve hafði sagt og eins og Jahve hafði svarið þeim; komust
þeir þá í miklar nauðir. [16] En Jahve vakti upp dómara, og þeir frels-
uðu þá úr höndum þeirra, er þá rændu. [17] En þeir hlýddu ekki heldur
dómurum sínum, heldur tóku fram hjá með öðrum guðum og féllu fram
fyrir þeim; þeir viku brátt af þeim vegi, sem feður þeirra höfðu gengið,
með því að hlýða boðum Jahve; þeir breyttu ekki svo. [18] Og þegar
Jahve vakti þeim upp dómara, þá var Jahve með dómaranum og
frelsaði þá úr höndum óvina þeirra á meðan dómarinn var á lífi;
því að Jahve kendi í brjósti um þá, er þeir kveinuðu undan kúgurum
sínum og kvölurum. [19] En er dómarinn andaðist, breyttu þeir að nýju
ver en feður þeirra, með því að elta aðra guði, til þess að þjóna þeim
og falla fram fyrir þeim; þeir létu eigi af gjörðum sínum né þrjózku-
breytni sinni. [20] Þá upptendraðist reiði Jahve gegn Ísrael og hann
sagði: Af því að þetta fólk hefir rofið sáttmála minn, þann er eg lagði
fyrir feður þeirra, og ekki hlýtt minni raustu, [21] þá mun eg ekki heldur
framar stökkva burt undan þeim nokkurum manni af þjóðum þeim,
sem Jósúa skildi eftir, er hann andaðist, [22] til þess að reyna Ísrael á
þeim, hvort þeir varðveita veg Jahve, til að ganga hann, eins og feður
þeirra gjörðu, eða ekki. [23] Þannig lét Jahve þjóðir þessar vera kyrrar,
án þess að reka þær burt bráðlega, og hann gaf þær eigi í hendur
Jósúa.
3 En þessar eru þjóðir þær, sem Jahve lét vera kyrrar, til þess að
reyna Ísrael á þeim — alla þá, er ekkert höfðu haft að segja af
öllum bardögunum um Kanaan, [2] einungis til þess að hinar komandi
kynslóðir Ísraelsmanna mættu kynnast hernaði — til þess að kenna
þeim hernað, aðeins þeim, sem eigi höfðu kynst slíku áður: [3] Fimm
höfðingjar Filistanna, allir Kanaanítar, Zídoningar og Hevítar, sem
bjuggu á Líbanon-fjöllum, frá fjallinu Baal-Hermon alt þangað, er leið
liggur til Hamat. [4] Voru þeir eftir, til þess að reyna Ísrael á þeim,
svo að augljóst yrði, hvort þeir vildu hlýða boðorðum Jahve, er hann
hafði sett feðrum þeirra fyrir Móse. [5] Þannig bjuggu Ísraelsmenn mitt
á meðal Kanaaníta, Hetíta, Amóríta, Peresíta, Hevíta og Jebúsíta;
[6] gengu þeir að eiga dætur þeirra og giftu sonum þeirra dætur sínar,
og þjónuðu guðum þeirra.

## Fyrstu dómararnir: Otníel, Ehúð og Samgar.

[7] Og Ísraelsmenn gjörðu það, sem ilt var í augum Jahve, og
gleymdu Jahve, Guði sínum, og þjónuðu Baölum og asérum. [8] Upp-
tendraðist þá reiði Jahve gegn Ísrael, svo að hann seldi þá í hendur
Kúsan Rísjataím, konungi í Aram-Naharaím, og Ísraelsmenn þjónuðu
Kúsan Rísjataím í átta ár. [9] Þá hrópuðu Ísraelsmenn til Jahve, og
Jahve vakti Ísraelsmönnum upp hjálparmann, er hjálpaði þeim: Otníel

---

**13**: kap. 10, 6. **14**: kap. 3, 8; 4, 2. **15**: 3 Mós. 26, 17. 5 Mós. 28, 25. **16**: kap. 3, 9. 15. **22**: kap. 3, 1. 4. 5 Mós. 8, 2. — **3, 3**: Jós. 13, 2–6. **6**: 2 Mós. 34, 16. 5 Mós. 7, 3. **7**: kap. 2, 11. 13. **8**: kap. 2, 14. **9**: kap. 1, 13.

þú um nafn mitt — með því að það er undursamlegt? [19] Þá tók Manóa
geithafurinn og matfórnina og færði það Jahve á kletti einum. Þá varð
undur mikið að þeim Manóa og konu hans ásjáandi. [20] Því að þegar
logann lagði upp af altarinu til himins, þá fór engill Jahve upp í alt-
arisloganum; og er þau Manóa og kona hans sáu það, féllu þau fram
á ásjónur sínar til jarðar. [21] Eftir það birtist engill Jahve eigi framar
Manóa og konu hans. Þá sá Manóa að það hafði verið engill Jahve.
[22] Og Manóa sagði við konu sína: Vissulega munum við deyja, því að
við höfum séð Guð! [23] En kona hans svaraði honum: Ef Jahve hefði
viljað deyða okkur, þá hefði hann eigi þegið brennifórn og matfórn af
okkur, né látið okkur sjá alt þetta, og þá hefði hann eigi nú látið okk-
ur heyra slíka hluti.
[24] Og konan ól son og nefndi hann Simson; og sveinninn óx upp,
og Jahve blessaði hann. [25] Og andi Jahve tók að knýja hann í her-
búðum Dans millum Zorea og Estaól.

## Kvonfang Simsonar og gáta hans

14 Og Simson fór niður til Timnat og sá konu eina þar í Timnat;
var hún ein af dætrum Filista. [2] Síðan fór hann heim aftur og
sagði föður sínum og móður frá þessu og mælti: Eg hefi séð konu
eina í Timnat; er hún ein af dætrum Filista; takið þið hana nú mér
til handa að eiginkonu. [3] En faðir hans og móðir sögðu við hann:
Er þá engin kona meðal dætra bræðra þinna og í öllu fólki mínu, að
þú þurfir að fara og taka þér konu af Filistum, sem eru óumskornir?
Simson svaraði föður sínum: Tak hana mér til handa, því að hún
geðjast augum mínum. [4] En faðir hans og móðir vissu ekki, að þetta
var frá Jahve, og að hann leitaði færis við Filistana. Um þær mundir
drotnuðu Filistar yfir Ísrael. [5] Þá fóru þau Simson og faðir hans og
móðir niður til Timnat. Og er þau komu að víngörðum Timnat, þá
kom ungt ljón öskrandi í móti honum. [6] Þá kom andi Jahve yfir
hann, svo að hann sleit það sundur, eins og menn slíta sundur hafur-
kið, og hann hafði þó ekkert í hendinni. En eigi sagði hann föður
sínum né móður frá því, er hann hafði gjört. [7] Síðan fór hann ofan
og talaði við konuna; og hún geðjaðist augum Simsonar. [8] Eftir nokk-
urn tíma kom hann aftur að sækja hana. Veik hann þá af leið, til
þess að sjá dauða ljónið, og sjá, býflygi var í ljónshræinu og hunang.
[9] Og hann tók það í lófa sér, hélt síðan áfram og át, og hann fór til
föður síns og móður og gaf þeim, og þau átu; en ekki sagði hann
þeim frá því, að hann hefði tekið hunangið úr ljónshræinu. [10] Því
næst fór faðir hans ofan til konunnar, og gjörði Simson þar veizlu,
því að sá var háttur ungra manna. [11] En er þeir sáu hann, fengu þeir
honum þrjátíu brúðarsveina, er vera skyldu með honum. [12] Og Simson
sagði við þá: Eg mun bera upp fyrir yður gátu eina; ef þér fáið ráð-
ið hana á þessum sjö veizludögum og getið hennar, þá mun eg gefa
yður þrjátíu kyrtla og þrjátíu hátíðaklæðnaði. [13] En ef þér getið ekki
ráðið hana, þá skuluð þér gefa mér þrjátíu kyrtla og þrjátíu hátíða-
klæðnaði. Þeir svöruðu honum: Ber þú upp gátu þína, svo að vér
megum heyra hana. [14] Þá sagði hann við þá:

Æti gekk út af etanda
og sætleiki gekk út af hinum sterka.

Og liðu svo þrír dagar að þeir gátu ekki ráðið gátuna. [15] En á fjórða
degi sögðu þeir við konu Simsonar: Ginn þú bónda þinn til að segja oss

---

[1]8: Jes. 9, 6. 22: 2 Mós. 33, 20. Dóm. 6, 22. 25: kap. 18, 11. 12. — 14, 4: kap. 13, 1.

ráðningu gátunnar, ella munum vér þig í eldi brenna og hús föður
þíns. Hafið þér boðið oss til þess að féfletta oss? Er ekki svo? 16 Þá
grét kona Simsonar framan í hann og sagði: Hatur hefir þú á mér,
en enga ást; þú hefir borið upp gátu fyrir börnum þjóðar minnar, en
ekki sagt mér ráðningu hennar. Hann svaraði henni: Sjá, eg hefi ekki
sagt föður mínum og móður minni ráðningu hennar og ætti þó að
segja þér hana? 17 Og hún grét framan í hann sjö dagana, sem veizl-
an stóð yfir; og á sjöunda degi sagði hann henni ráðninguna, af því
að hún gekk svo fast á hann. En hún sagði börnum þjóðar sinnar
ráðning gátunnar. 18 Þá sögðu borgarmenn við hann á sjöunda degi,
áður sól settist:

Hvað er sætara en hunang?
Og hvað er sterkara en ljón?

Og hann sagði við þá: Ef þér hefðuð ekki erjað með kvígu minni,
munduð þér ekki hafa ráðið gátu mína. 19 Þá kom andi Jahve yfir
hann, svo að hann fór ofan til Askalon og drap þrjátíu menn af þeim,
tók klæðnaði þeirra og gaf þá þeim að hátíðaklæðum, er ráðið höfðu
gátuna. Og hann varð ákaflega reiður og fór upp til húss föður síns.
20 En kona Simsonar giftist brúðarsveini hans, þeim er hann hafði
valið sér að vini.

## Hefnd Simsonar og afreksverk.

15 Að nokkurum tíma liðnum kom Simson um hveitiuppskerutím-
ann að vitja konu sinnar og hafði með sér hafurkið. Og hann
sagði við föður hennar: Leyf mér að ganga inn í afhýsið til konu
minnar! En faðir hennar vildi ekki leyfa honum inn að ganga. 2 Og
faðir hennar sagði: Eg var fulltrúa um að þú hefðir fengið megna ó-
beit á henni og gifti hana því brúðarsveini þínum; en yngri systir
hennar er fríðari en hún; hana skalt þú fá í hennar stað. 3 Þá sagði
Simson við þá: Nú ber eg enga sök á því við Filista, þó að eg vinni
þeim mein. 4 Síðan fór Simson og veiddi þrjú hundruð refi, tók blys,
sneri hölunum saman og batt eitt blys millum hverra tveggja hala.
5 Síðan kveikti hann í blysunum og slepti því næst refunum inn á
kornakra Filista og brendi þannig bæði kerfaskrúf, óslegið korn og
olíugarða. 6 Þá sögðu Filistar: Hver hefir gjört þetta? Og menn svör-
uðu: Simson, tengdasonur Timnítans, — því að hann hefir tekið frá
honum konuna og gift hana brúðarsveini hans. Þá fóru Filistar upp
þangað og brendu hana inni og föður hennar. 7 En Simson sagði við
þá: Fyrst þér að hafist slíkt, mun eg ekki hætta fyr en eg hefi hefnt
mín á yður. 8 Síðan barði hann svo óþyrmilega á þeim, að sundur
gengu lær og leggir. Og hann fór þaðan og settist að í Etam-kletta-
skoru. 9 Þá fóru Filistar upp eftir og settu herbúðir sínar í Júda og
dreifðu sér um Lekí. 10 Og Júdamenn sögðu: Hví hafið þér farið í
móti oss? En þeir svöruðu: Vér erum hingað komnir til þess að
binda Simson, svo að vér megum með hann fara sem hann hefir farið
með oss. 11 Þá fóru þrjú þúsund manns frá Júda ofan til Etam-kletta-
skoru og sögðu við Simson: Veizt þú ekki, að Filistar drotna yfir oss?
Hví hefir þú þá gjört oss þetta? Hann svaraði þeim: Eins og þeir
fóru með mig, svo hefi eg farið með þá. 12 Og þeir sögðu við hann:
Vér erum hingað komnir til að binda þig, svo að vér getum selt þig í
hendur Filista. Þá sagði Simson við þá: Vinnið mér eið að því, að
þér sjálfir skulið ekki drepa mig. 13 Þeir svöruðu honum: Nei; vér

15, 2: kap. 14, 20. 6: kap. 14, 15.

munum aðeins binda þig og selja þig í hendur þeirra — en drepa
þig munum vér ekki. Og þeir bundu hann með tveimur reipum ný-
jum og fóru með hann burt frá klettinum. 14 En er hann kom til Lekí,
fóru Filistar með ópi miklu í móti honum. Þá kom andi Jahve yfir
hann, og urðu reipin, sem voru um armleggi hans sem þræðir í eldi
brunnir, og hrukku fjötrarnir sundur af höndum hans. 15 Og hann
fann nýjan asnakjálka, rétti út höndina og tók hann og laust með
honum þúsund manns. 16 Þá sagði Simson:

Með asnakjálka hefi eg gjörsamlega flegið þá,
með asnakjálka hefi eg banað þúsund manns!

17 Og er hann hafði mælt þetta, varpaði hann kjálkanum úr hendi sér,
og var þessi staður upp frá því nefndur Ramat-Lekí*. 18 En hann var
mjög þyrstur, og hrópaði því til Jahve og mælti: Þú hefir veitt þennan
mikla sigur fyrir hönd þjóns þíns, en nú hlýt eg að deyja af þorsta
og falla í hendur óumskorinna manna! 19 Þá klauf Guð holuna, sem
var í kjálkanum, svo að vatn rann fram úr henni. En er hann hafði
drukkið, kom andi hans aftur og hann lifnaði við. Fyrir því var hún
nefnd: Hrópandans lind; hún er í Lekí* fram á þennan dag.
20 En hann var dómari í Ísrael um daga Filista í tuttugu ár.

### Simson í Gasa.

16 Og Simson fór til Gasa; þar sá hann portkonu eina og gekk
inn til hennar. 2 Þá var Gasa-búum sagt svo frá: Simson er hér
kominn. En þeir umkringdu hann og gjörðu honum fyrirsát alla
nóttina í borgarhliðinu, en höfðu þó hljótt um sig alla nóttina,
með því að þeir hugsuðu: Þegar birtir af degi, skulum vér drepa
hann. 3 En Simson svaf til miðrar nætur. En um miðja nótt
reis hann á fætur, þreif hurðirnar á borgarhliðinu, ásamt báðum dyra-
stöfunum, og kipti þeim upp ásamt slagbrandinum og lagði á herðar
sér og bar þær efst upp á fjallið, sem er gegnt Hebron.

### Simson og Delíla. Simson deyr.

4 Eftir þetta bar svo við, að hann feldi ástarhug til konu einnar
í Sórek-dal; hún hét Delíla. 5 Höfðingjar Filista komu til hennar og
sögðu við hana: Ginn þú hann og komstu að því, í hverju hið mikla
afl hans er fólgið og með hverju móti vér fáum yfirbugað hann, svo
að vér getum bundið hann og þjáð hann, og munum vér gefa þér
hver um sig eitt þúsund sikla silfurs og hundraði betur. 6 Og Delíla
sagði við Simson: Seg mér, í hverju hið mikla afl þitt er fólgið og
með hverju þú verður bundinn, svo að menn eigi alls kostar við þig.
7 Simson svaraði henni: Ef menn binda mig með sjö nýjum strengjum,
sem ekki eru þurrir orðnir, þá gjörist eg linur og verð eins og hver
annar maður. 8 Þá færðu höfðingjar Filista henni sjö nýja strengi,
sem ekki voru þurrir orðnir, og hún batt hann með þeim. 9 En menn-
ina, er um hann sátu, hafði hún hjá sér í svefnhúsinu. Því næst
sagði hún við hann: Filistar yfir þig, Simson! Þá sleit hann sundur
strengina, eins og hörþráður slitnar sundur, er hann kennir elds —
og ekki varð komist fyrir afl hans. 10 Þá sagði Delíla við Simson:
Sjá, þú hefir blekt mig og logið að mér! Seg mér nú, með hverju þú
verður bundinn. 11 Hann svaraði henni: Ef menn binda mig með
nýjum reipum, sem ekki hafa verið höfð til neinnar vinnu, þá gjörist

---

**14:** kap. 14, 6. **17:** * Þ. e. Kjálkahæð. **19:** * Lekí þýðir kjálki. — **16, 2:** Jós.
15, 47. **5:** kap. 14, 15.

eg linur og verð sem hver annar maður. [12] Þá tók Delíla ný reipi og
batt hann með þeim og sagði við hann: Filistar yfir þig, Simson! og
mennirnir, er um hann sátu, voru í svefnhúsinu. En hann sleit þá
af armleggjum sér, sem þráður væri. [13] Og Delíla sagði við Simson:
Enn hefir þú blekt mig og logið að mér. Seg mér, með hverju þú
verður bundinn. En hann sagði við hana: Ef þú vefur hárlokkana
sjö á höfði mér saman við uppistöðuna í vef. [14] Og hún festi þá með
nagla og sagði við hann: Filistar yfir þig, Simson! Þá vaknaði hann
af svefninum og kipti út vefjarnaglanum og uppistöðunni. [15] Þá sagði
hún við hann: Hvernig getur þú sagt: Eg elska þig! þar sem þú ert
ekki einlægur við mig? Þrisvar sinnum hefir þú nú blekt mig og ekki
sagt mér, í hverju hið mikla afl þitt sé fólgið. [16] En er hún nauðaði
á honum alla daga með orðum sínum og gekk á hann fastlega, þá
varð hann dauðleiður á því [17] og sagði henni alt hjarta sitt og mælti
til hennar: Aldrei hefir rakhnífur komið á höfuð mitt, því að eg er
Guði helgaður í frá móðurlífi. Væri nú hár mitt skorið, þá hyrfi afl
mitt frá mér og eg gjörðist linur og yrði sem allir menn aðrir. [18] Þegar
Delíla sá, að hann hafði sagt henni alt hjarta sitt, þá sendi hún og
lét kalla höfðingja Filista, og lét hún segja þeim: Nú skuluð þér
koma, því að hann hefir sagt mér alt hjarta sitt. Þá fóru höfðingjar
Filista til hennar og höfðu silfrið með sér. [19] En hún svæfði hann á
skauti sínu og kallaði á manninn og lét hann skera hárlokkana sjö
af höfði honum; og hún tók að þjá hann, en afl hans var frá honum
horfið. [20] Þá sagði hún: Filistar yfir þig, Simson! Þá vaknaði hann
af svefninum og hugsaði: Eg slepp í þetta sinn sem hin fyrri og slít
mig lausan! — en hann vissi ekki, að Jahve var vikinn frá honum.
[21] Nú tóku Filistar hann höndum og stungu úr honum augun og fóru
með hann niður til Gasa og bundu hann eirfjötrum, og varð hann að
draga kvern í dýflissunni. [22] En höfuðhár hans tók aftur að vaxa,
eftir að það hafði verið skorið.

[23] Nú söfnuðust höfðingjar Filista saman, til þess að færa Dagón,
guði sínum, fórn mikla og til þess að gjöra sér glatt, með því að þeir
sögðu: Guð vor hefir gefið Simson, óvin vorn, í vorar hendur. [24] Og
er fólkið sá hann, vegsömuðu þeir guð sinn, því að þeir sögðu: Guð
vor hefir gefið óvin vorn í vorar hendur, hann sem eytt hefir land
vort og drepið hefir marga menn af oss. [25] En er þeir nú gjörðust
glaðir, sögðu þeir: Látið sækja Simson, til þess að hann skemti oss.
Létu þeir nú sækja Simson úr dýflissunni og varð hann að skemta
þeim; og þeir höfðu sett hann milli súlnanna. [26] Þá sagði Simson við
sveininn, sem leiddi hann: Sleptu mér og leyfðu mér að þreifa á súl-
unum, sem húsið hvílir á, svo að eg geti stutt mig upp við þær. [27] En
húsið var fult af körlum og konum; þar voru og allir höfðingjar
Filista, og uppi á þakinu voru um þrjú þúsund karla og kvenna, sem
horfðu á, er Simson skemti. [28] Þá hrópaði Simson til Jahve og sagði:
Drottinn Jahve! minstu mín; styrk mig nú, Guð! í þetta eina sinn,
svo að eg geti hefnt mín á Filistum fyrir bæði augun mín í einu.
[29] Því næst þreif Simson í báðar miðsúlurnar, sem húsið hvíldi á,
hægri hendinni í aðra og vinstri hendinni í hina og treysti á. [30] Þá
mælti Simson: Deyi nú sála mín með Filistum! Síðan lagðist hann á
af öllu afli, svo að húsið féll ofan á höfðingjana og alt fólkið, er í því
var, og þeir dauðu, sem hann drap um leið og hann beið bana, voru
fleiri en þeir, er hann hafði drepið um æfina. [31] Þá fóru bræður hans
ofan og alt ættfólk hans, og tóku þeir hann og fóru upp þaðan með

---

**16:** kap. 14, 17. **17:** kap. 13, 5. **21:** 2 Mós. 11, 5. **31:** kap. 13, 25.

hann og jörðuðu hann millum Zorea og Estaól, í gröf Manóa föður
hans. En hann hafði verið dómari í Ísrael í tuttugu ár.

### Myndadýrkun Míka flyzt til Dan.

17 Maður hét Míka; hann var frá Efraím-fjöllum. 2 Hann sagði
við móður sína: Þeir ellefu hundruð siklar silfurs, sem hafa verið
teknir frá þér og þú hefir beðið bölbæna fyrir og talað það í mín eyru,
— sjá, það silfur er nú hjá mér; eg var sá, sem tók það. Þá sagði
móðir hans: Blessaður veri sonur minn af Jahve. 3 Síðan skilaði hann
móður sinni þessum ellefu hundruð siklum silfurs aftur, og móðir hans
sagði: Eg helga að öllu leyti Jahve silfrið úr minni hendi til heilla
fyrir son minn, til þess að úr því verði gjört útskorið og steypt lík-
neski, og fyrir því fæ eg þér það nú aftur. 4 En er hann hafði skilað
móður sinni aftur silfrinu, þá tók móðir hans tvö hundruð sikla silfurs
og fékk þá gullsmið, og hann gjörði úr þeim útskorið og steypt lík-
neski, og það var í húsi Míka. 5 Og þessi maður, Míka, átti goðahús
og hann bjó til hökullíkneski og húsgoð, og hann vígði einn sona
sinna, og varð hann prestur hans. 6 Í þá daga var enginn konungur
í Ísrael; hver maður gjörði það, er honum vel líkaði.
7 En í Betlehem í Júda var ungur maður, af ætt Júda; hann
var Levíti og var þar dvalarmaður. 8 Þessi maður fór burt úr borg-
inni Betlehem í Júda, til þess að fá sér dvalarvist hvar sem hann gæti;
og hann kom upp í Efraím-fjöll, til húss Míka, og ætlaði að halda
áfram ferð sinni. 9 Míka sagði við hann: Hvaðan kemur þú? Hann
svaraði honum: Eg er Levíti frá Betlehem í Júda, og er eg á ferðalagi,
til þess að fá mér dvalarvist hvar sem eg get. 10 Þá sagði Míka við
hann: Seztu að hjá mér og skaltu vera faðir minn og prestur, og eg
mun gefa þér tíu sikla silfurs um árið og fullan klæðnað og viðurværi
þitt. Og Levítinn gekk inn til hans. 11 Levítinn lét sér vel líka að
setjast að hjá manninum, og fór hann með hinn unga mann sem væri
hann einn af sonum hans. 12 Og Míka vígði Levítann, og varð hinn
ungi maður prestur hans og var í húsi Míka. 13 Þá sagði Míka: Nú
veit eg að Jahve muni gjöra vel við mig, af því að eg hefi Levíta
fyrir prest.
18 Í þá daga var enginn konungur í Ísrael og í þá daga var ætt-
kvísl Daníta að leita sér að arfleifð til búsetu, því að henni hafði
eigi til þess dags hlotnast nein arfleifð meðal ættkvísla Ísraels. 2 Dans
synir sendu þá fimm hrausta menn af kynþætti sínum, úr sínum hóp,
frá Zorea og Estaól, til þess að kanna landið og rannsaka það, og
sögðu við þá: Farið og rannsakið landið. Og þeir komu upp í Efra-
ím-fjöll, til húss Míka, og voru þar nætursakir. 3 Þegar þeir voru stadd-
ir hjá húsi Míka, þektu þeir málfæri hins unga manns, Levítans, og
viku þangað og sögðu við hann: Hver hefir fært þig hingað? hvað hefst
þú hér að og hverja kosti hefir þú hér? 4 Og hann sagði við þá: Svo
og svo hefir Míka gjört við mig; hann leigði mig, og gjörðist eg prest-
ur hans. 5 Þá sögðu þeir við hann: Gakk þú til frétta við Guð, svo
að vér fáum að vita, hvort för sú muni lánast, sem vér nú erum að
fara. 6 Presturinn svaraði þeim: Farið heilir; förin, sem þér eruð að
fara, er Jahve þóknanleg. 7 Síðan fóru mennirnir fimm leiðar sinnar
og komu til Laís; og sáu þeir að fólkið, sem bjó þar, var óhult um
sig að hætti Zídoninga, örugt og óhult, og að ekki var skortur á neinu

---

**17, 4:** Jes. 46, 6. **5:** kap. 8, 27. 1 Mós. 31, 19. 2 Mós. 28, 41. **6:** kap. 18, 1; 19, 1; 21, 25. **12:** v. 5. — **18, 1:** kap. 17, 6; 1, 34. Jós. 19, 40 n. **2:** kap. 17, 1 n.

þar í landi, og að fólkið var auðugt. Þeir voru og langt frá Zídon-
ingum og höfðu engin mök við neinn.
8 Og þeir komu til bræðra
sinna í Zorea og Estaól. Og bræður þeirra sögðu við þá: Hvað hafið
þér að segja?
9 Þeir svöruðu: Af stað! vér skulum fara í móti þeim,
því að vér höfum séð landið og sjá, það er mjög gott. Og þér eruð
aðgjörðalausir? Verið ekki tregir að leggja af stað í ferð þessa, til
þess að taka landið til eignar.
10 Þegar þér komið þangað, munuð
þér hitta ugglaust fólk, og landið er víðáttumikið á allar hliðar; því
að Guð hefir gefið það í yðar hendur — land, þar sem ekki er skort-
ur á neinu því, sem til er á jörðunni.

11 Þá tóku sig upp þaðan, frá Zorea og Estaól, sex hundruð menn,
búnir hervopnum, af kynþætti Daníta.
12 Héldu þeir norður eftir og
settu herbúðir sínar í Kirjat-Jearím í Júda; fyrir því er sá staður kall-
aður »Dans herbúðir« fram á þennan dag — sjá, það er að baki Kir-
jat-Jearím.
13 Þaðan fóru þeir yfir á Efraím-fjöll og komu til húss
Míka.
14 Þá hófu mennirnir fimm máls, þeir er farið höfðu til Laís,
til þess að kanna landið, og sögðu við bræður sína: Vitið þér, að í
þessum húsum er hökullíkneski, húsgoð, skurðlíkneski og steypt lík-
neski? Hyggið nú að, hvað þér eigið að gjöra!
15 Og þeir viku þang-
að og komu í hús hins unga manns, Levítans, í hús Míka, og spurðu hann,
hvernig honum liði.
16 En þeir sex hundruð menn, sem voru af son-
um Dans, stóðu búnir hervopnum fyrir utan hliðið,
17 og mennirnir
*fimm*, sem farið höfðu að kanna landið, fóru upp og komu þangað,
tóku skurðlíkneskið, hökullíkneskið, húsgoðin og steypta líkneskið. En
presturinn stóð fyrir utan hliðið og þeir sex hundruð menn, búnir her-
vopnum.
18 En er hinir voru komnir inn í hús Míka, þá tóku þeir
skurðlíkneskið, hökullíkneskið, húsgoðin og steypta líkneskið. Og
presturinn sagði við þá: Hvað hafist þér að?
19 En þeir svöruðu hon-
um: Þegi þú; legg þú hönd þína á munn þér og far með oss og ver
þú faðir vor og prestur! Er þér það betra að vera heimilisprestur eins
manns heldur en að vera prestur hjá ættkvísl og kynþætti í Ísrael?
20 Prestur tók þessu feginsamlega og tók hökullíkneskið, húsgoðin og
skurðlíkneskið og slóst í för með mönnunum.
21 Sneru þeir nú á leið
og héldu af stað og létu börn og búsmala og verðmæta hluti fara á
undan sér.
22 En er þeir voru komnir langt í burt frá húsi Míka, þá
voru þeir menn, sem bjuggu í húsunum hjá húsi Míka kallaðir saman,
og eltu þeir Dans sonu og náðu þeim.
23 Og þeir kölluðu til Dans
sona, og sneru þeir sér þá við og sögðu við Míka: Hvað stendur til
fyrir þér, er þú kemur svo fjölmennur?
24 Hann svaraði: Þér hafið
tekið guði mína, sem eg hafði gjört mér, og prestinn, og eruð farnir
burt — hvað á eg þá eftir? Hvernig getið þér þá spurt mig: Hvað
stendur til fyrir þér?
25 Þá sögðu Dans synir við hann: Haf
engin orð við oss, ella kynnu gremjufullir menn að ráðast á yður og
þú verða valdur að því, að bæði þú og þitt hús týni lífi.
26 Síðan fóru
Dans synir leiðar sinnar. En Míka sá, að þeir voru honum ofurefli,
og sneri því við og fór aftur heim til sín.

27 En þeir tóku það, sem Míka hafði til búið, svo og prestinn, sem
hann hafði haft, og réðust á Laís — ugglaust fólk og óhult um sig,
og feldu þá með sverðseggjum, en lögðu eld í borgina.
28 Og þar var
enginn, sem kæmi þeim til hjálpar, því að borgin lá langt frá Zídon
og þeir höfðu ekki mök við nokkurn mann, enda lá borgin í dalnum,
sem er hjá Bet-Rehób. Síðan endurreistu þeir borgina og settust þar
að.
29 Og þeir nefndu borgina Dan, eftir nafni Dans, föður þeirra, er
fæddist Ísrael; en í öndverðu hafði borgin heitið Laís.
30 Og Dans

12: Jós. 15, 9. 60. 14: kap. 17, 4. 5. 28: 2 Sam. 10, 6. 29: Jós. 19, 47.

synir reistu upp skurðlíkneskið handa sér, og Jónatan Gersónsson,
Mósesonar, og synir hans voru prestar hjá ættkvísl Daníta, til þess er
fólkið var flutt burt úr landinu. 31 Og þeir settu upp skurðlíkneski
Míka handa sér, það er hann hafði til búið, alla þá stund er Guðs
hús var í Síló.

### Níðingsverk Gíbeíta.

19 Um þær mundir bar svo til — en þá var enginn konungur í
Ísrael — að Levíti nokkur bjó sem útlendingur inst inni í Efra-
ímfjöllum og tók hann sér að hjákonu kvenmann nokkurn frá Betle-
hem í Júda. 2 En þessi hjákona hans var honum ótrú og fór frá
honum til húss föður síns í Betlehem í Júda og var þar fjögra mánaða
tíma. 3 En maður hennar tók sig upp og fór eftir henni, til þess að
tala um fyrir henni og til þess að sækja hana, og hafði hann með
sér svein sinn og tvo asna. Hún leiddi hann þá inn í hús föður síns,
og er faðir stúlkunnar sá hann, gladdist hann yfir komu hans. 4 En
tengdafaðir hans, faðir stúlkunnar, hélt honum, svo að hann dvaldist
hjá honum í þrjá daga; átu þeir og drukku og voru þar um nóttina.
5 En fjórða daginn risu þeir árla um morguninn og bjóst hinn nú til
ferðar. Þá sagði faðir stúlkunnar við tengdason sinn: Hrestu þig fyrst
á matarbita og síðan megið þið fara. 6 Þá settust þeir niður og átu
báðir saman og drukku; en faðir stúlkunnar sagði við manninn: Lát
þér það lynda að vera í nótt, og lát liggja vel á þér. 7 En maðurinn
bjóst til að fara; þá lagði tengdafaðir hans svo að honum, að hann
settist aftur og var þar um nóttina. 8 En fimta daginn reis hann árla
um morguninn og ætlaði að halda af stað. Þá sagði faðir stúlkunnar:
Hrestu þig þó fyrst og bíðið þið unz degi hallar. Og þeir átu báðir
saman. 9 En er maðurinn bjóst til að fara, ásamt hjákonu sinni og
sveini sínum, þá sagði tengdafaðir hans, faðir stúlkunnar, við hann:
Það er orðið áliðið og dagur að kveldi kominn; verið í nótt. Sjá,
degi hallar; ver þú í nótt og láttu liggja vel á þér; en á morgun getið
þið lagt upp snemma, svo að þú getir náð heim til þín. 10 En mað-
urinn vildi ekki vera um nóttina, heldur bjóst til ferðar og hélt af stað
og komst norður á móts við Jebús — það er Jerúsalem —, og hann
hafði með sér tvo söðlaða asna og hjákonu sína.
11 Þegar þau voru hjá Jebús og mjög var liðið á dag, þá sagði
sveinninn við húsbónda sinn: Kom þú, við skulum fara inn í þessa
Jebúsíta borg og gista þar. 12 En húsbóndi hans sagði við hann: Ekki
skulum við fara inn í borg ókunnugra manna, þar sem engir Ísraels-
menn búa, höldum heldur áfram til Gíbeu. 13 Og hann sagði við svein
sinn: Kom þú, við skulum fara í einhvern af stöðunum og gista í
Gíbeu eða Rama. 14 Síðan héldu þeir áfram leið sína, en sól gekk
undir, er þeir voru hjá Gíbeu, sem heyrir Benjamín. 15 Viku þeir þar
af leið, til þess að fara inn í Gíbeu til gistingar. Og er hann kom
þangað, staðnæmdist hann á bæjartorginu, en enginn tók þau inn í
hús sitt til gistingar. 16 En sjá, maður nokkur gamall kom frá vinnu
sinni utan af akri um kveldið; hann var frá Efraím-fjöllum og bjó
sem útlendingur í Gíbeu; en mennirnir, sem þarna bjuggu, voru Benja-
mínítar. 17 Og er honum varð litið upp, sá hann ferðamanninn á bæjar-
torginu. Þá sagði gamli maðurinn: Hvert ætlar þú að fara og hvaðan
kemur þú? 18 Hinn svaraði honum: Við komum frá Betlehem í Júda
og ætlum inst inn í Efraím-fjöll; þaðan er eg; eg fór suður til Betle-
hem og er nú á heimleið, en enginn hefir boðið mér hér inn til sín.

---

**30:** 2 Mós. 2, 22; 18, 3. **31:** Jós. 18, 1. — **19, 1:** kap. 17, 6. **18:** kap. 18, 31.

[19] Við höfum bæði hálm og fóður handa ösnum okkar, svo og brauð
og vín handa mér og ambátt þinni og sveininum, sem er með þjónum
þínum; hér er einskis vant. [20] Þá sagði gamli maðurinn: Vertu vel-
kominn! lofaðu mér nú að annast alt, sem þig kann að bresta; en úti
máttu ekki liggja í nótt hér á torginu. [21] Og hann leiddi hann inn í
hús sitt og gaf ösnunum; og þau þvoðu fætur sína og átu og drukku.
[22] Nú sem þau gæddu sér, sjá, þá umkringdu borgarmenn — hrak-
menni nokkur — húsið, lömdu utan hurðina og kölluðu til gamla manns-
ins, húsbóndans: Leið út manninn, sem til þín er kominn, að vér
megum kenna hans. [23] Þá gekk maðurinn, húsbóndinn, út til þeirra
og sagði við þá: Nei, bræður mínir, fyrir hvern mun fremjið ekki ó-
hæfu. Fyrst þessi maður er kominn inn í mitt hús, þá fremjið ekki
slíka svívirðingu. [24] Hér er dóttir mín, sem er mey, og hjákona hans;
eg ætla að leiða þær út, og þær megið þér taka nauðugar og gjöra
við þær sem yður vel líkar, en á manni þessum skuluð þér ekki fremja
slíka svívirðingu. [25] En mennirnir vildu ekki hlýða á hann. Þá þreif
maðurinn í hjákonu sína og leiddi hana út á strætið til þeirra,
og þeir kendu hennar og misþyrmdu henni alla nóttina, alt til
morguns, og sleptu henni ekki fyr en dagur rann. [26] Og þegar birta
tók af degi, kom konan og féll niður fyrir húsdyrum mannsins, þar
sem bóndi hennar var inni, og lá þar unz bjart var orðið. [27] En er
bóndi hennar reis um morguninn og lauk upp húsdyrunum og gekk
út og ætlaði að halda af stað, sjá, þá lá konan, hjákona hans, úti fyrir
dyrunum með hendurnar á þröskuldinum. [28] Hann mælti þá til hennar:
Stattu upp, við skulum halda af stað! — en fékk ekkert svar. Þá lét
hann hana upp á asnann, og maðurinn tók sig upp og hélt heim til
sín. [29] En er hann kom heim, tók hann hníf, þreif hjákonu sína og
hlutaði hana alla sundur í tólf hluti og sendi þá út um alla Ísraels
bygð. [30] En hverjum þeim, er sá það, varð að orði: Eigi hefir slíkt
við borið og eigi hefir slíkt sést síðan er Ísraelsmenn fóru af Egipta-
landi alt fram á þennan dag! Hugleiðið þetta, leggið á ráð og segið til!

## Hefnd Ísraelsmanna.

20 Þá lögðu allir Ísraelsmenn af stað og safnaðist lýðurinn saman
sem einn maður frá Dan til Beerseba, svo og Gílead-land, fram
fyrir Jahve í Mizpa. [2] Og höfðingjar alls lýðsins, allar ættkvíslir Ísra-
els, gengu fram í söfnuði Guðs fólks — fjögur hundruð þúsund fót-
gangandi menn, vopnum búnir. [3] Og Benjamíns synir fréttu, að Ísra-
elsmenn væru farnir upp til Mizpa. Og Ísraelsmenn sögðu: Segið frá,
hvernig atvikaðist óhæfuverk þetta. [4] Þá svaraði Levítinn, maður kon-
unnar, er myrt hafði verið, og sagði: Eg kom til Gíbeu, sem heyrir
Benjamín, ásamt hjákonu minni og ætlaði að vera þar nætursakir.
[5] Þá risu Gíbeu-búar upp á móti mér og umkringdu húsið um nóttina
og létu ófriðlega; mig hugðust þeir að drepa og hjákonu minni nauðg-
uðu þeir svo, að hún beið bana af. [6] Þá tók eg hjákonu mína og
hlutaði hana sundur og sendi hana út um alt arfleifðarland Ísraels;
því að þeir höfðu framið níðingsverk og óhæfu í Ísrael. [7] Þér eruð
hér allir, Ísraelsmenn! Kveðið nú upp tillögur yðar og ráð! [8] Þá reis
upp allur lýður, sem einn maður væri, og sagði: Enginn af oss skal
fara heim til sín og enginn snúa heim til húss síns. [9] Og nú skulum
vér fara þannig að við Gíbeu: yfir hana með hlutkesti. [10] Og vér skul-
um taka tíu menn af hundraði af öllum ættkvíslum Ísraels og hundr-

---

**21:** 1 Mós. 18, 4. **22:** 1 Mós. 19, 4 n. — **20, 4:** kap. 19, 15 n. **7:** kap. 19, 30.

að af þúsundi og þúsund af tíu þúsundum, til þess að sækja vistir
handa liðinu, svo að farið verði með Gíbeu í Benjamín, þegar þeir
koma aftur, með öllu svo sem maklegt er fyrir óhæfuverk það, er þeir
hafa framið í Ísrael. 11 Þá söfnuðust allir Ísraelsmenn saman í móti
borginni, allir samhuga sem einn maður væri. 12 Og ættkvíslir Ísraels
sendu menn um alla ættkvísl Benjamíns og létu þá segja: Hvílík óhæfa
er þetta, sem framin hefir verið yðar á meðal. 13 Framseljið því hrak-
mennin í Gíbeu, svo að vér fáum drepið þá og upprætt hið illa úr
Ísrael. En Benjamíns synir vildu ekki gefa gaum orðum bræðra sinna,
Ísraelsmanna. 14 Söfnuðust Benjamíns synir þá saman úr borgunum
til Gíbeu, til þess að fara í hernað móti Ísraelsmönnum. 15 En Benja-
míns synir, þeir er úr borgunum komu, voru á þeim degi tuttugu og
sex þúsundir vopnaðra manna að tölu, auk Gíbeu-búa, en þeir voru
sjö hundruð að tölu, einvala lið. 16 Af öllu þessu liði voru sjö hundr-
uð úrvals menn örvendir; hæfðu þeir allir hárrétt með slöngusteini og
mistu ekki. 17 En Ísraelsmenn voru að tölu, fyrir utan Benjamín, fjög-
ur hundruð þúsund vopnaðra manna, og voru þeir allir hermenn.
18 Þeir tóku sig upp og fóru upp til Betel og gengu til frétta við Guð.
Og Ísraelsmenn sögðu: Hver af oss skal fyrstur fara í hernaðinn móti
Benjamíns sonum? Og Jahve svaraði: Júda skal fyrstur fara. 19 Þá
tóku Ísraelsmenn sig upp um morguninn og settu herbúðir sínar hjá
Gíbeu. 20 Og Ísraelsmenn fóru til bardaga í móti Benjamín, og Ísra-
elsmenn fylktu sér til orustu gegn þeim nálægt Gíbeu. 21 Þá fóru Benja-
míns synir út úr Gíbeu og lögðu að velli tuttugu og tvær þúsundir
manna af Ísrael á þeim degi. 22 En liðið — Ísraelsmenn — herti upp
hugann, og fylktu þeir sér af nýju til orustu á þeim stað, sem þeir
höfðu fylkt sér hinn fyrri daginn. 23 Og Ísraelsmenn fóru upp eftir og
grétu frammi fyrir Jahve alt til kvelds, og þeir gengu til frétta við
Jahve og sögðu: Eigum vér enn að leggja til orustu við sonu Benja-
míns, bróður vors? Og Jahve svaraði: Farið á móti þeim. 24 Fóru
Ísraelsmenn nú í móti Benjamíns sonum á öðrum degi. 25 Og Benja-
mín fór út í móti þeim úr Gíbeu á öðrum degi, og lögðu þeir enn að
velli átján þúsund manns af Ísraelsmönnum og voru þeir allir vopn-
um búnir. 26 Þá fóru allir Ísraelsmenn og allur lýðurinn upp eftir og
komu til Betel og höfðust þar við grátandi fyrir augliti Jahve og föstuðu
þann dag til kvelds. Og þeir fórnuðu brennifórnum og heillafórnum
fyrir augliti Jahve. 27 Síðan gengu Ísraelsmenn til frétta við Jahve —
en þar var sáttmálsörk Guðs í þá daga, 28 og Pínehas, sonur Eleasars
Aronssonar, gegndi þjónustu fyrir augliti hans í þá daga — og sögðu:
Eigum vér enn að leggja til orustu við sonu Benjamíns, bróður vors,
eða eigum vér að hætta? En Jahve svaraði: Farið, því að á morgun
mun eg gefa þá í yðar hendur. 29 Nú setti Ísrael menn í launsát hring-
inn í kring um Gíbeu. 30 Og Ísraelsmenn fóru í móti Benjamíns son-
um á þriðja degi og fylktu þeir sér gegnt Gíbeu, eins og hin fyrri skift-
in. 31 Þá fóru Benjamíns synir út á móti liðinu og létu teygjast burt
frá borginni og tóku að fella nokkura af liðinu, eins og hin fyrri skiftin,
úti á þjóðvegunum — en annar þeirra liggur upp til Betel, en hinn
til Gíbeu yfir haglendið — um þrjátíu manns af Ísrael. 32 Þá hugsuðu
Benjamíns synir: Þeir bíða ósigur fyrir oss eins og í fyrsta sinnið. En
Ísraelsmenn höfðu sagt: Vér skulum flýja, svo að vér fáum teygt þá
frá borginni út á þjóðvegina. 33 Og allir Ísraelsmenn tóku sig upp úr
sínum stað og fylktu sér í Baal-Tamar, og þeir Ísraelsmanna, er í
launsát voru, þustu fram úr sínum stað fyrir vestan Geba. 34 Því næst

18: v. 26. 27. Kap. 1, 1. 2.

sóttu tíu þúsundir einvala liðs úr öllum Ísrael fram móti Gíbeu og
tókst þar hörð orusta; en hinir vissu ekki að ógæfan vofði yfir þeim.
[35] Þannig lét Jahve Benjamín bíða ósigur fyrir Ísrael, og Ísraelsmenn
drápu tuttugu og fimm þúsund og eitt hundrað manns af Benjamín á
þeim degi og voru þeir allir vopnum búnir. [36] Þá sáu Benjamíns synir,
að þeir höfðu beðið ósigur. Og Ísraelsmenn gáfu Benjamín rúm, því
að þeir treystu launsátinni, er þeir höfðu sett hjá Gíbeu. [37] En þeir,
sem í launsátinni voru, spruttu upp og geystust fram mót Gíbeu, og
þeir, sem í launsátinni voru, fóru til og feldu alla borgarbúa með
sverðseggjum. [38] En það var samkomulag milli Ísraelsmanna og þeirra,
er í launsátinni voru, að þeir skyldu láta reyk leggja upp af borginni
til merkis. [39] Þegar nú Ísraelsmenn snerust á flótta í bardaganum og
Benjamínítar tóku að fella nokkura af Ísraelsmönnum — um þrjátíu
manns —, með því að þeir hugsuðu: Þeir hafa þegar beðið ósigur
fyrir oss, eins og í fyrstu orustunni! [40] þá tók merkið að stíga upp
af borginni, reykjarmökkurinn, og er Benjamínítar sneru sér við, sjá,
þá stóð öll borgin í björtu báli. [41] Þá sneru Ísraelsmenn við og sló
felmti á Benjamíníta, því að þeir sáu, að ógæfan var yfir þá komin.
[42] Sneru þeir nú undan Ísraelsmönnum á leið til eyðimerkurinnar og
hélzt þó orustan á hælum þeim, og þeir, sem komu úr borgunum,
drápu þá mitt á meðal þeirra. [43] Þeir umkringdu Benjamíníta, eltu
þá og tróðu þá undir fótum sér, þar sem þeir höfðu leitað sér hvíldar,
*alla* leið austur fyrir Gíbeu. [44] Og þar féllu af Benjamín átján þús-
undir manna, og voru það alt hraustir menn. [45] Þá sneru þeir á flótta
til eyðimerkurinnar að Rimmón-kletti, og í eftirleitinni um þjóðvegina
drápu þeir fimm þúsund manns, og þeir eltu þá alt til Gídeóm og
drápu enn af þeim tvö þúsund manns. [46] Þannig féllu alls af Benja-
mín á þeim degi tuttugu og fimm þúsundir vopnbúinna manna, og voru
það alt hraustir menn. [47] Þá sneru þeir á flótta til eyðimerkurinnar
að Rimmón-kletti, sex hundruð manns, og höfðust við hjá Rimmón-
kletti í fjóra mánuði. [48] En Ísraelsmenn sneru aftur til Benjamíns
sona og feldu þá með sverðseggjum, bæði menn og fénað og alt, sem
þeir fundu; þeir lögðu og eld í allar borgirnar, sem fyrir þeim urðu.

### Benjamínítum fengið kvonfang.

21 Ísraelsmenn höfðu unnið eið í Mizpa og sagt: Enginn af oss
skal gifta Benjamíníta dóttur sína. [2] Og lýðurinn fór til Betel og
þeir dvöldu þar fram á kveld fyrir augliti Guðs og hófu þar mikið
harmakvein [3] og sögðu: Jahve, Ísraels Guð! hví hefir þetta við borið í
Ísrael, að nú skuli vanta eina ættkvíslina í Ísrael? [4] Morguninn eftir
reis lýðurinn árla og reisti þar altari og fórnaði brennifórnum og heilla-
fórnum. [5] Því næst sögðu Ísraelsmenn: Mun nokkur vera sá af öllum
ættkvíslum Ísraels, er ekki hafi komið upp hingað til Jahve með söfn-
uðinum? Því að það hafði verið föstum svardögum bundið, að hver
sá, er ekki kæmi upp til Jahve í Mizpa, sá hinn sami skyldi lífi týna.
[6] Og Ísraelsmenn tók sárt til Benjamíns bróður síns og þeir sögðu:
Nú er ein ættkvísl upphöggvin úr Ísrael! [7] Hvernig eigum vér að fara
að því, að útvega þeim konur, sem eftir eru, þar eð vér höfum unnið
Jahve eið að því, að gifta þeim eigi neina af dætrum vorum? [8] Þá
sögðu þeir: Er nokkur sá af ættkvíslum Ísraels, er ekki hafi farið upp
til Jahve í Mizpa? Og sjá, frá Jabes í Gíleað hafði enginn komið í
herbúðirnar til samkomunnar. [9] Fór nú fram liðkönnun, og sjá, eng-

**39**: v. 32. — **21, 1**: kap. 20, 1. **2**: kap. 20, 26.

inn var þar af íbúum Jabes í Gíleað. [10] Þá sendi lýðurinn þangað tólf
þúsundir hraustra manna og lagði svo fyrir þá: Farið og fellið íbúana
í Jabes í Gíleað með sverðseggjum, ásamt konum og börnum. [11] En
þannig skuluð þér að fara: alla karlmenn og allar konur, er samræði
hafa átt við mann, skuluð þér banni helga, en meyjar skuluð þér láta
lífi halda. Þeir gjörðu svo. [12] Og þeir fundu meðal íbúanna í Jabes
í Gíleað fjögur hundruð meyjar, er eigi höfðu samræði átt við mann,
og þeir fóru með þær til herbúðanna í Síló, sem er í Kanaanlandi.
[13] Þá sendi allur lýðurinn og lét tala við Benjamíns sonu, þá er voru
hjá Rimmón-kletti, og bauð þeim frið. [14] Þá hurfu Benjamínítar aftur
og þeir gáfu þeim konur þær, er þeir höfðu látið lífi halda af konun-
um í Jabes í Gíleað. Þær voru þó ekki nógu margar handa þeim. [15] Og
lýðinn tók sárt til Benjamíns, því að Jahve hafði höggvið skarð í ætt-
kvíslir Ísraels. [16] Þá sögðu öldungar lýðsins: Hvernig eigum vér að
fara að því, að útvega þeim, sem eftir eru, konur? því að konur
hafa verið gjöreyddar úr Benjamín. [17] Og þeir sögðu: Þeir af
Benjamínítum, er undan hafa komist, skulu halda arfleifð sinni, svo
að eigi verði ættkvísl afmáð úr Ísrael. [18] En ekki getum vér gift
þeim neina af dætrum vorum. Því að Ísraelsmenn höfðu svarið: bölv-
aður sé sá, sem gefur Benjamín konu! [19] Þá sögðu þeir: Sjá, hátíð
Jahve er árlega haldin í Síló, sem liggur fyrir norðan Betel, fyrir aust-
an þjóðveginn, sem liggur frá Betel upp til Sikem, og fyrir sunnan
Lebóna. [20] Og þeir lögðu svo fyrir Benjamíns sonu: Farið og liggið
í leyni í víngörðunum. [21] Og er þér sjáið Síló-dætur ganga út til
dansleika, þá skuluð þér spretta upp úr víngörðunum og ræna yður
sinni konunni hver af Síló-dætrum; farið síðan heim í Benjamínsland.
[22] En þegar feður þeirra eða bræður koma að kæra þetta fyrir oss,
þá skulum vér segja við þá: Gefið oss þær; því að vér fengum engar
konur í stríðinu; þér hafið ekki heldur gefið þeim þær; ef svo væri,
þá væruð þér sekir. [23] Og Benjamíns synir gjörðu svo og tóku sér
konur, eins og þeir voru margir til, meðal dansmeyjanna, sem þeir
ræntu. Síðan fóru þeir og hurfu aftur til óðals síns og reistu af nýju
borgirnar og bjuggu í þeim. [24] Þá fóru og Ísraelsmenn þaðan, hver
til sinnar kynkvíslar og sinnar ættar, og þeir héldu þaðan hver til
óðals síns.

[25] Í þá daga var enginn konungur í Ísrael; hver maður gjörði
það, sem honum vel líkaði.

---

**13**: kap. 20, 47. **18**: v. 1. **25**: kap. 17, 6; 18, 1; 19, 1.

# Rutarbók.

## Rut fer til Betlehem með Noomí, tengdamóður sinni.

1 Í þá daga, er dómararnir stjórnuðu, bar svo til að hallæri var í
landinu. Fór þá maður nokkur frá Betlehem í Júda, til þess að
dveljast sem útlendingur í Móabslandi, ásamt konu sinni og tveimur
sonum sínum. [2] Þessi maður hét Elímelek og kona hans Noomí, en
synir hans tveir Mahlón og Kiljón — Efratítar frá Betlehem í Júda.
Þau komu til Móabslands og dvöldust þar. [3] Þá dó Elímelek, maður
Noomí, en hún lifði eftir með báðum sonum sínum. [4] Þeir gengu að
eiga móabítískar konur, og hét önnur Orpa, en hin Rut. Og þeir
bjuggu þar hér um bil tíu ár. [5] Þá dóu þeir líka báðir, Mahlón og
Kiljón, og konan lifði ein eftir báða sonu sína og mann sinn. [6] Þá
bjóst hún til að hverfa aftur heim frá Móabslandi með tengdadætrum
sínum; því að hún hafði heyrt í Móabslandi, að Jahve hefði vitjað
lýðs síns og gefið þeim brauð. [7] Lagði hún nú af stað þaðan, er hún
hafði verið, og báðar tengdadætur hennar með henni. En er þær voru
farnar á leið, til þess að hverfa aftur til Júdalands, [8] þá sagði Noomí
við báðar tengdadætur sínar: Farið, snúið við, hvor um sig til húss
*móður* sinnar. Jahve auðsýni ykkur gæzku, eins og þið hafið auðsýnt
hinum látnu og mér. [9] Jahve gefi ykkur, að þið megið finna athvarf
hvor um sig í húsi manns síns. Síðan kysti hún þær. En þær tóku
að gráta hástöfum [10] og sögðu við hana: Nei, við viljum hverfa aftur
með þér til þíns fólks! [11] Noomí svaraði: Hverfið aftur, dætur mínar!
Hví viljið þið fara með mér? Mun eg enn bera sonu í skauti mínu,
er verða megi menn ykkar? [12] Hverfið aftur, dætur mínar, farið heim,
því að eg er orðin of gömul til að giftast aftur. En setjum nú svo,
að eg hugsaði: Eg hefi enn von, og að eg giftist meira að segja í
kveld og fæddi einnig sonu — ættuð þið fyrir þá sök að bíða, til þess
er þeir yrðu fulltíða? [13] Ættuð þið fyrir þá sök að loka ykkur inni
og ekki giftast? Nei, dætur mínar, því að mig tekur mjög sárt til
ykkar; því að hönd Jahve hefir lagst þungt á mig. [14] Þá tóku þær enn
að gráta hástöfum. Og Orpa kvaddi tengdamóður sína með kossi, en
Rut gat ekki slitið sig frá henni. [15] Þá mælti hún: Sjá, mágkona þín
er snúin heim aftur til síns fólks og síns guðs; far þú heim aftur á
eftir mágkonu þinni. [16] En Rut svaraði: Legðu eigi að mér um það
að yfirgefa þig og hverfa aftur, en fara eigi með þér; því að hvert sem
þú fer, þangað fer eg, og hvar sem þú náttar, þar nátta eg; þitt fólk
er mitt fólk og þinn guð er minn guð. [17] Hvar sem þú deyr, þar dey
eg, og þar vil eg vera grafin. Hvað sem Jahve lætur fram við mig
koma, þá skal dauðinn einn aðskilja mig og þig. [18] Og er hún sá, að
hún var fastráðin í því að fara með henni, hætti hún að tala um fyrir
henni. [19] Síðan héldu þær báðar áfram, unz þær komu til Betlehem.
En er þær komu til Betlehem, komst öll borgin í uppnám út af þeim
og konur sögðu: Er þetta Noomí? [20] Og hún sagði við þær: Kallið
mig ekki Noomí*, kallið mig Mara**, því að hinn Almáttki hefir búið
mér beiska harma. [21] Rík fór eg héðan, en tómhenta hefir Jahve látið
mig aftur hverfa. Hví kallið þér mig Noomí, úr því Jahve hefir vitnað
í móti mér og hinn Almáttki hrelt mig. [22] Þannig hvarf Noomí heim

---

**1, 2:** 1 Mós. 35, 19. **9:** kap. 3, 1. **18:** Job 19, 21. **20:** * Þ. e. hin yndislega.
** Þ. e. hin beiska eða sorgbitna.

aftur og með henni Rut hin móabítiska, tengdadóttir hennar, sem heim
hvarf frá Móabslandi; og þær komu til Betlehem í byrjun byggskurðar.

## Rut tínir upp öx á akri Bóasar.

2 En Noomí átti þar frænda manns síns, ríkan mann af ætt Elí-
meleks, og hét hann Bóas. [2] Og Rut hin móabítíska sagði við
Noomí: Eg ætla að fara út á akurinn og tína upp öx á eftir einhver-
jum þeim, er kann að sýna mér velvild. Og hún svaraði henni: Far,
þú, dóttir mín! [3] Og hún fór og kom og tíndi á akrinum á eftir korn-
skurðarmönnunum, og henni vildi svo vel til, að teig þennan átti Bóas,
sem var í ætt við Elímelek. [4] Og sjá, Bóas kom frá Betlehem og sagði
við kornskurðarmennina: Jahve sé með yður! Þeir svöruðu: Jahve
blessi þig! [5] Og Bóas mælti við þjón sinn, sem settur var yfir korn-
skurðarmennina: Hverjum heyrir þessi stúlka til? [6] Og þjónninn, sem
settur var yfir kornskurðarmennina, svaraði og sagði: Það er móabítísk
stúlka, sú sem kom aftur með Noomí frá Móabslandi. [7] Hún sagði:
Leyf mér að tína upp og safna saman meðal bundinanna á eftir korn-
skurðarmönnunum! Og hún kom og hefir verið að frá því í morgun
og þangað til nú og hefir ekki gefið sér neinn tíma til að hvíla sig.
[8] Þá sagði Bóas við Rut: Heyr þú, dóttir mín! far þú ekki á annan
akur, til þess að tína, og far þú heldur ekki héðan, en haltu þig hér
hjá stúlkum mínum. [9] Gef þú gætur að þeim akri, þar sem þeir skera
upp, og gakk þú á eftir þeim; eg hefi boðið piltunum, að amast ekki
við þér. Og ef þig þyrstir, þá gakk að ílátunum og drekk af því, sem
piltarnir ausa. [10] Þá féll hún fram á ásjónu sína og laut niður að jörðu
og sagði við hann: Hvers vegna sýnir þú mér þá velvild, að víkja mér
góðu, þar sem eg þó er útlendingur? [11] Bóas svaraði og sagði við
hana: Mér hefir verið sagt alt af því, hvernig þér hefir farist við tengda-
móður þína eftir dauða manns þíns, og að þú hefir yfirgefið föður þinn
og móður og ættland þitt og farið til fólks, sem þú þektir ekki áður.
[12] Jahve umbuni verk þitt, og laun þín verði fullkomin af Jahve, Ísra-
els Guði, þar sem þú ert komin að leita skjóls undir vængjum hans.
[13] Og hún sagði: Ó, að eg mætti finna náð í augum þínum, herra minn;
því að þú hefir huggað mig og talað vinsamlega við ambátt þína, og
er eg þó ekki einu sinni jafningi ambátta þinna. [14] Og er matmálstími
kom, sagði Bóas við hana: Kom þú hingað og et af brauðinu og dýf
bita þínum í ediksblönduna. Þá settist hún hjá kornskurðarmönnun-
um, og hann rétti henni bakað korn, og hún át sig sadda og leifði.
[15] Síðan stóð hún upp og fór að tína. Þá lagði Bóas svo fyrir pilta
sína: Hún má einnig tína millum bundinanna, og gjörið henni ekkert
mein; [16] og dragið jafnvel öx út úr hnippunum handa henni og látið
eftir liggja, svo að hún megi tína, og eigi skuluð þér atyrða hana.
[17] Síðan tíndi hún á akrinum alt til kvelds; og er hún barði kornið úr
því, er hún hafði tínt, þá var það hér um bil efa af byggi. [18] Og hún
tók það og fór inn í borgina, og sá tengdamóðir hennar, hvað hún
hafði tínt; því næst tók hún fram það, er hún hafði leift, þá er hún
var södd orðin, og fékk henni. [19] Þá sagði tengdamóðir hennar við
hana: Hvar hefir þú tínt í dag og hvar hefir þú unnið? Blessaður sé
sá, sem vikið hefir þér góðu! Og hún sagði tengdamóður sinni frá,
hjá hverjum hún hefði unnið, og mælti: Maðurinn, sem eg hefi unnið
hjá í dag, heitir Bóas. [20] Þá sagði Noomí við tengdadóttur sína:
Blessaður sé hann af Jahve, sem hefir ekki látið af miskunn sinni við

---

**2,2:** 3 Mós. 19, 9 n. 23, 22. **12:** Sálm. 36, 8; 91, 4.

lifandi og látna. Og Noomí sagði við hana: Maðurinn er okkur ná-
kominn; hann er einn af lausnarmönnum okkar. 21 Þá sagði Rut hin
móabítíska: Hann sagði og við mig: Haltu þig hjá mínum piltum, unz
þeir hafa lokið öllum kornskurði hjá mér. 22 Og Noomí sagði við Rut,
tengdadóttur sína: Það er gott, dóttir mín, að þú farir út með ambátt-
um hans; þá munu menn eigi áreita þig á öðrum akri. 23 Síðan hélt
hún sig hjá stúlkum Bóasar, þá er hún var að tína, unz byggskurðin-
um og hveitiskurðinum var lokið; eftir það var hún kyr hjá tengda-
móður sinni.

### Rut minnir Bóas á mágskylduna.

3 Og Noomí, tengdamóðir hennar, sagði við hana: Dóttir mín, á eg
ekki að útvega þér athvarf, til þess að þér vegni vel? 2 Þú hefir
verið með stúlkunum hans Bóasar, en hann er frændi okkar; sjá, hann
varpar í nótt bygginu í láfa sínum. 3 Þvo þér nú og smyr þig og far
í önnur föt og gakk ofan í láfann, en láttu ekki manninn verða varan
við þig, fyr en hann hefir etið og drukkið. 4 En þegar hann legst til
hvíldar, þá taktu eftir hvar hann legst niður, og gakk þú þangað og
flettu upp ábreiðunni til fóta honum og legst þar niður; hann mun þá
segja þér, hvað þú átt að gjöra. 5 Og hún svaraði henni: Eg vil gjöra
alt, sem þú segir. 6 Síðan gekk hún ofan í láfann og gjörði alt svo
sem tengdamóðir hennar hafði fyrir hana lagt. 7 En er Bóas hafði etið
og drukkið og var í góðu skapi, þá fór hann og lagðist til hvíldar við
endann á kornbingnum. Þá kom hún hljóðlega, fletti upp ábreiðunni
til fóta honum og lagðist niður. 8 En um miðnætti varð manninum
bilt við, og er hann settist upp, sjá, þá lá kona til fóta honum. 9 Og
hann sagði: Hver ert þú? Hún svaraði: Eg er Rut ambátt þín; breið
þú væng þinn yfir ambátt þína, því að þú ert lausnarmaður. 10 Þá
sagði hann: Blessuð sért þú af Jahve, dóttir mín! Þú hefir nú síðast
sýnt elsku þína enn betur en áður, með því að elta ekki ungu menn-
ina, hvorki fátækan né ríkan. 11 Og ver þú nú óhrædd, dóttir mín:
að öllu svo sem þú segir mun eg við þig gjöra, því að allir samborg-
armenn mínir vita, að þú ert væn kona. 12 Nú er það að vísu satt,
að eg er lausnarmaður; en þó er til annar lausnarmaður, sem er ná-
komnari en eg. 13 Vertu hér í nótt; en á morgun, ef hann þá vill
leysa þig, gott og vel, þá gjöri hann það; en vilji hann ekki leysa þig,
þá mun eg leysa þig, svo sannarlega sem Jahve lifir. Ligðu nú kyr
til morguns. 14 Síðan lá hún til fóta honum til morguns. Þá stóð
hún upp, áður en menn gátu þekt hvor annan. Því að hann hugsaði:
Það má eigi spyrjast, að konan hafi komið í láfann. 15 Og hann sagði:
Kom þú með möttulinn, sem þú ert í, og haltu honum út. Og hún
hélt honum út. Þá mældi hann sex mæla byggs og lyfti á hana. Síð-
an fór hún inn í borgina. 16 En er hún kom til tengdamóður sinnar,
mælti hún: Hvernig gekk þér, dóttir mín? Þá sagði hún henni frá öllu
því, er maðurinn hafði við hana gjört. 17 Og hún sagði: Þessa sex
mæla byggs gaf hann mér, því að hann sagði: Þú mátt ekki fara heim
til tengdamóður þinnar með tvær hendur tómar. 18 Þá sagði hún: Ver
þú nú kyr, dóttir mín, unz þú fréttir, hvernig málum lýkur; því að
maðurinn mun ekki hætta, fyr en hann leiðir þetta mál til lykta í dag.

---

**20:** 3 Mós. 25, 25. — **3, 1:** kap. 1, 9. **9:** Esek. 16, 8. Rut. 2, 20.

## Bóas gengur að eiga Rut. Ættartala Davíðs.

4 Nú gekk Bóas upp í borgarhliðið og settist þar. Þá bar svo við,
að lausnarmaðurinn gekk fram hjá, sá er Bóas hafði talað um. Og
hann sagði: Kom þú og seztu hér, þú þarna! Og hann sneri þangað
og settist niður. [2] Þá tók hann tíu menn af öldungum borgarinnar og
sagði: Setjist hér! Og þeir settust niður. [3] Síðan sagði hann við lausn-
armanninn: Akurland það, er Elímelek frændi okkar átti, hefir Noomí
selt, sú sem heim er komin úr Móabslandi. [4] Og eg hugsaði, að eg
skyldi láta þig vita það og segja: Kaup það nú í viðurvist þeirra, er
hér eru, og í viðurvist öldunga fólks míns. Ef þú vilt leysa, þá leystu.
En ef þú vilt ekki leysa, þá segðu mér frá því, svo að eg viti það.
Því að enginn er til, sem getur leyst, nema þú og eg eftir þig. Og
hann sagði: Eg ætla að leysa. [5] Þá sagði Bóas: Um leið og þú kaupir
landið af Noomí, hefir þú og keypt Rut hina móabítísku, ekkju hins
framliðna, til þess að reisa nafn hins framliðna á arfleifð hans. [6] Þá
sagði lausnarmaðurinn: Eg get ekki leyst það handa mér; því að þá
kynni eg að spilla arfleifð minni. Leys þú handa þér það, sem eg átti
að leysa, því að eg get ekki leyst það. [7] En það var fyrrum siður í
Ísrael við brigðir og skifti, til þess að staðfesta allar gjörðir, að annar
tók af sér skóinn og fékk hinum. Þetta var vottfesting í Ísrael. [8] Þá
sagði lausnarmaðurinn við Bóas: Kaup þú það handa þér! og tók af
sér skóinn. [9] En Bóas sagði við öldungana og alt fólkið: Þér eruð í dag
vottar að því, að eg hefi keypt af Noomí alt það, sem Elímelek átti,
svo og alt það, sem þeir Kiljón og Mahlón áttu. [10] Einnig hefi eg keypt
Rut hina móabítísku, ekkju Mahlóns, mér að konu, til þess að reisa nafn
hins framliðna á arfleifð hans, svo að nafn hins framliðna upprætist
eigi meðal bræðra hans, og úr staðar hliði hans; — þér eruð vottar
þess í dag. [11] Þá sagði alt fólkið, sem var í hliðinu og öldungarnir:
Vér erum vottar að því. Jahve gjöri konuna, sem í hús þitt kemur,
slíka sem þær voru Rakel og Lea, er báðar reistu Ísraels hús. Veitist
þér vald í Efrata og verðir þú frægur í Betlehem. [12] Og verði hús þitt
sem hús Perez, sem Tamar fæddi Júda, fyrir afsprengi það, sem Jahve
gefur þér við þessari ungu konu.

[13] Síðan gekk Bóas að eiga Rut, og hún varð kona hans; og hann
gekk inn til hennar, og Jahve veitti henni getnað, og ól hún son. [14] Þá
sögðu konurnar við Noomí: Lofaður sé Jahve, sem eigi hefir látið þig
bresta lausnarmann í dag, svo að nafn hans mun nefnt verða í Ísrael.
[15] Hann mun verða huggun þín og ellistoð, því að tengdadóttir þín,
sem elskar þig, hefir alið hann — hún, sem er þér betri en sjö synir.
[16] Og Noomí tók barnið og lagði það á skaut sér og varð fóstra þess.
[17] Og grannkonurnar gáfu honum nafn og sögðu: Noomí er fæddur
sonur! og nefndu hann Óbeð; hann var faðir Ísaí, föður Davíðs.

[18] Þetta er ættartala Perez: Perez gat Hezron, [19] og Hezron gat Ram
og Ram gat Ammínadab, [20] og Ammínadab gat Nahson og Nahson gat
Salmón, [21] og Salmón gat Bóas og Bóas gat Óbeð, [22] og Óbeð gat Ísaí
og Ísaí gat Davíð.

---

**4, 5:** 5 Mós. 25, 5. 6. **12:** 1 Mós. 38, 29. **18:** 1 Mós. 46, 12. 1 Kron. 2, 5. Matt. 1, 3 n. **19:** 1 Kron. 2, 9 n.

# Fyrri Samúelsbók.

## Fæðing Samúels.

1 Maður er nefndur Elkana; hann var frá Ramataím, Zúfíti frá
Efraím-fjöllum; hann var sonur Jeróhams, Elíhúsonar, Tóhúsonar,
Zúfssonar Efraímíta. 2 Hann átti tvær konur, hét önnur Hanna, en
hin Peninna; Peninna átti börn, en Hanna átti engin börn. 3 Þessi
maður fór á ári hverju úr borg sinni, til þess að biðjast fyrir og til
þess að færa Jahve hersveitanna fórnir í Síló. En þar voru báðir synir
Elí, Hofní og Pínehas, prestar Jahve. 4 Og í hvert sinn er Elkana
fórnaði, þá gaf hann Peninnu, konu sinni, og öllum sonum hennar og
dætrum sinn hlut hverju; 5 og hann gaf Hönnu heldur ekki nema einn
hlut, þótt hann elskaði hana; en Jahve hafði lokað móðurkviði hennar.
6 Elja hennar skapraunaði henni einnig, til þess að reita hana til reiði,
af því að Jahve hafði lokað móðurkviði hennar. 7 Svo gjörði hann
ár eftir ár, í hvert skifti sem þau fóru upp til húss Jahve, og þannig
skapraunaði hún henni; og hún grét og neytti eigi matar. 8 Þá sagði
Elkana, maður hennar, við hana: Hanna, hví grætur þú og hví neytir
þú *eigi* matar og hví liggur svo illa á þér? Er eg þér ekki betri en
*tíu* synir?

9 Og Hanna stóð upp, þá er þau höfðu etið í Síló og þá er þau
höfðu drukkið. En Elí prestur sat á stól við dyrustafinn á musteri
Jahve. 10 Og hún var sárhrygg og bað til Jahve og grét mjög. 11 Og
hún gjörði heit og mælti: Jahve hersveitanna! ef þú lítur á eymd
ambáttar þinnar og minnist mín og gleymir eigi ambátt þinni og gefur
ambátt þinni karllegan afspring, þá skal eg gefa hann Jahve alla daga
æfi hans, og eigi skal rakhnífur koma á höfuð honum. 12 Og er hún
gjörði lengi bæn sína fyrir augliti Jahve, og Elí tók eftir munni hennar
— 13 en Hanna mæltist fyrir í hljóði, bærðust aðeins varinar, en rödd
hennar heyrðist ekki —, þá hélt Elí, að hún væri drukkin. 14 Þá sagði
Elí við hana: Hversu lengi ætlar þú að láta sjá þig drukna? láttu
vímuna renna af þér. 15 Hanna svaraði og sagði: Nei, herra minn, eg
er kona með sorgfullu hjarta; vín hefi eg ekki drukkið né áfengan
drykk, en eg hefi úthelt hjarta mínu fyrir Jahve. 16 Ætla þú eigi að
ambátt þín sé afhrak, því að af mínum mikla harmi og trega hefi eg
talað hingað til. 17 Elí svaraði og sagði: Far þú í friði; Ísraels Guð
mun veita þér það, er þú hefir beðið hann um. 18 Og hún mælti: Ó,
að ambátt þín mætti finna náð í augum þínum! Síðan fór konan
leiðar sinnar og mataðist og var eigi framar með döpru bragði.

19 Morguninn eftir risu þau árla og gjörðu bæn sína fyrir augliti
Jahve, sneru síðan aftur og komu heim til Rama. Og Elkana kendi
Hönnu konu sinnar, og Jahve mintist hennar. 20 Og er ár var liðið,
hafði Hanna orðið þunguð og alið son; og hún nefndi hann Samúel,
»því að eg hefi beðið Jahve um hann«.

21 Og maðurinn Elkana fór með alla fjölskyldu sína, til þess að
færa Jahve hina árlegu fórn og áheit sitt; 22 en Hanna fór ekki, heldur
sagði við mann sinn: Eg fer ekki fyr en sveinninn er vaninn af brjósti;
þá fer eg með hann, svo að hann birtist fyrir augliti Jahve og verði
þar ávalt upp frá því. 23 Og Elkana, maður hennar, sagði við hana:
Gjör þú sem þér vel líkar; ver þú kyr heima, unz þú hefir vanið hann

---

**1, 3:** 2 Mós. 23, 14. Jós. 18, 1. **11:** Dóm. 13, 5. **15:** Sálm. 42, 5; 62, 9.

af brjósti; Jahve láti aðeins orð þín rætast. Síðan var konan kyr
heima og hafði son sinn á brjósti, unz hún vandi hann af. [24] Og er
hún hafði vanið hann af brjósti, fór hún með hann og hafði með sér
þriggja ára gamalt naut og eina efu mjöls og legil víns, og hún fór
með hann í hús Jahve í Síló; en sveinninn var þá ungur. [25] Og þau
slátruðu nautinu og fóru með sveininn til Elí. [26] Og hún sagði: Heyr,
herra minn, svo sannarlega sem þú lifir, herra minn, er eg kona sú,
er stóð hér hjá þér, til þess að gjöra bæn mína til Jahve. [27] Um svein
þennan gjörði eg bæn mína, og Jahve veitti mér bæn mína, sem eg
bað hann um. [28] Fyrir því vil eg og ljá Jahve hann; svo lengi sem hann
lifir, skal hann vera Jahve léður. Og þau féllu þar fram fyrir Jahve.

2 Og Hanna gjörði bæn sína og mælti:

Hjarta mitt fagnar í Jahve,
horn mitt er hátt upp hafið fyrir fulltingi Guðs míns;
munnur minn er upp lokinn gegn óvinum mínum,
því að eg gleðst yfir þinni hjálp.

[2] Enginn er heilagur sem Jahve,
því að enginn er til nema þú;
ekkert bjarg er til sem vor Guð.
[3] Mælið eigi án afláts drambyrði,
ósvífni komi eigi út af munni yðar.
Því að Jahve er Guð alvitundar
og af honum eru verkin vegin.

[4] Bogi kappanna er sundur brotinn,
en máttfarnir menn gyrðast styrkleika.
[5] Mettir leigja sig fyrir brauð,
en hungraðir njóta hvíldar.
Óbyrjan fæðir jafnvel sjö,
en margra barna móðirin mornar og þornar.

[6] Jahve deyðir og lífgar,
færir til heljar niður og leiðir upp þaðan.
[7] Jahve gjörir fátækan og ríkan,
niðurlægir og upphefur.
[8] Hann reisir hinn lítilmótlega úr duftinu,
lyftir hinum snauða upp úr saurnum,
til þess að leiða þá til sætis hjá þjóðhöfðingjum
og setja þá á tignarstól.
Því að Jahve heyra stólpar jarðarinnar
og á þá setti hann jarðríkið.

[9] Fætur sinna guðhræddu varðveitir hann,
en hinir guðlausu farast í myrkri.
Því að fyrir eigin mátt sigrar enginn:
[10] þeir, sem berjast móti Jahve, verða sundur molaðir.
Uppi yfir þeim þrumar hann í himninum;
Jahve dæmir endimörk jarðarinnar.
Hann veitir kraft konungi sínum
og lyftir upp horni síns smurða.

---

**27:** v. 17. — **2, 1:** Lúk. 1, 47. **2:** Sálm. 86, 8. **5:** Lúk. 1, 53. **6:** 5 Mós. 32, 39.
**8:** Sálm. 113, 7. 8. Lúk. 1, 52. **9:** Sálm. 91, 11. **10:** kap. 7, 10. Sálm. 89, 25.

## Frá sonum Elís.

[11] Síðan fór Elkana heim til sín í Rama; en sveinninn gegndi
þjónustu Jahve hjá Elí presti.
[12] En synir Elí voru hrakmenni; þeir skeyttu ekki um Jahve,
[13] né hvað prestinum bar með réttu af hálfu lýðsins. Hve nær sem
einhver færði sláturfórn, þá kom sveinn prestsins, meðan verið var að
sjóða kjötið, með þrítentan fork í hendinni [14] og rak hann ofan í ket-
ilinn, eða pottinn, eða suðupönnuna, eða grýtuna, og alt sem upp kom
á forkinum, það tók presturinn handa sér. Svo fóru þeir með alla
Ísraelsmenn, sem komu þangað til Síló. [15] Meira að segja, áður en
fitan var brend, kom sveinn prestsins og sagði við þann, sem fórnaði:
Gef mér kjöt, til þess að steikja handa prestinum; hann vill ekki taka
við soðnu kjöti af þér, heldur hráu. [16] Segði maðurinn þá við hann:
Fyrst verður þó að brenna fituna; tak síðan slíkt er þú girnist! þá
svaraði hann: Nei, heldur skalt þú gefa það nú þegar, ella mun eg
taka það með valdi. [17] Og synd hinna ungu manna var mjög stór fyrir
Jahve, því að mennirnir lítilsvirtu fórn Jahve.
[18] En Samúel gegndi þjónustu frammi fyrir Jahve sem ungur
sveinn, skrýddur línhökli. [19] Og móðir hans var vön að gjöra honum
lítinn möttul og færði honum hann á ári hverju, þá er hún kom með
manni sínum til þess að færa hina árlegu fórn. [20] Þá blessaði Elí
Elkana og konu hans og sagði: Jahve gefi þér afkvæmi við þessari
konu í stað láns þess, er léð var Jahve. Síðan fóru þau heim til sín.
[21] Og Jahve vitjaði Hönnu, og hún varð þunguð og fæddi þrjá sonu
og tvær dætur. En sveinninn Samúel óx upp hjá Jahve.
[22] En Elí var mjög gamall, og heyrði alt um það, hvernig synir
hans fóru með allan Ísrael og að þeir legðust með konum þeim, sem gegndu
þjónustu við dyr samfundatjaldsins. [23] Og hann sagði við þá: Hvers vegna
hegðið þið ykkur svo? Því að eg hefi heyrt allan þennan lýð tala um
ilt athæfi ykkar. [24] Eigi má svo vera, synir mínir! Það er ekki falleg-
ur orðrómur, sem eg heyri lýð Jahve vera að breiða út. [25] Syndgi
maður á móti öðrum manni, þá sker Guð úr, en syndgi maður móti
Jahve, hver má þá biðja honum líknar? En þeir hlýddu ekki orðum
föður síns, því að Jahve vildi deyða þá. [26] En sveinninn Samúel óx
og þroskaðist og varð æ þekkari bæði Jahve og mönnum.
[27] Þá kom guðsmaður einn til Elí og sagði við hann: Svo segir
Jahve: Hvort hefi eg opinberað mig húsi föður þíns, þá er þeir heyrðu
til húsi Faraós í Egiptalandi? [28] Og eg valdi mér þá fyrir presta úr
öllum ættkvíslum Ísraels, til þess að þeir gengju upp að altari mínu
til að færa reykelsisfórn og bæru hökul frammi fyrir mér, og eg hefi
gefið húsi föður þíns allar eldfórnir Ísraelsmanna — [29] hvers vegna
fótum troðið þér sláturfórnir mínar og matfórnir, sem eg hefi fyrirskip-
að í bústað mínum? Og þú metur sonu þína meira en mig, er þér
feitið yður á hinu bezta af öllum fórnum Ísraels, lýðs míns! [30] Fyrir
því segir Jahve, Ísraels Guð: Eg hefi sagt: þitt hús og hús föður þíns
skal ganga fyrir augliti mínu eilíflega; — en nú segir Jahve: Það sé
fjarri mér. Því að eg heiðra þá, sem mig heiðra, en þeir, sem fyrir-
líta mig, munu til skammar verða. [31] Sjá, þeir tímar munu koma, að
eg sundurbrýt arm þinn og arm ættar þinnar, svo að enginn verður
gamall í húsi þínu. [32] Og þú munt horfa upp á neyð í húsinu,
þótt Ísrael líði að öðru leyti vel, og aldrei framar skal nokkur vera

---

**11:** kap. 3, 1. **15:** 3 Mós. 3, 3 n. **21:** Lúk. 1, 80. **22:** 2 Mós. 38, 8. **26:** Lúk. 2, 52. **30:** 2 Mós. 28, 1. **31:** 1 Kong. 2, 27.

gamall í húsi þínu. [33] En einum af þínum vil eg eigi útrýma frá altari
mínu, til þess að láta augu þín daprast og sálu þína örmagnast, en
öll viðkoma húss þíns skal falla fyrir sverði manna. [34] Og þetta skal
vera þér merkið, sem koma mun fram á báðum sonum þínum, Hofní
og Pínehas: á sama degi munu þeir báðir deyja. [35] En eg mun skipa
mér til handa trúan prest, og hann mun gjöra að mínum vilja og mínu
skapi; honum mun eg reisa stöðugt hús, og hann skal ganga fyrir aug-
liti míns smurða alla daga. [36] Þá mun það verða, að hver sá, sem
eftir er í húsi þínu, mun koma til að lúta honum, til þess að fá smá-
skilding eða brauðhleif, og segja: Kom þú mér niður við eitthvert
prestsembættið, svo að eg fái brauðbita að eta.

3 En sveinninn Samúel gegndi þjónust Jahve hjá Elí. Og orð frá
Jahve var sjaldgæft á þeim dögum; vitranir voru þá fátíðar. [2] Þá
bar svo til einn dag, þá er Elí svaf á sínum vanalega stað — en augu
hans voru tekin að daprast, svo að hann var hættur að sjá; [3] og enn
var ekki sloknað á Guðs lampa, en Samúel svaf í musteri Jahve, þar
sem Guðs örk var —, [4] að Jahve kallaði á Samúel, og hann sagði:
Hér er eg. [5] Og hann hljóp til Elí og sagði: Hér er eg, því að þú
kallaðir á mig. En hann sagði: Eg hefi ekki kallað; far þú aftur að
sofa. Fór hann þá og lagðist til svefns. [6] En Jahve kallaði enn af
nýju: Samúel! Og Samúel reis upp og fór til Elí og sagði: Hér er eg,
því að þú kallaðir á mig. En hann sagði: Eg hefi ekki kallað, sonur
minn; legst þú aftur til svefns. [7] En Samúel þekti ekki enn Jahve
og honum hafði ekki enn birzt orð frá Jahve. [8] Þá kallaði Jahve enn
á Samúel, í þriðja skiftið. Og hann reis upp og fór til Elí og sagði:
Hér er eg, því að þú kallaðir á mig. Þá skildi Elí, að það var Jahve,
sem var að kalla á sveininn. [9] Fyrir því sagði Elí við Samúel: Far
þú og legstu til svefns; og verði nú á þig kallað, þá svara þú: Tala þú,
Jahve, því að þjónn þinn heyrir. Fór Samúel þá og lagðist til svefns
á sínum stað. [10] Þá kom Jahve og gekk fram og kallaði sem hin
fyrri skiftin: Samúel! Samúel! Og Samúel svaraði: Tala þú, því að
þjónn þinn heyrir. [11] Jahve mælti þá við Samúel: Þá hluti mun eg
gjöra í Ísrael, að óma mun fyrir báðum eyrum allra þeirra, er það
heyra. [12] Á þeim degi mun eg láta fram koma á Elí alt það, er eg
hefi talað um hús hans — frá upphafi til enda. [13] Því að eg hefi
kunngjört honum, að eg muni dæma hús hans að eilífu, vegna mis-
gjörðar þeirrar, er honum var kunn, að synir hans leiddu bölvun yfir
sig, og þó hafði hann ekki taum á þeim. [14] Og fyrir því hefi eg svar-
ið húsi Elí: Sannlega skal eigi verða friðþægt fyrir misgjörð Elí húss
með sláturfórn eða matfórn að eilífu. [15] Lá Samúel nú kyr alt til morg-
uns. Og um morguninn reis hann árla og lauk upp dyrunum á húsi
Jahve. En Samúel þorði ekki að segja Elí frá sýninni. [16] En Elí kallaði
á Samúel og sagði: Samúel, sonur minn! Hann svaraði: Hér er eg.
[17] Og hann sagði: Hvað var það, sem hann talaði við þig? Leyndu
mig því ekki. Guð láti þig gjalda þess nú og síðar, ef þú leynir mig
nokkuru af því, sem hann talaði við þig. [18] Þá sagði Samúel honum
alt saman og leyndi hann engu. En hann sagði: Hann er Jahve;
gjöri hann það, sem honum þóknast!

[19] En Samúel óx, og Jahve var með honum og lét ekkert af því,
er hann hafði boðað, falla til jarðar. [20] Og allur Ísrael frá Dan til
Beerseba kannaðist við, að Samúel væri falið að vera spámaður Jahve.
[21] Og Jahve hélt áfram að birtast í Síló; því að Jahve opinberaðist
Samúel í Síló fyrir orð Jahve.

---

**34**: kap. 4, 11. **35**: 1 Kong. 2, 35. 1 Kron. 29, 22. — **3, 1**: Am. 8, 11. **2**: kap. 4, 15. 1 Mós. 27, 1. **11**: 2 Kong. 21, 12. **12**: kap. 2, 30 n.

## Ósigur Ísraelsmanna. Dauði Elísona.

4 Og orð Samúels kom til alls Ísraels. Og Ísrael fór í móti Fil-
istum til hernaðar og settu þeir herbúðir sínar hjá Ebeneser, en
Filistar settu herbúðir sínar hjá Afek. [2] Og Filistar fylktu liði sínu
gegn Ísrael, og hallaðist bardaginn: Ísrael beið ósigur fyrir Filistum,
og þeir feldu í valinn á vígvellinum um fjögur þúsund manns. [3] Og
er lýðurinn kom aftur í herbúðirnar, þá sögðu öldungar Ísraels: Hví
hefir Jahve látið oss bíða ósigur í dag fyrir Filistum? Vér skulum
sækja sáttmálsörk Jahve til Síló, og þegar hún er komin hér meðal
vor, mun hún frelsa oss af hendi óvina vorra. [4] Þá sendi lýðurinn til
Síló, og þeir tóku þaðan sáttmálsörk Jahve hersveitanna, hans sem
situr uppi yfir kerúbunum, og báðir synir Elí, þeir Hofní og Pínehas,
fóru með sáttmálsörk Guðs. [5] En þegar sáttmálsörk Jahve kom í her-
búðirnar, þá laust allur Ísrael upp svo miklu fagnaðarópi, að jörðin
dundi. [6] Og þegar Filistar heyrðu óminn af fagnaðarópinu, sögðu þeir:
Hvað merkir þetta glymjandi fagnaðaróp í herbúðum Hebrea? Og er
þeir urðu þess vísir, að örk Jahve væri komin í herbúðirnar, [7] þá urðu
Filistar skelkaðir, því að þeir hugsuðu: Guð er kominn til þeirra í
herbúðirnar, og sögðu: Vei oss, því að slíkt hefir aldrei áður til borið!
[8] Vei oss! hver mun frelsa oss af hendi þessara voldugu guða? Það
voru þessir guðir, sem lustu Egipta með alls konar plágum í eyði-
mörkinni. [9] Herðið ykkur upp og verið menn, Filistar, svo að þér
verðið ekki ánauðugir Hebreum, eins og þeir hafa verið yður ánauðugir.
Verið því menn og berjist! [10] Og Filistar börðust, og Ísrael hafði ó-
sigur, og þeir flýðu, hver heim til sín. Og mannfallið var mjög mikið:
féllu af Ísrael þrjátíu þúsundir fótgangandi manna. [11] Og Guðs örk
var tekin, og báðir synir Elí, þeir Hofní og Pínehas, létu lífið.
[12] En Benjamíníti nokkur hljóp úr orustunni og kom til Síló
þennan sama dag í rifnum klæðum og með mold á höfði sér. [13] Og
er hann kom, sjá, þá sat Elí á stól við hliðið og starði út á veginn,
því að hann var hugsjúkur um örk Guðs. Og er maðurinn kom að
segja þessi tíðindi í borginni, þá tók öll borgin að kveina. [14] En er
Elí heyrði óminn af harmakveininu, sagði hann: Hvað merkir þessi
háreysti? Og maðurinn hraðaði sér og kom og sagði Elí tíðindin. [15] En
Elí var níutíu og átta ára gamall og augu hans stirðnuð, svo að hann
mátti ekki sjá. [16] Og maðurinn sagði við Elí: Eg er sá, sem kom úr
orustunni, og flýði eg í dag úr orustunni. Þá sagði hann: Hvernig
hefir það gengið, sonur minn? [17] Þá svaraði maðurinn, sem tíðindin
flutti, og mælti: Ísrael er flúinn fyrir Filistum, og líka var mikið mann-
fall meðal fólksins; og einnig eru báðir synir þínir, þeir Hofní og
Pínehas, dauðir, og Guðs örk er tekin. [18] En er hann nefndi Guðs
örk, þá féll hinn aftur á bak úr stólnum við hliðið og hálsbrotnaði,
og varð það hans bani, því að hann var gamall maður og þungur.
En hann hafði verið dómari í Ísrael í fjörutíu ár. [19] Og tengdadóttir
hans, kona Pínehasar, var þunguð og komin að falli; og er hún heyrði
tíðindin, að Guðs örk væri tekin og tengdafaðir hennar og maður
dauðir, þá hné hún niður og fæddi, því að jóðsóttin kom yfir hana.
[20] En er hún var komin í dauðann, sögðu konurnar, er yfir henni
stóðu: Óttast ekki, því að þú hefir son fætt. En hún svaraði engu
og gaf því engan gaum, [21] heldur nefndi sveininn Íkabóð og sagði:
Horfin er vegsemdin frá Ísrael — vegna þess að Guðs örk var tekin

---

**4, 4:** 2 Sam. 6, 2. Sálm. 80, 2. **9:** Dóm. 13, 1. **11:** Sálm. 78, 61. **12:** Jós. 7, 6.
**15:** kap. 3, 2. 1 Kong. 14, 4. **20:** 1 Mós. 35, 17. **21:** Sálm. 78, 61.

og vegna tengdaföður síns og manns síns. 22 Og hún sagði: Horfin er
vegsemdin frá Ísrael, því að Guðs örk er tekin.

### Sáttmálsörkin í höndum Filista.

5 En Filistar höfðu tekið Guðs örk og flutt hana frá Ebeneser til
Asdód. 2 Og Filistar tóku Guðs örk og fluttu hana í hús Dagóns
og settu hana við hliðina á Dagón. 3 En er Asdód-menn risu árla morg-
uninn eftir, sjá, þá lá Dagón á grúfu á gólfinu fyrir framan örk Jahve.
Tóku þeir þá Dagón og settu hann aftur á sinn stað. 4 Og þeir risu
árla um morguninn daginn eftir, og sjá, þá lá Dagón á grúfu á gólfinu
fyrir framan örk Jahve; höfuð Dagóns og báðar hendur voru brotnar
af honum og lágu á þröskuldinum; bolurinn einn var eftir af Dagón.
5 Fyrir því stíga prestar Dagóns og allir þeir, sem ganga inn í hús
Dagóns, ekki á þröskuld Dagóns í Asdód, og helzt það enn í dag. 6 Og
hönd Jahve lá þungt á Asdód-mönnum, hann skelfdi þá og sló þá með
kýlum — Asdód og héraðið umhverfis. 7 En þegar Asdód-búar sáu,
að þetta var þannig, þá sögðu þeir: Örk Ísraels Guðs skal eigi lengur
hjá oss vera, því að hörð er hönd hans á oss og á Dagón, guði vor-
um. 8 Þá gjörðu þeir út sendimenn og söfnuðu saman öllum höfð-
ingjum Filista til sín og sögðu: Hvað eigum vér að gjöra við örk
Ísraels Guðs? Og þeir sögðu: Flytja skal örk Ísraels Guðs til Gat.
Og þeir fluttu örk Ísraels Guðs þangað. 9 En eftir að þeir höfðu flutt
hana þangað, þá kom hönd Jahve yfir borgina — feikna mikil skelfing
— og hann sló borgarbúa, bæði smáa og stóra, svo að kýli brutust út
um þá. 10 Þá sendu þeir Guðs örk til Ekron. En er Guðs örk kom
til Ekron, þá kveinuðu Ekroningar og sögðu: Þeir hafa flutt til mín
örk Ísraels Guðs, til þess að deyða mig og fólk mitt! 11 Þá gjörðu þeir
út sendimenn og söfnuðu saman öllum höfðingjum Filista og sögðu:
Sendið burt örk Ísraels Guðs, svo að hún komist á sinn stað og deyði
mig ekki og fólk mitt. Því að dauðans angist hafði gripið alla borg-
ina; hönd Guðs lá þar mjög þungt á. 12 Þeir menn sem eigi dóu,
urðu slegnir kýlum, og kvein borgarinnar sté upp til himins.

### Örkin send heim.

6 Og örk Jahve var sjö mánuði í Filistalandi. 2 Og Filistar köll-
uðu prestana og spásagnarmennina og sögðu: Hvað eigum vér að
gjöra við örk Jahve? Segið oss til, hvernig vér eigum að senda hana
heim á sinn stað. 3 Þeir svöruðu: Ef þér sendið burt örk Ísraels Guðs,
þá sendið hana ekki gjafalaust, heldur greiðið henni sektarfórn. Þá
munuð þér heilir verða, og yður mun verða kunnugt, hvers vegna hönd
hans hefir ekki frá yður vikið. 4 Þá sögði þeir: Hvaða sektarfórn eig-
um vér að greiða henni? Þeir svöruðu: Fimm kýli af gulli og fimm
mýs af gulli, eins og höfðingjar Filista eru margir til, því að sama
plágan gengur yfir yður og höfðingja yðar. 5 Búið nú til myndir af
kýlum yðar og myndir af músum yðar, þeim er eyða landið, og gefið
Ísraels Guði dýrðina: má vera að hann létti þá af yður hendi sinni
og af guði yðar og af landi yðar. 6 Hvers vegna viljið þér herða hjörtu
yðar, eins og Egiptar og Faraó hertu hjarta sitt? Var ekki svo, að
þegar hann hafði leikið þá hart, þá sleptu þeir þeim, svo að þeir fóru
burt? 7 Og takið nú og gjörið nýjan vagn og tvær kýr, sem kálfar
ganga undir og ok hefir ekki komið á, og beitið kýrnar fyrir vagninn,

---

5, 6: kap. 6, 5. — 6, 6: 2 Mós. 8, 15; 12, 31.

en takið kálfana undan þeim og farið heim með þá. [8] Takið síðan
örk Jahve og setjið hana á vagninn; en gullgripi þá, er þér greiðið henni
í sektarfórn, skuluð þér láta í kistil við hlið hennar; látið hana síðan
fara leiðar sinnar. [9] Og hyggið að: ef hún fer veginn til síns lands
upp til Bet-Semes, þá er það hann, sem hefir látið oss þessa miklu
ógæfu að höndum bera; en fari hún ekki veginn, þá vitum vér, að
ekki er það hönd hans, sem hefir lostið oss; þá er það tilviljun, er
oss hefir að höndum borið.
[10] Og mennirnir gjörðu svo; þeir tóku tvær kýr, er kálfar gengu
undir, og beittu þær fyrir vagninn, en kálfana byrgðu þeir inni heima.
[11] Síðan settu þeir örk Jahve á vagninn, svo og kistilinn með gullmús-
unum og kýlamyndunum. [12] Og kýrnar fóru beina leið til Bet-Semes;
þræddu þær brautina og bauluðu án afláts og viku hvorki til hægri
né vinstri; og höfðingjar Filista fóru á eftir þeim alt að landamærum
Bet-Semes. [13] En Bet-Semes-búar voru að hveitiuppskeru í dalnum.
Varð þeim nú litið upp og sáu þeir örkina og urðu þeir fegnir að sjá
hana. [14] Og vagninn kom inn á akur Jósúa í Bet-Semes og nam þar
staðar. En þar var stór steinn. Og þeir klufu viðinn úr vagninum
og fórnuðu kúnum í brennifórn Jahve til handa. [15] En Levítarnir tóku
örk Jahve niður og kistilinn, sem hjá henni var og gullgripirnir voru
í, og settu á stóra steininn. Og Bet-Semes-búar fórnuðu brennifórnum
og slátruðu sláturfórnum á þeim degi Jahve til handa. [16] Og höfð-
*ingjar* Filistanna fimm sáu það og fóru þann sama dag aftur til Ekron.
[17] En þessi voru gullkýlin, sem Filistar greiddu Jahve í sektarfórn:
eitt fyrir Asdód, eitt fyrir Gasa, eitt fyrir Askalon, eitt fyrir Gat, eitt
fyrir Ekron; [18] auk þess gullmýsnar, jafnmargar og allar borgir Filista-
höfðingjanna fimm, bæði víggirtu borgirnar og bændaþorpin. Og stóri
steinninn, er þeir settu örk Jahve niður á, er vottur þessa fram á
þennan dag á akri Jósúa í Bet-Semes. [19] Og hann laust nokkura af
mönnunum í Bet-Semes, af því að þeir skoðuðu örk Jahve, og hann
laust af fólkinu sjötíu manns, fimtíu þúsund manns. En fólkið harm-
aði það, að Jahve hafði gjört svo mikið mannfall meðal fólksins. [20] Og
Bet-Semes-búar sögðu: Hver fær staðist fyrir Jahve, þessum heilaga
Guði? og til hvers mun hann nú fara, er hann fer frá oss? [21] Þá gerðu
þeir sendimenn á fund íbúanna í Kirjat-Jearím og létu segja þeim:
Filistar hafa skilað aftur örk Jahve; komið hingað og flytjið hana til
7 yðar. [1] Og íbúarnir í Kirjat-Jearím komu og sóttu örk Jahve og
fluttu hana í hús Abínadabs á hæðinni, og vígðu þeir Eleasar son
hans, til þess að gæta arkar Jahve.

### Ísraelsmenn taka sinnaskifti. Filistar bíða ósigur.

[2] Frá þeim degi, er örkin kom til Kirjat-Jearím, leið langur tími,
og urðu það tuttugu ár. Þá sneri alt Ísraels hús sér til Jahve. [3] Og
Samúel sagði við alt Ísraels hús: Ef þér viljið snúa yður til Jahve af
öllu hjarta, þá fjarlægið hin útlendu goð frá yður og Astörturnar og
snúið hjarta yðar til Jahve og þjónið honum einum; mun hann þá
frelsa yður af hendi Filista. [4] Þá köstuðu Ísraelsmenn burt Baölum og
Astörtum og þjónuðu Jahve einum. [5] Og Samúel sagði: Stefnið saman
öllum Ísrael í Mizpa, og skal eg þá biðja fyrir yður til Jahve. [6] Söfn-
uðust þeir þá saman í Mizpa og jusu vatn og úthelltu því fyrir Jahve,
og þeir föstuðu þann dag og sögðu þar: Vér höfum syndgað móti
Jahve! Og Samúel dæmdi Ísraelsmenn í Mizpa.

---

**19:** 4 Mós 4, 20. — **7, 1:** 2 Sam. 6, 3. 4. **3:** 1 Mós. 35, 2. Jós. 24, 23. **4:** Dóm. 10, 16. **5:** Dóm. 20, 1.

7 En er Filistar heyrðu, að Ísraelsmenn höfðu safnast saman í
Mizpa, þá fóru höfðingjar Filista á móti Ísrael. Og er Ísraelsmenn
heyrðu það, urðu þeir hræddir við Filista. 8 Og Ísraelsmenn sögðu
við Samúel: Lát eigi af að hrópa til Jahve, Guðs vors, fyrir oss, að
hann frelsi oss af hendi Filista. 9 Þá tók Samúel dilklamb og fórnaði
í brennifórn — alfórn — Jahve til handa. Og Samúel hrópaði til
Jahve fyrir Ísrael, og Jahve bænheyrði hann. 10 En meðan Samúel
var að fórna brennifórninni, voru Filistar komnir í nánd til að berjast
við Ísrael. En Jahve þrumaði með miklum gný yfir Filista á þeim
degi og gjörði þá felmtsfulla, svo að þeir biðu ósigur fyrir Ísrael.
11 Og Ísraelsmenn fóru út frá Mizpa og eltu Filista og drápu þá á flótt-
anum alt þar til komið var niður fyrir Betkar. 12 Þá tók Samúel stein
og reisti hann upp milli Mizpa og Jesjana og kallaði hann Ebeneser*
og sagði: Hingað til hefir Jahve hjálpað oss. 13 Þannig voru Filistar
yfirbugaðir og komu þeir ekki framar inn í land Ísraels; og hönd Jahve
var gegn Filistum meðan Samúel lifði. 14 En borgir þær, sem Filistar
höfðu tekið frá Ísrael, komu aftur undir Ísrael, frá Ekron alt til Gat;
og landinu, er að þeim lá, náði Ísrael og úr höndum Filista. Og friður
komst á milli Ísraels og Amóríta. 15 En Samúel dæmdi Ísrael meðan
hann lifði. 16 Og hann ferðaðist um á ári hverju og kom til Betel,
Gilgal og Mizpa og dæmdi Ísrael á öllum þessum stöðum. 17 Og hann
sneri aftur til Rama, því að þar átti hann heima og þar dæmdi hann
Ísrael. Og hann reisti Jahve þar altari.

### Ísrael biður um konung.

8 En er Samúel var orðinn gamall, setti hann sonu sína dómara
yfir Ísrael. 2 Frumgetinn sonur hans hét Jóel, en annar sonur
hans Abía; þeir dæmdu í Beerseba. 3 En synir hans fetuðu ekki í fót-
spor hans, heldur hneigðust þeir til ágirndar og þágu mútur og höll-
uðu réttinum. 4 Þá söfnuðust allir öldungar Ísraels saman og fóru á
fund Samúels í Rama 5 og sögðu við hann: Sjá, þú ert nú orðinn
gamall og synir þínir feta ekki í fótspor þín; set oss því konung til
að dæma oss, eins og er hjá öllum öðrum þjóðum. 6 En Samúel mis-
líkaði það, að þeir sögðu: Gef oss konung til þess að dæma oss! Og
Samúel bað til Jahve. 7 Og Jahve sagði við Samúel: Lát þú að
orðum lýðsins í öllu því, sem þeir biðja þig um, því að þeir hafa ekki
hafnað þér, heldur hafa þeir hafnað mér, svo að eg skuli ekki lengur
vera konungur yfir þeim. 8 Svona hafa þeir ávalt breytt frá þeim degi,
er eg leiddi þá út af Egiptalandi, alt fram á þennan dag; þeir hafa
yfirgefið mig og þjónað öðrum guðum; öldungis á sama hátt fara þeir
nú og með þig. 9 Lát því nú að orðum þeirra; þó skalt þú vara þá al-
varlega við og segja þeim réttindi konungsins, sem ríkja á yfir þeim.
10 Þá sagði Samúel lýðnum, sem heimti af honum konung, öll orð
Jahve 11 og mælti: Þessi munu verða réttindi konungsins, sem yfir yður
á að ríkja: Sonu yðar mun hann taka og setja þá við vagn sinn og á
hesta sína, og þeir munu hlaupa fyrir vagni hans, 12 og hann mun
skipa þá höfuðsmenn yfir þúsund og höfuðsmenn yfir fimtíu, og setja
þá til að plægja akurland sitt og skera upp korn sitt og gjöra hern-
aðartýgi sín og ökutýgi. 13 Og dætur yðar mun hann taka og láta þær
búa til smyrsl, elda og baka. 14 Og beztu lendur yðar, víngarða og

**10:** kap. 2, 10. 2 Sam. 22, 14. 15. **12:** kap. 4, 1. * Þ. e. hjálparsteinn. **17:** kap. 1, 19. — **8, 3:** 2 Mós. 23, 8. 5 Mós. 16, 19. Sálm. 15, 5. **5:** 5 Mós. 17, 14. Hós. 13, 10. Post. 13, 21. **7:** kap. 10, 19. **11:** 5 Mós. 17, 16.

olíugarða mun hann taka og gefa þjónum sínum; [15] og af sáðlöndum
yðar og víngörðum mun hann taka tíund og gefa hana geldingum sín-
um og þjónum sínum. [16] Og þræla yðar og ambáttir og hina beztu
uxa yðar og asna yðar mun hann taka og hafa til sinna verka. [17] Af
sauðfénaði yðar mun hann taka tíund; en sjálfir munuð þér verða
þrælar hans. [18] Þá munuð þér hrópa undan konungi yðar, er þér þá
hafið kjörið yður; en þá mun Jahve ekki svara yður. [19] En fólkið vildi
ekki hlýða fortölum Samúels og sagði: Nei, konungur skal yfir oss vera,
[20] svo að vér séum eins og allar aðrar þjóðir, og konungur vor skal
dæma oss og vera fyrirliði vor og heyja bardaga vora. [21] Og Samúel
hlýddi á öll ummæli lýðsins og tjáði þau fyrir Jahve. [22] En Jahve
sagði við Samúel: Lát þú að orðum þeirra og set yfir þá konung. Þá
sagði Samúel við Ísraelsmenn: Farið burt, hver til síns heimkynnis.

## Fundur Sáls og Samúels.

9 Maður er nefndur Kís; hann var úr Benjamín og var sonur Abí-
els, Zerórssonar, Bekóratssonar, Afíasonar, sonar Benjamíníta nokk-
urs, auðugur maður. [2] Hann átti son, er Sál hét, fyrirmannlegan og
fríðan; enginn af Ísraelsmönnum var fríðari en hann; hann var höfði
hærri en allur lýður. [3] En ösnur Kíss, föður Sáls, voru týndar; og
Kís sagði við Sál, son sinn: Tak með þér einn af sveinunum og farðu
*og leitaðu* að ösnunum. [4] Og þeir fóru um Efraím-fjöll og þeir fóru
um Salísaland, en fundu þær ekki; síðan fóru þeir um Saalímland, en
þær voru þar eigi; þá fóru þeir um Benjamínsland, en fundu þær ekki.
[5] En er þeir voru komnir í Zúf-land, þá sagði Sál við svein sinn, þann
er með honum var: Kom þú, við skulum snúa við, svo að faðir minn
fari ekki að undrast um okkur, í stað þess að hugsa um ösnurnar.
[6] Hinn svaraði honum: Sjá, í borg þessari er guðsmaður einn, og er
maðurinn frægur; alt rætist, sem hann segir. Nú skulum við fara
þangað; má vera að hann segi okkur, hvaða leið við eigum að halda.
[7] Og Sál sagði við svein sinn: Sjá, ef við förum, hvað eigum við þá
að færa manninum? Því að brauðið er þrotið í malpokum okkar og
gjöf höfum við enga að færa guðsmanninum; hvað höfum við? [8] Þá
svaraði sveinninn Sál aftur og mælti: Sjá, eg hefi hjá mér fjórðung
úr silfursikli; hann ætla eg að gefa guðsmanninum, til þess að hann
segi okkur, hvaða leið við eigum að halda. [9] Fyrrum komust menn
svo að orði í Ísrael, þá er þeir gengu til frétta við Guð: Komið, vér
skulum fara til sjáandans! Því að þeir, sem nú eru kallaðir spámenn,
voru fyrrum kallaðir sjáendur. [10] Þá sagði Sál við svein sinn: Þú hefir
rétt að mæla; kom þú, við skulum fara! Síðan fóru þeir til borgar-
innar, þar sem guðsmaðurinn var. [11] En er þeir voru að ganga upp
stíginn upp að borginni, hittu þeir stúlkur, sem gengu út að sækja
vatn, og sögðu við þær: Er sjáandinn hér? [12] Og þær svöruðu þeim og
sögðu: Já; hann er rétt á undan ykkur; hann er alveg nýkominn til
borgarinnar, því að lýðurinn ætlar í dag að færa sláturfórnir á hæð-
inni. [13] Óðara en þið komið inn í borgina, munuð þið finna hann,
áður en hann gengur upp á hæðina til að eta; því að lýðurinn etur
ekki fyr en hann kemur, af því að hann blessar fórnirnar; eftir það
eta þeir, sem boðnir eru. Og gangið nú upp þangað, því að einmitt
nú munuð þið finna hann. [14] Síðan gengu þeir upp til borgarinnar.
Þegar þeir komu inn í borgina, sjá, þá gekk Samúel út á móti þeim
og ætlaði upp á hæðina.

**9, 2:** kap. 10, 23. **5:** kap. 10, 2. **7:** 1 Kong. 14, 3. **9:** 2 Kong. 17, 13. 1 Kron. 29, 29. Jes. 30, 10.

[15] En nú hafði Jahve, daginn áður en Sál kom, opinberað Samúel
þetta: [16] Í þetta mund á morgun mun eg senda til þín mann úr Benja-
mínslandi og skalt þú smyrja hann til höfðingja yfir lýð minn Ísrael,
og hann mun frelsa minn lýð af hendi Filistanna; því að eg hefi séð
ánauð míns lýðs, af því að kvein hans er komið til mín. [17] En er
Samúel sá Sál, sagði Jahve við hann: Þetta er maðurinn, sem eg sagði
um við þig: hann skal drotna yfir mínum lýð.
[18] Sál gekk þá til Samúels í miðju borgarhliðinu og mælti: Seg
mér, hvar á sjáandinn heima? [19] Og Samúel svaraði Sál og mælti:
Eg er sjáandinn; gakk á undan mér upp á hæðina. Þið skuluð eta
með mér í dag; en á morgun snemma mun eg láta þig fara og fræða
þig um alt það, er þú ber fyrir brjósti. [20] Og að því er snertir ösn-
urnar, sem töpuðust hjá þér fyrir þremur dögum, þá vertu ekki áhyggju-
fullur út af þeim, því að þær eru fundnar. En hver mun hljóta allar
hnossir Ísraels — hver nema þú og öll ætt föður þíns? [21] Og Sál svar-
aði og mælti: Er eg ekki Benjamíníti, kominn af einni af hinum minstu
kynkvíslum Ísraels, og ætt mín hin lítilmótlegasta af öllum ættum
Benjamíns-kynkvíslar? Hví mælir þú þá slíkt við mig? [22] Og Samúel
tók Sál og svein hans og leiddi þá inn í matsalinn, og hann vísaði
þeim til sætis efst meðal boðsmannanna, en þeir voru um þrjátíu
manns. [23] Og Samúel sagði við matsveininn: Kom þú nú með stykkið,
sem eg fékk þér og sagði þér að taka frá. [24] Þá bar matsveinninn
fram bóginn og rófuna og setti fyrir Sál. Og hann mælti: Sjá, það
sem afgangs varð, er nú sett fyrir þig; et, því að á hinum ákveðna
tíma var það geymt þér, þá er sagt var: Eg hefi boðið fólkinu! Og
Sál át með Samúel þann dag. [25] Og þeir gengu niður af hæðinni of-
an í borgina, og var búið um Sál á þakinu og lagðist hann til svefns.

### Sál smurður til konungs. Sál meðal spámannanna.

[26] En þegar lýsti af degi, kallaði Samúel á Sál uppi á þakinu og
mælti: Rís nú á fætur, svo að eg geti fylgt þér á leið. Þá reis Sál á
fætur, og þeir gengu báðir út, hann og Samúel. [27] En er þeir voru
komnir út fyrir borgina, sagði Samúel við Sál: Segðu sveininum að
fara á undan okkur — og hann fór á undan —, en statt þú nú kyrr,
10 svo að eg megi flytja þér orð frá Guði. [1] Þá tók Samúel olíu-
flösku og helti yfir höfuð honum og mintist við hann og mælti:
Nú hefir Jahve smurt þig til höfðingja yfir lýð sinn Ísrael; og þú
skalt drotna yfir lýð Jahve og þú skalt frelsa hann af hendi óvina
hans. Og þetta skalt þú til marks hafa um, að Jahve hefir smurt þig
til höfðingja yfir arfleifð sína: [2] Þegar þú ert farinn frá mér í dag,
munt þú hitta tvo menn við gröf Rakelar á Benjamíns landamærum
hjá Zelza og þeir munu segja við þig: Ösnurnar, sem þú fórst að
leita að, eru fundnar. En faðir þinn er hættur að hugsa um ösnurn-
ar og farinn að undrast um ykkur og segir: Hvað á eg að gjöra við-
víkjandi syni mínum? [3] Og þegar þú nú heldur áfram þaðan og kem-
ur að Tabor-eik, þá munu þrír menn mæta þér þar, sem eru á leið
upp til Guðs í Betel; einn þeirra ber þrjú kið, annar ber þrjá brauð-
hleifa og hinn þriðji ber vínlegil. [4] Þeir munu heilsa þér og gefa þér
tvö brauð; skalt þú þiggja þau af þeim. [5] Eftir það munt þú koma
til Guðs-Gíbeu, þar sem súla Filista stendur; og þegar þú kemur þar
í borginni, þá munt þú mæta hóp spámanna, sem eru á leið ofan af

---

**16:** Post. 13, 21. 2 Mós. 3, 7. **21:** kap. 15, 17. **25:** 5 Mós. 22, 8. — **10, 2:** 1 Mós.
35, 19.

fórnarhæðinni með hörpur, bumbur, hljóðpípur og gígjur á undan sér
og sjálfir eru í spámannlegum guðmóði. 6 Þá mun andi Jahve koma
yfir þig, svo að þú munt komast í spámannlegan guðmóð með þeim
og verða annar maður. 7 Og þegar þú sér þessi tákn koma fram, þá
neyt þess færis, sem þér býðst, því að Guð er með þér. 8 Og þú skalt
fara á undan mér ofan til Gilgal; og sjá, eg mun koma til þín, til
þess að bera fram brennifórnir, til þess að fórna heillafórnum; þú skalt
bíða í sjö daga, þar til er eg kem til þín, og þá skal eg láta þig vita,
hvað þú átt að gjöra.
9 Þegar hann nú sneri sér við og gekk burt frá Samúel, þá umbreytti
Guð hjarta hans; og öll þessi tákn komu fram þennan sama
dag. 10 Og er þeir komu þar til Gíbeu, kom hópur spámanna á móti
honum; og andi Guðs kom yfir hann, svo að hann komst í spámannlegan
guðmóð meðal þeirra. 11 En þegar allir þeir, sem þekt höfðu
hann áður, sáu, að guðmóður var kominn á hann, eins og á spámennina,
— þá sögðu menn hver við annan: Hvað kemur að syni
Kíss? Er og Sál meðal spámannanna? 12 Þá svaraði maður nokkur
þaðan og sagði: Hver er þá faðir hinna? Þaðan er máltækið komið:
Er og Sál meðal spámannanna? 13 En er hinn spámannlegi guðmóður
var af honum, þá fór hann heim til sín. 14 Þá sagði föðurbróðir Sáls
við hann og við svein hans: Hvert fóruð þið? Og hann sagði: Að leita
að ösnunum; og þegar við fundum þær hvergi, þá fórum við til
Samúels. 15 Þá sagði föðurbróðir Sáls: Seg mér frá, hvað Samúel
sagði við ykkur. 16 Og Sál sagði við föðurbróðir sinn: Hann sagði
okkur, að ösnurnar væru fundnar. En það, sem Samúel hafði sagt um
konungdóminn, frá því sagði hann honum eigi.

### Sál kjörinn konungur.

17 Þá kallaði Samúel lýðinn saman til Jahve í Mizpa 18 og sagði
við Ísraelsmenn: Svo segir Jahve, Ísraels Guð: Eg hefi leitt Ísrael út
af Egiptalandi og eg hefi frelsað yður undan valdi Egipta og undan
valdi allra þeirra konungsríkja, er kúguðu yður. 19 En þér hafið í dag
hafnað Guði yðar, sem hjálpað hefir yður úr öllum nauðum yðar og
þrengingum, og sagt: Nei, heldur skalt þú setja konung yfir oss. En
gangið nú fram fyrir Jahve eftir ættkvíslum yðar og þúsundum. 20 Síðan
lét Samúel allar ættkvíslir Ísraels ganga fram, og féll hlutur á
Benjamíns-ættkvísl. 21 Þá lét hann Benjamíns-ættkvísl ganga fram eftir
kynþáttum hennar, og féll hlutur á kynþátt Matríta. Þá lét hann kynþátt
Matríta ganga fram mann fyrir mann, og féll hlutur á Sál Kísson;
var hans þá leitað, en hann fanst ekki. 22 Þá spurðust þeir enn fyrir hjá
Jahve: Er maðurinn kominn hingað? Og Jahve svaraði: Sjá, hann
hefir falið sig hjá farangrinum. 23 Þá hlupu þeir þangað og sóttu hann.
Og er hann gekk fram meðal lýðsins, þá var hann höfði hærri en allur
lýður. 24 Og Samúel sagði við allan lýðinn: Hafið þér séð að hann, sem
Jahve hefir útvalið, er slíkur, að enginn er hans líki meðal alls fólksins?
Þá æpti allur lýðurinn og sagði: Konungurinn lifi! 25 Og Samúel
sagði lýðnum réttindi konungdómsins og skrifaði þau í bók og lagði
hana til geymslu frammi fyrir Jahve. Síðan lét Samúel allan lýðinn
burt fara, hvern heim til sín. 26 Þá fór og Sál heim til Gíbeu, og með
honum fóru hraustmennin, sem Guð hafði snortið hjartað í. 27 En
hrakmenni nokkur sögðu: Hvað ætli þessi hjálpi oss? og þeir fyrirlitu
hann og færðu honum engar gjafir.

---

**8:** kap. 13, 8. **11:** kap. 19, 24. **14:** kap. 14, 50. **19:** kap. 8, 7. **23:** kap. 9, 2.
**24:** 1 Kong. 1, 25. 39. 2 Kong. 11, 12. **25:** 5 Mós. 17, 14 n.

## Sál vinnur sigur á Ammónítum.

11 En að hér um bil mánuði liðnum fór Nahas Ammóníti og sett-
ist um Jabes í Gíleað. Þá sögðu allir Jabes-búar við Nahas: Gjör
þú sáttmála við oss, og munum vér þjóna þér. 2 Og Nahas Ammóníti
svaraði þeim: Með þeim kostum vil eg gjöra sáttmála við yður, að
eg stingi út á yður öllum hægra augað og gjöri öllum Ísrael háðung
með því. 3 Og öldungarnir í Jabes sögðu við hann: Gef oss sjö daga
frest, og munum vér senda sendiboða um alt Ísraels land; og ef eng-
inn þá hjálpar oss, munum vér gefast upp fyrir þér. 4 Og er sendi-
boðarnir komu til Sáls-Gíbeu og báru upp erindi sitt í áheyrn lýðsins,
þá hóf allur lýðurinn upp raust sína og grét. 5 Og sjá, þá kom Sál á
eftir nautunum utan af akri. Og Sál mælti: Hvað ber til þess, að
fólkið er að gráta? og þeir sögðu honum erindi Jabes-manna. 6 Þá
kom andi Guðs yfir Sál, er hann heyrði þessi tíðindi, og varð hann
reiður mjög. 7 Og hann tók tvo uxa og brytjaði þá og sendi stykkin
um alt Ísraels land með sendiboðunum og lét þá orðsending fylgja: Svo
skal farið með naut hvers þess manns, er eigi fylgir Sál og Samúel í
hernað. Þá kom ótti Jahve yfir fólkið, svo að þeir lögðu af stað sem
einn maður. 8 Og hann kannaði liðið í Besek, og voru þá Ísraelsmenn
þrjú hundruð þúsund og Júdamenn þrjátíu þúsund. 9 Og þeir sögðu
við sendiboðana, sem komnir voru: Segið svo mönnunum í Jabes í
Gíleað: Á morgun um hádegisbil skal yður koma hjálp. Og sendi-
mennirnir komu og sögðu Jabes-búum frá þessu, og urðu þeir glaðir
við. 10 Og Jabes-búar sögðu: Á morgun munum vér gefast upp fyrir
yður; þá getið þér gjört við oss hvað sem yður gott þykir. 11 En
morguninn eftir skifti Sál liðinu í þrjá flokka, og brutust þeir inn í
herbúðirnar um morgunvökuna og feldu Ammóníta fram til hádegis.
Og þeir, sem af komust, dreifðust víðsvegar, svo að ekki urðu eftir af
þeim tveir saman. 12 Þá sagði fólkið við Samúel: Hverjir voru það,
sem sögðu: Á Sál að verða konungur yfir oss! Framseljið þá menn,
svo að vér getum drepið þá. 13 En Sál sagði: Engan mann skal deyða
á þessum degi, því að í dag hefir Jahve veitt Ísrael sigur. 14 Og Sam-
úel sagði við lýðinn: Komið, vér skulum fara til Gilgal og endurnýja
þar konungdóminn. 15 Þá fór allur lýðurinn til Gilgal og gjörði Sál
þar að konungi frammi fyrir Jahve í Gilgal. Og þeir fórnuðu þar
heillafórnum frammi fyrir Jahve, og Sál og allir Ísraelsmenn glöddu
sig þar mikillega.

## Skilnaðarræða Samúels.

12 Og Samúel mælti til alls Ísraels: Sjá, eg hefi látið að orðum
yðar í öllu því, sem þér hafið beiðst af mér, og eg hefi sett yfir
yður konung. 2 Og sjá, nú gengur konungurinn frammi fyrir yður; en eg
er orðinn gamall og grár fyrir hærum og synir mínir eru meðal yðar.
En eg hefi gengið fyrir augliti yðar frá barnæsku fram á þennan dag
— 3 hér er eg, vitnið á móti mér frammi fyrir Jahve og hans smurða:
Hvers uxa hefi eg tekið? og hvers asna hefi eg tekið? og hvern hefi eg
féflett? hverjum hefi eg sýnt ofríki? og af hverjum hefi eg þegið mútu
eða jafnvel eina skó? Vitnið móti mér, og mun eg gjalda yður það
aftur. 4 Og þeir svöruðu: Eigi hefir þú féflett oss og eigi hefir þú sýnt
oss ofríki og við engu hefir þú af nokkurs manns hendi tekið. 5 Og
hann sagði við þá: Jahve sé vitni móti yður og hans smurði sé vitni

**11, 6:** kap. 10, 10. **12:** kap. 10, 27. **13:** 2 Sam. 19, 22. 1 Sam. 14, 45. — **12, 1:** kap. 8, 5. 19. 20; 11, 15.

í dag, að þér hafið ekkert fundið í minni hendi. Og þeir sögðu: Já,
þeir skulu vera vitni! 6 Þá sagði Samúel við lýðinn: Jahve sé vitni,
hann sem skóp Móse og Aron og leiddi feður yðar út af Egiptalandi.
7 Og gangið nú fram, til þess að eg deili á yður frammi fyrir Jahve,
og minni yður á allar velgjörðir Jahve, sem hann hefir auðsýnt yður
og feðrum yðar. 8 Þegar Jakob var kominn til Egiptalands, þjáðu Egipt-
ar þá. Þá hrópuðu feður yðar til Jahve, og Jahve sendi Móse og Aron,
og þeir leiddu feður yðar út af Egiptalandi, og hann fékk þeim bústað
í þessu landi. 9 En þeir gleymdu Jahve, Guði sínum. Þá seldi hann
þá í hendur Sísera, hershöfðingja Jabíns konungs í Hazór, og í hend-
ur Filistum og í hendur Móabs-konungi, svo að þeir herjuðu á þá.
10 En þeir hrópuðu til Jahve og sögðu: Vér höfum syndgað, þar sem
vér höfum yfirgefið Jahve og þjónað Baölum og Astörtum; en frelsa
oss nú af hendi óvina vorra, þá skulum vér þjóna þér. 11 Þá sendi
Jahve Jerúbbaal, Barak, Jefta og Samúel og frelsaði yður af hendi ó-
vina yðar alt í kring, svo að þér bjugguð óhultir. 12 En er þér sáuð,
að Nahas, konungur Ammóníta, fór í móti yður, þá sögðuð þér við
mig: Nei, konungur skal drotna yfir oss! — en Jahve, Guð yðar, er þó
konungur yðar. 13 En þarna er nú konungurinn, sem þér hafið valið,
sem þér hafið beðið um; Jahve hefir nú sett yfir yður konung. 14 Ef
þér óttist Jahve og þjónið honum og hlýðið hans raustu og óhlýðnist
ekki skipun Jahve, og ef þér, bæði þér sjálfir og konungurinn, sem
*ríkir* yfir yður, fylgið Jahve, Guði yðar, þá fer vel; 15 en ef þér hlýðið
ekki raustu Jahve og óhlýðnist skipun Jahve, þá mun hönd Jahve
vera á móti yður og konungi yðar. 16 En gangið nú fram og sjáið þann
mikla atburð, er Jahve lætur verða fyrir augum yðar. 17 Er nú ekki
hveitiuppskera? Eg ætla að biðja Jahve að senda þrumur og regn;
þá skuluð þér kannast við og skilja, hversu mikið ilt þér gjörðuð í
augum Jahve, er þér beiddust að fá konung. 18 Og Samúel ákallaði
Jahve, og Jahve sendi þrumur og regn þennan sama dag. Þá varð
allur lýðurinn mjög hræddur við Jahve og við Samúel. 19 Og allur
lýðurinn sagði við Samúel: Bið til Jahve, Guðs þíns, fyrir þjónum
þínum, svo að vér deyjum ekki, því að vér höfum bætt þeirri misgjörð
ofan á allar syndir vorar, að vér höfum beiðst konungs. 20 Og Samúel
sagði við lýðinn: Óttist ekki; þér hafið að vísu framið þessa misgjörð,
en víkið nú ekki frá Jahve og þjónið Jahve af öllu hjarta yðar, 21 og
eltið ekki fánýtin, sem að engu liði eru og eigi frelsa, því að fánýt eru
þau. 22 Því að Jahve mun eigi útskúfa lýð sínum vegna síns mikla
nafns, af því að Jahve hefir þóknast að gjöra yður að sínum lýð. 23 Og
fjarri sé það mér að syndga á móti Jahve með því að hætta að biðja
fyrir yður; og eg vil kenna yður hinn góða og rétta veg. 24 Óttist að-
eins Jahve og þjónið honum trúlega af öllu hjarta yðar; því sjáið,
hversu mikið hann hefir fyrir yður gjört. 25 En ef þér breytið illa, þá
verður bæði yður og konungi yðar í burtu kipt.

## Ófriður við Filista. Sál hafnað.

13 Sál var ...... ára gamall, þá er hann varð konungur, og ríkti
......* ár yfir Ísrael. 2 Sál valdi sér þrjú þúsund manns af Ísra-
el; af þeim voru tvö þúsund hjá Sál í Mikmas og á Betel-fjöllum, en
eitt þúsund hjá Jónatan í Gíbeu í Benjamín; hitt liðið lét hann brott

---

**8:** 1 Mós. 46, 6. 2 Mós. 3, 10; 4, 14 n. **9:** Dóm. 4, 2; 3, 12; 10, 7; 13, 1. **10:** Dóm. 10, 10. 15. **11:** Dóm. 6, 11 n. 32; 11, 1. 1 Sam. 7, 8 n. Dóm. 4, 6 n. **12:** kap. 8, 19. — **13, 1:** * Áratölurnar vantar í textann og versið virðist vera viðbót frá síðari tímum.

fara, hvern heim til sín. 3 Og Jónatan braut niður súlu Filista, sem
var í Geba og Filistar fréttu það. Og Sál lét þeyta lúður um alt land-
ið og sagði: Hebrear skulu heyra það. 4 Og allur Ísrael heyrði sagt:
Sál hefir brotið niður súlu Filista, og Filistum er orðið illa við Ísrael.
Og liðinu var stefnt saman, til þess að fara með Sál til Gilgal. 5 Og
Filistar söfnuðust saman til að berjast við Ísrael, þrjú þúsund vagnar
og sex þúsund riddarar og fótgöngulið svo margt sem sandur á sjávar-
ströndu, og þeir lögðu af stað og settu herbúðir sínar í Mikmas, fyrir
austan Betaven. 6 Og er Ísraelsmenn sáu, að þeir voru komnir í kreppu,
því að að þeim þrengdi, þá fal liðið sig í hellum, jarðholum, kletta-
skorum, gjótum og gryfjum, 7 og þeir fóru yfir vöðin á Jórdan yfir í
Gaðs land og Gíleaðs. En Sál var enn í Gilgal; en alt liðið hafði flúið
burt frá honum fyrir hræðslu sakir. 8 Og hann beið í sjö daga, til þess
tíma, er Samúel hafði til tekið; en Samúel kom ekki til Gilgal, og
fólkið dreifðist burt frá honum. 9 Þá sagði Sál: Færið mér hingað
brennifórnina og heillafórnirnar. Og hann fórnaði brennifórninni. 10 En
er hann hafði fórnað brennifórninni, sjá, þá kom Samúel. Og Sál
gekk út á móti honum, til þess að heilsa honum. 11 Og Samúel mælti:
Hvað hefir þú gjört? Sál svaraði: Þegar eg sá, að liðið dreifðist burt
frá mér og að þú komst ekki á tilteknum tíma, en Filistar söfnuðust
saman í Mikmas, 12 þá hugsaði eg: Nú munu Filistar fara ofan á móti
mér til Gilgal, áður en eg hefi blíðkað Jahve; fyrir því herti eg upp
hugann og fórnaði brennifórninni. 13 Þá sagði Samúel við Sál:
Heimskulega hefir þér farið; þú hefir ekki gætt skipunar Jahve, Guðs
þíns, sem hann fyrir þig lagði; því að nú hefði Jahve staðfest konung-
dóm þinn yfir Ísrael að eilífu. 14 En nú mun konungdómur þinn ekki
standa. Jahve hefir leitað sér að manni eftir sínu hjarta og hann hefir
Jahve skipað höfðingja yfir lýð sinn; því að þú hefir ekki gætt þess,
er Jahve fyrir þig lagði.

15 Þá tók Samúel sig upp og fór frá Gilgal og hélt leiðar sinnar.
En leifarnar af liðinu fóru á eftir Sál í móti herliðinu. Og er þeir
voru komnir frá Gilgal til Gíbeu í Benjamín, þá kannaði Sál liðið,
sem hjá honum var, um sex hundruð manns. 16 Sál og Jónatan sonur
hans og liðið, sem með þeim var, sátu í Geba í Benjamín, en Filistar
höfðu sett herbúðir sínar í Mikmas. 17 Og ránssveit fór út úr herbúð-
um Filista í þrem hópum; einn hópurinn stefndi veginn til Ofra inn í
Sjúal-land, 18 annar hópurinn stefndi veginn til Bet-Hóron og þriðji
hópurinn stefndi veginn til hæðarinnar, sem gnæfir yfir Zebóím-dalinn
gegn eyðimörkinni. 19 En enginn járnsmiður var til í öllu Ísraelslandi
— því að Filistar hugsuðu: ella kynnu Hebrear að smíða sverð eða
spjót — 20 heldur urðu allir menn í Ísrael að fara ofan til Filista, ef
þeir vildu láta hvessa plógjárn sín, gref, axir og brodda, 21 þegar
skörð komu í eggjar á plógjárnum, grefum, þríforkum og öxum, og til
þess að rétta broddinn. 22 Þannig hafði gjörvalt liðið, sem var með
Sál og Jónatan, hvorki sverð né spjót í höndum orustudaginn; en Sál
og Jónatan sonur hans höfðu það. 23 En varðflokkur Filista fór og
settist í skarðið hjá Mikmas.

### Þrekvirki Jónatans. Sál vinnur sigur á Filistum.

14 Nú bar svo við einn dag, að Jónatan, sonur Sáls, sagði við
skjaldsvein sinn: Kom þú, við skulum fara yfir til varðflokks
Filista, sem er þarna hinumegin. En hann sagði ekki föður sínum frá

---

8: kap. 10, 8. 14: Post. 13, 22. 15: kap. 14, 2.

því. [2] En Sál sat utanvert við Gíbeu undir granateplatrénu, sem er hjá
Mígron; og liðið, sem hann hafði hjá sér, var hér um bil sex hundruð
manns. [3] Og Ahía, sonur Ahítúbs, bróður Íkabóðs, Pínehassonar,
Elísonar, prests Jahve í Síló, bar hökulinn. En liðið vissi ekki, að
Jónatan hafði farið. [4] En á milli klifanna, sem Jónatan vildi um fara
yfir til varðflokks Filistanna, var sinn hamarinn hvorumegin; hét annar
Bózez, en hinn Sene. [5] Annar hamarinn var að norðanverðu og var
brattur, gegnt Mikmas, en hinn að sunnanverðu, gegnt Geba. [6] Og
Jónatan sagði við skjaldsvein sinn: Kom þú, við skulum fara yfir til
varðflokks þessara óumskornu manna; vera má að Jahve framkvæmi
eitthvað oss í hag; því að ekkert getur tálmað Jahve að veita sigur,
hvort heldur er með mörgum eða fáum. [7] Skjaldsveinninn svaraði
honum: Gjör þú öldungis eins og þér leikur hugur á; sjá, eg mun fylgja
þér; vil eg það eitt, er þú vilt. [8] Og Jónatan mælti: Sjá, við förum
nú yfir til mannanna og látum þá sjá okkur. [9] Ef þeir þá kalla til
okkar: Bíðið, þangað til vér komum til ykkar! þá skulum við standa
kyrrir, þar sem við erum staddir, og eigi fara upp til þeirra. [10] En ef
þeir kalla: Komið hingað upp til vor! þá skulum við fara upp þangað,
því að þá hefir Jahve gefið þá í okkar hendur. Skulum við hafa það
að marki. [11] Síðan létu þeir báðir varðflokk Filistanna sjá sig, og
Filistar sögðu: Sjá, Hebrear koma fram úr holunum, sem þeir hafa
*falið* sig í. [12] Þá kölluðu varðmennirnir til Jónatans og skjaldsveins
hans: Komið hingað upp til vor og skulum vér segja ykkur tíðindi.
Þá sagði Jónatan við skjaldsvein sinn: Kom nú upp á eftir mér, því
að Jahve hefir gefið þá í hendur Ísraels. [13] Og Jónatan klifraðist upp
á höndum og fótum og skjaldsveinn hans á eftir honum. Þá lögðu
þeir á flótta fyrir Jónatan. En hann feldi þá, og skjaldsveinn hans
vann á þeim á eftir honum. [14] Og þeir, sem Jónatan og skjaldsveinn
hans lögðu að velli í þessu fyrsta áhlaupi, voru um tuttugu manns, á
hér um bil hálfri plógfarslengd, einu dagplægi lands. [15] Þá sló ótta
yfir herbúðirnar á völlunum og yfir alt liðið; varðsveitin og ránsflokk-
urinn, þeir urðu og skelkaðir; og landið nötraði, og varð það að Guðs
skelfingu. [16] Og er sjónarverðir Sáls í Gíbeu í Benjamín lituðust um,
sjá, þá var alt á tjá og tundri í herbúðunum. [17] Og Sál sagði við
mennina, sem með honum voru: Kannið nú liðið og hyggið að, hver
frá oss hefir farið. Könnuðu þeir þá liðið, og vantaði þá Jónatan og
skjaldsvein hans. [18] Þá mælti Sál við Ahía: Kom þú með hökulinn!
því að hann bar þá hökulinn frammi fyrir Ísraelsmönnum. [19] En
meðan Sál var að tala við prestinn, varð ysinn í herbúðum Filista æ
meiri og meiri, svo að Sál sagði við prestinn: Hættu við það! [20] Og
Sál og alt liðið, sem með honum var, safnaðist saman; en er þeir
komu í orustuna, sjá, þá reiddi þar hver sverð að öðrum og alt var í
uppnámi. [21] En Hebrear þeir, er að undanförnu höfðu lotið Filistum
og farið höfðu með þeim í stríðið, snerust nú og í móti þeim og gengu
í lið með Ísraelsmönnum, þeim er voru með Sál og Jónatan. [22] Og
er allir Ísraelsmenn, þeir er falið höfðu sig á Efraím-fjöllum, fréttu, að
Filistar væru lagðir á flótta, þá veittu þeir þeim og eftirför, til þess að
berjast við þá. [23] Þannig veitti Jahve Ísrael sigur á þeim degi.
En er orustan þokaðist fram hjá Betaven — [24] alt liðið fór með
Sál, um tíu þúsund manns, og orustan breiddist út um Efraím-fjöll —,
þá gjörði Sál mikið glappaverk á þeim degi. Hann lét liðið vinna
svolátandi eið: Bölvaður sé sá, sem neytir matar áður en kveld er

**14, 2:** kap. 13, 15. **3:** kap. 4, 21. **4:** kap. 13, 23. **6:** Dóm. 7, 7. 2 Kron. 14, 11.
**15:** kap. 13, 17. **20:** Dóm. 7, 22. 2 Kron. 20, 23.

komið og eg hefi hefnt mín á óvinum mínum! Fyrir því bragðaði
enginn af liðinu mat. [25] En nú voru hunangsbú á völlunum. [26] Og
er liðið kom að hunangsbúunum, sjá, þá voru býflugurnar flognar út;
en þrátt fyrir það bar enginn hönd að munni, því að liðið hræddist
eiðinn. [27] En Jónatan hafði eigi hlýtt á, þá er faðir hans lét liðið vinna
eiðinn; hann rétti því út enda stafsins, sem hann hafði í hendinni, og
dýfði honum í hunangsseiminn og bar hönd sína að munni sér; urðu
augu hans þá aftur fjörleg. [28] Þá tók einn úr liðinu til máls og sagði:
Faðir þinn hefir látið liðið vinna svolátandi eið: Bölvaður sé sá, sem
matar neytir í dag! En liðið var þreytt. [29] Jónatan svaraði: Faðir
minn leiðir landið í ógæfu; sjáið, hversu fjörleg augu mín eru, af því
að eg bragðaði ögn á þessu hunangi. [30] Hversu miklu meira mundi
mannfallið hafa verið meðal Filista en það nú er orðið, ef liðið hefði
etið nægju sína í dag af herfangi óvinanna, er það náði! [31] Og þeir
feldu Filista á þeim degi frá Mikmas til Ajalon, og liðið var mjög
þreytt. [32] Og liðið fleygði sér yfir herfangið, og tóku þeir bæði sauðfé,
naut og kálfa og slátruðu niður á jörðina, og fólkið át kjötið með
blóðinu. [33] Og menn sögðu Sál frá því og mæltu: Sjá, fólkið syndgar
móti Jahve með því að eta kjötið með blóðinu. Og hann sagði:
Þér drýgið glæp. Veltið hingað til mín stórum steini. [34] Og Sál mælti:
Gangið út meðal fólksins og segið þeim: Hver og einn af yður komi
til mín með sinn uxa og sína sauðkind og slátrið þeim hér og etið,
svo að þér syndgið ekki á móti Jahve með því að eta það með blóð-
inu. Þá kom hver og einn af liðinu um nóttina með það, er hann
hafði, og þeir slátruðu því þar. [35] Og Sál reisti Jahve altari; það var
fyrsta altarið, sem hann reisti Jahve.

[36] Og Sál mælti: Vér skulum fara á eftir Filistum í nótt og ræna
meðal þeirra, þar til er birtir af degi, og engan af þeim láta eftir verða.
Þeir sögðu: Gjör þú alt, sem þér gott þykir. En presturinn sagði: Vér
skulum ganga hér fram fyrir Guð. [37] Sál' gekk þá til frétta við Guð:
Á eg að fara á eftir Filistum? Munt þú gefa þá í hendur Ísrael? En
hann svaraði honum engu þann dag. [38] Þá sagði Sál: Gangið hingað,
allir höfðingjar fólksins, og grenslist eftir og komist að raun um, hver
drýgt hefir þessa synd í dag. [39] Því að svo sannarlega sem Jahve lifir,
sá er veitt hefir Ísrael sigur, þó að það væri Jónatan sonur minn, sem
hefði drýgt hana, þá skyldi hann láta lífið. En enginn svaraði honum
af öllu fólkinu. [40] Þá sagði hann við allan Ísrael: Verið þér öðrumeg-
in, en eg og Jónatan sonur minn skulum vera hinumegin. Og lýður-
inn sagði við Sál: Gjör þú sem þér gott þykir. [41] Þá mælti Sál: Jahve,
Ísraels Guð, hví svaraðir þú ekki þjóni þínum í dag? Ef þessi mis-
gjörð hvílir á mér eða Jónatan syni mínum, Jahve, Ísraels Guð, þá lát
þú úrím koma upp; en ef hún hvílir á lýð þínum Ísrael, þá lát þú
túmmím koma upp. Þá kom upp hlutur Jónatans og Sáls, en fólkið
gekk undan. [42] Og Sál mælti: Hlutið með mér og Jónatan syni mín-
um! Kom þá upp hlutur Jónatans. [43] Og Sál sagði við Jónatan: Segðu
mér, hvað hefir þú gjört? Þá sagði Jónatan honum frá því og mælti:
Eg bragðaði aðeins ögn af hunangi á stafsendanum, sem eg hafði í
hendinni; sjá, hér er eg, fyrir það á eg að láta lífið? [44] Sál svaraði:
Guð gjöri við mig það, er hann vill: lífið verður þú að láta, Jónatan!
[45] En lýðurinn sagði við Sál: Á Jónatan að láta lífið, hann sem unnið
hefir þennan mikla sigur í Ísrael? Fjarri sé það! svo sannarlega sem
Jahve lifir, skal ekki eitt höfuðhár hans falla til jarðar, því að með
Guðs hjálp hefir hann unnið í dag. Og fólkið leysti Jónatan út undan

---

**32:** 3 Mós. 3, 17. **41:** Jós. 7, 16. **43:** Jós. 7, 19. **45:** 2 Sam. 14, 11. 1 Kong. 1, 52.

lífláti. 46 Og Sál kom aftur, er hann hann hafði elt Filista, en Filistar
fóru heim til sín.

### Herferðir Sáls; ættfólk hans.

47 Þá er Sál hafði hlotið konungdóm yfir Ísrael, háði hann ófrið
við alla óvini sína alt í kring: við Móab, við Ammóníta, við Edóm,
við konunginn í Zóba og við Filista, og hvert sem hann sneri sér, vann
hann sigur. 48 Hann sýndi og hreysti og vann sigur á Amalek og frels-
aði Ísrael af hendi þess, er rænti hann.
49 Synir Sáls voru: Jónatan, Jísví og Malkísúa, og dætur hans tvær
hétu: hin eldri Merab og hin yngri Míkal. 50 Og kona Sáls hét Ahín-
óam, dóttir Ahímaaz; og hershöfðingi hans hét Abíner, sonur Ners,
föðurbróður Sáls. 51 Því að Kís, faðir Sáls, og Ner, faðir Abners, voru
synir Abíels.
52 Og ófriðurinn við Filista var harður alla æfi Sáls; og sæi Sál
einhvern kappa eða eitthvert hraustmenni, þá tók hann þann mann í
sína sveit.

### Sál vinnur sigur á Amalek. Jahve hafnar Sál.

15 Og Samúel sagði við Sál: Jahve sendi mig til þess að smyrja
þig til konungs yfir lýð sinn Ísrael; hlýð því boði Jahve. 2 Svo
segir Jahve hersveitanna: Ég vil hefna þess, er Amalek gjörði Ísrael,
að hann gjörði honum farartálma, þá er hann fór af Egiptalandi. 3 Far
því og vinn sigur á Amalek og helgaðu hann banni og alt, sem hann
á, og þú skalt ekki þyrma honum, heldur skalt þú deyða bæði karla
og konur, börn og brjóstmylkinga, naut og sauðfé, úlfalda og asna.
4 Sál bauð þá út liði og kannaði það í Telam: tvö hundruð þúsundir
fótgönguliðs og tíu þúsundir Júdamanna. 5 Og Sál kom til höfuðborg-
ar Amaleks og setti launsát í dalinn. 6 Og Sál sagði við Keníta: Kom-
ið, víkið undan, farið burt frá Amalekítum, svo að eg tortími yður
ekki með þeim, því að þér sýnduð öllum Ísraelsmönnum góðvild, þá
er þeir fóru af Egiptalandi. Þá viku Kenítar burt frá Amalek. 7 En
Sál vann sigur á Amalek frá Havíla suður undir Súr, sem liggur fyrir
austan Egiptaland. 8 Og Agag, konung Amaleks, tók hann höndum lif-
andi, en fólkið alt bannfærði hann með sverðseggjum. 9 Þó þyrmdi
Sál og fólkið Agag og beztu sauðunum og nautunum, öldu og feitu
skepnunum, og öllu því, sem vænt var, og vildu ekki bannfæra það;
en alt það af fénaðinum, sem var lélegt og rýrt, bannfærðu þeir.
10 Þá kom orð Jahve til Samúels svohljóðandi: 11 Mig iðrar þess,
að eg gjörði Sál að konungi, því að hann hefir snúið baki við mér og
eigi framkvæmt boð mín. Þá reiddist Samúel og hrópaði til Jahve alla
nóttina. 12 Og Samúel lagði snemma af stað næsta morgun, til þess að
hitta Sál. Og Samúel var sagt svo frá: Sál er kominn til Karmel og
sjá, hann hefir reist sér minnismerki; því næst sneri hann við og hélt
áfram og er farinn ofan til Gilgal. 13 Og er Samúel kom til Sáls, mælti
Sál til hans: Blessaður sért þú af Jahve; eg hefi framkvæmt boð Jahve.
14 En Samúel mælti: Hvaða sauðajarmur er það þá, sem ómar í eyru
mér, og hvaða nautaöskur er það, sem eg heyri? 15 Sál svaraði: Þeir
komu með það frá Amalekítum, af því að fólkið þyrmdi beztu sauð-
unum og nautunum, til þess að fórna þeim Jahve, Guði þínum; en

---

**49:** 1 Kron. 8, 33. 1 Sam. 31, 2. **51:** kap. 9, 1. — **15, 2:** 2 Mós. 17, 8 n. 4 Mós.
24, 20. 5 Mós. 25, 17 n. **3:** Jós. 6, 17. 21. **7:** 1 Mós. 25, 18.

hitt höfum vér bannfært. [16] Og Samúel sagði við Sál: Hættu nú, og
mun eg kunngjöra þér það, sem Jahve hefir talað við mig í nótt. Og
hann sagði við hann: Tala þú! [17] Samúel mælti: Er ekki svo, að þótt
þú sért lítill í þínum augum, þá ert þú þó höfuð Ísraels ættkvísla? því
að Jahve smurði þig til konungs yfir Ísrael; [18] og Jahve sendi þig í
leiðangur og sagði: Far þú og bannfær syndarana, Amalekíta, og berst
við þá, unz þú hefir gjöreytt þeim. [19] Hvers vegna hefir þú þá ekki
hlýtt boði Jahve, heldur fleygt þér yfir herfangið og gjört það, sem ilt
var í augum Jahve? [20] Þá mælti Sál við Samúel: Eg hefi hlýtt boði
Jahve og hefi farið í leiðangur þann, er Jahve sendi mig í, og hefi
komið hingað með Agag, Amaleks konung, og Amalek hefi eg banni
helgað. [21] En fólkið tók sauði og naut af herfanginu, hið bezta af því
bannfærða, til þess að fórna því í Gilgal Jahve, Guði þínum, til handa.
[22] En Samúel mælti: Hefir þá Jahve eins mikla velþóknun á brenni-
fórnum og sláturfórnum eins og á hlýðni við boð sín? Nei, hlýðni er
betri en fórn, gaumgæfni betri en feiti hrútanna; [23] því að þrjózka er
ekki betri en galdrasynd, og þvermóðska er ekki betri en hjáguðadýrk-
un og húsgoð. Af því að þú hefir hafnað skipun Jahve, þá hefir hann
og hafnað þér og svift þig konungdómi. [24] Og Sál mælti við Samúel:
Eg hefi syndgað, þar eð eg hefi brotið boð Jahve og þín fyrirmæli; en
eg óttaðist fólkið og lét því að orðum þeirra. [25] Fyrirgef mér nú synd
mína og snú þú við með mér, svo að eg megi falla fram fyrir Jahve.
[26] Samúel svaraði Sál: Eg sný ekki við með þér; af því að þú hefir
hafnað skipun Jahve, þá hefir og Jahve hafnað þér og svift þig kon-
ungdómi yfir Ísrael. [27] Samúel sneri sér nú við og ætlaði að ganga
burt; þá greip hinn í lafið á skikkju hans, og rifnaði það af. [28] Þá mælti
Samúel til hans: Rifið hefir Jahve frá þér í dag konungdóminn
yfir Ísrael og gefið hann öðrum, sem er betri en þú. [29] Ekki lýgur
heldur vegsemd Ísraels og ekki iðrar hann, því að hann er ekki mað-
ur, að hann iðri. [30] Og hann mælti: Eg hefi syndgað, en sýn mér
þó þá virðingu frammi fyrir öldungum þjóðar minnar og frammi fyr-
ir Ísrael, að snúa við með mér, svo að eg megi falla fram fyrir Jahve,
Guði þínum.

[31] Þá sneri Samúel við og fór með Sál, og Sál féll fram fyrir
Jahve. [32] Og Samúel mælti: Færið mér Agag, Amaleks konung. Og
Agag gekk til hans kátur; og Agag mælti: Sannlega er nú beiskja
dauðans á brott vikin. [33] Þá mælti Samúel: Eins og sverð þitt hefir
gjört konur barnlausar, svo skal nú móðir þín vera barnlaus öðrum
konum framar. Síðan hjó Samúel Agag banahögg frammi fyrir Jahve
í Gilgal. [34] Því næst fór Samúel til Rama, en Sál fór heim til sín í
Sáls-Gíbeu. [35] Og Samúel sá ekki Sál upp frá því alt til dauðadags,
því að Samúel var sorgmæddur út af Sál, og Jahve iðraði þess, að
hann hafði gjört Sál konung yfir Ísrael.

### Davíð er smurður til konungs.

16 Og Jahve sagði við Samúel: Hversu lengi ætlar þú að vera
sorgmæddur út af Sál, þar sem eg þó hefi hafnað honum og svift
hann konungdómi yfir Ísrael? Fyll þú horn þitt olíu og legg af stað;
eg sendi þig til Ísaí Betlehemíta, því að eg hefi kjörið mér konung
meðal sona hans. [2] Samúel svaraði: Hversu má eg fara? Frétti Sál
það, mun hann drepa mig. En Jahve sagði: Tak þú með þér kvígu
og segðu: Eg er kominn til þess að færa Jahve fórn. [3] Og bjóð þú

**17:** kap. 9, 21. **22:** Hós. 6, 6. Matt. 9, 13; 12, 7. **23:** kap. 16, 1. **28:** kap. 28, 17. **29:** 4 Mós. 23, 19. — **16, 1:** kap. 15, 23. Post. 13, 22.

Ísaí til fórnarmáltíðarinnar, og eg skal sjálfur láta þig vita, hvað þú
átt að gjöra, og þú skalt smyrja mér þann, sem eg mun segja þér.
4 Og Samúel gjörði það, sem Jahve sagði. Og er hann kom til Betle-
hem, gengu öldungar borgarinnar í móti honum hræddir í huga og
sögðu: Kemur þú góðu heilli? 5 Hann svaraði: Já, eg er kominn til
þess að færa Jahve fórn. Helgið yður og komið með mér til
fórnarmáltíðarinnar. Og hann helgaði Ísaí og sonu hans og bauð
þeim til fórnarmáltíðarinnar. 6 En er þeir komu og hann sá Elíab,
þá hugsaði hann: Vissulega stendur hér frammi fyrir Jahve hans smurði.
7 En Jahve sagði við Samúel: Lít þú ekki á skapnað hans og háan
vöxt, því að eg hefi hafnað honum. Því að Guð lítur ekki á það, sem
mennirnir líta á; mennirnir líta á útlitið, en Jahve lítur á hjartað. 8 Þá
kallaði Ísaí á Abínadab og leiddi hann fyrir Samúel. En hann mælti:
Ekki hefir Jahve heldur kjörið þennan. 9 Þá leiddi Ísaí fram Samma.
En hann mælti: Ekki hefir Jahve heldur kjörið þennan. 10 Þannig
leiddi Ísaí fram sjö sonu sína fyrir Samúel; en Samúel sagði við Ísaí:
Engan af þessum hefir Jahve kjörið. 11 Og Samúel sagði við Ísaí: Eru
þetta allir sveinarnir? Hann svaraði: Enn er hinn yngsti eftir, og sjá:
hann gætir sauða. Og Samúel sagði við Ísaí: Send eftir honum og
lát sækja hann, því að vér setjumst ekki til borðs fyr en hann er
kominn hingað. 12 Þá sendi hann eftir honum og lét hann koma; en
hann var rauðleitur, fagureygur og vel vaxinn. Og Jahve sagði: Statt
þú upp, smyr hann, því að þessi er það. 13 Þá tók Samúel olíu-hornið
og smurði hann mitt á meðal bræðra hans. Og andi Jahve kom yfir
Davíð upp frá þeim degi. En Samúel tók sig upp og fór til Rama.

### Davíð kemur til hirðar Sáls.

14 Og andi Jahve var vikinn frá Sál, en illur andi frá Jahve sturl-
aði hann. 15 Þá sögðu þjónar Sáls við hann: Illur andi frá Guði
sturlar þig; 16 herra vor þarf ekki nema að skipa; þjónar þínir standa
frammi fyrir þér og munu leita upp mann, sem kann að leika hörpu;
þá mun svo fara, að þegar hinn illi andi frá Guði kemur yfir þig, og
hann leikur hörpuna hendi sinni, þá mun þér batna. 17 Og Sál sagði
við þjóna sína: Finnið mér mann, sem vel leikur strengjahljóðfæri, og
færið mér hann. 18 Þá svaraði einn af sveinunum og mælti: Sjá, eg
hefi séð son Ísaí Betlehemíta, sem kann að leika strengjahljóðfæri og
er hreystimenni og bardagamaður, vel máli farinn og vaxinn vel, og
Jahve er með honum. 19 Þá gjörði Sál menn til Ísaí og lét segja hon-
um: Sendu Davíð son þinn til mín, þann er sauðanna gætir. 20 Þá tók
Ísaí tíu brauð, vínbelg og einn geithafur og sendi Sál með Davíð syni
sínum. 21 Og Davíð kom til Sáls og þjónaði honum; lagði Sál mikinn
þokka á hann og gjörði hann að skjaldsveini sínum. 22 Þá sendi Sál
til Ísaí og lét segja honum: Lát þú Davíð ganga í þjónustu mína, því
að hann fellur mér vel í geð. 23 Og jafnan þegar hinn illi andi frá
Guði kom yfir Sál, þá tók Davíð hörpuna og lék hana hendi sinni;
þá bráði af Sál og honum batnaði, og hinn illi andi vék frá honum.

### Davíð og Golíat.

17 Filistar drógu nú saman hersveitir sínar til bardaga, og söfn-
uðust þeir saman í Sókó, sem heyrir Júda, og settu þeir herbúðir
sínar hjá Efes-Dammím, milli Sókó og Aseka. 2 En Sál og Ísraelsmenn
söfnuðust saman og settu herbúðir sínar í Eikidalnum og bjuggust til

6: kap. 17, 13. 7: Sálm. 7, 10. Jer. 17, 10; 20, 12. 8: kap. 17, 13. 11: kap. 17,
14. 12: kap. 17, 42. 13: Sálm. 89, 21. 16: 2 Kong. 3, 15.

bardaga í móti Filistum. 3 Og Filistar stóðu á fjalli öðrumegin og Ís-
raelsmenn stóðu á fjalli hinumegin, svo að dalurinn var á milli þeirra.
4 Þá gekk hólmgöngumaður fram úr fylkingum Filista; hét hann Golíat
og var frá Gat; hann var á hæð sex álnir og spönn betur. 5 Hann
hafði eirhjálm á höfði og var í spangabrynju, og vó brynjan fimm
þúsund sikla eirs. 6 Hann hafði legghlífar af eiri á fótum sér og skot-
spjót af eiri á herðum sér. 7 En spjótskaft hans var sem vefjarrifur,
og fjöðurin vó sex hundruð sikla járns. Skjaldsveinn hans gekk á
undan honum. 8 Hann gekk fram og kallaði til fylkinga Ísraels og
mælti til þeirra: Hví farið þér í leiðangur og búist til bardaga? Er eg
ekki Filisti og þér þjónar Sáls? Veljið yður mann, sem komi hingað
ofan til mín. 9 Sé hann fær um að berjast við mig og felli mig, þá
skulum vér vera yðar þrælar; en beri eg hærra hlut og felli hann, þá
skuluð þér vera vorir þrælar og þjóna oss. 10 Og Filistinn mælti: Eg
hefi smánað fylkingar Ísraels í dag; fáið til mann, að við megum ber-
jast. 11 Og þegar Sál og allur Ísrael heyrði þessi ummæli Filistans, þá
skelfdust þeir og urðu mjög hræddir.
12 En Davíð var sonur þessa Efratíta í Betlehem í Júda; hann hét
Ísaí og átti átta sonu. Á Sáls dögum var maðurinn orðinn gamall og
hniginn að aldri. 13 Og þrír elztu synir Ísaí fóru — höfðu farið með
Sál í stríðið. Og synir hans þrír, sem í stríðið höfðu farið, hétu: hinn
elzti Elíab, annar Abínadab og hinn þriðji Samma. 14 En Davíð var
yngstur; þrír hinir eldri höfðu farið með Sál. 15 Og við og við fór
Davíð frá Sál, til þess að gæta sauða föður síns í Betlehem. 16 En
Filistinn gekk fram morgna og kveld og bauð sig fram fjörutíu daga.
17 Þá sagði Ísaí við Davíð son sinn: Tak þú efu af þessu bakaða korni
handa bræðrum þínum og þessi tíu brauð og flýt þér og færðu bræðr-
um þínum þetta í herbúðirnar. 18 Og þessa tíu mjólkurosta skalt þú
færa hersveitarforingjanum, og fáðu að vita, hvernig bræðrum þínum
líður og komdu með jartein frá þeim. 19 En Sál og þeir og allir Ísra-
elsmenn eru í Eikidalnum og eru að berjast við Filista. 20 Og Davíð
reis árla morguninn eftir og fékk sauðina hirði nokkurum til geymslu
og lyfti á sig og hélt af stað, eins og Ísaí hafði boðið honum. Þeg-
ar hann kom til vagnborgarinnar, gekk herinn fram í fylkingu og æptu
þeir heróp. 21 Stóðu nú hvorirtveggju búnir til bardaga, Ísrael og Fil-
istar, hvor fylkingin gegnt annari. 22 Og Davíð skildi við sig það, er
hann hafði meðferðis, hjá manni þeim, er gætti farangursins, og hljóp
að fylkingunni og kom og spurði bræður sína, hvernig þeim liði. 23 En
meðan hann var að tala við þá, sjá, þá gekk fram hólmgöngumaður-
inn — hann hét Golíat, Filisti frá Gat — úr fylkingum Filistanna og
mælti sömu orðum sem fyr, og Davíð hlýddi á. 24 En er Ísraelsmenn
sáu manninn, hörfuðu þeir allir undan honum og voru mjög hræddir.
25 Og einn Ísraelsmanna sagði: Hafið þér séð manninn, sem kemur þarna?
Hann kemur til þess að smána Ísrael; og hverjum þeim, sem fellir hann,
vill konungurinn veita mikil auðæfi og gefa honum dóttur sína og
gjöra ætt hans skattfrjálsa í Ísrael. 26 Þá sagði Davíð við þá, sem
næstir honum stóðu: Hverju verður þeim manni umbunað, sem fellir
Filista þennan og rekur svívirðing af Ísrael? Því að hver er þessi ó-
umskorni Filisti, er dirfist að smána herfylkingar lifanda Guðs? 27 Og
fólkið talaði til hans þessum sömu orðum: Þessu verður þeim um-
bunað, sem fellir hann. 28 En er Elíab, elzti bróðir hans, heyrði, hvað
hann talaði við mennina, þá reiddist hann Davíð og mælti: Til hvers
ert þú hingað kominn og hjá hverjum skildir þú eftir þessa fáu sauði
í eyðimörkinni? Eg þekki ofdirsku þína og vonzku hjarta þíns; því

---

**17, 4:** 2 Sam. 21, 19. 1 Kron. 20, 4. **12:** kap. 16, 1. **18:** kap. 16, 6. 8. 9. **27:** v. 25.

að þú ert hingað kominn til þess að horfa á bardagann. [29] Davíð
svaraði: Nú, hvað hefi eg þá gjört? Var mér ekki frjálst að spyrja?
[30] Og hann sneri sér frá honum og til annars og mælti á sömu leið,
og fólkið svaraði honum hinu sama sem hið fyrra skiftið. [31] En er
það spurðist, sem Davíð hafði sagt, þá sögðu menn Sál frá því, og lét
hann þá sækja hann. [32] Þá sagði Davíð við Sál: Enginn láti hugfall-
ast; þjónn þinn mun fara og berjast við Filista þennan. [33] En Sál sagði
við Davíð: Þú ert ekki fær um að fara móti Filista þessum, til þess
að berjast við hann, því að þú ert ungmenni, en hann hefir verið bar-
dagamaður frá barnæsku sinni. [34] Og Davíð sagði við Sál: Þjónn þinn
gætti sauða hjá föður sínum; ef þá kom ljón eða björn og tók kind úr
hjörðinni, [35] þá hljóp eg á eftir honum og feldi hann og reif kindina
úr gini hans; en ef hann réðst í móti mér, þreif eg í kampa hans og
laust hann til bana. [36] Bæði ljón og björn hefir þjónn þinn drepið, og
þessum óumskorna Filista skal reiða af eins og þeim, því að hann
hefir smánað herfylkingar lifanda Guðs. [37] Og Davíð mælti: Jahve, sem
frelsaði mig úr klóm ljónsins og úr klóm bjarnarins, hann mun frelsa
mig af hendi þessa Filista. Þá mælti Sál við Davíð: Far þú þá, og
Jahve mun vera með þér. [38] Og Sál færði Davíð í brynjukufl sinn og
setti eirhjálm á höfuð honum og færði hann í brynju. [39] Og Davíð
gyrti sig sverði sínu utan yfir brynjukuflinn og fór að ganga, því að
*hann* hafði aldrei reynt það áður. Þá sagði Davíð við Sál: Eg get
*ekki* gengið í þessu, því að eg hefi aldrei reynt það áður. Og þeir
færðu Davíð úr þessu; [40] en hann tók staf sinn í hönd sér og valdi
sér fimm hála steina úr gilinu og lét þá í smalatöskuna, sem hann
hafði með sér, í skreppuna, og tók sér slöngu í hönd og gekk á móti
Filistanum. [41] Og Filistinn gekk nær og nær Davíð, og maðurinn, sem
bar skjöld hans, gekk á undan honum. [42] En er Filistinn leit til og
sá Davíð, fyrirleit hann hann, af því að hann var ungmenni og rauð-
leitur og fríður sýnum. [43] Og Filistinn sagði við Davíð: Er eg þá
hundur, að þú kemur á móti mér með staf? Og Filistinn formælti
Davíð við guð sinn. [44] Og Filistinn mælti við Davíð: Kom þú til mín,
svo að eg gefi fuglum loftsins og dýrum merkurinnar hold þitt. [45] Og
Davíð sagði við Filistann: Þú kemur á móti mér með sverð og lensu
og spjót, en eg kem á móti þér í nafni Jahve hersveitanna, Guðs her-
fylkinga Ísraels, sem þú hefir smánað. [46] Í dag mun Jahve gefa þig í
mínar hendur, og eg mun leggja þig að velli og höggva af þér höfuðið,
og hræ þitt og hræin af her Filista mun eg í dag gefa fuglum loftsins
og dýrum merkurinnar, svo að öll jörðin viðurkenni, að Guð er til í
Ísrael, [47] og til þess að allur þessi mannsafnaður komist að raun um,
að Jahve veitir ekki sigur með sverði og spjóti, því að bardaginn er
Jahve, og hann mun gefa yður í vorar hendur. [48] Og er Filistinn fór
af stað og gekk fram og fór í móti Davíð, þá flýtti Davíð sér og hljóp
að fylkingunni í móti Filistanum. [49] Og Davíð stakk hendi sinni ofan
í töskuna og tók úr henni stein og slöngvaði og hæfði Filistann í ennið,
og steininn festi í enni hans, og féll hann á grúfu til jarðar. [50] Þannig
sigraði Davíð Filistann með slöngu og steini og feldi hann og drap
hann, og þó hafði Davíð ekkert sverð í hendi. [51] Þá hljóp Davíð að
og gekk til Filistans, tók sverð hans og dró það úr slíðrum og drap
hann og hjó af honum höfuðið með því. En er Filistar sáu, að kappi
þeirra var dauður, lögðu þeir á flótta. [52] En Ísraels menn og Júda
lögðu af stað og æptu heróp og eltu Filista alt til Gat og að borgar-
hliði Ekron, svo að Filistar lágu vegnir jafnvel á veginum, sem lá inn

---

**30:** v. 26. **42:** kap. 16, 12. **52:** Jós. 15, 36.

um borgarhliðið bæði í Gat og Ekron. 53 Og Ísraelsmenn sneru aftur
og hættu að elta Filista og rændu herbúðir þeirra. 54 En Davíð tók
höfuð Filistans og hafði með sér til Jerúsalem, en vopn hans lagði
hann í tjald sitt.

### Davíð kemur til hirðar Sáls og þeir Jónatan gjörast vinir.

55 En er Sál sá Davíð fara móti Filistanum, mælti hann við Abner
hershöfðingja: Abner, hvers son er sveinn þessi? Abner svaraði: Svo
sannarlega sem þú lifir, konungur, veit eg það ekki. 56 Og konungur-
inn mælti: Spyr þú að, hvers sonur þetta ungmenni sé. 57 Og er Davíð
sneri aftur og hafði lagt Filistann að velli, þá tók Abner hann og leiddi
hann fyrir Sál, en hann hélt á höfði Filistans í hendi sér. 58 Og Sál
sagði við hann: Hvers son ert þú, sveinn? Davíð svaraði: Sonur þjóns
18 þíns Ísaí Betlehemíta. 1 En er hann hafði endað tal sitt við Sál,
þá lagði Jónatan ást mikla við Davíð, og Jónatan unni honum
sem lífi sínu. 2 Og Sál tók hann þennan sama dag og leyfði honum
ekki að fara heim aftur til föður síns. 3 Og Jónatan gjörði fóstbræðra-
lag við Davíð, af því að hann unni honum sem lífi sínu. 4 Og Jóna-
tan fór úr skikkju sinni, sem hann var í, og gaf Davíð hana, svo og
brynjukufl sinn og jafnvel sverð sitt, boga sinn og belti. 5 Og Davíð
fór í leiðangra; var hann giftudrjúgur, hvert sem Sál sendi hann; setti
Sál hann því yfir hermennina. Og hann var vel þokkaður af öllum
lýð og einnig þjónum Sáls.

### Sál gjörist öfundsjúkur.

6 En er þeir komu heim, þá er Davíð sneri heim og hafði lagt
Filistann að velli, þá gengu konur úr öllum borgum Ísraels syngjandi
og dansandi út í móti Sál konungi, með bumbum, fagnaðarópum og
glymskálum. 7 Og konurnar stigu dansinn, hófu upp söng og mæltu:

Sál feldi sín þúsund,
en Davíð sín tiþúsund.

8 Þá varð Sál reiður mjög, og honum mislíkuðu þessi orð og hann
sagði: Davíð hafa þær gefið tiþúsundin, en mér hafa þær gefið þús-
undin; nú vantar hann ekki nema konungdóminn! 9 Og Sál leit Davíð
öfundarauga ávalt upp frá því. 10 Og daginn eftir kom illur andi frá
Guði yfir Sál, og æði greip hann inni í húsinu, en Davíð var að leika
hörpuna með hendi sinni, eins og hann var vanur að gjöra á degi
hverjum, og Sál hafði spjót í hendi. 11 Þá reiddi Sál spjótið og hugs-
aði með sér: Eg skal reka það gegnum Davíð og inn í vegginn. En
Davíð skaut sér tvívegis undan. 12 Og Sál var hræddur við Davíð, því
að Jahve var með honum, en var vikinn frá Sál. 13 Fyrir því lét Sál
hann frá sér og gjörði hann að hersveitarforingja; var hann nú fyrir
liðinu bæði þegar það fór og kom. 14 En Davíð var giftudrjúgur í
öllu, sem hann tók sér fyrir hendur, af því að Jahve var með honum.
15 Og er Sál sá, að hann var giftusamur mjög, tók honum að standa
uggur af honum; 16 en allur Ísrael og Júda elskaði Davíð, því að
hann gekk jafnan þeirra fremstur.

---

**18, 1:** kap. 19, 1; 20, 17. **2:** kap. 17, 15. **6:** Dóm. 11, 34. **7:** kap. 21, 11; 29, 5.
**10:** kap. 16, 14; 19, 9. 10. **11:** kap. 20, 33.

### Davíð mægist við konung.

17 Og Sál sagði við Davíð: Sjá, eg vil gefa þér Merab, elztu dótt-
ur mína, fyrir konu; en þú verður að reynast mér hraustur maður og
þú verður að heyja bardaga Jahve! En Sál hugsaði með sér: Eg skal
ekki leggja hönd á hann, en Filistar skulu leggja hönd á hann. 18 Og
Davíð sagði við Sál: Hver er eg og hvert er kyn mitt, ætt föður míns
í Ísrael, að eg skuli verða tengdasonur konungsins? 19 En er sá tími
kom, að gifta skyldi Davíð Merab, dóttur Sáls, þá var hún gefin Adr-
íel frá Mehóla fyrir konu. 20 En Míkal, dóttir Sáls, elskaði Davíð. Og
Sál var sagt frá því, og honum líkaði það vel. 21 Þá hugsaði Sál með
sér: Eg vil gefa honum hana, svo að hún verði honum að tálsnöru og
Filistar leggi hönd á hann. Og Sál sagði við Davíð: Fyrir tvent getur
þú orðið tengdasonur minn í dag. 22 Og Sál bauð þjónum sínum:
Talið leynilega við Davíð og segið: Sjá, konungur hefir mætur á þér,
og allir þjónar hans elska þig, og því skalt þú nú mægjast við kon-
ung. 23 Og þjónar Sáls töluðu þessi orð í eyru Davíðs. En Davíð sagði:
Sýnist yður það lítils um vert að mægjast við konung, þar sem eg er
maður fátækur og lítilsháttar? 24 Og þjónar Sáls báru honum þetta og
sögðu: Slíkum orðum hefir Davíð mælt. 25 Þá sagði Sál: Mælið svo við
Davíð: Eigi girnist konungur annan mund en hundrað yfirhúðir Filista,
til þess að hefna sín á óvinum konungs. En Sál hugsaði sér að láta
Davíð falla fyrir hendi Filista. 26 Og þjónar hans báru Davíð þessi orð,
og Davíð líkaði það vel, að eiga að mægjast við konung; en tíminn var
enn ekki liðinn. 27 Þá tók Davíð sig upp og lagði af stað með menn sína
og drap hundrað manns meðal Filista. Og Davíð fór með yfirhúðir
þeirra og lagði þær allar með tölu fyrir konung, til þess að hann næði
mægðum við konung; þá gaf Sál honum Míkal dóttur sína fyrir konu.
28 Og Sál sá það æ betur og betur, að Jahve var með Davíð og að allur
Ísrael elskaði hann. 29 Þá varð Sál enn miklu hræddari við Davíð.
Varð Sál nú óvinur Davíðs alla æfi. 30 Og höfðingjar Filistanna fóru í
leiðangur; en í hvert skifti, sem þeir fóru í leiðangur, varð Davíð giftu-
drjúgari en allir þjónar Sáls, svo að nafn hans varð víðfrægt.

### Sál sættist við Davíð; fjandskapast við hann að nýju; Davíð flýr til Samúels.

19 Og Sál talaði við Jónatan son sinn og við alla þjóna sína um
að drepa Davíð. En Jónatan, sonur Sáls, hafði miklar mætur á
Davíð. 2 Fyrir því sagði Jónatan Davíð frá þessu og mælti: Sál faðir
minn situr um að drepa þig; ver því var um þig á morgun snemma og
fel þig og ver þú kyrr í því leyni. 3 En eg ætla sjálfur að fara út og
nema staðar við hlið föður míns á grundinni, þar sem þú ert, og eg
ætla að tala um þig við föður minn; og ef eg verð nokkurs vísari,
mun eg segja þér það. 4 Og Jónatan talaði vel um Davíð við Sál föð-
ur sinn og sagði við hann: Syndgast þú ekki, konungur, á Davíð þjóni
þínum, því að hann hefir ekki syndgað á móti þér og verk hans hafa
verið þér mjög gagnleg; 5 hann lagði líf sitt í hættu og feldi Filistann,
og þannig veitti Jahve öllum Ísrael mikinn sigur. Þú sást það og
gladdist; og hvers vegna vilt þú syndgast á saklausu blóði, með því að
deyða Davíð án saka? 6 Og Sál skipaðist við orð Jónatans og Sál sór:
Svo sannarlega sem Jahve lifir, þá skal hann ekki verða drepinn. 7 Þá
kallaði Jónatan á Davíð og Jónatan tjáði honum öll þessi orð. Síðan
leiddi Jónatan Davíð til Sáls, og hann var hjá honum sem áður. 8 Og

**19, 1:** kap. 18, 1. **5:** Dóm. 12, 3. 1 Sam. 17, 50 n. **7:** kap. 18, 2.

er ófriður hófst að nýju, fór Davíð og barðist við Filista og feldi mik-
inn fjölda af þeim, svo að þeir flýðu fyrir honum.
9 Þá kom illur andi frá Jahve yfir Sál; en hann sat í húsi sínu
og hafði spjót í hendi sér, og Davíð lék hörpuna með hendi sinni. 10 Þá
reyndi Sál að reka Davíð í gegn með spjótinu upp við vegginn; en
hann skaut sér undan Sál, svo að hann rak spjótið inn í vegginn. En
Davíð flýði og komst undan. 11 Og hina sömu nótt sendi Sál sendi-
menn í hús Davíðs, til þess að hafa gætur á honum, svo að hann fengi
drepið hann um morguninn. En Míkal, kona hans, sagði Davíð frá
og mælti: Ef þú forðar ekki lífi þínu í nótt, þá verður þú drepinn á
morgun. 12 Þá lét Míkal Davíð síga niður út um gluggann; og hann
fór og flýði og komst undan. 13 Síðan tók Míkal húsgoðið og lagði í
rúmið, og hún lagði blæju úr geitarhári yfir höfðalagið og breiddi á-
breiðu yfir. 14 Og þegar Sál sendi menn til þess að sækja Davíð, þá
sagði hún: Hann er sjúkur. 15 Þá sendi Sál mennina aftur, til að vitja
um Davíð og sagði: Færið mér hann í rúminu, til þess að eg geti
drepið hann. 16 En er sendimennirnir komu, sjá, þá lá húsgoðið í rúm-
inu og geitarhárs-blæjan yfir höfðalaginu. 17 Þá sagði Sál við Míkal:
Hví hefir þú svikið mig svo og látið óvin minn í burt fara, svo að
hann hefir komist undan. En Míkal sagði við Sál: Hann sagði við
mig: Lát mig komast burt, ella mun eg drepa þig!
18 Og Davíð flýði og komst undan og kom til Samúels í Rama og
sagði honum frá öllu, sem Sál hafði gjört honum; og hann fór með
Samúel og þeir bjuggu í Najót. 19 Nú var Sál sagt svo frá: Sjá, Davíð
er í Najót í Rama! 20 Sendi Sál þá menn til að sækja Davíð. En er
þeir sáu hóp spámanna, sem voru í spámannlegum guðmóði, og Sam-
úel standa þar sem foringja þeirra, þá kom Guðs andi yfir sendimenn
Sáls, svo að þeir komust einnig í spámannlegan guðmóð. 21 Og menn
sögðu Sál frá þessu, og hann sendi aðra menn, en þeir komust einnig
í spámannlegan guðmóð. Þá sendi Sál enn menn hið þriðja sinn, en
þeir komust einnig í spámannlegan guðmóð. 22 Þá fór hann sjálfur til
Rama. Og er hann kom að brunninum á þreskivellinum, sem liggur
uppi á skóglausu hæðinni, þá spurði hann og mælti: Hvar eru þeir
Samúel og Davíð? Og menn sögðu: Þeir eru í Najót í Rama. 23 En
er hann fór þaðan til Najót í Rama, þá kom og Guðs andi yfir hann
og var hann stöðugt í spámannlegum guðmóði, þar til er hann kom
til Najót í Rama. 24 Þá fór hann og af klæðum sínum, og hann var
og í spámannlegum guðmóði frammi fyrir Samúel og lá þar nakinn all-
an þennan dag og alla nóttina. Fyrir því segja menn: Er og Sál meðal
spámannanna?

### Ráðagjörð þeirra Davíðs og Jónatans.

20 Og Davíð flýði frá Najót í Rama og kom til Jónatans og
sagði: Hvað hefi eg gjört? í hverju hefi eg misgjört og í hverju
hefi eg syndgað á móti föður þínum, fyrst hann situr um líf mitt?
2 Og hann sagði við hann: Það skal aldrei verða! þú munt eigi lífi
týna; sjá, faðir minn gjörir ekkert, hvorki stórt né smátt, að hann láti
mig eigi vita það; og hví skyldi faðir minn þá leyna mig þessu? nei,
slíkt á sér ekki stað. 3 Og Davíð svaraði aftur og mælti: Faðir þinn
veit það vel, að þér þykir vænt um mig, og hugsar með sér: Jónatan
má eigi vita þetta, það kynni að fá honum hrygðar. En svo sannar-

---

**9:** kap. 16, 14; 18, 10 n. **10:** kap. 20, 33. **11:** Sálm. 59, 1. **12:** Post. 9, 25. **24:** Jes. 20, 2.

lega sem Jahve lifir og þú lifir: milli mín og dauðans er aðeins eitt
fótmál. [4] Og Jónatan sagði við Davíð: Hvað sem þú biður um mun
eg fyrir þig gjöra. [5] Þá sagði Davíð við Jónatan: Sjá, á morgun er
tunglkomudagur og eg get ekki með neinu móti setið til borðs með
konunginum; leyf mér því að fara burt, svo að eg geti falið mig úti á
víðavangi til kvelds. [6] Ef nú faðir þinn saknar mín, þá skalt þú segja:
Davíð beiddist leyfis af mér að mega bregða sér til Betlehem, föður-
borgar sinnar, því að ársfórn allrar ættarinnar fer þar fram. [7] Ef hann
þá segir: Það er gott! þá er þjóni þínum óhætt; en verði hann reiður,
þá vit, að hann hefir ilt af ráðið. [8] Og auðsýn nú þjóni þínum kær-
leika, úr því að þú hefir látið þjón þinn ganga í Jahve-fóstbræðralag
við þig. En hafi eg misgjört, þá drep þú mig sjálfur; en til föður
þíns — hví skyldir þú fara með mig þangað? [9] Og Jónatan mælti:
Lát þér eigi koma það til hugar! því að ef eg yrði þess áskynja, að
faðir minn hafi ilt af ráðið gegn þér, mundi eg þá ekki segja þér frá
því? [10] Og Davíð sagði við Jónatan: Hver lætur mig nú vita, hvort
faðir þinn svarar þér illu til? [11] Og Jónatan sagði við Davíð: Kom
þú, við skulum ganga út á víðavang. Og þeir gengu báðir út á
víðavang. [12] En Jónatan sagði við Davíð: Jahve, Ísraels Guð, veri
vitni; þegar eg á morgun um þetta leyti hefi komist eftir, hvað föður
mínum býr í skapi, og eg sé að þér er óhætt — mun eg þá ekki senda
til þín og láta þig vita það? [13] Jahve láti Jónatan gjalda þess nú og
síðar, ef faðir minn hefir ilt í huga gegn þér, og eg læt þig ekki vita
það og leyfi þér að fara, svo að þú megir fara óhultur; og Jahve mun
vera með þér, eins og hann hefir verið með föður mínum. [14] Og vilt
þú ekki, verði eg þá enn á lífi, — vilt þú þá ekki auðsýna mér mis-
kunn Jahve, svo að eg týni eigi lífi? [15] Og svift hús mitt aldrei miskunn
þinni; og þegar Jahve upprætir alla óvini Davíðs af jörðinni, [16] þá skal
nafn Jónatans eigi verða slitið frá húsi Davíðs, og Jahve hefni Davíðs
á óvinum hans. [17] Og Jónatan vann Davíð enn eið við ást þá, er
hann bar til hans, því að hann unni honum hugástum. [18] Og Jónatan
sagði við hann: Á morgun er tunglkomudagur; þá verður þín saknað,
því að sæti þitt mun verða autt. [19] En á þriðja degi mun þín mjög
verða saknað; þá skalt þú fara til þess staðar, þar sem þú fólst þig
virka daginn og seztu hjá þeim hól. [20] Eg mun þá á þriðja degi skjóta
örvum í hólinn, eins og eg væri að skjóta til marks. [21] Og sjá, eg mun
senda sveininn og segja: Farðu og sæktu örina. Ef eg nú kalla til
sveinsins: Sjá, örin liggur hérnamegin við þig, kom þú með hana! þá
skalt þú koma heim, því að þá er þér óhætt og ekkert er að, svo
sannarlega sem Jahve lifir. [22] En ef eg kalla svo til piltsins: Örin
liggur hinumegin við þig! þá far þú, því að Jahve hefir þá sent þig
burt. [23] En viðvíkjandi því, sem við höfum talað, eg og þú, þá er
Jahve vitni milli mín og þín að eilífu. [24] Þá fól Davíð sig úti á víða-
vangi. En er tunglkomudagurinn kom, settist konungur undir borð að
máltíð, [25] og sat konungur í sæti sínu, eins og vant var, í sætinu við
vegginn, en Jónatan sat gegnt honum, og Abner sat við hliðina á Sál,
en sæti Davíðs var autt. [26] Þó sagði Sál ekkert þann dag, því að hann
hugsaði: Það er tilviljun; hann er ekki hreinn, af því að hann hefir
ekki látið hreinsa sig. [27] En daginn eftir tunglkomuna var sæti Davíðs
enn autt; þá sagði Sál við Jónatan son sinn: Hvers vegna hefir sonur
Ísai ekki komið til máltíðar, hvorki í gær né í dag? [28] Jónatan svaraði Sál:
Davíð beiddist þess af mér, að mega fara til Betlehem; [29] hann sagði: Leyf
mér að fara, því að vér ætlum að halda ættarfórn í borginni, og bræður

---

**20, 8:** kap. 18, 3; 23, 18. **17:** kap. 18, 3. **26:** 3 Mós. 7, 21; 11, 24—28; 15, 16 n.

mínir hafa beðið mig að koma; og hafi eg fundið náð í augum þínum,
þá lofaðu mér að komast burt, svo að eg geti heimsótt bræður mína.
Fyrir því hefir hann ekki komið að konungs borði. 30 Þá reiddist Sál
Jónatan og sagði við hann: Þú sonur þrjózkrar móður! Ætli eg viti
ekki að þú ert vinur Ísaísonar, þér til skammar og blygðun móður
þinnar til skammar? 31 Því að alla þá stund, sem Ísaísonur er lifandi
á jörðinni, munt þú og konungdómur þinn eigi fastur standa. Send
því nú og lát koma með hann til mín, því að hann er dauðamaður.
32 Þá svaraði Jónatan Sál föður sínum og sagði við hann: Hví skal
deyða hann? hvað hefir hann gjört? 33 Þá snaraði Sál að honum
spjótinu og ætlaði að leggja hann í gegn. Sá Jónatan þá, að faðir
hans hafði fastráðið að drepa Davíð. 34 Og Jónatan stóð upp frá borð-
inu æfareiður og neytti ekki matar annan tunglkomudaginn, því að
hann tók sárt til Davíðs, af því að faðir hans hafði smánað hann.
35 Og morguninn eftir gekk Jónatan út á víðavang á þeim tíma,
er þeir Davíð höfðu til tekið, og var ungur sveinn með honum. 36 Og
hann sagði við svein sinn: Hlauptu og sæktu örina, sem eg ætla að
skjóta. Sveinninn hljóp af stað, en hann skaut örinni yfir hann fram.
37 En er sveinninn kom þar að, er örin lá, sem Jónatan hafði skotið,
þá kallaði Jónatan á eftir sveininum og sagði: Örin liggur hinumegin
við þig. 38 Og Jónatan kallaði enn á eftir sveininum: Áfram, flýttu þér,
stattu ekki kyrr! Og sveinn Jónatans tók upp örina og færði húsbónda
sínum. 39 En sveinninn vissi ekki neitt; þeir Jónatan og Davíð vissu
einir, hvað þetta átti að þýða. 40 Og Jónatan fékk sveini sínum vopn
sín og sagði við hann: Farðu með það inn í borgina. 41 Sveinninn fór
nú heim, en Davíð reis upp undan hólnum, féll fram á ásjónu sína til
jarðar og laut þrisvar sinnum, og þeir kystu hvor annan og grétu hvor
með öðrum, unz Davíð fór að hágráta. 42 Og Jónatan sagði við Davíð:
Far þú í friði; en viðvíkjandi því, sem við báðir höfum unnið eið að
í nafni Jahve, þá sé Jahve vitni milli mín og þín, og milli minna niðja
og þinna niðja að eilífu. Síðan hélt hann af stað og fór burt, en Jó-
natan gekk inn í borgina.

### Davíð í Nób og Gat.

21 Og Davíð kom til Nób, til Ahímeleks prests; en Ahímelek gekk
skelkaður í móti Davíð og mælti til hans: Hví ert þú einsamall
og enginn maður með þér? 2 Og Davíð svaraði Ahímelek presti: Kon-
ungur fól mér erindi nokkurt og sagði við mig: Enginn maður má
vita neitt um erindi það, er eg sendi þig í og eg hefi falið þér; fyrir
því hefi eg stefnt sveinunum á vissan stað. 3 Og ef þú hefir nú fimm
brauð hjá þér, þá gef mér þau eða hvað sem fyrir hendi er. 4 Prest-
ur svaraði Davíð og sagði: Eg hefi ekkert óheilagt brauð hjá
mér, en heilagt brauð er til, — aðeins að sveinarnir hafi haldið sér
frá konum. 5 Davíð svaraði presti og mælti til hans: Já, vissulega.
Kvenna hefir oss verið varnað undanfarið; þegar eg fór að heiman,
voru ílát sveinanna heilög; og að vísu er þetta ferðalag óheilagt, en nú
verða þeir heilagir fyrir ílátin. 6 Þá gaf prestur honum heilagt brauð;
því að þar var ekkert brauð, nema skoðunarbrauðin, sem tekin eru
burt frá augliti Jahve, en volg brauð lögð í stað þeirra, þá er þau eru
tekin. 7 En þar var þennan dag einn af þjónum Sáls, inni byrgður
fyrir augliti Jahve; hann hét Dóeg og var Edómíti og yfirmaður hirða

---

**32:** kap. 19, 4. **33:** kap. 18, 11; 19, 10. — **21, 4:** 3 Mós. 24, 5 n. 2 Mós. 19, 15.
**6:** Matt. 12, 3. 4. Lúk. 6, 3. 4. **7:** kap. 22, 9. Sálm. 52, 2.

Sáls. [8] Og Davíð sagði við Ahímelek: Hefir þú ekki spjót eða sverð
hér hjá þér? því að eg tók hvorki sverð mitt né vopn mín með mér;
því að svo bar bráðan að um konungs erindi. [9] Þá sagði prestur:
Hér er sverð Golíats Filista, sem þú lagðir að velli í Eikidal, sveipað
dúk á bak við hökullíkneskið; ef þú vilt hafa það, þá tak það, því að
hér er ekkert annað en það. Og Davíð sagði: Það er sverða bezt;
fá mér það.
[10] Síðan tók Davíð sig upp og flýði þennan sama dag fyrir Sál,
og kom til Akís konungs í Gat. [11] Og þjónar Akís sögðu við hann:
Er þetta ekki Davíð, konungur landsins? Var það ekki um hann, að
sungið var við dansinn:

Sál feldi sín þúsund
og Davíð sín tíþúsund?

[12] Og Davíð festi þessi orð í huga og var mjög hræddur við Akís kon-
ung í Gat. [13] Fyrir því gjörði hann sér upp vitfirringu fyrir augum
þeirra og lét sem óður maður innan um þá, sló á vængjahurðir hliðs-
ins sem á bumbu og lét slefuna renna ofan í skeggið. [14] Þá sagði Akís
við þjóna sína: Þér sjáið að maðurinn er vitstola; hví komið þér með
hann til mín? [15] Hefi eg ekki nóg af vitfirringum, úr því að þér hafið
komið með þennan til að ærast frammi fyrir mér? Hvað á hann
að gjöra í mitt hús?

### Davíð í Adúllam og Jaar-Heret. Sál lætur drepa prestana í Nób.

22 Og Davíð fór þaðan og komst undan í Adúllam-virkið. Og er
bræður hans og alt hús föður hans fréttu það, komu þeir þang-
að til hans. [2] Og allir nauðstaddir menn söfnuðust til hans og allir
þeir, sem komnir voru í skuldir, svo og allir þeir, er óánægðir voru,
og gjörðist hann höfðingi þeirra. Voru nú með honum um fjögur
hundruð manns. [3] Og Davíð fór þaðan til Mizpe í Móab og sagði við
Móabs-konung: Leyf föður mínum og móður minni að vera hér hjá
yður, unz eg fæ að vita, hvað Guð gjörir við mig. [4] Síðan skildi hann
þau eftir hjá Móabs-konungi, og þau voru hjá honum meðan Davíð
var í virkinu. [5] Og Gað spámaður sagði við Davíð: Þú skalt ekki vera
kyrr í virkinu; haf þig á braut og far til Júda-lands. Þá fór Davíð af
stað og kom til Jaar-Heret.
[6] Nú fréttir Sál, að Davíð sé fundinn og þeir menn, sem með
honum voru. En Sál sat í Gíbeu undir tamarisk-trénu á hæðinni og
hafði spjót í hendi, og allir þjónar hans stóðu umhverfis hann. [7] Þá mælti
Sál við þjóna sína, sem stóðu umhverfis hann: Heyrið, þér Benjamín-
ítar! Ætli Ísaísonur gefi yður öllum akra og víngarða og gjöri yður
alla að hersveitarforingjum og hundraðshöfðingjum? [8] Því að þér hafið
allir gjört samsæri á móti mér, og enginn sagði mér frá því, þegar
sonur minn gjörði bandalag við Ísaíson, og enginn yðar hefir kent í
brjósti um mig og sagt mér frá því, að sonur minn hefir eflt þegn minn
til fjandskapar í móti mér, eins og nú er fram komið. [9] Þá tók Dóeg
Edómíti til máls — en hann stóð hjá þjónum Sáls — og mælti: Eg
sá Ísaíson koma til Nób, til Ahímeleks Ahítúbssonar, [10] og gekk hann
til frétta við Jahve fyrir hann; hann gaf honum og vistir, og sverð
Golíats Filista fékk hann honum. [11] Þá sendi konungur eftir Ahímelek
presti Ahítúbssyni og öllu frændliði hans, prestunum í Nób, og þeir

**9:** kap. 17, 51. **10:** kap. 27, 2. Sálm. 56, 1. **11:** kap. 18, 7; 29, 5. **13:** Sálm. 34,
1. — **22, 1:** Sálm. 57, 1. **7:** kap. 8, 14. **8:** kap. 18, 3. **9:** kap. 21, 7. Sálm. 52,
2. **10:** kap. 21, 6. 9.

sór og mælti: Guð láti mig gjalda þess nú og síðar, ef eg smakka
brauð eða nokkuð annað fyrir sólarlag. 36 Allur lýðurinn tók eftir því
og líkaði þeim það vel; yfir höfuð líkaði öllum lýðnum vel alt það,
sem konungurinn gjörði. 37 Og alt fólkið og allur Ísrael sannfærðist
um það á þeim degi, að konungur væri ekki valdur að vígi Abners
Nerssonar. 38 Konungur mælti og við menn sína: Vitið þér ekki, að
höfðingi og mikill maður er í dag fallinn í Ísrael? 39 En eg má mín
enn lítils, þótt eg sé smurður til konungs, og þessir menn, Zerújusynir,
eru mér yfirsterkari. Jahve gjaldi þeim, sem níðingsverkið hefir unnið,
svo sem hann á skilið fyrir níðingsverk sitt!

### Ísbóset myrtur.

4 En er Ísbóset sonur Sáls frétti, að Abner væri dauður í Hebron,
féllust honum hendur, og allur Ísrael varð óttasleginn. 2 En Ís-
bóset sonur Sáls hafði tvo menn hjá sér, foringja fyrir ránsflokkum;
hét annar þeirra Baana, en hinn Rekab — synir Rimmóns frá Beerót,
af kynþætti Benjamíns; því að Beerót telst og með Benjamín. 3 En
Beerót-búar voru flúnir til Gittaím og hafa þeir verið þar sem hjábýl-
ingar fram á þennan dag. 4 Og Jónatan, sonur Sáls, átti son lama á
báðum fótum; hann var fimm vetra gamall, þegar fregnin kom um Sál
*og* Jónatan frá Jesreel. Þá tók fóstra hans hann og flýði; en í ofboð-
*inu*, er hún flýði, féll hann og varð lami; hann hét Mefíbóset. 5 En
synir Rimmóns frá Beerót, þeir Rekab og Baana, lögðu af stað og komu,
þá er heitast var dags, í hús Ísbósets; hafði hann þá lagt sig um mið-
degið. 6 En stúlkan, sem dyranna gætti, hafði verið að hreinsa hveiti
og hafði hana syfjað og var hún sofandi; þeir Rekab og Baana bróðir
hans læddust því inn. 7 Og er þeir komu inn í húsið, þá lá hann í
hvílu sinni í svefnhúsi sínu; en þeir báru vopn á hann og unnu á
honum og hjuggu af honum höfuðið. Því næst tóku þeir höfuð hans
og héldu áfram alla nóttina veginn yfir sléttlendið. 8 Og þeir færðu
Davíð í Hebron höfuðið af Ísbóset og mæltu við konunginn: Hér er
höfuð Ísbósets, sonar Sáls, — óvinar þíns, sem sat um líf þitt. Jahve
hefir nú látið herra mínum, konunginum, verða hefndar auðið á Sál og
niðjum hans. 9 En Davíð svaraði Rekab og Baana bróður hans, þeim
sonum Rimmóns frá Beerót, og mælti til þeirra: Svo sannarlega sem
Jahve lifir, sá er frelsað hefir líf mitt úr öllum nauðum: 10 þann mann,
sem færði mér tíðindin: Sjá, Sál er dauður! og hugðist færa mér
gleðitíðindi, hann lét eg handtaka og drepa í Ziklag og galt honum
þann veg sögulaunin. 11 Og þegar illir menn nú hafa myrt saklausan
mann í hvílu sinni í hans eigin húsi, — skyldi eg þá ekki miklu
fremur krefjast blóðs hans af ykkar hendi og afmá ykkur af jörðinni?
12 Síðan bauð Davíð sveinum sínum að drepa þá; þeir gjörðu svo og
hjuggu af þeim hendur og fætur og hengdu þá upp hjá tjörninni í
Hebron. En höfuð Ísbósets tóku þeir og jörðuðu það hjá Abner í
Hebron.

### Davíð verður konungur yfir öllum Ísrael og sezt að í Jerúsalem.

5 Þá komu allar ættkvíslir Ísraels til Davíðs í Hebron og sögðu:
Sjá, vér erum hold þitt og bein! 2 Þegar um langa hríð, á meðan
Sál var konungur yfir oss, hefir þú verið fyrir Ísrael, bæði þegar hann

---

**4, 2:** Jós. 18, 25. **3:** Nehem. 11, 33. **4:** kap. 9, 3. **9:** 1 Kong. 1, 29. **10:** kap. 1, 15. **12:** kap. 3, 32. — **5, 1:** 1 Kron. 11, 1 n. **2:** 1 Sam. 18, 13. Sálm. 78, 70 n.

lagði af stað í stríð og þegar hann kom heim; auk þess hefir Jahve
við þig sagt: Þú skalt vera hirðir þjóðar minnar Ísraels og þú skalt
vera höfðingi yfir Ísrael! 3 Þá komu allir öldungar Ísraels til konungs-
ins í Hebron, og Davíð konungur gjörði við þá sáttmála í Hebron
frammi fyrir augliti Jahve, og þeir smurðu Davíð til konungs yfir Ísrael.
4 Þrjátíu ára gamall var Davíð, þá er hann varð konungur, og fjörutíu
ár ríkti hann. 5 Í Hebron ríkti hann sjö ár og sex mánuði yfir Júda,
og í Jerúsalem ríkti hann þrjátíu og þrjú ár yfir öllum Ísrael og Júda.
6 Og konungur og menn hans fóru til Jerúsalem í móti Jebúsítum,
sem bjuggu í því héraði; var þá sagt við Davíð: Þú munt eigi komast
hér inn, heldur munu blindir menn og haltir reka þig burt. Með því
áttu þeir við: Davíð mun ekki komast hér inn. 7 En Davíð tók vígið
Zíon, það er Davíðsborg. 8 Og Davíð sagði á þeim degi: Hver sem
vinnur sigur á Jebúsítum og kemst að vatnstokknum og að þeim höltu
og blindu, sem Davíð hatar í sálu sinni . . . . . . . . . .* Þaðan er
komið máltækið: Blindir og haltir komast ekki inn í húsið. 9 Því næst
settist Davíð að í víginu og nefndi hann það Davíðsborg. Hann reisti
og víggirðingar umhverfis, frá Milló og þaðan inn á við. 10 Og Davíð
efldist meir og meir, og Jahve, Guð hersveitanna, var með honum.
11 Og Híram, konungur í Týrus, gjörði menn á fund Davíðs og sendi
honum sedrustré, trésmiði og steinhöggvara, og reistu þeir höll handa
Davíð. 12 Og Davíð kannaðist við, að Jahve hefði staðfest konungdóm
hans yfir Ísrael og eflt konungsríki hans fyrir sakir þjóðar sinnar Ísraels.
13 Og Davíð tók sér enn hjákonur og konur í Jerúsalem, eftir að hann
var farinn burt frá Hebron; og Davíð fæddust enn synir og dætur.
14 Og þetta eru nöfn þeirra sona, sem honum fæddust í Jerúsalem:
Sammúa, Sóbab, Natan, Salómó, 15 Jíbhar, Elísúa, Nefeg, Jafía, 16 Elí-
sama, Eljada og Elífelet.

## Davíð vinnur sigur á Filistum.

17 En er Filistar heyrðu að Davíð væri smurður til konungs yfir
Ísrael, lögðu allir Filistar af stað að leita Davíðs. Og er Davíð frétti
það, fór hann ofan í fjallvígið. 18 Og Filistar komu og dreifðu sér um
Refaím-dal. 19 Þá gekk Davíð til frétta við Jahve og sagði: Á eg að
fara móti Filistum? Munt þú gefa þá í hendur mér? Og Jahve svar-
aði Davíð: Far þú, því að eg mun vissulega gefa Filista í hendur þér.
20 Þá fór Davíð til Baal-Perazím. Og Davíð vann þar sigur á þeim og
sagði: Jahve hefir skolað burt óvinum mínum fyrir mér, eins og þegar
vatn ryður sér rás. Fyrir því var sá staður nefndur Baal-Perazím.
21 En þeir létu þar eftir skurðgoð sín, og Davíð og menn hans tóku
þau. 22 Og Filistar komu aftur og dreifðu sér um Refaím-dal. 23 Þá
gekk Davíð til frétta við Jahve, og hann svaraði: Far þú eigi í móti
þeim; far þú í bug og kom að baki þeim og ráð á þá fram undan
baka-trjánum. 24 Og þegar þú heyrir þyt af ferð í krónum baka-
trjánna, þá skalt þú hraða þér, því að þá fer Jahve fyrir þér, til þess
að ljósta her Filista. 25 Og Davíð gjörði eins og Jahve bauð honum,
og vann sigur á Filistum frá Geba alla leið til Geser.

---

**4:** 1 Kong. 2, 11. 1 Kron. 29, 27 n. **8:** * Frumtextinn er hér augsýnilega úr lagi færður og því óskiljanlegur. 1 Kron. 11, 6. **11:** 1 Kron. 14, 1 n. **14:** 1 Kron. 3. 5 n. 14, 4 n. **17:** 1 Kron. 14, 8 n.

## Sáttmálsörkin flutt til Zíon.

6 Og Davíð safnaði enn saman öllu einvalaliði í Ísrael, þrjátíu
þúsundum manns. [2] Síðan tók Davíð sig upp og lagði af stað
með alt það lið, sem hjá honum var, til Baal í Júda, til þess að flytja
þaðan örk Guðs, sem kend er við nafn Jahve hersveitanna, hans sem
situr uppi yfir kerúbunum. [3] Og þeir óku örk Guðs á nýjum vagni
og tóku hana úr húsi Abínadabs, því er stóð á hæðinni, og stýrðu
þeir Ússa og Ahjó, synir Abínadabs, vagninum. [4] Ússa gekk með örk
Guðs, en Ahjó gekk fyrir örkinni. [5] Og Davíð og alt Ísraels hús dans-
aði fyrir Jahve af öllum mætti, með söng, gígjum, hörpum, bumbum,
bjöllum og skálabumbum. [6] En er þeir komu að láfa Nakóns, greip Ússa
hendinni í örk Guðs og hélt fast í hana, því að slakað hafði verið
á taumhaldinu við akneytin. [7] Þá upptendraðist reiði Jahve gegn Ússa,
og Guð laust hann þar, af því að hann hafði gripið hendi sinni í örk-
ina, og dó hann þar hjá örk Guðs. [8] En Davíð féll það þungt, að
Jahve hafði lostið Ússa svo hart, og hefir þessi staður verið nefndur
Peres-Ússa alt fram á þennan dag. [9] Og Davíð varð hræddur við Jahve
á þeim degi og sagði: Hvernig má þá örk Jahve komast til mín? [10] Og
Davíð vildi ekki flytja örk Jahve til sín í Davíðsborg, heldur sneri
hann með hana til húss Óbeð-Edóms í Gat. [11] Og örk Jahve var síðan
í húsi Óbeð-Edóms í Gat þrjá mánuði, og Jahve blessaði Óbeð-Edóm
og alt hans hús. [12] En er Davíð konungi komu þau tíðindi: Jahve
hefir blessað hús Óbeð-Edóms og alt, sem hann á, sakir Guðs arkar,
þá lagði Davíð af stað og sótti örk Guðs í hús Óbeð-Edóms og flutti
hana til Davíðsborgar með fögnuði. [13] Og er þeir, sem báru örk
Jahve, höfðu gengið sex skref, fórnaði hann nauti og alikálfi. [14] Og
Davíð dansaði af öllum mætti fyrir Jahve og var Davíð þá gyrtur lín-
hökli. [15] Og Davíð og alt Ísraels hús flutti örk Jahve upp með fagn-
aðarópi og lúðurhljómi. [16] En er örk Jahve kom í Davíðsborg, leit
Míkal, dóttir Sáls, út um gluggann; og er hún sá Davíð konung vera
að hoppa og dansa fyrir Jahve, fyrirleit hún hann í hjarta sínu. [17] Og
þeir fluttu örk Jahve inn og settu hana á sinn stað í tjaldi því, sem
Davíð hafði reisa látið yfir hana; og Davíð færði brennifórnir frammi
fyrir Jahve og heillafórnir. [18] Og er Davíð hafði fært brennifórnina
og heillafórnirnar, blessaði hann lýðinn í nafni Jahve hersveitanna.
[19] Hann úthlutaði og öllu fólkinu, öllum múg Ísraels, bæði körlum og
konum, hverjum fyrir sig einni brauðköku, einu kjötstykki og einni
rúsínuköku. Síðan fór allur lýðurinn burt, hver heim til sín. [20] En
er Davíð kom heim, til þess að heilsa fólki sínu, gekk Míkal, dóttir
Sáls, á móti honum og mælti: Tigulegur var Ísraels konungurinn í dag,
þar sem hann beraði sig í dag í augsýn ambátta þjóna sinna, eins og
þegar einhver af argasta skrílnum berar sig! [21] Þá sagði Davíð við
Míkal: Fyrir Jahve vil eg dansa, sem tekið hefir mig fram yfir föður
þinn og fram yfir alt hans hús, til þess að skipa mig höfðingja yfir
lýð Jahve, yfir Ísrael, og fyrir Jahve vil eg leika [22] og lítillækka mig
enn meir en þetta og líta smáum augum á sjálfan mig; en með am-
báttunum, sem þú talaðir um, — hjá þeim mun eg verða vegsamlegur.
[23] En Míkal, dóttir Sáls, var barnlaus til dauðadags.

---

**6, 1:** 1 Kron. 13, 5 n. **2:** Jós. 15, 9. 60. 1 Sam. 4, 4. **3:** 1 Sam. 7, 1. **6:** 1 Kron. 13, 9 n. **13:** 1 Kron. 15, 26 n. 1 Kong. 8, 5. **17:** 1 Kron. 16, 1 n. **18:** 1 Kong. 8, 55.

## Davíð veitt fyrirheit.

7 Og svo bar til, þá er konungur sat í höll sinni — en Jahve hafði
þá veitt honum frið fyrir öllum óvinum hans alt í kring — [2] að
konungur sagði við Natan spámann: Sjá, eg bý í höll af sedrusviði,
en örk Guðs býr undir tjalddúk. [3] Natan svaraði konungi: Far þú og
gjör alt, sem þér er í hug, því að Jahve er með þér. [4] En hina sömu
nótt kom orð Jahve til Natans, svohljóðandi: [5] Far og seg þjóni mínum
um Davíð: Svo segir Jahve: Ætlar þú að reisa mér hús til að búa í?
[6] Eg hefi ekki búið í húsi síðan er eg leiddi Ísraelsmenn út af Egipta-
landi alt fram á þennan dag, heldur ferðaðist eg í tjaldi og búð.
[7] Alla þá stund, er eg hefi um farið meðal allra Ísraelsmanna, hefi eg
þá sagt nokkurt orð í þá átt við nokkurn af dómurum Ísraels, þá er
eg setti til að vera hirða lýðs míns Ísraels: Hví reisið þér mér ekki
hús af sedrusviði? [8] Og nú skalt þú svo segja þjóni mínum Davíð:
Svo segir Jahve hersveitanna: Eg hefi tekið þig úr haglendinu frá
hjarðmenskunni og sett þig höfðingja yfir lýð minn Ísrael; [9] eg hefi verið
með þér í öllu, sem þú hefir tekið þér fyrir hendur, og upprætt alla
óvini þína fyrir þér; og eg mun gjöra nafn þitt sem nafn hinna mestu
manna, sem á jörðinni eru, [10] og fá lýð mínum Ísrael stað og gróður-
setja hann þar, svo að hann geti búið á sínum stað og geti verið ör-
uggur úr því, og til þess að níðingar þjái hann ekki framar eins og
áður, [11] frá því er eg setti dómara yfir lýð minn Ísrael, og eg vil veita
honum frið fyrir öllum óvinum hans; og Jahve boðar þér, að Jahve
muni reisa þér hús. [12] Þegar æfi þín er öll og þú legst hjá feðrum
þínum, mun eg hefja afspring þinn eftir þig, þann er frá þér kemur,
og staðfesta konungdóm hans. [13] Hann skal reisa hús mínu nafni, og
eg mun staðfesta konungsstól hans að eilífu. [14] Eg vil vera honum
faðir og hann skal vera mér sonur, svo að þótt honum yfirsjáist, þá
mun eg hirta hann með manna vendi og manns barna höggum, [15] en
miskunn mína mun eg ekki frá honum taka, eins og eg tók hana frá
fyrirrennara þínum. [16] Hús þitt og ríki skal stöðugt standa fyrir mér
að eilífu; hásæti þitt skal vera óbifanlegt að eilífu. [17] Natan flutti Davíð
öll þessi orð og sagði honum sýn þessa alla. [18] Þá gekk Davíð konungur
inn og settist niður frammi fyrir Jahve og mælti: Hver er eg, drottinn
Jahve, og hvað er hús mitt, að þú skulir hafa leitt mig til þessa?
[19] Og þér nægði það eigi, drottinn Jahve, heldur hefir þú og fyrirheit
gefið um hús þjóns þíns langt fram í aldir, og það meira að segja á
mannlegan hátt, drottinn Jahve. [20] En hvað má Davíð enn við þig
mæla? Þú þekkir sjálfur þjón þinn, drottinn Jahve! [21] Sakir þjóns
þíns og að þínum vilja hefir þú gjört þetta, að boða þjóni þínum alla
þessa miklu hluti. [22] Fyrir því ert þú mikill, Jahve Guð, því að enginn
er sem þú og enginn er Guð nema þú, samkvæmt öllu því, er vér
höfum heyrt með eyrum vorum. [23] Og hvaða þjóð önnur á jörðunni
jafnast við lýð þinn Ísrael, að Guð hafi farið og keypt sér hana að
eignarlýð, aflað henni frægðar og gjört fyrir þá mikla hluti og hræði-
lega: stökt burt undan lýð sínum annari þjóð og guði hennar? [24] En
þú hefir gjört lýð þinn Ísrael að þínum lýð um aldur og æfi, og þú,
Jahve, gjörðist Guð þeirra. [25] Og lát þú, Jahve Guð, fyrirheit það, er
þú hefir gefið um þjón þinn og um hús hans, stöðugt standa um aldur
og æfi, og gjör þú svo sem þú hefir heitið. [26] Þá mun nafn þitt mikið

---

**7, 1:** 1 Kron. 17, 1 n. **2:** kap. 5, 11. **6:** 1 Kong. 8, 16. **8:** 1 Sam. 16, 11—13. Sálm. 78, 70. **12:** 1 Kong. 8, 20. 1 Kron. 17, 11 n. **13:** 1 Kong. 5, 5; 6, 12. 1 Kron. 28, 6. 7. Sálm. 89, 4 n. **14:** 1 Kron. 22, 10. Sálm. 89, 27. Hebr. 1, 5. **15:** 1 Sam. 15, 26. **17:** 1 Kron. 17, 15 n. **18:** 1 Mós. 32, 10 n. **23:** 5 Mós. 4, 7. 34.

verða að eilífu og hljóða svo: Jahve hersveitanna, Guð yfir Ísrael — og hús þjóns þíns Davíðs mun stöðugt standa fyrir þér. 27 Því að þú, Jahve hersveitanna, Guð Ísraels, hefir birt þjóni þínum þetta: Eg mun reisa þér hús — fyrir því hafði þjónn þinn djörfung til að bera þessa bæn fram fyrir þig. 28 Og nú, drottinn Jahve, þú ert Guð og þín orð eru sannleiki, og þú hefir gefið þjóni þínum þetta dýrlega fyrirheit, 29 virzt þú nú að blessa hús þjóns þíns, svo að það sé til að eilífu fyrir þínu augliti. Því að þú, drottinn Jahve, hefir fyrirheit gefið og fyrir blessun þína mun hús þjóns þíns blessað verða að eilífu.

## Sigurvinningar Davíðs.

8 Eftir þetta vann Davíð sigur á Filistum og braut þá undir sig; og tók Davíð tauma höfuðstaðarins úr höndum Filista. 2 Hann vann og sigur á Móabítum og mældi þá með vað, það er að segja: hann lét þá leggjast niður á jörðina og mældi tvo vaði til lífláts og eina vaðlengd til að halda lífi. Þannig urðu Móabítar skattskyldir þegnar Davíðs. 3 Davíð vann og sigur á Hadadeser Rehóbssyni, konungi í Zóba, þá er hann fór leiðangur til að ná aftur ríki við Fljótið. 4 Vann Davíð af honum eitt þúsund og sjö hundruð riddara og tuttugu þúsundir fótgönguliðs. Lét Davíð skera sundur hásinarnar á öllum vagnhestunum og hélt aðeins hundrað hestum eftir af þeim. 5 Og er Sýrlendingar frá Damaskus komu til liðs við Hadadeser, konung í Zóba, þá feldi Davíð tuttugu og tvö þúsund manns af Sýrlendingum. 6 Og Davíð setti landstjóra á Sýrlandi, því er kent er við Damaskus, og urðu Sýrlendingar skattskyldir þegnar Davíðs. Þannig veitti Jahve Davíð sigur, hvert sem hann fór. 7 Davíð tók og hina gullnu skjöldu, er þjónar Hadadesers höfðu borið, og flutti þá til Jerúsalem. 8 Auk þess tók Davíð konungur afarmikið af eir í Teba og Berótaj, borgum Hadadesers. 9 En er Tóú, konungur í Hamat, frétti að Davíð hefði lagt að velli allan her Hadadesers, 10 þá sendi Tóú Hadóram son sinn á fund Davíðs konungs, til þess að heilsa á hann og árna honum heilla, er hann hafði barist við Hadadeser og unnið sigur á honum — því að Tóú átti í ófriði við Hadadeser —, og hafði hann með sér gripi af silfri, gulli og eiri. 11 Þá helgaði Davíð konungur einnig Jahve, ásamt silfri því og gulli, er hann hafði helgað frá öllum þeim þjóðum, er hann hafði undirokað: 12 frá Edóm, Móab, Ammónítum, Filistum, Amalek og af herfangi Hadadesers Rehóbssonar, konungs í Zóba. 13 Og Davíð jók orðstír sinn*, þá er hann sneri aftur og hafði unnið sigur á Sýrlendingum, með því að vinna sigur á Edómítum í Saltdalnum, átján þúsundum manns. 14 Og hann setti landstjóra í Edóm; um alt Edóm setti hann landstjóra, og þannig urðu allir Edómítar þegnar Davíðs. En Jahve veitti Davíð sigur, hvert sem hann fór. 15 Og Davíð ríkti yfir öllum Ísrael og lét alla þjóð sína njóta laga og réttar. 16 En Jóab Zerújuson var fyrir hernum og Jósafat Ahílúðsson var sagnameistari; 17 Zadók Ahítúbsson og Ahímelek Abjatarsson voru prestar og Seraja kanslari; 18 en Benaja Jójadason var fyrir Kretum og Pletum*, og synir Davíðs voru prestar.

## Veglyndi Davíðs við Mefíbóset.

9 Og Davíð sagði: Er nú nokkur maður eftir orðinn af húsi Sáls? Honum vil eg miskunn auðsýna fyrir sakir Jónatans. 2 En af húsi

---

**8, 1:** 1 Kron. 18, 1 n. **2:** 4 Mós. 24, 17. **3:** 1 Sam. 14, 47. **4:** Jós. 11, 6. **13:** * Frumtextinn mjög óljós. **16:** kap. 20, 23 n. **18:** * Þ. e. fyrir lífverði konungs. — **9, 1:** 1 Sam. 20, 15.

Sáls var til maður, er Zíba hét. Hann var kallaður á fund Davíðs.
Og konungur sagði við hann: Ert þú Zíba? Og hann svaraði: Þinn
þjónn! [3] Þá mælti konungur: Er nokkur eftir af húsi Sáls, að eg
megi auðsýna honum miskunn Guðs? Og Zíba sagði við konung: Enn
er á lífi sonur Jónatans og er lami á báðum fótum. [4] Þá sagði kon-
ungur við hann: Hvar er hann? Og Zíba sagði við konung: Hann er
í húsi Makírs Ammíelssonar í Lódebar. [5] Þá sendi Davíð konungur
og lét sækja hann í hús Makírs Ammíelssonar í Lódebar. [6] Og Mefí-
bóset Jónatansson, Sálssonar, gekk fyrir Davíð, féll fram á ásjónu sína
og laut honum. Og Davíð sagði: Mefíbóset! Og hann svaraði: Hér
er þjónn þinn. [7] Þá mælti Davíð til hans: Ver þú óhræddur, því að
eg vil auðsýna þér miskunn fyrir sakir Jónatans, föður þíns, og fá þér
aftur allar jarðeignir Sáls forföður þíns, og þú skalt jafnan eta við mitt
borð. [8] Þá laut hinn og mælti: Hvað er þjónn þinn þess, að þú skiftir
þér af dauðum hundi, eins og mér? [9] Síðan kallaði konungur á Zíba,
þjón Sáls, og mælti til hans: Alt, sem Sál átti, og alt, sem hús hans
átti, gef eg syni herra þíns. [10] Skalt þú nú yrkja landið fyrir hann,
ásamt sonum þínum og þrælum, og hirða af því, svo að sonur herra
þíns hafi fæðu og megi eta. En Mefíbóset, sonur herra þíns, skal
jafnan eta við mitt borð. Og Zíba átti fimtán sonu og tuttugu þræla.
[11] Og Zíba sagði við konung: Þjónn þinn mun gjöra að öllu svo sem
minn herra konungurinn hefir boðið þjóni sínum. Og Mefíbóset át við
borð Davíðs, svo sem væri hann einn konungssona. [12] En Mefíbóset
átti ungan son, sem Míka hét; og allir, sem bjuggu í húsi Zíba, voru
þjónar Mefíbósets. [13] En Mefíbóset bjó í Jerúsalem, því að hann át
jafnan við borð konungs; en hann var haltur á báðum fótum.

**Davíð á í ófriði við Ammóníta og Sýrlendinga.**

10 Eftir þetta bar svo til, að konungur Ammóníta dó, og tók
Hanún sonur hans ríki eftir hann. [2] Þá sagði Davíð: Eg vil
sýna Hanún Nahassyni vináttu, eins og faðir hans sýndi mér vináttu.
Síðan sendi Davíð þjóna sína til að hugga hann eftir föðurmissinn.
En er þjónar Davíðs komu í land Ammóníta, [3] þá sögðu höfðingjar
Ammóníta við Hanún, herra sinn: Hyggur þú að Davíð vilji heiðra föður
þinn, er hann gjörir menn á þinn fund, til að hugga þig? Mun Davíð
ekki hafa sent þjóna sína á þinn fund, til þess að njósna í borginni
og kanna hana og kollvarpa henni síðan? [4] Þá lét Hanún taka þjóna
Davíðs og raka af þeim hálft skeggið og skera af þeim klæðin til hálfs,
upp á þjóhnappa, og lét þá síðan fara. [5] Davíð voru sögð þessi tíð-
indi, og sendi hann þá á móti þeim — því að mennirnir voru mjög
svívirtir — og konungur lét segja þeim: Verið í Jeríkó, unz skegg yðar
er vaxið, og komið síðan heim aftur.

[6] En er Ammónítar sáu, að þeir höfðu gjört sig illa þokkaða hjá
Davíð, sendu þeir menn og tóku á mála Sýrlendinga frá Bet-Rehób og
Sýrlendinga frá Zóba, tuttugu þúsundir fótgönguliðs, svo og konunginn
í Maaka með þúsund manns og tólf þúsund manns frá Tób. [7] En er
Davíð frétti það, sendi hann Jóab af stað með allan herinn, það er að
segja: kappana. [8] Ammónítar fóru og út og fylktu liði sínu fyrir utan
borgarhliðið, en Sýrlendingarnir frá Zóba og Rehób, svo og mennirnir
frá Tób og Maaka, stóðu úti á víðavangi einir sér. [9] En er Jóab sá,
að honum var búinn bardagi bæði að baki og að framan, valdi hann

---

**3:** kap. 4, 4. **8:** 1 Sam. 24, 15. **10:** kap. 19, 17. **11:** kap. 19, 28. — **10, 1:** 1 Kron. 19, 1 n. **6:** Dóm. 11, 3.

úr öllu einvalaliði Ísraels og fylkti því á móti Sýrlendingum. [10] Hitt
liðið fékk hann Abísaí bróður sínum, og fylkti hann því á móti Ammónítum.
[11] Og Jóab mælti: Ef Sýrlendingar bera mig ofurliði, þá
verður þú að hjálpa mér; en ef Ammónítar bera þig ofurliði, þá mun
eg koma þér til hjálpar. [12] Vertu hughraustur, og sýnum nú af oss
karlmensku fyrir þjóð vora og borgir Guðs vors — en Jahve gjöri það,
sem honum þóknast. [13] Síðan lagði Jóab og liðið, sem með honum var,
til orustu við Sýrlendinga, og þeir flýðu fyrir honum. [14] En er Ammónítar
sáu, að Sýrlendingar flýðu, lögðu þeir og á flótta fyrir Abísaí og
leituðu inn í borgina. En Jóab sneri heim frá Ammónítum og fór til
Jerúsalem.

[15] En er Sýrlendingar sáu, að þeir höfðu beðið ósigur fyrir Ísrael,
söfnuðust þeir saman. [16] Og Hadadeser sendi og bauð út Sýrlendingum,
sem voru hinumegin við Fljótið, og þeir komu til Helam; og Sóbak,
hershöfðingi Hadadesers, var fyrir þeim. [17] Og er Davíð var sagt frá
því, þá safnaði hann saman öllum Ísrael, fór yfir Jórdan og kom til
Helam. Sýrlendingar fylktu liði sínu í móti Davíð og börðust við hann.
[18] En Sýrlendingar flýðu fyrir Ísrael og Davíð feldi sjö hundruð vagnhesta
og fjörutíu þúsund manns af Sýrlendingum; hann særði og hershöfðingja
þeirra Sóbak, svo að hann dó þar. [19] En er konungarnir,
sem voru lýðskyldir Hadadeser, sáu, að þeir höfðu beðið ósigur fyrir
Ísrael, sömdu þeir allir frið við Ísrael og gjörðust lýðskyldir honum.
Upp frá því þorðu Sýrlendingar ekki að veita Ammónítum lið.

## Davíð og Batseba.

11 Svo bar til árið eftir, um það leyti sem konungar eru vanir að
fara í hernað, að Davíð sendi Jóab af stað með menn sína og
allan Ísrael; og þeir herjuðu á Ammóníta og settust um Rabba; en
Davíð sat heima í Jerúsalem. [2] Nú vildi svo til eitt kveld, að Davíð
reis upp úr hvílu sinni og fór að ganga um gólf uppi á þaki konungshallarinnar;
sá hann þá ofan af þakinu konu vera að lauga sig; en
konan var forkunnar fögur. [3] Þá sendi Davíð og spurðist fyrir um
konuna, og honum var sagt: Það er Batseba Elíamsdóttir, kona Úría
Hetíta. [4] Og Davíð sendi menn og lét sækja hana. Og hún kom til
hans og hann lagðist með henni, því að hún hafði hreinsað sig af óhreinleika
sínum; síðan fór hún aftur heim til sín.

[5] En konan var þunguð orðin; og hún sendi og lét Davíð vita það
og mælti: Eg er með barni. [6] Davíð gjörði þá Jóab boð: Sendu
Úría Hetíta til mín. Og Jóab sendi Úría til Davíðs. [7] En er Úría kom
á hans fund, spurði Davíð, hvernig Jóab liði og hvernig honum liði
og hvernig hernaðurinn gengi. [8] Því næst sagði Davíð við Úría: Gakk
þú nú heim til þín og lauga fætur þína. Gekk Úría þá burt úr konungshöllinni
og var gjöf frá konungi borin á eftir honum. [9] En Úría
lagðist til hvíldar fyrir dyrum konungshallarinnar hjá öðrum þjónum
herra síns, en fór ekki heim til sín. [10] Menn sögðu Davíð frá því og
mæltu: Úría er ekki farinn heim til sín. Þá sagði Davíð við Úría:
Þú ert kominn úr ferð — hvers vegna fer þú ekki heim til þín? [11] Þá
sagði Úría við Davíð: Örkin og Ísrael og Júda búa í laufskálum og
herra minn Jóab og menn herra míns hafast við úti á bersvæði — og
þá ætti eg að fara heim til mín, til þess að eta og drekka og hvíla hjá
konu minni? Svo sannarlega sem Jahve lifir og þú lifir, það gjöri eg
ekki. [12] Þá sagði Davíð við Úría: Vertu þá hér líka í dag, en á morgun

---

**11, 1:** kap. 12, 26. 1 Kron. 20, 1. **4:** 3 Mós. 15, 19.

gef eg þér fararleyfi. Var Úría þann dag í Jerúsalem. [13] Daginn eftir
hafði Davíð hann í boði sínu, og hann át og drakk með honum, og
hann gjörði hann drukkinn. En um kveldið gekk hann burt og lagðist
til hvíldar hjá þjónum herra síns, en fór ekki heim til sín.
[14] Morguninn eftir skrifaði Davíð Jóab bréf og sendi það með Úría.
[15] Í bréfinu skrifaði hann svo: Setjið Úría fremstan í bardagann, þar
sem hann er harðastur, og hörfið aftur undan frá honum, svo að hann
verði ofurliði borinn og falli. [16] Jóab sat um borgina og skipaði nú
Úría þar til orustu, sem hann vissi að hraustir menn voru fyrir.
[17] Gjörðu borgarmenn síðan úthlaup og börðust við Jóab; féllu þá nokk-
urir af liðinu, af þjónum Davíðs; þá lét og Úría Hetíti líf sitt. [18] Þá
sendi Jóab og lét segja Davíð, hvernig farið hefði í orustunni, [19] og
hann lagði svo fyrir sendimanninn: Þegar þú hefir sagt konungi sem
greinilegast frá bardaganum, [20] og konungur þá verður reiður og segir
við þig: Hví fóruð þér svo nærri borginni í orustu? vissuð þér ekki
að þeir mundu skjóta á yður ofan af borgarveggnum? [21] Hver feldi
Abímelek Jerúbbesetsson? Kastaði ekki kona kvarnarsteini á hann
ofan af borgarveggnum, svo að hann dó í Tebez? Hví fóruð þér svo
nærri borgarveggnum? — þá skalt þú segja: Þjónn þinn, Úría Hetíti,
lét og lífið. [22] Síðan fór sendimaðurinn og kom og flutti Davíð alt,
sem Jóab hafði fyrir hann lagt, hvernig farið hefði í orustunni; varð
þá Davíð reiður Jóab og sagði við sendimanninn: Hví fóruð þér svo
nærri borginni í orustu? vissuð þér ekki að það mundi verða kastað
á yður ofan af borgarveggnum? Hver feldi Abímelek Jerúbbesetsson?
Kastaði ekki kona kvarnarsteini á hann ofan af borgarveggnum, svo að
hann dó í Tebez? Hví fóruð þér svo nærri borgarveggnum? [23] Þá
sagði sendimaðurinn við Davíð: Mennirnir voru oss yfirsterkari og voru
komnir í móti oss út á bersvæði; fyrir því urðum vér að sækja að
þeim alt að borgarhliðinu. [24] En þá skutu skotmennirnir á þjóna þína
niður af borgarveggnum, og féllu þá nokkurir af mönnum konungs og
þjónn þinn, Úría Hetíti, lét og lífið. [25] Þá sagði Davíð við sendimann-
inn: Svo skalt þú segja Jóab: Láttu þetta ekki á þig fá, því að sverðið
verður ýmist þessum eða hinum að bana; sæk þú vasklega að borg-
inni og brjót hana — og teldu þannig hug í hann. [26] En er kona Úría
frétti, að maður hennar Úría var fallinn, harmaði hún bónda sinn.
[27] En þegar sorgardagarnir voru liðnir, sendi Davíð og tók hana heim
til sín, og hún varð kona hans og fæddi honum son. En Jahve mis-
líkaði það, sem Davíð hafði gjört.

## Natan kveður upp dóm sinn.

12 Og Jahve sendi Natan til Davíðs, og hann kom til hans og
sagði við hann: Tveir menn voru í sömu borg; annar var ríkur,
hinn fátækur. [2] Hinn ríki átti fjölda sauða og nauta, [3] en hinn fátæki
átti ekki nema eitt gimbrarlamb, sem hann hafði keypt og alið, og það
óx upp hjá honum og með börnum hans; það át af mat hans og
drakk af bikar hans og svaf við brjóst hans og var eins og dóttir hans.
[4] Þá kom gestur til ríka mannsins, og hann tímdi ekki að taka neinn
af sauðum sínum eða nautum, til þess að matreiða fyrir ferðamanninn,
sem til hans var kominn, heldur tók gimbrarlamb fátæka mannsins og
matbjó það fyrir manninn, sem kominn var til hans. [5] Þá reiddist
Davíð manninum ákaflega og sagði við Natan: Svo sannarlega sem
Jahve lifir: sá maður, sem slíkt hefir aðhafst, er dauða sekur; [6] og
lambið skal hann borga sjöfaldlega, fyrst hann gjörði slíkt og hafði

**21:** Dóm. 9, 53. — **12, 6:** 2 Mós. 22, 1.

enga meðaumkun. 7 En Natan sagði við Davíð: Þú ert maðurinn!
Svo segir Jahve, Ísraels Guð: Eg hefi smurt þig til konungs yfir Ísrael,
og eg hefi frelsað þig af hendi Sáls, 8 og eg gaf þér hús herra þíns og
lagði konur herra þíns upp að brjósti þér, og eg hefi fengið þér Ísraels
hús og Júda — og hefði það verið of lítið, mundi eg hafa bætt ein-
hverju við þig. 9 Hví hefir þú fyrirlitið orð Jahve með því að aðhafast
það, sem honum mislíkar? Úría Hetíta hefir þú felt með sverði og
konu hans hefir þú tekið þér fyrir konu, en sjálfan hann hefir þú myrt
með sverði Ammóníta. 10 Fyrir því skal sverðið aldrei víkja burt frá
húsi þínu, sakir þess að þú fyrirleizt mig og tókst konu Úría Hetíta
þér fyrir konu. 11 Svo segir Jahve: Sjá, eg læt ólán koma yfir þig frá
húsi þínu og tek konur þínar fyrir augunum á þér og gef þær öðrum
manni, svo að hann hvíli hjá konum þínum framan í þessari sól.
12 Því að þú hefir gjört þetta með launung, en eg mun framkvæma
þetta í augsýn alls Ísraels og í augsýn sólarinnar. 13 Þá sagði Davíð
við Natan: Eg hefi syndgað móti Jahve. Og Natan sagði við Davíð:
Jahve hefir og fyrirgefið þér synd þína; þú munt ekki deyja. 14 En
sakir þess að þú hefir smánað Jahve* með athæfi þínu, þá skal sá
sonur, sem þér er fæddur, vissulega deyja.

15 Síðan fór Natan heim til sín. En Jahve sló barnið, sem kona
Úría hafði fætt Davíð, svo að það varð sjúkt. 16 Og Davíð leitaði Guðs
vegna sveinsins og Davíð fastaði, og er hann kom heim, lagðist hann
*til* svefns á gólfinu um nóttina. 17 Þá gengu elztu mennirnir í húsi
hans til hans, til þess að fá hann til að rísa upp af gólfinu; en hann
vildi það ekki og neytti ekki matar með þeim. 18 En á sjöunda degi
dó barnið. Og þjónar Davíðs þorðu ekki að segja honum, að barnið
væri dáið, því að þeir hugsuðu með sér: Sjá, meðan barnið lifði, töl-
uðum vér við hann, en hann anzaði oss ekki; hvernig ættum vér þá
nú að segja við hann: Barnið er dáið! Hann kynni að fremja voða-
verk? 19 En Davíð sá, að þjónar hans voru að hvísla hver að öðrum,
og skildi Davíð þá, að barnið væri dáið. Og Davíð sagði við þjóna
sína: Er barnið dáið? og þeir sögðu: Já, það er dáið. 20 Þá stóð Davíð
upp af gólfinu, laugaðist og smurði sig og hafði klæðaskifti. Síðan
gekk hann í hús Jahve og baðst fyrir og fór því næst heim til sín og
bað um mat; var honum þá borinn matur, og hann neytti. 21 Þá sögðu
þjónar hans við hann: Hvað er þetta, sem þú hefir gjört? Meðan
barnið lifði, fastaðir þú og grézt vegna þess, en þegar barnið var dáið,
stóðst þú upp og mataðist? 22 Hann svaraði: Meðan barnið var á lífi,
fastaði eg og grét, því að eg hugsaði: Hver veit nema Jahve miskunni
mér, og barnið fái að lifa. 23 En fyrst það er nú dáið, hvers vegna
ætti eg þá að fasta? Mun eg geta látið það hverfa aftur? Eg fer til
þess, en það kemur eigi aftur til mín. 24 Og Davíð huggaði Batsebu
konu sína, og hann gekk inn til hennar og lagðist með henni, og hún
ól son, og hann nefndi hann Salómó og Jahve elskaði hann. 25 Og
hann fékk hann í hendur Natan spámanni og nefndi hann Jedídjah
vegna Jahve.

### Rabba unnin og Ammónítum hegnt.

26 En Jóab herjaði á Rabba, borg Ammóníta, og vann lág-borgina.
27 Og Jóab gjörði menn til Davíðs og sagði: Eg hefi herjað á Rabba og
þegar unnið lág-borgina. 28 Safna nú saman því sem eftir er af liðinu

**7:** 1 Sam. 16, 1. 13. **11:** kap. 16, 22. **13:** kap. 24, 10. Sálm. 51, 2 n. **14:** * Texta-breyting, í stað »óvini Jahve«, sbr. 1 Sam. 25, 22. **24:** 1 Kron. 22, 9. **26:** kap. 11, 1. 1 Kron. 20, 1 n.

og sezt um borgina og vinn hana, svo að eg vinni ekki borgina og hún
verði ekki kend við mig. 29 Þá safnaði Davíð saman öllu liðinu og
fór til Rabba og herjaði á hana og vann hana. 30 Hann tók kórónu
Milkóms af höfði honum; hún vó talentu gulls og í henni var dýrindis
steinn; Davíð setti hana á höfuð sér og flutti mjög mikið herfang burt
úr borginni. 31 Hann flutti og burt fólkið, sem þar var, og setti það
við sagirnar, járnfleygana og járnaxirnar og lét það vinna að tiglgerð í
mótum. Svo fór hann með allar borgir Ammóníta. Síðan fór Davíð
ásamt öllu liðinu aftur heim til Jerúsalem.

## Frá Amnon, Tamar og Absalóm.

13 Nú segir frá því, að Absalóm sonur Davíðs átti fríða systur,
sem hét Tamar, og Amnon sonur Davíðs feldi hug til hennar.
2 Og Amnon píndist svo, að hann varð sjúkur út af Tamar systur sinni;
því að hún var mey, og Amnon virtist eigi unt að gjöra henni neitt.
3 En Amnon átti vin, sem Jónadab hét, sonur Símea, bróður Davíðs;
og Jónadab þessi var mjög kænn maður. 4 Og hann sagði við hann:
Hví megrast þú svo, konungsson, dag frá degi? viltu ekki segja mér
það? Og Amnon sagði við hann: Eg felli hug til Tamar, systur Absal-
óms bróður míns. 5 Þá sagði Jónadab við hann: Legst þú í rekkju
og lát sem þú sért sjúkur, og þegar faðir þinn kemur til þess að vitja
um þig, þá skaltu segja við hann: Lát Tamar systur mína koma og
gefa mér að eta; ef hún byggi til matinn fyrir augum mér, svo að eg
gæti horft á, þá mundi eg eta úr hendi hennar. 6 Síðan lagðist Amnon
og lézt vera sjúkur. En er konungur kom að vitja um hann, sagði
Amnon við konung: Lát Tamar systur mína koma og gjöra tvær kökur
að mér áhorfandi, svo að eg megi eta þær úr hendi hennar. 7 Þá sendi
Davíð heim til Tamar og lét segja henni: Far þú í hús Amnons bróður
þíns og matreið handa honum. 8 Þá gekk Tamar í hús Amnons bróður
síns, en hann lá í rúminu. Og hún tók deig og hnoðaði og gjörði úr því
kökur að honum áhorfandi og bakaði kökurnar. 9 Og hún tók pönn-
una og steypti úr henni frammi fyrir honum, en hann vildi ekki eta.
Og Amnon mælti: Látið alla ganga út frá mér. Og allir gengu út frá
honum. 10 Þá sagði Amnon við Tamar: Kom þú með matinn inn í
svefnhúsið, svo að eg megi eta úr hendi þinni. Og Tamar tók kök-
urnar, sem hún hafði gjört, og færði Amnon bróður sínum inn í svefn-
húsið. 11 En er hún rétti honum þær að eta, þreif hann til hennar og
sagði við hana: Kom þú og legst með mér, systir mín! 12 En hún
sagði við hann: Nei, bróðir minn, svívirð mig eigi, því að slíkt við-
gengst ekki í Ísrael. Frem þú eigi slíka óhæfu. 13 Og hvað ætti eg
af mér að gjöra með vansæmd mína? Og þú mundir talinn eitt hið
versta varmenni í Ísrael. Tala þú heldur við konung, því að hann
mun ekki synja þér um mig. 14 En hann vildi ekki hlýða orðum henn-
ar, heldur lét hana kenna aflsmunar og nauðgaði henni og lagðist með
henni. 15 En síðan fékk Amnon mjög mikla óbeit á henni, svo að hin
mikla óbeit, er hann hafði á henni, var meiri en ástin, sem hann hafði
haft á henni. Og Amnon sagði við hana: Statt upp og haf þig á burt.
16 Þá sagði hún við hann: Nei, bróðir minn, því að þetta væri enn
meira vonzkuverk en það, er þú hefir á mér framið, að senda mig nú
burt. En hann vildi ekki hlýða orðum hennar. 17 Og hann kallaði á
svein sinn, er þjónaði honum, og mælti: Komið þessari burt frá mér
út á götuna, og lokaðu dyrunum á eftir henni. 18 En hún var í drag-

**13, 1:** kap. 3, 2 n. **3:** 1 Kron. 2, 13. **12:** 3 Mós. 18, 9; 20, 17.

kyrtli — því að svo voru fyrrum konungsdætur klæddar, meðan þær
voru meyjar. Og þjónn hans fór með hana út á götuna og lokaði
dyrunum á eftir henni. [19] Þá jós Tamar mold yfir höfuð sér og reif
sundur dragkyrtilinn, sem hún var í; lagði síðan hönd á höfuð sér og
gekk hljóðandi burt. [20] Og Absalóm bróðir hennar sagði við hana:
Hefir Amnon bróðir þinn verið hjá þér? Og þegi þú nú, systir mín,
hann er bróðir þinn. Láttu þetta ekki á þig fá. Og Tamar dvaldi
ein og yfirgefin í húsi Absalóms bróður síns. [21] Og er Davíð konungur
frétti alt þetta, varð hann reiður mjög, en hann vildi eigi hryggja
Amnon son sinn, því að hann elskaði hann, af því að hann var frum-
getningur hans. [22] En Absalóm mælti eigi orð við Amnon, hvorki ilt
né gott; því að Absalóm hataði Amnon fyrir það, að hann hafði svi-
virt Tamar systur hans.
[23] Tveimur árum síðar bar svo við, að Absalóm lét klippa sauði
sína í Baal-Hazór, sem er hjá Efraím, og bauð Absalóm til öllum
sonum konungs. [24] Absalóm gekk og fyrir konung og mælti: Sjá,
þjónn þinn lætur nú klippa sauði sína, og bið eg að konungurinn og
þjónar hans komi með þjóni þínum. [25] En konungur sagði við Absal-
óm: Nei, sonur minn, eigi skulum vér allir fara, svo að vér gjörum
þér eigi átroðning. Og þótt hann legði að honum, vildi hann ekki
fara, en bað hann vel fara. [26] Þá sagði Absalóm: Fyrst þú vilt ekki
fara, þá leyf þú að Amnon bróðir minn fari með oss. Konungur svar-
aði honum: Hví skal hann með þér fara? [27] En Absalóm lagði fast að
honum; lét hann þá Amnon fara með honum og alla konungssonu.
Og Absalóm gjörði veizlu, svo sem konungsveizla væri. [28] Og Absalóm
lagði svo fyrir sveina sína: Gefið gætur, þegar Amnon gjörist hreifur
af víninu og eg segi við yður: Drepið Amnon! — þá skuluð þér vega
hann. Óttist ekki, það er eg, sem lagt hefi þetta fyrir yður; verið hug-
rakkir og sýnið karlmensku. [29] Og sveinar Absalóms gjörðu svo við
Amnon, sem Absalóm hafði fyrir þá lagt. Þá spruttu allir synir kon-
ungs upp, stigu á bak múlum sínum og flýðu. [30] En meðan þeir voru
á leiðinni, kom sú fregn til konungs, að Absalóm hefði drepið alla
sonu konungs, og að enginn þeirra væri eftir skilinn. [31] Þá stóð kon-
ungur upp og reif sundur klæði sín og lagðist á jörðu, og allir þjónar
hans, þeir er stóðu umhverfis hann, rifu sundur klæði sín. [32] Þá tók
Jónadab, sonur Símea, bróður Davíðs, til máls og sagði: Herra minn,
hugsa þú ekki, að þeir hafi drepið alla hina ungu menn, sonu kon-
ungsins, því að Amnon einn er dauður; enda vissi á ilt svipurinn, sem
legið hefir um munn Absalóms, síðan er Amnon nauðgaði Tamar systur
hans. [33] Minn herra konungurinn láti þetta því eigi á sig fá og hugsi
ekki, að allir synir konungsins séu dauðir; nei, Amnon einn er dauður.
[34] En Absalóm flýði. En er varðsveininum varð litið upp, sá hann
margt manna koma ofan fjallið á veginum til Hórónaím. Varðmaður-
inn kom og sagði konungi frá og mælti: Eg sá menn koma af vegin-
um til Hórónaím niður undan fjallinu. [35] Þá sagði Jónadab við kon-
ung: Sjá, þar koma synir konungsins; svo hefir alt til gengið, sem
þjónn þinn sagði. [36] Og er hann hafði lokið máli sínu, sjá, þá komu
synir konungs og grétu hástöfum; konungur og þjónar hans tóku þá
og að gráta ákaflega. [37] En Absalóm flýði og fór til Talmaí Ammí-
húðssonar konungs í Gesúr. Og konungur harmaði son sinn alla daga.
[38] Og Absalóm flýði og fór til Gesúr og var þar í þrjú ár.

---

**19:** Jer. 2, 37. **32:** v. 3. **37:** kap. 3, 3.

**Absalóm kemst aftur í sátt.**

39 En konungur þráði að fara til Absalóms, því að hann hafði
huggast látið yfir því, að Amnon var dáinn.
14 Og er Jóab Zerújuson sá, að Absalóm var konungi enn hjart-
fólginn, 2 þá sendi Jóab til Tekóa og lét sækja þangað vitra konu
og sagði við hana: Þú skalt láta sem þú sért harmþrungin og klæðast
sorgarbúningi; smyr þig ekki með olíu, heldur vertu eins og kona, er
um langan tíma hefir syrgt látinn mann. 3 Gakk síðan fyrir konung
og mæl til hans á þessa leið: — og Jóab lagði henni orð í munn.
4 Síðan gekk konan frá Tekóa fyrir konung, féll fram á ásjónu sína
til jarðar og sýndi honum lotningu og mælti: Hjálpa mér, konungur!
5 Og konungur sagði við hana: Hvað gengur að þér? Hún svaraði:
Æ, eg er ekkja og maður minn er dáinn. 6 Og ambátt þín átti tvo
sonu; þeir urðu missáttir úti á akri og enginn var til að skilja þá;
laust þá annar þeirra bróður sinn og drap hann. 7 Sjá, þá reis öll ættin
upp á móti ambátt þinni og sagði: Sel fram bróðurmorðingjann, og
munum vér drepa hann fyrir líf bróður hans, er hann myrti, og tor-
tíma erfingjanum um leið. Og þann veg vilja þeir slökkva þann neista,
sem mér er eftir skilinn, svo að maðurinn minn láti hvorki eftir sig
nafn né niðja á jörðunni. 8 Og konungur sagði við konuna: Far þú
heim til þín; skipa mun eg fyrir um mál þitt. 9 En konan frá Tekóa
sagði við konunginn: Á mér hvíli sektin, minn herra konungur, og á
ættfólki mínu, en konungurinn sé sýkn saka og hásæti hans. 10 Þá
sagði konungur: Ef einhver segir eitthvað við þig, þá kom þú með
hann til mín, og skal hann eigi framar áreita þig. 11 Þá mælti hún:
Minstu, konungur! Jahve, Guðs þíns, svo að hefnandinn gjöri ekki enn
meira tjón og þeir tortími ekki syni mínum. Hann svaraði: Svo sann-
arlega sem Jahve lifir, skal ekki eitt hár sonar þíns falla til jarðar.
12 Þá mælti konan: Leyf þú ambátt þinni að tala eitt orð við þig, minn
herra konungur! Hann svaraði: Tala þú. 13 Þá mælti konan: Hvers
vegna hefir þú slíkt í hyggju gegn Guðs lýð? Og fyrst konungurinn
hefir kveðið upp þennan dóm, þá er hann sem sekur maður, þar sem
hann lætur ekki útlaga sinn hverfa heim aftur. 14 Því að deyja hljótum
vér, og vér erum eins og vatn, sem helt er á jörðina og eigi verður
náð upp aftur, og Guð hrífur eigi burt líf þess manns, sem á það hyggur,
að láta ekki útlagann vera lengur útskúfaðan frá sér. 15 En fyrir því
er eg komin, til þess að tala þessi orð við minn herra konunginn, að
fólkið gjörði mig hrædda; þá hugsaði ambátt þín með sér: Eg skal
tala við konunginn; má vera að konungurinn gjöri bón ambáttar
sinnar. 16 Því að konungurinn mun gjöra þá bón ambáttar sinnar, að
frelsa hana af hendi mannsins, sem leitast við að afmá bæði mig og
son minn úr arfleifð Guðs. 17 Þá hugsaði þerna þín með sjálfri sér:
Orð míns herra konungsins skulu verða mér til fróunar; því að minn
herra konungurinn líkist í því engli Guðs, að hann hlýðir á gott og ilt;
og Jahve, Guð þinn, sé með þér. 18 Þá svaraði konungur og sagði við
konuna: Leyn þú mig engu, er eg vil spyrja þig. Konan svaraði:
Tala þú, minn herra konungur! 19 Þá mælti konungur: Er ekki Jóab
í ráðum með þér um alt þetta? Konan svaraði og sagði: Svo sannar-
lega sem þú lifir, minn herra konungur, er eigi unt að fara utan um
nokkuð af því, sem minn herra konungurinn hefir sagt, hvorki til
hægri né vinstri handar; það var einmitt þjónn þinn Jóab, sem bauð
mér þetta, og hann lagði þernu þinni öll þessi orð í munn. 20 Jóab
þjónn þinn hefir gjört þetta, til þess að láta málið líta öðru vísi út;

**14, 17:** kap. 19, 27. 1 Sam. 29, 9.

en herra minn jafnast við engil Guðs að vizku, svo að hann veit alt,
sem við ber á jörðunni. 21 Þá sagði konungur við Jóab: Gott og vel,
eg skal gjöra það; far þú og sæk þú sveininn Absalóm. 22 Þá féll
Jóab fram á andlit sitt til jarðar og laut konungi og kvaddi hann.
Og Jóab mælti: Nú veit þjónn þinn, að eg hefi fundið náð í augum
míns herra konungsins, þar sem konungurinn hefir látið að orðum
þjóns síns. 23 Síðan lagði Jóab af stað og fór til Gesúr og hafði Absal-
óm aftur heim með sér til Jerúsalem. 24 En konungur sagði: Fari
hann heim til sín, en fyrir mín augu skal hann ekki koma. Þá fór
Absalóm heim til sín, og kom ekki fyrir augu konungs.
25 En í öllum Ísrael var enginn maður eins fríður og Absalóm,
og fór mikið orð af því; frá hvirfli til ilja voru engin lýti á honum.
26 Og þegar hann lét skera hár sitt — en hann lét jafnan skera það á
árs fresti, af því að það varð honum svo þungt, að hann hlaut að láta
skera það —, þá vó hárið af höfði hans tvö hundruð sikla silfurs á
konungsvog. 27 Og Absalóm fæddust þrír synir og ein dóttir, er Tamar
hét; hún var kona fríð sýnum.
28 Absalóm var svo tvö ár í Jerúsalem, að hann kom ekki fyrir
augu konungs. 29 Þá sendi Absalóm til Jóabs þess erindis, að senda hann
til konungs, en hann vildi ekki koma til hans; sendi hann þá í annað
sinn, en hann vildi ekki koma. 30 Þá sagði hann við þjóna sína: Sjáið,
Jóab á akur áfastan við minn og þar hefir hann bygg; farið og kveikið
í honum. Og þjónar Absalóms kveiktu í akrinum. 31 Þá fór Jóab af
stað og kom í hús Absalóms og sagði við hann: Hví hafa þjónar þínir
kveikt í akri mínum? 32 Absalóm sagði við Jóab: Sjá, eg sendi til þín
og lét segja: Kom þú hingað og vil eg senda þig til konungs með
þessa orðsending: Til hvers kom eg frá Gesúr? betra væri mér að vera
þar enn. En nú vil eg fá að koma fyrir augu konungs; sé eg sekur,
þá drepi hann mig. 33 Þá gekk Jóab fyrir konung og sagði honum
þetta. Lét hann þá kalla Absalóm, og gekk hann fyrir konung og
laut á andlit sitt til jarðar fyrir konungi. Og konungur kysti Absalóm.

### Uppreisn Absalóms.

15 Eftir þetta bar það til, að Absalóm fékk sér vagna og hesta
og fimtíu menn, sem fyrir honum hlupu. 2 Og Absalóm lagði
það í vana sinn að nema staðar snemma morguns við veginn, sem lá
inn að borgarhliðinu, og hann kallaði á hvern þann mann, er í máli
átti og fyrir því leitaði á konungs fund, til þess að fá úrskurð hans,
og mælti: Frá hvaða borg ert þú? Og segði hann: Þjónn þinn er af
einni ættkvísl Ísraels, 3 þá sagði Absalóm við hann: Sjá, málefni þitt
er gott og rétt, en konungur hefir engan sett, er veiti þér áheyrn. 4 Og
Absalóm sagði: Eg vildi óska að eg væri skipaður dómari í landinu,
svo að hver maður, sem ætti í þrætu eða hefði mál að sækja, gæti
komið til mín; þá skyldi eg láta hann ná rétti sínum. 5 Og þegar ein-
hver kom til hans, til þess að lúta honum, rétti hann fram höndina,
dró hann að sér og kysti hann. 6 Svo gjörði Absalóm við alla Ísraels-
menn, þá er leituðu á konungs fund, til þess að fá úrskurð hans. Og
þann veg stal Absalóm hjörtum Ísraelsmanna.
7 Og það bar til fjórum árum síðar, að Absalóm sagði við konung:
Leyf mér að fara og efna heit mitt í Hebron, það er eg hefi gjört
Jahve. 8 Því að þjónn þinn gjörði svolátandi heit, þá er hann dvaldist
í Gesúr á Sýrlandi: Ef Jahve flytur mig aftur til Jerúsalem, þá skal eg

---

**23:** kap. 13, 37. — **15, 1:** 1 Kong. 1, 5. **8:** 1 Mós. 28, 20 n.

þjóna Jahve. [9] Konungur svaraði honum: Far þú í friði! Lagði hann
þá af stað og fór til Hebron. [10] En Absalóm gjörði menn á laun til
allra ættkvísla Ísraels með svolátandi orðsending: Þegar þér heyrið
lúðurhljóm, þá segið: Absalóm er orðinn konungur í Hebron. [11] Með
Absalóm fóru tvö hundruð manns úr Jerúsalem, er hann kvaddi til
farar með sér; fóru þeir í grandleysi og vissu ekki hvað undir bjó.
[12] Og er Absalóm var að fórnum, sendi hann eftir Akítófel Gílóníta,
ráðgjafa Davíðs, til Gíló, ættborgar hans. Og samsærið magnaðist og
æ fleiri og fleiri menn gengu í lið með Absalóm. [13] Nú komu menn
til Davíðs og sögðu honum: Hugur Ísraelsmanna hefir snúist til Absal-
óms. [14] Þá sagði Davíð við alla þjóna sína, þá er með honum voru í
Jerúsalem: Af stað! Vér skulum flýja, því að öðrum kosti munum
vér ekki komast undan Absalóm. Hraðið yður, svo að hann komi
ekki skyndilega og nái oss, færi oss ógæfu að höndum og taki borgina
herskildi. [15] Og þjónar konungs svöruðu konungi: Alveg eins og minn
herra konungurinn vill — sjá, vér erum þjónar þínir. [16] Þá lagði kon-
ungur af stað og alt hans hús með honum; en konungur lét tíu hjá-
konur eftir verða til þess að gæta hússins. [17] Og konungur lagði af
stað og allir þjónar hans með honum. Og þeir námu staðar við yzta
húsið, [18] en alt fólkið og allir Kretar og Pletar gengu fram hjá honum;
enn fremur gengu allir menn Íttaís frá Gat, sex hundruð manns, er
komnir voru með honum frá Gat, fram hjá í augsýn konungs. [19] Þá
sagði konungur við Íttaí frá Gat: Hvers vegna fer þú og með oss?
Snú aftur og ver með konungi, því að þú ert útlendingur og meira að
segja útlægur gjör úr átthögum þínum. [20] Þú komst í gær, og í dag
ætti eg að fá þig til að reika um með oss, þar sem eg verð að fara
þangað sem verkast vill. Snú þú aftur og haf með þér sveitunga þína.
Jahve mun auðsýna þér miskunn og trúfesti. [21] En Íttaí svaraði kon-
ungi: Svo sannarlega sem Jahve lifir, og svo sannarlega sem minn
herra konungurinn lifir: á þeim stað, sem minn herra konungurinn
verður — hvort sem það verður til dauða eða lífs, — þar mun og
þjónn þinn verða. [22] Þá sagði Davíð við Íttaí: Jæja, far þú þá fram
hjá. Þá fór Íttaí frá Gat fram hjá og allir hans menn og öll börnin,
sem með honum voru. [23] En alt landið grét hástöfum, meðan alt fólkið
gekk fram hjá. En konungur stóð í Kídron-dal, meðan alt fólkið gekk
fram hjá honum í áttina til olíutrésins, sem er í eyðimörkinni. [24] Þar
var og Zadók og Abjatar og allir Levítarnir með honum; báru þeir
sáttmálsörk Guðs; og þeir settu niður örk Guðs, unz allur lýðurinn úr
borginni var kominn fram hjá. [25] Og konungur sagði við Zadók:
Flyt þú örk Guðs aftur inn í borgina; finni eg náð í augum Jahve,
mun hann leiða mig heim aftur og láta mig sjá sjálfan sig og bústað
sinn. [26] En ef hann hugsar svo: Eg hefi ekki þóknun á þér — þá er
eg hér, gjöri hann við mig sem honum gott þykir. [27] Þá mælti kon-
ungur við Zadók höfuðprest: Far þú aftur til borgarinnar í friði og
Akímaaz sonur þinn og Jónatan sonur Abjatars — báðir synir ykkar
með ykkur. [28] Hyggið að! eg ætla að hafast við hjá vöðunum í eyði-
mörkinni, þar til er mér kemur frá yður tíðindasögn. [29] Síðan fluttu
þeir Zadók og Abjatar örk Guðs aftur til Jerúsalem og dvöldust þar.
[30] En Davíð gekk upp Olíufjallið; fór hann grátandi og huldu höfði.
Hann gekk berfættur, og alt fólkið, sem með honum var, huldi höfuð
sín og gekk hágrátandi. [31] Og er Davíð bárust þau tíðindi, að Akítófel
væri meðal þeirra, er samsærið höfðu gjört við Absalóm, þá sagði
Davíð: Gjör þú, Jahve, ráð Akítófels að heimsku. [32] En er Davíð var

---

**12:** 1 Kron. 27, 33. **23:** Jóh. 18, 1. **26:** 1 Sam. 3, 18. **30:** Est. 6, 12. Jer. 14, 3. 4.

kominn efst upp á fjallið, þar sem menn voru vanir að tilbiðja Guð,
þá mætti honum Húsaí Arkíti í rifnum kyrtli og með mold á höfði sér.
33 Davíð sagði við hann: Farir þú með mér, verður þú mér til þyngsla.
34 En ef þú fer aftur til borgarinnar og segir við Absalóm: Þér vil eg
þjóna, konungur; föður þínum hefi eg áður þjónað, en nú vil eg þjóna
þér — þá getur þú ónýtt ráð Akítófels fyrir mig. 35 Þar hefir þú hjá
þér prestana Zadók og Abjatar; alt, sem þú fréttir úr konungshöllinni,
skalt þú segja prestunum Zadók og Abjatar. 36 Þeir hafa þar hjá sér
báða sonu sína, Zadók Akímaaz og Abjatar Jónatan. Látið þá færa
mér öll þau tíðindi, sem þér fáið. 37 Síðan fór Húsaí, stallari Davíðs,
til borgarinnar; Absalóm fór og til Jerúsalem.

### Zíba og Símeí.

16 En er Davíð var kominn spölkorn frá hæðinni, kom Zíba,
sveinn Mefíbósets, í móti honum með tvo söðlaða asna, klyfjaða
tvö hundruð brauðum, hundrað rúsínukökum, hundrað aldinkökum og
vínlegli. 2 Konungur mælti við Zíba: Hvað ætlar þú að gjöra við þetta?
Zíba svaraði: Asnarnir eru ætlaðir konungsfólkinu til reiðar, brauðin
og aldinin til matar þjónustuliðinu og vínið til drykkjar þeim, er ör-
magnast kunna á eyðimörkinni. 3 Þá mælti konungur: Hvar er sonur
herra þíns? Og Zíba svaraði konungi: Hann er kyrr í Jerúsalem, því
að hann hugsaði: Í dag mun Ísraels hús fá mér aftur konungsríki
föður míns. 4 Þá sagði konungur við Zíba: Sjá, alt sem Mefíbóset á,
það sé þitt! Zíba mælti: Eg hneigi mig! Mætti eg jafnan finna náð
í augum þínum, minn herra konungur.
5 En er Davíð konungur kom til Bahúrím, kom þaðan maður af
kynþætti Sáls, sem Símeí hét, Gerasson, hann kom bölvandi og ragn-
andi 6 og kastaði steinum að Davíð og öllum þjónum Davíðs konungs,
en alt fólkið og allir kapparnir gengu til hægri og vinstri hliðar honum.
7 En Símeí komst svo að orði í formælingum sínum: Burt, burt, blóð-
hundurinn og hrakmennið! 8 Nú lætur Jahve þér í koll koma alt blóð
ættar Sáls, í hvers stað þú ert konungur orðinn, og Jahve hefir gefið
konungdóminn í hendur Absalóm syni þínum; og nú er ógæfan yfir
þig komin, af því að þú ert blóðhundur. 9 Þá mælti Abísaí Zerújuson
við konung: Hví skal þessi dauði hundur formæla mínum herra kon-
unginum? Lát mig fara og stýfa af honum hausinn. 10 En konungur
svaraði: Hvað hefi eg saman við yður að sælda, Zerújusynir? Ef hann
formælir og ef Jahve hefir sagt honum: Formæl Davíð! — hver vogar
þá að segja: Hví gjörir þú þetta? 11 Og Davíð sagði við Abísaí og við
alla þjóna sína: Sjá, fyrst sonur minn, sem út genginn er af lendum
mínum, situr um líf mitt, hví þá ekki þessi Benjamíníti? Látið hann
í friði og lofið honum að formæla, því að Jahve hefir sagt honum það.
12 Vera má að Jahve líti á eymd mína og bæti mér formæling hans í
dag með góðu. 13 Síðan fór Davíð og menn hans leiðar sinnar, en
Símeí gekk í fjallshlíðinni á hlið við hann og formælti honum í sí-
fellu, kastaði steinum að honum og lét moldarhnausana dynja á honum.
14 Síðan kom konungur og alt fólkið, sem með honum var, uppgefið til
Jórdanar og hvíldi sig þar.

---

**37:** 1 Kron. 27, 33. — **16, 1:** kap. 9, 2. **5:** 1 Kong. 2, 8. **9:** 2 Mós. 22, 28. 1 Sam.
26, 8. **10:** kap. 19, 22.

## Akítófel og Húsaí leggja Absalóm ráð.

15 En Absalóm og allir Ísraelsmenn komu til Jerúsalem og Akítófel
með honum. 16 Og er Húsaí Arkíti, vinur Davíðs, kom til Absalóms,
sagði Húsaí við Absalóm: Konungurinn lifi! konungurinn lifi! 17 Þá
sagði Absalóm við Húsaí: Er þetta kærleikur þinn til vinar þíns?
Hvers vegna fórst þú ekki með vini þínum? 18 Húsaí sagði þá við
Absalóm: Nei, því að þann, sem Jahve og þessi lýður og allir Ísraels-
menn velja — hans maður vil eg vera og hjá honum vil eg dveljast.
19 Og í annan stað: Hverjum veiti eg þjónustu? Er það ekki syni hans?
Eins og eg hefi veitt föður þínum þjónustu, svo mun eg og veita þér.
20 Þá sagði Absalóm við Akítófel: Leggið nú ráð á, hvað vér skulum
gjöra! 21 Akítófel sagði við Absalóm: Gakk þú inn til hjákvenna föður
þíns, sem hann lét eftir verða, til þess að gæta hallarinnar; mun þá
allur Ísrael frétta, að þú sért orðinn óþokkaður af föður þínum og mun
þá öllum þínum mönnum vaxa hugur. 22 Þá tjölduðu þeir fyrir Absal-
óm á þakinu, og Absalóm gekk inn til hjákvenna föður síns í augsýn
alls Ísraels. 23 En þau ráð, er Akítófel réð, þóttu í þá daga eins góð
og gild, sem gengið væri til frétta við Guð — svo mikils máttu sín öll
ráð Akítófels, bæði hjá Davíð og Absalóm.

17 Síðan sagði Akítófel við Absalóm: Eg ætla að velja úr tólf
þúsund manns, leggja af stað og veita Davíð eftirför þegar í nótt
2 og ráða á hann, meðan hann er þreyttur og ráðþrota, og skjóta hon-
um skelk í bringu; mun þá alt liðið, sem með honum er, leggja á
flótta, en eg mun drepa konunginn einan; 3 síðan mun eg leiða aftur
alt fólkið til þín, eins og þegar brúður hverfur aftur til manns síns;
það er þó ekki nema einn maður, sem þú vilt feigan, en allur lýður-
inn mun hafa frið.

4 Þetta ráð geðjaðist Absalóm vel og öllum öldungum Ísraels. 5 Og
Absalóm sagði: Kallið og á Húsaí Arkíta, svo að vér megum einnig
heyra, hvað hann leggur til. 6 Þá kom Húsaí til Absalóms, og Absal-
óm sagði við hann: Þannig hefir Akítófel talað; eigum vér að gjöra
það, sem hann segir? Ef eigi, þá tala þú! 7 Þá sagði Húsaí við Absal-
óm: Ráð það, er Akítófel að þessu sinni hefir ráðið, er ekki gott. 8 Og
Húsaí sagði: Þú þekkir föður þinn og menn hans, að þeir eru hinir
mestu kappar og grimmir í skapi, eins og birna á mörkinni, sem rænd
er húnum sínum; auk þess er faðir þinn maður vanur bardögum og
lætur eigi fyrir berast um nætur hjá liðinu; 9 sjá, hann mun nú hafa
falið sig í einhverri gryfjunni eða einhverstaðar annarstaðar — ef nokk-
urir af þeim falla í fyrstu og það spyrst, munu menn segja: Lið það,
sem fylgir Absalóm, hefir beðið ósigur. 10 Þá mun svo fara, að jafnvel
hreystimennið með ljónshjartað mun láta hugfallast, því að allur Ísrael
veit, að faðir þinn er hetja og þeir hraustmenni, sem með honum eru.
11 En þetta er mitt ráð: Allur Ísrael frá Dan til Beerseba skal saman
safnast til þín, svo fjölmennur sem sandur á sjávarströndu, og sjálfur
fer þú meðal þeirra. 12 Og ef vér þá hittum hann einhverstaðar, hvar
sem hann nú kann að finnast, þá skulum vér steypa oss yfir hann,
eins og dögg fellur á jörðu, og af honum og öllum þeim mönnum, sem
með honum eru, skal ekki einn eftir verða. 13 Og ef hann leitar inn
í einhverja borg, skal allur Ísrael bera vaði að þeirri borg, og síðan
skulum vér draga hana ofan í ána, unz þar finst ekki einu sinni stein-
vala. 14 Þá sagði Absalóm og allir Ísraelsmenn: Betra er ráð Húsaí
Arkíta en ráð Akítófels! því að Jahve hafði ákveðið að ónýta hið góða
ráð Akítófels, til þess að hann gæti látið ógæfuna koma yfir Absalóm.

---

**16:** kap. 15, 37. **21:** kap. 15, 16. **22:** kap. 12, 11. 12. — **17, 5:** kap. 16, 16.

### Húsaí gjörir Davíð orð.

15 Þá sagði Húsaí við prestana Zadók og Abjatar: Það og það
hefir Akítófel ráðið Absalóm og öldungum Ísraels, og það og það hefi
eg ráðið. 16 Sendið því sem skjótast og segið Davíð: Lát þú eigi fyrir-
berast í nótt við vöðin í eyðimörkinni, heldur far þú yfir um, svo að
konungur og alt liðið, sem með honum er, tortímist ekki skyndilega.
17 En Jónatan og Akímaaz stóðu við Rógel-lind, og stúlka nokkur var
vön að fara og færa þeim tíðindin, en þeir fóru þá jafnan og sögðu
Davíð konungi frá, því að þeir máttu ekki láta sjá, að þeir kæmu inn
í borgina. 18 En sveinn nokkur sá þá og sagði Absalóm frá. Fóru
þeir þá báðir brott í skyndi og komu til húss manns nokkurs í Bahúrím;
hann átti brunn í húsagarði sínum, og stigu þeir ofan í brunninn;
19 en húsfreyja tók dúk og breiddi yfir brunninn og stráði yfir grjónum,
að eigi skyldi á bera. 20 Og menn Absalóms komu til konunnar í húsið
og sögðu: Hvar eru þeir Akímaaz og Jónatan? Konan svaraði þeim:
Þeir eru farnir yfir ána. Þeir leituðu, en fundu þá ekki, og sneru
aftur til Jerúsalem. 21 En er þeir voru burt farnir, stigu hinir upp úr
brunninum, héldu áfram og fluttu Davíð konungi tíðindin. Og þeir
sögðu við Davíð: Takið yður upp og farið sem skjótast yfir ána, því
að þau ráð hefir Akítófel ráðið móti yður. 22 Þá tók Davíð sig upp
og alt liðið, sem með honum var, og fóru yfir Jórdan. Og er lýsti af
degi, var enginn sá, er ekki hefði farið yfir Jórdan.
23 En er Akítófel sá, að eigi var farið að ráðum hans, söðlaði hann
asna sinn, lagði af stað og fór heim til sín í borg sína, ráðstafaði húsi sínu
og hengdi sig, og lét þannig líf sitt; var hann síðan jarðaður hjá föður sínum.

### Davíð í Mahanaím. Unninn sigur á Absalóm.

24 Davíð var kominn til Mahanaím, þegar Absalóm fór yfir Jórdan,
og allir Ísraelsmenn með honum. 25 Og Absalóm setti Amasa yfir her-
inn í stað Jóabs, en Amasa var sonur Ísmaelíta nokkurs, er Jítra hét
og gengið hafði inn til Abígal, dóttur Ísaí, systur Zerúju, móður Jóabs.
26 Og Ísrael og Absalóm settu herbúðir sínar í Gíleað-landi. 27 En er
Davíð kom til Mahanaím, fluttu þeir Sóbí Nahasson frá Rabba, borg
Ammóníta, Makír Ammíelsson frá Lódebar og Barsillaí Gíleaðíti frá
Rógelím þangað 28 hvílur, ábreiður, skálar og leirker og færðu Davíð og
liðinu, sem með honum var, hveiti, bygg, mjöl, bakað korn, baunir,
flatbaunir, 29 hunang, rjóma, sauði og osta úr kúamjólk til að eta, því
að þeir hugsuðu: Liðið er orðið hungrað, þreytt og þyrst á eyðimörkinni.
18 Davíð kannaði nú liðið, sem með honum var, og setti yfir þá
þúsundhöfðingja og hundraðshöfðingja. 2 Og Davíð skifti liðinu
í þrent; var þriðjungur undir forustu Jóabs, þriðjungur undir forustu
Abísaí Zerújusonar, bróður Jóabs, og þriðjungur undir forustu Íttaí frá
Gat. Og konungur sagði við liðið: Eg er fastráðinn í að fara með
yður í stríðið. 3 Liðið svaraði: Þú skalt hvergi fara. Því að þótt vér
flýjum, munu þeir eigi hirða um oss, og þótt helmingurinn af oss
félli, mundu þeir ekki hirða um oss, því að þú ert sem tíu þúsundir
af oss. Er og betra, að þú sért viðbúinn að koma oss til liðs úr
borginni. 4 Þá sagði konungur við þá: Svo vil eg gjöra, sem yður lízt.
Þá nam konungur staðar öðrumegin við borgarhliðið, en alt liðið hélt
af stað, hundruðum og þúsundum saman. 5 En konungur lagði svo
fyrir þá Jóab, Abísaí og Íttaí: Farið vægilega með sveininn Absalóm.
Og alt liðið heyrði konung bjóða hershöfðingjunum svo um Absalóm.

---

**19:** Jós. 2, 6. **25:** 1 Kron. 2, 16 n. **27:** kap. 9, 4; 19, 32. 1 Kong. 2, 7. — **18, 2:** kap. 15, 19. **3:** kap. 21, 17.

[6] Síðan hélt liðið út til bardaga við Ísrael, og hófst orusta í Efraím-
skógi. [7] Biðu Ísraelsmenn þar ósigur fyrir Davíðs mönnum; varð þar
mikið mannfall á þeim degi: tuttugu þúsundir manns. [8] Dreifðist bar-
daginn þar um alt landið, og varð skógurinn fleiri mönnum að líftjóni
heldur en sverðið hafði orðið þann dag. [9] Þá vildi svo til, að Absalóm
rakst á menn Davíðs. En Absalóm reið múl einum, og rann múllinn
inn undir þétt lim mikillar eikar og festist höfuð hans í eikinni; hékk
hann þar milli himins og jarðar, en múllinn, sem hann reið, rann
undan honum. [10] Þetta sá maður nokkur, sagði Jóab frá því og mælti:
Sjá, eg sá Absalóm hanga í eik einni. [11] Þá sagði Jóab við manninn,
sem færði honum tíðindin: Nú, fyrst þú sást hann, hví vanst þú þá
ekki þegar á honum? Þá skyldi eg hafa gefið þér tíu sikla silfurs og
belti. [12] Þá sagði maðurinn við Jóab: Þó að taldir væru í lófa mér
þúsund siklar silfurs, mundi eg samt ekki leggja hönd á konungsson,
því að í áheyrn vorri lagði konungur svo fyrir þig, Abísaí og Íttaí:
Gætið sveinsins Absalóms. [13] En ef eg hefði breytt sviksamlega við
hann — og enginn hlutur er konungi hulinn —, þá mundir þú hafa
staðið fjarri. [14] Þá sagði Jóab: Ekki má eg þá lengur tefja hjá þér;
greip þrjú skotspjót og rak þau í brjóst Absalóms. En með því að
hann enn var með lífi í limi eikarinnar, [15] þustu að tíu knapar, skjald-
sveinar Jóabs, og lustu Absalóm til bana. [16] Þá lét Jóab þeyta lúður-
inn, og liðið hætti að elta Ísrael, því að Jóab stöðvaði herinn. [17] Síðan
tóku þeir Absalóm, köstuðu honum í gryfju eina mikla þar á skógin-
um og urpu yfir hann afarmikla steindys, en allir Ísraelsmenn flýðu,
hver heim til sín. [18] En Absalóm hafði þegar í lifanda lífi tekið merk-
issteininn í Kongsdal og reist hann handa sér, með því að hann sagði:
Eg á engan son til að halda uppi nafni mínu, og nefnt merkissteininn
nafni sínu. Fyrir því er hann enn í dag nefndur Absalómsvarði.

## Davíð fréttir lát Absalóms.

[19] En Akímaaz Zadóksson mælti: Eg ætla að hlaupa og færa
konungi fagnaðartíðindin, að Jahve hafi rétt hluta hans á óvinum hans.
[20] En Jóab sagði við hann: Þú ert ekki maður til að flytja tíðindin í
dag; öðru sinni getur þú flutt tíðindin; en í dag getur þú ekki flutt
tíðindin, því að konungsson er dauður. [21] Því næst sagði Jóab við Blá-
lendinginn: Far þú og seg konunginum það, sem þú hefir séð. Þá laut
Blálendingurinn Jóab og hljóp af stað. [22] Og Akímaaz Zadóksson kom
enn að máli við Jóab og mælti: Komi hvað sem koma vill: leyf og
mér að fara og hlaupa á eftir Blálendingnum. Jóab svaraði: Til hvers
viltu vera að hlaupa þetta, sonur minn, þar sem þér þó eigi munu
greidd verða nein sögulaunin. [23] Hann svaraði: Komi hvað sem koma
vill: eg hleyp. Þá sagði hann við hann: Hlauptu þá! Þá hljóp Akí-
maaz af stað veginn yfir Jórdan-sléttlendið og komst á undan Blá-
lendingnum.
[24] En Davíð sat milli borgarhliðanna tveggja. En sjónarvörðurinn
steig upp á þak hliðsins upp á múrinn; hóf hann upp augu sín og sá,
hvar maður kom hlaupandi einn saman. [25] Sjónarvörðurinn kallaði og
sagði konungi frá því. En konungur mælti: Ef hann fer einn saman,
þá flytur hann góð tíðindi. En hinn hljóp í sífellu og bar hann óðum
nær. [26] Þá sá sjónarvörðurinn annan mann koma hlaupandi. Kallaði
sjónarvörðurinn þá niður í hliðið og mælti: Þarna kemur annar maður
hlaupandi einn saman. Þá mælti konungur: Sá mun og flytja góð
tíðindi. [27] Þá sagði sjónarvörðurinn: Mér sýnist hlaup hins fyrra vera

---

**9:** kap. 14, 26. **17:** Jós. 7, 26; 8, 29.

líkt hlaupi Akímaaz Zadókssonar. Konungur mælti: Hann er drengur
góður og mun koma með góð tíðindi. 28 Akímaaz bar þá að og mælti
hann við konung: Sit heill! og laut á ásjónu sína til jarðar fyrir kon-
ungi og mælti: Lofaður sé Jahve, Guð þinn, sem framselt hefir þá
menn, er upplyftu hendi sinni gegn mínum herra, konunginum.
29 Konungur mælti: Líður sveininum Absalóm vel? Akímaaz svaraði:
Eg sá mannþröng mikla, er Jóab sendi þjón þinn af stað, en ekki vissi
eg hvað um var að vera. 30 Þá sagði konungur: Gakk til hliðar og
stattu þarna. Og hann gekk til hliðar og nam þar staðar. 31 Í því
kom Blálendingurinn. Og Blálendingurinn sagði: Minn herra konung-
urinn meðtaki þau fagnaðartíðindi, að Jahve hefir rétt hluta þinn í
dag á öllum þeim, er risið hafa í gegn þér. 32 Þá sagði konungur við
Blálendinginn: Líður sveininum Absalóm vel? Blálendingurinn mælti:
Fari svo fyrir óvinum míns herra konungsins og öllum þeim, er gegn
þér rísa til að vinna þér tjón, sem sveini þessum!
33 Þá varð konungi bilt; gekk hann upp í þaksalinn uppi yfir
hliðinu og grét. Og er hann gekk, mælti hann svo: Sonur minn Absal-
óm; sonur minn, sonur minn Absalóm! Ó, að eg hefði dáið í þinn
stað, Absalóm, sonur minn, sonur minn!

19 Og Jóab var sagt: Sjá, konungur grætur og harmar Absalóm.
2 Snerist þá sigurinn í hrygð fyrir öllu liðinu á þeim degi, því
að liðið fékk þann dag þá fregn: Konungur tregar son sinn. 3 Þann
dag læddist liðið inn í borgina, eins og sá her læðist, er sú skömm
hefir hent, að flýja úr orustu. 4 En konungur huldi andlit sitt, og kon-
ungur kveinaði hástöfum: Sonur minn Absalóm, Absalóm, sonur minn,
sonur minn! 5 Þá gekk Jóab inn í höllina fyrir konung og mælti: Þú
hefir í dag gjört opinbera hneysu öllum þjónum þínum, sem í dag
hafa frelsað líf þitt, líf sona þinna og dætra, líf kvenna þinna og líf
hjákvenna þinna, 6 með því að sýna þeim elsku, er hata þig, og hatur
þeim, er elska þig; því að í dag hefir þú sýnt, að þú átt enga hers-
höfðingja eða þjóna — því að nú veit eg, að væri Absalóm á lífi, en
vér nú allir dauðir, þá mundi þér það vel líka. 7 Rís því nú upp,
gakk út og tala vinsamlega við þjóna þína, því að það sver eg við
Jahve, að gangir þú ekki út, mun ekki einn maður eftir verða í nótt
með þér, og er þér það verra en öll ógæfa, er yfir þig hefir komið frá
barnæsku þinni fram á þennan dag. 8 Þá stóð konungur upp og settist
í borgarhliðið. Og er öllu liðinu var sagt: Sjá, konungur situr í borg-
arhliðinu, þá gekk alt liðið fyrir konung.

## Davíð kemst aftur til Jerúsalem.

Og er Ísrael var flúinn, hver heim til sín, 9 þá þráttaði allur lýð-
urinn, í öllum ættkvíslum Ísraels, og sagði: Konungur hefir frelsað oss
af hendi óvina vorra, og hann hefir bjargað oss undan valdi Filista,
en nú er hann flúinn úr landi undan Absalóm; 10 en Absalóm, sem
vér smurðum til konungs yfir oss, er fallinn í orustu. Hvað dvelur
yður þá að færa konunginn heim aftur? 11 Þessi ummæli alls Ísraels
bárust konungi til eyrna. En Davíð konungur sendi til prestanna
Zadóks og Abjatars og lét segja þeim: Mælið svo til öldunga Júda:
Hvers vegna viljið þér vera manna síðastir til þess að færa konung
aftur til hallar sinnar? 12 Þér eruð ættbræður mínir; þér eruð bein
mitt og hold, hvers vegna viljið þér vera síðastir til að færa konung
heim aftur? 13 Og segið Amasa: Sannlega ert þú bein mitt og hold —
Guð láti mig gjalda þess nú og síðar, ef þú verður ekki hershöfðingi

33: kap. 19, 4. — 19, 4: kap. 18, 33. 8: kap. 18, 17. 12: kap. 5, 1. 13: kap. 17, 25

hjá mér alla æfi í stað Jóabs. [14] Hann sneri hjörtum allra Júdamanna
sem eins manns væri, svo að þeir gjörðu konungi þessi orð: Snú þú
aftur með alla menn þína.
[15] Konungur sneri nú heimleiðis og kom að Jórdan; en Júdamenn
komu til Gilgal, til þess að fara í móti konungi og flytja konung yfir
Jórdan. [16] Símeí Gerasson Benjamíníti frá Bahúrím hafði og hraðan á
og fór ofan með Júdamönnum til móts við Davíð konung [17] og þús-
und manns af Benjamín með honum. En Zíba, ármaður Sáls, var á-
samt fimtán sonum sínum og tuttugu þjónum sínum kominn til Jór-
danar á undan konungi; [18] höfðu þeir farið yfir á vaðinu, til þess að
flytja konungsfólkið yfir og gjöra það, er honum þóknaðist. Og er
konungur ætlaði að fara yfir Jórdan, féll Símeí Gerasson honum til
fóta [19] og mælti við hann: Herra minn tilreikni mér ekki misgjörð mína
og minst ekki þess, er þjónn þinn gjörði illa á þeim degi, er minn herra
konungurinn fór burt úr Jerúsalem, og erf það eigi við mig, [20] því að
þjónn þinn veit að eg hefi syndgað, en sjá, nú er eg kominn fyrstur
allra manna af Jósefs ætt, til þess að ganga til móts við minn herra
konunginn. [21] Þá tók Abísaí Zerújuson til máls og sagði: Ætti ekki
Símeí að láta lífið fyrir það, að hann formælti drottins smurða? [22] Þá
mælti Davíð: Hvað hefi eg saman við yður að sælda, Zerújusynir,
þar sem þér í dag gjörist mótstöðumenn mínir? Ætti að lífláta nokk-
urn mann í Ísrael í dag? Eða veit eg eigi, að eg í dag er konungur
yfir Ísrael? [23] Síðan sagði konungur við Símeí: Þú skalt eigi deyja.
Og konungur vann honum eið að því.
[24] Mefíbóset, sonarsonur Sáls, fór og ofan til móts við konung;
hafði hann eigi hirt fætur sína, greitt kamp sinn, né þvegið klæði sín
frá þeim degi, er konungur fór burt, til þess dags, er hann kom aftur
heill á húfi. [25] Og er hann nú kom frá Jerúsalem til móts við konung,
sagði konungur við hann: Hví fórst þú ekki með mér, Mefíbóset?
[26] Hinn svaraði: Minn herra konungur, þjónn minn sveik mig. Því
að þjónn þinn sagði við hann: Söðla þú ösnu fyrir mig, svo að eg
megi ríða henni og fara með konungi — því að þjónn þinn er fótlami.
[27] Og hann hefir rægt þjón þinn við minn herra konunginn. En minn
herra konungurinn er sem engill Guðs, og gjör nú sem þér líkar.
[28] Því að alt ættfólk föður míns átti einskis að vænta af mínum herra
konunginum, nema dauðans, en þá tókst þú þjón þinn meðal mötu-
nauta þinna. Hvaða rétt hefi eg þá framar og hvers framar að beið-
ast af konungi? [29] Þá sagði konungur við hann: Hví fjölyrðir þú enn
um þetta? Eg segi: Þú og Zíba skuluð skifta landinu. [30] Þá sagði
Mefíbóset við konung: Hann má jafnvel taka það alt, fyrst minn herra
konungurinn er kominn heim heill á húfi.
[31] Barsillaí Gíleaðíti kom og frá Rógelím og fór með konungi til
Jórdan, til þess að fylgja honum yfir Jórdan. [32] En Barsillaí var gam-
all mjög, áttræður að aldri; hafði hann birgt konung að vistum, meðan
hann dvaldist í Mahanaím, því að hann var maður vellauðugur. [33] Þá
mælti konungur við Barsillaí: Þú skalt með mér fara, og mun eg ala
önn fyrir þér í ellinni hjá mér í Jerúsalem. [34] En Barsillaí svaraði
konungi: Hversu mörg æfiár á eg enn ólifuð, að eg skyldi fara með
konungi til Jerúsalem? [35] Eg stend nú á áttræðu; má eg lengur greina
milli góðs og ills, eða mun þjónn þinn finna bragð af því, sem eg et
og drekk, eða fæ eg lengur heyrt rödd söngvaranna og söngmeyjanna?
Hví skyldi þjónn þinn lengur vera mínum herra konunginum til byrði?

---

**16:** kap. 16, 5. **17:** kap. 9, 2. 10; 16, 1 n. **19:** kap. 16, 5. **22:** kap. 16, 10. 1 Sam.
11, 13. **24:** kap. 9, 6. **26:** kap. 9, 3. **27:** kap. 16, 3; 14, 17. 20. **28:** kap. 9, 7.
10. 13. **31:** kap. 17, 27. 1 Kong. 2, 7.

36 Þjónn þinn vildi fylgja konunginum spölkorn, en hví vill konungur
endurgjalda mér verk þetta? 37 Leyf þjóni þínum að snúa aftur, svo
að eg megi deyja í borg minni, hjá gröf föður míns og móður, en hér
er þjónn þinn Kímham, fari hann með mínum herra konunginum;
gjör við hann slíkt er þér líkar! 38 Þá mælti konungur: Kímham skal
með mér fara og mun eg við hann gjöra slíkt er þér líkar, og hvers
þess, er þú beiðist af mér, mun eg veita þér.
39 Nú fór alt liðið yfir Jórdan; þá fór og konungur yfir. Og kon-
ungur mintist við Barsillaí og bað hann vel fara, en hann sneri aftur
heim til sín. 40 Því næst fór konungur til Gilgal, og fór Kímham með
honum. Og alt Júda-liðið fór með konungi, svo og helmingur af Ísraels-
liðinu. 41 Og sjá, allir Ísraelsmenn komu til konungs, og þeir sögðu
við konung: Hví hafa bræður vorir, Júdamenn, stolið þér og farið með
konunginn og fólk hans yfir Jórdan, og alla menn Davíðs með honum?
42 Þá sögðu allir Júdamenn við Ísraelsmenn: Konungur er oss skyldur.
Hví reiðist þér af þessu? Höfum vér etið nokkuð af konunginum eða
höfum vér numið hann burt? 43 Þá svöruðu Ísraelsmenn Júdamönnum
og sögðu: Vér eigum tíu hluti í konunginum; auk þess erum vér frum-
getningurinn, en þér ekki; hví hafið þér lítilsvirt oss? Og komum vér
ekki fyrstir fram með þá ósk, að færa konung heim aftur? Og um-
mæli Júdamanna voru harðari en ummæli Ísraelsmanna.

### Uppreisn Seba.

20 Þar var staddur óþokki nokkur, sem Seba hét Bikríson, Benja-
míníti. Hann þeytti lúðurinn og sagði: Vér eigum enga hlut-
deild í Davíð og engan erfðahlut í Ísaísyni; hver fari heim til sín,
Ísrael! 2 Þá gengu allir Ísraelsmenn undan Davíð og á hönd Seba
Bikrísyni, en Júdamenn fylktu sér um konung sinn, frá Jórdan til
Jerúsalem. 3 Og er Davíð kom til hallar sinnar í Jerúsalem, lét kon-
ungur taka hjákonurnar tíu, er hann hafði skilið eftir til þess að gæta
hallarinnar, og setti þær í varðhald og ól þar önn fyrir þeim, en eigi
hafði hann samfarir við þær. Lifðu þær þannig innibyrgðar til dauða-
dags, sem ekkjur lifandi manna. 4 Því næst sagði konungur við Amasa:
Kalla þú saman Júdamenn áður þrjár sólir eru af lofti; ver þá og
sjálfur hér. 5 Lagði nú Amasa af stað, til þess að kalla saman Júda;
en er honum seinkaði fram yfir þann tíma, er til var tekinn við hann,
6 sagði Davíð við Abísaí: Nú mun Seba Bikríson vinna oss enn meira
tjón en Absalóm. Tak þú menn herra þíns og veit honum eftirför,
svo að hann nái ekki víggirtum borgum og veiti oss þungar búsifjar.
7 Lögðu þá af stað með honum menn Jóabs og Kretar og Pletar og
kapparnir allir. Lögðu þeir af stað frá Jerúsalem, til þess að veita
Seba Bikrísyni eftirför.
8 En er þeir voru hjá stóra steininum, sem er hjá Gíbeon, mætti
Amasa þeim. En Jóab var klæddur brynjukufli sínum og gyrtur sverði
utan yfir hann, og voru sverðsslíðrin fest við lend honum; hljóp sverðið
úr slíðrunum og féll til jarðar. 9 Þá sagði Jóab við Amasa: Líður þér
vel, bróðir minn? Greip Jóab þá hægri hendinni í skegg Amasa, sem
hann vildi kyssa hann. 10 En Amasa hafði ekki tekið eftir sverðinu, er
Jóab hafði í vinstri hendi sér; lagði Jóab því í kvið honum, svo að
út féllu iðrin; eigi lagði hann til hans aftur, því að hann var þegar dauður.
En Jóab og Abísaí, bróðir hans, veittu Seba Bikrísyni eftirför. 11 En
einn af mönnum Jóabs stóð kyrr hjá honum og sagði: Hver sá, sem
hefir mætur á Jóab og aðhyllist Davíð, hann fylgi Jóab. 12 En Amasa

42: v. 12. — 20, 1: 1 Kong. 12, 16. 3: kap. 15, 16; 16, 21. 22. 10: 1 Kong. 2, 5.

lá og veltist í blóði sínu á miðjum veginum, og er maðurinn sá, að
alt liðið stóð kyrt, dró hann Amasa til hliðar út af veginum og varp
yfir hann klæði, er hann sá, að hver maður nam staðar, sem að hon-
um kom. 13 En er hann hafði komið honum burt af veginum, fylgdi
hver maður Jóab, til þess að veita Seba Bíkrísyni eftirför. 14 En hann
fór um allar ættkvíslir Ísraels, alt til Abel-Beth-Maaka, og allir Bíkrítar
söfnuðust saman og fóru með honum. 15 En hinir komu og umkringdu
hann í Abel-Beth-Maaka, og hlóðu virkisvegg gegn borginni; gekk hann
upp að varnardíkinu. Gekk nú alt liðið, er með Jóab var, sem ákafast
fram í því að brjóta múrinn, til þess að fella hann.
16 Þá kallaði kona nokkur vitur af borginni: Heyrið, heyrið! Segið
við Jóab: Kom þú hingað, eg vil tala við þig. 17 Þá gekk hann til
hennar, og konan mælti: Ert þú Jóab? Hann kvað svo vera. Og hún
sagði við hann: Hlýð þú á orð ambáttar þinnar! Hann svaraði: Eg
heyri. 18 Þá mælti hún á þessa leið: Forðum var það haft að orðtæki:
Spyrjið að því í Abel og í Dan, hvort það sé lagt niður, 19 sem hinir
trúu í Ísrael fyrirskipuðu? Þú leitast við að gjöreyða borg og móður
í Ísrael; hví spillir þú arfleifð Jahve? 20 Jóab svaraði og sagði: Það
er fjarri mér! Eg vil engu spilla og engu eyða. 21 Eigi er þessu svo
farið, heldur hefir maður nokkur frá Efraímfjöllum, sem Seba heitir,
Bíkrísson, lyft hendi sinni gegn Davíð konungi. Framseljið hann einan
og mun eg þegar hverfa frá borginni. Þá sagði konan við Jóab: Sjá,
höfði hans skal kastað verða til þín yfir múrinn. 22 Síðan talaði konan
af viturleik sínum við alla borgarbúa, svo að þeir hjuggu höfuð af
Seba Bíkrísyni og fleygðu því út til Jóabs. Þá lét hann blása liðinu
frá borginni, og fór hver heim til sín, en Jóab sneri aftur til Jerúsalem
til konungs.
23 Jóab var fyrir öllum hernum, Benaja Jójadason fyrir Kretum
og Pletum; 24 Adóníram var yfir kvaðarmönnum; Jósafat Ahílúðsson
var sagnameistari, 25 Seja var kanzlari, Zadók og Abjatar prestar.
26 Enn fremur var Íra Jaíríti prestur hjá Davíð.

## Hefnd Gíbeoníta.

21 Á dögum Davíðs varð hallæri í þrjú ár samfleytt. Gekk þá
Davíð til frétta við Jahve, en Jahve svaraði: Á Sál og ætt hans
hvílir blóðsök, fyrir það að hann drap Gibeoníta. 2 Þá lét konungur
kalla Gíbeoníta og sagði við þá — en Gíbeonítar heyrðu ekki til Ísraelsmönn-
um, heldur leifum Amóríta; og þótt Ísraelsmenn hefðu unnið þeim eiða,
leitaðist Sál við að drepa þá, af vandlætingasemi vegna Ísraelsmanna
og Júda. 3 Og Davíð sagði við Gíbeoníta: Hvað á eg að gjöra fyrir
yður, og með hverju á eg að friðþægja, til þess að þér blessið arfleifð
Jahve? 4 Þá sögðu Gíbeonítar við hann: Það er ekki silfur og gull,
sem vér sækjumst eftir af Sál og ætt hans, og engan mann viljum vér
feigan í Ísrael. Hann svaraði: Hvað segið þér, að eg eigi að gjöra fyrir
yður? 5 Þá sögðu þeir við konung: Maðurinn, sem eyddi oss, og hugði
að afmá oss, svo að vér værum ekki lengur til í öllu Ísraels landi, —
6 af niðjum hans skulu oss fengnir sjö menn, svo að vér megum bera
þá út fyrir Jahve í Gíbeon á fjalli Jahve. Konungur sagði: Eg skal
fá yður þá. 7 Konungur þyrmdi þó Mefíbóset, Jónatanssyni, Sálssonar,
vegna eiðs þess við Jahve, er þeir höfðu unnið hver öðrum, Davíð og
Jónatan, sonur Sáls. 8 Og konungur tók báða sonu Rizpu Ajasdóttur,
er hún hafði fætt Sál, Armóni og Mefíbóset, og fimm sonu Merab,

---

23: kap. 8, 16 n. 24: 1 Kong. 4, 6. 26: kap. 8, 18. — 21, 2: Jós. 9, 15. 19. 7:
1 Sam. 18, 3; 20, 23. 8: kap. 3, 7. 1 Sam. 18, 19.

dóttur Sáls, er hún hafði fætt Adríel, Barsillaísyni frá Mehóla, [9] og fékk
þá í hendur Gíbeonítum. Og þeir báru þá út fyrir Jahve á fjallinu,
svo að þeir dóu sjö saman, og voru þeir teknir af lífi fyrstu daga upp-
skerunnar. [10] En Rizpa Ajasdóttir tók hærusekk og breiddi hann út á
klettinum handa sér*, frá byrjun uppskerunnar þar til er regn streymdi
af himni yfir þá**, og eigi leyfði hún fuglum himinsins að setjast að
þeim um daga, né dýrum merkurinnar um nætur.
[11] En er Davíð var sagt frá, hvað Rizpa Ajasdóttir, hjákona Sáls,
hafði gjört, [12] fór Davíð og sótti bein Sáls og bein Jónatans sonar hans,
til Jabesmanna í Gíleað, en þeir höfðu stolið þeim á torginu í Bet-San,
þar sem Filistar höfðu hengt þá upp, daginn sem Filistar drápu Sál á
Gilbóa. [13] Hann kom þaðan með bein Sáls og bein Jónatans sonar
hans; var síðan safnað saman beinum hinna útbornu [14] og þau grafin
með beinum Sáls og beinum Jónatans sonar hans í landi Benjamíns í
Zela, í gröf Kíss föður hans. Var alt gjört sem konungur bauð, og
eftir það líknaði Guð landinu.
[15] Enn áttu Filistar ófrið við Ísrael; fór Davíð þá með menn sína
til þess að berjast við Filista. [16] Og er þeir lágu í herbúðum í Gób,
reis upp Dód, einn af niðjum Refaíta, og vó spjót hans þrjú hundruð
sikla eirs; var hann gyrtur nýju sverði og hugði að drepa Davíð. [17] Þá
kom Abísaí Zerújuson honum til hjálpar og hjó Filistann banahögg.
Þá særbændu menn Davíðs hann og sögðu: Þú mátt eigi framar með
oss fara í hernað, svo að þú slökkvir eigi lampa Ísraels.
[18] Seinna tókst enn orusta hjá Gób við Filista. Þá drap Sibbekaí
Húsatíti Saf, sem og var einn af niðjum Refaíta.
[19] Og enn tókst orusta hjá Gób við Filista; þá drap Elhanan
Jaírsson frá Betlehem Golíat frá Gat; var spjótskaft hans sem vefjarrifur.
[20] Og er enn tókst orusta hjá Gat, var þar tröllaukinn maður, er
hafði sex fingur á hvorri hendi og sex tær á hvorum fæti, tuttugu og
fjögur að tölu; var hann og kominn af Refaítum. [21] Hann smánaði
Ísrael, en Jónatan sonur Símeí, bróðir Davíðs, drap hann.
[22] Þessir fjórir voru komnir af Refaítum í Gat, og féllu þeir fyrir
Davíð og mönnum hans.

## Þakkarljóð Davíðs.

22 Og Davíð flutti Jahve orð þessara ljóða, þá er Jahve frelsaði
hann af hendi allra óvina hans og af hendi Sáls. [2] Hann mælti:

Jahve er bjarg mitt og vígi,
hann er sá sem hjálpar mér.
[3] Guð minn er hellubjarg mitt, þar sem eg leita hælis,
skjöldur minn og horn hjálpræðis míns,
háborg mín og hæli,
frelsari minn; þú frelsar mig frá ofbeldi.
[4] Lofaður sé Jahve, hrópa eg,
og eg frelsast frá óvinum mínum.
[5] Því að brimöldur dauðans umkringdu mig,
elfur glötunarinnar skelfdu mig,
[6] snörur Heljar luktu um mig,
möskvar dauðans féllu yfir mig.

---

**10:** * Þ. e. sér að hvílurúmi. ** Þ. e. frá lokum marzmánaðar til októbermán-
aðar. **12:** 1 Sam. 31, 12. **18:** 1 Kron. 20, 4 n. — **22, 1:** Sálm. 18, 1 n. **3:** Sálm.
144, 2. Lúk. 1, 69. **5:** Sálm. 116, 3.

7 Í angist minni kallaði eg á Jahve,
og til Guðs míns hrópaði eg;
í höll sinni heyrði hann raust mína,
og óp mitt barst til eyrna honum.

8 Jörðin bifðist og nötraði,
undirstöður fjallanna skulfu,
þær bifðust, því að hann var reiður;
9 reykur gekk fram úr nösum hans
og eyðandi eldur af munni hans,
glóðir brunnu út frá honum.
10 Hann sveigði himininn og steig niður,
og skýsorti var undir fótum hans.
11 Hann steig á bak kerúb og flaug af stað
og sveif á vængjum vindarins.
12 Hann gjörði myrkrið í kring um sig að skýli,
regnsortann og skýþykknið.
13 Frá ljómanum fyrir honum flugu
hagl og eldglæringar.
14 Jahve þrumaði af himni
og hinn hæsti lét raust sína gjalla.
15 Hann skaut örvum sínum og tvístraði þeim,
lét eldingarnar leiftra og hræddi þá.
16 Þá sá í mararbotn,
og undirstöður jarðarinnar urðu berar,
fyrir ógnum Jahve,
fyrir andgustinum úr nösum hans.

17 Hann seildist niður af hæðum, greip mig,
dró mig upp úr hinum miklu vötnum.
18 Hann frelsaði mig frá hinum sterku óvinum mínum,
frá fjandmönnum mínum, er voru mér yfirsterkari.
19 Þeir réðust á mig á mínum óheilladegi,
en Jahve var mín stoð;
20 hann leiddi mig út á víðlendi,
frelsaði mig, af því að hann hafði þóknun á mér.

21 Jahve fer með mig eftir réttlæti mínu,
eftir hreinleik handa minna geldur hann mér;
22 því að eg hefi varðveitt vegu Jahve
og hefi ekki reynst ótrúr Guði mínum;
23 því að allar skipanir hans hefi eg fyrir augum
og frá boðorðum hans hefi eg ekki vikið.
24 Eg var lýtalaus fyrir honum
og gætti mín við misgjörðum;
25 fyrir því galt Jahve mér eftir réttlæti mínu,
eftir hreinleik handa minna fyrir augliti hans.

26 Gagnvart ástríkum ert þú ástríkur,
gagnvart ráðvöndum ráðvandur,
27 gagnvart hreinum hreinn,
en gagnvart rangsnúnum ert þú afundinn.
28 Þú hjálpar þjáðum lýð,
en gjörir alla hrokafulla niðurlúta.

---

**7:** Jón. 2, 3. **11:** Sálm. 104, 3. **12:** Sálm. 97, 2. **14:** Sálm. 29, 3. **17:** Sálm. 144, 7.
**25:** 1 Sam. 26, 23. 24.

29 Já, þú ert minn lampi, Jahve,
og Guð minn lýsir mér í myrkrinu.
30 Því að fyrir þína hjálp brýt eg múra,
fyrir hjálp Guðs míns stekk eg yfir borgarveggi.
31 Vegur Guðs er lýtalaus,
orð Jahve er skírt;
skjöldur er hann öllum þeim, sem leita hælis hjá honum.

32 Því að hver er Guð, nema Jahve,
og hver er hellubjarg, utan vor Guð?
33 Sá Guð, sem gyrðir mig styrkleika
og gjörir veg minn sléttan;
34 sem gjörir fætur mína sem hindanna
og veitir mér fótfestu á hæðunum;
35 sem æfir hendur mínar til hernaðar,
svo að armar mínir benda eirbogann.
36 Og þú gafst mér skjöld hjálpræðis þíns,
og lítillæti þitt gjörði mig mikinn.
37 Þú rýmdir til fyrir skrefum mínum
og öklar mínir riðuðu ekki.
38 Eg elti óvini mína og náði þeim,
og sneri ekki aftur, fyr en eg hafði gjöreytt þeim.
39 Eg gjöreyddi þeim og molaði þá sundur, svo að þeir risu ekki upp framar.
og hnigu undir fætur mér.
40 Þú gyrtir mig styrkleika til ófriðarins,
beygðir fjendur mína undir mig.
41 Þú lézt mig sjá bak óvina minna,
og fjendum mínum — þeim eyddi eg,
42 Þeir hrópuðu — en enginn kom til hjálpar,
til Jahve — en hann svaraði þeim ekki.
43 Og eg muldi þá sem mold á jörð,
tróð þá fótum sem saur á strætum.

44 Þú frelsaðir mig úr fólkorustum,
gjörðir mig að höfðingja heiðingjanna;
lýður, sem eg þekti ekki, þjónar mér;
45 útlendingar smjaðra fyrir mér,
óðara en þeir heyra mín getið, hlýða þeir mér.
46 Útlendingar dragast upp
og koma skjálfandi fram úr fylgsnum sínum.

47 Lifi Jahve, lofað sé mitt bjarg,
og hátt upphafinn sé Guð hjálpræðis míns,
48 sá Guð, sem veitti mér hefndir
og braut þjóðir undir mig;
49 sem hreif mig úr höndum óvina minna —
og yfir mótstöðumenn mína hófst þú mig;
frá ójafnaðarmönnum frelsaðir þú mig.

50 Fyrir því vil eg vegsama þig, Jahve, meðal heiðingjanna
og lofsyngja þínu nafni;
51 hann, sem veitir konungi sínum mikla hjálp
og auðsýnir miskunn sínum smurða,
Davíð og niðjum hans að eilífu.

---

31: Orðskv. 30, 5. Sálm. 12, 7. 34: Hab. 3, 19. 35: Sálm. 144, 1. 45: 5 Mós. 33, 29. 50: Róm. 15, 9. 51: kap. 7, 12—16.

## Síðustu orð Davíðs.

23 Þetta eru síðustu orð Davíðs:

Svo mælti Davíð Ísaíson,
svo mælti maðurinn, er hátt var settur,
hinn smurði Jakobs Guðs,
ljúflingur Ísraels ljóða.
2 Andi Jahve talaði í mér
og hans orð er á minni tungu,
3 Ísraels Guð talaði,
bjarg Ísraels mælti við mig:
Sá sem ríkir yfir mönnum með réttvísi,
sá sem ríkir í ótta Guðs,
4 hann er eins og dagsbirtan, þegar sólin rennur upp,
á heiðríkju-morgni,
þegar grasið sprettur í glaða-sólskini eftir regn.
5 Já, er ekki hús mitt svo fyrir Guði?
Því að hann hefir gjört við mig eilífan sáttmála,
ákveðinn í öllum greinum og áreiðanlegan.
Já, alt sem verður mér til heilla og gleði,
skyldi hann ekki veita því vöxt?
6 En varmennin — þau eru öll eins og þyrnar, sem út er kastað,
því að enginn tekur á þeim með hendinni.
7 Hver, sem rekst á þau, vopnast járni og spjótskafti,
og í eldi munu þau brend verða til kaldra kola.

## Kappar Davíðs og afreksverk þeirra.

8 Þetta eru nöfnin á köppum Davíðs: Ísbaal Hakmóníti, höfðingi
þeirra þriggja. Hann veifaði spjóti sínu yfir átta hundruð vegnum í
einu. 9 Honum næstur er, meðal kappanna þriggja, Eleasar Dódíson,
Ahóhíti. Hann var með Davíð í Pas-Dammím, en Filistar höfðu safn-
ast þar saman til orustu. En er Ísraelsmenn hörfuðu undan, 10 stóð
hann fastur fyrir og barði á Filistum, unz hann varð þreyttur í hend-
inni, og hönd hans var krept um sverðið, og Jahve veitti mikinn sigur
á þeim degi. Og liðið sneri aftur með honum aðeins til rána. 11 Næst-
ur honum er Samma Ageson, Hararíti. Og Filistar söfnuðust saman
og fóru til Lekí, en þar var akurspilda alsprottin flatbaunum. En er
fólkið flýði fyrir Filistum, 12 nam hann staðar í spildunni miðri, náði
henni og vann sigur á Filistum; veitti Jahve þannig mikinn sigur.
13 Einu sinni fóru þrír af höfðingjunum þrjátíu og komu til Davíðs
í hamrinum, í Adúllam-víginu, en flokkur af Filistum lá í herbúðum í
Refaímdal. 14 Þá var Davíð í víginu, en varðsveit Filista var þá í Betle-
hem. 15 Þá þyrsti Davíð og hann sagði: Hver vill sækja mér vatn í
brunninn í Betlehem, sem er þar við hliðið? 16 Þá brutust kapparnir
þrír gegnum herbúðir Filista, jusu vatni úr brunninum í Betlehem, sem
þar er við hliðið, tóku það og færðu Davíð. En hann vildi ekki drekka
það, heldur dreypti því Jahve til handa 17 og mælti: Jahve láti það
vera fjarri mér að gjöra slíkt! Blóð þeirra manna, sem stofnuðu lífi
sínu í hættu með því að fara ...! — og hann vildi ekki drekka það.
Þetta gjörðu kapparnir þrír.
18 Abísaí, bróðir Jóabs, sonur Zerúju, var fyrir þeim þrjátíu. Hann
veifaði spjóti sínu yfir þrjú hundruð vegnum og var frægur meðal þeirra

---

**23, 5:** kap. 7, 12 n. **8:** 1 Kron. 11, 10—41. **9:** 1 Kron. 27, 4. **18:** kap. 5, 18.

þrjátíu. [19] Af þeim þrjátíu var hann í heiðri hafður og var foringi
þeirra, en til jafns við þá þrjá komst hann ekki. [20] Benaja Jójadason,
hraustmenni, frægur fyrir afreksverk sín, var frá Kabzeel. Hann drap
báða sonu Aríels frá Móab. Hann sté ofan í brunn og drap þar ljón
einn da[illegible] [illegible] hafði. [21] Hann drap og egipzkan mann tröllaukinn;
Egiptinn hafði spjót í hendi, en hann fór á móti honum með staf, reif
spjótið úr hendi Egiptans og drap hann með hans eigin spjóti. [22] Þetta
gjörði Benaja Jójadason; hann var frægur meðal þrjátíu kappanna.
[23] Af þeim þrjátíu var hann í heiðri hafður, en til jafns við þá þrjá
komst hann ekki. Davíð setti hann yfir lífvörð sinn.
[24] Asahel, bróðir Jóabs, var meðal þeirra þrjátíu; enn fremur El-
hanan Dódóson frá Betlehem, [25] Samma frá Haród, Elíka frá Haród,
[26] Helez frá Pelet, Íra Íkkesson frá Tekóa, [27] Abíeser frá Anatót, Sibbe-
kaí frá Húsa, [28] Zalmón frá Ahó, Maharaí frá Netófa, [29] Heled Baana-
son frá Netófa, Íttaí Ríbaíson frá Gíbeu í Benjamíns ættkvísl, [30] Benaja
frá Píraton, Hiddaí frá Nahale-Gaas, [31] Abíel frá Bet-Araba, Asmavet
frá Bahúrím, [32] Eljahba frá Saalbón, Jasen Gúníti, [33] Jónatan Samma-
son frá Harar, Ahíam Sararsson frá Arar, [34] Elífelet Ahasbaíson frá Maaka,
Elíam Akitófelsson frá Gíló, [35] Hezró frá Karmel, Paaraí Arkíti, [36] Jígal
Natansson frá Zóba, Baní frá Gað, [37] Zelek Ammóníti, Naharaí frá
Beeröt, skjaldsveinn Jóabs Zerújusonar, [38] Íra frá Jattír, Gareb frá Jattír,
[39] Úría Hetíti — til samans þrjátíu og sjö.

### Fólkstalið.

24 Og reiði Jahve upptendraðist enn gegn Ísrael; egndi hann þá
Davíð upp í móti þeim með því að segja: Far þú og tel Ísrael
og Júda. [2] Þá sagði konungur við Jóab og hershöfðingjana, sem með
honum voru: Far þú um allar ættkvíslir Ísraels frá Dan til Beerseba
og teljið fólkið til þess að eg fái að vita, hve margt fólkið er. [3] Jóab
svaraði konungi: Jahve Guð þinn margfaldi lýðinn — hversu margir,
sem þeir nú kunna að vera — hundrað sinnum og láti minn herra
konunginn lifa það; en hvers vegna vill minn herra konungurinn gjöra
þetta? [4] En Jóab og hershöfðingjarnir máttu eigi gjöra annað en það,
sem konungur bauð. Gekk þá Jóab og hershöfðingjarnir burt frá kon-
ungi, til þess að taka manntal í Ísrael. [5] Þeir fóru yfir Jórdan og
byrjuðu á Aróer og borginni, sem er í dalnum í áttina til Gað og Ja-
eser. [6] Síðan komu þeir til Gíleað, og til lands Hetíta, í nánd við
Kades. Þá komu þeir til Dan, og frá Dan beygðu þeir við í áttina til
Zídon. [7] Því næst komu þeir til Týruskastala og til allra borga Hevíta
og Kanaaníta; fóru síðan til suðurlandsins í Júda, til Beerseba. [8] En
er þeir höfðu farið um land alt, komu þeir eftir níu mánuði og tuttugu
daga til Jerúsalem. [9] Og Jóab sagði konungi töluna, sem komið hafði
út við manntalið; í Ísrael voru átta hundruð þúsundir vopnfærra manna
vopnbúinna, en í Júda fimm hundruð þúsundir manns.
[10] En samvizkan sló Davíð, er hann hafði látið telja fólkið. Þá
sagði Davíð við Jahve: Mjög hefi eg syndgað með því, sem eg hefi
gjört; en Jahve, tak nú burt misgjörð þjóns þíns, því að mjög óvitur-
lega hefir mér tiltekist. [11] En er Davíð reis morguninn eftir, kom orð
Jahve til Gaðs spámanns, sjáanda Davíðs, svolátandi: [12] Far þú og seg
við Davíð: Svo segir Jahve: Þrjá kosti set eg þér, kjós einn af þeim,
og mun eg svo við þig gjöra. [13] Þá gekk Gað til Davíðs, sagði hon-
um frá þessu og mælti til hans: Hvað kýs þú, að hungur komi í þrjú

---

**24:** 1 Kron. 27, 7. **30:** 1 Kron. 27, 14. **34:** kap. 15, 12. **39:** kap. 11, 3. — **24. 1:** 1 Kron. 21, 1 n. **5:** 5 **Mós.** 2, 36. **10:** kap. 12, 13. **11:** 1 Sam. 22, 5.

ár yfir land þitt, eða að þú verðir að flýja í þrjá mánuði fyrir óvin-
um þínum, og sverðið elti þig, eða drepsótt geisi þrjá daga í landi
þínu? Hugsaðu þig nú um, og sjá til, hverju eg á að svara þeim, sem
sendi mig. 14 Þá sagði Davíð við Gað: Eg er í miklum nauðum stadd-
ur — falla skulum vér í hendur Jahve, því að mikil er miskunn hans,
en í manna hendur vil eg ekki falla. 15 Davíð kaus þá drepsóttina;
en hveitiuppskeran stóð yfir, þegar sóttin byrjaði, og af lýðnum frá Dan
til Beerseba dóu sjötíu þúsundir manns. 16 En er engillinn rétti út hönd
sína gegn Jerúsalem, til þess að eyða hana, þá iðraði Jahve hins illa,
og hann sagði við engilinn, sem eyddi fólkinu: Nóg er að gjört! drag
nú að þér höndina, — en engill Jahve var þá hjá þreskivelli Aravna
Jebúsíta.
17 En er Davíð sá, hversu engillinn drap niður fólkið, þá sagði
hann við Jahve: Sjá, eg hefi syndgað og eg hefi misgjört, en þetta eru
sauðirnir — hvað hafa þeir gjört? Lát hönd þína leggjast á mig og
ættmenn mína. 18 Þann dag kom Gað til Davíðs og mælti við hann:
Far þú og reis Jahve altari á þreskivelli Aravna Jebúsíta. 19 Og Davíð
fór eftir boði Gaðs, eins og Jahve hafði skipað. 20 Og er Aravna leit
upp og sá konung og menn hans fara til sín, þá gekk hann í móti
þeim og laut á ásjónu sína til jarðar fyrir konungi. 21 Og Aravna
mælti: Hví kemur minn herra konungurinn til þjóns síns? Davíð svar-
aði: Til þess að kaupa af þér þreskivöllinn, svo að eg geti reist Jahve
altari og plágunni megi létta af lýðnum. 22 Aravna svaraði Davíð: Taki
minn herra konungurinn það, sem honum þóknast, og fórni: sjá, hér
eru nautin til brennifórnar og þreskisleðarnir og aktýgin af nautunum
til eldiviðar — 23 alt þetta, konungur! gefur Aravna konunginum. Og
Aravna mælti við konung: Jahve, Guð þinn, sé þér náðugur! 24 En
konungur sagði við Aravna: Eigi svo, en kaupa vil eg það verði af
þér, því að ekki vil eg færa Jahve, Guði mínum, það í brennifórnir,
er eg hefi kauplaust þegið. Síðan keypti Davíð þreskivöllinn og nautin
fyrir fimtíu sikla silfurs. 25 Og Davíð reisti Jahve þar altari, og fórn-
aði brennifórnum og heillafórnum. Og Jahve líknaði landinu, og létti
þá plágunni af Ísrael.

---

# Fyrri bók konunganna.

## Davíð lætur smyrja Salómó til konungs.

1 Davíð konungur var nú orðinn gamall og hniginn að aldri, og
þótt hann væri þakinn fötum, gat honum ekki hitnað. 2 Fyrir því
sögðu þjónar hans við hann: Það ætti að leita að yngismey handa
mínum herra konunginum, til þess að þjóna konunginum og hjúkra
honum; skal hún liggja við brjóst þitt, til þess að mínum herra kon-
unginum megi hitna. 3 Síðan var leitað að fríðri stúlku í öllu Ísraels-
landi, og fundu menn Abísag frá Súnem og fóru með hana til kon-
ungs. 4 En stúlkan var forkunnar fríð, og hjúkraði hún konungi og
þjónaði honum, en konungur kendi hennar ekki.

---

**17:** 4 Mós. 16, 22. **21:** 4 Mós. 16, 48. 50. **25:** kap. 21, 14.

5 En Adónía sonur Haggítar hreykti sér upp og hugsaði með sér:
Eg vil verða konungur. Og hann fékk sér vagna og hesta og fimtíu
menn, sem fyrir honum hlupu. 6 En faðir hans hafði aldrei angrað
hann á æfinni með því að segja við hann: Hví hefir þú gjört þetta?
Auk þess var hann mjög fríður sýnum og næstur Absalóm að aldri.
7 Hann átti og ráðstefnur við Jóab Zerújuson og Abjatar prest, og fylgdu
þeir Adónía að málum. 8 En Zadók prestur og Benaja Jójadason og
Natan spámaður og Símeí og Reí og kappar Davíðs fylgdu eigi Adónía.
9 Og Adónía slátraði sauðum og nautum og alikálfum hjá Höggorms-
steini, sem er hjá Rógel-lind, og bauð til öllum bræðrum sínum, kon-
ungssonunum, og öllum Júdamönnum, þegnum konungs; 10 en Natan
spámanni og Benaja og köppunum og Salómó bróður sínum bauð
hann ekki.

11 Þá mælti Natan við Batsebu, móður Salómós, á þessa leið: Hefir
þú ekki heyrt, að Adónía sonur Haggítar er orðinn konungur, og
Davíð, herra vor, veit það ekki? 12 En kom þú nú, og vil eg leggja þér
ráð, hversu þú megir forða lífi þínu og lífi Salómós sonar þíns. 13 Far
þú og gakk fyrir Davíð konung og seg við hann: Hefir þú ekki, minn
herra konungur, unnið ambátt þinni eið og sagt: Salómó sonur þinn
skal verða konungur eftir mig, og hann skal sitja í hásæti mínu?
Hví er þá Adónía orðinn konungur? 14 Sjá, meðan þú enn ert að tala
þar við konung, skal eg koma á eftir þér og staðfesta orð þín. 15 Þá
gekk Batseba fyrir konung inn í svefnhúsið, en konungur var þá gam-
all mjög, og Abísag frá Súnem þjónaði honum. 16 Batseba hneigði sig
og laut konungi. Konungur mælti: Hvað er þér á höndum? 17 Hún
sagði við hann: Herra minn, þú hefir unnið ambátt þinni svolátandi
eið við Jahve, Guð þinn: Salómó sonur þinn skal verða konungur eftir
mig, og hann skal sitja í hásæti mínu. 18 En sjá, nú er Adónía orðinn
konungur, og þú veizt það ekki, minn herra konungur! 19 Hann hefir
slátrað fjölda af uxum, alikálfum og sauðum og boðið til öllum kon-
ungssonum og Abjatar presti og Jóab hershöfðingja, en Salómó þjóni
þínum hefir hann ekki boðið. 20 Og nú standa augu allra Ísraelsmanna
á þér, minn herra konungur, að þú gjörir kunnugt, hver sitja skuli í
hásæti míns herra konungsins eftir þinn dag. 21 Ella mun svo fara,
þegar minn herra konungurinn hvílir hjá feðrum sínum, að eg og
Salómó sonur minn munum talin óbótamenn. 22 En meðan hún var
að tala við konung, kom Natan spámaður. 23 Og konungi var sagt:
Natan spámaður er hér kominn. Gekk hann þá inn fyrir konung og
laut á ásjónu sína til jarðar fyrir konungi. 24 Og Natan mælti: Minn
herra konungur, hefir þú sagt: Adónía skal vera konungur eftir mig,
og hann skal sitja í hásæti mínu? 25 Því að hann fór niður eftir í
dag og slátraði fjölda af uxum, alikálfum og sauðum og bauð til öllum
konungssonunum, hershöfðingjunum og Abjatar presti; eru þeir nú að
eta og drekka hjá honum og hrópa: Adónía konungur lifi! 26 En
mér, þjóni þínum, Zadók presti, Benaja Jójadasyni og Salómó þjóni
þínum bauð hann ekki. 27 Er þetta orðið að tilhlutun míns herra
konungsins, þar sem þú hefir ekki gjört þjónum þínum kunnugt, hver
sitja skuli í hásæti míns herra konungsins eftir þinn dag?

28 Þá svaraði Davíð konungur og mælti: Kallið mér Batsebu!
Gekk hún þá inn fyrir konung. Og er hún stóð frammi fyrir konungi,
29 sór konungur og sagði: Svo sannarlega sem Jahve lifir, sá er frelsað
hefir líf mitt úr öllum nauðum: 30 eins og eg sór þér við Jahve, Ísraels
Guð, og sagði: Salómó sonur þinn skal verða konungur eftir mig, og

---

*1, 5: 2 Sam. 3, 4; 15, 1.*

hann skal sitja í hásæti mínu í minn stað — svo vil eg staðfesta það
í dag. [31] Þá hneigði Batseba ásjónu sína til jarðar, laut konungi og
mælti: Minn herra Davíð konungur lifi eilíflega! [32] Þá sagði Davíð
konungur: Kallið mér Zadók prest, Natan spámann og Benaja Jójada-
son. Þeir gengu síðan fyrir konung. [33] Og konungur sagði við þá:
Takið með yður þjóna herra yðar; setjið Salómó son minn á múl minn
og farið með hann til Gíhon. [34] Skal Zadók prestur og Natan spá-
maður smyrja hann þar til konungs yfir Ísrael; þeytið síðan lúðurinn
og hrópið: Salómó konungur lifi! [35] Komið síðan með honum hingað,
og skal hann þá koma og setjast í hásæti mitt og vera konungur í
minn stað, því að hann hefi eg skipað til að vera höfðingja yfir Ísrael
og Júda. [36] Þá svaraði Benaja Jójadason konungi og mælti: Veri það
svo; Jahve, Guð míns herra konungsins, gefi það. [37] Eins og Jahve
hefir verið með mínum herra konunginum, svo sé hann og með Salómó,
og hefji hásæti hans enn hærra en hásæti míns herra, Davíðs konungs. [38] Þá
fóru þeir Zadók prestur, Natan spámaður, Benaja Jójadason og Kretar
og Pletar og settu Salómó á múl Davíðs konungs og fóru með hann
til Gíhon. [39] Þá tók Zadók prestur olíuhornið úr tjaldinu og smurði
Salómó. Þá þeyttu þeir lúðurinn, og allur lýðurinn hrópaði: Lifi Sal-
ómó konungur! [40] Síðan fór allur lýðurinn heim aftur með honum,
og menn blésu á hljóðpípur og létu feginslátum, svo að við sjálft lá
að jörðin rifnaði af ópi þeirra.

[41] Adónía og allir þeir, sem hann hafði í boði sínu, heyrðu þetta,
er þeir höfðu lokið máltíðinni. Þegar Jóab heyrði lúðurhljóminn, mælti
hann: Hví er öll borgin í uppnámi? [42] En er hann var þetta að mæla,
kom Jónatan sonur Abjatars prests. Þá sagði Adónía: Kom þú hingað,
því að þú ert sæmdarmaður og munt flytja góð tíðindi. [43] Þá svaraði
Jónatan og sagði við Adónía: Það er nú svo! Herra vor, Davíð kon-
ungur, hefir gjört Salómó að konungi. [44] Konungur hefir sent með
honum Zadók prest, Natan spámann, Benaja Jójadason og Kreta og
Pleta, og þeir hafa sett hann á múl konungs; [45] og þeir Zadók prestur
og Natan spámaður hafa smurt hann til konungs í Gíhon; þaðan fóru
þeir heim fagnandi, svo að öll borgin er komin í uppnám. Þetta er
hávaðinn, sem þér hafið heyrt. [46] Salómó hefir meira að segja sezt í
konungshásætið. [47] Sömuleiðis komu þjónar konungs, til þess að árna
herra vorum, Davíð konungi, heilla, og sögðu: Guð þinn gjöri nafn
Salómós enn víðfrægara en nafn þitt, og hefji hásæti hans enn hærra
en hásæti þitt! og hneigði konungur sig í hvílu sinni. [48] Konungur
hefir og mælt svo: Lofaður sé Jahve, Ísraels Guð, sem í dag hefir
skipað eftirmann í hásæti mitt og látið mér auðnast að líta það. [49] Þá
skelfdust allir boðsgestir Adónía, héldu af stað, og fór hver leiðar sinnar.
[50] En Adónía var hræddur við Salómó, hélt af stað og fór burt og greip
um altarishornin; [51] var Salómó sagt frá því með svofeldum orðum:
Sjá, Adónía er hræddur við Salómó konung, heldur um altarishornin og
segir: Salómó konungur sverji mér í dag, að hann skuli ekki láta taka
þjón sinn af lífi. [52] Þá sagði Salómó: Komi hann fram sem góður
drengur, skal ekki eitt af hárum hans falla til jarðar, en reynist hann
ódrengur, skal hann lífi týna. [53] Þá sendi Salómó konungur og lét taka
hann frá altarinu, og er hann kom og laut Salómó konungi, sagði
Salómó við hann: Far þú heim til þín.

---

**39:** 1 Kron. 29, 22. **42:** 2 Sam. 15, 27.

## Síðasta ráðstöfun Davíðs og andlát hans. Salómó hegnir Adónía, Abjatar, Jóab og Símeí.

2 En er dauðadagur Davíðs nálgaðist, lagði hann svo fyrir Salómó
son sinn: [2] Eg geng nú veg allrar veraldar; en ver þú hugrakkur
og lát sjá, að þú sért maður. [3] Gæt þú þess, sem Jahve, Guð þinn, af
þér heimtar, að þú gangir á vegum hans og haldir lög hans, boðorð,
ákvæði og fyrirmæli, eins og skrifað er í lögmáli Móse, svo að þú verðir
lánsamur í öllu, sem þú gjörir og hvert sem þú snýr þér, [4] svo að
Jahve efni orð sín, þau er hann hefir við mig talað, er hann sagði:
Ef synir þínir varðveita vegu sína, með því að ganga dyggilega fyrir
augliti mínu af öllu hjarta sínu og allri sálu sinni, þá skal þig, mælti
hann, ekki vanta eftirmann í hásæti Ísraels. [5] Þú veizt og sjálfur, hvað
Jóab Zerújuson hefir gjört mér, hversu hann hefir farið með báða
hershöfðingja Ísraels, þá Abner Nersson og Amasa Jetersson, þar sem
hann myrti þá og vann þannig víg í griðum og ataði blóði beltið um
lendar sér og skóna á fótum sér, eins og í ófriði væri. [6] Neyt nú hygg-
inda þinna og lát eigi hærur hans fara til heljar í friði. [7] En sýn þú
mildi sonum Barsillaí Gíleaðíta og lát þá vera meðal þeirra, sem eta
við borð þitt, því að svo gjörðu þeir til mín, þá er eg flýði fyrir Absal-
óm bróður þínum. [8] Símeí Gerasson Benjamíníti frá Bahúrím er og
með þér; hann formælti mér gífurlega, þá er eg fór til Mahanaím. En
hann kom til móts við mig niður að Jórdan, og vann eg honum svo-
látandi eið við Jahve: Eg skal eigi láta drepa þig. [9] En þú skalt eigi
láta honum óhegnt, því að þú ert maður vitur og munt vita, hvað þú
átt að gjöra við hann, til þess að þú getir sent hærur hans blóðugar
til heljar.

[10] Síðan lagðist Davíð til hvíldar hjá feðrum sínum og var jarð-
aður í Davíðsborg. [11] En sá tími, sem Davíð hafði ríkt yfir Ísrael, var
fjörutíu ár; í Hebron ríkti hann sjö ár og í Jerúsalem ríkti hann þrjá-
tíu og þrjú ár. [12] Og Salómó settist í hásæti Davíðs föður sins, og
efldist ríki hans mjög.

[13] Þá fór Adónía, sonur Haggítar, til Batsebu, móður Salómós.
Hún sagði: Kemur þú góðu heilli? Hann svaraði: Svo er víst. [14] Síðan
mælti hann: Eg á erindi við þig. Hún mælti: Tala þú! [15] Þá mælti
hann: Þú veizt sjálf að konungdómurinn tilheyrði mér, og að allur
Ísrael hafði augastað á mér sem konungsefni, en nú hefir þetta farið á
annan veg og konungdómurinn lent hjá bróður mínum, því að Jahve
hafði ákvarðað honum hann. [16] Nú bið eg þig einnar bónar: vísa þú
mér ekki frá. Hún sagði við hann: Tala þú! [17] Þá mælti hann: Bið
þú Salómó konung — því að hann mun ekki vísa þér frá — að gefa
mér Abísag frá Súnem fyrir konu. [18] Batseba mælti: Gott og vel, eg
skal sjálf túlka mál þitt við konung. [19] Þá gekk Batseba á fund Saló-
mós konungs, til þess að tala máli Adónía við hann, og konungur stóð
upp á móti henni, laut henni og settist síðan í hásæti sitt og lét setja
fram stól handa konungsmóður, og settist hún til hægri handar kon-
ungi. [20] Þá mælti hún: Eg bið þig einnar lítillar bónar; vísa þú mér
eigi frá. Konungur sagði við hana: Bið þú, móðir mín, eigi mun eg
vísa þér frá. [21] Þá mælti hún: Leyf þú, að Abísag frá Súnem verði
gefin Adónía bróður þínum fyrir konu. [22] Þá svaraði Salómó konung-
ur og sagði við móður sína: Hví biður þú um Abísag frá Súnem til
handa Adónía? Bið heldur um konungsríkið honum til handa, því að

**2, 2:** Jós. 23, 14. 1 Kron. 22, 13. **4:** 2 Sam. 7, 12. Sálm. 132, 11 n. **5:** 2 Sam. 3, 27; 20, 10. **7:** 2 Sam. 17, 27 n. 19, 31. 32. **8:** 2 Sam. 16, 5; 19, 16. 18. 23. **10:** Post. 2, 29. **11:** 2 Sam. 5, 4 n. 1 Kron. 29, 26. 27. **15:** kap. 1, 5 n. 1 Kron. 28, 5. **17:** kap. 1, 3. **22:** kap. 1, 7.

hann er bróðir minn mér eldri — honum til handa og Abjatar presti
og Jóab Zerújusyni. [23] Og Salómó konungur sór við Jahve og mælti:
Guð gjöri við mig hvað sem hann vill nú og síðar: fyrir beiðni þessa
skal Adónía lífinu týna. [24] Og nú, svo sannarlega sem Jahve lifir, er
mér hefir til valda komið og sett mig í hásæti Davíðs föður míns og reist
mér hús, eins og hann hafði heitið: Adónía skal líflátinn þegar í dag!
[25] Síðan sendi Salómó konungur Benaja Jójadason með þessu erindi;
vann hann á honum, og lét Adónía þannig líf sitt.

[26] En við Abjatar prest sagði konungur: Far þú til bús þíns í
Anatót, því að þú ert dauða sekur, en eigi vil eg drepa þig að sinni,
því að þú hefir borið örk drottins Jahve fyrir Davíð föður mínum, og
allar þær nauðir, sem faðir minn þoldi, hefir þú þolað með honum.
[27] Síðan rak Salómó Abjatar burt, svo að hann væri eigi lengur prest-
ur Jahve, til þess að orð Jahve skyldu rætast, þau er hann talaði um
hús Elí í Síló.

[28] Nú spyr Jóab þessi tíðindi. En Jóab hafði fylgt Adónía að
málum, en Absalóm hafði hann eigi fylgt að málum. Jóab flýði þá
til tjalds Jahve og greip um altarishornin. [29] Salómó konungi var þá
sagt: Jóab er flúinn í tjald Jahve og stendur við altarið. Sendi þá
Salómó Benaja Jójadason og sagði: Far þú og vinn á honum. [30] Fór
þá Benaja til tjalds Jahve og mælti til Jóabs: Svo segir konungur:
Gakk þú út. Hinn svaraði: Nei, hér vil eg deyja. Færði Benaja þá
konungi svar hans og sagði: Svo mælti Jóab og svo svaraði hann mér.
[31] Konungur sagði við hann: Gjör sem hann sagði; vinn þú á honum
og jarða hann og hreinsa þannig af mér og ætt minni blóð það, er
Jóab úthelti án saka; [32] og Jahve láti blóð hans koma honum í koll,
þar sem hann vó tvo menn, er réttlátari voru og betri en hann, og
myrti þá með sverði, án þess að Davíð faðir minn vissi af því: þá Abner
Nersson, hershöfðingja Ísraels, og Amasa Jetersson, hershöfðingja Júda.
[33] Skal blóð þeirra koma Jóab í koll og niðjum hans að eilífu, en
Davíð og niðjar hans, hús hans og hásæti hljóti að eilífu heill af Jahve.
[34] Síðan fór Benaja Jójadason, vann á honum og drap hann, og var
hann grafinn í húsi sínu í eyðimörkinni. [35] Og konungur skipaði Benaja
Jójadason yfir herinn í hans stað, og Zadók prest skipaði hann í stað
Abjatars.

[36] Því næst sendi konungur og lét kalla Símeí og sagði við hann:
Reis þér hús í Jerúsalem og bú þar, en eigi mátt þú fara neitt þaðan.
[37] En það skaltu vita fyrir víst, að á þeim degi, sem þú fer þaðan og
gengur yfir Kídron-læk, skaltu deyja; mun þá blóð þitt sjálfum þér í
koll koma. [38] Símeí svaraði konungi: Það læt eg mér vel líka; eins
og minn herra konungurinn hefir sagt, svo skal þjónn þinn gjöra. Og
Símeí bjó í Jerúsalem langa hríð. [39] Eftir þrjú ár bar svo við, að
tveir þrælar Símeí struku til Akís Maakasonar, konungs í Gat. Og
Símeí var sagt svo frá: Þrælar þínir eru í Gat. [40] Þá tók Símeí sig til,
söðlaði asna sinn og hélt til Gat til Akís, til þess að leita að þrælum
sínum, og Símeí fór og hafði heim með sér þræla sína frá Gat. [41] Var
nú Salómó sagt frá því, að Símeí hefði farið frá Jerúsalem til Gat og
væri kominn heim aftur. [42] Þá sendi konungur og lét kalla Símeí og
sagði við hann: Hefi eg ekki sært þig við Jahve og lagt ríkt á við þig
og sagt: Það skaltu vita fyrir víst, að á þeim degi, sem þú gengur að
heiman og fer eitthvað burt, skaltu deyja. Og þú sagðir við mig: Eg
hefi heyrt það og læt mér vel líka. [43] Hvers vegna hefir þú ekki hald-

---

**24:** 2 Sam. 7, 11 n. **26:** 1 Sam. 22, 20. **27:** 1 Sam. 2, 31. 32. **28:** kap. 1, 50. **31:** 2 Mós. 21, 14. **32:** 2 Sam. 3, 27; 20, 10. **35:** kap. 4, 4. 1 Kron. 29, 22. **39:** 1 Sam. 27, 2.

ið eið þann, er Jahve var svarinn, og skipun þá, er eg fyrir þig lagði?
[44] Enn fremur mælti konungur við Símeí: Þú þekkir alla þá ilsku og
ert þér hennar meðvitandi, er þú hafðir í frammi við Davíð föður
minn, og mun nú Jahve láta þér ilsku þína í koll koma; [45] en Salómó
konungur blessist og hásæti Davíðs standi stöðugt fyrir Jahve að eilífu.
[46] Og konungur bauð Benaja Jójadasyni, og hann fór og vann á honum,
og lét hann þannig líf sitt.

## Kvonfang Salómós; draumur hans og dómspeki.

3 Þegar Salómó konungur var orðinn fastur í sessi, mægðist hann
við Faraó Egiptalands-konung og fékk dóttur Faraós og flutti hana
til Davíðsborgar, unz hann hafði lokið við að reisa höll sína, musteri
Jahve og múra umhverfis Jerúsalem. [2] En lýðurinn fórnaði enn á
hæðunum, því að alt til þess tíma var ekkert hús reist nafni Jahve.
[3] En Salómó elskaði Jahve, svo að hann hélt lög Davíðs föður síns,
en þó færði hann sláturfórnir og reykelsisfórnir á hæðunum.
[4] Og konungur fór til Gíbeon, til þess að fórna þar, því að það
var aðal-fórnarhæðin. Fórnaði Salómó þúsund brennifórnum á því
altari. [5] Í Gíbeon vitraðist Jahve Salómó í draumi um nótt. Og Guð
sagði: Bið mig þess, er þú vilt að eg veiti þér. [6] Þá sagði Salómó:
Þú auðsýndir þjóni þínum, Davíð föður mínum, mikla miskunn, þar
*eð hann* gekk fyrir augliti þínu í trúmensku, réttlæti og hjartans ein-
lægni við þig; og þú lézt haldast við hann þessa miklu miskunn og
gafst honum son, sem situr í hásæti hans, eins og nú er fram komið.
[7] Nú hefir þú þá, Jahve, Guð minn, gjört þjón þinn að konungi í stað
Davíðs föður míns. En eg er unglingur og kann ekki fótum mínum
forráð. [8] Og þjónn þinn er mitt á meðal þjóðar þinnar, er þú hefir
útvalið, mikillar þjóðar, er eigi má telja eða ætlan á koma fyrir fjölda
sakir. [9] Gef því þjóni þínum gaumgæfið hjarta til að stjórna þjóð
þinni og til að greina gott frá illu; því að hver gæti annars stjórnað
þessari fjölmennu þjóð þinni? [10] Og drotni líkaði vel, að Salómó bað
um þetta. [11] Þá sagði Guð við hann: Af því að þú baðst um þetta,
en baðst ekki um langlífi þér til handa eða auðlegð eða líf óvina
þinna, heldur baðst um vitsmuni til að skynja, hvað rétt er í málum
manna, [12] þá vil eg veita þér bæn þína: eg gef þér hyggið og skynugt
hjarta, svo að þinn líki hefir ekki verið fyrir þig og mun ekki koma
eftir þig. [13] Og líka gef eg þér það, sem þú baðst ekki um, bæði auð-
legð og heiður, svo að þinn líki skal eigi verða meðal konunganna
alla þína daga. [14] Og ef þú gengur á mínum vegum og varðveitir
boðorð mín og skipanir, eins og Davíð faðir þinn gjörði, þá mun eg
gefa þér langa lífdaga. [15] Síðan vaknaði Salómó, og sjá: það var
draumur. Og er hann var kominn til Jerúsalem, gekk hann fyrir sátt-
málsörk Jahve og bar fram brennifórnir og fórnaði heillafórnum og
gjörði veizlu öllum þjónum sínum.
[16] Þá komu tvær portkonur til konungs og gengu fyrir hann.
[17] Og önnur konan sagði: Með leyfi, herra minn! eg og kona þessi bú-
um í sama húsinu, og ól eg barn í húsinu hjá henni. [18] En á þriðja
degi eftir að eg hafði alið barnið, ól og kona þessi barn; og við vorum
saman og enginn annar hjá okkur í húsinu; við vorum tvær einar í húsinu.
[19] Þá dó sonur þessarar konu um nótt, af því að hún hafði lagst ofan á
hann. [20] En hún reis á fætur um miðja nótt og tók son minn frá
mér, meðan ambátt þín svaf, og lagði hann að brjósti sér, en dauða

**44:** 2 Sam. 16, 5 n. — **3, 4:** 2 Kron. 1, 3–5. **5:** 2 Kron. 1, 7 n. **6:** kap. 1, 48.
**7:** 4 Mós. 27, 17. **12:** kap. 4, 31. **13:** Matt. 6, 33.

soninn sinn lagði hún að brjósti mér. [21] En er eg reis um morgun-
inn og ætlaði að gefa syni mínum að sjúga, sjá, þá var hann dauður.
Og er eg virti hann fyrir mér um morguninn, sjá, þá var það ekki sonur
minn, sá er eg hafði fætt. [22] En hin konan sagði: Nei, það er minn
sonur, sem er lifandi, en þinn sonur er dauður. Og hin sagði: Nei,
það er þinn sonur, sem er dauður, en minn sonur, sem er lif-
andi. Þannig þráttuðu þær frammi fyrir konungi. [23] Þá mælti konungur:
Önnur segir: Það er minn sonur, sem er lifandi, og þinn sonur, sem
er dauður. En hin segir: Nei, það er þinn sonur, sem er dauður, en
minn sonur, sem er lifandi. [24] Og konungur sagði: Færið mér sverð.
Og þeir færðu konungi sverðið. [25] Þá mælti konungur: Höggvið sund-
ur barnið, sem lifir, í tvo hluti og fáið sinn helminginn hvorri. [26] Þá
sagði konan, sem átti lifandi barnið, við konung — því að ástin til
barnsins brann í brjósti hennar — hún mælti: Æ, herra minn, gefið
henni barnið, sem lifir, en deyðið það ekki. En hin sagði: Njóti þá
hvorug okkar þess; höggvið það sundur. [27] Þá svaraði konungur og
sagði: Fáið henni barnið, sem lifir, en deyðið það ekki; hún er móðir
þess. [28] Og allur Ísrael heyrði dóminn, sem konungur hafði dæmt; og
þeir óttuðust konung, því að þeir sáu, að hann var gæddur guðlegri
speki til þess að kveða upp dóma.

### Embættismenn Salómós; vegur hans og vizka.

4 Þannig var Salómó konungur konungur yfir öllum Ísrael. [2] Og
þessir voru æðstir embættismenn hans: Asarja Zadóksson var
prestur, [3] Elíhóref og Ahía Sísasynir voru kanzlarar, Jósafat Ahílúðs-
son var sagnameistari, [4] Benaja Jójadason var yfir hernum, Zadók og
Abjatar voru prestar, [5] Asarja Natansson var yfir fógetunum og Sabúð
Natansson prestur var stallari konungs. [6] Ahísar var dróttseti og Ad-
óníram Abdasson var yfir kvaðarmönnum. [7] Og Salómó hafði tólf fóg-
eta yfir öllum Ísrael; skyldu þeir birgja konung og hirð hans að vist-
um sinn mánuðinn hver á ári hverju. [8] Og þetta eru nöfn þeirra:
Ben-Húr á Efraímfjöllum; [9] Ben-Deker í Makaz og í Saalbím og Bet-
Semes og Elon, alt að Bet-Hanan. [10] Ben-Heseð í Arúbbót; honum
tilheyrði Sókó og alt Heferland. [11] Ben-Abínadab hafði alt Dór-hálendi;
átti hann Tafat, dóttur Salómós, fyrir konu. [12] Baana Ahílúðsson: Taa-
nak og Megiddó og alt Bet-Sean, sem liggur hjá Zartan fyrir neðan
Jesreel, frá Bet-Sean til Abel-Mehóla, alt vestur fyrir Jokmeam. [13] Ben-
Geber í Ramót í Gíleað, honum tilheyrðu þorp Jaírs Manassesonar í
Gíleað; honum tilheyrði landsspildan Argób í Basan, sextíu stórar borg-
ir, með múrveggjum og slagbröndum af eiri. [14] Ahínadab Íddóson í
Mahanaím. [15] Akímaaz í Naftalí; hann hafði og gengið að eiga Basmat
dóttur Salómós. [16] Baana Húsaíson í Asser og Bealót. [17] Jósafat Par-
úason í Íssakar; [18] Símeí Elason í Benjamín; [19] Geber Úríson í Gíle-
aðlandi, landi Síhons Amóríta konungs og Ógs, konungs í Basan; hann
einn var fógeti í því landi. [20] Júda og Ísrael voru fjölmennir, sem
sandur á sjávarströndu; þeir átu og drukku og voru glaðir.
[21] Og Salómó drotnaði yfir öllum konungaríkjum frá Fljótinu til
Filistalands og til landamæra Egiptalands; færðu þeir Salómó skatt og
voru þegnskyldir honum alla æfi hans. [22] Og Salómó þurfti daglega til
matar þrjátíu kór af hveiti og sextíu kór af mjöli, [23] tíu alda uxa og
tuttuga uxa haggenga og hundrað sauði, auk hjarta, skógargeita, dá-
hjarta og alifugla. [24] Því að hann réð yfir öllu landi fyrir vestan Fljót-

---

**26:** Jes. 49, 15. — **4, 4:** kap. 2, 35. **6:** kap. 5, 13. 14. **20:** kap. 3, 8. 1 Mós. 22, 17. **21:** 2 Kron. 9, 26.

ið, frá Tífsa til Gasa, yfir öllum konungum fyrir vestan Fljótið, og
hafði frið á allar hliðar hringinn í kring, [25] svo að Júda og Ísrael
bjuggu öruggir, hver maður undir sínu víntré og fíkjutré, frá Dan til
Beerseba, alla æfi Salómós. [26] Og Salómó hafði fjörutíu þúsund vagn-
eyki og tólf þúsund reiðhesta. [27] Og fógetar þessir birgðu Salómó kon-
ung að vistum og alla þá, er komu að borði Salómós konungs, sinn
mánuðinn hver; létu þeir ekkert skorta. [28] Og bygg og hey handa ak-
hestunum og gæðingunum fluttu þeir þangað, er hann var, hver eftir
því sem honum bar.

[29] Og Guð veitti Salómó afarmikla speki og vizku og djúpsæi
andans, sem sandur er margur á sjávarströnd, [30] og speki Salómós var
meiri en speki allra austurbyggja og öll speki Egiptalands. [31] Og hann
var allra manna vitrastur, vitrari en Etan Esrahíti og Heman og Kal-
kól og Darda Mahólssynir, og hann var nafnfrægur með öllum þjóðum
umhverfis. [32] Og hann mælti þrjú þúsund orðskviðu, og ljóð hans
voru eitt þúsund og fimm að tölu. [33] Og hann talaði um trén, alt frá
sedrustrjánum á Líbanon til ísópsins, sem sprettur á múrveggnum. Og
hann talaði um fénað og fugla, orma og fiska, [34] og menn komu af
öllum þjóðum til þess að heyra speki Salómós, frá öllum konungum
jarðarinnar, er heyrðu speki hans getið.

### Salómó gjörir samning við Híram og undirbýr musterisbygginguna.

5 Híram konungur í Týrus sendi þjóna sína til Salómós, því að
hann hafði heyrt að hann hefði verið smurður til konungs í stað
föður síns, en Híram hafði ætíð verið góðvinur Davíðs. [2] Og Salómó
*sendi* til Hírams og lét segja honum: [3] Þú veizt sjálfur að Davíð faðir
minn mátti eigi reisa hús nafni Jahve, Guðs síns, vegna ófriðar þess,
er hann varð að eiga í á allar hliðar, unz Jahve lagði óvini hans und-
ir iljar honum. [4] En nú hefir Jahve, Guð minn, veitt mér frið alt um-
hverfis; á eg engan mótstöðumann og ekkert er framar að meini.
[5] Fyrir því hefi eg í hyggju að reisa hús nafni Jahve, Guðs míns, eins
og Jahve sagði við Davíð föður minn, er hann mælti: Sonur þinn, er
eg set í hásæti þitt í þinn stað, hann skal reisa hús mínu nafni. [6] Bjóð
því nú að höggva sedrustré á Líbanon handa mér, og þjónar mínir
skulu vera með þínum þjónum; skal eg greiða þér kaup fyrir þjóna
þína, slíkt er þú sjálfur tiltekur. Því að þú veizt sjálfur, að með oss
er enginn maður, er kunni að skógarhöggi sem Zídoningar.

[7] Þegar Híram heyrði orðsending Salómós, varð hann harla glað-
ur og sagði: Lofaður sé Jahve í dag, er gefið hefir Davíð vitran son
til að ríkja yfir þessari fjölmennu þjóð. [8] Og Híram sendi til Salómós
og lét segja honum: Eg hefi heyrt þá orðsending, er þú gjörðir mér;
skal eg gjöra að ósk þinni um sedrusviðinn og kýpresviðinn. [9] Mínir
menn skulu flytja viðinn ofan frá Líbanon til sjávar og eg skal láta
leggja hann í flota í sjónum og flytja þangað sem þú segir til um; þar
læt eg taka sundur flotana, en þú lætur sækja. En þú skalt gjöra að
ósk minni og láta mig fá vistir handa hirð minni. [10] Og Híram lét
Salómó fá eins mikið af sedrusviði og kýpresviði og hann vildi. [11] En
Salómó lét Híram fá tuttugu þúsund kór af hveiti til matar fyrir hirð
hans og tuttugu þúsund bat af olíu úr steyttum olíuberjum. Þetta lét
Salómó Híram fá á ári hverju. [12] Og Jahve hafði veitt Salómó speki,
eins og hann hafði heitið honum. Og það fór vel á með þeim Híram
og Salómó, og þeir gjörðu sáttmála sín á milli.

---

**25:** Mík. 4, 4. Sak. 3, 10. **26:** 2 Kron. 9, 25. **32:** Préd. 12, 9. **34:** kap. 10, 1 n.
— 5, **2:** 2 Kron. 2, 3 n. **5:** 2 Sam. 7, 13. 1 Kron. 22, 10. **7:** 2 Kron. 2, 12. **12:**
kap. 3, 12.

[13] Og Salómó konungur bauð út kvaðarmönnum úr öllum Ísrael,
og urðu kvaðarmennirnir þrjátíu þúsundir að tölu. [14] Og hann sendi
þá til skiftis til Líbanon, tíu þúsundir á mánuði hverjum; skyldu þeir
vera einn mánuð á Líbanon, en tvo mánuði heima hjá sér; og Adón-
íram var yfir kvaðarmönnum. [15] Og Salómó hafði sjötíu þúsund burð-
armenn og áttatíu þúsund steinhöggvara í fjöllunum, [16] auk yfirfógeta
Salómós, er fyrir verkinu stóðu, þrjú þúsund og þrjú hundruð að tölu;
skyldu þeir hafa umsjón með þeim mönnum, er verkið unnu. [17] Og að
boði konungs hjuggu þeir stóra steina, ágæta steina, til þess að byggja
musterisgrunninn úr höggnu grjóti. [18] Og smiðir Salómós og Hírams og
Giblítar hjuggu þá til, undirbjuggu viðinn og steinana, til þess að
reisa musterið.

## Musterið bygt.

6 Á fjögur hundruð og átttugasta ári frá því, er Ísraelsmenn fóru
af Egiptalandi, fjórða árið, sem Salómó ríkti yfir Ísrael, í sív-
mánuði — það er öðrum mánuðinum — reisti hann Jahve musterið.
[2] Og musterið, sem Salómó konungur reisti Jahve, var sextíu álnir á lengd,
tuttugu álnir á breidd og þrjátíu álnir á hæð. [3] Og forsalurinn fyrir framan
musterishúsið var tuttugu álnir á lengd fram með musterisendanum og
tíu álnir á breidd fram af musterinu. [4] Og hann gjörði glugga á
musterið með föstum grindum fyrir. [5] Og upp að musterisveggnum
hringinn í kring reisti hann hliðarhús, — upp að musterisveggjunum,
hringinn í kring um aðalhúsið og innhúsið og gjörði stúkur alt í kring.
[6] Pallgólf þessa hliðarhúss var fimm álnir á breidd; neðra loftið sex
álnir á breidd og efra loftið sjö álnir á breidd, því að hann hafði sett
stalla utan á húsið hringinn í kring, til þess að bitarnir skyldu ekki
ganga inn í musterisveggina. [7] Og er musterið var reist, var bygt úr
steinum, sem höfðu verið höggnir til þegar grjótið var tekið, svo að
hvorki heyrðist hamarshljóð né axar, né nokkurs annars járntóls, meðan
á byggingu musterisins stóð. [8] Dyrnar á pallgólfi hliðarhússins voru á
suðurhlið musterisins og var gengið upp um hringstiga upp á neðra
loftið og af neðra loftinu upp á efra loftið. [9] Og þannig reisti hann
musterið og lauk við það og þakti musterið með bjálkum og þiljum
úr sedrusviði. [10] Og hann reisti hliðarhús utan um alt musterið, fimm
álnir á hæð hvert lyfti, og tengdi þau við musterið með sedrusviði.
[11] Þá kom orð Jahve til Salómós svolátandi: [12] Musteri þetta, sem
þú ert að byggja — ef þú gengur eftir boðorðum mínum og breytir
eftir lögum mínum og varðveitir allar skipanir mínar með því að ganga
eftir þeim, þá mun eg efna heit mitt við þig, er eg gaf Davíð föður
þínum, [13] og eg mun búa meðal Ísraelsmanna og eigi yfirgefa lýð
minn Ísrael. [14] Þannig bygði Salómó musterið og lauk við það.
[15] Og hann þiljaði musterisveggina að innan með sedrusviði; frá
gólfi hússins upp að loftbjálkum þiljaði hann það að innan með viði,
og lagði gólf í húsið úr kýpresviðarborðum. [16] Og hann þiljaði tuttugu
álnir aftan af húsinu neðan frá gólfi og upp undir bjálka með sedrus-
viði; gjörði hann þannig úr því að innan innhús, það er hið allra-
helgasta. [17] Og húsið var fjörutíu álnir, það er aðalhúsið fyrir framan
innhúsið. [18] Innan á húsinu var sedrusviður, útskorinn með kóló-
kvintum og blómsveigum; var það alt af sedrusviði og sá hvergi í stein.
[19] Og hann bjó út innhús inni í musterinu, til þess að þangað mætti
flytja sáttmálsörk Jahve. [20] Og fyrir framan innhúsið — en það var

---

**14:** kap. 4, 6. **15:** 2 Kron. 2, 18. **18:** Esek. 27, 9. — **6, 1:** 2 Kron. 3, 1 n. **7:** 5 Mós. 27, 6. **12:** 2 Sam. 7, 13 n. **13:** 2 Mós. 29, 45. 3 Mós. 26, 11.

tuttugu álnir á lengd, tuttugu álnir á breidd og tuttugu álnir á hæð
og hann lagði það skíru gulli — gjörði hann altari af sedrusviði. [21] Og
Salómó lagði húsið með skíru gulli að innan og hann dró gullfestar
fyrir kórinn og lagði hann gulli. [22] Og alt húsið lagði hann gulli —
algjörlega alt húsið; einnig lagði hann gulli alt altarið, sem tilheyrði
innhúsinu.
[23] Og hann gjörði í innhúsinu tvo kerúba af olíuviði tíu álna háa.
[24] En hvor vængur annars kerúbsins var fimm álnir og hvor vængur
hins kerúbsins fimm álnir, svo að tíu álnir voru frá enda annars
vængsins til enda hins vængsins. [25] Og hinn kerúbinn var og tíu álnir;
báðir voru kerúbarnir jafnstórir og eins að gerð. [26] Annar kerúbinn
var tíu álnir á hæð, svo og hinn kerúbinn. [27] Og hann setti kerúbana
upp inni í innra húsinu, og breiddu þeir út vængina, svo að annar
vængur annars nam við vegginn og hinn vængur hins kerúbsins nam
við hinn vegginn, en í miðju húsinu námu vængir þeirra hvor við
annan. [28] Og hann lagði kerúbana gulli. [29] Og hann lét skera út á
veggina hringinn í kring kerúba, pálma og blómfléttur, inni og fyrir
utan. [30] Gólf hússins lagði hann og gulli, inni og fyrir utan. [31] Fyrir
dyr innhússins lét hann gjöra vængjahurð úr olíuviði. Umgjörðin yfir
dyrunum og dyrustafirnir mynduðu fimmhyrning. [32] Á báðar vængja-
hurðirnar, sem voru úr olíuviði, lét hann skera kerúba, pálma og
blómfléttur og leggja gulli, en kerúbana og pálmana lagði hann slegnu
*gulli.* [33] Og fyrir dyr aðalhússins lét hann sömuleiðis gjöra ferstrenda
dyrustafi af olíuviði [34] og tvær vængjahurðir af kýpresviði; var hvor
vængurinn um sig gjörður af tveimur hlerum, er léku á hjörum. [35] Og
hann lét skera kerúba, pálma og blómfléttur á þá og lagði það gulli,
sem út var skorið. [36] Og hann gjörði vegginn um innri forgarðinn úr
þrem lögum af höggnum steini og einu lagi af sedrusbjálkum.
[37] Á fjórða ári var grundvöllurinn lagður að húsi Jahve, í sív-
mánuði. [38] Og á ellefta ári, í búl-mánuði — það er áttundi mánuð-
urinn — var húsið fullgjört í öllum greinum, með öllu sem því til-
heyrði. Í sjö ár var hann að byggja það.

## Salómó byggir höll.

7 En höll sína var Salómó að byggja í þrettán ár og fullgjörði
þannig alt sitt hús. [2] Hann bygði Líbanonsskógarhúsið, er var
hundrað álnir á lengd, fimtíu álnir á breidd og þrjátíu álnir á hæð, á
þrem sedrussúlnaröðum, og á súlunum hvíldu bjálkar af sedrusviði.
[3] Og það var þakið sedrusviði uppi yfir hliðarherbergjunum, er hvíldu
á fjörutíu og fimm súlum, fimtán í hverri röð. [4] Og gluggaraðirnar
voru þrjár, og ljóri gegnt ljóra þrem sinnum. [5] Og allar dyr og allir
ljórar voru ferhyrndir, og ljóri var gegnt ljóra þrem sinnum. [6] Og
hann gjörði súlnasal, fimtíu álnir á lengd og þrjátíu álnir á breidd, og
forsal þar fyrir framan og súlur og pall þar fyrir framar. [7] Og hann
bygði hásætissal, þar sem hann kvað upp dóma — dómhöllina, og hún
var þiljuð sedrusviði frá gólfi til lofts. [8] Og hús hans, þar er hann
bjó, í öðrum garðinum, inn af forsalnum, var gjört á sama hátt.
Salómó gjörði og hús, eins og forsalinn, handa dóttur Faraós, er hann
hafði gengið að eiga.
[9] Alt þetta var bygt af ágætum steinum, er voru höggnir til eftir
máli, sagaðir með sög innan og utan, frá undirstöðum og upp á vegg-
brúnir, og að utan alt að forgarðinum mikla. [10] Og undirstaðan var
úr ágætum steinum, stórum steinum, tíu álna steinum og átta álna

**23:** 2 Mós. 25, 18 n. 37, 7 n. **37:** v. 1. — **7, 1:** kap. 9, 10. **8:** kap. 3, 1.

steinum. 11 Og þar á ofan voru ágætir steinar, höggnir eftir máli, og
sedrusviður. 12 Og forgarðurinn mikli var gjörður alt um kring af
þrem lögum af höggnum steini og einu lagi af sedrusbjálkum, svo og
innri forgarður musteris Jahve og forgarðurinn að súlnasal hallarinnar.

## Súlur musterisins og áhöld þess.

13 Og Salómó konungur sendi og lét sækja Híram frá Týrus.
14 Hann var sonur ekkju nokkurrar af ættkvísl Naftalí, en faðir hans
var ættaður frá Týrus og var koparsmiður; var hann fullur hagleiks,
skilnings og kunnáttu til að gjöra alls konar smíðar af eiri. Hann
kom til Salómós konungs og smíðaði allar smíðar fyrir hann. 15 Hann
steypti báðar súlurnar í forsal musterisins af eiri. Önnur súlan var
átján álnir á hæð, og tólf álna langan þráð þurfti til þess að ná utan
um hana; súlan var fjögra fingra þykk, hol að innan; á sama hátt
gjörði hann hina súluna. 16 Og hann gjörði tvö höfuð steypt af eiri,
til þess að setja ofan á súlurnar; var hvort höfuð fimm álnir á hæð.
17 Á höfðunum, sem voru á súlunum, var sem riðið net og fléttur,
gjörðar af festum, sjö fyrir hvort höfuð. 18 Og hann gjörði granatepli,
tvær raðir alt í kring, utan á öðru netinu, til þess að hylja höfuðin,
sem voru ofan á súlunum; eins gjörði hann á hinu höfðinu. 19 Og
höfuðin, sem voru ofan á súlunum í forsalnum, voru liljumynduð,
fjórar álnir. 20 Á báðum súlunum voru höfuð, einnig að ofan, hjá
bungunni undir riðna netinu; granateplin voru tvö hundruð að tölu, í
röðum hringinn í kring um hitt höfuðið. 21 Og hann reisti súlurnar
við forsal aðalhússins; hann reisti hægri súluna og kallaði hana Jakín,
og hann reisti vinstri súluna og kallaði hana Bóas. 22 Og efst voru
súlurnar liljumyndaðar. Þannig var súlnasmíðinu lokið.
23 Og hann gjörði hafið og var það steypt af eiri; það var tíu
álnir af barmi og á, kringlótt og fimm álnir á dýpt og þrjátíu álna
snúra lá um það. 24 En neðan á barminum alt í kring voru kóló-
kvintar, tíu á hverri alin, er mynduðu hring utan um hafið, tvær raðir
af kólókvintum, og voru þeir samsteyptir hafinu. 25 Það stóð á tólf
nautum, sneru þrjú í norður, þrjú í vestur, þrjú í suður, þrjú í austur;
hvíldi hafið á þeim, og sneru allir bakhlutir þeirra inn. 26 Það var
þverhandarþykt og barmur þess í laginu sem barmur á bikar, líkt og
liljublóm. Það tók tvö þúsund bat.
27 Hann gjörði og undirstöðupallana, tíu að tölu, af eiri; var hver
pallur fjórar álnir á lengd, fjórar álnir á breidd og þrjár álnir á hæð.
28 En hver undirstöðupallanna var svo gjörður: Á þeim voru speld, og
það milli brúnalistanna. 29 En á speldunum, sem voru milli brúnalist-
anna, voru ljón, naut og kerúbar, og eins á brúnalistunum. Og bæði
fyrir ofan og fyrir neðan ljónin og nautin voru hangandi blómfestar.
30 Og undir hverjum palli voru fjögur hjól af eiri og ásar af eiri. Og
á fjórum hornum þess voru axlir. Voru axlirnar steyptar undir kerið;
gegnt hverri þeirra voru blómfestar. 31 En opin á þeim voru fyrir inn-
an axlirnar alin á hæð; og opin voru kringlótt, hálf önnur alin; og
einnig á börmum opsins voru grafnar myndir; speldin voru ferskeytt,
ekki kringlótt. 32 Og hjólin fjögur voru undir speldunum og hjólhald-
ararnir festir við pallinn. En hvert hjól var hálf önnur alin á hæð.
33 Og hjólin voru gjörð eins og vagnhjól; haldarar þeirra, hringir, spelir
og nafir — alt var það steypt. 34 Og á fjórum hornum hvers palls
voru fjórar axlir; gengu axlirnar upp af pöllunum. 35 Og uppi á pall-

**13:** 2 Kron. 2, 13 n. **14:** 2 Mós. 31, 3. 4. **15:** 2 Kong. 25, 17. 2 Kron. 3, 15. **23:**
2 Kron. 4, 2 n.

inum var eins konar standur, hálf alin á hæð, alstaðar sívalur; og of-
an á pallinum voru haldarar hans og speld og gengu upp úr honum.
36 Og á fleti haldara hans og á speld hans gróf hann kerúba, ljón og
pálma, eftir því sem rúm var til á hverju, og blómfestar í kring.
37 Á þennan hátt gjörði hann undirstöðupallana tíu; þeir voru allir eins
steyptir, jafnstórir og af sömu gerð. 38 Þá gjörði hann tíu ker af eiri;
tók hvert ker fjörutíu bat; hvert ker var fjórar álnir að þvermáli. Eitt
ker var á hverjum pallanna tíu. 39 Og hann setti fimm pallana hægra-
megin í húsið og fimm vinstramegin; en hafið setti hann hægrameg-
in í húsið, í austur, gegnt suðri.

40 Og Híram gjörði kerin, eldspaðana og fórnarskálarnar, og þannig
lauk Híram við allar þær smíðar, er hann hafði gjört fyrir Salómó
konung í hús Jahve: 41 tvær súlur og tvær kúlur á súlnahöfðunum og
bæði riðnu netin, er hylja áttu báðar kúlurnar á súlnahöfðunum, 42 og
fjögur hundruð granateplin á bæði netin, tvær raðir af granateplum á
hvort net, er hylja áttu báðar kúlurnar á súlnahöfðunum; 43 enn frem-
ur undirstöðupallana tíu og kerin tíu á undirstöðupöllunum, 44 og hafið
og tólf nautin undir hafinu, 45 og katlana, eldspaðana og fórnarskál-
arnar, og öll þessi áhöld, er Híram hafði gjört fyrir Salómó konung í
hús Jahve, voru úr skygðum eiri. 46 Lét konungur steypa þau á
Jórdan-sléttlendinu í leirmótum, milli Súkkót og Zaretan.

47 Og Salómó lét áhöldin vera óvegin, af því að þau voru afar-
*mörg*; þyngd eirsins var eigi rannsökuð. 48 Og Salómó gjörði öll þau
áhöld, sem voru í húsi Jahve: gullaltarið og borðið, sem skoðunar-
brauðin lágu á, af gulli, 49 og ljósastikurnar, fimm hægramegin og
fimm vinstramegin, fyrir framan innhúsið af skíru gulli, og blómin,
lampana og ljósasöxin af gulli, 50 og katlana, skarbítana, fórnarskálarn-
ar, bollana, eldpönnurnar af skíru gulli. Hjarirnar á vængjahurðum
insta hússins, hins allrahelgasta, og á vængjahurðum musterisins, að-
alhússins, voru og af gulli.

51 Og er öllu því verki var lokið, er Salómó konungur lét gjöra í
húsi Jahve, þá flutti Salómó helgigjafir Davíðs föður síns inn í það,
silfrið og gullið, en áhöldin lét hann í féhirzlur Jahve húss.

## Musterisvígslan.

8 Þá safnaði Salómó saman öldungum Ísraels og öllum foringjum
kynþáttanna, ætthöfðingjum Ísraelsmanna, til Salómós konungs í
Jerúsalem, til þess að flytja sáttmálsörk Jahve upp eftir frá Davíðs-
borg, það er Zíon. 2 Þá söfnuðust allir Ísraelsmenn til Salómós kon-
ungs í etaním-mánuði á hátíðinni; er sá mánuður hinn sjöundi. 3 Þá
komu allir öldungar Ísraels, og prestarnir tóku örkina; 4 og þeir fluttu
örk Jahve og samfundatjaldið og öll hin helgu áhöld, er í tjaldinu
voru; fluttu prestarnir og Levítarnir þau upp eftir. 5 En Salómó kon-
ungur og allur Ísraelssöfnuður, er safnast hafði til hans, stóð ásamt
honum frammi fyrir örkinni; fórnuðu þeir sauðum og nautum, er eigi
varð tölu né ætlan á komið fyrir fjölda sakir. 6 Og prestarnir fluttu
sáttmálsörk Jahve á sinn stað, í innhús musterisins, inn í hið allra-
helgasta, inn undir vængi kerúbanna, 7 því að kerúbarnir breiddu út
vængina þar yfir, er örkin stóð, og þannig huldu kerúbarnir örkina og
stengur hennar ofan frá. 8 Og stengurnar voru svo langar, að stangar-
endarnir sáust frá helgidóminum fyrir framan innhúsið, en utan að sá-

**38:** 2 Kron. 4, 6. **40:** 2 Mós. 27, 3. 2 Kron. 4, 11 n. **41:** v. 15—20. **44:** v. 23—26. **45:** v. 40. **49:** 2 Kron. 4, 7. **51:** 2 Sam. 8, 10—12. 2 Kron. 5, 1. — **8, 1:** 2 Kron. 5, 2 n. **6:** 2 Mós. 26, 33. 34.

ust þeir ekki, og þær hafa verið þar fram á þennan dag. 9 Í örkinni
var ekkert nema steintöflurnar tvær, er Móse hafði lagt þar við Hóreb,
töflur sáttmálans, er Jahve gjörði við Ísraelsmenn, þá er þeir fóru af
Egiptalandi.

10 En er prestarnir gengu út úr helgidóminum, fylti ský hús Jahve,
11 og máttu prestarnir eigi inn ganga fyrir skýinu, til þess að gegna
þjónustu, því að dýrð Jahve fylti hús Jahve. 12 Þá mælti Salómó:

Sólina setti hann á himininn,
en Jahve hefir sjálfur sagt, að hann vilji búa í dimmu.
13 Nú hefi eg bygt hús þér til bústaðar,
aðseturstað handa þér um eilífð.

Svo er ritað í ljóðabókinni.

14 Þá sneri konungur sér við og blessaði allan Ísraelssöfnuð, en
allur Ísraelssöfnuður stóð. 15 Og hann mælti: Lofaður sé Jahve, Ísra-
els Guð, er talaði með munni sínum við Davíð föður minn og efndi
með hendi sinni það, er hann lofaði, þá er hann sagði: 16 Frá því er
eg leiddi lýð minn Ísrael út af Egiptalandi, hefi eg ekki útvalið neina
borg af öllum ættkvíslum Ísraels, til þess að byggja þar hús, þar sem
nafn mitt skyldi búa. En nú hefi eg útvalið Jerúsalem, til þess að
nafn mitt búi þar, og eg útvaldi Davíð, til þess að hann skyldi ríkja
yfir lýð mínum Ísrael. 17 Og Davíð faðir minn hafði í hyggju að reisa
hús nafni Jahve, Ísraels Guðs, 18 en Jahve sagði við Davíð föður minn:
Vel gjörðir þú, er þú ásettir þér að reisa hús nafni mínu. 19 En eigi
skalt þú reisa húsið, heldur skal sonur þinn, sá er út gengur af lend-
um þínum, reisa hús nafni mínu. 20 Og Jahve hefir efnt orð sín, þau
er hann talaði, því að eg kom í stað Davíðs föður míns og settist í
hásæti Ísraels, svo sem Jahve hafði heitið, og hefi nú reist hús nafni
Jahve, Ísraels Guðs. 21 Og þar bjó eg örkinni stað, sem í er sáttmál
Jahve, það er hann gjörði við feður vora, þá er hann leiddi þá út af
Egiptalandi.

22 Og Salómó gekk fyrir altari Jahve í viðurvist alls Ísraelssafn-
aðar, fórnaði höndum til himins 23 og mælti: Jahve, Guð Ísraels, enginn
guð er sem þú á himnum uppi eða á jörðu niðri, þú sem heldur sátt-
málann og miskunnsemina við þjóna þína, þá er ganga fyrir augliti
þínu af öllu hjarta sínu; 24 þú sem hefir haldið það við þjón þinn,
Davíð föður minn, er þú hézt honum; þú talaðir það með munni þín-
um og efndir það með hendi þinni, eins og nú er fram komið. 25 Efn
nú, Jahve, Ísraels Guð, við þjón þinn, Davíð föður minn, það er þú
hézt honum, þá er þú sagðir: Eigi skal þig vanta eftirmann frammi
fyrir mér, er sitji í hásæti Ísraels, ef synir þínir aðeins varðveita vegu
sína, með því að ganga fyrir augliti mínu, eins og þú hefir gengið fyrir
augliti mínu. 26 Og lát nú, Ísraels Guð, rætast orð þín, þau er þú tal-
aðir við þjón þinn, Davíð föður minn.

27 En mun Guð í sannleika búa á jörðu? Sjá, himininn og himn-
anna himnar taka þig ekki, hve miklu síður þá þetta hús, sem eg hefi
reist. 28 En snú þér, Jahve, Guð minn, að bæn þjóns þíns og grátbeiðni
hans, að þú heyrir ákall það og bæn, er þjónn þinn ber fram fyrir
þig í dag: 29 að augu þín séu opin yfir þessu húsi dag og nótt, yfir
þeim stað, er þú hefir um sagt: Þar skal nafn mitt búa; — að þú
heyrir bæn þá, er þjónn þinn biður á þessum stað. 30 Og heyr þú
grátbeiðni þjóns þíns og lýðs þíns Ísraels, er þeir fram bera á þessum

---

**9:** 2 Mós. 25, 16. 21. **10:** 2 Mós. 40, 34. 4 Mós. 9, 15. **12:** 3 Mós. 16, 2. 2 Mós. 20, 21. 2 Kron. 6, 1 n. **14:** 2 Sam. 6, 18. **16:** 2 Sam. 7, 6 n. **17:** 2 Sam. 7, 2 n. 1 Kron. 17, 1 n. **21:** 5 Mós. 31, 26. **27:** Jes. 66, 1. Post. 7, 48; 17, 24. **29:** 5 Mós. 12, 11.

stað, já heyr þú hana þar er þú býr, á himnum, og fyrirgef, er þú heyrir.
31 Ef einhver gjörir á hluta náunga síns, og hann verður eiðs krafinn
og látinn sverja, og hann kemur og vinnur eiðinn fyrir altari þínu í
húsi þessu, 32 þá heyr þú það á himnum, tak í taumana og dæm þjóna
þína, með því að sakfella hinn seka og láta honum gjörðir hans í koll
koma, en sýkna hinn saklausa og umbuna honum eftir réttlæti hans.
33 Ef lýður þinn Ísrael bíður ósigur fyrir óvinum sínum, af því
að þeir hafa syndgað í móti þér, og þeir snúa sér til þín og játa þitt
nafn og biðja og grátbæna þig í þessu húsi, 34 þá heyr þú það á himn-
um og fyrirgef synd lýðs þíns Ísraels og leið þá aftur heim til þess
lands, sem þú gafst feðrum þeirra. 35 Ef himininn er byrgður, svo að
eigi nær að rigna, af því að þeir hafa syndgað í móti þér, og þeir biðja
á þessum stað og játa nafn þitt og snúa sér frá syndum sínum, af því
að þú auðmýkir þá, 36 þá heyr þú það á himnum og fyrirgef synd
þjóna þinna og lýðs þíns Ísraels, er þú kennir þeim þann góða veg,
sem þeir eiga að ganga, og gef regn yfir land þitt, það er þú hefir gefið
þínum lýð til eignar. 37 Ef hallæri verður í landinu, ef drepsótt kem-
ur, eða korndrep eða gulnan, engisprettur eða jarðvargar, ef óvinir
hans þrengja að honum í einhverri af borgum hans, eða einhver plága
eða sótt — 38 ef þá einhver maður af öllum lýð þínum Ísrael ber fram
einhverja bæn eða grátbeiðni, af því að hann kennir angurs í hjarta
*sínu*, og fórnar höndum til þessa húss, 39 þá heyr þú það á himn-
*um*, aðseturstað þínum, og fyrirgef og tak í taumana og gef sérhverjum
eins og hann hefir til unnið og svo sem þú þekkir hjarta hans — því
að þú einn þekkir hjörtu allra manna —, 40 til þess að þeir óttist þig
alla þá stund, er þeir lifa í landinu, er þú gafst feðrum vorum. 41 Ef
útlendingur, sem eigi er af lýð þínum Ísrael, en kemur úr fjarlægu
landi vegna nafns þíns, — 42 því að þeir munu heyra getið um þitt
mikla nafn, þína sterku hönd og útréttan armlegg þinn — ef hann
kemur hingað og biður frammi fyrir þessu húsi, 43 þá heyr þú það á
himnum, aðseturstað þínum, og gjör alt það, sem útlendingurinn biður
þig um, til þess að öllum þjóðum jarðarinnar verði kunnugt nafn
þitt, og þær óttist þig, eins og lýður þinn Ísrael, og til þess að þær
megi vita, að hús þetta, sem eg hefi bygt, er kent við þig. 44 Ef lýður
þinn fer í ófrið í móti óvinum sínum, þangað sem þú sendir þá, og
þeir biðja til Jahve og snúa sér í áttina til borgarinnar, sem þú hefir
útvalið, og hússins, sem eg hefi reist þínu nafni, 45 þá heyr þú á himn-
um bæn þeirra og grátbeiðni og rétt þú hlut þeirra. 46 Ef þeir syndga
í gegn þér — því að enginn er sá, er eigi syndgi — og þú reiðist þeim
og gefur þá á vald óvinum þeirra, og sigurvegarar þeirra flytja þá her-
numda til fjandmanna landsins, hvort sem þangað er langt eða skamt,
47 og þeir taka sinnaskifti í landinu, þar sem þeir eru hernumdir, og
þeir snúa sér og grátbæna þig í landi sigurvegara sinna og segja: Vér
höfum syndgað og vér höfum misgjört, vér höfum breytt óguðlega,
48 og þeir snúa sér til þín af öllu hjarta sínu og allri sálu sinni í landi
óvina sinna, er hafa flutt þá burt hernumda, og þeir biðja til þín og
snúa sér í áttina til lands síns, þess er þú gafst feðrum þeirra, til
borgarinnar, sem þú hefir útvalið, og til hússins, sem eg hefi reist þínu
nafni, 49 þá heyr þú á himnum, aðseturstað þínum, bæn þeirra og grát-
beiðni, og rétt þú hlut þeirra, 50 og fyrirgef lýð þínum það, sem þeir
misgjörðu í móti þér, og öll afbrotin, sem þeir drýgðu gegn þér, og
lát þá hljóta miskunn af hendi þeirra, er þá hafa hernumið, svo að

---

**31:** 2 Mós. 22, 10 n. **32:** 5 Mós. 25, 1. **37:** 5 Mós. 28, 22. 52. **39:** 1 Sam. 16, 7. Jer. 17, 10. **46:** Orðskv. 20, 9. Préd. 7, 20. Róm. 3, 23. 1 Jóh. 1, 8. **47:** Sálm. 106, 6. Dan. 9, 5. **48:** Dan. 6, 11.

þeir miskunni þeim. 51 Því að þeir eru þinn lýður og þín eign, sem
þú leiddir út af Egiptalandi, út úr járnbræðslu-ofninum, — 52 að augu
þín séu opin fyrir grátbeiðni þjóns þíns og grátbeiðni lýðs þíns Ísra-
els, að þú bænheyrir þá hve nær sem þeir biðja þig. 53 Því að þú
hefir skilið þá frá öllum þjóðum jarðarinnar þér til eignar, eins og þú
hézt fyrir þjón þinn Móse, þá er þú, drottinn Jahve, leiddir feður vora
af Egiptalandi.

54 En er Salómó hafði lokið allri þessari bæn og grátbeiðni til
Jahve, þá stóð hann upp frammi fyrir altari Jahve, þar sem hann hafði
kropið á kné og fórnað höndum til himins. 55 Gekk hann nú fram og
blessaði allan Ísraelssöfnuð hárri röddu og mælti: 56 Lofaður sé Jahve,
sem veitt hefir hvíld lýð sínum Ísrael, eins og hann hefir heitið; ekk-
ert af öllum hans dýrlegu fyrirheitum, sem hann gaf fyrir þjón sinn
Móse, hefir brugðist. 57 Jahve, Guð vor, sé með oss, eins og hann hefir
verið með feðrum vorum; hann yfirgefi oss ekki og útskúfi oss ekki,
58 heldur hneigi hjörtu vor til sín, svo að vér göngum jafnan á hans
vegum og varðveitum öll hans boðorð, lög og ákvæði, þau er hann
lagði fyrir feður vora. 59 Og þessi mín orð, er eg hefi fram borið fyrir
Jahve með grátbeiðni, séu nálæg Jahve, Guði vorum, dag og nótt, svo
að hann rétti hlut þjóns síns og lýðs síns Ísraels, eftir því sem þörf
gjörist á degi hverjum, 60 til þess að allar þjóðir á jörðunni komist að
raun um, að Jahve er Guð og enginn annar. 61 Og hjörtu yðar séu
heil og óskift gagnvart Jahve, Guði vorum, svo að þér breytið eftir
lögum hans og haldið boðorð hans, eins og nú.

62 En konungur og allur Ísrael með honum fórnaði sláturfórnum
frammi fyrir Jahve. 63 Og Salómó fórnaði tuttugu og tvö þúsund
nautum og hundrað og tuttugu þúsund sauðum í heillafórn, er hann
færði Jahve. Þannig vígði konungur og allir Ísraelsmenn hús Jahve.
64 Þann dag vígði konungur miðhluta forgarðsins, sem er fyrir framan
hús Jahve, því að þar fórnaði hann brennifórninni og matfórninni og
hinum feitu stykkjum heillafórnanna, því að eiraltarið, sem stóð frammi
fyrir Jahve, var of lítið til þess að geta tekið brennifórnina, matfórnina
og hin feitu stykki heillafórnanna. 65 Þannig hélt Salómó þá hátíðina
og allur Ísrael með honum — mikill söfnuður, norðan þaðan er leið
liggur til Hamat, alt suður til Egiptalandsár — frammi fyrir Jahve, Guði
vorum, í sjö daga, og aðra sjö daga, fjórtán daga alls. 66 En áttunda
daginn lét hann fólkið frá sér fara. Og þeir kvöddu konung og
fóru heim til sín, glaðir og í góðu skapi yfir öllum þeim gæðum, sem
Jahve hafði veitt Davíð þjóni sínum og lýð sínum Ísrael.

### Jahve vitrast Salómó annað sinn.

9 Þá er Salómó hafði lokið að byggja musteri Jahve og konungs-
höllina og alt annað, er hann fýsti að gjöra, 2 þá vitraðist Jahve
Salómó annað sinn, eins og hann hafði vitrast honum í Gíbeon. 3 Og
Jahve sagði við hann: Eg hefi heyrt bæn þína og grátbeiðni, sem þú
barst fram fyrir mig; eg hefi helgað þetta hús, sem þú hefir reist, með
því að eg læt nafn mitt búa þar að eilífu, og augu mín og hjarta skulu
dvelja þar alla daga. 4 Ef þú nú gengur fyrir augliti mínu, eins og
Davíð faðir þinn gjörði, í hreinskilni hjartans og einlægni, svo að þú
gjörir alt, sem eg hefi fyrir þig lagt, og heldur lög mín og ákvæði,
5 þá vil eg staðfesta hásæti konungdóms þíns yfir Ísrael að eilífu, eins

---

**51:** 5 Mós. 4, 20. **52:** v. 29. **53:** 2 Mós. 19, 5. 3 Mós. 20, 24. 5 Mós. 14, 2. **56:** Jós. 21, 45; 23, 14. **60:** 5 Mós. 4, 35. 39. **62:** 2 Kron. 7, 4 n. **65:** v. 2. — **9, 1:** 2 Kron. 7, 11 n. **2:** kap. 3, 5. **3:** 5 Mós. 11, 12; 12, 11. **4:** kap. 11, 38.

og eg hét Davíð föður þínum, er eg sagði: Eigi skal þig vanta eftir-
mann í hásæti Ísraels. [6] En ef þér snúið baki við mér, þér og synir
yðar, og varðveitið eigi boðorð mín og lög, þau er eg hefi lagt fyrir
yður, en farið og þjónið öðrum guðum og fallið fram fyrir þeim, [7] þá
mun eg uppræta Ísrael úr því landi, sem eg gaf þeim, og húsinu, sem
eg hefi helgað nafni mínu, mun eg burt snara frá augliti mínu, og Ísrael
skal verða að orðskvið og spotti meðal allra þjóða. [8] Og þetta hús,
svo háreist sem það er — hver sem gengur fram hjá því, honum mun
blöskra og hann mun blístra, og er menn spyrja: Hvers vegna hefir
Jahve leikið svo hart þetta land og þetta hús? [9] munu menn svara:
Af því að þeir yfirgáfu Jahve, Guð sinn, er leiddi feður þeirra af Egipta-
landi, og héldu sér að öðrum guðum, féllu fram fyrir þeim og þjónuðu
þeim, — fyrir því hefir Jahve leitt yfir þá alla þessa ógæfu.

## Frá Salómó og Híram.

[10] Og að tuttugu árum liðnum, þá er Salómó hafði reist bæði
húsin, musteri Jahve og konungshöllina — [11] en Híram konungur í
Týrus hafði hjálpað Salómó um sedrusvið, kýpresvið og gull, eins og
hann vildi —, þá gaf Salómó konungur Híram tuttugu borgir í Galíleu-
héraði. [12] Og Híram fór frá Týrus til þess að skoða borgirnar, er
Salómó hafði gefið honum, en honum líkuðu þær ekki. [13] Þá sagði
hann: Hvaða borgir eru þetta, sem þú hefir gefið mér, bróðir? Fyrir
því hafa þær verið kallaðar Kabúl-hérað fram á þennan dag. [14] En
Híram sendi konungi hundrað og tuttugu talentur gulls.
[15] En svo stóð á vinnuskyldu þeirri, er Salómó konungur lagði á,
til þess að byggja musteri Jahve og höll sína, Milló og múra Jerú-
salem, Hasór, Megiddó og Geser: [16] Faraó Egiptalands-konungur hafði
farið herferð og unnið Geser og lagt eld í hana, en drepið Kanaanítana,
sem bjuggu í borginni, og síðan gefið hana dóttur sinni, konu Salómós,
í heimanmund. [17] En Salómó reisti Geser af nýju og Neðri-Bethóron,
[18] og Baalat og Tamar í óbygðinni í landinu, [19] og allar vistaborgirnar,
sem Salómó átti, og vagnliðsborgirnar og riddaraborgirnar, og alt sem
Salómó fýsti að byggja í Jerúsalem, á Líbanon og í öllu ríki sínu.
[20] Alt það fólk, sem eftir var af Amórítum, Hetítum, Peresítum, Hevít-
um og Jebúsítum, sem eigi heyrðu til Ísraelsmönnum, [21] niðjar þeirra,
sem enn voru eftir í landinu og Ísraelsmenn eigi höfðu getað gjöreytt
— á þá lagði Salómó skylduvinnu, og er svo enn í dag. [22] En af
Ísraelsmönnum gjörði Salómó enga að þrælum, en þeir voru hermenn,
embættismenn hans, hershöfðingjar hans, vagnkappar hans og foringjar
fyrir vagnliði hans og riddaraliði. [23] Þessir voru æðstu fógetarnir, er
settir voru yfir verk Salómós: fimm hundruð og fimtíu; höfðu þeir
eftirlit með mönnum þeim, er að verkinu unnu.
[24] Óðara en dóttir Faraós var farin úr Davíðsborg í hús sitt, það
er hann hafði reist handa henni, bygði hann Milló.
[25] Og þrisvar sinnum á ári fórnaði Salómó brennifórnum og heilla-
fórnum á altarinu, er hann hafði reist Jahve, og færði auk þess reyk-
elsisfórnir á því altari, sem stóð frammi fyrir Jahve. Þannig fullgjörði
hann musterið.
[26] Salómó konungur lét og smíða skip í Ezjón-Geber, sem liggur
hjá Elót á strönd Rauðahafs, í Edómlandi. [27] Og Híram sendi á skipin

---

**6:** kap. 2, 4. 2 Sam. 7, 12 n. 1 Kron. 22, 10. **7:** 5 Mós. 4, 26; 28, 37. **8:** 5 Mós. 29, 24 n. Jer. 22, 8. **10:** kap. 6, 38; 7, 1. 2 Kron. 8, 1. **15:** kap. 5, 13. **16:** kap. 3, 1. **17:** 2 Kron, 8, 4 n. **19:** kap. 10, 26. **21:** Jós. 16, 10. Dóm. 1, 28. **23:** kap. 5, 16. **24:** kap. 3, 1. 2 Kron. 8, 11 n. **26:** 2 Kron. 8, 17 n.

menn sína, farmenn vana sjómensku, ásamt mönnum Salómós. 28 Og
þeir fóru til Ófír og sóttu þangað gull — fjögur hundruð og tuttugu
talentur — og færðu það Salómó konungi.

## Drotningin frá Saba.

10 En er drotningin í Saba spurði orðstír Salómós og orðróminn
af húsinu, sem Salómó hafði reisa látið nafni Jahve, kom hún
til þess að reyna hann með gátum. 2 Hún kom til Jerúsalem með
mjög miklu föruneyti, með úlfalda, klyfjaða kryddjurtum og afarmiklu
gulli og gimsteinum. Og er hún kom til Salómós, bar hún upp fyrir
honum alt, sem henni bjó í brjósti. 3 En Salómó svaraði öllum spurn-
ingum hennar; var enginn hlutur hulinn konungi, er hann eigi gæti
úr leyst fyrir hana. 4 Og er drotningin frá Saba sá alla speki Salómós
og húsið, sem hann hafði reisa látið, 5 matinn á borði hans, bústaði
þjóna hans og frammistöðu skutilsveina hans og klæði þeirra, byrlara
hans og brennifórn hans, þá er hann fram bar í húsi Jahve, þá varð
hún frá sér numin 6 og sagði við konung: Satt var það, er eg heyrði í
landi mínu um þig og speki þína. 7 En eg trúði ekki orðrómnum,
fyr en eg kom og sá það með eigin augum. Og þó hafði eg ekki
frétt helminginn; þú ert miklu vitrari og auðugri en eg hafði frétt.
8 Sælir eru menn þínir, sælir þessir þjónar þínir, sem stöðugt standa
frammi fyrir þér og heyra speki þína. 9 Lofaður sé Jahve, Guð þinn,
sem hafði þóknun á þér, svo að hann setti þig í hásæti Ísraels; af
því að Jahve elskar Ísrael eilíflega, gjörði hann þig að konungi, til
þess að iðka rétt og réttlæti. 10 Síðan gaf hún konungi hundrað og
tuttugu talentur gulls og afarmikið af kryddjurtum og gimsteina; hefir
aldrei síðan hingað komið eins mikið af kryddjurtum eins og það, er
drotningin frá Saba gaf Salómó konungi. 11 Sömuleiðis komu skip
Hírams, er sóttu gull til Ófír, með afarmikið af sandelviði og gim-
steinum frá Ófír. 12 Og konungur lét gjöra handrið í hús Jahve og
konungshöllina af sandelviðnum, svo og gígjur og hörpur handa söng-
mönnunum; hefir aldrei slíkur sandelviður hingað komið eða sést hér
fram á þennan dag. 13 Og Salómó konungur gaf drotningunni frá Saba alt,
er hún girntist og kaus sér, auk þess er hann gaf henni af sinni kon-
unglegu rausn. Hélt hún síðan heimleiðis og fór í land sitt með
föruneyti sínu.

## Auðæfi Salómós.

14 Og gullið, sem Salómó fékk á einu ári, var sex hundruð sextíu
og sex talentur gulls að þyngd, 15 auk þess sem kom inn frá varnings-
mönnum og við verzlun kaupmannanna og frá öllum konungum í Ereb
og jörlum landsins.
16 Og Salómó konungur lét gjöra tvö hundruð skjöldu af slegnu
gulli, fóru sex hundruð siklar gulls í hvern skjöld, 17 og þrjú hundruð
buklara af slegnu gulli, fóru þrjár mínur gulls í hvern buklara. Lét
konungur leggja þá í Líbanonsskógarhúsið. 18 Konungur lét og gjöra
hásæti mikið af fílabeini og lagði það skíru gulli. 19 Gengu sex þrep
upp að hásætinu, og efst var hásætið kringlótt að aftan. Bríkur voru
báðumegin sætisins og stóðu tvö ljón við bríkurnar. 20 Og tólf ljón
stóðu á þrepunum sex báðumegin. Slík smíð hefir aldrei verið gjörð
í nokkuru konungsríki. 21 Öll voru drykkjarker Salómós konungs af

---

**10, 1:** 2 Kron. 9, 1 n. Matt. 12, 42. Lúk. 11, 31. **9:** kap. 5, 7. 2 Kron. 2, 11.
**11:** kap. 9, 27. 28. **17:** kap. 7, 2.

gulli og öll áhöld í Líbanonsskógarhúsinu voru af skíru gulli, ekkert
af silfri, því að silfur var einskis metið á dögum Salómós. [22] Því að
konungur hafði Tarsis-skip í förum með skipum Hírams; þriðja hvert
ár komu Tarsis-skipin heim hlaðin gulli og silfri, fílabeini, öpum og
páfuglum.
[23] Og Salómó konungur bar af öllum konungum jarðarinnar að
auðlegð og vizku. [24] Og allan heiminn fýsti að sjá Salómó, til þess að
heyra vizku hans, sem Guð hafði lagt honum í brjóst. [25] Komu þeir þá
hver með sína gjöf, silfurgripi og gullgripi, klæði og vopn, kryddjurtir,
hesta og múla — ár eftir ár. [26] Og Salómó safnaði vögnum og ridd-
urum, og hafði hann fjórtán hundruð vagna og tólf þúsund riddara;
lét hann þá vera í vagnliðsborgunum og með konungi í Jerúsalem.
[27] Og konungur gjörði silfur eins algengt í Jerúsalem og grjót, og
sedrusvið eins og mórberjatrén, sem vaxa á láglendinu.
[28] Hesta sína fékk Salómó frá Egiptalandi, og sóttu kaupmenn
konungs þá í hópum og guldu fé fyrir, [29] svo að hver vagn, sem feng-
inn var sunnan af Egiptalandi, kostaði sex hundruð sikla silfurs, en
hver hestur hundrað og fimtíu. Og á þennan hátt voru og hestar
fluttir út fyrir milligöngu þeirra til allra konunga Hetíta og konunga
Sýrlendinga.

## Skurðgoðadýrkun Salómós og andlát hans.

11 En auk dóttur Faraós unni Salómó konungur mörgum útlendum
konum, móabítískum, ammónítískum, edómítískum, zídonskum og
hetítskum — [2] konum af þeim þjóðum, er Jahve hafði sagt um við
Ísraelsmenn: Þér skuluð ekki eiga mök við þær og þær skulu ekki
eiga mök við yður; þær munu vissulega snúa hjörtum yðar til guða
sinna — til þeirra feldi Salómó ástarhug. [3] Hann átti sjö hundruð
eiginkonur og þrjú hundruð hjákonur, og konur hans sneru hjarta
hans afleiðis. [4] Og er Salómó var kominn á gamalsaldur, sneru konur
hans hjarta hans til annara guða, og hjarta hans var ekki einlægt
gagnvart Jahve, Guði hans, eins og hjarta Davíðs föður hans hafði
verið. [5] Og Salómó elti Astarte, goð Zídoninga, og Milkóm, viðurstygð
Ammóníta. [6] Og Salómó gjörði það sem ilt var í augum Guðs og sýndi
ekki Jahve fullkomna hlýðni, eins og gjört hafði Davíð faðir hans.
[7] Þá reisti Salómó fórnarhæð fyrir Kamos, viðurstygð Móabíta, á fjall-
inu sem liggur fyrir austan Jerúsalem, og fyrir Mólok, viðurstygð Am-
móníta. [8] Og svo gjörði hann fyrir allar hinar útlendu konur sínar,
sem færðu goðum sínum reykelsisfórnir og sláturfórnir. [9] En Jahve
reiddist Salómó fyrir það að hann sneri hjarta sínu frá Jahve, Ísraels
Guði, sem þó hafði vitrast honum tvisvar [10] og bannað honum að elta
aðra guði, en hann hafði ekki haldið það, sem Jahve bauð honum.
[11] Fyrir því sagði Jahve við Salómó: Sökum þess, að þú hefir farið svo
að ráði þínu og eigi haldið sáttmálann við mig, né skipanir þær, er
eg fyrir þig lagði, þá mun eg rífa frá þér konungdóminn og fá hann í
hendur þjóni þínum. [12] Þó mun eg ekki gjöra það meðan þú ert á lífi,
vegna Davíðs föður þíns, en frá syni þínum mun eg rífa hann. [13] Samt
mun eg eigi rífa frá honum alt konungsríkið; eina ættkvísl mun eg fá
syni þínum í hendur, vegna Davíðs þjóns míns og vegna Jerúsalem,
sem eg hefi útvalið.
[14] Og Jahve vakti Salómó upp mótstöðumann, Hadad Edómíta;
hann var af konungsættinni í Edóm. [15] Þá er Davíð var að eyða

---

**26:** 2 Kron. 1, 14 n. 9, 25. **27:** 2 Kron. 9, 27 n. — **11, 1:** Nehem. 13, 26. 27. 5 Mós. 17, 17. **2:** 5 Mós. 7, 3. 2 Mós. 34, 16. **7:** 4 Mós. 21, 29. 2 Kong. 23, 13. **9:** kap. 3, 5; 9, 2.

Edómítum og Jóab hershöfðingi fór til þess að grafa hina föllnu og
drap alla karlmenn í Edóm — [16] því að Jóab og allur Ísrael var þar
sex mánuði, unz hann hafði gjöreytt öllum karlmönnum í Edóm, —
[17] þá flýði Hadad með nokkura Edómíta, er verið höfðu þjónar föður
hans, og hélt til Egiptalands, en Hadad var þá unglingur. [18] Og þeir
tóku sig upp frá Midian og komu til Paran; og þeir tóku menn með
sér frá Paran og komu til Egiptalands, til Faraós Egiptalands-konungs.
Hann gaf honum hús og fékk honum uppeldi og gaf honum land.
[19] Og Hadad varð mjög þokkaður af Faraó, og gifti hann honum eldri
systur Takpenes konu sinnar. [20] Og systir Takpenes fæddi honum
Genúbat son hans; en Takpenes vandi hann af brjósti í höll Faraós,
og þannig varð Genúbat kyrr í höll Faraós meðal barna Faraós. [21] En
er Hadad frétti til Egiptalands, að Davíð væri lagstur til hvíldar hjá
feðrum sínum og að Jóab hershöfðingi væri dáinn, þá sagði Hadad við
Faraó: Veit mér orlof, að eg megi fara til ættlands míns. [22] En Faraó
svaraði honum: Hvers er þér vant hjá mér, fyrst þú vilt fara til ætt-
lands þíns? Hinn svaraði: Einskis, en veit mér þó fararleyfi.

[23] Og Guð vakti honum upp mótstöðumann, Resón Eljadason,
er hlaupist hafði á brott frá Hadadeser, konungi í Zóba, húsbónda
sínum. [24] Hann safnaði að sér mönnum og gjörðist foringi fyrir ráns-
flokki, þá er Davíð eyddi Sýrlendingum; og hann vann Damaskus,
settist þar að og varð konungur í Damaskus. [25] Hann var mótstöðu-
maður Ísraels meðan Salómó var á lífi, auk þess óskunda, er Hadad
gjörði; hann hafði óbeit á Ísrael og var konungur yfir Sýrlandi.

[26] En Jeróbóam Nebatsson, Efraímíti frá Zereda — móðir hans hét
Zerúa og var ekkja — þjónn Salómós, gjörði og uppreisn gegn kon-
ungi. [27] En að hann gjörði uppreisn gegn konungi atvikaðist þannig:
Salómó var að byggja Milló og bygði svo fyrir skarðið, sem var á borg
Davíðs föður hans, [28] en Jeróbóam þessi var mesti dugnaðarmaður, og
er Salómó sá, að þessi ungi maður var iðjumaður, setti hann hann
yfir alla kvaðarmenn Jósefs ættar. [29] En svo bar til um þetta leyti, er
Jeróbóam fór burt úr Jerúsalem, að Ahía spámaður frá Síló mætti
honum á leiðinni; hann var klæddur nýrri yfirhöfn, og voru þeir tveir
einir úti á víðavangi. [30] Þá þreif Ahía nýju yfirhöfnina, sem hann var
í, reif hana sundur í tólf hluti [31] og sagði við Jeróbóam: Tak þú þér
tíu hluti. Því að svo segir Jahve, Guð Ísraels: Sjá, eg ríf konung-
dóminn frá Salómó og gef þér tíu ættkvíslirnar, — [32] en einni ættkvísl-
inni skal hann halda, sakir þjóns míns Davíðs og sakir Jerúsalem, borg-
arinnar, sem eg hefi útvalið af öllum ættkvíslum Ísraels — [33] sökum þess
að þeir hafa yfirgefið mig og fallið fram fyrir Astarte, goði Zídoninga,
Kamos, goði Móabíta, og Milkóm, goði Ammóníta, og eigi gengið á
mínum vegum með því að gjöra það, sem rétt er í mínum augum, og
halda lög mín og ákvæði, eins og gjörði Davíð faðir hans. [34] En eigi
vil eg taka af honum alt ríkið, heldur vil eg láta hann vera þjóðhöfð-
ingja alla æfi, sakir Davíðs þjóns míns, er eg útvaldi, en hann hélt á-
kvæði mín og lög. [35] En eg vil taka konungdóminn frá syni hans og
gefa þér hann, tíu ættkvíslirnar; [36] en syni hans mun eg gefa eina ætt-
kvísl, svo að þjónn minn Davíð hafi ávalt lampa fyrir augliti mínu í
Jerúsalem, borginni, sem eg hefi útvalið til þess að láta nafn mitt búa
þar. [37] En þig vil eg taka til þess að ríkja yfir öllu, sem þú girnist,
og til að vera konungur yfir Ísrael. [38] Og ef þú hlýðir öllu, sem eg
býð þér, og gengur á mínum vegum, gjörir það sem rétt er í mínum
augum og heldur lög mín og boðorð, eins og Davíð þjónn minn gjörði,

---

**15:** 2 Sam. 8, 14. **23:** 2 Sam. 8, 3. **26:** 2 Kron. 13, 6. **29:** kap. 12, 15; 14, 2. **32:** v. 13. **33:** v. 7. **35:** v. 12. **36:** kap. 15, 4. 2 Kong. 8, 19. 2 Kron. 21, 7.

þá vil eg vera með þér og reisa þér stöðugt hús, eins og eg reisti
Davíð, og fá þér Ísrael, 39 en niðja Davíðs mun eg auðmýkja sakir
þessa, þó eigi um aldur og æfi. 40 En Salómó leitaðist við að ráða
Jeróbóam af dögum, en Jeróbóam tók sig upp og flýði til Egiptalands,
til Sísaks konungs í Egiptalandi, og var hann í Egiptalandi, þar til er
Salómó andaðist.
41 En það, sem meira er að segja um Salómó og alt það, er hann
gjörði, og um speki hans — það er ritað í bókinni um gjörðir Salómós.
42 Og sá tími, er Salómó var konungur í Jerúsalem yfir öllum Ísrael,
var fjörutíu ár. 43 Og Salómó lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og
var jarðaður í borg Davíðs föður síns. Og Rehabeam sonur hans tók
ríki eftir hann.

### Ríkinu skift.

12 Og Rehabeam fór til Sikem, því að allur Ísrael var kominn til
Sikem til þess að taka hann til konungs. 2 En er Jeróbóam Ne-
batsson frétti — en hann var enn í Egiptalandi, þangað sem hann hafði
flúið undan Salómó konungi — að Salómó væri dáinn, sneri Jeróbóam
heim frá Egiptalandi. 3 Og þeir sendu og létu kalla hann. Þá kom
Jeróbóam og allur söfnuður Ísraels og mæltu til Rehabeams á þessa
leið: 4 Faðir þinn lagði á oss hart ok, en gjör þú nú léttari hina hörðu
ánauð föður þíns og hið þunga ok, er hann á oss lagði, og munum
vér þjóna þér. 5 Hann svaraði þeim: Farið nú burt og komið aftur
til mín að þrem dögum liðnum. Og lýðurinn fór burt.
6 Þá ráðgaðist Rehabeam konungur við öldungana, sem þjónað
höfðu Salómó föður hans meðan hann lifði, og mælti: Hver andsvör
ráðið þér mér að gefa þessum mönnum? 7 Þeir svöruðu honum og
mæltu: Ef þú í dag verður lýð þessum eftirlátur, lætur að orðum þeirra,
gjörir að vilja þeirra og tekur vel máli þeirra, munu þeir verða þér
eftirlátir alla daga. 8 En hann hafnaði ráði því, er öldungarnir réðu
honum, en ráðgaðist við unga menn, er vaxið höfðu upp með honum
og nú þjónuðu honum; 9 og hann sagði við þá: Hver ráð gefið þér til,
hversu vér skulum svara lýð þessum, er talað hefir til mín á þessa
leið: Gjör léttara ok það, er faðir þinn á oss lagði? 10 Þá svöruðu honum
hinir ungu menn, er vaxið höfðu upp með honum: Svo skalt þú svara
lýð þessum, er sagði við þig: Faðir þinn gjörði ok vort þungt, en gjör
þú oss það léttara — svo skalt þú mæla til þeirra: Litlifingur minn
er digrari en lendar föður míns. 11 Hafi faðir minn lagt á yður þungt
ok, mun eg gjöra ok yðar enn þyngra; faðir minn refsaði yður með
keyrum, en eg mun refsa yður með gaddasvipum.
12 Og Jeróbóam og allur lýðurinn kom til Rehabeams á þriðja
degi, eins og konungur hafði sagt, þá er hann mælti: Komið til mín
aftur á þriðja degi. 13 Þá veitti konungur lýðnum hörð andsvör, og fór
eigi að ráðum þeim, er öldungarnir höfðu ráðið honum, 14 en talaði til
þeirra á þessa leið, að ráði hinna ungu manna: Faðir minn gjörði ok
yðar þungt, en eg mun gjöra ok yðar enn þyngra; faðir minn refsaði
yður með keyrum, en eg mun refsa yður með gaddasvipum. 15 Þannig
veitti konungur lýðnum enga áheyrn, því að svo var til stilt af Jahve,
til þess að hann gæti látið rætast orð sín, þau er Jahve hafði talað
til Jeróbóams Nebatssonar fyrir munn Ahía frá Síló.
16 En er allur Ísrael sá, að konungur veitti þeim enga áheyrn, þá
lét lýðurinn þessi svör í móti koma:

---

40: kap. 14, 25 n. 42: kap. 2, 11. — 12, 1: 2 Kron. 10, 1 n. 2: kap. 11, 40. 15:
kap. 11, 31.

Hverja hlutdeild eigum vér í Davíð?
Engan erfðahlut eigum vér í Ísaísyni.
Far heim til þín, Ísrael!
Gæt nú þíns eigin húss, Davíð!

Síðan fór Ísrael heim til sín. 17 En yfir þeim Ísraelsmönnum, er bjuggu í
Júda-borgum, var Rehabeam konungur. 18 Og Rehabeam konungur sendi
Adóníram, sem var yfir kvaðarmönnum, en allur Ísrael lamdi hann
grjóti til bana, en Rehabeam konungur hljóp í skyndi á vagn sinn og
flýði til Jerúsalem. 19 Þannig gekk Ísrael undan ætt Davíðs, og stendur svo enn í dag.

20 Og er allur Ísrael heyrði, að Jeróbóam væri aftur kominn,
sendu þeir og kölluðu hann á þingið og tóku hann til konungs yfir
allan Ísrael. En enginn fylgdi Davíðsætt, nema Júda-ættkvísl ein.

21 En er Rehabeam kom til Jerúsalem, safnaði hann saman öllu
Júda-húsi og Benjamíns-ættkvísl, hundrað og áttatíu þúsundum einvalaliðs, til þess að berjast við Ísraels-hús og ná konungdóminum aftur
undir Rehabeam, son Salómós. 22 En orð Guðs kom til Semaja guðsmanns, svolátandi: 23 Tala þú svo til Rehabeams, sonar Salómós, konungs í Júda, og til alls Júda-húss og Benjamíns og til alls hins lýðsins:
24 Svo segir Jahve: Farið eigi og berjist eigi við bræður yðar Ísraelsmenn; fari hver heim til sín, því að minni tilhlutun er þetta orðið.
Og er þeir heyrðu orð Jahve, hurfu þeir aftur, eins og Jahve bauð.

## Gullkálfar Jeróbóams.

25 En Jeróbóam víggirti Sikem á Efraímfjöllum og settist þar að;
þaðan fór hann og víggirti Pnúel. 26 Og Jeróbóam hugsaði með sér:
Nú mun konungdómurinn aftur hverfa undir Davíðsætt. 27 Ef lýður
þessi fer upp eftir, til þess að færa sláturfórnir í musteri Jahve í Jerúsalem, þá mun hjarta lýðs þessa aftur hverfa til Rehabeams Júdakonungs, herra hans, en mig munu þeir myrða og ganga svo aftur á hönd
Rehabeam Júdakonungi. 28 Þá hugsaði konungur ráð sitt, lét gjöra
tvo gullkálfa og mælti til lýðsins: Nógu lengi hafið þér farið upp til
Jerúsalem; sjá, hér er guð þinn, Ísrael, sá er leiddi þig út af Egiptalandi. 29 Setti hann annan í Betel, en hinn setti hann í Dan. 30 En
þetta varð til syndar, og lýðurinn fór fyrir öðrum þeirra alla leið til
Dan. 31 Hann gjörði og hof á hæðunum og gjörði að prestum óvalda
menn, er ekki voru niðjar Leví. 32 Og Jeróbóam setti hátíð fimtánda
dag hins áttunda mánaðar, eins og hátíðina, sem haldin var í Júda,
og hann gekk upp að altarinu. Þannig gjörði hann í Betel, til þess að
færa fórnir kálfunum, er hann hafði gjöra látið, og hann setti hæðaprestana, er hann hafði skipað, til þjónustu í Betel.

## Spámaðurinn í Betel.

33 Og hann gekk upp að altarinu, er hann hafði gjöra látið í Betel
á fimtánda degi hins áttunda mánaðar, í þeim mánuði er hann hafði
ákveðið af eigin geðþótta til hátíðahalds fyrir Ísraelsmenn. Og hann
13 gekk upp að altarinu til þess að færa reykelsisfórn. 1 Og sjá,
þegar Jeróbóam stóð fyrir altarinu, til þess að færa þar reykelsisfórn, kom guðsmaður nokkur frá Júda til Betel að boði Jahve 2 og
æpti gegn altarinu að boði Jahve og mælti: Altari, altari! Svo segir
Jahve: Sonur mun fæðast húsi Davíðs, Jósía að nafni; hann mun á

---

16: 2 Sam. 20, 1. 19: kap. 11, 11 n. 31 n. 21: 2 Kron. 11, 1 n. 24: v. 15. 28: 2 Mós. 32, 4. 8. 31: 2 Kron. 11, 15; 13, 9. 32: 3 Mós. 23, 34. — 13, 2: 2 Kong. 23, 15 n.

þér slátra hæðaprestunum, þeim er færa reykelsisfórnir á þér, og manna-
beinum mun á þér brent verða. 3 Og hann boðaði tákn þann dag og
mælti: Þetta er tákn þess, að Jahve hafi talað: sjá, altarið mun rifna
og askan, sem á því er, steypast niður. 4 En er konungur heyrði orð
guðsmannsins, þau er hann æpti gegn altarinu í Betel, þá bandaði
Jeróbóam með hendinni frá altarinu og mælti: Takið hann höndum!
Þá visnaði hönd hans, er hann hafði bandað með móti honum,
og hann gat ekki dregið hana að sér aftur. 5 En altarið rifnaði og
askan steyptist niður af altarinu, samkvæmt tákninu, er guðsmaðurinn
hafði boðað eftir skipun Jahve. 6 Þá tók konungur til máls og mælti
við guðsmanninn: Blíðka þú Jahve, Guð þinn, og bið fyrir mér, svo
að eg geti aftur dregið höndina að mér. Þá blíðkaði guðsmaðurinn
Jahve, svo að konungur gat aftur dregið að sér höndina, og varð hún
jafngóð. 7 Því næst mælti konungur við guðsmanninn: Kom þú heim
með mér og hress þig, og mun eg gefa þér gjöf nokkura. 8 En guðs-
maðurinn mælti við konung: Þótt þú gæfir mér hálfa aleigu þína, þá
mundi eg samt eigi með þér fara, og eigi mundi eg matar neyta og
eigi vatn drekka á þessum stað. 9 Því að svo hefir mér boðið verið
fyrir orð Jahve, er var á þessa leið: Þú skalt eigi matar neyta né
vatn drekka, og þú skalt eigi snúa aftur sömu leiðina sem þú komst.
10 Síðan fór hann burt aðra leið og sneri eigi aftur sömu leiðina sem
hann hafði farið til Betel.

11 En í Betel bjó gamall spámaður; og synir hans komu og sögðu
honum frá öllu því, sem guðsmaðurinn hafði gjört í Betel þennan dag,
og orð þau, er hann hafði talað til konungs. Og er þeir sögðu föður
sínum frá þessu, 12 mælti faðir þeirra til þeirra: Hvaða leið fór hann?
Og synir hans sýndu honum, hvaða leið guðsmaðurinn, sem kominn
var frá Júda, hefði farið. 13 Og hann sagði við sonu sína: Söðlið mér
asnann. Og þeir söðluðu asnann fyrir hann og hann steig á bak,
14 hélt á eftir guðsmanninum og fann hann, þar sem hann sat undir
eik nokkurri. Og hann mælti til hans: Ert þú guðsmaðurinn, sem
kom frá Júda? Hinn svaraði: Er eg víst. 15 Þá sagði hann við hann:
Kom þú heim með mér og neyt matar. 16 Hinn mælti: Eg get eigi
snúið við með þér, né með þér farið; mun og hvorki matar neyta né
vatn drekka á þessum stað. 17 Því að við mig hefir verið sagt fyrir
orð Jahve: Þú skalt hvorki neyta þar matar né vatn drekka; þú skalt
ekki snúa aftur sömu leiðina sem þú komst. 18 Hinn sagði þá við
hann: Eg er og spámaður, eins og þú, og engill hefir talað við mig
eftir orði Jahve á þessa leið: Far þú með hann aftur heim til þín, að
hann megi matar neyta og vatn drekka. En hann laug að honum.
19 Sneri hann þá við með honum og neytti matar í húsi hans og drakk
vatn.

20 En er þeir sátu undir borðum, kom orð Jahve til spámannsins,
er snúið hafði hinum aftur. 21 Og hann kallaði til guðsmannsins, er
kominn var frá Júda, og mælti: Svo segir Jahve: Sökum þess að þú
óhlýðnaðist skipun Jahve og varðveittir eigi boð það, er Jahve, Guð þinn,
fyrir þig lagði, 22 heldur snerir við og neyttir matar og drakst vatn á þeim
stað, er hann sagði um við þig: Þú skalt þar eigi matar neyta né vatn
drekka — þá skal lík þitt eigi koma í gröf feðra þinna. 23 En er hann
hafði etið og drukkið, lét hann söðla asnann fyrir hann — asna spámanns-
ins, þess er hafði snúið honum við. 24 Hélt hann nú af stað, en ljón mætti
honum á leiðinni og drap hann. Og lík hans lá þar endilangt á veg-
inum, og asninn stóð yfir því, og ljónið stóð yfir líkinu. 25 Og er menn
fóru þar fram hjá, sáu þeir líkið liggja endilangt á veginum og ljónið

6: 2 Mós. 8, 8 n. 4 Mós. 21, 7. 8: 4 Mós. 22, 18. 9: v. 16. 17. 24: kap. 20, 36.

standandi yfir líkinu. Þá komu þeir og sögðu frá því í borginni, þar
sem gamli spámaðurinn átti heima. [26] Og er spámaðurinn, er snúið
hafði hinum aftur, heyrði þetta, mælti hann: Það er guðsmaðurinn,
sem óhlýðnaðist skipun Jahve, fyrir því hefir Jahve gefið hann ljóninu;
það hefir mulið hann sundur og drepið hann, eftir orði Jahve, því er
hann hafði til hans talað. [27] Þá mælti hann til sona sinna: Söðlið mér
asnann. Þeir gjörðu svo. [28] Síðan hélt hann af stað og fann lík hans
liggjandi endilangt á veginum, og asnann og ljónið standandi yfir lík-
inu. En ljónið hafði hvorki etið líkið né mulið sundur asnann. [29] Þá
tók spámaðurinn upp lík guðsmannsins, lagði það á asnann og flutti
það heim. Og hann kom til borgar gamla spámannsins, til þess að
harma hann og jarða. [30] Og hann lagði lík hans í gröf sína, og menn
hörmuðu hann, segjandi: Æ, bróðir minn! [31] En er hann hafði jarð-
að hann, sagði hann við sonu sína: Þegar eg dey, þá jarðið mig í
þeirri gröf, sem guðsmaðurinn er jarðaður í; leggið mín bein hjá hans
beinum. [32] Því að orðin, sem hann að boði Jahve æpti gegn altarinu
í Betel og gegn öllum hæðahofunum í borgum Samaríu, munu vissu-
lega rætast.
[33] Ekki sneri Jeróbóam sér eftir þennan atburð frá sínum vonda
vegi, heldur gjörði af nýju óvalda menn að hæðaprestum. Hann fylti
höndina* á hverjum sem vildi, og varð sá hinn sami þannig hæða-
prestur. [34] En þetta varð Jeróbóams húsi til syndar og til þess að upp-
ræta það og afmá af jörðunni.

### Spádómur gegn Jeróbóam og andlát hans.

14 Í þann tíma sýktist Abía, sonur Jeróbóams. [2] Þá sagði Jeróbó-
am við konu sína: Far nú og klæð þig dularbúningi, svo að
enginn megi kenna, að þú ert kona Jeróbóams, og far til Síló. Þar er
Ahía spámaður, sá er um mig sagði, að eg mundi verða konungur
yfir lýð þessum. [3] Og tak með þér tíu brauð og kökur og krús með
hunangi og gakk þú inn til hans. Hann mun segja þér, hvernig fara
mun um sveininn. [4] Kona Jeróbóams gjörði svo, lagði af stað og fór
til Síló og gekk inn í hús Ahía. En Ahía mátti ekki sjá, því að augu
hans voru stirnuð af elli. [5] En Jahve hafði sagt við Ahía: Sjá, kona
Jeróbóams kemur, til þess að leita frétta hjá þér um son sinn, því að
hann er sjúkur. Svo og svo skalt þú til hennar mæla. En er hún
kom og lézt véra önnur en hún var, [6] og Ahía heyrði fótatak hennar,
er hún kom að dyrunum, þá sagði hann: Kom þú inn, kona Jeróbó-
ams! Hvers vegna læzt þú vera önnur en þú ert, þar sem eg þó er
sendur til þín með hörð tíðindi? [7] Far þú og seg Jeróbóam: Svo segir
Jahve, Guð Ísraels: Sakir þess að eg hóf þig upp af alþýðu manna og
gjörði þig að höfðingja yfir lýð mínum Ísrael, [8] og svifti ætt Davíðs
konungdóminum og fékk þér hann í hendur, en þú hefir eigi verið
sem þjónn minn Davíð, er hélt boðorð mín og var mér hlýðinn af öllu
hjarta, svo að hann gjörði það eitt, er rétt var í mínum augum, [9] held-
ur hefir gjört meira ilt en allir þeir, sem á undan þér voru, hefir farið
og gjört þér aðra guði, og það steypt líkneski, til þess að egna mig
til reiði, og hefir kastað mér aftur fyrir þig — [10] sakir þessa leiði eg
ógæfu yfir hús Jeróbóams og mun uppræta fyrir Jeróbóam hvern karl-
mann, bæði þræl og frelsingja í Ísrael, og mun sópa burt húsi Jeró-
bóams, eins og saur er sópað burt, unz úti er um hann með öllu.

---

**30:** Jer. 22, 18. **32:** 2 Kong. 23, 15 n. **33:** kap. 12, 31. * Þ. e. vígði, sbr. 2 Mós. 28, 41; 29, 24 n. **34:** kap. 12, 30. — **14, 2:** kap. 11, 30 n. **7:** kap. 16, 2. **9:** Esek. 23, 35. **10:** kap. 21, 21.

11 Hvern þann er deyr af Jeróbóam innan borgar, munu hundar eta,
og hvern þann, sem deyr úti á víðavangi, munu fuglar himins eta, því
að Jahve hefir talað það. 12 En statt þú nú upp og far heim til þín;
þegar þú stígur fæti inn í borgina, mun sveinninn deyja. 13 Og allur Ís-
rael mun harma hann, og menn munu grafa hann, því að hann er
sá eini af Jeróbóam, er greftrun mun hljóta, af því að eitthvað hefir
það verið í fari hans, er Jahve, Guði Ísraels, geðjaðist að í ætt Jeróbó-
ams. 14 Og Jahve mun skipa konung yfir Ísrael, er uppræta mun hús
Jeróbóams. Þetta er dagurinn, og hvað er nú þegar farið að koma
fram? 15 Og Jahve mun slá Ísrael, eins og reyrinn riðar í vatninu, og
hann mun útrýma Ísrael úr þessu góða landi, er hann gaf feðrum
þeirra, og tvístra þeim fyrir austan Fljótið, af því að þeir hafa gjört
sér asérur og egnt Jahve til reiði. 16 Og hann mun ofurselja Ísrael
vegna synda þeirra, er Jeróbóam hefir drýgt og komið Ísrael til að
drýgja. 17 Þá stóð kona Jeróbóams upp, hélt af stað og kom til Tirza,
en er hún steig yfir þröskuld hússins, dó sveinninn. 18 Og þeir grófu
hann og allur Ísrael harmaði hann, og rættist þannig orð Jahve, er
hann hafði talað fyrir munn þjóns síns, Ahía spámanns. 19 En það,
sem meira er að segja um Jeróbóam, hvernig hann herjaði og hvernig
hann ríkti, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga. 20 Og sá tími, sem
Jeróbóam ríkti, var tuttugu og tvö ár. Þá lagðist hann til hvíldar hjá
feðrum sínum, en Nadab sonur hans tók ríki eftir hann.

**Frá Rehabeam konungi í Júda. Herferð Sísaks Egiptalands-konungs.**

21 En Rehabeam sonur Salómós varð konungur í Júda. Rehabeam
hafði einn um fertugt, þá er hann varð konungur, og seytján ár ríkti
hann í Jerúsalem, borginni, sem Jahve hafði útvalið af öllum ættkvísl-
um Ísraels, til þess að láta nafn sitt búa þar. En móðir hans hét
Naama og var ammónítísk. 22 Og Júda gjörði það sem ilt var í augum
Jahve, og þeir vöktu vandlæting hans enn meir en feður þeirra höfðu
gjört með öllum þeim syndum, er þeir drýgðu. 23 Því að einnig þeir
gjörðu sér hæðir, merkissteina og asérur á öllum háum hólum og undir
hverju grænu tré. 24 Þeir menn voru og í landinu, er helguðu sig
saurlifnaði; þeir aðhöfðust alla þá sömu svívirðing, sem þær þjóðir
frömdu, er Jahve hafði stökt burt undan Ísraelsmönnum. 25 En á fimta
ríkisári Rehabeams fór Sísak Egiptalands-konungur herför móti Jerú-
salem 26 og tók fjársjóðu Jahve húss og fjársjóðu konungshallarinnar,
tók það alt saman; hann tók og alla gullskjölduna, sem Salómó hafði
gjöra látið. 27 En Rehabeam konungur lét í þeirra stað gjöra eirskjöldu
og fékk þá höfuðsmönnum lífvarðarins til geymslu, þeim er geyma dyra
á höll konungs. 28 Og í hvert sinn er konungur gekk í hús Jahve,
báru varðliðsmennirnir þá, og fóru síðan með þá aftur í herbergi varð-
liðsmannanna. 29 En það sem meira er að segja um Rehabeam og alt,
sem hann gjörði, það er ritað í árbókum Júdakonunga. 30 Og þeir
áttu ávalt í ófriði saman, Rehabeam og Jeróbóam. 31 Og Rehabeam
lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var jarðaður hjá feðrum sínum
í Davíðsborg. En móðir hans hét Naama og var ammónítísk. Og
Abíam sonur hans tók ríki eftir hann.

---

**11:** kap. 16, 4. **14:** kap. 15, 29. **15:** 2 Kong. 17, 23. **16:** kap. 12, 30. **21:** 2 Kron. 12, 13. **23:** 2 Kong. 16, 4. **24:** 5 Mós. 23, 17. **25:** 2 Kron. 12, 2. **29:** 2 Kron. 12, 15 n. **30:** kap. 15, 6.

### Frá Abíam, konungi í Júda.

15 Á átjánda ríkisári Jeróbóams Nebatssonar varð Abíam kon-
ungur yfir Júda. [2] Þrjú ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir
hans hét Maaka, dóttir Abísalóms. [3] Hann drýgði allar sömu synd-
irnar, er faðir hans hafði fyrir honum haft, og hjarta hans var ekki
óskift gagnvart Jahve, Guði hans, eins og hjarta Davíðs forföður hans.
[4] Því að það var eingöngu Davíðs vegna, að Jahve, Guð hans, gaf hon-
um lampa í Jerúsalem, að hann hóf sonu hans eftir hann og lét Jerú-
salem standa, [5] af því að Davíð hafði gjört það sem rétt var í augum
Jahve og aldrei á æfi sinni vikið frá neinu því, er hann hafði fyrir
hann lagt, nema hvernig hann fór með Úría Hetíta. [6] En Rehabeam
átti í ófriði við Jeróbóam alla æfi. [7] En það, sem meira er að segja
um Abíam og alt sem hann gjörði, það er ritað í árbókum Júdakon-
unga. Og þeir áttu í ófriði saman, Abíam og Jeróbóam. [8] Og Abíam
lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var grafinn í Davíðsborg. Og
Asa sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Asa, konungi í Júda.

[9] Á tuttugasta ríkisári Jeróbóams, konungs í Ísrael, varð Asa kon-
ungur yfir Júda. [10] Fjörutíu og eitt ár ríkti hann í Jerúsalem. En
móðir hans hét Maaka, dóttir Abísalóms. [11] Og Asa gjörði það sem
rétt var í augum Jahve, eins og Davíð forfaðir hans. [12] Hann rak þá
menn úr landi, er helgað höfðu sig saurlifnaði, og útrýmdi öllum
skurðgoðum, sem forfeður hans höfðu gjöra látið. [13] Hann svifti jafn-
vel Maöku móður sína drotningartigninni, fyrir það að hún hafði gjöra
látið hræðilegt Aséru-líkneski. Og Asa hjó sundur þetta hræðilega lík-
neski hennar og brendi það í Kídrondal. [14] En hæðirnar voru ekki
afnumdar; þó var hjarta Asa óskift gagnvart Jahve alla æfi hans.
[15] Hann lét og flytja í hús Jahve helgigjafir föður síns, svo og helgi-
gjafir sínar — silfur, gull og áhöld.

[16] En þeir áttu ófrið saman alla æfi, Asa og Baesa konungur í
Ísrael. [17] Og Baesa, konungur í Ísrael, fór herför á móti Júda og víg-
girti Rama, svo að enginn maður gæti komist út eða inn hjá Asa Júda-
konungi. [18] Þá tók Asa alt silfrið og gullið, sem enn var eftir í fé-
hirzlum húss Jahve, og fjársjóðu konungshallarinnar og seldi í hendur
mönnum sínum. Síðan sendi Asa konungur þá til Benhadads Tab-
rimmonssonar, Hesíonssonar, konungs á Sýrlandi, er bjó í Damaskus,
með þessa orðsending: [19] Sáttmáli er milli mín og þín, milli föður míns
og föður þíns; sjá, eg sendi þér gjöf í silfri og gulli; skalt þú nú rjúfa
bandalag þitt við Baesa Ísraels-konung, svo að hann hafi sig á burt
frá mér. [20] En Benhadad tók vel máli Asa konungs og sendi hers-
höfðingja sína móti borgum Ísraels og vann Íjón og Dan og Abel-Bet-
Maaka og alt Kinnerót, svo og alt Naftalí-land. [21] Þegar Baesa spurði
það, hætti hann að víggirða Rama og sneri heim til Tirza. [22] En Asa
konungur bauð út öllum Júdamönnum — enginn var undanskilinn;
og þeir fluttu burt steinana og viðinn, sem Baesa hafði víggirt Rama
með, og víggirti Asa konungur með þeim Geba í Benjamín og Mizpa.
[23] En það, sem meira er að segja um Asa og hreystiverk hans og alt
það, er hann gjörði, og borgirnar, sem hann víggirti, það er alt ritað
í árbókum Júdakonunga. Þó má geta þess, að á efri árum gjörðist

---

**15, 1:** 2 Kron. 13, 1 n. **4:** kap. 11, 36. **5:** 2 Sam. 11, 4. 15; 12, 9. **6:** kap. 14, 30. **7:** 2 Kron. 13, 2 n. **8:** 2 Kron. 14, 1. **11:** 2 Kron. 14, 2 n. **12:** kap. 14, 24. **13:** 2 Kron. 15, 16 n. **14:** kap. 22, 44. 2 Kong. 12, 3. **17:** 2 Kron. 16, 1 n. **18:** 2 Kong. 12, 18. **20:** 2 Kong. 15, 29. **23:** 2 Kron. 16, 12 n.

hann fótaveikur. 24 Og Asa lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og
var grafinn hjá feðrum sínum í borg Davíðs forföður síns. Og Jósafat
sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Nadab, konungi í Ísrael.

25 En Nadab, sonur Jeróbóams, varð konungur yfir Ísrael á öðru
ríkisári Asa, konungs í Júda, og ríkti hann tvö ár yfir Ísrael. 26 Og
hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve og fetaði í fótspor föður
síns og drýgði þær syndir, er hann hafði drýgt og komið Ísrael til að
drýgja. 27 En Baesa, sonur Ahía af ætt Íssakars, hóf samsæri gegn
honum, og Baesa vann sigur á honum við Gibbeton, sem Filistar áttu;
en Nadab og allur Ísrael sátu þá um Gibbeton. 28 Þannig drap Baesa
hann á þriðja ríkisári Asa, konungs í Júda, og tók ríki eftir hann.
29 En er hann var konungur orðinn, drap hann alla ætt Jeróbóams;
hann lét engan eftir verða af Jeróbóam, þann er anda dró, unz hann
hafði gjöreytt honum, og rættist þannig orð Jahve, sem hann hafði
talað fyrir munn þjóns síns, Ahía frá Siló, 30 vegna synda Jeróbóams,
þeirra er hann hafði drýgt og komið Ísrael til að drýgja, er hann
egndi Jahve, Guð Ísraels, til reiði. 31 En það sem meira er að segja
um Nadab og alt sem hann gjörði, það er ritað í árbókum Ísraels-
konunga. 32 En þeir áttu ófrið saman alla æfi, Asa og Baesa, konung-
ur í Ísrael.

### Frá Baesa, konungi í Ísrael.

33 Á þriðja ríkisári Asa, konungs í Júda, varð Baesa, sonur Ahía,
konungur yfir öllum Ísrael og ríkti hann tuttugu og fjögur ár í Tirza.
34 Og hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve og fetaði í fótspor
Jeróbóams og drýgði þær syndir, er hann hafði drýgt og komið Ísrael
16 til að drýgja. 1 En orð Jahve kom til Jehú Hananísonar gegn
Baesa, svolátandi: 2 Sakir þess að eg hefi hafið þig úr duftinu
og gjört þig höfðingja yfir lýð mínum Ísrael, en þú fetar í fótspor Jeró-
bóams og kemur lýð mínum Ísrael til að syndga, svo að þeir egna mig
til reiði með syndum sínum, 3 þá mun eg sópa burt Baesa og ætt hans,
og fara með ætt þína eins og ætt Jeróbóams Nebatssonar. 4 Hvern
þann, er deyr af Baesa innan borgar, munu hundar eta, og hvern
þann, er deyr af honum úti á víðavangi, munu fuglar himins eta.
5 En það, sem meira er að segja um Baesa og það er hann gjörði og
hreystiverk hans, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga. 6 Og Baesa
lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var grafinn í Tirza, og Ela sonur
hans tók ríki eftir hann. 7 En fyrir munn Jehú spámanns Hananísonar
kom dómsorð Jahve yfir Baesa og ætt hans, bæði vegna alls þess illa,
er hann hafði aðhafst í augsýn Jahve, með því að egna hann til reiði
með handaverkum sínum, svo að fyrir honum færi sem fyrir ætt Jeró-
bóams, og líka vegna þess, að hann hafði eytt henni.

### Frá Ela, konungi í Ísrael.

8 Á tuttugasta og sjötta ríkisári Asa, konungs í Júda, varð Ela,
sonur Baesa, konungur yfir Ísrael og ríkti hann tvö ár í Tirza. 9 En
Simrí, þjónn hans, foringi fyrir helmingi vagnliðsins, hóf samsæri gegn
honum. Og er hann drakk sig drukkinn í Tirza, í húsi Arza, drótt-
seta í Tirza, 10 þá kom þar Simrí og vann á honum og drap hann, á

**24:** 2 Kron. 17, 1. **26:** kap. 14, 16. **29:** kap. 14, 10 n. — **16, 2:** kap. 14, 7 n. **9:** kap. 15, 27.

tuttugasta og sjöunda ríkisári Asa, konungs í Júda, og tók ríki eftir
hann. 11 En er hann var konungur orðinn og seztur í hásæti, drap
hann alla ættmenn Baesa — lét hann engan karlmann eftir verða af hon-
um —, svo og vandamenn hans og vini. 12 Þannig gjöreyddi Simrí
allri ætt Baesa, og rættist svo orð Jahve, sem hann hafði talað gegn
Baesa fyrir munn Jehú spámanns, 13 sakir allra synda Baesa og synda
Ela sonar hans, þeirra er þeir höfðu drýgt og komið Ísrael til að drýgja,
að þeir egndu Jahve, Guð Ísraels, til reiði með hinum fánýtu goðum
sínum. 14 En það sem meira er að segja um Ela og alt sem hann
gjörði, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga.

## Frá Simrí, konungi í Ísrael.

15 Á tuttugasta og sjöunda ríkisári Asa, konungs í Júda, varð Simrí
konungur og ríkti sjö daga í Tirza; en liðið sat þá um Gibbeton, sem
Filistar áttu. 16 Og er liðið, sem lá í herbúðunum, frétti að Simrí
hefði hafið samsæri og drepið konung, þá tók allur Ísrael Omrí, hers-
höfðingja í Ísrael, til konungs þann dag þar í herbúðunum. 17 Þá hélt
Omrí og allur Ísrael með honum frá Gibbeton og settist um Tirza.
18 En er Símri sá að borgin var unnin, gekk hann inn í vígi konungs-
hallarinnar og lagði eld í konungshöllina yfir höfði sér og beið svo
bana, 19 sakir synda þeirra, er hann hafði drýgt, með því að gjöra það
sem ilt var í augum Jahve, með því að feta í fótspor Jeróbóams og
drýgja sömu syndirnar, sem hann hafði drýgt, með því að koma Ísrael
til að syndga. 20 En það, sem meira er að segja um Simrí og sam-
særið, sem hann gjörði, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga.
21 Þá skiftist Ísraelslýður; fylgdi annar hluti lýðsins Tibní Gín-
atssyni og vildi gjöra hann að konungi, en hinn hlutinn fylgdi Omrí.
22 En þeir, sem Omrí fylgdu, urðu hinum yfirsterkari, þeim er fylgdu
Tibní Gínatssyni. En er Tibní var dauður, varð Omrí konungur.

## Frá Omrí, konungi í Ísrael.

23 Á þrítugasta og fyrsta ríkisári Asa, konungs í Júda, varð Omrí
konungur yfir Ísrael og ríkti tólf ár; sex ár ríkti hann í Tirza. 24 Hann
keypti Samaríufjall af Semer fyrir tvær talentur silfurs og hann reisti
bygð á fjallinu og kendi borgina, sem hann bygði, við Semer, er átt
hafði fjallið, og nefndi Samaríu. 25 Og Omrí gjörði það sem ilt var í
augum Jahve og hegðaði sér ver en allir þeir, sem verið höfðu á undan
honum, 26 og fetaði að öllu leyti í fótspor Jeróbóams Nebatssonar og
drýgði sömu syndirnar, sem hann hafði komið Ísrael til að drýgja, svo
að þeir egndu Jahve, Guð Ísraels, til reiði með hinum fánýtu goðum
sínum. 27 En það, sem meira er að segja um Omrí og alt sem hann
gjörði og hreystiverk hans, þau er hann vann, það er ritað í árbókum Ís-
raels-konunga. 28 Og Omrí lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og
var grafinn í Samaríu. Og Akab sonur hans tók ríki eftir hann.

## Frá Akab og Ísebel.

29 Og Akab, sonur Omrí, varð konungur yfir Ísrael á þrítugasta
og áttunda ríkisári Asa, konungs í Júda, og Akab, sonur Omrí, ríkti
yfir Ísrael í Samaríu tuttugu og tvö ár. 30 Og Akab, sonur Omrí, gjörði
það sem ilt var í augum Jahve, og hegðaði sér ver en allir þeir, sem
verið höfðu á undan honum. 31 Og hann lét sér ekki nægja að drýgja

**31:** 2 Kong. 10, 18.

sömu syndirnar og Jeróbóam Nebatsson, heldur gekk hann að eiga
Ísebel, dóttur Etbaals Zídoninga-konungs; fór hann þá og þjónaði Baal
og tilbað hann. [32] Og hann reisti Baal altari í musteri Baals, því er
hann hafði gjöra látið í Samaríu. [33] Akab lét og gjöra aséru; og
Akab gjörði enn fleira til að egna Jahve, Guð Ísraels, til reiði, framar
öllum Ísraels-konungum, sem á undan honum höfðu verið. [34] Á hans
dögum reisti Híel frá Betel Jeríkó af nýju. Misti hann frumgetning
sinn Abíram, er hann lagði undirstöður hennar, og yngsta son sinn
Segúb, er hann reisti hlið hennar, samkvæmt orði Jahve, því er hann
hafði talað fyrir munn Jósúa Núnssonar.

### Elía segir fyrir þurkinn. Elía við Krít og í Zarpat.

17 Þá sagði Elía Tisbíti, frá Tisbe í Gíleað, við Akab: Svo sann-
arlega sem Jahve, Guð Ísraels, lifir, sá er eg þjóna, skal þessi
árin hvorki drjúpa dögg né regn, nema eg segi. [2] Og orð Jahve kom
til hans, svolátandi: [3] Far þú héðan og hald austur á bóginn, og fel
þig við lækinn Krít, sem er fyrir austan Jórdan. [4] Og þú skalt drekka
úr læknum, og hröfnunum hefi eg boðið að fæða þig þar. [5] Hann
gjörði sem Jahve bauð honum, fór og settist að við lækinn Krít,
sem er fyrir austan Jórdan. [6] Og hrafnarnir færðu honum brauð og
kjöt á morgnana og brauð og kjöt á kveldin, og úr læknum drakk hann.
[7] En eftir nokkurn tíma þornaði lækurinn upp, því að eigi hafði
komið skúr á jörð. [8] Þá kom orð Jahve til hans, svolátandi: [9] Tak þig
upp og far til Zarpat, sem liggur undir Zídon, og sezt þar að; sjá, eg
hefi boðið ekkju nokkurri þar að fæða þig. [10] Þá tók hann sig upp
og fór til Zarpat, og er hann kom að borgarhliðinu, var ekkja þar að
tína saman viðarkvistu. Og hann kallaði til hennar og mælti: Sæk þú
mér dálítið af vatni í ílátinu, að eg megi drekka. [11] Og hún fór að
sækja það, en hann kallaði á eftir henni og mælti: Færðu mér líka
brauðbita. [12] Hún svaraði: Svo sannarlega sem Jahve, Guð þinn, lifir,
á eg enga köku til, heldur aðeins hnefa mjöls í skjólu og lítið eitt af
olíu í krús. Og sjá, eg er að tína saman fáeina viðarkvistu; síðan
ætla eg heim og matbúa þetta handa mér og syni mínum, að við meg-
um eta það og deyja síðan. [13] En Elía sagði við hana: Óttast ekki;
far þú heim og gjör sem þú sagðir; gjör þú mér samt fyrst litla köku
af því og fær mér út hingað, en matreið síðan handa þér og syni þín-
um. [14] Því að svo segir Jahve, Guð Ísraels: Mjölskjólan skal eigi tóm
verða og olíuna í krúsinni ekki þrjóta, alt til þess dags, er Jahve gefur
regn á jörð. [15] Þá fór hún og gjörði eins og Elía hafði sagt, og hún
hafði nóg að eta, bæði hún og hann og sonur hennar, um langa hríð.
[16] Mjölskjólan varð ekki tóm og olíuna í krúsinni þraut ekki, samkvæmt
orði Jahve, því er hann hafði talað fyrir munn Elía. [17] Eftir þetta bar svo
við, að sonur húsfreyju sýktist, og elnaði honum svo mjög sóttin, að hann
dró eigi lengur andann. [18] Þá mælti hún við Elía: Hvað á eg saman
við þig að sælda, guðsmaður? Þú ert til mín kominn til að minna á
misgjörð mína og til að deyða son minn. [19] En hann sagði við hana:
Fá þú mér son þinn. Og hann tók hann úr kjöltu hennar og bar
hann upp á loft, þar sem hann hafðist við, og lagði hann í rekkju sína.
[20] Og hann kallaði til Jahve og mælti: Jahve, Guð minn, ætlar þú
líka að fara svo illa með ekkjuna, sem eg gisti hjá, að deyða son
hennar? [21] Og hann teygði sig þrisvar yfir sveininn og kallaði til
Jahve og mælti: Jahve, Guð minn, lát sál þessa sveins aftur til hans
hverfa! [22] Og Jahve heyrði bæn Elía, og sál sveinsins kom aftur í

**34:** Jós. 6, 26. — **17, 1:** Lúk. 4, 25. Jak. 5, 17. **9:** Lúk. 4, 26. **21:** 2 Kong. 4, 34.
Post. 20, 10.

hann, svo að hann lifnaði við. [23] En Elía tók sveininn og bar hann
ofan af loftinu niður í húsið og fékk hann móður hans. Og Elía mælti:
Sjá þú, sonur þinn er lifandi. [24] Þá sagði konan við Elía: Nú veit eg
að þú ert guðsmaður og að orð Jahve í munni þínum er sannleikur.

### Elía fer á konungsfund. Fórnin á Karmel.

18 Löngu síðar kom orð Jahve til Elía, á þriðja ári, svolátandi:
Far og lát Akab sjá þig; eg ætla að gefa regn á jörð. [2] Þá fór
Elía, til þess að láta Akab sjá sig.
En hallærið var mikið í Samaríu. [3] Kallaði Akab þá Óbadía drótt-
seta fyrir sig. En Óbadía óttaðist Jahve mjög. [4] Fyrir því tók Óbadía,
þá er Ísebel útrýmdi spámönnum Jahve, hundrað spámenn og fal þá,
sína fimtíu menn í hvorum helli, og birgði þá upp með brauði og
vatni. [5] Og Akab sagði við Óbadía: Kom þú, við skulum fara um
landið og leita uppi allar vatnslindir og alla læki; vera má að við finn-
um gras, svo að við getum haldið lífinu í hestum og múlum og þurf-
um ekki að fella nokkurn hluta af skepnunum. [6] Síðan skiftu þeir með
sér landinu til yfirferðar; Akab fór einn sér í aðra áttina, og Óbadía
fór einn sér í hina áttina.
[7] En er Óbadía var á leiðinni, sjá, þá mætti Elía honum. Og er
hann þekti hann, féll hann fram á ásjónu sína og mælti: Ert það þú,
herra minn Elía? [8] Hann svaraði honum: Er eg víst. Far og seg
herra þínum: Elía er hér! [9] En hann mælti: Hvað hefi eg misgjört,
er þú vilt selja þjón þinn í hendur Akab, svo að hann drepi mig?
[10] Svo sannarlega sem Jahve, Guð þinn, lifir, er engin sú þjóð til og
ekkert það konungsríki, að herra minn hafi ekki sent þangað til þess
að leita þín, og ef sagt var: Hann er hér ekki! þá lét hann konungs-
ríkið og þjóðina vinna eið að því, að enginn hefði hitt þig. [11] Og þó
segir þú nú: Far og seg herra þínum: Elía er hér! [12] En færi eg nú
frá þér, þá mundi andi Jahve hrífa þig, eg veit ekki hvert, og ef eg
þá kæmi til þess að segja Akab frá þessu, og hann fyndi þig ekki, þá
mundi hann drepa mig, og þó hefir þjónn þinn óttast Jahve í frá
barnæsku. [13] Hefir ekki herra minn frétt, hvað eg gjörði, er Ísebel
drap spámenn Jahve, að eg fal hundrað manns af spámönnum Jahve,
sína fimtíu manns í hvorum helli, og birgði þá upp með brauði og vatni?
[14] Og þó segir þú nú: Far og seg herra þínum: Elía er hér! til þess að
hann drepi mig. [15] En Elía svaraði: Svo sannarlega sem Jahve hersveit-
anna lifir, sá er eg þjóna, mun eg láta hann sjá mig þegar í dag.
[16] Þá fór Óbadía til móts við Akab og sagði honum frá þessu.
Fór þá Akab til fundar við Elía. [17] En er Akab sá Elía, sagði Akab
við hann: Ert þú þar, skaðvaldur Ísraels? [18] En hann svaraði: Eigi
hefi eg valdið Ísrael skaða, heldur þú og ætt þín, þar sem þér hafið
virt boð Jahve að vettugi og þú elt Baalana. [19] En send þú nú og
stefn til mín öllum Ísrael á Karmel-fjall, svo og þeim fjögur hundruð
og fimtíu Baals-spámönnum og þeim fjögur hundruð Aséru-spámönn-
um, er eta við borð Ísebelar. [20] Þá sendi Akab út á meðal allra Ísra-
elsmanna og stefndi spámönnunum til Karmel-fjalls.
[21] Þá gekk Elía fram fyrir allan lýðinn og mælti: Hversu lengi ætlið
þér að haltra til beggja hliða? Sé Jahve hinn sanni Guð, þá fylgið honum,
en ef Baal er það, þá fylgið honum. En lýðurinn svaraði honum engu orði.
[22] Þá mælti Elía til lýðsins: Eg er einn eftir af spámönnum Jahve, en spá-
menn Baals eru fjögur hundruð og fimtíu. [23] Fáið oss nú tvö naut; skulu
þeir velja sér annað nautið og hluta það sundur og leggja á viðinn, en leggja

---

**18, 1:** kap. 17, 1. **18:** kap. 16, 31 n. **21:** Jós. 24, 15. **22:** kap. 19, 10.

eigi eld að; en eg mun fórna hinu nautinu og leggja á viðinn, en leggja
eigi eld að. [24] Ákallið síðan nafn yðar guðs, en eg mun ákalla nafn Jahve;
sá guð, sem svarar með eldi, er hinn sanni Guð. Þá svaraði allur lýð-
urinn og sagði: Þetta er vel mælt. [25] Þá sagði Elía við spámenn Baals:
Veljið yður nú annað nautið og fórnið fyrst, því að þér eruð svo margir,
og ákallið nafn yðar guðs, en leggið eigi eld að. [26] Þá tóku þeir nautið
og fórnuðu því og ákölluðu nafn Baals frá morgni og til hádegis og sögðu:
Baal, svara þú oss! En þar var steinhljóð og ekkert svar. Og þeir
höltruðu kring um altarið, sem þeir höfðu gjört. [27] En er komið var
hádegi, tók Elía að gabba þá og mælti: Kallið hárri röddu, því að
hann er guð. Hann er hugsi, eða hefir brugðið sér burt, eða er farinn
í ferð; ef til vill er hann sofnaður og verður fyrst að vakna. [28] En
þeir kölluðu hárri röddu og ristu á sig skinnsprettur að sínum sið með
sverðum og spjótum, unz þeim blæddi. [29] En er komið var fram yfir
hádegi, komust þeir í guðmóð, þar til bera átti fram matfórnina; en
þar var steinhljóð og ekkert svar og engin áheyrn.

[30] Þá sagði Elía við allan lýðinn: Gangið hingað til mín! Og allur
lýðurinn gekk til hans. Þá reisti hann við altari Jahve, er niður hafði
verið rifið. [31] Og Elía tók tólf steina, eftir ættkvísla-tölu sona Jakobs
— þess er orð Jahve hafði komið til, svolátandi: Ísrael skalt þú heita!
— [32] og reisti af steinunum altari í nafni Jahve og gjörði skurð um-
hverfis altarið, á stærð við reit, er í fara tvær seur útsæðis. [33] Síðan
lagði hann viðinn á altarið, hlutaði sundur nautið og lagði það ofan á
viðinn. [34] Því næst mælti hann: Fyllið fjórar skjólur með vatni og
hellið yfir brennifórnina og viðinn. Þeir gjörðu svo. Þá mælti hann:
Gjörið það aftur. Og þeir gjörðu það aftur. Og enn mælti hann:
Gjörið það í þriðja sinn. Og þeir gjörðu það í þriðja sinn. [35] Og
vatnið rann alt í kring um altarið; jafnvel skurðinn fylti hann vatni.

[36] En í það mund, er matfórnina skyldi fram bera, gekk Elía
spámaður fram og mælti: Jahve, Guð Abrahams, Ísaks og Ísraels! Lát
í dag kunnugt verða, að þú ert Guð í Ísrael og eg þjónn þinn og að
eg hefi gjört alla þessa hluti að þínu boði. [37] Bænheyr mig, Jahve!
bænheyr mig, að lýður þessi megi komast að raun um, að þú, Jahve,
ert hinn sanni Guð, og að þú snýr aftur hjörtum þeirra. [38] Þá féll
eldur Jahve niður og eyddi brennifórninni, viðnum, steinunum og gras-
sverðinum, og vatnið í skurðinum þurkaði hann einnig upp. [39] Og er
allur lýðurinn sá það, féllu þeir fram á ásjónur sínar og sögðu: Jahve
er hinn sanni Guð, Jahve er hinn sanni Guð! [40] En Elía sagði við þá:
Takið höndum spámenn Baals; látið engan þeirra komast undan! Og
þeir handtóku þá, og Elía fór með þá niður að Kíson-læk og banaði
þeim þar

[41] Síðan mælti Elía við Akab: Far þú upp eftir, et og drekk, því
að eg heyri þyt af regni. [42] Þá fór Akab upp eftir, til þess að eta og
drekka. En Elía fór efst upp á Karmel, beygði sig til jarðar og setti
andlitið milli hnjánna. [43] Því næst sagði hann við svein sinn: Gakk
þú upp og lít út til hafs. Hann gekk upp, litaðist um og mælti: Það
er ekkert að sjá. Hinn mælti: Far þú aftur. Og sveinninn fór aftur
og aftur, sjö sinnum. [44] En í sjöunda sinnið sagði hann: Nú stígur
lítið ský, sem mannshönd, upp úr hafinu. Þá sagði Elía: Far og seg
Akab: Beit fyrir vagninn og far ofan, svo að regnið teppi þig ekki.
[45] Og eftir örskamma stund varð himininn dimmur af skýjum og vindi,
og það kom hellirigning. En Akab steig á vagn sinn og ók til Jesreel.
[46] En hönd Jahve hreif Elía, og hann gyrti lendar sínar og hljóp á
undan Akab alla leið til Jesreel.

---

28: 5 Mós. 14, 1. 31: 1 Mós. 32, 28; 35, 10. 38: 3 Mós. 9, 24. 40: 2 Kong. 10, 25,

## Elía hjá Hóreb. Elísa smurður til spámanns.

19 Og Akab sagði Ísebel frá öllu því, sem Elía hafði gjört, og
hversu hann hafði drepið alla spámennina með sverði. 2 Þá
sendi Ísebel mann á fund Elía og lét segja honum: Guðirnir gjöri mér
hvað sem þeir vilja nú og síðar: Á morgun í þetta mund skal eg fara
svo með líf þitt, sem farið hefir verið með líf sérhvers þeirra. 3 Þá
varð hann hræddur, tók sig upp og hélt af stað, til þess að forða
lífi sínu. Hann kom til Beerseba, sem liggur undir Júda; þar lét hann
eftir svein sinn. 4 En sjálfur fór hann eina dagleið á eyðimörku og
kom þar sem gýfilrunnur var og settist undir hann. Þá óskaði hann
sér að hann mætti deyja og mælti: Mál er nú, Jahve, að þú takir líf
mitt, því að mér er eigi vandara um en feðrum mínum. 5 Síðan lagðist
hann fyrir undir gýfilrunninum og sofnaði. Og sjá, engill tók á honum
og mælti til hans: Statt upp og et. 6 Litaðist hann þá um og sá að
eldbökuð kaka lá að höfði honum og vatnskrús. Át hann þá og drakk
og lagðist síðan aftur fyrir. 7 En engill Jahve kom aftur öðru sinni,
tók á honum og mælti: Statt upp og et, því að annars verður leiðin
þér of löng. 8 Stóð hann þá upp, át og drakk og hélt áfram fyrir kraft
fæðunnar fjörutíu daga og fjörutíu nætur, unz hann kom að Hóreb,
fjalli Guðs. 9 Þar gekk hann inn í helli og hafðist þar við um nóttina.
Þá kom orð Jahve til hans og sagði við hann: Hvað ert þú hér
að gjöra, Elía? 10 Hann svaraði: Eg hefi verið vandlætingasamur vegna
Jahve, Guðs hersveitanna, því að Ísraelsmenn hafa virt að vettugi sátt-
mála þinn, rifið niður ölturu þín og drepið spámenn þína með sverði,
svo að eg er einn eftir orðinn, og sitja þeir nú um líf mitt. 11 Þá
mælti hann: Gakk þú út og nem staðar á fjallinu frammi fyrir Jahve.
Og sjá, Jahve gekk fram hjá, og mikill og sterkur stormur, er
tætti fjöllin og molaði klettana, fór fyrir Jahve; en Jahve var ekki í
storminum. 12 Og eftir storminn kom landskjálfti, en Jahve var ekki í
landskjálftanum; og eftir landskjálftann kom eldur, en Jahve var ekki í
eldinum; en eftir eldinn kom blíður vindblær. 13 Og er Elía heyrði
það, huldi hann andlit sitt með skikkju sinni, gekk út og nam staðar
við hellisdyrnar. Sjá, þá barst rödd að eyrum honum og mælti: Hvað
ert þú hér að gjöra, Elía? 14 Hann svaraði: Eg hefi verið vandlæt-
ingasamur vegna Jahve, Guðs hersveitanna, því að Ísraelsmenn hafa
virt að vettugi sáttmála þinn, rifið niður ölturu þín og drepið spámenn
þína með sverði, svo að eg er einn eftir orðinn, og sitja þeir nú um
líf mitt. 15 En Jahve sagði við hann: Far þú aftur leiðar þinnar til
Damaskus-eyðimerkur og far inn í borgina og smyr Hasael til konungs
yfir Sýrland. 16 Og Jehú Nimsíson skalt þú smyrja til konungs yfir Ís-
rael, og Elísa Safatsson frá Abel-Mehóla skalt þú smyrja til spámanns
í þinn stað. 17 Og hvern þann, er kemst undan sverði Hasaels, skal
Jehú drepa, og hvern þann, er kemst undan sverði Jehú, skal Elísa
drepa. 18 Þó vil eg láta eftir verða í Ísrael sjö þúsundir — öll þau kné,
sem eigi hafa beygt sig fyrir Baal, og alla þá munna, er eigi hafa
kyst hann.
19 Síðan fór hann þaðan og hitti Elísa Safatsson; hann var að
plægja; gengu tólf sameyki á undan honum og sjálfur var hann með
hinu tólfta. Þá gekk Elía til hans og lagði skikkju sína yfir hann.
20 Þá fyrirlét hann yxnin, rann eftir Elía og mælti: Leyf þú mér fyrst
að minnast við föður minn og móður, síðan skal eg fara með þér.

---

**19, 1:** kap. 18, 40. **4:** Jón. 4, 3. **8:** 2 Mós. 24, 18; 34, 28 n. 3, 1. **10:** Róm. 11, 3. 1 Kong. 18, 22. **11:** 2 Mós. 34, 2. **12:** Job 4, 16. **13:** 2 Mós. 3, 6. **16:** 2 Kong. 9, 2. 3. **18:** Róm. 11, 4.

Hann svaraði honum: Far og snú aftur, en mun hvað eg hefi gjört þér.
[21] Þá sneri hann aftur og skildi við hann, tók sameykin og slátraði
þeim og sauð kjötið af þeim við aktýgin af yxnunum og gaf fólkinu að
eta. Síðan tók hann sig upp og fór á eftir Elía og gjörðist þjónn hans.

## Akab vinnur tvívegis sigur á Benhadad.

20 En Benhadad konungur á Sýrlandi dró saman allan her sinn;
voru þrjátíu og tveir konungar með honum, með hestum og
vögnum, og hann fór, settist um Samaríu og gjörði áhlaup á hana.
[2] Og hann sendi menn til Akabs Ísraels-konungs inn í borgina, [3] og
lét segja honum: Svo segir Benhadad: Silfur þitt og gull er mitt, svo
og hinar fegurstu konur þínar og synir. [4] Ísraels-konungur svaraði og
sagði: Eins og þú vilt vera láta, minn herra konungur; eg er þinn og
alt, sem eg á. [5] Og sendimennirnir komu aftur og sögðu: Svo segir
Benhadad: Eg hefi gjört þér þessa orðsending: Þú skalt gefa mér silfur
þitt og gull, konur þínar og sonu. [6] Þegar eg á morgun í þetta mund
sendi menn mína til þín, munu þeir rannsaka hús þitt og hús þinna
manna, og skulu þeir taka og hafa á burt með sér sérhvað það, sem
þeir ágirnast. [7] Þá kallaði Ísraels-konungur alla öldunga landsins fyrir
sig og mælti: Hyggið að og sjáið, að hann býr yfir illu, því að hann
sendi til mín eftir konum mínum og sonum, silfri mínu og gulli, og
synjaði eg honum þess ekki. [8] Þá sögðu allir öldungarnir og allur lýð-
urinn við hann: Gegn þú eigi þessu og samþykk þú það eigi. [9] Þá
sagði hann við sendimenn Benhadads: Segið mínum herra konungin-
um: Alt það, sem þú gjörðir þjóni þínum orð um í fyrstu, vil eg gjöra,
en þetta get eg ekki gjört. Þá fóru sendimennirnir og færðu honum
svarið. [10] Þá sendi Benhadad til hans og lét segja: Guðirnir gjöri mér
hvað sem þeir vilja, nú og síðar: rykið í Samaríu mun eigi nægja til
þess að fylla lúkurnar á öllu þessu liði, sem með mér er. [11] En Ísra-
els-konungur svaraði og sagði: Segið honum: Eigi skyldi sá, er her-
væðist, hrósa sér sem sá, er leggur af sér vopnin.
[12] En er hann heyrði þetta svar, þar sem hann sat að drykkju
með konungunum í laufskálunum, mælti hann til sinna manna: Færið
fram hervélarnar. Og þeir færðu þær fram gegnt borginni. [13] En spá-
maður nokkur gekk fyrir Akab Ísraels-konung og mælti: Svo segir
Jahve: Sér þú allan þennan mikla manngrúa? hann gef eg þér í hendur
í dag, svo að þú viðurkennir að eg er Jahve. [14] Þá mælti Akab: Fyrir
hvers fulltingi? Hinn svaraði: Svo segir Jahve: Fyrir fulltingi sveina hér-
aðshöfðingjanna. Þá spurði hann: Hver á að hefja orustuna? Hinn svar-
aði: Þú. [15] Þá kannaði hann sveina héraðshöfðingjanna, og voru þeir
tvö hundruð þrjátíu og tveir. Og að því búnu kannaði hann alt liðið,
alla Ísraelsmenn, sjö þúsund manns. [16] Um hádegið réðu þeir til út-
göngu, en Benhadad sat þá ölvaður að drykkju í laufskálunum, hann
og þeir þrjátíu og tveir konungar, er komnir voru honum til liðs.
[17] Og sveinar héraðshöfðingjanna fóru fremstir. Þá sendi Benhadad
menn til að njósna; þeir sögðu honum svo frá: Menn fara út frá
Samaríu. [18] Þá sagði hann: Hvort sem þeir fara út til þess að biðjast
friðar eða til þess að berjast, þá takið þá höndum lifandi. [19] Og er
þessir fóru út af borginni — sveinar héraðshöfðingjanna og liðið, sem
þeim fylgdi —, [20] drápu þeir hver sinn mann. Flýðu þá Sýrlendingar,
en Ísraelsmenn eltu þá. Og Benhadad Sýrlands-konungur komst undan
á vagnhesti með nokkura riddara. [21] En Ísraels-konungur fór út og
náði hestunum og vögnunum. Og hann vann mikinn sigur á Sýr-
lendingum.

[22] Þá gekk spámaður fyrir Ísraels-konung og mælti til hans: Ver
hugrakkur og hygg vandlega að, hvað þú skulir gjöra, því að næsta
ár mun Sýrlands-konungur fara með her á hendur þér. [23] En menn
Sýrlands-konungs sögðu við hann: Guð þeirra er fjallaguð, þess vegna
urðu þeir oss yfirsterkari, en ef vér mættum berjast við þá á jafnsléttu,
mundum vér vissulega vinna sigur á þeim. [24] En gjör þú þetta: Vík
öllum konungunum frá völdum og set jarla í þeirra stað; [25] safna síðan
að þér jafnfjölmennu liði sem það lið var, er þú mistir, og jafnmörg-
um hestum og jafnmörgum vögnum sem þú mistir, og skulum vér
berjast við þá á jafnsléttu, og munum vér vissulega sigrast á þeim.
Fór hann að ráðum þeirra og gjörði svo.

[26] Árið eftir kannaði Benhadad Sýrlendinga og hélt til Afek, til
þess að berjast við Ísraelsmenn. [27] En Ísraelsmenn voru og kannaðir
og birgðir að vistum, og fóru þeir í móti þeim, og settu Ísraelsmenn
herbúðir gegnt þeim; voru þeir sem tveir geitfjárhópar, en Sýrlendingar
fyltu landið. [28] Þá gekk guðsmaðurinn fram, talaði til Ísraels-konungs
og mælti: Svo segir Jahve: Sakir þess að Sýrlendingar hafa sagt:
Jahve er fjallaguð, en enginn dalaguð — þá vil eg gefa þennan mikla
manngrúa í þínar hendur, svo að þér kannist við að eg er Jahve.
[29] Þannig lágu þeir í herbúðunum, hverir gegnt öðrum, í sjö daga; en
á sjöunda degi tókst orusta, og feldu Ísraelsmenn hundrað þúsundir
fótgönguliðs af Sýrlendingum á einum degi. [30] En þeir, sem eftir urðu,
flýðu til Afek, inn í borgina, en þá féll borgarmúrinn á þau tuttugu
og sjö þúsund manns, sem eftir voru. Benhadad var og flúinn og
komst inn í borgina, úr einu herberginu í annað.

[31] Þá sögðu menn hans við hann: Vér höfum heyrt, að konungar
Ísraels-húss séu miskunnsamir konungar; skulum vér nú gyrðast hæru-
sekk um lendar vorar og vefja bandi um höfuð vor og ganga síðan
fyrir Ísraels-konung; má vera að hann gefi þér líf. [32] Síðan gyrtust
þeir hærusekk um lendar sér, vöfðu bandi um höfuð sér og gengu síðan
á fund Ísraels-konungs og sögðu: Þjónn þinn Benhadad segir: Gef þú
mér líf. Hann svaraði: Er hann enn á lífi; hann er bróðir minn.
[33] Þetta þótti mönnunum góðs viti, og flýttu þeir sér að taka hann á
orðinu og sögðu: Benhadad er bróðir þinn! En hann mælti: Farið og
sækið hann. Þá gekk Benhadad út til hans, og hann lét hann stíga
upp í vagninn til sín. [34] Og Benhadad sagði við hann: Borgunum, sem
faðir minn tók frá föður þínum, skal eg skila aftur, og þú mátt
gjöra þér torg í Damaskus, eins og faðir minn gjörði í Samaríu. Hvað
mig snertir, mælti Akab, þá vil eg láta þig lausan með þessum skil-
málum. Og hann gjörði við hann sáttmála og lét hann í brott fara.

[35] En maður nokkur af spámannasveinunum sagði við félaga sinn,
eftir orði Jahve: Slá þú mig! En maðurinn færðist undan að slá hann.
[36] Þá sagði hann við hann: Sökum þess að þú hlýddir ekki raust Jahve,
þá mun ljón ljósta þig jafnskjótt og þú gengur burt frá mér. Og er
hann gekk í burt frá honum, mætti ljón honum og drap hann. [37] Og
hann hitti annan mann og mælti: Slá þú mig! Og maðurinn sló hann,
svo að hann varð sár. [38] Síðan fór spámaðurinn burt og gekk í veg fyrir
konung og gjörði sig ókennilegan með því að binda fyrir augun. [39] En er
konungur fór fram hjá, kallaði hann til konungs og mælti: Þjónn þinn
fór í bardagann; þá gekk maður fram úr fylkingunni, færði mér mann
og sagði: Geymdu þennan mann. Komist hann í burt, þá skal líf þitt
við liggja, eða þú skalt greiða talentu silfurs. [40] En svo fór, að þar
sem þjónn þinn hafði við hinu og þessu að snúast, þá varð maðurinn
allur á burtu. En Ísraels-konungur sagði við hann: Það er þinn dómur;

**20, 36:** kap. 13, 24.

þú hefir sjálfur kveðið hann upp. [41] Þá tók hann í skyndi bandið frá
augunum, og Ísraels-konungur þekti hann, að hann var einn af spá-
mönnunum. [42] En hinn mælti þá til hans: Svo segir Jahve: Sökum
þess að þú sleptir þeim manni úr hendi þér, sem eg hafði banni helgað,
þá skal líf þitt koma fyrir hans líf og þín þjóð fyrir hans þjóð.
[43] Og Ísraels-konungur hélt heim til sín hryggur og reiður og kom til
Samaríu.

## Nabót grýttur.

**21** Eftir þetta bar það til, er nú skal greina: Nabót Jesreelíti átti
víngarð í Jesreel, rétt hjá höll Akabs konungs í Samaríu. [2] Og
Akab kom að máli við Nabót og sagði: Lát mig fá víngarð þinn, að
eg megi hafa hann að matjurtagarði, því að hann er í nánd við hús
mitt og eg skal láta þig fá fyrir hann betri víngarð, eða, ef þú vilt það
heldur, þá skal eg greiða þér andvirði hans í peningum. [3] En Nabót
sagði við Akab: Jahve forði mér frá að farga til þín arfleifð feðra
minna. [4] Þá kom Akab heim í höll sína, hryggur og reiður út af því,
sem Nabót Jesreelíti hafði sagt við hann, er hann mælti: Eg farga ekki
til þín arfleifð feðra minna. Og hann lagðist í rekkju og sneri sér til
veggjar og neytti eigi matar.
[5] Þá kom Ísebel kona hans til hans og sagði við hann: Hví ert
þú svo hryggur í skapi, að þú vilt ekki matar neyta? [6] Hann svaraði
henni: Komi eg að máli við Nabót Jesreelíta og segi við hann: Lát
mig fá víngarð þinn fyrir peninga, eða, ef þú vilt það heldur, þá skal
eg láta þig fá fyrir hann annan víngarð, — þá segir hann: Eg farga
ekki víngarði mínum til þín. [7] Þá mælti Ísebel kona hans við hann:
Ert þú sá, sem nú hefir konungsvald í Ísrael? Rís þú upp, neyt matar
og lát liggja vel á þér. Eg skal útvega þér víngarð Nabóts Jesreelíta.
[8] Síðan skrifaði hún bréf undir nafni Akabs og innsiglaði það með inn-
sigli hans, og sendi bréfið til öldunga og tignarmanna borgar Nabóts,
samborgarmanna hans. [9] En í bréfinu skrifaði hún á þessa leið: Látið
boða föstu og látið Nabót sitja efstan meðal fólksins, [10] og látið tvö
varmenni sitja gegnt honum, er vitni gegn honum og segi: Þú hefir
lastmælt Guði og konunginum! Leiðið hann síðan út og grýtið hann
til bana. [11] Og samborgarmenn hans, öldungarnir og tignarmennirnir,
sem bjuggu í borg hans, gjörðu eins og Ísebel hafði gjört þeim boð
um, eins og skrifað var í bréfinu, sem hún hafði sent þeim. [12] Þeir
létu boða föstu og létu Nabót sitja efstan meðal fólksins. [13] Síðan komu
varmennin tvö og settust gegnt honum; og varmennin vitnuðu gegn Nabót
í áheyrn fólksins og sögðu: Nabót hefir lastmælt Guði og konunginum.
Og þeir leiddu hann út fyrir borgina og lömdu hann grjóti til bana.
[14] Síðan sendu þeir til Ísebelar og létu segja: Nabót var grýttur og er
dauður. [15] En er Ísebel heyrði, að Nabót hefði grýttur verið og væri dauð-
ur, þá sagði Ísebel við Akab: Rís nú á fætur og kasta eign þinni á vín-
garð Nabóts Jesreelíta, sem hann vildi eigi láta falan við þig fyrir
peninga, því að Nabót er nú ekki á lífi, heldur er hann dauður. [16] Og
er Akab heyrði, að Nabót væri dauður, reis hann á fætur og fór ofan
í víngarð Nabóts Jesreelíta, til þess að kasta á hann eign sinni.
[17] En orð Jahve kom til Elía Tisbíta, svolátandi: [18] Tak þú þig upp,
far ofan eftir, til fundar við Akab Ísraels-konung, sem býr í Samaríu —
hann er nú í víngarði Nabóts; er hann farinn þangað ofan, til þess að
kasta á hann eign sinni — [19] og mæl þú til hans á þessa leið: Svo
segir Jahve: Hefir þú myrt — og líka tekið eignina? Og mæl enn

---

**42:** kap. 21, 4. — **21, 3:** 3 Mós. 25, 23.

fremur til hans: Svo segir Jahve: Þar sem hundarnir sleiktu blóð Na-
bóts, þar skulu og hundar sleikja þitt blóð. [20] Og Akab sagði við Elía:
Hefir þú fundið mig, fjandmaður minn? Hann svaraði: Hefi eg víst.
Af því að þú hefir ofurselt þig til að gjöra það, sem ilt er í augum
Jahve, [21] þá leiði eg ógæfu yfir þig og sópa þér burt og uppræti fyrir
Akab hvern karlmann, bæði þræl og frelsingja í Ísrael. [22] Og eg mun
fara með ætt þína eins og með ætt Jeróbóams Nebatssonar og ætt Baesa
Ahíasonar, vegna reiði þeirrar, er þú hefir egnt mig til, og af því að
þú hefir komið Ísrael til að syndga. [23] Og einnig um Ísebel talaði Jahve
á þessa leið: Hundar skulu eta Ísebel hjá Jesreelmúrum. [24] Hvern þann,
er deyr af Akab innan borgar, munu hundar eta, og hvern þann, sem
deyr úti á víðavangi, munu fuglar himins eta. [25] Alls enginn hefir verið,
er ofurselt hafi sig, eins og Akab, til að gjöra það sem ilt var í aug-
um Jahve, og ginti Ísebel kona hans hann til þess. [26] Og hann breytti
mjög svívirðilega með því að elta skurðgoðin, alveg eins og Amórítar
gjörðu, þeir er Jahve stökti burt undan Ísraelsmönnum.
[27] En er Akab heyrði þessi orð, reif hann klæði sín og lagði hæru-
sekk á bert hold sitt og fastaði; og hann svaf í hærusekknum og gekk
hljóðlega. [28] Þá kom orð Jahve til Elía Tisbíta, svolátandi: [29] Hefir þú
séð, hversu Akab lægir sig fyrir mér? Af því að hann hefir lægt sig
fyrir mér, mun eg eigi leiða ógæfuna yfir meðan hann lifir, en á dögum
sonar hans mun eg leiða ógæfuna yfir ætt hans.

## Herjað á Ramót. Fall Akabs.

22 Nú héldu þeir kyrru fyrir í þrjú ár, og var enginn ófriður
milli Sýrlands og Ísraels. [2] En á þriðja ári fór Jósafat konung-
ur í Júda á fund Ísraels-konungs. [3] Og Ísraels-konungur sagði við
þjóna sína: Vita munuð þér, að vér eigum Ramót í Gíleað, en vér höf-
umst eigi að og tökum hana ekki frá Sýrlands-konungi. [4] Þá mælti
hann við Jósafat: Hvort munt þú fara með mér í hernað til Ramót í
Gíleað? En Jósafat sagði við Ísraels-konung: Eitt skal yfir báða
ganga, mig og þig, mína þjóð og þína þjóð, mína hesta og þína hesta.
[5] Og Jósafat sagði við Ísraels-konung: Gakk þú fyrst til frétta og
vit hvað Jahve segir. [6] Þá stefndi Ísraels-konungur saman spámönn-
unum, um fjögur hundruð manns, og sagði við þá: Á eg að fara og
herja á Ramót í Gíleað, eða á eg að hætta við það? Þeir svöruðu:
Far þú, og Jahve mun gefa hana í hendur konungi. [7] En Jósafat mælti:
Er hér ekki enn einhver spámaður Jahve, að vér mættum leita frétta
hjá honum? [8] Ísraels-konungur mælti til Jósafats: Enn er einn eftir,
er vér gætum látið ganga til frétta við Jahve; en mér er lítið um hann
gefið, því að hann spáir mér aldrei góðu, heldur illu einu; hann heitir
Míka Jimlason. En Jósafat sagði: Eigi skyldi konungur svo mæla.
[9] Þá kallaði Ísraels-konungur einn af hirðmönnunum og mælti:
Sæk sem skjótast Míka Jimlason. [10] En Ísraels-konungur og Jósafat
Júda-konungur sátu hvor í sínu hásæti skrýddir purpuraklæðum úti
fyrir borgarhliði Samaríu og allir spámennirnir spáðu frammi fyrir
þeim. [11] Þá gjörði Zedekía Kenaanason sér horn úr járni og mælti:
Svo segir Jahve: Með þessum munt þú reka Sýrlendinga undir, unz
þú hefir gjöreytt þeim. [12] Og allir spámennirnir spáðu á sömu leið og
sögðu: Far þú til Ramót í Gíleað; þú munt giftudrjúgur verða, og
Jahve mun gefa hana í hendur konungi.

---

**19:** kap. 22, 38. 2 Kong. 9, 25 n. **21:** 2 Kong. 9, 8 n. **22:** kap. 15, 29; 16, 3. 11.
**23:** 2 Kong. 9, 33—36. **24:** kap. 14, 11; 16, 4. **27:** 2 Kong. 6, 30. **29:** 2 Kong.
9, 24 n. — **22, 2:** 2 Kron. 18, 2 n. **4:** 2 Kong. 3, 7.

[13] En sendimaðurinn, sem farinn var að sækja Míka, mælti til
hans á þessa leið: Sjá, spámennirnir hafa einum munni boðað kon-
ungi hamingju; mæl þú sem þeir og boða þú hamingju. [14] En Míka
svaraði: Svo sannarlega sem Jahve lifir, það sem Jahve til mín talar,
það mun eg mæla. [15] Og er hann kom til konungs, mælti konungur
til hans: Míka, eigum vér að fara og herja á Ramót í Gílead, eða
eigum vér að hætta við það? Þá sagði hann við hann: Far þú; þú
munt giftudrjúgur verða, og Jahve mun gefa hana í hendur konungi!
[16] Þá sagði konungur við hann: Hversu oft á eg að særa þig um, að
þú segir mér eigi annað en sannleikann í nafni Jahve? [17] Þá mælti
hann: Eg sá allan Ísrael tvístrast um fjöllin, eins og hirðislausa sauði,
og Jahve sagði: Þessir hafa engan herra; fari þeir í friði hver heim til
sín. [18] Þá sagði Ísraels-konungur við Jósafat: Fer nú eigi sem eg
sagði þér: hann spáir mér aldrei góðu, heldur illu einu? [19] Þá mælti
hann: Eigi er svo! Heyr orð Jahve! Eg sá Jahve sitja í hásæti sínu
og allan himins her standa á tvær hendur honum. [20] Og Jahve
sagði: Hver vill ginna Akab til þess að fara til Ramót í Gílead og
falla þar? Og einn sagði þetta og annar hitt. [21] Þá gekk fram andi,
staðnæmdist frammi fyrir Jahve og mælti: Eg skal ginna hann. Og
Jahve sagði við hann: Með hverju? [22] Hann mælti: Eg ætla að fara
og verða lygiandi í munni allra spámanna hans. Þá mælti hann: Þú
skalt ginna hann og þér mun takast það. Far og gjör svo! [23] Þannig
hefir þá Jahve lagt lygianda í munn öllum þessum spámönnum þín-
um, þar sem Jahve hefir þó ákveðið að leiða yfir þig ógæfu.

[24] Þá gekk að Zedekía Kenaanason, laust Míka kinnhest og mælti:
Hvaða leið hefir andi Jahve farið frá mér til þess að tala við þig?
[25] Þá mælti Míka: Það munt þú sjá á þeim degi, er þú fer í felur úr
einu herberginu í annað. [26] Þá mælti Ísraels-konungur: Tak Míka og
fær hann Amón borgarstjóra og Jóas konungssyni [27] og seg: Svo segir
konungur: Kastið manni þessum í dýflissu og gefið honum brauð og
vatn af skornum skamti, þar til er eg kem aftur heill á húfi. [28] Þá
mælti Míka: Komir þú aftur heill á húfi, þá hefir Jahve eigi talað
fyrir minn munn. Og hann mælti: Heyri það allir lýðir!

[29] Síðan fóru þeir Ísraels-konungur og Jósafat Júda-konungur til
Ramót í Gílead. [30] Og Ísraels-konungur sagði við Jósafat: Eg mun
klæðast dularbúningi og ganga í orustuna, en þú skalt vera klæddur
búningi þínum. Klæddist þá Ísraels-konungur dularbúningi og gekk í
orustuna. [31] En Sýrlands-konungur hafði boðið foringjunum fyrir
vagnliði sínu, sem voru þrjátíu og tveir, á þessa leið: Þér skuluð eigi
berjast við neinn, hvorki smáan né stóran, nema Ísraels-konung einan.
[32] Og er foringjarnir fyrir vagnliðinu sáu Jósafat, sögðu þeir: Þetta er
vissulega Ísraels-konungurinn, og sneru í móti honum til þess að berj-
ast við hann. Þá kallaði Jósafat hátt. [33] Og er foringjarnir fyrir vagn-
liðinu sáu, að það var ekki Ísraels-konungur, þá hættu þeir að elta
hann.

[34] En maður nokkur lagði ör á streng og skaut af handahófi, og
kom á Ísraels-konung milli brynbeltis og panzara. Þá mælti hann við
kerrusvein sinn: Snú þú við og kom mér burt úr bardaganum, því að
eg er sár. [35] Var bardaginn hinn harðasti um daginn, og konungur
stóð í vagninum andspænis Sýrlendingum alt til kvelds, og blóðið úr
sárinu rann ofan í vagninn, og dó hann um kveldið. [36] En um sól-
setur kvað svolátandi óp við um allan herinn: Hver fari heim til

---

**14:** 4 Mós. 22, 38. **17:** 4 Mós. 27, 17. Matt. 9, 36. **27:** 2 Kron. 16, 10. Jer. 37, 15. **29:** 2 Kron. 18, 28 n. **31:** kap. 20, 16. 24. **35:** 2 Kron. 18, 34.

sinnar borgar og síns lands, [37] því að konungur er dauður. Og þeir
komu til Samaríu og jörðuðu konung í Samaríu. [38] En er vagninn var
þveginn við Samaríutjörn, þá sleiktu hundar blóðið og portkonur laug-
uðu sig í því, eftir orði Jahve, því er hann hafði talað.
[39] En það sem meira er að segja um Akab og alt, sem hann gjörði,
og um fílabeinshúsið, sem hann reisti, og allar borgirnar, sem hann
bygði, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga. [40] Og Akab lagðist til
hvíldar hjá feðrum sínum, og Ahasja sonur hans tók ríki eftir hann.

## Frá Jósafat, konungi í Júda.

[41] Og Jósafat, sonur Asa, varð konungur yfir Júda á fjórða ríkisári
Akabs, konungs í Ísrael. [42] Og Jósafat var þrjátíu og fimm ára að aldri,
er hann tók ríki, og tuttugu og fimm ár ríkti hann í Jerúsalem. En
móðir hans hét Asúba Sílhídóttir. [43] Og hann fetaði að öllu í fótspor
Asa föður síns og veik ekki frá þeim, með því að hann gjörði það sem
rétt var í augum Jahve. [44] Þó voru hæðirnar ekki afnumdar; enn þá
fórnaði lýðurinn sláturfórnum og reykelsisfórnum á hæðunum. [45] Og
Jósafat hafði frið við Ísraels-konung.
[46] En það sem meira er að segja um Jósafat og hreystiverk hans,
þau er hann vann, og hvernig hann herjaði, það er ritað í árbókum
Júda-konunga. [47] Hann eyddi og úr landinu leifum þeirra manna, er
helgað höfðu sig saurlifnaði og eftir höfðu orðið á dögum Asa föður
hans. [48] Þá var enginn konungur í Edóm; jarl nokkur var þar kon-
ungur. [49] Jósafat hafði gjöra látið Tarsis-skip, er fara skyldu til Ófír
að sækja gull, en eigi varð af ferðinni, því að skipin brotnuðu við
Ezjón-Geber. [50] Þá sagði Ahasja Akabsson við Jósafat: Lát mína menn
fara með þínum mönnum á skipunum. En Jósafat vildi ekki. [51] Og
Jósafat lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var grafinn hjá feðr-
um sínum í borg Davíðs forföður síns. Og Jóram sonur hans tók ríki
eftir hann.

## Frá Ahasja, konungi í Ísrael.

[52] Ahasja sonur Akabs varð konungur í Samaríu yfir Ísrael á seyt-
jánda ríkisári Jósafats, konungs í Júda, og hann ríkti yfir Ísrael tvö
ár. [53] Og hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve og fetaði í fót-
spor föður síns og móður og í fótspor Jeróbóams Nebatssonar, er
komið hafði Ísrael til að syndga. [54] Og hann dýrkaði Baal og tilbað
hann og egndi Jahve, Ísraels Guð, til reiði, alveg eins og faðir hans
hafði gjört.

---

**38:** kap. 21, 19. **44:** kap. 15, 14. 2 Kong. 12, 3. **47:** kap. 15, 12. **49:** kap. 9, 28.
**54:** kap. 16, 31.

# Síðari bók konunganna.

---

### Ahasja sýkist og deyr.

1 Eftir dauða Akabs brauzt Móab undan Ísrael. [2] En Ahasja féll
ofan um grindurnar á loftsal sínum í Samaríu og varð sjúkur. Þá
gjörði hann út sendimenn og sagði við þá: Farið og gangið til frétta
við Baal-Sebúb, guðinn í Ekron, hvort eg muni heill verða af þessum
sjúkdómi. [3] En engill Jahve sagði við Elía Tisbíta: Tak þig upp og
far á móti sendimönnum konungsins í Samaríu og seg við þá: Það er
víst enginn guð til í Ísrael, úr því þér farið til þess að ganga til frétta
við Baal-Sebúb, guðinn í Ekron? [4] Fyrir því segir Jahve svo: Úr rekk-
junni, sem þú nú ert lagstur í, skalt þú ekki rísa, heldur skalt þú deyja.
Síðan fór Elía burt.
[5] Og er sendimennirnir komu aftur til konungs, sagði hann við
þá: Hví eruð þér komnir aftur? [6] Þeir svöruðu honum: Maður kom
á móti oss og sagði við oss: Farið og snúið aftur heim til konungsins,
er yður sendi, og segið við hann: Svo segir Jahve: Það er víst enginn
guð til í Ísrael, úr því þú sendir til þess að leita frétta hjá Baal-Sebúb,
guðinum í Ekron. Fyrir því skalt þú eigi rísa úr rekkjunni, sem þú
nú ert lagstur í, heldur skalt þú deyja. [7] Þá mælti hann við þá: Hvernig
var sá maður í hátt, sem kom á móti yður og talaði þessi orð við
yður? [8] Þeir svöruðu honum: Hann var í skinnfeldi og gyrður leður-
belti um lendar sér. Þá mælti hann: Það hefir verið Elía frá Tisbe.
[9] Þá sendi hann til hans fimtíumannaforingja og fimtíu menn
hans með honum. Fór hann þá upp til hans — en hann sat efst uppi
á fjalli — og sagði við hann: Þú guðsmaður! Konungur segir: Kom þú
ofan! [10] En Elía svaraði og sagði við fimtíumannaforingjann: Sé eg
guðsmaður, þá falli eldur af himni og eyði þér og þínum fimtíu mönn-
um. Féll þá eldur af himni og eyddi honum og mönnum hans fimtíu.
[11] Og hann sendi aftur til hans annan fimtíumannaforingja og fimtíu
menn hans með honum. Fór hann upp og sagði við hann: Þú guðs-
maður, svo segir konungur: Kom sem skjótast ofan! [12] En Elía svar-
aði og sagði við þá: Sé eg guðsmaður, þá falli eldur af himni og eyði
þér og þínum fimtíu mönnum. Féll þá eldur Guðs af himni og eyddi
honum og mönnum hans fimtíu. [13] Þá sendi hann enn þriðja fimtíu-
mannaforingjann og fimtíu menn hans með honum. Og fimtíumanna-
foringinn þriðji fór upp, og er hann kom þangað, féll hann á kné fyrir
Elía, grátbændi hann og mælti til hans: Þú guðsmaður, þyrm þú lífi
mínu og lífi þessara fimtíu þjóna þinna. [14] Sjá, eldur er fallinn af
himni og hefir eytt báðum fyrri fimtíumannaforingjunum og fimtíu
mönnum þeirra. En þyrm nú lífi mínu. [15] Þá sagði engill Jahve við
Elía: Far þú ofan með honum og ver óhræddur við hann. Stóð hann
þá upp og fór ofan með honum til konungs. [16] Og hann sagði við
hann: Svo segir Jahve: Af því að þú gjörðir út sendimenn til þess að
leita frétta hjá Baal-Sebúb, guðinum í Ekron, — það er víst enginn
guð til í Ísrael, er leita megi frétta hjá — þá skalt þú eigi rísa úr
rekkjunni, sem þú nú ert lagstur í, heldur skalt þú deyja. [17] Og hann
dó eftir orði Jahve, því er Elía hafði talað, og Jóram bróðir hans tók
ríki eftir hann á öðru ríkisári Jórams Jósafatssonar, konungs í Júda,
því að hann átti engan son.

---

**1, 1:** kap. 3, 5. **8:** Matt. 3, 4. Hebr. 11, 37. **10:** Lúk. 9, 54. **17:** kap. 3, 1,

18 En það sem meira er að segja um Ahasja, hvað hann gjörði,
það er ritað í árbókum Ísraels-konunga.

### Elía uppnuminn. Frá Elísa.

2 Þegar Jahve ætlaði að láta Elía fara til himins í stormviðri,
voru þeir Elía og Elísa á leið frá Gilgal. 2 Þá sagði Elía við Elísa:
Vertu hér kyrr, því að Jahve hefir sent mig til Betel. En Elísa svaraði:
Svo sannarlega sem Jahve lifir og svo sannarlega sem þú lifir, mun eg
eigi við þig skilja. Fóru þeir þá ofan til Betel. 3 Gengu þá spámanna-
sveinar þeir, er voru í Betel, út á móti Elísa og sögðu við hann: Veizt
þú að Jahve ætlar í dag að nema herra þinn burt yfir höfði þér?
Hann svaraði: Veit eg það líka; verið hljóðir! 4 Þá sagði Elía við
hann: Elísa, vertu hér kyrr, því að Jahve hefir sent mig til Jeríkó.
Hann svaraði: Svo sannarlega sem Jahve lifir og svo sannarlega sem
þú lifir, mun eg eigi við þig skilja. Fóru þeir þá til Jeríkó. 5 Þá
gengu spámannasveinar þeir, er voru í Jeríkó, til Elísa og sögðu við
hann: Veizt þú að Jahve ætlar í dag að nema herra þinn burt yfir
höfði þér? Hann svaraði: Veit eg það líka; verið hljóðir! 6 Þá sagði
Elía við hann: Vertu hér kyrr, því að Jahve hefir sent mig til Jórdanar.
Hann svaraði: Svo sannarlega sem Jahve lifir og svo sannarlega sem
þú lifir, mun eg eigi við þig skilja. Fóru þeir þá báðir saman. 7 En
fimtíu manns af spámannasveinunum fóru og námu staðar til hliðar
í nokkurri fjarlægð, en hinir báðir gengu að Jórdan. 8 Þá tók Elía
skikkju sína, braut hana saman og sló á vatnið; skifti það sér þá til
beggja hliða, en þeir gengu báðir yfir um á þurru.

9 En er þeir voru komnir yfir um, sagði Elía við Elísa: Bið þú
mig einhvers, er eg megi veita þér áður en eg verð numinn burt frá
þér. Elísa svaraði: Mættu mér þá hlotnast tveir hlutar af andagift
þinni. 10 Þá mælti hann: Til mikils hefir þú mælst; en ef þú sér mig,
er eg verð numinn burt frá þér, þá mun þér veitast það, ella eigi.
11 En er þeir héldu áfram og voru að tala saman, þá kom alt í einu
eldlegur vagn og eldlegir hestar og skildu þá að, og Elía fór til himins
í stormviðri. 12 Og er Elísa sá það, kallaði hann: Faðir minn, faðir
minn, þú Ísraels vagn og riddarar! Og hann sá hann ekki framar.
Þá þreif hann í klæði sín og reif þau sundur í tvo hluti. 13 Síðan tók
hann upp skikkju Elía, er fallið hafði af honum, sneri við og gekk
niður á Jórdanbakka, 14 tók skikkju Elía, er fallið hafði af honum,
sló á vatnið og sagði: Hvar er nú Jahve, Guð Elía? En er hann sló
á vatnið, skifti það sér til beggja hliða, en Elísa gekk yfir um. 15 En
er spámannasveinarnir í Jeríkó sáu það hinumegin, sögðu þeir: Andi
Elía hvílir yfir Elísa. Gengu þeir í móti honum, lutu til jarðar fyrir
honum 16 og sögðu við hann: Sjá, hér eru fimtíu röskir menn með
þjónum þínum, lát þá fara og leita að herra þínum, ef andi Jahve
kynni að hafa hrifið hann og varpað honum á eitthvert fjallið eða ofan
í einhvern dalinn. En hann mælti: Eigi skuluð þér senda. 17 En er
þeir lögðu mjög að honum, mælti hann: Sendið þér þá. Sendu þeir
þá fimtíu manns, og leituðu þeir hans í þrjá daga, en fundu hann ekki.
18 Sneru þeir þá aftur til Elísa, og var hann þá enn í Jeríkó. Þá sagði
hann við þá: Sagði eg yður ekki, að þér skylduð ekki fara?

19 Og borgarmenn sögðu við Elísa: Borg þessi liggur að vísu vel,
eins og þú sjálfur sér, herra, en vatnið er vont og landið veldur því,
að konur fæða fyrir tímann. 20 Hann sagði við þá: Færið mér nýja
skál og látið í hana salt. Þeir gjörðu svo. 21 Og hann gekk út að

---

2, 8: 2 Mós. 14, 21. Jós. 3, 16. 12: kap. 13, 14.

uppsprettu vatnsins, kastaði saltinu í hana og mælti: Svo segir Jahve:
Eg gjöri vatn þetta heilnæmt; upp frá þessu skal það eigi valda dauða
né ótímaburði. 22 Þá varð vatnið heilnæmt samkvæmt orði Elísa, því
er hann hafði talað, og er svo enn í dag.
23 Þaðan hélt hann til Betel. Og er hann gekk upp veginn, gengu
smásveinar út úr borginni, hæddu hann og kölluðu til hans: Kom
hingað, skalli; kom hingað, skalli! 24 Sneri hann sér þá við, og er
hann sá þá, formælti hann þeim í nafni Jahve. Þá komu tvær birnur
út úr skóginum og rifu í sundur fjörutíu og tvö af börnunum. 25 Þaðan
fór hann til Karmel-fjalls og sneri þaðan aftur til Samaríu.

## Ófriður með Ísraelsmönnum og Móabítum.

3 Og Jóram, sonur Akabs, varð konungur í Samaríu yfir Ísrael á
átjánda ríkisári Jósafats Júda-konungs og ríkti tólf ár. 2 Og hann
gjörði það sem ilt var í augum Jahve, þó ekki eins og faðir hans og
móðir hans, því að hann tók burt Baals-merkissteinana, sem faðir hans
hafði gjöra látið. 3 En við syndir Jeróbóams Nebatssonar, er hann hafði
komið Ísrael til að drýgja, hélt hann fast og lét ekki af þeim.
4 En Mesa, konungur í Móab, átti miklar hjarðir; greiddi hann
Ísraels-konungi í skatt hundrað þúsund lömb og ull af hundrað þúsund
hrútum. 5 En er Akab var dáinn, brauzt Móabs-konungur undan Ísra-
els-konungi. 6 Lagði Jóram konungur þá af stað frá Samaríu og kann-
aði allan Ísrael. 7 Hann sendi og þegar til Jósafats Júda-konungs og lét
segja honum: Móabs-konungur hefir brotist undan mér; vilt þú fara með
mér í hernað á móti Móabítum? Fara mun eg, svaraði hann, eg sem
þú, mín þjóð sem þín þjóð, mínir hestar sem þínir hestar. 8 Og hann
sagði: Hvaða leið eigum við að fara? Hinn svaraði: Leiðina um
Edómheiðar. 9 Fóru þeir nú af stað: Ísraels-konungur, Júda-konungur
og konungurinn í Edóm. Og er þeir höfðu farið sjö dagleiðir, hafði
herinn ekkert vatn og ekki heldur skepnurnar, sem þeir höfðu með sér.
10 Þá sagði Ísraels-konungur: Æ, Jahve hefir kallað þessa þrjá konunga,
til þess að selja þá í hendur Móabítum. 11 En Jósafat mælti: Er hér
enginn spámaður Jahve, að vér getum látið hann ganga til frétta við
Jahve? Þá svaraði einn af þjónum Ísraels-konungs og sagði: Hér er
Elísa Safatsson, sem helt hefir vatni á hendur Elía. 12 Jósafat sagði:
Hjá honum er orð Jahve! Síðan gengu þeir Ísraels-konungur, Jósafat
og konungurinn í Edóm ofan til hans.
13 En Elísa sagði við Ísraels-konung: Hvað á eg saman við þig
að sælda? Gakk þú til spámanna föður þíns og til spámanna móður
þinnar. En Ísraels-konungur svaraði honum: Nei, því að Jahve hefir
kallað þessa þrjá konunga, til þess að selja þá í hendur Móabítum.
14 Þá mælti Elísa: Svo sannarlega sem Jahve hersveitanna lifir, sá er eg
þjóna: væri það ekki vegna Jósafats Júda-konungs, þá skyldi eg ekki
renna til þín auga né virða þig viðlits. 15 En sækið þér nú harpara.
En í hvert sinn sem harparinn sló hörpuna, hreif hönd Jahve hann.
16 Og hann mælti: Svo segir Jahve: Gjörið gryfju við gryfju í dal þess-
um, 17 því að svo segir Jahve: Þér munuð hvorki sjá vind né regn, og
þó mun þessi dalur fyllast vatni, svo að þér megið drekka, svo og her
yðar og skepnur. 18 En Jahve þykir þetta of lítið, hann mun og gefa
Móabíta í hendur yðar. 19 Og þér munuð vinna allar víggirtar borgir
og allar úrvalsborgir, fella öll aldintré og stemma allar vatnslindir, og
öllum góðum ökrum munuð þér spilla með grjóti. 20 En morguninn

---

**21:** 2 Mós. 15, 25. — **3, 1:** kap. 1, 17. **2:** 1 Kong. 16, 32. **5:** kap. 1, 1. **7:** 1 Kong. 22, 4. **11:** 1 Kong. 22, 5. 7. **13:** 1 Kong. 18, 19. **15:** 1 Sam. 10, 5. Esek. 1, 3.

eftir, í það mund er matfórnin er fram borin, kom alt í einu vatn úr
áttinni frá Edóm, svo að landið fyltist vatni.
21 En er allir Móabítar heyrðu, að konungarnir væru komnir til
þess að herja á þá, var öllum boðið út, er vopnum máttu valda, og
námu þeir staðar á landamærunum. 22 En er þeir risu um morguninn
og sólin skein á vatnið, sýndist Móabítum álengdar vatnið vera rautt
sem blóð. 23 Þá sögðu þeir: Þetta er blóð! Konungunum hlýtur að
hafa lent saman og þeir hafa unnið hvor á öðrum, og nú er að hirða
herfangið, Móabítar! 24 En er þeir komu að herbúðum Ísraels, þustu
Ísraelsmenn út og börðu á Móabítum, svo að þeir flýðu fyrir þeim;
síðan brutust þeir inn í landið og unnu nýjan sigur á Móabítum. 25 En
borgirnar brutu þeir niður, og á alla góða akra vörpuðu þeir sínum
steininum hver og fyltu þá grjóti, og allar vatnslindir stemdu þeir og
öll aldintré feldu þeir, unz eigi var annað eftir en steinmúrarnir í Kír-
Hareset; umkringdu slöngumennirnir hana og köstuðu á hana. 26 En
er Móabs-konungur sá, að hann mundi fara halloka í orustunni, tók
hann með sér sjö hundruð manna, er sverð báru, til þess að brjótast
út þar sem Edóm-konungur var fyrir, en þeir gátu það ekki. 27 Þá tók
hann frumgetinn son sinn, er taka átti ríki eftir hann, og fórnaði hon-
um í brennifórn á múrnum. Kom þá mikil reiði yfir Ísrael, og héldu
þeir burt þaðan og hurfu aftur heim í land sitt.

## Elísa gjörir furðuverk.

4 En ein af konum spámannasveinanna kallaði til Elísa og mælti:
Þjónn þinn, maðurinn minn, er dáinn, og þú veizt að þjónn þinn
óttaðist Jahve; nú er lánssalinn kominn til að taka báða drengina mína
sér að þrælum. 2 En Elísa sagði við hana: Hvað á eg að gjöra fyrir
þig? Seg þú mér, hvað þú átt til heima. Hún svaraði: Ambátt þín á
ekkert til heima, nema krús með olíu. 3 Þá mælti hann: Far þú þá
og fá til láns ílát utan húss hjá öllum nágrönnum þínum, tóm ílát, og
heldur fleiri en færri. 4 Gakk því næst inn og loka dyrunum á eftir
þér og sonum þínum og hell í öll þessi ílát og set þau frá þér jafnóð-
um og þau fyllast. 5 Gekk hún þá burt frá honum. Og hún lokaði
dyrunum á eftir sér og sonum sínum; þeir báru að henni, en hún helti
í. 6 En er ílátin voru full, sagði hún við son sinn: Fær mér enn í-
lát. Hann sagði við hana: Það er ekkert ílát eftir. Þá hætti olían að
renna. 7 Fór hún þá og sagði guðsmanninum frá, en hann sagði: Far
þú nú og sel olíuna og gjald skuld þína, en haf til viðurlífis þér og
sonum þínum það, sem afgangs verður.
8 Það bar til einn dag, að Elísa gekk yfir til Súnem; þar var auð-
ug kona, og lagði hún að honum að þiggja mat hjá sér; og í hvert
sinn, sem hann fór þar um, gekk hann þar inn til að matast. 9 Og hún
sagði við mann sinn: Heyrðu, eg sé að það er heilagur guðsmaður,
sem stöðuglega fer um hjá okkur. 10 Við skulum gjöra lítið loftherbergi
með múrveggjum og setja þangað rúm og borð og stól og ljósastiku,
svo að hann geti farið þangað, þegar hann kemur til okkar. 11 Einn
dag kom hann þar, gekk inn í loftherbergið og lagðist þar til svefns.
12 Síðan sagði hann við Gehasí svein sinn: Kalla þú á súnamítísku kon-
una. Og hann kallaði á hana, og hún gekk fyrir hann. 13 Þá sagði
hann við hann: Seg þú við hana: Þú hefir haft alla þessa fyrirhöfn
fyrir okkur; hvað á eg að gjöra fyrir þig? Þarft þú að láta tala máli
þínu við konung eða við hershöfðingjann? Hún svaraði: Eg bý hér á
meðal ættfólks míns. 14 Þá sagði hann: Hvað á eg þá að gjöra fyrir

4, 8: Jós. 19, 18.

hana? Gehasí mælti: Jú, hún á engan son, og maður hennar er gamall.
15 Þá sagði hann: Kalla þú á hana. Og hann kallaði á hana, og hún
nam staðar í dyrunum. 16 Þá mælti hann: Að ári um þetta leyti munt
þú faðma að þér son. En hún mælti: Nei, herra minn, þú guðsmaður,
skrökva þú eigi að ambátt þinni. 17 En konan varð þunguð og ól son
næsta ár í sama mund, eins og Elísa hafði heitið henni.
18 Og er sveinninn var kominn á legg, gekk hann einn dag til föður
síns, út til kornskurðarmannanna. 19 Þá sagði hann við föður sinn: Æ,
höfuðið á mér, höfuðið á mér! En hann sagði við svein sinn: Ber
þú hann til móður sinnar. 20 Og hann tók hann og færði hann móður
hans, og hann sat í kjöltu hennar til hádegis, þá dó hann. 21 Þá gekk
hún upp, lagði hann í rekkju guðsmannsins, lokaði að honum og gekk
burt. 22 Þá kallaði hún á mann sinn og sagði við hann: Send þú mér
einn af sveinunum og eina ösnu; eg ætla sem skjótast að fara til fund-
ar við guðsmanninn og koma síðan aftur. 23 En hann mælti: Hvers
vegna ætlar þú að fara til hans í dag? það er hvorki tunglkomudagur
né hvíldardagur. Hún mælti: Það gjörir ekkert til! 24 Síðan söðlaði
hún ösnuna og sagði við svein sinn: Rektu nú hart! Linaðu eigi á,
unz eg segi þér. 25 Síðan fór hún og kom til guðsmannsins á Kar-
melfjalli.
En er guðsmaðurinn sá hana álengdar, sagði hann við Gehasí,
svein sinn: Þetta er súnamítíska konan! 26 Hlaup þú nú á móti henni
og seg við hana: Hvernig líður þér; hvernig líður manni þínum;
hvernig líður drengnum? Hún svaraði: Okkur líður vel. 27 En er
hún kom á fjallið til guðsmannsins, tók hún um fætur honum. Þá
gekk Gehasí að og vildi hrinda henni frá. En guðsmaðurinn mælti:
Láttu hana vera, því að hún er harmþrungin mjög, og Jahve hefir leynt
mig því og eigi látið mig vita það. 28 Þá mælti hún: Hefi eg beðið
herra minn um son? Sagði eg ekki: Drag mig ekki á tálar? 29 Þá sagði
hann við Gehasí: Gyrð þú lendar þínar, tak staf minn í hönd þér og
far af stað. Þó að einhver mæti þér, þá heilsaðu honum ekki, og þó
að einhver heilsi þér, þá taktu ekki undir við hann, og legg staf minn
yfir andlit sveinsins. 30 En móðir sveinsins mælti: Svo sannarlega
sem Jahve lifir og svo sannarlega sem þú lifir, þá fer eg ekki frá þér. Stóð
hann þá upp og fór með henni. 31 En Gehasí var farinn á undan þeim
og hafði lagt stafinn yfir andlit sveinsins, en þar var steinhljóð og ekk-
ert lífsmark. Þá sneri hann við í móti honum og sagði honum svo
frá: Ekki vaknar sveinninn! 32 Og er Elísa kom inn í húsið, þá lá
sveinninn dauður í rekkju hans. 33 Þá gekk hann inn og lokaði dyr-
unum að þeim báðum og bað til Jahve. 34 Síðan steig hann upp í
og lagðist yfir sveininn, lagði sinn munn yfir hans munn, sín augu
yfir hans augu og sínar hendur yfir hans hendur og beygði sig yfir
hann; hitnaði þá líkami sveinsins. 35 Þá kom hann aftur, gekk einu
sinni aftur og fram um húsið, fór síðan upp og beygði sig yfir hann;
þá hnerraði sveinninn sjö sinnum; því næst lauk sveinninn upp aug-
unum. 36 Þá kallaði hann á Gehasí og sagði: Kalla þú á súnamítísku
konuna. Og hann kallaði á hana, og hún kom til hans. Þá sagði
hann: Tak við syni þínum! 37 Þá kom hún og féll til fóta honum og
laut til jarðar. Síðan tók hún son sinn og fór burt.
38 En Elísa kom aftur til Gilgal meðan hallærið var í landinu. Og
er spámannasveinarnir sátu frammi fyrir honum, sagði hann við svein
sinn: Settu upp stóra pottinn og sjóð rétt matar handa spámanna-
sveinunum. 39 Þá gekk einn út í hagann að tína jurtir og fann villi-

---

16: 1 Mós. 18, 10. 14. 25: kap. 2, 25. 28: v. 16. 29: Lúk. 10, 4. 34: 1 Kong.
17, 21. Post. 20, 10. 36: Lúk. 7, 15. 38: kap. 2, 1.

vafteinung og tíndi á honum yfirhöfn sína fulla af villi-agúrkum, fór
síðan heim og brytjaði þær í matarpottinn, því að þeir þektu þær ekki.
40 Síðan heltu þeir upp fyrir mennina til að eta. En er þeir brögðuðu
á matnum, hljóðuðu þeir upp yfir sig og sögðu: Dauðinn er í pottin-
um, þú guðsmaður! og þeir gátu ekki etið það. 41 En hann mælti:
Komið með mjöl! Og hann kastaði því í pottinn. Síðan sagði hann: Hell
nú upp fyrir fólkið, að það megi eta. Þá var ekkert skaðvænt í pottinum.
42 En maður kom frá Baal-Salísa og færði guðsmanninum frum-
gróðabrauð, tuttugu byggbrauð og mulið korn í mal sínum. Og hann
sagði: Gefðu fólkinu það að eta. 43 En þjónn hans mælti: Hvernig get
eg borið þetta hundrað mönnum? Hann svaraði: Gefðu fólkinu það að
eta. Því að svo segir Jahve: Þeir munu eta og leifa. 44 Þá lagði hann það
fyrir þá, en þeir neyttu og gengu frá leifðu, eins og Jahve hafði sagt.

## Elísa læknar Naaman hinn sýrlenzka.

5 En Naaman, hershöfðingi Sýrlands-konungs, var í miklum metum
hjá herra sínum og í hávegum hafður, því að undir forustu hans
hafði Jahve veitt Sýrlendingum sigur; var maðurinn hinn mesti kappi,
en líkþrár. 2 En Sýrlendingar höfðu farið herför í riðlum og haft burt
af Ísraelslandi unga stúlku; þjónaði hún konu Naamans. 3 Hún sagði
við húsmóður sína: Eg vildi óska að húsbóndi minn væri kominn
til spámannsins í Samaríu; hann mundi losa hann við líkþrána. 4 Þá
fór Naaman og sagði herra sínum frá á þessa leið: Svo og svo hefir
stúlkan frá Ísraelslandi talað. 5 Þá mælti Sýrlands-konungur: Far þú,
eg skal senda Ísraels-konungi bréf. Lagði hann þá af stað og tók með
sér tíu talentur silfurs og sex þúsund sikla gulls og tíu alklæðnaði.
6 Hann færði Ísraels-konungi bréfið, er var á þessa leið: Þegar bréf
þetta kemur þér í hendur, þá skalt þú vita, að eg hefi sent til þín
Naaman þjón minn, og skalt þú losa hann við líkþrá hans. 7 En er
Ísraels-konungur hafði lesið bréfið, reif hann klæði sín og mælti: Er
eg þá Guð, er deytt geti og lífgað, fyrst hann gjörir mér orð um að
losa mann við líkþrá hans? Megið þér þar sjá og skynja, að hann
leitar saka við mig.
8 En er Elísa, guðsmaðurinn, frétti að Ísraels-konungur hefði rifið
klæði sín, sendi hann til konungs og lét segja honum: Hví rífur þú
klæði þín? Komi hann til mín, þá skal hann komast að raun um, að
til er spámaður í Ísrael. 9 Þá kom Naaman með hesta sína og vagna
og nam staðar úti fyrir húsdyrum Elísa. 10 Þá sendi Elísa mann til
hans og lét segja honum: Far og lauga þig sjö sinnum í Jórdan, þá
mun hold þitt komast í samt lag og þú munt hreinn verða! 11 Þá varð
Naaman reiður og gekk burt og mælti: Eg hugði þó að hann mundi
koma út til mín og ganga að mér og ákalla nafn Jahve, Guðs síns,
veifa hendinni í áttina til helgistaðarins og koma þannig líkþránni burt.
12 Eru ekki Abana og Farfar, fljótin hjá Damaskus, betri en allar ár í
Ísrael? Gæti eg ekki laugað mig í þeim og orðið hreinn? Sneri hann
sér þá við og hélt burt í reiði. 13 Þá gengu þjónar hans til hans, töl-
uðu til hans og sögðu: Ef spámaðurinn hefði skipað þér eitthvað erfitt,
mundir þú þá ekki hafa gjört það? Hve miklu fremur þá, er hann
hefir sagt þér: Lauga þig og munt þú hreinn verða? 14 Þá fór hann
ofan eftir og dýfði sér sjö sinnum niður í Jórdan, eins og guðsmaður-
inn hafði sagt; varð þá hold hans aftur sem hold á ungum sveini, og
hann varð hreinn.
15 Þá hvarf hann aftur til guðsmannsins og alt hans föruneyti; og

**43:** Jóh. 6, 9. **44:** Matt. 15, 37. Jóh. 6, 12. — **5, 7:** 1 Mós. 30, 2. 5 Mós. 32, 39.
1 Sam. 2, 6. **10:** Jóh. 9, 7. **14:** Lúk. 4, 27.

### Frá Pekaja Ísraels-konungi.

23 Á fimtugasta ríkisári Asarja Júda-konungs varð Pekaja Mena-
hemsson konungur yfir Ísrael í Samaríu og ríkti tvö ár. 24 Og hann
gjörði það sem ilt var í augum Jahve; hann lét eigi af syndum Jeró-
bóams Nebatssonar, þeim er hann hafði komið Ísrael til að drýgja.
25 Og Peka Remaljason riddari hans hóf samsæri gegn honum og drap
hann í Samaríu, í vígi konungshallarinnar, ásamt Argób og Arje, og
voru fimtíu manns af Gíleaðítum með honum. Og er hann hafði stytt
honum aldur, tók hann ríki eftir hann.
26 En það sem meira er að segja um Pekaja og alt, sem hann
gjörði, það er ritað í árbókum Ísraels-konunga.

### Frá Peka Ísraels-konungi.

27 Á fimtugasta og öðru ríkisári Asarja Júda-konungs varð Peka
Remaljason konungur yfir Ísrael í Samaríu og ríkti tuttugu ár. 28 Og
hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve; hann lét ekki af syndum
Jeróbóams Nebatssonar, þeim er hann hafði komið Ísrael til að drýgja.
29 Á dögum Peka Ísraels-konungs kom Tíglat-Píleser Assýríu-konungur
og tók Íjón og Abel-Bet-Maaka og Janóa og Kedes og Hazór, Gíleað
og Galíleu, alt Naftalíland, og herleiddi þá til Assýríu. 30 Þá hóf Hósea
Elason samsæri gegn Peka Remaljasyni, drap hann og tók ríki eftir
hann, á tuttugasta ríkisári Jótams Ússíasonar.
31 En það sem meira er að segja um Peka og alt, sem hann gjörði,
það er ritað í árbókum Ísraels-konunga.

### Frá Jótam Júda-konungi.

32 Á öðru ríkisári Peka Remaljasonar Ísraels-konungs tók ríki Jótam,
sonur Ússía Júda-konungs. 33 Hann var tuttugu og fimm ára gamall,
þá er hann varð konungur, og sextán ár ríkti hann í Jerúsalem. En
móðir hans hét Jerúsa Zadóksdóttir. 34 Hann gjörði það, sem rétt var
í augum Jahve, með öllu svo sem gjört hafði Ússía faðir hans. 35 Þó
voru hæðirnar ekki afnumdar; enn þá fórnaði lýðurinn sláturfórnum og
reykelsisfórnum á hæðunum. Hann reisti efra hliðið á musteri Jahve.
36 En það sem meira er að segja um Jótam og alt, sem hann
gjörði, það er ritað í árbókum Júda-konunga.
37 Um þær mundir tók Jahve að hleypa þeim Rezín Sýrlands-
konungi og Peka Remaljasyni á Júda. 38 Og Jótam lagðist til hvíldar
hjá feðrum sínum og var grafinn hjá feðrum sínum í borg Davíðs for-
föður síns. Og Akas sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Akas Júda-konungi.

16 Á seytjánda ríkisári Peka Remaljasonar tók ríki Akas, sonur
Jótams Júda-konungs. 2 Akas var tvítugur að aldri, þá er hann
varð konungur, og sextán ár ríkti hann í Jerúsalem. En hann gjörði
ekki það sem rétt var í augum Jahve, Guðs hans, svo sem Davíð for-
faðir hans, 3 heldur fetaði hann í fótspor Ísraels-konunga. Hann lét jafnvel
son sinn ganga gegn um eldinn, og drýgði þannig sömu svívirðingarnar
og þær þjóðir, er Jahve hafði stökt burt undan Ísraelsmönnum. 4 Hann
fórnaði og sláturfórnum og reykelsisfórnum á hæðunum og hólunum
og undir hverju grænu tré.

**29:** 1 Kong. 15, 20. **32:** 2 Kron. 27, 1 n. **34:** v. 3. **37:** kap. 16, 5. — **16, 1:** 2 Kron. 28, 1 n. **3:** 3 Mós. 18, 21. 5 Mós. 18, 10.

[5] Í þann tíma fóru þeir Rezín Sýrlands-konungur og Peka Remalja-
son Ísraels-konungur upp til Jerúsalem, til þess að herja á hana; settust
þeir um Akas, en fengu eigi unnið hann. [6] Um þær mundir vann
Rezín Sýrlands-konungur Elat aftur undir Edóm og rak Júdamenn
burt frá Elat, en Edómítar komu til Elat og hafa búið þar fram á
þennan dag. [7] En Akas gjörði sendimenn á fund Tíglat-Pílesers Assýríu-
konungs og lét segja honum: Eg er þjónn þinn og sonur! Kom og
frelsa mig undan valdi Sýrlands-konungs og undan valdi Ísraels-kon-
ungs, er ráðið hafa á mig. [8] Og Akas tók silfrið og gullið, sem var í
musteri Jahve og fjárhirzlum konungshallarinnar og sendi Assýríu-kon-
ungi að gjöf. [9] Assýríu-konungur tók vel máli hans. Síðan fór Assýríu-
konungur herför til Damaskus, tók borgina herskildi og herleiddi íbú-
ana til Kír, en Rezín lét hann af lífi taka.
[10] Akas konungur fór nú til Damaskus til fundar við Tíglat-Píleser
Assýríu-konung og sá þá altarið, er var í Damaskus. Sendi þá Akas kon-
ungur Úría presti uppdrátt og fyrirmynd af altarinu, er var alveg eins
og það. [11] Og Úría prestur reisti altarið; gjörði Úría prestur með öllu
svo sem Akas konungur hafði sent boð til frá Damaskus, áður en Akas
konungur kom frá Damaskus. [12] En er konungur kom frá Damaskus
og leit altarið, þá nálægðist konungur altarið og gekk upp að því,
[13] fórnaði brennifórn sinni og matfórn, dreypti dreypifórn sinni og stökti
blóði heillafórna sinna á altarið. [14] En eiraltarið, er stóð frammi fyrir
Jahve, færði hann þaðan sem það var fyrir framan musterið, milli
nýja altarisins og musteris Jahve, og setti það að norðanverðu við
altarið. [15] Og Akas konungur lagði svo fyrir Úría prest: Á stóra altar-
inu skalt þú fórna morgun-brennifórninni og kveld-matfórninni, brenni-
fórn konungs og matfórn hans, brennifórnum allrar alþýðu í landinu
og matfórnum hennar og dreypifórnum, og öllu blóði brennifórnanna
og öllu blóði sláturfórnanna skalt þú stökkva á það. En um eiraltarið
ætla eg að skoða huga minn. [16] Og Úría prestur gjörði alt svo sem
Akas konungur hafði boðið.
[17] Akas konungur lét og brjóta speldin af undirstöðupöllunum og
tók kerin ofan af þeim; þá lét hann og taka hafið ofan af eirnautun-
um, er undir því stóðu og setja á steingólfið. [18] Og hvíldardagsganginn,
er tjaldaður var, er þeir höfðu gjört í musterinu, og ytri konungsgang-
inn tók hann burt úr musteri Jahve vegna Assýríu-konungs.
[19] En það sem meira er að segja um Akas, það er hann gjörði,
það er ritað í árbókum Júda-konunga. [20] Og Akas lagðist til hvíldar
hjá feðrum sínum og var grafinn hjá feðrum sínum í Davíðsborg. Og
Hiskía sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Hósea, síðasta konungi í Ísrael. Ísraelsríki líður undir lok. Samverjar og trúarbrögð þeirra.

17 Á tólfta ríkisári Akasar Júda-konungs varð Hósea Elason kon-
ungur í Samaríu yfir Ísrael og ríkti níu ár. [2] Hann gjörði það
sem ilt var í augum Jahve, þó ekki eins og Ísraels-konungar þeir, er
verið höfðu á undan honum. [3] Salmaneser Assýríu-konungur fór her-
för í móti honum, og varð Hósea lýðskyldur honum og galt honum
skatt. [4] En er Assýríu-konungur varð þess var, að Hósea bjó yfir svik-
um við hann, þar sem hann gjörði menn á fund Seve Egiptalands-
konungs og greiddi Assýríu-konungi eigi framar árlega skattinn, eins
og verið hafði, — þá tók Assýríu-konungur hann höndum og lét fjötra

**5:** kap. 15, 37. Jes. 7, 1. **6:** kap. 14, 22. **7:** 2 Kron. 28, 16. **9:** Am. 1, 5. **17:** 1 Kong. 7, 28. 23. 25. — **17, 1:** kap. 15, 30.

hann í dýflissu. [5] Og Assýríu-konungur herjaði landið alt og fór til
Samaríu og sat um hana í þrjú ár. [6] En á níunda ríkisári Hósea
vann Assýríu-konungur Samaríu og herleiddi Ísrael til Assýríu. Fékk
hann þeim bústað í Hala og við Habór, fljótið í Gósan, og í borgum
Meda.
[7] En þannig fór, af því að Ísraelsmenn höfðu syndgað gegn Jahve,
Guði sínum, þeim er leiddi þá út af Egiptalandi, undan valdi Faraós
Egiptalands-konungs, og dýrkað aðra guði. [8] Þeir fóru og að siðum
þeirra þjóða, er Jahve hafði stökt burt undan Ísraelsmönnum, og að
siðum Ísraels-konunga, er þeir sjálfir höfðu sett. [9] Þá fundu og Ísraels-
menn það upp, er rangt var gagnvart Jahve, Guði þeirra, og bygðu
sér hæðir í öllum borgum sínum, jafnt varðmannaturnum sem víggirt-
um borgum; [10] þeir reistu sér merkissteina og asérur á öllum háum
hólum og undir hverju grænu tré, [11] og fórnuðu þar reykelsisfórnum á
öllum hæðum, eins og þjóðirnar, er Jahve hafði rekið burt undan þeim;
aðhöfðust þeir það sem ilt var, til þess að egna Jahve til reiði. [12] Og
þeir dýrkuðu skurðgoð, er Jahve hafði sagt um við þá: Þér skuluð
eigi gjöra slíkt. [13] Og þó hafði Jahve aðvarað Ísrael og Júda fyrir
munn allra spámannanna, allra sjáandanna, og sagt: Snúið aftur frá
yðar vondu vegum og varðveitið skipanir mínar og boðorð, í öllum
greinum samkvæmt lögmálinu, er eg lagði fyrir feður yðar, og því er
eg bauð yður fyrir munn þjóna minna, spámannanna. [14] En þeir hlýddu
ekki, heldur þverskölluðust eins og feður þeirra, er eigi treystu Jahve,
Guði sínum; [15] þeir virtu að vettugi lög hans og sáttmála, þann er hann
hafði gjört við feður þeirra, og boðorð hans, þau er hann hafði fyrir
þá lagt, og eltu fánýt goð og breyttu heimskulega, að dæmi þjóðanna,
er umhverfis þá voru, þótt Jahve hefði bannað þeim að breyta eftir
þeim. [16] Þeir yfirgáfu öll boð Jahve, Guðs síns, og gjörðu sér steypt
líkneski, tvo kálfa, og þeir gjörðu asérur, féllu fram fyrir öllum him-
insins her og dýrkuðu Baal. [17] Þeir létu sonu sína og dætur ganga
gegnum eldinn, fóru með galdur og fjölkyngi og ofurseldu sig til að
gjöra það, sem ilt var í augum Jahve, til þess að egna hann til reiði.
[18] Þá reiddist Jahve Ísrael ákaflega og rak þá burt frá augliti sínu;
ekkert varð eftir nema Júda-ættkvísl ein.
[19] Júdamenn héldu ekki heldur boðorð Jahve, Guðs síns; þeir fóru
að siðum Ísraelsmanna, er þeir sjálfir höfðu sett. [20] Fyrir því hafnaði
Jahve öllu Ísraels kyni og auðmýkti þá og gaf þá í hendur ræningjum,
þar til er hann útskúfaði þeim frá augliti sínu.
[21] Því að þegar hann hafði slitið Ísrael frá húsi Davíðs, og þeir
höfðu tekið Jeróbóam Nebatsson til konungs, þá tældi Jeróbóam Ísrael
til að snúa sér frá Jahve og kom þeim til að drýgja mikla synd. [22] Og
Ísraelsmenn drýgðu allar sömu syndirnar, sem Jeróbóam hafði drýgt;
þeir létu eigi af þeim, [23] þar til er Jahve rak Ísrael burt frá augliti sínu,
eins og hann hafði sagt fyrir munn allra þjóna sinna, spámannanna.
Þannig var Ísrael herleiddur burt úr landi sínu til Assýríu og hefir
verið þar fram á þennan dag.
[24] En Assýríu-konungur flutti inn fólk frá Babel, frá Kúta, frá Ava,
frá Hamat og frá Sefarvaím og lét það setjast að í borgum Samaríu, í
stað Ísraelsmanna. Tóku þeir Samaríu til eignar og settust að í borg-
um hennar. [25] En með því að þeir dýrkuðu ekki Jahve, fyrst eftir að
þeir voru seztir þar að, þá sendi Jahve ljón meðal þeirra; ollu þau
manntjóni meðal þeirra. [26] Þá sögðu menn svo við Assýríu-konung:

---

**5:** kap. 18, 9 n. **7:** 2 Mós. 20, 2. **8:** kap. 16, 3. **12:** 2 Mós. 20, 4. **13:** Jer. 25, 5.
**15:** Jer. 2, 5. 5 Mós. 12, 30. 31. **16:** 1 Kong. 12, 28; 16, 31. 33. **17:** kap. 16, 3.
**20:** Dóm. 2, 14. **21:** 1 Kong. 12, 20.

Þjóðirnar, er þú fluttir burt og lézt setjast að í borgum Samaríu, vita
eigi, hver dýrkun landsguðnum ber; fyrir því hefir hann sent ljón meðal
þeirra, og sjá, þau deyða þá, af því að þeir vita ekki, hvað lands-
guðnum ber. 27 Þá skipaði Assýríu-konungur svo fyrir: Látið einn af
prestunum fara þangað, þeim er eg flutti burt þaðan, að hann fari og
setjist þar að og kenni þeim, hver dýrkun landsguðnum ber. 28 Þá kom
einn af prestunum, þeim er þeir höfðu flutt burt úr Samaríu, og settist
að í Betel; hann kendi þeim, hvernig þeir ættu að dýrka Jahve. 29 En
samt gjörðu þeir sér sína guði, hver þjóðflokkur út af fyrir sig, og
settu þá í hæðahofin, er Samverjar höfðu reist, hver þjóðflokkur út
af fyrir sig í sínum borgum, þeim er þeir bjuggu í. 30 Babelmenn
gjörðu Súkkót-Benót, Kútmenn gjörðu Nergal, Hamatmenn gjörðu Asíma,
31 Avítar gjörðu Nibkas og Tartak, en Sefarvítar brendu börn sín til
handa Adrammelek og Anammelek, Sefarvaím-guðum. 32 Þeir dýrkuðu
og Jahve og gjörðu menn úr sínum hóp að hæðaprestum; báru þeir
fram fórnir fyrir þá í hæðahofunum. 33 Þannig dýrkuðu þeir Jahve,
en þjónuðu og sínum guðum, að sið þeirra þjóða, er þeir höfðu verið
fluttir frá. 34 Fram á þennan dag fara þeir að fornum siðum.
Þeir dýrka ekki Jahve og breyta ekki eftir lögum þeirra og á-
kvæðum þeirra og lögmáli því og boðorði, er Jahve lagði fyrir sonu
Jakobs, þess er hann gaf nafnið Ísrael. 35 En Jahve hafði gjört sátt-
mála við þá og boðið þeim á þessa leið: Þér skuluð eigi dýrka
neina aðra guði, eigi falla fram fyrir þeim, eigi þjóna þeim né færa
þeim fórnir, 36 en Jahve, sem leiddi yður af Egiptalandi með miklum
mætti og útréttum armlegg — hann skuluð þér dýrka, fyrir honum
skuluð þér falla fram og honum skuluð þér fórnir færa. 37 En lög þau
og ákvæði, lögmál og boðorð, er hann hefir ritað handa yður, skuluð
þér varðveita, svo að þér haldið þau alla daga, og þér skuluð eigi
dýrka aðra guði. 38 Og sáttmálanum, er eg hefi við yður gjört, skuluð
þér ekki gleyma, og þér skuluð eigi dýrka aðra guði, 39 en Jahve, Guð
yðar, skuluð þér dýrka, og mun hann þá frelsa yður af hendi allra ó-
vina yðar. 40 Samt hlýddu þeir ekki, heldur fóru þeir að fornum siðum.
41 Þannig dýrkuðu þá þessar þjóðir Jahve, en þjónuðu þó um leið
skurðgoðum sínum. Börn þeirra og barnabörn — þau breyta og enn
þann dag í dag eins og feður þeirra breyttu.

## Frá Hiskía Júda-konungi.

18 En á þriðja ríkisári Hósea Elasonar Ísraels-konungs tók ríki
Hiskía Akasson Júda-konungs. 2 Hann var tuttugu og fimm ára
gamall, þá er hann varð konungur, og tuttugu og níu ár ríkti hann í
Jerúsalem. En móðir hans hét Abía Sakaríadóttir. 3 Og hann gjörði
það sem rétt var í augum Jahve, að öllu svo sem gjört hafði Davíð
forfaðir hans.
4 Hann afnumdi hæðirnar, braut merkissteinana, hjó í sundur
aséruna og mölvaði eirorminn, þann er Móse hafði gjöra látið, því að
alt til þess tíma höfðu Ísraelsmenn fært honum reykelsisfórnir og var
hann nefndur Nehústan*. 5 Hann treysti Jahve, Ísraels Guði, svo að eftir
hann var enginn honum líkur meðal allra Júda-konunga, og eigi heldur
neinn þeirra, er á undan honum höfðu verið. 6 Hann hélt sér fast við
Jahve, veik eigi frá honum og varðveitti boðorð hans, þau er Jahve
hafði lagt fyrir Móse. 7 Og Jahve var með honum; í öllu því, er hann

---

**32:** 1 Kong. 12, 31. **34:** 1 Mós. 32, 28. **35:** Dóm. 6, 10. — **18, 1:** kap. 16, 20. 2 Kron. 29, 1 n. **4:** 4 Mós. 21, 8. 9. * Þ. e. eirlíkanið. **5:** kap. 23, 25. **6:** 5 Mós. 10, 20.

tók sér fyrir hendur, var hann lánsamur. Og hann brauzt undan
Assýríu-konungi og var ekki lengur lýðskyldur honum. [8] Hann vann
og sigur á Filistum alla leið til Gasa og eyddi landið umhverfis hana,
jafnt varðmannaturna sem víggirtar borgir.

[9] En á fjórða ríkisári Hiskía konungs — það er á sjöunda ríkis-
ári Hósea Elasonar Ísraels-konungs — fór Salmaneser Assýríu-konung-
ur herför gegn Samaríu og settist um hana. [10] Unnu þeir hana eftir
þrjú ár; á sjötta ríkisári Hiskía — það er á níunda ríkisári Hósea
Ísraels-konungs, — var Samaría unnin. [11] Og Assýríu-konungur herleiddi
Ísrael til Assýríu og lét þá setjast að í Hala og við Habór, fljótið í
Gósan, og í borgum Meda, [12] af því að þeir höfðu ekki hlýtt raustu
Jahve, Guðs þeirra, heldur rofið sáttmála hans, alt það er Móse, þjónn
Jahve, hafði boðið. Þeir höfðu hvorki hlýtt því né breytt eftir því.

## Herför Sanheribs til Jerúsalem.

[13] Á fjórtánda ríkisári Hiskía konungs fór Sanherib Assýríu-kon-
ungur herför gegn öllum víggirtum borgum í Júda og vann þær. [14] Þá
sendi Hiskía Júda-konungur til Assýríu-konungs til Lakís og lét segja
honum: Eg hefi syndgað, far aftur burt frá mér; mun eg greiða þér
slíkt gjald, er þú á mig leggur. Þá lagði Assýríu-konungur þrjú hund-
ruð talentur silfurs og þrjátíu talentur gulls á Hiskía Júda-konung.
[15] Greiddi þá Hiskía alt silfur, er til var í musteri Jahve og fjárhirzlum
konungshallarinnar. [16] Um þær mundir tók Hiskía gullið af dyrunum
á musteri Jahve og af dyrustöfunum, er Hiskía Júda-konungur hafði
lagt þá með, og fékk Assýríu-konungi. [17] Þá sendi Assýríu-konungur
Tartan, Rabsarís og Rabsake með miklu liði frá Lakís til Jerúsalem á
fund Hiskía konungs. Fóru þeir og komu til Jerúsalem og námu
staðar hjá vatnstokknum úr efri tjörninni, sem er við veginn út á
bleikivöllinn. [18] Og er þeir komu á fund konungs, þá gengu þeir
Eljakím Hilkíason dróttseti, Sébna kanzlari og Jóak Asafsson sagna-
meistari út til þeirra. [19] Og Rabsake mælti til þeirra: Segið Hiskía:
Svo segir hinn mikli konungur, Assýríu-konungur: Hvert er það at-
hvarf, er þú treystir á? [20] Þú hyggur víst að munnfleiprið eitt sé næg
ráðagerð og liðstyrkur til hernaðar. Á hvern treystir þú þá svo, að
þú skulir hafa gjört uppreisn í gegn mér? [21] Nú, þú treystir þá á þennan
brotna reyrstaf, á Egiptaland; en hann stingst upp í höndina á hver-
jum þeim, er við hann styðst, og fer í gegnum hana. Slíkur er Faraó
Egiptalands-konungur öllum þeim, er á hann treysta. [22] Og ef þér segið
við mig: »Vér treystum á Jahve, Guð vorn«, eru það þá ekki fórnar-
hæðir hans og ölturu, sem Hiskía hefir numið burt, er hann sagði við
Júda og Jerúsalem: Fyrir þessu altari skuluð þér fram falla í Jerú-
salem? [23] Kom til og veðja við herra minn, Assýríu-konunginn: Eg
skal fá þér tvö þúsund hesta, ef þú getur sett riddara á þá. [24] Hvernig
munt þú fá rekið af höndum þér einn höfuðsmann meðal hinna minstu
þjóna herra míns? Og þó treystir þú á Egiptaland vegna hervagnanna
og riddaranna! [25] Hvort mun eg nú hafa farið til þessa staðar án vilja
Jahve, til þess að eyða hann? Jahve sagði við mig: »Far þú inn í
þetta land og eyð það«.

[26] Þá sögðu þeir Eljakím Hilkíason, Sébna og Jóak við Rabsake:
Tala þú við þjóna þína á sýrlenzku, því að vér skiljum hana; en tala
eigi við oss á Júda-tungu í áheyrn fólksins, sem uppi er á borgar-
veggnum. [27] En Rabsake sagði við þá: Hefir herra minn sent mig til

---

**8:** kap. 17, 9. **9:** kap. 17, 5 n. **13:** 2 Kron. 32, 1 n. Jes. 36, 1 n. **15:** kap. 16, 8.
**17:** 2 Kron. 32, 9 n. Jes. 7, 3. **21:** Esek. 29, 6. 7.

herra þíns eða til þín, til þess að flytja þetta erindi? Hefir hann ekki
sent mig til þeirra manna, sem þar sitja uppi á borgarveggnum og eiga
þann kost fyrir höndum ásamt yður, að eta sinn eigin saur og
drekka þvag sitt? 28 Þá gekk Rabsake fram og kallaði hárri röddu á
Júda-tungu, tók til máls og sagði: Heyrið orð hins mikla konungs,
Assýríu-konungs! 29 Svo segir konungurinn: Látið eigi Hiskía tæla yður,
því að hann fær ekki frelsað yður af hans hendi. 30 Og látið eigi
Hiskía koma yður til að treysta á Jahve með því að segja: »Jahve
mun vissulega frelsa oss, og þessi borg skal ekki verða Assýríu-kon-
ungi í hendur seld«. 31 Hlustið eigi á Hiskía! Því að svo segir Assýríu-
konungur: Gjörið frið við mig og gangið mér á hönd, þá skal hver
yðar mega eta af sínum vínviði og sínu fíkjutré og hver yðar drekka
vatn úr sínum brunni, 32 þar til er eg kem og flyt yður í annað eins
land og yðar land, í kornland og aldinlagar, í brauðland og víngarða,
í olíuviðarland og hunangs, svo að þér megið lifa og eigi deyja.
Hlustið því eigi á Hiskía! Því að hann ginnir yður, er hann segir:
»Jahve mun frelsa oss«. 33 Hefir þá nokkur af guðum þjóðanna frelsað
land sitt undan hendi Assýríu-konungs? 34 Hvar eru guðir Hamat-
borgar og Arpadborgar? Hvar eru guðir Sefarvaím, Hena og Íva? og
hafa þeir frelsað Samaríu undan minni hendi? 35 Hverjir eru þeir af
öllum guðum landanna, er frelsað hafi lönd sín undan minni hendi,
svo að Jahve skyldi fá frelsað Jerúsalem undan minni hendi? 36 En
lýðurinn þagði og svaraði honum engu orði, því að skipun konungs
var þessi: Svarið honum eigi. 37 En þeir Eljakím Hilkíason dróttseti,
Sébna kanzlari og Jóak Asafsson sagnameistari gengu á fund Hiskía
með sundurrifnum klæðum og fluttu honum orð Rabsake.

19 Og er Hiskía konungur heyrði þetta, reif hann klæði sín, huldi
sig hærusekk og gekk í hús Jahve. 2 En Eljakím dróttseta og
Sébna kanzlara og prestaöldungana sendi hann klædda hærusekk til
Jesaja spámanns Amozsonar, 3 og skyldu þeir segja við hann: Svo
segir Hiskía: Þessi dagur er neyðar, hirtingar og háðungardagur; því
að barnið er komið í burðarliðinn, en krafturinn er enginn til að fæða.
4 Vera má að Jahve, Guð þinn, heyri öll orð Rabsake, er sendur er af
Assýríu-konungi, herra sínum, til að spotta hinn lifandi Guð, og láti
hegnt verða þeirra orða, er Jahve, Guð þinn, hefir heyrt. En bið þú
fyrir leifunum, sem enn eru eftir.

5 En er þjónar Hiskía konungs komu til Jesaja, 6 þá sagði Jesaja
við þá: Segið svo herra yðar: Svo segir Jahve: Óttast þú eigi smán-
aryrði þau, er þú hefir heyrt sveina Assýríu-konungs láta sér um munn
fara í gegn mér. 7 Sjá, eg læt hann verða þess hugar, að þegar hann
spyr tíðindi, skal hann hverfa aftur heim í land sitt, og þá skal eg
láta hann fyrir sverði falla í sínu eigin landi.

8 Síðan sneri Rabsake aftur og hitti Assýríu-konung, þar sem hann
sat um Líbna, því að hann hafði frétt, að hann væri farinn burt frá
Lakís. 9 Þar kom honum svolátandi fregn af Tírhaka Blálands-kon-
ungi: Hann er lagður af stað til þess að berjast við þig. Gjörði hann
þá aftur sendimenn til Hiskía með þessari orðsending: 10 Segið svo
Hiskía Júda-konungi: Lát eigi Guð þinn, er þú treystir á, tæla þig, er
þú hugsar: Jerúsalem verður eigi seld í hendur Assýríu-konungi. 11 Sjá,
þú hefir sjálfur heyrt, hverju Assýríu-konungar hafa fram farið við öll
lönd, hversu þeir hafa gjöreytt þau, og munt þú þá frelsaður verða?
12 Hvort hafa guðir þjóðanna, er feður mínir hafa að velli lagt, frelsað
þær — Gósan og Haran og Resef og Edenmenn, sem voru í Telessar?

---

**33:** kap. 19, 12 n. Jes. 10, 9 n. 2 Kron. 32, 13 n. — **19, 1:** Jes. 37, 1 n. **4:** kap. 18, 28—35. **7:** v. 9. 37. **10:** kap. 18, 30. **12:** kap. 18, 33.

[13] Hvar er nú konungurinn í Hamat og konungurinn í Arpad og konungurinn í Sefarvaímborg, Hena og Íva?
[14] Hiskía tók við bréfinu af sendimönnunum og las það. Síðan
gekk hann upp í hús Jahve; og Hiskía rakti það sundur frammi fyrir
Jahve. [15] Og Hiskía gjörði bæn sína frammi fyrir Jahve og sagði:
Jahve, Ísraels Guð, þú sem situr uppi yfir kerúbunum, þú einn ert
Guð yfir öllum konungsríkjum jarðar, þú hefir gjört himin og jörð.
[16] Hneig, Jahve, eyra þitt og heyr; opna, Jahve, auga þitt og sjá!
Heyr þú orð Sanheribs, er hann hefir sent til að smána með hinn lifandi Guð. [17] Satt er það, Jahve, að Assýríu-konungar hafa gjöreytt
öllum þjóðum og löndum þeirra, [18] og kastað guðum þeirra á eld, því
að þeir voru ekki guðir, heldur handaverk manna, stokkar og steinar,
svo að þeir gátu gjört þá að engu. [19] En Jahve, Guð vor, frelsa oss
nú af hans hendi, svo að öll konungsríki jarðar megi við kannast, að
þú, Jahve, einn ert Guð!
[20] Þá sendi Jesaja Amozson til Hiskía og lét segja honum: Svo
segir Jahve, Ísraels Guð: Þar sem þú hefir beðið til mín um hjálp
gegn Sanherib Assýríu-konungi, þá hefi eg heyrt það. [21] Þetta er orðið,
er Jahve hefir um hann sagt: Mærin, dóttirin Zíon, fyrirlítur þig og
gjörir gys að þér; dóttirin Jerúsalem skekur höfuðið á eftir þér.
[22] Hvern hefir þú smánað og spottað og gegn hverjum hefir þú hafið
upp raustina og lyft augum þínum í hæðirnar? Gegn hinum Heilaga í
Ísrael. [23] Þú hefir látið sendimenn þína smána drottin og sagt: »Með
fjölda hervagna minna steig eg upp á hæðir fjallanna, efst upp á
Líbanon-fjall; eg hjó hin hávöxnu sedrustré þess og hin ágætu kýprestré þess; eg brauzt upp í efsta herbergi þess, inn í aldinskóginn, þar
sem hann var þéttastur. [24] Eg gróf til vatns og drakk útlent vatn, og
með iljum fóta minna þurkaði eg upp öll vatnsföll Egiptalands«.
[25] Hefir þú þá ekki tekið eftir því, að eg hefi ráðstafað þessu svo fyrir
löngu og hagað því svo fyrir öndverðu? Og nú hefi eg látið það koma
fram, svo að þú mættir leggja víggirtar borgir í eyði og gjöra þær að
eyðilegum grjóthrúgum. [26] En íbúar þeirra voru aflvana og skelfdust
því og urðu sér til minkunar; jurtir vallarins og grængresið varð sem
gras á þekjum og í hlaðvarpa. [27] Eg sé þig þegar þú stendur og þegar
þú situr, og eg veit af því, þegar þú fer og kemur, svo og um ofsa
þinn gegn mér. [28] Sökum ofsa þíns í gegn mér og af því að ofmetnaður þinn er kominn mér til eyrna, þá vil eg setja hring minn í nasir
þínar og bitil minn í munn þér og færa þig aftur sama veg og þú
komst. [29] Og þetta skalt þú til marks hafa: Þetta árið munuð þér eta
sjálfsáið korn, annað árið sjálfvaxið korn, en þriðja árið munuð þér sá
og uppskera, planta víngarða og eta ávöxtu þeirra. [30] Og leifarnar af
Júda húsi, sem komist hafa undan, skulu að nýju festa rætur að neðan
og bera ávöxt að ofan. [31] Því að frá Jerúsalem munu leifar út ganga
og þeir, er undan komust, frá Zíon-fjalli; vandlæti Jahve hersveitanna
mun þessu til vegar koma.
[32] Fyrir því segir Jahve svo um Assýríu-konung: Eigi skal hann
inn komast í þessa borg, engri ör þangað inn skjóta, engan herskjöld
að henni bera og engan virkisvegg hlaða gegn henni. [33] Hann skal
aftur snúa sömu leiðina sem hann kom, og inn í þessa borg skal hann
ekki koma, segir Jahve. [34] Og eg vil vernda þessa borg, til þess að
frelsa hana, mín vegna og vegna Davíðs þjóns míns.
[35] En þessa sömu nótt fór engill Jahve og laust hundrað áttatíu
og fimm þúsundir manns í herbúðum Assýringa; og er menn risu

---

**18:** Sálm. 115, 4. **26:** Sálm. 129, 6. **28:** Esek. 29, 4; 38, 4. **31:** Jes. 9, 7. **34:** kap. 20, 6.

morguninn eftir, sjá, þá voru þeir allir liðin lík. [36] Þá tók Sanherib
Assýríu-konungur sig upp, hélt af stað og sneri heim aftur og sat um
kyrt í Níníve. [37] En er hann eitt sinn baðst fyrir í hofi Nísroks, guðs
síns, unnu synir hans, Adramelek og Sarezer, á honum með sverði;
þeir komust undan á flótta til Ararat-lands, en Asharaddon sonur hans
tók ríki eftir hann.

### Hiskía tekur sótt, Meródak-Baladan Babel-konungur gjörir menn á fund hans.

20 Um þær mundir tók Hiskía sótt og var að dauða kominn.
Þá kom Jesaja Amozson spámaður til hans og sagði við hann:
Svo segir Jahve: Ráðstafa húsi þínu, því að þú munt deyja og eigi
lifa. [2] Þá sneri hann andliti sínu til veggjar, bað til Jahve og mælti:
[3] Æ, Jahve, minstu þess, að eg hefi gengið fyrir augliti þínu með trú-
mensku og einlægu hjarta og gjört það, sem þér er þóknanlegt. Og
Hiskía grét sáran. [4] En áður en Jesaja var kominn út úr miðforgarði
hallarinnar, kom orð Jahve til hans, svolátandi: [5] Snú aftur og seg
Hiskía, höfðingja lýðs míns: Svo segir Jahve, Guð Davíðs forföður þíns:
Eg hefi heyrt bæn þína og séð tár þín. Sjá, eg mun lækna þig; á
þriðja degi munt þú ganga upp í hús Jahve. [6] Og eg mun enn leggja
fimtán ár við aldur þinn og eg mun frelsa þig og þessa borg af hendi
Assýríu-konungs, og eg mun vernda þessa borg, mín vegna og vegna
Davíðs þjóns míns. [7] Þá bauð Jesaja: Komið með fíkjudeig. Sóttu
þeir það og lögðu á kýlið; þá batnaði honum.
[8] En Hiskía sagði við Jesaja: Hvað skal eg hafa til marks um, að
Jahve muni lækna mig og að eg megi aftur ganga upp í hús Jahve á
þriðja degi? [9] Þá svaraði Jesaja: Þetta skalt þú til marks hafa af Jahve,
að Jahve muni efna það, sem hann hefir heitið: Á skugginn að færast
tíu stig fram, eða á hann að færast aftur um tíu stig? [10] Hiskía svar-
aði: Það er hægðarleikur fyrir skuggann að færast niður um tíu stig —
nei, skugginn skal færast aftur um tíu stig. [11] Þá hrópaði Jesaja spá-
maður til Jahve, og hann lét skuggann á stigunum, sem færst hafði
niður á sólvísi Akasar, færast aftur um tíu stig.
[12] Um þær mundir sendi Meródak-Baladan Baladansson, konungur
í Babel, bréf og gjafir til Hiskía, því að hann hafði frétt, að hann hefði
verið sjúkur, en væri nú aftur heill orðinn. [13] Og Hiskía fagnaði komu
þeirra og sýndi þeim alla féhirzlu sína, silfrið og gullið, ilmjurtirnar
og hina dýru olíu og vopnabúr sitt og alt sem til var í fjársjóðum
hans. Var enginn sá hlutur í höll Hiskía eða nokkurstaðar í ríki hans,
að eigi sýndi hann þeim. [14] Þá kom Jesaja spámaður til Hiskía kon-
ungs og sagði við hann: Hvert var erindi þessara manna og hvaðan
eru þeir til þín komnir? Hiskía svaraði: Af fjarlægu landi eru þeir
komnir, frá Babel. [15] Þá sagði hann: Hvað sáu þeir í höll þinni?
Hiskía svaraði: Alt, sem í höll minni er, hafa þeir séð; enginn er sá
hlutur í fjársjóðum mínum, að eigi hafi eg sýnt þeim. [16] Þá sagði Jesaja
við Hiskía: Heyr þú orð Jahve. [17] Sjá, þeir dagar munu koma, að alt,
sem er í höll þinni, og það, sem feður þínir hafa saman dregið alt
til þessa dags, mun flutt verða til Babel, ekkert skal eftir verða, segir
Jahve. [18] Og nokkurir af sonum þínum, sem af þér munu koma og þú
munt geta, munu teknir verða og gjörðir að hirðsveinum í höll kon-
ungsins í Babel. [19] En Hiskía sagði við Jesaja: Gott er það orð Jahve,
er þú hefir talað. Því að hann hugsaði: Farsæld og friður helzt þó
meðan eg lifi.

---

**20, 1:** 2 Kron. 32, 24. Jes. 38, 1 n. **5:** kap. 19, 20. **6:** kap. 19, 34. **7:** Jes. 38, 21.
**12:** Jes. 39, 1. **17:** kap. 24, 13 n. **18:** Dan. 1, 3 n.

[20] En það sem meira er að segja um Hiskía og öll hreystiverk
hans, hversu hann bjó til tjörnina og vatnstokkinn og leiddi vatnið inn
í borgina, það er ritað í árbókum Júda-konunga. [21] Og Hiskía lagðist
til hvíldar hjá feðrum sínum. Og Manasse sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Manasse Júda-konungi.

21 Manasse var tólf ára gamall, þá er hann varð konungur, og
fimtíu og fimm ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét
Hefzíba. [2] Hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve og drýgði
þannig sömu svívirðingarnar sem þær þjóðir, er Jahve hafði stökt burt
undan Ísraelsmönnum. [3] Hann reisti af nýju hæðirnar, er Hiskía faðir
hans hafði afmáð, reisti Baal ölturu og lét gjöra aséru, eins og Akab
Ísraels-konungur hafði gjöra látið, dýrkaði allan himinsins her og þjón-
aði þeim. [4] Hann reisti og ölturu í musteri Jahve, því er Jahve hafði
um sagt: Í Jerúsalem vil eg láta nafn mitt búa. [5] Og hann reisti ölturu
fyrir allan himinsins her í báðum forgörðum musteris Jahve. [6] Hann
lét og son sinn ganga gegnum eldinn, fór með spár og fjölkyngi og skip-
aði særingamenn og spásagna; hann aðhafðist margt það, sem ilt er í
augum Jahve, til þess að egna hann til reiði. [7] Og hann setti Aséru-
líkneskið, er hann hafði gjöra látið, í musterið, er Jahve hafði sagt um
við Davíð og Salómó, son hans: Í þessu húsi og í Jerúsalem, sem eg
hefi útvalið af öllum ættkvíslum Ísraels, vil eg láta nafn mitt búa að
eilífu. [8] Og eg vil eigi framar láta Ísrael fara landflótta úr landi því,
er eg gaf feðrum þeirra, svo framarlega sem þeir gæta þess að breyta
að öllu svo sem eg hefi boðið þeim, að öllu eftir lögmáli því, er Móse
þjónn minn fyrir þá lagði. [9] En þeir hlýddu eigi, og Manasse leiddi
þá afvega, svo að þeir breyttu ver en þær þjóðir, er Jahve hafði eytt
fyrir Ísraelsmönnum.
[10] Þá talaði Jahve fyrir munn þjóna sinna, spámannanna, á þessa
leið: [11] Sakir þess að Manasse Júda-konungur hefir drýgt þessar svívirð-
ingar, sem verri eru en alt það, sem Amórítar aðhöfðust, þeir er á
undan honum voru, og einnig komið Júda til að syndga með skurð-
goðum sínum, [12] fyrir því mælir Jahve, Ísraels Guð, svo: Eg mun leiða
ógæfu yfir Jerúsalem og Júda, svo að óma mun fyrir báðum eyrum
allra þeirra, er það heyra. [13] Eg mun draga mælivað yfir Jerúsalem
eins og fyrrum yfir Samaríu, og mælilóð, eins og yfir Akabs ætt, og
þurka Jerúsalem burt, eins og þegar þurkað er af skál og skálinni síðan
hvolft, þegar þurkað hefir verið af henni. [14] Og eg mun útskúfa leifum
arfleifðar minnar og gefa þá í hendur óvinum þeirra, svo að þeir verði
öllum óvinum sínum að bráð og herfangi, [15] vegna þess að þeir hafa
gjört það, sem ilt er í augum mínum, og egnt mig til reiði, frá þeim
degi, er feður þeirra fóru burt af Egiptalandi, alt fram á þennan dag.
[16] Manasse úthelti og mjög miklu saklausu blóði, þar til er hann
hafði fylt Jerúsalem með því enda á milli, auk þeirrar syndar sinnar,
að hann kom Júda til að gjöra það sem ilt var í augum Jahve.
[17] En það sem meira er að segja um Manasse og alt, sem hann
gjörði, og synd hans, þá er hann drýgði, það er ritað í árbókum Júda-
konunga. [18] Og Manasse lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var
grafinn í gröf sinni í garði Ússa. Og Amón sonur hans tók ríki eftir
hann.

---

**20:** 2 Kron. 32, 30. Jes. 22, 9. — **21, 1:** 2 Kron. 33, 1 n. **2:** kap. 16, 3. **3:** 1 Kong. 16, 32. 33. 2 Kong. 17, 16. **4:** 5 Mós. 12, 11. **5:** kap. 23, 12. **6:** 3 Mós. 18, 21; 19, 26. **7:** 1 Kong. 8, 29; 9, 3. **11:** Jer. 15, 4. **12:** 1 Sam. 3, 11. Jer. 19, 3. **16:** kap. 24, 4.

### Frá Amón Júda-konungi.

19 Amón hafði tvo um tvítugt, þá er hann varð konungur, og tvö
ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Mesúllemet Harúzdóttir
og var frá Jotba. 20 Og hann gjörði það sem ilt var í augum Jahve,
svo sem gjört hafði Manasse faðir hans, 21 og fetaði algjörlega í fótspor
föður síns og þjónaði skurðgoðunum, sem faðir hans hafði þjónað,
og féll fram fyrir þeim; 22 hann yfirgaf Jahve, Guð feðra sinna, og
gekk eigi á vegum Jahve. 23 Og þjónar Amóns gjörðu samsæri gegn
honum og drápu konung í höll hans. 24 En landslýðurinn drap alla
mennina, er gjört höfðu samsæri gegn Amón konungi. Síðan tók lands-
lýðurinn Jósía son hans til konungs eftir hann.
25 En það sem meira er segja um Amón, það er hann gjörði, það
er ritað í árbókum Júda-konunga. 26 Og hann var grafinn í gröf sinni
í garði Ússa. Og Jósía sonur hans tók ríki eftir hann.

### Fundin lögbókin. Siðbót Jósía.

22 Jósía var átta vetra gamall, þá er hann varð konungur, og
þrjátíu og eitt ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét
Jedída Adajadóttir og var frá Bozkat. 2 Og hann gjörði það sem rétt
var í augum Jahve og fetaði algjörlega í fótspor Davíðs forföður síns
og veik hvorki af til hægri né vinstri.
3 En á átjánda ríkisári Jósía konungs sendi konungur Safan Azalja-
son, Mesúllamssonar, kanzlara í musteri Jahve og sagði: 4 Gakk þú til
Hilkía æðsta prests og innsigla fé það, er borið hefir verið í musteri
Jahve, það er þröskuldsverðirnir hafa safnað saman af lýðnum, 5 svo
að það verði fengið í hendur verkstjórunum, þeim er umsjón hafa með
musteri Jahve, svo að það verði fengið í hendur verkamönnunum, sem
vinna að því í musteri Jahve, að gjöra við skemdir á musterinu, 6 tré-
smiðunum og byggingamönnunum og múrurunum, svo og til að kaupa
fyrir við og höggna steina, til þess að gjöra við musterið. 7 Þó var
ekki haldinn reikningur við þá á fénu, sem þeim var fengið í hendur,
heldur gjöra þeir það upp á æru og trú.
8 Þá mælti Hilkía æðsti prestur við Safan kanzlara: Eg hefi fundið
lögbókina í musteri Jahve. Og Hilkía fékk Safan bókina og hann las
hana. 9 Síðan fór Safan kanzlari til konungs og skýrði konungi frá
erindislokum og mælti: Þjónar þínir hafa látið af hendi fé það, er var
í musteri Jahve, og fengið í hendur verkstjórunum, sem umsjón hafa
með musteri Jahve. 10 Og Safan kanzlari sagði konungi frá og mælti:
Hilkía prestur fékk mér bók. Og Safan las hana fyrir konungi.
11 En er konungur heyrði orð lögbókarinnar, reif hann klæði sín.
12 Og konungur bauð þeim Hilkía presti, Ahíkam Safanssyni, Akbór
Míkajasyni, Safan kanzlara og Asaja konungsþjóni á þessa leið: 13 Farið
og gangið til frétta við Jahve fyrir mig og fyrir lýðinn og fyrir allan
Júda um þessa nýfundnu bók, því að mikil er heift Jahve, sú er upp-
tendruð er í gegn oss, af því að feður vorir hafa eigi hlýtt orðum bókar
þessarar, með því að gjöra að öllu svo sem skrifað er í henni. 14 Þá
fóru þeir Hilkía prestur, Ahíkam, Akbór, Safan og Asaja til Huldu spá-
konu, konu Sallúms Tikvasonar, Harhasonar, klæðageymis; bjó hún í
Jerúsalem í öðru borgarhverfi og töluðu þeir við hana.
15 Þá mælti hún við þá: Svo segir Jahve, Guð Ísraels: Segið mann-
inum, er sendi yður til mín: 16 Svo segir Jahve: Sjá, eg leiði ógæfu yfir
þennan stað og íbúa hans, allar ógnanir bókar þessarar, er Júdakon-

---

19: 2 Kron. 33, 21 n. 20: v. 2. — 22, 1: 2 Kron. 34, 1 n. 4: kap. 12, 9 n.

ungur hefir lesið, 17 fyrir því að þeir hafa yfirgefið mig og fært öðrum
guðum reykelsisfórnir, til þess að egna mig til reiði með öllum handa-
verkum sínum, og heift mín skal upptendrast gegn þessum stað og eigi
slokna. 18 En segið svo Júda-konungi, þeim er sendi yður til þess að
ganga til frétta við Jahve: Svo segir Jahve, Guð Ísraels: 19 Af því að
hjarta þitt hefir komist við og þú auðmýktir þig fyrir Jahve, er þú
heyrðir, hvað eg hafði talað gegn þessum stað og íbúum hans, að þeir
skyldu verða undrunarefni og formælingar, og af því að þú reifst klæði
þín og grézt frammi fyrir mér, þá hefi eg og bænheyrt þig, segir Jahve.
20 Fyrir því vil eg láta þig safnast til feðra þinna, að þú megir komast
með friði í gröf þína, og augu þín þurfi ekki að horfa upp á alla þá
ógæfu, er eg leiði yfir þennan stað. Fluttu þeir konungi svarið.
23 Þá sendi konungur út menn til þess að safna til sín öllum
öldungum Júda og Jerúsalem. 2 Og konungur gekk upp í musteri
Jahve og með honum allir Júdamenn og Jerúsalem-búar, svo og prest-
arnir og spámennirnir og allur lýðurinn, bæði ungir og gamlir, og hann
las í áheyrn þeirra öll orð sáttmálsbókarinnar, er fundist hafði í musteri
Jahve. 3 Og konungur gekk að súlunni og gjörði þann sáttmála frammi
fyrir Jahve, að fylgja Jahve og varðveita skipanir hans, fyrirmæli og
lög af öllu hjarta og af allri sálu, til þess að fullnægja þannig orðum
sáttmála þessa, þau er rituð voru í þessari bók. Og allur lýðurinn
gekst undir sáttmálann.
4 Síðan bauð konungur Hilkía æðsta presti og óæðri prestunum
og þröskuldsvörðunum að taka burt úr aðalhúsi musteris Jahve öll á-
höld, þau er gjörð höfðu verið handa Baal og Aséru og öllum him-
insins her. Og hann lét brenna þau fyrir utan Jerúsalem á Kídron-
völlum, og askan af þeim var flutt til Betel. 5 Hann rak og burt skurð-
goðaprestana, er Júda-konungar höfðu skipað og fært höfðu reykelsis-
fórnir á hæðunum í borgum Júda og í grendinni við Jerúsalem, svo
og þá er fært höfðu Baal fórnir og sólunni, tunglinu, stjörnumerkjun-
um og öllum himinsins her. 6 Og hann lét flytja aséruna burt úr
musteri Jahve, út fyrir Jerúsalem, og brendi hana í Kídron-dal, muldi
hana mjölinu smærra og stráði duftinu á grafir múgamanna. 7 Þá
braut hann og niður hús þeirra manna, er helgað höfðu sig saurlifn-
aði, þau er voru við musteri Jahve, þar sem konur ófu hjúpa á asér-
una. 8 Og hann lét alla presta koma frá borgunum í Júda og afhelg-
aði hæðirnar, þar sem prestarnir höfðu fórnað, frá Geba til Beerseba.
Hann braut og niður hæðir hafurlíkneskjanna, sem stóðu úti fyrir hliði
Jósúa borgarstjóra, en það er á vinstri hönd, þá er inn er gengið um
borgarhliðið. 9 Þó máttu hæðaprestarnir eigi ganga upp að altari Jahve
í Jerúsalem, heldur átu þeir ósýrð brauð meðal bræðra sinna. 10 Hann
afhelgaði og brenslugrófina í Hinnómssonar-dal, til þess að enginn léti
framar son sinn eða dóttur ganga gegnum eldinn Mólok til handa.
11 Hann tók og burt hesta þá, sem Júda-konungar höfðu sett til veg-
semdar sólunni við innganginn að musteri Jahve, nálægt herbergi Netan-
Meleks hirðmanns, sem var í Parvarím; en vagna sólarinnar brendi
hann í eldi. 12 Og ölturun, sem voru á þakinu yfir veggsvölum Akas-
ar, er Júda-konungar höfðu reist, og ölturun, er Manasse hafði reist í
báðum forgörðum musteris Jahve, reif konungur niður, og hann skund-
aði þaðan og kastaði öskunni af þeim í Kídron-dal. 13 Konungur af-
helgaði og hæðirnar, sem voru fyrir austan Jerúsalem, sunnanvert við
Skaðræðisfjall, og Salómó Ísraels-konungur hafði reist Astarte, viður-
stygð Zídoninga, og Kamos, viðurstygð Móabíta, og Milkóm, svívirðing

19: 1 Kong. 21, 29. 20: Jes. 57, 1. — 23, 1: 2 Kron. 34, 29 n. 2: 5 Mós. 31, 11. 2 Kong. 22, 8. 7: 1 Kong. 14, 24. 10: 3 Mós. 18, 21. Jer. 7,31. 13: 1 Kong. 11, 7 n.

Ammóníta. 14 Hann braut og sundur merkissteinana og hjó sundur
asérurnar og fylti staðinn, þar sem þær höfðu verið, með mannabein-
um. 15 Sömuleiðis altarið í Betel, hæðina, sem Jeróbóam Nebatsson
hafði gjöra látið, sá er kom Ísrael til að syndga — einnig þetta altari
og hæðina reif hann niður; og hann brendi aséruna og muldi hana
mjölinu smærra.
16 En er Jósía sneri sér við og sá grafirnar, sem voru þar á fjall-
inu, þá sendi hann og lét sækja beinin í grafirnar, brendi þau á altar-
inu og afhelgaði það, samkvæmt orði Jahve, því er guðsmaðurinn hafði
boðað, sá er boðaði þessa hluti. 17 Síðan sagði hann: Hvaða legsteinn
er þetta, sem eg sé? Og borgarmenn svöruðu honum: Það er gröf
guðsmannsins, sem kom frá Júda og boðaði þessa hluti, sem þú hefir
nú gjört, gegn altarinu í Betel. 18 Þá mælti hann: Látið hann vera,
enginn ónáði bein hans! Þannig létu þeir bein hans og bein spá-
mannsins, sem kominn var frá Samaríu, vera í friði.
19 Auk þess afnumdi Jósía öll hæðahofin, sem voru í borgum
Samaríu, þau er Ísraels-konungar höfðu reist til þess að egna Jahve
til reiði, og fór alveg eins með þau, eins og hann hafði gjört í Betel.
20 Og hann slátraði öllum hæðaprestunum, sem þar voru, á ölturunum
og brendi mannabeinum á þeim. Síðan sneri hann aftur til Jerúsalem.
21 Og konungur bauð öllum lýðnum á þessa leið: Haldið Jahve,
Guði yðar, páska, eins og ritað er í sáttmálsbók þessari. 22 Því að
engir slíkir páskar höfðu haldnir verið frá því á dögum dómaranna,
er dæmt höfðu í Ísrael, né heldur alla daga Ísraels-konunga og Júda-
konunga, 23 en á átjánda ríkisári Jósía konungs voru Jahve haldnir
þessir páskar í Jerúsalem. 24 Enn fremur eyddi Jósía þeim mönnum,
er höfðu þjónustu-anda, svo og spásagnamönnum, húsgoðum og skurð-
goðum, og öllum þeim viðurstygðum, er sáust í Júdalandi og í Jerú-
salem, til þess að fullnægja fyrirmælum lögmálsins, þeim er rituð voru
í bókinni, sem Hilkía prestur hafði fundið í musteri Jahve. 25 Og hans
maki hafði enginn konungur verið á undan honum, er svo hafði snúið
sér til Jahve af öllu hjarta sínu, allri sálu sinni og öllum mætti sín-
um, alveg eftir lögmáli Móse, og eftir hann kom enginn honum líkur.
26 Þó lét Jahve eigi af sinni brennandi heiftarreiði, af því að reiði
hans var upptendruð gegn Júda vegna allrar þeirrar móðgunar, er
Manasse hafði egnt hann með. 27 Og Jahve mælti: Eg vil einnig afmá
Júda frá augliti mínu, eins og eg hefi afmáð Ísrael, og eg vil hafna
þessari borg, er eg hefi útvalið, Jerúsalem, og musterinu, er eg sagði
um, að nafn mitt skyldi vera þar.
28 En það sem meira er að segja um Jósía og alt, sem hann gjörði,
það er ritað í árbókum Júda-konunga.
29 Á hans dögum fór Faraó Nekó Egiptalands-konungur herför
móti Assýríu-konungi austur að Evfrat-fljóti. Þá fór Jósía konungur í
móti honum, en Nekó drap hann í Megiddó, þegar er hann sá hann.
30 Óku menn hans honum dauðum frá Megiddó, fluttu hann til Jerú-
salem og grófu hann í gröf hans. En landslýðurinn tók Jóahas Jósía-
son og smurði hann og tók hann til konungs í stað föður hans.

### Frá Jóahas Júda-konungi.

31 Jóahas var tuttugu og þriggja ára að aldri, þá er hann varð
konungur, og þrjá mánuði ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét

**15:** 1 Kong. 12, 32. **16:** 1 Kong. 13, 1 n. **17:** 1 Kong. 13, 30 n. **21:** 2 Kron. 35, 1 n. **22:** 2 Kron. 35, 18. **25:** kap. 18, 5. **26:** kap. 21, 11. **27:** kap. 17, 18. **29:** 2 Kron. 35, 20 n. **30:** 2 Kron. 36, 1 n. Jer. 22, 11. **31:** kap. 24, 18.

Hamútal Jeremíadóttir og var frá Líbna. 32 Hann gjörði það, sem ilt
var í augum Jahve, með öllu svo sem gjört höfðu forfeður hans. 33 En
Faraó Nekó lét fjötra hann í Ribla í Hamat-héraði, til þess að hann
skyldi eigi framar ríkja í Jerúsalem, og lagði skattgjald á landið,
hundrað talentur silfurs og tíu talentur gulls. 34 Og Faraó Nekó gjörði
Eljakím Jósíason að konungi í stað Jósía föður hans og breytti nafni
hans í Jójakím. En Jóahas tók hann með sér, og fór hann til Egipta-
lands og dó þar. 35 En Jójakím greiddi Faraó silfrið og gullið; þó varð
hann að leggja skatt á landið, til þess að geta goldið fé það, er Faraó
krafðist; heimti hann silfrið og gullið saman af landslýðnum, eftir því
sem jafnað hafði verið niður á hvern og einn, til þess að geta greitt
Faraó Nekó það.

### Frá Jójakím Júda-konungi.

36 Jójakím var tuttugu og fimm ára að aldri, þá er hann varð
konungur, og ellefu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét
Sebúdda Pedajadóttir og var frá Rúma. 37 Og hann gjörði það sem
ilt var í augum Jahve, með öllu svo sem gjört höfðu forfeður hans.
24 Á hans dögum fór Nebúkadnezar konungur í Babel herför
þangað, og varð Jójakím honum lýðskyldur í þrjú ár; síðan
brá hann trúnaði við hann. 2 Þá sendi Jahve í móti honum ránsflokka
Kaldea, ránsflokka Sýrlendinga, ránsflokka Móabíta og ránsflokka Am-
móníta; hann sendi þá gegn Júda, til þess að eyða landið, samkvæmt
orði Jahve, því er hann hafði talað fyrir munn þjóna sinna, spámann-
anna. 3 Aðeins vegna reiði Jahve fór svo fyrir Júda, til þess að hann
gæti rekið þá burt frá augliti sínu, sakir synda Manasse, samkvæmt
öllu því, er hann hafði gjört; 4 svo og sakir þess saklausa blóðs, er
hann hafði úthelt, svo að hann fylti Jerúsalem saklausu blóði, — það
vildi Jahve ekki fyrirgefa.
5 En það sem meira er að segja um Jójakím og alt, sem hann
gjörði, það er ritað í árbókum Júda-konunga. 6 Og Jójakím lagðist til
hvíldar hjá feðrum sínum, og Jójakín sonur hans tók ríki eftir hann.
7 En Egiptalands-konungur fór enga herför framar úr landi sínu,
því að Babel-konungur hafði unnið land alt frá Egiptalandsá að Ev-
fratfljóti, það er legið hafði undir Egiptalands-konung.

### Frá Jójakín Júda-konungi. Herleiðingin fyrri.

8 Jójakín var átján ára gamall, þá er hann varð konungur, og
þrjá mánuði ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Nehústa Elnat-
ansdóttir og var frá Jerúsalem. 9 Og hann gjörði það sem ilt var í
augum Jahve, með öllu svo sem gjört hafði faðir hans. 10 Um þær
mundir fóru þjónar Nebúkadnezars, konungs í Babel, herför til Jerú-
salem, og varð borgin í umsátri. 11 Og Nebúkadnezar Babel-konungur
kom sjálfur til borgarinnar, þá er þjónar hans sátu um hana. 12 Gekk
þá Jójakín Júda-konungur út á móti Babel-konungi ásamt móður sinni,
þjónum sínum, herforingjum og hirðmönnum; og Babel-konungur tók
hann höndum á áttunda ríkisstjórnarári hans. 13 Og hann flutti þaðan
alla fjársjóðu musteris Jahve og fjársjóðu konungshallarinnar og tók gullið
af öllum áhöldum, er Salómó Ísraels-konungur hafði gjöra látið í musteri
Jahve, eins og Jahve hafði sagt. 14 Og hann herleiddi alla Jerúsalem og
alla höfðingja og alla vopnfæra menn, tíu þúsund að tölu, svo og alla tré-

---

33: Esek. 19, 4. 34: Jer. 22, 12. — 24, 3: kap. 21, 10 n. 4: kap. 21, 16. 8: 2 Kron. 36, 9. 13: 2 Kron. 36, 10. 14: kap. 25, 12.

smiði og járnsmiði; ekkert var eftir skilið nema almúgafólk landsins.
15 Og hann herleiddi Jójakín til Babel; og konungsmóður og konur
konungsins og hirðmenn hans og höfðingja landsins herleiddi hann og
frá Jerúsalem til Babel. 16 Svo og alla vopnfæra menn, sjö þúsund að
tölu, og trésmiði og járnsmiði, þúsund að tölu, er allir voru hraustir
hermenn, — þá herleiddi Babel-konungur til Babel. 17 Og konungurinn
í Babel skipaði Mattanja föðurbróður hans konung í hans stað og
breytti nafni hans í Zedekía.

### Frá Zedekía Júda-konungi. Herleiðingin síðari.

18 Zedekía var tuttugu og eins árs að aldri, þá er hann varð kon-
ungur, og ellefu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Hamútal
Jeremíadóttir og var frá Líbna. 19 Og hann gjörði það sem ilt var í
augum Jahve, með öllu svo sem gjört hafði Jójakím. 20 Því að vegna
reiði Jahve fór svo fyrir Jerúsalem og Júda, unz hann hafði burtsnarað
þeim frá augliti sínu. En Zedekía brá trúnaði við Babel-konung.
25 Á níunda ríkisári hans, á tíunda degi hins tíunda mánaðar,
kom Nebúkadnezar Babel-konungur með allan sinn her til Jerú-
salem og settist um hana, og þeir reistu hervirki hringinn í kring um
hana. 2 Varð borgin þannig í umsátri fram á ellefta ríkisár Zedekía
konungs. 3 Í fjórða mánuðinum, á níunda degi mánaðarins, er hungrið
tók að sverfa að borginni og landslýður var orðinn vistalaus, 4 þá var
brotið skarð inn í borgina; og konungur og allir hermennirnir flýðu
um nóttina gegnum hliðið milli beggja múranna, sem er hjá konungs-
garðinum, þótt Kaldear umkringdu borgina, og héldu leiðina til slétt-
lendisins. 5 En her Kaldea veitti konungi eftirför og náði honum á
Jeríkó-völlum, er allur her hans hafði tvístrast burt frá honum. 6 Tóku
þeir konung höndum og fluttu hann til Ribla til Babel-konungs; hann
kvað upp dóm hans. 7 Drápu þeir sonu Zedekía fyrir augum hans, en
Zedekía lét hann blinda og binda eirfjötrum. Síðan fluttu þeir hann
til Babel.
8 En í fimta mánuði, á sjöunda degi mánaðarins — það er á nít-
jánda ríkisári Nebúkadnezars Babel-konungs — kom Nebúsaradan líf-
varðarforingi, vildarþjónn Babel-konungs, til Jerúsalem 9 og brendi
musteri Jahve og konungshöllina, og öll hús í Jerúsalem og öll hús stór-
mennanna brendi hann í eldi. 10 En allur Kaldea-her, sá er var með
lífvarðarforingjanum, reif niður múrana umhverfis Jerúsalem. 11 En
leifar lýðsins — þá er eftir voru í borginni — og liðhlaupana, þá er
hlaupist höfðu í lið með Babel-konungi, og þá sem eftir voru af iðn-
aðarmönnum herleiddi Nebúsaradan lífvarðarforingi til Babel. 12 En af
almúga landsins lét lífvarðarforinginn nokkura verða eftir sem vín-
garðsmenn og akurkarla. 13 En eirsúlurnar, er voru hjá musteri Jahve,
og undirstöðupallana og eirhafið, er voru í musteri Jahve, brutu Kaldear
sundur og fluttu eirinn til Babel. 14 Og katlana, eldspaðana, skarbít-
ana, bollana og öll eiráhöldin, er notuð voru við guðsþjónustuna, tóku
þeir. 15 Þá tók og lífvarðarforinginn eldpönnurnar og fórnarskálarnar —
alt sem var af gulli og silfri; 16 súlurnar tvær, hafið og undirstöðu-
pallana, er Salómó hafði gjöra látið í musteri Jahve — eirinn úr öllum
þessum áhöldum varð eigi veginn. 17 Önnur súlan var átján álnir á
hæð og eirhöfuð var ofan á henni, og höfuðið var fimm álnir á hæð,
og riðið net og granatepli voru umhverfis höfuðið, alt af eiri, og eins
var á riðna netinu á hinni súlunni.

---

**15:** Jer. 22, 26. **17:** Jer. 37, 1 n. **18:** Jer. 52, 1 n. 2 Kong. 23, 31. **20:** Esek. 17, 15. — **25, 1:** 2 Kron. 36, 17 n. Jer. 39, 1 n. 52, 4 n. **7:** Esek. 12, 13. **12:** kap. 24, 14. **13:** Jer. 27, 19 n. **16:** 1 Kong. 7, 15 n. **17:** 2 Kron. 3, 15. Jer. 52, 21 n.

18 Og lífvarðarforinginn tók Seraja höfuðprest og Zefanía annan
prest og þröskuldsverðina þrjá. 19 Og úr borginni tók hann hirðmann
einn, er skipaður var yfir hermennina, og fimm menn af þeim, er dag-
lega litu auglit konungs, er fundust í borginni, og ritara hershöfð-
ingjans, þess er bauð út landslýðnum, og sextíu manns af sveitafólki,
því er fanst í borginni, — 20 þá tók Nebúsaradan lífvarðarforingi og
flutti þá til Ribla til Babel-konungs. 21 En Babel-konungur lét drepa
þá í Ribla í Hamat-héraði. Þannig var Júda herleiddur úr landi sínu.

### Frá þeim, er eftir urðu í Júda, og frá Jójakín.

22 En yfir lýðinn, sem eftir varð í Júdalandi, þann er Nebúkad-
nezar Babel-konungur lét þar eftir verða, yfir þá setti hann Gedalja,
son Ahíkams Safanssonar. 23 Og er allir hershöfðingjarnir og menn
þeirra fréttu, að Babel-konungur hefði skipað Gedalja landstjóra, fóru
þeir til Mizpa á fund Gedalja, þeir Ísmael Netanjason, Jóhanan Karea-
son, Seraja Tanhúmetsson frá Netófa og Jaasanja, sonur Maakatítans,
ásamt mönnum sínum. 24 Vann Gedalja þeim eið og mönnum þeirra
og sagði við þá: Óttist eigi Kaldea; verið kyrrir í landinu og þjónið
Babel-konungi, og mun yður vel vegna. 25 En á sjöunda mánuði kom
Ísmael Netanjason, Elísamasonar, af konungsættinni, og tíu menn með
honum, og drápu Gedalja og þá Júdamenn og Kaldea, sem hjá honum
voru í Mizpa. 26 Þá tók allur lýðurinn sig upp, bæði smáir og stórir,
og hershöfðingjarnir og fóru til Egiptalands, því að þeir voru hræddir
við Kaldea.

27 Og á þrítugasta og sjöunda útlegðarári Jójakíns Júdakonungs, í
tólfta mánuðinum, tuttugasta og sjöunda dag mánaðarins, náðaði Evíl-
Meródak Babel-konungur, árið sem hann kom til ríkis, Jójakín Júda-
konung og tók hann úr dýflissunni. 28 Og hann talaði vingjarnlega
við hann og setti stól hans ofar stólum hinna konunganna, sem hjá
honum voru í Babel. 29 Og hann fór úr bandingja-fötum sínum og
borðaði stöðuglega með honum meðan hann lifði. 30 En uppeldi hans
— hið stöðuga uppeldi — var honum veitt af konungi, það er hann
þurfti á degi hverjum, alla æfi hans.

---

# Fyrri kronikubók.

### Ættartal frá Adam til Ísaks.

1 Adam, Set, Enos. 2 Kenan, Mahalalel, Jared. 3 Henok, Methúsala,
Lamek. 4 Nói, Sem, Kam og Jafet. 5 Synir Jafets voru: Gómer,
Magóg, Madaí, Javan, Túbal, Mesek og Tíras. 6 Og synir Gómers: As-
kenas, Rífat og Tógarma. 7 Og synir Javans: Elísa, Tarsis, Kittar og
Ródanítar. 8 Synir Kams: Kús, Mísraím, Pút og Kanaan. 9 Og synir
Kúss: Seba, Havíla, Sabta, Raema og Sabteka. Og synir Raema: Séba
og Dedan. 10 Og Kús gat Nimrod; hann tók að gjörast voldugur á
jörðunni. 11 Og Mísraím gat Lúdíta, Anamíta, Lehabíta, Naftúkíta,

22: Jer. 40, 5. 25: Jer. 41, 1 n. 27: Jer. 52, 31 n. 29: 2 Sam. 9, 7. — 1, 1: 1 Mós.
5, 3 n. 5: 1 Mós. 10, 2 n. 8: 1 Mós. 10, 6 n. 11: 1 Mós. 10, 13 n.

12 Patrúsíta, Kaslúkíta (þaðan eru komnir Filistar) og Kaftóríta. 13 Og
Kanaan gat Zídon, frumgetning sinn, og Het, 14 og Jebúsíta, Amóríta,
Gírgasíta, 15 Hevíta, Arkíta, Síníta, 16 Arvadíta, Zemaríta og Hamatíta.
17 Synir Sems voru: Elam, Assúr, Arpaksad, Lúd, Aram, Ús, Húl,
Geter og Mas. 18 Og Arpaksad gat Sela og Sela gat Eber. 19 Og Eber
fæddust tveir synir; hét annar Peleg, því að á hans dögum greindist
fólkið á jörðunni, en bróðir hans hét Joktan. 20 Og Joktan gat Al-
módad, Salef, Hasarmavet, Jara, 21 Hadóram, Úsal, Dikla, 22 Ebal, Abí-
mael, Séba, 23 Ófír, Havíla og Jóbab. Þessir allir voru synir Joktans.
24 Sem, Arpaksad, Sela, 25 Eber, Peleg, Reú, 26 Serúg, Nahor, Tara,
27 Abram, það er Abraham. 28 Synir Abrahams voru: Ísak og Ísmael.
29 Þetta er ættartal þeirra: Nebajót var frumgetinn sonur Ísmaels, þá
Kedar, Adbeel, Míbsam, 30 Misma, Dúma, Massa, Hadad, Tema, 31 Jetúr,
Nafis og Kedma. Þessir voru synir Ísmaels. 32 Og synir Ketúru, hjá-
konu Abrahams: hún ól Símran, Joksan, Medan, Midían, Jísbak og
Súa. Og synir Joksans voru: Séba og Dedan. 33 Og synir Midíans:
Efa, Efer, Hanok, Abída og Eldaa; allir þessir voru niðjar Ketúru. 34 Og
Abraham gat Ísak; synir Ísaks voru: Esaú og Ísrael.

### Ættartal og konungar Edómíta.

35 Synir Esaú voru: Elífas, Regúel, Jehús, Jaelam og Kóra. 36 Synir
Elífas voru: Teman, Ómar, Zefí, Gaetam, Kenas, Timna og Amalek.
37 Synir Regúels voru: Nahat, Sera, Samma og Missa. 38 Og synir Seírs:
Lótan, Sóbal, Zíbeon, Ana, Díson, Ezer og Dísan. 39 Og synir Lótans:
Hórí og Hómam, og systir Lótans var Timna. 40 Synir Sóbals voru:
Aljan, Manahat, Ebal, Sefí og Ónam. Og synir Zíbeons: Aja og Ana.
41 Synir Ana: Díson. Og synir Dísons: Hamran, Esban, Jítran og
Keran. 42 Synir Ezers voru: Bílhan, Saavan og Jaakan. Synir Dísans
voru: Úz og Aran.
43 Og þessir eru þeir konungar, sem ríktu í Edómlandi, áður en
konungar ríktu yfir Ísraelsmönnum: Bela, sonur Beórs, og hét borg
hans Dínhaba. 44 Og er Bela dó, tók Jóbab, sonur Sera frá Bozra,
ríki eftir hann. 45 Og er Jóbab dó, tók Húsam frá Temanítalandi ríki
eftir hann. 46 Og er Húsam dó, tók Hadad sonur Bedads ríki eftir
hann; hann vann sigur á Midíanítum á Móabs-völlum; og borg hans
hét Avít. 47 Og er Hadad dó, tók Samla frá Masreka ríki eftir hann.
48 Og er Samla dó, tók Sál frá Rehóbót hjá Fljótinu ríki eftir hann.
49 Og er Sál dó, tók Baal-Hanan, sonur Akbórs, ríki eftir hann. 50 Og
er Baal-Hanan dó, tók Hadad ríki eftir hann og hét borg hans Pagí;
en kona hans Mehetabeel, dóttir Madredar, dóttur Me-Sahabs. 51 Og
Hadad dó. Og höfðingjar Edómíta voru: höfðinginn Timna, höfðinginn
Alva, höfðinginn Jetet, 52 höfðinginn Oholíbama, höfðinginn Ela, höfð-
inginn Pínon, 53 höfðinginn Kenas, höfðinginn Teman, höfðinginn Mib-
zar, 54 höfðinginn Magdíel, höfðinginn Íram. Þessir voru höfðingjar
Edómíta.

### Synir Ísraels. Ættartal Júda-kynkvíslar.

2 Þessir voru synir Ísraels: Rúben, Símeon, Leví og Júda, Íssakar
og Sebúlon, 2 Dan, Jósef og Benjamín, Naftalí, Gað og Asser.
3 Synir Júda voru: Ger, Ónan og Sela, þrír að tölu, er dóttir Súa,
kanverska konan, ól honum. En Ger, frumgetinn sonur Júda, var

---

**17:** 1 Mós. 10, 22 n. **24:** 1 Mós. 11, 10 n. **28:** 1 Mós. 21, 3; 16, 15. **29:** 1 Mós. 25, 13 n. **32:** 1 Mós. 25, 1 n. **34:** 1 Mós. 25, 25. 26. **35:** 1 Mós. 36, 10 n. **38:** 1 Mós. 36, 20 n. **43:** 1 Mós. 36, 31 n. — **2, 1:** 1 Mós. 29, 32 n. **3:** 1 Mós. 46, 12; 38, 7.

vondur fyrir augliti Jahve, svo að Jahve lét hann deyja. 4 Tamar
tengdadóttir hans ól honum Perez og Sera. Synir Júda voru alls fimm.
5 Synir Perez voru: Hezron og Hamúl. 6 Og synir Sera: Simrí, Etan,
Heman, Kalkól og Dara — fimm alls. 7 Og synir Karmí: Akar, sá er
steypti Ísrael í ógæfu, með því að fara sviksamlega með hið bannfærða.
8 Og synir Etans: Asarja. 9 Og synir Hezrons, er fæddust honum:
Jerahmeel, Ram og Kelúbaí.
10 Og Ram gat Ammínadab, og Ammínadab gat Nahson, höfuðs-
mann Júdamanna. 11 Nahson gat Salma, Salma gat Bóas, 12 Bóas gat
Óbeð, Óbeð gat Ísaí. 13 Og Ísaí gat Elíab frumgetning sinn, þá Abín-
adab, Símea hinn þriðja, 14 Netaneel hinn fjórða, Raddaí hinn fimta,
15 Ózem hinn sjötta, Davíð hinn sjöunda. 16 Og systur þeirra voru þær
Zerúja og Abígail, og synir Zerúju voru: Absaí, Jóab og Asahel, þrír
að tölu. 17 En Abígail ól Amasa og faðir Amasa var Jeter Ísmaelíti.
18 En Kaleb, sonur Hezrons, gat börn við Asúbu konu sinni og við
Jeríót; þessir voru synir hennar: Jeser, Sóbab og Ardon. 19 Og er
Asúba andaðist, gekk Kaleb að eiga Efrat og ól hún honum Húr, 20 en
Húr gat Úrí og Úrí gat Bezaleel. 21 Síðan gekk Hezron inn til dóttur
Makírs, föður Gíleaðs, og tók hana sér fyrir konu; var hann þá sextíu
ára gamall; hún ól honum Segúb. 22 Og Segúb gat Jaír; hann átti
tuttugu og þrjár borgir í Gíleað-landi. 23 En Gesúrítar og Sýrlendingar
tóku Jaírs-þorp frá þeim, Kenat og þorpin þar í kring, sextíu borgir alls.
Allir þessir voru niðjar Makírs, föður Gíleaðs. 24 Og eftir andlát Hezrons
í Kaleb-Efrata, ól Abía kona hans honum Ashúr, föður Tekóa.
25 Og synir Jerahmeels, frumgetins sonar Hezrons, voru: Ram,
frumgetningurinn, og Búna, Óren, Ózem og Ahía. 26 En Jerahmeel átti
aðra konu, er Atara hét; hún var móðir Ónams. 27 Og synir Rams,
frumgetins sonar Jerahmeels, voru: Maaz, Jamín og Eker. 28 Og synir
Ónams voru: Sammaí og Jada, og synir Sammaí: Nadab og Abísúr.
29 En kona Abísúrs hét Abíhaíl; hún ól honum Akban og Mólíd. 30 Og
synir Nadabs voru: Seled og Appaím, en Seled dó barnlaus. 31 Og
synir Appaíms: Jíseí, og synir Jíseí: Sesan, og synir Sesans: Ahelaí.
32 Og synir Jada, bróður Sammaí: Jeter og Jónatan, en Jeter dó barn-
laus. 33 Og synir Jónatans voru: Pelet og Sasa. Þessir voru niðjar
Jerahmeels. 34 Og Sesan átti enga sonu, heldur dætur einar; en Sesan
átti egipzkan þræl, er Jarha hét. 35 Og Sesan gaf Jarha þræli sínum
dóttur sína fyrir konu, og hún ól honum Attaí. 36 Og Attaí gat Natan,
Natan gat Sabat, 37 Sabat gat Eflal, Eflal gat Óbeð, 38 Óbeð gat Jehú,
Jehú gat Asarja, 39 Asarja gat Helez, Helez gat Eleasa, 40 Eleasa gat
Sísemaí, Sísemaí gat Sallúm, 41 Sallúm gat Jekamja og Jekamja gat
Elísama.
42 Og synir Kalebs, bróður Jerahmeels voru: Mesa, frumgetinn son
hans — hann var faðir Sífs —, svo og synir Maresa, föður Hebrons. 43 Og
synir Hebrons voru: Kóra, Tappúa, Rekem og Sema. 44 Og Sema gat
Raham, föður Jorkeams, og Rekem gat Sammaí. 45 En sonur Sammaí
var Maon, og Maon var faðir að Bet-Zúr. 46 Og Efa, hjákona Kalebs,
ól Haran, Móza og Gases, en Haran gat Gases. 47 Og synir Jehdaí
voru: Regem, Jótam, Gesan, Pelet, Efa og Saaf. 48 Maaka, kjákona
Kalebs, ól Seber og Tírkana. 49 Og enn ól hún Saaf, föður Madmanna,
Sefa, föður Makbena og föður Gibea, en dóttir Kalebs var Aksa.
50 Þessir voru synir Kalebs: Synir Húrs, frumgetins sonar Efrötu,

---

**4:** 1 Mós. 38, 29. 30. **5:** 1 Mós. 46, 12. **7:** Jós. 7, 1. **9:** Rut 4, 19 n. 1 Kron. 2, 18. **13:** 1 Sam. 16, 6 n. **15:** 1 Sam. 17, 12. 14. **16:** 2 Sam. 2, 18. **17:** 2 Sam. 17, 25. **20:** 2 Mós. 31, 2. **22:** Dóm. 10, 3. 4. **23:** 4 Mós. 32, 41. **31:** v. 34. **42:** v. 9. **49:** Jós. 15, 16.

voru: Sóbal, faðir að Kirjat-Jearím, 51 Salma, faðir að Betlehem,
Haref, faðir að Bet-Gader. 52 Og Sóbal, faðir að Kirjat-Jearím, átti
fyrir sonu: Haróe, hálft Menúhót 53 og ættirnar frá Kirjat-Jearím, svo
og Jítríta, Pútíta, Súmatíta og Mísraíta. Frá þeim eru komnir Zóre-
atítar og Estaólítar. 54 Synir Salma voru: Betlehem og Netófatítar, Atarót,
Bet-Jóab og helmingur Manatíta, það er Zóreíta, 55 og ættir fræðimann-
anna, er búa í Jabez, Tíreatítar, Símeatítar og Súkatítar. Þetta eru
Kínítar, er komnir eru frá Hammat, föður Rekabs-ættar.

## Niðjar Davíðs.

3 Þessir eru synir Davíðs, er hann eignaðist í Hebron: Ammon,
frumgetningurinn, við Ahínóam frá Jesreel, annar var Daníel, við
Abígail frá Karmel; 2 hinn þriðji Absalóm, sonur Maöku, dóttur Talmaí
konungs í Gesúr; hinn fjórði Adónía, sonur Haggítar; 3 hinn fimti Sef-
atja, við Abítal; hinn sétti Jitream, við Eglu, konu sinni. 4 Sex fæddust
honum í Hebron; þar ríkti hann sjö ár og sex mánuði, en í Jerúsalem
ríkti hann þrátíu og þrjú ár. 5 Og þessa eignaðist hann í Jerúsalem:
Símea, Sóbab, Natan og Salómó — fjóra alls — við Batsúa Ammíels-
dóttur, 6 enn fremur Jíbhar, Elísama, Elífelet, 7 Nóga, Nefeg, Jafía,
8 Elísama, Eljada, Elífelet — níu alls. 9 Þetta eru allir synir Davíðs,
að hjákvennasonum eigi meðtöldum. En systir þeirra var Tamar.
10 Og sonur Salómós var Rehabeam, hans son var Abía, hans son
Asa, hans son Jósafat, 11 hans son Jóram, hans son Ahasja, hans son
Jóas, 12 hans son Amazja, hans son Asarja, hans son Jótam, 13 hans
son Akas, hans son Hiskía, hans son Manasse, 14 hans son Amón, hans
son Jósía. 15 Og synir Jósía voru: Jóhanan, frumgetningurinn, annar
Jójakím, þriðji Zedekía, fjórði Sallúm. 16 Og synir Jójakíms: Jekonja,
sonur hans; hans son var Zedekía. 17 Og synir Jekonja, hins herleidda,
voru: Sealtíel, sonur hans, 18 Malkíram, Pedaja, Seneazzar, Jekamja,
Hósama og Nedabja. 19 Synir Pedaja voru: Serúbabel og Símeí, og
synir Serúbabels: Mesúllam og Hananja; systir þeirra var Selómít.
20 Og enn fremur Hasúba, Óhel, Berekía, Hasadja, Júsab-Hesed — fimm
alls. 21 Synir Hananja voru: Pelatja og Jesaja, synir Refaja, synir
Arnans, synir Óbadía, synir Sekanja. 22 Synir Sekanja voru: Semaja,
og synir Semaja: Hattúa, Jígeal, Baría, Nearja og Safat — sex alls.
23 Synir Nearja voru: Eljóenaí, Hiskía, Asríkam — þrír alls. 24 En
synir Eljóenaí voru: Hódavja, Eljasíb, Pelaja, Akkúb, Jóhanan, Delaja,
Ananí — sjö alls.

## Kynkvísl Júda.

4 Synir Júda voru: Perez, Hezron, Karmí, Húr og Sóbal. 2 En
Reaja, sonur Sóbals, gat Jahat, Jahat gat Ahúmaí og Lahad. Þetta
eru ættir Zóreatíta. 3 Og þessir voru synir Etams: Jesreel, Jisma, Jíd-
bas, en systir þeirra hét Hazelelpóní. 4 Enn fremur Penúel, faðir Ged-
órs, og Eser, faðir Húsa. Þetta eru synir Húrs, frumburðar Efrata,
föður að Betlehem. 5 En Ashúr, faðir að Tekóa, átti tvær konur, Heleu
og Naeru. 6 Og Naera ól honum Ahússam, Hefer, Temní og Ahastaríta.
Þetta eru synir Naeru. 7 Og synir Heleu voru: Zeret, Jízehar og Etnam.
8 En Kóz gat Anúb, Zóbeba og ættir Aharhels, sonar Harúms. 9 En
Jaebez var fyrir bræðrum sínum, og móðir hans nefndi hann Jaebez

---

52: kap. 4, 2. 55: Dóm. 1, 16. Jer. 35, 2 n. — 3, 1: 2 Sam. 3, 2 n. 5: 2 Sam. 5,
14 n. 12, 24. 9: 2 Sam. 13, 1. 10: 1 Kong. 11, 43. — 4, 1: 1 Mós. 46, 12. 1 Kron.
2, 7. 2: kap. 2, 52 n. 4: kap. 2, 51. 5: kap. 2, 24.

og mælti: Eg hefi alið hann með harmkvælum. 10 Og Jaebez ákallaði
Guð Ísraels og mælti: Ef þú blessar mig og eykur landi við mig og ef
hönd þín er með mér, og ef þú bægir ógæfunni frá mér, svo að engin
harmkvæli komi yfir mig . . . . . Og Guð veitti honum það, sem hann
bað um. 11 En Kelúb, bróðir Súha, gat Mehír; hann er faðir Estóns.
12 En Estón gat Bet-Rafa, Pasea og Tehinna, föður að borg Nahasar;
þetta eru Reka-menn. 13 Og synir Kenas voru: Otníel og Seraja, og
synir Otníels: Hatat. 14 En Meonotaí gat Ofra, og Seraja gat Jóab,
föður að Smiðadal, því að þeir voru smiðir. 15 En synir Kalebs Je-
fúnnesonar voru: Írú, Ela og Naam, og synir Ela . . . . og Kenas.
16 Og synir Jehalelels voru: Síf, Sífa, Tirja og Asareel. 17 Og synir Esra:
Jeter, Mered, Efer og Jalon. Og þessir eru synir Bitju, dóttur Faraós,
er gekk að eiga Mered: hún ól Mirjam, Sammaí og Jísba, föður Este-
móa. 18 En kona hans, er var Gyðingaættar, ól Jered, föður að Gedór,
og Heber, föður að Sókó, og Jekútíel, föður að Sanóa. 19 Og synir
konu Hódía, systur Nahams, voru: faðir Kegílu, Garmíta, Estemóa og
Maakatíta. 20 Og synir Símons voru: Amnon, Rinna, Ben-Hanan og
Tílon, og synir Jíseí: Sóhet og sonur Sóhets.
21 Synir Sela, sonar Júda, voru: Ger, faðir Leka, Laeda, faðir
Maresa, og ættir baðmullarverkmannanna frá Bet-Asbea, 22 enn fremur
Jókím og mennirnir frá Kóseba, Jóas og Saraf, er unnu Móab og
Jasúbí-Lehem. Þetta eru fornar sögur. 23 Þeir voru leirkerasmiðir og
bygðu Netaím og Gedera; hjá konungi, við þjónustu hans, þar bjuggu þeir.

## Kynkvísl Símeons.

24 Synir Símeons voru: Nemúel, Jamín, Jaríb, Sera, Sál; 25 hans
sonur var Sallúm, hans son Mibsam, hans son Misma. 26 Og synir
Misma voru: Hammúel, sonur hans, hans son Sakkúr, hans son Símeí.
27 En Símeí átti sextán sonu og sex dætur, en bræður hans áttu eigi
margt barna, og ætt þeirra varð eigi svo fjölmenn sem Júdamenn.
28 En þeir bjuggu í Beerseba, Mólada, Hazar-Súal, 29 Bilha, Ezem,
Tólad, 30 Betúel, Harma, Ziklag, 31 Bet-Markabót, Hazar-Súsím, Bet-
Bíreí og Saaraím. Þetta voru borgir þeirra, þangað til Davíð tók ríki.
32 Og þorp þeirra voru: Etam, Ain, Rimmon, Tóken og Asan — fimm
borgir, 33 og auk þess öll þau þorp, er lágu kring um borgir þessar,
alt til Baal. Þetta voru bústaðir þeirra, og höfðu þeir ættartal fyrir sig.
34 Enn fremur: Mesóbab, Jamlek, Jósa, sonur Amazja, 35 Jóel, Jehú,
sonur Jósíbja, Serajasonar, Asíelssonar, 36 og Eljóenaí, Jaakoba, Jesó-
haja, Asaja, Adíel, Jesímíel og Benaja, 37 Sísa, sonur Sífeí, Allonssonar,
Jedajasonar, Simrísonar, Semajasonar. 38 Þessir, sem hér eru nafn-
greindir, voru höfðingjar í ættum sínum, og hafa ættir þeirra orðið
mjög fjölmennar. 39 Og þeir fóru þaðan, er leið liggur til Gedór, alt
þar til kemur austur fyrir dalinn, til þess að leita haglendis fyrir sauði
sína. 40 Og þeir fundu feitt og gott haglendi, og landrými var þar
mikið, og rólegt var þar og friðsamlegt, því að þeir, er áður höfðu
bygt þar, voru komnir af Kam. 41 Þá komu þeir, sem hér eru nafn-
greindir, á dögum Hiskía Júda-konungs, eyddu tjöldum þeirra og
drápu Meúníta, sem þar voru, og gjöreyddu þeim alt fram á þennan
dag og bjuggu þar eftir þá, því að þar var haglendi fyrir sauði þeirra.
42 Og af þeim Símeonsniðjum fóru fimm hundruð manns til Seir-fjalla,
og voru þeir Pelatja, Nearja, Refaja og Ússíel, synir Jíseí, fyrir þeim.

---

**13:** Jós. 15, 17. Dóm. 1, 13. **14:** Nehem. 11, 35. **24:** 4 Mós. 26, 12. **28:** Jós. 19, 2 n. **41:** v. 34 n.

43 Drápu þeir hinar síðustu leifar Amalekíta, og bjuggu þar alt fram á
þennan dag.

### Kynkvísl Rúbens.

5 Og synir Rúbens, frumgetnings Ísraels — því að frumgetningurinn
var hann, en er hann hafði flekkað hvílu föður síns, var frum-
getningsrétturinn veittur sonum Jósefs, sonar Ísraels; þó skyldu þeir
eigi teljast frumgetnir í ættartölum. 2 Því að Júda var voldugastur
bræðra sinna, og einn af niðjum hans varð höfðingi, en frumgetnings-
réttinn fékk Jósef —, 3 synir Rúbens, frumgetins sonar Ísraels, voru
Hanok, Pallú, Hezron og Karmí. 4 Synir Jóels voru: Semaja, sonur hans,
hans son var Góg, hans son Símeí, 5 hans son Míka, hans son Reaja,
hans son Baal, 6 hans son Beera, er Tílgat-Pilneser Assýríu-konungur
herleiddi; hann var höfðingi fyrir Rúbensniðjum. 7 Og frændur hans
eftir ættum þeirra, eins og þeir voru skráðir í ættartölum eftir uppruna
þeirra, voru: Hinn fyrsti var Jeíel, þá Sakaría 8 og Bela Asasson, Sema-
sonar, Jóelssonar; hann bjó í Aróer og alt að Nebó og Baal-Meon. 9 Og
gegnt austri bjó hann alt að eyðimörkinni, er liggur í vestur frá Evfrat-
fljóti, því að þeir áttu hjarðir miklar í Gíleað-landi. 10 En á dögum
Sáls áttu þeir í ófriði við Hagríta, og er Hagrítar voru fallnir fyrir
þeim, settust þeir að í tjöldum þeirra, er voru með allri austurhlið
Gíleaðs.

### Kynkvísl Gaðs. Kynkvíslirnar austan Jórdanar í ófriði við Hagríta.

11 En niðjar Gaðs bjuggu andspænis þeim í Basanlandi, alt til
Salka. 12 Var Jóel helztur þeirra, þá Safam og Jaenaí og Safat í Basan.
13 Og frændur þeirra eftir ættum þeirra voru: Míkael, Mesúllam, Seba,
Jóraí, Jaekan, Sía og Eber, sjö alls. 14 Þessir eru synir Abíhaíls, Húrí-
sonar, Jaróasonar, Gíleaðssonar, Míkaelssonar, Jesísaísonar, Jahdósonar,
Bússonar. 15 Var Ahí Abdíelsson, Gúnísonar, ætthöfðingi þeirra. 16 Og
þeir bjuggu í Gíleað, í Basan og þorpunum umhverfis, og í öllum beiti-
löndum Sarons, svo langt sem þau náðu. 17 Þessir allir voru skráðir
á dögum Jótams Júda-konungs og á dögum Jeróbóams Ísraels-konungs.
18 Rúbensniðjar, Gaðsniðjar og hálf kynkvísl Manasse, þeir er hraustir
menn voru, báru skjöld og sverð, bentu boga og kunnu að hernaði,
fjörutíu og fjögur þúsund, sjö hundruð og sextíu herfærir menn, 19 áttu
í ófriði við Hagríta og við Jetúr, Nafís og Nódab. 20 Og þeir fengu
liðveizlu gegn þeim, og Hagrítar og allir bandamenn þeirra gáfust þeim
á vald. Því að meðan á bardaganum stóð, höfðu þeir hrópað til Guðs
um hjálp, og bænheyrði hann þá, af því að þeir treystu honum. 21 Höfðu
þeir burt með sér að herfangi hjarðir þeirra, fimtíu þúsund úlfalda,
tvö hundruð og fimtíu þúsund sauði, tvö þúsund asna og hundrað
þúsund manns. 22 Því að margir voru þeir, er voru lagðir sverði í
gegnum og féllu, því að ófriðurinn var háður að Guðs ráði. Bjuggu
þeir þar eftir þá fram til herleiðingar.

### Hálf kynkvísl Manasse.

23 Og þeir, er tilheyrðu hálfri Manasse-kynkvísl, bjuggu í landinu
frá Basan til Baal-Hermon og til Seír og Hermon-fjalls. Voru þeir
fjölmennir 24 og voru þessir ætthöfðingjar þeirra: Efer, Jíseí, Elíel,

---

**5. 1:** 1 Mós. 35, 22; 49, 4; 48, 5. 6. **2:** 1 Mós. 49, 8—10. **8:** 2 Mós. 6, 14. 4. Mós. 26, 5. 6. **8:** Jós. 13, 15. 16. **17:** 2 Kong. 15, 7; 14, 23. **19:** 1 Mós. 25, 15.

Asríel, Jeremía, Hódavja og Jahdíel; voru þeir kappar miklir og nafn-
kunnir menn, höfðingjar í ættum sínum. 25 En er þeir sýndu ótrú-
mensku Guði feðra sinna, og tóku fram hjá með guðum þjóðflokka
þeirra, er fyrir voru í landinu, en Guð hafði eytt fyrir þeim, 26 þá æsti
Guð Ísraels reiði Púls Assýríu-konungs og reiði Tílgat-Pilnesers, Assýríu-
konungs, og herleiddi hann Rúbensniðja, Gaðsniðja og hálfa kynkvísl
Manasse og flutti þá til Hala, Habór, Hara og Gósan-fljóts, og er svo
enn í dag.

## Kynkvísl Leví.

6 Synir Leví voru: Gerson, Kahat og Merarí. 2 Og synir Kahats:
Amram, Jízehar, Hebron og Ússíel. 3 Og synir Amrams: Aron, Móse
og Mirjam. Og synir Arons: Nadab, Abíhú, Eleasar og Ítamar. 4 Ele-
asar gat Pínehas, Pínehas gat Abísúa, 5 Abísúa gat Búkkí, Búkkí gat
Ússí, 6 Ússí gat Serahja, Serahja gat Merajót, 7 Merajót gat Amarja,
Amarja gat Ahítúb, 8 Ahítúb gat Zadók, Zadók gat Akímaaz, 9 Akímaaz,
gat Asarja, Asarja gat Jóhanan, 10 Jóhanan gat Asarja, hann sem var
prestur í musterinu, er Salómó bygði í Jerúsalem. 11 En Asarja gat
Amarja, Amarja gat Ahítúb, 12 Ahítúb gat Zadók, Zadók gat Sallúm,
13 Sallúm gat Hilkía, Hilkía gat Asarja, 14 Asarja gat Seraja, Seraja gat
Józadak. 15 En Józadak fór burt, þegar Jahve lét Nebúkadnezar her-
leiða Júdamenn og Jerúsalem-búa.

16 Synir Leví voru: Gersom, Kahat og Merarí. 17 Og þessi eru nöfn
á sonum Gersoms: Líbní og Símeí. 18 Og synir Kahats voru: Amram,
Jízehar, Hebron og Ússíel. 19 Synir Merarí: Mahelí og Músí. Og þessar
eru ættir Levíta eftir ættfeðrum þeirra: 20 Frá Gersom eru komnir:
Líbní, sonur hans, hans son Jahat, hans son Simma, 21 hans son Jóa,
hans son Íddó, hans son Sera, hans son Jeatraí. 22 Synir Kahats voru:
Ammínadab, sonur hans, hans son Kóra, hans son Assír, 23 hans son
Elkana, hans son Ebjasaf, hans son Assír, 24 hans son Tahat, hans son
Úríel, hans son Ússía, hans son Sál. 25 Og synir Elkana: Amasaí og
Ahímót, 26 hans sonur Elkana, hans son Zófaí, hans son Nahat, 27 hans
son Elíab, hans son Jeróham, hans son Elkana, 28 Og synir Samúels
voru: Jóel, frumgetningurinn, og hinn annar Abía. 29 Synir Merarí
voru: Mahelí, hans son var Líbní, hans son Símeí, hans son Ússa,
30 hans son Símea, hans son Haggía, hans son Asaja.

31 Og þessir eru þeir, er Davíð skipaði til söngs í húsi Jahve, er
örkin hafði fundið hæli; 32 þjónuðu þeir við sönginn fyrir dyrum sam-
fundatjalds-búðarinnar, unz Salómó reisti musteri Jahve í Jerúsalem,
og gegndu þeir þjónustu sinni eftir reglum þeim, er fyrir þá voru lagð-
ar. 33 Og þessir eru þeir, er þjónustu þessari gegndu og synir þeirra:
Af sonum Kahatíta: Heman, söngvarinn, Jóelsson, Samúelssonar, 34 Elk-
anasonar, Jeróhamssonar, Elíelssonar, Tóasonar, 35 Zúfssonar, Elkana-
sonar, Mahatssonar, Amasaísonar, 36 Elkanasonar, Jóelssonar, Asarjason-
ar, Zefaníasonar, 37 Tahatssonar, Assírssonar, Ebjasafssonar, Kórasonar,
38 Jízeharssonar, Kahatssonar, Levísonar, Ísraelssonar.

39 Og bróðir hans var Asaf, er stóð honum til hægri handar, Asaf
Berekíason, Símeasonar, 40 Míkaelssonar, Baasejasonar, Malkíasonar,
41 Etnísonar, Serasonar, Adajasonar, 42 Etanssonar, Simmasonar, Simmeí-
sonar, 43 Jahatssonar, Gersomssonar, Levísonar.

---

**25:** 2 Mós. 34, 15. 16. **26:** 2 Kong. 15, 19; 17, 6. — 6, 1: 1 Mós. 46, 11. 2 Mós. 6, 16. **3:** 2 Mós. 6, 20. **8:** 2 Sam. 8, 17; 15, 27. **10:** 2 Kron. 26, 17 n. **13:** 2 Kong. 22, 4. **15:** 2 Kong. 25, 11. **17:** 2 Mós. 6, 17. **18:** kap. 23, 12. **19:** kap. 23, 21. **39:** kap. 15, 17.

44 Og bræður þeirra, synir Merarí, stóðu til vinstri handar: Etan
Kísíson, Abdísonar, Mallúkssonar, 45 Hasabjasonar, Amazjasonar, Hilkía-
sonar, 46 Amsísonar, Banísonar, Semerssonar, 47 Mahelísonar, Músísonar,
Merarísonar, Levísonar.
48 Og bræður þeirra, Levítarnir, voru settir yfir alla þjónustuna
við musterisbústað Guðs. 49 En Aron og synir hans fórnuðu á brenni-
fórnaraltarinu og reykelsisaltarinu og önnuðust öll störf í hinu allra-
helgasta og að friðþægja fyrir Ísrael — að öllu leyti eins og Móse,
þjónn Guðs, hafði fyrirskipað. 50 Og þessir eru synir Arons: Eleasar,
sonur hans, hans son Pínehas, hans son Abísúa, 51 hans son Búkkí,
hans son Ússí, hans son Serahja, 52 hans son Merajót, hans son Amarja,
hans son Ahítúb, 53 hans son Zadók, hans son Akímaaz.

## Borgir Levíta.

54 Og þetta eru bústaðir þeirra, taldir eftir tjaldbúðum í héraði
þeirra: Niðjum Arons, ætt Kahatíta, — því að fyrsti hluturinn hlotnaðist
þeim — 55 gáfu þeir Hebron í Júdalandi og beitilandið umhverfis hana.
56 En akurland borgarinnar og þorpin, er að henni lágu, gáfu þeir
Kaleb Jefúnnesyni. 57 En sonum Arons gáfu þeir griðastaðinn Hebron,
enn fremur Líbna og beitilandið, er að henni lá, Jattír og Estemóa og
beitilandið, er að henni lá, 58 Hólon og beitilandið, er að henni lá,
Debír og beitilandið, er að henni lá, 59 Asan og beitilandið, er að henni
lá, og Bet-Semes og beitilandið, er að henni lá.
60 Og frá Benjamínsættkvísl: Geba og beitilandið, er að henni lá,
Allemet og beitilandið, er að henni lá, og Anatót og beitilandið, er að
henni lá. Alls voru borgir þeirra þrettán, og beitilöndin, er að þeim
lágu. 61 En aðrir synir Kahats fengu tíu borgir eftir hlutkesti frá ætt-
um Efraímskynkvíslar og Danskynkvíslar og frá hálfri Manassekynkvísl.
62 En synir Gersoms fengu þrettán borgir eftir ættum þeirra frá Íssak-
arskynkvísl, Asserskynkvísl, Naftalíkynkvísl og frá Manassekynkvísl í
Basan. 63 Synir Merarí fengu eftir hlutkesti tólf borgir eftir ættum
þeirra, frá Rúbenskynkvísl, Gaðskynkvísl og frá Sebúlonskynkvísl.
64 Þannig gáfu Ísraelsmenn Levítum borgirnar og beitilöndin, er að
þeim lágu, 65 og þeir gáfu eftir hlutkesti frá kynkvísl Júdasona, frá
kynkvísl Símeonssona og frá kynkvísl Benjamínssona þessar borgir,
sem þeir nafngreindu.
66 Og að því er snertir ættir þeirra Kahatssona, þá fengu þeir
borgir þær, er þeim hlotnuðust, frá Efraímskynkvísl. 67 Og þeir gáfu
þeim griðastaðinn Sikem og beitilandið, er að henni lá, á Efraím-fjöll-
um, enn fremur Geser og beitilandið, er að henni lá, 68 Jokmeam og
beitilandið, er að henni lá, Bet-Hóron og beitilandið, er að henni lá,
69 Ajalon og beitilandið, er að henni lá, og Gat-Rimmon og beitilandið,
er að henni lá. 70 Og frá hálfri Manassekynkvísl: Aner og beitilandið,
er að henni lá, og Jíbleam og beitilandið, er að henni lá — fyrir ættir
hinna Kahatssona.
71 Synir Gersoms fengu frá ætt hálfrar Manassekynkvíslar: Gólan
í Basan og beitilandið, er að henni lá, og Astarót og beitilandið, er
að henni lá. 72 Og frá Íssakarskynkvísl: Kedes og beitilandið, er að
henni lá, Dabrat og beitilandið, er að henni lá, 73 Ramót og beitilandið,
er að henni lá, og Anem og beitilandið, er að henni lá. 74 Og frá Ass-
erskynkvísl: Masal og beitilandið, er að henni lá, Abdón og beitilandið,
er að henni lá, 75 Húkok og beitilandið, er að henni lá, og Rehób og

**50:** v. 3 n. **54:** Jós. 21, 10 n. **57:** Jós. 21, 13 n. **65:** v. 57—60. **67:** Jós. 21, 21 n.
**71:** Jós. 21, 27 n.

beitilandið, er að henni lá. 76 Og frá Naftalíkynkvísl: Kedes í Galíl og
beitilandið, er að henni lá, Hammót og beitilandið, er að henni lá, og
Kirjataím og beitilandið, er að henni lá.
77 Þeir synir Merarí, er enn voru eftir, fengu frá Sebúlonskynkvísl:
Rimmónó og beitilandið, er að henni lá, og Tabór og beitilandið, er að
henni lá. 78 Og hinumegin Jórdanar, gegnt Jeríkó, fyrir austan Jórdan,
fengu þeir frá Rúbenskynkvísl: Bezer í eyðimörkinni og beitilandið, er
að henni lá, Jahza og beitilandið, er að henni lá, 79 Kedemót og beiti-
landið, er að henni lá, og Mefaat og beitilandið, er að henni lá. 80 Og
frá Gaðskynkvísl: Ramót í Gíleað og beitilandið, er að henni lá, Ma-
hanaím og beitilandið, er að henni lá, 81 Hesbon og beitilandið, er að
henni lá, og Jaeser og beitilandið, er að henni lá.

## Kynkvísl Íssakars.

7 Og synir Íssakars voru: Tóla, Púa, Jasúb og Simron — fjórir
alls. 2 Og synir Tóla: Ússí, Refaja, Jeríel, Jahemaí, Jíbsam og
Samúel; voru þeir höfðingjar í ættum sínum í Tóla, kappar miklir í
ættum sínum; voru þeir á dögum Davíðs tuttugu og tvö þúsund og sex
hundruð að tölu. 3 Synir Ússí voru: Jísrahja; synir Jísrahja: Míkael,
Óbadía, Jóel, Jissía, alls fimm ætthöfðingjar. 4 Og til þeirra töldust
eftir ættum þeirra, eftir frændliði þeirra, hermannasveitir, þrjátíu og
sex þúsund manns, því að þeir áttu margar konur og börn. 5 Og
frændur þeirra, allar ættir Íssakars, voru kappar miklir; töldust þeir
alls að vera áttatíu og sjö þúsundir.

## Kynkvísl Benjamíns.

6 Synir Benjamíns voru: Bela, Beker, Jedíael — þrír alls. 7 Og
synir Bela: Esbón, Ússí, Ússíel, Jerímót og Írí, fimm alls; voru þeir
ætthöfðingjar og kappar miklir, og töldust þeir að vera tuttugu og tvö
þúsund þrjátíu og fjórir. 8 Og synir Bekers: Semíra, Jóas, Elíeser,
Eljóenaí, Omrí, Jeremót, Abía, Anatót og Alemet; allir þessir voru synir
Bekers. 9 Og þeir töldust eftir ættum sínum, ætthöfðingjum sínum, er
voru kappar miklir, tuttugu þúsund og tvö hundruð. 10 Og synir Jedí-
aels: Bílhan, og synir Bílhans: Jeús, Benjamín, Ehúð, Kenaana, Setan,
Tarsis og Ahísahar. 11 Allir þessir voru synir Jedíaels, ætthöfðingjar,
kappar miklir, seytján þúsund og tvö hundruð vígra manna. 12 Og
Súppím og Húppím voru synir Írs, en Húsím . . . . synir Akers.

## Kynkvísl Naftalí.

13 Synir Naftalí: Jahzíel, Gúní, Jezer og Sallúm, synir Bílu.

## Kynkvísl Manasse.

14 Synir Manasse voru: Asríel, er kona hans ól; hin sýrlenzka
hjákona hans ól Makír, föður Gíleaðs. 15 Og Makír tók konu handa
Húppím og Súppím, en systir hans hét Maaka. Hinn annar hét Zelóf-
hað og Zelófhað átti dætur. 16 Og Maaka, kona Makírs, ól son og
nefndi hann Peres. En bróðir hans hét Seres, og synir hans voru
Úlam og Rekem. 17 Og synir Úlams: Bedan. Þessir eru synir Gíleaðs
Makírssonar, Manassesonar. 18 En Hammóleket systir hans ól Íshód,

---

**77:** Jós. 21, 34 n. — **7, 1:** 1 Mós. 46, 13. **6:** 1 Mós. 46, 21. 1 Kron. 8, 1, **14:** 4
Mós. 26, 29. 31. **15:** 4 Mós. 27, 1. Jós. 17, 3. **17:** 1 Sam. 12, 11.

Abíeser og Mahela. [19] Og synir Semída voru: Ahjan, Sekem, Líkhí og
Aníam.

## Kynkvísl Efraíms.

[20] Og synir Efraíms voru: Sútela, hans son var Bered, hans son
Tahat, hans son Eleada, hans son Tahat, [21] hans son Sóbad, hans son
Sútela, Eser og Elead, en Gat-menn, þeir er fæddir voru í landinu,
drápu þá, er þeir fóru til þess að ræna hjörðum þeirra. [22] Þá harmaði
Efraím faðir þeirra lengi, og bræður hans komu til þess að hugga
hann. [23] Og hann gekk inn til konu sinnar og hún varð þunguð og ól
son, og nefndi hann hann Bería, því að ógæfu hafði aðborið í húsi
hans. [24] En dóttir hans var Seera; hún bygði neðri og efri Bet-Hóron
og Ússen-Seera. [25] Og sonur hans var Refa og Resef; hans son var
Tela, hans son Tahan, [26] hans son Laedan, hans son Ammíhúd, hans
son Elísama, [27] hans son Nún, hans son Jósúa. [28] Og óðal þeirra og
bústaðir voru: Betel og þorpin umhverfis, austur að Naaran og vestur
að Geser og þorpunum umhverfis; enn fremur Sikem og þorpin umhverfis
til Aja og þorpanna umhverfis. [29] Og í höndum Manassesona voru: Bet-
Sean og þorpin umhverfis, Taana og þorpin umhverfis, Megiddó og
þorpin umhverfis, Dór og þorpin umhverfis. Þar bjuggu synir Jósefs,
sonar Ísraels.

## Kynkvísl Assers.

[30] Synir Assers voru: Jímna, Jísva, Jísví og Bería og systir þeirra
var Seera. [31] Og synir Bería: Heber og Malkíel, hann er faðir Birsaíts.
[32] En Heber gat Jaflet, Semer, Hótam og Súu, systur þeirra. [33] Og synir
Jaflets: Pasak, Bímehal og Asvat; þessir voru synir Jaflets. [34] Og synir
Semers: Ahí, Róhga, Húbba og Aram. [35] Og synir Helems bróður hans:
Zófa, Jímna, Seles og Amal. [36] Synir Zófa voru: Súa, Harnefer, Súal,
Berí, Jímra, [37] Bezer, Hód, Samma, Silsa, Jítran og Beera. [38] Og synir
Jeters: Jefúnne, Pispa og Ara. [39] Og synir Úlla: Ara, Hanníel og Rizja.
[40] Allir þessir voru synir Assers, ætthöfðingjar, frábærir kappar, höfð-
ingjar meðal þjóðhöfðingja. Töldust þeir, er skráðir voru til herþjón-
ustu, tuttugu og sex þúsundir manns.

## Annað ættartal Benjamíns-kynkvíslar. Ætt Sáls.

8 Og Benjamín gat Bela, frumgetning sinn, annan Asbel, þriðja
Ahra, [2] fjórða Nóha, fimta Rafa. [3] Og Bela átti að sonum: Addar,
Gera, Abíhúd, [4] Abísúa, Naaman, Ahóa, [5] Gera, Sefúfan og Húram. [6] Og
þessir voru synir Ehúðs — þessir voru ætthöfðingjar Geba-búa, og þeir
herleiddu þá til Manahat, [7] og Naaman, Ahía og Gera, hann herleiddi
þá — og hann gat Ússa og Ahíhúd. [8] En Saharaím gat í Móabslandi,
er hann hafði rekið þær frá sér, Húsím og Baöru konur sínar — [9] þá
gat hann við Hódes konu sinni: Jóbab, Zíbja, Mesa, Malkam, [10] Jeúz,
Sokja og Mirma. Þessir voru synir hans, ætthöfðingjar. [11] Og við
Húsím gat hann Abítúb og Elpaal. [12] Og synir Elpaals voru: Eber,
Míseam og Semer. Hann bygði Ónó og Lód og þorpin umhverfis.
[13] Og Bería og Sema — þeir voru ætthöfðingjar Ajalonbúa; þeir
ráku burt íbúana í Gat — [14] og Elpaal bróðir hans og Sasak og Jer-
emót. [15] Og Sebadja, Arad, Eder, [16] Míkael, Jispa og Jóha voru synir
Bería. [17] Og Sebadja, Mesúllam, Hiskí, Heber, [18] Jísmeraí, Jíslía og Jóbab

---

**20:** 4 Mós. 26, 35. **26:** 4 Mós. 1, 10. **28:** Jós. 16, 1 n. **30:** 1 Mós. 46, 17. — **8, 1:** 1 Mós. 46, 21. 4 Mós. 26, 38. 1 Kron. 7, 6 n. **12:** Nehem. 11, 35.

voru synir Elpaals. 19 Og Jakím, Síkrí, Sabdí, 20 Elíenaí, Zilletaí, Elíel,
21 Adaja, Beraja og Simrat voru synir Símeí. 22 Og Jíspan, Eber, Elíel,
23 Abdón, Síkrí, Hanan, 24 Hananja, Elam, Antótía, 25 Jífdeja og Penúel
voru synir Sasaks. 26 Og Samseraí, Seharja, Atalja, 27 Jaaresja, Elía og
Síkrí voru synir Jeróhams. 28 Þessir voru ætthöfðingjar í ættum sín-
um, höfðingjar. Þeir bjuggu í Jerúsalem.
29 Og í Gíbeon bjuggu: Jegúel, faðir að Gíbeon, og kona hans hét
Maaka. 30 Frumgetinn sonur hans var Abdón, þá Zúr, Kís, Baal, Ner,
Nadab, 31 Gedór, Ahjó og Seker. 32 En Míklót gat Símea. Einnig þeir
bjuggu andspænis bræðrum sínum, hjá bræðrum sínum í Jerúsalem.
33 Og Ner gat Kís, og Kís gat Sál, og Sál gat Jónatan, Malkísúa,
Abínadab og Esbaal. 34 Og sonur Jónatans var Meríbaal, og Meríbaal
gat Míka. 35 Og synir Míka voru: Píton, Melek, Tarea og Akas. 36 En
Akas gat Jóadda, Jóadda gat Alemet, Asmavet og Simrí. Simrí gat
Móza, 37 Móza gat Bínea, hans son var Rafa, hans son Eleasa, hans son
Azel. 38 En Azel átti sex sonu; þeir hétu: Asríkam, Bokrú, Ísmael,
Searja, Óbadía og Hanan. Allir þessir voru synir Azels. 39 Og synir
Eseks bróður hans voru: Úlam, frumgetningurinn, annar Jeús, þriðji
Elífelet. 40 Og synir Úlams voru kappar miklir, bogmenn góðir og
áttu marga sonu og sonasonu, hundrað og fimtíu alls. Allir þessir
heyra til Benjamínssona.

**Jerúsalem-búar. Störf Levíta. Gíbeon-búar og ætt Sáls.**

9 En allir Ísraelsmenn voru skráðir í ættartölur; eru þeir ritaðir í
bók Ísraels-konunga. Og Júdamenn voru herleiddir til Babel sakir
ótrúmensku þeirra. 2 En hinir fyrri íbúar, er voru í landeign þeirra
og borgum, voru Ísraelsmenn, prestarnir, Levítarnir og musterisþjónarnir.
3 Og í Jerúsalem bjuggu menn af Júdasonum, Benjamínssonum,
Efraímssonum og Manassesonum: 4 Útaí Ammíhúdsson, Omrísonar, Imrí-
sonar, Banísonar, er var af niðjum Perez, sonar Júda. 5 Og af Sílón-
ítum: Asaja, frumgetningurinn og synir hans. 6 Og af niðjum Sera:
Jegúel . . . . og bræður þeirra, sex hundruð og níutíu alls.
7 Og af Benjamínítum: Sallúm Mesúllamsson, Hódavjasonar, Hassen-
úasonar, 8 enn fremur Jíbneja Jeróhamsson, Ela Ússíson, Míkrísonar,
Mesúllam Sefatjason, Regúelssonar, Jíbnejasonar, 9 og bræður þeirra eftir
ættum þeirra, níu hundruð fimtíu og sex alls. Allir þessir menn voru
ætthöfðingjar í ættum sínum.
10 Og af prestunum: Jedaja, Jójaríb, Jakín 11 og Asarja Hilkíason,
Mesúllamssonar, Zadókssonar, Merajótssonar, Ahítúbssonar, höfuðsmaður
yfir musteri Guðs. 12 Enn fremur Adaja Jeróhamsson, Pashúrssonar,
Malkíasonar, og Maesí Adíelsson, Jahserasonar, Mesúllamssonar, Mesill-
emítssonar, Immerssonar. 13 Og bræður þeirra, ætthöfðingjar, voru
alls eitt þúsund, sjö hundruð og sextíu, dugandi menn til þess að gegna
þjónustu við musteri Guðs.
14 Og af Levítunum: Semaja Hassúbsson, Asríkamssonar, Hasabja-
sonar, af Merarí-niðjum. 15 Enn fremur Bakbakkar, Heres, Galal, Matt-
anja Míkason, Síkrísonar, Asafssonar, 16 og Óbadía Semajason, Galals-
sonar, Jedútúnssonar og Berekía Asason, Elkanasonar, er bjó í þorp-
um Netófatíta.
17 Og hliðverðirnir: Sallúm, Akkúb, Talmon og Ahíman og bræður
þeirra. Var Sallúm æðstur 18 og gætir hann enn konungshliðsins gegnt
austri. Þetta eru hliðverðirnir í hóp Levíta. 19 En Sallúm Kóreson,
Ebjasafssonar, Kórasonar, og bræður hans, er voru af ætt hans, Kóra-

**29:** kap. 9, 35. — **9, 3:** Nehem. 11, 3 n. **4:** kap. 2, 4.

ítarnir, höfðu þjónustu á hendi, þar sem þeir gættu þröskulda tjaldsins;
höfðu feður þeirra gætt dyranna í herbúðum Jahve, [20] og var Pínehas
Eleasarsson forðum höfðingi þeirra; Jahve sé með honum! [21] En Sakaría
Meselemjason gætti dyra samfundatjalds-búðarinnar. [22] Alls voru þessir,
er teknir voru til þess að vera dyraverðir, tvö hundruð og tólf; voru
þeir skráðir í ættartölur í þorpum sínum; höfðu þeir Davíð og Samúel,
sjáarinn, skipað þá í embætti þeirra; [23] voru þeir og synir þeirra við
hliðin á húsi Jahve, tjaldbúðinni, til þess að gæta þeirra. [24] Stóðu
hliðverðirnir gegnt hinum fjórum áttum, gegnt austri, vestri, norðri og
suðri. [25] En bræður þeirra, er bjuggu í þorpum sínum, áttu að koma
inn við og við, sjö daga í senn, til þess að aðstoða þá, [26] því að þeir,
fjórir yfirhliðverðirnir, höfðu stöðugt starf á hendi. Þetta eru Levítarnir.
Þeir höfðu og umsjón með herbergjum og fjársjóðum Guðs húss,
[27] og héldu til um nætur umhverfis musteri Guðs, því að þeir áttu að
halda vörð, og á hverjum morgni áttu þeir að ljúka upp. [28] Og nokkurir
þeirra áttu að sjá um þjónustu-áhöldin; skyldu þeir telja þau, er þeir
báru þau út og inn. [29] Og nokkurir skyldu sjá um áhöldin, og það öll
hin helgu áhöld, og hveitimjölið, vínið og olíuna, reykelsið og krydd-
jurtirnar, [30] og nokkurir af sonum prestanna skyldu gjöra smyrsl af
kryddjurtunum, [31] en Mattitja, einum af Levítum, frumgetningi Sallúms
Kóraíta, var falinn pönnubaksturinn. [32] Og nokkurir af Kahatítum,
bræðrum þeirra, skyldu sjá um raðsettu brauðin*, og leggja þau fram á
hverjum hvíldardegi.
[33] Og þessir eru söngvararnir, ætthöfðingjar Levíta; þeir búa í
herbergjunum, lausir við önnur störf, því að þeir hafa starfs að gæta
dag og nótt. [34] Þessir eru ætthöfðingjar Levíta eftir ættum þeirra —
höfðingjar. Þeir bjuggu í Jerúsalem.
[35] Og í Gíbeon bjuggu: Jeíel, faðir að Gíbeon, og kona hans hét
Maaka. [36] Og frumgetinn sonur hans var Abdón, þá Zúr, Kís, Baal,
Ner, Nadab, [37] Gedór, Ahjó, Sakaría og Miklót. [38] En Miklót gat Síme-
am. Einnig þeir bjuggu andspænis bræðrum sínum, hjá bræðrum sín-
um í Jerúsalem.
[39] Og Ner gat Kís og Kís gat Sál, og Sál gat Jónatan, Malkísúa,
Abínadab og Esbaal. [40] Og sonur Jónatans var Meríbaal, og Meríbaal
gat Míka. [41] Og synir Míka voru: Píton, Melek, Tahrea og Akas. [42] En
Akas gat Jaera, Jaera gat Alemet, Asmavet og Simrí, en Simrí gat Móza,
[43] Móza gat Bínea. Hans son var Refaja, hans son Eleasa, hans son
Azel. [44] En Azel átti sex sonu, þeir hétu: Asríkam, Bokrú, Ísmael, Se-
arja, Óbadía, Hanan. Þessir eru synir Azels.

## Fall Sáls.

10 En Filistar höfðu lagt til orustu við Ísrael; höfðu Ísraelsmenn
flúið fyrir Filistum og lágu margir fallnir á Gilbóafjalli. [2] Og
Filistar eltu Sál og sonu hans; og Filistar feldu Jónatan, Abínadab og
Malkísúa, sonu Sáls. [3] Var nú gjörð hörð atlaga að Sál og höfðu
bogmenn komið auga á hann; varð hann þá hræddur við bogmennina.
[4] Þá sagði Sál við skjaldsvein sinn: Bregð þú sverði þínu og legg mig
í gegn með því, svo að óumskornir menn þessir komi ekki og fari
háðulega með mig. En skjaldsveinninn vildi ekki gjöra það, því að
hann var mjög hræddur. Þá tók Sál sverðið og lét fallast á það.
[5] Og er skjaldsveinninn sá, að Sál var dauður, þá lét hann og fallast

20: 4 Mós. 25, 7 n. 22: 1 Sam. 9, 9. 11. 1 Kron. 26, 28. 30: 2 Mós. 30, 25. 32:
* Þ. e. skoðunarbrauðin. 3 Mós. 24, 5 n. 35: kap. 8, 29 n. 38: kap. 8, 32 n. —
10, 1: 1 Sam. 31, 1 n.

á sverð sitt og dó. [6] Þannig létu þeir líf sitt: Sál, synir hans þrír og
allir ættmenn hans; létu þeir lífið saman. [7] En er allir Ísraelsmenn,
þeir er á sléttlendinu bjuggu, sáu, að Ísraelsmenn voru flúnir, og Sál
og synir hans fallnir, þá yfirgáfu þeir borgir sínar og lögðu á flótta.
Og Filistar komu og settust að í þeim. [8] Daginn eftir komu Filistar
að ræna valinn; fundu þeir þá Sál og sonu hans þrjá fallna á Gilbóa-
fjalli. [9] Flettu þeir hann klæðum og tóku höfuð hans og herklæði og
gjörðu sendimenn um alt Filistaland, til þess að flytja skurðgoðum
sínum og lýðnum gleðitíðindin. [10] Og þeir lögðu vopn hans í hof guðs
síns, en hauskúpu hans festu þeir upp í hofi Dagóns. [11] En er allir
þeir, er bjuggu í Jabes í Gileað, fréttu alt það, er Filistar höfðu gjört
við Sál, [12] þá tóku sig til allir vopnfærir menn, tóku lík Sáls og lík
sona hans og fluttu þau til Jabes. Síðan jörðuðu þeir bein þeirra
undir eikinni í Jabes og föstuðu í sjö daga.

[13] Þannig lét Sál líf sitt sakir ótrúmensku sinnar við Jahve, sakir
þess að hann eigi varðveitti boð Jahve, og einnig sakir þess, að hann
hafði gengið til frétta við vofu, [14] en við Jahve hafði hann eigi gengið
til frétta. Hann lét hann þess vegna deyja, en konungdóminn hverfa
undir Davíð Ísaíson.

## Davíð smurður í Hebron. Jerúsalem unnin.

11 Þá söfnuðust allir Ísraelsmenn til Davíðs í Hebron og sögðu:
Sjá, vér erum hold þitt og bein! [2] Þegar um langa hríð, meðan
Sál var konungur, hefir þú verið fyrir Ísrael, bæði þegar hann lagði
af stað í stríð og þegar hann kom heim; auk þess hefir Jahve, Guð
þinn, við þig sagt: Þú skalt vera hirðir þjóðar minnar Ísraels, og þú
skalt vera höfðingi yfir þjóð minni Ísrael. [3] Þá komu allir öldungar
Ísraels til konungsins í Hebron, og Davíð gjörði við þá sáttmála í
Hebron, frammi fyrir augliti Jahve, og þeir smurðu Davíð til konungs
yfir Ísrael eftir orði Jahve fyrir munn Samúels.

[4] Og Davíð og allur Ísrael fór til Jerúsalem — það er Jebús —
og þar voru Jebúsítar landsbúar. [5] Þá sögðu Jebús-búar við Davíð: Þú
munt eigi komast hér inn! En Davíð tók vígið Zíon, það er Davíðs-
borg. [6] Þá mælti Davíð: Hver sá, er fyrstur vinnur sigur á Jebúsítum,
skal verða höfuðsmaður og herforingi! Gekk þá fyrstur upp Jóab
Zerújuson og varð höfuðsmaður. [7] Því næst settist Davíð að í víginu,
fyrir því nefndu menn það Davíðsborg. [8] Og hann víggirti borgina
alt í kring, frá Milló og alla leið umhverfis, en aðra hluta borgarinnar
hresti Jóab við. [9] Og Davíð efldist meir og meir og Jahve hersveitanna
var með honum.

## Kappar Davíðs.

[10] Og þessir eru helztir kappar Davíðs, er öfluglega studdu hann
til konungstignar, ásamt öllum Ísrael, til þess að gjöra hann að kon-
ungi samkvæmt boði Jahve til Ísraels. [11] Og þetta er talan á köppum
Davíðs. Jasóbeam Hakmóníson, höfðingi þeirra þriggja. Hann veifaði
spjóti sínu yfir þrjú hundruð vegnum í einu. [12] Honum næstur er
Eleasar Dódóson, Ahóhíti; hann var meðal kappanna þriggja. [13] Hann
var með Davíð í Pas-Dammím, en Filistar höfðu safnast þar saman
til orustu. En þar var akurspilda, alsprottin byggi. En er fólkið flýði
fyrir Filistum, [14] námu þeir staðar í spildunni miðri, náðu henni og

**13:** 1 Sam. 13, 13. 14; 15, 23; 28, 8.— **11, 1:** 2 Sam. 5, 1 n. **3:** 1 Sam. 16, 13. **5:**
2 Sam. 5, 6 n. **10:** 2 Sam. 23, 8 n. **12:** kap. 27, 4.

unnu sigur á Filistum; veitti Jahve þannig mikinn sigur. [15] Einu sinni
fóru þrír af höfðingjunum þrjátíu til Davíðs í hamrinum, í Adúllam-
víginu, en her Filista lá í herbúðum í Refaím-dal. [16] Þá var Davíð í
víginu, en varðsveit Filista var þá í Betlehem. [17] Þá þyrsti Davíð og
sagði: Hver vill sækja mér vatn í brunninn í Betlehem, sem er þar
við hliðið? [18] Þá brutust þeir þrír gegnum herbúðir Filista, jusu vatn
úr brunninum í Betlehem, sem er þar við hliðið, tóku það og færðu
Davíð. En Davíð vildi ekki drekka það, heldur dreypti því Jahve til
handa [19] og mælti: Guð minn láti það vera fjarri mér að gjöra slíkt.
Ætti eg að drekka blóð þessara manna, er hættu lífi sínu, því að með
því að hætta lífi sínu sóttu þeir það — og hann vildi ekki drekka
það. Þetta gjörðu kapparnir þrír.

[20] Abísaí, bróðir Jóabs, var fyrir þeim þrjátíu. Hann veifaði spjóti
sínu yfir þrjú hundruð vegnum og var frægur meðal þeirra þrjátíu.
[21] Af þeim þrjátíu var hann í heiðri hafður og var foringi þeirra, en
til jafns við þá þrjá komst hann ekki. [22] Benaja Jójadason, hraust-
menni, frægur fyrir afreksverk sín, var frá Kabzeel. Hann drap báða
sonu Aríels frá Móab. Hann sté ofan í brunn og drap þar ljón einn
dag, er snjóað hafði. [23] Hann drap og egipzkan mann tröllaukinn,
fimm álna háan. Egiptinn hafði spjót í hendi, digurt sem vefjarrif, en
hann fór á móti honum með staf, reif spjótið úr hendi Egiptans, og
drap hann með hans eigin spjóti. [24] Þetta gjörði Benaja Jójadason;
hann var frægur meðal kappanna þrjátíu. [25] Af þeim þrjátíu var hann
í heiðri hafður, en til jafns við þá þrjá komst hann ekki. Davíð setti
hann yfir lífvörð sinn.

[26] Og hraustu kapparnir voru: Asahel, bróðir Jóabs, Elhanan
Dódóson frá Betlehem, [27] Sammót frá Harór, Helez frá Palon, [28] Íra
Íkkesson frá Tekóa, Abieser frá Anatót, [29] Sibbekaí frá Húsa, Ílaí frá
Ahó, [30] Maharaí frá Netófa, Heled Baanason frá Netófa, [31] Íttaí Ríbaí-
son frá Gíbeu í Benjamíns-ættkvísl, Benaja frá Píraton, [32] Húraí frá
Nahale-Gaas, Abíel frá Araba, [33] Asmavet frá Bahúrím, Eljahba frá
Saalbón, [34] Hasem frá Gíson, Jónatan Sageson frá Harar, [35] Ahíam
Sakarsson frá Harar, Elífal Úrsson, [36] Hefer frá Mekera, Ahía frá Palon,
[37] Hezró frá Karmel, Naaraí Esbaíson, [38] Jóel, bróðir Natans, Míbhar
Hagríson, [39] Zelek Ammóníti, Nahraí frá Beerót, skjaldsveinn Jóabs
Zerújusonar, [40] Íra frá Jattír, Gareb frá Jattír, [41] Úría Hetíti, Sabad
Ahlaíson, [42] Adína Sísason, Rúbensniðji, höfðingi Rúbensniðja, og þrjá-
tíu manns með honum, [43] Hanan Maakason og Jósafat frá Meten,
[44] Ússía frá Astera, Sama og Jeíel Hótamssynir frá Aróer, [45] Jedíael
Simríson og Jóha Tízíti, bróðir hans, [46] Elíel frá Mahanaím og Jeríbaí
og Jósavja Elnaamssynir og Jítma Móabíti, [47] Elíel, Óbeð og Jaasíel
frá Mezóbaja.

12 Og þessir eru þeir, er komu til Davíðs til Ziklag, er hann var
landflótta fyrir Sál Kíssyni; voru og þeir meðal kappanna, er
veittu honum vígsgengi. [2] Höfðu þeir boga að vopni og voru leiknir
að slöngva steinum með hægri og vinstri hendi og að skjóta örvum af
boga. Af frændum Sáls, af Benjamínítum: [3] Ahíeser höfuðsmaður og
Jóas, Hassemaasynir frá Gíbeu, Jesíel og Pelet Asmavetssynir, Beraka
og Jehú frá Anatót, [4] Jismaja frá Gíbeon, kappi meðal þeirra þrjátíu
og foringi þeirra þrjátíu; Jeremía, Jehasíel, Jóhanan og Jósabad frá
Gedera; [5] Elúsaí, Jerímót, Bealja, Semarja og Sefatja frá Haríf, [6] Elkana,
Jissía, Asareel, Jóeser og Jasóbeam Kóraítar, [7] Jóela og Sebadja
Jeróhamssynir frá Gedór.

---

**23:** 1 Sam. 17, 7. **26:** kap. 27, 7. — **12, 1:** 1 Sam. 27, 6. **2:** Dóm. 20, 16.

8 Af Gadítum gengu kappar miklir, hermenn, búnir til bardaga, er
skjöld báru og spjót, í lið með Davíð í fjallvíginu í eyðimörkinni; voru
þeir ásýndum sem ljón og fráir sem skógargeitur á fjöllum. 9 Var Eser
höfðingi þeirra, annar var Óbadía, þriðji Elíab, 10 fjórði Mismanna,
fimti Jeremía, 11 sjötti Attaí, sjöundi Elíel, 12 áttundi Jóhanan, níundi
Elsabad, 13 tíundi Jeremía, ellefti Makbannaí. 14 Þessir voru af niðjum
Gaðs, og voru þeir hershöfðingjar; var hinn minsti þeirra einn saman
hundrað manna maki, en hinn mesti þúsund. 15 Þessir voru þeir, er
fóru yfir Jórdan í fyrsta mánuðinum, er hún flóði yfir alla bakka, og
stöktu burt öllum dalbyggjum til austurs og vesturs.

16 En nokkurir af Benjamíns- og Júdaniðjum komu til Davíðs í
fjallvígið. 17 Gekk Davíð þá út til þeirra, tók til máls og sagði við þá:
Ef þér komið til mín með friði, til þess að veita mér lið, þá vil eg
fúslega gjöra bandalag við yður, en ef þér komið til að svíkja mig í
hendur óvinum mínum, þótt eg hafi ekkert ilt aðhafst, þá sjái Guð
feðra vorra það og hegni. 18 Þá kom andi yfir Amasaí, höfðingja fyrir
hinum þrjátíu, og mælti hann:

Þínir erum vér, Davíð, og með þér, þú Ísaísonur.
Heill, heill sé þér, og heill liðsmönnum þínum, því að Guð þinn
hjálpar þér.

Tók þá Davíð við þeim og gjörði þá að foringjum fyrir sveit sinni.

19 Af Manasse gengu í lið með Davíð, þá er hann fór með Filist-
um til bardaga við Sál, — þó liðsintu þeir þeim ekki, því að höfð-
ingjar Filista réðu ráðum sínum, sendu hann burt og sögðu: Hann
kynni að ganga í lið með Sál, herra sínum, og gæti það orðið vor
bani — 20 þegar hann kom til Ziklag, þá gengu í lið með honum af
Manasse: Adna, Jósabad, Jedíael, Míkael, Jósabad, Elíhú og Zilletaí,
þúsundhöfðingjar Manasse. 21 Veittu þessir Davíð lið gegn ræningja-
flokkum, því að allir voru þeir kappar miklir, og urðu þeir foringjar í
hernum. 22 Því að dag frá degi komu menn til liðs við Davíð, unz
herinn var mikill orðinn sem guðsher.

## Taldir kappar þeir, er tóku Davíð til konungs í Hebron.

23 Og þetta er manntal á höfðingjum þeirra hertýgjaðra manna,
er komu til Davíðs í Hebron, til þess að fá honum í hendur konung-
dóm Sáls eftir boði Jahve: 24 Júdamenn, er skjöld báru og spjót, voru
sex þúsund og átta hundruð herbúinna manna. 25 Af Símeonsniðjum
sjö þúsund og eitt hundrað hraustir hermenn; 26 af Levíniðjum: fjögur
þúsund og sex hundruð; 27 og auk þess Jójada, höfðingi Aronsættar og
þrjú þúsund og sjö hundruð manns með honum, 28 og Zadók, ungur
maður, hinn mesti kappi; voru tuttugu og tveir herforingjar í ætt hans.
29 Af Benjamínsniðjum, frændum Sáls, voru þrjár þúsundir, en alt til
þessa héldu flestir þeirra trúnað við ætt Sáls. 30 Af Efraímsniðjum:
tuttugu þúsundir og átta hundruð kappa, nafnkunnra manna í ættum
sínum. 31 Af hálfri Manasse-kynkvísl: átján þúsundir manna, er nafn-
greindir voru til þess að fara og taka Davíð til konungs. 32 Af Íssak-
arsniðjum, er skyn báru á tíðir og tíma, svo að þeir vissu, hvað Ísrael
skyldi hafast að: tvö hundruð höfðingjar, og lutu allir frændur þeirra
boði þeirra. 33 Af Sebúlon gengu í herinn fimtíu þúsundir vígra manna,
er höfðu alls konar hervopn, allir með einum huga til þess að hjálpa.
34 Af Naftalí fóru þúsund höfðingjar og með þeim þrjátíu og sjö þús-

8: 2 Sam. 2, 18. 15: Jós. 3, 15. 19: 1 Sam. 29, 4. 21: 1 Sam. 30, 1 n. 23: 2
Sam. 5, 1. 29: 2 Sam. 2, 8 n.

undir manna, er skjöld báru og spjót. [35] Af Dansniðjum tuttugu og
átta þúsundir og sex hundruð manna, er búnir voru til bardaga. [36] Af
Asser gengu í herinn fjörutíu þúsundir vígra manna. [37] Af þeim hinu-
megin Jórdanar: af Rúbensniðjum, Gaðsniðjum og hálfri ættkvísl Man-
asse: hundrað og tuttugu þúsundir manna, með alls konar vopn til
hernaðar.
[38] Allir þessir hermenn, er skipaðir voru í fylkingu, komu sam-
huga til Hebron, til þess að taka Davíð til konungs yfir allan Ísrael.
Voru og allir aðrir Ísraelsmenn samhuga í því að taka Davíð til kon-
ungs. [39] Og þeir dvöldust þar þrjá daga hjá Davíð og neyttu matar og
drykkjar, því að frændur þeirra höfðu búið þeim beina. [40] Auk þess
færðu þeir, er bjuggu í nágrenni við þá, alt að Íssakar, Sebúlon og
Naftalí, vistir á ösnum, úlföldum, múlum og nautum, mjölmat, fíkju-
kökur, rúsínukökur, vín, olíu og naut og sauði í ríkum mæli, því að
gleði var í Ísrael.

## Sáttmálsörkin flutt um alt Ísraelsland.

13 Og Davíð ráðgaðist um við þúsundhöfðingjana og við hundr-
aðshöfðingjana, við alla höfðingjana. [2] Og Davíð mælti við Ísraels-
söfnuð: Ef yður líkar svo, og virðist það vera komið frá Jahve, Guði
vorum, þá skulum vér senda til frænda vorra, sem eftir eru orðnir í
öllum héruðum Ísraels, svo og til prestanna og Levítanna í borgunum
með beitilöndunum, er að þeim liggja, og skulu þeir safnast til vor;
[3] skulum vér sækja örk Guðs vors, því að á dögum Sáls höfum vér ekki
spurt um hana. [4] Svaraði þá allur söfnuður, að svo skyldi gjöra, því að
öllum lýðnum leizt þetta rétt vera. [5] Kallaði þá Davíð saman allan Ísrael,
frá Síhór í Egiptalandi, alt þar til, er leið liggur til Hamat, til þess að
flytja örk Guðs frá Kirjat-Jearím. [6] Og Davíð og allur Ísrael fór til Baala,
til Kirjat-Jearím, sem er í Júda, til þess að flytja þaðan örk Guðs, sem
kend er við nafn Jahve, hans, sem situr uppi yfir kerúbunum. [7] Og þeir
óku örk Guðs á nýjum vagni úr húsi Abínadabs, og stýrðu þeir Ússa og
Ahjó vagninum. [8] Og Davíð og allur Ísrael dansaði fyrir Guði af öll-
um mætti, með söng, gígjum, hörpum, bumbum, skálabumbum og
lúðrum. [9] En er komið var að láfa Kídons, rétti Ússa út höndina til
þess að grípa í örkina, því að slakað hafði verið á taumhaldinu við
akneytin. [10] Þá upptendraðist reiði Jahve gegn Ússa, og hann laust
hann þar, af því að hann hafði gripið hendi sinni í örkina, og dó
hann þar fyrir augliti Guðs. [11] En Davíð féll það þungt, að Jahve
hafði lostið Ússa svo hart, og hefir þessi staður verið nefndur Peres-
Ússa alt fram á þennan dag. [12] Og Davíð varð hræddur við Guð á þeim
degi og sagði: Hvernig má eg þá flytja örk Guðs til mín? [13] Og Davíð
flutti ekki örkina til sín í Davíðsborg, heldur sneri hann með hana til
húss Óbeð-Edóms í Gat. [14] Og örk Guðs var þrjá mánuði í húsi Óbeð-
Edóms, í húsi hans, og Jahve blessaði hús Óbeð-Edóms og alt það,
er hans var.

## Davíð byggir höll, kvongast og vinnur sigur á Filistum.

14 Og Híram, konungur í Týrus, gjörði menn á fund Davíðs og
sendi honum sedrustré, steinhöggvara og trésmiði, til þess að reisa
höll handa honum. [2] Davíð kannaðist þá við, að Jahve hefði staðfest
konungdóm hans yfir Ísrael, að konungdómur sinn væri hátt upp haf-
inn fyrir sakir þjóðar hans Ísraels.

---

**13, 5:** kap. 15, 3. **6:** 1 Sam. 4, 4. **9:** 2 Sam. 6, 6 n. **11:** kap. 15, 13. — **14, 1:**
2 Sam. 5, 11 n.

3 Og Davíð tók sér enn konur í Jerúsalem, og Davíð gat enn sonu
og dætur. 4 Og þetta eru nöfn þeirra sona, sem hann eignaðist í
Jerúsalem: Sammúa, Sóbab, Natan, Salómó, 5 Jíbhar, Elísúa, Elpelet,
6 Nóga, Nefeg, Jafía, 7 Elísama, Beeljada og Elífelet.
8 En er Filistar heyrðu, að Davíð væri smurður til konungs yfir
allan Ísrael, lögðu allir Filistar af stað að leita Davíðs. Og er Davíð
frétti það, fór hann í móti þeim. 9 Og Filistar komu og dreifðu sér
um Refaímdal. 10 Þá gekk Davíð til frétta við Guð og sagði: Á eg að
fara móti Filistum? Munt þú gefa þá í hendur mér? Og Jahve svar-
aði honum: Far þú, eg mun gefa þá í hendur þér. 11 Héldu þeir þá
til Baal-Perazím. Og Davíð vann þar sigur á þeim, og Davíð sagði:
Guð hefir látið mig skola burt óvinum mínum, eins og þegar vatn
ryður sér rás. Fyrir því var sá staður nefndur Baal-Perazím. 12 En
þeir létu þar eftir guði sína, og voru þeir brendir á báli að boði Davíðs.
13 Og Filistar komu aftur og dreifðu sér um dalinn. 14 Þá gekk
Davíð enn til frétta við Guð, og Guð svaraði honum: Far þú eigi í
móti þeim; far þú í bug og kom að baki þeim, og ráð á þá fram undan
baka-trjánum. 15 Og þegar þú heyrir þyt af ferð í krónum baka-trjánna,
þá skalt þú leggja til orustu, því að þá fer Guð fyrir þér til þess að
ljósta her Filista. 16 Og Davíð gjörði eins og Guð bauð honum og
vann sigur á her Filista, frá Gíbeon til Geser. 17 Og frægð Davíðs barst
um öll lönd, og Jahve lét ótta við hann koma yfir allar þjóðir.

### Sáttmálsörkin flutt til Zíon.

15 Og hann bygði hús handa sér í Davíðsborg, og hann bjó stað
handa örk Guðs og reisti tjald fyrir hana. 2 Þá sagði Davíð:
Enginn má bera örk Guðs nema Levítarnir, því að þá hefir Jahve valið
til þess að bera örk Guðs og til þess að þjóna sér að eilífu. 3 Síðan
stefndi Davíð öllum Ísrael saman til Jerúsalem, til þess að flytja örk
Jahve á sinn stað, þann er hann hafði búið handa henni. 4 Og Davíð
stefndi saman niðjum Arons og Levítunum: 5 Af Kahatsniðjum: Úríel,
er var þeirra helztur, og frændum hans, hundrað og tuttugu alls. 6 Af
Meraríniðjum: Asaja, er var þeirra helztur, og frændum hans, tvö hundruð
og tuttugu alls. 7 Af Gersomsniðjum: Jóel, er var þeirra helztur, og
frændum hans, hundrað og þrjátíu alls. 8 Af Elízafansniðjum: Semaja,
er var þeirra helztur, og frændum hans, tvö hundruð alls. 9 Af Hebr-
onsniðjum: Elíel, er var þeirra helztur, og frændum hans, áttatíu alls.
10 Af Ússíelsniðjum: Ammínadab, er var þeirra helztur, og frændum
hans, hundrað og tólf alls.
11 Síðan kallaði Davíð á Zadók og Abjatar presta og Úríel, Asaja,
Jóel, Semaja, Elíel og Ammínadab Levíta, 12 og mælti við þá: Þér eruð
ætthöfðingjar Levíta. Helgið yður og frændur yðar og flytjið örk Jahve,
Ísraels Guðs, á þann stað, er eg hefi búið handa henni. 13 Af því að
þér voruð eigi við hið fyrra skifti, hefir Jahve, Guð vor, lostið oss, af
því að vér leituðum hans eigi svo sem vera bar. 14 Þá helguðu prest-
arnir og Levítarnir sig, til þess að flytja örk Jahve, Ísraels Guðs, upp
eftir. 15 Síðan báru niðjar Levíta örk Guðs, eins og Móse hafði fyrir-
skipað eftir boði Jahve, á stöngum á herðum sér.
16 Því næst bauð Davíð höfðingjum Levíta að setja frændur þeirra,
söngmennina, með hljóðfærum þeirra, hörpum, gígjum og skálabumb-
um, til þess að þeir skyldu láta fagnaðarglaum kveða við. 17 Settu
Levítar til þess Heman Jóelsson og af frændum hans Asaf Berekíason,

---

**4:** kap. 3, 5 n. — **15, 3:** kap. 13, 5. **13:** kap. 13, 10. 11. **15:** 2 Mós. 25, 14. 4 Mós.
4, 15; 7, 9. **17:** kap. 6, 33. 39. 44.

og af Meraríniðjum, frændum sínum, Etan Kúsajason, 18 og með þeim
frændur þeirra af öðrum flokki: Sakaría Jaasíelsson, Semíramót, Jehíel,
Unní, Elíat, Benaja, Maaseja, Mattitja, Elífelehú, Mikneja, Óbeð-Edóm
og Jeíel hliðvörðu. 19 Auk þess söngvarana Heman, Asaf og Etan með
skálabumbum úr eiri, til þess að syngja hátt, 20 og Sakaría, Asíel,
Semíramót, Jehíel, Únní, Elíat, Maaseja og Benaja með hörpur, til
þess að syngja háu raddirnar, 21 og Mattitja, Elífelehú, Mikneja, Óbeð-
Edóm, Jeíel og Asaja með gígjur, til þess að syngja lægri raddirnar.
22 En Kenanja, er var helztur Levítanna við arkarburðinn, sá um ark-
arburðinn, því að hann bar skyn á það. 23 Og Berekía og Elkana voru
hliðverðir arkarinnar. 24 En Sebanja, Jósafat, Netaneel, Amasaí, Sakaría,
Benaja og Elíeser prestar þeyttu lúðra frammi fyrir örk Guðs, og Óbeð-
Edóm og Jehía voru hliðverðir arkarinnar.
25 En Davíð og öldungar Ísraels og þúsundhöfðingjarnir fóru til
þess að flytja sáttmálsörk Jahve með fögnuði úr húsi Óbeð-Edóms.
26 Og er Guð hjálpaði Levítunum, er báru sáttmálsörk Jahve, fórnuðu
þeir sjö nautum og sjö hrútum. 27 Og Davíð var klæddur baðmullar-
kyrtli, svo og allir Levítarnir, er örkina báru, og söngmennirnir og
Kenanja, burðarstjóri, æðstur söngmannanna, en Davíð bar línhökul.
28 Og allur Ísrael flutti sáttmálsörk Jahve upp eftir með fagnaðarópi og
lúðurhljómi, með lúðrum og skálabumbum, og létu hljóma hörpur og
gígjur. 29 En er sáttmálsörk Jahve kom í Davíðsborg, leit Míkal, dóttir
Sáls, út um gluggann, og er hún sá Davíð konung vera að hoppa og
dansa, fyrirleit hún hann í hjarta sínu.

16 Og þeir fluttu örk Guðs inn og settu hana í tjaldið, sem Davíð
hafði reisa látið yfir hana, og þeir færðu brennifórnir og heilla-
fórnir. 2 Og er Davíð hafði fært brennifórnina og heillafórnirnar, blessaði
hann lýðinn í nafni Jahve, 3 og úthlutaði öllum Ísraelsmönnum, körl-
um sem konum, sinn brauðhleifinn hverjum, kjötstykki og rúsínuköku.
4 Og hann setti menn af Levítum til þess að gegna þjónustu frammi
fyrir örk Jahve, og til þess að tigna, lofa og vegsama Jahve, Guð Ísraels.
5 Var Asaf helztur þeirra, og honum næstur gekk Sakaría, þá Jeíel,
Semíramót, Jehíel, Mattitja, Elíab, Benaja, Óbeð-Edóm og Jeíel með
hljóðfærum, hörpum og gígjum, en Asaf lét skálabumburnar kveða við,
6 og Benaja og Jehasíel prestar þeyttu stöðugt lúðrana frammi fyrir
sáttmálsörk Guðs. 7 Þá, á þeim degi, fól Davíð í fyrsta sinni Asaf og
frændum hans að syngja: »Lofið Jahve«.

8 Lofið Jahve, ákallið nafn hans,
gjörið máttarverk hans kunn meðal þjóðanna!
9 Syngið fyrir honum, leikið fyrir honum,
talið um öll hans dásemdarverk.
10 Hrósið yður af hans helga nafni;
hjarta þeirra, er leita Jahve, gleðjist.
11 Leitið Jahve og máttar hans,
stundið sífelt eftir augliti hans.
12 Minnist dásemdarverka hans, þeirra er hann gjörði,
tákna hans og refsidóma munns hans,
13 þér niðjar Ísraels, þjónar hans,
þér synir Jakobs, hans útvöldu.
14 Hann, Jahve, er vor Guð;
um víða veröld ganga dómar hans.
15 Minnist að eilífu sáttmála hans,
orðs þess, er hann hefir gefið þúsundum kynslóða,

---

**20:** Sálm. 46, 1. **21:** Sálm. 6, 1. **25:** 2 Sam. 6, 12 n. — **16, 1:** 2 Sam. 6, 17 n. **8:**
Sálm. 105, 1 n. Jes. 12, 4.

16 sáttmálans, er hann gjörði við Abraham,
og eiðs síns við Ísak,
17 þess er hann setti sem lög fyrir Jakob,
eilífan sáttmála fyrir Ísrael,
18 þá er hann mælti: »Þér mun eg gefa Kanaanland
sem erfðahlut yðar«,
19 þegar þér voruð fámennur hópur,
örfáir og bjugguð þar sem útlendingar.
20 Og þeir fóru frá einni þjóð til annarar,
og frá einu konungsríki til annars lýðs;
21 hann leið engum að kúga þá
og hegndi konungum þeirra vegna.
22 »Snertið eigi við mínum smurðu,
og gjörið eigi spámönnum mínum mein«.

23 Syngið Jahve, öll lönd;
kunngjörið hjálpráð hans dag eftir dag.
24 Segið frá dýrð hans meðal heiðingjanna,
frá dásemdarverkum hans meðal allra þjóða.
25 Því að mikill er Jahve og mjög vegsamlegur,
og óttalegur er hann öllum guðum framar.
26 Því að allir guðir þjóðanna eru falsguðir,
en Jahve hefir gjört himininn.
27 Heiður og vegsemd eru fyrir augliti hans,
máttur og fögnuður í bústað hans.
28 Tjáið Jahve, þér þjóðakynkvíslir,
tjáið Jahve vegsemd og vald.
29 Tjáið Jahve dýrð þá, er nafni hans hæfir,
færið gjafir og komið fram fyrir hann.
Fallið fram fyrir Jahve í helgum skrúða,
30 titrið fyrir honum, öll lönd.
Hann hefir fest jörðina, svo að hún bifast ekki.
31 Himininn gleðjist og jörðin fagni;
menn segi meðal heiðingjanna: Jahve hefir tekið konungdóm.
32 Hafið drynji og alt, sem í því er,
foldin fagni og alt, sem á henni er,
33 öll tré skógarins kveði fagnaðarópi
fyrir Jahve, því að hann kemur til þess að dæma jörðina.

34 Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu;
35 og segið: Hjálpa þú oss, Guð hjálpræðis vors;
safna þú oss saman og frelsa þú oss frá heiðingjunum,
að vér megum lofa þitt heilaga nafn,
víðfrægja lofstír þinn.
36 Lofaður sé Jahve, Ísraels Guð, frá eilífð til eilífðar.

Og allur lýður sagði: Amen! og: Lof sé Jahve! 37 Og hann lét þá Asaf
og frændur hans verða þar eftir frammi fyrir sáttmálsörk Jahve, til
þess að hafa stöðugt þjónustu á hendi frammi fyrir örkinni, eftir því,
sem á þurfti að halda dag hvern. 38 En Óbeð-Edóm Jedítúnsson og
Hósa og frændur þeirra, sextíu og átta, Óbeð-Edóm Jedítúnsson og
Hósa, skipaði hann hliðvörðu. 39 En Zadók prest og frændur hans,

**16:** 1 Mós. 17, 2; 22, 16 n. 26, 3. **21:** 1 Mós. 12, 17. **22:** 1 Mós. 20, 7. **23:** Sálm, 96, 1 n. **25:** 2 Mós. 15, 11. **28:** Sálm. 29, 1. 2. **31:** Sálm. 97, 1. **34:** Sálm. 106. 1; 107, 1. **35:** Sálm. 106, 47. **36:** Sálm. 41, 14.

prestana, setti hann frammi fyrir bústað Jahve á hæðinni, sem er í
Gíbeon, 40 til þess stöðugt að færa Jahve brennifórnir á brennifórnaralt-
arinu, kvelds og morgna, og að fara með öllu svo, sem skrifað er í
lögmáli Jahve, því er hann lagði fyrir Ísrael. 41 Og með þeim voru
þeir Heman, Jedútún og aðrir þeir er kjörnir voru, þeir er með nafni
voru til þess kvaddir að lofa Jahve, því að miskunn hans varir að eilífu.
42 Og með þeim voru þeir Heman og Jedútún með lúðra og skálabumbur
handa söngmönnunum og hljóðfæri fyrir guðssönginn, en þeir Jedútúns-
synir voru hliðverðir. 43 Síðan fór allur lýðurinn burt, hver heim til
sín, en Davíð hvarf aftur til þess að heilsa fólki sínu.

### Davíð gefið fyrirheit.

17 Og svo bar til, þá er Davíð sat í höll sinni, að Davíð sagði
við Natan spámann: Sjá, eg bý í höll af sedrusviði, en sáttmáls-
örk Jahve undir tjalddúkum. 2 Natan svaraði Davíð: Gjör þú alt, sem
þér er í hug, því að Guð er með þér. 3 En hina sömu nótt kom orð
Guðs til Natans, svohljóðandi: 4 Far þú og seg Davíð þjóni mínum:
Svo segir Jahve: Eigi skalt þú reisa mér hús til að búa í. 5 Eg hefi
ekki búið í húsi síðan er eg leiddi Ísraelsmenn út, alt fram á þennan
dag, heldur ferðaðist eg í tjaldi og búð. 6 Alla þá stund, er eg hefi
um farið meðal allra Ísraelsmanna, hefi eg þá sagt nokkurt orð í þá
átt við nokkurn af dómurum Ísraels, þá er eg setti til að vera hirða
lýðs míns: Hví reisið þér mér ekki hús af sedrusviði? 7 Og nú skalt
þú svo segja þjóni mínum Davíð: Svo segir Jahve hersveitanna: Eg
hefi tekið þig úr haglendinu frá hjarðmenskunni og sett þig höfðingja
yfir lýð minn Ísrael; 8 eg hefi verið með þér í öllu, sem þú hefir tekið
þér fyrir hendur og upprætt alla óvini þína fyrir þér, og eg mun gjöra
nafn þitt sem nafn hinna mestu manna, sem á jörðunni eru, 9 og fá
lýð mínum Ísrael stað og gróðursetja hann þar, svo að hann geti búið
á sínum stað og geti verið öruggur úr því, og til þess að níðingar
eyði honum eigi framar eins og áður, 10 frá því er eg setti dómara yfir
lýð minn Ísrael, og eg mun lægja alla fjandmenn þína. Og eg boða
þér, að Jahve mun reisa þér hús. 11 Þegar æfi þín er öll og þú gengur
til feðra þinna, mun eg hefja afspring þinn eftir þig, einn af sonum
þínum, og staðfesta konungdóm hans. 12 Hann skal reisa mér hús
og eg mun staðfesta hásæti hans að eilífu. 13 Eg vil vera honum faðir
og hann skal vera mér sonur, og miskunn mína mun eg ekki frá
honum taka, eins og eg tók hana frá fyrirrennara þínum, 14 heldur mun
eg setja hann yfir hús mitt og ríki að eilífu, og hásæti hans skal vera
óbifanlegt um aldur. 15 Natan flutti Davíð öll þessi orð og sagði hon-
um sýn þessa alla. 16 Þá gekk Davíð konungur inn og settist niður
frammi fyrir Jahve og mælti: Hver er eg, Jahve Guð, og hvað er hús
mitt, að þú skulir hafa leitt mig til þessa? 17 Og það nægði þér ekki,
Guð, heldur hefir þú fyrirheit gefið um hús þjóns þíns langt fram í aldir,
og það meira að segja á mannlegan hátt, Jahve Guð. 18 En hvað má
Davíð enn við þig mæla? Þú þekkir sjálfur þjón þinn. 19 Jahve, sakir
þjóns þíns og að þínum vilja hefir þú gjört þetta, að boða þjóni þín-
um alla þessa miklu hluti. 20 Jahve, enginn er sem þú og enginn er
Guð nema þú, samkvæmt öllu því, er vér höfum heyrt með eyrum
vorum. 21 Og hvaða þjóð önnur á jörðunni jafnast við lýð þinn Ísrael,
að Guð hafi farið og keypt sér hana að eignarlýð, aflað henni frægðar
og gjört fyrir þá mikla hluti og hræðilega: stökt burt undan sínum

---

**40:** 2 Mós. 29, 38 n. — **17, 1:** 2 Sam. 7, 1 n. **11:** 2 Sam. 7, 12 n. **13:** Hebr. 1, 5.
1 Sam. 15, 26.

lýð annari þjóð og guði hennar? [22] En þú hefir gjört lýð þinn Ísrael
að þínum lýð um aldur og æfi, og þú, Jahve, gjörðist Guð þeirra.
[23] Og lát nú, Jahve, fyrirheit það, er þú hefir gefið um þjón þinn og
um hús hans, standa stöðugt um aldur og æfi, og gjör þú svo sem
þú hefir heitið. [24] Þá mun nafn þitt reynast traust og verða mikið
að eilífu og hljóða svo: Jahve hersveitanna, Guð Ísraels, Ísraels Guð,
og hús þjóns þíns Davíðs mun stöðugt standa fyrir þér. [25] Því að þú,
Guð minn, hefir birt þjóni þínum, að þú munir reisa honum hús,
fyrir því hafði þjónn þinn djörfung til að bera þessa bæn fram fyrir
þig. [26] Og nú, Jahve, þú ert Guð, og þú hefir gefið þjóni þínum þetta
dýrlega fyrirheit, — [27] virzt þú nú að blessa hús þjóns þíns, svo að það
sé til að eilífu fyrir þínu augliti. Því að það, sem þú, Jahve, blessar,
er blessað að eilífu.

## Sigurvinningar Davíðs.

18 Eftir þetta vann Davíð sigur á Filistum og braut þá undir sig,
og náði Gat og borgunum umhverfis hana úr höndum Filista.
[2] Hann vann og sigur á Móabítum og þannig urðu Móabítar skattskyldir
þegnar Davíðs. [3] Davíð vann og sigur á Hadareser, konungi í Zóba, er
liggur á leið til Hamat, þá er hann fór leiðangur til að festa ríki sitt
við Evfratfljót. [4] Vann Davíð af honum þúsund vagna, sjö þúsund
riddara og tuttugu þúsundir fótgönguliðs; lét Davíð skera sundur há-
sinarnar á öllum vagnhestunum, og hélt aðeins hundrað hestum eftir
af þeim. [5] Og er Sýrlendingar frá Damaskus komu til liðs við Hada-
reser, konung í Zóba, þá feldi Davíð tuttugu og tvö þúsund manns af
Sýrlendingum. [6] Og Davíð setti landstjóra á Sýrlandi, því er kent er
við Damaskus, og urðu Sýrlendingar skattskyldir þegnar Davíðs.
Þannig veitti Jahve Davíð sigur, hvert sem hann fór. [7] Davíð tók og
hina gullnu skjöldu, er þjónar Hadaresers höfðu borið, og flutti til
Jerúsalem. [8] Auk þess tók Davíð afarmikið af eiri í Teba og Kún,
borgum Hadaresers; af því gjörði Salómó eirhafið, súlurnar og eir-
áhöldin. [9] En er Tóú, konungur í Hamat, frétti, að Davíð hefði lagt
að velli allan her Hadaresers, konungs í Zóba, [10] þá sendi Tóú Hadó-
ram son sinn á fund Davíðs konungs, til þess að heilsa á hann og
árna honum heilla, er hann hafði barist við Hadareser og unnið sigur
á honum — því að Tóú átti í ófriði við Hadareser —, og með honum
sendi hann alls konar gripi af gulli, silfri og eiri. [11] Þá helgaði Davíð
konungur einnig Jahve, ásamt silfri því og gulli, er hann hafði haft á burt
frá öllum þjóðum: frá Edóm, Móab, Ammónítum, Filistum og Amalek.
[12] Og Absaí Zerújuson vann sigur á Edómítum í Saltdalnum, átján
þúsundum manns. [13] Og hann setti landstjóra í Edóm, og allir Edómítar
urðu þegnar Davíðs. En Jahve veitti Davíð sigur, hvert sem hann fór.
[14] Og Davíð ríkti yfir öllum Ísrael og lét alla þjóð sína njóta laga
og réttar. [15] En Jóab Zerújuson var fyrir hernum og Jósafat Ahílúðs-
son var sagnameistari, [16] Zadók Ahítúbsson og Abímelek Abjatarsson
voru prestar og Savsa kanzlari, [17] en Benaja Jójadason var fyrir Kret-
um og Pletum, og synir Davíðs voru hinir fyrstu við hönd konungi.

## Unninn sigur á Ammónítum og bandamönnum þeirra. Ófriður við Filista.

19 Eftir þetta bar svo til, að Nahas Ammóníta-konungur andaðist,
og tók Hanún sonur hans ríki eftir hann. [2] Þá sagði Davíð: Eg

18, 1: 2 Sam. 8, 1 n. 8: 1 Kong. 7, 15. 23. 9: 2 Sam. 8, 9 n. 12: 2 Sam. 8, 13 n.
15: 2 Sam. 8, 16 n. 20, 23 n. 16: kap. 24, 6. — 19, 1: 2 Sam. 10, 1 n.

vil sýna Hanún Nahassyni vináttu, því að faðir hans sýndi mér vin-
áttu. Síðan sendi Davíð sendimenn til þess að hugga hann eftir föður-
missinn. En er þjónar Davíðs komu í land Ammóníta til Hanúns, til
þess að hugga hann, 3 þá sögðu höfðingjar Ammóníta við Hanún:
Hyggur þú að Davíð vilji heiðra föður þinn, er hann gjörir menn á
þinn fund til að hugga þig? Munu ekki þjónar hans vera komnir á
þinn fund til þess að njósna í borginni og til þess að eyðileggja og
kanna landið? 4 Þá lét Hanún taka þjóna Davíðs og nauðraka þá og
skera af þeim klæðin til hálfs, upp á þjóhnappa, og lét þá síðan fara.
5 Fóru menn þá og sögðu Davíð af mönnunum, og sendi hann þá á
móti þeim — því að mennirnir voru mjög svívirtir — og konungur lét segja
þeim: Verið í Jerikó, unz skegg yðar er vaxið, og komið síðan heim aftur.
6 En er Ammónítar sáu, að þeir höfðu gjört sig illa þokkaða hjá
Davíð, þá sendu þeir Hanún og Ammónítar þúsund talentur silfurs til
þess að leigja sér vagna og riddara hjá Sýrlendingum í Mesópótamíu
og hjá Sýrlendingum í Maaka og Zóba. 7 Leigðu þeir sér síðan þrjátíu
og tvö þúsund vagna og konunginn í Maaka og lið hans; komu þeir
og settu herbúðir fyrir framan Medeba. Og Ammónítar söfnuðust
saman úr borgum sínum og komu til bardagans. 8 En er Davíð frétti
það, sendi hann Jóab af stað með allan kappaherinn. 9 Ammónítar
fóru og út og fylktu liði sínu við borgarhliðið, en konungarnir, er
komnir voru, stóðu úti á víðavangi einir sér. 10 En er Jóab sá að
honum var búinn bardagi, bæði að baki og að framan, valdi hann úr
öllu einvalaliði Ísraels og fylkti því á móti Sýrlendingum. 11 Hitt liðið
fékk hann Absaí bróður sínum, og fylktu þeir því á móti Ammónítum.
12 Og Jóab mælti: Ef Sýrlendingar bera mig ofurliði, þá verður þú
að hjálpa mér, en ef Ammónítar bera þig ofurliði, mun eg hjálpa
þér. 13 Vertu hughraustur og sýnum nú af oss karlmensku fyrir þjóð
vora og borgir Guðs vors, — en Jahve gjöri það sem honum þóknast.
14 Síðan lagði Jóab og liðið, sem með honum var, til orustu við Sýr-
lendinga, og þeir flýðu fyrir honum. 15 En er Ammónítar sáu, að Sýr-
lendingar flýðu fyrir Jóab, lögðu þeir og á flótta fyrir Absaí bróður
hans og leituðu inn í borgina. En Jóab fór til Jerúsalem.
16 En er Sýrlendingar sáu, að þeir höfðu beðið ósigur fyrir Ísrael,
þá sendu þeir menn og buðu út Sýrlendingum, sem voru hinumegin
við Fljótið, og Sófak, hershöfðingi Hadaresers, var fyrir þeim. 17 Og er
Davíð var sagt frá því, þá safnaði hann saman öllum Ísrael, fór yfir
Jórdan og kom til Helam, og fylkti í móti þeim. Sýrlendingar fylktu
liði sínu í móti Davíð og börðust við hann. 18 En Sýrlendingar flýðu fyrir
Ísrael, og Davíð feldi sjö þúsund vagnhesta og fjörutíu þúsund manns
af fótgönguliði, og Sófak hershöfðingja drap hann. 19 En er þjónar
Hadaresers sáu, að þeir höfðu beðið ósigur fyrir Ísrael, sömdu þeir
frið við Davíð og gjörðust lýðskyldir honum. Upp frá því vildu Sýr-
lendingar eigi veita Ammónítum lið.
20 En á næsta ári, um það leyti er konungar fara í hernað, hélt
Jóab út með liðinu og herjaði land Ammóníta. Og hann kom
og settist um Rabba, en Davíð dvaldist í Jerúsalem. Og Jóab vann
Rabba og braut hana. 2 Og Davíð tók kórónu Milkóms af höfði
honum og komst að raun um, að hún vó talentu gulls, og í henni var
dýrindis steinn. Davíð setti hana á höfuð sér og flutti mjög mikið her-
fang burt úr borginni. 3 Hann flutti og burt fólkið, sem þar var, og
setti það við sagirnar, járnfleygana og axirnar, og svo fór Davíð með
allar borgir Ammóníta. Síðan fór Davíð ásamt öllu liðinu aftur heim
til Jerúsalem.

**9:** 2 Sam. 10, 8 n. — **20, 1:** 2 Sam. 11, 1; 12, 26. **2:** 2 Sam. 12, 30 n.

[4] Seinna tókst enn orusta hjá Geser við Filista. Þá drap Sibbekaí
Húsatíti Sippaí, einn af niðjum Refaíta, og urðu þeir að lúta í lægra
haldi. [5] Og enn tókst orusta við Filista; þá drap Elhanan Jaírsson
Lahmí, bróður Golíats frá Gat; var spjótskaft hans sem vefjarrifur.
[6] Og er enn tókst orusta hjá Gat, var þar tröllaukinn maður, er hafði
sex fingur á hvorri hendi og sex tær á hvorum fæti, tuttugu og fjögur
að tölu; var hann og kominn af Refaítum. [7] Hann smánaði Ísrael, en
Jónatan, sonur Símea, bróður Davíðs, drap hann.
[8] Þessir voru komnir af Refaítum í Gat, og féllu þeir fyrir Davíð
og mönnum hans.

## Fólkstalið.

21 En Satan hófst í gegn Ísrael og egndi Davíð til þess að telja
Ísrael. [2] Þá mælti Davíð við Jóab og höfðingja lýðsins: Farið
og teljið Ísrael frá Beerseba til Dan og látið mig vita það, svo að
eg fái að vita tölu á þeim. [3] Jóab svaraði: Jahve margfaldi lýðinn —
hversu margir sem þeir nú kunna að vera — hundrað sinnum; þeir
eru þó, minn herra konungur, allir þjónar herra míns; hví æskir herra
minn þessa? Hvers vegna á það að verða Ísrael til áfellis? [4] En Jóab
mátti eigi gjöra annað en það, sem konungur bauð. Lagði Jóab þá
af stað og fór um allan Ísrael og kom síðan aftur til Jerúsalem. [5] Og
Jóab sagði Davíð töluna, er komið hafði út við manntalið: í öllum
Ísrael voru ein miljón og hundrað þúsundir vopnaðra manna, og í
Júda fjögur hundruð og sjötíu þúsundir vopnaðra manna. [6] En Leví
og Benjamín taldi hann eigi, því að Jóab hraus hugur við skipun konungs.
[7] En þetta verk var ilt í augum Guðs, og laust hann Ísrael.
[8] Þá sagði Davíð við Guð: Mjög hefi eg syndgað, er eg framdi þetta verk,
en nú, tak þú burt misgjörð þjóns þíns, því að mjög óviturlega hefir
mér tiltekist. [9] En Jahve talaði til Gaðs, sjáanda Davíðs, á þessa leið:
[10] Far þú og mæl svo við Davíð: Svo segir Jahve: Þrjá kosti set eg
þér, kjós einn af þeim, og mun eg svo við þig gjöra. [11] Þá gekk Gað
til Davíðs og sagði við hann: Svo segir Jahve: Kjós þér, [12] annaðhvort
að hungur verði í þrjú ár, eða að þú verðir að flýja í þrjá mánuði
fyrir óvinum þínum og sverð fjandmanna þinna nái þér, eða að sverð
Jahve og drepsótt geisi í landinu í þrjá daga og engill Jahve valdi
eyðingu í öllu Ísraelslandi. Hygg nú að, hverju eg eigi að svara þeim,
er sendi mig. [13] Davíð svaraði Gað: Eg er í miklum nauðum staddur
— falli eg þá í hendur Jahve, því að mikil er miskunn hans, en í
manna hendur vil eg ekki falla. [14] Jahve lét þá drepsótt koma
í Ísrael, og féllu sjötíu þúsundir manns af Ísrael. [15] Og Guð
sendi engil til Jerúsalem til þess að eyða hana, og er hann var
að eyða hana, leit Jahve til og iðraði hins illa, og sagði við engilinn,
er eyddi fólkinu: Nóg er að gjört! drag nú að þér höndina! —
en engill Jahve var þá hjá þreskivelli Ornans Jebúsíta. [16] Og Davíð
hóf upp augu sín og sá engil Jahve standa milli himins og jarðar með
brugðnu sverði í hendi, er hann beindi gegn Jerúsalem. Þá féll Davíð
og öldungarnir fram á andlit sér, klæddir hærusekkjum. [17] Og Davíð
sagði við Guð: Var það eigi eg, er bauð að telja fólkið; það er eg,
sem hefi syndgað og breytt mjög illa, en þetta eru sauðirnir — hvað
hafa þeir gjört? Jahve, Guð minn, lát hönd þína leggjast á mig og
ættmenn mína, en eigi á lýð þinn til þess að valda mannhruni.
[18] En engill Jahve bauð Gað að segja Davíð, að Davíð skyldi fara
upp eftir, til þess að reisa Jahve altari á þreskivelli Ornans Jebúsíta.

---

**4:** 2 Sam. 21, 18 n. **7:** 1 Sam. 17, 10. — **21, 1:** 2 Sam. 24, 1 n. **8:** 2 Sam. 24, 10 n.
**18:** 2 Kron. 3, 1.

19 Og Davíð fór upp eftir að boði Gaðs, því er hann hafði talað í nafni
Jahve. 20 Og er Ornan sneri sér við, sá hann konung koma og fjóra
sonu hans með honum, en Ornan var að þreskja hveiti. 21 Og er
Davíð kom til Ornans, leit Ornan upp og sá Davíð. Gekk hann þá út
af þreskivellinum og laut á ásjónu sína til jarðar fyrir Davíð. 22 Þá
mælti Davíð við Ornan: Lát þú láfastæðið af hendi við mig, svo að
eg geti reist Jahve þar altari — skalt þú selja mér það fullu verði —
og plágunni megi létta af lýðnum. 23 Ornan svaraði Davíð: Tak þú
það; minn herra konungurinn gjöri sem honum þóknast; sjá, eg gef
nautin til brennifórnar og þreskisleðana til eldiviðar og hveitið til mat-
fórnar, alt gef eg það. 24 En Davíð konungur sagði við Ornan: Eigi
svo, en kaupa vil eg það fullu verði, því að eigi vil eg taka það, sem
þitt er, Jahve til handa og færa brennifórn, er eg hefi kauplaust þegið.
25 Síðan greiddi Davíð Ornan sex hundruð sikla gulls fyrir völlinn.
26 Og Davíð reisti Jahve þar altari og fórnaði brennifórnum og heilla-
fórnum, og er hann ákallaði Jahve, svaraði hann honum með því að
senda eld af himnum á brennifórnaraltarið. 27 Og Jahve bauð englin-
um að slíðra sverð sitt.

28 Þá er Davíð sá að Jahve svaraði honum á þreskivelli Ornans
Jebúsíta, þá færði hann þar fórnir. 29 En bústaður Jahve, er Móse hafði
gjört í eyðimörkinni, og brennifórnaraltarið voru um það leyti á hæð-
inni í Gíbeon. 30 En Davíð gat eigi gengið fram fyrir það, til þess að
22 leita Guðs, því að hann var hræddur við sverð engils Jahve. 1 Og
Davíð mælti: Þetta sé hús Jahve Guðs, og þetta sé altari fyrir
brennifórnir Ísraels.

### Davíð efnir til musterisbyggingar.

2 Og Davíð bauð að stefna saman útlendingum þeim, er voru í
Ísraelslandi, og hann setti steinhöggvara til þess að höggva til steina,
til þess að reisa af musteri Guðs. 3 Davíð dró og að afarmikið af
járni í nagla á hliðhurðirnar og í spengurnar, og svo mikið af eiri, að
eigi varð vegið, 4 og sedrustré, svo að eigi varð tölu á komið, því að
Zídoningar og Týrverjar færðu Davíð afarmikið af sedrustrjám. 5 Davíð
hugsaði með sér: Salómó sonur minn er ungur og óþroskaður, en
musterið, er Jahve á að reisa, á að vera afarstórt, til frægðar og prýði
um öll lönd. Eg ætla því að viða að til þess. Og Davíð viðaði afar-
mikið að fyrir andlát sitt.

6 Síðan kallaði hann Salómó son sinn, og fól honum að reisa
musteri Jahve, Guði Ísraels. 7 Og Davíð mælti við Salómó: Sonur
minn! Eg hafði í hyggju að reisa musteri nafni Jahve, Guðs míns.
8 En orð Jahve kom til mín, svolátandi: Þú hefir úthelt miklu blóði og
háð miklar orustur; þú skalt eigi reisa musteri nafni mínu, því að miklu
blóði hefir þú helt til jarðar fyrir augliti mínu. 9 En þér mun sonur
fæðast; hann mun verða kyrlátur maður, og eg mun veita honum ró
fyrir öllum fjandmönnum hans alt um kring, því að Salómó skal hann
heita, og eg mun veita frið og kyrð í Ísrael um hans daga. 10 Hann
skal reisa musteri nafni mínu; hann skal vera mér sonur, og eg hon-
um faðir, og eg mun staðfesta konungsstól hans yfir Ísrael að eilífu.
11 Jahve sé nú með þér, sonur minn, svo að þú verðir auðnumaður og
reisir musteri Jahve, Guðs þíns, eins og hann hefir um þig heitið.
12 Veiti Jahve þér aðeins hyggindi og skilning og skipi þig yfir Ísrael,
og að þú megir varðveita lögmál Jahve, Guðs þíns. 13 Þá munt þú

---

**29:** kap. 16, 39. 2 Kron. 1, 3. — **22, 2:** 2 Kron. 2, 17. **5:** kap. 29, 1. **7:** kap. 17, 1. 2. **8:** kap. 28, 3. **10:** 2 Sam. 7, 13. 1 Kong. 5, 5. Hebr. 1, 5. **12:** 1 Kong. 3, 12.

auðnumaður verða, ef þú varðveitir setninga þá og boðorð og breytir
eftir þeim, er Jahve lagði fyrir Móse um Ísrael. Ver þú hughraustur
og öruggur! Óttast ekki og ver hvergi hræddur. [14] Sjá, þrátt fyrir
þrautir mínar hefi eg dregið að til musteris Jahve hundrað þúsund
talentur gulls, miljón talentur silfurs, og svo mikið af eiri og járni, að
eigi verður vegið, því að afarmikið er af því. Viða og steina hefi eg
einnig aflað, og mátt þú þar enn við auka. [15] Með þér er og margt
starfsmanna, steinhöggvarar, steinsmiðir og trésmiðir og alls konar hag-
leiksmenn til alls konar smíða [16] af gulli, silfri, eiri og járni, er eigi
verður tölu á komið. Upp nú, og tak til starfa og Jahve sé með þér.
[17] Og Davíð bauð öllum höfðingjum Ísraels að liðsinna Salómó
syni sínum og mælti: [18] Jahve, Guð yðar er með yður og hefir veitt
yður frið alt um kring, því að hann hefir selt frumbyggja landsins
mér á vald, og landið er undirokað fyrir augliti Jahve og fyrir augliti
lýðs hans. [19] Beinið þá hjörtum yðar og hug yðar að því að leita
Jahve, Guðs yðar; takið yður til og reisið helgidóm Jahve Guðs, svo
að þér getið flutt sáttmálsörk Jahve og hin helgu áhöld Guðs í must-
erið, er reisa á nafni Jahve.

## Levítar og störf þeirra.

23 Þá er Davíð var gamall orðinn og saddur lífdaga, gjörði hann
Salómó son sinn að konungi yfir Ísrael. [2] Og hann stefndi saman
öllum höfðingjum Ísraels, prestunum og Levítunum. [3] Og Levítarnir
voru taldir, þrítugir og þaðan af eldri, og höfðatala þeirra var þrjátíu
og átta þúsund karlmenn. [4] »Af þeim skulu tuttugu og fjögur þúsund
vera fyrir verkum við hús Jahve, sex þúsund skulu vera embættis-
menn og dómarar, [5] fjögur þúsund hliðverðir, og fjögur þúsund skulu
lofa Jahve með áhöldum þeim, er eg hefi látið gjöra til þess að veg-
sama með«, sagði Davíð.
[6] Og Davíð skifti þeim í flokka eftir þeim Gerson, Kahat og Merarí,
Levísonum. [7] Til Gersonsniðja töldust: Laedan og Símeí. [8] Synir
Laedans voru: Jehíel, er var fyrir þeim, Setam og Jóel, þrír alls. [9] Synir
Símeí voru: Selómít, Hasíel og Haran, þrír alls; voru þeir ætthöfðingjar
Laedansættar. [10] Og synir Símeí: Jahat, Sína, Jeús og Bería; þessir
voru synir Símeí, fjórir alls. [11] Var Jahat fyrir þeim, þá Sína, en Jeús
og Bería áttu eigi margt barna, svo að þeir töldust ein ætt, einn flokkur.
[12] Synir Kahats voru: Amram, Jízehar, Hebron og Ússíel, fjórir alls.
[13] Synir Amrams voru: Aron og Móse. En Aron var greindur frá hin-
um, til þess að hann skyldi verða vígður sem háheilagur ásamt sonum
sínum, um aldur og æfi, til þess að þeir skyldu brenna reykelsi frammi
fyrir Jahve, þjóna honum og lofa nafn hans um aldur og æfi. [14] Og
að því er snertir guðsmanninn Móse, þá voru synir hans taldir til
Levíkynkvíslar. [15] Synir Móse voru: Gersóm og Elíeser; [16] synir Gersóms:
Sebúel höfðingi. [17] En synir Elíesers voru: Rehabja höfðingi. Aðra
sonu átti Elíeser eigi, en synir Rehabja voru afarmargir. [18] Synir Jíze-
hars voru: Selómít höfðingi, [19] synir Hebrons: Jería höfðingi, annar
Amarja, þriðji Jehasíel, fjórði Jekameam. [20] Synir Ússíels voru: Míka
höfðingi, annar Jissía. [21] Synir Merarí voru: Mahlí og Músí; synir
Mahlí: Eleasar og Kís. [22] En Eleasar dó svo, að hann átti enga sonu,
heldur dætur einar, og tóku þeir Kíssynir, frændur þeirra, þær sér að
konum. [23] Synir Músí voru: Mahli, Eder og Jeremót, þrír alls.

**13:** Jós. 1, 9. **14:** kap. 29, 2. **18:** kap. 23, 25. — **23, 1:** 1 Kong. 1, 33 n. **3:** v. 24.
**7:** 2 Mós. 6, 17. **8:** kap. 26, 21. **12:** 2 Mós. 6, 18. **13:** 2 Mós. 6, 20. Hebr. 5, 4.
**15:** 2 Mós. 2, 22; 18, 3. 4. **16:** kap. 26, 24. **19:** kap. 24, 23. **21:** kap. 6, 19. **22:**
kap. 24, 28. **23:** kap. 24, 30.

24 Þessir eru þeir Levíniðjar eftir ættum þeirra, ætthöfðingjar þeir,
er taldir voru af þeim, eftir nafnatölu og höfða, er höfðu það starf á
hendi að þjóna í musteri Jahve, tvítugir og þaðan af eldri. 25 Því að
Davíð mælti: Jahve, Guð Ísraels, hefir veitt lýð sínum hvíld, og býr
nú að eilífu í Jerúsalem. 26 Levítarnir þurfa því ekki lengur að bera
búðina og öll þau áhöld, er að starfi hennar lúta. (27 Því að eftir síðustu
fyrirmælum Davíðs voru Levítar taldir, tvítugir og þaðan af eldri). 28 Því
að embætti þeirra er að aðstoða Aronsniðja, gegna þjónustu við musteri
Jahve, hafa umsjón með forgörðunum og klefunum og ræstingu á öll-
um hinum helgu munum, og gegna störfunum við hús Guðs, 29 annast
um raðsettu brauðin, hveitimjölið í matfórnirnar, hin ósýrðu flatbrauð,
pönnuna og hið samanhrærða, og hvers konar mæli og stiku, 30 og að
koma fram á hverjum morgni til þess að lofa og vegsama Jahve,
og eins á kveldin, 31 og að færa Jahve hverja brennifórn á hvíldardög-
um, tunglkomudögum og löghátíðum, allar þær, sem ákveðið er að
stöðugt skuli færa Jahve. 32 Hafa þeir störf á hendi við samfunda-
tjaldið og störf við helgidóminn og störf hjá Aronsniðjum, frændum
sínum, við þjónustuna í musteri Jahve.

### Prestaflokkarnir tuttugu og fjórir. Höfðingjar Levíta.

24 Aronsniðjar höfðu og flokkaskipun fyrir sig. Synir Arons voru:
Nadab, Abíhú, Eleasar og Ítamar. 2 En Nadab og Abíhú dóu á
undan föður sínum og áttu eigi sonu, og urðu svo þeir Eleasar og
Ítamar prestar. 3 Og þeir Davíð og Zadók af Eleasarsniðjum og Ahí-
melek af Ítamarsniðjum skiftu þeim niður í starfsflokka eftir em-
bættum þeirra. 4 En það kom í ljós, að af Eleasarsniðjum voru fleiri
höfðingjar en af Ítamarsniðjum; fyrir því skiftu menn þeim svo, að af
Eleasarsniðjum urðu sextán ætthöfðingjar, en átta af Ítamarsniðjum.
5 Og hvorumtveggja skiftu menn eftir hlutkesti, því að helgidómshöfð-
ingjar og Guðs höfðingjar voru af niðjum Eleasars og af niðjum Ítam-
ars. 6 Og Semaja Netaneelsson ritari, einn af Levítum, skráði þá í
viðurvist konungs og höfðingjanna og Zadóks prests og Ahímeleks Abjat-
arssonar og ætthöfðingja prestanna og Levítanna. Var ein ætt tekin
frá af Eleasar og ein af Ítamar.
7 Fyrsti hluturinn féll á Jójaríb, annar á Jedaja, 8 þriðji á Harím,
fjórði á Seórím, 9 fimti á Malkía, sjötti á Míjamín, 10 sjöundi á Hakkoz,
áttundi á Abía, 11 níundi á Jesúa, tíundi á Sekanja, 12 ellefti á Eljasíb,
tólfti á Jakím, 13 þrettándi á Húppa, fjórtándi á Jesebeab, 14 fimtándi á
Bilga, sextándi á Immer, 15 seytjándi á Hesír, átjándi á Happizzez,
16 nítjándi á Pelazhja, tuttugasti á Jeheskel, 17 tuttugasti og fyrsti á Ja-
kín, tuttugasti og annar á Gamúl, 18 tuttugasti og þriðji á Delaja, tutt-
ugasti og fjórði á Maasja. 19 Er það starfskvöð þeirra, að fara inn í
musteri Jahve, eftir þeim reglum, er Aron forfaðir þeirra hafði sett,
samkvæmt því, er Jahve, Guð Ísraels, hafði boðið honum.
20 En að því er snertir aðra niðja Leví, þá voru af Amramsniðjum
Súbael, af Súbaelsniðjum Jehdeja, 21 af Rehabja, af Rehabjaniðjum
Jissía höfðingi, 22 af Jízeharítum Selómót, af Selómótsniðjum Jahat,
23 en af niðjum Hebrons: Jería höfðingi, annar Amarja, þriðji Jehasíel,
fjórði Jekameam. 24 Niðjar Ússíels voru: Míka, af niðjum Míka var
Samír. 25 Bróðir Míka var Jissía, af niðjum Jissía var Sakaría. 26 Nið-
jar Merarí voru Mahlí og Músí og niðjar Jaasía, sonar hans. 27 Niðjar
Merarí frá Jaasía syni hans voru: Sóham, Sakkúr og Íbrí. 28 Frá Mahlí

**25:** kap. 22, 18. **29:** 3 Mós. 24, 5 n. — **24, 2:** 3 Mós. 10, 1 n. **10:** Lúk. 1, 5. **20:**
kap. 23, 16 n.

var Eleasar kominn, hann átti eigi sonu. 29 Frá Kís: Synir Kís: Jerah-
meel. 30 Niðjar Músí voru: Mahlí, Eder og Jerímót. Þessir voru nið-
jar Levíta eftir ættum þeirra. 31 Þeir vörpuðu og hlutkesti eins og
frændur þeirra, Aronsniðjar, í viðurvist Davíðs konungs og Zadóks og
Ahímeleks og ætthöfðingja prestanna og Levítanna, ætthöfðingjarnir
eins og yngri frændur þeirra.

## Söngmannaflokkarnir tuttugu og fjórir.

25 Þeir Davíð og hershöfðingjarnir tóku og frá til þjónustu niðja
Asafs, Hemans og Jedútúns, er að spámannahætti lofuðu Guð
með gígjum, hörpum og skálabumbum. Og tala þeirra, er starf höfðu
við þessa þjónustu, var: 2 Af Asafsniðjum: Sakkúr, Jósef, Netanja og
Asarela, synir Asafs, undir stjórn Asafs, er lék eins og spámaður eftir
fyrirsögn konungs. 3 Af Jedútún: Synir Jedútúns: Gedalja, Zerí, Jesaja,
Hasabja, Mattitja, Símeí, sex alls, undir stjórn Jedútúns föður síns, er
lék á gígju eins og spámaður, þá er lofa skyldi Jahve og vegsama hann.
4 Af Heman: Synir Hemans: Búkkía, Mattanja, Ússíel, Sebúel, Jerímót,
Hananja, Hananí, Elíata, Giddaltí, Rómamtí-Eser, Josbekasa, Mallótí,
Hótír, Mahasíót. 5 Allir þessir voru synir Hemans, sjáanda konungs,
er horn skyldu hefja að boði Guðs. Og Guð gaf Heman fjórtán sonu
og þrjár dætur. 6 Allir þessir voru við sönginn í musteri Jahve undir
stjórn föður þeirra, með skálabumbur, hörpur og gígjur, til þess að
gegna þjónustu í musteri Guðs undir forustu konungs, Asafs, Jedútúns
og Hemans. 7 Og talan á þeim og frændum þeirra, er lærðir voru í
ljóðum Jahve, og allir voru vel að sér, var tvö hundruð áttatíu og átta.
8 Og þeir vörpuðu hlutkesti um starfið, yngri sem eldri, kennarar sem
lærisveinar. 9 Fyrsti hlutur fyrir Asaf féll á Jósef, sonu hans og bræður,
tólf alls, annar á Gedalja, sonu hans og bræður, tólf alls, 10 þriðji á
Sakkúr, sonu hans og bræður, tólf alls, 11 fjórði á Jízrí, sonu hans og
bræður, tólf alls, 12 fimti á Netanja, sonu hans og bræður, tólf alls,
13 sjötti á Búkkía, sonu hans og bræður, tólf alls, 14 sjöundi á Jesarela,
sonu hans og bræður, tólf alls, 15 áttundi á Jesaja, sonu hans og bræður,
tólf alls, 16 níundi á Mattanja, sonu hans og bræður, tólf alls, 17 tíundi
á Símeí, sonu hans og bræður, tólf alls, 18 ellefti á Asareel, sonu hans
og bræður, tólf alls, 19 tólfti á Hasabja, sonu hans og bræður, tólf alls,
20 þrettándi á Súbael, sonu hans og bræður, tólf alls, 21 fjórtándi á
Mattitja, sonu hans og bræður, tólf alls, 22 fimtándi á Jeremót, sonu
hans og bræður, tólf alls, 23 sextándi á Hananja, sonu hans og bræður,
tólf alls, 24 seytjandi á Josbekasa, sonu hans og bræður, tólf alls, 25 át-
jándi á Hananí, sonu hans og bræður, tólf alls, 26 nítjándi á Mallótí,
sonu hans og bræður, tólf alls, 27 tuttugasti á Elíjata, sonu hans og
bræður, tólf alls, 28 tuttugasti og fyrsti á Hótír, sonu hans og bræður,
tólf alls, 29 tuttugasti og annar á Giddaltí, sonu hans og bræður, tólf
alls, 30 tuttugasti og þriðji á Mahasíót, sonu hans og bræður, tólf alls,
31 tuttugasti og fjórði á Rómamtí-Eser, sonu hans og bræður, tólf alls.

## Hliðverðir Levíta.

26 Að því er snertir hliðvarðaflokkana, þá voru þar af Kóraítum:
Meselemja Kóreson af Asafsniðjum. 2 En synir Meselemja voru:
Sakaría, frumgetningurinn, annar Jedíael, þriðji Sebadja, fjórði Jatníel,
3 fimti Elam, sjötti Jóhanan, sjöundi Elíóenaí. 4 Synir Óbeð-Edóms
voru: Semaja, frumgetningurinn, annar Jósabad, þriðji Jóa, fjórði Sakar,

28: kap. 23, 22. 30: kap. 23, 23. 31: kap, 25, 8.

fimti Netaneel, [5] sjötti Ammíel, sjöundi Íssakar, áttundi Pegúlletaí, því
að Guð hafði blessað hann. [6] En Semaja, syni hans, fæddust og synir,
er réðu í ættum sínum, því að þeir voru hinir röskustu menn. [7] Synir
Semaja voru: Otní, Refael, Óbeð og Elsabat; bræður þeirra voru Elíhú
og Semakja, dugandi menn. [8] Allir þessir voru af niðjum Óbeð-Edóms,
þeir og synir þeirra og bræður, dugandi menn, vel hæfir til þjónust-
unnar, sextíu og tveir alls frá Óbeð-Edóm. [9] Meselemja átti og sonu
og bræður, dugandi menn, átján alls. [10] Og synir Hósa, er var af
Meraríniðjum, voru: Simrí höfðingi; þótt eigi væri hann frumgetning-
urinn, þá gjörði faðir hans hann að höfðingja; [11] annar Hilkía, þriðji
Tebalja, fjórði Sakaría. Synir og bræður Hósa voru þrettán alls.
[12] Þessum hliðvarðaflokkum eftir ætthöfðingjum hlotnaðist starf við
þjónustuna í húsi Jahve, þeim sem frændum þeirra. [13] Og menn vörpuðu
hlutkesti um hvert hlið fyrir sig, eftir ættum, yngri sem eldri. [14] Fyrir
hliðið gegnt austri féll hluturinn á Selemja. Menn vörpuðu og hlut-
kesti fyrir Sakaría son hans, hygginn ráðgjafa, og féll hans hlutur á
hliðið gegnt norðri, [15] fyrir Óbeð-Edóm gegnt suðri, og fyrir son hans á
geymsluhúsið, [16] fyrir Súppím og Hósa gegnt vestri við Sallekethliðið,
við götuna, sem liggur upp eftir, hver varðstöðin við aðra. [17] Við hliðið
gegnt austri voru sex Levítar, gegnt norðri fjórir dag hvern, gegnt suðri
fjórir dag hvern, og við geymsluhúsið tveir og tveir; [18] við Parbar gegnt
vestri: fjórir fyrir götuna, tveir fyrir Parbar. [19] Þessir eru hliðvarða-
flokkarnir af Kóraítaniðjum og af Meraríniðjum.
[20] Og Levítar frændur þeirra höfðu umsjón með fjársjóðum Guðs
húss og með helgigjafafjársjóðunum. [21] Niðjar Laedans, niðjar Gersoníta,
Laedans, ætthöfðingjar Laedansættar Gersoníta, Jehíelítar, [22] niðjar Je-
híelíta, Setam og Jóel bróðir hans, höfðu umsjón með fjársjóðum í
húsi Jahve. [23] Að því er snertir Amramíta, Jízeharíta, Hebroníta og
Ússíelíta, [24] þá var Sebúel Gersómsson, Mósesonar, yfirumsjónarmaður
yfir fjársjóðunum. [25] Og að því er snertir frændur þeirra frá Elíeser,
þá var Rehabja sonur hans, hans son Jesaja, hans son Jóram, hans
son Síkrí, hans son Selómít. [26] Höfðu þeir Selómít þessi og bræður
hans umsjón með öllum helgigjafafjársjóðunum, þeim er Davíð kon-
ungur og ætthöfðingjarnir, þúsundhöfðingjarnir og hundraðshöfðing-
jarnir og herforingjarnir höfðu helgað — [27] úr ófriði og af herfangi
höfðu þeir helgað það, til þess að endurbæta með musteri Jahve, [28] og
alt, er Samúel sjáandi, Sál Kísson, Abner Nersson og Jóab Zerújuson
höfðu helgað, alt hið helgaða, var undir umsjón Selómíts og bræðra
hans. [29] Af Jízeharítum höfðu þeir Kenanja og synir hans á hendi hin
veraldlegu störf í Ísrael, sem embættismenn og dómarar. [30] Af Hebron-
ítum höfðu þeir Hasabja og frændur hans, dugandi menn, seytján
hundruð alls, á hendi stjórnarstörf Ísraels hérnamegin Jórdanar, að
vestanverðu; stóðu þeir fyrir öllum störfum Jahve og þjónustu konungs.
[31] Til Hebroníta taldist Jería, höfðingi Hebroníta eftir kyni þeirra og
ættum — voru þeir kannaðir á fertugasta ríkisári Davíðs, og fundust
meðal þeirra hinir röskustu menn í Jaeser í Gíleað — [32] og frændur
hans, röskir menn, tvö þúsund og sjö hundruð ætthöfðingjar alls; setti
Davíð konungur þá yfir Rúbensniðja, Gaðsniðja og hálfa kynkvísl Man-
asseniðja, að því er snertir öll erindi Guðs og erindi konungsins.

---

**26, 18:** kap. 25, 8. **15:** 2 Kron. 25, 24. Nehem. 12, 25. **18:** 2 Kong. 23, 11. **21:** kap. 23, 8. **24:** kap. 23, 16 n. **25:** kap. 24, 21. **28:** 1 Sam. 9, 9.

### Her Davíðs og embættismenn.

27 Og þessir eru Ísraelsmenn eftir tölu þeirra, ætthöfðingjar, þús-
undhöfðingjar, hundraðshöfðingjar og starfsmenn þeirra, er þjón-
uðu konungi í öllum flokkastörfum, er komu og fóru mánuð eftir mán-
uð, alla mánuði ársins; voru í flokki hverjum tuttugu og fjögur þús-
und manns.
2 Yfir fyrsta flokki, í fyrsta mánuði, var Jasóbeam Sabdíelsson, og
voru tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki hans. 3 Var hann af
Perezniðjum og fyrir öllum herforingjum í fyrsta mánuði. 4 Yfir flokki
annars mánaðarins var Eleasar Dódaíson, Ahóhíti; fyrir flokki hans var
höfðinginn Miklót og voru tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki
hans. 5 Þriðji hershöfðinginn í þriðja mánuðinum var Benaja, sonur
Jójada prests, höfðingi, og voru tuttugu og fjögur þúsund manns í
flokki hans. 6 Var Benaja þessi kappi meðal þeirra þrjátíu og fyrir
þeim þrjátíu; var Ammísabad sonur hans fyrir flokki hans. 7 Fjórði
var Asahel, bróðir Jóabs, fjórða mánuðinn, og eftir hann Sebadja son-
ur hans; voru tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki hans. 8 Fimti
hershöfðinginn var Samhút Jísraíti, fimta mánuðinn; voru tuttugu og
fjögur þúsund manns í flokki hans. 9 Sjötti var Íra Íkkesson frá Tekóa,
sjötta mánuðinn; voru tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki hans.
10 Sjöundi var Helez Pelóníti af Efraímsniðjum, sjöunda mánuðinn; voru
tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki hans. 11 Áttundi var Sibbekaí
Húsatíti af Seraítum, áttunda mánuðinn; voru tuttugu og fjögur þús-
und manns í flokki hans. 12 Níundi var Abíeser frá Anatót af Benja-
mínsniðjum, níunda mánuðinn; voru tuttugu og fjögur þúsund manns í
flokki hans. 13 Tíundi var Maharaí frá Netófa af Seraítum, tíunda
mánuðinn; voru tuttugu og fjögur þúsund manns í flokki hans. 14 Ellefti
var Benaja frá Píraton af Efraímsniðjum, ellefta mánuðinn; voru tutt-
ugu og fjögur þúsund manns í flokki hans. 15 Tólfti var Heldaí frá
Netófa af ætt Otníels, tólfta mánuðinn; og voru tuttugu og fjögur þús-
und manns í flokki hans.
16 Og þessir voru yfir kynkvíslum Ísraels: Af Rúbensniðjum var
höfðingi Elíeser Síkríson, af Símeonsniðjum Sefatja Maakason, 17 af Leví
Hasabja Kemúelsson, af Aron Zadók, 18 af Júda Elíhú, einn af bræðr-
um Davíðs, af Íssakar Omrí Míkaelsson, 19 af Sebúlon Jismaja Óbadía-
son, af Naftalí Jerímót Asríelsson, 20 af Efraímsniðjum Hósea Asasjason,
af hálfri Manassekynkvísl Jóel Pedajason, 21 af hálfri Manassekynkvísl
í Gíleað Íddó Sakaríason, af Benjamín Jaasíel Abnersson, 22 af Dan
Asareel Jeróhamsson. Þessir voru höfðingjar Ísraelskynkvísla.
23 En Davíð lét ekki telja þá, er yngri voru en tvítugir, því að
Jahve hafði heitið því, að gjöra Ísraelsmenn marga sem stjörnur him-
ins. 24 Hafði Jóab Zerújuson byrjað á að telja, en eigi lokið við, því
að sakir þessa kom reiði yfir Ísrael, og talan var eigi skráð með töl-
unum í árbókum Davíðs konungs.
25 Asmavet Adíelsson hafði umsjón með fjársjóðum konungs og
Jónatan Ússíason með eignunum á mörkinni, í borgunum, þorpunum
og köstulunum. 26 Esrí Kelúbsson hafði umsjón með jarðyrkjumönn-
um, er störfuðu að akuryrkju, 27 Símeí frá Rama yfir víngörðunum, og
Sabdí Sifmíti yfir vínforðanum í víngörðunum, 28 Baal-Hanan frá Geder
yfir olíutrjánum og mórberjatrjánum á láglendinu og Jóas yfir olíuforð-
anum. 29 Yfir nautunum, er gengu á Saron, hafði Sítraí frá Saron
umsjón; yfir nautunum, er gengu í dölunum, Safat Adlaíson, 30 yfir úlf-

**27, 2:** kap. 11, 11 n. 2 Sam. 23, 8 n. **6:** kap. 11, 22 n. 2 Sam. 23, 22 n. **11:** 2 Sam. 21, 18. 1 Kron. 20, 4. **13:** kap. 11, 30. **14:** kap. 11, 31. **23:** 1 Mós. 15, 5. **24:** 2 Sam. 24, 15. 1 Kron. 21, 7.

öldunum Óbíl Ísmaelíti, yfir ösnunum Jehdeja frá Merónót, [31] yfir sauð-
fénaðinum Jasis Hagríti. Allir þessir voru umráðamenn yfir eignum
Davíðs konungs. [32] En Jónatan, föðurbróðir Davíðs, var ráðgjafi; var
hann vitur maður og fróður, Jehíel Hakmóníson var með sonum kon-
ungs, [33] Akítófel var ráðgjafi konungs og Húsaí Arkíti var stallari kon-
ungs. [34] Næstur Akítófel gekk Jójada Benajason og Abjatar. En Jóab
var hershöfðingi konungs.

## Hinztu ráðstafanir Davíðs.

28 Og Davíð stefndi til Jerúsalem öllum höfðingjum Ísraels,
höfðingjum fyrir kynkvíslunum og flokkshöfðingjunum, þeim er
konungi þjónuðu, þúsundhöfðingjunum og hundraðshöfðingjunum og
ráðsmönnum yfir öllum eignum og fénaði konungs og sona hans, og
auk þess hirðmönnunum og köppunum og öllum röskum mönnum.
[2] Þá stóð Davíð konungur upp og mælti: Hlustið á mig, þér bræður
mínir og lýður minn! Eg hafði í hyggju að reisa hvíldarstað fyrir
sáttmálsörk Jahve og fyrir fótskör Guðs vors, og dró að föng til bygg-
ingarinnar. [3] En Guð sagði við mig: Þú skalt eigi reisa hús nafni
mínu, því að þú ert bardagamaður og hefir úthelt blóði. [4] Jahve, Guð
Ísraels, kaus mig af allri ætt minni, að eg skyldi æfinlega vera kon-
ungur yfir Ísrael. Því að Júda hefir hann kjörið til þjóðhöfðingja, og
í ættkvísl Júda ætt mína, og meðal sona föður míns þóknaðist honum
að gjöra mig að konungi yfir öllum Ísrael. [5] Og af öllum sonum mín-
um — því að Jahve hefir gefið mér marga sonu — kaus hann Salómó
son minn, að hann skyldi sitja á konungsstóli Jahve yfir Ísrael. [6] Hann
sagði við mig: Salómó sonur þinn, — hann skal reisa musteri mitt og
forgarða mína, því að hann hefi eg kjörið mér fyrir son, og eg vil
vera honum faðir. [7] Og eg mun staðfesta konungdóm hans að eilífu,
ef hann stöðugt heldur boð mín og fyrirskipanir, eins og nú. [8] Og nú
— að öllum Ísrael ásjáanda, frammi fyrir söfnuði Jahve og í áheyrn
Guðs vors —: varðveitið kostgæfilega öll boðorð Jahve, Guðs yðar, að
þér megið eiga þetta góða land og láta það ganga að erfðum til niðja
yðar um aldur og æfi. [9] Og þú, Salómó sonur minn, lær að þekkja
Guð föður þíns og þjóna honum af öllu hjarta og með fúsu geði, því
að Jahve rannsakar öll hjörtu og þekkir allar hugrenningar. Ef þú
leitar hans, mun hann gefa þér kost á að finna sig, ef þú yfirgefur
hann, mun hann útskúfa þér um aldur. [10] Gæt nú að, því að Jahve
hefir kjörið þig til þess að reisa helgidómshús; gakk öruggur að verki.
[11] Síðan fékk Davíð Salómó syni sínum fyrirmynd að forsalnum og
herbergjum hans, fjárhirzlum, loftherbergjum, innherbergjum og arkar-
herberginu, [12] svo og fyrirmynd að öllu því, er hann hafði í huga: að
forgörðum musteris Jahve og herbergjunum alt í kring, féhirzlum Guðs
húss og fjárhirzlunum fyrir helgigjafirnar, [13] áætlun um flokka prestanna
og Levítanna og öll embættisstörf í musteri Jahve, og um öll þjónustu-
áhöld í musteri Jahve. [14] Af gulli fékk hann honum eftir vog þess,
svo sem á þurfti að halda í öll áhöld við hvers konar embættisstörf,
og af alls konar silfuráhöldum eftir vog, svo sem á alls konar áhöld-
um þurfti að halda við hvers konar embættisstörf, [15] enn fremur efnið
í gullstjakana og gulllampana, er á þeim voru, eftir þyngd hvers stjaka
og lampa hans, og efnið í silfurstjakana eftir þyngd hvers stjaka og
lampa hans, eftir því, sem hver stjaki var ætlaður til, [16] enn fremur
gullið eftir vog í hvert af borðunum fyrir raðsettu brauðin, og silfur í

---

**33:** 2 Sam. 15, 12. 37. — **28, 2:** kap. 22, 7 n. **3:** 2 Sam. 7, 5. **4:** kap. 5, 2. 1 Mós. 49, 10. 1 Sam. 16, 1. **6:** 2 Sam. 7, 13. **9:** 2 Kron. 15, 2. **11:** 2 Mós. 25, 9.

silfurborðin, 17 og soðkrókana og fórnarskálarnar og bollana af skíru
gulli, svo og efnið í hvers konar gullbikara og efnið í hvers konar
silfurbikara eftir vog, 18 enn fremur hreinsað gull í reykelsisaltarið,
eftir vog, og fyrirmynd að vagninum, gullkerúbunum, er breiddu út
vængina og huldu sáttmálsörk Jahve. 19 Alt þetta, kvað Davíð, er skráð
í riti frá hendi Jahve; hann hefir frætt mig um öll störf, er vinna á
eftir fyrirmyndinni.
20 Síðan mælti Davíð við Salómó son sinn: Ver hughraustur og
öruggur og kom þessu til framkvæmdar. Óttast ekki og lát eigi hug-
fallast, því að Jahve Guð, Guð minn, mun vera með þér. Hann mun
eigi sleppa af þér hendinni og eigi yfirgefa þig, unz lokið er öllum
störfum til þjónustugjörðar í musteri Jahve. 21 Hér eru og prestaflokkar
og Levíta til alls konar þjónustu við musteri Guðs, og hjá þér eru
menn til alls konar starfa, verkhygnir menn, fúsir til allra starfa, og
enn fremur hlýða höfðingjarnir og allur lýðurinn öllum skipunum
þínum.
29 Og Davíð konungur mælti til alls safnaðarins: Salómó sonur
minn, hinn eini, er Guð hefir kjörið, er ungur og óreyndur, en
starfið er mikið, því að eigi er musteri þetta manni ætlað, heldur Jahve
Guði. 2 Eg hefi af öllum mætti dregið að fyrir musteri Guðs míns,
gull í gulláhöldin, silfur í silfuráhöldin, eir í eiráhöldin, járn í járn-
áhöldin og tré í tré-áhöldin, sjóamsteina og steina til að greipa inn, gljá-
steina og mislita steina, alls konar dýra steina og afarmikið af ala-
bastursteinum. 3 Enn fremur vil eg, sakir þess að eg hefi mætur á
musteri Guðs míns, gefa það, er eg á af gulli og silfri, til musteris
Guðs míns, auk alls þess, er eg hefi dregið að fyrir helgidóminn: 4 þrjú
þúsund talentur af gulli og það af Ófírgulli, sjö þúsund talentur af
skíru silfri, til þess að klæða með veggina í herbergjunum, 5 og til þess
að útvega gull í gulláhöldin og silfur í silfuráhöldin, og til alls konar
listasmíða. Hver er nú fús til þess að færa Jahve ríflega fórnargjöf í dag?
6 Þá kváðust ætthöfðingjarnir, höfðingjar kynkvísla Ísraels, þús-
undhöfðingjarnir og hundraðshöfðingjarnir og ráðsmennirnir yfir störf-
um í konungsþjónustu vera fúsir til þess, 7 og þeir gáfu til Guðs húss
fimm þúsund talentur gulls, tíu þúsund Daríus-dali, tíu þúsund talentur
silfurs, átján þúsund talentur eirs og hundrað þúsund talentur járns.
8 Og hver sá, er átti gimsteina, gaf þá í féhirzlu húss Jahve, er Jehíel
Gersoníti hafði umsjón yfir. 9 Þá gladdist lýðurinn yfir örlæti þeirra,
því að þeir höfðu af heilum hug fært Jahve sjálfvilja-gjafir, og Davíð
konungur gladdist einnig stórum.
10 Þá lofaði Davíð Jahve, að öllum söfnuðinum ásjáanda, og Davíð
mælti: Lofaður sért þú, Jahve, Guð Ísraels, forföður vors, frá eilífð til
eilífðar. 11 Þín, Jahve, er tignin, mátturinn og dýrðin, vegsemdin og
hátignin, því að alt er þitt, á himni og jörðu. Þinn er konungdómur-
inn, Jahve, og sá, er gnæfir yfir alla sem höfðingi. 12 Auðlegðin og
heiðurinn koma frá þér, þú drotnar yfir öllu; máttur og megin er í
hendi þinni, og á þínu valdi er það, að gjöra hvern sem vera skal
mikinn og mátkan. 13 Og nú, Guð vor, vér lofum þig og tignum þitt
dýrlega nafn. 14 Því að hvað er eg, og hvað er lýður minn, að vér
skulum vera færir um að gefa svo mikið sjálfviljuglega? Nei, frá þér
er alt, og af þínu höfum vér fært þér gjöf. 15 Því að vér erum að-
komandi og útlendingar fyrir þér, eins og allir feður vorir; sem skuggi
eru dagar vorir á jörðunni og engin er vonin. 16 Jahve, Guð vor, öll
þessi auðæfi, er vér höfum dregið að, til þess að reisa þér — þínu

**20:** kap. 22, 13. — **29, 1:** kap. 22, 5. **8:** 1 Kron. 26, 21. **11:** Opinb. 4, 11; 5, 12.
**12:** 2 Kron. 20, 6. **15:** 3 Mós. 25, 23. Job 14, 2. Sálm. 144, 4.

heilaga nafni — hús, frá þér eru þau og alt er það þitt. [17] Og eg veit,
Guð minn, að þú rannsakar hjartað og hefir þóknun á hreinskilni. Eg
hefi með hreinum hug og sjálfviljuglega gefið alt þetta, og eg hefi með
gleði horft á, hversu lýður þinn, sem hér er, færir þér sjálfvilja-gjafir.
[18] Jahve, Guð feðra vorra, Abrahams, Ísaks og Jakobs, varðveit þú
slíkar hugrenningar í hjarta lýðs þíns að eilífu, og bein hjörtum þeirra
til þín. [19] En gef þú Salómó syni mínum einlægt hjarta, að hann megi
varðveita boðorð þín, vitnisburði og fyrirskipanir, og að hann megi
gjöra alt þetta og reisa musterið, er eg hefi dregið að föng til.
[20] Síðan mælti Davíð til alls safnaðarins: Lofið Jahve, Guð yðar!
Lofaði þá allur söfnuðurinn Jahve, Guð feðra sinna, hneigðu sig og
lutu Jahve og konungi. [21] Og næsta morgun færðu þeir Jahve sláturfórn
og færðu Jahve í brennifórn: þúsund naut, þúsund hrúta og þúsund
lömb, og drykkjarfórnir, er við áttu, svo og sláturfórnir í ríkum
mæli fyrir allan Ísrael. [22] Átu þeir svo og drukku frammi fyrir Jahve
þann dag, í miklum fagnaði, og tóku Salómó, son Davíðs, öðru sinni
til konungs og smurðu hann þjóðhöfðingja Jahve til handa, en
Zadók til prests. [23] Sat Salómó þannig sem konungur Jahve í hásæti
í stað Davíðs föður síns og var auðnumaður, og allir Ísraelsmenn
hlýddu honum. [24] Og allir höfðingjarnir og kapparnir, svo og allir
synir Davíðs konungs, hyltu Salómó konung. [25] Og Jahve gjörði
Salómó mjög vegsamlegan í augum allra Ísraelsmanna og veitti honum
tignarmikinn konungdóm, svo að enginn konungur í Ísrael hafði slíkan
haft á undan honum.

### Andlát Davíðs. Heimildir fyrir sögu hans.

[26] Davíð Ísaíson ríkti yfir öllum Ísrael. [27] En sá tími, er hann
ríkti yfir Ísrael, var fjörutíu ár. Í Hebron ríkti hann sjö ár, en í
Jerúsalem ríkti hann þrjátíu og þrjú. [28] Dó hann í góðri elli, saddur
lífdaga, auðæfa og sæmdar, og tók Salómó sonur hans ríki eftir hann.
[29] En saga Davíðs konungs frá upphafi til enda er skráð í sögu
Samúels sjáanda, svo og í sögu Natans spámanns og í sögu Gaðs sjáanda.
[30] Þar er og sagt frá öllum konungdómi hans og hreystiverkum,
svo og atburðum þeim, er fyrir hann komu og fyrir Ísrael og öll ríki
landanna.

---

# Síðari kronikubók.

---

### Frá Salómó.

1 Salómó sonur Davíðs festist í konungdómi og Jahve, Guð hans,
var með honum og gjörði hann mjög vegsamlegan. [2] Og Salómó
lét boð fara um allan Ísrael, til þúsundhöfðingjanna og hundraðshöfðingjanna,
dómaranna og allra höfðingjanna í öllum Ísrael, ætthöfðingjanna,
[3] og fór Salómó síðan og allur söfnuðurinn með honum til hæð-

---

22: kap. 23, 1. 1 Kong. 1, 33 n. 23: kap. 28, 5. 25: 2 Kron. 1, 1. 27: 1 Kong. 2, 11. — 1, 1: 1 Kong. 2, 46. 1 Kron. 29, 25.

arinnar í Gíbeon, því að þar var samfundatjald Guðs, það er Móse,
þjónn Jahve, hafði gjöra látið á eyðimörkinni. [4] Örk Guðs hafði Davíð
þar á móti flutt frá Kirjat-Jearím, þangað er Davíð hafði búið henni
stað, því að hann hafði reist tjald fyrir hana í Jerúsalem. [5] Eiraltarið,
er Bezaleel Úríson, Húrssonar, hafði gjört, var og þar, frammi fyrir
bústað Jahve, og Salómó og söfnuðurinn leituðu hans þar. [6] Og Salómó
færði Jahve fórnir þar á eiraltarinu, er heyrði til samfundatjaldinu, og
færði hann honum þar þúsund brennifórnir.
[7] Þá nótt vitraðist Guð Salómó og sagði við hann: Bið þú þess,
er þú vilt að eg veiti þér. [8] Og Salómó svaraði Guði: Þú auðsýndir
Davíð föður mínum mikla miskunn, og þú hefir gjört mig að konungi
eftir hann. [9] Lát þá, Jahve Guð, fyrirheit þitt til Davíðs föður míns
standa stöðugt. Því að þú hefir gjört mig að konungi yfir lýð, sem
er margur eins og duft jarðar. [10] Gef mér þá vizku og þekkingu, að
eg megi ganga út og inn frammi fyrir lýð þessum, því að hver getur
annars stjórnað þessum fjölmenna lýð þínum? [11] Þá mælti Guð við
Salómó: Sakir þess, að þetta bjó þér í hjarta, og þú eigi baðst um
auðlegð, fé og sæmd, eða um líf þeirra, er hata þig, og baðst eigi
heldur um langlífi, heldur baðst þér vizku og þekkingar, að þú gætir
stjórnað lýð mínum, er eg hefi gjört þig að konungi yfir, [12] þá er vizka
og þekking veitt þér, og auðlegð, fé og sæmd vil eg veita þér, meiri
en haft hefir nokkur konungur á undan þér og meiri en nokkur mun
hafa eftir þig.

### Her Salómós og auðæfi.

[13] Síðan hélt Salómó burt frá hæðinni í Gíbeon, frá staðnum fyrir
framan samfundatjaldið, til Jerúsalem, og ríkti yfir Ísrael. [14] Og Salómó
safnaði vögnum og riddurum, og hafði hann fjórtán hundruð vagna og
tólf þúsund riddara; lét hann þá vera í vagnliðsborgunum og með
konungi í Jerúsalem. [15] Og konungur gjörði silfur og gull eins algengt
í Jerúsalem og grjót, og sedrusvið eins og mórberjatrén, sem vaxa á lág-
lendinu. [16] Hesta sína fékk Salómó frá Egiptalandi og sóttu kaupmenn
konungs þá í hópum og guldu fé fyrir, [17] svo að hver vagn, er þeir
fengu og komu með frá Egiptalandi, kostaði sex hundruð sikla silfurs,
en hver hestur hundrað og fimtíu. Og á þennan hátt voru og hestar
fluttir út fyrir milligöngu þeirra til allra konunga Hetíta og konunga
Sýrlendinga.

### Musterið bygt.

2 Og Salómó bauð að reisa skyldi musteri nafni Jahve og kon-
ungshöll handa sjálfum sér. [2] Og Salómó taldi frá sjötíu þúsund
burðarmenn og áttatíu þúsund steinhöggvara á fjöllunum, og setti þrjú
þúsund og sex hundruð umsjónarmenn yfir þá. [3] Og Salómó gjörði
Húram, konungi í Týrus, svolátandi orðsending: Eins og þú breyttir
við Davíð föður minn, er þú sendir honum sedrustré, svo að hann
gæti bygt sér höll til bústaðar, [4] svo ætla eg nú að reisa musteri nafni
Jahve, Guðs míns, er eg ætla að helga honum, til þess að færa ilm-
reykelsisfórnir frammi fyrir honum, til þess stöðugt að annast um rað-
settu brauðin, til þess að færa brennifórn kvelds og morgna, á hvíldar-
dögum, tunglkomudögum og löghátíðum Jahve, Guðs vors — skal svo

---

**3:** 1 Kron. 21, 29. 1 Kong. 3, 4. 2 Mós. 26, 1 n. 40, 2. **4:** 1 Kron. 13, 6. **5:** 2 Mós. 38, 1. **7:** 1 Kong. 3, 5 n. **9:** 1 Mós. 13, 16. **11:** 1 Kong. 3, 11. **14:** 1 Kong. 10, 26 n. **15:** kap. 9, 27. — **2, 2:** 1 Kong. 5, 15. **3:** 1 Kong. 5, 2. 1 Kron. 14, 1.

vera um aldur og æfi í Ísrael. 5 Og musterið, er eg ætla að reisa, á
að verða mikið, því að vor Guð er meiri en allir guðir. 6 En hver
myndi vera fær um að reisa honum hús? Því að himininn og himn-
anna himnar taka hann ekki, og hver er eg, að eg reisi honum hús —
nema ef vera skyldi til þess að brenna reykelsi frammi fyrir honum.
7 Send þú mér nú mann, sem er hagur á gull, silfur, eir og járn, kann
að vinna úr rauðum purpura, skarlati og bláum purpura, og kann að
útskurði, ásamt þeim hagleiksmönnum, er með mér eru í Júda og
Jerúsalem og Davíð faðir minn hefir til fengið. 8 Send þú mér og sed-
rusvið, kýpresvið og sandelvið frá Líbanon, því að eg veit, að menn
þínir kunna að því að höggva tré á Líbanon, og skulu mínir menn
vera með þínum mönnum. 9 Og eg þarf á afarmiklum viði að halda,
því að musterið, er eg ætla að reisa, á að verða mikið og undursamlegt.
10 En viðarhöggsmönnunum frá þér, þeim er trén höggva, gef eg til
matar tuttugu þúsund kór af hveiti og tuttugu þúsund kór af byggi,
tuttugu þúsund bat af víni og tuttugu þúsund bat af olíu.
11 En Húram, konungur í Týrus, svaraði bréflega og sendi til Sal-
ómós: Af því að Jahve elskar lýð sinn, hefir hann gjört þig að konungi
yfir þeim. 12 Og Húram mælti: Lofaður sé Jahve, Guð Ísraels, er gjört
hefir himin og jörð, að hann hefir gefið Davíð konungi vitran son, sem
hefir til að bera skyn og hyggindi til þess að reisa Jahve musteri og
sjálfum sér konungshöll. 13 Og nú sendi eg mann, vitran og velkunn-
andi, Húram-Abí, 14 son konu af Dans ætt, en faðir hans er týrverskur
maður. Hann kann að smíða úr gulli, silfri, eiri og járni, steini og
tré og að vinna úr rauðum og bláum purpura, baðmull og skarlati,
kann að hvers konar útskurði, og getur gjört hverja þá smíð, er hon-
um verður falin, ásamt hagleiksmönnum þínum og hagleiksmönnum
Davíðs föður þíns, herra míns. 15 Sendi þá herra minn þjónum sínum
hveitið, byggið, olíuna og vínið, sem hann hefir um mælt. 16 En vér
skulum höggva tré á Líbanon, eins mikið og þú þarft, og færa þér þau
í flotum sjóveg til Jafó, og mátt þú þá flytja þau upp til Jerúsalem.
17 Og Salómó taldi alla útlenda menn, er voru í Ísraelslandi, eftir
tali því á þeim, er Davíð faðir hans hafði gjöra látið, og reyndust þeir
að vera hundrað fimtíu og þrjú þúsund og sex hundruð. 18 Af þeim
gjörði hann sjötíu þúsund að burðarmönnum, áttatíu þúsund að stein-
höggvurum í fjöllunum og þrjú þúsund og sex hundruð að umsjónar-
mönnum, til þess að halda fólkinu til vinnu.
3 Og Salómó byrjaði á að byggja musteri Jahve í Jerúsalem á
Móría-fjalli, þar sem Jahve hafði birzt Davíð föður hans, á stað
þeim, er Davíð hafði búið á þreskivelli Ornans Jebúsíta. 2 Og hann
byrjaði að byggja á öðrum degi í öðrum mánuði á fjórða ríkisári sínu.
3 Og þessi var grundvöllurinn, er Salómó lagði að musterisbyggingu
Guðs: Lengdin var sextíu álnir að fornu máli, og breiddin tuttugu
álnir. 4 Og forsalurinn fyrir framan musterishúsið var tíu álnir á breidd,
en tuttugu álnir á lengd fram með musterisendanum, og hundrað og
tuttugu álnir á hæð, og hann lagði hann innan skíru gulli. 5 En stærra
húsið* þiljaði hann með kýpresborðum og lagði það fínu gulli og setti
þar á pálma og festar. 6 Enn fremur bjó hann húsið dýrindis-steinum
til prýði, en gullið var Parvaímgull. 7 Og hann lagði húsið, bjálkana,
þröskulduna, svo og veggi þess og hurðir gulli, og lét skera kerúba út
á veggjunum.
8 Hann gjörði og hið allrahelgasta; var það tuttugu álnir á lengd,

**5:** Sálm. 86, 8. 1 Kron. 16, 25. **6:** 2 Kron. 6, 18. 1 Kong. 8, 27. **10:** 1 Kong. 5, 11. **11:** 1 Kong. 10, 9. **13:** 1 Kong. 7, 13 n. **17:** 1 Kron. 22, 2. **18:** v. 2. — **3, 1:** 1 Kong. 6, 1 n. 1 Kron. 21, 18 n. **5:** * Þ. e. helgidóminn.

eins og musterið var á breiddina, og tuttugu álnir á breidd, og bjó
það fínu gulli, sexhundruð talentum. 9 Og naglarnir vógu fimtíu sikla
gulls, og loftherbergin lagði hann og gulli.
10 En í hinu allrahelgasta gjörði hann tvo kerúba, haglega skorna
og lagði þá gulli. 11 Vængir kerúbanna voru báðir saman tíu álna
langir. Annar vængur annars kerúbsins, fimm álna langur, nam hús-
vegginn, en hinn vængurinn, er og var fimm álnir á lengd, nam við
væng hins kerúbsins. 12 Annar fimm álna langur vængur hins kerúbs-
ins nam og húsvegginn, en hinn vængurinn, er og var fimm álnir á
lengd, snart væng hins kerúbsins; 13 voru vængir kerúba þessara tutt-
ugu álnir, útbreiddir. Stóðu þeir á fótum sér og sneru andlit þeirra
að húsinu*.
14 Og hann gjörði fortjaldið af bláum og rauðum purpura, skarlati
og baðmull og gjörði kerúba á því. 15 Hann gjörði og tvær súlur, þrjá-
tíu og fimm álna háar, fyrir framan húsið, en hnúðurinn, er efst var á
hvorri, var fimm álnir. 16 Hann gjörði og festar og lét þær á súlna-
höfuðin, þá gjörði hann hundrað granatepli og setti á festarnar. 17 Og
hann reisti súlurnar fyrir framan aðalhúsið, aðra til hægri og hina til
vinstri; nefndi hann hægri súluna Jakín, en hina vinstri Bóas.
4 Þá gjörði hann altari af eiri, tuttugu álna langt, tuttugu álna breitt
og tíu álna hátt. 2 Hann gjörði og hafið og var það steypt af eiri,
það var tíu álnir af barmi og á, kringlótt og fimm álnir á dýpt, og
þrjátíu álna snúra lá um það. 3 En neðan við það voru nautalíkneski
alt í kring — var hvert þeirra tíu álnir —, er mynduðu hring um hafið,
tvær raðir af nautum, og voru þau samsteypt hafinu. 4 Það stóð á
tólf nautum, sneru þrjú í norður, þrjú í vestur, þrjú í suður, þrjú í
austur; hvíldi hafið á þeim og sneru allir bakhlutir þeirra inn. 5 Það
var þverhandarþykt og barmur þess í laginu sem barmur á bikar, líkt
og liljublóm. Það rúmaði og tók þrjú þúsund bat. 6 Þá gjörði hann
tíu ker; setti hann fimm hægramegin og fimm vinstramegin til þvott-
ar; skyldi skola í þeim, það er til brennifórnar skyldi hafa, en hafið
var til þvottar fyrir prestana.
7 Hann gjörði og gullljósastikurnar tíu, eftir ákvæðunum um þær,
og setti í aðalhúsið, fimm hægramegin og fimm vinstramegin. 8 Þá
gjörði hann tíu borð og setti í aðalhúsið, fimm hægramegin og fimm
vinstramegin, svo gjörði hann og hundrað fórnarskálar úr gulli.
9 Hann gjörði og prestaforgarðinn og forgarðinn mikla og dyr á
forgarðinn, og vængjahurðirnar í þeim lagði hann eiri, 10 en hafið setti
hann hægramegin, í austur, gegnt suðri.
11 Og Húram gjörði katlana, eldspaðana og fórnarskálarnar, og
lauk svo Húram við að vinna að starfi því, er hann leysti af hendi
fyrir Salómó konung í musteri Guðs: 12 tvær súlur og tvær kúlur á
súlnahöfðunum og bæði riðnu netin, er hylja áttu báðar kúlurnar á
súlnahöfðunum, 13 og fjögur hundruð granateplin á bæði netin, tvær
raðir af granateplum á hvort net, er hylja áttu báðar kúlurnar á súlna-
höfðunum, 14 enn fremur undirstöðupallana tíu og kerin tíu á undir-
stöðupöllunum, 15 og hafið og tólf nautin undir hafinu, 16 og katlana,
eldspaðana, soðkrókana og öll tilheyrandi áhöld gjörði Húram-Abí fyrir
Salómó konung til musteris Jahve, úr skygðum eiri. 17 Lét konungur
steypa þau á Jórdan-sléttlendinu í leirmótum, milli Súkkót og Zereda.
18 Og Salómó lét gjöra afarmikið af öllum þessum áhöldum, þyngd
eirsins var eigi rannsökuð. 19 Og Salómó lét gjöra öll þau áhöld, sem

---

**10:** 1 Kong. 6, 23. **13:** * Þ. e. hinu heilaga. **15:** 1 Kong. 7, 15. **17:** 1 Kong. 7, 21. —
**4, 1:** kap. 7, 7. **2:** 1 Kong. 7, 23 n. **6:** 1 Kong. 7, 38. **7:** 1 Kong. 7, 49. 2 Mós.
25, 31. **10:** 1 Kong. 7, 39. **12:** 1 Kong. 7, 41 n. **16:** kap. 2, 13. **17:** 1 Kong. 7, 46 n.

voru í húsi Jahve: gullaltarið, borðin undir skoðunarbrauðin, [20] ljósa-
stikurnar og lampa þeirra, að á þeim skyldi kveikt verða fyrir framan
innhúsið, eins og lög stóðu til — af skíru gulli, [21] og blómin, lampana
og ljósasöxin af gulli — og það af bezta gulli — [22] og skarbítana, fórn-
arskálarnar, bollana, eldpönnurnar af skíru gulli. Og að því er snertir
dyr musterisins, þá voru innri vængjahurðir þeirra, þær er lágu inn í
hið allrahelgasta, og vængjahurðir musterisins, þær er lágu inn í aðal-
húsið, af gulli.
5 Og er öllu því verki var lokið, er Salómó lét gjöra að musteri
Jahve, þá flutti Salómó helgigjafir Davíðs föður síns inn í það,
silfrið og gullið, en öll áhöldin lét hann í féhirzlur Jahve húss.

### Musterisvígslan.

[2] Þá safnaði Salómó saman öldungum Ísraels og öllum foringjum
kynþáttanna, ætthöfðingjum Ísraelsmanna til Jerúsalem, til þess að
flytja sáttmálsörk Jahve upp eftir frá Davíðsborg, það er Zíon. [3] Þá
söfnuðust allir Ísraelsmenn til konungs í etaním-mánuði á hátíðinni;
er sá mánuður hinn sjöundi. [4] Þá komu allir öldungar Ísraels, og
Levítarnir tóku örkina, [5] og þeir fluttu örkina og samfundatjaldið og öll
hin helgu áhöld, er í tjaldinu voru; fluttu Levíta-prestarnir þau upp
eftir. [6] En Salómó konungur og allur Ísraelssöfnuður, er safnast hafði
til hans, stóð frammi fyrir örkinni; fórnuðu þeir sauðum og nautum,
er eigi varð tölu né ætlan á komið fyrir fjölda sakir. [7] Og prestarnir
fluttu sáttmálsörk Jahve á sinn stað, í innhús musterisins, inn í hið
allrahelgasta, inn undir vængi kerúbanna. [8] Og kerúbarnir breiddu út
vængina þar yfir, er örkin stóð, og þannig huldu kerúbarnir örkina og
stengur hennar ofan frá. [9] Og stengurnar voru svo langar, að stangar-
endarnir sáust frá helgidóminum fyrir framan innhúsið, en utan að
sáust þeir ekki, og þær hafa verið þar fram á þennan dag. [10] Í örk-
inni var ekkert nema töflurnar tvær, er Móse lét þar við Hóreb, töfl-
ur sáttmálans, er Jahve gjörði við Ísraelsmenn, þá er þeir fóru af
Egiptalandi.
[11] En er prestarnir gengu út úr helgidóminum — því að allir prest-
arnir, er viðstaddir voru, höfðu helgað sig, flokkaskiftingar var eigi gætt,
[12] og allir Levíta-söngmenn, Asaf, Heman og Jedútún og synir þeirra og
bræður, stóðu þar, klæddir baðmullarskikkjum, með skálabumbur,
hörpur og gígjur, að austanverðu við altarið, og hjá þeim hundrað og
tuttugu prestar, er þeyttu lúðra; [13] en lúðramenn og söngmenn áttu að
byrja í senn og einraddað að lofa og vegsama Jahve, — og er menn létu
lúðra og skálabumbur kveða við og hin önnur hljóðfæri, og þakkar-
gjörð til Jahve, »því að hann er góður, því að miskunn hans varir að
eilífu«, þá fylti ský musterið, musteri Jahve, [14] og máttu prestarnir
eigi inn ganga fyrir skýinu, til þess að gegna þjónustu, því að dýrð
6 Jahve fylti hús Guðs. [1] Þá mælti Salómó:

Jahve hefir sagt, að hann vilji búa í dimmu.
[2] Nú hefi eg bygt hús þér til bústaðar
og aðseturstað handa þér um eilífð.

[3] Þá sneri konungur sér við og blessaði allan Ísraelssöfnuð, en allur
Ísraelssöfnuður stóð. [4] Og hann mælti: Lofaður sé Jahve, Ísraels Guð,
er talaði með munni sínum við Davíð föður minn og efndi með hendi

---

**5, 1:** 1 Kong. 7, 51. **2:** 1 Kong. 8, 1 n. **11:** 1 Kron. 24, 1 n. **13:** kap. 7, 3. **14:** 2 Mós. 40, 34. 2 Kron. 7, 2. Esek. 10, 3. 4; 43, 5. — **6, 1:** 1 Kong. 8, 12 n. 2 Mós. 20, 21.

sinni það, er hann lofaði, þá er hann sagði: 5 Frá því er eg leiddi lýð
minn út af Egiptalandi, hefi eg ekki útvalið neina borg af öllum ætt-
kvíslum Ísraels til þess að byggja þar hús, þar sem nafn mitt skyldi
búa, hefi og eigi útvalið neinn mann til þess að vera höfðingi yfir lýð
mínum Ísrael. 6 En nú hefi eg útvalið Jerúsalem til þess að nafn mitt
búi þar, og eg útvaldi Davíð til þess að hann skyldi ríkja yfir lýð mín-
um Ísrael. 7 Og Davíð faðir minn hafði í hyggju að reisa hús nafni
Jahve, Ísraels Guðs, 8 en Jahve sagði við Davíð föður minn: Vel gjörðir
þú, er þú ásettir þér að reisa hús nafni mínu. 9 En eigi skalt þú reisa
húsið, heldur skal sonur þinn, sá er út gengur af lendum þínum, reisa
hús nafni mínu. 10 Og Jahve hefir efnt orð sín, þau er hann talaði,
því að eg kom í stað Davíðs föður míns og settist í hásæti Ísraels,
svo sem Jahve hafði heitið, og hefi nú reist hús nafni Jahve, Ísraels
Guðs. 11 Og þar setti eg örkina, sem í er sáttmál Jahve, það er hann
gjörði við Ísraelsmenn.

12 Síðan gekk hann fyrir altari Jahve í viðurvist alls Ísraelssafn-
aðar, fórnaði höndum — 13 því að Salómó hafði gjöra látið stalla af
eiri og sett í miðjan forgarðinn; var hann fimm álnir á lengd, fimm
álnir á breidd og þrjár álnir á hæð; sté hann upp á hann, féll á kné
í viðurvist alls Ísraelssafnaðar og fórnaði höndum til himins — 14 og
mælti: Jahve, Guð Ísraels, enginn guð er sem þú á himni eða jörðu,
þú sem heldur sáttmálann og miskunnsemina við þjóna þína, þá er
ganga fyrir augliti þínu af öllu hjarta sínu; 15 þú sem hefir haldið það
við þjón þinn, Davíð föður minn, er þú hézt honum; þú talaðir það
með munni þínum og efndir það með hendi þinni, eins og nú er fram
komið. 16 Efn nú, Jahve, Ísraels Guð, við þjón þinn, Davíð föður
minn, það er þú hézt honum, þá er þú sagðir: Eigi skal þig vanta
eftirmann frammi fyrir mér, er sitji í hásæti Ísraels, ef synir þínir að-
eins varðveita vegu sína með því að ganga eftir lögmáli mínu, eins og
þú hefir gengið fyrir augliti mínu. 17 Og lát nú, Jahve, Ísraels Guð,
rætast orð þín, þau er þú talaðir við Davíð þjón þinn.

18 En mun Guð í sannleika búa með mönnum á jörðu? Sjá, him-
ininn og himnanna himnar taka þig ekki, hve miklu síður þá þetta
hús, sem eg hefi reist. 19 En snú þér, Jahve, Guð minn, að bæn þjóns
þíns og grátbeiðni hans, að þú heyrir ákall það og bæn, er þjónn þinn
ber fram fyrir þig: 20 að augu þín séu opin fyrir þessu húsi dag og
nótt, yfir þeim stað, er þú hefir um sagt, að þar skulir þú láta nafn
þitt búa, — að þú heyrir bæn þá, er þjónn þinn biður á þessum stað.
21 Og heyr þú grátbeiðni þjóns þíns og lýðs þíns Ísraels, er þeir bera
fram á þessum stað, já, heyr þú hana frá aðseturstað þínum, frá
himnum, og fyrirgef, er þú heyrir. 22 Ef einhver gjörir á hluta náunga
síns, og hann verður eiðs krafinn og látinn sverja, og hann kemur og
vinnur eiðinn fyrir altari þínu í húsi þessu, 23 þá heyr þú það frá himn-
um, tak í taumana og dæm þjóna þína, með því að sakfella hinn seka
og láta honum gjörðir hans í koll koma, en sýkna hinn saklausa og
umbuna honum eftir réttlæti hans.

24 Og ef lýður þinn Ísrael bíður ósigur fyrir óvinum sínum, af því
að þeir hafa syndgað á móti þér, og þeir snúa sér og játa þitt nafn
og biðja og grátbæna þig í þessu húsi, 25 þá heyr þú það frá himnum
og fyrirgef synd lýðs þíns Ísraels, og leið þá aftur heim til þess lands,
er þú gafst þeim og feðrum þeirra. 26 Ef himininn er byrgður, svo að
eigi nær að rigna, af því að þeir hafa syndgað í móti þér, og þeir
biðja á þessum stað og játa nafn þitt og snúa sér frá syndum sínum,
af því að þú auðmýkir þá, 27 þá heyr þú það á himnum og fyrirgef

---

7: 2 Sam. 7, 2 n. 1 Kron. 28, 2 n. 16: 1 Kong. 2, 4. 18: kap. 2, 6.

synd þjóna þinna og lýðs þíns Ísraels, er þú kennir þeim þann góða
veg, sem þeir eiga að ganga, og gef regn yfir land þitt, það er þú hefir
gefið þínum lýð til eignar. 28 Ef hallæri verður í landinu, ef drepsótt
kemur eða korndrep eða gulnan, engisprettur eða jarðvargar, ef óvinir
hans þrengja að honum í einhverri af borgum hans, eða einhver plága
eða sótt, — 29 ef þá einhver maður af öllum lýð þínum Ísrael ber fram
einhverja bæn eða grátbeiðni, af því að hann finnur til angurs og sárs-
auka og fórnar höndum til þessa húss, 30 þá heyr þú það frá himnum,
aðseturstað þínum og fyrirgef og gef sérhverjum eins og hann hefir
til unnið og svo sem þú þekkir hjarta hans — því að þú einn þekkir
hjörtu manna —, 31 til þess að þeir óttist þig og gangi á vegum þínum
alla þá stund, er þeir lifa í landinu, er þú gafst feðrum vorum. 32 Ef
útlendingur, sem eigi er af lýð þínum Ísrael, en kemur úr fjarlægu
landi sakir þíns mikla nafns, þinnar sterku handar og þíns útrétta
armleggs, — ef þeir koma hingað og biðja frammi fyrir þessu húsi,
33 þá heyr þú það frá himnum, aðseturstað þínum, og gjör alt það,
sem útlendingurinn biður þig um, til þess að öllum þjóðum jarðarinnar
verði kunnugt nafn þitt og þær óttist þig eins og lýður þinn Ísrael, og
til þess að þær megi vita, að hús þetta, sem eg hefi bygt, er kent við þig.
34 Ef lýður þinn fer í ófrið í móti óvinum sínum, þangað sem þú
sendir þá, og þeir biðja til þín og snúa sér i áttina til borgar þessarar,
sem þú hefir útvalið, og hússins, sem eg hefi reist þínu nafni, 35 þá heyr
þú frá himnum bæn þeirra og grátbeiðni og rétt þú hlut þeirra. 36 Ef
þeir syndga í gegn þér — því að enginn er sá er eigi syndgi —, og þú
reiðist þeim og gefur þá á vald óvinum þeirra, og sigurvegarar þeirra
flytja þá hernumda til lands, langt eða skamt í burtu, 37 og þeir taka
sinnaskifti í landinu, þar sem þeir eru hernumdir, og þeir snúa sér og
grátbæna þig í útlegðarlandi sínu og segja: Vér höfum syndgað, vér
höfum misgjört og vér höfum breytt óguðlega, 38 og þeir snúa sér til
þín af öllu hjarta sínu og allri sálu sinni í útlegðarlandi sínu, þangað
sem þeir hafa flutt þá hernumda, og þeir biðjast fyrir og snúa sér í
áttina til lands síns, þess er þú gafst feðrum þeirra, til borgarinnar,
sem þú hefir útvalið og til hússins, sem eg hefi reist þínu nafni, 39 þá
heyr þú frá himnum, aðseturstað þínum, bæn þeirra og grátbeiðni, rétt
þú hlut þeirra og fyrirgef lýð þínum það sem þeir misgjörðu í móti
þér. 40 Svo veri þá, Guð minn, augu þín opin og eyru þín gaumgæfin
á bæn þá, er fram er borin á þessum stað. 41 Tak þig þá upp, Jahve
Guð, og far á hvíldarstað þinn, þú og örk máttar þíns. Prestar þínir,
Jahve Guð, séu klæddir hjálpræði, og þínir guðhræddu gleðjist yfir gæf-
unni. 42 Jahve Guð, vísa þínum smurða eigi frá, minst þú náðarveit-
inganna við Davíð þjón þinn.

7 En er Salómó hafði lokið bæn sinni, kom eldur af himni og
eyddi brennifórninni og sláturfórninni, og dýrð Jahve fylti húsið.
2 Og prestarnir máttu eigi inn ganga í musteri Jahve, því að dýrð Jahve
fylti hús Jahve. 3 Og er allir Ísraelsmenn sáu að eldinum laust niður,
og að dýrð Jahve steig niður yfir húsið, þá beygðu þeir ásjónur sínar
til jarðar, niður á steingólfið, lutu og lofuðu Jahve, því að hann er
góður, því að miskunn hans varir að eilífu. 4 En konungur og allur
lýðurinn fórnaði sláturfórnum frammi fyrir Jahve. 5 Og Salómó kon-
ungur fórnaði tuttugu og tvö þúsund nautum og hundrað og tuttugu
þúsund sauðum í heillafórn. Þannig vígði konungur og allur lýðurinn
musteri Guðs.
6 En prestarnir stóðu á sínum stað og sömuleiðis Levítarnir með

28: kap. 20, 9. 36: Préd. 7, 20. 41: Sálm. 132, 8. 9. — 7, 1: 3 Mós. 9, 24. 1 Kong. 18, 38. 4: 1 Kong. 8, 62 n.

hljóðfæri Jahve, þau er Davíð konungur hafði gjöra látið til þess að
þakka Jahve, því að miskunn hans varir að eilífu, og þeir léku lof-
söng Davíðs, en andspænis þeim þeyttu prestarnir lúðra, en allur Ísrael
stóð. [7] Og Salómó vígði miðhluta forgarðsins, er liggur frammi fyrir
musteri Jahve, því að þar fórnaði hann brennifórnum og hinum feitu
stykkjum heillafórnanna. Því að eiraltarið, það er Salómó hafði gjöra
látið, gat eigi tekið brennifórnirnar og matfórnirnar og feitu stykkin.
[8] Þannig hélt Salómó þá hátíðina í sjö daga og allur Ísrael með hon-
um, — afarmikill söfnuður, þaðan frá, er leið liggur til Hamat, alt til
Egiptalandsár. [9] Og áttunda daginn héldu þeir hátíðasamkomu, því
að sjö daga voru þeir að vígja altarið og hátíðina héldu þeir í sjö daga.
[10] En á tuttugasta og þriðja degi hins sjöunda mánaðar lét hann lýðinn
fara heim til sín, glaðan og í góðu skapi yfir þeim gæðum, sem Jahve
hafði veitt Davíð og Salómó og lýð sínum Ísrael.

### Jahve vitrast Salómó annað sinn.

[11] Þá er Salómó hafði lokið að byggja musteri Jahve og konungs-
höllina og hafði fengið farsællega framgengt öllu því, er honum bjó í
huga að gjöra í húsi Jahve og í höll sinni, [12] þá vitraðist Jahve Sal-
ómó á náttarþeli og sagði við hann: Eg hefi heyrt bæn þína og útvalið
mér þennan stað að fórnahúsi. [13] Þegar eg byrgi himininn, svo að
eigi nær að rigna, og þegar eg býð engisprettum að rótnaga landið, og
þegar eg læt drepsótt koma meðal lýðs míns, [14] og lýður minn, sá er
við mig er kendur, auðmýkir sig, og þeir biðja og leita auglitis míns
og snúa sér frá sínum vondu vegum, þá vil eg heyra þá frá himnum,
fyrirgefa þeim syndir þeirra og græða upp land þeirra. [15] Skulu augu
mín vera opin og eyru mín gaumgæfin gagnvart bæn þeirri, er fram
er borin á þessum stað. [16] Og nú hefi eg útvalið og helgað þetta hús,
til þess að nafn mitt megi búa þar að eilífu, og skulu augu mín og
hjarta vera þar alla daga. [17] Og ef þú gengur fyrir augliti mínu, svo
sem gjörði Davíð faðir þinn, með því að fara með öllu svo sem eg
hefi þér um boðið, og þú heldur ákvæði mín og lög, [18] þá mun eg
staðfesta hásæti konungdóms þíns, eins og eg hátíðlega hét Davíð föð-
ur þínum, þá er eg sagði: Eigi skal þig vanta eftirmann til þess að
ríkja yfir Ísrael. [19] En ef þér snúið baki við mér og fyrirlátið ákvæði
mín og skipanir, er eg hefi fyrir yður lagt, en farið og þjónið öðrum
guðum og fallið fram fyrir þeim, [20] þá mun eg útrýma þeim úr landi
mínu, því er eg gaf þeim, og húsi þessu, sem eg hefi helgað nafni
mínu, mun eg burt snara frá augliti mínu og gjöra það að orðskvið
og spotti meðal allra þjóða. [21] Og þetta hús, svo háreist sem það er
— hverjum sem gengur fram hjá því, mun blöskra. Og ef hann þá
spyr: Hvers vegna hefir Jahve leikið svo hart þetta land og þetta hús?
[22] munu menn svara: Af því að þeir yfirgáfu Jahve, Guð feðra sinna, er
leiddi þá út af Egiptalandi, og héldu sér að öðrum guðum, féllu fram fyrir
þeim og þjónuðu þeim, fyrir því hefir hann leitt yfir þá alla þessa ógæfu.

### Frá öðrum störfum og fyrirtækjum Salómós.

8 En að tuttugu árum liðnum, þá er Salómó hafði bygt musteri
Jahve og höll sína — [2] en borgirnar, er Húram hafði látið af hendi
við Salómó, þær víggirti Salómó og lét Ísraelsmenn setjast þar að —,
[3] þá hélt Salómó til Hamat hjá Zóba og náði henni á sitt vald. [4] Og

**9:** 3 Mós. 23, 36. **11:** 1 Kong. 9, 1 n. **20:** 5 Mós. 29, 28; 28, 37. **21:** Jer. 22, 8.
— **8, 1:** 1 Kong. 9, 10 n.

hann víggirti Tadmor í eyðimörkinni og allar vistaborgirnar, þær er
hann bygði í Hamat. 5 Þá víggirti hann og Efri-Bethóron og Neðri-
Bethóron og gjörði að köstulum með múrum, hliðum og slagbröndum,
6 enn fremur Baalat og allar vistaborgirnar, er Salómó átti, og allar
vagnliðsborgirnar og riddaraborgirnar og alt, sem Salómó fýsti að byggja
í Jerúsalem, á Líbanon og í öllu ríki sínu. 7 Alt það fólk, sem eftir
var af Hetítum, Amórítum, Peresítum, Hevítum og Jebúsítum, er eigi
heyrðu til Ísraelsmönnum, 8 niðjar þeirra, sem enn voru eftir í landinu
og Ísraelsmenn eigi höfðu útrýmt — á þá lagði Salómó skylduvinnu,
og er svo enn í dag. 9 En af Ísraelsmönnum gjörði Salómó enga að
þrælum til þess að vinna að fyrirtækjum sínum, en þeir voru hermenn,
foringjar fyrir vagnköppum hans og foringjar fyrir vagnliði hans og
riddaraliði. 10 Og þessir voru æðstir fógeta Salómós konungs: tvö hundruð
og fimtíu; þeir höfðu eftirlit með mönnum.
11 Og dóttur Faraós færði Salómó frá Davíðsborg í hús það, er
hann hafði bygt handa henni, því að hann sagði: Eigi skal eg láta
konu búa í höll Davíðs Ísraels-konungs, því að höllin er helgidómur,
af því að örk Jahve er komin inn þangað.
12 Þá færði Salómó Jahve brennifórnir á altari Jahve, því er hann
hafði reist fyrir framan forsalinn, 13 svo að hann færði fórnir eins og
við átti á degi hverjum samkvæmt skipunum Móse, á hvíldardögunum,
tunglkomudögunum og löghátíðunum, þrisvar á ári — á hátíð hinna
ósýrðu brauða, á viknahátíðinni og á laufskálahátíðinni. 14 Og eftir
fyrirmælum Davíðs föður síns setti hann prestaflokkana til þjónustu
þeirra og Levítana til starfs þeirra, að syngja lofsöngva og vera prest-
unum til aðstoðar, svo sem við átti á degi hverjum, og hliðverðina
setti hann við sérhvert hlið, eftir flokkaskipun þeirra, því að svo hafði
guðsmaðurinn Davíð um boðið. 15 Var hvergi brugðið af skipun kon-
ungs um prestana og Levítana og féhirzlurnar. 16 Var þannig lokið
við öll störf Salómós, frá þeim degi, er grundvöllurinn var lagður að
musteri Jahve, og þangað til Salómó lauk við musteri Jahve.
17 Þá fór Salómó til Ezjón-Geber og til Elót á strönd hafsins í
Edómlandi. 18 En Húram sendi honum með mönnum sínum skip og
menn, vana sjóferðum. Og þeir komust til Ófír ásamt mönnum Sal-
ómós og sóttu þangað fjögur hundruð og fimtíu talentur gulls og færðu
Salómó konungi.

## Drotningin frá Saba.

9 En er drotningin í Saba spurði orðstír Salómós, kom hún til
Jerúsalem með mjög miklu föruneyti og með úlfalda, klyfjaða
kryddjurtum og afarmiklu gulli og gimsteinum, til þess að reyna Sal-
ómó með gátum. Og er hún kom til Salómós, bar hún upp fyrir
honum alt, sem henni bjó í brjósti. 2 En Salómó svaraði öllum spurn-
ingum hennar; var enginn hlutur hulinn Salómó, er hann gæti eigi
leyst úr fyrir hana. 3 Og er drotningin frá Saba sá speki Salómós og
húsið, sem hann hafði reisa látið, 4 matinn á borði hans, bústaði þjóna
hans og frammistöðu skutilsveina hans og klæði þeirra, byrlara hans
og klæði þeirra og brennifórn hans, þá er hann fram bar í húsi Jahve,
þá varð hún frá sér numin 5 og sagði við konung: Satt var það, er eg
heyrði í landi mínu um þig og speki þína. 6 En eg trúði ekki orðum
þeirra fyr en eg kom og sá það með eigin augum. Og þó hafði eg

---

**4:** 1 Kong. 9, 17 n. **5:** 5 Mós. 3, 5. **8:** Jós. 16, 10. **11:** 1 Kong. 9, 24. **13:** 4 Mós. 28, 2 n. 2 Mós. 23 14 n. **14:** 1 Kron. 24, 1 n. 26, 1 n. **17:** 1 Kong. 9, 26 n. — **9, 1:** 1 Kong. 10, 1 n. Matt. 12, 42.

ekki frétt helminginn um gnótt speki þinnar; þú ert meiri orðróm þeim,
er eg hefi heyrt. [7] Sælir eru menn þínir og sælir þessir þjónar þínir,
sem stöðugt standa frammi fyrir þér og heyra speki þína. [8] Lofaður sé
Jahve, Guð þinn, sem hafði þóknun á þér, svo að hann setti þig í hásæti
sitt sem konung Jahve, Guðs þíns; af því að Guð þinn elskar Ísrael,
svo að hann vill láta hann standa að eilífu, gjörði hann þig að konungi yfir þeim, til þess að iðka rétt og réttvísi. [9] Síðan gaf hún kon-
ungi hundrað og tuttugu talentur gulls og afarmikið af kryddjurtum
og gimsteina; hefir aldrei síðan verið annað eins af kryddjurtum og
drotningin frá Saba gaf Salómó konungi. [10] Sömuleiðis komu og þjónar
Húrams og þjónar Salómós, þeir er gull sóttu til Ófír, með sandelvið
og gimsteina. [11] Og konungur lét gjöra handrið í hús Jahve og í kon-
ungshöllina af sandelviðnum, svo og gígjur og hörpur handa söng-
mönnunum; hafði ei áður slíkt sést í Júdalandi. [12] Og Salómó kon-
ungur gaf drotningunni frá Saba alt, er hún girntist og kaus sér, auk
þess, er hún hafði fært konungi. Hélt hún síðan heimleiðis og fór í
land sitt með föruneyti sínu.

## Auðæfi Salómós. Heimildir fyrir sögu hans.

[13] Og gullið, sem Salómó fékk á einu ári, var sex hundruð sex-
tíu og sex talentur gulls að þyngd, [14] auk þess er kom inn frá varn-
ingsmönnum og þess er kaupmennirnir komu með; auk þess færðu
allir konungar Arabíu og jarlar landsins Salómó gull og silfur.
[15] Og Salómó konungur lét gjöra tvö hundruð skjöldu af slegnu
gulli, fóru sex hundruð siklar af slegnu gulli í hvern skjöld, [16] og þrjú
hundruð buklara af slegnu gulli, fóru þrjú hundruð siklar gulls í hvern
buklara. Lét konungur leggja þá í Líbanonsskógarhúsið. [17] Konungur
lét og gjöra hásæti mikið af fílabeini og lagði það skíru gulli. [18] Gengu
sex þrep upp að hásætinu og fótskör úr gulli var fest á hásætið.
Bríkur voru báðumegin sætisins og stóðu tvö ljón við bríkurnar.
[19] Og tólf ljón stóðu á þrepunum sex, báðumegin. Slík smíð hefir
aldrei verið gjörð í nokkuru konungsríki. [20] Öll voru drykkjarker Sal-
ómós konungs af gulli og öll áhöld í Líbanonsskógarhúsinu voru af
skíru gulli, ekkert af silfri, því að silfur var einskis metið á dögum
Salómós. [21] Því að konungur hafði skip, er fóru til Tarsis með mönn-
um Húrams; þriðja hvert ár komu Tarsis-skipin heim, hlaðin gulli og
silfri, fílabeini, öpum og páfuglum.
[22] Og Salómó konungur bar af öllum konungum jarðarinnar að
auðlegt og vizku. [23] Og alla konunga jarðarinnar fýsti að sjá Salómó,
til þess að heyra vizku hans, sem Guð hafði lagt honum í brjóst.
[24] Komu þeir þá hver með sína gjöf, silfurgripi og gullgripi, klæði,
vopn og kryddjurtir, hesta og múla, ár eftir ár. [25] Og Salómó átti
fjögur þúsund vagneyki og vagna og tólf þúsund riddara; lét hann þá
vera í vagnliðsborgunum og með konungi í Jerúsalem. [26] Og hann
drotnaði yfir öllum konungum frá Fljótinu alt til Filistalands og til
landamæra Egiptalands. [27] Og konungur gjörði silfur eins algengt í
Jerúsalem og grjót, og sedrusvið eins og mórberjatrén, sem vaxa á lág-
lendinu. [28] Og menn fluttu hesta úr Egiptalandi og úr öllum löndum
handa Salómó. [29] En annað af sögu Salómós er frá upphafi til enda
skráð í sögu Natans spámanns og í spádómi Ahía frá Síló og í vitrun
Íddós sjáanda um Jeróbóam Nebatsson.
[30] Og Salómó ríkti í Jerúsalem yfir öllum Ísrael í fjörutíu ár.

---

8: kap. 2, 11. 10: kap. 8, 18. 15: 1 Kong. 10, 16. 25: kap. 1, 14. 1 Kong. 4, 26.
26: 1 Kong. 4, 21. 27: kap. 1, 15 n. 1 Kong. 10, 27 n. 29: 1 Kong. 11, 41 n.

31 Og Salómó lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var jarðaður í
borg Davíðs föður síns. Og Rehabeam sonur hans tók ríki eftir hann.

### Ríkinu skift.

10 Og Rehabeam fór til Sikem, því að allur Ísrael var kominn til
Sikem til þess að taka hann til konungs. 2 En er Jeróbóam
Nebatsson frétti — hann var í Egiptalandi, þangað sem hann hafði
flúið undan Salómó konungi —, að Salómó væri dáinn, sneri Jeróbóam
heim frá Egiptalandi. 3 Og þeir sendu og létu kalla hann. Þá kom
Jeróbóam og allur Ísrael og mæltu til Rehabeams á þessa leið: 4 Faðir
þinn lagði á oss hart ok, en gjör nú léttari hina hörðu ánauð föður
þíns og hið þunga ok, er hann á oss lagði, og munum vér þjóna þér.
5 Hann svaraði þeim: Farið nú burt og komið aftur til mín að þrem
dögum liðnum. Og lýðurinn fór burt.
6 Þá ráðgaðist Rehabeam konungur við öldungana, sem þjónað
höfðu Salómó föður hans meðan hann lifði, og mælti: Hver andsvör
ráðið þér mér að gefa þessum mönnum? 7 Þeir svöruðu honum og
mæltu: Ef þú í dag verður lýð þessum eftirlátur, verður þeim náðugur
og tekur vel máli þeirra, munu þeir verða þér eftirlátir alla daga. 8 En
hann hafnaði ráði því, er öldungarnir réðu honum, en ráðgaðist við unga
menn, er vaxið höfðu upp með honum og nú þjónuðu honum, 9 og
hann sagði við þá: Hver ráð gefið þér til, hversu vér skulum svara lýð
þessum, er talað hefir til mín á þessa leið: Gjör léttara ok það, er faðir
þinn á oss lagði? 10 Þá svöruðu honum hinir ungu menn, er vaxið
höfðu upp með honum: Svo skalt þú svara lýðnum, er sagði við þig:
Faðir þinn gjörði ok vort þungt, en gjör þú oss það léttara — svo
skalt þú tala til þeirra: Litlifingur minn er digrari en lendar föður
míns. 11 Hafi faðir minn lagt á yður þungt ok, mun eg gjöra ok yðar
enn þyngra; faðir minn refsaði yður með keyrum, en eg mun refsa
yður með gaddasvipum.
12 Og Jeróbóam og allur lýðurinn kom til Rehabeams á þriðja
degi, eins og konungur hafði sagt, þá er hann mælti: Komið til mín
aftur á þriðja degi. 13 Þá veitti konungur þeim hörð andsvör, og Reha-
beam konungur fór eigi að ráðum öldunganna, 14 en talaði til þeirra
á þessa leið að ráði hinna ungu manna: Faðir minn gjörði ok yðar
þungt, en eg mun gjöra það enn þyngra, faðir minn refsaði yður með
keyrum, en eg mun refsa yður með gaddasvipum. 15 Þannig veitti
konungur lýðnum enga áheyrn, því að svo var til stilt af Guði, til þess
að Jahve gæti látið rætast orð sín, þau er hann hafði talað til Jeró-
bóams Nebatssonar fyrir munn Ahía frá Síló.
16 En er allur Ísrael sá, að konungur veitti þeim enga áheyrn, þá
veitti lýðurinn konungi þessi andsvör:

Hverja hlutdeild eigum vér í Davíð?
  Engan erfðahlut eigum vér í Ísaísyni.
Far heim til þín, hver Ísraelsmaður!
  Gæt nú þíns eigin húss, Davíð!

Síðan fór allur Ísrael, hver heim til sín. 17 En yfir þeim Ísraelsmönn-
um, er bjuggu í Júda-borgum, var Rehabeam konungur. 18 Og Reha-
beam konungur sendi Hadóram, sem var yfir kvaðarmönnum, en Ísra-
elsmenn lömdu hann grjóti til bana, en Rehabeam konungur hljóp
í skyndi á vagn sinn og flýði til Jerúsalem. 19 Þannig gekk Ísrael undan
ætt Davíðs, og stendur svo enn í dag.

---

10, 1: 1 Kong. 12, 1 n. 2: 1 Kong. 11, 40. 15: 1 Kong. 11, 29. 31. 16: 2 Sam. 20, 1.

11 En er Rehabeam kom til Jerúsalem, safnaði hann saman Júda-
húsi og Benjamín, hundrað og áttatíu þúsundum einvalaliðs, til
þess að berjast við Ísrael og ná konungdóminum aftur undir Rehabeam.
2 En orð Jahve kom til Semaja guðsmanns, svolátandi: 3 Tala þú svo
til Rehabeams, sonar Salómós, konungs í Júda, og til allra Ísraelsmanna
í Júda og Benjamín: 4 Svo segir Jahve: Farið eigi og berjist eigi við
bræður yðar, fari hver heim til sín, því að minni tilhlutun er þetta
orðið. Og er þeir heyrðu orð Jahve, hurfu þeir aftur og hættu við að
fara á móti Jeróbóam.

### Frá Rehabeam.

5 Rehabeam bjó síðan í Jerúsalem. Og hann gjörði nokkurar borgir
í Júda að köstulum, 6 og hann gjörði Betlehem, Etam, Tekóa, 7 Bet-Zúr,
Sókó, Adúllam, 8 Gat, Maresa, Síf, 9 Adóraím, Lakís, Aseka, 10 Zorea,
Ajalon og Hebron, sem eru í Júda og Benjamín, að kastalaborgum.
11 Gjörði hann kastalana rammgjörva, setti þar höfðingja fyrir og lét
þar forða vista, olíu og víns. 12 Og í hverja borg lét hann skjöldu og
spjót, og víggirti þær afarrammlega. Og Júda og Benjamín lutu honum.
13 En prestarnir og Levítarnir, er voru um allan Ísrael, komu úr
öllum héruðum sínum og gengu honum til handa. 14 Því að Levítarnir
yfirgáfu beitilönd sín og óðul og fóru til Júda og Jerúsalem, því að
Jeróbóam og synir hans höfðu rekið þá úr prestþjónustu fyrir Jahve,
15 og hafði hann sjálfur skipað sér presta fyrir hæðirnar og skógar-
tröllin og kálfana, er hann hafði gjöra látið. 16 Og þeim fylgdu þeir af
öllum ættkvíslum Ísraels, er lögðu hug á að leita Jahve, Guðs Ísraels.
Komu þeir til Jerúsalem til þess að færa fórnir Jahve, Guði feðra þeirra.
17 Og þeir efldu Júdaríki og styrktu Rehabeam, son Salómós, í þrjú ár.
Því að þeir fetuðu í fótspor Davíðs og Salómós í þrjú ár.
18 Og Rehabeam tók sér fyrir konu Mahalat, dóttur Jerímóts Davíðs-
sonar og Abíhaílar, dóttur Elíabs Ísaísonar; 19 ól hún honum sonu:
Jeús, Semarja og Saham. 20 Og eftir hana fékk hann Maöku Absalóms-
dóttur; hún ól honum Abía, Attaí, Sísa og Selómít. 21 Og Rehabeam
unni Maöku Absalómsdóttur meira en öllum öðrum konum sínum og
hjákonum, því að hann hafði tekið sér átján konur og sextíu hjákonur,
og gat tuttugu og átta sonu og sextíu dætur. 22 Og Rehabeam gjörði
Abía, son Maöku, að ætthöfðingja, að höfðingja meðal bræðra sinna,
því að hann hugðist mundu gjöra hann að konungi. 23 Og hann fór
hyggilega að ráði sínu og skifti öllum sonum sínum niður á öll héruð
í Júda og Benjamín, niður á allar kastalaborgir; fékk þeim gnóttir vista
og bað þeim fjölda kvenna.
12 En er konungdómur Rehabeams var fastur orðinn, og hann
sjálfur orðinn fastur í sessi, þá yfirgaf hann lögmál Jahve og allur
Ísrael með honum. 2 En á fimta ríkisári Rehabeams fór Sísak Egipta-
landskonungur herför móti Jerúsalem — af því að þeir höfðu sýnt
Jahve ótrúmensku — 3 með tólf hundruð vögnum og sextíu þúsund
riddurum; mátti eigi koma tölu á fólk það, er með honum kom frá
Egiptalandi: Libýumenn, Súkítar og Blálendingar. 4 Hann tók kast-
alaborgirnar, þær er voru í Júda, og komst alt til Jerúsalem. 5 En
Semaja spámaður kom til Rehabeams og höfðingja Júda, er hörfað
höfðu fyrir Sísak til Jerúsalem, og mælti til þeirra: Svo segir Jahve:
Þér hafið yfirgefið mig, svo ofursel eg og yður á vald Sísaks. 6 Þá
auðmýktu þeir sig, höfðingjar Ísraels og konungur, og sögðu: Réttlátur

**11, 1:** 1 Kong. 12, 21 n. **5:** kap. 14, 6. **14:** kap. 13, 9. **15:** 1 Kong. 12, 31 n. **18:** 1 Sam. 16, 6; 17, 13. **20:** 1 Kong. 15, 2. **22:** 5 Mós. 21, 15. 16. — **12, 1:** kap. 26, 16. **2:** 1 Kong. 14, 22. 25. **4:** kap. 11, 5 n. **5:** kap. 15, 2.

er Jahve! [7] En er Jahve sá, að þeir höfðu auðmýkt sig, kom orð
Jahve til Semaja, svolátandi: Þeir hafa auðmýkt sig; eg skal eigi tor-
tíma þeim, heldur fulltingja þeim að nokkuru, og eigi hella reiði minni
yfir Jerúsalem fyrir Sísak. [8] Þó skulu þeir verða lýðskyldir honum, að
þeir megi læra að þekkja muninn á að þjóna mér og á að þjóna heiðn-
um konungum. [9] Síðan fór Sísak Egiptalands-konungur herför móti
Jerúsalem og tók fjársjóðu húss Jahve og fjársjóðu konungshallarinnar,
tók það alt saman; hann tók og gullskjölduna, er Salómó hafði gjöra
látið. [10] Rehabeam konungur lét í þeirra stað gjöra eirskjöldu og fékk
þá höfuðsmönnum lífvarðarins til geymslu, þeim er geyma dyra á höll
konungs. [11] Og í hvert sinn, er konungur gekk í hús Jahve, komu varð-
liðsmennirnir og báru þá, og fóru síðan með þá aftur í herbergi varð-
liðsmannanna. [12] En er hann auðmýkti sig, hvarf reiði Jahve frá hon-
um og tortímdi honum eigi með öllu; enn þá var þó eitthvað gott til
í Júda. [13] Og Rehabeam konungur efldist í Jerúsalem og sat að völd-
um, því að Rehabeam hafði einn um fertugt, þá er hann varð konungur,
og seytján ár ríkti hann í Jerúsalem, borginni sem Jahve hafði útvalið
af öllum ættkvíslum Ísraels, til þess að láta nafn sitt búa þar. En
móðir hans hét Naama og var ammónítísk. [14] Og hann breytti illa,
því að hann lagði eigi hug á að leita Jahve.
[15] En saga Rehabeams, frá upphafi til enda, er rituð í sögu Semaja
spámanns og Íddós sjáanda, í ættartölunum. Og ófriður stóð ávalt
milli Rehabeams og Jeróbóams. [16] Og Rehabeam lagðist til hvíldar hjá
feðrum sínum og var jarðaður í Davíðsborg. Og Abía sonur hans tók
ríki eftir hann.

### Frá Abía.

13 Á átjánda ríkisári Jeróbóams varð Abía konungur yfir Júda.
[2] Þrjú ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Maaka
Úríelsdóttir frá Gíbeu. En þeir áttu í ófriði saman, Abía og Jeróbóam.
[3] Og Abía hóf ófriðinn með hraustu herliði, fjögur hundruð þúsundum
einvalaliðs, en Jeróbóam fylkti til orustu á móti honum átta hundruð
þúsundum einvalaliðs, hraustum köppum. [4] Þá gekk Abía upp á Zemaraim-
fjall í Efraím-fjöllum og mælti: Hlýðið á mig, Jeróbóam og allur Ísrael!
[5] Hvort vitið þér eigi að Jahve, Ísraels Guð, veitti Davíð ævarandi
konungdóm yfir Ísrael, honum og niðjum hans, með saltsáttmála? [6] En
Jeróbóam Nebatsson, þjónn Salómós, sonar Davíðs, hófst handa og
gjörði uppreist gegn herra sínum. [7] Og að honum söfnuðust lausingjar
og hrakmenni, og þeir urðu yfirsterkari Rehabeam syni Salómós, en
Rehabeam var ungur og hugdeigur og fékk eigi veitt þeim viðnám.
[8] Og nú hyggist þér munu veita viðnám konungdómi Jahve, þeim er
niðjar Davíðs hafa á hendi, af því að þér eruð mjög fjölmennir, og
gullkálfarnir, þeir er Jeróbóam hefir gjöra látið yður að guðum, eru
með yður. [9] Hafið þér þá eigi rekið burt presta Jahve, niðja Arons, og
Levítana, og gjört yður presta að sið heiðinna þjóða? Hver sá, er
kom til þess að láta fylla hönd sína* með ungt naut og sjö hrúta,
hann varð prestur falsguðanna. [10] En vor Guð er Jahve og vér höfum
eigi yfirgefið hann, og niðjar Arons hafa á hendi prestþjónustu fyrir
Jahve, og Levítar hafa störf á hendi [11] og færa Jahve á hverjum morgni
og hverju kveldi brennifórnir og ilmreykelsi og leggja brauð í raðir á
borðið úr skíru gulli og kveikja á hverju kveldi á gullstjakanum og

---

**9:** 1 Kong. 14, 25 n. 10, 16. 2 Kron. 9, 15. **12:** kap. 19, 3. **13:** 1 Kong. 14, 21.
**15:** kap. 13, 22. 1 Kong. 14, 29 n. — **13, 1:** 1 Kong. 15, 1 n. **5:** 4 Mós. 18, 19.
**6:** 1 Kong. 11, 26. **8:** 1 Kong. 12, 28. **9:** *Sbr. 2 Mós. 28, 41. **11:** 2 Mós. 25, 31—39.

lömpum hans. Því að vér gætum ákvæða Jahve, Guðs vors, en þér
hafið yfirgefið hann. [12] Og sjá! Guð er með oss í broddi fylkingar og
prestar hans með hvellilúðrana, til þess að blása til atlögu gegn yð-
ur. Þér Ísraelsmenn! Berjist eigi gegn Jahve, Guði feðra yðar, því að
þér munuð engu fá framgengt.

[13] En Jeróbóam lét þá, er lágu í launsátri, fara í kring til þess
að koma að baki þeim; voru þeir gagnvart Júdamönnum, en launsát-
ursliðið að baki þeim. [14] Og er Júdamenn sneru sér við, sáu þeir að
þeim var búinn bardagi bæði að baki og að framan. Þá hrópuðu þeir
til Jahve, og prestarnir þeyttu lúðrana [15] og Júdamenn æptu heróp, og
er Júdamenn æptu heróp, þá laust Guð Jeróbóam og allan Ísrael í
augsýn Abía og Júda. [16] Og Ísraelsmenn flýðu fyrir Júdamönnum og
Guð gaf þá þeim á vald. [17] Og Abía og lið hans feldu þá unnvörpum,
svo að fimm hundruð þúsund einvalaliðs féllu af Ísraelsmönnum, vopnum
vegnir. [18] Þannig urðu Ísraelsmenn að lúta í lægra haldi um þær
mundir og Júdamenn urðu yfirsterkari, því að þeir studdust við Jahve,
Guð feðra þeirra. [19] En Abía veitti Jeróbóam eftirför og vann af hon-
um borgir: Betel og þorpin umhverfis hana, Jesana og þorpin um-
hverfis hana og Efron og þorpin umhverfis hana. [20] Og Jeróbóam var
máttvana síðan, meðan Abía lifði, og Jahve laust hann, svo að hann dó.

[21] En Abía efldist, og hann tók sér fjórtán konur og gat tuttugu
og tvo sonu og sextán dætur.

[22] En það sem meira er að segja um Abía, athafnir hans og orð,
14 það er ritað í skýringum Iddós spámanns. [1] Og Abía lagðist til
hvíldar hjá feðrum sínum og var jarðaður í Davíðsborg. Og Asa
sonur hans tók ríki eftir hann. Á hans dögum var friður í landi í tíu ár.

## Frá Asa.

[2] Og Asa gjörði það sem gott var og rétt í augum Jahve, Guðs
síns. [3] Hann afnumdi hin útlendu ölturu og hæðirnar, braut sundur
merkissteinana og hjó sundur asérurnar. [4] Og hann bauð Júdamönn-
um að leita Jahve, Guðs feðra þeirra, og breyta eftir lögmáli hans og
skipunum. [5] Hann afnumdi hæðirnar og sólsúlurnar úr öllum Júda-
borgum, og ríkið naut friðar um hans daga.

[6] Hann reisti kastala í Júda, því að friður var í landi og enginn
átti í ófriði við hann þau árin, því að Jahve veitti honum frið. [7] Og
hann sagði við Júdamenn: Látum oss reisa borgir þessar og girða um
þær með múrum og turnum, hurðum og slagbröndum, því að enn þá
er landið oss opið, af því að vér höfum leitað Jahve, Guðs vors. Vér
höfum leitað hans, og hann hefir veitt oss frið alt um kring. Bygðu
þeir síðan og gekk það vel. [8] Og Asa hafði her, er skjöld bar og spjót,
úr Júda þrjú hundruð þúsund og úr Benjamín tvö hundruð og áttatíu
þúsund manna, er buklara báru og boga bentu; voru þeir allir hinir
mestu kappar.

[9] En Sera Blálendingur fór í móti þeim með miljón hermanna og
þrjú hundruð vagna og komst alt til Maresa. [10] Fór Asa út í móti
honum, og fylktu þeir sér til orustu í Zefatadal hjá Maresa. [11] Og Asa
ákallaði Jahve, Guð sinn, og sagði: Jahve, enginn nema þú getur
hjálpað lítilmagnanum gegn hinum voldugu. Hjálpa þú oss, Jahve,
Guð vor, því að við þig styðjumst vér, og í þínu nafni höfum vér
farið á móti þessum mannfjölda. Jahve, þú ert vor Guð, gagnvart þér
er dauðlegur maðurinn máttvana. [12] Og Jahve lét Blálendingana bíða

12: 4 Mós. 10, 9. 22: kap. 9, 29. — 14, 1: 1 Kong. 15, 8. 5: 3 Mós. 26, 30. 6:
kap. 11, 5; 15, 15.

ósigur fyrir Asa og fyrir Júdamönnum, svo að Blálendingar flýðu. 13 En
Asa og lið það, er með honum var, veittu þeim eftirför til Gerar, og
féll lið af Blálendingum, svo að enginn þeirra var eftir á lífi, því að
þeir féllu unnvörpum fyrir Jahve og fyrir her hans. Höfðu þeir þaðan
afarmikið herfang. 14 Þeir unnu og allar borgir umhverfis Gerar, því
að ótti við Jahve var kominn yfir þær. Rændu þeir síðan allar borg-
irnar, því að þar var miklu að ræna. 15 Þá náðu þeir og hjarðtjöld-
unum og höfðu á burt með sér að herfangi fjölda sauða og úlfalda,
og sneru síðan aftur til Jerúsalem.

15 Þá kom andi Guðs yfir Asarja Ódeðsson; 2 gekk hann fram
fyrir Asa og mælti til hans: Hlýðið á mig, þér Asa og allur Júda
og Benjamín. Jahve er með yður, ef þér eruð með honum. Ef þér
leitið hans, mun hann gefa yður kost á að finna sig, en ef þér yfir-
gefið hann, mun hann yfirgefa yður. 3 En langan tíma hefir Ísrael án
verið hins sanna Guðs, án presta, er fræddu hann, og án lögmáls.
4 Og er þeir voru í nauðum staddir, sneru þeir sér til Jahve, Ísraels Guðs,
og leituðu hans, og hann gaf þeim kost á að finna sig. 5 Um þær
mundir voru engar trygðir fyrir þá, er fóru eða komu, heldur var hið
mesta griðaleysi meðal allra íbúa héraðanna. 6 Þjóð rakst á þjóð og
borg á borg, því að Jahve hræddi þá með hvers konar nauðum. 7 En
verið þér öruggir og látið yður eigi fallast hendur, því að breytni yðar
mun umbun hljóta.

8 En er Asa heyrði orð þessi og spádóm Ódeðs spámanns, þá
herti hann upp hugann og útrýmdi viðurstygðunum úr öllu landi Júda
og Benjamíns, svo og úr borgum þeim, er hann hafði unnið á Efraím-
fjöllum, en endurnýjaði altari Jahve, það er var frammi fyrir forsal
Jahve. 9 Síðan stefndi hann saman öllum Júda og Benjamín og að-
komumönnum þeim, er hjá þeim voru af Efraím, Manasse og Símeon,
því að fjöldi manna af Ísrael hafði gengið honum á hönd, er þeir sáu
að Jahve, Guð hans, var með honum. 10 Og þeir komu saman í Jerú-
salem í þriðja mánuði á fimtánda ríkisári Asa. 11 Og á þeim degi
færðu þeir Jahve í sláturfórn af herfanginu, er þeir höfðu fengið: sjö
hundruð naut og sjö þúsund sauði. 12 Og þeir bundust þeim sáttmála,
að leita Jahve, Guðs feðra þeirra, af öllu hjarta sínu og allri sálu
sinni, 13 og skyldi hver sá, er eigi leitaði Jahve, Guðs Ísraels, líflátinn,
yngri sem eldri, karl sem kona. 14 Sóru þeir síðan Jahve eiða með
hárri röddu og lustu upp fagnaðarópi, en lúðrar og básúnur kváðu við.
15 Og allur Júda gladdist yfir eiðnum, því að þeir höfðu eið unnið af
öllu hjarta sínu og leitað hans af öllum huga sínum; gaf hann þeim
því kost á að finna sig, og Jahve veitti þeim frið alt um kring. 16 Asa
konungur svifti jafnvel Maöku, móður sína, drotningartigninni, fyrir
það, að hún hafði gjöra látið hræðilegt Aséru-líkneski. Og Asa hjó
sundur þetta hræðilega líkneski hennar, muldi það og brendi það í
Kídron-dal. 17 En hæðirnar voru ekki afnumdar úr Ísrael; þó var
hjarta Asa óskift alla æfi hans. 18 Hann lét og flytja í hús Guðs helgi-
gjafir föður síns, svo og helgigjafir sínar, silfur, gull og áhöld. 19 Og
enginn ófriður var fram að þrítugasta og fimta ríkisári Asa.

16 Á þrítugasta og sjötta ríkisári Asa fór Baesa Ísraels-konungur
herför á móti Júda og víggirti Rama, svo að enginn maður gæti
komist út eða inn hjá Asa Júda-konungi. 2 Þá tók Asa silfur og gull
úr fjárhirzlum húss Jahve og konungshallarinnar og sendi Benhadad
Sýrlands-konungi, er bjó í Damaskus, með þessari orðsending: 3 Sátt-
máli er milli mín og þín, milli föður míns og föður þíns; sjá, eg

---

**14:** kap. 17, 10. — **15, 2:** Jes. 55, 6. Jer. 29, 13. 1 Kron. 28, 9. 2 Kron. 24, 20.
**5:** Dóm. 5, 6. **12:** 2 Kong. 23, 3. **16:** 1 Kong. 15, 13 n. — **16, 1:** 1 Kong. 15, 17 n.

sendi þér silfur og gull: skalt þú nú rjúfa bandalag þitt við Baesa Ísraels-
konung, svo að hann hafi sig á burt frá mér. [4] En Benhadad tók vel
máli Asa konungs og sendi hershöfðingja sína móti borgum Ísraels og
unnu þeir Íjón, Dan og Abel-Maím og öll forðabúr í Naftalí-borgum.
[5] Þegar Baesa spurði það, lét hann af að víggirða Rama og hætti við
starf sitt. [6] En Asa konungur bauð út öllum Júdamönnum, og fluttu
þeir burt steinana og viðinn, sem Baesa hafði víggirt Rama með, og
víggirti hann með þeim Geba og Mizpa.
[7] En um þetta leyti kom Hananí sjáandi til Asa Júda-konungs og
sagði við hann: Sakir þess að þú studdist við Sýrlands-konung, en
studdist ekki við Jahve, Guð þinn, sakir þess er her Sýrlands-konungs
genginn þér úr greipum. [8] Voru ekki Blálendingar og Libýumenn mikill
her, með afarmarga vagna og riddara? En af því þú studdist við Jahve,
gaf hann þá þér á vald. [9] Því að augu Jahve hvarfla um alla jörðina,
til þess að hann megi sýna sig mátkan þeim til hjálpar, sem eru heils
hugar við hann. Þér hefir farið heimskulega í þessu, því að héðan í
frá munu menn stöðugt eiga í ófriði við þig. [10] En Asa rann í skap
við sjáandann og setti hann í stokkhúsið, því að hann var honum
reiður fyrir þetta. Asa sýndi og sumum af lýðnum ofríki um þessar
mundir.
[11] En saga Asa er frá upphafi til enda rituð í bókum Júda- og
Ísraels-konunga. [12] Á þrítugasta og níunda ríkisári sínu gjörðist Asa
fótaveikur og varð sjúkleiki hans mjög mikill. En einnig í sjúkleik
sínum leitaði hann ekki Jahve, heldur læknanna. [13] Og Asa lagðist til
hvíldar hjá feðrum sínum og dó á fertugasta og fyrsta ríkisári sínu.
[14] Og hann var grafinn í gröf sinni, er hann hafði látið höggva út handa
sér í Davíðsborg. Og hann var lagður á líkbekk, er fyltur var krydd-
jurtum og alls konar smyrslum, blönduðum ilmreykelsi, og afarmikil
brenna var gjörð honum til heiðurs.

## Frá Jósafat.

17 Og Jósafat sonur hans tók ríki eftir hann og efldi sig gegn
Ísrael. [2] Hann setti herlið í allar víggirtar borgir í Júda og lét
fógeta í Júdaland og Efraímborgir, þær er Asa faðir hans hafði unnið.
[3] Og Jahve var með Jósafat, því að hann gekk á hinum fyrri vegum
Davíðs forföður síns og leitaði ekki Baalanna, [4] heldur leitaði Guðs föð-
ur síns og fór eftir skipunum hans og breytti ekki sem Ísrael. [5] Þess
vegna staðfesti Jahve konungdóminn í hendi hans, svo að allur Júda
færði Jósafat gjafir, svo að honum hlotnaðist afarmikil auðlegð og sæmd.
[6] Og með því að honum óx hugur á vegum Jahve, þá afnumdi hann og
hæðirnar og asérurnar úr Júda.
[7] En á þriðja ríkisári sínu sendi hann höfðingja sína Benhail,
Óbadía, Sakaría, Netaneel og Míkaja til þess að kenna í Júdaborgum
[8] og með þeim Levítana Semaja, Netanja, Sebadja, Asahel, Semíramót,
Jónatan, Adónía, Tobía og Tob-Adónía Levíta, og ásamt þeim prestana
Elísama og Jóram. [9] Þeir kendu í Júda og höfðu með sér lögbók
Jahve, og fóru um allar borgir í Júda og kendu lýðnum. [10] Og ótti
við Jahve kom yfir öll heiðnu ríkin, er voru umhverfis Júda, svo að
þau lögðu eigi í ófrið við Jósafat. [11] Og nokkurir af Filistum færðu
Jósafat gjafir og silfur í skatt; einnig Arabar færðu honum fénað: sjö
þúsund og sjö hundruð hrúta og sjö þúsund og sjö hundruð geithafra.
[12] Og þannig varð Jósafat æ voldugri, svo að yfir tók, og hann reisti

7: Jer. 17, 5. 8: kap. 14, 9. 9: Orðskv. 15, 3. Sak. 4, 10. — 17, 1: 1 Kong. 15, 24.
5: kap. 18, 1. 10: kap. 14, 14; 20, 29.

hallir og vistaborgir í Júda; [13] hafði hann afarmikinn vistaforða í Júda-
borgum, og hermenn hafði hann í Jerúsalem, hina mestu kappa. [14] Og
þetta er tala þeirra eftir ættum þeirra: Af Júda voru þúsundhöfðingjar:
Adna höfuðsmaður og þrjú hundruð þúsund hraustir kappar með hon-
um; [15] honum næstur gekk Jóhanan höfuðsmaður og tvö hundruð og
áttatíu þúsund manns með honum; [16] honum næstur Amasja Síkríson,
er sjálfviljuglega hafði gengið Jahve á hönd, og tvö hundruð þúsund
hraustir kappar með honum. [17] En af Benjamín voru: Eljada kappi og
tvö hundruð þúsund manns með honum, vopnaðir bogum og buklur-
um, [18] og honum næstur Jósabad og hundrað og áttatíu þúsund her-
búinna manna með honum. [19] Þessir voru þeir, er konungi þjónuðu,
auk þeirra, er konungur hafði sett í víggirtar borgir í öllu Júdalandi.

18 Og Jósafat hlotnaðist afarmikil auðlegð og sæmd og hann mægð-
ist við Akab. [2] Eftir nokkur ár fór hann á fund Akabs til Sam-
aríu. Þá slátraði Akab fjölda sauða og nauta handa honum og mönn-
um þeim, er með honum voru, og ginti hann að fara með sér til að
herja á Ramót í Gíleað. [3] Þá mælti Akab Ísraels-konungur við Jósafat
Júda-konung: Hvort munt þú fara með mér til Ramót í Gíleað? Hann
svaraði honum: Eitt skal yfir báða ganga, mig og þig, mína þjóð og
þína þjóð; skal eg fara með þér til bardagans. [4] Og Jósafat sagði við
Ísraels-konung: Gakk þú fyrst til frétta og vit, hvað Jahve segir. [5] Þá
stefndi Ísraels-konungur saman spámönnunum, fjögur hundruð manns,
og sagði við þá: Á eg að fara og herja á Ramót í Gíleað eða á eg að
hætta við það? Þeir svöruðu: Far þú, og Guð mun gefa hana í hend-
ur konungi. [6] En Jósafat mælti: Er hér ekki enn einhver spámaður
Jahve, að vér mættum leita frétta hjá honum? [7] Ísraels-konungur mælti
til Jósafats: Enn er einn eftir, er vér gætum látið ganga til frétta við
Jahve, en mér er lítið um hann gefið, því að hann spáir mér aldrei
góðu, heldur ávalt illu; hann heitir Míka Jimlason. En Jósafat sagði:
Eigi skyldi konungur svo mæla.

[8] Þá kallaði Ísraels-konungur einn af hirðmönnunum og mælti:
Sæk sem skjótast Míka Jimlason. [9] En Ísraels-konungur og Jósafat
Júda-konungur sátu hvor í sínu hásæti, skrýddir purpuraklæðum úti
fyrir borgarhliði Samaríu, og allir spámennirnir spáðu frammi fyrir þeim.
[10] Þá gjörði Zedekía Kenaanason sér horn úr járni og mælti: Svo segir
Jahve: Með þessum munt þú reka Sýrlendinga undir, unz þú hefir
gjöreytt þeim. [11] Og allir spámennirnir spáðu á sömu leið og sögðu:
Far þú til Ramót í Gíleað; þú munt giftudrjúgur verða, og Jahve mun
gefa hana í hendur konungi.

[12] En sendimaðurinn, sem farinn var að sækja Míka, mælti til
hans á þessa leið: Sjá, spámennirnir hafa einum munni boðað kon-
ungi hamingju; mæl þú sem þeir og boða þú hamingju. [13] En Míka
mælti: Svo sannarlega sem Jahve lifir, það sem Guð minn til mín talar,
það mun eg mæla. [14] Og er hann kom til konungs, mælti konungur
til hans: Míka, eigum vér að fara og herja á Ramót í Gíleað, eða eig-
um vér að hætta við það? Þá sagði hann: Farið, þér munuð giftu-
drjúgir verða, og þeir munu gefnir verða yður á vald! [15] Þá sagði kon-
ungur við hann: Hversu oft á eg að særa þig um, að þú segir mér eigi
annað en sannleikann í nafni Jahve. [16] Þá mælti hann: Eg sá allan
Ísrael tvístrast um fjöllin eins og hirðislausa sauði, og Jahve sagði:
Þessir hafa engan herra; fari þeir í friði hver heim til sín. [17] Þá sagði
Ísraels-konungur við Jósafat: Fer nú eigi sem eg sagði þér: hann spáir
mér eigi góðu, heldur illu einu? [18] Þá mælti hann: Eigi er svo. Heyr-
ið orð Jahve! Eg sá Jahve sitja í hásæti sínu og allan himins her

18, 1: kap. 17, 5; 21, 6. 2: 1 Kong. 22, 2 n. 16: 4 Mós. 27, 17. Matt. 9, 36.

standa á tvær hendur honum. [19] Og Jahve sagði: Hver vill ginna Akab
Ísraels-konung til þess að fara til Ramót í Gíleað og falla þar? Og
einn sagði þetta og annar hitt. [20] Þá gekk fram andi, staðnæmdist
frammi fyrir Jahve og mælti: Eg skal ginna hann. Og Jahve sagði
við hann: Með hverju? [21] Hann mælti: Eg ætla að fara og verða
lygiandi í munni allra spámanna hans. Þá mælti hann: Þú skalt ginna
hann og þér mun takast það. Far og gjör svo! [22] Þannig hefir þá
Jahve lagt lygianda í munn þessum spámönnum þínum, þar sem Jahve
hefir þó ákveðið að leiða yfir þig ógæfu.
[23] Þá gekk að Zedekía Kenaanason, laust Míka kinnhest og mælti:
Hvaða leið hefir andi Jahve farið frá mér til þess að tala við þig?
[24] Þá mælti Míka: Það munt þú sjá á þeim degi, er þú fer í felur úr
einu herberginu í annað. [25] Þá mælti Ísraels-konungur: Takið Míka
og færið hann Amón borgarstjóra og Jóas konungssyni [26] og segið:
Svo segir konungur: Kastið manni þessum í dýflissu og gefið honum
brauð og vatn af skornum skamti, þar til er eg kem aftur heill á húfi.
[27] Þá mælti Míka: Komir þú aftur heill á húfi, þá hefir Jahve eigi talað
fyrir minn munn. Og hann mælti: Heyri það allir lýðir!
[28] Síðan fóru þeir Ísraels-konungur og Jósafat Júda-konungur til
Ramót í Gíleað. [29] Og Ísraels-konungur sagði við Jósafat: Eg mun
klæðast dularbúningi og ganga í orustuna, en þú skalt vera klæddur
búningi þínum. Klæddist þá Ísraels-konungur dularbúningi og gengu
þeir í orustuna. [30] En Sýrlands-konungur hafði boðið foringjunum fyrir
vagnliði sínu á þessa leið: Þér skuluð eigi berjast við neinn, hvorki
smáan né stóran, nema Ísraels-konung einan. [31] Og er foringjarnir
fyrir vagnliðinu sáu Jósafat, sögðu þeir: Þetta er Ísraels-konungurinn!
og umkringdu hann til að berjast við hann. Þá kallaði Jósafat hátt
og Jahve hjálpaði honum og Guð ginti þá burt frá honum. [32] Og er
foringjarnir fyrir vagnliðinu sáu, að það var ekki Ísraels-konungur, þá
hættu þeir að elta hann. [33] En maður nokkur lagði ör á streng og
skaut af handahófi, og kom á Ísraels-konung milli brynbeltis og panz-
ara. Þá mælti hann við kerrusveininn: Snú þú við og kom mér burt
úr bardaganum, því að eg er sár. [34] Var bardaginn hinn harðasti um
daginn og Ísraels-konungur stóð í vagninum andspænis Sýrlendingum
alt til kvelds, og dó hann um sólsetur.
19 En Jósafat Júda-konungur sneri við heim til sín til Jerúsalem,
heill á húfi. [2] Þá gekk Jehú sjáandi Hananíson fyrir hann og
mælti til Jósafats konungs: Hjálpar þú hinum óguðlegu og elskar þú
þá, er hata Jahve? Sakir þessa liggur á þér reiði Jahve. [3] Þó er nokk-
uð gott fundið í fari þínu, því að þú hefir útrýmt asérunum úr land-
inu og beint huga þínum að því að leita Guðs.
[4] En Jósafat dvaldist í Jerúsalem nokkurn tíma. Síðan fór hann
aftur um meðal lýðsins frá Beerseba alt til Efraím-fjalla og sneri þeim
til Jahve, Guðs feðra þeirra. [5] Hann skipaði og dómara í landinu, í
öllum víggirtum borgum í Júda, í hverri borg. [6] Og hann sagði við
dómarana: Gætið að, hvað þér gjörið, því að eigi dæmið þér í um-
boði manna, heldur Jahve, og hann er með yður í dómum. [7] Veri þá
ótti Jahve yfir yður, hafið gát á breytni yðar, því að hjá Jahve, Guði
vorum, er ekkert ranglæti eða manngreinarálit, né mútur þegnar. [8] En
einnig í Jerúsalem skipaði Jósafat menn af Levítunum og prestunum
og ætthöfðingjum Ísraels til þess að gegna dómarastörfum Jahve og
réttarþrætum Jerúsalem-búa. [9] Og hann lagði svo fyrir þá: Svo skuluð
þér breyta í ótta Jahve, með trúmensku og af heilum hug. [10] Og í

---

**20:** 1 Kong. 22, 22. **26:** kap. 16, 10. **28:** 1 Kong. 22, 29 n. — **19, 2:** kap. 16, 7.
**3:** kap. 17, 3 n. **5:** 5 Mós. 16, 18. **6:** 5 Mós. 1, 17. **7:** 5 Mós. 10, 17.

hverri þrætu, er kemur fyrir yður frá bræðrum yðar, þeim er búa í
borgum sínum, hvort sem það er vígsök eða um lögmál eða boðorð
eða lög eða ákvæði, þá skuluð þér vara þá við, svo að þeir verði ekki
sekir við Jahve, og reiði komi yfir yður og bræður yðar. Svo skuluð
þér breyta, að þér verðið ekki sekir. 11 En Amarja höfuðprestur skal
vera fyrir yður í öllum málefnum Jahve, og Sebadja Ísmaelsson,
höfðingi Júdaættar, í öllum málefnum konungs, og Levítana hafið þér
fyrir starfsmenn. Gangið öruggir til starfa; Jahve mun vera með
þeim, sem góður er.

20 En svo bar til eftir þetta, að Móabítar og Ammónítar og nokkurir
af Meúnítum með þeim fóru á móti Jósafat til bardaga. 2 Og
menn komu og fluttu Jósafat svolátandi tíðindi: Afarmikill mannfjöldi
kemur á móti þér handan yfir hafið, frá Edóm, og eru þeir þegar í
Hazezon-Tamar, það er Engedí. 3 Þá varð Jósafat hræddur og tók að
leita Jahve, og lét boða föstu um allan Júda. 4 Þá söfnuðust Júda-
menn saman til þess að leita Jave; komu menn einnig úr öllum Júda-
borgum til þess að leita Jahve. 5 En Jósafat gekk fram í söfnuði Júda
og Jerúsalem, í musteri Jahve, úti fyrir nýja forgarðinum 6 og mælti:
Jahve, Guð feðra vorra! þú ert Guð á himnum, þú drotnar yfir öllum
ríkjum heiðingjanna. Í þinni hendi er máttur og megin, og fyrir þér
fær enginn staðist. 7 Þú hefir, Guð vor, stökt íbúum lands þessa undan
lýð þínum Ísrael og gefið það niðjum Abrahams vinar þíns um aldur
og æfi. 8 Og þeir settust þar að og bygðu þér þar helgidóm, þínu nafni,
og mæltu: 9 Ef ógæfa dynur yfir oss, ófriður, refsidómur, drepsótt eða
hallæri, þá munum vér ganga fram fyrir þetta hús og fram fyrir þig,
því að þitt nafn býr í húsi þessu, og vér munum hrópa til þín í nauð-
um vorum, að þú megir heyra og hjálpa. 10 Og sjá, hér eru nú Am-
mónítar og Móabítar og Seírfjalla-búar; meðal þeirra leyfðir þú eigi
Ísraelsmönnum að koma, þá er þeir komu frá Egiptalandi, heldur hörf-
uðu þeir frá þeim og eyddu þeim eigi. 11 Og nú launa þeir oss og
koma til þess að hrekja oss frá óðali þínu, er þú hefir veitt oss til
eignar. 12 Guð vor, munt þú eigi láta dóm yfir þá ganga? Því að vér
erum máttvana gagnvart þessum mikla mannfjölda, er kemur í móti
oss; vér vitum eigi, hvað vér eigum að gjöra, heldur mæna augu vor
til þín. 13 En allir Júdamenn stóðu frammi fyrir Jahve, ásamt ung-
börnum þeirra, konum og sonum.

14 Þá kom andi Jahve yfir Jehasíel Sakaríason, Benajasonar, Jeí-
elssonar, Mattanjasonar, Levíta af Asafsniðjum, þar í söfnuðinum 15 og
hann mælti: Hlýðið á allir Júdamenn og Jerúsalem-búar og þú Jósa-
fat konungur: Svo segir Jahve við yður: Hræðist eigi né skelfist fyrir
þessum mikla mannfjölda, því að eigi er yður búinn bardaginn, heldur
Guði. 16 Farið í móti þeim á morgun; þeir munu halda upp Zíz-stíg-
inn, og þér munuð mæta þeim í dalbotninum austan við Jerúel-eyði-
mörk. 17 En eigi þurfið þér að berjast við þá, skipið yður aðeins í
fylkingu, standið kyrrir og sjáið liðsinni Jahve við yður, þér Júdamenn
og Jerúsalem-búar. Óttist eigi og skelfist eigi. Farið í móti þeim á
morgun, og Jahve mun vera með yður.

18 Þá laut Jósafat fram á ásjónu sína til jarðar, og allir Júdamenn
og Jerúsalem-búar féllu fram fyrir Jahve, til þess að tilbiðja Jahve.
19 Síðan stóðu upp Levítarnir, er voru af Kahatítaniðjum og Kóraíta-
niðjum, til þess að lofa Jahve, Guð Ísraels, með afarhárri röddu. 20 Og
næsta morgun tóku þeir sig upp í býtið og fóru til Tekóa-eyðimerkur,

---

**10:** 5 Mós. 17, 8. — **20, 3:** Esr. 8, 21. **6:** 1 Kron. 29, 12. **9:** kap. 6, 24 n. 1 Kong. 8, 33 n. **10:** 5 Mós. 2, 4. 5. 9. 19. **12:** Sálm. 123, 1 n. **17:** 2 Mós. 14, 13.

og er þeir fóru út, gekk Jósafat fram og mælti: Heyrið mig, þér Júda-
menn og Jerúsalem-búar! Treystið Jahve, Guði yðar, þá munuð þér fá
staðist, trúið spámönnum hans, þá munuð þér giftudrjúgir verða. [21] Síðan
réðst hann um við lýðinn og skipaði söngvara Jahve til handa, að
þeir skyldu hefja lofsöngva í helgum skrúða, þá er þeir færu út á undan
hermönnunum, og segja: Lofið Jahve, því að miskunn hans varir að
eilífu. [22] En er þeir hófu fagnaðarópið og lofsönginn, setti Jahve laun-
sátur móti Ammónítum, Móabítum og Seírfjalla-búum, er fóru í móti
Júda, og þeir biðu ósigur. [23] Ammónítar og Móabítar hófust gegn Seír-
fjalla-búum til þess að gjöreyða þeim og tortíma, og er þeir höfðu gjör-
sigrað Seír-búa, þá hjálpuðu þeir til að tortíma hver öðrum. [24] Og er
Júdamenn komu á hæðina, þaðan er sjá mátti yfir eyðimörkina og
lituðust um eftir mannfjöldanum, sjá, þá voru þeir hnignir dauðir til
jarðar og enginn hafði undan komist. [25] En Jósafat kom með mönnum
sínum til þess að taka af þeim herfang; fundu þeir afarmikið af fénaði
og munum og klæðum og dýrum áhöldum, og rændu handa sér svo
miklu, að þeir gátu eigi borið. Og þeir voru þrjá daga að taka af þeim
herfang, því að mikið var af því. [26] En á fjórða degi söfnuðust þeir
saman í Lofgjörðardal, því að þar lofuðu þeir Jahve, fyrir því heitir
sá staður Lofgjörðardalur fram á þennan dag. [27] Síðan sneru allir Júda-
menn og Jerúsalem-búar, og Jósafat fremstur í flokki, með fögnuði á
leið til Jerúsalem, því að Jahve hafði veitt þeim fögnuð yfir óvinum
þeirra. [28] Og þeir héldu inn í Jerúsalem, í hús Jahve, með hörpum,
gígjum og lúðrum. [29] En ótti við Guð kom yfir öll heiðnu ríkin, er
menn fréttu, að Jahve hefði barist við óvini Ísraels. [30] Og friður var í
ríki Jósafats, og Guð hans veitti honum frið alt um kring.
[31] Og Jósafat ríkti yfir Júda. Hann var þrjátíu og fimm ára gam-
all, þá er hann varð konungur, og tuttugu og fimm ár ríkti hann í
Jerúsalem. En móðir hans hét Asúba Silhídóttir. [32] Og hann fetaði
í fótspor Asa föður síns og veik eigi frá þeim, með því að hann gjörði
það sem rétt var í augum Jahve. [33] Þó voru hæðirnar ekki afnumdar
og enn þá sneri lýðurinn eigi hjörtum sínum til Guðs feðra þeirra.
[34] En það, sem meira er að segja um Jósafat, er frá upphafi til enda
ritað í sögu Jehú Hananísonar, sem tekin er upp í bók Ísraels-konunga.
[35] Eftir þetta gjörði Jósafat Júda-konungur samband við Ahasja
Ísraels-konung; hann breytti óguðlega. [36] En Jósafat gjörði samband
við hann til þess að gjöra skip, er færu til Tarsis, og þeir gjörðu skip
í Ezjón-Geber. [37] Þá spáði Elíeser Dódavahúson frá Maresa gegn
Jósafat og mælti: Sakir þess að þú gjörðir samband við Ahasja, ónýtir
Jahve fyrirtæki þitt. Og skipin brotnuðu og gátu eigi farið til Tarsis.
21 Og Jósafat lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var grafinn
hjá feðrum sínum í Davíðsborg. Og Jóram sonur hans tók ríki
eftir hann.

### Frá Jóram.

[2] Jóram átti bræður, sonu Jósafats: Asarja, Jehíel, Sakaría, Asarja,
Míkael og Sefatja; allir þessir voru synir Jósafats Ísraels-konungs. [3] Og
faðir þeirra hafði gefið þeim miklar gjafir í silfri og gulli og skartgrip-
um, svo og kastalaborgir í Júda, en konungdóminn fékk hann Jóram
í hendur, því að hann var frumgetningurinn. [4] En er Jóram hafði náð
völdum yfir ríki föður síns og var orðinn fastur í sessi, þá lét hann

---

**20:** Jes. 7, 9. **28:** Dóm. 7, 22. 1 Sam. 14, 20. **29:** kap. 14, 14; 17, 10. **30:** kap. 14, 6; 15, 15. **31:** 1 Kong. 22, 42 n. **34:** kap. 19, 2. **37:** 1 Kong. 22, 49. — **21, 1:** 1 Kong. 22, 50.

drepa alla bræður sína og auk þess nokkura af höfðingjum Ísraels með
sverði. [5] Jóram var þrjátíu og tveggja ára gamall, þá er hann varð
konungur, og átta ár ríkti hann í Jerúsalem. [6] Og hann fetaði í fót-
spor Ísraels-konunga, eins og Akabs ætt gjörði, því að hann var kvænt-
ur dóttur Akabs. Þannig gjörði hann það, sem ilt var í augum Jahve.
[7] En Jahve vildi eigi afmá ætt Davíðs, sakir sáttmála þess, er hann
hafði gjört við Davíð, og samkvæmt því, er hann hafði heitið, að gefa
honum og niðjum hans lampa alla daga.
[8] Á hans dögum brutust Edómítar undan yfirráðum Júda og tóku
konung yfir sig. [9] Þá fór Jóram með höfðingjum sínum og öllu vagn-
liðinu yfir til Zaír, og hann tók sig upp um nóttina og barði á Edóm-
ítum, sem héldu honum í herkví, svo og á foringjum vagnliðsins.
[10] Þannig brutust Edómítar undan yfirráðum Júda og hafa aldrei lotið
þeim síðan. Þá brauzt og Líbna um sama leyti undan yfirráðum hans,
af því að hann hafði yfirgefið Jahve, Guð feðra sinna. [11] Einnig hann
gjörði hæðir í Júdaborgum, ginti Jerúsalem-búa til skurðgoðadýrkunar
og tældi Júda. [12] Þá kom til hans bréf fra Elía spámanni, er svo hljóð-
aði: Svo segir Jahve, Guð Davíðs forföður þíns: Sakir þess að þú fet-
aðir eigi í fótspor Jósafats föður þíns og Asa Júda-konungs, [13] heldur
fetaðir í fótspor Ísraels-konunga og gintir Júda og Jerúsalem-búa til
skurðgoðadýrkunar, eins og Akabs ætt ginti menn til skurðgoða-
dýrkunar, og lézt, auk þessa, drepa bræður þína, ættmenn þína,
er betri voru en þú, [14] þá mun Jahve ljósta lýð þinn, sonu þína og
konur og alla eign þína áfelli miklu. [15] En sjálfur munt þú taka sjúk-
leik, iðrakvöl, unz iður þín loks falla út af sjúkdóminum. [16] Og Jahve
æsti reiði Filista og Araba, þeirra er búa hjá Blálendingum, gegn Jóram,
[17] svo að þeir fóru herför gegn Júda, brutust inn og höfðu burt með
sér að herfangi alt fémætt, er var í konungshöllinni, og auk þess sonu
hans og konur. Varð enginn eftir af sonum hans nema Jóahas, er var
yngstur sona hans. [18] En ofan á alt þetta laust Jahve hann með ólækn-
andi iðrasjúkleik. [19] Og eftir alllangan tíma, að liðnum nær tveim árum,
féllu iður hans út af sjúkdóminum og dó hann eftir miklar þjáningar.
En þjóð hans gjörði ekkert bál honum til heiðurs eins og feðrum hans.
[20] Hann var þrjátíu og tveggja ára gamall, þá er hann varð konungur
og átta ár ríkti hann í Jerúsalem. Fór hann svo, að enginn óskaði hans
aftur, og var hann jarðaður í Davíðsborg, þó eigi í konungagröfunum.

## Frá Ahasja.

22 Síðan tóku Jerúsalem-búar Ahasja, yngsta son hans, til konungs
eftir hann, því að ræningjaflokkurinn, er komið hafði til her-
búðanna ásamt Aröbunum, hafði drepið alla þá, er eldri voru, og þannig
tók Ahasja ríki, sonur Jórams Júda-konungs. [2] Ahasja var fjörutíu og
tveggja ára gamall, þá er hann varð konungur, og eitt ár ríkti hann í
Jerúsalem. En móðir hans hét Atalía, sonardóttir Omrí. [3] Hann fetaði
líka í fótspor Akabs ættar, því að móðir hans fékk hann til óguðlegs
athæfis með ráðum sínum. [4] Og hann gjörði það sem ilt var í augum
Jahve, eins og ættmenn Akabs, því að þeir voru ráðgjafar hans eftir
dauða föður hans, sjálfum honum til tjóns. [5] Að þeirra ráðum var það
og, að hann fór herför með Jóram Akabssyni Ísraels-konungi í móti
Hasael Sýrlands-konungi, til Ramót í Gíleað, en Sýrlendingar særðu
Jóram. [6] Þá sneri hann aftur til þess að láta græða sár sín í Jesreel,
þau er hann hafði fengið við Rama, þá er hann barðist við Hasael

---

**5:** 2 Kong. 8, 17 n. **7:** 1 Kong. 11, 36. **10:** 2 Kong. 8, 22. **19:** kap. 16, 14. **20:** kap. 24, 25. — **22, 1:** 2 Kong. 8, 24. 2 Kron. 21, 16. 17. **2:** 2 Kong. 8, 26. **5:** 2 Kong. 8, 28.

Sýrlands-konung. En Ahasja Jóramsson Júda-konungur fór ofan til
Jesreel til þess að vitja um Jóram Akabsson, af því að hann lá sjúkur.
7 En það var að Guðs tilstilli, til hrakfara fyrir Ahasja, að hann fór til
Jórams. Þegar hann var þangað kominn, fór hann með Jóram á móti
Jehú Nimsísyni, er Jahve hafði smyrja látið til þess að afmá Akabs
ætt. 8 Og er Jehú háði dóm yfir Akabs ætt, hitti hann hershöfðingja
Júdamanna og bræðrasonu Ahasja, er þjónuðu Ahasja, og lét drepa þá.
9 Síðan lét hann leita Ahasja og var hann handtekinn, en hann hafði
falið sig í Samaríu. Var hann færður Jehú og drepinn. En síðan jörð-
uðu menn hann, því að þeir sögðu: Hann er sonur Jósafats, þess er
leitaði Jahve af öllu hjarta sínu. En enginn var sá af ætt Ahasja, er
fær væri um að taka við konungdómi.

## Frá Atalíu.

10 En er Atalía móðir Ahasja sá að sonur hennar var dauður, fór
hún til og lét drepa alla konungsætt Júda. 11 Þá tók Jósabat, dóttir
Jórams konungs, Jóas Ahasjason, og tók hann á laun úr hóp kon-
ungssonanna, er deyða átti, og fól hann og fóstru hans í svefnherberg-
inu. Þannig fól Jósabat, dóttir Jórams konungs, kona Jójada prests,
hann — því að hún var systir Ahasja — fyrir Atalíu, svo að hún lét
eigi drepa hann. 12 Og hann var hjá þeim á laun sex ár í musteri
23 Guðs, meðan Atalía ríkti yfir landinu. 1 En á sjöunda ári herti
Jójada upp hugann og tók hundraðshöfðingjana Asarja Jeró-
hamsson, Ísmael Jóhanansson, Asarja Óbeðsson, Maaseja Adajason og
Elísafat Síkrison sér að bandamönnum. 2 Fóru þeir um í Júda og
stefndu saman Levítunum úr öllum Júdaborgum, og ætthöfðingjum
Ísraels, og komu þeir til Jerúsalem. 3 Og allur söfnuðurinn gjörði sátt-
mála við konung í musteri Guðs. Og hann mælti til þeirra: Sjá, kon-
ungsson skal vera konungur, svo sem Jahve hefir heitið um niðja
Davíðs. 4 Svo skuluð þér gjöra: Þriðjungur yðar, prestanna og Levít-
anna, þér er heim farið hvíldardaginn, skuluð vera hliðverðir við
þröskulduna; 5 þriðjungur skal vera í konungshöllinni og þriðjungur í
Jesód-hliði, en almúgi skal vera í forgörðum musteris Jahve. 6 En í
musteri Jahve má enginn stíga fæti nema prestarnir og Levítar þeir,
er þjónustu gegna, þeir mega inn ganga, því að þeir eru helgaðir. En
allur annar lýður skal gæta fyrirmæla Jahve. 7 Og Levítarnir skulu
fylkja sér um konung, allir með vopn í hendi, og hver sá, er vill brjót-
ast inn í musterið, skal drepinn verða. Skuluð þér þannig vera með
konungi, þá er hann kemur heim og þá er hann fer út. 8 Levítarnir
og allir Júdamenn fóru með öllu svo sem Jójada prestur hafði um boðið,
sóttu hver sína menn, bæði þá, er heim fóru hvíldardaginn, og þá, er
út fóru hvíldardaginn, því að Jójada prestur hafði eigi látið flokkana
burt fara. 9 Og Jójada prestur fékk hundraðshöfðingjunum spjótin,
buklarana og skjölduna, er átt hafði Davíð konungur og í voru musteri
Guðs. 10 Og hann fylkti öllum lýðnum — hver maður hafði skotvopn
í hendi — alt í kring um konung, frá suðurhlið musterisins að norð-
urhlið musterisins, frammi fyrir altarinu og frammi fyrir musterinu.
11 Þá leiddu menn konungsson fram og settu á hann kórónuna, fengu
honum lögin og tóku hann til konungs, en Jójada og synir hans
smurðu hann og hrópuðu: Konungurinn lifi!
12 En er Atalía heyrði ópið í lýðnum og varðliðsmönnunum, og
hversu þeir fögnuðu konungi, þá kom hún til lýðsins í musteri Jahve.

---

**7:** 2 Kong. 9, 21. **8:** 2 Kong. 10, 13. 14. **9:** 2 Kong. 9, 27 n. 2 Kron. 17, 4. **10:**
2 Kong. 11, 1 n. — **23, 1:** 2 Kong. 11, 4 n. **11:** 5 Mós. 17, 18 n. 1 Sam. 10, 24.

[13] Sá hún þá konung standa við súlu sína við innganginn, og höfuðs-
mennina og lúðursveinana hjá konungi, og allan landslýðinn fagnandi
og blásandi í lúðrana, og söngvarana með hljóðfærunum, er gáfu merki
til fagnaðarópsins. Þá reif Atalía klæði sín og mælti: Samsæri, sam-
særi! [14] En Jójada prestur lét hundraðshöfðingjana, fyrirliða hersins,
ganga fram og mælti til þeirra: Leiðið hana út milli raðanna, og hver
sem fer á eftir henni skal drepinn með sverði. Því að prestur hafði
sagt: Drepið hana eigi í musteri Jahve. [15] Síðan lögðu menn hendur
á hana, og er hún var komin þangað, er leið liggur inn um hrossa-
hliðið að konungshöllinni, þá drápu þeir hana þar.
[16] Og Jójada gjörði sáttmála milli sín og alls lýðsins og konungs,
að þeir skyldu vera lýður Jahve. [17] Síðan fór allur lýðurinn inn í
musteri Baals og reif það niður. Ölturu hans og líkneskjur brutu þeir,
en Mattan, prest Baals, drápu þeir fyrir ölturunum. [18] Síðan setti Jó-
jada varðflokka við musteri Jahve, undir forustu Levíta-prestanna, er
Davíð hafði skipað í flokka til þjónustu við musteri Jahve, til þess að
bera fram brennifórnir Jahve eftir því sem ritað er í Móse-lögmáli,
með fögnuði og söng, samkvæmt fyrirmælum Davíðs. [19] Þá setti hann
hliðverði við hliðin á musteri Jahve, til þess að enginn skyldi inn kom-
ast, er á einhvern hátt væri óhreinn. [20] Síðan tók hann hundraðs-
höfðingjana, göfugmennin og yfirmenn lýðsins, svo og landslýðinn allan,
og fór með konung ofan frá musteri Jahve. Og er þeir voru komnir
inn í konungshöllina um efra hliðið, þá settu þeir konung í konungs-
hásætið. [21] Allur landslýður fagnaði og borgin sefaðist. En Atalíu
drápu þeir með sverði.

## Frá Jóas.

24 Jóas var sjö vetra gamall, þá er hann varð konungur, og
fjörutíu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Zibja
og var frá Beerseba. [2] Og Jóas gjörði það sem rétt var í augum Jahve
meðan Jójada prestur lifði. [3] Og Jójada tók tvær konur honum til
handa, og hann gat sonu og dætur. [4] En síðar ásetti Jóas sér að reisa
við musteri Jahve. [5] Stefndi hann þá saman prestunum og Levítunum
og sagði við þá: Farið um Júdaborgir og safnið fé úr öllum Ísrael,
til þess að gjöra við musteri Guðs yðar, og skuluð þér vinda bráðan
bug að erindi þessu. En Levítarnir fóru að engu ótt. [6] Þá kallaði
konungur Jójada æðstaprest og sagði við hann: Hvers vegna hefir þú
eigi annast um að Levítarnir heimti inn úr Júda og Jerúsalem skatta
þá, er Móse, þjónn Jahve, lagði á Ísraelssöfnuð til lögmálstjaldsins?
[7] Því að illkvendið Atalía og synir hennar hafa brotist inn í musteri
Guðs og þar á ofan eytt öllum helgigjöfum musteris Jahve í Baalana.
[8] Síðan gjörðu menn kistu að boði konungs og settu hana fyrir utan
hliðið á musteri Jahve. [9] Var þá kunngjört í Júda og Jerúsalem, að
færa skyldi Jahve skatt þann, er Móse, þjónn Guðs, hafði lagt á Ísrael
í eyðimörkinni. [10] Fögnuðu þá allir höfuðsmennirnir og allur lýðurinn
og komu með skattinn og lögðu í kistuna, unz hún var full. [11] Og í
hvert sinn, er hann lét Levítana fara með kistuna til umsjónarmanns
konungs, þegar þeir sáu að féð var mikið orðið, þá kom kanzlari
konungs og umboðsmaður æðsta prestsins; tæmdu þeir kistuna og fóru
síðan aftur með hana á sinn stað. Gjörðu þeir svo dag eftir dag og
söfnuðu ógrynni fjár. [12] Og konungur og Jójada fengu það verkstjór-
unum, er stóðu fyrir vinnunni við musteri Jahve, en þeir leigðu stein-

---

**15:** Nehem. 3, 28. **18:** 1 Kron. 24, 3 n. — **24, 1:** 2 Kong. 11, 21; 12, 1 n. **6:** 2 Mós. 30, 12. 13.

höggvara og trésmiði til þess að reisa við musteri Jahve, svo og járn-
smiði og eirsmiði til þess að gjöra við musteri Jahve. [13] Og verkstjór-
arnir unnu, svo að viðgjörðinni miðaði áfram hjá þeim, og færðu þeir
musteri Guðs aftur í gott lag eftir ákveðnu máli og gengu vel frá því.
[14] Og er þeir höfðu lokið því, færðu þeir konungi og Jójada afganginn
af fénu, og voru af því gjörð áhöld fyrir hús Jahve — áhöld til guðs-
þjónustu og fórnfæringa, skálar og gull- og silfuráhöld.
Og brennifórnir voru færðar í musteri Jahve alla æfi Jójada.
[15] En Jójada varð gamall og saddur lífdaga og hann dó; var hann
hundrað og þrjátíu ára gamall, er hann dó. [16] Og hann var grafinn í
Davíðsborg hjá konungunum, því að hann hafði breytt vel í Ísrael,
svo og gagnvart Guði og musteri hans.
[17] En eftir andlát Jójada komu höfuðsmenn Júda og lutu konungi,
og hlýddi þá konungur á þá. [18] Og þeir yfirgáfu musteri Jahve, Guðs
feðra sinna, og þjónuðu asérunum og líkneskjunum. Kom þá reiði
yfir Júda og Jerúsalem fyrir þessa sök þeirra. [19] Og hann sendi spá-
menn meðal þeirra, til þess að snúa þeim aftur til Jahve; þeir áminntu
þá, en þeir gáfu því engan gaum. [20] En andi Guðs hreif Sakaría, son
Jójada prests, svo að hann gekk fyrir lýðinn og mælti til þeirra: Svo
segir Guð: Hvers vegna rjúfið þér boðorð Jahve og sviftið yður allri
hamingju? Sakir þess að þér hafið yfirgefið Jahve, þá yfirgefur hann
yður. [21] Þá sórust þeir saman gegn honum og lömdu hann grjóti að
boði konungs í forgarði musteris Jahve. [22] Og Jóas konungur mintist
eigi ástar þeirrar, er Jójada faðir hans hafði sýnt honum, heldur lét
drepa son hans. En hann mælti í andarslitrunum: Jahve sér það og
mun hegna!
[23] Og er ár var liðið, fór her Sýrlendinga í móti honum. En er
þeir komu til Júda og Jerúsalem, drápu þeir alla þjóðhöfðingja meðal
lýðsins, og sendu alt herfangið til konungsins í Damaskus. [24] Þótt her
Sýrlendinga væri fámennur, er þeir komu, gaf Jahve samt afarmikinn
her á vald þeirra, af því að þeir höfðu yfirgefið Jahve, Guð feðra sinna,
og yfir Jóas létu þeir ganga refsidóma. [25] En er þeir héldu burt frá
honum — þeir létu hann eftir fársjúkan —, þá gjörðu þjónar hans
samsæri gegn honum vegna blóðsakarinnar á syni Jójada prests og
drápu hann í rekkju hans. Lét hann þannig líf sitt og var hann graf-
inn í Davíðsborg, en eigi var hann grafinn í konungagröfunum. [26] En
þessir voru þeir, er samsæri gjörðu gegn honum: Sabad, sonur Símeatar
hinnar ammónsku, og Jósabad, sonur Simrítar hinnar móabítisku.
[27] En um sonu hans og upphæð skatts þess, er á hann var lagður, og
byggingu Guðs musteris, er ritað í skýringum konungabókarinnar. Og
Amazja sonur hans tók ríki eftir hann.

### Frá Amazja.

25 Amazja tók ríki, þá er hann var tuttugu og fimm ára gamall,
og tuttugu og níu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans
hét Jóaddan og var frá Jerúsalem. [2] Og hann gjörði það sem rétt var
í augum Jahve, þó eigi með óskiftu hjarta. [3] En er hann var orðinn
fastur í sessi, lét hann drepa þá menn sína, er drepið höfðu konung-
inn föður hans. [4] En börn þeirra lét hann ekki af lífi taka, heldur
fór eftir því sem ritað er í lögmálinu, í Mósebók, þar sem Jahve mælir
svo fyrir: Feður skulu ekki láta lífið ásamt börnunum, og börn skulu

---

**20:** kap. 15, 1. **21:** Matt. 23, 35. **25:** 2 Kong. 12, 20 n. 2 Kron. 21, 20. **27:** 2 Kong. 14, 1. — **25, 1:** 2 Kong. 14, 2 n. **4:** 5 Mós. 24, 16.

ekki láta lífið ásamt feðrunum, heldur skal hver láta lífið fyrir sína
eigin synd.
5 Og Amazja stefndi Júdamönnum saman og skipaði þeim niður
eftir ættum, eftir þúsundhöfðingjum og hundraðshöfðingjum úr öllum
Júda og Benjamín. Síðan kannaði hann þá, tvítuga og þaðan af eldri,
og komst að raun um að þeir voru þrjú hundruð þúsund einvalaliðs,
herfærir menn, er borið gátu spjót og skjöld. 6 Hann tók og á mála
hundrað þúsund kappa af Ísrael fyrir hundrað talentur silfurs. 7 En
guðsmaður nokkur kom til hans og mælti: Þú konungur! Eigi skyldi Ís-
raelsher fara með þér, því að Jahve er eigi með Ísrael, með neinum
af Efraímsniðjum, 8 heldur skalt þú fara einn saman; gakk þú öruggur
til bardaga, annars kann Guð að láta þér veita miður fyrir óvinum
þínum, því að það er á Guðs valdi að veita fulltingi og láta veita
miður. 9 Amazja svaraði guðsmanninum: Hvernig á þá að fara með
þessar hundrað talentur, er eg hefi gefið Ísraelshersveitinni? Guðsmað-
urinn svaraði: Það er á valdi Jahve að gefa þér miklu meira en það.
10 Þá skildi Amazja frá hersveitina, er komin var til hans úr Efraím,
til þess að þeir skyldu halda heimleiðis. Urðu þeir þá sárreiðir Júda-
mönnum og sneru heimleiðis ofsareiðir. 11 En Amazja herti upp hug-
ann, fór með menn sína, hélt til Saltdals og vann sigur á Seirítum,
tíu þúsundum manns. 12 En aðra tíu þúsund handtóku Júdamenn lif-
andi, fóru þeir með þá fram á klettasnös og hrundu þeim ofan af
klettasnösinni, svo að brotnaði í þeim hvert bein. 13 En þeir af her-
sveitinni, er Amazja hafði látið aftur hverfa, svo að þeir eigi máttu fara
með honum til bardagans, þeir réðust inn í Júdaborgir, frá Samaríu
til Bet-Hóron, drápu þar þrjú þúsund manns og rændu miklu herfangi.
14 En er Amazja var kominn heim eftir sigurinn yfir Edómítum,
þá hafði hann með sér guði Seiríta og setti þá upp hjá sér svo sem guði;
laut hann þeim og brendi reykelsi þeim til handa. 15 Þá varð Jahve
reiður Amazja og hann sendi spámann til hans. Hann mælti til hans:
Hvers vegna leitar þú guða þjóðar þessarar, er eigi gátu frelsað þjóð sína
úr hendi þinni? 16 En er hann talaði til hans, þá mælti konungur við
hann: Höfum vér gjört þig að ráðgjafa konungs? Hættu, eða þú verður
barinn. Þá hætti spámaðurinn og mælti: Nú veit eg, að Guð hefir af-
ráðið að tortíma þér, fyrst þú breyttir svo og vilt eigi hlýða á ráð mitt.
17 Síðan réð Amazja Júda-konungur ráðum sínum og gjörði menn
á fund Jóasar Jóahassonar, Jehúsonar, Ísraels-konungs með svolátandi
orðsending: Nú skulum við reyna með okkur. 18 Þá sendi Jóas Ísraels-
konungur Amazja Júda-konungi þau andsvör: Þistillinn á Líbanon
gjörði sedrustrénu á Líbanon svolátandi orðsending: Gef þú syni mín-
um dóttur þína að konu. En villidýrin á Líbanon gengu yfir þistilinn
og tróðu hann sundur. 19 Þú hugsar: Eg hefi unnið mikinn sigur á
Edómítum, og þú hefir fylst ofmetnaði. Sit þú nú kyrr heima! Hví
vilt þú egna ógæfuna sjálfum þér og Júda til falls? 20 En Amazja gaf
þessu engan gaum, því að svo var til stilt af Guði, til þess að ofur-
selja þá fjandmönnunum, af því að þeir höfðu leitað Edóm-guða. 21 Þá
fór Jóas Ísraels-konungur af stað, og varð fundur þeirra, hans og
Amazja Júda-konungs, í Bet-Semes, er liggur undir Júda. 22 Beið Júda
þar ósigur fyrir Ísrael, og flýðu þeir hver til síns heima. 23 En Jóas Ísraels-
konungur tók höndum Amazja Júda-konung, son Jóasar Jóahassonar,
í Bet-Semes, og fór með hann til Jerúsalem. Hann braut niður múra
Jerúsalem, frá Efraímhliði alt að hornhliðinu, fjögur hundruð álnir.
24 Því næst tók hann alt gull og silfur og öll áhöld, er fundust í musteri

---

11: 2 Kong. 14, 7. 17: 2 Kong. 14, 8 n. 18: Dóm. 9, 14. 19: kap. 26, 16. 23: 2
Kong. 14, 13.

Guðs hjá Óbeð-Edóm, svo og fjársjóðu konungshallarinnar og gíslana,
og sneri síðan aftur heim til Samaríu.
25 En Amazja Jóasson Júda-konungur lifði fimtán ár eftir dauða
Jóasar Jóahassonar Ísraels-konungs. 26 En það, sem meira er að segja
um Amazja, er frá upphafi til enda ritað í bók Júda- og Ísraels-kon-
unga. 27 Og upp frá því er Amazja veik frá Jahve, gjörðu menn sam-
særi gegn honum í Jerúsalem. Flýði hann þá til Lakís, en þeir sendu
á eftir honum til Lakís og létu drepa hann þar. 28 Fluttu þeir hann
síðan á hestum, og var hann grafinn hjá feðrum sínum í Davíðsborg.

### Frá Ússía (Asarja).

26 Þá tók allur Júda-lýður Ússía, þótt hann væri eigi nema sex-
tán vetra gamall, og gjörði hann að konungi í stað Amazja föð-
ur hans. 2 Hann víggirti Elót og vann hana aftur undir Júda, eftir að
konungurinn var lagstur til hvíldar hjá feðrum sínum.
3 Ússía var sextán vetra gamall, þá er hann varð konungur, og
fimtíu og tvö ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét Jekolja
og var frá Jerúsalem. 4 Og hann gjörði það sem rétt var í augum
Jahve, með öllu svo sem gjört hafði Amazja faðir hans.
5 Hann leitaði Guðs kostgæfilega, meðan Sakaría var á lífi, er fræddi
hann í guðsótta, og meðan hann leitaði Jahve, veitti Guð honum gengi.
6 Hann fór í hernað og herjaði á Filista, reif niður múrana í Gat og
múrana í Jabne og múrana í Asdod, og reisti borgir í Asdodhéraði og
Filistalandi. 7 Og Guð veitti honum gegn Filistum og Aröbum, þeim er
bjuggu í Gúr-Baal, og gegn Meúnítum. 8 Ammónítar færðu og Ússía
skatt, og frægð hans barst alt til Egiptalands, því að hann varð mjög
voldugur. 9 Og Ússía reisti turna í Jerúsalem, á hornhliðinu, á dal-
hliðinu og í króknum og víggirti þá. 10 Hann reisti og turna í eyði-
mörkinni, og lét höggva út fjölda af brunnum, því að hann átti stórar
hjarðir, bæði á láglendinu og á sléttunni, svo og akurmenn og vín-
garðsmenn í fjöllunum og á Karmel, því að hann hafði mætur á land-
búnaði.
11 Ússía hafði og her, er gegndi herþjónustu og fór í hernað í flokk-
um, allir þeir, er Jeíel ritari og Maaseja tilsjónarmaður höfðu kannað
undir umsjón Hananja, eins af höfuðsmönnum konungs. 12 Ætthöfð-
ingjarnir, kapparnir, voru alls tvö þúsund og sex hundruð að tölu.
13 En undir þeim stóð her, er í voru þrjú hundruð og sjö þúsund og
fimm hundruð manns, er intu herþjónustu af hendi af mestu hreysti,
til þess að veita konungi gegn fjandmönnunum. 14 Fékk Ússía þeim,
öllum hernum, skjöldu, spjót, hjálma, panzara, boga og slöngusteina.
15 Þá lét hann og gjöra í Jerúsalem vélar með miklum hagleik; skyldu
þær vera í turnunum og hornunum, til að skjóta með örvum og stór-
um steinum. Og frægð hans barst til fjarlægra landa, því að honum
hlotnaðist dásamlegt liðsinni, unz hann var voldugur orðinn.
16 En er hann var voldugur orðinn, varð hann drembilátur, og
það svo, að hann aðhafðist óhæfu og braut á móti Jahve, Guði sínum,
er hann gekk inn í musteri Jahve til þess að brenna reykelsi á reykelsis-
altarinu. 17 Gekk þá Asarja prestur á eftir honum og með honum átta-
tíu duglegir prestar Jahve. 18 Þeir stóðu í móti Ússía konungi og sögðu
við hann: Það er eigi þitt, Ússía, að brenna reykelsi fyrir Jahve,
heldur prestanna, niðja Arons, er vígðir eru til þess að færa reykelsis-
fórnir. Far þú út úr helgidóminum, því að þú ert brotlegur orðinn,

---

**24:** 1 Kron. 26, 15. — **26, 1:** 2 Kong. 14, 21 n. 15, 1 n. **8:** kap. 17, 11. **9:** Nehem. 3, 19. 24. **17:** 1 Kron. 6, 10. **18:** 4 Mós. 18, 7.

og verður þér það eigi til sæmdar fyrir Jahve Guði. 19 En Ússía reiddist,
þar sem hann hélt á reykelsiskerinu í hendinni til þess að færa reyk-
elsisfórn, og er hann reiddist prestunum, brauzt líkþrá út á enni hon-
um að prestunum ásjáandi í musteri Jahve, við reykelsisaltarið. 20 Og
er Asarja höfuðprestur og allir prestarnir litu á hann, þá var hann
líkþrár á enninu. Ráku þeir hann þá út þaðan, og sjálfur flýtti hann
sér og í burt, því að Jahve hafði lostið hann.
21 Þannig varð Ússía konungur líkþrár til dauðadags. Bjó hann
kyrr í höll sinni sem líkþrár, því að hann var útilokaður frá musteri
Jahve, en Jótam sonur hans veitti forstöðu konungshöllinni og dæmdi
mál landsmanna.
22 En það, sem meira er að segja um Ússía, hefir Jesaja Amozson
spámaður ritað frá upphafi til enda. 23 Og Ússía lagðist til hvíldar hjá
feðrum sínum, og var grafinn hjá feðrum sínum á bersvæði hjá kon-
ungagröfunum, því að menn sögðu: Hann er líkþrár! Og Jótam sonur
hans tók ríki eftir hann.

### Frá Jótam.

27 Jótam var tuttugu og fimm ára gamall, þá er hann varð kon-
ungur, og sextán ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans hét
Jerúsa Zadóksdóttir. 2 Hann gjörði það sem rétt var í augum Jahve,
með öllu svo sem gjört hafði Ússía faðir hans; þó fór hann eigi inn í
musteri Jahve. En lýðurinn aðhafðist enn óhæfu. 3 Hann reisti
efra hliðið á musteri Jahve, og af Ófel-múr bygði hann mikið. 4 Þá
reisti hann og borgir í Júdafjöllum, og í skógunum reisti hann hallir
og turna. 5 Hann átti og í ófriði við konunga Ammóníta og vann sig-
ur á þeim. Guldu Ammónítar honum það ár hundrað talentur silfurs,
tíu þúsund kór hveitis og tíu þúsund kór byggs. Færðu Ammónítar
honum þetta einnig annað og þriðja árið. 6 Varð Jótam þannig æ
voldugri, því að hann gekk veg sinn fyrir augliti Jahve, Guðs síns.
7 En það sem meira er að segja um Jótam og um alla bardaga
hans og fyrirtæki, það er ritað í bók Ísraels- og Júda-konunga. 8 Hann
var tuttugu og fimm ára gamall, þá er hann varð konungur, og sextán
ár ríkti hann í Jerúsalem. 9 Og Jótam lagðist til hvíldar hjá feðrum
sínum, og var grafinn í Davíðsborg. Og Akas sonur hans tók ríki
eftir hann.

### Frá Akas.

28 Akas var tvítugur að aldri, þá er hann varð konungur, og
sextán ár ríkti hann í Jerúsalem. En hann gjörði ekki það sem
rétt var í augum Jahve, svo sem Davíð forfaðir hans, 2 heldur fetaði
hann í fótspor Ísraels-konunga, og lét, auk þess, gjöra steypt líkneski,
Baölunum til handa. 3 Hann brendi og reykelsi í Hinnómssonardal,
lét sonu sína ganga gegnum eldinn, og drýgði þannig sömu svívírðing-
arnar og þær þjóðir, er Jahve hafði stökt burt undan Ísraelsmönnum.
4 Hann fórnaði og sláturfórnum og reykelsisfórnum á hæðunum og hól-
unum og undir hverju grænu tré. 5 Þá gaf Jahve, Guð hans, hann á
vald Sýrlands-konungi, og unnu þeir sigur á honum og höfðu burt með
sér hernumda fjöldamarga af mönnum hans, og fluttu til Damaskus.
Auk þessa var hann og gefinn Ísraels-konungi á vald, og vann hann
mikinn sigur á honum. 6 Og Peka Remaljason drap á einum degi í
Júda hundrað og tuttugu þúsundir, alt hrausta menn, af því að þeir

---

21: 2 Kong. 15, 5. 3 Mós. 13, 46. 22: Jes. 1, 1. — 27, 1: 2 Kong. 15, 33 n. 2: kap. 26, 16. 3: Nehem. 3, 26. — 28, 1: 2 Kong. 16, 1 n. 3: 5 Mós. 18, 9. 10.

höfðu yfirgefið Jahve, Guð feðra sinna. [7] En Síkrí, kappi úr Efraím,
drap Maaseja konungsson og Asríkam hallarstjóra og Elkana, er næst-
ur gekk konungi. [8] Og Ísraelsmenn höfðu burt með sér tvö hundruð
þúsund af herteknu fólki frá frændum sínum, konur, sonu og dætur,
tóku af þeim afarmikið herfang og fóru með herfangið til Samaríu.
[9] En þar var spámaður Jahve, er Óded hét. Hann fór út, gekk
fram fyrir herinn, er kom til Samaríu, og mælti til þeirra: Sjá, af því
að Jahve, Guð feðra yðar, var reiður Júdamönnum, gaf hann þá yður
á vald, svo að þér gátuð drepið þá niður með þeirri reiði, er nær til
himins. [10] Og nú hyggið þér að gjöra þessa Júdamenn og Jerúsalem-
búa að þrælum yðar og ambáttum. En eruð þér þá eigi sjálfir sekir
við Jahve, Guð yðar? [11] Hlýðið því á mig og sendið aftur fangana, er
þér hafið haft burt hernumda frá frændum yðar, því að hin brennandi
reiði Jahve vofir yfir yður.
[12] Þá risu nokkurir af höfðingjum Efraímíta, þeir Asarja Jóhanans-
son, Berekía Mesillemótsson, Hiskía Sallúmsson og Amasa Hadlaíson
upp í gegn þeim, er komu úr herförinni, [13] og sögðu við þá: Þér skul-
uð eigi fara með fangana hingað, því að þér ætlið að auka við syndir
vorar og sekt, í viðbót við sekt þá við Jahve, er á oss hvílir. Því að
sekt vor er mikil, og brennandi reiði vofir yfir Ísrael. [14] Þá sleptu
hermennirnir föngunum og herfanginu í viðurvist höfuðsmannanna og
alls safnaðarins. [15] Gengu þá til menn þeir, er til þess voru kvaddir með
*nafni*, og önnuðust fangana; klæddu þeir af herfanginu alla þá, er naktir
voru meðal þeirra; gáfu þeim klæði og skó og að eta og drekka og smurðu
þá; settu alla þá á asna, er uppgefnir voru, og fluttu þá til Jerikó,
pálmaborgarinnar, til frænda þeirra, og sneru síðan heim aftur til Samaríu.
[16] Um þessar mundir sendi Akas konungur til Assýríu-konunga til
þess að biðja sér liðveizlu. [17] Þá komu og Edómítar, unnu sigur á
Júdamönnum og færðu burt bandingja. [18] En Filistar réðust inn í
borgirnar á láglendinu og í Júda sunnanverðu, tóku Bet-Semes, Ajalon,
Gederót og Sókó og þorpin umhverfis hana, Timna og þorpin um-
hverfis hana og Gimsó og þorpin umhverfis hana, og settust þar að.
[19] Því að Jahve lægði Júda sakir Akasar Ísraels-konungs, því að hann
hafði framið gegndarlausa óhæfu í Júda og sýnt Jahve mikla ótrú-
mensku. [20] Þá fór Tilgat-Pilneser Assýríu-konungur í móti honum og
krepti að honum, en veitti honum eigi lið. [21] Því að Akas ruplaði
musteri Jahve og konungshöllina og höfuðsmennina, og gaf Assýríu-
konungi, en það kom honum að engu haldi. [22] Og um þær mundir,
sem hann krepti að honum, sýndi hann, Akas konungur, Jahve ótrú-
mensku enn af nýju. [23] Hann færði fórnir guðunum í Damaskus, þeim
er höfðu unnið sigur á honum, og mælti: Það eru guðir Sýrlands-kon-
unga, er hafa hjálpað þeim; þeim vil eg færa fórnir, til þess að þeir
hjálpi mér. En þeir urðu honum og öllum Ísrael til falls. [24] Og Akas
safnaði saman áhöldum Guðs húss og braut sundur áhöld Guðs húss;
hann lokaði og dyrunum á musteri Jahve, en gjörði sér ölturu í hverju
horni í Jerúsalem. [25] Og í sérhverri Júdaborg gjörði hann hæðir, til
þess að brenna reykelsi fyrir öðrum guðum, og egndi þannig Jahve,
Guð feðra sinna, til reiði.
[26] En það sem meira er að segja um hann og öll fyrirtæki hans,
bæði fyr og síðar, það er ritað í bók Júda- og Ísraels-konunga. [27] Og
Akas lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var grafinn í borginni, í
Jerúsalem, því að eigi var hann færður í grafir Ísraels-konunga. Og
Hiskía sonur hans tók ríki eftir hann.

---

**15:** Orðskv. 25, 21. 22. Róm. 12, 20. 5 Mós. 34, 3. **16:** 2 Kong. 16, 7. **27:** kap. 21, 20; 24, 25. 2 Kong. 16, 20.

## Frá Hiskía.

29 Hiskía varð konungur, þá er hann var tuttugu og fimm ára
gamall, og tuttugu og níu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir
hans hét Abía Sakaríadóttir. 2 Og hann gjörði það sem rétt var í aug-
um Jahve, að öllu svo sem gjört hafði Davíð forfaðir hans. 3 Í fyrsta
mánuði á fyrsta ríkisári sínu opnaði hann dyrnar að musteri Jahve,
og gjörði við þær. 4 Síðan lét hann prestana og Levítana koma og
stefndi þeim saman á auða svæðinu austan til. 5 Og hann sagði við
þá: Hlýðið á mig, þér Levítar! Helgið nú sjálfa yður og helgið must-
eri Jahve, Guðs feðra yðar, og útrýmið viðurstygðinni úr helgidómin-
um. 6 Því að feður vorir hafa sýnt ótrúmensku og gjört það sem ilt
var í augum Jahve, Guðs vors, og yfirgefið hann. Þeir sneru augliti
sínu burt frá bústað Jahve og sneru við honum bakinu. 7 Þá hafa
þeir og læst dyrunum að forsalnum, slökt á lömpunum, eigi brent
reykelsi og eigi fært Guði Ísraels brennifórn í helgidóminum. 8 Fyrir
því kom reiði Jahve yfir Júda og Jerúsalem, og hann lét þá sæta mis-
þyrmingu og gjörði þá að undri og athlægi, svo sem þér sjáið með
eigin augum. 9 Nú eru þá feður vorir fallnir fyrir sverðseggjum og
synir vorir og dætur og konur eru hernumdar fyrir þetta. 10 Nú hefi
eg einsett mér að gjöra sáttmála við Jahve, Guð Ísraels, til þess að
hin brennandi reiði hans megi hverfa frá oss. 11 Verið þá eigi skeyt-
ingarlausir, synir mínir! Því að yður hefir Jahve útvalið til þess að
standa frammi fyrir sér, til þess að þjóna sér, og til þess að þér skuluð
vera þjónustumenn hans og brenna reykelsi honum til handa.
12 Þá gengu fram Levítarnir Mahat Amasaíson og Jóel Asarjason
af Kahatítaniðjum; og af Meraríniðjum: Kís Abdíson og Asarja Jehal-
lelelsson; og af Gersónítum: Jóa Simmason og Eden Jóason; 13 af Elíz-
afansniðjum: Simrí og Jeíel; af Asafsniðjum: Sakaría og Mattanja; 14 af
Hemansniðjum: Jehíel og Símeí; af Jedútúnsniðjum: Semaja og Ússíel.
15 Stefndu þeir saman frændum sínum, helguðu sig og komu að boði kon-
ungs til þess að hreinsa musteri Jahve eftir fyrirmælum Jahve. 16 Og prest-
arnir fóru inn í musteri Jahve til þess að hreinsa það, og fóru með alt ó-
hreint, er þeir fundu í musteri Jahve, út í forgarð musteris Jahve; tóku Le-
vítarnir við því til þess að fara með það út í Kídron-læk. 17 Hófu þeir
helgunina hinn fyrsta dag hins fyrsta mánaðar, og á áttunda degi mán-
aðarins voru þeir komnir að forsal Jahve; helguðu þeir síðan musteri
Jahve á átta dögum, og á sextánda degi hins fyrsta mánaðar var verk-
inu lokið. 18 Gengu þeir þá inn fyrir Hiskía konung og sögðu: Vér
höfum hreinsað alt musteri Jahve og brennifórnaraltarið og öll áhöld
þess, svo og borðið fyrir raðabrauðin og öll áhöld þess. 19 Og öll þau
áhöld, er Akas konungur smáði af ótrúmensku sinni, höfum vér sett
fram og helgað; standa þau nú frammi fyrir altari Jahve.
20 Næsta morgun snemma stefndi Hiskía konungur saman höfuðs-
mönnum borgarinnar og fór upp í musteri Jahve. 21 Færðu þeir þá
sjö naut, sjö hrúta, sjö lömb og sjö geithafra í syndafórn fyrir ríkið og
fyrir helgidóminn og fyrir Júda. Og hann bauð niðjum Arons, prest-
unum, að færa hana á altari Jahve. 22 Slátruðu þeir þá nautunum og
tóku prestarnir við blóðinu og stöktu á altarið. Síðan slátruðu þeir
hrútunum og stöktu blóðinu á altarið. Þá slátruðu þeir lömbunum og
stöktu blóðinu á altarið. 23 Síðan færðu þeir syndafórnarhafrana fram
fyrir konung og söfnuðinn, og lögðu þeir hendur sínar á þá. 24 Síðan
slátruðu prestarnir þeim og færðu blóð þeirra í syndafórn á altarinu,
til þess að friðþægja fyrir allan Ísrael, því að konungur hafði fyrirskip-

**29, 1:** 2 Kong. 18, 1 n. **3:** kap. 28, 24. **7:** kap. 28, 24. **8:** 5 Mós. 28, 25. **9:** kap. 28, 5 n. **11:** 4 Mós. 3, 6 n. **19:** kap. 28, 24.

að brennifórnina og syndafórnina fyrir allan Ísrael. [25] Og hann setti
Levítana í musteri Jahve með skálabumbur, hörpur og gígjur, sam-
kvæmt fyrirmælum Davíðs og Gaðs, sjáanda konungs, og Natans spá-
manns. Því að þessi fyrirmæli voru að tilstilli Jahve, fyrir munn spá-
manna hans. [26] Stóðu þá Levítarnir með hljóðfæri Davíðs og prest-
arnir með lúðra. [27] Þá bauð Hiskía að láta brennifórnina á altarið,
og er brennifórnin var hafin, hófst og söngur Jahve og lúðrarnir kváðu
við undir forustu hljóðfæra Davíðs Ísraels-konungs. [28] Þá féll allur
söfnuðurinn fram, söngurinn kvað við og lúðrarnir gullu, alt þetta, þar
til er brennifórninni var lokið. [29] Og er fórnfæringunni var lokið,
beygði konungur kné sín og allir þeir, er með honum voru, og féllu
fram. [30] Bauð þá Hiskía konungur og höfuðsmennirnir Levítunum að
syngja Jahve lofsöng með orðum Davíðs og Asafs sjáanda, og sungu
þeir lofsönginn með gleði, hneigðu sig og féllu fram.
[31] Þá tók Hiskía til máls og sagði: Nú hafið þér vígt yður Jahve,
gangið nú fram og farið með sláturfórnir og þakkarfórnir í musteri
Jahve. Færði þá söfnuðurinn sláturfórnir og þakkarfórnir, og hver,
sem til þess var fús, færði brennifórnir. [32] En talan á brennifórnunum,
er söfnuðurinn færði, var: sjötíu naut, hundrað hrútar og tvö hundruð
lömb; var alt þetta ætlað til brennifórnar Jahve til handa. [33] Og þakk-
arfórnirnar voru sex hundruð naut og þrjú þúsund sauðir. [34] En prest-
arnir voru of fáir, svo að þeir gátu ekki flegið öll brennifórnardýrin,
hjálpuðu þá frændur þeirra, Levítarnir, þeim, unz starfinu var lokið og
prestarnir helguðu sig, því að Levítarnir höfðu einlægari áhuga á því
að helga sig en prestarnir. [35] Auk þessa voru færðar margar brenni-
fórnir, ásamt hinum feitu stykkjum heillafórnanna og dreypifórnum
þeim, er brennifórnunum fylgdu. Þannig var þjónustunni við musteri
Jahve komið í lag. [36] En Hiskía og allur lýðurinn gladdist yfir því, er
Guð hafði búið lýðnum, því að þessu var komið í kring samstundis.
30 Síðan sendi Hiskía menn til alls Ísraels og Júda og ritaði
einnig bréf til Efraíms og Manasse um að koma til musteris
Jahve í Jerúsalem, til þess að halda Jahve, Guði Ísraels, páska. [2] Réð
konungur það af og höfuðsmenn hans og allur söfnuðurinn í Jerúsalem,
að halda páska í öðrum mánuðinum. [3] Því að um þetta leyti* gátu
þeir eigi haldið þá, sakir þess að eigi höfðu nægilega margir prestar
helgað sig og lýðnum var eigi enn stefnt saman til Jerúsalem. [4] Leizt
konungi og söfnuðinum öllum þetta rétt, [5] og kváðu því svo á, að boða
skyldi um allan Ísrael frá Beerseba til Dan, að menn skyldu koma til
þess að halda Jahve, Guði Ísraels, páska í Jerúsalem, því að þeir
höfðu eigi haldið þá eins fjölmennir og fyrir var mælt. [6] Þá fóru hrað-
boðarnir með bréf frá konungi og höfuðsmönnum hans um allan Ísrael
og Júda, og mæltu svo eftir boði konungs: Þér Ísraelsmenn! Snúið
aftur til Jahve, Guðs Abrahams, Ísaks og Ísraels, til þess að hann snúi
sér að leifunum, er komist hafa undan af yður úr hendi Assýríu-kon-
ungs. [7] Verið eigi sem feður yðar og frændur, er sýndu ótrúmensku
Jahve, Guði feðra sinna, svo að hann ofurseldi þá eyðileggingunni, svo
sem þér sjáið. [8] Þverskallist því eigi svo sem feður yðar; réttið Jahve hönd-
ina og komið til helgidóms hans, er hann hefir helgað að eilífu, og
þjónið Jahve, Guði yðar, svo að hin brennandi reiði hans megi hverfa
frá yður. [9] Því að ef þér snúið yður til Jahve, þá munu bræður yðar
og synir finna miskunn hjá þeim, er hafa flutt þá burt hernumda, svo
að þeir megi hverfa heim aftur til þessa lands. Því að náðugur og

---

**25:** 1 Kron. 25, 1. **34:** kap. 30, 3. — **30, 2:** 4 Mós. 9, 10. 11. **3:** * Þ. e. í fyrsta mánuðinum.

miskunnsamur er Jahve, Guð yðar, og hann mun eigi snúa augliti sínu
frá yður, ef þér snúið yður aftur til hans.
10 Og hraðboðarnir fóru úr einni borginni í aðra í Efraím- og
Manasselandi og alt til Sebúlons, en menn hlógu að þeim og gjörðu gys
að þeim. 11 Þó lægðu sig nokkurir menn af Asser, Manasse og Sebúlon,
og komu til Jerúsalem. 12 Einnig í Júda réð hönd Guðs, svo að hann
gaf þeim eindrægni til þess að fylgja boði því, er konungur og höfuðs-
mennirnir höfðu látið út ganga að boði Jahve.
13 Síðan safnaðist fjöldi fólks saman í Jerúsalem, til þess að halda
hátíð hinna ósýrðu brauða í öðrum mánuði; var það afarmikill söfn-
uður. 14 Hófust þeir þá handa og afnumdu ölturin, er voru í Jerúsa-
lem, svo afnumdu þeir og öll reykelsisölturin og fleygðu í Kídron-læk.
15 Síðan slátruðu þeir páskalambinu á fjórtánda degi hins annars mán-
aðar, og prestarnir og Levítarnir blygðuðust sín og færðu brennifórnir
í musteri Jahve. 16 Og þeir gengu fram á sinn ákveðna stað, eins og
þeim var fyrir sett samkvæmt lögmáli guðsmannsins Móse; stöktu prest-
arnir blóðinu, er þeir höfðu tekið við því hjá Levítunum. 17 Því að
margir voru þeir í söfnuðinum, er eigi höfðu helgað sig, en Levítarnir
sáu um slátrun á páskalömbunum fyrir alla þá, er eigi voru hreinir,
til þess að helga þau Jahve. 18 Því að fjöldi lýðsins, margir úr Efraím,
Manasse, Íssakar og Sebúlon höfðu eigi hreinsað sig, og neyttu eigi
páskalambsins á þann hátt, sem fyrir er mælt, en Hiskía bað fyrir þeim
og sagði: Jahve, sem er góður, fyrirgefi 19 hverjum, er leggur hug á að
leita Guðs, Jahve, Guðs feðra sinna, enda þótt hann eigi sé svo hreinn,
sem sæmir helgidóminum. 20 Og Jahve bænheyrði Hiskía og þyrmdi
lýðnum.
21 Svo héldu þá Ísraelsmenn, þeir er voru í Jerúsalem, hátíð hinna
ósýrðu brauða í sjö daga með miklum fögnuði, og prestarnir og Le-
vítarnir lofuðu Jahve dag eftir dag af öllum mætti. 22 Og Hiskía talaði
vinsamlega við alla Levítana, er sýndu góðan skilning á þjónustu Jahve.
Átu þeir síðan hátíðarfórnina í sjö daga og slátruðu heillafórnum og lof-
uðu Jahve, Guð feðra sinna. 23 Og allur söfnuðurinn réð það af að halda
hátíð aðra sjö daga, og héldu þeir svo fagnaðarhátíð í sjö daga. 24 Því
að Hiskía Júda-konungur hafði gefið söfnuðinum þúsund naut og sjö
þúsund sauði, og höfuðsmennirnir höfðu gefið söfnuðinum þúsund naut
og tíu þúsund sauði. Og fjöldi presta helgaði sig. 25 Svo fagnaði þá
allur Júdasöfnuður og prestarnir og Levítarnir og allur söfnuður þeirra,
er komnir voru úr Ísrael, og útlendingarnir, er komnir voru úr Ísraels-
landi, og þeir er bjuggu í Júda. 26 Og mikill fögnuður var í Jerúsalem,
því að síðan á dögum Salómós sonar Davíðs, Ísraels-konungs, hafði
slíkt eigi borið við í Jerúsalem. 27 Og Levíta-prestarnir stóðu upp og
blessuðu lýðinn, og hróp þeirra var heyrt og bæn þeirra komst til hins
heilaga bústaðar hans, til himins.
31 Og er öllu þessu var lokið, fóru allir Ísraelsmenn, er þar voru
viðstaddir, til Júda-borga, brutu sundur merkissteinana, hjuggu
sundur asérurnar og rifu niður hæðirnar og ölturin í öllum Júda, Benja-
mín, Efraím og Manasse, unz þeim var gjöreytt. Fóru síðan allir Ísra-
elsmenn aftur til borga sinna, hver til síns óðals. 2 En Hiskía setti presta-
og Levítaflokkana, eftir flokkaskipun þeirra, — hvern eftir sinni presta- eða
Levíta-þjónustu við brennifórnir eða heillafórnir — til þess að þjóna og
syngja lof og þakkargjörð í herbúðahliðum Jahve. 3 Og skerfur sá, er
konungur lagði til af eigum sínum, gekk til brennifórnanna, til brenni-
fórnanna kvelds og morgna, svo og til brennifórnanna á hvíldardögunum,

10: kap. 36, 16. 24: kap. 35, 7. 8. — 31, 1: 5 Mós. 7, 5. 2 Kong. 18, 4. 3: 4
Mós. 28, 3 n.

tunglkomudögunum og löghátíðunum, samkvæmt því, sem ritað er í
lögmáli Jahve. 4 Og hann bauð lýðnum, Jerúsalem-búum, að gefa prest-
unum og Levítunum þeirra skerf, svo að þeir mættu halda fast við lög-
mál Jahve. 5 Og er þetta boð barst út, reiddu Ísraelsmenn fram ríku-
lega frumgróða af korni, aldinlegi, olíu, hunangi og öllum jarðargróða,
og færðu tíundir af öllu. 6 En Ísraelsmenn og Júdamenn, er bjuggu í
Júda-borgum, þeir færðu og tíundir af nautum og sauðum og tíundir af
helgigjöfunum, er helgaðar voru Jahve, Guði þeirra, og lögðu bing við
bing. 7 Tóku þeir að hrúga upp bingjunum í þriðja mánuði og luku
við það í sjöunda mánuði. 8 Kom þá Hiskía og höfuðsmennirnir, litu
á bingina og lofuðu Jahve og lýð hans Ísrael. 9 Og er Hiskía spurði
prestana og Levítana um bingina, 10 þá svaraði honum Asarja höfuð-
prestur af ætt Zadóks og sagði: Frá því er byrjað var á að færa gjafir
í musteri Jahve, höfum vér etið oss sadda og haft þó afarmikið afgangs,
því að Jahve hefir blessað lýð sinn, svo að vér höfum þessi kynstur afgangs.
11 Þá bauð Hiskía að gjöra skyldi klefa í musteri Jahve, og er svo var
gjört, 12 færðu menn þangað ráðvandlega gjafirnar og tíundirnar og
helgigjafirnar. Var Kananja Levíti umsjónarmaður yfir þeim, og Símeí
bróðir hans næstur honum, 13 en Jehíel, Asasja, Nahat, Asahel, Jerímót,
Jósabad, Elíel, Jismakja, Mahat og Benaja voru skipaðir Kananja og
Símeí bróður hans til aðstoðar við umsjónina eftir boði Hiskía kon-
ungs og Asarja, höfuðsmanns yfir musteri Guðs. 14 Og Kóre Jimnason
Levíti, hliðvörður að austanverðu, hafði umsjón með sjálfvilja-gjöfunum,
er færðar voru Guði, til þess að afhenda gjafir Jahve og hinar háhelgu
gjafir. 15 En undir honum stóðu: Eden, Minjamín, Jesúa, Semaja, Am-
arja og Sekanja, og skyldu þeir með samvizkusemi skifta með frændum
sínum í prestaborgunum, bæði eldri og yngri, eftir flokkum þeirra,
16 auk þeirra af karlkyni, er skráðir voru í ættartölur, þrevetrum og
þaðan af eldri, öllum þeim, er komu í musteri Jahve svo sem á þurfti
að halda dag hvern, til þess að rækja störf sín eftir flokkum samkvæmt
þjónustu sinni. 17 Og prestarnir voru skráðir í ættartölur eftir ættum,
svo og Levítarnir, tvítugir og þaðan af eldri, samkvæmt þjónustu þeirra
og flokkaskipun. 18 Voru þeir skráðir í ættartölur ásamt börnum þeirra,
konum, sonum og dætrum úr allri stéttinni, því að hinum helgu hlutum
átti að skifta ráðvandlega. 19 Auk þess höfðu prestarnir, niðjar Arons,
menn á lendum þeim, er voru á beitilöndunum, er lágu undir borgir
þeirra, í sérhverri borg, menn, er skráðir voru með nafni, og skyldu
þeir fá öllum karlmönnum af prestunum og öllum Levítunum, er skráðir
voru í ættartölur, sinn skerf. 20 Svo gjörði Hiskía í öllum Júda, og
hann gjörði það sem gott var og rétt og ráðvandlegt fyrir Jahve, Guði
hans. 21 Og í hverju því verki, er hann tók sér fyrir hendur viðvík-
jandi þjónustunni við musteri Guðs, og lögmálinu og boðinu um að
leita Guðs síns, breytti hann af heilum hug og varð auðnumaður.

32 Eftir þessa atburði og eftir að hann hafði sýnt trúmensku
þessa, kom Sanherib Assýríu-konungur. Hann réðst inn í Júda,
settist um víggirtar borgir og hugðist að ná þeim á sitt vald. 2 Og er
Hiskía varð þess vís, að Sanherib kæmi og ætlaði sér að ráða á Jerú-
salem, 3 þá réðst hann um við höfuðsmenn sína og kappa, að stemma
vatnslindirnar utanborgar, og veittu þeir honum stuðning. 4 Kom þá
saman fjöldi fólks og stemdu allar lindir og lækinn, er rann um mitt
landið, og sögðu: Hvers vegna ættu Assýríu-konungar að finna gnóttir
vatns, er þeir koma? 5 Hann herti því upp hugann, gjörði alstaðar
við múrinn, þar sem hann var brotinn niður, gekk upp á turnana og
ytri múrinn úti fyrir, víggirti Milló í Davíðsborg og lét gjöra afarmikið

32, 1: 2 Kong. 18, 13 n. Jes. 36, 1 n. 5: kap. 25, 23.

af skotvopnum og skjöldum. [6] Síðan skipaði hann herforingja yfir
lýðinn og stefndi þeim til sín á torginu við borgarhliðið, talaði vin-
samlega til þeirra og mælti: [7] Verið hughraustir og öruggir, óttist eigi
né hræðist Assýríu-konung og allan þann manngrúa, sem með honum
er, því að sá er meiri, sem með oss er, en með honum. [8] Því að hann
styður mannlegur máttur, en með oss er Jahve, Guð vor, til þess að
hjálpa oss og heyja orustur vorar. Og lýðurinn treysti á orð Hiskía
Júda-konungs.

[9] Eftir þetta sendi Sanherib Assýríu-konungur þjóna sína til Jerú-
salem — en sjálfur var hann hjá Lakís og alt lið hans hjá honum —
á fund Hiskía Júda-konungs og allra Júdamanna, þeirra er voru í
Jerúsalem, með svolátandi orðsending: [10] Svo segir Sanherib Assýríu-
konungur: Á hvað treystið þér, er þér sitjið innikreptir í Jerúsalem?
[11] Vissulega ginnir Hiskía yður, til þess að láta yður deyja úr hungri
og þorsta, er hann segir: Jahve, Guð vor, mun frelsa oss af hendi
Assýríu-konungs! [12] Hefir þá ekki Hiskía þessi afnumið hæðir hans og
ölturu, er hann bauð Júdamönnum og Jerúsalem-búum á þessa leið:
Þér eigið að falla fram fyrir einu altari, og á því einu megið þér
brenna reykelsi? [13] Vitið þér eigi hvað eg hefi gjört og feður mínir
við allar þjóðir í löndunum? Gátu þjóðguðir landanna frelsað lönd
þeirra af hendi minni? [14] Hver er sá af öllum guðum þessara þjóða,
sem feður mínir hafa gjöreytt, er hafi getað frelsað lýð sinn af hendi
minni, svo að yðar Guð geti frelsað yður af hendi minni? [15] Látið því
eigi Hiskía tæla yður né ginna á slíkan hátt. Trúið honum eigi!
Því að eigi hefir neinn guð nokkurrar þjóðar eða ríkis getað frelsað
lýð sinn af hendi minni eða feðra minna; hve miklu síður mun þá
yðar Guð frelsa yður af hendi minni?

[16] Og enn fleira töluðu þjónar hans gegn Jahve Guði og gegn
Hiskía þjóni hans. [17] Hann ritaði og bréf til þess að smána Jahve, Guð
Ísraels, og tala gegn honum, á þessa leið: Eins og þjóðguðir landanna
eigi frelsuðu þjóðir sínar af hendi minni, svo mun og Guð Hiskía
eigi frelsa sinn lýð af hendi minni. [18] Og þeir kölluðu með hárri
röddu á Júda-tungu til lýðsins í Jerúsalem, er var á múrunum, til
þess að gjöra þá hrædda og felmtsfulla, svo að þeir gætu náð borg-
inni, [19] og töluðu um Guð Jerúsalemborgar eins og um guði heiðnu
þjóðanna, sem eru handaverk manna.

[20] Þá er Hiskía konungur og Jesaja spámaður Amozson báðust
fyrir út af þessu, og hrópuðu til himins, [21] þá sendi Jahve engil, og
drap hann alla kappa, höfuðsmenn og herforingja í herbúðum Assýríu-
konungs, svo að hann sneri aftur með sneypu heim í land sitt. En er hann
kom í hof guðs síns, þá feldu hans eigin synir hann þar með sverði.

[22] Þannig frelsaði Jahve Hiskía og Jerúsalem-búa af hendi San-
heribs Assýríu-konungs og af hendi allra annara, og veitti þeim frið
alt um kring. [23] Og margir færðu Jahve gjafir til Jerúsalem, og Hiskía
Júda-konungi gersemar, og eftir þetta var hann frægur talinn meðal
allra þjóða.

[24] Um þessar mundir tók Hiskía sótt og var að dauða kominn.
Þá bað hann til Jahve, og talaði hann til hans og gaf honum tákn.
[25] En Hiskía endurgalt eigi velgjörð þá, er honum var sýnd, heldur
varð drembilátur, og kom því reiði yfir hann og yfir Júda og Jerú-
salem. [26] Þá lægði Hiskía dramb sitt, bæði hann og Jerúsalembúar,
og kom því reiði Jahve eigi yfir þá meðan Hiskía lifði.

**7:** 2 Kong. 6, 16. **8:** Jer. 17, 5. **18:** 2 Kong. 18, 33 n. 19, 12. **17:** 2 Kong. 19, 14.
**20:** 2 Kong. 19, 4. 15 n. **21:** 2 Kong. 19, 35 n. Jes. 37, 36 n. **24:** 2 Kong. 20, 1 n.
Jes. 38, 1 n.

27 Og Hiskía bjó við afarmikinn auð og sæmd. Hann lét gjöra
féhirzlur handa sér fyrir silfur og gull og dýra steina, svo og fyrir
kryddjurtir, skjöldu og alls konar verðmæta muni, 28 forðabúr fyrir korn-,
aldinlagar- og olíu-afurðirnar, svo og hús fyrir alls konar kvikfénað
og fjárborgir fyrir hjarðirnar. 29 Og hann lét gjöra borgir handa sér
og aflaði sér fjölda hjarða af sauðum og nautum, því að Guð veitti
honum afarmiklar eignir. 30 Hiskía þessi stemdi og efri uppsprettur
Gíhon-lindar, og veitti vatninu niður eftir að Davíðsborg vestanverðri,
og Hiskía varð auðnumaður í öllu því, er hann tók sér fyrir hendur.
31 Þess vegna gaf Guð hann í hendur sendimanna Babelhöfðingjanna,
er sendir voru til hans til þess að frétta um táknið, er orðið hafði í
landinu, aðeins til þess að reyna hann, svo að hann mætti fá að vita
um alt það, er honum bjó í huga.
32 En það sem meira er að segja um Hiskía og góðverk hans,
það er ritað í vitrun Jesaja Amozsonar spámanns, í bók Júda- og Ísraels-
konunga. 33 Og Hiskía lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum, og var
grafinn þar sem gengið er upp að gröfum Davíðsniðja, og allur Júda
og Jerúsalem-búar sýndu honum sæmd, er hann andaðist. Og Manasse
sonur hans tók ríki eftir hann.

## Frá Manasse.

33 Manasse var tólf ára gamall, þá er hann varð konungur, og
fimtíu og fimm ár ríkti hann í Jerúsalem. 2 Hann gjörði það
sem ilt var í augum Jahve, og drýgði þannig sömu svívirðingarnar sem
þær þjóðir, er Jahve hafði stökt burt undan Ísraelsmönnum. 3 Hann
reisti af nýju hæðirnar, er Hiskía faðir hans hafði rífa látið, reisti
Baölunum ölturu og lét gjöra asérur, dýrkaði allan himinsins her og
þjónaði þeim. 4 Hann reisti og ölturu í musteri Jahve, því er Jahve
hafði um sagt: Í Jerúsalem skal nafn mitt búa að eilífu! 5 Og hann
reisti ölturu fyrir allan himinsins her í báðum forgörðum musteris
Jahve. 6 Hann lét og sonu sína ganga gegnum eldinn í Hinnómssonar-
dal, fór með spár og fjölkyngi og töfra og skipaði særingamenn og
spásagna; hann aðhafðist margt það, sem ilt var í augum Jahve, til
þess að egna hann til reiði. 7 Og hann setti skurðgoðið, er hann hafði
gjöra látið, í musteri Guðs, er Guð hafði sagt um við Davíð og Salómó
son hans: Í þessu húsi og í Jerúsalem, sem eg hefi útvalið af öllum
ættkvíslum Ísraels, vil eg láta nafn mitt búa að eilífu. 8 Og eg vil eigi
framar láta Ísrael fara landflótta úr landi því, er eg gaf feðrum þeirra,
svo framarlega sem þeir gæta þess að breyta að öllu svo sem eg hefi
boðið þeim, að öllu eftir lögmáli því og lögum og ákvæðum, er gefin
voru fyrir Móse. 9 En Manasse leiddi Júda og Jerúsalem-búa afvega,
svo að þeir breyttu ver en þær þjóðir, er Jahve hafði eytt fyrir
Ísraelsmönnum.
10 Og Jahve talaði til Manasse og til lýðs hans, en þeir gáfu því
engan gaum. 11 Þá lét Jahve hershöfðingja Assýríu-konungs ráðast að
þeim; þeir tóku Manasse höndum með krókum, bundu hann eirfjötrum
og fluttu hann til Babel. 12 En er hann var í nauðum staddur, reyndi
hann að blíðka Jahve, Guð sinn, og lægði sig mjög fyrir Guði feðra
sinna. 13 Og er hann bað hann, þá bænheyrði Jahve hann. Hann
heyrði grátbeiðni hans og lét hann hverfa heim aftur til Jerúsalem í
ríki sitt. Komst þá Manasse að raun um, að Jahve er Guð.
14 Eftir þetta reisti hann ytri múr fyrir Davíðsborg að vestanverðu

31: 2 Kong. 20, 12 n. Jes. 39, 1 n. 5 Mós. 8, 2. — 33, 1: 2 Kong. 21, 1 n. 3: 2
Kong. 18, 4.

við Gíhon í dalnum, og þangað að, er gengið er inn í fiskhliðið, reisti
hann í kring um Ófel, og gjörði hann mjög háan. Hann setti og her-
foringja í allar kastalaborgir í Júda. 15 Þá útrýmdi hann og útlendu
guðunum og líkneskinu úr musteri Jahve, svo og öllum ölturunum, er
hann hafði reisa látið á musterisfjalli Jahve og í Jerúsalem, og fleygði
þeim út fyrir borgina. 16 En altari Jahve reisti hann við, og færði á
því heillafórnir og þakkarfórnir, og Júdamönnum bauð hann að þjóna
Jahve, Guði Ísraels. 17 En þó færði lýðurinn enn þá fórnir á hæðun-
um, en samt aðeins Jahve, Guði sínum.
18 En það sem meira er að segja um Manasse og bæn hans til
Guðs hans, svo og orð sjáandanna, er töluðu til hans í nafni Jahve,
Guðs Ísraels, það er ritað í sögu Ísraels-konunga. 19 En um bæn hans
og hvernig hann var bænheyrður, og um allar syndir hans og ótrú-
mensku, svo og um staðina, þar sem hann reisti hæðir og setti asérur
og líkneski, áður en hann lægði sig, um það er ritað í sögu sjáand-
anna. 20 Og Manasse lagðist til hvíldar hjá feðrum sínum og var jarð-
aður í höll sinni. Og Amón sonur hans tók ríki eftir hann.

## Frá Amón.

21 Amón hafði tvo um tvítugt, þá er hann varð konungur, og tvö
ár ríkti hann í Jerúsalem. 22 Og hann gjörði það sem ilt var í augum
Jahve, svo sem gjört hafði Manasse faðir hans. Öllum skurðgoðunum,
er Manasse faðir hans hafði gjöra látið, færði Amón margar fórnir og
þjónaði þeim. 23 En hann lægði sig eigi fyrir Jahve, svo sem gjört
hafði Manasse faðir hans, heldur jók hann á sök sína. 24 Og þjónar
hans gjörðu samsæri í gegn honum, og drápu hann í höll hans. 25 En
landslýðurinn drap alla mennina, er gjört höfðu samsæri gegn Amón
konungi. Síðan tók landslýðurinn Jósía son hans til konungs eftir hann.

## Frá Jósía.

34 Jósía var átta vetra gamall, þá er hann varð konungur, og þrjátíu
og eitt ár ríkti hann í Jerúsalem. 2 Og hann gjörði það sem rétt
var í augum Jahve og fetaði í fótspor Davíðs forföður síns og veik
hvorki af til hægri né vinstri.
3 Á áttunda ríkisári sínu, er hann sjálfur var enn ungur að aldri,
tók hann að leita Guðs Davíðs, forföður síns, og á tólfta ári tók hann
að rýma burt úr Júda og Jerúsalem fórnarhæðum og asérum, skurð-
goðum og líkneskjum. 4 Ölturu Baalanna voru rifin niður að hon-
um ásjáandi, og sólsúlurnar, er á þeim voru, hjó hann sundur, og
asérurnar og skurðgoðin og líkneskin braut hann sundur og muldi þau,
og stráði duftinu á grafir þeirra, er höfðu fært þeim fórnir. 5 Og bein
prestanna brendi hann á ölturum þeirra, og hreinsaði svo Júda og Jerú-
salem. 6 Og í borgum Manasse og Efraíms og Símeons og alt til Naftalí,
alt um kring í eyðiborgum þeirra, 7 reif hann niður ölturin, mölvaði
og muldi asérurnar og skurðgoðin, og hjó sundur sólsúlurnar í öllu
Ísraelslandi. Síðan sneri hann heim aftur til Jerúsalem.
8 Og á átjánda ríkisári hans, meðan hann var að hreinsa landið
og musterið, sendi hann Safan Azaljason og Maaseja borgarstjóra og
Jóak Jóahasson sagnameistara, til þess að láta gjöra við musteri Jahve,
Guðs síns. 9 Og er þeir komu til Hilkía æðsta prests, afhentu þeir fé
það, er fært hafði verið musteri Guðs, það er Levítarnir, þröskuldsverð-

---

21: 2 Kong. 21, 19 n. — **34, 1:** 2 Kong. 22, 1 n. **4:** 2 Kong. 23, 6. **5:** 2 Kong. 23, 20.

irnir, höfðu safnað af Manasse, Efraím og öllum öðrum Ísraelsmönnum,
og öllum Júda og Benjamín og Jerúsalem-búum. 10 Fengu þeir það í
hendur verkstjórunum, þeim er umsjón höfðu með musteri Jahve, en
þeir fengu það í hendur verkamönnunum, er unnu að því í musteri
Jahve að bæta skemdir og gjöra við musterið. 11 Fengu þeir það í
hendur trésmiðunum og byggingamönnunum, til þess að kaupa fyrir
höggna steina og viðu í tengibjálka, svo og til að fá viðu í hús þau, er
Júda-konungar höfðu látið falla. 12 Unnu mennirnir að verkinu upp á
æru og trú, en yfir þá voru settir til umsjónar þeir Jahat og Óbadía
Levítar af Meraríniðjum og Sakaría og Mesúllam af Kahatítaniðjum.
Og Levítarnir — hver sá, er kunni á hljóðfæri — 13 voru settir yfir
burðarmennina, og umsjónarmenn voru yfir öllum þeim, er nokkurt
starf höfðu á hendi. Nokkurir af Levítunum voru og ritarar og til-
sjónarmenn og hliðverðir.
14 En er þeir reiddu fram féð, er borið var í musteri Jahve, fann
Hilkía prestur lögmálsbók Jahve, er gefin var fyrir Móse. 15 Þá tók
Hilkía til máls og mælti við Safan kanzlara: Eg hefi fundið lögmáls-
bókina í musteri Jahve. Og Hilkía fékk Safan bókina. 16 Fór þá
Safan með bókina til konungs og skýrði honum jafnframt frá erindis-
lokum og mælti: Þjónar þínir hafa gjört alt það, er þeim var falið á
hendur. 17 Þeir hafa og afhent fé það, er var í musteri Jahve, og
fengið í hendur umsjónarmönnunum og verkstjórunum. 18 Og Safan
kanzlari sagði konungi frá og mælti: Hilkía prestur fékk mér bók.
Og Safan las í henni fyrir konungi.
19 En er konungur heyrði lögmálsorðin, reif hann klæði sín. 20 Og
konungur bauð þeim Hilkía, Ahikam Safanssyni, Abdón Míkajasyni,
Safan kanzlara og Asaja konungsþjóni á þessa leið: 21 Farið og gangið
til frétta við Jahve fyrir mig og fyrir leifarnar af Ísrael og Júda um
bókina, sem fundin er, því að mikil er heift Jahve, er hann hefir út-
helt yfir oss, af því að feður vorir hafa eigi gefið gætur að boði Jahve,
með því að gjöra að öllu svo sem skrifað er í bók þessari. 22 Fór þá
Hilkía með þeim, er konungur hafði til þess kvatt, til Huldu spákonu,
konu Sallúms Tókhatssonar, Hasrasonar, klæðageymis; bjó hún í Jerú-
salem í öðru borgarhverfi og töluðu þeir við hana um þetta.
23 Þá mælti hún við þá: Svo segir Jahve, Guð Ísraels: Segið mann-
inum, er sendi yður til mín: 24 Svo segir Jahve: Sjá, eg leiði ógæfu yfir
þennan stað og íbúa hans, allar þær formælingar, er ritaðar eru í bók-
inni, er lesin var fyrir Júda-konungi, 25 fyrir því að þeir hafa yfirgefið
mig og fært öðrum guðum reykelsisfórnir, til þess að egna mig til reiði
með öllum handaverkum sínum, þess vegna úthelti eg reiði minni yfir
þennan stað, og hún skal eigi slokna. 26 En segið svo Júda-konungi,
þeim er sendi yður til þess að ganga til frétta við Jahve: Svo segir Jahve,
Guð Ísraels: 27 Af því að hjarta þitt hefir komist við og þú hefir auð-
mýkt þig fyrir Guði, er þú heyrðir orð hans gegn þessum stað og íbú-
um hans, og af því að þú auðmýktir þig fyrir mér og reifst klæði þín
og grézt frammi fyrir mér, þá hefi eg bænheyrt þig, segir Jahve. 28 Sjá,
eg vil láta þig safnast til feðra þinna, að þú megir komast með friði í
gröf þína, og augu þín þurfi ekki að horfa upp á alla þá ógæfu, er eg
leiði yfir þennan stað. Fluttu þeir konungi svarið.
29 Þá sendi konungur og safnaði saman öllum öldungum Júda og
Jerúsalem. 30 Og konungur gekk upp í musteri Jahve og með honum
allir Júdamenn og Jerúsalem-búar, svo og prestarnir og Levítarnir og
allur lýðurinn, bæði gamlir og ungir, og hann las í áheyrn þeirra öll
orð sáttmálsbókarinnar, er fundist hafði í musteri Jahve. 31 Og kon-

---

**29:** 2 Kong. 23, 1 n.

ungur gekk á sinn stað og gjörði þann sáttmála frammi fyrir Jahve,
að fylgja Jahve og varðveita skipanir hans, fyrirmæli og lög af öllu
hjarta sínu og allri sálu sinni, til þess að breyta þannig eftir orðum
sáttmálans, þeim er rituð voru í þessari bók. [32] Og hann lét alla þá,
er voru í Jerúsalem og Benjamín, gangast undir sáttmálann, og Jerú-
salem-búar breyttu samkvæmt sáttmála Guðs, Guðs feðra þeirra. [33] En
Jósía afnumdi allar svívirðingar úr öllum héruðum Ísraelsmanna, og
þröngvaði öllum þeim, er voru í Ísrael, til þess að þjóna Jahve, Guði sínum.
Meðan hann var á lífi, viku þeir eigi frá því að fylgja Jahve, Guði feðra sinna.
35 Síðan hélt Jósía Jahve páska í Jerúsalem, og var páska-
lambinu slátrað hinn fjórtánda fyrsta mánaðar. [2] Þá setti hann
prestana til starfa þeirra og taldi hug í þá til þjónustu við must-
eri Jahve. [3] En við Levítana, er fræddu allan Ísrael og helgaðir
voru Jahve, sagði hann: Setjið örkina helgu í musterið, það er Salómó,
sonur Davíðs, Ísraels-konungur, lét reisa. Þér þurfið eigi framar að
bera hana á öxlunum. Þjónið nú Jahve, Guði yðar, og lýð hans Ísrael.
[4] Verið þá reiðubúnir eftir ættum yðar í flokkum yðar, samkvæmt reglu-
gjörð Davíðs Ísraels-konungs og samkvæmt konungsbréfi Salómós sonar
hans. [5] Skipið yður í helgidóminn eftir ættflokkum frænda yðar, leik-
mannanna, og fyrir hvern flokk skal vera ein sveit af Levítaættum.
[6] Slátrið síðan páskalambinu og helgið yður og tilreiðið það fyrir frændur
yðar, svo að þér breytið samkvæmt boði Jahve fyrir Móse.
[7] Og Jósía fékk leikmönnunum sauði og lömb og kið, alt til páska-
fórnar fyrir alla, er þar voru, þrjátíu þúsund að tölu, og þrjú þúsund
naut; voru þau úr eign konungs. [8] En höfuðsmenn hans færðu sjálf-
vilja-gjafir handa lýðnum og prestunum og Levítunum. Hilkía, Sakaría
og Jehíel, höfuðsmenn yfir musteri Guðs, gáfu prestunum í páskafórn
tvö þúsund og sex hundruð lömb og þrjú hundruð naut. [9] En Kan-
anja og Semaja og Netaneel, bræður hans, svo og Hasabja, Jeíel og
Jósabad, höfðingjar Levíta, gáfu Levítum til páskafórnar fimm þúsund
lömb og fimm hundruð naut. [10] Var svo þjónustunni fyrir komið, og
gengu prestarnir á sinn stað, svo og Levítar eftir flokkum sínum, sam-
kvæmt boði konungs. [11] Var síðan páskalambinu slátrað og stöktu
prestarnir blóðinu úr hendi sinni, en Levítarnir flógu. [12] Og þeir tóku
brennifórnina frá, til þess að fá hana ættflokkum leikmannanna, til
þess að þeir skyldu færa hana Jahve, svo sem fyrir er mælt í Móse-
bók, og svo gjörðu þeir og við nautin. [13] Síðan steiktu þeir páska-
lambið við eld, svo sem lög stóðu til, suðu helgigjafirnar í pottum og
kötlum og skálum, og færðu tafarlaust hverjum leikmanni. [14] En síðan
matreiddu þeir handa sér og prestunum, því að prestarnir, niðjar Ar-
ons, voru að færa brennifórnir og feit stykki fram á nótt, og matreiddu
Levítarnir því handa sér og prestunum, niðjum Arons. [15] Og söngv-
ararnir, niðjar Asafs, voru á sínum stað eftir boði Davíðs, Asafs, Hem-
ans og Jedútúns, sjáanda konungs, og hliðverðir voru við hvert hlið;
þurftu þeir eigi að fara frá starfi sínu, því að frændur þeirra, Levítarnir,
matbjuggu fyrir þá. [16] Var þannig allri þjónustu Jahve komið fyrir
þann dag, er menn héldu páska og færðu brennifórnir á altari Jahve,
að boði Jósía konungs. [17] Þannig héldu Ísraelsmenn, þeir er viðstaddir
voru, páska í þann tíma, svo og hátíð hinna ósýrðu brauða í sjö daga.
[18] En engir slíkir páskar höfðu haldnir verið í Ísrael frá því á dögum
Samúels spámanns, og engir af Ísraels-konungum höfðu haldið páska,
svo sem Jósía konungur gjörði og prestarnir og Levítarnir og allir Júda-
og Ísraelsmenn, þeir er viðstaddir voru, og Jerúsalem-búar. [19] Á át-
jánda ríkisári Jósía voru páskar þessir haldnir.

---

**31:** kap. 15, 12. — **35, 1:** 2 Kong. 23 21. **11:** kap. 30, 16. **17:** kap. 30, 21.

[20] Eftir alt þetta, er Jósía hafði komið musterinu aftur í lag, fór
Nekó Egiptalands-konungur herför, til þess að heyja orustu hjá Kar-
kemis við Evfrat. Þá fór Jósía út í móti honum. [21] En hann gjörði
menn á fund hans og lét segja honum: Hvað þurfum við að eigast við,
Júda-konungur? Nú kem eg eigi í móti þér, heldur í móti mínum
forna fjanda, og Guð hefir boðið mér að flýta mér. Freista þú eigi fangs
við guðinn, sem með mér er, svo að hann tortími þér ekki. [22] En Jósía
vildi eigi hörfa undan honum, heldur klæddist dularbúningi, til þess að
berjast við hann, og hlýddi eigi á orð Nekós, er þó voru af Guðs
munni, og fór til bardaga á Megiddó-völlum. [23] En bogmennirnir skutu
á Jósía konung. Þá mælti konungur við þjóna sína: Komið mér burt
héðan, því að eg er sár mjög. [24] Tóku þá þjónar hans hann af vagn-
inum og óku honum á næsta vagni hans, og er þeir komu með hann
til Jerúsalem, þá dó hann og var grafinn í gröfum feðra sinna. Og
allir Júdamenn og Jerúsalem-búar hörmuðu Jósía, [25] og Jeremía orti
harmljóð eftir Jósía, og allir söngmenn og söngkonur hafa talað um
Jósía í harmljóðum sínum fram á þennan dag. Og menn gjörðu þau
að ákvæði fyrir Ísrael, og eru þau rituð í harmljóðunum.
[26] En það sem meira er að segja um Jósía og góðverk hans, er
voru samkvæm því, sem ritað er í lögmáli Jahve, [27] svo og saga hans
frá upphafi til enda, það er ritað í bók Ísraels- og Júdakonunga.

## Frá Jóahas.

36 En landslýðurinn tók Jóahas Jósíason og gjörði hann að kon-
ungi í Jerúsalem eftir föður hans. [2] Jóahas var tuttugu og þriggja
ára að aldri, þá er hann varð konungur, og þrjá mánuði ríkti hann í
Jerúsalem. [3] En Egiptalands-konungur rak hann frá ríki, til þess að
hann skyldi eigi framar ríkja í Jerúsalem, og lagði skattgjald á landið,
hundrað talentur silfurs og tíu talentur gulls. [4] Og Egiptalands-konung-
ur gjörði Eljakím bróður hans að konungi yfir Júda og Jerúsalem, og
breytti nafni hans í Jójakím. En Jóahas bróður hans tók Nekó og
flutti til Egiptalands.

## Frá Jójakím.

[5] Jójakím var tuttugu og fimm ára að aldri, þá er hann varð kon-
ungur, og ellefu ár ríkti hann í Jerúsalem. Og hann gjörði það sem
ilt var í augum Jahve, Guðs síns. [6] Gegn honum fór Nebúkadnezar
konungur í Babel herför og batt hann eirfjötrum til þess að flytja hann
til Babel. [7] Af áhöldum musteris Jahve flutti Nebúkadnezar og nokkuð
til Babel og lét þau í höll sína í Babel. [8] En það sem meira er að
segja um Jójakím og svívirðingar hans, er hann aðhafðist, og annað
ilt, er fanst í fari hans, það er ritað í bók Ísraels- og Júda-konunga.
Og Jójakín sonur hans tók ríki eftir hann.

## Frá Jójakín.

[9] Jójakín var átta vetra gamall, þá er hann varð konungur, og
þrjá mánuði og tíu daga ríkti hann í Jerúsalem. Og hann gjörði það
sem ilt var í augum Jahve. [10] En að ári liðnu sendi Nebúkadnezar
konungur og lét flytja hann til Babel, ásamt verðmætum áhöldum úr

---

**20:** 2 Kong. 23, 29 n. **22:** Sak. 12, 11. **23:** 1 Kong. 22, 34. **25:** 2 Sam. 1, 17. —
**36, 1:** 2 Kong. 23, 30 n. **7:** Esr. 1, 7. **8:** 2 Kong. 24, 6 n. **10:** 2 Kong. 24, 10. 12.
Jer. 37, 1 n. 2 Kong. 24, 17.

musteri Jahve, en gjörði Zedekía bróður hans að konungi yfir Júda og
Jerúsalem.

### Frá Zedekía.

11 Zedekía var tuttugu og eins árs að aldri, þá er hann varð kon-
ungur, og ellefu ár ríkti hann í Jerúsalem. 12 Og hann gjörði það sem
ilt var í augum Jahve, Guðs síns, hann auðmýkti sig eigi fyrir Jeremía
spámanni, er talaði í nafni Jahve. 13 Hann rauf og þá trúnaðareiða,
er Nebúkadnezar konungur hafði látið hann vinna sér við Guð. En
hann þverskallaðist og herti hjarta sitt, svo að hann eigi sneri sér til
Jahve, Guðs Ísraels. 14 Þá sýndu og allir höfðingjar prestanna og lýðs-
ins mikla ótrúmensku með því að drýgja allar sömu svívirðingarnar og
heiðingjarnir, og saurguðu svo musteri Jahve, það er hann hafði helgað
í Jerúsalem. 15 Og Jahve, Guð feðra þeirra, sendi þeim stöðugt áminn-
ingar fyrir sendiboða sína, því að hann vildi þyrma lýð sínum og bú-
stað sínum. 16 En þeir smánuðu sendiboða Guðs, fyrirlitu orð hans og
gjörðu gys að spámönnum hans, unz reiði Jahve við lýð hans var orð-
in svo mikil, að eigi mátti við gjöra. 17 Hann lét Kaldea-konung fara
herför gegn þeim, og drap hann æskumenn þeirra með sverði í helgi-
dómi þeirra; þyrmdi hann hvorki æskumönnum né ungmeyjum, öldr-
uðum né örvasa — alt gaf hann honum á vald. 18 Og öll áhöld Guðs
húss, stór og smá, svo og fjársjóðu Jahve húss og fjársjóðu konungs
og höfðingja hans — alt flutti hann til Babel. 19 Þeir brendu musteri
Guðs, rifu niður Jerúsalem-múra, lögðu eld í allar hallir í henni, svo
að alt verðmætt í henni týndist. 20 Og þá, sem komist höfðu undan
sverðinu, herleiddi hann til Babel, og urðu þeir þjónar hans og sona
hans, unz Persaríki náði yfirráðum, 21 til þess að rætast skyldi orð Jahve
fyrir munn Jeremía: Þar til er landið hefir fengið hvíldarár sín bætt
upp, alla þá stund, sem það var í eyði, naut það hvíldar, unz sjötíu
ár voru liðin.
22 En á fyrsta ríkisári Kýrusar Persakonungs blés Jahve Kýrusi Persa-
konungi því í brjóst — til þess að orð Jahve fyrir munn Jeremía rætt-
ust —, að láta boð út ganga um alt ríki sitt, og það í konungsbréfi,
svolátandi boðskap: 23 Svo segir Kýrus Persakonungur: Öll konungs-
ríki jarðarinnar hefir Jahve, Guð himnanna, gefið mér, og hann hefir
skipað mér að reisa sér musteri í Jerúsalem í Júda. Hver sá meðal
yðar, sem tilheyrir gjörvallri þjóð hans, með honum sé Jahve, Guð
hans, og hann fari heim.

---

**11:** 2 Kong. 24, 18. Jer. 52, 1 n. **13:** Esek. 17, 13 n. **15:** Jer. 25, 4. **18:** 2 Kong. 25, 13 n. **21:** Jer. 25, 11 n. 3 Mós. 26, 34. 35. **22:** Esr. 1, 1 n. Jer. 29, 10. Jes. 44, 28.

38 hafi akurland mitt hrópað undan mér
og öll plógför þess grátið,
39 hafi eg etið gróður þess endurgjaldslaust
og slökt líf eiganda þess,
40 þá spretti þyrnar upp í stað hveitis
og illgresi í stað byggs*.
35 Ó að eg hefði þann, er hlusta vildi á mig!
Hér er undirskrift mín — hinn Almátki svari mér!
Og hefði eg bréfið, sem andstæðingur minn hefir skrifað!
36 Vissulega skyldi eg bera það á öxlinni,
binda það sem höfuðsveig um ennið;
37 eg skyldi segja honum frá hverju spori mínu
og ganga sem höfðingi fram fyrir hann!
Hér enda ræður Jobs.

---

32 Og þessir þrír menn hættu að svara Job, því að hann þóttist
vera réttlátur. 2 Þá upptendraðist reiði Elíhú Barakelssonar Búsíta,
af Rams kynstofni. Upptendraðist reiði hans gegn Job, af því að hann
taldi sig hafa á réttu að standa gagnvart Guði. 3 Reiði hans upptend-
raðist og gegn vinum hans þremur, fyrir það að þeir fundu engin and-
svör, til þess að sanna Job, að hann hefði á röngu að standa. 4 En Elíhú
hafði beðið með að mæla til Jobs, því að þeir voru eldri en hann.
5 En er Elíhú sá, að mennirnir þrír gátu engu svarað, upptendraðist
reiði hans. 6 Þá tók Elíhú Barakelsson Búsíti til máls og sagði:

Eg er ungur að aldri, en þér eruð öldungar,
þess vegna fyrirvarð eg mig og kom mér eigi að því,
að kunngjöra yður það, sem eg veit.
7 Eg hugsaði: Aldurinn tali
og árafjöldinn kunngjöri speki!
8 En — það er andinn í manninum
og andblástur hins Almátka, sem gjörir þá vitra.
9 Elztu mennirnir eru ekki ávalt vitrastir
og öldungarnir skynja eigi, hvað réttast er.
10 Fyrir því segi eg: Hlýð á mig;
nú ætla einnig eg að kunngjöra það, sem eg veit.

11 Sjá, eg beið eftir ræðum yðar,
hlustaði á röksemdir yðar,
unz þér fynduð orðin, sem við ættu.
12 Og að yður gaf eg gaum;
en sjá, enginn sannfærði Job,
enginn yðar hrakti orð hans.
13 Segið ekki: »Vér höfum hitt fyrir speki;
Guð einn fær sigrað hann, en enginn maður!«
14 Gegn mér hefir hann ekki sett fram neinar sannanir,
og með yðar orðum ætla eg ekki að svara honum.

15 Þeir eru skelkaðir, svara eigi framar,
þeir standa uppi orðlausir.
16 Og ætti eg að bíða, þar sem þeir þegja,
þar sem þeir standa og svara eigi framar?

---

**39:** 1 Mós. 4, 12. **40:** * 38.—40. v. standa í frumtextanum síðast í kapítulanum, en hafa án efa færst til. Kap. 38 er beint framhald af v. 35—37. — **32, 2:** 1 Mós. 22, 21. **8:** Orðskv. 2, 6. Dan. 1, 17.

17 Eg vil og svara af minni hálfu,
eg vil og kunngjöra það, sem eg veit.
18 Því að eg er fullur af orðum;
andinn í brjósti mínu knýr mig.
19 Sjá, brjóst mitt er sem vín, er ekki fær útrás,
ætlar að rifna, eins og nýfyltir belgir.
20 Eg ætla að tala til þess að létta á mér,
ætla að opna varir mínar og svara.
21 Eg ætla ekki að draga taum neins
og eg ætla engan að skjalla.
22 Því að eg kann ekki að skjalla;
ella kynni skapari minn bráðlega að kippa mér burt.

33 En heyr þú, Job, ræðu mína
og hlýð þú á öll orð mín.
2 Sjá, eg opna munn minn
og tunga mín talar í gómi mínum.
3 Orð mín eru hjartans hreinskilni,
og það, sem varir mínar vita, mæla þær í einlægni.
4 Andi Guðs hefir skapað mig
og andblástur hins Almátka gefur mér líf.
5 Ef þú getur, þá svara þú mér,
bú þig út í móti mér og gakk fram.
6 Sjá, eg stend eins og þú gagnvart Guði;
eg er og myndaður af leiri.
7 Sjá, hræðsla við mig þarf eigi að skelfa þig
og þungi minn eigi þrýsta þér niður.
8 En þú hefir sagt í eyru mér,
og eg heyrði hljóm orðanna:
9 »Hreinn er eg, laus við afbrot;
saklaus er eg, og hjá mér er engin misgjörð.
10 Sjá, hann reynir að finna tilefni til fjandskapar við mig
og ætlar að eg sé óvinur hans.
11 Hann setur fætur mína í stokk
og aðgætir alla vegu mína«.

12 Sjá, í þessu hefir þú rangt fyrir þér, svara eg þér,
því að Guð er meiri en maður.
13 Hví hefir þú þráttað við hann,
að hann svaraði engu öllum orðum þínum?
14 Því að vissulega talar Guð einu sinni,
já, tvisvar, en menn gefa því ekki gaum.
15 Í draumi, í nætursýn,
þá er þungur svefnhöfgi er fallinn yfir mennina,
í blundi á hvílubeði,
16 þá opnar hann eyru mannanna
og innsiglar viðvörunina til þeirra,
17 til þess að fá manninn til þess að láta af gjörðum sínum
og forða manninum við drambsemi.
18 Hann hlífir sálu hans við gröfinni
og lífi hans frá því að farast fyrir skotvopni.
19 Hann er og agaður með kvölum á sæng sinni,
og stríðið geisar stöðuglega í beinum hans.
20 Þá vekur lífshvötin óbeit hjá honum á brauðinu
og sál hans á uppáhaldsfæðunni.

**33, 9:** kap. 9, 21; 10, 7; 16, 17; 23, 10. **10:** kap. 13, 24. **11:** kap. 13, 27. **16:** kap. 36, 10.

21 Hold hans eyðist og verður óásjálegt
og beinin, sem sáust ekki áður, verða ber,
22 svo að sál hans nálgast gröfina
og líf hans engla dauðans.
23 Sé þá þar fyrir hann árnaðarengill, einn af þúsund,
til þess að boða manninum skyldu hans,
24 og miskunni hann sig yfir hann og segi:
»Endurleys hann og lát hann eigi stíga niður í gröfina;
eg hefi fengið lausnargjaldið«,
25 þá svellur hold hans af æskuþrótti,
hann snýr aftur til æskudaga sinna.
26 Hann biður til Guðs, og Guð miskunnar honum,
lætur hann líta auglit sitt með fögnuði
og veitir manninum aftur réttlæti hans.
27 Hann syngur frammi fyrir mönnum og segir:
»Eg hafði syndgað og gjört hið beina bogið,
og þó var mér ekki goldið líku líkt.
28 Hann hefir leyst sálu mína frá því að fara ofan í gröfina,
og líf mitt gleður sig við ljósið«.
29 Sjá, alt þetta gjörir Guð
tvisvar eða þrisvar við manninn,
30 til þess að hrífa sál hans frá gröfinni,
til þess að lífsins ljós megi leika um hann.
31 Hlýð á, Job, heyr þú mig;
ver þú hljóður og lát mig tala.
32 Hafir þú eitthvað að segja, þá svara mér;
tala þú, því að gjarnan vildi eg, að þú reyndist réttlátur.
33 Ef svo er eigi, þá heyr þú mig;
ver hljóður, að eg megi kenna þér speki.

34 Og Elíhú tók aftur til máls og sagði:
2 Heyrið, þér vitrir menn, orð mín,
og þér fróðir menn, hlustið á mig.
3 Því að eyrað prófar orðin,
eins og gómurinn smakkar matinn.
4 Vér skulum rannsaka, hvað rétt er,
komast að því hver með öðrum, hvað gott er.
5 Því að Job hefir sagt: Eg er saklaus,
en Guð hefir svift mig rétti mínum;
6 þótt eg hafi rétt fyrir mér, stend eg sem lygari,
banvæn ör hefir hitt mig, þótt eg hafi í engu brotið.

7 Hvaða maður er eins og Job,
sem drekkur guðlast eins og vatn
8 og gefur sig í félagsskap við þá, sem ilt fremja,
og í fylgi við óguðlega menn?
9 Því að hann hefir sagt: »Maðurinn hefir ekkert gagn af því
að vera í vinfengi við Guð«.
10 Fyrir því, skynsamir menn, heyrið mig!
Fjarri fer því að Guð aðhafist ilt
og hinn Almátki fremji ranglæti.
11 Nei, hann geldur manninum verk hans
og lætur manninum farnast eftir breytni hans.

---

**22:** 2 Sam. 24, 16. **30:** Sálm. 56, 14. — **34, 5:** kap. 27, 2 n. **6:** kap. 6, 4. Sálm. 38, 3. **7:** kap. 15, 16. **8:** Sálm. 1, 1. **9:** kap. 9, 22. **10:** kap. 36, 23. Róm. 9, 14. **11:** Sálm. 62, 13. Jer. 32, 19. Róm. 2, 6.

12 Já, vissulega fremur Guð ekki ranglæti
og hinn Almátki hallar ekki réttinum.
13 Hver hefir fengið honum jörðina til varðveizlu
og hver hefir grundvallað allan heiminn?
14 Ef hann hugsaði aðeins um sjálfan sig,
ef hann drægi til sín anda sinn og andardrátt,
15 þá mundi alt hold gefa upp andann
og maðurinn aftur verða að dufti.
16 Hafir þú vit, þá heyr þú þetta,
hlusta þú á hljóm orða minna.
17 Getur sá og stjórnað, sem hatar réttinn?
Eða vilt þú sekan dæma hinn réttláta, volduga?
18 Hann, sem segir við konunginn: »Þú varmenni!«
við tignarmanninn: »Þú níðingur«?
19 Sem ekki dregur taum höfðingjanna
og gjörir ekki ríkum hærra undir höfði en fátækum,
því að handaverk hans eru þeir allir.
20 Skyndilega deyja þeir og það um miðja nótt,
fólkið verður skelkað og þeir hverfa;
og hinn sterki er hrifinn burt, en eigi af manns hendi.
21 Því að augu hans hvíla yfir vegum hvers manns,
og hann sér öll spor hans.
22 Ekkert það myrkur er til, eða sú niðdimma,
að illgjörðamenn geti falið sig þar.
23 Því að Guð þarf ekki fyrst að gefa manni gaum,
til þess að hann komi fyrir dóm hans.
24 Hann brýtur hina voldugu sundur rannsóknarlaust
og setur aðra í þeirra stað.
25 Þannig þekkir hann verk þeirra
og steypir þeim um nótt, og þeir verða marðir sundur.
26 Sem misgjörðamenn hirtir hann þá,
þar sem allir sjá það,
27 þá, er þess vegna hafa frá honum vikið
og vanrækt alla vegu hans,
28 að þeir flyttu kvein hins fátæka til eyrna honum
og hann heyrði kvein hinna voluðu.
29 Og haldi hann kyrru fyrir, hver vill þá sakfella hann?
og byrgi hann auglitið, hver fær þá séð hann?
Þó vakir hann yfir þjóð og einstaklingi,
30 til þess að guðlausir menn skuli ekki drotna,
til þess að þeir séu ekki snörur lýðsins.
31 Því að segir nokkur við Guð:
»Eg þoli hegning, og breyti þó ekki illa;
32 kenn þú mér það, sem eg sé ekki;
hafi eg framið ranglæti, skal eg eigi gjöra það framar«?
33 Á hann að endurgjalda eftir geðþótta þínum, af því að þú hafnar?
því að þú átt að velja, en ekki eg.
Og seg nú fram það, er þú veizt!
34 Skynsamir menn munu segja við mig
og vitur maður, sem á mig hlýðir:
35 »Job talar ekki hyggilega,
og orð hans eru ekki skynsamleg«.

---

**19:** 5 Mós. 10, 17. 2 Kron. 19, 7. Post. 10, 34. Róm. 2, 11. **21:** kap. 31, 4. **22:** Sálm. 139, 11. 12.

36 Ó að Job mætti reyndur verða æ að nýju,
af því að hann svarar eins og illir menn svara.
37 Því að hann bætir misgjörð ofan á synd sína;
hann klappar saman höndunum framan í oss
og heldur langar ræður móti Guði.

35 Og Elíhú tók enn til máls og sagði:
2 Hyggur þú það vera rétt,
kallar þú það »réttlæti mitt fyrir Guði«,
3 að þú spyr, hvað það stoði þig?
»Hvaða gagn hefi eg af því, fremur en ef eg syndgaði?«
4 Eg ætla að veita þér andsvör í móti
og vinum þínum með þér.
5 Horf þú á himininn og sjá,
virtu fyrir þér skýin, sem eru hátt yfir þér.
6 Syndgir þú, hvað getur þú gjört honum?
Og séu afbrot þín mörg, hvaða skaða gjörir þú honum?
7 Sért þú ráðvandur, hvað gefur þú honum,
eða hvað þiggur hann af þinni hendi?
8 Mann, eins og þig, varðar misgjörð þín
og mannsins barn ráðvendni þín.

9 Menn æpa að sönnu undan hinni margvíslegu kúgan,
kveina undan armlegg hinna voldugu,
10 en enginn þeirra segir: »Hvar er Guð, skapari minn,
sá er leiðir fram lofsöngva um nótt,
11 sem fræðir oss meira en dýr merkurinnar
og gjörir oss vitrari en fugla loftsins?«
12 Þá æpa menn — en hann svarar ekki —
undan drambsemi hinna vondu.
13 Nei, hégómamál heyrir Guð eigi
og hinn Almátki gefur því engan gaum,
14 hvað þá, er þú segir, að þú sjáir hann ekki;
málið er lagt fram fyrir hann, og þú átt að bíða eftir honum.
15 En nú, af því að reiði hans hefir eigi refsað,
á hann alls eigi að hafa vitað neitt um yfirsjónina!
16 En Job opnar munninn til að mæla hégóma,
heldur langar ræður í vanhyggju sinni.

36 Og Elíhú hélt áfram og sagði:
2 Haf þolinmæði við mig enn stutta stund, að eg megi fræða þig,
því að enn má margt segja Guði til varnar.
3 Eg ætla að sækja þekking mína langar leiðir
og sanna, að skapari minn hafi á réttu að standa.
4 Því að vissulega fer eg eigi með ósannindi;
maður með fullkominni þekking stendur frammi fyrir þér.

5 Sjá, Guð er voldugur, þó fyrirlítur hann engan,
voldugur að andans krafti.
6 Hann viðheldur ekki lífi hins óguðlega,
en veitir hinum voluðu rétt þeirra.
7 Hann hefir ekki augun af hinum réttláta,
og hjá konungum í hásætinu —

**37:** kap. 27, 23. — **35, 3:** kap. 34, 9. **7:** kap. 22, 2 n. **14:** kap. 23, 8. 9. — **36, 7:** Sálm. 34, 16; 113, 7. 8.

þar lætur hann þá sitja að eilífu, til þess að þeir séu hátt upp hafnir.

8 Og þótt þeir verði viðjum reyrðir,
veiddir í snörur eymdarinnar,
9 og hann setur þeim fyrir sjónir gjörðir þeirra
og afbrot þeirra, að þeir breyttu drambsamlega,
10 og hann opnar eyru þeirra fyrir umvönduninni
og segir að þeir skuli snúa sér frá ranglæti, —
11 ef þeir þá hlýða og þjóna honum,
þá eyða þeir dögum sínum í velgengni
og árum sínum í unaði.
12 En hlýði þeir ekki, þá farast þeir fyrir skotvopnum,
gefa upp andann í vanhyggju sinni.
13 Því að vonzkufullir í hjarta ala þeir með sér reiði,
hrópa eigi á hjálp, þegar hann fjötrar þá.
14 Önd þeirra deyr í æskublóma
og líf þeirra eins og hórsveina.
15 En hann mun frelsa hinn bágstadda með bágindum hans
og opnar eyru þeirra með þrengingunni.
16 Einnig þig ginnir hann út úr gini neyðarinnar,
út á víðlendi, þar sem engin þrengsli eru,
og það, sem kemur á borð þitt, er fult af feiti.
17 En sért þú fullur af dómi hins óguðlega,
þá munu dómur og réttur hremma þig.
18 Því að: lát eigi reiði ginna þig til spotts
og lát eigi stærð lausnargjaldsins tæla þig.
19 Mun hróp þitt koma þér úr nauðunum
eða nokkur áreynsla krafta þinna?
20 Þráðu eigi nóttina,
þá er þjóðir sópast burt af stöðvum sínum.
21 Gæt þín, snú þér eigi að ranglæti,
því að það kýs þú heldur en að líða.
22 Sjá, Guð er háleitur í framkvæmdum máttar síns,
hver er slíkur kennari sem hann?
23 Hver hefir fyrirskipað honum veg hans,
og hver dirfist að segja: þú hefir gjört rangt?
24 Minstu þess, að þú vegsamir verk hans,
það er mennirnir syngja um lofkvæði.
25 Allir menn horfa með fögnuði á það,
dauðlegur maðurinn lítur það úr fjarska.

26 Já, Guð er mikill og vér þekkjum hann ekki,
tala ára hans órannsakanleg.
27 Því að hann dregur upp vatnsdropana
og lætur ýra úr þoku sinni,
28 regnið, sem skýin láta niður streyma,
drjúpa yfir marga menn.
29 Já, ef nokkur skildi útbreiðslu skýjanna
og dunurnar í tjaldi hans!
30 Sjá, hann breiðir ljós sitt út kring um sig
og hylur rætur hafsins.
31 Því að með því dæmir hann þjóðirnar,
með því veitir hann fæðu í ríkum mæli.

---

**10:** kap. 33, 16 n. **13:** v. 8. **16:** Sálm. 23, 5. **20:** kap. 34, 20. **26:** Sálm. 102, 28. **27:** 1 Mós. 2, 6. **29:** Sálm. 18, 12.

32 Báðar hendurnar hylur hann ljósi
og býður því út gegn fjandmanni sínum.
33 Þruma hans boðar komu hans,
hans sem lætur reiði sína geisa gegn ranglætinu.
37 Já, yfir þessu titrar hjarta mitt
og hrökkur upp úr stað sínum.
2 Heyrið, heyrið drunur raddar hans
og hvininn, sem út fer af munni hans.
3 Undir öllum himninum lætur hann hana þjóta
og leiftur sitt út á jaðra jarðarinnar.
4 Á eftir því kemur öskrandi skrugga;
hann þrumar með sinni tignarlegu raust,
og heldur eldingunum ekki aftur,
þá er raust hans lætur til sín heyra.
5 Guð þrumar undursamlega með raust sinni,
— hann sem gjörir mikla hluti, er vér eigi skiljum.
6 Því að hann segir við snjóinn: Fall þú á jörðina,
og eins við hellirigninguna og hennar dynjandi helliskúrir.
7 Hann innsiglar hönd sérhvers manns,
til þess að allir menn viðurkenni verk hans.
8 Þá fara villidýrin í fylgsni sín
og hvílast í bælum sínum.
9 Stormurinn kemur úr forðabúrinu
og kuldinn af norðanvindum.
10 Fyrir andgust Guðs verður ísinn til,
og víð vötnin eru lögð í læðing.
11 Hann hleður og skýin vætu,
tvístrar leiftur-skýi sínu víðsvegar.
12 En það snýst í allar áttir, eftir því sem hann leiðir það,
til þess að þau framkvæmi alt það, er hann býður þeim, á
yfirborði allrar jarðarinnar —
13 ýmist til hirtingar, ef það er til góðs fyrir jörð hans,
eða til blessunar lætur hann það hitta.

14 Hlýð þú á þetta, Job;
stattu kyrr og gef gaum að dásemdum Guðs.
15 Skilur þú, hvernig Guð felur þeim hlutverk þeirra
og lætur ljós skýja sinna skína?
16 Skilur þú, hvernig skýin svífa,
dásemdir hans, sem fullkominn er að vísdómi,
17 þú, sem fötin hitna á,
þá er jörðin mókir í sunnanmollu?
18 Þenur þú út með honum heiðhimininn,
sem fastur er eins og steyptur spegill?
19 Kenn oss, hvað vér eigum að segja við hann.
Vér megnum ekkert fram að færa fyrir myrkri.
20 Á að segja honum, að eg ætli að tala?
eða hefir nokkur sagt, að hann óski að verða gjöreyddur?
21 Og nú sjá menn að sönnu ekki ljósið,
sem skín skært að skýjabaki,
en vindurinn þýtur áfram og sópar þeim burt.
22 Gullið kemur úr norðri,
um Guð lykur ógurlegur ljómi.
23 Vér náum eigi til hins Almátka,

---

**37, 5:** kap. 5, 9. **6:** Sálm. 147, 16.

til hans, sem er mikill að mætti;
en réttinn og hið fulla réttlæti vanrækir hann ekki.
24 Fyrir því óttast mennirnir hann;
hann lítur ekki við neinum sjálfbirgingum.

---

38 Þá svaraði Jahve Job úr stormviðrinu og sagði:
2 Hver er sá, sem myrkvar ráðsályktun Guðs
með óskynsamlegum orðum?
3 Gyrð lendar þínar eins og maður;
þá mun eg spyrja þig, og þú skalt fræða mig.
4 Hvar varst þú, þegar eg grundvallaði jörðina?
Seg fram, ef þú hefir þekkingu til.
5 Hver ákvað mál hennar — þú veizt það! —
eða hver þandi mælivaðinn yfir hana?
6 Á hvað var stólpum hennar hleypt niður
eða hver lagði hornstein hennar,
7 þá er morgunstjörnurnar sungu gleðisöng allar saman
og allir guðs-synir fögnuðu?
8 Og hver byrgði hafið inni með hurðum,
þá er það brauzt fram, gekk út af móðurkviði,
9 þá er eg fékk því skýin að klæðnaði
og svartaþyknið að reifum?
10 þá er eg braut því takmörk
og setti slagbranda fyrir og hurðir
11 og mælti: Hingað skaltu komast og ekki lengra,
hér skulu þínar hreyknu hrannir brotna!
12 Hefir þú nokkurn tíma á æfi þinni boðið út morgninum,
vísað morgunroðanum á stað hans,
13 til þess að hann gripi í skaut jarðarinnar
og hinir óguðlegu yrðu hristir af henni?
14 Hún breytist eins og leir undir signeti,
og hlutirnir koma fram eins og fat.
15 Og hinir óguðlegu verða sviftir ljósinu
og hinn upplyfti armleggur sundur brotinn.
16 Hefir þú komið að uppsprettum hafsins
og hefir þú gengið á botni undirdjúpsins?
17 Hafa hlið dauðans opnast fyrir þér,
og hefir þú séð hlið svartamyrkursins?
18 Hefir þú litið yfir breidd jarðarinnar?
Seg fram, fyrst þú veizt það alt saman.

19 Hvar er vegurinn þangað sem ljósið býr,
og myrkrið — hvar á það heima,
20 svo að þú gætir flutt það heim í landareign þess
og þektir göturnar heim að húsi þess?
21 Þú veizt það; því að þá fæddist þú
og tala daga þinna er há!
22 Hefir þú komið til forðabúrs snjávarins
og hefir þú séð forðabúr haglsins,
23 sem eg hefi geymt til tíma neyðarinnar,
til orustu- og ófriðardagsins?
24 Hvar er vegurinn þangað sem ljósið skiftist
og austanvindurinn dreifist yfir jörðina?

---

**38, 4:** Sálm. 104, 5. **5:** Orðskv. 30, 4. **15:** kap. 24, 17. **23:** Opinb. 16, 21.

25 Hver hefir búið til rennu fyrir steypiregnið
og veg fyrir eldingarnar,
26 til þess að láta rigna yfir mannautt land,
yfir eyðimörkina, þar sem enginn býr,
27 til þess að metta auðnir og eyðilönd
og láta grængresi spretta?
28 Á regnið föður
eða hver hefir getið daggardropana?
29 Af hverrar kviði er ísinn útgenginn,
og hrím himinsins — hver fæddi það?
30 Vötnin þéttast eins og steinn
og yfirborð fljótsins verður samfrosta.
31 Getur þú þrengt sjöstirnis-böndin,
eða fær þú leyst fjötra Óríons?
32 Lætur þú stjörnumerki dýrahringsins koma fram á sínum tíma
og leiðir þú Birnuna* með húnum hennar?
33 Þekkir þú lög himinsins
eða ákveður þú yfirráð hans yfir jörðunni?
34 Getur þú lyft raust þinni upp til skýsins,
svo að vatnaflaumurinn hylji þig?
35 Getur þú sent eldingarnar, svo að þær fari
og segi við þig: Hér erum vér!
36 Hver hefir lagt vísdóm í hin dimmu ský
eða hver hefir gefið loftsjónunum vit?
37 Hver telur skýin með vizku,
og vatnsílát himinsins — hver hellir úr þeim,
38 þegar moldin rennur saman í kökk
og hnausarnir loða hver við annan?

39 Veiðir þú bráðina fyrir ljónynjuna
og seður þú græðgi ungljónanna,
40 þá er þau kúra í bæli sínu
og vaka yfir veiði í þéttum runni?
41 Hver býr hrafninum fæðu hans,
þá er ungar hans hrópa til Guðs,
flögra til og frá ætislausir?

39 Veizt þú tímann, nær steingeiturnar bera?
Gefur þú gaum að fæðingarhríðum hindanna?
2 Telur þú mánuðina, sem þær ganga með,
og veizt þú tímann, nær þær bera?
3 Þær leggjast á knén, fæða kálfa sína,
þær losna fljótt við kvalir sínar.
4 Kálfar þeirra verða sterkir, vaxa í haganum,
fara burt og koma ekki aftur til þeirra.
5 Hver hefir látið skógarasnann ganga lausan
og hver hefir leyst fjötra villiasnans,
6 sem eg hefi gefið eyðivelli að bústað
og saltsléttu að heimkynni?
7 Hann hlær að hávaða borgarinnar;
hann heyrir ekki köll rekstrarmannsins.
8 Það, sem hann leitar uppi á fjöllunum, er haglendi hans,
og öllu því, sem grænt er, sækist hann eftir.
9 Mun vísundurinn vera fús til að þjóna þér,
eða mun hann standa um nætur við stall þinn?

**29:** Sálm. 147, 16. **31:** kap. 9, 9. **32:** * Þ. e. Vagnstirnið, sbr. kap. 9, 9. **40:** kap. 37, 8. **41:** Sálm. 147, 9. Lúk. 12, 24.

10 Getur þú bundið vísundinn með bandinu við plógfarið,
eða mun hann herfa dalgrundirnar á eftir þér?
11 Reiðir þú þig á hann, af því að kraftur hans er mikill,
og trúir þú honum fyrir arði þínum?
12 Treystir þú honum til að flytja sáð þitt heim
og til að safna því á þreskivöll þinn?
13 Strúthænan baðar glaðlega vængjunum,
en er nokkurt ástríki í þeim vængjum og flugfjöðrum?
14 Nei, hún fær jörðinni egg sín
og lætur þau hitna í moldinni,
15 og gleymir að fótur getur brotið þau
og dýr merkurinnar troðið þau sundur.
16 Hún er hörð við unga sína, eins og hún ætti þá ekki;
þótt fyrirhöfn hennar sé árangurslaus, þá er hún laus við ótta;
17 því að Guð synjaði henni um vizku
og veitti henni enga hlutdeild í hyggindum.
18 En þegar hún sveiflar sér í loft upp,
þá hlær hún að hestinum og þeim, sem á honum situr.

19 Gefur þú hestinum styrkleika,
klæðir þú makka hans flaksandi faxi?
20 Lætur þú hann stökkva eins og engisprettu?
Fagurlega frýsar hann, en hræðilega!
21 Hann krafsar upp grundina og kætist af styrkleikanum,
hann fer út á móti hertýgjunum.
22 Hann hlær að hræðslunni og skelfist ekki
og hopar ekki fyrir sverðinu.
23 Á baki hans glamrar í örvamælinum,
spjót og lensa leiftra.
24 Með hávaða og harki hendist hann yfir jörðina,
og eigi verður honum haldið, þá er lúðurinn gellur.
25 Í hvert sinn er lúðurinn gellur, hvíar hann
og langar leiðir nasar hann bardagann,
þrumuródd fyrirliðanna og herópið.

26 Er það fyrir þín hyggindi að haukurinn lyftir flugfjöðrunum,
breiðir út vængi sína í suðurátt?
27 Er það eftir þinni skipun að örninn flýgur svo hátt
og byggir hreiður sitt hátt uppi?
28 Á klettunum hefir hann býli og ból,
á klettasnösum og fjallatindum.
29 Þaðan skygnir hann að æti;
augu hans sjá langar leiðir.
30 Og ungar hans svelgja blóð,
og hvar sem vegnir menn liggja, þar er hann.

40 Og Jahve svaraði Job og sagði:
2 Vill ámælismaðurinn þrátta við hinn Almátka?
Sá er sakir ber á Guð, svari hann þessu!
3 Þá svaraði Job Jahve og sagði:
4 Sjá, eg er of lítilmótlegur; hverju á eg að svara þér?
Eg legg hönd mína á munninn.
5 Einu sinni hefi eg talað og endurtek það eigi,
— tvisvar, og gjöri það ekki oftar.

**39, 27:** Jer. 49, 16. Obad. 4. **30:** Matt. 24, 28. — **40, 4:** kap. 21, 5; 29, 9.

6 Þá svaraði Jahve Job úr stormviðrinu og sagði:
7 Gyrð lendar þínar eins og maður;
eg mun spyrja þig, og þú skalt fræða mig.
8 Ætlar þú jafnvel að gjöra rétt minn að engu,
dæma mig sekan, til þess að þú standir réttlættur?
9 Hefir þú þá armlegg, eins og Guð,
og getur þú þrumað með slíkri rödd sem hann?
10 Skrýð þig vegsemd og tign,
íklæð þig dýrð og ljóma!
11 Lát úthellast strauma reiði þinnar
og varpa til jarðar með einu tilliti sérhverjum dramblátum.
12 Auðmýk þú sérhvern dramblátan með einu tilliti
og troð þú hina óguðlegu niður þar sem þeir standa.
13 Byrg þú þá í moldu alla saman,
loka andlit þeirra inni í myrkri,
14 þá skal eg líka lofa þig,
fyrir það að hægri hönd þín veitir þér fulltingi.

15 Sjá nykurinn, sem eg hefi skapað eins og þig;
hann etur gras eins og naut.
16 Sjá, kraftur hans er í lendum hans
og afl hans í kviðvöðvunum.
17 Hann sperrir upp stertinn eins og sedrustré,
lærsinar hans eru ofnar saman.
18 Leggir hans eru eirpípur,
beinin eins og járnstafur.
19 Hann er frumgróði Guðs verka,
sá, er skóp hann, gaf honum sverð hans.
20 Því að fóður bera honum hæðirnar,
þar sem öll dýr merkurinnar leika sér.
21 Hann liggur undir lótusrunnum,
í skjóli við reyr og sef.
22 Lótusrunnarnir breiða skugga yfir hann,
lækjarpílviðirnir lykja um hann.
23 Sjá, þegar vöxtur kemur í ána, skelfist hann ekki,
hann er óhultur, þótt fljót belji á skolti hans.
24 Getur nokkur veitt hann með því að ganga framan að honum,
getur nokkur dregið taug gegnum nasir hans?

41 Getur þú veitt krókódílinn á öngli,
getur þú þrýst tungu hans niður með færi?
2 Dregur þú seftaug gegnum nasir hans
og rekur þú krók gegnum kjálka honum?
3 Ætli hann beri fram fyrir þig margar auðmjúkar bænir,
eða mæli til þín blíðum orðum?
4 Mun hann gjöra við þig sáttmála,
svo að þú takir hann að æfinlegum þræli?
5 Munt þú leika þér að honum, eins og litlum fugli,
og getur þú bundið hann fastan fyrir smámeyjar þínar?
6 Manga fiskveiða-félagar um hann,
skifta þeir honum meðal kaupmanna?
7 Getur þú fylt húð hans broddum
og haus hans skutlum?
8 Legg hönd þína á hann —
hugsaðu þér, hvílík viðureign! Þú gjörir það ekki aftur.

**7:** kap. 38, 3. **14:** Jes. 59, 16; 63, 5.

9 Já, von hans brást;
hann fellur þegar flatur fyrir sjóninni einni saman.
10 Enginn er svo fífldjarfur, að hann þori að egna hann
— og hver er þá sá, er þori að ganga fram fyrir mitt auglit?
11 Hver hefir að fyrra bragði gefið mér, svo að eg ætti að endurgjalda?
Alt, sem undir himninum er, það er mitt!

12 Eg vil ekki þegja um limu hans,
né um styrkleik og fegurð vaxtar hans.
13 Hver hefir flett upp skjaldkápu hans að framan,
hver fer inn undir tvöfaldan tanngarð hans?
14 Hver hefir opnað hliðin að gini hans?
Ógn er kring um tennur hans.
15 Tignarprýði eru skjalda-rennurnar,
lokaðar með traustu innsigli.
16 Hver skjöldurinn liggur fast að öðrum,
ekkert loft kemst á milli þeirra.
17 Þeir eru fastir hver við annan,
eru svo samfeldir, að þeir verða eigi skildir sundur.
18 Þegar hann hnerrar, standa ljósgeislar úr nösum hans,
og augu hans eru sem brágeislar morgunroðans.
19 Úr gini hans standa blys,
eldneistar ganga fram úr honum.
20 Úr nösum hans stendur eimur,
eins og upp úr sjóðandi potti, sem kynt er undir með sefgrasi.
21 Andi hans kveikir í kolum,
og logi stendur úr gini hans,
22 Kraftur situr á hálsi hans,
og angist stökkur á undan honum.
23 Vöðvar holds hans loða fastir við,
eru steyptir á hann og hreyfast ekki.
24 Hjarta hans er hart sem steinn,
já, hart sem neðri kvarnarsteinn.
25 Þegar hann stökkur upp, skelfast kapparnir,
þeir verða ringlaðir af hræðslu.
26 Ráðist einhver að honum með sverði, þá vinnur það eigi á,
eigi heldur lensa, skotspjót eða ör.
27 Hann metur járnið sem strá,
eirinn sem maðksmoginn við.
28 Eigi rekur örin hann á flótta,
slöngusteinarnir verða hálmur fyrir honum.
29 Kylfur metur hann sem hálmstrá
og að hvin spjótsins hlær hann.
30 Neðan á honum eru oddhvöss brot,
hann markar för í aurinn, sem för eftir þreskisleða.
31 Hann lætur vella í djúpinu sem í potti,
gjörir hafið eins og smyrslaketil.
32 Aftur undan honum er ljósrák;
ætla mætti, að sjórinn væri silfurhærur.
33 Enginn er hans maki á jörðu,
hans sem skapaður er til þess að kunna ekki að hræðast.
34 Hann lítur niður á alt hátt;
hann er konungur yfir öllum drembnum dýrum.

---

**41, 11:** Róm. 11, 35. Sálm. 24, 1.

42 Þá svaraði Job Jahve og sagði:
[2] Eg veit, að þú megnar alt
og að engu ráði þínu verður varnað fram að ganga.
[3] »Hver er sá, sem myrkvar ráðsályktun Guðs í hyggjuleysi«?
Fyrir því hefi eg talað, án þess að skilja,
um hluti, sem mér voru of undursamlegir og eg þekti eigi.
[4] »Hlusta þú, eg ætla að tala;
eg mun spyrja þig, og þú skalt fræða mig«.
[5] Eg þekti þig af afspurn,
en nú hefir auga mitt litið þig!
[6] Fyrir því tek eg orð mín aftur
og iðrast í dufti og ösku.

---

[7] Eftir að Jahve hafði mælt þessum orðum til Jobs, sagði Jahve
við Elífas Temaníta: Reiði mín er upptendruð gegn þér og báðum
vinum þínum, því að þér hafið ekki talað rétt um mig, eins og þjónn
minn Job. [8] Takið yður því sjö naut og sjö hrúta og farið til þjóns
míns Jobs og fórnið brennifórn fyrir yður, og Job þjónn minn skal
biðja fyrir yður, því aðeins vegna hans mun eg ekki láta yður gjalda
heimsku yðar, með því að þér hafið ekki talað rétt um mig, eins og
þjónn minn Job.
[9] Þá fóru þeir Elífas Temaníti, Bildad Súíti og Zófar Naamíti og
gjörðu svo sem Jahve hafði boðið þeim; og Jahve lét að bæn Jobs.
[10] Og Jahve sneri við högum Jobs, þá er hann bað fyrir vinum
sínum; og Jahve gaf Job alt, sem hann hafði átt, tvöfalt aftur. [11] Þá
komu til hans allir bræður hans og allar systur hans og allir þeir, er
áður höfðu verið kunningjar hans, og neyttu máltíðar með honum í
húsi hans, vottuðu honum samhrygð sína og hugguðu hann út af öllu
því böli, sem Jahve hafði látið yfir hann koma; og þeir gáfu honum hver
einn kesíta og hver einn hring af gulli.
[12] En Jahve blessaði síðari æfiár Jobs enn meir en hin fyrri; og
hann eignaðist fjórtán þúsund sauða, sex þúsund úlfalda, þúsund sam-
eyki nauta og þúsund ösnur. [13] Hann eignaðist og sjö sonu og þrjár
dætur. [14] Og hann nefndi eina Jemímu, aðra Kezíu og hina þriðju
Keren-Happúk. [15] Og eigi fundust svo fríðar konur í öllu landinu sem
dætur Jobs; og faðir þeirra gaf þeim arf með bræðrum þeirra.
[16] Og Job lifði eftir þetta hundrað og fjörutíu ár og sá börn sín
og barnabörn, fjóra ættliði. [17] Og Job dó gamall og saddur lífdaga.

---

**42, 2:** 1 Mós. 18, 14. Matt. 19, 26. Lúk. 1, 37, **3:** kap. 38, 2 n. **8:** 1 Mós. 20, 7.
**9:** kap. 2, 11. **11:** 1 Mós. 33, 19. **12:** kap. 1, 3; 8, 7. **13:** kap. 1, 2. **16:** Sálm.
128, 6.

# Sálmarnir.

## Fyrsta bók.

1 Sæll er sá maður, er eigi fer að ráðum óguðlegra,
eigi gengur á vegi syndaranna
og eigi situr í hóp háðgjarnra,
2 heldur hefir yndi af lögmáli Jahve
og hugleiðir lögmál hans dag og nótt.
3 Hann er sem tré, gróðursett hjá vatnslækjum,
er ber ávöxt sinn á réttum tíma,
og blöð þess visna ekki;
og alt, er hann gjörir, lánast honum.

4 Svo fer eigi hinum óguðlega,
heldur sem sáðum, er vindur feykir.
5 Þess vegna munu hinir óguðlegu eigi standast í dóminum
og syndugir eigi í söfnuði réttlátra.
6 Því að Jahve þekkir veg réttlátra,
en vegur óguðlegra endar í vegleysu.

---

2 Hví geisa heiðingjarnir
og hví hyggja þjóðirnar á fánýt ráð?
2 Konungar jarðarinnar ganga fram
og höfðingjarnir bera ráð sín saman
gegn Jahve og hans smurða.
3 »Vér skulum brjóta sundur fjötra þeirra,
varpa af oss viðjum þeirra«.

4 Hann, sem situr á himni, hlær;
drottinn gjörir gys að þeim.
5 Því næst talar hann til þeirra í reiði sinni,
skelfir þá í bræði sinni:
6 »Eg hefi þó skipað konung minn
á Zíon, fjallið mitt helga«.
7 Eg vil kunngjöra það, sem ákveðið er:
Jahve sagði við mig: Þú ert sonur minn,
eg gat þig í dag.
8 Bið þú mig, þá skal eg gefa þér heiðingjana að erfð
og endimörk jarðar að óðali.
9 Þú skalt mola þá með járnsprota,
mölva þá sem leirsmiðs ker.

10 Verið því hygnir, þér konungar;
látið yður segjast, þér dómarar á jörðu.
11 Þjónið Jahve með ótta
og fagnið með lotningu.
12 Kyssið soninn, að hann reiðist eigi,
og vegur yðar endi í vegleysu;
13 því að skjótt bálast upp reiði hans;
sæll er hver sá, er leitar hælis hjá honum.

---

**1, 1:** Sálm. 26, 4. 5. Orðskv. 1, 10; 4, 14. **2:** Jós. 1, 8. Sálm. 119, 97. **3:** Jer. 17, 8. **4:** Job 21, 18. **6:** 2 Tím. 2, 19. — **2, 1:** Post. 4, 25. 26. **4:** Sálm. 37, 13; 59, 9. Jes. 40, 22. 23. **7:** Post. 13, 33. Hebr. 1, 5; 5, 5. **8:** Sálm. 72, 8. **9:** Opinb. 2, 27; 19, 15. **12:** Sálm. 34, 9; 84, 13.

3 Sálmur Davíðs, þá er hann flýði fyrir Absalóm syni sínum.
2 Jahve, hversu margir eru óvinir mínir,
margir þeir er rísa upp í móti mér.
3 Margir segja um mig:
Hann fær enga hjálp hjá Guði! Sela.*
4 En þú, Jahve, ert samt hlífiskjöldur minn —
sæmd mín og sá, er lætur mig bera höfuð mitt hátt.
5 Þá er eg hrópa til Jahve,
svarar hann mér frá fjallinu sínu helga. Sela.
6 Eg lagðist til hvíldar og sofnaði;
eg vaknaði aftur, því að Jahve hjálpar mér.
7 Eg óttast eigi hinn óteljandi manngrúa,
er fylkir sér gegn mér á allar hliðar.
8 Rís þú upp, Jahve; hjálpa mér, Guð minn;
því að þú hefir lostið fjandmenn mína kinnhest,
brotið tennur hinna óguðlegu.
9 Hjá Jahve er hjálpin;
blessun þín komi yfir lýð þinn! Sela.

---

4 Til helgisöngs. Með strengjaleik. Davíðs-sálmur.
2 Svara mér, er eg hrópa, þú Guð réttlætis míns!
Þá er að mér krepti, rýmkaðir þú um mig;
ver mér náðugur og heyr bæn mína.
3 Þér menn! hversu lengi á sæmd mín að sæta smán?
Hversu lengi ætlið þér að elska hégóma og sækjast eftir lygi? Sela.
4 Þér skuluð samt komast að raun um, að Jahve sýnir mér dásamlega náð,
að Jahve heyrir, er eg hrópa til hans.
5 Skelfist og syndgið ekki.
Hugsið yður um í hvílum yðar og verið hljóðir. Sela.
6 Færið réttar fórnir
og treystið Jahve.
7 Margir segja: Hver lætur oss hamingju líta?
Lyft yfir oss ljósi auglitis þíns, Jahve.
8 Þú hefir veitt hjarta mínu meiri gleði
en menn hafa af gnægð korns og vínlagar.
9 Í friði legst eg til hvíldar og sofna,
því að þú, Jahve, lætur mig búa óhultan í náðum.

---

5 Til helgisöngs. Með hljóðpípu. Davíðs-sálmur.
2 Heyr orð mín, Jahve,
veit eftirtekt andvörpum mínum!
3 Hlýð þú á kveinstafi mína, konungur minn og Guð minn,
því að til þín bið eg.
4 Jahve, á morgnana heyrir þú rödd mína,
á morgnana legg eg mál mitt fyrir þig og horfi og horfi.
5 Því að þú ert eigi sá Guð, er óguðlegt athæfi líki;
hinir vondu fá eigi að dveljast hjá þér.

---

**3, 1:** 2 Sam. 15, 16 n. **2:** 2 Sam. 15, 13. **3:** * Óvíst er, hvað það orð merkir. Að líkindum »þögn« eða »mjög sterkt« í söng eða hljóðfæraslætti. **4:** 1 Mós. 15, 1. **6:** Sálm. 4, 9. **7:** Sálm. 27, 3. **8:** Sálm. 58, 7. — **4, 5:** Ef. 4, 26. **6:** 5 Mós. 33, 19. Sálm. 51, 19. **7:** 4 Mós. 6, 26. Sálm. 31, 17. **9:** Sálm. 3, 6. — **5, 4:** Sálm. 88, 14. Mík. 7, 7.

6 Hinir hrokafullu fá eigi staðist fyrir þér;
þú hatar alla illgjörðamenn.
7 Þú tortímir þeim, sem lygar mæla;
á blóðvörgum og svikurum hefir Jahve andstygð.
8 En eg fæ að ganga í hús þitt fyrir mikla miskunn þína,
fæ að falla fram fyrir þínu heilaga musteri í þínum ótta.
9 Jahve, leið mig eftir réttlæti þínu sakir fjandmanna minna;
gjör sléttan veg þinn fyrir mér.
10 Því að einlægni er ekki til í munni þeirra;
hjarta þeirra er glötunardjúp.
Kok þeirra er opin gröf,
með tungu sinni hræsna þeir.
11 Dæm þá seka, Guð,
falli þeir sakir ráðagjörða sinna;
hrind þeim burt sakir hinna mörgu afbrota þeirra,
því að þeir storka þér.
12 Þá munu allir þeir gleðjast, er leita hælis hjá þér,
fagna að eilífu, þar sem þú verndar þá,
og þeir kætast yfir þér, er elska nafn þitt.
13 Því að þú, Jahve, blessar hina réttlátu,
hlífir þeim með náð þinni eins og með skildi.

---

6 Til helgisöngs. Með strengjaleik. Djúpraddað. Davíðs-sálmur.
2 Jahve, refsa mér ekki í reiði þinni
og hirt mig ekki í heift þinni.
3 Líkna mér, Jahve, því að eg örmagnast,
lækna mig, Jahve, því að bein mín tærast,
4 og sál mín er mjög óttaslegin,
en þú, ó Jahve — hversu lengi?
5 Snú þú aftur, Jahve; frelsa sálu mína,
hjálpa mér sakir elsku þinnar.
6 Því að enginn minnist þín í dánarheimum;
hver skyldi lofa þig hjá Helju?
7 Eg er þreyttur af andvörpum mínum;
eg lauga rekkju mína hverja nótt,
læt hvílu mína flóa í tárum.
8 Augu mín eru döpruð af harmi,
orðin sljó sakir allra fjandmanna minna.

9 Farið frá mér, allir illgjörðamenn,
því að Jahve hefir heyrt grátraust mína.
10 Jahve hefir heyrt grátbeiðni mína;
Jahve tekur á móti bæn minni.
11 Allir óvinir mínir skulu verða til skammar og skelfast mjög,
snúa sneyptir burt alt í einu.

---

7 Davíðs-sálmur, er hann kvað fyrir Jahve sakir Kúsh Benjamíníta.
2 Jahve, Guð minn, hjá þér leita eg hælis;
hjálpa mér undan öllum ofsækjendum mínum og bjarga mér,
3 svo að þeir rífi mig ekki í sundur eins og ljón,
tæti mig í sundur og enginn bjargi mér.

---

7: Sálm. 55, 24. 9: Sálm. 25, 4. 5; 27, 11. 10: Róm. 3, 13. 12: Sálm. 2, 12. — 6, 1: 1 Kron. 15, 21. 2: Sálm. 38, 2. 6: Sálm. 30, 10; 88, 11—13; 115, 17. Jes. 38, 18. 8: Job 17, 7. Sálm. 31, 10. 11: Sálm. 40, 15.

4 Jahve, Guð minn, hafi eg gjört þetta,
sé ranglæti í höndum mínum,
5 hafi eg ilt gjört þeim, er lifðu í friði við mig,
eða gjört fjandmönnum mínum mein að ástæðulausu,
6 þá elti mig óvinur minn og nái mér,
troði líf mitt til jarðar
og varpi sæmd minni í duftið. Sela.

7 Rís þú upp, Jahve, í reiði þinni,
hef þig gegn ofsa fjandmanna minna
og vakna mér til hjálpar, þú sem hefir fyrirskipað réttan dóm.
8 Söfnuður þjóðanna umkringi þig,
og tak þú sæti uppi yfir honum á hæðum.
9 Þú Jahve, sem dæmir þjóðirnar,
lát mig ná rétti mínum, Jahve,
samkvæmt réttlæti mínu og ráðvendni þeirri, er í mér er.
10 Lát endi á verða ilsku óguðlegra,
en styrk hina réttlátu,
þú, sem rannsakar hjörtun og nýrun,
réttláti Guð!
11 Guð heldur skildi fyrir mér,
hann sem hjálpar hinum hreinhjörtuðu.

12 Guð er ráttlátur dómari
og Guð, sem reiðist dag hvern.
13 Vissulega hvetur hinn óguðlegi aftur sverð sitt,
bendir boga sinn og leggur til hæfis,
14 en sjálfum sér hefir hann búið hin banvænu vopn,
skotið brennandi örvum.
15 Já, hann fæðir misverka;
hann var þungaður af ranglæti, en elur tál.
16 Hann gróf gröf og gjörði hana djúpa,
en sjálfur fellur hann í gryfjuna, er hann gjörði.
17 Ranglæti hans kemur sjálfum honum í koll,
og ofbeldi hans fellur í höfuð sjálfum honum.
18 Eg vil lofa Jahve fyrir réttlæti hans,
og lofsyngja nafni Jahve hins hæsta.

---

8 Til helgisöngs. Með Gat-lagi. Davíðs-sálmur.
2 Jahve, drottinn vor,
hversu dýrlegt er nafn þitt um alla jörðina,
þú sem breiðir ljóma þinn yfir himininn.
3 Af munni barna og brjóstmylkinga hefir þú gjört þér vígi,
sakir fjandmanna þinna,
til þess að þagga niður í óvinum þínum og fjendum.
4 Þá er eg horfi á himininn, verk handa þinna,
tunglið og stjörnurnar, er þú hefir skapað, —
5 hvað er þá maðurinn þess að þú minnist hans
og mannsins barn að þú vitjir þess?
6 Og þó lézt þú hann lítið á vanta við Guð;
með sæmd og heiðri krýndir þú hann.
7 Þú lézt hann ríkja yfir handaverkum þínum;
alt lagðir þú að fótum hans:

---

**7, 5:** 1 Sam. 24, 10 n. **10:** Jer. 17, 10; 20, 12. **13:** 5 Mós. 32, 41. **15:** Job 15, 35. Jes. 59, 4. **16:** Sálm. 9, 16. Orðskv. 26, 27. **17:** Orðskv. 5, 22. — **8, 3:** Matt. 21, 16. **5:** Job 7, 17. Sálm. 144, 3. Hebr. 2, 6—8. **7:** 1 Mós. 1, 28. 1 Kor. 15, 27.

[8] sauðfénað allan og uxa,
og auk þess dýr merkurinnar,
[9] fugla loftsins og fiska hafsins,
alt það er fer hafsins vegu.
[10] Jahve, drottinn vor,
hversu dýrlegt er nafn þitt um alla jörðina.

---

9 Til helgisöngs. Lag: Að deyja fyrir soninn. Davíðs-sálmur.
[2] Eg vil lofa Jahve af öllu hjarta,
segja frá öllum þínum dásemdarverkum.
[3] Eg vil gleðjast og kætast yfir þér,
lofsyngja nafni þínu, þú hinn hæsti,
[4] af því að óvinir mínir hörfuðu undan,
hrösuðu og fórust fyrir augliti þínu.
[5] Því að þú hefir látið mig ná rétti mínum og flutt mál mitt,
sezt í hásætið sem réttlátur dómari.
[6] Þú hefir hastað á heiðingjana, tortímt hinum óguðlegu,
afmáð nafn þeirra um aldur og æfi.
[7] Óvinirnir eru liðnir undir lok —
rústir að eilífu —
og borgirnar hefir þú brotið,
minning þeirra er horfin.
[8] En Jahve ríkir að eilífu;
hann hefir reist hásæti sitt til dóms.
[9] Hann dæmir heiminn með réttvísi,
heldur réttlátan dóm yfir þjóðunum.
[10] Og Jahve er vígi orðinn fyrir þá, er kúgun sæta,
vígi á neyðartímum.
[11] Þeir, er þekkja nafn þitt, treysta þér,
því að þú, Jahve, yfirgefur eigi þá, er þín leita.
[12] Lofsyngið Jahve, þeim er býr á Zíon,
gjörið stórvirki hans kunn meðal þjóðanna.
[13] Því að hann, sem blóðs hefnir, hefir minst þeirra;
hann hefir eigi gleymt hrópi hinna hrjáðu:
[14] »Líkna mér, Jahve, sjá þú eymd mína, er hatursmenn mínir baka mér,
þú sem lyftir mér upp frá hliðum dauðans,
[15] að eg megi segja frá öllum lofstír þínum,
fagna yfir hjálp þinni í hliðum Zíon-dóttur«.
[16] Heiðingjarnir eru fallnir í gryfju þá, er þeir gjörðu;
fætur þeirra festust í neti því, er þeir lögðu leynt.
[17] Jahve hefir auglýst sig; hann hefir háð dóm;
hinn óguðlegi festist í því, er hendur hans höfðu gjört.
Strengjaleikur. Sela.
[18] Hinir óguðlegu hrapa til heljar,
allir heiðingjar, er gleyma Guði.
[19] Því að aumingjanum verður eigi ávalt gleymt;
von hinna voluðu bregst eigi sífelt.
[20] Rís þú upp, Jahve! Lát eigi dauðlega menn verða yfirsterkari;
lát heiðingjana hljóta dóm fyrir augliti þínu.

---

**9, 6:** Orðskv. 10, 7. **9:** Sálm. 96, 13; 98, 9. **12:** Sálm. 76, 3. **18:** 5 Mós. 32, 43.
**16:** Sálm. 7, 16.

21 Skjót þeim skelk í bringu, Jahve!
Lát heiðingjana komast að raun um, að þeir eru dauðlegir menn. Sela.

---

10 Hví stendur þú fjarri, Jahve,
byrgir augu þín á neyðartímum?
2 Hinn óguðlegi ofsækir hinn volaða í hroka sínum;
þeir flækjast í vélum þeim, er þeir hafa upp hugsað.
3 Því að hinn óguðlegi lofar Guð fyrir það, er sála hans girnist,
og hinn ásælni prísar Jahve, sem hann fyrirlítur.
4 Hinn óguðlegi segir í drambsemi sinni: »Hann hegnir eigi!«
»Enginn Guð!« — það eru allar hugsanir hans.
5 Fyrirtæki hans hepnast ætíð,
dómar þínir fara hátt yfir höfði hans;
alla fjandmenn sína kúgar hann.
6 Hann segir í hjarta sínu: Eg verð eigi valtur á fótum;
frá kyni til kyns mun eg eigi í ógæfu rata.
7 Munnur hans er fullur af formælingum, svikum og ofbeldi;
undir tungu hans býr ilska og ranglæti.
8 Hann situr í launsátri í þorpunum,
í skúmaskotinu drepur hann hinn saklausa;
augu hans skima eftir hinum bágstöddu.
9 Hann gjörir fyrirsát í fylgsninu, eins og ljón í skógarrunni;
hann gjörir fyrirsát, til þess að ná hinum volaða;
hann nær hinum volaða í snöru sína, í net sitt.
10 Kraminn hnígur hann niður;
hinir bágstöddu falla fyrir klóm hans.
11 Hann segir í hjarta sínu: Guð gleymir því;
hann hefir hulið auglit sitt, sér það ekki að eilífu.

12 Rís þú upp, Jahve! Lyft þú upp hendi þinni, Guð!
Gleym eigi hinum voluðu.
13 Hvers vegna á hinn óguðlegi að sýna Guði fyrirlitningu,
segja í hjarta sínu: Þú hegnir eigi?
14 Þú hefir séð það, því að þú gefur gaum að mæðu og böli,
til þess að taka það í hönd þína.
Hinn bágstaddi felur þér það;
þú ert hjálpari föðurlausra.
15 Brjót þú armlegg hins óguðlega,
og er þú leitar að guðleysi hins vonda, finnur þú það eigi framar.

16 Jahve er konungur um aldur og æfi;
heiðingjum er útrýmt úr landi hans.
17 Þú hefir heyrt óskir hinna voluðu, Jahve;
þú eykur þeim hugrekki, hneigir eyra þitt,
18 til þess að láta hina föðurlausu og þá, er kúgun sæta, ná rétti sínum.
Eigi skulu menn af moldu framar beita kúgun.

---

11 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
Hjá Jahve leita eg hælis; hvernig getið þér sagt við mig:
»Fljúg sem fugl til fjallanna!

---

10, 4: Sálm. 14, 1. 7: Róm. 3, 14. 11: Sálm. 94, 7. Job 22, 13. 14: Sálm. 68, 6.

2 Því að nú benda hinir óguðlegu bogann,
leggja örvar sínar á streng,
til þess að skjóta í myrkrinu á hina hreinhjörtuðu.
3 Þegar stoðirnar eru rifnar niður,
hvað megna þá hinir réttlátu?«
4 Jahve er í sinni heilögu höll;
hásæti Jahve er á himnum,
augu hans sjá,
sjónir hans rannsaka mennina.
5 Jahve rannsakar hinn réttláta,
en hinn óguðlega og þann, er hefir mætur á ofríki, hatar hann.
6 Á óguðlega lætur hann rigna glóandi kolum,
eldur og brennisteinn og brennheitur vindur er þeirra mældi bikar.
7 Því að Jahve er réttlátur og hefir mætur á réttlætisverkum;
hinir hreinskilnu fá að líta auglit hans.

---

12 Til helgisöngs. Djúpraddað. Davíðs-sálmur.
2 Hjálpa þú, Jahve, því að hinir guðhræddu eru á brottu,
hinir dygglyndu horfnir frá mönnunum.
3 Lygi tala þeir hver við annan;
með mjúkfláum vörum og tvískiftu hjarta tala þeir.
4 Ó að Jahve vildi eyða öllum mjúkfláum vörum,
öllum tungum, er tala drambsamleg orð,
5 þeim er segja: Með tungunni munum vér sigra;
varir vorar hjálpa oss; hver er drotnari yfir oss?
6 Sakir kúgunar hinna voluðu, sakir andvarpana aumingjanna
vil eg nú rísa upp, segir Jahve;
eg vil veita hjálp þeim, er þrá hana.
7 Orð Jahve eru hrein orð,
skírt silfur, sjöhreinsað gull.
8 Þú, Jahve, munt vernda oss,
varðveita oss fyrir þessari kynslóð um aldur.
9 Hinir óguðlegu vaða alstaðar uppi,
þegar hrakmenni komast til vegs meðal mannanna.

---

13 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Hversu lengi, Jahve! Ætlar þú að gleyma mér um eilífð?
Hversu lengi ætlar þú að hylja auglit þitt fyrir mér?
3 Hversu lengi á eg að bera sút í sál,
harm í hjarta dag frá degi?
Hversu lengi á óvinur minn að hreykja sér upp yfir mig?
4 Lít til, svara mér, Jahve, Guð minn,
hýrga augu mín, að eg sofni ekki svefni dauðans,
5 að óvinur minn geti ekki sagt: Eg hefi borið af honum!
að fjandmenn mínir geti ekki fagnað yfir því, að eg verði valtur á fótum.
6 Eg treysti á miskunn þína;
hjarta mitt fagnar yfir hjálp þinni.
Eg vil syngja fyrir Jahve, því að hann hefir gjört vel til mín.

---

**11, 2:** Sálm. 64, 4. 5. **4:** Jes. 66, 1. Hab. 2, 20 **5:** Sálm. 5, 5. **6:** 1 Mós. 19, 24. Esek. 38, 22. — **12, 7:** Sálm. 18, 31. Orðskv. 30, 5.

14 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
Heimskinginn segir í hjarta sínu:
Enginn Guð!
Ill og andstyggileg er breytni þeirra;
enginn gjörir það, sem gott er.
2 Jahve lítur af himni niður á mennina,
til þess að sjá, hvort nokkur sé hygginn,
nokkur, sem leiti Guðs.
3 Allir eru viknir af leið, allir spiltir;
enginn gjörir það, sem gott er — ekki einn.
4 Skyldu þeir ekki fá að kenna á því, allir illgjörðamennirnir,
þeir er eta lýð minn sem brauð væri,
og ákalla eigi Jahve?
5 Þá skulu þeir verða mjög óttaslegnir,
því að Guð er með kynslóð réttlátra.
6 Þér megið láta ráð hinna hrjáðu til skammar verða,
því að Jahve er samt athvarf þeirra.
7 Ó að hjálpræði Ísraels komi frá Zíon!
Þegar Jahve snýr við hag lýðs síns,
skal Jakob fagna, Ísrael gleðjast.

15 Davíðs-sálmur.
Jahve, hver fær að gista í tjaldi þínu,
hver fær að búa á fjallinu þínu helga?
2 Sá, er framgengur í sakleysi og iðkar réttlæti
og talar sannleik af hjarta,
3 sá, er eigi talar róg með tungu sinni,
eigi gjörir öðrum mein
og eigi leggur náunga sínum svívirðing til;
4 sem fyrirlítur þá, er illa breyta,
en heiðrar þá, er óttast Jahve,
sá er sver sér í mein og bregður eigi af;
5 sá er eigi lánar fé sitt gegn vöxtum
og eigi þiggur mútur gegn saklausum —
sá, er þetta gjörir, mun eigi haggast um aldur.

16 Davíðs-miktam*.
Varðveit mig, Guð, því að hjá þér leita eg hælis.
2 Eg segi við Jahve: Þú ert drottinn minn;
eg á engin gæði nema þig.
3 Við þá heilögu, sem í landinu eru, breytir Jahve dýrlega,
á þeim hefir hann alla sína velþóknun.
4 Miklar eru þjáningar þeirra, er kjörið hafa sér annan guð;
eg vil eigi dreypa þeirra blóðugu dreypifórnum
og eigi taka nöfn þeirra mér á varir.

5 Jahve er hlutskifti mitt og minn afmældi bikar;
þú heldur uppi hlut mínum.

---

**14, 1:** Sálm. 53, 2 n. 10, 4. 1 Mós. 6, 12. **2:** Sálm. 33, 13. **3:** Róm. 3, 10—12. **4:** Mík. 3, 3. **6:** Sálm. 46, 2. **7:** Sálm. 126, 1 n. — **15, 1:** Sálm. 24, 3 n. **2:** Jes. 33, 15. Sak. 8, 16. **3:** 3 Mós. 19, 16. 17. **5:** 2 Mós. 22, 25. 3 Mós. 25, 35 n. 5 Mós. 16, 19. — **16, 1:** * Merking orðsins ókunn, að líkindum einhver sálmategund. **2:** Sálm. 73, 25. 26. **4:** 2 Mós. 23, 13. **5:** Sálm. 119, 57. Harm. 3, 24.

6 Mér féllu að erfðahlut inndælir staðir,
og arfleifð mín líkar mér vel.
7 Eg lofa Jahve, er mér hefir ráð gefið;
jafnvel um nætur áminna nýrun mig.
8 Eg hefi Jahve ætíð fyrir augum,
þegar hann er mér til hægri handar, verð eg eigi valtur á fótum.

9 Fyrir því fagnar hjarta mitt, sál mín gleðst
og líkami minn hvílist óhultur,
10 því að þú ofurselur Helju eigi sál mína,
leyfir eigi að þinn guðhræddi sjái gröfina.
11 Kunnan gjörir þú mér veg lífsins;
gleðignótt er fyrir augliti þínu,
yndi í hægri hendi þinni að eilífu.

---

17 Bæn Davíðs.

Heyr, Jahve, á réttvíst málefni,
hlýð á hróp mitt!
Ljá eyra bæn minni,
er eg flyt með tállausum vörum!
2 Lát rétt minn út ganga frá augliti þínu,
augu þín sjá rétt.
3 Þá er þú rannsakar hjarta mitt, prófar það um nætur,
reynir mig,
þá finnur þú engar illar hugsanir hjá mér,
munnur minn heldur sér í skefjum.
4 Hvað sem aðrir gjöra, þá hefi eg eftir orði vara þinna
forðast vegu ofbeldismannsins.
5 Skref mín fylgdu sporum þínum,
mér skriðnaði ekki fótur.

6 Eg kalla á þig, því að þú svarar mér, ó Guð,
hneig eyru þín til mín, hlýð á orð mín,
7 veit mér þína dásamlegu náð, þú sem hjálpar þeim, er leita hælis
við þína hægri hönd fyrir ofsækjendunum.
8 Varðveit mig sem sjáaldur augans,
fel mig í skugga vængja þinna,
9 fyrir hinum óguðlegu, er sýna mér ofbeldi,
fyrir gráðugum óvinum mínum, er kringja um mig.
10 Mörhjörtum sínum hafa þeir lokað,
með munni sínum mæla þeir drambsamleg orð.
11 Hvar sem vér göngum umkringja þeir mig,
þeir beina augum sínum að því að varpa mér til jarðar.
12 Hann líkist ljóni, er langar í bráð,
ungu ljóni, er liggur í felum.

13 Rís upp, Jahve! far í móti honum og varpa honum niður,
frelsa sál mína undan hinum óguðlegu með sverði þínu,
14 undan mönnunum með hendi þinni, Jahve, undan mönnum
heimsins,
sem hafa hlutskifti sitt í lífinu og þú kviðfyllir gæðum þínum.
Þeir eru ríkir að sonum
og leifa börnum sínum nægtir sínar.

---

8: Post. 2, 25—28. 10: Post. 13, 35. 11: Sálm. 17, 15; 21, 7. — 17, 5: Job 23, 11.
8: 5 Mós. 32, 10. Sak. 2, 12. 10: Sálm. 119, 70. 12: Sálm. 10, 9. 14: Lúk. 16, 25.

15 En eg mun fá að sjá auglit þitt sakir réttlætis míns,
skoða mig saddan á mynd þinni, þá er eg vakna.

---

18 Til helgisöngs, eftir Davíð, þjón Jahve, er flutti Jahve orð þessara ljóða, þá er Jahve frelsaði hann af hendi allra óvina hans og af hendi Sáls. 2 Hann mælti:

Eg elska þig, Jahve, þú styrkur minn,
3 Jahve, bjarg mitt og vígi, athvarf mitt,
Guð minn, hellubjarg mitt, þar sem eg leita hælis,
skjöldur minn og horn hjálpræðis míns, háborg mín,
hæli mitt, frelsari minn, þú frelsar mig frá ofbeldi.
4 Lofaður sé Jahve, hrópa eg,
og eg frelsast frá óvinum mínum.
5 Brimöldur dauðans umkringdu mig,
elfur glötunarinnar skelfdu mig,
6 snörur Heljar luktu um mig,
möskvar dauðans féllu yfir mig.

7 Í angist minni kallaði eg á Jahve,
og til Guðs míns hrópaði eg;
í höll sinni heyrði hann raust mína,
og óp mitt barst til eyrna honum.

8 Jörðin bifðist og nötraði,
undirstöður fjallanna skulfu,
þær bifðust, því að hann var reiður;
9 reykur gekk fram úr nösum hans.
og eyðandi eldur af munni hans,
glóðir brunnu út frá honum.
10 Hann sveigði himininn og steig niður
og skýsorti var undir fótum hans.
11 Hann steig á bak kerúb og flaug af stað
og sveif á vængjum vindarins.
12 Hann gjörði myrkur að skýli sínu,
regnsorta og skýþykni að fylgsni sínu alt um kring.
13 Frá ljómanum fyrir honum brutust
hagl og eldglæringar gegnum ský hans.
14 Þá þrumaði Jahve á himnum,
og hinn hæsti lét raust sína gjalla.
15 Hann skaut örvum sínum og tvístraði þeim,
lét eldingar leiftra og hræddi þá.
16 Þá sá í mararbotn,
og undirstöður jarðarinnar urðu berar,
fyrir ógnun þinni, Jahve,
fyrir andgustinum úr nösum þínum.
17 Hann seildist niður af hæðum, greip mig,
dró mig upp úr hinum miklu vötnum.
18 Hann frelsaði mig frá hinum sterku óvinum mínum,
frá fjandmönnum mínum, er voru mér yfirsterkari.
19 Þeir réðust á mig á mínum óheilladegi,
en Jahve var mín stoð;
20 hann leiddi mig út á víðlendi,
frelsaði mig, af því að hann hafði þóknun á mér.

---

**15:** Sálm. 16, 11. 1 Jóh. 3, 2. Jes. 26, 19. Dan. 12, 2. — **18, 1:** 2 Sam. 22, 1 n. **3:** Lúk. 1, 69. **5:** Sálm. 116, 3. **7:** Jón. 2, 8. **11:** Sálm. 104, 3. **12:** Sálm. 97, 2. **14:** Sálm. 29, 3. **17:** Sálm. 144, 7.

21 Jahve fer með mig eftir réttlæti mínu,
eftir hreinleik handa minna geldur hann mér;
22 því að eg hefi varðveitt vegu Jahve
og hefi ekki reynst ótrúr Guði mínum;
23 því að allar skipanir hans hefi eg fyrir augum
og boðorðum hans þokaði eg eigi burt frá mér.
24 Eg var lýtalaus fyrir honum
og gætti mín við misgjörðum;
25 fyrir því galt Jahve mér eftir réttlæti mínu,
eftir hreinleik handa minna fyrir augliti hans.
26 Gagnvart ástríkum ert þú ástríkur,
gagnvart ráðvöndum ráðvandur,
27 gagnvart hreinum hreinn,
en gagnvart rangsnúnum ert þú afundinn.
28 Þú hjálpar þjáðum lýð,
en gjörir hrokafulla niðurlúta.
29 Já, þú lætur lampa minn skína,
Jahve, Guð minn, lýsir mér í myrkrinu.
30 Því að fyrir þína hjálp brýt eg múra,
fyrir hjálp Guðs míns stekk eg yfir borgarveggi.

31 Vegur Guðs er lýtalaus,
orð Jahve er skírt;
skjöldur er hann öllum þeim, sem leita hælis hjá honum.
32 Því að hver er Guð, nema Jahve,
og hver er hellubjarg, utan vor Guð?
33 Sá Guð, sem gyrðir mig styrkleika
og gjörir veg minn sléttan;
34 sem gjörir fætur mína sem hindanna
og veitir mér fótfestu á hæðunum;
35 sem æfir hendur mínar til hernaðar,
svo að armar mínir benda eirbogann.
36 Og þú gafst mér skjöld hjálpræðis þíns
og hægri hönd þín studdi mig
og lítillæti þitt gjörði mig mikinn.
37 Þú rýmdir til fyrir skrefum mínum,
og öklar mínir riðuðu ekki.
38 Eg elti óvini mína og náði þeim
og sneri ekki aftur, fyr en eg hafði gjöreytt þeim.
39 Eg molaði þá sundur, þeir máttu eigi upp rísa,
þeir hnigu undir fætur mér.
40 Þú gyrtir mig styrkleika til ófriðarins,
beygðir fjendur mína undir mig.
41 Þú lézt mig sjá bak óvina minna,
og fjendum mínum — þeim eyddi eg.
42 Þeir hrópuðu — en enginn kom til hjálpar,
til Jahve — en hann svaraði þeim ekki.
43 Og eg muldi þá sem mold á jörð,
tróð þá fótum sem saur á strætum.
44 Þú frelsaðir mig úr fólkorustum,
gjörðir mig að höfðingja heiðingjanna;
lýður, sem eg ekki þekti, þjónar mér;

**24:** 1 Kong. 14, 8. **27:** 3 Mós. 26, 23. 24. Orðskv. 3, 34. **31:** Sálm. 12, 7. **34:** Hab. 3, 19. **35:** Sálm. 144, 1. **37:** Sálm. 31, 9.

45 óðara en þeir heyra mín getið, hlýða þeir mér,
útlendingar smjaðra fyrir mér.
46 Útlendingar dragast upp
og koma skjálfandi fram úr fylgsnum sínum.

47 Lifi Jahve, lofað sé mitt bjarg,
og hátt upp hafinn sé Guð hjálpræðis míns,
48 sá Guð, sem veitti mér hefndir
og braut þjóðir undir mig;
49 sem hreif mig úr höndum óvina minna —
og yfir mótstöðumenn mína hófst þú mig;
frá ójafnaðarmönnum frelsaðir þú mig.

50 Fyrir því vil eg vegsama þig, Jahve, meðal heiðingjanna
og lofsyngja þínu nafni;
51 hann, sem veitir konungi sínum mikla hjálp
og auðsýnir miskunn sínum smurða,
Davíð og niðjum hans að eilífu.

---

19 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Himnarnir segja frá Guðs dýrð
og festingin kunngjörir verkin hans handa.
3 Hver dagurinn af öðrum mælir orð,
hver nóttin af annari talar speki.
4 Engin ræða, engin orð,
ekki heyrist raust þeirra.
5 Og þó fer boðskapur þeirra um alla jörðina
og orð þeirra til endimarka heims.
Röðlinum reisti hann tjald á þeim;
6 hann er sem brúðguminn, er gengur út úr svefnhúsi sínu,
hlakkar sem hetja til að renna skeið sitt.
7 Við takmörk himins rennur hann upp
og hringferð hans nær til enda himins
og ekkert dylst fyrir geislaglóð hans.

* * *

8 Lögmál Jahve er lýtalaust,
hressir sálina,
vitnisburður Jahve er áreiðanlegur,
gjörir hinn fávísa vitran.
9 Fyrirmæli Jahve eru rétt,
gleðja hjartað.
Boðorð Jahve eru skír,
hýrga augun.
10 Ótti Jahve er hreinn,
varir að eilífu.
Ákvæði Jahve eru sannleikur,
eru öll réttlát.
11 Þau eru dýrmætari heldur en gull,
já, gnóttir af skíru gulli,
og sætari en hunang,
já, hunangsseimur.
12 Þjónn þinn varðveitir þau og kostgæfilega;
að halda þau hefir mikil laun í för með sér.

---

**45:** 5 Mós. 33, 29. **48:** Sálm. 47, 4. **50:** Róm. 15, 9. **51:** 2 Sam. 7, 12—16. — **19, 2:** Róm. 1, 20. **5:** Róm. 10, 18. **8:** 2 Tim. 3, 15. 16.

13 En hver verður var við yfirsjónirnar?
Sýkna mig af leyndum brotum!
14 Og varðveit þjón þinn fyrir ofstopamönnum,
lát þá eigi drotna yfir mér.
Þá verð eg lýtalaus og sýknaður
af miklu afbroti.
15 Ó að orðin af munni mínum yrðu þér þóknanleg
og hugsanir hjarta míns kæmu fram fyrir auglit þitt,
þú Jahve, hellubjarg mitt og frelsari!

---

20. Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Jahve bænheyri þig á degi neyðarinnar,
nafn Jakobs Guðs bjargi þér.
3 Hann sendi þér hjálp frá helgidóminum,
styðji þig frá Zíon.
4 Hann minnist allra fórnargjafa þinna
og taki brennifórn þína gilda. Sela.
5 Hann veiti þér það, er hjarta þitt þráir,
og veiti framgang öllum áformum þínum.
6 Ó að vér mættum fagna yfir sigri þínum
og veifa fánanum í nafni Guðs vors.
Jahve uppfylli allar óskir þínar.
7 Nú veit eg, að Jahve veitir hjálp sínum smurða,
svarar honum frá sínum helga himni,
í máttarverkum kemur fulltingi hægri handar hans fram.
8 Hinir stæra sig af vögnum sínum og hestum,
en vér af nafni Jahve, Guðs vors.
9 Þeir fá knésig og falla,
en vér rísum og stöndum uppréttir.
10 Jahve! hjálpa konunginum
og bænheyr oss, er vér hrópum.

---

21 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Jahve! yfir veldi þínu fagnar konungurinn,
hve mjög kætist hann yfir hjálp þinni!
3 Þú hefir gefið honum það, er hjarta hans þráði,
um það, sem varir hans báðu, neitaðir þú honum eigi. Sela.
4 Því að þú kemur í móti honum með hamingjublessunum,
setur gullna kórónu á höfuð honum.
5 Um líf bað hann þig, það veittir þú honum,
fjöld lífdaga um aldur og æfi.
6 Mikil er sæmd hans fyrir þína hjálp,
vegsemd og heiður veittir þú honum.
7 Já, þú hefir veitt honum blessun að eilífu,
þú gleður hann með fögnuði fyrir augliti þínu.
8 Því að konungurinn treystir Jahve
og elsku hins hæsta, og verður eigi valtur á fótum.

9 Hönd þín nær til allra óvina þinna,
hægri hönd þín nær til allra hatursmanna þinna.
10 Þú gjörir þá sem glóandi ofn,

---

**14:** Sálm. 119, 133. — **20, 8:** 1 Sam. 17, 45. — **21, 3:** Sálm. 20, 5. 6. **5:** 2 Sam. 7, 12 n. Sálm. 61, 7 n.

er þú lítur á þá, Jahve;
hann tortímir þeim í reiði sinni og eldurinn eyðir þeim.
11 Ávöxtu þeirra afmáir þú af jörðunni
og afkvæmi þeirra úr mannheimi,
12 því að þeir hafa stofnað ill ráð í gegn þér,
búið fánýtar vélar.
13 Því að þú rekur þá á flótta,
miðar á andlit þeirra með boga þínum.
14 Hef þig, Jahve, í veldi þínu,
þá skulum vér syngja og kveða um máttarverk þín.

---

22 Til helgisöngs. Lag: Hind morgunroðans. Davíðs-sálmur.
2 Guð minn, Guð minn! hví hefir þú yfirgefið mig?
Langt burt frá hjálp minni eru kveinstafir mínir.
3 »Guð minn!« hrópa eg um daga, en þú svarar ekki,
og um nætur, en eg finn enga fró.
4 Og samt ert þú hinn Heilagi,
sá er situr uppi yfir lofsöngum Ísraels.
5 Þér treystu feður vorir,
treystu þér — og þú hjálpaðir þeim,
6 til þín hrópuðu þeir, og þeim varð bjargað,
þér treystu þeir og urðu ekki til skammar.
7 En eg er maðkur og eigi maður,
til spotts fyrir menn og fyrirlitinn af lýðnum.
8 Allir þeir, er sjá mig, gjöra gys að mér,
bregða grönum og hrista höfuðið.
9 »Fel málefni þitt Jahve! Hann mun hjálpa honum,
hann mun frelsa hann, því að hann hefir þóknun á honum«.

10 Já, þú leiddir mig fram af móðurlífi,
lézt mig liggja öruggan við brjóst móður minnar.
11 Til þín var mér varpað frá móðurskauti,
frá móðurlífi ert þú Guð minn.
12 Ver eigi fjarri mér, því að neyðin er nærri,
því að enginn hjálpar.
13 Sterk naut umkringja mig,
Basans uxar slá hring um mig.
14 Þeir glenna upp ginið í móti mér,
sem bráðsólgið, öskrandi ljón.
15 Mér er helt út sem vatni,
og öll bein mín eru gliðnuð sundur;
hjarta mitt er sem vax,
bráðnað sundur í brjósti mér.
16 Gómur minn er þur sem brendur leir
og tungan loðir föst í munni mér
og í duft dauðans leggur þú mig.
17 Því að hundar umkringja mig,
hópur illvirkja slær hring um mig,
hendur mínar og fætur hafa þeir gegnumstungið.
18 Eg get talið öll mín bein,
þeir horfa á og hafa mig að augnagamni.

---

**10:** Sálm. 97, 3. Mal. 4, 1. **11:** Sálm. 109, 13. **13:** Sálm. 7, 13. 14. — **22, 2:** Matt. 27, 46. **3:** Sálm. 88, 2. **6:** Sálm. 25, 3. **7:** Jes. 49, 7; 53, 3. **8:** Matt. 27, 39. **9:** Sálm. 37, 5. Matt. 27, 43. **10:** Sálm. 71, 6. **17:** Jóh. 19, 18; 20, 27.

19 Þeir skifta með sér klæðum mínum
og kasta hlut um kyrtil minn.
20 En þú, ó Jahve, ver eigi fjarri!
þú styrkur minn, skunda mér til hjálpar,
21 frelsa sál mína undan sverðinu,
mína einmana sál undan hundunum.
22 Frelsa mig úr ljónsgininu
og mína aumu sál frá hornum vísundarins.

23 Eg vil kunngjöra bræðrum mínum nafn þitt,
í söfnuðinum vil eg lofa þig.
24 Þér, sem óttist Jahve, lofið hann,
tignið hann, allir niðjar Jakobs,
hræðist hann, allir niðjar Ísraels.
25 Því að hann hefir eigi fyrirlitið né virt að vettugi eymd hins volaða
og eigi hulið auglit sitt fyrir honum,
heldur heyrt, er hann hrópaði til hans.
26 Frá þér kemur lofsöngur minn í stórum söfnuði,
heit mín vil eg efna frammi fyrir þeim, er óttast hann.
27 Volaðir munu eta og verða mettir,
þeir, er leita Jahve, munu lofa hann;
hjörtu yðar lifni við að eilífu.
28 Endimörk jarðar munu minnast þess og aftur hverfa til Jahve,
og allar ættir heiðingjanna falla fram fyrir augliti þínu.
29 Því að ríkið heyrir Jahve
og hann er drotnari yfir heiðingjunum.
30 Já, fyrir honum munu öll stórmenni jarðar falla fram,
fyrir honum munu beygja sig allir þeir, er hníga í duftið.
En sál mín lifir honum,
31 niðjar mínir munu þjóna honum.
Komandi kynslóðum mun sagt verða frá drotni,
32 og lýð, sem enn er ófæddur, mun boðað réttlæti hans,
að hann hefir framkvæmt það.

---

# 23

Davíðs-sálmur.
Jahve er minn hirðir, mig mun ekkert bresta.
2 Á grænum grundum lætur hann mig hvílast,
leiðir mig að vötnum, þar sem eg má næðis njóta.
3 Hann hressir sál mína,
leiðir mig um rétta vegu fyrir sakir nafns síns.
4 Jafnvel þótt eg fari um dimman dal,
óttast eg ekkert ilt, því að þú ert hjá mér,
sproti þinn og stafur hugga mig.
5 Þú býr mér borð frammi fyrir fjendum mínum;
þú smyr höfuð mitt með olíu;
bikar minn er barmafullur,
6 Já, gæfa og náð fylgja mér alla æfidaga mína,
og í húsi Jahve bý eg langa æfi.

---

**19:** Matt. 27, 35. Jóh. 19, 23. 24. **21:** Sálm. 35, 17. **23:** Hebr. 2, 12. **26:** Sálm. 66, 13—15. **27:** Sálm. 69, 33. Jes. 65, 13. 14. **28:** Sálm. 72, 11. **29:** Sálm. 47, 9. **31:** Sálm. 102, 19. — **23, 1:** Sálm. 34, 10; 80, 2. Jes. 40, 11. Jóh. 10, 11 n. 1 Pét. 2, 25. **6:** Sálm. 27, 4.

## 24

Davíðs-sálmur.

Jahve heyrir jörðin og alt, sem á henni er,
heimurinn og þeir, sem í honum búa;
2 því að hann hefir grundvallað hana á hafinu
og fest hana á vötnunum.
3 Hver fær að stíga upp á fjall Jahve,
hver fær að dveljast á hans helga stað?
4 Sá, er hefir óflekkaðar hendur og hreint hjarta,
eigi sækist eftir hégóma
og eigi vinnur rangan eið.
5 Hann mun blessun hljóta frá Jahve
og réttlætingu frá Guði hjálpræðis síns.
6 Þessi er sú kynslóð, er leitar Jahve,
stundar eftir augliti þínu, þú Jakobs Guð. Sela.

* * *

7 Þér hlið, lyftið höfðum yðar,
hefjið yður, þér öldnu dyr,
að konungur dýrðarinnar megi inn ganga.
8 »Hver er þessi konungur dýrðarinnar?«
Það er Jahve, hin volduga hetja,
Jahve, bardagahetjan.
9 Þér hlið, lyftið höfðum yðar,
hefjið yður, þér öldnu dyr,
að konungur dýrðarinnar megi inn ganga.
10 »Hver er þessi konungur dýrðarinnar?«
Jahve hersveitanna,
hann er konungur dýrðarinnar. Sela.

---

## 25

Davíðs-sálmur.

Til þín hef eg sál mína, Jahve, Guð minn!
2 Þér treysti eg, lát mig eigi verða til skammar,
lát eigi óvini mína hlakka yfir mér.
3 Hver sá, er á þig vonar, mun eigi heldur verða til skammar;
þeir verða til skammar, er ótrúir eru að raunalausu.
4 Vísa mér vegu þína, Jahve,
kenn mér stigu þína.
5 Lát mig ganga í sannleika þínum og kenn mér,
því að þú ert Guð hjálpræðis míns,
á þig vona eg liðlangan daginn.
6 Minst þú miskunnar þinnar, Jahve, og kærleiksverka,
því að þau eru frá eilífð.
7 Minst eigi æskusynda minna og afbrota,
minst mín eftir elsku þinni,
sakir gæzku þinnar, Jahve.
8 Góður og réttlátur er Jahve,
þess vegna vísar hann syndurum veginn.
9 Hann lætur hina voluðu ganga eftir réttlætinu
og kennir hinum voluðu veg sinn.
10 Allir vegir Jahve eru elska og trúfesti
fyrir þá, er gæta sáttmála hans og vitnisburða.

---

**24, 1:** 2 Mós. 19, 5. 5 Mós. 10, 14. Sálm. 50, 12. **2:** 1 Mós. 1, 9. Sálm. 104, 5; 136, 6. **3:** Sálm. 15, 1 n. **4:** Matt. 5, 8. **8:** 2 Mós. 15, 3. — **25, 4:** Sálm. 27, 11. **6:** Sálm. 103, 17. **7:** Job 13, 26.

11 Sakir nafns þíns, Jahve —
fyrirgef mér sekt mína, því að hún er mikil.
12 Ef einhver óttast Jahve,
mun hann kenna honum veg þann, er hann á að velja.
13 Sjálfur mun hann búa við hamingju,
og niðjar hans eignast landið.
14 Jahve sýnir trúnað þeim, er óttast hann
og sáttmála sinn gjörir hann þeim kunnan.
15 Augu mín mæna ætíð til Jahve,
því að hann greiðir fót minn úr snörunni.
16 Snú þér til mín og líkna mér,
því að eg er einmana og volaður.
17 Angist sturlar hjarta mitt,
leið mig úr nauðum mínum.
18 Lít á eymd mína og armæðu
og fyrirgef allar syndir mínar.
19 Lít á, hversu margir fjandmenn mínir eru,
með rangsleitnishatri hata þeir mig.
20 Varðveit sál mína og frelsa mig,
lát mig eigi verða til skammar, því að hjá þér leita eg hælis.
21 Lát ráðvendni og hreinskilni gæta mín,
því að á þig vona eg.
22 Frelsa, ó Guð, Ísrael úr öllum nauðum hans.

---

## 26

Davíðs-sálmur.
Lát mig ná rétti mínum, Jahve, því að eg geng fram í grandvarleik,
og Jahve treysti eg óbifanlega.
2 Rannsaka mig, Jahve, og reyn mig,
prófa nýru mín og hjarta.
3 Því að eg hefi elsku þína fyrir augum,
og eg geng í sannleika þínum.
4 Eg tek mér eigi sæti hjá lygurum
og hefi eigi umgengni við undirförula menn.
5 Eg hata söfnuð illvirkjanna,
sit eigi meðal óguðlegra.
6 Eg þvæ hendur mínar í sakleysi,
að eg megi ganga í kring um altari þitt, Jahve,
7 til þess að láta lofsönginn hljóma,
og segja frá öllum þínum dásemdarverkum.
8 Jahve, eg elska bústað húss þíns
og staðinn, þar sem dýrð þín býr.
9 Hríf eigi sál mína burt með syndurum,
né líf mitt með morðingjum,
10 þeim er hafa svívirðing í höndum sér
og hægri höndina fulla af mútugjöfum.
11 En eg geng fram í grandvarleik;
frelsa mig og líkna mér.
12 Fótur minn stendur á sléttri grund,
í söfnuðunum vil eg lofa Jahve.

---

**12:** Sálm. 32, 8. **13:** Sálm. 37, 9; 112, 2. — **26, 2:** Sálm. 7, 10; 17, 3; 139, 23. **4:** Sálm. 1, 1. **8:** Sálm. 27, 4. **9:** Sálm. 28, 3. **12:** Sálm. 27, 11; 22, 23. 26.

**27** Davíðs-sálmur.

Jahve er ljós mitt og fulltingi,
hvern ætti eg að óttast?
Jahve er vígi lífs míns,
hvern ætti eg að hræðast?
2 Þegar illvirkjarnir nálgast mig,
til þess að eta hold mitt,
þá verða það fjandmenn mínir og óvinir,
sem hrasa og falla.
3 Þegar her sezt um mig,
óttast hjarta mitt eigi;
þegar ófriður hefst í gegn mér,
er eg samt öruggur.
4 Eins hefi eg beðið Jahve,
það eitt þrái eg:
að eg fái að dveljast í húsi Jahve
alla æfidaga mína,
til þess að fá að skoða yndisleik Jahve,
sökkva mér niður í hugleiðingar í musteri hans.
5 Því að hann geymir mig í skjóli,
á óheilladeginum,
hann felur mig í fylgsnum tjalds síns,
lyftir mér upp á klett.
6 Þess vegna hefst upp höfuð mitt,
yfir óvini mína umhverfis mig,
að eg með fögnuði megi færa fórnir í tjaldi hans,
syngja og leika Jahve.

7 Heyr, Jahve, eg hrópa hátt!
Sýn mér miskunn og svara mér!
8 Þú mælir svo, segir hjarta mitt: Leitið auglitis míns!
Eg vil leita auglitis þíns, Jahve.
9 Hyl eigi auglit þitt fyrir mér,
vísa þjóni þínum eigi frá í reiði.
Þú hefir verið fulltingi mitt, hrind mér eigi burt
og yfirgef mig eigi, þú Guð hjálpræðis míns.
10 Því að þótt faðir minn og móðir hafi yfirgefið mig,
tekur Jahve mig að sér.
11 Vísa mér veg þinn, Jahve,
leið mig um slétta braut
sakir fjandmanna minna.
12 Ofursel mig eigi græðgi fjandmanna minna,
því að falsvitni rísa í gegn mér
og menn, er fnæsa ofbeldi.
13 Ef eg treysti því eigi, að fá að sjá gæzku Jahve
á landi lifenda —!
14 Vona á Jahve, ver öruggur og hugrakkur,
já, vona á Jahve.

---

**28** Davíðs-sálmur.

Til þín, Jahve, hrópa eg;
þú bjarg mitt, ver eigi hljóður gagnvart mér,

---

**27, 1:** Mík. 7, 8. **3:** Sálm. 3, 7. **4:** Sálm. 23, 6; 26, 8; 84, 2. 3. **5:** Sálm. 31, 21. Jes. 4, 6. **11:** Sálm. 25, 4; 26, 12. **13:** Jes. 38, 11. **14:** Sálm. 31, 25. — **28, 1:** Sálm. 143, 7.

að eg ekki, er þú þegir við mér,
verði sem þeir, er til grafar eru gengnir.
2 Heyr þú á grátbeiðni mína, er eg hrópa til þín,
er eg lyfti höndum mínum til þíns allrahelgasta.
3 Hríf mig eigi á burt með óguðlegum og illgjörðamönnum,
þeim er tala vinsamlega við náunga sinn, en hafa ilt í hyggju.
4 Launa þeim eftir verkum þeirra, eftir þeirra illu breytni,
launa þeim eftir verkum handa þeirra,
endurgjald þeim það, er þeir hafa aðhafst.
5 Því að þeir hyggja eigi á verk Jahve og handaverk hans;
hann rífi þá niður og reisi þá eigi við aftur.

6 Lofaður sé Jahve,
því að hann hefir heyrt grátbeiðni mína.
7 Jahve er vígi mitt og skjöldur;
honum treysti hjarta mitt, og eg hlaut hjálp;
því fagnar hjarta mitt,
og með ljóðum mínum lofa eg hann.
8 Jahve er vígi lýð sínum,
og hjálparhæli sínum smurða.
9 Hjálpa lýð þínum og blessa eign þína,
gæt þeirra og ber þá að eilífu.

---

29 Davíðs-sálmur.
Tjáið Jahve, þér guðasynir,
tjáið Jahve vegsemd og vald.
2 Tjáið Jahve dýrð þá, er nafni hans hæfir,
fallið fram fyrir Jahve í helgum skrúða.
3 Raust Jahve hljómar yfir vötnunum,
Guð dýrðarinnar þrumar,
Jahve yfir hinum miklu vötnum.
4 Raust Jahve hljómar með krafti,
raust Jahve hljómar með tign.
5 Raust Jahve brýtur sundur sedrustré,
Jahve brýtur sundur sedrustrén á Líbanon.
6 Hann lætur þau hoppa eins og kálfa,
Líbanon og Sirjon eins og unga vísunda.
7 Raust Jahve klýfur eldsloga,
8 Raust Jahve lætur eyðimörkina skjálfa,
Jahve lætur Kades-eyðimörk skjálfa.
9 Raust Jahve lætur hindirnar bera fyrir tímann og gjörir skóg-
ana nakta,
og alt í helgidómi hans segir: Dýrð!
10 Jahve sat uppi yfir flóðinu,
Jahve mun sitja sem konungur að eilífu.
11 Jahve veitir lýð sínum styrkleik,
Jahve blessar lýð sinn með friði.

---

30 Musterisvígsluljóð. Davíðs-sálmur.
2 Eg tigna þig, Jahve, því að þú hefir bjargað mér,
og eigi látið óvini mína hlakka yfir mér.
3 Jahve, Guð minn,
eg hrópaði til þín og þú læknaðir mig.

---

3: Jer. 9, 8. — 29, 1: Sálm. 96, 7. 3: Job 37, 2—5. 10: 1 Mós. 6, 17.

4 Jahve, þú heimtir sál mína úr helju,
lézt mig halda lífi, er aðrir gengu til grafar.
5 Syngið Jahve lof, þér hans guðhræddu,
vegsamið hans heilaga nafn.
6 Því að augnablik stendur reiði hans,
en alla æfi náð hans;
að kveldi gistir oss grátur,
en gleðisöngur að morgni.

7 En eg ugði eigi að mér og hugsaði:
Aldrei verð eg valtur á fótum!
8 Jahve, af náð þinni hafðir þú gjört bjarg mitt stöðugt,
nú huldir þú auglit þitt og eg skelfdist.
9 Til þín, Jahve, kallaði eg
og Jahve grátbændi eg:
10 Hver ávinningur er í blóði mínu,
í því að eg gangi til grafar?
Getur duftið lofað þig,
kunngjört trúfesti þína.
11 Heyr, Jahve, og líkna mér,
ó Jahve, ver þú hjálpari minn!
12 Þá breyttir þú grát mínum í gleðidans,
leystir af mér hærusekkinn og gyrtir mig fögnuði,
13 að sál mín megi lofsyngja þér og eigi þagna.
Jahve, Guð minn, eg vil þakka þér að eilífu.

---

31 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Hjá þér, Jahve, leita eg hælis,
lát mig aldrei verða til skammar;
bjarga mér eftir réttlæti þínu;
3 hneig eyru þín til mín, frelsa mig í skyndi;
ver mér verndarbjarg,
vígi mér til hjálpar.
4 Því að þú ert bjarg mitt og vígi,
og sakir nafns þíns munt þú leiða mig og stjórna mér.
5 Þú munt draga mig úr neti því, er þeir lögðu leynt fyrir mig,
því að þú ert vörn mín.
6 Í þína hönd fel eg anda minn,
þú munt frelsa mig, Jahve, þú trúfasti Guð!
7 Eg hata þá, er dýrka fánýt falsgoð,
en Jahve treysti eg.
8 Eg vil gleðjast og fagna yfir miskunn þinni,
yfir því, að þú hefir litið á eymd mína,
gefið gætur að sálarneyð minni
9 og eigi ofurselt mig óvinunum,
en sett fót minn á víðlendi.
10 Líkna mér, Jahve, því að eg er í nauðum staddur,
döpruð af harmi eru augu mín,
sál mín og líkami.
11 Líf mitt er liðið í harmi
og ár mín í andvörpum;
mér förlast kraftur sakir sektar minnar
og bein mín tærast.

---

**30, 5:** Sálm. 97, 12. **6:** Jóh. 16, 20. **10:** Sálm. 6, 6. **13:** Sálm. 16, 9. — **31, 2:** Sálm. 71, 1. 2. **4:** Sálm. 18, 3; 23, 3. **6:** Lúk. 23, 46. Post. 7, 59. **7:** Jón. 2, 9. 10. **10:** Sálm. 6, 8.

12 Eg er að spotti öllum fjandmönnum mínum,
til háðungar nábúum mínum og skelfing kunningjum mínum;
þeir, sem sjá mig á strætum úti, flýja mig.
13 Sem dáinn maður er eg gleymdur hjörtum þeirra,
eg er sem ónýtt ker.
14 Því að eg heyri illyrði margra,
skelfing er alt um kring;
þá er þeir bera ráð sín saman móti mér,
hyggja þeir á að svifta mig lífi.
15 En eg treysti þér, Jahve,
segi: Þú ert Guð minn!
16 Í þinni hendi er hagur minn,
frelsa mig af hendi óvina minna og ofsækjenda.
17 Lát ásjónu þína lýsa yfir þjón þinn,
hjálpa mér sakir elsku þinnar.
18 Ó, Jahve, lát mig eigi verða til skammar,
því að eg ákalla þig;
lát hina óguðlegu verða til skammar,
hverfa hljóða til heljar.
19 Lát lygavarirnar þagna,
þær er mæla drambyrði gegn réttlátum
með hroka og fyrirlitningu.

20 Hversu mikil er gæzka þín,
er þú hefir geymt þeim, er óttast þig,
er þú auðsýnir þeim, er leita hælis hjá þér
frammi fyrir mönnunum.
21 Þú hylur þá í skjóli auglitis þíns fyrir svikráðum manna,
felur þá í leyni fyrir deilum tungnanna.
22 Lofaður sé Jahve,
því að hann hefir sýnt mér dásamlega náð í öruggri borg.
23 Og eg hugsaði í angist minni:
eg er burtrekinn frá augum þínum,
en samt heyrðir þú grátraust mína, er eg hrópaði til þín.
24 Elskið Jahve, allir þér hans guðhræddu,
Jahve verndar trúfasta,
en geldur í fullum mæli þeim, er ofmetnaðarverk vinna.
25 Verið öruggir og hughraustir,
allir þér, er vonið á Jahve.

---

32 Davíðs-maskíl.
Sæll er sá, er afbrotin eru fyrirgefin,
synd hans hulin.
2 Sæll er sá maður, er Jahve tilreiknar eigi misgjörð,
sá er eigi geymir svik í anda.
3 Meðan eg þagði, tærðust bein mín,
er eg kveinaði liðlangan daginn.
4 Því að dag og nótt lá hönd þín þungt á mér,
lífsvökvi minn þvarr sem í sumarbreiskju. Sela.
5 Þá játaði eg synd mína fyrir þér
og fól eigi misgjörð mína.
Eg mælti: Eg vil játa afbrot mín fyrir Jahve,
og þú fyrirgafst syndasekt mína. Sela.

---

**14:** Jer. 20, 10. **16:** 1 Kron. 29, 30. **21:** Sálm. 27, 5. **23:** Jes. 38, 11. Jón. 2, 5.
**25:** Sálm. 27, 14. — **32, 1:** Róm. 4, 7. 8. **5:** Orðskv. 28, 13. 1 Jóh. 1, 9.

6 Þess vegna biðji þig sérhver guðhræddur, meðan þig er að finna,
þótt vatnsflóðið komi, nær það honum eigi.
7 Þú ert skjól mitt, þú leysir mig úr nauðum,
með frelsisfögnuði umkringir þú mig. Sela.

8 Eg vil kenna þér og fræða þig um veg þann, er þú átt að ganga;
eg vil kenna þér ráð, hafa augun á þér.
9 Verið eigi sem hestar eða skynlausir múlar;
með taum og beizli verður að temja þrjózku þeirra,
annars nálgast þeir þig ekki.
10 Miklar eru þjáningar óguðlegs manns,
en þann, er treystir Jahve, umlykur hann elsku.
11 Gleðjist yfir Jahve og fagnið, þér réttlátir,
kveðið fagnaðarópi, allir hreinhjartaðir!

---

33 Gleðjist, þér réttlátir, yfir Jahve,
hreinlyndum hæfir lofsöngur.
2 Lofið Jahve með gígjum,
leikið fyrir honum á tístrengjaða hörpu.
3 Syngið honum nýjan söng,
knýið strengina ákaft með fagnaðarópi.
4 Því að orð Jahve er áreiðanlegt
og öll verk hans eru í trúfesti gjörð.
5 Hann hefir mætur á réttlæti og rétti,
jörðin er full af miskunn Jahve.
6 Fyrir orð Jahve voru himnarnir gjörðir
og allur her þeirra fyrir anda munns hans;
7 hann safnaði vatni hafsins sem í belg,
lét straumana í forðabúr.
8 Öll jörðin óttist Jahve,
allir heimsbúar hræðist hann;
9 því að hann talaði — og það varð,
hann bauð — þá stóð það þar.
10 Jahve ónýtti ráð heiðingjanna,
gjörði að engu áform þjóðanna,
11 en ráð Jahve stendur stöðugt um aldur,
áform hjarta hans frá kyni til kyns.
12 Sæl er sú þjóð, er á Jahve að Guði,
sá lýður, er hann hefir kjörið sér til eignar.
13 Jahve leit niður af himni,
sá öll mannanna börn;
14 frá bústað sínum virti hann fyrir sér
alla jarðarbúa,
15 hann, sem myndað hefir hjörtu þeirra allra,
sem gefur gætur að öllum athöfnum þeirra.
16 Eigi sigrar konungurinn fyrir gnótt herafla síns,
eigi bjargast kappinn fyrir ofurafl sitt.
17 Svikull er hestur til sigurs,
með ofurafli sínu bjargar hann ekki.
18 En augu Jahve hvíla á þeim, er óttast hann,
á þeim, er vona á miskunn hans,

---

**8:** Sálm. 25, 12. **9:** Orðskv. 26, 3. **10:** Orðskv. 12, 21. **11:** Sálm. 33, 1; 97, 12. Fil. 4, 4. — **33, 1:** Sálm. 32, 11. **6:** 1 Mós. 1, 6. 7; 2, 1. **7:** Job. 38, 8. **9:** 1 Mós. 1, 3. Sálm. 148, 5. **10:** Job 5, 12. **12:** Sálm. 144, 15. **17:** Sálm. 147, 10. Orðskv. 21, 31.

19 til þess að frelsa þá frá dauða
og halda lífinu í þeim í hallæri.
20 Sálir vorar vona á Jahve,
hann er hjálp vor og skjöldur.
21 Já, yfir honum fagnar hjarta vort,
hans heilaga nafni treystum vér.
22 Miskunn þín, Jahve, sé yfir oss,
svo sem vér vonum á þig.

---

34 Davíðs-sálmur, þá er hann gjörði sér upp vitfirringu frammi fyrir Abímelek, svo að Abímelek rak hann í burt, og hann fór burt.

2 Eg vil vegsama Jahve alla tíma,
ætíð sé lof hans mér í munni.
3 Sál mín hrósar sér af Jahve,
hinir hógværu skulu heyra það og fagna.
4 Miklið Jahve ásamt mér,
tignum í sameiningu nafn hans.
5 Eg leitaði Jahve, og hann svaraði mér,
frelsaði mig frá öllu því, er eg hræddist.
6 Lítið til hans og gleðjist,
og andlit yðar skulu eigi blygðast.
7 Hér er volaður maður, sem hrópaði, og Jahve heyrði hann
og hjálpaði honum úr öllum nauðum hans.
8 Engill Jahve setur vörð
kring um þá, er óttast hann, og frelsar þá.
9 Finnið og sjáið, að Jahve er góður;
sæll er sá maður, er leitar hælis hjá honum.
10 Óttist Jahve, þér hans heilögu,
því að þeir, er óttast hann, líða engan skort.
11 Ung ljón eiga við skort að búa og svelta,
en þeir, er leita Jahve, fara einskis góðs á mis.

12 Komið, börn, hlýðið á mig;
eg vil kenna yður ótta Jahve.
13 Ef einhver óskar lífs,
þráir lífdaga, til þess að njóta hamingjunnar,
14 þá varðveit tungu þína frá illu
og varir þínar frá svikatali;
15 forðast ilt og gjörðu gott,
leita friðar og legg stund á hann.
17 Auglit Jahve horfir á þá, er illa breyta,
til þess að afmá minningu þeirra af jörðunni,
16 en augu Jahve hvíla á réttlátum
og eyru hans gefa gaum að hrópi þeirra.
18 Ef þeir hrópa, þá heyrir Jahve,
úr öllum nauðum þeirra frelsar hann þá.
19 Jahve er nálægur þeim, er hafa sundurmarið hjarta,
þeim, er hafa sundurkraminn anda, hjálpar hann.
20 Margar eru raunir réttláts manns,
en Jahve frelsar hann úr þeim öllum.

---

**19:** Job 5, 20. Sálm. 37, 19. — **34, 1:** 1 Sam. 21, 13 n. **3:** Jer. 9, 24. **8:** 1 Mós. 32, 1. 2. **9:** Sálm. 2, 12. 1 Pét. 2, 3. **13:** 1 Pét. 3, 10 n. **15:** Sálm. 37, 27. Jes. 1, 16. 17. Róm. 12, 18. Hebr. 12, 14. **16:** Sálm. 33, 18. **19:** Sálm. 51, 19. Jes. 57, 15; 66, 2. Lúk. 18, 13. 14.

21 Hann gætir allra beina hans,
ekki eitt af þeim skal brotið.
22 Ógæfa drepur óguðlegan mann,
þeir, er hata hinn réttláta, skulu sekir dæmdir.
23 Jahve frelsar líf þjóna sinna,
enginn sá, er leitar hælis hjá honum, mun sekur dæmdur.

---

35 Davíðs-sálmur.
Deil þú, Jahve, við þá, er deila við mig,
berst þú við þá, er berjast við mig.
2 Tak skjöld og törgu
og rís upp mér til hjálpar.
3 Tak til spjót og öxi, til þess að mæta ofsækjendum mínum;
seg við sál mína: Eg er hjálp þín!
4 Lát þá, er sitja um líf mitt, hljóta smán og svívirðing,
lát þá hverfa aftur með skömm, er ætla að gjöra mér ilt.
5 Lát þá verða sem sáðir fyrir vindi,
þegar engill Jahve varpar þeim um koll;
6 lát veg þeirra verða myrkan og hálan,
þegar engill Jahve eltir þá;
7 því að ástæðulausu hafa þeir lagt net sitt leynt fyrir mig,
að ástæðulausu hafa þeir grafið gryfju fyrir mig.
8 Lát tortíming koma yfir þá, er þá varir minst,
lát netið, er þeir hafa lagt leynt, veiða sjálfa þá,
lát þá falla í þeirra eigin gryfju.
9 En sál mín skal kætast yfir Jahve,
gleðjast yfir hjálpræði hans.
10 Öll bein mín skulu segja:
Jahve, hver er sem þú,
er frelsar hinn volaða frá þeim, sem er honum yfirsterkari,
hinn volaða og snauða frá þeim, sem rænir hann?

11 Ljúgvottar rísa upp;
þeir spyrja mig um það, sem eg veit ekki um.
12 Þeir launa mér gott með illu,
barnleysi varð hlutfall mitt.
13 En þegar þeir voru sjúkir, klæddist eg hærusekk,
þjáði mig með föstu
og bað með niðurlútu höfði.
14 Eg gekk um harmandi, sem vinur eða bróðir ætti í hlut,
var beygður eins og sá, er syrgir móður sína.
15 En þeir fagna yfir hrösun minni og safnast saman,
útlendingar og ókunnugir menn safnast saman móti mér,
mæla lastyrði og þagna eigi.
16 Þeir freista mín, smána og smána,
nísta tönnum í gegn mér.
17 Drottinn, hversu lengi vilt þú horfa á?
Frelsa sál mína undan eyðileggingu þeirra,
mína einmana sál undan ljónunum.
18 Þá vil eg lofa þig í miklum söfnuði,
vegsama þig í miklum mannfjölda.

---

**35, 1:** Jes. 49, 25. **4:** Sálm. 40, 15; 70, 3; 83, 17. **6:** Jer. 23, 12. **12:** Sálm. 109, 5. **16:** Job 16, 9. **17:** Sálm. 22, 21. **18:** Sálm. 22, 26.

19 Lát eigi þá, sem án saka eru óvinir mínir, hlakka yfir mér,
lát eigi þá, sem að ástæðulausu hata mig, skotra augunum.
20 Því að frið tala þeir eigi
og móti hinum kyrlátu í landinu hugsa þeir upp sviksamleg orð;
21 þeir glenna upp ginið í móti mér,
segja: »Hæ, hæ! Nú höfum vér séð það með eigin augum«.
22 Þú hefir séð það, Jahve; ver eigi hljóður,
drottinn, ver eigi langt í burtu frá mér.
23 Vakna, rís upp og lát mig ná rétti mínum,
Guð minn og drottinn, til þess að flytja mál mitt.
24 Dæm mig eftir réttlæti þínu, Jahve, Guð minn,
og lát þá eigi hlakka yfir mér,
25 lát þá ekki segja í hjarta sínu: Hæ! ósk vor er uppfylt!
lát þá ekki segja: Vér höfum gjört út af við hann.
26 Lát þá alla verða til skammar og hljóta kinnroða, er hlakka yfir ógæfu minni,
lát þá íklæðast skömm og svívirðing, er hreykja sér upp gegn mér.
27 Lát þá kveða fagnaðarópi og gleðjast, er unna mér réttar,
lát þá ætíð segja: Vegsamaður sé Jahve,
hann sem ann þjóni sínum heilla!
28 Og tunga mín skal boða réttlæti þitt,
lofstír þinn liðlangan daginn.

---

36. Til helgisöngs. Eftir Davíð, þjón Jahve.
2 Rödd syndarinnar talar til hins óguðlega í fylgsnum hjarta hans,
enginn guðsótti býr í huga hans;
3 því að hún smjaðrar fyrir honum í augum hans,
til þess að misgjörð hans verði uppvís og hann verði fyrir hatri.
4 Orðin af munni hans eru tál og svik,
hann er hættur að vera hygginn og breyta vel;
5 í hvílu sinni hyggur hann á tál;
hann fetar vonda vegu,
forðast eigi hið illa.

* * *

6 Jahve, til himna nær miskunn þín,
til skýjanna trúfesti þín;
7 réttlæti þitt er sem fjöll Guðs,
dómar þínir sem reginhaf;
mönnum og skepnum hjálpar þú, Jahve.
8 Hversu dýrmæt er miskunn þín, ó Guð;
mannanna börn leita hælis í skugga vængja þinna.
9 Þau seðjast af feiti húss þíns,
og þú lætur þau drekka úr lækjum unaðsemda þinna.
10 Því að hjá þér er uppspretta lífsins,
í þínu ljósi sjáum vér ljós.
11 Lát miskunn þína haldast við þá, er þekkja þig,
og réttlæti þitt við þá, sem hreinhjartaðir eru.
12 Lát eigi fót hins hrokafulla koma yfir mig,
né hönd óguðlegra hrekja mig burt.
13 Þar eru illgjörðamennirnir fallnir,
þeim er varpað um koll og þeir fá eigi risið upp aftur.

---

**19:** Jóh. 15, 25. **22:** Sálm. 22, 12. **23:** Sálm. 7, 7; 44, 24; 59, 5. **24:** Sálm. 7, 9. **26:** v. 4. **27:** Sálm. 40, 17. — **36, 2:** Róm. 3, 18. **3:** Sálm. 10, 3. **6:** Sálm. 57, 11; 108, 5. **9:** Sálm. 23, 5. 6; 65, 5. **10:** Jer. 2, 13.

37 Davíðs-sálmur.
Ver eigi of bráður vegna illvirkjanna,
öfunda eigi þá, er ranglæti fremja;
2 því að þeir fölna skjótt sem grasið,
visna sem grænar jurtir.
3 Treyst Jahve og gjör gott,
bú þú í landinu og iðka ráðvendni,
4 þá munt þú gleðjast yfir Jahve,
og hann mun veita þér það, sem hjarta þitt girnist.
5 Fel Jahve vegu þína
og treyst honum, hann mun vel fyrir sjá,
6 hann mun láta réttlæti þitt renna upp sem ljós
og rétt þinn sem hábjartan dag.
7 Ver hljóður fyrir Jahve og vona á hann,
ver eigi of bráður vegna þeirra er vel gengur,
vegna þess manns, er svik fremur.
8 Lát af reiði og slepp heiftinni;
ver eigi of bráður, það leiðir til ills eins;
9 því að illvirkjarnir verða afmáðir,
en þeir, er vona á Jahve, fá landið til eignar.
10 Innan stundar eru engir óguðlegir til framar,
þegar þú gefur gætur að stað þeirra, eru þeir horfnir;
11 en hinir voluðu fá landið til eignar,
gleðjast yfir ríkulegri gæfu.
12 Óguðlegur maður býr yfir illu gegn réttlátum,
nístir tönnum gegn honum, —
13 drottinn hlær að honum,
því að hann sér að dagur hans kemur.
14 Óguðlegir bregða sverðinu og benda boga sína,
til þess að fella hinn volaða og snauða,
til þess að brytja niður hina ráðvöndu —
15 sverð þeirra lendir í þeirra eigin hjörtum
og bogar þeirra munu brotnir verða.
16 Betri er lítil eign réttláts manns
en auðlegð margra óguðlegra,
17 því að armleggur óguðlegra verður brotinn,
en réttláta styður Jahve.
18 Jahve þekkir daga ráðvandra
og arfleifð þeirra varir að eilífu.
19 Á vondum tímum verða þeir eigi til skammar,
á hallæristímum hljóta þeir saðning.
20 Því að óguðlegir farast,
og óvinir Jahve eru sem skraut vallarins:
þeir hverfa, sem reykur hverfa þeir.
21 Óguðlegur maður tekur lán og borgar eigi,
en hinn réttláti er mildur og örlátur;
22 því að þeir, sem Hann blessar, fá landið til eignar,
en þeim, sem hann bölvar, verður útrýmt.
23 Frá Jahve kemur skrefum mannsins festa,
þegar hann hefir þóknun á breytni hans;
24 þótt hann falli, þá liggur hann ekki flatur,
því að Jahve heldur í hönd hans.

**37, 1:** v. 7. Sálm. 73, 3. Orðskv. 23, 17; 24, 19. **2:** Sálm. 129, 6. **3:** Orðskv. 2, 21. **5:** Sálm. 55, 23. Orðskv. 16, 3. 1 Pét. 5, 7. **6:** Jes. 58, 8. **7:** Sálm. 62, 2. **8:** Ef. 4, 26. **11:** Matt. 5, 5. Sálm. 119, 165. **12:** Sálm. 35, 16. **13:** Sálm. 2, 4. **16:** Orðskv. 15, 16. **19:** Sálm. 33, 19. **20:** Sálm. 68, 3.

[25] Ungur var eg og gamall er eg orðinn,
en aldrei sá eg réttlátan mann yfirgefinn,
né niðja hans biðja sér matar.
[26] Ætíð er hann mildur og lánar
og niðjar hans verða öðrum til blessunar.
[27] Forðastu ilt og gjörðu gott,
þá munt þú búa kyrr um aldur;
[28] því að Jahve hefir mætur á réttlæti
og yfirgefur ekki sína guðhræddu.
Hinir ranglátu verða afmáðir um aldur
og niðjum óguðlegra útrýmt.
[29] Hinir réttlátu fá landið til eignar
og búa í því um aldur.
[30] Munnur réttláts manns mælir speki
og tunga hans talar það, sem rétt er;
[31] lögmál Guðs hans er í hjarta hans,
eigi skriðnar honum fótur.
[32] Hinn óguðlegi skimar eftir hinum réttláta
og situr um að drepa hann,
[33] en Jahve ofurselur hann honum ekki
og lætur hann ekki ganga sekan frá dómi.
[34] Vona á Jahve og gef gætur að vegi hans,
þá mun hann hefja þig upp til þess að fá landið til eignar;
þú skalt horfa á þegar óguðlegum verður útrýmt.
[35] Eg sá hinn óguðlega í ofstopa sínum
og þenja sig út sem grænt tré á gróðrarstöðvum sínum;
[36] og eg gekk fram hjá, og sjá, hann var þar ekki framar,
eg leitaði hans, en hann fanst ekki.
[37] Gef gætur að hinum ráðvanda og lít á hinn hreinskilna,
því að friðsamir menn eiga framtíð fyrir höndum;
[38] en afbrotamönnum verður útrýmt öllum samt,
framtíðarvon óguðlegra bregzt.
[39] Hjálp réttlátra kemur frá Jahve,
hann er hæli þeirra á neyðartímum.
[40] Jahve liðsinnir þeim og bjargar þeim,
bjargar þeim undan hinum óguðlega og hjálpar þeim,
af því að þeir leituðu hælis hjá honum.

---

**38.** Davíðs-sálmur. Minningarljóð.
[2] Jahve, refsa mér ekki í reiði þinni
og hirt mig ekki í heift þinni;
[3] því að örvar þínar standa fastar í mér
og hönd þín liggur þungt á mér.
[4] Enginn heilbrigður blettur er á líkama mínum
sakir reiði þinnar,
ekkert heilt í beinum mínum
sakir syndar minnar,
[5] því að misgjörðir mínar ganga mér yfir höfuð;
sem þung byrði eru þær mér of þungar orðnar.
[6] Ódaun leggur af sárum mínum, rotnun er í þeim
sakir heimsku minnar.

**26:** Sálm. 112, 5. Lúk. 6, 35. **27:** Sálm. 34, 15. **31:** Jes. 51, 7. **32:** Sálm. 10, 8—10. **34:** Sálm. 27, 14. **36:** Job 20, 5—9. **40:** Dan. 6, 23. — **38: 2:** Sálm. 6, 2. **3:** Job 6, 4. Sálm 32, 4. **5:** Sálm. 40, 13.

7 Eg er beygður og mjög bugaður,
liðlangan daginn geng eg harmandi,
8 því að lendar mínar eru fullar bruna
og enginn heilbrigður blettur er á líkama mínum.
9 Eg er lémagna og kraminn mjög,
kveina hærra en ljónið öskrar.

10 Drottinn, öll mín þrá er þér kunn
og andvörp mín eru eigi hulin þér.
11 Hjarta mitt berst ákaft, kraftur minn er þrotinn,
jafnvel ljós augna minna er horfið mér.
12 Ástvinir mínir og kunningjar hörfa burt fyrir kröm minni
og frændur mínir standa fjarri.
13 Þeir, er sitja um líf mitt, leggja snörur fyrir mig,
þeir, er leita mér meins, mæla skaðræði
og hyggja á svik liðlangan daginn.
14 En eg er sem daufur, eg heyri það ekki,
og sem dumbur, er eigi opnar munninn;
15 eg er sem maður, er eigi heyrir
og engin andmæli eru í munni hans.

16 Því að á þig, Jahve, vona eg,
þú munt svara mér, drottinn minn og Guð minn;
17 því að eg segi: Lát þá eigi hlakka yfir mér,
eigi hælast um af því, að mér skriðni fótur.
18 Því að eg er að falli kominn,
og þjáningar mínar eru mér æ fyrir augum.
19 Eg játa misgjörð mína,
harma synd mína,
20 og þeir, sem án saka eru óvinir mínir, eru margir,
fjölmargir þeir, er hata mig að ástæðulausu,
21 og þeir, er gjalda mér gott með illu,
sýna mér fjandskap, af því eg legg stund á það, sem gott er.
22 Yfirgef mig ekki, Jahve;
Guð minn, ver ekki fjarri mér;
23 skunda til liðs við mig, drottinn, þú hjálp mín.

---

**39.** Til helgisöngs, eftir Jedútún. Davíðs-sálmur.
2 Eg sagði: Eg vil gefa gætur að vegum mínum,
til þess að drýgja eigi synd með tungunni;
eg vil leggja haft á munn minn,
meðan hinn óguðlegi er í nánd við mig.
3 Eg var hljóður, — steinþagði,
en kvöl mín ýfðist.
4 Hjartað brann í brjósti mér,
við andvörp mín logaði eldurinn upp;
eg talaði með tungu minni.
5 Lát mig, Jahve, sjá afdrif mín
og hvað mér er útmælt af dögum;
lát mig sjá, hversu skammær eg er.
6 Sjá, örfáar þverhendur hefir þú gjört daga mína,
og æfi mín er sem ekkert fyrir þér,
andgustur einn eru allir menn. Sela.

---

**12:** Job 19, 13. 14. **14:** Jes. 53, 7. — **39, 1:** 1 Kron. 16, 41. 42; 25, 1. **6:** Job 14, 2. Sálm. 62, 10; 90, 5. 6.

7 Sem tómur skuggi gengur maðurinn um,
þeir gjöra háreysti um hégómann einan,
hann safnar í hrúgur, en veit eigi hver þær hlýtur.
8 Hvers vona eg þá, drottinn?
Von mín er öll á þér.
9 Frelsa mig frá öllum syndum mínum,
lát mig eigi verða heimskingjum að spotti.
10 Eg þegi, eg opna eigi munninn,
því að þú hefir gjört það.
11 Lát plágu þína víkja frá mér,
eg verð að engu fyrir krafti handar þinnar.
12 Þá er þú beitir hirtingu við manninn fyrir misgjörð hans,
lætur þú yndisleik hans eyðast, sem mölur væri.
Andgustur einn eru allir menn. Sela.

13 Heyr bæn mína, Jahve, og hlýð á kvein mitt,
ver eigi hljóður við tárum mínum,
því að eg er aðkomandi hjá þér,
útlendingur eins og allir feður mínir.
14 Lít af mér, svo að hýrna megi yfir mér,
áður en eg fer burt og er eigi til framar.

---

40. Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Eg hefi vonað og vonað á Jahve,
og hann laut niður að mér og heyrði kvein mitt.
3 Hann dró mig upp úr glötunar-gröfinni,
upp úr hinni botnlausu leðju,
og veitti mér fótfestu á kletti,
gjörði mig styrkan í gangi.
4 Hann lagði mér ný ljóð í munn,
lofsöng um Guð vorn.
Margir sjá það og óttast
og treysta Jahve.

5 Sæll er sá maður, er gjörir Jahve að athvarfi sínu
og snýr sér eigi til hinna dramblátu
né þeirra, er snúist hafa afleiðis til lygi.
6 Mörg hefir þú, Jahve, Guð minn, gjört dásemdarverk þín og áform oss til handa,
ekkert kemst í samjöfnuð við þig.
Ef eg ætti að boða þau og kunngjöra,
eru þau fleiri en tölu verði á komið.
7 Á sláturfórnum og matfórnum hefir þú enga þóknun,
— þú hefir gefið mér opin eyru —
brennifórnir og syndafórnir heimtar þú eigi.
8 Þá mælti eg: Sjá, eg kem;
í bókrollunni eru mér reglur settar.
9 Að gjöra vilja þinn, Guð minn, er mér yndi,
og lögmál þitt er hið innra í mér.
10 Eg hefi boðað réttlætið í miklum söfnuði,

---

**7:** Préd. 2, 18 n. **13:** 1 Mós. 47, 9. 3 Mós. 25, 23. 1 Kron. 29, 15. Sálm. 119, 19. Hebr. 11, 13. **14:** Job 10, 20; 14, 6. — **40, 3:** Sálm. 69, 3. 15. **6:** Sálm. 139, 17. **7:** 1 Sam. 15, 22. Sálm. 51, 18. 19. Hebr. 10, 5 n. **9:** Sálm. 37, 31.

eg hefi eigi haldið vörunum aftur,
það veizt þú, Jahve!
11 Eg leyndi eigi réttlæti þínu í hjarta mér,
eg kunngjörði trúfesti þína og hjálpræði
og dró eigi dul á náð þína og trygð í hinum mikla söfnuði.
12 Drag þá eigi heldur, Jahve, miskunn þína í hlé við mig,
lát náð þína og trúfesti ætíð vernda mig.

13 Því að ótal hættur umkringja mig,
misgjörðir mínar hafa náð mér, svo að eg má eigi sjá;
þær eru fleiri en hárin á höfði mér,
mér felst hugur.
14 Lát þér, Jahve, þóknast að frelsa mig;
skunda, Jahve, mér til hjálpar.
15 Lát þá verða til skammar og hljóta kinnroða,
alla þá, er sitja um líf mitt, til þess að svifta mig því,
lát þá hverfa aftur með skömm, er óska mér ógæfu.
16 Lát þá verða forviða yfir smán sinni,
alla þá, er segja um mig: Hæ, hæ!
17 En allir þeir, er leita þín, skulu gleðjast og fagna yfir þér,
þeir, er unna hjálpræði þínu, skulu sífelt segja: Vegsamaður sé Jahve!
18 Eg er vesall og snauður, en drottinn ber umhyggju fyrir mér.
Þú ert fulltingi mitt og frelsari;
tef eigi, Guð minn!

---

41 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Sæll er sá, er gefur gaum bágstöddum;
á mæðudeginum bjargar Jahve honum.
3 Jahve varðveitir hann og lætur hann halda lífi,
hann mun gæfu njóta í landinu
og eigi ofurselur þú hann græðgi óvina hans.
4 Jahve styður hann á sóttarsænginni,
þegar hann er sjúkur, breytir þú beð hans í hvílurúm.
5 Eg sagði: Ver mér náðugur, Jahve,
lækna sál mína, því að eg hefi syndgað móti þér.
6 Óvinir mínir biðja mér óbæna:
Hve nær skyldi hann fara að deyja og nafn hans hverfa?
7 Og ef einhver kemur til þess að vitja um mig, talar hann tál;
hjarta hans safnar að sér ilsku,
hann fer út og lætur dæluna ganga.
8 Allir hatursmenn mínir hvískra um mig,
þeir hyggja á ilt mér til handa:
9 »Hann er altekinn helsótt,
hann er lagstur og rís eigi upp framar«.
10 Jafnvel sá, er eg lifði í sátt við, sá er eg treysti,
sá er etið hefir af mat mínum, lyftir hæl sínum í móti mér.
11 En þú, Jahve, ver mér náðugur og lát mig aftur rísa á fætur,
að eg megi endurgjalda þeim.
12 Af því veit eg, að þú hefir þóknun á mér,
að óvinur minn hlakkar ekki yfir mér.

---

**14:** Sálm. 70, 2—6. **15:** Sálm. 35, 4. **16:** Sálm. 35, 21. 25. **17:** Sálm. 35, 27. — **41, 2:** Orðskv. 14, 21. **5:** Sálm. 6, 3. **10:** Sálm. 55, 14. 15. Jóh. 13, 18.

13 Vegna sakleysis míns hélzt þú mér uppi
og lætur mig standa frammi fyrir augliti þínu að eilífu.

* * *

14 Lofaður sé Jahve, Guð Ísraels, frá eilífð til eilífðar. Amen. Amen.

---

### Önnur bók.

42 Til helgisöngs. Kóraita-maskíl.
2 Eins og hindin, sem þráir vatnslindir,
þráir sál mín þig, ó Guð.
3 Sál mína þyrstir eftir Guði, hinum lifanda Guði,
hve nær mun eg fá að koma og birtast fyrir augliti Guðs.
4 Tár mín urðu fæða mín dag og nótt,
af því menn segja við mig liðlangan daginn: Hvar er Guð þinn?
5 Um það vil eg hugsa og úthella sál minni, sem í mér er,
hversu eg gekk fram í mannþrönginni, leiddi þá til Guðs húss
með fagnaðarópi og lofsöng, með hátíðaglaumi.
6 Hví ert þú beygð, sál mín, og ólgar í mér?
Vona á Guð, því að enn mun eg fá að lofa hann,
hjálpræði auglitis míns og Guð minn.

7 Guð minn, sál mín er beygð í mér, fyrir því vil eg minnast þín
langt í burtu frá Jórdan- og Hermonlandi, langt í burtu frá
litla fjallinu.
8 Eitt flóðið kallar á annað, þegar fossar þínir duna;
allir boðar þínir og bylgjur ganga yfir mig.
9 Um daga býður Jahve út náð sinni
og um nætur syng eg honum ljóð,
bæn til Guðs lífs míns.
10 Eg mæli til Guðs: Þú bjarg mitt, hví hefir þú gleymt mér,
hví verð eg að ganga harmandi, kúgaður af óvinum?
11 Háð fjandmanna minna er sem rotnun í beinum mínum,
er þeir liðlangan daginn segja við mig: Hvar er Guð þinn?
12 Hví ert þú beygð, sál mín, og ólgar í mér?
Vona á Guð, því að enn mun eg fá að lofa hann,
hjálpræði auglitis míns og Guð minn.

---

43 Lát mig ná rétti mínum, Guð; berst fyrir málefni mínu gegn
miskunnarlausri þjóð;
bjarga mér frá svikulum og ranglátum mönnum.
2 Því að þú ert sá Guð, sem er mér vígi; hví hefir þú útskúfað mér?
hví verð eg að ganga um harmandi, kúgaður af óvinum?
3 Send ljós þitt og trúfesti þína, þau skulu leiða mig,
þau skulu fara með mig til fjallsins þíns helga og til bústaðar þíns,
4 svo að eg megi inn ganga að altari Guðs, til Guðs minnar fagnandi
gleði,
og lofa þig með gígjuhljómi, ó Guð, þú Guð minn.
5 Hví ert þú beygð, sál mín, og ólgar í mér?
Vona á Guð, því að enn mun eg fá að lofa hann,
hjálpræði auglitis míns og Guð minn.

---

**13:** Sálm. 63, 9. — **42, 1:** 1 Kron. 6, 33. 37. **3:** Sálm. 63, 2; 84, 3. **4:** Sálm. 102, 10; 79, 10. Jóel 2, 17. **6:** v. 12. Sálm. 43, 5. **8:** Sálm. 88, 8. **10:** Sálm. 43, 2. **12:** v. 6. — **43, 1:** Sálm. 26, 1. **2:** Sálm. 42, 10. **5:** Sálm. 42, 6. 12.

44. Til helgisöngs. Kóraita-maskíl*.
[2] Guð, með eyrum vorum höfum vér heyrt,
feður vorir hafa sagt oss
frá dáð þeirri, er þú drýgðir á dögum þeirra,
í fornöld.
[3] Með hendi þinni stöktir þú burt heiðingjum,
en gróðursettir þá;
þú lékst þjóðir harðlega,
en útbreiddir þá.
[4] Því að eigi unnu þeir landið með sverðum sínum,
og eigi hjálpaði armleggur þeirra þeim,
heldur hægri hönd þín og armleggur þinn og ljós auglitis þíns,
því að þú hafðir þóknun á þeim.
[5] Þú einn ert konungur minn, ó Guð,
bjóð út hjálp Jakob til handa.
[6] Fyrir þína hjálp rekum vér fjandmenn vora undir
og fyrir þitt nafn troðum vér mótstöðumenn vora fótum.
[7] Því að eg treysti eigi boga mínum
og sverð mitt veitir mér eigi sigur,
[8] heldur veitir þú oss sigur yfir fjandmönnum vorum
og lætur hatursmenn vora verða til skammar.
[9] Af Guði hrósum vér oss ætíð
og lofum nafn þitt að eilífu. Sela.

[10] Og þó hefir þú útskúfað oss og látið oss verða til skammar
og fer eigi út með hersveitum vorum.
[11] Þú lætur oss hörfa undan fjandmönnunum,
og hatursmenn vorir taka herfang.
[12] Þú selur oss fram sem fénað til slátrunar
og tvístrar oss meðal heiðingjanna.
[13] Þú selur lýð þinn fyrir gjafverð,
græðir ekkert á söluverði þeirra.
[14] Þú lætur oss verða til háðungar nágrönnum vorum,
til spotts og athlægis þeim, er búa umhverfis oss.
[15] Þú gjörir oss að orðskvið meðal heiðingjanna,
lætur þjóðirnar hrista höfuðið yfir oss.
[16] Liðlangan daginn stendur smán mín mér fyrir sjónum
og skömm hylur auglit mitt,
[17] af því eg verð að heyra spott og lastmæli
og horfa á óvininn og hinn hefnigjarna.

[18] Alt þetta hefir mætt oss og þó höfum vér eigi gleymt þér
og eigi rofið sáttmála þinn.
[19] Hjarta vort hefir eigi hörfað undan,
né skref vor beygt út af vegi þínum,
[20] svo að þú mættir kremja oss sundur á stað sjakalanna
og hylja oss niðdimmu.
[21] Ef vér hefðum gleymt nafni Guðs vors
og fórnað höndum til útlendra guða —
[22] mundi Guð eigi verða þess áskynja,
hann sem þekkir leyndarmál hjartans?

---

**44, 1:** * Heiti á sálmategund, að líkindum »fræðsluljóð«. **2:** 2 Mós. 10, 2. 5 Mós. 6, 20 n. Sálm. 78, 3. **3:** 2 Mós. 15, 17. Sálm. 80, 9. 12. **4:** 5 Mós. 7, 8. Jós. 24, 12. **6:** 5 Mós. 33, 17. Sálm. 60, 14. **10:** Sálm. 60, 12. **18:** 5 Mós. 32, 30. **14:** Sálm. 79, 4; 89, 42. **22:** Sálm. 139, 1.

23 Nei, þín vegna erum vér stöðugt drepnir,
erum metnir sem sláturfé.
24 Vakna! Hví sefur þú, drottinn?
Vakna, útskúfa oss eigi um aldur.
25 Hví hylur þú auglit þitt,
gleymir eymd vorri og kúgun?
26 Því að sál vor er beygð í duftið,
líkami vor loðir við jörðina.
27 Rís upp, veit oss lið
og frelsa oss sakir miskunnar þinnar.

---

45. Til helgisöngs. Lag: Liljur. Kóraita-maskil. Ástarkvæði.
2 Hjarta mitt svellur af ljúfum orðum,
eg flyt konungi kvæði mitt,
tunga mín er sem penni hraðritarans.
3 Fegurri ert þú en mannanna börn.
yndisleik er úthelt yfir varir þínar,
fyrir því hefir Guð blessað þig að eilífu.
4 Gyrð lendar þínar sverði, þú hetja,
ljóma þínum og vegsemd.
5 Sæk fram, stíg á hervagn sakir trygðar og réttlætis,
þá mun hægri hönd þín sýna þér ógurlega hluti.
6 Örvar þínar eru hvestar, þjóðir falla að fótum þér;
fjandmenn konungs eru horfnir.
7 Hásæti þitt er guðshásæti um aldur og æfi,
sproti ríkis þíns er réttlætis-sproti.
8 Þú elskar réttlæti og hatar ranglæti,
fyrir því hefir Guð, þinn Guð, smurt þig fagnaðarolíu framar félögum þínum.
9 Eintóm myrra og alóe og kassía eru öll þín klæði,
frá fílabeinshöllinni gleður strengleikurinn þig.
10 Konungadætur eru meðal vildarkvenna þinna,
konungsbrúðurin stendur þér til hægri handar í skrúða Ófír-gulls.

11 Heyr, dóttir, og sjá, og hneig eyra þitt
og gleym þjóð þinni og föðurlandi,
12 að konungi megi renna hugur til fegurðar þinnar,
því að hann er herra þinn og honum átt þú að lúta.
13 Og dóttirin Týrus mun koma með gjafir,
auðugustu menn lýðsins leita hylli þinnar.
14 Eintómt skraut er konungsdóttirin,
perlum sett og gullsaumi eru klæði hennar.
15 Í glitofnum klæðum er hún leidd fyrir konung;
meyjar fylgja henni, vinkonur hennar eru færðar fram fyrir þig.
16 Þær eru leiddar inn með fögnuði og gleði,
þær fara inn í höll konungs.
17 Í stað feðra þinna komi synir þínir,
þú munt gjöra þá að höfðingjum um land alt.
18 Eg vil gjöra nafn þitt minnistætt öllum komandi kynslóðum,
þess vegna skulu þjóðir lofa þig um aldur og æfi.

---

**23:** Róm. 8, 36. — **45, 3:** Lúk. 4, 22. **4:** Jes. 9, 6. **7:** Hebr. 1, 8. 9. **13:** Sálm. 68, 30; 72, 10. **15:** Ljóð. 1, 4. **18:** Mal. 1, 11.

**46.** Til helgisöngs. Eftir Kóraita. Fyrir kvenraddir. Ljóð.
2 Guð er oss hæli og styrkur,
örugg hjálp í nauðum.
3 Fyrir því hræðumst vér eigi, þótt jörðin haggist
og fjöllin bifist og steypist í skaut sjávarins.
4 Látum vötn hans gnýja og freyða,
látum fjöllin gnötra fyrir æðigangi hans.
Jahve hersveitanna er með oss,
Jakobs Guð vort vígi. Sela.

5 Elfar-kvíslir gleðja Guðs borg,
heilagan bústað hins hæsta.
6 Guð er í henni, eigi mun hún bifast;
Guð hjálpar henni, þegar birtir af degi.
7 Þjóðir gnúðu, ríki riðuðu,
hann þrumaði, jörðin nötraði.
8 Jahve hersveitanna er með oss,
Jakobs Guð vort vígi. Sela.

9 Komið, skoðið dáðir Jahve,
hversu hann framkvæmir furðuverk á jörðu;
10 hann stöðvar styrjaldir til endimarka jarðar,
brýtur bogann, slær af oddinn, brennir skjöldu í eldi.
11 Hættið og viðurkennið, að eg er Guð,
hátt upphafinn meðal þjóðanna, hátt upphafinn á jörðu.
12 Jahve hersveitanna er með oss,
Jakobs Guð vort vígi. Sela.

---

**47.** Til helgisöngs. Kóraita-sálmur.
2 Allar þjóðir! klappið saman lófum,
fagnið fyrir Guði með gleði-ópi.
3 Því að Jahve, hinn hæsti, er ógurlegur,
voldugur konungur yfir gjörvallri jörðinni.
4 Hann leggur undir oss lýði
og þjóðir fyrir fætur vora.
5 Hann útvaldi handa oss óðal vort,
fremdarhnoss Jakobs, sem hann elskar. Sela.
6 Guð er upp stiginn með fagnaðarópi,
Jahve með lúðurhljómi.
7 Syngið Guði, syngið;
syngið konungi vorum, syngið!
8 Því að Guð er konungur yfir gjörvallri jörðinni,
syngið lofsöng.
9 Guð er orðinn konungur yfir heiðingjunum,
Guð er seztur í sitt heilaga hásæti.
10 Göfugmenni þjóðanna safnast saman ásamt lýð Abrahams Guðs.
Því að Guðs eru skildir jarðarinnar;
hann er mjög hátt upphafinn.

---

**46, 1:** 1 Kron. 15, 20. **4:** Sálm. 93, 3. 4. **5:** Sálm. 36, 9. **6:** Zef. 3, 17. Sak. 2, 9. **9:** Sálm. 66, 5. **10:** Sálm. 76, 4. — **47, 3:** Mal. 1, 14. **6:** Sálm. 68, 19. **9:** Sálm. 22, 29.

# 48.

Ljóð. Kóraíta-sálmur.

2 Mikill er Jahve og mjög vegsamlegur
    í borg vors Guðs, á sínu helga fjalli.
3 Yndislega rís, gleði alls landsins er
    Zíon-fjall, yzt í norðri,
    borg hins mikla konungs.
4 Guð hefir í höllum hennar
    kunngjört sig sem vígi.
5 Því sjá, konungarnir áttu með sér stefnu,
    héldu fram saman.
6 Óðara en þeir sáu, urðu þeir agndofa,
    skelfdust, flýðu.
7 Felmtur greip þá samstundis,
    angist sem jóðsjúka konu.
8 Með austanvindinum brýtur þú
    Tarsis-knörru.
9 Eins og vér höfum heyrt, svo höfum vér séð
    í borg Jahve hersveitanna, í borg vors Guðs;
    Guð lætur hana standa að eilífu. Sela.

10 Vér ígrundum, Guð, elsku þína
    inni í musteri þínu.
11 Eins og nafn þitt, Guð, svo hljómi lofgjörð þín til endimarka jarðar;
    hægri hönd þín er full réttlætis.
12 Zíon-fjall gleðst, Júda-dætur fagna
    vegna dóma þinna.
13 Kringið um Zíon, gangið umhverfis hana,
    teljið turna hennar,
14 hyggið að múrgirðing hennar, skoðið hallir hennar,
    til þess að þér getið sagt komandi kynslóð,
15 að slíkur sé Jahve, Guð vor;
    um aldur og æfi mun hann leiða oss.

---

# 49.

Fyrir kvenraddir. Til helgisöngs. Kóraíta-sálmur.

2 Heyrið þetta, allar þjóðir,
    hlustið á, allir heimsbúar,
3 bæði lágir og háir,
    jafnt ríkir sem fátækir!
4 Munnur minn talar speki
    og ígrundun hjarta míns er hyggindi.
5 Eg hneigi eyra mitt að spakmæli,
    ræð gátu mína við gígjuhljóm.

6 Hví skyldi eg óttast á mæðudögunum,
    þá er hinir lævísu óvinir mínir umkringja mig með ilsku,
7 þeir sem reiða sig á auðæfi sín
    og stæra sig af sínu mikla ríkidæmi.
8 Enginn maður fær keypt bróður sinn lausan,
    né greitt Guði lausnargjald fyrir hann,
9 (því að lausnargjaldið fyrir líf þeirra mundi verða of hátt,
    svo að hann yrði að hætta við það að eilífu),
10 svo að hann haldi áfram að lifa æfinlega
    og líti ekki gröfina.

---

**48, 2:** Sálm. 46, 5. **4:** Sálm. 46, 8. **12:** Sálm. 97, 8. — **49, 5:** Sálm. 78, 2.

11 Nei, hann sér, að vitrir menn deyja,
að fífl og fáráðlingar farast hver með öðrum
og láta öðrum eftir auðæfi sín.
12 Grafir verða heimkynni þeirra að eilífu,
bústaðir þeirra frá kyni til kyns,
jafnvel þótt þeir hafi kent lendur við nafn sitt.
13 Maðurinn í allri sinni vegsemd stenzt ekki,
hann verður jafn skepnunum, sem farast.

14 Svo fer þeim, sem eru þóttafullir,
og þeim, sem fylgja þeim og hafa þóknun á tali þeirra. Sela.
15 Þeir stíga niður til heljar eins og sauðahjörð,
dauðinn heldur þeim á beit,
og hinir hreinskilnu drotna yfir þeim, þá er morgnar,
og mynd þeirra eyðist,
helja verður bústaður þeirra.
16 En mína sál mun Guð endurleysa,
því að hann mun hrífa mig úr greipum heljar. Sela.
17 Óttast þú ekki, þegar einhver verður ríkur,
þegar dýrð húss hans verður mikil;
18 því að hann tekur ekkert af því með sér, þegar hann deyr,
dýrð hans fer ekki niður þangað á eftir honum.
19 Jafnvel þótt hann telji sig sælan meðan hann lifir
og menn lofi þig, af því að þér farnast vel,
20 — hann verður þó að fara til kynslóðar feðra sinna,
sem aldrei að eilífu sjá ljósið.
21 Maðurinn í vegsemd, en hyggindalaus,
verður jafn skepnunum, sem farast.

---

# 50

Asafs-sálmur.

Alvaldur, Guð, Jahve talar og kallar á jörðina
í frá upprás sólar til niðurgöngu hennar.
2 Frá Zíon, ímynd fegurðarinnar, birtist Guð í geisladýrð.
3 Guð vor kemur og þegir ekki.
Eyðandi eldur fer fyrir honum
og í kring um hann geisar stormurinn.
4 Hann kallar á himininn uppi
og á jörðina, til þess að dæma lýð sinn:
5 »Safnið saman dýrkendum mínum,
þeim er gjört hafa sáttmála við mig með fórnum«.
6 Þá kunngjörðu himnarnir réttlæti hans;
því að Guð er sá, sem dæmir. Sela.

7 »Heyr, þjóð mín, og lát mig tala,
Ísrael, og lát mig áminna þig,
eg er Jahve, Guð þinn!
8 Eigi er það vegna fórna þinna, að eg ávíta þig,
brennifórnir þínar eru stöðuglega frammi fyrir mér.
9 Eg þarf ekki að taka uxa úr húsi þínu,
né geithafra úr stíu þinni,
10 því að mín eru öll skógardýrin
og skepnurnar á fjöllum þúsundanna.

**11:** Préd. 2, 16. **13:** Préd. 3, 19. **16:** 1 Mós. 5, 24. Sálm. 73, 24. **18:** Job 27, 16. 17. **19:** Lúk. 12, 19. **21:** v. 13. — **50, 2:** Sálm. 48, 3. **6:** Sálm. 97, 6. **9:** Sálm. 10, 7.

11 Eg þekki alla fugla á fjöllunum
og mér er kunnugt um alt það, sem hrærist á mörkinni.
12 Væri eg hungraður, mundi eg ekki segja þér frá því,
því að jörðin er mín og alt, sem á henni er.
13 Et eg nauta kjöt,
eða drekk eg hafra blóð?
14 Fær Guði þakkargjörð að fórn
og gjald hinum hæsta þannig heit þín,
15 og ákalla mig á degi neyðarinnar:
eg mun frelsa þig, og þú skalt vegsama mig«.

16 En við hinn óguðlega segir Guð:
»Hvernig dirfist þú að telja upp boðorð mín
og taka sáttmála minn þér í munn,
17 þar sem þú þó hatar aga
og varpar orðum mínum að baki þér?
18 Sjáir þú þjóf, leggur þú lag þitt við hann,
og við hórkarla hefir þú samfélag.
19 Þú hleypir munni þínum út í ilsku,
og tunga þín bruggar svik.
20 Þú situr og bakmælir bróður þínum
og ófrægir son móður þinnar.
21 Slíkt hefir þú gjört, og eg ætti að þegja,
og þú halda, að eg væri alveg eins og þú?
Eg mun hegna þér og endurgjalda þér augljóslega.
22 Hyggið að þessu, þér sem gleymið Guði,
til þess að eg sundurrífi ekki og enginn fái bjargað.
23 Sá, sem færir þakkargjörð að fórn, heiðrar mig,
og þann, sem breytir grandvarlega, vil eg láta sjá hjálpræði Guðs«.

---

51 Til helgisöngs. Sálmur Davíðs, [2] þá er Natan spámaður kom til hans, eftir að hann hafði gengið inn til Batsebu.

3 Guð, vertu mér náðugur sakir elsku þinnar,
afmá brot mín sakir þinnar miklu miskunnsemi!
4 Þvo vandlega af mér misgjörð mína
og hreinsa mig af synd minni;
5 því að eg þekki sjálfur afbrot mín
og synd mín stendur mér stöðugt fyrir hugskotssjónum.
6 Gegn þér einum hefi eg syndgað
og gjört það, sem ilt er í augum þínum,
til þess að þú sért réttlátur, er þú talar,
sért hreinn, er þú dæmir.
7 Sjá, í misgjörð er eg fæddur
og í synd gat mig móðir mín.
8 Sjá, þú hefir þóknun á hreinskilni hið innra
og í fylgsnum hjartans kennir þú mér vizku!
9 Hreinsa mig með ýsóp, svo að eg verði hreinn;
þvo mig, svo að eg verði hvítari en mjöll.
10 Lát mig heyra fögnuð og gleði,
lát kætast beinin, sem þú hefir sundurmarið.
11 Byrg auglit þitt fyrir syndum mínum
og afmá allar misgjörðir mínar.

---

**12:** Sálm. 24, 1. 1 Kor. 10, 26. **13:** Jes. 1, 11. Mík. 6, 7. **14:** 5 Mós. 23, 21. **17:** Nehem. 9, 26. **18:** Róm. 1, 32. **23:** Sálm. 91, 16. — **51, 2:** 2 Sam. 12, 1 n. **6:** Róm. 3, 4. **7:** Job 14, 4. Ef. 2, 3. **9:** 3 Mós. 14, 4. 6. 4 Mós. 19, 18. Jes. 1, 18.

12 Skapa í mér hreint hjarta, ó Guð,
og veit mér af nýju stöðugan anda.
13 Varpa mér ekki burt frá augliti þínu
og tak ekki þinn heilaga anda frá mér.
14 Veit mér aftur fögnuð þíns hjálpræðis
og styð mig með fúsleiks anda,
15 að eg megi kenna afbrotamönnum vegu þína
og syndarar megi hverfa aftur til þín.
16 Frelsa mig frá blóðsúthellingu, Jahve, Guð hjálpræðis míns,
lát tungu mína fagna yfir réttlæti þínu.
17 Drottinn, opna varir mínar,
svo að munnur minn kunngjöri lof þitt!
18 Því að þú hefir ekki þóknun á sláturfórnum — annars mundi eg láta þær í té —
og að brennifórnum er þér ekkert yndi.
19 Guði þekkar fórnir eru sundurmarinn andi,
sundurmarið og sundurkramið hjarta munt þú, ó Guð, eigi fyrirlíta.

20 Gjör vel við Zíon sakir náðar þinnar,
reis múra Jerúsalem!
21 Þá munt þú hafa þóknun á réttum fórnum,
á brennifórn og alfórn,
þá munu menn bera fram uxa á altari þitt.

---

**52** Til helgisöngs. Maskil eftir Davíð, 2 þá er Dóeg Edómíti kom og sagði Sál frá og mælti til hans: Davíð er kominn í hús Ahímeleks.

3 Hví stærir þú þig af vonzkunni, harðstjóri?
Miskunn Guðs varir alla daga!
4 Tunga þín býr yfir skaðræði,
eins og beittur rakhnífur, þú vélasmiður!
5 Þú elskar ilt meir en gott,
lygi fremur en sannsögli. Sela.
6 Þú elskar hvert skaðræðisorð,
þú fláráða tunga!
7 Því mun og Guð brjóta þig niður fyrir fult og alt,
hrífa þig burt og draga þig út úr tjaldi þínu
og uppræta þig úr landi lifenda. Sela.
8 Hinir réttlátu munu sjá það og óttast,
og þeir munu hlægja að honum:
9 »Þetta er maðurinn, sem ekki gjörði Guð að vernd sinni,
heldur treysti á hin miklu auðæfi sín
og þrjózkaðist í ilsku sinni«.
10 En eg er sem grænt olíutré í húsi Guðs,
treysti á Guðs náð um aldur og æfi.
11 Eg vil vegsama þig að eilífu, því að þú hefir því til vegar komið,
kunngjöra fyrir augum þinna guðhræddu, að nafn þitt sé gott.

---

**53** Til helgisöngs. Með makalat-lagi. Davíðs-maskil.
2 Heimskinginn segir í hjarta sínu:
Enginn Guð!

---

**12:** Esek. 11, 19; 36, 26. **14:** Róm. 8, 15. **15:** Lúk. 22, 32. **16:** 2 Sam. 11, 17; 12, 9. **18:** Sálm. 40, 7. **19:** Sálm. 34, 19. **21:** Sálm. 4, 6. — **52, 2:** 1 Sam. 22, 9 n. **4:** Sálm. 57, 5. **9:** Sálm. 49, 7. **10:** Sálm. 92, 13. 14. — **53, 2:** Sálm. 14, 1 n.

Ill og andstyggileg er breytni þeirra;
enginn gjörir það sem gott er.
3 Guð lítur af himni niður á mennina,
til þess að sjá, hvort nokkur sé hygginn,
nokkur, sem leiti Guðs.
4 Allir eru viknir af leið, allir spiltir,
enginn gjörir það, sem gott er — ekki einn.
5 Skyldu þeir ekki fá að kenna á því, illgjörðamennirnir,
þeir er eta lýð minn sem brauð væri
og ákalla eigi Guð?
6 Þá skulu þeir verða mjög óttaslegnir, þar sem ekkert er að óttast,
því að Guð tvístrar beinum þeirra, er setja herbúðir móti þér;
þú lætur þá verða til skammar, því að Guð hefir hafnað þeim.
7 Ó að hjálpræði Ísraels komi frá Zíon!
Þegar Guð snýr við hag lýðs síns,
skal Jakob fagna, Ísrael gleðjast.

---

54 Til helgisöngs. Með strengjaleik. Maskíl eftir Davíð, 2 þá er Sifítar komu og sögðu við Sál: Veiztu að Davíð felur sig hjá oss?
3 Hjálpa mér, Guð, með nafni þínu,
rétt hlut minn með mætti þínum.
4 Guð, heyr þú bæn mína,
ljá eyra orðum munns míns.
5 Því að erlendir fjandmenn hefjast gegn mér
og ofríkismenn sækjast eftir lífi mínu;
eigi hafa þeir Guð fyrir augum. Sela.
6 Sjá, Guð er mér hjálpari,
drottinn sá, er styður sál mína.
7 Hið illa mun fjandmönnum mínum í koll koma;
eyð þeim af trúfesti þinni.
8 Þá vil eg færa þér sjálfviljafórnir,
lofa nafn þitt, Jahve, að það sé gott;
9 því að það hefir frelsað mig úr hverri neyð,
og auga mitt hefir svalað sér á að horfa á óvini mína.

---

55 Til helgisöngs. Með strengjaleik. Davíðs-maskíl.
2 Hlýð, ó Guð, á bæn mína,
fel þig eigi fyrir grátbeiðni minni.
3 Veit mér athygli og svara mér;
eg kveina í harmi mínum og styn
4 sakir háreysti óvinarins, sakir hróps hins óguðlega,
því að þeir steypa yfir mig ógæfu og ofsækja mig grimmilega.
5 Hjartað berst ákaft í brjósti mér,
ógnir dauðans falla yfir mig;
6 ótti og skelfing er yfir mig komin
og hryllingur fer um mig allan,
7 svo að eg segi: Ó að eg hefði vængi eins og dúfan,
þá skyldi eg fljúga burt og finna hvíldarstað,
8 já, eg skyldi svífa langt burt,
eg skyldi gista í eyðimörkinni. Sela.
9 Eg skyldi flýta mér að leita mér hælis
fyrir þjótandi vindum og veðri.

---

54, 2: 1 Sam. 23, 19 n. 9: Sálm. 59, 11. — 55, 8: Jer. 9, 2.

10 Rugla, drottinn, sundra tungum þeirra,
því að eg sé kúgun og deilur í borginni;
11 dag og nótt ganga þær um á múrum hennar,
en ógæfa og armæða eru þar inni fyrir.
12 Glötun er inni í henni,
ofbeldi og svik víkja eigi burt frá torgi hennar.

13 Því að það er eigi óvinur, sem hæðir mig — það gæti eg þolað,
og eigi hatursmaður minn, er hreykir sér yfir mig — fyrir
honum gæti eg farið í felur,
14 heldur þú, jafningi minn,
vinur minn og kunningi,
15 við sem vorum ástúðarvinir,
sem gengum í eindrægni saman í Guðs hús.

16 Dauðinn komi yfir þá;
stigi þeir lifandi niður til heljar,
því að ilska er í bústöðum þeirra, í hjörtum þeirra.
17 En eg hrópa til Guðs
og Jahve mun hjálpa mér.
18 Kvöld og morgna og um miðjan dag harma eg og styn,
og hann heyrir raust mína.
19 Hann endurleysir sál mína og gefur mér frið, svo að þeir geta
eigi nálgast mig,
því að mótstöðumenn mínir eru margir.
20 Guð mun heyra, og hann er ríkir frá eilífð mun lægja þá, sela,
sem engin umbreyting er hjá
og eigi óttast Guð.
21 Hann lagði hendur á þann, er lifði í sátt við hann,
hann rauf sáttmál sitt;
22 hálla en smjör er andlit hans, en ófriður er í hjarta hans;
mýkri en olía eru orð hans, og þó brugðin sverð.
23 Varpa áhyggjum þínum á Jahve, hann mun bera umhyggju
fyrir þér;
hann mun eigi að eilífu láta réttlátan mann verða valtan á
fótum.
24 Og þú, ó Guð, munt steypa þeim niður í grafardjúpið;
morðingjar og svikarar munu eigi ná hálfum aldri;
en eg treysti þér.

---

56 Til helgisöngs. Lag: Dúfan í fjarlægum eikilundi. Miktam eftir
Davíð, þá er Filistar gripu hann í Gat.
2 Ver mér náðugur, Guð, því að menn kremja mig,
liðlangan daginn kreppa bardagamenn að mér.
3 Fjandmenn mínir kremja mig liðlangan daginn,
því að margir eru þeir, sem berjast gegn mér.
4 Þegar eg er hræddur,
treysti eg þér.
5 Með Guðs hjálp mun eg lofa orð hans,
Guði treysti eg, eg óttast eigi;
hvað getur hold gjört mér?

6 Liðlangan daginn spilla þeir málefnum mínum,
alt það, er þeir hafa upphugsað í gegn mér, er til ills;

---

**10:** 1 Mós. 11, 9. **14:** Sálm. 41, 10. **16:** 4 Mós. 16, 33. **19:** Sálm. 56, 3. **23:** Sálm. 37, 5. **24:** Sálm. 5, 7. — **56, 1:** 1 Sam. 21, 10 n. **5:** Sálm. 27, 1. Hebr. 13, 6,

7 þeir áreita mig, þeir sitja um mig, þeir gefa gætur að ferðum mínum,
eins og þeir væntu eftir að ná lífi mínu.
8 Sakir ranglætis þeirra verður þeim engrar undankomu auðið;
steyp þjóðunum í reiði þinni, ó Guð.
9 Þú hefir talið hrakninga mína,
tárum mínum er safnað í sjóð þinn,
já, ritað í bók þína.
10 Fyrir því skulu óvinir mínir hörfa undan, er eg hrópa;
það veit eg, að Guð liðsinnir mér.
11 Með Guðs hjálp mun eg lofa orð hans,
með hjálp Jahve mun eg lofa orð hans.
12 Guði treysti eg, eg óttast eigi;
hvað geta menn gjört mér?

13 Á mér hvíla, ó Guð, heit við þig,
eg vil gjalda þér þakkarfórnir,
14 af því þú hefir frelsað sál mína frá dauða og fætur mína frá hrösun,
svo að eg megi ganga frammi fyrir Guði í ljósi lífsins.

---

## 57

Til helgisöngs. Lag: Spill eigi. Miktam eftir Davíð, þá er hann flýði inn í hellinn fyrir Sál.

2 Ver mér náðugur, ó Guð, ver mér náðugur!
Því að hjá þér leitar sál mín hælis,
og í skugga vængja þinna vil eg hælis leita,
unz voðinn er liðinn hjá.
3 Eg hrópa til Guðs, hins hæsta,
þess Guðs, er kemur öllu vel til vegar fyrir mig.
4 Hann sendir af himni og hjálpar mér,
þegar sá, er kremur mig, spottar. Sela.
Guð sendir náð sína og trúfesti.
5 Eg verð að liggja meðal ljóna, er eldi fnæsa,
meðal manna, hverra tennur eru spjót og örvar
og hverra tungur eru bitur sverð.
6 Sýn þig himnum hærri, ó Guð,
dýrð þín breiðist yfir gjörvalla jörðina!

7 Þeir hafa lagt net fyrir fætur mína,
sál mín er beygð;
þeir hafa grafið gryfju fyrir framan mig,
sjálfir falla þeir í hana. Sela.
8 Hjarta mitt er stöðugt, ó Guð, hjarta mitt er stöðugt,
eg vil syngja og leika.
9 Vakna þú, sál mín; vakna þú, harpa og gígja,
eg vil vekja morgunroðann.
10 Eg vil lofa þig meðal lýðanna, drottinn,
vegsama þig meðal þjóðanna,
11 því að miskunn þín nær til himna
og trúfesti þín til skýjanna.
12 Sýn þig himnum hærri, ó Guð,
dýrð þín breiðist yfir gjörvalla jörðina.

---

8: Sálm. 59, 6. 9: Mal. 3, 16. 12: Sálm. 118, 6. 14: Sálm. 116, 8. — 57, 1: 1 Sam. 22, 1; 24, 4. Sálm. 142, 1. 3: Sálm. 138, 8. 4: Sálm. 40, 12; 43, 3. 5: Orðskv. 30, 14. Sálm. 55, 22. 7: Sálm. 7, 16. 8: Sálm. 108, 2 n. 9: Sálm. 16, 9. 11: Sálm. 36, 6.

**58** Til helgisöngs. Lag: Spill eigi. Davíðs-miktam.
2 Talið þér í sannleika það sem rétt er, þér guðir,
dæmið þér mennina með sanngirni?
3 Nei, allir aðhafist þér ranglæti á jörðu,
hendur yðar vega út ofbeldi.
4 Óguðlegir eru frá móðurlífi viknir af leið,
lygarar fara villir vegar frá móðurskauti.
5 Eitur þeirra er eins og höggormseitur,
þeir eru eins og dauf naðra, sem lokar eyrunum,
6 til þess að heyra ekki raust særingamannsins,
né hins slungna töframanns.
7 Guð, brjót sundur tennurnar í munni þeirra,
mölva jaxlana úr ljónunum, Jahve!
8 Lát þá hverfa eins og vatn, sem rennur burt;
miði hann örvum sínum á þá, þá hníga þeir,
9 eins og snigillinn, sem rennur í sundur og hverfur,
ótímaburður konunnar, er eigi sá sólina.
10 Áður en pottar yðar kenna þyrnanna,
meðan kjötið enn er hrátt, feykir hann honum burt í bræði.
11 Þá mun hinn réttláti fagna, af því að hann hefir fengið að sjá hefndina,
hann mun lauga fætur sína í blóði hinna óguðlegu.
12 Þá munu menn segja: Hinn réttláti hlýtur þó ávöxt;
það eru þó til guðir, sem dæma á jörðunni.

---

**59** Til helgisöngs. Lag: Spill eigi. Miktam eftir Davíð, þá er Sál sendi menn og þeir héldu vörð um húsið, til þess að drepa hann.
2 Frelsa mig frá óvinum mínum, Guð minn,
bjarga mér frá fjendum mínum.
3 Frelsa mig frá illgjörðamönnunum
og hjálpa mér gegn morðingjunum;
4 því sjá, þeir sitja um líf mitt,
hinir sterku áreita mig,
þótt eg ekkert hafi afbrotið eða syndgað, Jahve;
5 þótt eg hafi eigi misgjört, hlaupa þeir að og búast til áhlaups.
Vakna þú mér til liðveizlu og lít á!
6 En þú, Jahve, Guð hersveitanna, Ísraels Guð,
vakna þú til þess að vitja allra heiðingjanna;
þyrm eigi neinum fráhverfum syndara. Sela.

7 Á hverju kvöldi koma þeir aftur, ýlfra eins og hundar
og sveima um borgina.
8 Sjá, það freyðir úr munni þeirra,
sverð eru á vörum þeirra,
því að — »hver heyrir?«
9 En þú, Jahve, hlær að þeim,
þú gjörir gys að öllum heiðingjum.
10 Vígi mitt, um þig vil eg kveða,
því að Guð er háborg mín.
11 Guð kemur í móti mér með náð sinni,
Guð lætur mig sjá nægju mína á fjandmönnum mínum.
12 Drep þá eigi, svo að lýður minn gleymi eigi,

---

58, **1:** Sálm. 57, 1. **4:** Sálm. 51, 7. — **59, 1:** Sálm. 57, 1. 1 Sam. 19, 11 n. **4:** Sálm. 7, 4—6. **5:** Sálm. 35, 23. **8:** Orðskv. 15, 28. **9:** Sálm. 2, 4. **10:** Sálm. 9, 10.

lát þá reika fyrir veldi þínu og steyp þeim af stóli,
þú drottinn, skjöldur vor,
13 sakir syndar munns þeirra, orðsins af vörum þeirra,
og lát þá verða veidda í hroka þeirra,
og sakir formælinga þeirra og lygi, er þeir tala.
14 Eyð þeim í reiði, eyð þeim, unz þeir eru eigi framar til,
og lát þá kenna á því, að Guð ríkir yfir Jakob,
alt til endimarka jarðar. Sela.

15 Á hverju kveldi koma þeir aftur, ýlfra eins og hundar
og sveima um borgina.
16 Þeir reika um eftir æti
og urra, ef þeir verða eigi saddir.
17 En eg vil kveða um mátt þinn
og fagna yfir náð þinni á hverjum morgni,
því að þú hefir gjörst háborg mín
og athvarf á degi neyðar minnar.
18 Vígi mitt, um þig vil eg kveða,
því að Guð er háborg mín, minn miskunnsami Guð.

---

**60** Til helgisöngs. Lag: Vitnisburðarliljan. Miktam eftir Davíð, til fræðslu, [2] þá er hann barðist við Sýrlendinga frá Mesópotamíu og Sýrlendinga frá Zóba, og Jóab sneri við og vann sigur á Edómítum í Saltdalnum, tólf þúsundum manns.

3 Guð, þú hefir útskúfað oss og tvístrað oss,
þú reiddist oss — snú þér aftur að oss.
4 Þú lézt jörðina gnötra og rofna,
gjör við sprungur hennar, því að hún reikar.
5 Þú lézt lýð þinn kenna á hörðu,
lézt oss drekka vímuvín.
6 Þú hefir gefið þeim, er óttast þig, hermerki,
að þeir mættu flýja undan bogunum. Sela.
7 Til þess að ástvinir þínir megi frelsast —
hjálpa þú með hægri hendi þinni og bænheyr mig.

8 Guð hefir sagt í helgidómi sínum: Eg vil fagna;
eg vil skifta Sikem, mæla út Súkkót-dal.
9 Eg á Gíleað og eg á Manasse,
og Efraím er hlíf höfði mínu,
Júda veldissproti minn.
10 Móab er mundlaug mín,
í Edóm fleygi eg skónum mínum,
yfir Filisteu fagna eg.

11 Hver vill fara með mig í örugga borg,
hver vill flytja mig til Edóm?
12 Þú hefir útskúfað oss, ó Guð,
og þú, Guð, fer eigi út með hersveitum vorum.
13 Veit oss lið gegn fjandmönnunum,
því að mannahjálp er ónýt.
14 Með Guðs hjálp munum vér hreystiverk vinna,
og hann mun troða óvini vora fótum.

---

**12:** Sálm. 109, 10. — **60, 2:** 2 Sam. 8, 1 n. 13. 1 Kron. 18, 3 n. **5:** Jes. 51, 17 n. **7:** Sálm. 108, 7 n. **9:** 1 Mós. 49, 10. **10:** 2 Sam. 8, 1. 2. 13. 14. **12:** Sálm. 44, 10. **13:** Sálm. 146, 3 n. **14:** 4 Mós. 24, 18. Sálm. 44, 6.

## 61

Til helgisöngs. Með strengjaleik. Eftir Davíð.

2 Heyr, ó Guð, hróp mitt,
gef gaum bæn minni.
3 Frá endimörkum jarðar hrópa eg til þín,
því að hjarta mitt örmagnast við klett þann, sem er mér of hár.
Leið mig, 4 því að þú ert orðinn mér hæli,
örugt vígi gegn óvinum.
5 Lát mig gista í tjaldi þínu um eilífð,
leita hælis í skjóli vængja þinna. Sela.
6 Því að þú, ó Guð, hefir heyrt heit mín;
þú hefir uppfylt óskir þeirra, er óttast nafn þitt.
7 Þú munt lengja lífdaga konungs,
láta ár hans vara frá kyni til kyns.
8 Hann skal sitja um eilífð frammi fyrir Guði,
lát miskunn og trúfesti varðveita hann.
9 Þá vil eg lofsyngja nafni þínu um aldur,
til þess að efna heit mín dag frá degi.

---

## 62

Til helgisöngs fyrir Jedútún. Davíðs-sálmur.

2 Bíð róleg eftir Guði, sála mín,
frá honum kemur hjálpræði mitt.
3 Hann einn er klettur minn og hjálpræði,
háborg mín — eg verð eigi valtur á fótum.
4 Hversu lengi ætlið þér að ryðjast á einn mann — hversu lengi ætlið [þér allir að myrða —,
eins og á hallan vegg,
eins og á hrynjandi múr.
5 Þeir ráðgast um það eitt, að steypa honum úr tign hans,
þeir hafa yndi af lygi;
þeir blessa með munninum,
en bölva í hjartanu. Sela.

6 Bíð róleg eftir Guði, sála mín,
því að frá honum kemur von mín.
7 Hann einn er klettur minn og hjálpræði,
háborg mín — eg verð eigi valtur á fótum.
8 Hjá Guði er hjálpræði mitt og vegsemd,
minn örugga klett og hæli mitt hefi eg í Guði.
9 Treyst honum, allur þjóðsöfnuðurinn,
úthellið hjörtum yðar fyrir honum;
Guð er vort hæli. Sela.

10 Hégóminn einn eru mennirnir, tál eru mannanna börn;
á metaskálunum lyftast þeir upp,
einber hégómi eru þeir allir saman.
11 Treystið eigi ránfeng
og alið eigi fánýta von til rændra muna;
þótt auðurinn vaxi, þá gefið því engan gaum.
12 Eitt sinn hefir Guð talað, tvisvar hefi eg heyrt það:
hjá Guði er styrkleikur.
13 Já, hjá þér, drottinn, er miskunn,
því að þú geldur sérhverjum eftir verkum hans.

---

**61, 4:** Orðskv. 18, 10. **5:** Sálm. 27, 5. **8:** Sálm. 40, 12. — **62, 1:** Sálm. 39, 1. **3:** Sálm. 18, 3. **5:** Sálm. 28, 3. **9:** Sálm. 37, 5. **10:** Sálm. 39, 6. **11:** Lúk. 12, 18—21.

63. Sálmur eftir Davíð, þá er hann var í Júda-eyðimörk.
2 Jahve, þú ert minn Guð, þín leita eg;
sál mína þyrstir eftir þér, hold mitt þráir þig,
í þurru landi, örþrota af vatnsleysi.
3 Þannig hefi eg litast um eftir þér í helgidóminum,
til þess að sjá veldi þitt og dýrð,
4 því að miskunn þín er mætari en lífið;
varir mínar skulu vegsama þig.
5 Þannig skal eg lofa þig meðan lifi,
hefja upp hendurnar í þínu nafni.
6 Sál mín mettast sem af merg og feiti
og með fagnandi vörum lofar þig munnur minn,
7 þá er eg minnist þín í hvílu minni,
hugsa um þig á næturvökunum.
8 Því að þú ert mér fulltingi,
í skugga vængja þinna fagna eg.
9 Sál mín heldur sér fast við þig,
hægri hönd þín styður mig.
10 En þeir sitja um líf mitt sjálfum sér til glötunar,
þeir munu hverfa í djúp jarðar.
11 Þeir munu verða ofurseldir sverðseggjum,
verða sjakölunum að bráð.
12 En konungurinn skal gleðjast yfir Guði,
hver sá, er sver við hann, skal sigri hrósa,
af því að munni lygaranna hefir verið lokað.

---

64. Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Heyr, ó Guð, raust mína, er eg kveina,
varðveit líf mitt fyrir ógnum óvinarins.
3 Skýl mér fyrir bandalagi bófanna,
fyrir óaldarflokki illvirkjanna,
4 er hvetja tungur sínar sem sverð,
leggja örvar sínar, beiskyrðin, á streng,
5 til þess að skjóta í leyni á hinn ráðvanda,
skjóta á hann alt í einu, hvergi hræddir.
6 Þeir binda fastmælum með sér ill áform,
tala um að leggja leynisnörur;
þeir hugsa: Hver ætli sjái það?
7 Þeir upphugsa ranglæti: Vér erum búnir; vel ráðin ráð!
því að hugskot hvers eins og hjarta er fult véla.
8 Þá lýstur Guð þá með örinni,
alt í einu verða þeir sárir,
9 og þeir verða feldir, er syndir tungu þeirra koma þeim í koll,
allir þeir, er sjá þá, munu hrista höfuðið.
10 Þá mun hver maður óttast
og kunngjöra dáðir Guðs og gefa gætur að verkum hans.
11 Hinn réttláti mun gleðjast yfir Jahve og leita hælis hjá honum,
og allir hjartahreinir munu sigri hrósa.

---

**63, 2:** Sálm. 84, 3. **3:** Sálm. 27, 4. **4:** Sálm. 69, 17. **5:** Sálm. 104, 33. **10:** Sálm. 55, 16. — **64, 4:** Sálm. 57, 5. **5:** Sálm. 10, 8; 11, 2. **6:** Job 22, 13. **8:** Sálm. 7, 14.

65. Til helgisöngs. Davíðs-sálmur. Ljóð.
2 Þér ber lofsöngur, Guð, á Zíon
og við þig séu heitin efnd.
3 Þú sem heyrir bænir,
til þín kemur alt hold.
4 Margvíslegar misgjörðir urðu mér yfirsterkari,
en þú fyrirgafst afbrot vor.
5 Sæll er sá, er þú útvelur og lætur nálægjast þig,
til þess að búa í forgörðum þínum,
að vér megum seðjast af gæðum húss þíns,
helgidómi musteris þíns.

6 Með óttalegum verkum svarar þú oss í réttlæti,
þú Guð hjálpræðis vors,
þú athvarf allra jarðarinnar endimarka
og fjarlægra stranda,
7 þú sem festir fjöllin með krafti þínum,
gyrtur styrkleika,
8 þú sem stöðvar brimgný hafsins,
brimgnýinn í bylgjum þess og háreystið í þjóðunum,
9 svo að þeir, er búa við endimörk jarðar, óttast tákn þín,
austrið og vestrið lætur þú fagna.

10 Þú hefir vitjað landsins og vökvað það,
blessað það ríkulega með læk Guðs, fullum af vatni;
þú hefir framleitt korn þess, því að þannig hefir þú gjört
það úr garði.
11 Þú hefir vökvað plógför þess, jafnað plóggarða þess;
með regnskúrum hefir þú mýkt það, blessað gróður þess.
12 Þú hefir krýnt árið með gæzku þinni,
og vagnspor þín drjúpa af feiti.
13 Það drýpur af heiðalöndunum
og hæðirnar girðast fögnuði.
14 Hagarnir klæðast hjörðum
og dalirnir hyljast korni;
alt fagnar og syngur.

---

66. Til helgisöngs. Ljóð. Sálmur.
Fagnið fyrir Guði, gjörvalt jarðríki,
2 syngið um dýrð nafns hans,
gjörið lofstír hans vegsamlegan.
3 Mælið til Guðs: Hversu óttaleg eru verk þín,
sakir mikilleiks máttar þíns hræsna óvinir þínir fyrir þér.
4 Öll jörðin lúti þér og lofsyngi þér,
lofsyngi nafni þínu. Sela.

5 Komið og sjáið verkin Guðs,
sem er óttalegur í breytni sinni gagnvart mönnunum;
6 hann breytir hafinu í þurlendi,
svo að þeir fara fótgangandi yfir voginn;
þá glöddumst vér yfir honum.
7 Hann ríkir um eilífð sakir veldis síns,

---

**65, 2:** Sálm. 62, 2. **4:** Sálm. 38, 5. **5:** Sálm. 27, 4; 84, 5. **6:** 2 Sam. 7, 23. **8:** Jes. 17, 12 n. — **66, 5:** Sálm. 46, 9. **6:** 2 Mós. 14, 21. Jós. 3, 16.

augu hans gefa gætur að þjóðunum,
uppreistarmenn mega eigi láta á sér bæra. Sela.

8 Þér lýðir, lofið Guð vorn
og látið hljóma lofsöng um hann;
9 hann sem veitti sálum vorum lífið
og lét oss eigi verða valta á fótum.
10 Því að þú hefir rannsakað oss, ó Guð,
hreinsað oss, eins og silfur er hreinsað.
11 Þú hefir varpað oss í fangelsi,
lagt byrði á lendar vorar.
12 Þú hefir látið menn ganga yfir höfuð vor,
vér höfum farið gegnum eld og vatn,
en nú hefir þú leitt oss út á víðan vang.
13 Eg kem í hús þitt með brennifórnir,
efni heit mín við þig,
14 þau er varir mínar hétu
og munnur minn nefndi, þá er eg var í nauðum staddur.
15 Eg færi þér brennifórn af feitum dýrum,
ásamt fórnarilm af hrútum,
eg fórna nautum og höfrum. Sela.

16 Komið, hlýðið til, allir þér er óttist Guð, að eg megi segja frá,
hvað hann hefir gjört fyrir sál mína.
17 Til hans hrópaði eg með munni mínum,
en lofgjörð lá undir tungu minni.
18 Ef eg hygg á ilt í hjarta mínu,
þá heyrir drottinn ekki.
19 En Guð hefir heyrt,
gefið gaum að bænarópi mínu.
20 Lofaður sé Guð,
er eigi vísaði bæn minni á bug, né dró miskunn sína í hlé
við mig.

---

# 67.

Til helgisöngs. Með strengjaleik. Sálmur. Ljóð.
2 Guð sé oss náðugur og blessi oss;
hann láti ásjónu sína lýsa meðal vor, sela,
3 svo að þekkja megi veg þinn á jörðunni
og hjálpræði þitt meðal allra þjóða.
4 Lýðirnir skulu lofa þig, ó Guð,
þig skulu gjörvallir lýðir lofa;
5 gleðjast og fagna skulu þjóðirnar,
því að þú dæmir lýðina réttvíslega
og leiðir þjóðirnar á jörðunni. Sela.
6 Lýðirnir skulu lofa þig, ó Guð,
þig skulu gjörvallir lýðir lofa.
7 Jörðin hefir gefið ávöxt sinn,
Guð, vor Guð, blessar oss.
8 Guð blessi oss,
svo að öll endimörk jarðar megi óttast hann.

---

12: Jes. 43, 2. 18: Orðskv. 28, 9. Jóh. 9, 31. — 67, 2: 4 Mós. 6, 24. 25. 3: Sálm. 98, 2. 7: 3 Mós. 26, 4.

68 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur. Ljóð.
2 Guð rís upp, óvinir hans tvístrast
og hatursmenn hans flýja fyrir augliti hans.
3 Eins og reykur eyðist, eyðast þeir;
eins og vax bráðnar í eldi,
tortímast óguðlegir fyrir augliti Guðs.
4 En réttlátir gleðjast, fagna fyrir augliti Guðs
og kætast stórum.
5 Syngið fyrir Guði, vegsamið nafn hans,
leggið braut fyrir hann, er ekur gegnum öræfin,
Jah heitir hann, fagnið fyrir augliti hans,
6 sem er faðir föðurlausra, vörður ekknanna,
Guð í sínum heilaga bústað.
7 Guð lætur hina einmana hverfa heim aftur,
hann leiðir hina fjötruðu út til hamingju,
en aðeins þverbrotnir menn búa í þurru landi.
8 Ó Guð, þegar þú fórst út á undan lýð þínum,
þegar þú brunaðir fram um öræfin, sela,
9 þá nötraði jörðin, og himnarnir drupu fyrir Guði,
fyrir Guði, Ísraels Guði.
10 Ríkulegu regni dreyptir þú, ó Guð, á arfleifð þína,
það, sem vanmegnaðist, styrktir þú.
11 Staðinn, þar sem söfnuður þinn dvelur,
býr þú hinum voluðu, ó Guð, sakir gæzku þinnar.
12 Drottinn lætur orð sín rætast,
þær, sem sigur boða, eru mikill her.
13 Konungar hersveitanna flýja, þeir flýja,
en hún, sem heima situr, skiftir herfangi.
14 Hvort viljið þér liggja milli fjárgirðinganna?
Vængir dúfunnar eru lagðir silfri
og fjaðrir hennar íbleiku gulli.
15 Þegar hinn Almátki tvístraði konungunum,
þá snjóaði á Zalmon.

16 Guðs fjall er Basanfjall,
tindafjall er Basanfjall;
17 hví lítið þér, tindafjöll, öfundarauga
það fjall, er Guð hefir kjörið sér til bústaðar,
þar sem Jahve samt mun búa um eilífð?
18 Hervagnar Guðs eru tíþúsundir,
þúsundir á þúsundir ofan;
drottinn kom frá Sínaí í heilagleik.
19 Þú steigst upp til hæða, hafðir á burt bandingja,
tókst við gjöfum meðal mannanna,
og þverbrotnir menn skulu einnig búa hjá Jah Guði.
20 Lofaður sé drottinn, er ber oss dag eftir dag;
Guð er hjálpráð vort. Sela.
21 Guð er oss hjálpræðisguð,
og Jahve drottinn bjargar frá dauðanum.
22 Já, Guð sundurmolar höfuð óvina sinna,
hvirfil hins óguðlega, er gengur í sekt sinni.
23 Drottinn hefir sagt: Eg leiði þá heim aftur frá Basan,
leiði þá heim aftur frá djúpi hafsins,

---

68, 2: 4 Mós. 10, 35. 5: 2 Mós. 15, 3. 6: 5 Mós. 10, 18. Sálm. 10, 14. 8: 2 Mós. 13, 21. 22. 9: 2 Mós. 19, 16 n. Dóm. 5, 4. 5. 12: 2 Mós. 15, 20. 13: Dóm. 5, 30. 19: Ef. 4, 8. 21: Opinb. 1, 18. 22: Sálm. 110, 6. 23: Am. 9, 2 n.

24 að þú megir lauga fót þinn í blóði,
að tungur hunda þinna megi fá sinn hlut af óvinunum.

25 Menn horfðu á för þína, ó Guð,
för Guðs míns og konungs í heilagleik.
26 Söngvarar eru í fararbroddi, þá strengleikarar,
ásamt yngismeyjum, er berja bumbur.
27 »Lofið Guð á samkomunum,
lofið drottin, þér sem eruð af uppsprettu Ísraels.
28 Þar er Benjamín litli, er ríkir yfir þeim,
höfðingjar Júda í þyrpingu,
höfðingjar Sebúlons, höfðingjar Naftalí«.
29 Bjóð út, ó Guð, styrkleik þínum,
gjör styrkt, ó Guð, það, sem þú hefir gjört fyrir oss.
30 Sakir þíns heilaga musteris
skulu konungar færa þér gjafir til Jerúsalem.
31 Kúga þú dýrið í sefinu,
uxaflokkana ásamt þjóðkálfunum,
þeim er mætur hafa á silfri;
tvístra þjóðum, er unna ófriði.
32 Það koma sendiherrar frá Egiptalandi,
Bláland færir Guði gjafir hröðum höndum.
33 Þér konungsríki jarðar, syngið Guði,
syngið drotni lof, sela,
34 honum sem ekur um hinn eldgamla himingeim;
hann lætur raust sína, hina voldugu raust, gjalla.
35 Tjáið Guði dýrð;
yfir Ísrael er hátign hans
og máttur hans í skýjunum.
36 Ógurlegur er Guð í helgidómi sínum,
Ísraels Guð, hann veitir lýðnum mátt og megin.
Lofaður sé Guð!

---

## 69.

Til helgisöngs. Liljulag. Davíðs-sálmur.

2 Hjálpa mér, ó Guð,
því að vötnin ætla að sálga mér.
3 Eg er sokkinn niður í botnlausa leðju og hefi enga fótfestu,
eg er kominn ofan í vatnadjúp og bylgjurnar ganga yfir mig.
4 Eg hefi æpt mig þreyttan, er orðinn brennandi þur í kverkunum,
augu mín eru döpruð orðin af að þreyja eftir Guði mínum.
5 Fleiri en hárin á höfði mér eru þeir, er hata mig að ástæðulausu,
fleiri en bein mín þeir, sem án saka eru óvinir mínir;
því, sem eg hefi eigi rænt, hefi eg samt orðið að skila aftur.
6 Þú, Guð, þekkir heimsku mína
og sakir mínar dyljast þér eigi.
7 Lát eigi þá, er vona á þig, verða til skammar mín vegna, ó
drottinn, Jahve hersveitanna,
lát eigi þá, er leita þín, verða til svívirðingar mín vegna, þú
[Guð Ísraels.
8 Því að þín vegna ber eg háðung,
þín vegna hylur svívirðing auglit mitt.

---

27: Jes. 48, 1; 51, 1. 28: 1 Sam. 9, 21. 30: Sálm. 45, 13. 32: Jes. 19, 21; 45, 14.
34: 5 Mós. 33, 26. Sálm 29. 36: Sálm. 29, 11. Jes. 40, 29 n. — 69, 1: Sálm. 45, 1.
3: Sálm. 40, 3. 4: Sálm. 6, 7. 5: Sálm. 35, 19. Jóh. 15, 25. 8: Sálm. 44, 23.

[9] Eg er ókunnur orðinn bræðrum mínum
og óþektur sonum móður minnar,
[10] af því að vandlæting vegna húss þíns hefir uppetið mig
og smánanir þeirra, er smána þig, hafa lent á mér.
[11] Eg hefi þjáð mig með föstu,
en það varð mér til háðungar;
[12] eg gjörði hærusekk að klæðnaði mínum,
og eg varð þeim að orðskvið;
[13] þeir, er sitja í hliðinu, ræða um mig,
og þeir, er drekka áfengan drykk, syngja um mig.

[14] En eg — bæn mín komi fyrir þig, Jahve,
ver mér náðugur sakir þinnar miklu miskunnar,
bænheyr mig sakir þinnar hjálpandi trúfesti.
[15] Drag mig upp úr leðjunni, svo að eg sökkvi eigi,
lát mig björgun hljóta frá hatursmönnum mínum og úr haf-
[16] Lát eigi vatnsbylgjurnar ganga yfir mig, [djúpinu.
né djúpið svelgja mig,
og lát eigi brunninn lykja aftur op sitt yfir mér.
[17] Bænheyr mig, Jahve, sakir gæzku náðar þinnar,
snú þér að mér eftir mikilleik miskunnar þinnar,
[18] og hyl eigi auglit þitt fyrir þjóni þínum,
því að eg er í nauðum staddur, flýt þér að bænheyra mig.
[19] Nálgast sál mína, leys hana,
frelsa mig sakir óvina minna.
[20] Þú þekkir háðung mína og skömm og svívirðing,
allir fjendur mínir standa þér fyrir sjónum.
[21] Háðungin kremur hjarta mitt, svo að eg örvænti;
eg vonaði að einhver mundi sýna meðaumkun, en þar var
enginn,
og að einhverjir mundu hugga, en fann engan.
[22] Þeir fengu mér malurt til matar,
og við þorstanum gáfu þeir mér vínsýru að drekka.

[23] Svo verði þá borðið fyrir framan þá að snöru,
og að gildru fyrir þá, sem ugglausir eru.
[24] Myrkvist augu þeirra, svo að þeir sjái eigi,
og lát lendar þeirra ávalt riða;
[25] hell þú heift þinni yfir þá
og lát þína brennandi reiði ná þeim.
[26] Búðir þeirra verði eyddar
og enginn búi í tjöldum þeirra,
[27] því að þann, sem þú hefir lostið, ofsækja þeir
og auka þjáningar þeirra, er þú hefir gegnumstungið.
[28] Bæt sök við sök þeirra
og lát þá eigi ganga inn í réttlæti þitt;
[29] verði þeir afmáðir úr bók lifenda,
og eigi skráðir með réttlátum.

[30] En eg er volaður og þjáður,
hjálp þín, ó Guð, mun bjarga mér.
[31] Eg vil lofa nafn Guðs í ljóði
og mikla það í lofsöng;

---

**9:** Sálm. 38, 12. **10:** Sálm. 119, 139. Jóh. 2, 17. Róm. 15, 3. **18:** Job 30, 9. **18:** Sálm. 102, 3; 143, 7. **22:** Matt. 27, 34. 48. Jóh. 19, 28. 29. **23:** Róm. 11, 9. 10. **26:** Post. 1, 20. **27:** Jes. 53, 4. **29:** 2 Mós. 32, 32. Fil. 4, 3.

32 það mun Jahve líka betur en uxar,
ungneyti með hornum og klaufum.
33 Hinir auðmjúku sjá það og gleðjast;
þér sem leitið Guðs — hjörtu yðar lifni við.
34 Því að Jahve hlustar á aumingjana
og fyrirlítur eigi bandingja sína.
35 Hann skulu lofa himinn og jörð,
höfin og alt, sem í þeim hrærist.
36 Því að Guð veitir Zíon hjálp og reisir við Júdaborgir,
og menn skulu búa þar og fá landið til eignar,
37 og niðjar þjóna hans munu erfa það,
og þeir, er elska nafn hans, byggja þar.

---

## 70

Til helgisöngs. Davíðs-sálmur. Minningarljóð.
2 Guð, lát þér þóknast að frelsa mig,
skunda, Jahve, mér til hjálpar.
3 Lát þá verða til skammar og hljóta kinnroða, er sitja um líf mitt,
lát þá hverfa aftur með skömm, er óska mér ógæfu.
4 Lát þá hörfa undan sakir smánar sinnar,
er segja: Hæ, hæ!
5 En allir þeir er leita þín, skulu gleðjast og fagna yfir þér,
þeir, er unna hjálpræði þínu, skulu sífelt segja: Vegsamaður sé Guð!
6 Eg er vesall og snauður,
ó Guð, hraða þér til mín.
Þú ert fulltingi mitt og frelsari,
dvel eigi, Jahve!

---

## 71

Hjá þér, Jahve, leita eg hælis,
lát mig aldrei verða til skammar;
2 frelsa mig og bjarga mér eftir réttlæti þínu;
hneig eyru þín til mín og hjálpa mér;
3 ver mér verndarbjarg, vígi mér til hjálpar,
því að þú ert bjarg mitt og vígi.
4 Guð minn, bjarga mér úr hendi óguðlegra,
undan valdi illvirkja og harðstjóra.
5 Því að þú ert von mín,
drottinn Jahve er athvarf mitt frá æsku;
6 við þig hefi eg stuðst frá móðurlífi,
frá móðurskauti hefir þú verið skjól mitt,
um þig hljómar ætíð lofsöngur minn.
7 Eg er mörgum orðinn sem undur,
en þú ert mér örugt hæli.
8 Munnur minn er fullur af lofstír þínum,
af dýrð þinni, liðlangan daginn.
9 Útskúfa mér eigi í elli minni,
yfirgef mig eigi þá er þróttur minn þverrar.
10 Því að óvinir mínir tala um mig,
þeir, er sitja um líf mitt, bera ráð sín saman:
11 »Guð hefir yfirgefið hann;
eltið hann og grípið hann, því að enginn bjargar«.

---

**32:** Sálm. 50, 9—13. **33:** Sálm. 22, 27. **35:** Sálm. 96, 11 n. **37:** Sálm. 102, 29. Jes. 65, 9. — **70, 2:** Sálm. 40, 14—18. — **71, 1:** Sálm. 31, 2 n. **6:** Sálm. 22, 10. **10:** Sálm. 56, 7.

12 Guð, ver eigi fjarri mér,
Guð minn, skunda til liðs við mig.

13 Lát þá, er sýna mér fjandskap, farast með skömm,
lát þá íklæðast háðung og svívirðing, er óska mér ógæfu.
14 En eg vil sífelt vona,
og auka enn á allan lofstír þinn.
15 Munnur minn skal segja frá réttlæti þínu,
frá hjálpsemdum þínum liðlangan daginn,
því að eg veit eigi tölu á þeim.
16 Eg vil koma með máttarverk drottins Jahve,
eg vil boða réttlæti þitt einungis.
17 Guð, þú hefir kent mér frá æsku,
og alt til þessa kunngjöri eg dásemdarverk þín.
18 Og jafnvel þegar eg er gamall orðinn og grár fyrir hærum, munt
þú, ó Guð, eigi yfirgefa mig,
að eg megi kunngjöra armlegg þinn komandi kynslóð.
Máttur þinn 19 og réttlæti þitt, ó Guð, nær til himins,
þú sem hefir framið stórvirki; Guð, hver er sem þú?
20 Þú, sem hefir látið oss horfa upp á miklar nauðir og ógæfu,
þú munt láta oss lifna við af nýju
og láta oss aftur stíga upp úr undirdjúpum jarðar.
21 Þú munt auka við tign mína
og aftur veita mér huggun.
22 Þá vil eg lofa trúfesti þína með hörpuleik, Guð minn,
leika á gígju fyrir þér, þú hinn Heilagi í Ísrael.
23 Varir mínar skulu fagna, er eg leik fyrir þér,
og sál mín, er þú hefir leyst.
24 Þá skal og tunga mín tala um réttlæti þitt liðlangan daginn,
því að þeir urðu til skammar, já hlutu kinnroða, er óskuðu
mér ógæfu.

## 72

Eftir Salómó.

Guð, veit konungi rétt þinn
og konungssyni réttlæti þitt.
2 Hann dæmi lýð þinn með réttvísi
og þína voluðu með sanngirni.
3 Fjöllin beri lýðnum frið
og hálsarnir réttlæti.
4 Hann láti hina voluðu meðal lýðsins ná rétti sínum,
hann hjálpi hinum snauðu og kremji kúgarann.
5 Þá mun hann lifa meðan sólin skín
og tunglið ber birtu, frá kyni til kyns.
6 Hann mun falla sem regn niður á nýslegið engi,
sem regnskúrir, er vökva landið;
7 um hans daga skal réttlætið blómgast
og gnóttir friðar, unz tunglið er eigi framar til.
8 Og hann skal ríkja frá hafi til hafs,
frá Fljótinu til endimarka jarðar,
9 fjandmenn hans skulu beygja kné fyrir honum
og óvinir hans sleikja duftið;

---

**12:** Sálm. 22, 12. 20. **15:** Sálm. 40, 6. **18:** Jes. 46, 4. **19:** Sálm. 36, 6. — **72, 1:** Jes. 11, 2—5. **3:** Sálm. 85, 11. 12. **5:** Sálm. 89, 37. 38. **8:** Sak. 9, 10. Sálm. 89, 26. **9:** Jes. 49, 23.

10 konungarnir frá Tarsis og eylöndunum skulu koma með gjafir,
konungarnir frá Saba og Seba skulu færa skatt,
11 og allir konungar skulu lúta honum,
allar þjóðir þjóna honum.
12 Því að hann bjargar aumingjanum, er hrópar á hjálp,
og hinum volaða og þeim, er enginn liðsinnir;
13 hann aumkast yfir bágstadda og auma,
og sálum aumingjanna hjálpar hann.
14 Frá ofbeldi og ofríki leysir hann sálir þeirra
og blóð þeirra er dýrmætt í augum hans.
15 Og hann mun lifa og menn munu gefa honum Saba-gull,
menn munu sífelt biðja fyrir honum,
blessa hann liðlangan daginn.
16 Gnóttir korns munu vera í landinu, á fjallatindunum,
í gróðri þess mun þjóta eins og í Líbanon
og menn skulu spretta upp í borgunum, eins og gras úr jörðu.
17 Nafn hans mun vara að eilífu;
meðan sólin skín mun nafn hans gróa;
og með honum skulu allar ættkvíslir jarðarinnar óska sér blessunar,
allar þjóðir munu hann sælan segja.

* * *

18 Lofaður sé Jahve Guð, Ísraels Guð,
sem einn gjörir furðuverk,
19 og lofað sé hans dýrlega nafn um eilífð
og öll jörðin fyllist dýrð hans.
Amen, amen.
20 Bænir Davíðs Ísaísonar eru á enda.

---

## Þriðja bók.

# 73

Asafs-sálmur.
Vissulega er Guð góður við Ísrael,
við þá, sem hjartahreinir eru.
2 En nærri lá, að fætur mínir hrösuðu;
lítið vantaði á, að eg skriðnaði í skrefi.
3 Því að eg fyltist gremju út af hinum hrokafullu,
þegar eg sá gengi hinna óguðlegu.
4 Því að þeir hafa engar hörmungar að bera,
líkami þeirra er heill og hraustur;
5 þeim mætir engin mæða sem öðrum mönnum
og þeir verða eigi fyrir neinum áföllum eins og aðrir menn.
6 Fyrir því er hrokinn hálsfesti þeirra,
þeir eru sveipaðir ofríki eins og yfirhöfn.
7 Frá mörhjarta kemur misgjörð þeirra,
girndir þeirra ganga fram úr öllu hófi.
8 Þeir spotta og tala af ilsku,
mæla kúgunarorð í mikilmensku sinni;
9 með munni sínum snerta þeir himininn,
en tunga þeirra er tíðförul um jörðina.
10 Fyrir því aðhyllist lýðurinn þá
og teigar gnóttir vatns.

---

**10:** Sálm. 45, 13; 68, 30. Jes. 60, 6 n. **14:** Sálm. 116, 15. **17:** 1 Mós. 12, 3. **18:** Sálm. 41, 14. 2 Mós. 15, 11. — **73, 3:** Sálm. 37, 1. Job 21, 7 n. **7:** Job 15, 27.

11 Þeir segja: Hvernig ætti Guð að vita
og hinn hæsti að hafa nokkura þekkingu?

12 Sjá, þessir menn eru óguðlegir,
og þó lifa þeir ætíð áhyggjulausir og auka efni sín.
13 Vissulega hefi eg til ónýtis haldið hjarta mínu hreinu
og þvegið hendur mínar í sakleysi;
14 eg þjáist liðlangan daginn,
og á hverjum morgni bíður mín hirting.
15 Ef eg hefði haft í hyggju að tala þannig,
sjá, þá hefði eg brugðið trúnaði við kyn barna þinna;
16 en eg hugsaði um, hvernig eg ætti að skilja það,
það var erfitt í augum mínum;
17 unz eg kom inn í helgidóma Guðs,
gaf gætur að afdrifum þeirra:
18 vissulega setur þú þá á sleipa jörð,
þú lætur þá falla í rústir.
19 Hversu sviplega eru þeir orðnir að auðn,
eru liðnir undir lok, tortímdir af skelfingum.
20 Eins og draum, er maður vaknar,
fyrirlítur þú, drottinn, mynd þeirra, er þú vaknar.
21 Þegar beiskja var í hjarta mínu
og kvölin nísti nýru mín,
22 þá var eg fáráðlingur og vissi ekkert,
var sem skynlaus skepna gagnvart þér.

23 En eg er ætíð hjá þér,
þú heldur í hægri hönd mína;
24 þú munt leiða mig eftir ályktun þinni
og síðan láta mig ná sæmd.
25 Hvern á eg annars að á himnum?
og hafi eg þig, hirði eg eigi um neitt á jörðu.
26 Þótt hold mitt og hjarta tærist,
er Guð bjarg hjarta míns og hlutskifti mitt um eilífð.
27 Því sjá: þeir, er fyrirláta þig, farast,
þú eyðir öllum þeim, sem eru þér ótrúir.
28 En mín gæði eru það, að vera nálægt Guði,
eg hefi gjört drottin Jahve að athvarfi mínu,
til þess að segja frá öllum verkum þínum.

---

74 Asafs-maskíl.
Hví hefir þú, Guð, útskúfað um eilífð,
hví rýkur reiði þín gegn gæzluhjörð þinni?
2 Haf í minni söfnuð þinn, er þú aflaðir forðum,
leystir til þess að vera kynkvísl óðals þíns,
Zíonfjall, þar sem þú hefir tekið þér bústað.
3 Lyft fótum þínum til hinna eilífu rústa,
öllu hafa óvinirnir spilt í helgidóminum.
4 Fjandmenn þínir grenjuðu inni á samkomustað þínum,
reistu upp merki sín sem merki.
5 Þeir gjöra vart við sig eins og menn, sem reiða hátt
axir í þykkum skógi.

---

11: Job 22, 13. 14. 13: Job 34, 9. 20: Job 20, 8. 24: Sálm. 49, 16. 26: Sálm. 16, 5; 18, 2. 3. 27: Jak. 4, 4. — 74, 1: Sálm. 44, 24; 100, 3.

6 Allur útskurður er högginn af honum,
með exi og hamri mölvuðu þeir.
7 Þeir hafa lagt eld í helgidóm þinn,
vanhelgað bústað nafns þíns niður að jörðu.
8 Þeir hugsuðu með sjálfum sér: Vér skulum tortíma þeim öllum,
þeir brendu öll samkomuhús Guðs í landinu.
9 Vér sjáum eigi merki vor,
þar er enginn spámaður framar,
og enginn er hjá oss, sem veit hve lengi.
10 Hversu lengi, ó Guð, á fjandmaðurinn að hæða,
á óvinurinn að spotta nafn þitt um aldur?
11 Hví dregur þú að þér hönd þína?
Drag hægri hönd þína úr barmi þér og tortím.

12 Og þó er Guð konungur minn frá fornum tíðum,
sá er framkvæmir hjálpræðisverk á jörðu.
13 Þú klaufst hafið með mætti þínum,
þú brauzt sundur höfuð drekans á vatninu;
14 þú molaðir sundur hausa Levíatans,
gafst hann dýrum eyðimerkurinnar að æti;
15 þú lézt lindir og læki spretta upp,
þú þurkaðir upp sírennandi ár.
16 Þinn er dagurinn og þín er nóttin,
þú gjörðir ljós og sól.
17 Þú settir öll takmörk jarðarinnar,
sumar og vetur hefir þú gjört.
18 Og samt lastmælir óvinurinn, Jahve,
og heimskur lýður smánar nafn þitt.
19 Ofursel eigi villidýrunum sál turtildúfu þinnar;
gleym eigi um aldur lífi þinna voluðu.
20 Gef gætur að sáttmála þínum,
því að skúmaskot landsins eru full af ofríkisbústöðum.
21 Lát eigi þann, er kúgun sætir, snúa aftur með svívirðing,
lát hina voluðu og snauðu lofa nafn þitt.
22 Rís upp, Guð, berst fyrir málefni þínu,
minst þú háðungar þeirrar, er þú sætir af heimskingjum
liðlangan daginn.
23 Gleym eigi hrópi fjenda þinna,
glaumkæti andstæðinga þinna, þeirri er sífelt stígur upp.

---

75. Til helgisöngs. Lag: Spill eigi. Asafs-sálmur. Ljóð.
2 Vér lofum þig, ó Guð, vér lofum þig,
og þeir er ákalla nafn þitt segja frá dásemdarverkum þínum.
3 Þegar mér þykir tími til kominn,
dæmi eg réttvíslega.
4 Þótt jörðin skjálfi með öllum þeim, er á henni búa,
þá hefi eg samt fest stoðir. Sela.
5 Eg segi við hina hrokafullu: Sýnið eigi hroka!
og við hina óguðlegu: Hefjið eigi hornin!
6 Hefjið eigi hornin gegn himninum,
mælið eigi drambyrði hnakkakertir!

---

**6:** 1 Kong. 6, 29. **7:** 2 Kong. 25, 9. **9:** Harm. 2, 9. **13:** Jes. 51, 9. 10. **15:** 2 Mós. 17, 6. 4 Mós. 20, 11. Jós. 3, 16. 17. **16:** 1 Mós. 1, 14 n. — **75, 1:** Sálm. 57, 1. **3:** Sálm. 102, 14.

7 Því að hvorki frá austri né vestri,
hvorki frá eyðimörkinni né fjöllunum —
8 heldur er Guð sá, sem dæmir,
hann niðurlægir annan og upphefur hinn.
9 Því að bikar er í hendi Jahve
með freyðandi víni, fullur af kryddi;
af því skenkir hann; já, dreggjar þess súpa og sötra
allir óguðlegir menn á jörðu.
10 En eg vil fagna að eilífu,
lofsyngja Jakobs Guði.
11 Öll horn óguðlegra verða af höggin,
en horn réttlátra skulu hátt gnæfa.

---

**76.** Til helgisöngs. Með strengjaleik. Asafs-sálmur. Ljóð.
2 Guð er augljós orðinn í Júda;
í Ísrael er nafn hans mikið.
3 Skáli hans er í Salem
og bústaður hans á Zíon.
4 Þar braut hann sundur leiftur bogans,
skjöld og sverð og hervopn. Sela.
5 Þú birtist ógurlegur, dýrlegur,
frá hinum öldnu fjöllum.
6 Hinir harðsvíruðu urðu öðrum að herfangi,
þeir sofnuðu svefni sínum
og hendurnar brugðust öllum hetjunum.
7 Fyrir ógnun þinni, Jakobs Guð,
hnigu bæði vagnar og hestar í dá.
8 Þú ert ógurlegur,
og hver fær staðist fyrir þér, er þú reiðist.
9 Frá himnum gjörðir þú dóm þinn heyrum kunnan,
jörðin skelfdist og kyrðist,
10 þegar Guð reis upp til dóms,
til þess að hjálpa öllum auðmjúkum á jörðu. Sela.
11 Því að reiði mannsins verður að lofa þig,
leifum reiðinnar gyrðir þú þig.
12 Vinnið heit og efnið þau við Jahve, Guð yðar;
allir þeir, sem eru umhverfis hann, skulu færa gjafir hinum [óttalega,
13 honum sem lægir ofstopa höfðingjanna,
sem ógurlegur er konungum jarðarinnar.

---

**77.** Til helgisöngs fyrir Jedútún. Asafs-sálmur.
2 Eg kalla til Guðs og hrópa,
kalla til Guðs, að hann megi heyra til mín.
3 Þegar eg er í nauðum staddur, leita eg drottins;
um nætur eru hendur mínar útréttar og verða eigi lémagna;
sál mín er óhuggandi.
4 Eg minnist Guðs og kveina,
eg styn og andi minn örmagnast. Sela.
5 Þú heldur opnum augnalokum mínum,
mér er órótt og eg má eigi mæla.

---

8: 1 Sam. 2, 7. 8. — 76, 4: Sálm. 46, 10. 6: 2 Kong. 19, 35. Nah. 3, 18. Jer. 51, 39. 11: 2 Mós. 9, 16. — 77, 1: Sálm. 39, 1; 62, 1.

6 Eg íhuga fyrri daga,
ár þau, sem löngu eru liðin;
7 eg minnist strengjaleiks míns um nætur,
eg hugleiði í hjarta mínu
og andi minn rannsakar.
8 Mun drottinn þá útskúfa um eilífð
og aldrei framar vera náðugur;
9 er miskunn hans lokið um eilífð,
trúfesti hans þrotin um aldir alda;
10 hefir Guð gleymt að sýna líkn,
lokað fyrir miskunn sína í reiði? Sela.
11 Þá sagði eg: Þetta er kvöl mín,
að hægri hönd hins hæsta hefir breytt sér.

12 Eg víðfrægi stórvirki Jah;
eg vil minnast furðuverka þinna frá fyrri tíðum;
13 eg íhuga allar athafnir þínar,
athuga stórvirki þín.
14 Guð, helgur er vegur þinn,
hver er mikill Guð svo sem Jahve;
15 þú ert Guð, sá er furðuverk gjörir,
þú hefir kunngjört mátt þinn meðal þjóðanna;
16 með máttugum armlegg frelsaðir þú lýð þinn,
sonu Jakobs og Jósefs. Sela.
17 Vötnin sáu þig, ó Guð,
vötnin sáu þig og skelfdust
og undirdjúpin skulfu.
18 Vatnið streymdi úr skýjunum
og þrumuraust drundi úr skýþykkninu
og örvar þínar flugu.
19 Reiðarþrumur þínar kváðu við,
leiftur lýstu um jarðríki,
jörðin skalf og nötraði.
20 Leið þín lá gegnum hafið,
stigar þínir gegnum mikil vötn
og spor þín urðu eigi rakin.
21 Þú leiddir lýð þinn eins og hjörð,
fyrir Móse og Aron.

---

**78** Asafs-maskíl.

Hlýð þú, lýður minn, á kenning mína,
hneigið eyrun að orðum munns míns;
2 eg vil opna munn minn með orðskviði,
mæla fram gátur frá fornum tíðum,
3 það sem vér höfum heyrt og skilið
og feður vorir sögðu oss,
4 það viljum vér eigi dylja fyrir niðjum þeirra,
er vér segjum seinni kynslóð frá lofstír Jahve
og mætti hans og dásemdarverkum þeim, er hann gjörði.
5 Því að hann setti reglu í Jakob
og skipaði lögmál í Ísrael,
er hann bauð feðrum vorum
að kunngjöra sonum þeirra,

---

**6:** Sálm. 143, 5. **8:** Sálm. 85, 6. **16:** 2 Mós. 6, 6. **17:** 2 Mós. 14, 21 n. Sálm. 114, 3.
**21:** Sálm. 78, 52. Mik. 6, 4. Jes. 63, 11 n. — 78, **2:** Sálm. 49, 5. Matt. 13, 35.

6 til þess að seinni kynslóð mætti skilja það,
að synir þeir, er fæðast mundu, mættu ganga fram
og segja sonum sínum frá því,
7 og setja traust sitt á Guð
og eigi gleyma stórvirkjum Guðs,
heldur varðveita boðorð hans,
8 og eigi verða sem feður þeirra,
þrjózk og ódæl kynslóð,
kynslóð með óstöðugu hjarta,
og anda, sem var Guði ótrúr.
9 Niðjar Efraíms, herbúnir bogmenn,
sneru við á orustudeginum.
10 Þeir héldu eigi sáttmála Guðs
og færðust undan að fylgja lögmáli hans.
11 Þeir gleymdu stórvirkjum hans
og dásemdum hans, er hann hafði látið þá horfa á.
12 Í augsýn feðra þeirra hafði hann framið furðuverk
í Egiptalandi og Zóanhéraði;
13 hann klauf hafið og lét þá fara yfir
og lét vatnið standa sem vegg,
14 hann leiddi þá með skýinu um daga
og alla nóttina með eldskini;
15 hann klauf björg í eyðimörkinni
og gaf þeim gnóttir að drekka eins og úr stórvötnum,
16 hann lét læki spretta upp úr klettinum
og vatnið streyma niður sem fljót.
17 Þó héldu þeir áfram að syndga í gegn honum,
að rísa í gegn hinum hæsta í eyðimörkinni.
18 Þeir freistuðu Guðs í hjörtum sínum,
er þeir kröfðust matar þess, er þeir girntust,
19 og töluðu gegn Guði og sögðu:
Skyldi Guð geta búið borð í eyðimörkinni?
20 Víst sló hann á klettinn, svo að vatnið vall upp
og lækir streymdu,
en skyldi hann líka geta gefið brauð
eða veitt lýð sínum kjöt?
21 Fyrir því reiddist Jahve, er hann heyrði þetta,
eldur bálaði upp gegn Jakob
og reiði steig upp gegn Ísrael,
22 af því að þeir trúðu eigi á Guð,
né treystu hjálp hans.
23 Og hann bauð skýjunum að ofan
og opnaði hurðir himinsins,
24 lét manna rigna yfir þá til matar
og gaf þeim himnakorn;
25 englabrauð fengu menn að eta,
fæði sendi hann þeim til saðningar;
26 hann lét austanvindinn taka sig upp í himninum
og leiddi sunnanvindinn að með mætti sínum;
27 hann lét kjöti rigna yfir þá sem dufti
og vængjuðum fuglum sem sjávarsandi;
28 og hann lét þá falla niður í búðir sínar,
umhverfis bústað sinn;

---

**8:** 5 Mós. 9, 6; 31, 27. **12:** 4 Mós. 13, 22. **13:** 2 Mós. 14, 21 n. **14:** Sálm. 105, 39. **15:** 2 Mós. 17, 6. 4 Mós. 20, 11. Sálm. 105, 41. **18:** 2 Mós. 16, 2 n. 4 Mós. 11, 4 n. **24:** 2 Mós. 16, 4 n. Jóh. 6, 31. **26:** 4 Mós. 11, 31 n.

29 átu þeir og urðu vel saddir,
og græðgi þeirra sefaði hann.
30 En meðan þeir voru eigi horfnir frá græðgi sinni,
meðan fæðan enn var í munni þeirra,
31 þá steig reiði Guðs upp í gegn þeim,
hann deyddi hina gildustu meðal þeirra
og lagði að velli æskumenn Ísraels.
32 Þrátt fyrir alt þetta héldu þeir áfram að syndga
og trúðu eigi á dásemdarverk hans;
33 þá lét hann daga þeirra hverfa í hégóma
og ár þeirra enda í skelfingu.
34 Þegar hann deyddi þá, leituðu þeir hans,
sneru sér og spurðu eftir Guði,
35 og mintust þess, að Guð var klettur þeirra
og Guð hinn hæsti frelsari þeirra.
36 Þeir beittu við hann fagurgala með munni sínum
og lugu að honum með tungum sínum.
37 En hjarta þeirra var eigi stöðugt gagnvart honum
og þeir voru eigi trúir sáttmála hans.
38 En hann er miskunnsamur;
hann fyrirgefur misgjörðir og tortímir eigi,
hann stillir reiði sína hvað eftir annað
og hleypir eigi fram allri bræði sinni;
39 hann mintist þess, að þeir voru hold,
andgustur sem líður burt og snýr eigi aftur.
40 Hversu oft þrjózkuðust þeir við hann í eyðimörkinni,
hrygðu hann á öræfunum.
41 Og aftur freistuðu þeir Guðs
og móðguðu hinn Heilaga í Ísrael;
42 þeir mintust eigi handar hans,
eður dags þess, er hann frelsaði þá frá fjandmönnum þeirra,
43 hann sem gjörði tákn sín í Egiptalandi
og undur sín í Zóanhéraði;
44 hann breytti ám þeirra í blóð
og lækjum þeirra, svo að þeir fengu eigi drukkið.
45 Hann sendi flugur meðal þeirra, er bitu þá,
og froska, er eyddu þeim.
46 Hann gaf engisprettunum afurðir þeirra
og jarðvörgunum uppskeru þeirra.
47 Hann eyddi vínvið þeirra með haglhríð
og móberjatré þeirra með frosti;
48 hann ofurseldi haglhríðinni fénað þeirra
og eldingunni hjarðir þeirra.
49 Hann sendi heiftarreiði sína í gegn þeim,
æði, bræði og nauðir,
sveitir af illum englum.
50 Hann ruddi braut reiði sinni,
þyrmdi eigi sálum þeirra við dauðanum
og ofurseldi drepsóttinni líf þeirra.
51 Hann laust alla frumburði í Egiptalandi,
frumgróða styrkleikans í tjöldum Kams.

**31:** 4 Mós. 11, 33. **32:** 4 Mós. 14, 1 n. **33:** 4 Mós. 14, 12. 22. 23. **36:** Jes. 29, 13. **38:** 2 Mós. 34, 6. **39:** Sálm. 103, 14 n. **44:** 2 Mós. 7, 20 n. **45:** 2 Mós. 8, 6. 24. **46:** 2 Mós. 10, 12 n. **47:** 2 Mós. 9, 23 n. **50:** 2 Mós. 9, 3—6. **51:** 2 Mós. 12, 29.

52 Hann lét lýð sinn leggja af stað sem sauði
og leiddi þá eins og hjörð í eyðimörkinni.
53 Hann leiddi þá örugt, svo að þeir óttuðust eigi,
en óvini þeirra huldi hafið.
54 Hann fór með þá til síns helga héraðs,
til fjalllendis þess, er hægri hönd hans hafði aflað.
55 Hann stökti þjóðum undan þeim,
skifti þeim niður eins og erfðahlut
og lét kynkvíslir Ísraels setjast að í tjöldum þeirra.
56 En þeir freistuðu í þrjózku sinni Guðs hins hæsta
og gættu eigi vitnisburða hans;
57 þeir viku af leið, rufu trúnað sinn, eins og feður þeirra,
brugðust eins og svikull bogi;
58 þeir egndu hann til reiði með hæðum sínum,
vöktu vandlæti hans með skurðgoðum sínum.
59 Guð heyrði það og reiddist
og fékk mikla óbeit á Ísrael;
60 hann hafnaði bústaðnum í Síló,
tjaldi því, er hann hafði reist meðal mannanna,
61 hann ofurseldi hernáminu vegsemd sína
og fjandmannshendi prýði sína;
62 hann seldi lýð sinn undir sverðseggjar
og reiddist arfleifð sinni;
63 æskumönnum hans eyddi eldurinn
og meyjar hans mistu brúðsöngs síns;
64 prestar hans féllu fyrir sverðseggjum
og ekkjur hans fengu enga kveinan haldið.
65 Þá vaknaði drottinn eins og af svefni,
eins og hetja, sem hefir látið sigrast af víni;
66 hann barði fjandmenn sína á bakhlutina,
lét þá sæta eilífri háðung.
67 Samt hafnaði hann tjaldi Jósefs,
og útvaldi eigi kynkvísl Efraíms,
68 heldur útvaldi hann Júda-kynkvísl,
Zíonfjall, sem hann elskar.
69 Hann reisti helgidóm sinn sem himinhæðir,
grundvallaði hann að eilífu eins og jörðina.
70 Og hann útvaldi þjón sinn Davíð
og tók hann frá fjárbyrgjunum.
71 Hann sótti hann frá lambánum,
til þess að vera hirðir fyrir Jakob, lýð sinn,
og fyrir Ísrael, arfleifð sína.
72 Og hann var hirðir fyrir þá af heilum hug
og leiddi þá með hygginni hendi.

---

# 79

Asafs-sálmur.

Guð, heiðingjar hafa brotist inn í óðal þitt,
þeir hafa saurgað þitt heilaga musteri
og lagt Jerúsalem í rústir.
2 Þeir hafa gefið lík þjóna þinna fuglum himins að fæðu
og villidýrunum hold dýrkenda þinna.

---

**52:** Sálm. 77, 21. **53:** 2 Mós. 14, 19. 22. 27. 28; 15, 19. **55:** Sálm. 44, 3. **56:** Dóm. 2, 8 n. **57:** Hós. 7, 16. **58:** 5 Mós. 32, 16. 21. **60:** Jós. 18, 1. Jer. 7, 12. **61:** 1 Sam. 4, 21. **62:** 1 Sam. 4, 10. **64:** 1 Sam. 4, 11. **70:** 1 Sam. 16, 11 n. **71:** 2 Sam. 7, 8. — **79, 1:** Sálm. 74, 4 n.

3 Þeir hafa úthelt blóði þeirra sem vatni umhverfis Jerúsalem,
og enginn jarðaði þá.
4 Vér erum til háðungar nábúum vorum,
til spotts og athlægis þeim, er búa umhverfis oss.

5 Hversu lengi, Jahve, ætlar þú að vera eilíflega reiður,
á vandlæti þitt að brenna sem eldur?
6 Hell þú heift þinni yfir heiðingjana, sem eigi þekkja þig,
og yfir konungsríki, er eigi ákalla nafn þitt.
7 Því að þeir hafa uppetið Jakob
og lagt bústað hans í eyði.
8 Lát oss eigi gjalda misgjörða forfeðra vorra,
lát miskunn þína fljótt koma í móti oss,
því að vér erum mjög þjakaðir.

9 Hjálpa þú oss, Guð hjálpræðis vors, sakir dýrðar nafns þíns,
frelsa oss og fyrirgef syndir vorar sakir nafns þíns.
10 Hví eiga heiðingjarnir að segja: Hvar er Guð þeirra?
Lát fyrir augum vorum kunna verða á heiðingjunum
hefndina fyrir úthelt blóð þjóna þinna.
11 Lát andvarpanir bandingjanna koma fram fyrir þig,
leys þá, sem komnir eru í dauðann, með þínum sterka armlegg,
12 og gjald nágrönnum vorum sjöfalt í skaut
háðungina, er þeir hafa sýnt þér, drottinn.
13 En vér, lýður þinn og gæzluhjörð þín, munum lofa þig um eilífð,
kunngjöra lofstír þinn frá kyni til kyns.

---

80. Til helgisöngs. Liljulag. Asafs-vitnisburður. Sálmur.
2 Hirðir Ísraels, hlýð á,
þú sem leiddir Jósef eins og hjörð,
þú sem situr uppi yfir kerúbunum, birzt þú í geisladýrð.
3 Tak á mætti þínum frammi fyrir Efraím, Benjamín og Manasse
og kom oss til hjálpar!
4 Guð, lát oss rétta við aftur
og lát ásjónu þína lýsa, að vér megum frelsast.

5 Jahve, Guð hersveitanna,
hversu lengi ætlar þú að vera reiður þrátt fyrir bænir lýðs þíns?
6 Þú hefir mettað þá tárabrauði
og drykkjað þá tárum ríkulega.
7 Þú hefir gjört oss að þrætuefni nágranna vorra
og óvinir vorir gjöra gys að oss.
8 Guð hersveitanna lát oss rétta við aftur
og lát ásjónu þína lýsa, að vér megum frelsast.

9 Þú kiptir upp vínvið úr Egiptalandi,
stöktir burt heiðingjum, en gróðursettir hann;
10 þú rýmdir til fyrir honum,
hann festi rætur og fylti landið;
11 fjöllin huldust í skugga hans
og sedrustré Guðs af greinum hans;
12 hann breiddi út álmur sínar til hafsins
og teinunga sína til Fljótsins.

---

4: Sálm. 44, 14. 5: Sálm. 85, 6. 6: Jer. 10, 25. 8: Jes. 64, 8. 11: Sálm. 102, 20. 21. — 80, 2: Sálm. 99, 1. 4: 4 Mós. 6, 25. 7: Sálm. 44, 14. 9: Jes. 5, 1; 27, 2. Sálm. 44, 3.

13 Hví hefir þú brotið niður múrveggina um hann,
svo að allir vegfarendur tína berin.
14 Skógargeltirnir naga hann
og öll dýr merkurinnar bíta hann.

15 Guð hersveitanna, æ snú þú aftur,
lít niður af himni og sjá
og vitja vínviðar þessa,
16 og varðveit það, sem hægri hönd þín hefir plantað,
og son þann, er þú hefir styrkvan gjört þér til handa.
17 Hann er brendur í eldi og upphöggvinn,
fyrir ógnun auglitis þíns farast þeir.
18 Lát hönd þína hvíla yfir manninum við þína hægri hönd,
yfir mannsins barni, er þú hefir styrkvan gjört þér til handa;
19 þá skulum vér eigi víkja frá þér;
viðhald lífi voru, þá skulum vér ákalla nafn þitt.
20 Jahve, Guð hersveitanna, lát oss rétta við aftur,
lát ásjónu þína lýsa, að vér megum frelsast.

---

# 81

Til helgisöngs. Með Gat-lagi. Asafs-sálmur.

2 Fagnið fyrir Guði, styrkleika vorum,
látið gleðióp gjalla Guði Jakobs.
3 Hefjið lofsöng og berjið bumbur,
knýið hinar hugljúfu gígjur og hörpur.
4 Þeytið lúðurinn á tunglkomudögum,
við tunglfylling á hátíðisdegi vorum.
5 Því að þetta eru lög fyrir Ísrael,
réttur fyrir Jakobs Guð.
6 Hann gjörði það að reglu í Jósef,
þá er hann fór út í móti Egiptalandi.
Eg heyri mál, sem eg þekki eigi:
7 »Eg hefi losað herðar hans við byrðina,
hendur hans eru sloppnar við burðarkörfina.
8 Þú kallaðir í neyðinni, og eg frelsaði þig,
eg bænheyrði þig í þrumuskýi,
reyndi þig hjá Meríba-vötnum. Sela.
9 Heyr, lýður minn, að eg megi áminna þig,
ó að þú, Ísrael, vildir heyra mig!
10 Enginn annar guð má vera meðal þín
og engan útlendan guð mátt þú tilbiðja.
11 Eg er Jahve, Guð þinn, sem leiddi þig út af Egiptalandi,
opna munn þinn, að eg megi fylla hann.
12 En lýður minn heyrði eigi raust mína
og Ísrael var mér eigi auðsveipur;
13 þá slepti eg þeim í þrjózku hjartna þeirra,
þeir fengu að ganga eftir eigin geðþótta.
14 Ó að lýður minn vildi heyra mig,
Ísrael ganga á mínum vegum,
15 þá skyldi eg skjótt lægja óvini þeirra,
og snúa hendi minni gegn fjendum þeirra;
16 hatursmenn Jahve skyldu hræsna fyrir honum
og ógæfutími þeirra vara að eilífu;

---

**13:** Sálm. 89, 41. **16:** 2 Mós. 4, 22. — **81, 1:** Sálm. 8, 1. **8:** 2 Mós. 17, 7. 4 Mós. 20, 13. **10:** 2 Mós. 20, 2 n. **14:** 5 Mós. 5, 29.

17 eg skyldi gefa honum hið kjarnbezta hveiti að eta
og seðja þig á hunangi úr klettunum«.

---

82 Asafs-sálmur.
Guð stendur á guðaþingi,
heldur dóm mitt á meðal guðanna.
2 Hversu lengi ætlið þér að dæma með rangsleitni
og draga taum hinna óguðlegu? Sela.
3 Rekið réttar bágstaddra og föðurlausra,
látið hinn volaða og fátæka ná rétti sínum;
4 bjargið bágstöddum og snauðum,
frelsið þá af hendi óguðlegra.
5 Þeir hafa eigi skyn né skilning,
þeir ráfa í myrkri,
allar undirstöður jarðarinnar riða.
6 Eg hefi sagt: Þér eruð guðir
og allir saman synir hins hæsta,
7 en sannlega skuluð þér deyja sem menn,
falla sem einn af höfðingjunum.
8 Rís upp, ó Guð, dæm þú jörðina,
því að þú ert erfðahöfðingi yfir öllum heiðingjum.

---

83 Ljóð. Asafs-sálmur.
2 Guð, ver eigi hljóður;
ver eigi þögull og hald eigi kyrru fyrir, ó Guð!
3 Því sjá, óvinir þínir gjöra hark
og hatursmenn þínir hefja höfuðið,
4 þeir bregða á slæg ráð gegn lýð þínum,
bera ráð sín saman gegn þeim, er þú geymir.
5 Þeir segja: Komið, látum oss uppræta þá, svo að þeir séu ekki
þjóð framar.
og nafns Ísraels verði eigi framar minst!
6 Því að þeir hafa einhuga borið saman ráð sín,
gegn þér hafa þeir gjört bandalag:
7 Edómtjöld og Ísmaelítar,
Móab og Hagrítar,
8 Gebal, Ammon og Amalek,
Filistea ásamt Týrusbúum.
9 Assúr hefir einnig gjört bandalag við þá
og ljær armlegg sinn Lotssonum. Sela.

10 Far með þá eins og Midían,
eins og Sísera, eins og Jabín við Kíson-læk;
11 þeim var útrýmt hjá Endor,
urðu að áburði á jörðina.
12 Gjör þá, göfugmenni þeirra, eins og Óreb og Seeb,
og alla höfðingja þeirra eins og Seba og Zalmúnna,
13 þá er sögðu: Vér viljum kasta eign vorri á
vengi Guðs.
14 Guð vor, gjör þá sem rykmökk,
sem hálmleggi fyrir vindi.

---

**17:** 5 Mós. 32, 14. — **82, 1:** 2 Mós. 21, 6; 22, 28. **2:** 5 Mós. 1, 17. **6:** Jóh. 10, 34. — **83, 2:** Sálm. 28, 1. **4:** Sálm. 27, 5; 31, 21. **7:** 1 Kron. 5, 10. **10:** Dóm. 4, 7. **12:** Dóm. 7, 25; 8, 21. **13:** 2 Kron. 20, 11. **14:** Job 21, 18. Jes. 17, 13.

15 Eins og eldur, sem brennir skóginn,
eins og logi, sem bálast upp um fjöllin,
16 svo skalt þú elta þá með ofviðri þínu,
skelfa þá með fellibyl þínum.
17 Lát andlit þeirra fyllast sneypu,
að þeir megi leita nafns þíns, Jahve!
18 Lát þá verða til skammar og skelfast um aldur,
lát þá sæta háðung og tortímast,
19 að þeir megi komast að raun um, að þú einn heitir Jahve,
hinn hæsti yfir allri jörðunni.

---

84. Til helgisöngs. Með Gat-lagi. Kóraíta-sálmur.
2 Hversu yndislegir eru bústaðir þínir,
Jahve hersveitanna.
3 Sálu mína langaði til, já hún þráði
forgarða Jahve;
nú fagnar hjarta mitt og hold
fyrir hinum lifanda Guði.
4 Jafnvel fuglinn hefir fundið hús
og svalan á sér hreiður,
þar sem hún leggur unga sína:
ölturu þín, Jahve hersveitanna,
konungur minn og Guð minn!
5 Sælir eru þeir, sem búa í húsi þínu,
þeir munu framvegis lofa þig. Sela.
6 Sælir eru þeir menn, sem finna styrkleik hjá þér,
er þeir hafa helgifarir í huga.
7 Þótt þeir fari gegnum táradalinn, breytir hann honum í vatnslindir,
og haustregnið hylur hann blessun.
8 Þeim eykst æ kraftur á göngunni;
hann birtist fyrir Guði á Zíon.
9 Jahve, Guð hersveitanna, heyr bæn mína,
hlýð til, þú Jakobs Guð. Sela.

10 Guð, skjöldur vor, sjá
og lít á auglit þíns smurða.
11 Því að einn dagur í forgörðum þínum er betri
en þúsund aðrir;
heldur vil eg standa við þröskuldinn í húsi Guðs míns
en dvelja í tjöldum óguðlegra.
12 Því að Jahve Guð er sól og skjöldur,
náð og vegsemd veitir Jahve;
hann synjar þeim engra gæða,
er ganga í grandvarleik.
13 Jahve hersveitanna, sæll er sá maður,
sem treystir þér.

---

85. Til helgisöngs. Kóraíta-sálmur.
2 Þú hefir, Jahve, haft þóknun á landi þínu,
snúið við hag Jakobs,
3 þú hefir fyrirgefið misgjörð lýðs þíns,
hulið allar syndir þeirra. Sela.

---

**84, 1:** Sálm. 8, 1. **2:** Sálm. 27, 4. **3:** Sálm. 42, 2 n. **10:** Sálm. 3, 4. **12:** Jes. 60, 19. 20. Sálm. 34, 10. **13:** Sálm. 2, 12. — **85, 3:** Sálm. 32, 1.

4 Þú hefir dregið að þér alla bræði þína,
látið af heiftarreiði þinni.

5 Lát oss rétta við aftur, þú Guð hjálpræðis vors,
og lát af gremju þinni í gegn oss.
6 Ætlar þú þá að vera oss reiður um eilífð,
láta reiði þína haldast við frá kyni til kyns?
7 Vilt þú eigi láta oss lifna við aftur,
svo að lýður þinn megi gleðjast yfir þér?
8 Lát oss, Jahve, sjá miskunn þína
og veit oss hjálpræði þitt.

9 Eg vil hlýða á það, sem Guð Jahve talar;
hann talar frið til lýðs síns og til dýrkenda sinna
og til þeirra, er snúa hjarta sínu til hans.
10 Já, hjálp hans er nálæg þeim, er óttast hann,
til þess að vegsemdir megi búa í landi voru.
11 Elska og trúfesti mætast,
réttlæti og friður kyssast.
12 Trúfesti sprettur upp úr jörðinni
og réttlæti lítur niður af himni.
13 Þá gefur og Jahve gæði,
og land vort veitir afurðir sínar.
14 Réttlæti fer fyrir honum
og friður fylgir skrefum hans.

---

## 86

Davíðs-bæn.
Hneig eyra þitt, Jahve, og bænheyr mig,
því að eg er volaður og aumur.
2 Vernda líf mitt, því að eg er guðhræddur,
hjálpa þú, Guð minn, þjóni þínum, er treystir þér.
3 Ver mér náðugur, drottinn,
því að þig ákalla eg liðlangan daginn.
4 Gleð þú sál þjóns þíns,
því að til þín, drottinn, hef eg sál mína.
5 Því að þú, drottinn, ert góður og fús til að fyrirgefa,
gæzkuríkur öllum þeim, er ákalla þig.
6 Hlýð, Jahve, á bæn mína,
og gef gaum grátbeiðni minni.
7 Þegar eg er í nauðum staddur ákalla eg þig,
því að þú bænheyrir mig.
8 Enginn er sem þú meðal guðanna, drottinn,
og ekkert er sem þín verk.
9 Allar þjóðir, er þú hefir skapað,
munu koma og falla fram fyrir þér, drottinn,
og tigna nafn þitt.
10 Því að þú ert mikill og gjörir furðuverk,
þú einn, ó Guð!

11 Vísa mér veg þinn, Jahve, lát mig ganga í trúfesti þinni,
gef mér heilt hjarta, til þess að óttast nafn þitt.
12 Eg vil lofa þig, drottinn, Guð minn, af öllu hjarta
og tigna nafn þitt að eilífu,

---

**13:** Sálm. 67, 7. — **86, 7:** Sálm. 50, 15. **8:** 2 Mós. 15, 11. 5 Mós. 3, 24. **9:** Sálm. 22, 28. 29. **11:** Jer. 32, 39.

13 því að miskunn þín er mikil við mig
og þú hefir frelsað sál mína frá djúpi heljar.

14 Guð, ofstopamenn hefjast gegn mér,
og hópur ofríkismanna sækist eftir lífi mínu,
eigi hafa þeir þig fyrir augum.
15 En þú, drottinn, ert miskunnsamur og líknsamur Guð,
þolinmóður og gæzkuríkur og harla trúfastur.
16 Snú þér að mér og ver mér náðugur,
veit þjóni þínum kraft þinn
og hjálpa syni ambáttar þinnar.
17 Gjör þú tákn til góðs fyrir mig,
að hatursmenn mínir megi horfa á það sneyptir
að þú, Jahve, hjálpar mér og huggar mig.

---

## 87.

Kóraíta-sálmur. Ljóð.

2 Jahve elskar borg sína á heilögum fjöllum,
hlið Zíonar framar öllum bústöðum Jakobs.
3 Dýrlega er talað um þig,
þú borg Guðs. Sela.
4 Eg nefni Rahab og Babel vegna játenda minna þar,
hér er Filistea og Týrus, ásamt Blálandi,
einn er fæddur hér, annar þar.
5 En Zíon kallast móðirin, hver og einn er fæddur í henni,
og hann, hinn hæsti, verndar hana.
6 Jahve telur saman í þjóða-skránum:
einn er fæddur hér, annar þar.
7 Og menn syngja eins og þeir, er stíga dans:
allar uppsprettur mínar eru í þér.

---

## 88

Ljóð. Kóraíta-sálmur. Til helgisöngs. Syngist með Makalat-lagi. Hemans-maskíl Esraíta.

2 Jahve, Guð minn, eg kalla um daga,
um nætur hrópa eg frammi fyrir þér.
3 Lát bæn mína koma fyrir þig,
hneig eyra að hrópi mínu,
4 því að sál mín er mett orðin af böli
og líf mitt nálægist helju.
5 Eg er talinn með þeim, sem gengnir eru til grafar,
eg er sem magnþrota maður.
6 Mér er fenginn bústaður með framliðnum,
eins og vegnum mönnum, er liggja í gröfinni,
er þú minnist eigi framar,
því að þeir eru hrifnir burt úr hendi þinni.
7 Þú hefir lagt mig í gryfju undirheima,
í myrkrið niðri í djúpinu.
8 Heift þín liggur á mér
og alla boða þína hefir þú látið skella á mér. Sela.
9 Þú hefir fjarlægt frá mér kunningja mína,
gjört mig að andstygð í augum þeirra;
eg er byrgður inni og kemst ekki út.

---

13: Sálm. 30, 4. 15: 2 Mós. 34, 6. — 87, 3: Sálm. 46, 5. 6; 48, 2 n. 4: Jes. 19, 21 n.
5: Sálm. 48, 9. 7: Sálm. 36, 9. — 88, 2: Sálm. 22, 3.

10 Augu mín eru döpruð af eymd;
eg ákalla þig, Jahve, dag hvern,
breiði út hendurnar í móti þér.
11 Gjörir þú furðuverk vegna framliðinna,
eða munu vofurnar rísa upp til þess að lofa þig? Sela.
12 Er sagt frá miskunn þinni í gröfinni,
frá trúfesti þinni í undirdjúpunum?
13 Eru furðuverk þín kunngjörð í myrkrinu
eða réttlæti þitt í landi gleymskunnar?
14 En eg hrópa til þín, Jahve,
og á morgnana kemur bæn mín fyrir þig.
15 Hví útskúfar þú, Jahve, sálu minni,
hylur auglit þitt fyrir mér?
16 Eg er aumur og deyjandi frá æsku,
eg ber skelfingar þínar og er ráðþrota.
17 Reiðiblossar þínir ganga yfir mig,
ógnir þínar eyða mér.
18 Þær umkringja mig eins og vötn liðlangan daginn,
lykja um mig allar saman.
19 Þú hefir fjarlægt frá mér ástvini og félaga
og gjört myrkrið að kunningja mínum.

---

89 Etans-maskíl Esraíta.
2 Um náðarverk Jahve vil eg syngja að eilífu,
kunngjöra trúfesti þína með munni mínum frá kyni til kyns,
3 því að þú hefir sagt: náðin skal upp bygð að eilífu,
á himninum grundvallaðir þú trúfesti þína.
4 Eg hefi gjört sáttmála við minn útvalda,
unnið Davíð þjóni mínum svolátandi eið:
5 Eg vil staðfesta afspring þinn að eilífu,
reisa hásæti þitt frá kyni til kyns. Sela.
6 Þá lofuðu himnarnir dásemdarverk þín, Jahve,
og söfnuður heilagra trúfesti þína;
7 því að hver er í himninum jafn Jahve,
hver er líkur Jahve meðal guðasonanna?
8 Guð er ægilegur í hóp heilagra,
mikill er hann og óttalegur öllum þeim, sem eru umhverfis hann.
9 Jahve, Guð hersveitanna, hver er eins sterkur og þú, Jah?
Og trúfesti þín er umhverfis þig.
10 Þú ræður yfir ofstopa hafsins;
þegar öldur þess hefjast, stöðvar þú þær.
11 Þú knosaðir skrímslið eins og veginn mann,
með þínum volduga armlegg tvístraðir þú óvinum þínum.
12 Þinn er himininn, þín er og jörðin,
þú hefir grundvallað veröldina og alt, sem í henni er.
13 Þú hefir skapað norðrið og suðrið,
Tabor og Hermon fagna yfir nafni þínu.
14 Þú hefir máttugan armlegg,
hönd þín er sterk, hátt upphafin hægri hönd þín.
15 Réttlæti og réttvísi er grundvöllur hásætis þíns,
miskunn og trúfesti ganga fram fyrir þig.

---

**10:** Sálm. 6, 8. **11:** Sálm. 6, 6. **14:** Sálm. 5, 4. **19:** Job 17, 14. — **89, 3:** Sálm. 119, 89. **5:** 2 Sam. 7, 12—16. Sálm. 132, 11. Lúk. 1, 32. 33. **7:** Sálm. 86, 8. **10:** Sálm. 65, 8. **12:** Sálm. 24, 1. **15:** Sálm. 97, 2; 85, 14.

[16] Sæll er sá lýður, sem þekkir fagnaðarópið,
sem gengur í ljósi auglitis þíns, Jahve.
[17] Þeir gleðjast yfir nafni þínu liðlangan daginn
og fagna yfir réttlæti þínu,
[18] því að þú ert þeirra máttug prýði,
og sakir velþóknunar þinnar munt þú hefja horn vort,
[19] því að Jahve heyrir skjöldur vor,
og konungur vor hinum Heilaga í Ísrael.

[20] Þá talaðir þú í sýn til dýrkanda þíns
og sagðir: Eg hefi sett kórónu á kappa,
eg hefi upphafið útvaldan mann af lýðnum;
[21] eg hefi fundið Davíð þjón minn,
smurt hann með minni heilögu olíu,
[22] til þess að hönd mín megi gjöra hann stöðugan
og armleggur minn styrkja hann.
[23] Óvinurinn skal eigi ráðast að honum
og ekkert illmenni skal kúga hann,
[24] heldur skal eg gjöra út af við fjendur hans að honum ásjáandi
og hatursmenn hans skal eg ljósta.
[25] Trúfesti mín og miskunn skulu vera með honum,
og fyrir sakir nafns míns skal horn hans gnæfa hátt;
[26] eg legg hönd hans á hafið
og hægri hönd hans á fljótin.
[27] Hann mun segja við mig: Þú ert faðir minn,
Guð minn og klettur hjálpræðis míns.
[28] Og eg vil gjöra hann að frumgetning,
að hinum hæsta meðal konunga jarðarinnar.
[29] Eg vil varðveita miskunn mína við hann að eilífu,
og sáttmáli minn við hann skal stöðugur standa.
[30] Eg læt niðja hans haldast við um aldur
og hásæti hans meðan himininn er til.
[31] Ef synir hans hafna lögmáli mínu
og ganga eigi eftir boðum mínum;
[32] ef þeir vanhelga lög mín
og varðveita eigi boðorð mín,
[33] þá vil eg vitja afbrota þeirra með vendinum
og misgjörða þeirra með plágum,
[34] en miskunn mína mun eg ekki frá honum taka
og eigi bregða trúfesti minni.
[35] Eg vil eigi vanhelga sáttmála minn
og eigi breyta því, er mér hefir af vörum liðið;
[36] eg hefi einu sinni svarið við heilagleik minn
og mun aldrei svíkja Davíð:
[37] niðjar hans skulu haldast við um aldur
og hásæti hans sem sólin fyrir mér.
[38] Það skal standa stöðugt að eilífu sem tunglið,
svo sannarlega sem áreiðanlegt vitni er á himnum. **Sela.**

[39] Og þó hefir þú útskúfað og hafnað
og reiðst þínum smurða;
[40] þú hefir riftað sáttmálanum við þjón þinn,
vanhelgað kórónu hans og fleygt henni til jarðar;

---

**20:** v. 4. 5. **21:** 1 Sam. 16, 13. Post. 13, 22. **26:** Sálm. 72, 8. **27:** 2 Sam. 7, 14.
**30:** v. 5. **33:** 2 Sam. 7, 14. 15.

41 þú hefir brotið niður alla múrveggi hans
og lagt virki hans í eyði;
42 allir vegfarendur ræna hann,
hann er til háðungar orðinn nágrönnum sínum;
43 þú hefir hafið hægri hönd fjenda hans,
glatt alla óvini hans;
44 þú hefir og látið sverðseggjar hans hörfa undan
og eigi látið hann standast í bardaganum;
45 þú hefir látið endi á verða vegsemd hans
og hrundið hásæti hans til jarðar;
46 þú hefir stytt æskudaga hans
og hulið hann skömm. Sela.

47 Hversu lengi, Jahve, ætlar þú eilíflega að dyljast,
á reiði þín að brenna sem eldur?
48 Minst þú, drottinn, hvað æfin er,
til hvílíks hégóma þú hefir skapað öll mannanna börn.
49 Hver er sá, er lifi og sjái eigi dauðann,
sá er bjargi sálu sinni úr greipum heljar? Sela.
50 Hvar eru þín fyrri náðarverk, ó drottinn,
þau er þú í trúfesti þinni sórst Davíð?
51 Minst, ó drottinn, háðungar þjóna þinna,
að eg verð að bera í skauti smánan margra þjóða,
52 er óvinir þínir, Jahve, smána mig með,
smána fótspor þíns smurða.

* * *

53 Lofaður sé Jahve að eilífu. Amen. Amen.

---

## Fjórða bók.

# 90

Bæn guðsmannsins Móse.

Drottinn, þú hefir verið oss athvarf frá kyni til kyns.
2 Áður en fjöllin fæddust
og jörðin og heimurinn urðu til,
frá eilífð til eilífðar ert þú, ó Guð.
3 Þú lætur manninn hverfa aftur til duftsins
og segir: Hverfið aftur, þér mannanna börn!
4 Því að þúsund ár eru í þínum augum sem dagurinn í gær,
þegar hann er liðinn,
já, eins og næturvaka.
5 Þú eyðir þeim, þeir sofna,
þeir er að morgni voru sem gróandi gras;
6 að morgni blómgast það og grær,
að kvöldi fölnar það og visnar.
7 Því að vér hverfum fyrir reiði þinni,
skelfumst fyrir bræði þinni.
8 Þú hefir sett misgjörðir vorar fyrir augu þér,
vorar huldu syndir fyrir ljós auglitis þíns;
9 allir dagar vorir hverfa fyrir reiði þinni,
ár vor líða sem andvarp.

---

**41:** Sálm. 80, 13. 14. **42:** Sálm. 44, 14. **43:** Job 7, 7 n. 14, 1 n. Sálm. 39, 6. — **90, 1:** 5 Mós. 33, 27. **2:** Orðskv. 8, 25. **3:** 1 Mós. 3, 19. Préd. 12, 7. **4:** 2 Pét. 3, 8. **5:** Jes. 40, 6. 7. 1 Pét. 1, 24. **6:** Job 14, 2. **8:** Jer 16, 17. Sálm. 19, 13.

10 Æfidagar vorir eru sjötíu ár
og þegar bezt lætur áttatíu ár,
og dýrsta hnossið er mæða og hégómi;
því að þeir líða í skyndi og vér fljúgum burt.
11 Hver þekkir styrkleik reiði þinnar
og bræði þína, svo sem hana ber að óttast?
12 Kenn oss að telja daga vora,
að vér megum öðlast viturt hjarta.

13 Snú þú aftur, Jahve, — hversu lengi! —
og aumkast yfir þjóna þína.
14 Metta oss að morgni með miskunn þinni,
að vér megum fagna og gleðjast alla daga vora.
15 Veit oss gleði í stað daga þeirra, er þú hefir lægt oss,
ára þeirra, er vér höfum ilt reynt.
16 Lát dáðir þínar birtast þjónum þínum
og dýrð þína börnum þeirra.
17 Hylli Jahve, Guðs vors, sé yfir oss,
styrk þú verk handa vorra.

---

91 Sæll er sá, er situr í skjóli hins hæsta,
sá er gistir í skugga hins almátka,
2 sá er segir við Jahve: Hæli mitt og háborg,
Guð minn, er eg trúi á!
3 Því að hann frelsar þig úr snöru fuglarans,
frá drepsótt glötunarinnar,
4 hann skýlir þér með fjöðrum sínum,
undir vængjum hans mátt þú hælis leita,
trúfesti hans er skjöldur og verja.
5 Eigi þarft þú að óttast ógnir næturinnar,
eða örina, sem flýgur um daga,
6 drepsóttina, er reikar um í dimmunni,
eða sýkina, er geisar um hádegið.
7 Þótt þúsund falli þér við hlið
og tíu þúsund þér til hægri handar,
þá nær það ekki til þín.
8 Þú horfir aðeins á með augunum,
sér hversu óguðlegum er endurgoldið,
9 því að þitt hæli er Jahve,
þú hefir gjört hinn hæsta þér að athvarfi;
10 engin ógæfa hendir þig
og engin plága nálgast tjald þitt.
11 Því að þín vegna býður hann út englum sínum,
til þess að gæta þín á öllum vegum þínum;
12 þeir munu bera þig á höndum sér,
til þess að þú steytir ekki fót þinn við steini;
13 þú skalt stíga ofan á höggorma og nöðrur,
troða fótum ljón og dreka.
14 »Af því að hann leggur ást á mig, mun eg frelsa hann,
eg bjarga honum, af því að hann þekkir nafn mitt.
15 Ákalli hann mig, mun eg bænheyra hann;

---

**13:** 2 Mós. 32, 12. Sálm. 6, 4. — **91, 2:** Sálm. 18, 3. **3:** Sálm. 124, 7. **4:** Sálm. 36, 8. **5:** Orðskv. 3, 25. 26. **10:** Orðskv. 12, 21. **11:** Sálm. 34, 8. Matt. 4, 6. **13:** Mark. 16, 18. Lúk. 10, 19. **15:** Sálm. 50, 15.

eg er hjá honum í neyðinni,
eg frelsa hann og gjöri hann vegsamlegan;
16 eg metta hann með fjöld lífdaga
og læt hann sjá hjálpræði mitt«.

---

92. Sálmur. Hvíldardagsljóð.
2 Gott er að lofa Jahve
og lofsyngja nafni þínu, þú hinn hæsti,
3 að kunngjöra miskunn þína að morgni
og trúfesti þína um nætur,
4 á tístrengjað hljóðfæri og hörpu
með strengjaleik gígjunnar.
5 Því að þú hefir glatt mig, Jahve, með dáð þinni,
yfir handaverkum þínum fagna eg.
6 Hversu mikil eru verk þín, Jahve,
harla djúpar hugsanir þínar;
7 fíflið eitt skilur eigi
og fáráðlingurinn einn skynjar eigi þetta.
8 Þegar óguðlegir greru sem gras
og allir illgjörðamennirnir blómguðust,
þá var það til þess að þeir skyldu afmáðir verða að eilífu;
9 en þú, sem ert á hæðum, ert til að eilífu, Jahve.
10 Því sjá, óvinir þínir, Jahve,
því sjá, óvinir þínir farast,
allir illgjörðamennirnir tvístrast.
11 En mig lætur þú bera hornið hátt eins og vísundinn,
mig hressir þú með ferskri olíu.
12 Auga mitt lítur með gleði á fjandmenn mína,
eyra mitt heyrir með gleði um níðingana, er rísa gegn mér.
13 Hinn réttláti grær sem pálminn,
vex sem sedrustréð á Líbanon.
14 Þeir eru gróðursettir í húsi Jahve,
gróa í forgörðum Guðs vors.
15 Jafnvel í hárri elli bera þeir ávöxt,
þeir eru safamiklir og grænir,
16 til þess að kunngjöra, að Jahve er réttlátur,
klettur minn, sem ekkert ranglæti er hjá.

---

93 Jahve er konungur orðinn, hann hefir íklæðst hátign;
Jahve hefir klæðst, gyrt sig styrkleik
og fest jörðina, svo að hún haggast eigi.
2 Hásæti þitt stendur stöðugt frá öndverðu,
frá eilífð ert þú.
3 Straumarnir hófu upp, Jahve,
straumarnir hófu upp raust sína,
straumarnir hófu upp dunur sínar.
4 Jahve á hæðum er tignarlegri
en gnýr mikilla, tignarlegra vatna,
tignarlegri en boðar hafsins.
5 Vitnisburðir þínir eru harla áreiðanlegir;

---

**16:** Sálm. 50, 23. — **92, 2:** Sálm. 147, 1. **6:** Sálm. 40, 6; 139, 17. Róm. 11, 33. **10:** Sálm. 68, 2. 3. **11:** Sálm. 23, 5. **13:** Sálm. 52, 10. Orðskv. 11, 28. — **93, 1:** Sálm. 96, 10.

húsi þínu hæfir heilagleiki,
ó Jahve, um allar aldir.

---

94 Jahve, Guð hefndarinnar,
Guð hefndarinnar, birzt þú í geisladýrð.
2 Rís þú upp, dómari jarðar,
endurgjald ofstopamönnunum það, er þeir hafa aðhafst.
3 Hversu lengi eiga óguðlegir, Jahve,
hversu lengi eiga óguðlegir að fagna?
4 Þeir ausa úr sér drambyrðum,
allir illvirkjarnir rembast;
5 þeir kremja lýð þinn, Jahve,
þjá arfleifð þína,
6 drepa ekkjur og aðkomandi
og myrða föðurlausa
7 og segja: Jah sér það ekki,
Jakobs Guð tekur eigi eftir því.

8 Takið eftir, þér hinir fíflsku meðal lýðsins!
og þér fáráðlingar, hve nær ætlið þér að verða hygnir?
9 Mun sá eigi heyra, sem eyrað hefir plantað,
mun sá eigi sjá, sem augað hefir tilbúið?
10 Skyldi sá, er agar þjóðirnar, eigi hegna,
hann sem kennir mönnunum þekkingu?
11 Jahve þekkir hugsanir mannsins,
því að þær eru einber hégómi.
12 Sæll er sá maður, er þú agar, Jah,
og fræðir í lögmáli þínu,
13 til þess að hlífa honum við mótlætisdögunum,
unz gröf er grafin fyrir óguðlega.
14 Því að Jahve hrindir eigi burt lýð sínum
og yfirgefur eigi arfleifð sína,
15 heldur mun rétturinn hverfa aftur til hins réttláta
og honum munu allir hjartahreinir fylgja.

16 Hver rís upp mér til hjálpar gegn illvirkjunum,
hver gengur fram fyrir mig gegn illgjörðamönnunum?
17 Ef Jahve veitti mér eigi fulltingi,
þá mundi sál mín brátt hvíla í dauðaþögn.
18 Þegar eg hugsaði: mér skriðnar fótur,
þá studdi mig miskunn þín, Jahve.
19 Þegar margar áhyggjur lögðust á hjarta mitt,
hresti huggun þín sálu mína.
20 Mun dómstóll spillingarinnar vera í bandalagi við þig,
hann sem býr öðrum tjón undir yfirskini réttarins?
21 Þeir ráðast á líf hins réttláta
og sakfella saklaust blóð;
22 en Jahve er mér háborg
og Guð minn klettur mér til hælis.
23 Hann geldur þeim misgjörð þeirra
og eyðir þeim í ilsku þeirra;
Jahve, Guð vor, eyðir þeim.

---

**94, 1:** 5 Mós. 32, 35. Róm. 12, 19. **2:** Sálm. 7, 7. **9:** Orðskv. 20, 12. **11:** Sálm. 39, 12. 1 Kor. 3, 20. **17:** Sálm. 124, 1 n. **22:** Sálm. 18, 3.

95 Komið, fögnum fyrir Jahve,
látum gleðióp gjalla fyrir kletti hjálpræðis vors.
2 Komum með lofsöng fyrir auglit hans,
syngjum gleðiljóð fyrir honum.
3 Því að Jahve er mikill Guð
og mikill konungur yfir öllum guðum.
4 Í hans hendi eru jarðardjúpin
og fjallatindarnir heyra honum til.
5 Hans er hafið og hann hefir skapað það,
og hans hendur mynduðu þurlendið.
6 Komið, föllum fram og krjúpum niður,
beygjum kné vor fyrir Jahve, skapara vorum,
7 því að hann er vor Guð,
og vér erum gæzlulýður hans og hjörð sú, er hann leiðir.
Ó að þér í dag vilduð heyra raust hans.
8 Herðið eigi hjörtu yðar eins og hjá Meríba,
eins og daginn við Massa í eyðimörkinni,
9 þegar feður yðar freistuðu mín,
reyndu mig, og það þótt þeir sæju verk mín.
10 Í fjörutíu ár hafði eg viðbjóð á þessari kynslóð,
þá sagði eg: Þeir eru andlega viltur lýður
og þekkja ekki vegu mína,
11 og þess vegna sór eg í reiði minni:
Þeir skulu eigi ganga inn til hvíldar minnar.

---

96 Syngið Jahve nýjan söng,
syngið Jahve öll lönd!
2 Syngið Jahve, lofið nafn hans,
kunngjörið hjálpráð hans dag eftir dag.
3 Segið frá dýrð hans meðal heiðingjanna,
frá dásemdarverkum hans meðal allra þjóða.
4 Því að mikill er Jahve og mjög vegsamlegur,
óttalegur er hann öllum guðum framar.
5 Því að allir guðir þjóðanna eru falsguðir,
en Jahve hefir gjört himininn.
6 Heiður og vegsemd eru fyrir augliti hans,
máttur og prýði í helgidómi hans.

7 Tjáið Jahve, þér þjóðakynkvíslir,
tjáið Jahve vegsemd og vald.
8 Tjáið Jahve dýrð þá, er nafni hans hæfir,
færið gjafir og komið til forgarða hans;
9 fallið fram fyrir Jahve í helgum skrúða,
titrið fyrir honum, öll lönd.
10 Segið meðal heiðingjanna: Jahve er konungur orðinn,
hann hefir fest jörðina, svo að hún bifast ekki,
hann dæmir þjóðirnar með réttvísi.
11 Himininn gleðjist og jörðin fagni,
hafið drynji og alt, sem í því er,
12 foldin fagni og alt, sem á henni er,
öll tré skógarins kveði fagnaðarópi

---

**95, 3:** Sálm. 96, 4 n. **7:** Hebr. 3, 7 n. **9:** 2 Mós. 17, 1 n. **11:** 4 Mós. 14, 22. 23. Hebr. 3, 11; 4, 5 n. — **96, 1:** 1 Kron. 16, 23—33. Sálm. 98, 1. **4:** Sálm. 48, 2; 95, 3. **5:** Sálm. 115, 4 n. Jes. 41, 23. 24. 29. 1 Kor. 8, 4—6. **8:** Sálm. 68, 30; 72, 10. **10:** Sálm. 93, 1 n. **11:** Sálm. 98, 7 n.

13 fyrir Jahve, því að hann kemur,
því að hann kemur til þess að dæma jörðina.
Hann mun dæma heiminn með réttlæti
og þjóðirnar eftir trúfesti sinni.

---

**97** Jahve er konungur orðinn, jörðin fagni,
eyjafjöldinn gleðjist.
2 Ský og sorti voru umhverfis hann,
réttlæti og réttvísi voru grundvöllur hásætis hans,
3 eldur fór fyrir honum
og bálaðist umhverfis spor hans;
4 leiftur hans lýstu um jarðríki,
jörðin sá það og nötraði.
5 Björgin bráðnuðu sem vax fyrir Jahve,
fyrir drotni gjörvallrar jarðarinnar.
6 Himnarnir kunngjörðu réttlæti hans,
og allar þjóðir sáu dýrð hans.

7 Allir skurðgoðadýrkendur verða til skammar,
þeir er stæra sig af falsguðunum.
Allir guðir féllu fram fyrir honum;
8 Zíon heyrði það og gladdist,
Júdadætur fögnuðu,
sakir dóma þinna Jahve.
9 Því að þú, Jahve, ert hinn hæsti yfir gjörvallri jörðunni,
þú ert hátt hafinn yfir alla guði.
10 Jahve elskar þá, er hata hið illa,
hann verndar sálir dýrkenda sinna,
frelsar þá af hendi óguðlegra.
11 Ljós rennur upp réttlátum
og gleði hjartahreinum.
12 Gleðjist, þér réttlátir, yfir Jahve,
vegsamið hans heilaga nafn.

---

**98** Sálmur.
Syngið Jahve nýjan söng,
því að hann hefir gjört dásemdarverk;
hægri hönd hans hjálpaði honum
og hans heilagi armleggur.
2 Jahve hefir kunngjört hjálpræði sitt,
fyrir augum heiðingjanna opinberaði hann réttlæti sitt.
3 Hann mintist miskunnar sinnar við Jakob
og trúfesti sinnar við Ísraels ætt;
öll endimörk jarðar sáu
hjálpræði Guðs vors.

4 Látið gleðióp gjalla fyrir Jahve, öll lönd,
hefjið gleðisöng, æpið fagnaðaróp og lofsyngið;
5 leikið fyrir Jahve á gígju,
á gígju með lofsöngshljómi;

---

97, 1: Sálm. 93, 1. 2: Sálm. 89, 15. 3: Sálm. 50, 3. 6: Sálm. 50, 6. Jes. 40, 5; 66, 18. 7: Jes. 42, 17. Sálm. 96, 5. Hebr. 1, 6. 8: Sálm. 48, 12. 9: Sálm. 83, 19; 95, 3. 10: Am. 5, 15. 11: Sálm. 112, 4. 12: Sálm. 32, 11; 30, 5. — 98, 1: Sálm. 96, 1. Jes. 52, 10. 2: Lúk. 2, 30—32.

6 með lúðrum og básúnuhljómi
látið gleðióp gjalla fyrir konunginum Jahve.
7 Hafið drynji og alt, sem í því er,
heimurinn og þeir, sem í honum búa.
8 Straumarnir skulu klappa lof í lófa,
fjöllin fagna öll saman
9 fyrir Jahve, því að hann kemur til að dæma jörðina;
hann dæmir heiminn með réttlæti
og þjóðirnar með réttvísi.

---

99 Jahve er konungur orðinn — þjóðirnar skjálfi,
hann sem situr uppi yfir kerúbunum — jörðin nötri.
2 Jahve er mikill á Zíon
og hátt upp hafinn yfir alla lýði.
3 Þeir skulu lofa nafn þitt, hið mikla og óttalega.
Heilagur er hann!
4 Þú ert konungur, sem elskar réttinn,
þú hefir staðfest réttvísina,
rétt og réttlæti hefir þú framið í Jakob.
5 Tignið Jahve, Guð vorn,
og fallið fram fyrir fótskör hans.
Heilagur er hann!
6 Móse og Aron eru meðal presta hans,
Samúel meðal þeirra, er ákalla nafn hans;
þeir ákalla Jahve og hann bænheyrir þá;
7 hann talar til þeirra í skýstólpanum,
því að þeir gæta vitnisburða hans
og laganna, er hann gaf þeim.
8 Jahve, Guð vor, þú bænheyrir þá,
þú reyndist þeim fyrirgefandi Guð
og sýknaðir þá af gjörðum þeirra.
9 Tignið Jahve, Guð vorn,
og fallið fram fyrir hans heilaga fjalli,
því að heilagur er Jahve, Guð vor.

---

100 Þakkarfórnar-sálmur.
Látið gleðióp gjalla fyrir Jahve, gjörvöll lönd!
2 Þjónið Jahve með gleði,
komið fyrir auglit hans með fagnaðarópi.
3 Vitið, að Jahve er Guð,
hann hefir skapað oss og hans erum vér,
lýður hans og gæzluhjörð.
4 Gangið inn um hlið hans með þakkargjörð,
í forgarða hans með lofsöng;
lofið hann, vegsamið nafn hans.
5 Því að Jahve er góður, miskunn hans varir að eilífu,
og trúfesti hans frá kyni til kyns.

---

7: Sálm. 96, 11 n. — **99,** 1: Sálm. 93, 1; 80, 2. 2 Sam. 6, 2. 5: 1 Kron. 28, 2. Sálm. 132, 7. 6: 2 Mós. 32, 11 n. 1 Sam. 7, 9. 7: 2 Mós. 33, 9. — **100,** 1: Sálm. 66, 1. 2: Sálm. 2, 11; 95, 2. 3: Sálm. 95, 7.

**101** Davíðs-sálmur.

Eg vil syngja um miskunn og rétt,
lofsyngja þér, Jahve.
2 Eg vil gefa gætur að vegi hins ráðvanda —
hve nær kemur þú til mín?
Í grandvarleik hjartans vil eg ganga um
í húsi mínu.
3 Eg læt mér eigi til hugar koma
neitt níðingsverk;
eg hata þá, sem illa breyta,
þeir fá engin mök við mig að eiga.
4 Rangsnúið hjarta skal frá mér víkja,
eg kannast eigi við hinn vonda.
5 Hver sem rægir náunga sinn í leyni,
honum eyði eg;
hver sem er hrokafullur og drembilátur í hjarta,
hann fæ eg ekki þolað.
6 Augu mín horfa á hina trúföstu í landinu,
að þeir megi búa hjá mér;
sá sem gengur grandvarleikans vegu,
hann skal þjóna mér.
7 Enginn má dvelja í húsi mínu,
er svik fremur;
sá, er lygar mælir, stenzt eigi
fyrir augum mínum.
8 Á hverjum morgni eyði eg
öllum óguðlegum í landinu,
til þess að útrýma úr borg Jahve
öllum illgjörðamönnum.

---

**102** Bæn volaðs manns, þá er hann örmagnast og úthellir kveini sínu fyrir Jahve.

2 Jahve, heyr þú bæn mína
og hróp mitt berist fyrir þig.
3 Byrg eigi auglit þitt fyrir mér, þegar eg er í nauðum staddur;
hneig að mér eyra þitt, þegar eg kalla,
flýt þér að bænheyra mig.
4 Því að dagar mínir hverfa sem reykur,
bein mín brenna sem eldur.
5 Hjarta mitt er mornað og þornað sem gras,
því að eg gleymi að neyta brauðs míns;
6 sakir kveinstafa minna
loða bein mín við hörundið;
7 eg líkist pelíkan í eyðimörkinni,
er sem ugla í rústum.
8 Eg ligg andvaka og styn
eins og einmana fugl á þaki.
9 Liðlangan daginn smána óvinir mínir mig,
mínir æðandi fjandmenn hafa mig að formælingarviðkvæði;
10 því að eg et ösku sem brauð
og blanda drykk minn tárum,

---

**101, 5:** Sálm. 15, 3. Orðskv. 21, 4. **102, 3:** Sálm. 69, 18. **6:** Job 19, 20. **9:** Jes. 65, 15. Jer. 29, 22. **10:** Sálm. 42, 4.

11 sakir reiði þinnar og bræði,
af því að þú hefir tekið mig upp og fleygt mér burt.
12 Dagar mínir eru sem hallur skuggi
og eg visna sem gras.

13 En þú, Jahve, ríkir að eilífu,
og nafn þitt varir frá kyni til kyns;
14 þú munt rísa upp til þess að miskunna Zíon,
því að tími er kominn til þess að líkna henni,
já, stundin er komin.
15 Því að þjónar þínir elska steina hennar
og harma yfir öskuhrúgum hennar.
16 Þá munu heiðingjarnir óttast nafn Jahve
og allir konungar jarðarinnar dýrð þína,
17 því að Jahve byggir upp Zíon
og birtist í dýrð sinni;
18 hann snýr sér að bæn hinna nöktu
og fyrirlítur eigi bæn þeirra.
19 Þetta skal skráð fyrir komandi kynslóð,
og þjóð, sem enn er ósköpuð, skal lofa Jahve;
20 því að Jahve leit niður af sínum helgu hæðum,
horfði frá himni til jarðar,
21 til þess að heyra andvarpanir bandingjanna
og leysa börn dauðans,
22 að þau mættu kunngjöra nafn Jahve í Zíon
og lofstír hans í Jerúsalem,
23 þegar þjóðirnar safnast saman
og konungsríkin, til þess að þjóna Jahve.

24 Hann hefir bugað kraft minn á ferð minni,
stytt daga mína.
25 Eg segi: Guð minn, tak mig eigi burt á miðri æfinni,
þar sem þín ár vara frá kyni til kyns.
26 Í öndverðu grundvallaðir þú jörðina
og himnarnir eru verk handa þinna.
27 Þeir líða undir lok, en þú stendur;
þeir fyrnast sem fat,
þú skiftir þeim sem klæðum og þeir hverfa.
28 En þú ert hinn sami
og þín ár fá engan enda.
29 Synir þjóna þinna munu búa kyrrir
og niðjar þeirra standa stöðugir fyrir augliti þínu.

---

## 103

Davíðs-sálmur.

Lofa þú Jahve, sála mín,
og alt, sem í mér er, hans heilaga nafn;
2 lofa þú Jahve, sála mín,
og gleym eigi neinum velgjörðum hans,
3 sem fyrirgefur allar misgjörðir þínar,
læknar öll þín mein,
4 leysir líf þitt frá gröfinni,
krýnir þig náð og miskunn,

**12:** Sálm. 109, 23. **13:** Sálm. 9, 8; 135, 13. **19:** Sálm. 22, 31. 32. **21:** Sálm. 79, 11. **23:** Sálm. 22, 28. **25:** Sálm. 90, 2. **26:** Hebr. 1, 10 n. **27:** Jes. 51, 6. Matt. 24, 35. 2 Pét. 3, 7. 10. **29:** Sálm. 69, 37.

5 sem mettar þig gæðum;
þú yngist upp sem örninn.
6 Jahve fremur réttlæti
og veitir rétt öllum kúguðum.
7 Hann gjörði Móse vegu sína kunna
og Ísraelsbörnum stórvirki sín;
8 náðugur og miskunnsamur er Jahve
þolinmóður og mjög gæzkuríkur;
9 hann þreytir eigi deilur æfinlega
og er eigi eilíflega reiður.
10 Hann hefir eigi breytt við oss eftir syndum vorum
og eigi goldið oss eftir misgjörðum vorum,
11 heldur svo hár sem himininn er yfir jörðunni,
svo voldug er miskunn hans við þá, er óttast hann.
12 Svo langt sem austrið er frá vestrinu,
svo langt hefir hann fjarlægt afbrot vor frá oss.
13 Eins og faðir sýnir miskunn börnum sínum,
eins hefir Jahve sýnt miskunn þeim, er óttast hann.
14 Því að hann þekkir eðli vort.
minnist þess að vér erum duft.
15 Dagar mannsins eru sem grasið,
hann blómgast sem blómið á mörkinni;
16 þegar vindur blæs á hann, er hann horfinn
og staður hans þekkir hann ekki framar.
17 En miskunn Jahve við þá, er óttast hann, varir frá eilífð til eilífðar
og réttlæti hans nær til barnabarnanna,
18 þeirra, er varðveita sáttmála hans
og muna að breyta eftir boðum hans.

19 Jahve hefir reist hásæti sitt á himnum,
og konungdómur hans drotnar yfir alheimi.
20 Lofið Jahve, þér englar hans,
þér voldugu hetjur, er framkvæmið boð hans,
er þér heyrið hljóminn af orði hans.
21 Lofið Jahve, allar hersveitir hans,
þjónar hans, er framkvæmið vilja hans.
22 Lofið Jahve, öll verk hans,
á hverjum stað í ríki hans;
lofa þú Jahve, sála mín.

---

**104** Lofa þú Jahve, sála mín!
Jahve, Guð minn, þú ert harla mikill;
þú ert klæddur hátign og vegsemd.
2 Hann hylur sig ljósi eins og skikkju,
þenur himininn út eins og tjalddúk.
3 Hann sem hvelfir hásal sinn í vötnunum,
sem gjörir ský að vagni sínum,
sem fer um á vængjum vindarins.
4 Hann gjörir vindana að sendiboðum sínum,
bálandi eld að þjónum sínum.

---

**103, 5:** Jes. 40, 31. **8:** 2 Mós. 34, 6. 7. Sálm. 86, 15. **9:** Sálm. 30, 6. Jes. 57, 16. Mík. 7, 18. **11:** Sálm. 36, 6 **15:** Job 14, 2. Sálm. 90, 5. 6. Jes. 40, 6—8. **16:** Job 7, 10. **17:** Lúk. 1, 50. **19:** Sálm. 11, 4. — **104, 2:** Jes. 40, 22. **3:** Am. 9, 6. Sálm. 18, 11. **4:** Sálm. 148, 8. Hebr. 1, 7.

5 Hann grundvallar jörðina á undirstöðum hennar,
svo að hún haggast eigi um aldur og æfi.
6 Hafflóðið huldi hana sem klæði,
vötnin náðu upp yfir fjöllin,
7 en fyrir þinni ógnun flýðu þau,
fyrir þrumurödd þinni hörfuðu þau undan með skelfingu;
8 þau gengu yfir fjöllin, steyptust niður í dalina,
þangað, sem þú hafðir búið þeim stað;
9 þú settir takmörk, sem þau mega ekki fara yfir,
þau skulu ekki hylja jörðina framar.
10 Hann sendir lindir í dalina,
þær renna milli fjallanna;
11 þær drykkja öll dýr merkurinnar,
villiasnarnir slökkva þorsta sinn;
12 yfir þeim byggja fuglar himins,
láta kvak sitt heyrast milli greinanna.
13 Hann vökvar fjöllin frá hásal sínum,
jörðin mettast af ávexti verka þinna.
14 Hann lætur gras spretta handa fénaðinum
og jurtir, sem maðurinn ræktar,
til þess að framleiða brauð af jörðunni
15 og vín, sem gleður hjarta mannsins,
olíu, sem gjörir andlitið gljáandi,
og brauð, sem hressir hjarta mannsins.
16 Tré Jahve mettast,
sedrustrén á Líbanon, er hann hefir gróðursett,
17 þar sem fuglarnir byggja hreiður,
storkarnir, er hafa kýprestrén að húsi.
18 Hin háu fjöll eru handa steingeitunum,
klettarnir eru hæli fyrir stökkhérana.
19 Hann gjörði tunglið til þess að ákvarða tíðirnar,
sólin veit, hvar hún á að ganga til viðar.
20 Þegar þú gjörir myrkur, verður nótt,
og þá fara öll skógardýrin á kreik.
21 Ljónin öskra eftir bráð
og heimta æti sitt af Guði.
22 Þegar sól rennur upp, draga þau sig í hlé
og leggjast fyrir í fylgsnum sínum,
23 en þá fer maðurinn út til starfa sinna,
til vinnu sinnar fram á kveld.

24 Hversu mörg eru verk þín, Jahve,
þú gjörðir þau öll með speki,
jörðin er full af því, er þú hefir skapað.
25 Þar er hafið, mikið og vítt á alla vegu,
þar er óteljandi grúi,
smá dýr og stór.
26 Þar fara skipin um
og Levíatan, er þú hefir skapað til þess að leika sér þar.
27 Öll vona þau á þig,
að þú gefir þeim fæðu þeirra á réttum tíma;
28 þú gefur þeim, og þau tína,
þú lýkur upp hendi þinni, og þau mettast gæðum.

---

**5:** Job 38, 4—6. Sálm. 89, 12. **7:** 1 Mós. 1, 9. **14:** 1 Mós. 1, 11. 29. 30. Sálm. 147, 8. 9. **19:** 1 Mós. 1, 14 n. **27:** Sálm. 145, 15. 16.

29 Þú byrgir auglit þitt, þá skelfast þau
þú tekur aftur anda þeirra, þá andast þau
og hverfa aftur til duftsins.
30 Þú sendir út anda þinn, þá verða þau til,
og þú endurnýjar ásjónu jarðar.

31 Dýrð Jahve vari að eilífu,
Jahve gleðjist yfir verkum sínum!
32 Hann sem lítur til jarðar, svo að hún nötrar,
sem snertir við fjöllunum, svo að úr þeim rýkur.
33 Eg vil ljóða um Jahve meðan lifi,
lofsyngja Guði mínum meðan eg er til.
34 Ó að mál mitt mætti falla honum í geð!
eg gleðst yfir Jahve.
35 Ó að syndarar mættu hverfa af jörðunni
og óguðlegir eigi vera til framar.
Vegsama þú Jahve, sála mín. Halelúja*.

---

105 Þakkið Jahve, ákallið nafn hans,
gjörið máttarverk hans kunn meðal þjóðanna!
2 Syngið fyrir honum, leikið fyrir honum,
talið um öll hans dásemdarverk.
3 Hrósið yður af hans helga nafni,
hjarta þeirra, er leita Jahve, gleðjist.
4 Leitið Jahve og máttar hans,
stundið sífelt eftir augliti hans.
5 Minnist dásemdarverka hans, þeirra er hann gjörði,
tákna hans og refsidóma munns hans,
6 þér niðjar Abrahams, þjónar hans,
þér synir Jakobs, hans útvöldu.
7 Hann, Jahve, er vor Guð,
um víða veröld ganga dómar hans.
8 Hann minnist að eilífu sáttmála síns,
orðs þess, er hann hefir gefið þúsundum kynslóða,
9 sáttmálans, er hann gjörði við Abraham,
og eiðs síns við Ísak,
10 þess er hann setti sem lög fyrir Jakob,
eilífan sáttmála fyrir Ísrael,
11 þá er hann mælti: Þér mun eg gefa Kanaanland
sem erfðahlut yðar.
12 Þegar þeir voru fámennur hópur,
örfáir og bjuggu þar útlendingar,
13 þá fóru þeir frá einni þjóð til annarar
og frá einu konungsríki til annars lýðs.
14 Hann leið engum að kúga þá
og hegndi konungum þeirra vegna.
15 »Snertið eigi við mínum smurðu
og gjörið eigi spámönnum mínum mein«.
16 Þá er hann kallaði hallæri yfir landið,
braut í sundur hverja stoð brauðsins,

---

**29:** Job 34, 14. 15. **30:** Job 33, 4. **31:** 1 Mós. 1, 31. **33:** Sálm. 63, 5. **35:** * Á hebresku *Halelú-Jah*, þ. e. lofið Jah (= Jahve). — **105, 1:** 1 Kron. 16, 8 n. Jes. 12, 4 n. **8:** 5 Mós. 7, 9. **9:** 1 Mós. 26, 3. **10:** 1 Mós. 28, 13; 35, 12. **14:** 1 Mós. 12, 17; 20, 3. **16:** 1 Mós. 41, 54 n. Jes. 3, 1.

17 þá sendi hann mann á undan þeim,
Jósef var seldur sem þræll.
18 Þeir þjáðu fætur hans með fjötrum,
hann var lagður í járn,
19 alt þar til, er orð hans rættust,
og orð Jahve létu hann standast raunina.
20 Konungur sendi og lét hann lausan,
drotnari þjóðanna leysti fjötra hans;
21 hann gjörði hann að herra yfir húsi sínu
og að drotnara yfir öllum eigum sínum,
22 að hann gæti fjötrað höfðingja eftir vild
og kent öldungum hans speki.
23 Síðan kom Ísrael til Egiptalands,
og Jakob var gestur í landi Kams.
24 Og hann gjörði lýð sinn mjög mannmargan
og lét þá verða fleiri en fjendur þeirra,
25 hann sneri hjörtum þeirra til haturs við lýð sinn,
til lævísi við þjóna sína.
26 Hann sendi Móse, þjón sinn,
og Aron, er hann hafði útvalið,
27 hann gjörði tákn sín á þeim
og undur í landi Kams.
28 Hann sendi myrkur og gjörði dimt,
en þeir gáfu orðum hans engan gaum;
29 hann breytti vötnum þeirra í blóð
og lét fiska þeirra deyja;
30 land þeirra varð kvikt af froskum,
alla leið inn í svefnherbergi konungs;
31 hann bauð, þá komu flugur,
mývargur um öll héruð þeirra;
32 hann gaf þeim hagl fyrir regn,
bálandi eld í land þeirra;
33 hann laust vínvið þeirra og fíkjutré
og braut sundur trén í héruðum þeirra;
34 hann bauð, þá kom jarðvargur
og óteljandi engisprettur,
35 sem átu upp allar jurtir í landi þeirra
og átu upp ávöxtinn af jörð þeirra;
36 hann laust alla frumburði í landi þeirra,
frumgróða alls styrkleiks þeirra.
37 Síðan leiddi hann þá út með silfri og gulli,
enginn hrasaði af kynkvíslum hans.
38 Egiptaland gladdist yfir burtför þeirra,
því að ótti við þá var fallinn yfir þá.
39 Hann breiddi út ský sem hlíf
og eld til þess að lýsa um nætur.
40 Þeir báðu, þá lét hann lynghæns koma
og mettaði þá með himnabrauði.

---

**17:** 1 Mós. 37, 28. 36; 45, 5. 7. **18:** 1 Mós. 39, 20. **19:** 1 Mós. 40, 20 n. 15. **20:** 1 Mós. 41, 14. **21:** 1 Mós. 41, 40. 41; 45, 8. **23:** 1 Mós. 46, 1 n. **24:** 2 Mós. 1, 7. 9. 12. **25:** 2 Mós. 1, 10 n. **26:** 2 Mós. 3, 10 n. **28:** 2 Mós. 10, 22. 23. **29:** 2 Mós. 7, 20. 21. **30:** 2 Mós. 8, 2—6. **31:** 2 Mós. 8, 24. **32:** 2 Mós. 9, 23 n. **34:** 2 Mós. 10, 13 n. **36:** 2 Mós. 12, 29. Sálm. 78, 51. **37:** 2 Mós. 12, 35. 36. **39:** 2 Mós. 13, 21. 22. **40:** 2 Mós. 16, 13 n. Sálm. 78, 23 n.

41 Hann opnaði klett, svo að vatn vall upp,
rann sem fljót um eyðimörkina;
42 því að hann mintist síns heilaga heits
við Abraham þjón sinn,
43 og leiddi lýð sinn út með gleði,
sína útvöldu með fögnuði.
44 Og hann gaf þeim lönd heiðingjanna,
það, sem þjóðirnar höfðu aflað með striti, fengu þeir til eignar,
45 til þess að þeir skyldu halda lög hans
og varðveita lögmál hans. Halelúja.

---

## 106

Halelúja!
Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu.
2 Hver getur sagt frá máttarverkum Jahve,
kunngjört allan lofstír hans.
3 Sælir eru þeir, sem gæta réttarins,
sem iðka réttlæti alla tíma.
4 Minst þú mín, Jahve, með velþóknun þeirri, er þú hefir á lýð þínum,
vitja mín með hjálpræði þínu,
5 að eg megi horfa með unun á hamingju þinna útvöldu,
gleðjast yfir gleði þjóðar þinnar,
fagna með eignarlýð þínum.
6 Vér höfum syndgað ásamt feðrum vorum,
höfum breytt illa og óguðlega.
7 Feður vorir í Egiptalandi gáfu eigi gætur að dásemdarverkum þínum,
mintust eigi þinnar miklu miskunnar,
og sýndu hinum hæsta þrjózku hjá Hafinu rauða.
8 Þó hjálpaði hann þeim sakir nafns síns,
til þess að kunngjöra mátt sinn;
9 hann hastaði á Hafið rauða, svo að það þornaði upp,
og lét þá ganga um djúpin eins og um eyðimörku;
10 hann frelsaði þá af hendi hatursmanna þeirra
og leysti þá af hendi óvinanna.
11 Vötnin huldu fjendur þeirra,
ekki einn af þeim komst undan.
12 Þá trúðu þeir orðum hans,
sungu honum lof.
13 En þeir gleymdu fljótt verkum hans,
treystu eigi á ráð hans;
14 þeir fyltust lysting í eyðimörkinni
og freistuðu Guðs í öræfunum,
15 og hann veitti þeim bæn þeirra
og sendi þeim megrun.
16 Þá öfunduðust þeir við Móse í herbúðunum,
við Aron, hinn heilaga Jahve.
17 Jörðin opnaðist og svalg Datan
og huldi flokk Abírams;

---

**41:** 2 Mós. 17, 6. 4 Mós. 20, 11. Sálm. 78, 15. 16. **44:** Sálm. 78, 55. **45:** Sálm. 78, 7. — **106, 1:** Sálm. 104, 35. **6:** 1 Kong. 8, 47. Dan. 9, 5. **7:** 2 Mós. 14, 11. 12. **9:** 2 Mós. 14, 21 n. Jes. 63, 12. 13. **11:** 2 Mós. 14, 28. **12:** 2 Mós. 14, 31; 15, 1 n. **14:** 4 Mós. 11, 4 n. Sálm. 78, 18. **15:** Sálm. 78, 27 n. **16:** 4 Mós. 16, 1 n. **17:** 4 Mós. 16, 31 n.

18 eldur kviknaði í flokki þeirra,
loginn brendi hina óguðlegu.
19 Þeir bjuggu til kálf hjá Hóreb
og lutu steyptu líkneski,
20 og létu vegsemd sína í skiftum
fyrir mynd af uxa, er gras etur.
21 Þeir gleymdu Guði, frelsara sínum,
þeim er stórvirki gjörði í Egiptalandi,
22 dásemdarverk í landi Kams,
óttaleg verk við Hafið rauða.
23 Þá hugði hann á að tortíma þeim,
ef Móse, hans útvaldi, hefði eigi gengið fram fyrir hann
og borið af blakið,
til þess að afstýra reiði hans, svo að hann skyldi eigi tortíma.
24 Þeir fyrirlitu hið unaðslega land
og trúðu eigi orðum hans;
25 þeir mögluðu í tjöldum sínum
og hlýddu eigi á raust Jahve.
26 Þá lyfti hann hendi sinni gegn þeim og sór
að láta þá falla í eyðimörkinni,
27 tvístra niðjum þeirra meðal heiðingjanna
og dreifa þeim um löndin.
28 Þeir höfðu mök við Baal-Peór
og átu fórnir dauðra skurðgoða.
29 Og þeir egndu hann til reiði með athæfi sínu,
og brauzt því út plága meðal þeirra.
30 En Pínehas gekk fram og skar úr
og þá staðnaði plágan.
31 Og honum var reiknað það til réttlætis,
frá kyni til kyns, að eilífu.
32 Síðan reittu þeir hann til reiði hjá Meríba-vötnum,
þá fór illa fyrir Móse þeirra vegna,
33 því að þeir sýndu þrjózku anda hans
og honum hrutu ógætnisorð af vörum.
34 Þeir eyddu eigi þjóðunum,
er Jahve hafði boðið þeim,
35 heldur lögðu þeir lag sitt við heiðingjana
og lærðu athæfi þeirra;
36 þeir dýrkuðu skurðgoð þeirra,
og þau urðu þeim að snöru;
37 þeir færðu að fórnum sonu sína
og dætur sínar vættunum
38 og úthellu saklausu blóði,
blóði sona sinna og dætra,
er þeir fórnfærðu skurðgoðum Kanaans,
svo að landið vanhelgaðist af blóðskuldinni.
39 Þeir saurguðust af verkum sínum
og frömdu trygðrof með athæfi sínu.
40 Þá upptendraðist reiði Jahve gegn lýð hans
og hann fékk viðbjóð á arfleifð sinni.

---

**18:** 4 Mós. 16, 35. **19:** 2 Mós. 32, 1 n. **20:** 5 Mós. 10, 21. Jer. 2, 11. Róm. 1, 23. **22:** Sálm, 105, 27 n. **23:** 2 Mós. 32, 9—14. **24:** 4 Mós. 14, 2 n. **26:** 4 Mós. 14, 21 n. 28 n. **28:** 4 Mós. 25, 3 n. **30:** 4 Mós. 25, 7. 8. **31:** 4 Mós. 25, 12. 13. **32:** 4 Mós. 20, 1 n. 12. **33:** Jes. 63, 10. 4 Mós. 20, 10. **34:** 5 Mós. 7, 1 n. 16. Dóm. 1, 21 n. **35:** Dóm. 3, 6. 7. **36:** Dóm. 2, 12. 13. **37:** 5 Mós. 32, 17.

41 Hann gaf þá á vald heiðingjum,
og hatursmenn þeirra drotnuðu yfir þeim.
42 Óvinir þeirra þjökuðu þá,
og þeir urðu að beygja sig undir vald þeirra.
43 Mörgum sinnum bjargaði hann þeim,
en þeir sýndu þrjózku í ráði sínu
og urðu að lúta sakir misgjörðar sinnar.
44 Samt leit hann á neyð þeirra,
er hann heyrði kvein þeirra;
45 hann mintist sáttmála síns við þá
og aumkaðist yfir þá sakir sinnar miklu miskunnar
46 og lét þá finna miskunn
hjá öllum þeim, er höfðu haft þá burt hernumda.
47 Hjálpa þú oss, Jahve, Guð vor,
og safna oss saman frá heiðingjunum,
að vér megum lofa þitt heilaga nafn,
víðfrægja lofstír þinn.

* * *

48 Lofaður sé Jahve, Ísraels Guð, frá eilífð til eilífðar,
og allur lýðurinn segi: Amen! Halelúja!

---

## Fimta bók.

107 Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu.
2 Svo skulu hinir endurleystu Jahve segja,
þeir er hann hefir leyst úr nauðum
3 og safnað saman úr löndunum,
frá austri og vestri,
frá norðri og suðri.

4 Þeir reikuðu um eyðimörkina, um veglaus öræfin,
og fundu eigi byggilegar borgir,
5 þá hungraði og þyrsti,
sál þeirra vanmegnaðist í þeim.
6 Þá hrópuðu þeir til Jahve í neyð sinni,
hann bjargaði þeim úr angist þeirra,
7 og leiddi þá um slétta leið,
svo að þeir komust til byggilegrar borgar.
8 Þeir skulu þakka Jahve miskunn hans
og dásemdarverk hans við mannanna börn,
9 því að hann mettaði magnþrota sál
og fylti hungraða sál gæðum.

10 Þeir, sem sátu í myrkri og niðdimmu,
bundnir eymd og járnum,
11 af því að þeir höfðu þrjózkast við orðum Guðs
og fyrirlitið ráð hins hæsta,
12 svo að hann beygði hug þeirra með mæðu,
þeir hrösuðu og enginn liðsinti þeim.
13 Þá hrópuðu þeir til Jahve í neyð sinni,
hann frelsaði þá úr angist þeirra,

---

43: Dóm. 2, 16 n. — **107, 3:** 5 Mós. 30, 3. Jes. 43, 5. **10:** Job 36, 8.

[14] hann leiddi þá út úr myrkrinu og niðdimmunni
og braut sundur fjötra þeirra.
[15] Þeir skulu þakka Jahve miskunn hans
og dásemdarverk hans við mannanna börn,
[16] því að hann braut eirhliðin
og mölvaði járnslárnar.

[17] Heimskingjar, er vegna sinnar syndsamlegu breytni
og vegna misgjörða sinna voru þjáðir;
[18] þeim bauð við hverri fæðu
og voru komnir nálægt hliðum dauðans,
[19] þá hrópuðu þeir til Jahve í neyð sinni,
hann frelsaði þá úr angist þeirra,
[20] hann sendi út orð sitt og læknaði þá
og bjargaði þeim frá gröfinni.
[21] Þeir skulu þakka Jahve miskunn hans
og dásemdarverk hans við mannanna börn,
[22] og færa þakkarfórnir
og kunngjöra verk hans með fögnuði.

[23] Þeir sem fóru um hafið á skipum,
ráku verzlun á hinum miklu vötnum,
[24] þeir hafa séð verk Jahve
og dásemdir hans á djúpinu.
[25] Því að hann bauð og þá kom stormviðri,
sem hóf upp bylgjur þess.
[26] Þeir hófust til himins, sigu niður í djúpið,
þeim félst hugur í neyðinni.
[27] Þeir römbuðu og skjögruðu eins og drukkinn maður
og öll kunnátta þeirra var þrotin.
[28] Þá hrópuðu þeir til Jahve í neyð sinni,
og hann leiddi þá úr angist þeirra;
[29] hann breytti stormviðrinu í blíðan blæ,
svo að bylgjur hafsins urðu hljóðar.
[30] Þá glöddust þeir, af því að þær kyrðust,
og hann lét þá komast í höfn þá, er þeir þráðu.
[31] Þeir skulu þakka Jahve miskunn hans
og dásemdarverk hans við mannanna börn,
[32] vegsama hann á þjóðarsamkomunni
og lofa hann í hóp öldunganna.

[33] Hann gjörir fljótin að eyðimörku
og uppsprettur að þurrum lendum,
[34] frjósamt land að saltsléttu,
sakir ilsku íbúanna.
[35] Hann gjörir eyðimörkina að vatnstjörnum
og þurlendið að uppsprettum,
[36] og lætur hungraða menn búa þar,
að þeir megi grundvalla byggilega borg,
[37] sá akra og planta víngarða
og afla afurða.
[38] Og hann blessar þá, svo að þeir margfaldast stórum
og fénað þeirra lætur hann eigi fækka.
[39] Og þótt þeir fækki og hnigi niður
sakir þrengingar af böli og harmi,

**22:** Sálm. 50, 14. **34:** 5 Mós. 29, 23. **35:** Jes. 35, 7; 41, 18.

40 þá hellir hann fyrirlitning yfir tignarmenn
og lætur þá villast um veglaus öræfi.
41 Hann bjargar aumingjanum úr eymdinni
og gjörir ættirnar sem hjarðir;
42 hinir réttvísu sjá það og gleðjast
og öll ilska lokar munni sínum.
43 Hver, sem er vitur, gefi gætur að þessu,
og menn taki eftir náðarverkum Jahve.

---

## 108

Ljóð. Davíðs-sálmur.
2 Hjarta mitt er stöðugt, ó Guð,
eg vil syngja og leika, vakna þú, sál mín!
3 Vakna þú, harpa og gígja,
eg vil vekja morgunroðann.
4 Eg vil lofa þig meðal lýðanna, Jahve,
vegsama þig meðal þjóðanna,
5 því að miskunn þín er himnum hærri
og trúfesti þín nær til skýjanna.
6 Sýn þig himnum hærri, ó Guð,
og dýrð þín breiðist yfir gjörvalla jörðina.
7 Til þess að ástvinir þínir megi frelsast —
hjálpa þú með hægri hendi þinni og bænheyr mig.

8 Guð hefir sagt í helgidómi sínum: »Eg vil fagna,
eg vil skifta Sikem, mæla út Súkkót-dal.
9 Eg á Gíleað, eg á Manasse
og Efraím er hlíf höfði mínu,
Júda veldisproti minn.
10 Móab er mundlaug mín,
í Edóm fleygi eg skónum mínum,
yfir Filisteu fagna eg«.

11 Hver vill fara með mig í örugga borg,
hver vill flytja mig til Edóm?
12 Þú hefir útskúfað oss, ó Guð,
og þú, Guð, fer eigi út með hersveitum vorum.
13 Veit oss lið gegn fjandmönnunum,
því að mannahjálp er ónýt.
14 Með Guðs hjálp munum vér hreystiverk vinna
og hann mun troða óvini vora fótum.

---

## 109

Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
Þú Guð lofsöngs míns, ver eigi hljóður,
2 því að óguðlegan munn og svikulan munn opna þeir í gegn mér,
tala við mig með ljúgandi tungu;
3 með hatursorðum umkringja þeir mig
og áreita mig að ástæðulausu.
4 Þeir launa mér elsku mína með ofsókn,
en eg gjöri ekki annað en biðja.
5 Þeir launa mér gott með illu
og elsku mína með hatri.

---

40: Job 12, 21. 24. 41: Sálm. 113, 7. 43: Hós. 14, 10. — 108, 2: Sálm. 57, 8—12.
7: Sálm. 60, 7—14. — 109, 2: Sálm. 52, 4 n. 5: Sálm. 35, 12 n.

[6] Set óguðlegan yfir hann
og ákærandinn standi honum til hægri handar;
[7] hann gangi sekur frá dómi
og bæn hans verði til syndar.
[8] Dagar hans verði fáir,
og annar hljóti embætti hans;
[9] börn hans verði föðurlaus
og kona hans ekkja.
[10] Börn hans fari á flæking og verðgang,
þau verði rekin burt úr rústum sínum.
[11] Okrarinn leggi snöru fyrir allar eigur hans
og útlendir fjandmenn ræni afla hans;
[12] enginn sýni honum líkn
og enginn aumkist yfir föðurlausu börnin hans.
[13] Niðjar hans verði afmáðir,
nafn hans útskafið í fyrsta ættlið;
[14] misgjörðar feðra hans verði minst af Jahve
og synd móður hans eigi útskafin;
[15] séu þær ætíð fyrir sjónum Jahve
og hann afmái minningu þeirra af jörðunni,
[16] sakir þess, að hann mundi eigi eftir að sýna elsku,
heldur ofsótti hinn auma og snauða
og hinn ráðþrota, til þess að drepa hann.
[17] Hann elskaði bölvunina, hún bitni þá á honum,
hann smáði blessunina, hún sé þá fjarri honum;
[18] hann íklæddist bölvuninni sem kufli,
hún læsi sig þá inn í innýfli hans sem vatn
og í bein hans sem olía,
[19] hún verði honum sem klæði, er hann sveipar um sig,
og sem belti, er hann sífelt gyrðist.
[20] Þetta séu laun andstæðinga minna frá Jahve
og þeirra, er tala ilt í gegn mér.

[21] En þú, Jahve drottinn, breyt við mig eftir gæzku miskunnar
frelsa mig sakir nafns þíns, [þinnar,
[22] því að eg er volaður og aumur,
hjartað berst ákaft í brjósti mér;
[23] eg hverf sem hallur skuggi,
eg er hristur út eins og jarðvargar.
[24] Kné mín skjögra af föstu
og hold mitt tærist af olíuskorti.
[25] Eg er orðinn þeim að spotti,
þegar þeir sjá mig, hrista þeir höfuðið.

[26] Veit mér lið, Jahve, Guð minn,
hjálpa mér eftir miskunn þinni,
[27] að þeir megi komast að raun um, að það var þín hönd,
að það varst þú, Jahve, sem gjörðir það.
[28] Bölvi þeir, þú munt blessa;
verði þeir til skammar, er rísa gegn mér,
en þjónn þinn gleðjist.
[29] Andstæðingar mínir íklæðist svívirðing,
sveipi um sig skömminni eins og skikkju.

---

**6:** Sálm. 69, 23. **7:** Orðskv. 28, 9. **8:** Post. 1, 20. **13:** Sálm. 21, 11. **14:** 2 Mós. 20, 5. **15:** Sálm. 34, 17. **23:** Sálm. 102, 12. **25:** Sálm. 22, 8. **29:** Sálm. 35, 26.

30 Eg vil lofa Jahve mikillega með munni mínum,
meðal fjölmennis vil eg vegsama hann,
31 því að hann stendur aumingjanum til hægri handar,
til þess að hjálpa honum gegn þeim, er sakfella hann.

---

110 Davíðs-sálmur.
Svo segir Jahve við herra minn: Sezt þú mér til hægri handar,
þá mun eg leggja óvini þína sem fótskör að fótum þér.
2 Jahve réttir út þinn volduga sprota frá Zíon,
drotna þú mitt á meðal óvina þinna!
3 Þjóð þín kemur sjálfboða á herdegi þínum;
í helgu skrauti frá skauti morgunroðans
kemur dögg æskuliðs þíns til þín.
4 Jahve hefir svarið og hann iðrar þess eigi:
þú ert prestur að eilífu, að hætti Melkísedeks.
5 Drottinn er þér til hægri handar,
hann knosar konunga á degi reiði sinnar.
6 Hann heldur dóm meðal þjóðanna, fyllir alt líkum,
hann knosar höfuð um víðan vang.
7 Á leiðinni drekkur hann úr læknum,
þess vegna ber hann höfuðið hátt.

---

111 Halelúja.
Eg vil lofa Jahve af öllu hjarta,
í félagi og söfnuði réttvísra.
2 Mikil eru verk Jahve,
verð íhugunar öllum þeim, er hafa unun af þeim.
3 Tign og vegsemd eru verk hans
og réttlæti hans stendur stöðugt að eilífu.
4 Hann hefir látið dásemdarverka sinna minst verða,
náðugur og miskunnsamur er Jahve.
5 Hann hefir gefið fæðu þeim, er óttast hann,
hann minnist að eilífu sáttmála síns.
6 Hann hefir kunngjört þjóð sinni kraft verka sinna,
með því að gefa þeim eignir heiðingjanna.
7 Verk handa hans eru trúfesti og réttvísi,
öll fyrirmæli hans eru áreiðanleg,
8 örugg um aldur og æfi,
framkvæmd í trúfesti og réttvísi.
9 Hann hefir sent lausn lýð sínum,
skipað sáttmála sinn að eilífu,
heilagt og óttalegt er nafn hans.
10 Upphaf speki er ótti Jahve,
hann er fögur hyggindi öllum þeim, er iðka hann.
Lofstír hans stendur um eilífð.

---

112 Halelúja.
Sæll er sá maður, sem óttast Jahve
og hefir mikla unun af boðum hans.

---

**30:** Sálm. 22, 23. **31:** Sálm. 16, 8. — **110, 1:** Matt. 22, 44. Post. 2, 34. 35. Ef. 1, 20. Hebr. 1, 13. 1 Kor. 15, 25. **4:** Hebr. 5, 6; 6, 20; 7, 17. 21. **5:** Sálm. 2, 5 n. **6:** Sálm. 68, 22. Opinb. 19, 11—16. — **111, 5:** Sálm. 34, 10. **7:** Sálm. 93, 5. **10:** Orðskv. 1, 7; 9, 10. — **112, 1:** Sálm. 1, 1 n.

2 Niðjar hans verða voldugir á jörðunni,
ætt réttvísra mun blessun hljóta.
3 Nægtir og auðæfi eru í húsi hans
og réttlæti hans stendur stöðugt að eilífu;
4 hann upprennur réttvísum sem ljós í myrkrinu,
mildur og meðaumkunarsamur og réttlátur.
5 Vel farnast þeim manni, sem er mildur og fús að lána,
sem framkvæmir málefni sín með réttvísi;
6 því að hann mun eigi haggast að eilífu;
hins réttláta mun minst um eilífð.
7 Hann óttast eigi ill tíðindi,
hjarta hans er stöðugt og treystir Jahve.
8 Hjarta hans er örugt, hann óttast eigi
og loks fær hann að horfa lyst sína á fjendur sína.
9 Hann hefir miðlað mildilega, gefið aumingjunum,
réttlæti hans stendur stöðugt að eilífu,
horn hans gnæfir hátt í vegsemd.
10 Hinn óguðlegi sér það og honum gremst,
nístir tönnum og tortímist;
ósk óguðlegra verður að engu.

---

## 113

Halelúja.
Lofið, þér þjónar Jahve,
lofið nafn Jahve.
2 Nafn Jahve sé blessað
héðan í frá og að eilífu;
3 frá sólarupprás til sólarlags
sé nafn Jahve lofað.
4 Jahve er hafinn yfir allar þjóðir
og dýrð hans yfir himnana.

5 Hver er sem Jahve, Guð vor, er situr hátt
6 og lítur lágt á himni og á jörðu?
7 sem reisir hinn lítilmótlega úr duftinu,
lyftir hinum snauða upp úr saurnum,
8 til þess að leiða hann til sætis hjá tignarmönnum,
hjá tignarmönnum þjóðar hans,
9 sem lætur óbyrjuna í húsinu búa í næði
sem glaða barnamóður. Halelúja.

---

## 114

Þegar Ísrael fór út af Egiptalandi,
Jakobs ætt frá þjóðinni, er mælti á erlenda tungu,
2 varð Júda helgidómur hans,
Ísrael ríki hans.
3 Hafið sá það og flýði,
Jórdan hörfaði undan.
4 Fjöllin hoppuðu sem hrútar,
hæðirnar sem lömb.
5 Hvað er þér, haf, er þú flýr,
Jórdan, er þú hörfar undan,

---

**2:** Orðskv. 20, 7. **4:** Sálm. 97, 11. **5:** Sálm. 37, 26. **9:** 2 Kor. 9, 9. **10:** Job 8, 13. — **113, 3:** Mal. 1, 11. **4:** Sálm. 148, 13. **6:** Sálm. 138, 6. **8:** Job 36, 7. — **114, 1:** Sálm. 81, 6. **2:** 2. Mós. 19, 5. 6. **3:** 2 Mós. 14, 21 n. Jós. 3, 14 n.

6 þér fjöll, er þér hoppið sem hrútar,
þér hæðir sem lömb?
7 Titra þú, jörð, fyrir augliti drottins,
fyrir augliti Jakobs Guðs,
8 hans, sem gjörir klettinn að vatnstjörn,
tinnusteininn að vatnslind.

---

115 Gef eigi oss, Jahve, eigi oss,
heldur þínu nafni dýrðina,
sakir miskunnar þinnar og trúfesti.
2 Hví eiga heiðingjarnir að segja:
Hvar er Guð þeirra?
3 En vor Guð er í himninum,
alt, sem honum þóknast, það gjörir hann.
4 Skurðgoð þeirra eru silfur og gull,
handaverk manna;
5 þau hafa munn, en tala ekki,
augu, en sjá ekki;
6 þau hafa eyru, en heyra ekki,
nef, en finna eigi þef.
7 Þau hafa hendur, en þreifa ekki,
fætur, en ganga ekki;
þau tala eigi með barka sínum.
8 Eins og þau eru, verða smiðir þeirra,
allir þeir, er á þau treysta.

9 En Ísrael treystir Jahve,
hann er hjálp þeirra og skjöldur;
10 Arons ætt treystir Jahve,
hann er hjálp þeirra og skjöldur;
11 þeir, sem óttast Jahve, treysta Jahve,
hann er hjálp þeirra og skjöldur.
12 Jahve minnist vor, hann mun blessa,
hann mun blessa Ísraels ætt,
hann mun blessa Arons ætt,
13 hann mun blessa þá, er óttast Jahve,
yngri sem eldri.
14 Jahve mun fjölga yður,
sjálfum yður og börnum yðar,
15 þér eruð blessaðir af Jahve,
skapara himins og jarðar.
16 Himininn er himinn fyrir Jahve,
en jörðina hefir hann gefið mannanna börnum.
17 Eigi lofa andaðir menn Jahve,
né heldur neinn sá, sem hniginn er í dauðaþögn,
18 en *vér* viljum lofa Jah,
héðan í frá og að eilífu. Halelúja.

---

116 Eg elska Jahve, af því að hann heyrir
grátbeiðni mína,
2 því að hann hefir hneigt eyra sitt að mér,
og alla æfi vil eg ákalla hann.

---

8: 4 Mós. 20, 11. 5 Mós. 8, 15. — **115, 8:** Sálm. 135, 6. **4:** 5 Mós. 4, 28. Jes. 44, 9—20. Sálm. 135, 15 n. **9:** Sálm. 33, 20. **12:** Sálm. 118, 2 n. **14:** 5 Mós. 1, 11. **17:** Sálm. 6, 6. — **116, 1:** Sálm. 18, 2.

3 Þegar snörur dauðans umkringja mig,
og angist heljar mætir mér,
þegar eg mæti nauðum og harmi,
4 þá ákalla eg nafn Jahve:
Æ, Jahve, bjarga sál minni!
5 Náðugur er Jahve og réttlátur,
og vor Guð er miskunnsamur.
6 Jahve varðveitir varnarlausa,
þegar eg er máttvana hjálpar hann mér.

7 Verð þú aftur róleg, sála mín,
því að Jahve gjörir vel til þín.
8 Já, þú hrífur sál mína frá dauða,
auga mitt frá gráti,
fót minn frá hrösun.
9 Eg geng frammi fyrir Jahve
á landi lifenda.
10 Eg trúi, þegar eg tala,
eg er mjög beygður.
11 Eg sagði í angist minni:
allir menn ljúga.
12 Hvað á eg að gjalda Jahve
fyrir allar velgjörðir hans við mig?
13 Eg lyfti upp bikar hjálpræðisins
og ákalla nafn Jahve;
14 eg greiði Jahve heit mín
og það í augsýn alls lýðs hans.
15 Dýr er í augum Jahve
dauði dýrkenda hans.

16 Æ, Jahve, víst er eg þjónn þinn;
eg er þjónn þinn, sonur ambáttar þinnar,
þú leysir fjötra mína.
17 Þér færi eg þakkarfórn
og ákalla nafn Jahve;
18 eg greiði Jahve heit mín
og það í augsýn alls lýðs hans,
19 í forgörðum húss Jahve,
í þér Jerúsalem. Halelúja.

---

## 117

Lofið Jahve, allar þjóðir,
vegsamið hann, allir lýðir,
2 því að miskunn hans er voldug yfir oss
og trúfesti Jahve varir að eilífu. Halelúja.

---

## 118

Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu.
2 Það mæli Ísrael:
því að miskunn hans varir að eilífu!
3 Það mæli Arons ætt:
því að miskunn hans varir að eilífu!

---

**3:** Sálm. 18, 5 n. **8:** Sálm. 56, 14. **10:** 2 Kor. 4, 13. **15:** Sálm. 72, 14. — **117, 1:** Róm. 15, 11. — **118, 2:** Sálm. 115, 9 n.

4 Það mæli þeir, sem óttast Jahve:
því að miskunn hans varir að eilífu!

5 Í þrengingunni ákallaði eg Jah,
Jah bænheyrði mig á víðlendinu.
6 Jahve er með mér, eg óttast eigi,
hvað geta menn gjört mér?
7 Jahve er með mér, meðal hjálpara minna,
og eg mun fá að horfa lyst mína á hatursmenn mína.
8 Betra er að leita hælis hjá Jahve
en að treysta mönnum,
9 betra er að leita hælis hjá Jahve
en að treysta tignarmönnum.
10 Allir heiðingjar umkringdu mig,
en í nafni Jahve hefi eg sigrast á þeim.
11 Þeir umkringdu mig á alla vegu,
en í nafni Jahve hefi eg sigrast á þeim.
12 Þeir umkringdu mig eins og býflugur vax,
brunnu sem eldur í þyrnum,
en í nafni Jahve hefi eg sigrast á þeim.
13 Mér var hrundið, til þess að eg skyldi falla,
en Jahve veitti mér lið.
14 Jah er styrkur minn og lofsöngur
og hann varð mér til hjálpræðis.
15 Fagnaðar- og siguróp kveður við í tjöldum réttlátra:
hægri hönd Jahve vinnur stórvirki.
16 Hægri hönd Jahve upphefur,
hægri hönd Jahve vinnur stórvirki.
17 Eg mun eigi deyja, heldur lifa
og kunngjöra verk Jah.
18 Jah hefir hirt mig harðlega,
en eigi ofurselt mig dauðanum.

19 Ljúkið upp fyrir mér hliðum réttlætisins,
að eg megi fara inn um þau og lofa Jah.
20 Þetta er hlið Jahve,
réttlátir menn fara inn um það.
21 Eg lofa þig, af því að þú bænheyrðir mig
og ert orðinn mér hjálpræði.
22 Steinninn, sem smiðirnir höfnuðu,
er orðinn að hyrningarsteini.
23 Að tilhlutun Jahve er þetta orðið,
það er dásamlegt í augum vorum.
24 Þetta er dagurinn, sem Jahve hefir gjört,
fögnum, verum glaðir á honum.
25 Æ, Jahve, hjálpa þú,
æ, Jahve, gef þú gengi!
26 Hver sem kemur, sé blessaður í nafni Jahve,
frá húsi Jahve blessum vér yður.
27 Jahve er Guð og hann lét oss ljós skína.
Tengið saman dansraðirnar með laufgreinum,
alt inn að altarishornunum.

---

**5:** Sálm. 18, 20. **6:** Sálm. 56, 10. Hebr. 13, 6. **7:** Sálm. 54, 6. 9. **8:** Sálm. 62, 9. 10. **9:** Sálm. 146, 3 n. **14:** 2 Mós. 15, 2. **17:** Hab. 1, 12. **19:** Jes. 26, 2. **22:** Matt. 21, 42. Mark. 12, 10. 11. Lúk. 20, 17. Post. 4, 11. Ef. 2, 20. 1 Pét. 2, 7. **26:** Matt. 21, 9; 23, 39.

[28] Þú ert Guð minn og eg þakka þér,
Guð minn, eg vegsama þig.
[29] Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu.

---

119 Sælir eru þeir, sem breyta grandvarlega,
þeir er fram ganga í lögmáli Jahve.
[2] Sælir eru þeir, er halda reglur hans,
þeir er leita hans af öllu hjarta
[3] og eigi fremja ranglæti,
en ganga á vegum hans.
[4] Þú hefir gefið skipanir þínar,
til þess að menn skuli halda þær vandlega.
[5] Ó að breytni mín mætti vera staðföst,
svo að eg varðveiti lög þín.
[6] Þá mun eg eigi til skammar verða,
er eg lít á öll þín boð.
[7] Eg skal þakka þér af einlægu hjarta,
er eg hefi numið þín réttlátu ákvæði.
[8] Eg vil gæta laga þinna,
þá munt þú alls ekki yfirgefa mig.

* * *

[9] Með hverju getur ungur maður haldið vegi sínum hreinum?
Með því að gefa gaum að orði þínu.
[10] Eg leita þín af öllu hjarta,
lát mig eigi villast frá boðum þínum.
[11] Eg geymi orð þín í hjarta mínu,
til þess að eg skuli eigi syndga gegn þér.
[12] Lofaður sért þú, Jahve;
kenn mér lög þín.
[13] Með vörum mínum tel eg upp
öll ákvæði munns þíns.
[14] Yfir vegi vitnisburða þinna gleðst eg
eins og yfir alls konar auði.
[15] Fyrirmæli þín vil eg íhuga
og skoða vegu þína.
[16] Eg leita unaðs í lögum þínum,
gleymi eigi orði þínu.

* * *

[17] Veit þjóni þínum að lifa,
að eg megi halda orð þín.
[18] Ljúk upp augum mínum, að eg megi skoða
dásemdirnar í lögmáli þínu.
[19] Eg er útlendingur á jörðunni,
dyl eigi boð þín fyrir mér.
[20] Sál mín er kvalin af þrá
eftir ákvæðum þínum alla tíma.
[21] Þú hefir ógnað ofstopamönnunum,
bölvaðir eru þeir, sem víkja frá boðum þínum.
[22] Velt þú af mér háðung og smán,
því að eg hefi haldið reglur þínar.

---

**119, 19:** Sálm. 39, 13. **21:** 5 Mós. 27, 26.

23 Þótt þjóðhöfðingjar sitji og taki saman ráð sín gegn mér,
þá íhugar þjónn þinn lög þín,
24 og reglur þínar eru unun mín,
boð þín eru ráðgjafar mínir.

* * *

25 Sál mín loðir við duftið,
lát mig lífi halda eftir orði þínu.
26 Eg hefi talið upp málefni mín og þú bænheyrðir mig,
kenn mér lög þín.
27 Lát mig skilja veg fyrirmæla þinna,
að eg megi íhuga dásemdir þínar.
28 Sál mín tárast af trega,
reis mig upp eftir orði þínu.
29 Lát veg lyginnar vera fjarri mér
og veit mér náðarsamlega lögmál þitt.
30 Eg hefi útvalið veg sannleikans,
sett mér ákvæði þín fyrir sjónir.
31 Eg held fast við reglur þínar,
Jahve lát mig eigi verða til skammar.
32 Eg vil skunda veg boða þinna,
því að þú hefir gjört mér létt um hjartað.

* * *

33 Kenn mér, Jahve, veg laga þinna,
að eg megi halda þau alt til enda.
34 Veit mér skyn, að eg megi halda lögmál þitt
og varðveita það af öllu hjarta.
35 Leið mig götu boða þinna,
því að af henni hefi eg yndi.
36 Beyg hjarta mitt að reglum þínum,
en eigi að ranglátum ávinningi.
37 Snú augum mínum frá því að horfa á hégóma;
lífga mig á vegum þínum.
38 Staðfest fyrirheit þitt fyrir þjóni þínum,
sem gefið er þeim, er þig óttast.
39 Nem burt háðungina, sem eg er hræddur við,
því að ákvæði þín eru góð.
40 Sjá, eg þrái fyrirmæli þín,
lífga mig með réttlæti þínu,

* * *

41 Og lát náð þína koma yfir mig, Jahve,
hjálpræði þitt, samkvæmt fyrirheiti þínu,
42 að eg fái andsvör veitt þeim, er smána mig,
því að þínu orði treysti eg.
43 Og tak engan veginn sannleikans orð burt úr munni mínum,
því að eg bíð dóma þinna.
44 Og eg vil stöðugt varðveita lögmál þitt,
um aldur og æfi,
45 þá mun eg ganga um víðlendi,
því að eg leita fyrirmæla þinna;
46 þá mun eg tala um reglur þínar frammi fyrir konungum,
og eigi skammast mín,
47 og leita unaðs í boðum þínum,
þeim er eg elska,

**36:** Sálm. 141, 4. **46:** Matt. 10, 18 n.

48 og rétta út hendurnar eftir boðum þínum, þeim er eg elska,
og íhuga lög þín.

*
* *

49 Minst þú orðsins við þjón þinn,
af því að þú hefir látið mig vona.
50 Þetta er huggun mín í eymd minni,
að orð þitt lætur mig lífi halda.
51 Ofstopamenn spotta mig gífurlega,
en eg vík eigi frá lögmáli þínu.
52 Eg minnist dóma þinna frá öndverðu, Jahve,
og læt huggast.
53 Heiftarreiði við óguðlega hrífur mig,
við þá, er yfirgefa lögmál þitt.
54 Lög þín eru efni ljóða minna
í húsinu, er eg bý í sem útlendingur.
55 Um nætur minnist eg nafns þíns, Jahve,
og geymi laga þinna.
56 Þetta er orðin hlutdeild mín,
að halda fyrirmæli þín.

*
* *

57 Jahve er hlutskifti mitt,
eg hefi ákveðið að varðveita orð þín.
58 Eg hefi leitað hylli þinnar af öllu hjarta,
ver mér náðugur samkvæmt fyrirheiti þínu.
59 Eg hefi athugað vegu mína
og snúið fótum mínum að reglum þínum.
60 Eg hefi flýtt mér, og eigi tafið,
að varðveita boð þín.
61 Snörur óguðlegra lykja um mig,
en lögmáli þínu hefi eg eigi gleymt.
62 Um miðnætti rís eg upp til þess að þakka þér
þín réttlátu ákvæði.
63 Eg er félagi allra þeirra, er óttast þig
og varðveita fyrirmæli þín.
64 Jörðin er full af miskunn þinni, Jahve,
kenn mér lög þín.

*
* *

65 Þú hefir gjört vel til þjóns þíns,
eftir orði þínu, Jahve.
66 Kenn mér góð hyggindi og þekkingu,
því að eg trúi á boð þín.
67 Áður en eg var beygður, viltist eg,
en nú varðveiti eg orð þitt.
68 Þú ert góður og gjörir vel,
kenn mér lög þín.
69 Ofstopamenn spinna upp lygar gegn mér,
en eg held fyrirmæli þín af öllu hjarta.
70 Hjarta þeirra er tilfinningarlaust sem mör væri,
en eg leita unaðs í lögmáli þínu.
71 Það varð mér til góðs, að eg varð beygður,
til þess að eg mætti læra lög þín.

---

**57: Sálm. 16, 5. 64: Sálm. 33, 5. 70: Sálm. 17, 10.**

72 Lögmálið af munni þínum er mér mætara
en þúsundir af gulli og silfri.

*
* *

73 Hendur þínar hafa gjört mig og skapað;
veit mér skyn, að eg megi læra boð þín.
74 Þeir, er óttast þig, sjá mig og gleðjast,
því að eg vona á orð þitt.
75 Eg veit, Jahve, að dómar þínir eru réttlátir
og að þú hefir lægt mig af trúfesti.
76 Lát miskunn þína verða mér til huggunar,
eins og þú hefir heitið þjóni þínum,
77 Lát miskunn þína koma yfir mig, að eg megi lifa,
því að lögmál þitt er unun mín.
78 Lát ofstopamennina verða til skammar, af því að þeir kúga mig
eg íhuga fyrirmæli þín. [með rangsleitni;
79 Til mín snúi sér þeir, er óttast þig,
og þeir, er þekkja reglur þínar.
80 Hjarta mitt sé grandvart í lögum þínum,
svo að eg verði eigi til skammar.

*
* *

81 Sál mín tærist af þrá eftir hjálpræði þínu,
á þitt orð vona eg.
82 Augu mín tærast af þrá eftir fyrirheiti þínu
og segja: Hve nær munt þú hugga mig?
83 Því að eg er orðinn eins og belgur í reyk,
en lögum þínum hefi eg eigi gleymt.
84 Hversu margir eru dagar þjóns þíns?
hve nær munt þú heyja dóm á ofsækjendum mínum?
85 Ofstopamenn hafa grafið mér grafir,
menn, er eigi hlýða lögmáli þínu.
86 Öll boð þín eru trúfesti.
Menn ofsækja mig með lygum, veit þú mér lið.
87 Nærri lá að þeir gjörðu út af við mig á jörðunni,
og þó hafði eg eigi yfirgefið fyrirmæli þín.
88 Lát mig lífi halda eftir miskunn þinni,
að eg megi varðveita reglurnar af munni þínum.

*
* *

89 Orð þitt, Jahve, varir að eilífu,
það stendur fast eins og himininn;
90 frá kyni til kyns varir trúfesti þín;
þú hefir grundvallað jörðina og hún stendur.
91 Eftir ákvæðum þínum standa þau enn í dag,
því að alt lýtur þér.
92 Ef lögmál þitt hefði eigi verið unun mín,
þá hefði eg farist í eymd minni.
93 Eg skal eigi gleyma fyrirmælum þínum að eilífu,
því að með þeim hefir þú látið mig lífi halda.
94 Þinn er eg, hjálpa þú mér,
því að eg leita fyrirmæla þinna.
95 Óguðlegir bíða mín, til þess að tortíma mér,
en eg gef gætur að reglum þínum.

---

72: v. 127. Sálm. 19, 11. 74: Sálm. 34, 3. 84: Sálm. 39, 6. 89: Lúk. 21, 33.

96 Á allri fullkomnun hefi eg séð endi,
en þín boð eiga sér engin takmörk.

* * *

97 Hve mjög elska eg lögmál þitt,
liðlangan daginn íhuga eg það.
98 Boð þín hafa gjört mig vitrari en óvinir mínir eru,
því að þau heyra mér til um eilífð.
99 Eg er hyggnari en allir kennarar mínir,
því að eg íhuga reglur þínar.
100 Eg er skynsamari en öldungar,
því að eg held fyrirmæli þín.
101 Eg held fæti mínum frá hverjum vondum vegi,
til þess að gæta orðs þíns.
102 Frá ákvæðum þínum hefi eg eigi vikið,
því að þú hefir frætt mig.
103 Hversu sæt eru fyrirheit þín gómi mínum,
hunangi framar munni mínum.
104 Af fyrirmælum þínum er eg skynsamur orðinn,
fyrir því hata eg sérhvern lygaveg.

* * *

105 Þitt orð er lampi fóta minna
og ljós á vegi mínum.
106 Eg hefi svarið og haldið það,
að varðveita þín réttlátu ákvæði.
107 Eg er mjög beygður, Jahve,
lát mig lífi halda eftir orði þínu.
108 Haf þóknun á sjálfviljafórnum munns míns, Jahve,
og kenn mér ákvæði þín.
109 Eg geng ætíð með lífið í lúkunum,
en þínu lögmáli hefi eg eigi gleymt.
110 Óguðlegir hafa lagt snöru fyrir mig;
en eg hefi eigi vilst frá fyrirmælum þínum.
111 Reglur þínar eru eign mín um aldur,
því að þær eru yndi hjarta míns.
112 Eg hefi hneigt hjarta mitt að því, að breyta eftir lögum þínum,
um aldur og alt til enda.

* * *

113 Eg hata þá, er haltra til beggja hliða,
en lögmál þitt elska eg.
114 Þú ert skjól mitt og skjöldur,
eg vona á orð þitt.
115 Burt frá mér, þér bófar!
að eg megi halda boð Guðs míns.
116 Styð mig samkvæmt fyrirheiti þínu, að eg megi lifa,
og lát mig eigi til skammar verða í von minni.
117 Styð þú mig, að eg megi frelsast
og ætíð líta til laga þinna.
118 Þú hafnar öllum þeim, er villast frá lögum þínum,
því að svik þeirra eru til einskis.
119 Sem sora metur þú alla óguðlega á jörðu,
þess vegna elska eg reglur þínar.

---

**103: Sálm. 19, 11. 105: Orðskv. 6, 23. 113: Jak. 1, 8.**

120 Hold mitt nötrar af hræðslu fyrir þér,
og dóma þína óttast eg.

* * *

121 Eg hefi iðkað rétt og réttlæti,
sel mig eigi í hendur kúgurum mínum.
122 Gakk í ábyrgð fyrir þjón þinn, honum til heilla,
lát eigi ofstopamennina kúga mig.
123 Augu mín tærast af þrá eftir hjálpræði þínu
og eftir þínu réttláta fyrirheiti.
124 Far með þjón þinn eftir miskunn þinni
og kenn mér lög þín.
125 Eg er þjónn þinn, veit mér skyn,
að eg megi þekkja reglur þínar.
126 Tími er kominn fyrir Jahve, að taka í taumana,
þeir hafa rofið lögmál þitt.
127 Þess vegna elska eg boð þín
framar en gull og skíragull.
128 Þess vegna held eg beina leið eftir öllum fyrirmælum þínum,
eg hata sérhvern lygaveg.

* * *

129 Reglur þínar eru dásamlegar,
þess vegna heldur sál mín þær.
130 Útskýring orðs þíns upplýsir,
gjörir fávísa vitra.
131 Eg opna munninn og stend á öndinni,
því að eg þrái boð þín.
132 Snú þér til mín og ver mér náðugur,
eins og ákveðið er þeim, er elska nafn þitt.
133 Gjör skref mín örugg með fyrirheiti þínu
og lát ekkert ranglæti drotna yfir mér.
134 Leys mig undan kúgun manna,
að eg megi varðveita fyrirmæli þín.
135 Lát ásjónu þína lýsa yfir þjón þinn
og kenn mér lög þín.
136 Augu mín úthella vatnslækjum,
af því að menn varðveita eigi lögmál þitt.

* * *

137 Réttlátur ert þú, Jahve,
og réttvísir dómar þínir.
138 Þú hefir skipað fyrir reglur þínar með réttlæti
og mjög mikilli trúfesti.
139 Vandlæting mín hefir eytt mér,
því að fjendur mínir hafa gleymt orðum þínum.
140 Orð þitt er mjög hreint
og þjónn þinn elskar það.
141 Eg er lítilmótlegur og fyrirlitinn,
en fyrirmælum þínum hefi eg eigi gleymt.
142 Réttlæti þitt er eilíft réttlæti
og lögmál þitt trúfesti.
143 Neyð og hörmung hafa mér að höndum borið,
en boð þín eru unun mín.

---

**127:** v. 72. **133:** Sálm. 19, 14. **139:** Sálm. 69, 10. **140:** Sálm. 12, 7.

144 Reglur þínar eru réttlæti um eilífð,
veit mér skyn, að eg megi lifa.

*
* *

145 Eg kalla af öllu hjarta: bænheyr mig, Jahve,
eg vil halda lög þín.
146 Eg ákalla þig, hjálpa þú mér,
að eg megi varðveita reglur þínar.
147 Eg er á ferli fyrir dögun og hrópa
og bíð orða þinna.
148 Áður en næturvökurnar byrja eru augu mín búin,
til þess að íhuga orð þitt.
149 Hlýð á raust mína eftir miskunn þinni,
lát mig lífi halda, Jahve, eftir ákvæðum þínum.
150 Þeir eru nærri, er ofsækja mig svívirðilega,
þeir eru langt burtu frá lögmáli þínu.
151 Þú ert nálægur, Jahve,
og öll boð þín eru trúfesti.
152 Fyrir löngu hefi eg vitað um reglur þínar,
að þú hefir grundvallað þær um eilífð.

*
* *

153 Sjá þú eymd mína og frelsa mig,
því að eg hefi eigi gleymt lögmáli þínu.
154 Flyt þú mál mitt og leys mig,
lát mig lífi halda samkvæmt fyrirheiti þínu.
155 Hjálpræðið er fjarri óguðlegum,
því að þeir leita eigi fyrirmæla þinna.
156 Mikil er miskunn þín, Jahve,
lát mig lífi halda eftir ákvæðum þínum.
157 Margir eru ofsækjendur mínir og fjendur,
en frá reglum þínum hefi eg eigi vikið.
158 Eg sé trúrofana og kenni viðbjóðs,
þá er eigi varðveita orð þitt.
159 Sjá, að eg elska fyrirmæli þín;
lát mig lífi halda, Jahve, eftir miskunn þinni.
160 Alt orð þitt samanlagt er trúfesti
og hvert réttlætisákvæði þitt varir að eilífu.

*
* *

161 Höfðingjar ofsækja mig að ástæðulausu,
hjarta mitt óttast orð þín.
162 Eg gleðst yfir fyrirheiti þínu
eins og sá, er fær mikið herfang.
163 Eg hata lygi og hefi andstygð á henni,
en þitt lögmál elska eg.
164 Sjö sinnum á dag lofa eg þig,
sakir þinna réttlátu ákvæða.
165 Gnótt friðar hafa þeir, er elska lögmál þitt,
og þeim er við engri hrösun hætt.
166 Eg vænti hjálpræðis þíns, Jahve,
og framkvæmi boð þín.
167 Sál mín varðveitir reglur þínar
og þær elska eg mjög.

---

**147: Sálm. 5, 4.**

168 Eg varðveiti fyrirmæli þín og reglur,
því að allir mínir vegir eru þér augljósir.

* * *

169 Ó að hróp mitt mætti nálgast auglit þitt, Jahve;
veit mér skyn eftir orði þínu.
170 Ó að grátbeiðni mín mætti koma fyrir auglit þitt,
frelsa mig samkvæmt fyrirheiti þínu.
171 Lof um þig skal streyma mér af vörum,
því að þú kennir mér lög þín.
172 Tunga mín skal mæra orð þitt,
því að öll boðorð þín eru réttlæti.
173 Hönd þín veiti mér lið,
því að þín fyrirmæli hefi eg útvalið.
174 Eg þrái hjálpræði þitt, Jahve,
og lögmál þitt er unun mín.
175 Lát sál mína lifa, að hún megi lofa þig
og dómar þínir veiti mér lið.
176 Eg villist sem týndur sauður, leita þú þjóns þíns,
því að þínum boðum hefi eg eigi gleymt.

---

## 120

Helgifaraljóð.

Eg ákalla Jahve í nauðum mínum
og hann bænheyrir mig.
2 Jahve, frelsa sál mína frá ljúgandi vörum,
frá tælandi tungu.
3 Hversu mun fara fyrir þér nú og síðar,
þú tælandi tunga?
4 Örvar harðstjórans eru hvestar
með glóandi gýfilkolum.
5 Vei mér, að eg dvel hjá Mesek,
bý hjá tjöldum Kedars.
6 Nógu lengi hefir sál mín búið
hjá þeim, er friðinn hata.
7 Þótt eg tali friðlega,
vilja þeir ófrið.

---

## 121

Ljóð fyrir helgifarir.

Eg hef augu mín til fjallanna:
Hvaðan kemur mér hjálp?
2 Hjálp mín kemur frá Jahve,
skapara himins og jarðar.
3 Hann mun eigi láta fót þinn skriðna;
vörður þinn blundar ekki.
4 Nei, hann blundar ekki og sefur ekki,
hann, vörður Ísraels.
5 Jahve er vörður þinn,
Jahve er skuggi þinn, þér til hægri handar;
6 um daga mun sólarhitinn eigi vinna þér mein,
né heldur tunglið um nætur.
7 Jahve mun vernda þig fyrir öllu illu,
hann mun vernda sál þína;

---

**176:** Jes. 53, 6. — **120, 5:** 1 Mós. 10, 2; 25, 13. Esek. 38, 2. — **121, 1:** Sálm. 123, 1.

8 Jahve mun varðveita útgang þinn og inngang
héðan í frá og að eilífu.

---

122 Helgifaraljóð. Eftir Davíð.

Eg varð glaður, er menn sögðu við mig:
Göngum í hús Jahve!
2 Fætur vorir standa
í hliðum þínum, Jerúsalem.
3 Jerúsalem, þú hin endurreista,
borgin þar sem öll þjóðin safnast saman,
4 þangað sem kynkvíslirnar fara,
kynkvíslir Jah —
það er regla fyrir Ísrael —
til þess að lofa nafn Jahve;
5 því að þar standa dómarastólar,
stólar fyrir Davíðs ætt.
6 Biðjið Jerúsalem friðar,
hljóti heill þeir, er elska þig.
7 Friður sé kring um múra þína,
heill í höllum þínum.
8 Sakir bræðra minna og vina
óska eg þér friðar;
9 sakir húss Jahve, Guðs vors,
vil eg leita þér hamingju.

---

123 Helgifaraljóð.

Til þín hef eg augu mín,
þú sem situr á himnum.
2 Sjá, eins og augu þjónanna mæna á hönd húsbónda þeirra,
eins og augu ambáttarinnar mæna á hönd húsmóður hennar,
svo mæna augu vor á Jahve, Guð vorn,
unz hann líknar oss.
3 Líkna oss, Jahve, líkna oss,
því að vér höfum fengið meir en nóg af spotti.
4 Sál vor hefir fengið meir en nóg af háði hrokafullra,
af spotti dramblátra.

---

124 Helgifaraljóð. Eftir Davíð.

Hefði það ekki verið Jahve, sem var með oss,
skal Ísrael segja,
2 hefði það ekki verið Jahve, sem var með oss,
þegar menn risu í móti oss,
3 þá hefðu þeir svelgt oss lifandi,
þegar reiði þeirra bálaðist upp í móti oss;
4 þá hefðu vötnin streymt yfir oss,
elfur gengið yfir oss,
5 þá hefðu gengið yfir oss
hin beljandi vötn.

6 Lofaður sé Jahve,
er ekki gaf oss tönnum þeirra að bráð.

---

8: 5 Mós. 28, 6. — 122, 5: 5 Mós. 17, 8 n. — 124, 3: Sálm. 94, 17.

[7] Sál vor slapp burt eins og fugl úr snöru fuglarans,
brast snaran, burt sluppum vér.
[8] Hjálp vor er fólgin í nafni Jahve,
skapara himins og jarðar.

---

125 Helgifaraljóð.

Þeir sem treysta Jahve
eru sem Zíon-fjall, er eigi bifast,
er stendur að eilífu.
[2] Fjöll eru kring um Jerúsalem
og Jahve er kring um lýð sinn,
héðan í frá og að eilífu.
[3] Því að veldisproti guðleysisins mun eigi hvíla á hlutskifti réttlátra,
til þess að hinir réttlátu skuli eigi rétta út hendur sínar til ranglætis.
[4] Gjör þú góðum vel til, Jahve,
og þeim, sem hjartahreinir eru.
[5] En þeim, er beygja á krókóttar leiðir,
mun Jahve eyða með illgjörðamönnum.
Friður sé yfir Ísrael!

---

126 Helgifaraljóð.

Þegar Jahve sneri við hag Zíonar,
þá var sem oss dreymdi.
[2] Þá fyltist munnur vor hlátri
og tungur vorar fögnuði;
þá sögðu menn meðal heiðingjanna:
»Mikla hluti hefir Jahve gjört við þá«.
[3] Jahve hefir gjört mikla hluti við oss,
vér vorum glaðir.

[4] Snú við, Jahve, hag vorum,
eins og þú gjörir við lækina í suðurlandinu.
[5] Þeir, sem sá með tárum,
munu uppskera með gleðisöng;
[6] grátandi fara menn og bera sæðið til sáningar,
með gleðisöng koma þeir aftur og bera kornbundin heim.

---

127 Helgifaraljóð. Eftir Salómó.

Ef Jahve byggir ekki húsið,
erfiða smiðirnir til ónýtis;
ef Jahve verndar eigi borgina,
vakir vörðurinn til ónýtis.
[2] Það er til ónýtis fyrir yður, þér sem snemma rísið og gangið seint til hvíldar
og etið brauð, sem aflað er með striti:
svo gefur hann ástvinum sínum í svefni!

[3] Sjá, synir eru gjöf frá Jahve,
ávöxtur kviðarins er umbun.
[4] Eins og örvar í hendi kappans,
svo eru synir getnir í æsku.

---

8: Sálm. 121, 2. — **126, 1:** Sálm. 14, 7. — **127, 3:** 1 Mós. 33, 5.

5 Sæll er sá maður, er fylt hefir örvamæli sinn með þeim,
þeir verða eigi til skammar, er þeir tala við óvini sína í
borgarhliðinu.

---

128 Helgifaraljóð.
Sæll er hver sá, er óttast Jahve,
er gengur á hans vegum.
2 Já, afla handa þinna skalt þú njóta,
sæll ert þú, vel farnast þér.
3 Kona þín er sem frjósamur vínviður
inst í húsi þínu,
synir þínir sem teinungar olíutrésins
umhverfis borð þitt.
4 Sjá, sannarlega hlýtur slíka blessun sá maður,
er óttast Jahve.
5 Jahve blessi þig frá Zíon,
þú munt horfa með unun á hamingju Jerúsalem alla æfi-
daga þína,
6 og sjá sonu sona þinna. Friður sé yfir Ísrael!

---

129 Helgifaraljóð.
Þeir hafa fjandskapast mjög við mig í frá æsku,
skal Ísrael segja.
2 Þeir hafa fjandskapast mjög við mig í frá æsku,
en þó eigi borið af mér;
3 plógmennirnir hafa plægt um hrygg mér,
gjört plógför sín löng,
4 en Jahve hinn réttláti hefir skorið í sundur
reipi óguðlegra.
5 Til skammar skulu þeir verða og hörfa undan,
allir hatursmenn Zíonar.
6 Þeir skulu verða sem gras á þekju,
er visnar áður en það frævist,
7 svo að sláttumaðurinn fyllir eigi hönd sína af því,
né kerfarinn fang sitt,
8 og þeir, sem fram hjá fara, segja ekki:
»Blessun Jahve sé með yður,
vér blessum yður í nafni Jahve!«

---

130 Helgifaraljóð.
Úr djúpinu ákalla eg þig, Jahve,
2 drottinn, heyr þú raust mína,
lát eyru þín hlusta á
grátbeiðni mína!
3 Ef þú, Jah, vildir gefa gætur að misgjörðum,
drottinn, hver fengi þá staðist?
4 En hjá þér er fyrirgefning,
svo að menn óttist þig.
5 Eg vona á Jahve, sál mín vonar,
og hans orðs bíð eg.

---

**128, 1:** Sálm. 119, 1. **5:** Sálm. 134, 3. — **130, 1:** Sálm. 69, 3. **3:** Sálm. 143, 2.
**4:** Dan. 9, 9. **5:** Sálm. 27, 14.

6 Meir en vökumenn morgun, vökumenn morgun,
skalt þú, Ísrael, þreyja Jahve;
7 því að hjá Jahve er miskunn
og hjá honum er gnægð lausnar,
8 og hann mun leysa Ísrael
frá öllum misgjörðum hans.

---

## 131

Helgifaraljóð. Eftir Davíð.

Jahve, hjarta mitt er eigi dramblátt,
né augu mín hrokafull;
eg fæst eigi við mikil málefni,
né þau, sem mér eru ofvaxin.
2 Sjá, eg hefi sefað sál mína og þaggað niður í henni;
eins og afvanið barn hjá móður sinni,
svo er sál mín í mér vanin af.
3 Vona, Ísrael, á Jahve,
héðan í frá og að eilífu.

---

## 132

Helgifaraljóð.

Mun þú, Jahve, Davíð
allar þrautir hans;
2 hann sem sór Jahve,
gjörði heit Jakobs volduga:
3 »Eg vil eigi ganga inn í tjaldhús mitt,
eigi stíga í hvílurúm mitt,
4 eigi unna augum mínum svefns
né augnalokum mínum blunds
5 fyr en eg hefi fundið stað fyrir Jahve,
bústað fyrir Jakobs volduga«.
6 Sjá, vér höfum heyrt um hann í Efrata,
fundið hann á Jaarmörk:
7 látum oss ganga til bústaðar hans,
falla fram á fótskör hans.
8 Tak þig upp, Jahve, og far á hvíldarstað þinn,
þú og örk máttar þíns.
9 Prestar þínir íklæðist réttlæti
og dýrkendur þínir fagni.
10 Sakir Davíðs þjóns þíns
vísa þú þínum smurða eigi frá.

11 Jahve hefir svarið Davíð
óbrigðulan eið, er hann eigi mun ganga frá:
»Af ávexti kviðar þíns
mun eg setja mann í hásæti þitt.
12 Ef synir þínir varðveita sáttmála minn
og reglur mínar, þær er eg kenni þeim,
þá skulu og þeirra synir um aldur
sitja í hásæti þínu«.
13 Því að Jahve hefir útvalið Zíon,
þráð hana sér til bústaðar:

---

**132, 6:** 1 Mós. 35, 19. 1 Sam. 7, 1. **8:** 2 Kron. 6, 41. 42. **11:** 2 Sam. 7, 11 n. Sálm. 89, 3—5. Post. 2, 30.

14 »Þetta er hvíldarstaður minn um aldur,
hér vil eg búa, því að hann hefi eg þráð;
15 vistir hans vil eg vissulega blessa
og fátæklinga hans vil eg seðja með brauði,
16 presta hans vil eg íklæða hjálpræði,
hinir guðhræddu, er þar búa, skulu kveða fagnaðarópi;
17 þar vil eg láta Davíð horn vaxa,
þar hefi eg búið lampa mínum smurða;
18 óvini hans vil eg íklæða skömm,
en á honum skal kóróna hans ljóma«.

---

133 Helgifaraljóð. Eftir Davíð.
Sjá, hversu fagurt og yndislegt það er,
þegar bræður búa saman,
2 eins og hin ágæta olía á höfðinu,
er rennur niður í skeggið, skegg Arons,
er fellur niður á kyrtilfald hans,
3 eins og Hermondögg,
er fellur niður á Zíonfjöll;
því að þar hefir Jahve boðið út blessun,
lífi að eilífu.

---

134 Helgifaraljóð.
Já, lofið Jahve, allir þjónar Jahve,
þér er standið í húsi Jahve um nætur.
2 Fórnið höndum til helgidómsins
og lofið Jahve.
3 Jahve blessi þig frá Zíon,
hann sem er skapari himins og jarðar.

---

135 Halelúja.
Lofið nafn Jahve,
lofið, þér þjónar Jahve,
2 er standið í húsi Jahve,
í forgörðum húss Guðs vors.
3 Lofið Jah, því að Jahve er góður;
leikið fyrir nafni hans, því að það er yndislegt.
4 Því að Jah hefir útvalið sér Jakob,
Ísrael sér til eiginlegrar eignar;
5 því að eg veit, að Jahve er mikill
og að drottinn vor er öllum guðum æðri.
6 Alt, sem Jahve þóknast, það gjörir hann,
á himni og jörðu,
í hafinu og öllum djúpunum,
7 hann sem lætur skýin uppstíga frá endimörkum jarðar,
gjörir leiftrin, til að búa rás regninu,
hleypir vindinum út úr forðabúrum hans;
8 hann sem laust frumburði Egiptalands,
bæði menn og skepnur,

---

**17:** Lúk. 1, 69. — **133, 2:** 3 Mós. 8, 12. — **134, 3:** 4 Mós. 6, 24. — **135, 3:** Sálm. 147, 1. **4:** 2 Mós. 19, 5. **6:** Sálm. 115, 3. **7:** Jer. 10, 13.

9 sendi tákn og undur yfir þig, Egiptaland,
gegn Faraó og öllum þjónum hans;
10 hann, sem laust margar þjóðir
og deyddi volduga konunga:
11 Síhon, Amórítakonung,
og Óg, konung í Basan,
og öll konungsríki í Kanaan,
12 og gaf lönd þeirra að erfð,
að erfð Ísrael, lýð sínum.

13 Jahve, nafn þitt varir að eilífu,
minning þín, Jahve, frá kyni til kyns,
14 því að Jahve réttir hlut þjóðar sinnar
og aumkast yfir þjóna sína.
15 Skurðgoð heiðingjanna eru silfur og gull,
handaverk manna;
16 þau hafa munn, en tala ekki,
augu, en sjá ekki;
17 þau hafa eyru, en heyra ekki,
og eigi er heldur neinn andardráttur í munni þeirra.
18 Eins og þau eru, verða smiðir þeirra,
allir þeir, er á þau treysta.

19 Ísraels ætt, lofið Jahve,
Arons ætt, lofið Jahve!
20 Leví ætt, lofið Jahve,
þér sem óttist Jahve, lofið Jahve!
21 Lofaður sé Jahve frá Zíon,
hann sem býr í Jerúsalem! Halelúja.

---

**136** Þakkið Jahve, því að hann er góður,
því að miskunn hans varir að eilífu.
2 Þakkið Guði guðanna,
því að miskunn hans varir að eilífu,
3 þakkið drotni drotnanna,
því að miskunn hans varir að eilífu,
4 honum, sem einn gjörir mikil dásemdarverk,
því að miskunn hans varir að eilífu,
5 honum, sem skapaði himininn með speki,
því að miskunn hans varir að eilífu,
6 honum, sem breiddi jörðina út á vötnunum,
því að miskunn hans varir að eilífu;
7 honum, sem skapaði stóru ljósin,
því að miskunn hans varir að eilífu,
8 sólina til þess að ráða deginum,
því að miskunn hans varir að eilífu,
9 tunglið og stjörnurnar til þess að ráða nóttunni,
því að miskunn hans varir að eilífu;
10 honum, sem laust Egipta með deyðing frumburðanna,
því að miskunn hans varir að eilífu,
11 og leiddi Ísrael burt frá þeim,
því að miskunn hans varir að eilífu,

---

**10:** Sálm. 136, 17. 18. **11:** 4 Mós. 21, 21—24. 33—35. Jós. 12. **13:** Sálm. 102, 13. **14:** 5 Mós. 32, 36. **15:** Sálm. 115, 4 n. — **136, 2:** 5 Mós. 10, 17. **6:** Sálm. 24, 2. **7:** 1 Mós. 1, 14 n.

12 með sterkri hendi og útréttum armlegg,
því að miskunn hans varir að eilífu;
13 honum, sem skifti Rauðahafinu sundur,
því að miskunn hans varir að eilífu,
14 og lét Ísrael ganga gegnum það,
því að miskunn hans varir að eilífu,
15 og keyrði Faraó og her hans út í Rauðahafið,
því að miskunn hans varir að eilífu;
16 honum, sem leiddi lýð sinn gegnum eyðimörkina,
því að miskunn hans varir að eilífu,
17 honum, sem laust mikla konunga,
því að miskunn hans varir að eilífu,
18 og deyddi volduga konunga,
því að miskunn hans varir að eilífu,
19 Síhon, Amórítakonung,
því að miskunn hans varir að eilífu,
20 og Óg, konung í Basan,
því að miskunn hans varir að eilífu,
21 og gaf land þeirra að erfð,
því að miskunn hans varir að eilífu,
22 að erfð Ísrael þjóni sínum,
því að miskunn hans varir að eilífu;
23 honum, sem mintist vor í læging vorri,
því að miskunn hans varir að eilífu,
24 og frelsaði oss frá fjandmönnum vorum,
því að miskunn hans varir að eilífu,
25 sem gefur fæðu öllu holdi,
því að miskunn hans varir að eilífu.
26 Þakkið Guði himnanna,
því að miskunn hans varir að eilífu.

---

**137** Við Babel-fljót, þar sátum vér og grétum,
er vér mintumst Zíonar;
2 á pílviðina þar
hengdum vér upp gígjur vorar.
3 Því að þar heimtuðu herleiðendur vorir söngljóð af oss
og kúgarar vorir kæti:
Syngið oss Zíonarkvæði!
4 Hvernig ættum vér að syngja Jahve-ljóð
í öðru landi?
5 Ef eg gleymi þér, Jerúsalem,
þá visni mín hægri hönd;
6 tunga mín loði mér við góm,
ef eg eigi man til þín,
ef Jerúsalem er eigi allra bezta yndið mitt.

7 Mun þú Edóms niðjum, Jahve,
óheilladag Jerúsalem,
þegar þeir æptu: Rífið, rífið
alt niður til grunna!
8 Babel-dóttir, þú sem eyðileggur,
heill þeim, er geldur þér
fyrir það, sem þú hefir gjört oss.

**13:** 2 Mós. 14, 21 n. **17:** Sálm. 135, 10 n. **25:** Sálm. 104, 27 n. — **137, 7:** Harm. 4, 21. 22. Esek. 35, 1 n. Óbad. 1 n. **8:** Jes. 13, 19 n. Jer. 50, 29 n. 51, 24 n.

9 Heill þeim, er þrífur ungbörn þín
og slær þeim niður við stein.

---

## 138

Eftir Davíð.

Eg vil lofa þig af öllu hjarta,
lofsyngja þér frammi fyrir guðunum;
2 eg vil falla fram fyrir þínu heilaga musteri
og lofa nafn þitt sakir miskunnar þinnar og trúfesti,
því að þú hefir gjört nafn þitt, orð þitt, meira öllu öðru.
3 Þegar eg hrópaði, bænheyrðir þú mig,
þú veittir mér hugmóð, er eg fann kraft hjá mér.

4 Allir konungar á jörðu skulu lofa þig, Jahve,
er þeir heyra orðin af munni þínum,
5 þeir skulu syngja um vegu Jahve,
því að mikil er dýrð Jahve.
6 Því að Jahve er hár og sér þó hina lítilmótlegu
og þekkir hinn drambláta í fjarska.

7 Þótt eg sé staddur í þrenging,
lætur þú mig lífi halda,
þú réttir út hönd þína gegn reiði óvina minna,
og hægri hönd þín hjálpar mér.
8 Jahve mun koma öllu vel til vegar fyrir mig;
Jahve, miskunn þín varir að eilífu,
yfirgef eigi verk handa þinna.

---

## 139

Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.

Jahve, þú rannsakar og þekkir mig.
2 Hvort sem eg sit eða stend, þá veizt þú það,
þú skynjar hugrenningar mínar álengdar.
3 Hvort sem eg geng eða ligg, þá athugar þú það,
og alla vegu mína gjörþekkir þú,
4 því að eigi er það orð á tungu minni,
að þú, Jahve, þekkir það eigi til fulls.
5 Þú umlykur mig á bak og brjóst,
og hönd þína hefir þú lagt á mig;
6 það er undursamlegra en svo, að eg fái skilið,
of háleitt, eg er því eigi vaxinn.

7 Hvert get eg farið frá anda þínum
og hvert flúið frá augliti þínu?
8 Þótt eg stigi upp í himininn, þá ertu þar,
þótt eg gjörði undirheima að hvílu minni, sjá, þú ert þar;
9 þótt eg lyfti mér á vængi morgunroðans
og settist við hið yzta haf,
10 einnig þar mundi hönd þín leiða mig
og hægri hönd þín halda mér;
11 og þótt eg segði: »Myrkrið hylji mig
og ljósið í kring um mig verði nótt«,
12 þá myndi þó myrkrið eigi verða þér of myrkt
og nóttin lýsa eins og dagur;
myrkur og ljós eru jöfn fyrir þér.

---

**9:** Jes. 13, 16. — **138, 4:** Sálm. 102, 16. **6:** Sálm. 113, 5 n. **8:** Sálm. 57, 3. — **139, 1:** Sálm. 44, 22. **2:** Matt. 9, 4. **8:** Am. 9, 2.

13 Því að þú hefir myndað nýru mín,
ofið mig í móðurlífi;
14 eg lofa þig fyrir það, að þú hefir birzt ægilega undursamlegur;
undursamleg eru verk þín,
og sál mín þekkir það vel.
15 Beinin í mér voru þér eigi hulin,
þegar eg var gjörður í leyni,
myndaður í djúpum jarðar.
16 Augu þín sáu mig, er eg enn var ómyndað efni,
æfidagar voru ákveðnir og allir skráðir í bók þína,
áður en nokkur þeirra var til orðinn.
17 En hversu torskildar eru mér hugsanir þínar, ó Guð,
hversu stórkostlegar eru þær allar samanlagðar;
18 ef eg vildi telja þær, væru þær fleiri en sandkornin,
eg mundi vakna og vera enn með hugann hjá þér.

19 Ó að þú, Guð, vildir deyða hina óguðlegu
og morðingjarnir vikju frá mér,
20 þeir er þrjózkast gegn þér með svikum
og leggja nafn þitt við hégóma.
21 Ætti eg eigi, Jahve, að hata þá, er hata þig,
og hafa viðbjóð á þeim, er rísa gegn þér?
22 Eg hata þá fullu hatri,
þeir eru orðnir óvinir mínir.
23 Prófa mig, Guð, og þektu hjarta mitt;
rannsaka mig og þektu hugsanir mínar;
24 og sjá þú, hvort eg geng á glötunarvegi,
og leið mig hinn eilífa veg.

---

140 Til helgisöngs. Davíðs-sálmur.
2 Frelsa mig, Jahve, frá illmennum,
vernda mig fyrir ofríkismönnum,
3 þeim er hyggja á ilt í hjarta sínu
og vekja ófrið á degi hverjum;
4 þeir gjöra tungur sínar hvassar sem höggormar,
nöðru-eitur er undir vörum þeirra. Sela.
5 Varðveit mig, Jahve, fyrir hendi óguðlegra,
vernda mig fyrir ofríkismönnum,
er hyggja á að bregða fæti fyrir mig.
6 Ofstopamenn hafa lagt gildrur í leyni fyrir mig
og þanið út snörur eins og net,
hjá vegarbrúninni hafa þeir lagt möskva fyrir mig. Sela.
7 Eg sagði við Jahve: »Þú ert Guð minn,
ljá eyra, Jahve, grátraust minni.
8 Jahve, drottinn, mín máttuga hjálp,
þú hlífir höfði mínu á orustudeginum.
9 Uppfyll eigi, Jahve, óskir hins óguðlega,
lát vélar hans eigi hepnast«. Sela.
10 Þeir skulu eigi hefja höfuðið umhverfis mig,
ranglæti vara þeirra skal hylja sjálfa þá;
11 hann láti rigna á þá eldsglóðum,
hrindi þeim í eldinn,
í gryfjur, svo að þeir fái eigi upp staðið.

---

**13:** Job. 10, 11. **17:** Sálm. 40, 6; 92, 6. — **140, 4:** Róm. 3, 13. **6:** Sálm. 142, 4.
**10:** Sálm. 7, 17.

12 Illmáll maður skal eigi fá staðist í landinu,
ofríkismanninn skal ógæfan elta með sífeldum höggum.
13 Eg veit, að Jahve flytur mál volaðra,
rekur réttar aumingjanna.
14 Vissulega skulu hinir réttlátu lofa nafn þitt,
hinir hreinskilnu búa fyrir augliti þínu.

---

## 141

Davíðs-sálmur.

Jahve, eg ákalla þig, skunda þú til mín,
ljá eyra raust minni, er eg ákalla þig.
2 Bæn mín sé framborin sem ilmfórn fyrir auglit þitt,
upplyfting handa minna sem matfórn að kveldi.
3 Set þú, Jahve, vörð fyrir munn minn,
gæzlu fyrir dyr vara minna.
4 Lát eigi hjarta mitt hneigjast að neinu illu,
að því að fremja óguðleg verk með illvirkjum,
og lát mig eigi eta krásir þeirra.
5 Slái réttlátur maður mig af elsku og hirti mig,
þá skal höfuð mitt eigi færast undan höfuðsmyrslum,
en geri hann það aftur, þá snýst bæn mín gegn ilsku þeirra.
6 Dómurum þeirra verður hrundið niður af kletti,
og þeir hafa heyrt orð mín, að þau eru yndisleg.
7 Eins og maður plægir og klýfur jörðina,
svo var beinum vorum tvístrað í gin Heljar.
8 Því að til þín, Jahve, drottinn, mæna augu mín,
hjá þér leita eg hælis, sel þú eigi fram líf mitt.
9 Varðveit mig fyrir gildru þeirra, er sitja um mig,
og fyrir snörum illvirkjanna.
10 Hinir óguðlegu falli í sitt eigið net, allir saman,
en eg sleppi undan.

---

## 142

Maskíl eftir Davíð, er hann var í hellinum. Bæn.

2 Eg hrópa hástöfum til Jahve,
hástöfum grátbæni eg Jahve.
3 Eg úthelli kveini mínu fyrir honum,
tjái honum neyð mína.
4 Þegar andi minn örmagnaðist í mér —
en þú þekkir götu mína —
hafa þeir, á leið þeirri, er eg geng,
lagt snörur leynt fyrir mig.
5 Eg lít til hægri handar og skygnist um,
en enginn kannast við mig;
mér er varnað sérhvers hælis,
enginn spyr eftir mér.
6 Eg hrópa til þín Jahve,
eg segi: Þú ert hæli mitt,
hlutdeild mín á landi lifenda.
7 Veit athygli kveini mínu,
því að eg er mjög þjakaður,
bjarga mér frá ofsækjendum mínum,
því að þeir eru mér yfirsterkari.

---

**141, 2:** Opinb. 5, 8. **4:** Sálm. 119, 36. **10:** Sálm. 7, 16. — **142, 1:** Sálm. 57, 1. **4:** Sálm. 140, 6. **6:** Sálm. 16, 5.

8 Leið mig út úr dýflissunni,
að eg megi lofa nafn þitt;
hinir réttlátu skipast í kring um mig,
þegar þú gjörir vel til mín.

---

143 Davíðs-sálmur.
Jahve, heyr þú bæn mína,
ljá eyra grátbeiðni minni í trúfesti þinni;
bænheyr mig í réttlæti þínu,
2 og gakk eigi í dóm við þjón þinn,
því að enginn lifandi maður er réttlátur fyrir augliti þínu.
3 Því að óvinurinn eltir sál mína,
slær líf mitt til jarðar,
lætur mig búa í myrkri
eins og þá, sem löngu eru dánir.
4 Andi minn örmagnast í mér,
hjarta mitt er agndofa hið innra í mér;
5 eg minnist fornra daga,
íhuga allar gjörðir þínar,
ígrunda verk handa þinna.
6 Eg breiði út hendurnar í móti þér,
sál mín er sem örþrota land fyrir þér. Sela.

7 Flýt þér að bænheyra mig, Jahve,
andi minn örmagnast;
byrg eigi auglit þitt fyrir mér,
svo að eg verði ekki líkur þeim, er gengnir eru til grafar.
8 Lát þú mig heyra miskunn þína að morgni dags,
því að þér treysti eg;
gjör mér kunnan þann veg, er eg á að ganga,
því að til þín hef eg sál mína.
9 Frelsa mig frá óvinum mínum, Jahve,
þín bíð eg.
10 Kenn mér að gjöra vilja þinn,
því að þú ert minn Guð;
þinn góði andi leiði mig
um slétta braut.
11 Veit mér að lifa, Jahve, sakir nafns þíns,
leið mig úr nauðum sakir réttlætis þíns,
12 og eyð þú sakir miskunnar þinnar óvinum mínum
og tortím öllum þeim, er að mér þrengja,
því að eg er þjónn þinn.

---

144 Eftir Davíð.
Lofaður sé Jahve, bjarg mitt,
sem æfir hendur mínar til bardaga,
fingur mína til orustu,
2 miskunn mín og vígi, háborg mín og hjálpari,
skjöldur minn og athvarf,
sem leggur þjóðir undir mig.

---

**143, 2:** Job 9, 2. 3; 15, 14. Róm. 3, 23. **3:** Sálm. 88, 4—7. Harm. 3, 6. **5:** Sálm. 77, 6. **6:** Sálm. 63, 2. **7:** Sálm. 28, 1. **8:** Sálm. 25, 4. **10:** Sálm. 27, 11. — **144, 1:** Sálm. 18, 35. **2:** Sálm. 18, 3. 44. 48.

3 Jahve, hvað er maðurinn þess, að þú þekkir hann,
mannsins barn, að þú gefir því gaum.
4 Maðurinn er sem vindblær,
dagar hans sem hverfandi skuggi.
5 Jahve, sveig þú himin þinn og stíg niður,
snertu fjöllin, svo að úr þeim rjúki;
6 lát eldinguna leiftra og tvístra þeim,
skjót örvum þínum og skelf þá.
7 Rétt út hönd þína frá hæðum,
hríf mig burt og bjarga mér úr hinum miklu vötnum,
af hendi útlendinganna,
8 hverra munnur mælir tál
og hægri hönd þeirra er lyginnar hægri hönd.

9 Guð, eg vil syngja þér nýjan söng,
eg vil leika fyrir þér á tístrengjaða hörpu,
10 þú sem veitir konungunum sigur,
sem hrífur Davíð þjón þinn undan hinu illa sverði.
11 Hríf mig burt og bjarga mér af hendi útlendinganna,
hverra munnur mælir tál
og hægri hönd þeirra er lyginnar hægri hönd —
12 til þess að synir vorir megi verða sem þroskaðir teinungar í æsku sinni,
dætur vorar sem hornsúlur, úthöggnar í hallarstíl,
13 hlöður vorar fullar og veiti afurðir af hverri tegund,
fénaður vor geti af sér þúsundir,
verði tíþúsundfaldur á haglendum vorum,
14 uxar vorir klyfjaðir,
ekkert skarð og engir hernumdir
og ekkert óp á torgum vorum.
15 Sæl er sú þjóð, sem svo er ástatt fyrir,
sæl er sú þjóð, sem á Jahve að Guði.

---

## 145

Davíðs-lofsöngur.

Eg vil vegsama þig, ó Guð minn, þú konungur,
og prísa nafn þitt um aldur og æfi.
2 Á hverjum degi vil eg prísa þig
og lofa nafn þitt um aldur og æfi.
3 Mikill er Jahve og mjög vegsamlegur,
mikilleikur hans er órannsakanlegur.
4 Ein kynslóðin vegsamar verk þín fyrir annari
og kunngjörir máttarverk þín.
5 Þær segja frá tign og dýrð vegsemdar þinnar,
eg vil syngja um dásemdir þínar.
6 Og um mátt ógnarverka þinna tala þær,
eg vil segja frá stórvirkjum þínum.
7 Þær minna á þína miklu gæzku
og fagna yfir réttlæti þínu.

8 Náðugur og miskunnsamur er Jahve,
þolinmóður og mjög gæzkuríkur.
9 Jahve er öllum góður
og miskunn hans nær til allra hans verka.

---

3: Sálm. 8, 5. 4: Sálm. 39, 6. 7. Job 8, 9. 5: Sálm. 18, 10 n. 104, 32. 7: Sálm. 18, 17. 15: Sálm. 33, 12.

10 Öll verk þín lofa þig, Jahve,
og dýrkendur þínir prísa þig.
11 Þeir tala um dýrð konungdóms þíns,
segja frá veldi þínu,
12 til þess að kunngjöra mönnum veldi þitt,
hina dýrðlegu tign konungdóms þíns.
13 Konungdómur þinn er konungdómur um allar aldir
og ríki þitt stendur frá kyni til kyns.
Jahve er trúfastur í öllum orðum sínum
og miskunnsamur í öllum verkum sínum.
14 Jahve styður alla þá, er ætla að hníga,
og reisir upp alla niðurbeygða.
15 Allra augu vona á þig
og þú gefur þeim fæðu þeirra á réttum tíma,
16 þú lýkur upp hendi þinni
og seður alt, sem lifir, með blessun.
17 Jahve er réttlátur í öllum sínum vegum
og miskunnsamur í öllum verkum sínum.
18 Jahve er nálægur öllum, sem ákalla hann,
öllum, sem ákalla hann í einlægni.
19 Hann uppfyllir ósk þeirra, er óttast hann,
og hróp þeirra heyrir hann og hjálpar þeim.
20 Jahve varðveitir alla þá, er elska hann,
en eyðir öllum óguðlegum.
21 Munnur minn skal mæla lofstír Jahve,
alt hold vegsami hans heilaga nafn um aldur og æfi.

---

146 Halelúja.
Lofa þú Jahve, sála mín!
2 Eg vil lofa Jahve meðan lifi,
lofsyngja Guði mínum, meðan eg er til.
3 Treystið eigi tignarmennum,
manni, sem enga hjálp getur veitt;
4 andi hans líður burt, hann verður aftur að jörðu,
á þeim degi verða áform hans að engu.
5 Sæll er sá, er á Jakobs Guð sér til hjálpar,
sem setur von sína á Jahve, Guð sinn,
6 hann sem skapað hefir himin og jörð,
hafið og alt, sem í þeim er,
hann sem varðveitir trúfesti sína að eilífu,
7 sem rekur réttar kúgaðra,
veitir brauð hungruðum.
Jahve leysir hina bundnu,
8 Jahve opnar augu blindra.
Jahve reisir upp niðurbeygða,
Jahve elskar réttláta.
9 Jahve varðveitir útlendingana,
hann annast ekkjur og föðurlausa,
en óguðlega lætur hann fara villa vegar.
10 Jahve er konungur að eilífu,
Guð þinn, Zíon, frá kyni til kyns. Halelúja.

---

**145, 14:** Sálm. 37, 17. 24; 146, 8. **15:** Sálm. 104, 27 n. **19:** Orðskv. 10, 24. — **146, 2:** Sálm. 104, 33. **3:** Sálm. 118, 8. 9. Jer. 17, 5. **4:** Sálm. 104, 29. **7:** Sálm. 68. 6. 7; 103, 6. **8:** Sálm. 145, 14. Jes. 35, 5; 42, 7. Matt. 11, 5. **9:** 5 Mós. 10, 18. **10:** Sálm. 10, 16.

**147** Halelúja,
því að það er gott að leika fyrir Guði vorum,
því að hann er yndislegur, honum hæfir lofsöngur.
2 Jahve endurreisir Jerúsalem,
safnar saman hinum tvístruðu af Ísrael;
3 hann læknar þá, er hafa sundurkramið hjarta,
og bindur um benjar þeirra.
4 Hann ákveður tölu stjarnanna,
kallar þær allar með nafni.
5 Mikill er drottinn vor og ríkur að veldi,
speki hans er ómælanleg;
6 Jahve annast volaða,
en óguðlega lægir hann að jörðu.

7 Syngið Jahve með þakklæti,
leikið á gígju fyrir Guði vorum,
8 hann hylur himininn skýjum,
býr regn handa jörðunni,
lætur gras spretta á fjöllunum;
9 hann gefur skepnunum fóður þeirra,
hrafnsungunum, þegar þeir kalla.
10 Hann hefir eigi mætur á styrkleika hestsins,
eigi þóknun á fótleggjum mannsins.
11 Jahve hefir þóknun á þeim, er óttast hann,
þeim er bíða miskunnar hans.

12 Vegsama Jahve, Jerúsalem,
lofa þú Guð þinn, Zíon,
13 því að hann hefir gjört sterka slagbrandana fyrir hliðum þínum,
blessað börn þín, sem í þér eru;
14 hann gefur landi þínu frið,
seður þig á hinu kjarnbezta hveiti;
15 hann sendir orð sitt til jarðar,
boð hans hleypur með hraða.
16 Hann gefur snjó eins og ull,
stráir út hrími sem ösku.
17 Hann sendir hagl sitt sem brauðmola;
hver fær staðist frost hans?
18 Hann sendir út orð sitt og lætur ísinn þiðna,
lætur vind sinn blása og vötnin renna.
19 Hann kunngjörði Jakob orð sitt,
Ísrael lög sín og ákvæði.
20 Svo hefir hann eigi gjört við neina þjóð,
þeim kennir hann ekki ákvæði sín. Halelúja.

---

**148** Halelúja.
Lofið Jahve af himnum,
lofið hann á hæðum.
2 Lofið hann, allir englar hans,
lofið hann, allar hersveitir hans;
3 lofið hann, sól og tungl,
lofið hann, allar lýsandi stjörnur;

---

**147, 1:** Sálm. 92, 2; 135, 3. **2:** Jes. 11, 12. **3:** Sálm. 34, 19. **4:** Jes. 40, 26. **6:** Sálm. 146, 8. **9:** Sálm. 104, 27 n. **10:** Sálm. 33, 16—18. **14:** Sálm. 81, 17. **19:** 5 Mós. 33, 4. **20:** 5 Mós. 4, 8. — **148, 2:** Sálm. 103, 20 n.

4 lofið hann, himnar himnanna
og vötnin, sem eru yfir himninum.
5 Þau skulu lofa nafn Jahve,
því að hans boði voru þau sköpuð.
6 Og hann fékk þeim stað um aldur og æfi,
hann gaf þeim lög, sem þau mega eigi brjóta.

7 Lofið Jahve af jörðu,
þér sjóskrimsl og allir hafstraumar,
8 eldur og hagl, snjór og reykur,
stormbylurinn, sem framkvæmir orð hans,
9 fjöllin og allar hæðir,
ávaxtartrén og öll sedrustrén;
10 villidýrin og allur fénaður,
skriðkvikindin og fleygir fuglar;
11 konungar jarðarinnar og allar þjóðir,
höfðingjar og allir dómendur jarðar;
12 bæði yngismenn og yngismeyjar,
öldungar og ungir sveinar:
13 þeir skulu lofa nafn Jahve,
því að hans nafn eitt er hátt upphafið,
tign hans er yfir jörð og himni.
14 Hann lyftir upp horni fyrir lýð sinn;
lofsöngur hljómi hjá öllum dýrkendum hans,
hjá sonum Ísraels, þjóðinni, sem er nálæg honum. Halelúja.

---

149 Halelúja.
Syngið Jahve nýjan söng,
lofsöngur hans hljómi í söfnuði guðhræddra;
2 Ísrael gleðjist yfir skapara sínum,
synir Zíonar fagni yfir konungi sínum.
3 Þeir skulu lofa nafn hans með gleðidans,
leika fyrir honum á bumbur og gígjur.
4 Því að Jahve hefir þóknun á lýð sínum,
hann skreytir hina voluðu með sigri.
5 Hinir guðhræddu skulu fagna með sæmd,
kveða fagnaðarópi í hvílum sínum,
6 með lofgjörð Guðs í barka sér
og tvíeggjað sverð í höndunum,
7 til þess að framkvæma hefnd á heiðingjunum,
hirtingu á þjóðunum,
8 til þess að binda konunga þeirra með fjötrum,
þjóðhöfðingja þeirra með járnhlekkjum,
9 til þess að fullnægja á þeim skráðum dómi;
það er til vegsemdar öllum dýrkendum hans. Halelúja!

---

150 Halelúja!
Lofið Guð í helgidómi hans,
lofið hann í hans voldugu festingu!
2 Lofið hann fyrir máttarverk hans,
lofið hann eftir mikilleik hátignar hans!

---

**4:** 1 Mós. 1, 7. **5:** Sálm. 33, 6. 9. **6:** Job 28, 24 n. **13:** Sálm. 8, 2. — **149, 4:** Sálm. 147, 11.

[3] Lofið hann með lúðurhljómi,
lofið hann með hörpu og gígju!
[4] Lofið hann með bumbum og gleðidansi,
lofið hann með strengleik og hjarðpípum!
[5] Lofið hann með hljómandi skálabumbum,
lofið hann með hvellum skálabumbum!
[6] Alt, sem andardrátt hefir, lofi Jah! Halelúja.

# Orðskviðirnir.

1 Orðskviðir Salómós Davíðssonar,
Ísraels konungs,
[2] til þess að menn kynnist vizku og aga,
læri að skilja skynsamleg orð,
[3] til þess að menn fái viturlegan aga,
réttlæti, réttvísi og ráðvendni,
[4] til þess að þeir veiti hinum óreyndu hyggindi,
unglingum þekking og aðgætni, —
[5] hinn vitri hlýðir á og eykur lærdóm sinn
og hinn hygni nemur hollar lífsreglur —
[6] til þess að menn skilji orðskviði og líkingamál,
orð spekinganna og gátur þeirra.

---

[7] Ótti Jahve er upphaf þekkingar;
vizku og aga fyrirlíta afglapar einir.
[8] Hlýð þú, son minn, á áminning föður þíns
og hafna eigi viðvörun móður þinnar;
[9] því að þær eru yndislegur sveigur á höfði þér
og men um háls þinn.
[10] Son minn, þegar skálkar ginna þig,
þá gegn þeim eigi.
[11] Þegar þeir segja: »Kom með oss!
Leggjumst í launsátur til manndrápa,
sitjum án saka um saklausan mann;
[12] gleypum þá lifandi, eins og Helja,
með húð og hári, eins og þá, sem farnir eru til dánarheima.
[13] Alls konar dýra muni munum vér eignast,
fylla hús vor rændum fjármunum.
[14] Þú skalt taka jafnan hlut með oss,
einn sjóð skulum vér allir hafa« —
[15] son minn, þá haf ekki samleið við þá,
halt fæti þínum frá stig þeirra.
[16] Því að fætur þeirra eru skjótir til ills
og fljótir til að úthella blóði.
[17] Því að til einskis liggur netið útþanið
í augsýn allra fleygra fugla,

1, 1: 1 Kong. 4, 32. 7: Job 28, 28. 8: kap. 6, 20. 16: Jes. 59, 7. Róm. 3, 15.

18 og slíkir menn sitja um sitt eigið líf,
liggja í launsátri fyrir sjálfum sér.
19 Þannig fer öllum þeim, sem fíknir eru í rangfenginn gróða:
fíknin verður þeim að fjörlesti.

20 Spekin kallar hátt á strætunum,
lætur rödd sína gjalla á torgunum.
21 Hún hrópar á glaummiklum gatnamótum,
við borgarhliðin heldur hún tölur sínar:
22 Hversu lengi ætlið þér, fávísir, að elska fávísi
og hinir háðgjörnu að hafa yndi af háði
og heimskingjarnir að hata þekkingu?
23 Snúist til umvöndunar minnar,
sjá, eg læt anda minn streyma yfir yður,
kunngjöri yður orð mín.
24 En af því að þér færðust undan, þá er eg kallaði,
og enginn gaf því gaum, þótt eg rétti út höndina,
25 heldur létuð öll mín ráð sem vind um eyrun þjóta
og skeyttuð eigi umvöndun minni,
26 þá mun eg hlæja í ógæfu yðar,
draga dár að, þegar skelfingin dynur yfir yður,
27 þegar skelfingin dynur yfir yður eins og þrumuveður
og ógæfa yðar nálgast eins og fellibylur,
þegar neyð og angist dynja yfir yður.
28 Þá munu þeir kalla á mig, en eg mun ekki svara;
þeir munu leita mín, en ekki finna mig.
29 Vegna þess, að þeir hötuðu þekking
og aðhyltust ekki ótta Jahve,
30 skeyttu ekki ráðum mínum
og smáðu alla umvöndun mína,
31 þá skulu þeir fá að neyta ávaxtar breytni sinnar
og mettast af sínum eigin vélræðum.
32 Því að fráhvarf fávísra drepur þá
og uggleysi heimskingjanna tortímir þeim.
33 En sá, sem á mig hlýðir, mun búa óhultur,
mun vera öruggur og engri óhamingju kvíða.

2 Son minn, ef þú veitir orðum mínum viðtöku
og geymir boðorð mín hjá þér,
2 svo að þú ljáir spekinni athygli þína,
hneigir hjarta þitt að hyggindum,
3 já, ef þú kallar á skynsemina
og hrópar á hyggindin,
4 ef þú leitar að þeim sem að silfri
og grefst eftir þeim eins og fólgnum fjársjóðum,
5 þá munt þú skilja, hvað ótti Jahve er,
og öðlast þekking á Guði.
6 Því að Jahve veitir speki;
af munni hans kemur þekking og hyggindi;
7 hann geymir hinum ráðvöndu gæfuna,
er skjöldur þeirra, sem breyta grandvarlega,
8 með því að hann vakir yfir stigum réttarins
og varðveitir veg sinna guðhræddu.

---

19: 1 Tím. 6, 10. 24: Jes. 65, 12; 66, 4. Jer. 7, 13. 31: Jes. 3, 11.

9 Þá munt þú og skilja, hvað réttlæti er og réttur
og ráðvendni, — í stuttu máli sérhverja braut hins góða.
10 Því að speki mun koma í hjarta þitt
og þekking verða sálu þinni yndisleg;
11 aðgætni mun vernda þig
og hyggindin varðveita þig, —
12 til þess að frelsa þig frá vegi hins illa,
frá þeim mönnum, sem fara með fals,
13 sem yfirgefa stigu einlægninnar
og ganga á vegum myrkursins;
14 sem hafa gleði af því að gjöra ilt,
fagna yfir ilsku-hrekkjum;
15 sem gjöra vegu sína hlykkjótta
og komnir eru út á glapstigu í breytni sinni;
16 til þess að frelsa þig frá annars manns konu,
frá annarlegri konu, sem mælir bliðskaparorðum,
17 sem yfirgefið hefir unnusta æsku sinnar
og gleymt sáttmála Guðs síns;
18 því að hús hennar hnígur í dauðann
og brautir hennar liggja niður til framliðinna;
19 þeir sem inn til hennar fara, snúa engir aftur,
og aldrei komast þeir á lífsins stigu; —
20 til þess að þú gangir á vegi góðra manna
og haldir þig á stigum réttlátra.
21 Því að hinir hreinskilnu munu byggja landið
og hinir grandvöru verða eftir í því.
22 En hinir óguðlegu munu upprættir verða úr landinu
og hinum svikulu verða útrýmt þaðan.

3 Son minn, gleym eigi kenning minni,
og hjarta þitt varðveiti boðorð mín;
2 því að langa lífdaga og farsæl ár
og velgengni munu þau veita þér í ríkum mæli.
3 Kærleiki og trúfesti munu aldrei yfirgefa þig.
Bind þau um háls þér,
rita þau á spjald hjarta þíns,
4 þá munt þú ávinna þér hylli og fögur hyggindi
bæði í augum Guðs og manna.
5 Treystu Jahve af öllu hjarta,
en reiddu þig ekki á eigið hyggjuvit.
6 Mundu til hans á öllum þínum vegum,
þá mun hann gjöra stigu þína slétta.
7 Þú skalt ekki þykjast vitur;
óttast Jahve og forðast ilt;
8 það mun verða heilnæmt fyrir líkama þinn
og hressandi fyrir bein þín.
9 Tigna Jahve með eigum þínum
og með frumgróða allrar uppskeru þinnar,
10 þá munu hlöður þínar verða nægtafullar
og vínberjalögurinn flóa út af vínlagarþróm þínum.

11 Son minn, lítilsvirð eigi ögun Jahve
og lát þér eigi gremjast umvöndun hans;

---

**2, 16:** kap. 6, 24; 5, 3. **17:** Mal. 2, 14. **21:** Sálm. 37, 9. — **3, 3:** kap. 7, 3. **7:** Róm. 12, 16. **9:** 2 Mós. 23, 19. 5 Mós. 26, 2. **10:** 5 Mós. 28, 8. **11:** Hebr. 12, 5. 6.

12 því að Jahve agar þann, sem hann elskar,
og lætur þann son kenna til, sem hann hefir mætur á.
13 Sæll er sá maður, sem öðlast hefir speki,
sá maður, sem hyggindi hlotnast.
14 Því að betra er að afla sér hennar en að afla silfurs,
og arðurinn af henni ágætari en gull.
15 Hún er dýrmætari en perlur
og allir dýrgripir þínir jafnast ekki á við hana.
16 Langir lífdagar eru í hægri hendi hennar,
auður og mannvirðingar í vinstri hendi hennar.
17 Vegir hennar eru yndislegir vegir
og allar götur hennar velgengni.
18 Hún er lífstré þeim, sem grípa hana,
og sæll er hver sá, er heldur fast í hana.
19 Jahve grundvallaði jörðina með vizku,
festi himininn af hyggjuviti.
20 Fyrir þekking hans mynduðust hafdjúpin
og drýpur döggin úr skýjunum.

21 Son minn, lát þær eigi víkja frá augum þínum,
varðveit þú vizku og gætni,
22 þá munu þær verða líf sálu þinni
og prýði fyrir háls þinn.
23 Þá muntu ganga óhultur veg þinn
og eigi drepa við fæti.
24 Þegar þú legst til hvíldar, þarft þú ekki að hræðast,
og hvílist þú, mun svefninn verða vær.
25 Þú þarft ekki að óttast skyndilega hræðslu,
né eyðilegging hinna óguðlegu, þegar hún dynur yfir.
26 Því að Jahve mun vera athvarf þitt
og varðveita fót þinn, að hann verði eigi fanginn.

27 Synja eigi góðs þeim, er þarfnast þess,
ef það er á þínu valdi að gjöra það.
28 Seg þú ekki við náunga þinn: »Far og kom aftur!
á morgun skal eg gefa þér« — ef þú þó átt það til.
29 Brugga eigi ilt gegn náunga þínum,
þegar hann býr öruggur hjá þér.
30 Deil ekki við neinn að ástæðulausu,
ef hann hefir ekki gjört þér neitt mein.
31 Öfunda ekki ofbeldismanninn
og haf engar mætur á neinum gjörðum hans.
32 Því að andstygð er sá Jahve, er afvega fer,
en ráðvandir menn alúðarvinir hans.
33 Bölvun Jahve er yfir húsi hins óguðlega,
en bústað réttlátra blessar hann.
34 Spottsama spottar hann,
en litillátum veitir hann náð.
35 Vitrir menn munu heiður hljóta,
en heimskingjar bera smán úr býtum.

4 Heyrið, synir, áminning föður yðar
og hlýðið til, svo að þér lærið hyggindi!

**12:** 5 Mós. 8, 5. Opinb. 3, 19. **14:** kap. 8, 10 n. 19. Job 28, 13 n. **16:** v. 2. Kap. 8, 18. **23:** Sálm. 91, 12. **24:** Sálm. 3, 6; 4, 9. **25:** Sálm. 91, 5 n. **33:** 3 Mós. 26, 14 n. **34:** Jak. 4, 6. 1 Pét. 5, 5.

2 Því að góðan lærdóm gef eg yður,
hafnið eigi kenning minni!
3 Því að þegar eg var sonur í föðurhúsum,
viðkvæmt einkabarn heima hjá móður minni,
4 þá kendi hann mér og sagði við mig:
»Hjarta þitt haldi fast orðum mínum;
varðveit þú boðorð mín, og muntu lifa!
5 Afla þér vizku, afla þér hygginda!
Gleym eigi og vík eigi frá orðum munns míns!
6 Hafna henni eigi, þá mun hún varðveita þig,
elska hana, þá mun hún vernda þig.
7 Upphaf vizkunnar er: afla þér vizku,
afla þér hygginda fyrir allar eigur þínar!
8 Haf hana í hávegum, þá mun hún hefja þig;
hún mun koma þér til vegs, ef þú umfaðmar hana.
9 Hún mun setja yndislegan sveig á höfuð þér,
sæma þig prýðilegri kórónu«.

10 Heyr þú, son minn, og veit viðtöku orðum mínum,
þá munu æfiár þín mörg verða.
11 Eg vísa þér veg spekinnar,
leiði þig á brautir ráðvendninnar.
12 Gangir þú þær, skal leið þín ekki verða þröng,
og hlaupir þú, skalt þú ekki hrasa.
13 Haltu fast í agann, sleptu honum ekki,
varðveittu hann, því að hann er líf þitt.
14 Kom þú eigi á götu óguðlegra
og gakk eigi á vegi vondra manna.
15 Sneið hjá honum, farðu hann ekki,
snú þú frá honum og farðu fram hjá.
16 Því að þeir geta ekki sofið, nema þeir hafi gjört ilt,
og þeim kemur ekki dúr á auga, nema þeir hafi felt einhvern.
17 Því að þeir eta glæpabrauð
og drekka ofbeldisvín.
18 Gata réttlátra er eins og bjartur árdagsljómi,
sem verður æ skærari fram á hádegi.
19 Vegur óguðlegra er eins og niðamyrkur;
þeir vita ekki, um hvað þeir hrasa.

20 Son minn, gef gaum að ræðu minni,
hneig eyra þitt að orðum mínum.
21 Lát þau eigi víkja frá augum þínum;
varðveit þau inst í hjarta þínu.
22 Því að þau eru líf þeirra, er öðlast þau,
og lækning fyrir allan líkama þeirra.
23 Varðveit hjarta þitt framar öllu öðru,
því að þar eru uppsprettur lífsins.
24 Haltu fláræði munnsins burt frá þér
og lát fals varanna vera fjarri þér.
25 Augu þín líti beint fram
og augnalok þín horfi beint fram undan þér.
26 Gjör braut fóta þinna slétta,
og allir vegir þínir séu staðfastir.

---

**4, 3:** 1 Kron. 22, 5. **4:** 3 Mós. 18, 5. **10:** kap. 3, 2. 2 Mós. 20, 12. **14:** Sálm. 1, 1.
**21:** kap. 3, 21. **22:** kap. 3, 8.

27 Vík hvorki til hægri né vinstri;
haltu fæti þínum burt frá illu.

5 Son minn, gef gaum að speki minni,
hneig eyra þitt að hyggindum mínum,
2 til þess að þú megir varðveita mannvit
og varir þínar geymi þekkingu.
3 Því að hunangsseimur drýpur af vörum annars manns konu
og gómur hennar er hálli en olía.
4 En að síðustu er hún beiskari en malurt,
beitt eins og tvíeggjað sverð.
5 Fætur hennar ganga niður til dauðans,
spor hennar liggja til heljar.
6 Til þess að hún hitti ekki leið lífsins,
eru brautir hennar á reiki og hún veit ekki hvert hún fer.
7 Heyrið mig því, synir,
og víkið eigi frá orðum munns míns.
8 Legg leið þína langt frá henni
og kom þú ekki nálægt húsdyrum hennar,
9 svo að þú gefir ekki öðrum æskublóma þinn
og ár þín grimmum manni,
10 svo að útlendir menn mettist ekki af eigum þínum
og aflafé þitt lendi ekki í húsi óviðkomandi manns,
11 og þú andvarpir að lokum,
þá er líkami þinn og hold veslast upp,
12 og segir: Hversu hefi eg hatað aga,
og hjarta mitt fyrirlitið umvöndun!
13 að eg skyldi ekki hlýða raustu kennara minna
og hneigja eyra mitt til þeirra, er fræddu mig!
14 Við sjálft lá, að eg hefði ratað í mestu ógæfu
mitt á dómþingi safnaðarins.

15 Drekk þú vatn úr vatnsþró þinni
og rennandi vatn úr brunni þínum.
16 Eiga lindir þínar að flóa út á götuna,
lækir þínir út á torgin?
17 Þér einum skulu þær tilheyra
og engum óviðkomandi með þér.
18 Uppspretta þín sé blessuð,
og gleð þig yfir festarmey æsku þinnar,
19 elsku-hindinni, yndis-gemsunni.
Brjóst hennar gjöri þig ætíð drukkinn
og ást hennar fjötri þig æfinlega.
20 En hví skyldir þú, son minn, láta annars manns konu töfra þig,
og faðma barm annarlegrar konu?
21 Því að vegir sérhvers manns blasa við Jahve,
og allar brautir hans gjörir hann sléttar.
22 Misgjörðir hans fanga hann, hinn óguðlega,
og hann verður veiddur í snörur synda sinna.
23 Hann mun deyja vegna skorts á aga
og kollsteypast vegna sinnar miklu heimsku.

---

**27:** 5 Mós. 5. 32. Jós. 1, 7. — **5, 1:** kap. 4, 20. **3:** Sálm. 55, 22. Orðskv. 2, 16.
**15:** kap. 9, 17. **18:** Préd. 9, 9.

6 Son minn, hafir þú gengið í ábyrgð fyrir náunga þinn,
hafir þú gengið til handsala fyrir annan mann,
2 hafir þú ánetjað þig með orðum munns þíns,
látið veiðast með orðum munns þíns,
3 þá gjör þetta, son minn, til að losa þig
— því að þú ert kominn á vald náunga þíns —
far þú, varpa þér niður og legg að náunga þínum.
4 Lát þér eigi koma dúr á auga,
né blund á brá.
5 Losa þig eins og skógargeit úr höndum hans,
eins og fugl úr höndum fuglarans.

6 Far þú til maursins, letingi!
skoða háttu hans og verð hygginn.
7 Þótt hann hafi engan höfðingja,
engan yfirboðara eða valdsherra,
8 þá aflar hann sér samt vista á sumrin
og dregur saman fæðu sína um uppskerutímann.
9 Hversu lengi ætlar þú, letingi, að hvílast?
hve nær ætlar þú að rísa af svefni?
10 Sofa ögn enn, blunda ögn enn,
leggja saman hendurnar ögn enn, til að hvílast!
11 Þá kemur fátæktin yfir þig eins og ræningi
og skorturinn eins og vopnaður maður.

12 Varmenni, illmenni er sá,
sem gengur um með fláttskap í munni,
13 sem deplar augunum, gefur merki með fótunum,
bendir með fingrunum,
14 elur fláræði í hjarta sínu,
upphugsar ávalt ilt, kveikir illdeilur.
15 Fyrir því mun ógæfa skyndilega yfir hann koma;
snögglega mun hann sundurmolast og engin lækning fást.

16 Sex hluti hatar Jahve
og sjö eru sálu hans andstygð:
17 drembileg augu, lygin tunga
og hendur, sem úthella saklausu blóði,
18 hjarta, sem bruggar glæpsamleg ráð,
fætur, sem fráir eru til illverka,
19 ljúgvottur, sem lygar mælir,
og sá er kveikir illdeilur meðal bræðra.

20 Varðveit þú, son minn, boðorð föður þíns
og hafna eigi viðvörun móður þinnar.
21 Fest þau á hjarta þitt stöðuglega,
bind þau um háls þinn.
22 Þegar þú ert á gangi, þá leiði hún* þig,
þegar þú hvílist, vaki hún yfir þér,
og þegar þú vaknar, þá ræði hún við þig.
23 Því að boðorð er lampi og viðvörun ljós
og agandi áminningar leið til lífsins,
24 með því að þær varðveita þig fyrir vondri konu,
fyrir hálli tungu hinnar annarlegu.

---

**6, 4:** Sálm. 132, 4. **6:** kap. 30, 25. **8:** kap 10, 5. **10:** kap. 24, 33. **18:** kap. 10, 10. Sálm. 35, 19. **20:** kap. 1, 8. **22:** * Þ. e. spekin. **23:** Sálm. 119, 105. **24:** kap. 2, 16.

25 Girnst eigi fríðleik hennar í hjarta þínu
og lát hana eigi töfra þig með augnahárum sínum.
26 Því að vegna hórkonu komast menn ofan í einn brauðhleif,
og annars kona sækist eftir dýru lífi.
27 Getur nokkur borið svo eld í barmi sínum,
að föt hans sviðni ekki?
28 Eða getur nokkur gengið á glóðum,
án þess að brenna sig á fótunum?
29 Svo fer þeim, sem hefir mök við konu náunga síns,
enginn sá kemst klaklaust af, sem hana snertir.
30 Fyrirlíta menn eigi þjófinn, þó að hann steli
til þess að seðja græðgi sína, af því að hann er hungraður?
31 Og náist hann, verður hann að borga sjöfalt,
verður að láta allar eigur húss síns.
32 En sá, sem drýgir hór með giftri konu, er vitstola;
sá einn gjörir slíkt, er tortíma vill sjálfum sér.
33 Högg og smán mun hann hljóta,
og skömm hans mun aldrei afmáð verða.
34 Því að afbrýði er karlmanns-reiði,
og hann hlífir ekki á hefndarinnar degi.
35 Hann lítur ekki við neinum bótum
og friðast eigi, þótt þú ryðjir í hann gjöfum.

7 Son minn, varðveit þú orð mín
og geym þú hjá þér boðorð mín.
2 Varðveit þú boðorð mín, og þá munt þú lifa,
og áminning mína eins og sjáaldur auga þíns.
3 Bind þau á fingur þína,
skrifa þau á spjald hjarta þíns.
4 Seg við spekina: Þú ert systir mín!
og kallaðu skynsemina »vinkonu«,
5 svo að þær varðveiti þig fyrir annars manns konu,
fyrir annarlegri konu, sem mælir blíðskaparorðum.
6 Út um gluggann á húsi mínu,
út um grindurnar skimaði eg,
7 og sá þar meðal hinna óreyndu,
varð meðal sveinanna var við ungan mann vitstola.
8 Hann gekk á strætinu nálægt horni einu,
og fetaði leiðina að húsi hennar,
9 í rökkrinu, að kveldi dags,
um miðja nótt og í niðdimmu.
10 Gekk þá kona í móti honum,
búin sem portkona og undirförul í hjarta —
11 hávær er hún og óhemjuleg;
fætur hennar tolla aldrei heima;
12 hún er ýmist á götunum eða á torgunum,
og situr um menn hjá hverju horni —;
13 hún þrífur í hann og kyssir hann
og segir við hann, ósvífin í bragði:
14 »Eg átti að greiða heillafórn,
í dag hefi eg goldið heit mitt.
15 Fyrir því fór eg út til móts við þig,
til þess að leita þín, og hefi nú fundið þig.

**31:** 2 Mós. 22, 1 n. — **7, 2:** kap. 4, 4. **3:** kap. 3, 3. **5:** kap. 2, 16. **7:** kap. 6, 32.
**11:** 1 Tím. 5, 13.

16 Eg hefi búið rúm mitt ábreiðum,
marglitum ábreiðum úr egipzku líni.
17 Myrru, alóe og kanel
hefi eg stökt á hvílu mína.
18 Kom þú, við skulum drekka okkur ástdrukkin fram á morgun,
gamna okkur með blíðuhótum.
19 Því að maðurinn minn er ekki heima;
hann er farinn í langferð.
20 Peningapyngjuna tók hann með sér;
hann kemur ekki heim fyr en í tunglfylling«.
21 Hún tældi hann með sínum áköfu fortölum,
ginti hann með kjassmælum sínum.
22 Hann fer rakleiðis á eftir henni,
eins og naut gengur fram á blóðvöllinn,
og eins og hjörtur, sem anar í netið,
23 unz örin fer í gegnum lifur hans,
eins og fuglinn hraðar sér í snöruna,
og veit ekki að líf hans er í veði.
24 Og nú, þér yngismenn, hlýðið á mig
og gefið gaum að orðum munns míns.
25 Lát eigi hjarta þitt teygjast á vegu hennar,
vilst eigi inn á stigu hennar.
26 Því að margir eru þeir, sem hún hefir sært til ólífis,
og mesti grúi allir þeir, sem hún hefir myrt.
27 Hús hennar er helvegur,
sá er liggur niður til dánarheimkynna.

8 Heyr, spekin kallar
og hygnin lætur raust sína gjalla.
2 Uppi á hæðunum við veginn,
þar sem göturnar kvíslast — stendur hún.
3 Við hliðin, þar sem gengið er út úr borginni,
þar sem gengið er inn um dyrnar, kallar hún hátt:
4 Til yðar, menn, tala eg,
og raust mín hljómar til mannanna barna.
5 Þér óreyndu, lærið hyggindi,
og þér heimskingjar, lærið skynsemi.
6 Hlýðið á, því að eg tala það, sem göfuglegt er,
og varir mínar tjá það, sem rétt er.
7 Því að sannleika mælir gómur minn
og guðleysi er viðbjóður vörum mínum.
8 Einlæg eru öll orð munns míns,
í þeim er ekkert fals né fláræði.
9 Öll eru þau einföld þeim, sem skilning hefir,
og blátt áfram fyrir þann, sem hlotið hefir þekkingu.
10 Takið á móti ögun minni fremur en á móti silfri
og fræðslu fremur en úrvals-gulli.
11 Því að vizka er betri en perlur
og engir dýrgripir jafnast á við hana.

12 Eg, spekin, er handgengin hyggindunum
og ræð yfir ráðdeildarsamri þekking.
13 Að óttast Jahve er að hata hið illa;

**27:** kap. 2, 18; 5, 5. — **8, 1:** kap. 1, 20. **5:** kap. 1, 4. **10:** kap. 3, 14; 16, 16. **11:** kap. 3, 15. **13:** kap. 16, 6.

drambsemi og ofdramb og illa breytni
og fláráðan munn — það hata eg.
14 Mín er ráðspekin og framkvæmdarsemin,
eg er hygnin, minn er krafturinn.
15 Fyrir mína hjálp ríkja konungarnir
og úrskurða höfðingjarnir réttvíslega.
16 Fyrir mína hjálp stjórna stjórnendurnir
og tignarmennin — allir valdsmenn á jörðu.
17 Eg elska þá, sem mig elska,
og þeir, sem leita mín, finna mig.
18 Auður og heiður eru hjá mér,
æfagamlir fjármunir og réttlæti.
19 Ávöxtur minn er betri en gull og gimsteinar
og eftirtekjan eftir mig betri en úrvals-silfur.
20 Eg geng á götu réttlætisins,
á stigum réttarins miðjum,
21 til þess að gefa þeim sanna auðlegð, er elska mig,
og fylla forðabúr þeirra.

22 Jahve skóp mig í upphafi vega sinna,
á undan öðrum verkum sínum, fyrir alda öðli.
23 Frá eilífð var eg sett til valda,
frá upphafi, áður jörðin var til.
24 Eg fæddist áður en hafdjúpin urðu til,
þá er engar vatnsmiklar lindir voru til.
25 Áður en fjöllunum var hleypt niður,
á undan hæðunum fæddist eg,
26 áður en hann skapaði völl og vengi
og fyrstu moldarkekki jarðríkis.
27 Þegar hann gjörði himininn, þá var eg þar,
þegar hann setti hvelfinguna yfir hafdjúpið,
28 þegar hann festi skýin uppi,
þegar uppsprettur hafdjúpsins komust í skorður,
29 þegar hann setti hafinu takmörk,
til þess að vötnin færu eigi lengra en hann bauð,
þegar hann festi undirstöður jarðar.
30 Þá stóð eg honum við hlið sem verkstýra,
og eg var yndi hans dag hvern,
leikandi mér fyrir augliti hans alla tíma,
31 leikandi mér á jarðarkringlu hans,
og hafði yndi mitt af mannanna börnum.

32 Og nú, þér yngismenn, hlýðið mér,
því að sælir eru þeir, sem varðveita vegu mína.
33 Hlýðið á aga, svo að þér verðið vitrir,
og látið hann eigi sem vind um eyrun þjóta.
34 Sæll er sá maður, sem hlýðir mér,
svo að hann vakir daglega við dyr mínar
og geymir dyrustafa minna.
35 Því að sá, sem mig finnur, finnur lífið
og hlýtur blessun af Jahve.
36 En sá, sem missir mín, skaðar sjálfan sig;
allir þeir, sem hata mig, elska dauðann.

---

**17:** Jóh. 14, 21. **19:** kap. 3, 14. **25:** Job 38, 6. Sálm. 90, 2. **29:** Job 38, 10. 11.
**32:** Lúk. 11, 28. **35:** kap. 12, 2.

9 Spekin hefir reist sér hús,
höggvið til sjö stólpa sína.
2 Hún hefir slátrað sláturfé sínu, byrlað vín sitt,
já, hún hefir þegar búið borð sitt.
3 Hún hefir sent út þernur sínar; hún kallar
á háum stöðum í borginni:
4 »Hver, sem óreyndur er, fari hingað!«
Við þann, sem óvitur er, segir hún:
5 »Komið, etið mat minn
og drekkið vínið, sem eg hefi byrlað.
6 Látið af heimskunni, þá munuð þér lifa,
og fetið veg hyggindanna«.
7 Sá, sem áminnir spottara, bakar sér smán,
og þeim, sem ávítar óguðlegan, verður það til vansa.
8 Ávíta eigi spottarann, svo að hann hati þig eigi;
ávíta hinn vitra, og hann mun elska þig.
9 Gef hinum vitra, þá verður hann að vitrari;
fræð hinn réttláta, og hann mun auka lærdóm sinn.
10 Ótti Jahve er upphaf vizkunnar
og að þekkja hinn Heilaga eru hyggindi.
11 Því að fyrir mitt fulltingi munu dagar þínir verða margir
og ár lífs þíns aukast.
12 Sért þú vitur, þá ert þú vitur þér til góðs,
en sért þú spottari, þá mun það bitna á þér einum.
13 Frú Heimska er óhemja,
einföld og veit ekkert.
14 Hún situr úti fyrir húsdyrum sínum,
á stól uppi á háu stöðunum í borginni,
15 til þess að kalla á þá, sem um veginn fara,
þá er ganga beint áfram leið sína:
16 »Hver, sem óreyndur er, fari hingað!«
og við þann, sem óvitur er, segir hún:
17 »Stolið vatn er sætt,
og lostætt er launetið brauð«.
18 Og hann veit ekki, að þar eru hinir framliðnu,
að þeir, sem hún hefir boðið heim, eru í djúpum heljar.

---

10 Orðskviðir Salómós.
Vitur sonur gleður föður sinn,
en heimskur sonur er móður sinni til mæðu.
2 Rangfenginn auður stoðar ekki,
en réttlæti frelsar frá dauða.
3 Jahve lætur ekki réttlátan mann þola hungur,
en græðgi guðlausra hrindir hann frá sér.
4 Snauður verður sá, er með hangandi hendi vinnur,
en auðs aflar iðin hönd.
5 Hygginn er sá, er á sumri safnar,
en skammarlega fer þeim, er um kornsláttinn sefur.
6 Blessun kemur yfir höfuð hins réttláta,
en munnur óguðlegra byrgir ofbeldi.

---

**9, 2:** Matt. 22, 4. Lúk. 14, 17. Sálm. 23, 5. **9:** Matt. 13, 12. **10:** kap. 1, 7. **11:** kap. 3, 2. **13:** kap. 7, 11. **14:** v. 3. **16:** v. 4. **17:** kap. 20, 17. **18:** kap. 7, 27. — **10, 1:** kap. 17, 25. **2:** kap. 11, 4. Esek. 7 19. **4:** kap 12, 24. **5:** kap. 6, 8.

7 Minning hins réttláta verður blessuð,
en nafn óguðlegra fúnar.
8 Sá, sem er vitur í hjarta, þýðist boðorðin,
en sá, sem er afglapi í munninum, steypir sér í glötun.
9 Sá, sem gengur ráðvandlega, gengur óhultur,
en sá, sem gjörir vegu sína hlykkjótta, verður uppvís.
10 Sá, sem deplar með auganu, veldur skapraun;
en sá, sem finnur að með djörfung, semur frið.
11 Munnur hins réttláta er lífslind,
en munnur óguðlegra byrgir ofbeldi.
12 Hatur vekur illdeilur,
en kærleikurinn breiðir yfir alla bresti.
13 Vizka er á vörum hyggins manns,
en baki hins óvitra hæfir vöndurinn.
14 Vitrir menn geyma þekking sína,
en munnur afglapans er yfirvofandi hrun.
15 Auður ríks manns er honum öflugt vígi,
en fátækt hinna snauðu verður þeim að falli.
16 Afli hins réttláta verður til lífs,
gróði hins óguðlega til syndar.
17 Sá fer lífsins leið, er varðveitir aga,
en sá villist, er hafnar umvöndun.
18 Sá, er leynir hatri, er lygari,
og sá, sem ber út óhróður, er heimskingi.
19 Málæðinu fylgja yfirsjónir,
en sá breytir hyggilega, sem hefir taum á tungu sinni.
20 Tunga hins réttláta er úrvals-silfur;
vit hins óguðlega er lítils virði.
21 Varir hins réttláta fæða marga,
en afglaparnir deyja úr vitleysu.
22 Blessun Jahve, hún auðgar,
og erfiði mannsins bætir engu við hana.
23 Heimskingjanum er ánægja að fremja svívirðing,
en vizkan hygnum manni.
24 Það, sem hinn óguðlegi óttast, kemur yfir hann,
en réttlátum gefst það, er þeir girnast.
25 Þegar vindbylurinn skellur á, er úti um hinn óguðlega,
en hinn réttláti stendur á eilífum grundvelli.
26 Það sem edik er tönnunum og reykur augunum,
það er letinginn þeim, er hann senda.
27 Ótti Jahve lengir lífdagana,
en æfiár óguðlegra verða stytt.
28 Eftirvænting réttlátra endar í gleði,
en von óguðlegra verður að engu.
29 Stjórn Jahve er athvarf sakleysisins,
en hrun þeim, er aðhafast ilt.
30 Hinn réttláti bifast ekki að eilífu,
en hinir óguðlegu munu ekki byggja landið.
31 Munnur hins réttláta framleiðir vizku,
en fláráð tunga verður upprætt.
32 Varir hins réttláta vita, hvað geðfelt er,
en munnur óguðlegra er eintóm flærð.

---

7: Sálm. 9, 6. 10: kap. 6, 13. 11: Sálm. 37, 30. 12: 1 Pét. 4, 8. 1 Kor. 13, 4 n.
22: Sálm. 127, 2. 24: Sálm. 145, 19. 27: kap. 3, 2. 31: Sálm. 37, 30.

11 Svikavog er Jahve andstygð,
en full vog yndi hans.
2 Komi hroki, kemur smán,
en hjá lítillátum er vizka.
3 Ráðvendni hreinskilinna leiðir þá,
en undirferli svikulla tortímir þeim.
4 Auðæfi stoða ekki á degi reiðinnar,
en réttlæti frelsar frá dauða.
5 Réttlæti hins ráðvanda gjörir veg hans sléttan,
en hinn óguðlegi fellur um guðleysi sitt.
6 Réttlæti hinna hreinskilnu frelsar þá,
en hinir svikulu ánetjast í eigin græðgi.
7 Þegar óguðlegur maður deyr, verður von hans að engu,
og eftirvænting glæpamannanna er að engu orðin.
8 Hinn réttláti frelsast úr nauðum,
og hinn óguðlegi kemur í hans stað.
9 Með munninum steypir hinn guðlausi náunga sínum í glötun,
en hinir réttlátu frelsast fyrir þekkingu.
10 Borgin fagnar yfir gæfu réttlátra,
og þegar óguðlegir farast, gjalla gleðiópin.
11 Borgin hefst fyrir blessun hreinskilinna,
en fyrir munn óguðlegra steypist hún.
12 Óvitur maður sýnir náunga sínum fyrirlitningu,
en hygginn maður þegir.
13 Sá, er gengur um sem rógberi, lýstur upp leyndarmálum,
en sá, sem er staðfastur í lund, leynir sökinni.
14 Þar sem engin stjórn er, þar fellur þjóðin,
en þar sem margir ráðgjafar eru, fer alt vel.
15 Hrapallega fer fyrir þeim, er gengur í ábyrgð fyrir annan mann,
en sá, sem hatar handsöl, er óhultur.
16 Yndisleg kona hlýtur sæmd
og ofríkismenn hljóta auðæfi.
17 Kærleiksríkur maður gjörir sálu sinni gott,
en hinn grimmi kvelur sitt eigið hold.
18 Hinn óguðlegi aflar sér svikuls ávinnings,
en sá, er réttlæti sáir, sannra launa.
19 Iðki einhver réttlæti, þá leiðir það til lífs,
en ef hann eltir hið illa, leiðir það hann til dauða.
20 Andstygð fyrir Jahve eru þeir, sem hafa rangsnúið hjarta,
en yndi hans þeir, er breyta ráðvandlega.
21 Hér er höndin upp á það: hinn vondi sleppur ekki óhegndur!
en niðjar réttlátra komast undan.
22 Eins og gullhringur í svínstrýni,
svo er fríð kona, sem enga siðprýði kann.
23 Óskir hinna réttlátu leiða aðeins til góðs,
en vonir óguðlegra leiða yfir sig reiðidóm.
24 Sumir miðla öðrum mildilega, og eignast æ meira,
aðrir halda í meira en rétt er, og verða þó fátækari.
25 Velgjörðasöm sál mettast ríkulega,
og sá, sem gefur öðrum að drekka, skal og sjálfur drykkjaður verða.
26 Fólkið formælir þeim, sem heldur í kornið,
en blessun kemur yfir höfuð þess, er selur það.

**11, 1:** kap. 16, 11; 20, 10. 23. 3 Mós. 19, 35. 36. **2:** kap. 16, 18. **4:** kap. 10, 2. **7:** kap. 10, 28. **8:** kap. 21, 18. **10:** kap. 28, 12. **18:** kap. 20, 19. 3 Mós. 19, 16. **14:** kap. 15, 22. **15:** kap. 6, 1 n. **19:** kap. 19, 23. **20:** kap. 17, 20; 12, 22. **21:** kap. 16, 5. **24:** Sálm. 112, 9. **25:** 2 Kor. 9, 6.

27 Sá, sem leitar góðs, stundar það, sem velþóknanlegt er,
en sá, sem sækist eftir illu, verður fyrir því.
28 Sá, sem treystir á auð sinn, hann fellur,
en hinir réttlátu munu grænka eins og laufið.
29 Sá, sem kemur ólagi á heimilishag sinn, erfir vind,
og afglapinn verður þjónn hins vitra.
30 Ávöxtur hins réttláta er lífstré
og hinn vitri hyllir að sér hjörtun.
31 Sjá, hinn réttláti fær endurgjald hér á jörðu,
hvað þá hinn óguðlegi og syndarinn?

12 Sá, sem elskar aga, elskar þekking,
en sá, sem hatar umvöndun, er heimskur.
2 Hinn góði hlýtur velþóknun af Jahve,
en hrekkvísan mann fyrirdæmir hann.
3 Enginn maður nær fótfestu með óguðleika,
en rót hinna réttlátu mun eigi bifast.
4 Væn kona er kóróna manns síns,
en vond kona er sem rotnun í beinum hans.
5 Hugsanir réttlátra stefna að rétti,
en ráðagjörðir óguðlegra að svikum.
6 Orð óguðlegra brugga banaráð,
en munnur hreinskilinna frelsar þá.
7 Óguðlegir kollsteypast og eru eigi framar til,
en hús réttlátra stendur.
8 Manninum verður hrósað eftir vitsmunum hans,
en sá, sem er rangsnúinn í hjarta, verður fyrirlitinn.
9 Betra er að láta lítið yfir sér og hafa þjón
en að berast mikið á og hafa ekki ofan í sig.
10 Hinn réttláti er nærgætinn um þörf skepna sinna,
en hjarta óguðlegra er hart.
11 Sá, sem yrkir land sitt, mettast af brauði,
en sá, sem sækist eftir hégómlegum hlutum, er óvitur.
12 Hinn óguðlegi ágirnist feng hinna vondu,
en rót réttlátra er varanleg.
13 Yfirsjón varanna er ill snara,
en hinn réttláti bjargast úr nauðum.
14 Af ávexti munnsins mettast maðurinn gæðum,
og það, sem hendur hans hafa öðrum gjört, kemur aftur [yfir hann.
15 Afglapanum finst sinn vegur réttur,
en vitur maður hlýðir á ráð.
16 Gremja afglapans kemur þegar í ljós,
en kænn maður dylur smán sína.
17 Sá, sem segir sannleikann hispurslaust, mælir fram það, sem rétt er,
en falsvotturinn svik.
18 Þvaður sumra manna er sem spjóts-stungur,
en tunga hinna vitru græðir.
19 Sannmálar varir munu ávalt standast,
en lygin tunga aðeins augnablik.
20 Yfir svikum búa þeir, er ilt brugga;
en gleði valda þeir, er ráða til friðar.
21 Réttlátum manni ber aldrei böl að hendi,
en óhamingja hleðst á óguðlega.

---

**27:** Sálm. 7, 17. **28:** Sálm. 49, 6. 7. **30:** kap. 3, 18. Jak. 5, 19. 20. **31:** 1 Pét. 4, 18. — **12, 4:** kap. 31, 10 n. **11:** kap. 28, 19. **14:** kap. 13, 2. **17:** kap. 6, 19.

22 Lygavarir eru Jahve andstygð,
en þeir, sem sannleik iðka, eru yndi hans.
23 Kænn maður fer dult með þekking sína;
en hjarta heimskingjanna fer hátt með flónsku sína.
24 Hönd hinna iðnu mun drotna,
en hangandi höndin verður vinnuskyld.
25 Hugsýki beygir manninn,
en vingjarnlegt orð gleður hann.
26 Hinn réttláti kýs sér haglendi sitt,
en vegur óguðlegra leiðir þá í villu.
27 Letinginn nær ekki villibráðinni,
en iðnin er manninum dýrmætur auður.
28 Á vegi réttlætisins er líf,
en glæpaleiðin liggur út í dauðann.

13 Vitur sonur hlýðir umvöndun föður síns,
en spottarinn sinnir engum átölum.
2 Maðurinn nýtur góðs af ávexti munnsins,
en svikarana þyrstir í ofbeldi.
3 Sá, sem geymir munns síns, varðveitir líf sitt,
en glötun er búin þeim, er ginið glennir.
4 Sál letingjans girnist og fær ekki,
en sál hinna iðnu mettast ríkulega.
5 Réttlátur maður hatar fals,
en hinn óguðlegi fremur skömm og svívirðu.
6 Réttlætið verndar grandvara breytni,
en guðleysið steypir syndaranum.
7 Einn þykist ríkur, en á þó ekkert,
annar læzt vera fátækur, en á þó mikinn auð.
8 Auðæfi mannsins eru lausnargjald fyrir líf hans,
en hinn fátæki þarf ekki að hlýða á neina hótun.
9 Ljós réttlátra logar skært,
en á lampa óguðlegra sloknar.
10 Með hroka vekja menn aðeins þrætur,
en hjá ráðþægnum mönnum er vizka.
11 Skjótfenginn auður minkar,
en sá, sem safnar smátt og smátt, verður ríkur.
12 Langdregin eftirvænting gjörir hjartað sjúkt,
en uppfylt ósk er lífstré.
13 Sá, sem fyrirlítur áminningarorð, býr sér glötun,
en sá, sem óttast boðorðið, hlýtur umbun.
14 Kenning hins vitra er lífslind,
til þess að forðast snöru dauðans.
15 Góðir vitsmunir veita hylli,
en vegur svikaranna leiðir í glötun.
16 Kænn maður gjörir alt með skynsemd,
en heimskinginn breiðir út vitleysu.
17 Óguðlegur sendiboði steypir í ógæfu,
en trúr sendimaður er meinabót.
18 Fátækt og smán hlýtur sá, er lætur áminning sem vind um eyrun þjóta;
en sá, sem tekur umvöndun, verður heiðraður.

---

**22:** kap. 6, 17; 11, 20. **23:** kap. 13, 16. **24:** kap. 10, 4; 13, 4. **25:** kap. 15, 13. — **13, 2:** kap. 12, 14. **8:** kap. 21, 23. **10:** kap. 28, 25. **14:** kap. 10, 11. **16:** kap. 15, 2. **18:** kap. 15, 5. 32.

19 Uppfylt ósk er sálunni sæt,
en að forðast ilt er heimskingjunum andstygð.
20 Haf umgengni við vitra menn, þá verður þú vitur,
en illa fer þeim, sem leggur lag sitt við heimskingja.
21 Óhamingjan eltir syndarana,
en gæfan nær hinum réttlátu.
22 Góður maður leifir barnabörnum sínum arf,
en eigur syndarans eru geymdar hinum réttláta.
23 Nýbrotið land fátæklinganna gefur mikla fæðu,
en mörgum er burtu kipt fyrir ranglæti sitt.
24 Sá, sem sparar vöndinn, hatar son sinn,
en sá, sem elskar hann, agar hann snemma.
25 Hinn réttláti etur nægju sína,
en kviður óguðlegra líður skort.
14 Vizka kvennanna reisir húsið,
en fíflskan rífur það niður með höndum sínum.
2 Sá, sem framgengur í hreinskilni sinni, óttast Jahve,
en sá, sem fer krókaleiðir, fyrirlítur hann.
3 Í munni afglapans er vöndur á hroka hans,
en varir hinna vitru varðveita þá.
4 Þar sem engin naut eru, þar er jatan tóm,
en fyrir kraft uxans fæst mikill ágóði.
5 Sannorður vottur lýgur ekki,
en falsvottur fer með lygar.
6 Spottarinn leitar vizku, en finnur ekki,
en hygnum manni er þekkingin auðfengin.
7 Gakk þú burt frá heimskum manni,
og þú hefir ekki kynst þekkingar-vörum.
8 Vizka hins kæna er í því fólgin, að hann skilur veg sinn,
en fíflska heimskingjanna er svik.
9 Sektarfórnin gjörir gys að afglöpunum,
en meðal hreinskilinna er velþóknun.
10 Hjartað eitt þekkir kvöl sína,
og jafnvel í gleði þess getur enginn annar blandað sér.
11 Hús óguðlegra mun eyðileggjast,
en tjald hreinskilinna mun blómgast.
12 Margur vegurinn virðist greiðfær,
en endar þó á helslóðum.
13 Jafnvel þótt hlegið sé, kennir hjartað til,
og endir gleðinnar er tregi.
14 Rangsnúið hjarta mettast af vegum sínum,
svo og góður maður af verkum sínum.
15 Einfaldur maður trúir öllu,
en kænn maður athugar fótmál sín.
16 Vitur maður óttast hið illa og forðast það,
en heimskinginn er framhleypinn og ugglaus.
17 Uppstökkur maður fremur fíflsku,
en hrekkvís maður verður hataður.
18 Einfeldningarnir erfa fíflsku,
en vitrir menn krýnast þekkingu.
19 Hinir vondu verða að lúta hinum góðu
og hinir óguðlegu við dyr réttlátra.

---

**19:** v. 12 **22:** Job 27, 16. 17. **24:** kap. 22, 15; 23, 13 n. **25:** kap. 10, 3. — **14, 5:** kap. 6, 19. **12:** kap. 16, 25. **18:** Préd. 2, 2. **14:** kap. 1, 31. **17:** kap. 12, 16.

20 Fátæklingurinn verður hvimleiður jafnvel vini sínum,
en ríkismanninn elska margir.
21 Sá, sem fyrirlítur vin sinn, drýgir synd,
en sæll er sá, sem miskunnar sig yfir hina voluðu.
22 Vissulega villast þeir, er ástunda ilt,
en ást og trúfesti ávinna þeir sér, er gott stunda.
23 Af öllu striti fæst ágóði,
en munnfleiprið eitt leiðir aðeins til skorts.
24 Vitrum mönnum er auður þeirra kóróna,
en fíflska heimskingjanna er og verður fíflska.
25 Sannorður vottur frelsar líf,
en sá, sem fer með lygar, er svikari.
26 Í ótta Jahve er örugt traust,
og synir slíks manns munu athvarf eiga.
27 Ótti Jahve er lífslind,
til þess að forðast snörur dauðans.
28 Fólksmergðin er prýði konungsins,
en mannaskorturinn steypir höfðingjanum.
29 Sá, sem er seinn til reiði, er ríkur að skynsemd,
en hinn bráðlyndi sýnir mikla fíflsku.
30 Hógvært hjarta er líf líkamans,
en ástríða er eitur í beinum.
31 Sá, sem kúgar snauðan mann, óvirðir þann er skóp hann,
en sá heiðrar hann, er miskunnar sig yfir fátækan.
32 Hinn óguðlegi fellur á ilsku sinni,
en hinum réttláta er ráðvendnin athvarf.
33 Í hjarta hyggins manns heldur vizkan kyrru fyrir,
en á meðal heimskingja gerir hún vart við sig.
34 Réttlætið hefur upp lýðinn,
en syndin er þjóðanna skömm.
35 Vitur þjónn hlýtur hylli konungsins,
en sá hefir reiði hans, sem skammarlega breytir.

15 Mjúklegt andsvar stöðvar bræði,
en meiðandi orð vekur reiði.
2 Af tungu hinna vitru drýpur þekking,
en munnur heimskingjanna eys úr sér vitleysu.
3 Augu Jahve eru alstaðar,
vakandi yfir vondum og góðum.
4 Hógværð tungunnar er lífstré,
en fals hennar veldur hugarkvöl.
5 Afglapinn smáir aga föður síns,
en sá, sem tekur umvöndun, verður hygginn.
6 Í húsi hins réttláta er mikill auður,
en glundroði er í gróðafé hins óguðlega.
7 Varir hinna vitru dreifa út þekkingu,
en hjarta heimskingjanna er rangsnúið.
8 Fórn óguðlegra er Jahve andstygð,
en bæn hreinskilinna er honum þóknanleg.
9 Vegur hins óguðlega er Jahve andstyggilegur,
en þann, sem stundar réttlæti, elskar hann.
10 Slæm hirting bíður þess, sem yfirgefur rétta leið,
sá, sem hatar umvöndun, hlýtur að deyja.

---

**20:** kap. 19, 7. **21:** Sálm. 41, 2. **23:** kap. 21, 5. **25:** v. 5. **27:** kap. 10, 11; 13, 14. **29:** kap. 19, 11. **31:** kap. 17, 5. — **15, 1:** kap. 25, 15. **2:** kap. 13, 16. **4:** kap. 12, 18. **5:** kap. 13, 18. **8:** kap. 21, 27. Jes. 1, 11. 15.

11 Dánarheimur og undirdjúpin eru opin fyrir Jahve,
hversu miklu fremur hjörtu mannanna barna!
12 Spottaranum er ekki vel við að vandað sé um við hann;
til viturra manna fer hann ekki.
13 Glatt hjarta gjörir andlitið hýrlegt,
en sé hrygð í hjarta, er hugurinn dapur.
14 Hjarta hins vitra leitar að þekking,
en munnur heimskingjanna gæðir sér á fíflsku.
15 Hinn volaði sér aldrei glaðan dag,
en sá, sem vel liggur á, er sífelt í veizlu.
16 Betra er lítið í ótta Jahve
en mikill fjársjóður með áhyggjum.
17 Betri er einn skamtur kálmetis með kærleika
en alinn uxi með hatri.
18 Bráðlyndur maður vekur deilur,
en sá, sem seinn er til reiði, stillir þrætu.
19 Vegur letingjans er eins og þyrnigerði,
en gata hreinskilinna er brautarvegur.
20 Vitur sonur gleður föður sinn,
en heimskur maður fyrirlítur móður sína.
21 Óvitrum manni er fíflskan gleði,
en skynsamur maður gengur beint áfram.
22 Áformin verða að engu, þar sem engin er ráðagerðin,
en ef margir leggja á ráðin, fá þau framgang.
23 Gleði hlýtur maðurinn af svari munns síns,
og hversu fagurt er orð í tíma talað!
24 Lífsins vegur liggur upp á við fyrir hinn hygna,
til þess að hann lendi ekki niður í helju.
25 Jahve rífur niður hús dramblátra,
en setur föst landamerki ekkjunnar.
26 Ill áform eru Jahve andstygð,
en hrein eru vingjarnleg orð.
27 Sá kemur ólagi á heimilishag sinn, sem fíkinn er í rangfenginn gróða,
en sá, sem hatar mútugjafir, mun lifa.
28 Hjarta hins réttláta íhugar, hverju svara skuli,
en munnur óguðlegra eys úr sér ilsku.
29 Jahve er fjarlægur óguðlegum,
en bæn réttlátra heyrir hann.
30 Vingjarnlegt augnaráð gleður hjartað,
góðar fréttir feita beinin.
31 Eyra, sem hlýðir á holla umvöndun,
mun búa meðal hinna vitru.
32 Sá, sem aga hafnar, fyrirlítur sjálfan sig,
en sá, sem hlýðir á umvöndun, aflar sér hygginda.
33 Ótti Jahve er ögun til vizku,
og auðmýkt er undanfari virðingar.

16 Fyrirætlanir hjartans eru á mannsins valdi,
en svar tungunnar kemur frá Jahve.
2 Manninum þykja allir sínir vegir hreinir,
en Jahve prófar hugarþelið.
3 Fel þú Jahve verk þín,
þá mun áformum þínum framgengt verða.

---

**11:** Job 26, 6. **13:** kap. 17, 22. **16:** 1 Tím. 6, 6. Orðskv. 16, 8. **17:** kap. 17, 1. **18:** kap. 26, 21; 29, 22. **22:** kap. 20, 18; 11, 14. **23:** kap. 25, 11. **24:** Kól. 3, 1. 2. **33:** kap. 18, 12 n. — **16, 1:** kap. 19, 21. **2:** kap. 21, 2; 24, 12. **3:** Sálm. 37, 5 n.

4 Alt hefir Jahve skapað til síns ákveðna marks,
svo og guðleysingjann til óheilladagsins.
5 Sérhver hrokafullur maður er Jahve andstygð;
hér er höndin upp á það: hann sleppur ekki óhegndur!
6 Með elsku og trúfesti er friðþægt fyrir misgjörð,
og fyrir ótta Jahve forðast menn hið illa.
7 Þegar Jahve hefir þóknun á breytni einhvers manns,
þá sættir hann og óvini hans við hann.
8 Betra er lítið með réttu
en miklar tekjur með röngu.
9 Hjarta mannsins upphugsar veg hans,
en Jahve stýrir gangi hans.
10 Goðsvar er á vörum konungsins,
í dómi mun munni hans ekki skeika.
11 Rétt reizla og metaskálar koma frá Jahve,
hans verk eru allir vogarsteinar í sjóði.
12 Að fremja ranglæti er konungum andstygð,
því að hásætið staðfestist fyrir réttlæti.
13 Réttlátar varir eru yndi konunga,
og þeir elska þann, er talar hreinskilni.
14 Konungsreiði er sem sendiboðar dauðans,
en vitur maður sefar hana.
15 Í mildilegu augnaráði konungs er líf,
og hylli hans er sem vorregns-ský.
16 Hversu miklu betra er að afla sér vizku en gulls
og ákjósanlegra að afla sér hygginda en silfurs.
17 Braut hreinskilinna er að forðast ilt;
að varðveita sálu sína er að gæta breytni sinnar.
18 Drambsemi er undanfari tortímingar
og oflæti veit á fall.
19 Betra er að vera lítillátur með auðmjúkum
en að skifta herfangi með dramblátum.
20 Sá, sem gefur gætur að orðinu, hreppir hamingju,
og sæll er sá, sem treystir Jahve.
21 Sá, sem er vitur í hjarta, verður hygginn kallaður,
og sætleiki varanna eykur fræðslu.
22 Lífslind er hygnin þeim, sem hana á,
en ögun afglapanna er þeirra eigin flónska.
23 Hjarta spekingsins gjörir munn hans hygginn
og eykur fræðsluna á vörum hans.
24 Vingjarnleg orð eru hunangsseimur,
sæt fyrir sálina, lækning fyrir beinin.
25 Margur vegurinn virðist greiðfær,
en endar þó á helslóðum.
26 Hungur erfiðismannsins erfiðar með honum,
því að munnur hans rekur á eftir honum.
27 Varmennið grefur óheillagröf,
og á vörum hans er sem brennandi eldur.
28 Vélráður maður kveikir illdeilur
og rógberinn veldur vinaskilnaði.
29 Ofbeldismaðurinn ginnir náunga sinn
og leiðir hann á vondan veg.

---

**5:** kap. 11, 21. **8:** kap. 15, 16. **11:** kap. 11, 1. **12:** kap. 20, 28; 25, 5. **14:** kap. 20, 2. **16:** kap. 3, 14; 8, 11. 19. **20:** Sálm. 2, 12. **27:** Jak. 3, 6. **28:** kap. 17, 9. **29:** kap. 1, 10 n.

30 Sá, sem lokar augunum, upphugsar vélræði,
sá, sem kreistir saman varirnar, er albúinn til ills.
31 Gráar hærur eru heiðurskóróna;
á vegi réttlætis öðlast menn hana.
32 Sá, sem seinn er til reiði, er betri en kappi,
og sá, sem stjórnar geði sínu, betri en sá, sem vinnur borgir.
33 Hlutkestinu er varpað í barminum,
en allir úrskurðir þess koma frá Jahve.
17 Betri er þurr brauðbiti með ró
en fult hús af fórnarkjöti með deilum.
2 Hygginn þræll verður drotnari yfir spiltum syni,
og hann tekur erfðahlut með bræðrunum.
3 Deiglan er fyrir silfrið og bræðsluofninn fyrir gullið,
en Jahve prófar hjörtun.
4 Illmennið gefur gaum að fláræðis-vörum;
lygin hlýðir á glæpa-tungu.
5 Sá, sem gjörir gys að fátækum, óvirðir þann, er skóp hann,
og sá, sem gleðst yfir ógæfu, sleppur ekki óhegndur.
6 Barnabörnin eru kóróna öldunganna,
og feðurnir eru heiður barnanna.
7 Ekki hæfa heimskum manni stóryrði,
hve miklu síður göfgum manni lygavarir.
8 Mútan er gimsteinn í augum þess, er hana fær;
hvert sem maður snýr sér með hana, kemur hann sínu fram.
9 Sá, sem breiðir yfir bresti, eflir kærleika,
en sá, sem ýfir upp sök, veldur vinaskilnaði.
10 Ávítur fá meira á hygginn mann
en hundrað högg á heimskingja.
11 Uppreisnarmaðurinn hyggur á ilt eitt,
en grimmur sendiboði mun sendur verða móti honum.
12 Betra er fyrir mann að mæta birnu, sem rænd er húnum sínum,
heldur en heimskingja í flónsku hans.
13 Sá, sem launar gott með illu,
frá hans húsi víkur ógæfan eigi.
14 Þegar deila byrjar, er sem tekin sé úr stífla,
lát því af þrætunni áður en rifrildi hefst.
15 Sá sem sekan sýknar og sá sem saklausan sakfellir,
þeir eru báðir Jahve andstygð.
16 Hvað stoða peningar í hendi heimskingjans,
til þess að kaupa speki, þar sem vitið er ekkert?
17 Vinur elskar ætíð
og í nauðum fæðist hann sem bróðir.
18 Óvitur maður er sá, er til handsala gengur,
sá, sem gengur í ábyrgð fyrir náunga sinn.
19 Sá elskar yfirsjón, sem þrætu elskar;
sá, sem háar gjörir dyr sínar, sækist eftir hruni.
20 Rangsnúið hjarta öðlast enga gæfu,
og sá, sem hefir fláráða tungu, hrapar í ógæfu.
21 Sá, sem getur af sér heimskingja, honum verður það til mæðu,
og faðir glópsins fagnar ekki.
22 Glatt hjarta veitir góða heilsubót,
en dapurt geð skrælir beinin.

---

**30:** kap. 6, 13. **31:** kap. 20, 29. **33:** Post. 1, 26. — **17, 1:** kap. 15, 17. **3:** kap. 27, 21. **5:** kap. 14, 31. **6:** Sálm. 128, 6. **9:** kap. 10, 12; 16, 28. **15:** Jes. 5, 23. **18:** kap. 6, 1 n. 11, 15. **20:** kap. 11, 20. **22:** kap. 15, 13.

23 Hinn óguðlegi þiggur mútur á laun,
til þess að beygja leiðir réttvísinnar.
24 Hygginn maður hefir vizkuna fyrir framan sig,
en augu heimskingjans eru úti á heimsenda.
25 Heimskur sonur er föður sínum til sorgar
og þeirri til angurs, er ól hann.
26 Það eitt, að sekta saklausan, er ekki gott,
en að berja tignarmenni, tekur þó út yfir.
27 Fámálugur maður er hygginn
og geðrór maður er skynsamur.
28 Afglapinn getur jafnvel álitist vitur, ef hann þegir,
hygginn, ef hann lokar vörunum.
18 Sérlyndur maður fer að sínum munum;
hann ilskast við öllu, sem hyggilegt er.
2 Heimskinginn hefir engar mætur á hyggindum,
heldur á því, að gjöra kunnar hugsanir sínar.
3 Þar sem hinn óguðlegi kemur, þar kemur og fyrirlitning,
og með smáninni kemur skömm.
4 Djúp vötn eru orð af manns munni,
rennandi lækur, vizkulind.
5 Það er ekki rétt að draga taum hins óguðlega,
að halla rétti hins saklausa í dómi.
6 Varir heimskingjans valda deilum,
og munnur hans kallar á högg.
7 Munnur heimskingjans verður honum að tjóni,
og varir hans eru snara fyrir líf hans.
8 Orð rógberans eru eins og sælgæti,
og þau læsa sig inn í instu fylgsni hjartans.
9 Sá, sem tómlátur er í verki sínu,
er skilgetinn bróðir eyðsluseggsins.
10 Nafn Jahve er sterkur turn;
þangað hleypur hinn réttláti og er þar óhultur.
11 Auður ríks manns er honum öflugt vígi
og ókleifur múrveggur í sjálfs hans ímyndun.
12 Ofmetnaður hjartans er undanfari falls,
en auðmýkt er undanfari virðingar.
13 Svari einhver áður en hann heyrir,
þá er honum það flónska og skömm.
14 Hugrekki mannsins heldur honum uppi í sjúkdómi hans,
en dapurt geð, hver fær borið það?
15 Hjarta hins hygna aflar sér þekkingar
og eyra hinna vitru leitar þekkingar.
16 Gjöf, sem maður gefur, rýmir til fyrir honum
og leiðir hann fram fyrir stórmenni.
17 Hinn fyrri sýnist hafa á réttu að standa í þrætumáli sínu,
en síðan kemur mótpartur hans og rannsakar röksemdir hans.
18 Hlutkestið gjörir enda á deilum
og sker úr milli sterkra.
19 Erfiðara er að ávinna svikinn bróður en að vinna rambygða borg,
og deilur slíkra manna eru sem slagbrandar fyrir hallardyrum.
20 Kviður mannsins mettast af ávexti munns hans,
af gróðri varanna mettast hann.

---

**24:** Préd. 2, 14. **25:** v. 21. Kap. 19, 13. **27:** kap. 10, 19. Jak. 1, 19. — **18, 4:** kap. 20, 5. **5:** kap. 28, 21. 5 Mós. 1, 17. **8:** kap. 26, 22. **10:** Sálm. 61, 4. **11:** kap. 10, 15. **12:** kap. 15, 33. **20:** kap. 12, 14.

21 Dauði og líf eru á tungunnar valdi,
og sá, sem hefir taum á henni, mun eta ávöxt hennar.
22 Sá, sem eignast konu, eignast gersemi,
og hlýtur náðargjöf af Jahve.
23 Hinn fátæki mælir bljúgum bænarorðum,
en hinn ríki svarar með hörku.
24 Að vera allra vinur er til tjóns,
en til er ástvinur, sem er tryggari en bróðir.
19 Betri er fátækur maður, sem framgengur í ráðvendni sinni,
heldur en lævís lygari og heimskur að auki.
2 Kapp er bezt með forsjá,
og sá, sem hraðar sér, misstígur sig.
3 Flónska mannsins steypir fyrirtækjum hans,
en hjarta hans ilskast við Jahve.
4 Auður fjölgar vinum;
en fátækur maður verður vinum horfinn.
5 Falsvottur sleppur ekki óhegndur,
og sá, sem fer með lygar, kemst ekki undan.
6 Margir reyna að koma sér í mjúkinn hjá tignarmanninum,
og allir eru vinir þess, sem gjafir gefur.
7 Allir bræður hins snauða hata hann,
hversu miklu fremur firrast þá vinir hans hann.
8 Sá, sem aflar sér hygginda, elskar líf sitt;
sá, sem varðveitir skynsemi, mun gæfu hljóta.
9 Falsvottur sleppur ekki óhegndur,
og sá, sem fer með lygar, tortímist.
10 Sællífi hæfir eigi heimskum manni,
hvað þá þræli að drotna yfir höfðingjum.
11 Hygni mannsins gjörir hann seinan til reiði,
og það er honum til frægðar, að ganga fram hjá mótgjörðum.
12 Konungsreiði er eins og ljónsöskur,
en hylli hans sem dögg á grasi.
13 Heimskur sonur er föður sínum sönn óhamingja
og konuþras er sífeldur þakleki.
14 Hús og auður er arfur frá feðrunum,
en skynsöm kona er gjöf frá Jahve.
15 Letin svæfir þungum svefni,
og iðjulaus maður mun hungur þola.
16 Sá, sem varðveitir boðorðið, varðveitir líf sitt,
en sá deyr, sem ekki hefir gát á vegum sínum.
17 Sá lánar Jahve, er líknar fátækum,
og hann mun launa honum góðverk hans.
18 Aga þú son þinn, því að enn er von,
en farðu eigi svo langt, að þú deyðir hann.
19 Sá, sem illa reiðist, verður að greiða sekt;
því að ætlir þú að bjarga, gjörir þú ilt verra.
20 Hlýð þú ráðum og tak umvöndun,
til þess að þú verðir vitur eftirleiðis.
21 Mörg eru áformin í mannshjartanu,
en ráðsályktun Jahve stendur.
22 Unun mannsins er kærleiksverk hans,
og betri er fátækur maður en lygari.

---

**22:** kap. 19, 14; 31, 10 n. — **19, 1:** kap. 28, 6. **5:** 5 Mós. 19, 18. 19. **7:** kap. 14, 20. **9:** v. 5. **11:** kap. 14, 29. **12:** kap. 16, 14. 15; 20, 2. **13:** kap. 27, 15. **14:** kap. 18, 22. **15:** kap. 10, 4. **16:** Lúk. 10, 28. **17:** Matt. 10, 42; 25, 40. Orðskv. 12, 14. **18:** kap. 13, 24. **21:** kap. 16, 1.

23 Ótti Jahve leiðir til lífs;
þá hvílist maðurinn mettur, verður ekki fyrir neinni ógæfu.
24 Latur maður dýfir hendinni ofan í skálina,
en ekki nennir hann að bera hana aftur upp að munninum.
25 Sláir þú spottarann, verður hinn einfaldi hygginn,
og sé vandað um við skynsaman mann, lærir hann hyggindi.

26 Sá, sem misþyrmir föður sínum og rekur burt móður sína,
slíkur sonur fremur smán og svívirðing.
27 Hættu, son minn, að hlýða á umvöndun,
ef það er til þess eins, að þú brjótir á móti skynsamlegum [orðum.
28 Samvizkulaus vottur gjörir gys að réttinum,
og munnur óguðlegra gleypir rangindi.
29 Refsidómar eru búnir spotturunum
og högg baki heimskingjanna.
20 Vínið er spottari, sterkur drykkur glaumsamur,
og hver sá, er drukkinn reikar, er óvitur.
2 Konungsótti er eins og ljónsöskur;
sá, sem egnir hann á móti sér, fyrirgjörir lífi sínu.
3 Það er manni sómi, að halda sér frá þrætu,
en hver afglapinn yglir sig.

4 Letinginn plægir ekki á haustin,
fyrir því leitar hann um uppskerutímann og grípur í tómt.
5 Ráðsályktunin í hjarta mannsins er eins og djúp vötn,
en hygginn maður eys hana upp.
6 Margir menn eru kallaðir kærleiksríkir,
en tryggan vin, hver finnur hann?
7 Réttlátur maður gengur fram í ráðvendni sinni,
sæl eru því börn hans eftir hann.
8 Þegar konungur situr á dómstóli,
þá skilur hann alt ilt úr með augnaráði sínu.
9 Hver getur sagt: Eg hefi haldið hjarta mínu hreinu,
eg er hreinn af synd?
10 Tvenns konar vog og tvenns konar mál,
það er hvorttveggja Jahve andstygð.
11 Sveinninn þekkist þegar á verkum sínum,
hvort athafnir hans eru hreinar og einlægar.
12 Eyrað, sem heyrir, og augað, sem sér,
hvorttveggja hefir Jahve skapað.
13 Elskaðu ekki svefninn, svo að þú verðir ekki fátækur,
opnaðu augun, þá muntu mettast af brauði.
14 »Slæmt! slæmt!« segir kaupandinn,
en þegar hann gengur burt, hælist hann um.
15 Til er gull og gnægð af perlum,
en hið dýrmætasta þing eru vitrar varir.
16 Tak þú af honum skikkjuna, því að hann hefir gengið í ábyrgð
og tak veð af honum vegna útlendra. [fyrir annan,
17 Sætt er svikabrauðið,
en eftir á fyllist munnurinn möl.
18 Vel ráðin áform fá framgang,
haf því holl ráð, er þú heyr stríð.

---

**23:** kap. 11, 19. **24:** kap. 26, 15. **25:** kap. 21, 11. **29:** kap. 10, 13. — **20, 1:** kap. 31, 4 n. **2:** kap. 19, 12. **5:** kap. 18, 4. **7:** Sálm. 112, 1. 2. **9:** 1 Kong. 8, 46. **10:** kap. 11, 1. **12:** Sálm. 94, 9. **16:** kap. 27, 13. **17:** kap. 9, 17. **18:** kap. 15, 22; 24, 6.

19 Sá, sem ljóstar upp leyndarmálum, gengur um sem rógberi;
haf því engin mök við málugan mann.
20 Sá, sem formælir föður og móður,
á hans lampa sloknar í niðamyrkri.
21 Arfur, sem í upphafi var skjótfenginn,
blessast eigi að lokum.
22 Seg þú ekki: Eg vil endurgjalda ilt!
Bíð þú Jahve, og hann mun hjálpa þér.
23 Tvenns konar vog er Jahve andstygð
og svikavog er ekki góð.
24 Spor mannsins eru ákveðin af Jahve,
en maðurinn — hvernig fær hann skynjað veg sinn?
25 Það er manninum snara, að hrópa í fljótfærni: »helgað!«
og hyggja fyrst að, þegar heitin eru gjörð.
26 Vitur konungur skilur úr hina óguðlegu
og lætur síðan hjólið yfir þá ganga.
27 Andi mannsins er lampi frá Jahve,
sem rannsakar hvern afkima hjartans.
28 Kærleiki og trúfesti varðveita konunginn,
og hann styður hásæti sitt með kærleika.
29 Krafturinn er ágæti ungra manna,
en hærurnar prýði öldunganna.
30 Blóðugar skrámur hreinsa illmennið
og högg, sem duglega svíða.
21 Hjarta konungsins er eins og vatnslækir í hendi Jahve,
hann beygir það til hvers, er honum þóknast.
2 Manninum þykja allir sínir vegir réttir,
en Jahve vegur hjörtun.
3 Að iðka réttlæti og rétt
er Jahve þóknanlegra en sláturfórn.
4 Drembileg augu og hrokafult hjarta, —
lampi óguðlegra er synd.
5 Fyriræltlanir iðjumannsins reynast fésamar vel,
en öll flasfærni lendir í fjárskorti.
6 Fjársjóðir, sem aflað er með lygatungu,
eru sem þjótandi vindblær, snörur dauðans.
7 Ofríki hinna óguðlegu dregur þá á eftir sér,
því að þeir færast undan að gjöra það, sem rétt er.
8 Boginn er vegur þess manns, sem synd er hlaðinn,
en verk hins hreina eru ráðvandleg.
9 Betri er vist í horni á húsþaki
en sambúð við þrasgjarna konu.
10 Sál hins óguðlega girnist ilt;
náungi hans finnur enga miskunn hjá honum.
11 Sé spottaranum refsað, verður hinn einfaldi hygginn,
og sé vitur maður fræddur, lærir hann hyggindi.
12 Gætur gefur réttlátur að húsi hins óguðlega,
steypir óguðlegum í ógæfu.
13 Sá, sem byrgir eyrun fyrir kveini hins fátæka,
hann mun sjálfur kalla, og eigi fá bænheyrslu.
14 Gjöf á laun sefar reiði
og múta í barmi ákafa heift.

**19:** kap. 11, 13. **20:** 2 Mós. 21, 17. **22:** kap. 24, 29. 1 Pét. 3, 9. **23:** v. 10. **24:** kap. 16, 9. **25:** Préd. 5, 1. 5. **26:** v. 8. Jes. 28, 27. **27:** 1 Kor. 2, 11. **28:** kap. 16, 12. **29:** kap. 16, 31. — **21, 2:** kap. 16, 2. **3:** 1 Sam. 15, 22. **4:** Sálm. 101, 5. **5:** kap. 14, 23. **6:** kap. 10, 2. **9:** v. 19. Kap. 25, 24. **11:** kap. 19, 25.

15 Réttlátum manni er gleði að gjöra það, sem rétt er,
en illgjörðamönnum er það skelfing.
16 Sá maður, sem villist af vegi skynseminnar,
mun brátt hvílast í söfnuði framliðinna.
17 Öreigi verður sá, er sólginn er í skemtanir;
sá, sem sólginn er í vín og olíu, verður ekki ríkur.
18 Hinn óguðlegi er lausnargjald fyrir hinn réttláta,
og svikarinn kemur í stað hinna hreinskilnu.
19 Betra er að búa í eyðimerkur-landi
en með þrasgjarnri og geðillri konu.
20 Dýrmætur fjársjóður og olía er í heimkynnum hins vitra,
en heimskur maður sólundar því.
21 Sá, sem ástundar réttlæti og kærleika,
hann öðlast líf, réttlæti og heiður.
22 Vitur maður vinnur borg kappanna
og rífur niður vígið, sem hún treysti á.
23 Sá, sem varðveitir munn sinn og tungu,
hann varðveitir sálu sína frá nauðum.
24 Sá, sem er hrokafullur, dramblátur, hann heitir spottari,
sá sem gjörir alt af taumlausum hroka.
25 Óskir letingjans drepa hann,
því að hendur hans vilja ekki vinna.
26 Ávalt er letinginn að óska sér,
en hinn réttláti gefur og er ekki naumur.
27 Sláturfórn óguðlegra er Jahve andstygð,
hvað þá, sé hún framborin fyrir óhæfuverk.
28 Falsvottur mun tortímast,
en maður, sem heyrt hefir, má ávalt tala.
29 Óguðlegur maður setur upp öruggan svip,
en hinn hreinskilni gjörir veg sinn öruggan.
30 Engin vizka er til og engin hygni,
né heldur ráð gegn Jahve.
31 Hesturinn er hafður viðbúinn til orustudagsins,
en sigurinn er í hendi Jahve.

22 Gott mannorð er dýrmætara en mikill auður;
vinsæld er betri en silfur og gull.
2 Ríkur og fátækur hittast;
Jahve skóp þá alla saman.
3 Vitur maður sér ógæfuna og felur sig,
en einfeldningarnir halda áfram og fá að kenna á því.
4 Laun auðmýktar, ótta Jahve,
er auður, heiður og líf.
5 Þyrnar, snörur, eru á vegi hins undirförula;
sá, sem varðveitir líf sitt, kemur ekki nærri þeim.
6 Fræð þú sveininn um veginn, sem hann á að halda,
og enda á gamals aldri mun hann ekki af honum víkja.
7 Ríkur maður drotnar yfir fátækum
og lánþeginn verður þræll lánsalans.
8 Sá, sem ranglæti sáir, uppsker óhamingju,
og sproti heiftar hans verður að engu.
9 Sá, sem er góðgjarn, verður blessaður,
því að hann gefur hinum fátæka af brauði sínu.

---

18: kap. 11, 8. 19: v. 9. 27: kap. 15, 8. 28: kap. 19, 5. 31: Sálm. 33, 16. 17.— 22, 1: Préd. 7, 1. 2: kap. 29, 13. 3: kap. 27, 12. 8: Job 4, 8. Hós. 10, 13.

10 Rek þú spottarann burt, þá fer deilan burt,
og þá linnir þrætu og smán.
11 Jahve elskar hjartahreinan;
konungurinn er vinur þess, sem hefir yndisþokka á vörum sér.
12 Augu Jahve varðveita þekkinguna,
en orðum svikarans kollvarpar hann.
13 Letinginn segir: »Ljón er úti fyrir;
eg kynni að verða drepinn úti á götunni«.
14 Djúp gröf er munnur annarlegra kvenna,
sá, sem verður fyrir reiði Jahve, fellur í hana.
15 Ef fíflska situr föst í hjarta sveinsins,
þá mun vöndur agans koma henni burt þaðan.
16 Að kúga fátækan eykur efni hans;
að gefa ríkum manni verður til þess eins, að gjöra hann snauðan.

---

17 Hneig eyra þitt og heyr orð hinna vitru,
og snú athygli þinni að kenning minni.
18 Því að það er fagurt, ef þú geymir þau í brjósti þér,
ef þau eru öll til taks á vörum þínum.
19 Til þess að traust þitt sé á Jahve,
fræði eg þig í dag, já þig.
20 Vissulega skrifa eg kjarnyrði handa þér,
með heilræðum og fræðslu,
21 til þess að eg kunngjöri þér sannleika, áreiðanleg orð,
svo að þú flytjir þeim áreiðanleg orð, er senda þig.

---

22 Ræn eigi hinn lítilmótlega, af því að hann er lítilmótlegur,
og knosa eigi hinn volaða í borgarhliðinu;
23 því að Jahve mun flytja mál þeirra
og ræna þá lífinu, er þá ræna.
24 Legg eigi lag þitt við reiðigjarnan mann,
og haf eigi umgengni við fauta,
25 til þess að þú venjist eigi á háttsemi hans
og sækir snöru fyrir líf þitt.
26 Ver þú ekki meðal þeirra, er ganga til handsala,
meðal þeirra, er ganga í ábyrgð fyrir skuldum;
27 því þegar þú ekkert hefir að borga með,
viltu þá láta taka sængina undan þér?

28 Fær þú eigi úr stað hin fornu landamerki,
þau er feður þínir hafa sett.
29 Sjáir þú mann vel færan í verki sínu,
hann getur boðið konungum þjónustu sína;
eigi mun hann bjóða sig ótignum mönnum.
23 Þegar þú situr til borðs með valdsherra,
þá gæt þess vel, hvern þú hefir fyrir framan þig,
2 og set þér hníf á barka,
ef þú ert matmaður.
3 Lát þig ekki langa í kræsingar hans,
því að það er svikul fæða.
4 Streizt þú ekki við að verða ríkur,
hættu að verja viti þínu til þess.

---

**13:** kap. 26, 13. **14:** kap. 23, 27. Préd. 7, 26. **17:** kap. 5, 1. **28:** kap. 23, 10. 5 Mós. 27, 17. Job 24, 2. — **23, 3:** v. 6.

5 Hvort skulu augu þín hvarfla til auðsins, sem er svo stopull?
Því að sannlega gjörir hann sér vængi,
eins og örn, sem flýgur til himins.
6 Et eigi brauð hjá nízkum manni,
og lát þig ekki langa í kræsingar hans.
7 Því að hann er eins og maður, sem reiknar með sjálfum sér;
et og drekk! segir hann við þig,
en hjarta hans er eigi með þér.
8 Bitanum, sem þú hefir etið, verður þú að æla upp aftur,
og blíðmælum þínum hefir þú á glæ kastað.
9 Tala þú eigi fyrir eyrum heimskingjans,
því að hann fyrirlítur hyggindi ræðu þinnar.

10 Fær þú eigi úr stað landamerki ekkjunnar
og gakk þú eigi inn á akra munaðarleysingjanna.
11 Því að lausnari þeirra er sterkur —
hann mun flytja mál þeirra gegn þér.
12 Snú þú hjarta þínu að umvöndun,
og eyrum þínum að vísdóms-orðum.
13 Spara eigi aga við sveininn;
því ekki deyr hann, þótt þú sláir hann með vendinum.
14 Þú slær hann að sönnu með vendinum,
en þú frelsar líf hans frá helju.
15 Son minn, þegar hjarta þitt verður viturt,
þá gleðst eg líka í hjarta mínu,
16 og nýru mín fagna,
er varir þínar mæla það, sem rétt er.
17 Lát hjarta þitt ekki verða vandlætingasamt vegna syndaranna,
heldur æfinlega vegna ótta Jahve.
18 Því að vissulega er enn framtíð fyrir hendi
og von þín mun eigi að engu verða.
19 Heyr þú, son minn, og ver vitur,
og stýr hjarta þínu rétta leið.
20 Ver þú ekki með drykkjurútum,
með þeim, sem hvoma í sig kjöt,
21 því að drykkjurútar og mathákar verða snauðir,
og svefnmók klæðir í tötra.
22 Hlýð þú föður þínum, sem hefir getið þig,
og fyrirlít ekki móður þína, þótt hún sé orðin gömul.
23 Kaup þú sannleika, og sel hann ekki,
vizku, aga og hyggindi.
24 Faðir réttláts manns fagnar,
og sá, sem gat vitran son, gleðst af honum.
25 Gleðjist faðir þinn og móðir þín,
og fagni hún, sem fæddi þig.

26 Son minn, gef mér hjarta þitt,
og lát vegu mína vera þér geðfelda.
27 Því að skækja er djúp gröf
og annarleg kona þröngur pyttur.
28 Já, hún liggur í leyni eins og ræningi
og fjölgar hinum ótrúu meðal mannanna.
29 Hver æjar? hver veinar?

---

**6:** kap. 28, 22. **10:** kap. 22, 28. 5 Mós. 19, 14. **11:** kap. 22, 23. **13:** kap. 13, 24. **17:** Sálm. 37, 1 n. **18:** kap. 24, 14. 20. **19:** kap. 9, 6. **22:** kap. 1, 8. **27:** kap. 22, 14. **28:** kap. 7, 12.

hver á í deilum? hver kvartar?
hver fær sár að þarflausu? hver rauð augu?
30 Þeir sem sitja við vín fram á nætur,
þeir sem koma saman til að bergja á krydduðum drykkjum.
31 Horf þú ekki á vínið, hve rautt það er,
hversu það glóir í bikarnum og rennur ljúflega niður.
32 Að síðustu bítur það sem höggormur
og spýtir eitri sem naðra.
33 Augu þín munu sjá kynlega hluti,
og hjarta þitt mun mæla fláræði.
34 Og þú munt vera eins og sá, sem liggur úti í miðju hafi,
já, eins og sá, er liggur efst uppi á siglutré.
35 »Þeir hafa slegið mig, eg kendi ekkert til;
þeir hafa barið mig, eg varð þess ekki var.
Hve nær mun eg vakna? aftur mun eg leita þess!«

24 Öfunda ekki vonda menn
og lát þig ekki langa til að vera með þeim;
2 því að hjarta þeirra býr yfir ofríkisverkum
og varir þeirra mæla ógæfu.
3 Fyrir speki verður hús reist
og fyrir hygni verður það staðfast;
4 fyrir þekking fyllast forðabúrin
alls konar dýrum og yndislegum fjármunum.
5 Vitur maður er betri en sterkur
og fróður maður betri en aflmikill;
6 því að holl ráð skalt þú hafa, er þú heyr stríð,
og þar sem margir ráðgjafar eru, fer alt vel.
7 Vizkan er afglapanum of há;
í borgarhliðinu lýkur hann ekki upp munni sínum.
8 Þann, sem leggur stund á að gjöra ilt,
kalla menn varmenni.
9 Syndin er fíflslegt fyrirtæki
og spottarinn er mönnum andstygð.
10 Látir þú hugfallast á neyðarinnar degi,
þá er máttur þinn lítill.
11 Frelsaðu þá, sem leiddir eru fram til lífláts,
og haltu þeim aftur, sem ganga skjögrandi að höggstokknum.
12 Segir þú: »Vér vissum það eigi!« —
sá sem vegur hjörtun, hann verður sannarlega var við það,
og sá sem vakir yfir sálu þinni, hann veit það,
og mun gjalda manninum eftir verkum hans.
13 Et þú hunang, son minn, því að það er gott,
og hunangsseimur er gómi þínum sætur.
14 Nem á sama hátt speki fyrir sálu þína;
finnir þú hana, er framtíð fyrir hendi,
og von þín mun eigi að engu verða.

15 Sit eigi, þú hinn óguðlegi, um bústað hins réttláta
og eyðilegg ekki heimkynni hans.
16 Því að sjö sinnum fellur hinn réttláti og stendur aftur upp,
en óguðlegir steypast í ógæfu.
17 Gleð þig eigi yfir falli óvinar þíns
og hjarta þitt fagni eigi yfir því að hann steypist,

---

**24, 6:** kap. 20, 18; 11, 14. **11:** Sálm. 82, 4. **12:** 1 Sam. 16, 7. **14:** kap. 23, 18. **15:** Sálm. 10, 9. **16:** kap. 14, 32. Sálm. 37, 24. **17:** Mík. 7, 8.

18 svo að Jahve sjái það ekki og honum mislíki,
og hann snúi reiði sinni frá honum til þín.
19 Reiðst ekki vegna illgjörðamanna,
öfunda eigi óguðlega.
20 Því að vondur maður á enga framtíð fyrir höndum;
á lampa óguðlegra sloknar.
21 Son minn, óttastu Jahve og konunginn;
samlaga þig ekki óróaseggjum.
22 Því að ógæfa þeirra ríður að þegar minst varir,
og ófarir beggja — hver veit um þær?

---

23 Þessir orðskviðir eru líka eftir spekinga.
Hlutdrægni í dómi er ljót.
24 Þeim, sem segir við hinn seka: »Þú hefir rétt fyrir þér!«
honum formæla menn, honum bölvar fólk.
25 En þeim, sem hegna eins og ber, mun vel vegna,
yfir þá kemur ríkuleg blessun.
26 Sá kyssir á varirnar,
sem veitir rétt svör.
27 Annastu verk þitt utan húss og lúk því á akrinum;
síðan getur þú bygt hús þitt.
28 Vertu eigi vottur gegn náunga þínum að ástæðulausu;
eða mundir þú vilja svíkja með vörum þínum?
29 Seg þú ekki: »Eins og hann gjörði mér, eins ætla eg honum að gjöra;
eg ætla að endurgjalda manninum eftir verkum hans!«
30 Mér varð gengið fram hjá akri letingja nokkurs
og fram hjá víngarði óviturs manns.
31 Og sjá: hann var allur vaxinn klungrum,
hann var alþakinn netlum,
og steingarðurinn umhverfis hann var hruninn.
32 En eg varð þess var, veitti því athygli,
sá það og lét mér það að kenningu verða.
33 Sofa ögn enn, blunda ögn enn,
leggja saman hendurnar ögn enn, til að hvílast,
34 þá kemur fátæktin yfir þig eins og ræningi
og skorturinn eins og vopnaður maður.

---

25 Þetta eru líka orðskviðir Salómós, þeir er menn Hiskía Júdakonungs hafa safnað.
2 Guði er það heiður að dylja mál,
en konungum heiður að rannsaka mál.
3 Eins og hæð himins og dýpt jarðar,
svo eru konungahjörtun órannsakanleg.
4 Sé sorinn tekinn úr silfrinu,
þá fær smiðurinn ker úr því.
5 Séu hinir óguðlegu teknir burt frá augliti konungsins,
þá mun hásæti hans staðfestast fyrir réttlæti.
6 Stær þig eigi frammi fyrir konunginum
og ryðst eigi í rúm stórmenna.

---

**19:** Sálm. 37, 1. **20:** kap. 13, 9. **21:** 1 Pét. 2, 17. **23:** kap. 18, 5. 3 Mós. 19, 15. **29:** kap. 20, 22. **33:** kap. 6, 10. 11. — **25, 2:** Róm. 11, 33. **5:** kap. 16, 12.

7 Því að betra er að menn segi við þig: Fær þig hingað upp!
heldur en að menn gjöri þér læging frammi fyrir tignarmanni,
er þú þó sjálfur hafðir séð.
8 Ver eigi fljótur til að hleypa þér út í deilu,
því að hvað ætlar þú síðan að gjöra,
þá er náungi þinn gjörir þér sneypu?
9 Rek þú mál þitt gegn náunga þínum,
en ljósta eigi upp leyndarmáli annars manns,
10 til þess að sá, sem heyrir það, smáni þig ekki
og þú losnir aldrei við illan orðróm.
11 Gullepli í skrautlegum silfurskálum —
svo eru orð í tíma töluð.
12 Eins og gullhringur og skartgripur af skíru gulli,
svo er vitur áminnandi heyranda eyra.
13 Eins og snjósvali um uppskerutímann,
svo er áreiðanlegur sendimaður þeim, er sendir hann;
því að hann hressir sál húsbónda síns.
14 Ský og vindur, og þó engin rigning —
svo er sá, sem hrósar sér af gjafmildi, en gefur þó ekkert.

15 Með þolinmæði verður höfðingja talið hughvarf,
og mjúk tunga mylur bein.
16 Finnir þú hunang, þá et sem þér nægir,
svo að þú verðir ekki ofsaddur af því og ælir því upp aftur.
17 Stíg sjaldan fæti þínum í hús náunga þíns,
svo að hann verði ekki leiður á þér og hati þig.
18 Hamar og sverð og hvöss ör —
svo er maður, sem ber falsvitni gegn náunga sínum.
19 Molnandi tönn og rasandi fótur —
svo er traust á svikara á neyðarinnar degi.
20 Eins og maður, sem fer úr fötunum, þegar kalt er,
eins og edik á pottösku,
eins er sá, sem ljóð syngur hryggu hjarta.
21 Ef óvin þinn hungrar, þá gef honum að eta,
og ef hann þyrstir, þá gef honum að drekka.
22 Því að þú safnar glóðum elds yfir höfuð honum,
og Jahve mun endurgjalda þér það.
23 Norðanvindurinn leiðir fram regn
og launskraf reiðileg andlit.
24 Betri er vist í horni á húsþaki
en sambúð við þrasgjarna konu.

25 Eins og kalt vatn er dauðþyrstum manni,
svo er góð fregn af fjarlægu landi.
26 Eins og grugguð lind og skemdur brunnur,
svo er réttlátur maður, sem titrar frammi fyrir óguðlegum [manni.
27 Það er ekki gott að eta of mikið hunang,
ver því spar á hólinu.
28 Eins og borg, sem múrarnir hafa verið brotnir utan af,
eins er sá maður, sem eigi hefir stjórn á skapsmunum sínum.

26 Eins og snjór um sumar og eins og regn um uppskeru,
eins illa á sæmd við heimskan mann.

---

**7:** Lúk. 14, 8 n. **11:** kap. 15, 23. **14:** Júd. 12. **15:** kap. 15, 1. **18:** kap. 24, 28. **21:** 2 Kong. 6, 22. Róm. 12, 20. **24:** kap. 21, 9. **28:** kap. 16, 32. — **26, 1:** v. 8.

2 Eins og spörfugl flögrar, eins og svala flýgur,
eins er um óverðskuldaða formæling — hún verður eigi að áhrínsorðum.
3 Svipan hæfir hestinum og taumurinn asnanum —
en vöndurinn baki heimskingjanna.
4 Svara þú ekki heimskingjanum eftir fíflsku hans,
svo að þú verðir ekki honum jafn.
5 Svara þú heimskingjanum eftir fíflsku hans,
svo að hann haldi ekki, að hann sé vitur.
6 Sá höggur af sér fæturna og fær að súpa á ranglæti,
sem sendir orð með heimskingja.
7 Eins og lærleggir hins lama hanga máttlausir,
svo er spakmæli í munni heimskingjanna.
8 Sá sem sýnir heimskum manni sæmd,
honum fer eins og þeim, er bindur stein í slöngu.
9 Eins og þyrnir, sem stingst upp í höndina á drukknum manni,
svo er spakmæli í munni heimskingjanna.
10 Eins og skytta, sem hæfir alt,
svo er sá, sem leigir heimskingja, og sá, er leigir vegfarendur.
11 Eins og hundur, sem snýr aftur til spýju sinnar,
svo er heimskingi, sem endurtekur fíflsku sína.
12 Sjáir þú mann, sem þykist vitur,
þá er meiri von um heimskingja en hann.

13 Letinginn segir: Óargadýr er á veginum,
ljón á götunum.
14 Hurðin snýst á hjörunum
og letinginn í hvílu sinni.
15 Latur maður dýfir hendinni ofan í skálina,
en honum verður þungt um að bera hana aftur upp að munninum.
16 Latur maður þykist vitrari
en sjö, sem svara hyggilega.
17 Sá, sem kemst í æsing út af deilu, sem honum kemur ekki við,
hann er eins og sá, sem tekur um eyrun á hundi, er hleypur fram hjá.
18 Eins og óður maður, sem kastar tundurörvum,
banvænum skeytum,
19 eins er sá maður, er svikið hefir náunga sinn
og segir síðan: Eg er bara að gjöra að gamni mínu.

20 Þegar eldsneytið þrýtur, sloknar eldurinn,
og þegar enginn er rógberinn, stöðvast deilurnar.
21 Eins og kol þarf til glóða og við til elds,
svo þarf þrætugjarnan mann til að kveikja deilur.
22 Orð rógberans eru eins og sælgæti,
og þau læsa sig inn í instu fylgsni hjartans.
23 Eldheitir kossar og ilt hjarta,
það er sem sorasilfur utan á leirbroti.
24 Með vörum sínum gjörir hatursmaðurinn sér upp vinalæti,
en í hjarta sínu hyggur hann á svik.
25 Þegar hann mælir fagurt, þá trú þú honum ekki,
því að sjö andstygðir eru í hjarta hans.

---

**3:** Sálm. 32, 9. **8:** v. 1. **11:** 2 Pét. 2, 22. **12:** Róm. 12, 16. **13:** kap. 22, 13. **15:** kap. 19, 24. **21:** kap. 15, 18. **22:** kap. 18, 8.

26 Þótt hatrið hylji sig hræsni,
þá verður þó ilska þess opinber á dómþinginu.
27 Sá, sem grefur gröf, fellur í hana,
og steinninn fellur aftur í fang þeim, er veltir honum.
28 Lygin tunga hatar þá, er hún hefir sundur marið,
og smjaðrandi munnur veldur glötun.

27 Vertu ekki hróðugur af morgundeginum,
því að þú veizt ekki, hvað dagurinn ber í skauti sínu.
2 Lát aðra hrósa þér og ekki þinn eigin munn,
óviðkomandi menn, en ekki þínar eigin varir.
3 Steinar eru þungir og sandurinn sígur í,
en gremja afglapans er þyngri en hvorttveggja.
4 Heiftin er grimm og reiðin er svæsin,
en hver fær staðist öfundina?
5 Betri er opinber ofanígjöf
en elska, sem leynt er.
6 Vel meint eru vinar sárin,
en viðbjóðslegir kossar hatursmannsins.

7 Saddur maður treður hunangsseim undir fótum,
en hungruðum manni þykir alt beiskt sætt.
8 Eins og fugl, sem floginn er burt úr hreiðri sínu,
svo er maður, sem flúinn er burt af heimili sínu.
9 Ilmolía og reykelsi gleðja hjartað,
en inndælli er vinur en ilmandi viður.
10 Yfirgef eigi vin þinn né vin föður þíns
og gakk eigi í hús bróður þíns á óheilladegi þínum.
Betri er nábúi í nánd en bróðir í fjarlægð.
11 Vertu vitur, sonur minn, og gleð hjarta mitt,
svo að eg geti svarað þeim orði, sem smána mig.
12 Vitur maður sér ógæfuna og felur sig,
en einfeldningarnir halda áfram og fá að kenna á því.
13 Tak þú af honum skikkjuna, því að hann hefir gengið í ábyrgð fyrir annan,
og tak veð af honum vegna annarlegrar konu.
14 Hver sem blessar náunga sinn snemma morguns með hárri raustu,
það skal metið við hann sem formæling.
15 Sífeldur þakleki í rigningatíð
og þrasgjörn kona — er hvað öðru líkt.
16 Sá, er hana stöðvaði, gæti stöðvað vindinn
og haldið olíu í hægri hendi sinni.
17 Járn brýnir járn,
og maður brýnir mann.
18 Sá, sem gætir fíkjutrés, mun eta ávöxt þess,
og sá, sem þjónar húsbónda sínum með virktum, mun heiður hljóta.
19 Eins og andlit horfir við andliti í vatni,
svo er hjarta eins manns gagnvart öðrum.
20 Dánarheimar og undirdjúpin eru óseðjandi;
svo eru og augu mannsins óseðjandi.
21 Deiglan er fyrir silfrið og bræðsluofninn fyrir gullið,
og maðurinn er dæmdur eftir orðstír hans.

---

**27:** Sálm. 7, 16. — **27, 1:** Jak. 4, 13. 14. **2:** 2 Kor. 10, 12. 18. **11:** kap. 23, 15. **12:** kap. 22, 3. **18:** kap. 20, 16. **15:** kap. 19, 13. **20:** kap. 30, 16. Préd. 1, 8. **21:** kap. 17, 3.

22 Þótt þú steyttir afglapann í mortéli
með stauti innan um grjón,
þá mundi fíflska hans ekki við hann skilja.

23 Haf nákvæmar gætur á útliti sauða þinna
og veit hjörðunum athygli þína.
24 Því að auður varir ekki eilíflega,
né heldur kóróna frá kyni til kyns.
25 Sé heyið komið undan og grængresi komið í ljós
og hafi jurtir fjallanna verið hirtar,
26 þá átt þú lömb þér til klæðnaðar
og geithafra til þess að kaupa fyrir akur,
27 og nóga geitamjólk þér til fæðslu, til fæðslu heimili þínu,
og til viðurlífis þernum þínum.

28 Hinir óguðlegu flýja, þótt enginn elti þá,
en hinir réttlátu eru öruggir eins og ungt ljón.
2 Þegar land gengur undan drotnara sínum, gjörast þar margir höfðingjar,
en meðal skynsamra og hygginna manna verður einn langær.
3 Maður, sem er fátækur og kúgar snauða,
er eins og regn, sem skolar burt korninu, en veitir ekkert brauð.
4 Þeir, sem yfirgefa lögmálið, hrósa óguðlegum,
en þeir, sem varðveita lögmálið, eru æfir út af þeim.
5 Illmenni skilja ekki hvað rétt er;
en þeir, sem leita Jahve, skilja alt.
6 Betri er fátækur maður, sem framgengur í ráðvendni sinni,
heldur en sá, sem beitir undirferli og er þó ríkur.
7 Sá, sem varðveitir lögmálið, er hygginn sonur;
en sá, sem leggur lag sitt við óhófsmenn, gjörir föður sínum smán.
8 Sá, sem eykur auð sinn með fjárleigu og okri,
safnar honum handa þeim, sem líknsamur er við fátæka.
9 Sá, sem snýr eyra sínu frá, til þess að heyra ekki lögmálið,
— jafnvel bæn hans er andstygð.
10 Sá, sem tælir falslausa menn út á vonda leið,
hann fellur sjálfur í gröf sína;
en ráðvandir munu hljóta góða arfleifð.
11 Ríkur maður þykist vitur,
en snauður maður, sem er hygginn, sér hann út.
12 Þegar hinir réttlátu fagna, er mikið um dýrðir,
en þegar óguðlegir komast upp, fela menn sig.
13 Sá, sem dylur yfirsjónir sínar, verður ekki lángefinn,
en sá, sem játar þær og lætur af þeim, mun miskunn hljóta.
14 Sæll er sá maður, sem ávalt er var um sig;
en sá, sem herðir hjarta sitt, fellur í ógæfu.
15 Eins og grenjandi ljón og gráðugur björn,
svo er óguðlegur drotnari yfir litilsigldum lýð.
16 Höfðingi, sem hefir litlar tekjur, er ríkur að kúgan;
sá, sem hatar rangfenginn ávinning, mun langlífur verða.

17 Sá maður, sem blóðsök hvílir þungt á,
er á flótta fram á grafarbarminn; enginn dvelji hann.

---

28, 5: 1 Kor. 2, 15. 6: kap. 19, 1. 8: 3 Mós. 25, 36. 12: kap. 29, 2. 13: 1 Jóh. 1, 8. 9.

18 Sá, sem breytir ráðvandlega, mun frelsast,
en sá, sem beitir undirferli, fellur í gryfju.
19 Sá, sem yrkir land sitt, mettast af brauði,
en sá, sem sækist eftir hégómlegum hlutum, mettast af fátækt.
20 Áreiðanlegur maður blessast ríkulega,
en sá, sem fljótt vill verða ríkur, sleppur ekki óhegndur.

21 Hlutdrægni er ljót,
en þó fremja menn ranglæti fyrir einn brauðbita.
22 Öfundsjúkur maður flýtir sér að safna auði,
og veit ekki að örbirgð muni yfir hann koma.
23 Sá, sem ávítar mann, mun á síðan öðlast meiri hylli
heldur en tungumjúkur smjaðrari.
24 Sá, sem rænir foreldra sína og segir: Það er engin synd!
hann er stallbróðir eyðandans.
25 Ágjarn maður vekur deilur,
en sá, sem treystir Jahve, mettast ríkulega.
26 Sá, sem treystir eigin hyggjuviti, er heimskingi,
en sá, sem breytir viturlega, mun undan komast.
27 Sá, sem gefur fátækum, líður engan skort,
en þeim, sem byrgir augu sín, koma margar óbænir.
28 Þegar hinir óguðlegu komast upp, fela menn sig,
en þegar þeir tortímast, fjölgar réttlátum.
29 Sá, sem oftlega hefir ávítaður verið, en þverskallast þó,
mun skyndilega knosaður verða, og engin lækning fást.
2 Þegar réttlátum fjölgar, gleðst þjóðin,
en þegar óguðlegir drotna, andvarpar þjóðin.
3 Sá, sem elskar vizku, gleður föður sinn,
en sá, sem leggur lag sitt við skækjur, glatar eigum sínum.
4 Konungurinn eflir landið með rétti,
en sá, sem þiggur mútur, eyðir það.
5 Sá maður, sem smjaðrar fyrir náunga sínum,
hann leggur net fyrir fætur hans.
6 Í misgjörð vonds manns er fólgin snara,
en réttlátur maður fagnar og gleðst.
7 Réttlátur maður kynnir sér málefni hinna lítilmótlegu,
en óguðlegur maður hirðir ekkert um að kynna sér það.
8 Spottarar æsa upp borgina,
en vitrir menn lægja reiðina.
9 Þegar vitur maður á í þrætumáli við afglapa,
þá reiðist hann og hlær, en hvíld fæst engin.
10 Blóðvargarnir hata hinn ráðvanda,
en réttvísir menn láta sér ant um líf hans.
11 Heimskinginn úthellir allri reiði sinni,
en vitur maður sefar hana að lokum.
12 Þegar drotnarinn hlýðir á lygaorð,
verða allir þjónar hans bófar.
13 Fátæklingurinn og kúgarinn mætast;
Jahve ljær ljós augum beggja.
14 Sá konungur, sem dæmir hina lítilmótlegu með réttvísi,
hásæti hans mun stöðugt standa að eilífu.
15 Vöndur og umvöndun veita speki,
en agalaus sveinn gjörir móður sinni skömm.

---

19: kap. 12, 11. 20: 1 Tím. 6, 9. 21: kap. 18, 5. 25: kap. 15, 18. 28: v. 12. — 29, 2: kap. 11, 10; 28, 12. 28. 3: Lúk. 15, 13. 30. 13: kap. 22, 2. 14: kap. 16, 12.

er þeir fyrirlétu, þá er þeir hrukku undan Ísraelsmönnum; og landið
skal verða að auðn. 10 Því að þú hefir gleymt Guði hjálpræðis þíns
og eigi minst þess hellubjargsins, sem er hæli þitt; þess vegna plantar
þú yndislega garða og setur þar niður útlenda gróðurkvistu. 11 Á dag-
inn ræktar þú garð þinn og á morgnana lætur þú útsæði þitt blóm-
gast — alt til uppskerunnar á degi hins banvæna sárs og hinna ólækn-
andi kvala.

12 Heyr gný margra þjóða, — þær gnýja sem gnýr hafsins; heyr
dyn þjóðflokkanna, – þeir dynja eins og dynur mikilla vatnsfalla. 13 Þjóð-
flokkarnir dynja eins og dynur margra vatnsfalla. En hann hastar á
þá, og þá flýja þeir langt burt; þeir tvístrast eins og sáðir á hólum
fyrir vindi, eins og rykmökkur fyrir stormi. 14 Að kveldi er þar skelf-
ing; áður en morgnar eru þeir allir á burt. Þetta er hlutskifti þeirra,
er oss ræna, og örlög þeirra, er frá oss rupla.

18 Vei landi vængjaþytsins, hinumegin Blálands fljóta, 2 er gjörir
út sendimenn yfir hafið og í reyrbátum yfir vötnin. Farið, þér hröðu
sendiboðar, til hinnar hávöxnu og gljáandi þjóðar, til lýðsins, sem hræði-
legur var þegar frá upphafi vega sinna, til hinnar afarsterku þjóðar, sem alt
treður undir fótum sér, um hverrar land fljótin renna: 3 Allir þér, sem
heimskringluna byggið og á jörðu búið, skuluð sjá, þegar merkið er reist
á fjöllunum, og hlusta, þegar blásið er í lúðurinn. 4 Því að svo hefir
Jahve sagt við mig: Eg vil halda kyrru fyrir og horfa á frá bústað
mínum, meðan loftið er glóandi í sólskininu, meðan döggin er mikil í
breiskjuhita kornskurðartímans; 5 því að áður en uppskeran kemur, þegar
blómgunin er á enda og blómið verður að fullvöxnu vínberi, höggur
hann vínviðargreinarnar af með sniðlinum, og frjóangana stýfir hann,
sníður þá af. 6 Allir saman skulu þeir gefnir verða ránfuglum fjallanna
og dýrum jarðarinnar; ránfuglarnir skulu sitja á þeim sumarlangt og
öll dýr jarðarinnar halda sig þar þegar vetrar. 7 Á þeim tíma skulu
gjafir verða færðar Jahve hersveitanna frá hinum hávaxna og gljáandi
lýð, frá lýðnum, sem hræðilegur var þegar frá upphafi vega sinna, frá
hinni afarsterku þjóð, sem alt treður undir fótum sér, um hverrar land
fljótin renna, — til þess staðar, þar sem nafn Jahve hersveitanna er, til
Zíon-fjalls.

19 Spádómur um Egiptaland.
Sjá, Jahve ekur á léttfæru skýi og kemur til Egiptalands. Þá
skjálfa goð Egiptalands fyrir honum og hjörtu Egipta bráðna í brjóstum
þeirra. 2 Og eg æsi Egipta í gegn Egiptum, svo að bróðir skal berjast
við bróður, vinur við vin, borg við borg og ríki við ríki. 3 Hyggindi
Egipta munu þá verða örþrota, og ráðagjörðir þeirra ónýti eg. Þeir
munu leita frétta hjá goðum sínum, hjá galdramönnum, þjónustuöndum
og spásagnaröndum. 4 Eg vil selja Egipta harðráðum drotnara á vald,
og grimmur konungur skal ríkja yfir þeim, segir drottinn, Jahve her-
sveitanna. 5 Vötnin í sjónum munu þverra, og fljótið grynnast og þorna
upp. 6 Árkvíslarnar munu fúlna, fljót Egiptalands þverra og þorna, reyr og
sef visna. 7 Engjarnar fram með Níl, á sjálfum Nílar-bökkunum, og öll
sáðlönd við Níl þorna upp, eyðast og hverfa. 8 Þá munu fiskimenn-
irnir andvarpa og allir þeir sýta, sem öngli renna í Níl, og þeir, sem
leggja net í vötn, munu örvilnast. 9 Þeir, sem vinna hörinn, munu
standa ráðþrota, kembingarkonurnar og vefararnir blikna. 10 Stoðir
landsins skulu brotnar verða sundur, allir þeir, sem vinna fyrir kaup,

---

**10:** Sálm. 106, 21. — **18, 7:** v. 2. — **19, 1:** Jer. 46, 2 n. 25. Esek. 29, 2 n. 30, 4 n.
2 Mós. 12, 12. Jer. 43, 12. **8:** kap. 8, 19.

verða hugdaprir. [11] Höfðingjarnir í Zóan eru tómir heimskingjar, ráð-
spekin hjá hinum vitrustu ráðgjöfum Faraós orðin að flónsku. Hvernig
dirfist þér að segja við Faraó: Eg er sonur vitringanna og kominn af
fornkonungunum? [12] Hvar eru nú vitringar þínir? Þeir ættu nú að
segja þér, og mega vita, hverja fyrirætlan Jahve hersveitanna hefir með
Egiptaland. [13] Höfðingjarnir í Zóan standa eins og afglapar, höfðing-
jarnir í Nóf eru á tálar dregnir. Þeir, sem eru hyrningarsteinar ætt-
kvísla Egiptalands, hafa leitt það á glapstigu. [14] Jahve hefir byrlað
þeim sundlunar-anda, svo að þeir valda því, að Egiptaland er á reiki
í öllum fyrirtækjum sínum, eins og drukkinn maður reikar innan um
spýju sína; [15] ekkert hepnast Egiptalandi, hvorki það sem höfuð eða
hali, pálmakvistur eða sefstrá taka sér fyrir að gjöra.

[16] Á þeim degi munu Egiptar verða sem konur, þeir munu skelfast
og hræðast reidda hönd Jahve hersveitanna, er hann reiðir gegn þeim.
[17] Þá skal Egiptalandi standa ótti af Júdalandi; í hvert sinn sem á það
er minst við þá, munu þeir skelfast, vegna ráðs þess, er Jahve her-
sveitanna hefir ráðið gegn þeim.

[18] Á þeim degi munu fimm borgir í Egiptalandi mæla á kanverska
tungu og sverja hlýðni Jahve hersveitanna; skal sérhver þeirra kallast
bær réttvísinnar.

[19] Á þeim degi mun vera altari handa Jahve í miðju Egiptalandi
og merkissteinn handa Jahve við landamærin. [20] Það skal vera til merkis
og vitnisburðar um Jahve hersveitanna í Egiptalandi; þegar þeir hrópa
til Jahve undan kúgurunum, mun hann senda þeim fulltingjara og for-
vígismann, er frelsar þá. [21] Jahve mun kunnur verða Egiptalandi, og
Egiptar munu þekkja Jahve á þeim degi; þeir munu dýrka hann með
sláturfórnum og matfórnum, og vinna Jahve heit og efna þau. [22] Og
Jahve mun slá Egiptaland, slá og græða, og þeir munu snúa sér til
Jahve, og hann mun bænheyra þá og græða þá.

[23] Á þeim degi skal vera brautarvegur frá Egiptalandi til Assýríu;
og Assýringar skulu koma til Egiptalands og Egiptar til Assýríu, og
Egiptar munu tilbiðja ásamt Assýringum.

[24] Á þeim degi munu þessir þrír taka saman: Ísrael, Egiptaland
og Assúr og vera blessun á jörðinni miðri; [25] því að Jahve hersveitanna
blessar þá og segir: Blessuð sé þjóð mín Egiptar, verkið handa minna
Assúr og arfleifð mín Ísrael!

20 Árið sem Tartan kom til Asdód, sendur af Sargon Assýríu-
konungi — og hann herjaði á Asdód og vann hana —, [2] í það
mund talaði Jahve fyrir munn Jesaja Amozsonar á þessa leið: Far og
leys hærusekkinu af lendum þér og drag skó þína af fótum þér. Og
hann gjörði svo og gekk fáklæddur og berfættur. [3] Og Jahve mælti:
Eins og Jesaja þjónn minn hefir gengið fáklæddur og berfættur í þrjú
ár sem tákn og fyrirburður um Egiptaland og Bláland, [4] svo skal
Assýríu-konungur færa burt bandingjana frá Egiptalandi og útlagana frá
Blálandi, bæði unga og gamla, fáklædda og berfætta, með bera bak-
hlutina, Egiptum til smánar. [5] Þá munu þeir skelfast og skammast sín
vegna Blálands, er þeir reiddu sig á, og Egiptalands, er þeir stærðu sig
af. Og þeir sem búa á þessari strönd, munu segja á þeim degi: Svo
er þá komið fyrir þeim, er vér reiddum oss á og flýðum til í von um
hjálp, til þess að frelsast undan Assýríu-konungi! Hversu megum vér
þá sjálfir komast undan?

---

**14:** kap. 29, 10 n. **15:** kap. 9, 14. **19:** 1 Mós. 28, 18. — **20, 1:** 2 Kong. 18, 17. **2:**
1 Sam. 19, 24. **5:** kap. 30, 2 n.

21 Spádómur um vatna-öræfin!
Eins og fellibyljir í suðurlandinu geysist það áfram, það kemur
úr öræfunum, úr hinu hræðilega landi. 2 Hörð tíðindi hafa mér birt
verið: »Ránsmenn ræna, hermenn herja! Áfram, Elamítar, gjörið umsát,
Medíumenn! Eg gjöri enda á öllum andvörpum«. 3 Þess vegna
skjálfa lendar mínar, þess vegna hremma sárir verkir mig, eins og hríðir
jóðsjúka konu. Eg engist saman, svo að eg heyri ekkert, eg er svo
agndofa, að eg sé ekkert. 4 Hjarta mitt er ringlað, skelfing er skyndi-
lega yfir mig komin. Nú er nóttin, sem eg jafnan hefi þráð, orðin
mér að skelfingu. 5 Borðin eru sett fram og ábreiðurnar breiddar á*;
etið er og drukkið. Rísið upp, þjóðhöfðingjar, smyrjið skjölduna!
6 Því að svo sagði Jahve við mig: »Far þú og nem staðar á
sjónarhólnum og seg, hvað þú sér. 7 Og sjáir þú menn á reið, tvo
reiðmenn, annan ríðandi á asna, hinn á úlfalda, þá legg þú hlustirnar
við«. 8 En eg kallaði: »Æ, drottinn, á eg að standa allan daginn á
sjónarhól og vera á varðbergi nótt eftir nótt?« 9 En sjá, þá komu
menn ríðandi, tveir reiðmenn; og þeir tóku til orða og sögðu: »Fallin,
fallin er Babel, og allar goðalíkneskjur hennar liggja sundur brotnar
á jörðunni«. 10 Kramda og þreskta þjóðin mín, það sem eg hefi heyrt
af Jahve hersveitanna, Guði Ísraels, það hefi eg kunngjört yður.

11 Spádómur um Dúma*.
Það er kallað til mín frá Seír: »Vökumaður, hvað líður nóttinni?
Vökumaður, hvað líður nóttinni?« 12 Vökumaðurinn svarar: »Morguninn
kemur, og þó er nótt. Ef þér viljið spyrja, þá komið aftur og spyrjið«.

13 Spádómur um Arabíu.
Takið náttstað í kjarrinu að kveldi, þér kaupmannalestir Dedans-
manna! 14 Komið út með vatn á móti hinum þyrstu! Þér, sem búið
í Temalandi, færið brauð flóttamönnunum! 15 Því þeir flýja undan
sverðunum, undan brugðnu sverði, undan bendum boga, undan þunga
ófriðarins. 16 Því að svo hefir drottinn sagt við mig: Áður en eitt ár
er liðið, eins og ár kaupamanna eru talin, skal öll vegsemd Kedars að
engu verða; 17 og leifarnar, sem eftir verða af bogum Kedaringa kappa,
munu verða teljandi, því að Jahve, Ísraels Guð, hefir sagt það.

22 Spádómur um Sjóna-dalinn.
Hvað kemur að þér, að alt fólk þitt skuli vera stigið upp á
húsþökin, 2 þú ofkætisfulli, hávaðasami bær, þú glaummikla borg!
Menn þínir, sem fallnir eru, hafa ekki fallið fyrir sverði né beðið bana
í orustum. 3 Höfðingjar þínir lögðu allir saman á flótta, voru hand-
teknir án þess skotið væri af boga; allir menn þínir, er náðust, voru
handteknir hver með öðrum, þótt þeir hefðu flúið langt burt. 4 Þess
vegna segi eg: Látið mig einan; eg vil gráta beisklega; gjörið mér eigi
ónæði með því að hugga mig yfir eyðing dóttur þjóðar minnar. 5 Því
að dagur skelfingar, undirokunar og úrræðaleysis var kominn frá drotni,
Jahve hersveitanna, í Sjóna-dalnum. Múrar voru brotnir niður, óhljóðin
heyrðust til fjalla. 6 Elam tók örvamælinn, ásamt mönnuðum vögnum
og hestum, og Kír tók hlífar af skjöldum. 7 Þínir fegurstu dalir fyltust
hervögnum, og riddarar tóku sér stöðu fyrir borgarhliðunum. 8 Og
hann tók skýluna burt frá Júda. Á þeim degi skygndist þú um eftir
herbúnaðinum í skógarhúsinu, 9 og þér sáuð að veggskörðin voru mörg

---

21, 3: kap. 13, 8. 5: * Þ. e. á hvílubekkina. 2 Sam. 1, 21. 8: Hab. 2, 1. 9:
Jer. 51, 8. Opinb. 14, 8; 18, 2. 11: * Þ. e. Edóm. 16: kap. 16, 14. 1 Mós. 25, 13.
Sálm. 120, 5. — 22, 6: 2 Kong. 16, 9.

í Davíðsborg, og þér söfnuðuð vatninu í neðri tjörninni; 10 og þér tölduð
húsin í Jerúsalem, og þér rifuð húsin, til þess að treysta með múr-
vegginn; 11 og þér bjugguð til vatnstæðu milli múrveggjanna tveggja
fyrir vatnið úr gömlu tjörninni, — en að honum, sem þessu veldur,
gáfuð þér eigi gætur, og til hans, sem hagaði þessu svo fyrir löngu,
lituð þér ekki. 12 Á þeim degi kallaði drottinn, Jahve hersveitanna,
menn til að gráta og kveina, til að reyta hár sitt og gyrðast hærusekk;
— 13 en sjá, hér er gleði og glaumur, naut drepin, sauðum slátrað, kjöt
etið, vín drukkið: etum og drekkum, því á morgun deyjum vér! 14 Og
opinberun Jahve hersveitanna hljómar í eyrum mínum: Sannlega skul-
uð þér eigi fá afplánað þessa misgjörð áður en þér deyið, segir drott-
inn, Jahve hersveitanna.
15 Svo mælti drottinn, Jahve hersveitanna: Far þú og gakk til
þessa dróttseta, hans Sébna, er forstöðu veitir húsi konungsins: 16 Hvað
hefir þú hér að gjöra? og hvern átt þú hér, er þú lætur höggva þér
hér gröf? þú sem höggva lætur gröf handa þér á háum stað og lætur
grafa handa þér legstað í berginu. 17 Sjá, Jahve varpar þér burt, maður!
þrífur fast í þig, 18 vefur þig saman í böggul og þeytir þér sem sopp
út á víðan vang. Þar skalt þú deyja og þar skulu þínir dýrlegu vagnar
vera, þú sem ert húsi drottins þíns til svívirðu! 19 Eg hrindi þér úr
stöðu þinni, og úr embætti þínu skal þér steypt verða.
20 En á þeim degi mun eg kalla þjón minn Eljakím Hilkíason.
21 Eg færi hann í kyrtil þinn og gyrði hann belti þínu og fæ honum í
hendur vald þitt; hann skal verða faðir Jerúsalem-búa og Júdaniðja.
22 Og lykilinn að húsi Davíðs legg eg á herðar honum; þegar hann
lýkur upp, skal enginn læsa; þegar hann læsir, skal enginn upp ljúka.
23 Eg rek hann eins og nagla á haldgóðan stað, og hann skal verða
veglegt hásæti fyrir hús föður síns. 24 En hengi allur þungi föðurættar
hans sig á hann með niðjum sínum og skyldmennum, öll smákerin,
eigi aðeins skálarnar, heldur og öll leirkerin, 25 þá mun naglinn, — það
eru orð Jahve hersveitanna — sem rekinn var á haldgóðum stað, jafn-
skjótt láta undan, brotna og detta niður, og byrðin, sem á honum hékk,
skal sundur molast, því að Jahve hefir talað það.

## 23

Spádómar um Týrus.
Kveinið, þér Tarsis-knerrir, því að hún er í eyði lögð! ekkert
hús þar framar, ekkert til að fara inn í! Frá Kípur berst þeim sú
fregn. 2 Verið hljóðir, þér íbúar ey-borgarinnar, sem full var af kaup-
mönnum frá Zídon, er yfir hafið fara, 3 og dró að sér Síkor-sáð og
Nílarkorn yfir hin miklu höf og var kauptún þjóðanna! 4 Fyrirverð
þig, Zídon, því að særinn, sæborgin, segir: Eigi hefi eg verið jóðsjúk
og eigi fætt, og eigi hefi eg fóstrað yngismenn né uppalið meyjar. 5 Þeg-
ar fregnin kemur til Egiptalands, munu þeir skelfast af fregninni
um Týrus.
6 Farið yfir til Tarsis og kveinið, þér íbúar ey-borgarinnar. 7 Er
þetta glaummikla borgin yðar, sem rekur uppruna sinn fram til forn-
aldar daga og stikað hefir langar leiðir, til þess að taka sér bólfestu?
8 Hver hefir ályktað svo um Týrus — um hana, sem ber höfuðdjásnið,
þar sem kaupmennirnir voru höfðingjar og verzlunarmennirnir tignustu
menn á jörðu? 9 Jahve hersveitanna hefir ályktað þetta, til þess að
ósæma alt hið dýrlega skraut og lægja alla hina tignustu menn á jörðu.

---

**9:** 2 Kron. 32, 3 n. **13:** kap. 56, 12. 1 Kor. 15, 32. **15:** 2 Kong. 18, 18. **20:** kap. 36, 3. 2 Kong. 18, 18. **22:** Job 12, 14. Opinb. 3, 7. — **23, 1:** Esek. 26, 2 n. 27, 2 n. 28, 2 n. Sak. 9, 2 n.

[10] Flæð yfir land þitt eins og Nílfljótið, Tarsis-dóttir! engir flóð-
garðar eru framar til. [11] Hann rétti hönd sína út yfir hafið, skelfdi
konungaríki; Jahve bauð að gjöreyða varnarvirki Kanaans. [12] Hann sagði:
Þú skalt aldrei framar leika af kæti, þú spjallaða mey, Zídon-dóttir.
Statt upp og far yfir til Kitta; þú skalt ekki heldur finna þar hvíld.
[13] Sjá land Kaldea, það er þjóðin, sem orðin er að engu; Assúr hefir
fengið það urðarköttum; þeir reistu vígturna sína, rifu niður hallirnar,
gjörðu landið að rústum. [14] Kveinið, þér Tarsis-knerrir, því að varn-
arvirki yðar er lagt í eyði.
[15] Á þeim dögum skal Týrus gleymast í sjötíu ár, eins og um daga
eins konungs. En að liðnum sjötíu árum mun fara fyrir Týrus eins
og segir í skækjukvæðinu:

[16] Tak gígjuna, far um alla borgina, þú gleymda skækja!
Leik fagurlega, syng hátt, svo að eftir þér verði munað!

[17] Að liðnum þeim sjötíu árum mun Jahve vitja Týrusar; mun hún þá
aftur fá skækjulaun sín og hórast með öllum konungaríkjum veraldar-
innar, þeim sem á jörðinni eru; [18] en aflafé hennar og skækjulaun
skulu helguð verða Jahve; það skal ekki verða lagt í sjóð eða geymt,
því að þeir, sem búa frammi fyrir augliti Jahve, skulu fá aflafé hennar
sér til fæðslu og saðningar og sæmilegs klæðnaðar.

---

24 Sjá, Jahve tæmir jörðina og eyðir hana, hann umhverfir á-
sjónu hennar og tvístrar íbúum hennar. [2] Eitt gengur yfir prest
og alþýðu, yfir húsbónda og þjón, yfir húsfreyju og þernu, yfir seljanda
og kaupanda, yfir lánsala og lánþega, yfir okrarann og skuldunaut hans.
[3] Jörðin skal verða altæmd og gjörsamlega rænd, því að Jahve hefir
talað þetta. [4] Jörðin viknar og kiknar, heimur bliknar og kiknar, tign-
armenni lýðsins á jörðu blikna. [5] Jörðin vanhelgast undir fótum þeirra,
er á henni búa, því að þeir hafa brotið lögin, brjálað boðorðunum og
rofið sáttmálann eilífa. [6] Þess vegna eyðir bölvun jörðinni og íbúar
hennar gjalda; þess vegna farast íbúar jarðarinnar af hita, svo að fátt
manna er eftir orðið. [7] Vínberjalögurinn sýtir, vínviðurinn visnar; nú
andvarpa allir þeir, sem áður voru af hjarta glaðir. [8] Gleðihljóð bumb-
nanna er þagnað, hávaði hinna glaðværu hættur, gleðiómur gígjunnar
þagnaður. [9] Menn sitja ekki syngjandi að víndrykkju; þeim sem drekka
áfengan drykk finst hann beiskur. [10] Borgirnar eru lagðar í eyði, öll
hús lokuð, svo að ekki verður inn komist. [11] Á strætunum er harma-
kvein af vínskortinum; öll gleði er horfin, fögnuður landsins flúinn.
[12] Auðnin ein er eftir í borginni, borgarhliðin eru mölbrotin. [13] Því að
á jörðinni miðri, á meðal þjóðanna, skal svo fara sem þá er olíuvið-
ur er skekinn, sem við eftirtíning að loknum vínberjalestri. [14] Þeir
hefja upp raust sína og fagna, yfir hátign Jahve gjalla gleðiópin í vestri.
[15] Vegsamið þess vegna Jahve á austurvegum, nafn Jahve, Ísraels Guðs,
á ströndum hafsins!
[16] Frá yzta jaðri jarðarinnar heyrðum vér lofsöngva: Dýrð sé
hinum réttláta! En eg sagði: »Æ, mig auman! æ, mig auman! vei
mér!« Ránsmenn ræna, ránum ránsmenn ræna. [17] Geigur, gröf og
gildra koma yfir þig, jarðarbúi. [18] Sá, sem flýr undan hinum geigvæna
gný, fellur í gröfina, og sá, sem kemst upp úr gröfinni, festist í gildr-
unni, því að flóðgáttirnar á hæðum ljúkast upp og grundvöllur jarðar-
innar skelfur; [19] jörðin brestur og gnestur, jörðin rofnar og klofnar,

24, 2: Hós. 4, 9. 8: Jer. 7, 34. 13: kap. 17, 6. 18: Jer. 48, 44. Am. 5, 19. 1 Mós. 7, 11.

jörðin riðar og iðar; [20] jörðin skjögrar eins og drukkinn maður, henni
svipar til og frá eins og vökuskýli; misgjörð hennar liggur þungt á
henni, hún hnígur og fær eigi risið upp framar. [21] Og á þeim degi
mun Jahve vitja hers hæðanna á hæðum og konunga jarðarinnar á
jörðu; [22] þeim skal varpað verða í gryfju, eins og fjötruðum banding-
jum, og þeir skulu byrgðir verða í dýflissu; eftir langa stund skal þeim
hegnt verða. [23] Þá mun máninn fyrirverða sig og sólin blygðast sín,
því að Jahve hersveitanna sezt að völdum á Zíon-fjalli og í Jerúsalem,
og fyrir augliti öldunga hans mun dýrð ljóma.

25 Jahve, þú ert minn Guð! eg vil vegsama þig, lofa nafn þitt;
því að þú hefir framkvæmt furðuverk, löngu ráðin ráð, trúfesti
og sannleika. [2] Því að þú hefir gjört bæi að grjóthrúgu, víggirtar borgir
að hruninni rúst; hallir óvinanna eru eigi framar bæir, þær skulu aldrei
verða reistar aftur. [3] Þess vegna munu harðsnúnir þjóðflokkar heiðra
þig, og borgir ofríkisfullra þjóða hræðast þig. [4] Því að þú varst vörn
lítilmagnans, vörn hins vesala í nauðum hans, skjól í skúrunum, hlíf
í hitanum; þótt andgustur ofríkismannanna sé eins og kuldaskúrir,
[5] glaumkæti óvinanna eins og sólarbreiskja í ofþurki, þá sefar þú sólar-
breiskjuna með skugganum af skýinu, og sigursöngur ofríkismannanna
hljóðnar. [6] Og Jahve hersveitanna mun á þessu fjalli búa öllum þjóð-
um veizlu með krásum, veizlu með dreggjavíni, mergjuðum krásum
og skírðu dreggjavíni. [7] Og hann mun afmá á þessu fjalli skýlu þá,
sem hylur alla lýði, og þann hjúp, sem breiddur er yfir allar þjóðir.
[8] Hann mun afmá dauðann að eilífu, og drottinn Jahve mun þerra
tárin af hverri ásjónu, og svívirðu síns lýðs mun hann burt nema af
allri jörðinni, því að Jahve hefir talað það.

[9] Á þeim degi mun sagt verða: Sjá, þessi er vor Guð; vér vonuð-
um á hann, að hann mundi frelsa oss; þessi er Jahve; vér vonuðum
á hann; fögnum og gleðjumst yfir hjálpræði hans! [10] Því að hönd
Jahve mun hvíla yfir þessu fjalli, en Móab verða fótum troðinn þar
sem hann er, eins og hálmur er troðinn niður í haugpolli. [11] Og hann
mun breiða út hendur sínar niðri í pollinum, eins og sundmaður gjörir,
til þess að taka sundtökin; en hann mun lægja dramb hans þrátt fyrir
brögð handa hans. [12] Vígi þinna háu múra mun hann að velli leggja,
steypa því niður og varpa til jarðar, ofan í duftið.

26 Á þeim degi mun þetta kvæði sungið verða í Júdalandi: Vér
eigum rammgerva borg; hjálpræði sitt gjörir hann að múrum
og varnarvirki. [2] Látið upp hliðin, svo að réttlátur lýður megi inn
ganga, sá er trúnaðinn varðveitir [3] og hefir stöðugt hugarfar; þú veitir
ævarandi frið, því að þeir treysta á þig. [4] Treystið Jahve æ og ætíð,
því að Jah, Jahve er eilíft bjarg. [5] Því að hann niðurlægir þá, sem
byggja á hæðum; háreistu borginni steypir hann niður, hann steypir
henni til jarðar og leggur hana í duftið. [6] Fætur troða hana niður,
fætur fátækra, iljar umkomulausra. [7] Vegur hins réttláta er sléttur,
götu hins réttláta ryður þú.

[8] Já, á vegi dóma þinna, Jahve, væntum vér þín; þitt nafn og
þína minning þráir sála vor. [9] Af hjarta þrái eg þig á næturnar, já,
með andanum í brjósti mínu skima eg eftir þér. Því að þegar dómar
þínir birtast á jörðu, þá læra byggjendur jarðríkis réttlæti. [10] Sé hinum
óguðlegu sýnd vægð, læra þeir eigi réttlæti; þá fremja þeir órétt í því
landi, þar sem réttlæti skal ríkja, og gefa ekki gætur að hátign Jahve.
[11] Jahve, hönd þín er á lofti, en þeir sjá það ekki; lát þá sjá vandlæti
þitt lýðsins vegna og blygðast sín; já, eldur eyði óvinum þínum.

---

**25, 4:** kap. 4, 6. **7:** 2 Kor. 3, 15. 16. **8:** 1 Kor. 15, 54. Opinb. 7, 17. — **26, 1:** kap. 60, 18. **2:** Sálm. 118, 19. 20. **5:** kap. 25, 12.

[12] Jahve, veit þú oss frið, því að þú hefir látið oss gjalda allra vorra
verka. [13] Jahve, Guð vor, aðrir drotnar en þú höfðu fengið yfirráð yfir
oss; en nú viljum vér eingöngu lofa þitt nafn. [14] Dauðir lifna ekki,
vofur rísa ekki upp; þess vegna vitjaðir þú þeirra og eyddir þeim og
afmáðir alla minningu um þá. [15] Þú hefir látið þjóðina fjölga, Jahve,
þú hefir látið þjóðina fjölga; þú hefir gjört þig dýrlegan; þú hefir fært
út öll takmörk landsins. [16] Jahve, í neyðinni leituðu þeir þín; þeir
stundu upp andvörpum, er þú hirtir þá. [17] Eins og þunguð kona, sem
komin er að því að fæða, hefir hríðir og hljóðar í harmkvælum sínum,
eins vorum vér fyrir þínu augliti, Jahve! [18] Vér vorum þungaðir, vér
höfðum hríðir, en þegar vér fæddum, var það vindur; vér höfum eigi
aflað landinu frelsis og heimsbúar hafa eigi fæðst. [19] Menn þínir, sem
dánir eru, skulu lifna, líkin mín rísa upp; vaknið og hefjið fagnaðar-
söng, þér sem búið í duftinu, því að döggin þín er dögg ljóssins, og
jörðin skal fæða vofurnar.

[20] Gakk þú, þjóð mín, inn í herbergi þitt og lyk aftur dyrnar á
eftir þér. Fel þig skamma hríð, unz reiðin er liðin hjá. [21] Því sjá,
Jahve gengur út frá aðseturstað sínum, til þess að hegna íbúum jarðarinnar
fyrir misgjörðir þeirra; jörðin mun birtast láta blóðið, sem á henni
hefir verið úthelt, og hún mun ekki lengur hylja þá, sem á henni hafa
27 myrtir verið. [1] Á þeim degi mun Jahve með hinu harða, mikla
og sterka sverði sínu hegna Levíatan, hinum flughraða dreka,
og Levíatan, hinum bugðótta dreka, og bana sjóskrimslinu.

[2] Á þeim degi skuluð þér kveða um hinn yndislega víngarð: [3] Eg,
Jahve, er vörður hans; eg vökva hann á hverri stundu; til þess að
enginn vinni þar spell, gæti eg hans nótt og dag. [4] Varnarmúr átt þú
engan; en vilji nokkur gjöra þig að þyrnum og þistlum með styrjöld,
þá mun eg ráða á hann og brenna hann, — [5] nema hann leiti hælis
hjá mér og gjöri frið við mig, gjöri frið við mig. [6] Á komandi tímum
mun Jakob festa rætur, Ísrael blómgast og frjóvast, og þeir munu fylla
jarðarkringluna með ávöxtum.

[7] Hefir hann lostið lýðinn annað eins högg og það, er hann lýstur
þá, sem lustu hann? eða hefir hann myrtur verið, eins og banamenn
hans eru myrtir? [8] Með því að reka hann frá þér, með því að láta
hann frá þér, hegnir þú honum; hann hreif hann burt með hinum
hvassa vindi sínum, þegar austanstormurinn geisaði. [9] Þess vegna
verður misgjörð Jakobs með því afplánuð og með því er synd hans
algjörlega burt numin, að hann lætur alla altarissteinana verða sem
brotna kalksteina, svo að asérurnar og sólsúlurnar rísa ekki upp framar.
[10] Því að hin víggirta borg er komin í eyði, eins og mannauður og
yfirgefinn áfangastaður í eyðimörkinni; kálfar ganga þar á beit og
liggja þar og bíta þar kvistu. [11] Þegar greinarnar þorna, eru þær brotnar;
konur koma og kveikja eld við þær. Því að hún var óvitur þjóð;
fyrir því getur hann, sem sköp hana, ekki verið henni miskunnsamur,
og hann, sem myndaði hana, ekki verið henni líknsamur.

[12] En á þeim degi mun Jahve slá ávöxtinn niður, alt í frá straumi
fljótsins* til Egiptalandsár, og þér munuð saman tíndir verða einn og
einn, Ísraelsmenn! [13] Á þeim degi mun blásið verða í mikinn lúður,
og þá munu þeir koma, hinir töpuðu í Assúrlandi og hinir burtreknu
í Egiptalandi, og þeir munu tilbiðja Jahve á fjallinu helga í Jerúsalem.

———

16: Hós. 5, 15. 17: kap. 13, 8. 19: Esek. 37, 12. 21: Mík. 1, 3. — 27, 1: Esek. 29, 3. 2: kap. 5, 1 n. 4: kap. 10, 17. 6: kap. 37, 31. 8: Jer. 10, 24. 12: * Þ. e. Evfrat. 13: kap. 11, 11 n.

28 Vei hinum drembilega höfuðsveig drykkjurútanna í Efraím,
hinu bliknandi blómi, hinni dýrlegu prýði þeirra, sem stendur á
hæðinni í frjósama dalnum hinna víndruknu. 2 Sjá, sterk og voldug
hetja kemur frá drotni; eins og haglskúr, fárviðri, eins og dynjandi,
streymandi regn í helliskúr varpar hann honum til jarðar með hendi
sinni. 3 Fótum troðinn skal hann verða, hinn drembilegi höfuðsveigur
drykkjurútanna í Efraím. 4 Og fyrir hinu bliknandi blómi, hinni dýr-
legu prýði þeirra, sem stendur á hæðinni í frjósama dalnum, skal fara
eins og árfíkju, er þroskast fyrir uppskeru: einhver kemur auga á hana
og gleypir hana óðara en hann hefir náð henni. 5 Á þeim degi mun
Jahve hersveitanna vera dýrlegur höfuðsveigur og prýðilegt höfuðdjásn
fyrir leifar þjóðar sinnar 6 og réttlætisandi þeim, er í dómum sitja, og
styrkleikur þeim, er bægja burt ófriðnum að borghliðum óvinanna.
7 En einnig hérna reika menn af víni og skjögra af áfengum
drykkjum. Prestar og spámenn reika af áfengum drykkjum, eru rugl-
aðir af víni, skjögra af áfengum drykkjum; þá svimar í vitrunum
sínum og alt hringsnýst fyrir þeim í úrskurðum þeirra. 8 Því að öll
borð eru full af viðbjóðslegri spýju, enginn blettur hreinn eftir.
9 »Hverjum þykist hann vera að kenna vizku og hvern ætlar hann að
fræða með boðskap sínum? Erum vér nývandir af mjólkinni og ný-
teknir af brjóstunum? 10 Alt af að skipa og skipa, skipa og skipa —
skamma og skamma, skamma og skamma — ýmist þetta, ýmist hitt«.
11 Já, með stamandi vörum og annarlegri tungu mun hann láta tala
til þessarar þjóðar, 12 hann sem sagði við þá: »Þetta er hvíldin — ljáið
hinum þreytta hvíldar! — hér er hvíldarstaður«, en þeir vildu ekki
heyra. 13 Fyrir því mun orð Jahve láta svo í eyrum þeirra: »skipa og
skipa, skipa og skipa — skamma og skamma, skamma og skamma —
ýmist þetta, ýmist hitt«, að þeir steypist aftur á bak og beinbrotni,
festist í snörunni og verði teknir.
14 Heyrið því orð Jahve, þér spottsamir menn, þér sem drotnið yfir
fólki því, sem býr í Jerúsalem. 15 Sökum þess að þér segið: »Vér höf-
um gjört sáttmála við dauðann og samning við Helju; þó að hin dyn-
jandi svipa ríði yfir, þá mun hún eigi til vor koma, því að vér höfum
gjört lygi að hæli voru og falið oss í skjóli svikanna«, — 16 fyrir því
segir drottinn Jahve svo: Sjá, eg legg undirstöðustein á Zíon, traustan
stein, óbifanlegan, ágætan hornstein; sá sem trúir, er eigi óðlátur. 17 Og
eg gjöri réttinn að mælivað og réttlætið að mælilóði; og haglhríð skal
feykja burt hæli lyginnar og vatnsflóð skola burt skjólinu. 18 Sáttmáli
yðar við dauðann skal rofinn verða og samningur yðar við Helju eigi
standa; þá er hin dynjandi svipa ríður yfir, skuluð þér sundurmarðir
verða af henni. 19 Í hvert sinn, sem hún ríður yfir, skal hún hremma
yður, því að á hverjum morgni ríður hún yfir, nótt sem nýtan dag;
og það skal verða skelfingin ein að skilja boðskapinn. 20 Því að hvílan
mun verða of stutt til þess, að maður fái rétt úr sér, og ábreiðan of mjó
til þess, að maður fái skýlt sér með henni. 21 Því að Jahve mun standa
upp, eins og á Perazímfjalli, hann mun reiðast, eins og í dalnum hjá
Gíbeon, til þess að hann vinni verk sitt, hið undarlega verk sitt, og
framkvæmi starf sitt, hið óvanalega starf sitt. 22 Látið nú af spottinu,
svo að fjötrar yðar verði ekki enn harðari; því að eg hefi heyrt af
drotni, Jahve hersveitanna, að fastráðið sé, að eyðing komi yfir land alt.
23 Hlustið á og heyrið mál mitt! Hyggið að og heyrið orð mín!
24 Hvort plægir plógmaðurinn í sífellu til sáningar, ristir upp og herfir

---

**28, 11:** 1 Kor. 14, 21. **12:** Matt. 11, 28. 29. **13:** kap. 8, 15. **16:** Sálm. 118, 22.
Matt. 21, 42. Róm. 9, 33. 1 Pét. 2, 6. **21:** 2 Sam. 5, 20. 1 Kron. 14, 11. Jós. 10, 12.
**22:** kap. 10, 23.

akurland sitt? [25] Hvort mun hann eigi, þegar hann hefir jafnað moldina að ofan, sælda þar karfa og sá kúmeni, setja hveiti niður í raðir, bygg á tilteknum stað og speldi í útjaðarinn? [26] Guð hans kennir honum hina réttu aðferð og leiðbeinir honum. [27] Því að eigi er karfi þresktur með þreskisleða, né vagnhjóli velt yfir kúmen; heldur er karfi barinn af með þúst og kúmen með staf. [28] Mun neyzlukorn mulið sundur? Nei, menn halda ekki stöðugt áfram að þreskja það, og keyra eigi vagnhjól sín né hesta yfir það; menn mylja það eigi sundur. [29] Einnig þetta kemur frá Jahve hersveitanna; hann er undursamlegur í ráðum og mikill í vísdómi.

29 Æ, Aríel, Aríel*, þú borg, þar sem Davíð sló herbúðum! Bætið
ári við þetta ár, lát hátíðirnar fara sinn hring; [2] þá þrengi eg
að Aríel, og hún skal verða hrygð og harmur, og hún skal verða mér
sem Aríel. [3] Eg vil setja herbúðir alt í kring um þig, umlykja þig með
varðmönnum og reisa hervirki í móti þér. [4] Þú skalt tala lágri röddu
upp úr jörðinni, og orð þín hljóma dimmum rómi úr duftinu; rödd
þín skal vera sem draugsrödd úr jörðinni, og orð þín hljóma sem hvískur úr duftinu. [5] En mergð fjandmanna þinna skal verða sem moldryk,
og mergð ofbeldismannanna sem fjúkandi sáðir; og það skal verða
skyndilega, á einu augabragði. [6] Hennar skal verða vitjað af Jahve
hersveitanna með reiðarþrumu, landskjálfta og miklum gný, fellibyljum,
stormviðri og eyðandi eldsloga. [7] Eins og í draumsýn um nótt mun
fara fyrir mergð allra þeirra þjóða, sem herja á Aríel, og öllum þeim,
sem herja á hana og hervirki hennar og þrengja að henni. [8] Og eins
og þegar hungraðan mann dreymir að hann eti, en vaknar svo jafnhungraður, og eins og þegar þyrstan mann dreymir að hann drekki,
en vaknar svo örmagna og sárþyrstur, svo skal fara fyrir mergð allra
þeirra þjóða, er herja á Zíon-fjall.

[9] Fallið í stafi og undrist! gjörið yður sjónlausa og verið blindir!
Þeir eru druknir, og þó ekki af víni; þeir reika, og þó ekki af áfengum drykk. [10] Því að Jahve hefir úthelt yfir yður svefnsemi-anda og
aftur lukt augu yðar — spámennina — og brugðið hulu yfir höfuð yðar —
þá sem vitranir fá —; [11] öll opinberun er yður því sem orðin í innsiglaðri
bók; sé hún fengin þeim, sem kann að lesa, og sagt: »Les þú þetta«,
þá segir hann: »Eg get það ekki, því að hún er innsigluð«. [12] En sé
bókin fengin þeim, sem eigi kann að lesa, og sagt: »Les þú þetta«, þá
segir hann: »Eg er ekki læs«.

[13] Og drottinn sagði: Með því að þessi lýður nálgast mig með
munni sínum og heiðrar mig með vörum sínum, en fjarlægir hjarta
sitt langt í burt frá mér, og með því að ótti þeirra fyrir mér er manna
boðorð, lærð utan bókar, [14] sjá, fyrir því mun eg enn fara undursamlega
með þennan lýð, undursamlega og undarlega; speki spekinganna skal
komast í þrot og hyggindi hyggindamannanna fara í felur.

[15] Vei þeim, sem leggjast djúpt, til þess að dylja áform sín fyrir
Jahve, og fremja verk sín í myrkrinu og segja: Hver sér oss? Hver
veit af oss? [16] Hvílík fásinna! eða skal meta að jöfnu leirinn og smiðinn, svo að verkið geti sagt um meistarann: »Hann hefir eigi búið mig
til«, og smíðin geti sagt um smiðinn: »Hann kann ekki neitt«? [17] Sjá,
eftir skamma hríð skal Líbanon-skógur verða að aldingarði og aldingarður talinn verða kjarrskógur. [18] Á þeim degi skulu hinir daufu
heyra ritað orð, og augu hinna blindu skulu sjá út úr dimmunni og
myrkrinu. [19] Þá mun aukast gleði hinna auðmjúku yfir Jahve, og hinir

---

**29, 1:** * Aríel = arinn Guðs, þ. e. Jerúsalem. **5:** kap. 37, 36. **10:** 1 Sam. 9, 9. **13:** Matt. 15, 8. 9. Mark. 7, 6 n. **14:** 1 Kor. 1, 19 n. **15:** Esek. 8, 12. **18:** kap. 35, 5. Matt. 11, 5.

fátækustu meðal manna munu fagna yfir hinum Heilaga í Ísrael. [20] Því
að ofbeldismenn eru ekki framar til og spottarar undir lok liðnir, og
allir þeir upprættir, er ranglæti iðka, [21] þeir er sakfella menn fyrir rétti
og leggja snörur fyrir þá, er vanda um á þingum, og blekkja hina
saklausu með hégóma. [22] Fyrir því segir Jahve, hann er frelsaði Abra-
ham, svo um Jakobs hús: Jakob skal eigi framar þurfa að blygðast
sín og ásjóna hans eigi framar blikna. [23] Því að þegar hann — niðjar
hans sjá verk handa minna á meðal sín, munu þeir helga nafn mitt;
þeir munu helga hinn Heilaga Jakobs og óttast Ísraels Guð. [24] Þá munu
hinir andlega viltu átta sig og hinir þverúðarfullu láta sér segjast.

30 Vei hinum þverúðugu börnum, segir Jahve, sem taka saman
ráð, er eigi koma frá mér, og gjöra bandalag, án þess að minn
andi sé með í verki, til að hlaða synd á synd ofan; [2] sem gjöra sér
ferð suður til Egiptalands án þess að leita minna atkvæða, til að leita
sér hælis hjá Faraó og fá sér skjól í skugga Egiptalands. [3] En hælið
hjá Faraó skal verða yður til skammar og skjólið í skugga Egiptalands
til smánar! [4] Látum höfðingja þeirra vera í Zóan og sendimenn þeirra
komast alla leið til Hanes! [5] Þeir munu allir skammast sín fyrir þá
þjóð, sem eigi hjálpar þeim, er að engu liði verður og til engrar hjálpar,
heldur eingöngu til skammar og háðungar.

[6] Spádómur um dýr suðurlandsins.

Um torfæruland og angistar, þar sem ljónynjur og ljón, eiturormar
og flugdrekar hafast við, flytja þeir auðæfi sín á asnabökum og fjár-
sjóðu sína á úlfaldakryppum til þeirrar þjóðar, sem eigi hjálpar þeim.
[7] Því að liðveizla Egiptalands er fánýt og einskis virði; fyrir því kalla
eg það: Stórgortarinn, er eigi hefst að.

[8] Far nú og rita það á spjald hjá þeim og letra það í bók, svo
að það á komandi tímum verði til vitnisburðar æfinlega. [9] Því að
þetta er þrjózkur lýður, lygin börn, börn sem eigi vilja heyra kenn-
ingu Jahve, [10] sem segja við sjáendur: »Þér skuluð eigi sjá sýnir«, og
við vitranamenn: »Þér skuluð eigi birta oss sannleikann; sláið oss
heldur gullhamra og birtið oss blekkingar. [11] Farið út af veginum,
beygið út af brautinni, komið hinum Heilaga í Ísrael burt frá augliti
voru«. [12] Fyrir því segir hinn Heilagi í Ísrael svo: Sökum þess að
þér hafnið þessu orði, en reiðið yður á ofríki og andhælisskap og styð-
jist við það, [13] fyrir því skal þessi misgjörð verða yður eins og veggjar-
kafli, sem bungar út á háum múrvegg og kominn er að hruni; skyndi-
lega og óvörum hrynur hann; [14] og hann mun brjóta hann sundur,
eins og þegar leirker er brotið, vægðarlaust mölvað, svo að af molun-
um fæst eigi svo mikið sem leirbrot til að taka með eld af arni eða
til að ausa með vatn úr þró. [15] Því að svo hefir drottinn Jahve, hinn
Heilagi í Ísrael, sagt: »Fyrir afturhvarf og rósemi skuluð þér frelsaðir
verða; í þolinmæði og trausti skal styrkur yðar vera«, en þér vilduð
það ekki [16] og sögðuð: Nei, á hestum skulum vér þjóta — fyrir því
skuluð þér flýja! — og á léttum reiðskjótum skulum vér ríða — fyrir
því skulu þeir vera léttir á sér, sem elta yður! [17] Eitt þúsund skal
flýja fyrir ógnunum eins manns, fyrir ógnunum fimm manna skuluð
þér flýja, unz eftirleifar yðar verða sem vitastöng á fjallstindi og sem
hermerki á hól.

[18] Fyrir því dregur Jahve það, að miskunna yður, og fyrir því
heldur hann kyrru fyrir, unz hann getur líknað yður; því að Jahve er

---

**21:** Am. 5, 10. **23:** kap. 8, 13. — **30, 1:** kap. 1, 2. 4. **2:** kap. 31, 1. **3:** kap. 20, 5.
**4:** kap. 19, 11. **7:** kap. 36, 6. **13:** Sálm. 62, 4. **16:** kap. 31, 1. 3. **17:** 5 Mós. 32,
30. **18:** Sálm. 2, 12; 34, 9.

Guð réttlætis; sælir eru allir þeir, sem á hann vona. [19] Já, þú lýður í
Zíon, þú sem býr í Jerúsalem, grát þú eigi án afláts; hann mun vissu-
lega miskunna þér, þegar þú kallar í neyðinni, hann mun bænheyra
þig, þegar hann heyrir til þín. [20] Drottinn mun gefa yður neyðarbrauð
og þrengingarvatn; kennendur þínir munu þá eigi framar fela sig,
heldur munu augu þín líta kennendur þína, [21] og eyru þín munu heyra
þessi orð kölluð á eftir þér, þá er þér víkið til hægri handar eða vinstri:
»Hér er vegurinn! Farið hann!« [22] Þá munuð þér óhrein telja hin
silfurlögðu skurðgoð yðar og hin gullbúnu líkneski yðar; þú munt burt-
snara þeim eins og einhverri viðurstygð, þú munt segja við þau: »Burt
héðan«. [23] Þá mun hann regn gefa sæði því, er þú sáir í akurland
þitt, og brauð af gróðri akurlandsins; kjarngott og kostmikið mun það
vera; fénaður þinn mun á þeim degi ganga í víðlendum grashaga.
[24] Uxarnir og asnarnir, sem akurinn erja, skulu eta saltan fóðurblending,
sem hreinsaður hefir verið með varpskóflu og varpkvísl. [25] Á hverju
háu fjalli og á hverri gnæfandi hæð munu vatnslækir fram fljóta á
hinum mikla mannfallsdegi, þegar turnarnir hrynja. [26] Þá mun tungls-
ljósið verða sem sólarljós, og sólarljósið sjöfaldast, eins og sjö daga
ljós, þann dag er Jahve bindur um sár þjóðar sinnar og græðir hennar
krömdu undir.
[27] Sjá, nafn Jahve kemur úr fjarlægð; reiði hans bálar og þykkan
reykjarmökk leggur upp af; heiftin freyðir um varir hans og tunga hans
er sem eyðandi eldur. [28] Andgustur hans er sem ólgandi vatnsfall, það
er tekur manni í háls; hann mun drifta heiðingjana í sáldi eyðingar-
innar og leggja þjóðunum í munn bitil þann, er leiðir þær afvega.
[29] Þá munuð þér syngja ljóð, eins og aðfaranótt hátíðar, og hjartans
gleði á yður vera, eins og þegar gengið er með hljóðpípum upp á fjall
Jahve til hellubjargs Ísraels. [30] Þá mun Jahve heyra láta hina hátign-
arlegu raust sína og láta sjá til sín, þegar hann reiðir ofan armlegg
sinn í brennandi reiði, með eyðandi eldslogum, með helliskúrum, steypi-
hríðum og hagléljum. [31] Já, fyrir raustu Jahve mun Assúr skelfast, er
hann lýstur hann með sprota sínum. [32] Og í hvert sinn sem refsivölur
sá, er Jahve reiðir á lofti uppi yfir honum, kemur niður, mun heyrast
bumbuhljóð og gígjusláttur, og með því að sveifla hendinni, mun hann
berjast gegn þeim. [33] Því að brenslugróf er þegar fyrir löngu undir-
búin; hún er og gjörð handa konunginum. Hann hefir gjört eldstæðið
í henni djúpt og vítt; hann ber að mikinn eld og við. Andgustur Jahve
kveikir í því, eins og brennisteinsflóð.

31 Vei þeim, sem fara suður til Egiptalands í liðsbón, sem reiða
sig á hesta og treysta á vagna, af því að þeir séu margir, og á
riddara, af því að fjöldinn sé mikill, en líta ekki til hins Heilaga í
Ísrael og leita ekki Jahve. [2] En hann er líka ráðspakur og lætur ó-
gæfuna yfir koma og tekur ekki orð sín aftur; hann rís upp í móti
húsi illvirkjanna og í móti hjálparliði misgjörðamannanna. [3] Egiptar
eru menn, en enginn Guð; hestar þeirra eru hold, en eigi andi; þegar
Jahve réttir út hönd sína, hrasar liðveitandinn og liðþeginn fellur, svo
að þeir farast allir hver með öðrum. [4] Því að svo hefir Jahve við mig
sagt: Eins og ljónið eða ljónskálfurinn urrar yfir bráð sinni, þegar
hjarðmannahóp er stefnt saman á móti honum, og hann hræðist ekki
köll þeirra og lætur ekki hugfallast við háreysti þeirra, eins mun Jahve
hersveitanna ofan stíga, til þess að herja á Zíon-fjall og hæð þess.
[5] Eins og fuglar á flökti, eins mun Jahve hersveitanna vernda Jerúsalem,

---

**20:** 1 Kong. 22, 27. **22:** kap. 2, 20; 31, 7. **23:** Jer. 5, 24. **30:** kap. 29, 6. — **31, 1:** kap. 30, 2. Sálm. 20, 8. **5:** 5 Mós. 32, 11. Sálm. 91, 4.

vernda hana og frelsa, vægja henni og bjarga. [6] Hverfið aftur, þér Ís-
raelsmenn, til hans, sem þér eruð horfnir svo langt í burtu frá. [7] Því
að á þeim degi munu þeir hver og einn hafna silfurgoðum sínum og
gullgoðum, er hendur yðar hafa gjört handa yður til að syndgast á.
[8] Assúr skal fyrir sverði falla, en ekki fyrir manna sverði; sverð skal
verða honum að bana, en ekkert mannssverð; hann mun undan sverði
flýja og æskumenn hans verða ánauðugir. [9] Og bjarg hans mun farast
af ótta og höfðingjar hans flýja í ofboði undan merkinu, segir Jahve,
sem hefir eld sinn á Zíon og arinn sinn í Jerúsalem.

32 Þegar konungurinn ríkir með réttlæti og höfðingjarnir stjórna
með réttvísi, [2] þá verður hver þeirra sem hlé fyrir vindi og skjól
fyrir skúrum, sem vatnslækir í öræfum, sem skuggi af stórum hamri í
vatnslausu landi. [3] Þá eru augu hinna sjáandi eigi afturlukt og þá
hlusta eyru þeirra, sem heyrandi eru; [4] hjörtu hinna gálausu læra hygg-
indi og tunga hinna mállausu talar liðugt og skýrt. [5] Þá er heimsk-
inginn eigi framar kallaður göfugmenni og hinn undirföruli eigi sagður
veglyndur. [6] Því að heimskinginn talar heimsku og hjarta hans býr
mönnum ógæfu, með því að hann breytir óguðlega og talar villu gegn
Jahve, lætur hinn hungraða vera svangan og gefur eigi þyrstum manni
vatnsdrykk. [7] Vopn hins undirförula eru skaðvænleg; hann hugsar upp
pretti, til þess að koma hinum umkomulausa á kné með lygaræðum,
og það jafnvel þótt hinn fátæki sanni rétt sinn. [8] En göfugmennið hefir
göfugleg áform og stendur stöðugur í því, sem göfuglegt er.
[9] Þér áhyggjulausu konur, standið upp og heyrið raust mína; þér
ugglausu dætur, gefið gaum að ræðu minni. [10] Eftir ár og daga skulu
þér hinar ugglausu skelfast, því að vínberjatekjan bregzt og aldintekja
verður engin. [11] Hræðist, þér hinar áhyggjulausu! skelfist, þér hinar
ugglausu! Farið af klæðum og verið naktar, gyrðið hærusekk um
lendar yðar. [12] Menn munu bera sig hörmulega vegna akranna, vegna
hinna yndislegu akra, vegna hins frjósama vínviðar. [13] Á akurlöndum
þjóðar minnar munu vaxa þyrnar og þistlar, já í öllum glaðværðar-
húsunum í hinni glaummiklu borg. [14] Því að hallirnar munu verða
mannauðar og hávaði borgarinnar hverfa. Ófel og varðturninn verða
hellar um aldur og æfi, skógarösnum til skemtunar og hjörðum til
hagbeitar — [15] unz úthelt verður yfir oss anda af hæðum; þá skal eyði-
mörkin verða að aldingarði og aldingarður talinn verða kjarrskógur,
[16] réttvísin festa bygð í eyðimörkinni og réttlætið taka sér bólfestu í
aldingarðinum; [17] og ávöxtur réttlætisins skal vera friður, og árangur
réttlætisins rósemi og öruggleiki að eilífu. [18] Þá skal þjóð mín búa í
heimkynni friðarins, í híbýlum öruggleikans og í rósömum bústöðum.
[19] En hegla mun þegar skógurinn hrynur og borgin steypist. [20] Sælir
eruð þér, sem alstaðar sáið við vötn og látið uxa og asna ganga sjálfala.

33 Vei þér, sem eyðir, og hefir þó sjálfur eigi fyrir eyðingu orðið,
sem rænir, og hefir þó eigi ræntur verið! Þegar þú hefir lokið
eyðingunni, skalt þú fyrir eyðingu verða; þegar þú ert hættur að ræna,
skalt þú ræntur verða. [2] Jahve, ver þú oss líknsamur! Vér vonum á
þig. Ver þeim armleggur á hverjum morgni og hjálpræði vort á neyð-
arinnar tíma. [3] Fyrir hinum dynjandi gný flýja þjóðirnar; þegar þú
rís upp, tvístrast heiðingjarnir. [4] Þá mun herfangi yðar verða safnað,
eins og þegar engisprettur eru að tína; menn munu stökkva á það, eins

---

**7:** kap. 2, 20; 30, 22. **8:** kap. 37, 36 n. — **32, 1:** kap. 11, 4 n. Sálm. 72, 1 n. Jer. 23, 5. 6. **2:** kap. 25, 4. **3:** kap. 29, 18. **15:** Jóel 3, 1. Jes. 29, 17. — **33, 4:** Jóel 2, 4. 5.

og þegar jarðvargar stökkva. [5] Hár er Jahve, því að hann býr á hæð-
um; hann fyllir Zíon réttindum og réttlæti. [6] Örugga tíma skalt þú
hljóta, gæfu-fjársjóð átt þú í vizku og þekkingu; ótti Jahve er auður
lýðsins.
[7] Sjá, kappar þeirra kveina úti fyrir; friðarboðarnir gráta beisk-
lega. [8] Þjóðvegirnir eru eyðilagðir, mannaferðir hættar. Hann hefir
rofið sáttmálann, fyrirlitið borgirnar og virðir menn vettugi. [9] Landið
sýtir og visnar; Líbanon blygðast sín og skrælnar, Saron er orðin eins
og eyðimörk; Basan og Karmel fella laufið. [10] Nú vil eg upp rísa, segir
Jahve, nú vil eg láta til mín taka, nú vil eg hefjast handa. [11] Þér
gangið með hey og alið hálm; andgustur yðar er eldur, sem eyða mun
sjálfum yður. [12] Þjóðirnar munu brendar verða að kalki, þær munu
verða sem upphöggnir þyrnar, sem brendir eru í eldi.
[13] Heyrið, þér sem fjarlægir eruð, hvað eg hefi gjört, og sjáið, þér
sem nálægir eruð, kraft minn! [14] Syndararnir í Zíon eru hræddir, skelf-
ing hefir gagntekið guðleysingjana. Hver af oss má búa við eyðandi
eld, hver af oss má búa við eilíft bál? [15] Sá sem fram gengur réttvís-
lega og talar af hreinskilni; sá sem hafnar þeim ávinningi, sem feng-
inn er með ofríki; sá sem hristir mútugjafir af höndum sér; sá sem
byrgir fyrir eyru sín, til þess að heyra eigi morð ráðin; sá sem afturlykur
augum sínum, til þess að horfa eigi á það, sem ilt er. [16] Hann skal
búa uppi á hæðunum; hamraborgirnar skulu vera vígi hans; brauðið
skal verða fært honum, og vatnið handa honum skal eigi þverra. [17] Augu
þín skulu sjá konunginn í ljóma sínum; þau skulu horfa á víðáttumik-
ið land. [18] Hjarta þitt mun hugsa til skelfingar-tímans: hvar er nú sá,
er silfrið taldi? hvar er sá, er vó það? hvar er sá, sem taldi turnana?
[19] Þú skalt ekki framar sjá hina ofstopafullu þjóð, sem talar svo ó-
glögt mál, að ekki verður numið, og svo óskilmerkilega tungu, að eng-
inn fær skilið. [20] Lít þú á Zíon, borg samfunda vorra! Augu þín
skulu horfa á Jerúsalem, bústaðinn örugga, tjaldið, sem eigi er flutt úr
stað, hælum þess eigi kipt upp og ekkert af stögum þess slitið. [21] Nei,
hinn mátki, Jahve, er þar oss til varnar, eins og fljót og breið vatns-
föll, þar sem engin róðrarskip geta gengið og engin tignarleg langskip
um farið. [22] Því að Jahve er vor dómari, Jahve er vor löggjafi, Jahve
er vor konungur; hann mun frelsa oss. [23] Stögin eru slök hjá þér, þau
halda ekki siglunni í skorðum og geta eigi þanið út seglið. Þá skal
mikilli bráð og herfangi skift verða, jafnvel haltir menn skulu ræna.
[24] Og enginn borgarbúi mun segja: Eg er sjúkur. Fólkið, sem þar
býr, hefir fengið fyrirgefning misgjörða sinna.

34 Gangið nær, þér þjóðir, að þér megið heyra! Hlýðið til, þér
lýðir! Heyri það jörðin og alt, sem á henni er, jarðarkringl-
an og alt, sem á henni vex! [2] Því að Jahve er reiður öllum heiðing-
junum og gramur öllum þeirra her; hann hefir vígt þá dauðanum og
ofurselt þá til slátrunar. [3] Vegnum mönnum þeirra er burt kastað og
hrævadaunn stígur upp af líkum þeirra, og fjöllin renna sundur af blóði
þeirra. [4] Allur himinsins her hjaðnar og himininn vefst saman eins og
bókfell; og allur hans her hrynur niður, eins og laufið fellur af vínviði
og visin blöð af fíkjutré. [5] Því að sverð mitt hefir drukkið sig drukkið
á himnum; nú lýstur því niður til dóms yfir Edóm og þá þjóð, sem
eg hefi vígt dauðanum. [6] Sverð Jahve er alblóðugt, löðrandi af feiti,
af blóði lamba og kjarnhafra, af nýrnamör úr hrútum; því að Jahve

---

**8:** 2 Kong. 18, 14 n. **9:** Nah. 1, 4. **11:** Sálm. 7, 15. **15:** Sálm. 15, 2 n. 24, 3 n.
**18:** 1 Kor. 1, 20. **19:** 5 Mós. 28, 49. **20:** kap. 32, 18. — **34, 4:** Matt. 24, 29. Opinb.
6, 14. **6:** kap. 63, 1.

heldur fórnarveizlu í Bozra og slátrun mikla í Edómlandi. 7 Villinautin
hníga með þeim, og ungneytin með uxunum; land þeirra flýtur í blóði
og jarðvegurinn er löðrandi af feiti. 8 Því að nú er hefndardagur Jahve,
endurgjaldsárið, til að reka réttar Zíonar. 9 Lækirnir skulu verða að
biki og jarðvegurinn að brennisteini; landið skal verða að brennandi
biki. 10 Það skal eigi slokna nætur né daga: reykurinn af því skal upp
stíga um aldur og æfi; það skal liggja í eyði frá einni kynslóð til ann-
arrar; enginn maður skal þar um fara að eilífu. 11 Pelíkanar og stjörnu-
hegrar skulu fá það til eignar, náttuglur og hrafnar búa þar; hann
mun draga yfir það mælivað auðnarinnar og mælilóð aleyðingarinnar.
12 Tignarmenn landsins kveðja þar eigi til konungskosningar og allir
höfðingjarnir verða að engu. 13 Í höllunum munu þyrnar upp vaxa og
klungrar og þistlar í víggirtum borgunum; það mun verða sjakalabæli
og strútsfuglagerði. 14 Urðarkettir og sjakalar skulu koma þar saman,
og skógartröll mæla sér þar mót; næturgrýlan ein skal hvílast þar og
finna sér þar hæli. 15 Stökkormurinn skal búa sér þar hreiður og klekja
þar út, verpa þar eggjum og unga þeim út í skugganum; gleður einar
skulu flykkjast þar hver til annarrar. 16 Leitið í bók Jahve og lesið:
Ekkert af þeim vantar, ekkert þeirra saknar annars; því að munnur
Jahve hefir svo um boðið, og það er andi hans, sem hefir stefnt þeim
saman. 17 Hann hefir sjálfur kastað hlutum fyrir þau, og hönd hans
hefir skift landinu milli þeirra með mælivað; þau munu eiga það um
aldur og æfi og búa þar frá einni kynslóð til annarrar.

35 Eyðimörkin og hið þurra landið skal gleðjast; öræfin skulu
fagna og blómgast sem lilja. 2 Þau skulu blómgast ríkulegu og
fagna af unaði og gleði. Vegsemd Líbanons skal veitast þeim, prýði
Karmels og Sarons; þau skulu fá að sjá vegsemd Jahve og prýði Guðs
vors. 3 Stælið hinar máttvana hendur, styrkið hin skjögrandi kné!
4 Segið hinum ístöðulausu: »Verið hughraustir, óttist eigi! Sjá, hér er
Guð yðar! Hefndin kemur, endurgjald frá Guði! Hann kemur sjálfur
og frelsar yður«. 5 Þá munu augu hinna blindu upplúkast og opnast
eyru hinna daufu; 6 þá mun hinn halti létta sér sem hjörtur og tunga
hins mállausa fagna lofsyngjandi; því að vatnslindir spretta upp í eyði-
mörkinni og lækir á öræfunum. 7 Sólbrunnar auðnir skulu verða að
tjörnum, og þurrar lendur að uppsprettum. Þar sem sjakalar höfðust
áður við, í bælum þeirra, skal verða gróðrarreitur fyrir sef og reyr.
8 Þar skal verða braut og vegur; sú braut skal kallast brautin helga;
enginn, sem óhreinn er, skal hana ganga. Hún er fyrir þá eina; eng-
inn, sem hana fer, mun villast, jafnvel ekki fáráðlingar. 9 Þar skal
ekkert ljón vera, og ekkert glepsandi dýr skal þar um fara, eigi hittast
þar; en hinir endurleystu skulu ganga þar. 10 Hinir endurkeyptu Jahve
skulu aftur hverfa og koma með fögnuði til Zíonar; og eilíf gleði skal
leika yfir höfði þeim; fögnuður og gleði skal fylgja þeim, en hrygð og
andvarpan flýja.

---

36 Svo bar til á fjórtánda ríkisári Hiskía konungs, að Sanherib
Assýríu-konungur fór herför gegn öllum víggirtum borgum í Júda
og vann þær. 2 Þá sendi Assýríu-konungur Rabsake með miklu liði
frá Lakís til Jerúsalem á fund Hiskía konungs; hann nam staðar hjá
vatnstokknum úr efri tjörninni, við veginn út á bleiki-völlinn. 3 Þá
gengu þeir út til hans Eljakím Hilkíason dróttseti, Sébna kanzlari og

8: kap. 63, 4. 10: Opinb. 14, 11; 19, 3. 11: Zef. 2, 14. 2 Kong. 21, 13. Am. 7, 8.
13: kap. 13, 21. 22. — 35, 2: Ljóð. 2, 1. 3: Hebr. 12, 12 n. 4: kap. 40, 10. 5:
Matt. 11, 5. Lúk. 7, 22. 10: kap. 51, 11; 65, 18—19. Opinb. 21, 4. — 36, 1:
2 Kong. 18, 13 n. 2 Kron. 32, 1 n. 2: kap. 7, 3. 3: kap. 22, 15. 20.

Jóak Asafsson sagnameistari. [4] Og Rabsake mælti til þeirra: Segið
Hiskía: Svo segir hinn mikli konungur, Assýríu-konungur: Hvert er
það athvarf, er þú treystir á? [5] Eg segi: er þú ráðgjörir hernað og
hyggur þig fullstyrkan til, þá er það munnfleipur eitt. Á hvern treystir
þú þá svo, að þú skulir hafa gjört uppreisn í gegn mér? [6] Sjá, þú treystir
á þennan brotna reyrstaf, á Egiptaland; en hann stingst upp í höndina
á hverjum þeim, er við hann styðst, og fer í gegnum hana. Slíkur er
Faraó Egiptalands-konungur öllum þeim, er á hann treysta. [7] Og segir
þú við mig: »Vér treystum á Jahve, Guð vorn«, eru það þá ekki fórn-
arhæðir hans og ölturu, sem Hiskía hefir numið burt, er hann sagði
við Júda og Jerúsalem: Fyrir þessu altari skuluð þér fram falla?
[8] Kom til og veðja við herra minn, Assýríu-konunginn: Eg skal fá þér
tvö þúsund hesta, ef þú getur sett riddara á þá. [9] Hvernig munt þú
þá fá rekið af höndum þér einn höfuðsmann meðal hinna minstu þjóna
herra míns? Og þó treystir þú á Egiptaland vegna hervagnanna og
riddaranna! [10] Og hvort mun eg nú hafa farið til þessa lands án vilja
Jahve, til þess að eyða það? Jahve sagði við mig: »Far þú inn í
þetta land og eyð það«.

[11] Þá sögðu þeir Eljakím, Sébna og Jóak við Rabsake: Tala þú
við þjóna þína á sýrlenzku, því að vér skiljum hana; en tala eigi við
oss á Júda-tungu í áheyrn fólksins, sem uppi er á borgarveggnum.
[12] En Rabsake sagði: Hefir herra minn sent mig til herra þíns eða til
þín, til þess að flytja þetta erindi? Hefir hann ekki sent mig til þeirra
manna, sem þar sitja uppi á borgarveggnum og eiga þann kost fyrir
höndum ásamt með yður, að eta sinn eiginn saur og drekka þvag sitt?
[13] Þá gekk Rabsake fram og kallaði hárri röddu á Júda-tungu og mælti:
Heyrið orð hins mikla konungs, Assýríu-konungs! [14] Svo segir kon-
ungurinn: Látið eigi Hiskía tæla yður, því að hann fær ekki frelsað
yður. [15] Og látið eigi Hiskía koma yður til að treysta á Jahve með
því að segja: »Jahve mun vissulega frelsa oss; þessi borg skal ekki
verða Assýríu-konungi í hendur seld«. [16] Hlustið eigi á Hiskía! Því
að svo segir Assýríu-konungur: Gjörið frið við mig og gangið mér á
hönd, þá skal hver yðar mega eta af sínum vínviði og sínu fíkjutré
og hver yðar drekka vatn úr sínum brunni, [17] þar til er eg kem og flyt
yður í annað eins land og yðar land, í kornland og aldinlagar, í brauð-
land og víngarða. [18] Látið eigi Hiskía ginna yður, er hann segir:
»Jahve mun frelsa oss«. Hefir nokkur af guðum þjóðanna frelsað land
sitt undan hendi Assýríu-konungs? [19] Hvar eru guðir Hamatborgar og
Arpadborgar? Hvar eru guðir Sefarvaím? og hafa þeir frelsað Samaríu
undan minni hendi? [20] Hverjir eru þeir af öllum guðum þessara landa,
er frelsað hafi lönd sín undan minni hendi, svo að Jahve skyldi fá
frelsað Jerúsalem undan minni hendi? [21] En menn þögðu og svöruðu
honum engu orði, því að skipun konungs var þessi: Svarið honum
eigi. [22] En þeir Eljakím Hilkíason dróttseti, Sébna kanzlari og Jóak
Asafsson sagnameistari gengu á fund Hiskía með sundurrifnum klæðum
og fluttu honum orð Rabsake.

37 Og er Hiskía konungur heyrði þetta, reif hann klæði sín,
huldi sig hærusekk og gekk í hús Jahve. [2] En Eljakím drótt-
seta og Sébna kanzlara og prestaöldungana sendi hann klædda hæru-
sekk til Jesaja Amozsonar spámanns, [3] og skyldu þeir segja við hann:
Svo segir Hiskía: Þessi dagur er neyðar, hirtingar og háðungar-dagur;
því að barnið er komið í burðarliðinn, en krafturinn er enginn til að
fæða. [4] Vera má að Jahve, Guð þinn, heyri orð Rabsake, er sendur
er af Assýríu-konungi, herra sínum, til að spotta hinn lifandi Guð, og

---

6: Esek. 29, 6. 7. 19: kap. 37, 13. — 37, 1: 2 Kong. 19, 1 n.

láti hegnt verða þeirra orða, er Jahve, Guð þinn, hefir heyrt. En bið
þú fyrir leifunum, sem enn eru eftir.
5 En er þjónar Hiskía konungs komu til Jesaja, 6 þá sagði Jesaja
við þá: Segið svo herra yðar: Svo segir Jahve: Óttast þú eigi smánar-
yrði þau, er þú hefir heyrt sveina Assýríu-konungs láta sér um munn
fara í gegn mér. 7 Sjá, eg læt hann verða þess hugar, að þegar hann
spyr tíðindi, skal hann hverfa aftur heim í land sitt, og þá skal eg
láta hann fyrir sverði falla í sínu eigin landi.
8 Síðan sneri Rabsake aftur og hitti Assýríu-konung þar sem hann
sat um Líbna, því að hann hafði frétt, að hann væri farinn burt frá
Lakís. 9 Þar kom honum svolátandi fregn af Tírhaka Blálands-
konungi: Hann er lagður af stað til þess að berjast við þig. Og er
hann heyrði það, gjörði hann sendimenn til Hiskía með þessari orð-
sending: 10 Segið svo Hiskía Júda-konungi: Lát eigi Guð þinn, er þú
treystir á, tæla þig, er þú hugsar: Jerúsalem verður eigi seld í hendur
Assýríu-konungi. 11 Sjá, þú hefir sjálfur heyrt, hverju Assýríu-konungar
hafa fram farið við öll lönd, hversu þeir hafa gjöreytt þau, og munt
þú þá frelsaður verða? 12 Hvort hafa guðir þjóðanna, er feður mínir
hafa að velli lagt, frelsað þær — Gósan og Haran og Resef og Eden-
menn, sem voru í Telassar? 13 Hvar er nú konungurinn í Hamat og
konungurinn í Arpad og konungurinn í Sefarvaímborg, Hena og Íva?
14 Hiskía tók við bréfinu af sendimönnunum og las það. Síðan
gekk hann upp í hús Jahve; og Hiskía rakti það sundur frammi fyrir
Jahve. 15 Og Hiskía bað til Jahve og sagði: 16 Jahve hersveitanna,
Guð Ísraels, þú sem situr uppi yfir kerúbunum, þú einn ert Guð yfir
öllum konungsríkjum jarðar; þú hefir gjört himin og jörð. 17 Hneig,
Jahve, eyra þitt og heyr; opna, Jahve, auga þitt og sjá! Heyr þú öll
orð Sanheribs, er hann hefir sent til að smána með hinn lifandi Guð.
18 Satt er það, Jahve, að Assýríu-konungar hafa gjöreytt öllum þjóðum
og löndum þeirra, 19 og kastað guðum þeirra á eld, því að þeir voru
ekki guðir, heldur handaverk manna, stokkar og steinar, svo að þeir
gátu gjört þá að engu. 20 En Jahve, Guð vor, frelsa oss nú af hans
hendi, svo að öll konungsríki jarðar megi við kannast, að þú, Jahve,
einn ert Guð.
21 Þá sendi Jesaja Amozson til Hiskía og lét segja honum: Svo
segir Jahve, Ísraels Guð: Þar sem þú hefir beðið til mín um hjálp
gegn Sanherib Assýríu-konungi, 22 þá er þetta orðið, er Jahve hefir um
hann sagt: Mærin, dóttirin Zíon, fyrirlítur þig og gjörir gys að þér;
dóttirin Jerúsalem skekur höfuðið á eftir þér. 23 Hvern hefir þú smánað
og spottað? og gegn hverjum hefir þú hafið upp raustina og lyft augum
þínum í hæðirnar? Gegn hinum Heilaga í Ísrael. 24 Þú hefir látið
þjóna þína smána drottin og sagt: »Með fjölda hervagna minna steig
eg upp á hæðir fjallanna, efst upp á Líbanon-fjall; eg hjó hin hávöxnu
sedrustré þess og hin ágætu kýprestré þess; eg braust upp á efsta tind
þess, inn í aldinskóginn, þar sem hann var þéttastur. 25 Eg gróf til
vatns og drakk, og með iljum fóta minna þurkaði eg upp öll vatnsföll
Egiptalands«. 26 Hefir þú þá ekki tekið eftir því, að eg hefi ráðstafað
þessu svo fyrir löngu og hagað því svo fyrir öndverðu? Og nú hefi
eg látið það koma fram, svo að þú mættir leggja víggirtar borgir í
eyði og gjöra þær að eyðilegum grjóthrúgum. 27 En íbúar þeirra voru
aflvana og skelfdust því og urðu sér til minkunar; jurtir vallarins og
grængresið varð sem gras á þekjum og í hlaðvarpa. 28 Eg sé þig,
þegar þú stendur og þegar þú situr, og eg veit af því, þegar þú fer og
kemur, svo og um ofsa þinn gegn mér. 29 Sökum ofsa þíns í gegn

**7:** v. 9. 38. **12:** kap. 36, 18 n.

mér og af því að ofmetnaður þinn er kominn mér til eyrna, þá vil eg
setja hring minn í nasir þínar og bitil minn í munn þér og færa þig
aftur sama veg og þú komst. 30 Og þetta skaltu til marks hafa: Þetta
árið munuð þér eta sjálfsáið korn, annað árið sjálfvaxið korn, en þriðja
árið munuð þér sá og uppskera, planta víngarða og eta ávöxtu þeirra.
31 Og leifarnar af Júda húsi, sem komist hafa undan, skulu að nýju
festa rætur að neðan og bera ávöxtu að ofan. 32 Því að frá Jerúsalem
munu leifar út ganga og þeir, er undan komust, frá Zíon-fjalli; vandlæti
Jahve hersveitanna mun þessu til vegar koma.

33 Fyrir því segir Jahve svo um Assýríu-konung: Eigi skal hann
inn komast í þessa borg, engri ör þangað inn skjóta, engan herskjöld
að henni bera og engan virkisvegg hlaða gegn henni. 34 Hann skal
aftur snúa sömu leiðina, sem hann kom, og inn í þessa borg skal
hann ekki koma, segir Jahve. 35 Og eg vil vernda þessa borg, til þess
að frelsa hana, mín vegna og vegna Davíðs þjóns míns.

36 Þá fór engill Jahve og laust hundrað áttatíu og fimm þúsundir
manns í herbúðum Assýringa; og er menn risu morguninn eftir, sjá,
þá voru þeir allir liðin lík. 37 Þá tók Sanherib Assýríu-konungur sig
upp, hélt af stað og sneri heim aftur og sat um kyrt í Níníve. 38 En
er hann eitt sinn baðst fyrir í hofi Nísroks, guðs síns, unnu synir
hans, Adramelek og Sarezer, á honum með sverði; þeir komust undan
á flótta til Ararat-lands, en Asharaddon sonur hans tók ríki eftir hann.

38 Um þær mundir tók Hiskía sótt og var að dauða kominn.
Þá kom Jesaja Amozson spámaður til hans og sagði við hann:
Svo segir Jahve: Ráðstafa húsi þínu, því að þú munt deyja og eigi lifa.
2 Þá sneri Hiskía andliti sínu til veggjar, bað til Jahve 3 og mælti:
Æ, Jahve, minstu þess, að eg hefi gengið fyrir augliti þínu með trúmensku
og einlægu hjarta og gjört það sem þér er þóknanlegt! Og
Hiskía grét sáran. 4 Þá kom orð Jahve til Jesaja, svolátandi: 5 Far
og seg Hiskía: Svo segir Jahve, Guð Davíðs, forföður þíns: Eg hefi
heyrt bæn þína og séð tár þín. Sjá, eg vil enn leggja fimtán ár við
aldur þinn. 6 Og eg vil frelsa þig og þessa borg af hendi Assýríu-
konungs, og eg mun vernda þessa borg. 7 Og þetta skalt þú til marks
hafa af Jahve, að Jahve muni efna það, sem hann hefir heitið. 8 Sjá,
eg færi aftur stigskuggann, er með sólinni hefir færst niður á sólvísi
Akasar, um tíu stig. Og sólin færðist aftur á bak þau tíu stig á sólvísinum,
er hún hafði gengið niður.

9 Sálmur eftir Hiskía Júda-konung, þá er hann hafði verið sjúkur,
en var heill orðinn af sjúkleik sínum.

10 Eg sagði: Á hádegi æfi minnar hlýt eg að ganga inn um hlið Heljar,
er eg sviftur því, sem eftir er ára minna.
11 Eg sagði: Eg fæ eigi framar að sjá Jah, Jah á landi lifenda,
eigi framar menn að líta hjá þeim, sem byggja dánarheim.
12 Bústað mínum er kipt upp og svipt burt frá mér, eins og hjarðmannatjaldi.
Eg hefi undið upp líf mitt, eins og vefari;
hann sker mig frá afuggunum; áður nótt fylgir degi, lætur þú mig deyja.
13 Eg þreyði til morguns; eins og ljón sundurmolar hann öll mín bein.
Áður nótt fylgir degi, lætur þú mig deyja.

31: kap. 27, 6. 35: kap. 38, 6. 36: kap. 17, 12 n. 31, 8. — 38, 1: 2 Kong. 20, 1 n.
2 Kron. 32, 24. 6: kap. 37, 35. 11: Sálm. 27, 13. 12: Job 6, 9; 7, 6.

14 Eg tísti sem svala
og kurraði sem dúfa.
Augu mín mændu tárvot til hæða:
Jahve, eg er í nauðum — gakk í ábyrgð fyrir mig!
15 Hvað á eg að segja? Hann hefir talað við mig og hann hefir efnt það!
Í auðmýkt vil eg ganga alla æfi mína, vegna beiskju sálar minnar.
16 Drottinn, af því lifa menn, og í því er líf anda míns algjörlega fólgið;
og þú gafst mér heilsuna aftur og lézt mig lifna við.
17 Sjá, til blessunar varð mér hin sára kvöl;
og þú forðaðir sálu minni frá gröf eyðingarinnar,
því að þú varpaðir öllum syndum mínum að baki þér.
18 Því að Helja vegsamar þig eigi, dauðinn lofar þig eigi;
þeir, sem niður eru stignir í gröfina, vona eigi á trúfesti þína.
19 En sá sem lifir, sá sem lifir, hann vegsamar þig, eins og eg í dag;
feður kunngjöra börnum sínum trúfesti þína.
20 Jahve er reiðubúinn að hjálpa mér,
vér skulum því hreyfa strengina alla daga lífs vors í húsi Jahve.

21 Og Jesaja bauð að taka skyldi fíkjudeig og leggja á kýlið, og
mundi honum þá batna. 22 En Hiskía sagði: Hvað skal eg hafa til
marks um það, að eg megi aftur ganga upp í hús Jahve?

39 Um þær mundir sendi Meródak-Baladan Baladansson, kon-
ungur í Babel, bréf og gjafir til Hiskía, því að hann hafði frétt,
að hann hefði verið sjúkur, en væri nú aftur heill orðinn. 2 Hiskía
fagnaði komu þeirra og sýndi þeim féhirzlu sína, silfrið og gullið, ilm-
jurtirnar og hina dýru olíu og alt vopnabúr sitt og alt, sem til var í
fjársjóðum hans. Var enginn sá hlutur í höll Hiskía eða nokkurstaðar
í ríki hans, að eigi sýndi hann þeim. 3 Þá kom Jesaja spámaður til
Hiskía konungs og sagði við hann: Hvert var erindi þessara manna
og hvaðan eru þeir til þín komnir? Hiskía svaraði: Af fjarlægu landi
eru þeir til mín komnir, frá Babel. 4 Þá sagði hann: Hvað sáu þeir í
höll þinni? Hiskía svaraði: Alt, sem í höll minni er, hafa þeir séð;
enginn er sá hlutur í fjársjóðum mínum, að eigi hafi eg sýnt þeim.
5 Þá sagði Jesaja við Hiskía: Heyr þú orð Jahve hersveitanna. 6 Sjá,
þeir dagar munu koma, að alt, sem er í höll þinni, og það, sem feður
þínir hafa saman dregið alt til þessa dags, mun flutt verða til Babel;
ekkert skal eftir verða, segir Jahve. 7 Og nokkurir af sonum þínum,
sem af þér munu koma og þú munt geta, munu teknir verða og gjörðir
að hirðsveinum í höll konungsins í Babel. 8 En Hiskía sagði við Jesaja:
Gott er það orð Jahve, er þú hefir talað. Því að hann hugsaði: Far-
sæld og friður helzt þó meðan eg lifi.

---

40 Huggið, huggið lýð minn! segir Guð yðar. 2 Hughreystið
Jerúsalem og boðið henni, að áþján hennar sé á enda, að sekt
hennar sé goldin, að hún hafi fengið tvöfalt af hendi Jahve fyrir allar
syndir sínar!
3 Heyr, kallað er í eyðimörkinni: Greiðið götu Jahve, ryðjið Guði
vorum veg í óbygðinni! 4 Sérhver dalur skal hækka, hvert fjall og
háls lækka; hólarnir skulu verða að jafnsléttu og hamrarnir að dala-
grundum! 5 Dýrð Jahve mun birtast, og alt hold mun sjá það, því að
munnur Jahve hefir talað það!

**14:** kap. 59, 11. Sálm. 119, 122. **16:** 5 Mós. 8, 3. **17:** Mík. 7, 19. **18:** Sálm. 115, 17. **19:** Sálm. 78, 4 n. **21:** 2 Kong. 20, 7.— **39, 1:** 2 Kong. 20, 12 n. 2 Kron. 32, 31.— **40, 2:** Hós. 2, 14. **3:** Matt. 3, 3. Mark. 1, 3. Lúk. 3, 4 n. Jóh. 1, 23. **4:** kap. 42, 16.

[6] Heyr, einhver segir: »Kalla þú!« og eg svara: Hvað skal eg
kalla? »Alt hold er gras, og allur yndisleikur þess sem blóm vallarins.
[7] Grasið visnar, blómin fölna, þegar Jahve andar á þau. Sannlega,
mennirnir eru gras: [8] Grasið visnar, blómin fölna, en orð Guðs vors
stendur stöðugt eilíflega«.
[9] Stíg upp á hátt fjall, þú Zíon fagnaðarboði! hef upp raust þína
kröftuglega, þú Jerúsalem fagnaðarboði! hef upp raustina, óttast eigi,
seg borgunum í Júda: Sjá, Guð yðar kemur! [10] Sjá, drottinn Jahve
kemur sem hetja, og armleggur hans aflar honum yfirráða; sjá, endur-
gjald hans fylgir honum, og fengur hans fer á undan honum. [11] Eins
og hirðir mun hann halda hjörð sinni til haga, taka unglömbin í faðm
sér og bera þau í fangi sínu, en leiða mæðurnar.
[12] Hver hefir mælt vötnin í lófa sínum og stikað himininn með
spönn sinni, innilukt duft jarðarinnar í mælikeri og vegið fjöllin á
reizlu og hálsana á metaskálum? [13] Hver hefir leiðbeint anda Jahve,
hver hefir verið ráðgjafi hans og frætt hann? [14] Hvern hefir hann sótt
að ráðum, þann er gæfi honum skilning og kendi honum leið réttvís-
innar, uppfræddi hann í þekkingu og vísaði honum veg vizkunnar?
[15] Sjá, þjóðirnar eru sem dropi í vatnskjólu og metnar sem ryk á vog-
arskálum; sjá, eylöndunum lyftir hann upp eins og duftkorni. [16] Og
Líbanon-skógur hrökkur ekki til eldsneytis og dýrin í honum ekki til
brennifórnar. [17] Allar þjóðir eru sem ekkert fyrir honum, þær eru
minna en ekki neitt og hégómi í hans augum. [18] Við hvern viljið þér
þá samlíkja Guði, og hvað viljið þér taka til jafns við hann? [19] Lík-
neski, sem smiðurinn steypir og gullsmiðurinn býr slegnu gulli og setur
á silfurfestar; [20] en sá, sem eigi á fyrir slíkri fórnargjöf, velur sér þann
við, er ekki fúni, og leitar að góðum smið, er reist geti svo líkneski,
að ekki haggist! [21] Vitið þér ekkert? heyrið þér ekki? hefir yður eigi
verið kunngjört það frá upphafi? hafið þér engan skilning hlotið frá
grundvöllun jarðar? [22] Það er hann, sem situr hátt yfir jarðarkringl-
unni, og þeir, sem á henni búa, eru sem engisprettur; það er hann,
sem þenur út himininn eins og þunna voð og slær honum sundur eins
og tjaldi, til þess að búa í. [23] Það er hann, sem lætur höfðingjana
verða að engu og gjörir drotna jarðarinnar að hégóma. [24] Varla eru
þeir gróðursettir, varla niðursánir, varla hefir stofn þeirra náð að festa
rætur í jörðinni, fyr en hann andar á þá, og þá skrælna þeir upp, og
stormbylurinn feykir þeim burt eins og hálmleggjum. [25] Við hvern
viljið þér samlíkja mér, að eg sé honum jafn? segir hinn Heilagi.
[26] Hefjið upp augu yðar í hæðirnar og litist um: Hver hefir skapað
þetta? Hann, sem leiðir út her þeirra með tölu og kallar þær allar
með nafni; sökum mikilleiks kraftar hans og af því að hann er vold-
ugur að afli, verður einskis þeirra vant.
[27] Hví segir þú þá svo, Jakob, og hví mælir þú þá svo, Ísrael:
»Hagur minn er hulinn fyrir Jahve, og réttur minn er genginn úr
höndum Guði mínum«? [28] Veiztu þá ekki — hefir þú ekki heyrt, að
Jahve er eilífur Guð, er skapað hefir endimörk jarðarinnar; hann
þreytist ekki, hann lýist ekki, speki hans er órannsakanleg. [29] Hann
veitir kraft hinum þreytta og gnógan styrk hinum þróttlausa. [30] Ungir
menn þreytast og lýjast, og æskumenn hníga, [31] en þeir, sem vona á
Jahve, fá nýjan kraft; þeir fljúga upp á vængjum sem ernir; þeir
hlaupa og lýjast ekki, þeir ganga og þreytast ekki.

---

**6:** Sálm. 102, 12; 103, 15. 16. Jak. 1, 10. 11. 1 Pét. 1, 24 n. **10:** kap. 62, 11. **11:** Esek. 34, 23. Jóh. 10, 11 n. **12:** Orðskv. 30, 4. **13:** Róm. 11, 34. 1 Kor. 2, 16. **17:** Sálm. 62, 10. **18:** kap. 46, 5 n. Post. 17, 29. **20:** Jer. 10, 3 n. **21:** Róm. 1, 19. 20. **22:** Sálm. 104, 2. **25:** v. 18. **26:** Sálm. 147, 4. **28:** Róm. 11, 33 n.

41 Verið hljóð og hlustið á mig, þér eylönd; safni þjóðirnar ný-
jum kröftum, gangi svo nær og tali máli sínu; vér skulum eigast
lög við. [2] Hver hefir vakið upp manninn í austrinu, sem réttlætið
kveður til fylgdar? Hver leggur þjóðir undir vald hans og lætur
hann drotna yfir konungum? Hver gjörir sverð þeirra að moldarryki
og boga þeirra sem fjúkandi hálmleggi, [3] svo að hann veitir þeim eftir-
för og fer ósakaður þann veg, er hann aldrei hefir stigið á fæti sínum?
[4] Hver hefir gjört það og framkvæmt? Hann sem kallaði fram kyn-
þáttu mannanna í öndverðu, eg, Jahve, sem er hinn fyrsti, og með
hinum síðustu enn hinn sami. [5] Eylöndin sáu það og urðu hrædd,
endimörk jarðarinnar skulfu; þeir þyrptust saman og komu. [6] Hver
hjálpaði öðrum og sagði við félaga sinn: Vertu hughraustur! [7] Tré-
smiðurinn hughreysti gullsmiðinn, koparsmiðurinn járnsmiðinn, og sagði:
Kveikingin er góð! Síðan festi hann goðalíkneskið með nöglum, til
þess að það haggaðist ekki.
[8] En þú Ísrael, þjónn minn, Jakob, sem eg hefi útvalið, þú afsprengi
Abrahams ástvinar míns; [9] þú, sem eg þreif frá endimörkum jarðarinn-
ar og kallaði þig frá yztu landsálfum hennar og sagði við þig; þú ert
þjónn minn, eg hefi útvalið þig og eigi hafnað þér! [10] Óttast þú eigi,
því að eg er með þér; lát eigi hugfallast, því að eg er þinn Guð; eg
styrki þig, eg hjálpa þér, eg styð þig með hægri hendi réttlætis míns.
[11] Sjá, allir fjandmenn þínir skulu verða til skammar og háðungar;
sökudólgar þínir skulu verða að engu og tortímast; [12] þó að þú leitir
að þrætudólgum þínum, skalt þú ekki finna þá; þeir, sem á þig herja,
skulu hverfa og að engu verða. [13] Því að eg, Jahve, Guð þinn, held í
hægri hönd þína og segi við þig: Óttast þú eigi; eg hjálpa þér! [14] Ótt-
ast þú eigi, maðkurinn þinn Jakob, þú fámenni hópur Ísrael! Eg hjálpa
þér, segir Jahve, og frelsari þinn er hinn Heilagi í Ísrael. [15] Sjá, eg
gjöri þig að nýhvestum þreskisleða, sem alsettur er göddum; þú skalt
þreskja sundur fjöllin og mylja þau í smátt og gjöra hálsana sem sáðir.
[16] Þú skalt sáldra þeim og vindurinn mun feykja þeim og stormbylur-
inn tvístra þeim; en þú skalt fagna yfir Jahve og miklast af hinum
Heilaga í Ísrael. [17] Hinir fátæku og voluðu leita vatns, en finna ekki;
tunga þeirra verður þur af þorsta; eg, Jahve, mun bænheyra þá; eg,
Ísraels Guð, mun ekki yfirgefa þá. [18] Eg læt ár spretta upp á gróður-
lausum hæðum og vatnslindir í dölunum miðjum; eg gjöri eyðimörkina
að vatnstjörnum og þurlendið að uppsprettum. [19] Eg læt sedrustré,
akasíutré, myrtustré og olíutré vaxa í eyðimörkinni, og kýprestré, álm-
tré og bukstré spretta hvað með öðru á sléttunum, [20] svo að þeir allir
sjái og viti, skynji og skilji, að hönd Jahve hefir gjört þetta og hinn
Heilagi í Ísrael hefir því til vegar komið.
[21] Berið nú fram málefni yðar, segir Jahve; færið fram varnir yð-
ar, segir konungur Jakobs. [22] Látum þá koma með og kunngjöra oss,
hvað verða muni. Gjörið kunnugt, hvað það er, sem þér áður hafið
spáð, svo að vér getum hugleitt það og séð, hversu það hefir ræzt;
eða látið oss heyra, hvað koma á. [23] Gjörið kunnugt, hvað hér eftir
muni fram koma, svo að vér megum sjá, að þér eruð guðir. Gjörið
annaðhvort af yður gott eða ilt, svo að við fáum reynt með okkur og
sjón verði sögu ríkari. [24] Sjá, þér eruð ekkert og verk yðar ekki neitt!
Andstyggilegur er sá, sem yður kýs!
[25] Eg vakti hann upp í norðri, og hann kom, frá upprás sólar
þann, er ákallar nafn mitt; hann gengur yfir landstjóra sem leir, og eins
og leirkerasmiður treður deigulmó. [26] Hver hefir kunngjört það frá önd-

---

**41, 2:** kap. 45, 1. **4:** kap. 44, 6; 48, 12. Opinb. 1, 8; 22, 13. **8:** kap. 44, 1. **14:** kap. 43, 14. **18:** Sálm. 107, 35. **19:** kap. 55, 13. **22:** kap. 44, 7.

verðu, svo að vér vissum það, eða fyrirfram, svo að vér gætum sagt:
»Hann hefir rétt fyrir sér«? Nei, enginn hefir kunngjört það, enginn
látið til sín heyra, enginn hefir heyrt yður segja neitt. 27 Eg var hinn
fyrsti, sem sagði við Zíon: Sjá, þar kemur það fram! og hinn fyrsti,
er sendi Jerúsalem fagnaðarboða. 28 Eg litast um, en þar er enginn;
og á meðal þeirra er ekki neinn, er úrskurð veiti, svo að eg geti
spurt þá og þeir svarað mér. 29 Sjá, þeir eru allir hégómi og verk
þeirra ekki neitt, líkneski þeirra vindur og hjóm.

42 Sjá þjón minn, sem eg leiði mér við hönd, minn útvalda, sem
sál mín hefir þóknun á; eg legg anda minn yfir hann, hann mun
boða þjóðunum rétt. 2 Hann kallar ekki og hefir ekki háreysti og læt-
ur ekki heyra raust sína á strætunum. 3 Brákaðan reyrinn brýtur hann
ekki sundur, og dapran hörkveik slökkur hann ekki; hann boðar rétt-
inn með trúfesti. 4 Hann daprast eigi og gefst eigi upp, unz hann fær
komið inn rétti á jörðu, og fjarlægar landsálfur bíða eftir boðskap hans.
5 Svo segir Guð, Jahve, sá er skóp himininn og þandi hann út, sá er
breiddi út jörðina með öllu því, sem á henni vex, sá er andardrátt gaf
mannfólkinu á jörðinni og lífsanda þeim, er á henni ganga: 6 Eg, Jahve,
hefi kallað þig til réttlætis og held í hönd þína, og eg mun varðveita
þig og gjöra þig að sáttmála fyrir lýðinn og að ljósi fyrir þjóðirnar,
7 til að opna hin blindu augun, til að leiða út úr varðhaldinu þá, er
bundnir eru, og úr dýflissunni þá, er í myrkri sitja.

8 Eg er Jahve; það er nafn mitt; og dýrð mína gef eg eigi öðrum
né lof mitt úthöggnum líkneskjum. 9 Sjá, hinir fyrri spádómar eru fram
komnir, en nú boða eg nýja hluti og læt yður heyra þá áður en fyrir
þeim vottar. 10 Syngið Jahve nýjan söng, lof hans til endimarka jarð-
arinnar, þér sjófarendur og alt sem í hafinu er, þér fjarlægar landsálf-
ur og þeir sem þær byggja! 11 Eyðimörkin og borgir hennar skulu
hefja upp raustina, þorpin, þar sem Kedar býr; fjallabúarnir skulu
fagna, æpa af gleði ofan af fjallatindunum! 12 Þeir skulu gefa Jahve
dýrðina, og kunngjöra lof hans í fjarlægum landsálfum! 13 Jahve legg-
ur af stað sem hetja, elur á hugmóð sínum eins og bardagamaður;
hann kallar, hann lýstur upp herópi, sýnir hetjuskap á óvinum sínum.
14 »Eg hefi þagað langan tíma, verið hljóður og stilt mig; nú mun eg
hljóða sem jóðsjúk kona, stynja og standa á öndinni í sama bili. 15 Eg
mun svíða fjöllin og hálsana og skrælna láta allar jurtir, er þar vaxa;
eg mun gjöra ár að eyjum og þurka upp tjarnirnar. 16 Og eg mun
leiða blinda menn um veg, er þeir ekki rata, færa þá um stigu, sem
þeir ekki þekkja; eg vil gjöra myrkrið fram undan þeim að ljósi og
hólótt landið að jafnsléttu. Þessa hluti mun eg gjöra og eg hætti eigi
við þá. 17 Hinir hörfa aftur á bak og verða sér til skammar, þeir sem
treysta skurðgoðunum og segja við steypt líkneski: »Þér eruð guðir vorir«.

18 Heyrið, þér hinir daufu! lítið upp, þér hinir blindu, að þér megið
sjá! 19 Hver er svo blindur sem þjónn minn, og svo daufur sem sendiboði
minn, er eg hefi útsent? Hver er svo blindur sem trúnaðarmaðurinn, og
svo blindur sem þjónn Jahve? 20 Þú hefir séð margt, en athugar það ekki;
eyrun eru opin, en hann heyrir þó ekki. 21 Fyrir sakir réttlætis síns hefir
Jahve þóknast að gjöra kenninguna háleita og vegsamlega. 22 Og þó er
þetta ræntur og ruplaður lýður; þeir eru allir fjötraðir í gryfjum og byrgðir
í myrkvastofum; þeir eru orðnir að herfangi, og enginn frelsar þá, orðnir
að ránsfeng, og enginn segir: Skilið þeim aftur! 23 Hver af yður vill

---

**42, 1:** Matt. 12, 18 n. 3, 17. Jes. 11, 2; 61, 1. **5:** kap. 44, 24; 45, 12. **6:** kap. 49, 8; 49, 6. Lúk. 2, 32. **7:** kap. 61, 1. Lúk. 1, 79. **8:** kap. 48, 11. **10:** Sálm. 33, 3. **15:** kap. 50, 2. **16:** kap. 40, 4. **17:** kap. 1, 29; 44, 9 n. Sálm. 97, 7.

hlýða á þetta, gefa því gaum og veita því athygli framvegis? [24] Hver
hefir framselt Jakob til ráns og fengið Ísrael ræningjum í hendur? Er
það ekki Jahve, hann, sem vér höfum syndgað á móti? Á hans veg-
um vildu þeir ekki ganga og hans lögmáli hlýddu þeir ekki. [25] Fyrir
því jós hann yfir hann brennandi reiði sinni og styrjaldarofsa; hún
bálaðist umhverfis hann, en hann skyldi það eigi, hún brendi hann, en
hann hugfesti það eigi.

43 En nú segir Jahve svo, sá er skóp þig, Jakob, og myndaði
þig, Ísrael: Óttast þú eigi, því að eg frelsa þig; eg kalla á þig
með nafni, þú ert minn. [2] Gangir þú gegnum vötnin, þá er eg með
þér, gegnum vatnsföllin, þá skulu þau ekki flæða yfir þig; gangir þú
gegnum eld, skalt þú eigi brenna þig, og loginn skal eigi granda þér.
[3] Því að eg, Jahve, er Guð þinn, hinn Heilagi í Ísrael frelsari þinn; eg
gef Egiptaland í lausnargjald fyrir þig, læt Bláland og Seba í staðinn
þín. [4] Sökum þess að þú ert dýrmætur í mínum augum og mikils
metinn, og af því að eg elska þig, þá legg eg menn í sölurnar fyrir þig
og þjóðir fyrir líf þitt. [5] Óttast þú eigi, því að eg er með þér; eg kem
með niðja þína úr austri og safna þér saman úr vestri. [6] Eg segi við
norðrið: »Lát fram!« og við suðrið: »Haltu þeim eigi! Flyt þú sonu
mína úr fjarlægð og dætur mínar frá endimörkum jarðarinnar: [7] sér-
hvern þann, sem við nafn mitt er kendur og eg hefi skapað mér til
dýrðar, sérhvern þann, er eg hefi myndað og gjört!«

[8] Lát nú koma fram lýð þann, sem blindur er, þótt hann hafi
augu, og þá menn, sem daufir eru, þótt þeir hafi eyru. [9] Lát alla heið-
ingjana safnast í einn hóp og þjóðirnar koma saman. Hver af þeim
getur kunngjört slíkt og látið oss heyra það, er þeir áður hafa spáð?
Leiði þeir fram votta sína og færi sönnur á mál sitt, svo að menn segi,
er þeir heyra það: það er satt! [10] En þér eruð mínir vottar, segir Jahve,
og minn þjónn, sem eg hefi útvalið, til þess að þér skylduð kannast
við og trúa mér og skilja, að það er eg einn; á undan mér hefir eng-
inn guð verið búinn til, og eftir mig mun enginn verða til. [11] Eg, eg
er Jahve, og enginn frelsari er til nema eg. [12] Það var eg, sem boðaði
og hjálpaði og kunngjörði, en enginn annar yðar á meðal; og þér eruð
vottar mínir, segir Jahve. Eg er Guð. [13] Já, enn í dag er eg hinn sami;
enginn getur frelsað af minni hendi; hver vill gjöra það ógjört, sem eg
framkvæmi?

[14] Svo segir Jahve, frelsari yðar, hinn Heilagi í Ísrael: Yðar vegna
sendi eg til Babel og rek þá alla burt sem flóttamenn, Kaldeana, á
skipum sínum, sem þeir nú eru hreyknir af. [15] Eg, Jahve, er yðar Heilagi,
höfundur Ísraels, konungur yðar. [16] Svo segir Jahve, hann sem lagði
veg yfir hafið og braut yfir hin ströngu vötn, [17] hann sem leiddi út
vagna og hesta, herafla og fyrirliða; þeir liggja þar hver með öðrum
og fá eigi risið á fætur; þeir sloknuðu, kulnuðu út sem hörkveik-
ur: [18] Rennið eigi huga til hins umliðna og gefið eigi gætur að því er
áður var. [19] Sjá, nú hefi eg nýtt fyrir stafni; það tekur þegar að votta
fyrir því — sjáið þér það ekki? Eg gjöri veg um eyðimörkina og leiði
ár um öræfin. [20] Dýr merkurinnar, sjakalar og strútsfuglar skulu veg-
sama mig, því að eg leiði vatn um eyðimörkina og ár um öræfin, til
þess að svala lýð mínum, mínum útvalda. [21] Sá lýður, sem eg hefi
skapað mér til handa, skal víðfrægja lof mitt.

[22] Og eigi hefir þú kallað mig, Jakob, né lagt þig í líma fyrir mig,
Ísrael. [23] Þú hefir ekki fært mér sauðkindur þínar í brennifórnir og

**43, 1:** kap. 44, 2; 45, 3. **2:** Sálm. 66, 12. **8:** kap. 42, 18 n. **9:** kap. 41, 22. **10:** kap. 44, 8. **11:** Hós. 13, 4. **13:** Sálm. 90, 2. Jes. 14, 27. **14:** kap. 41, 14; 48, 17. **16:** 2 Mós. 14, 21 n. **19:** Opinb. 21, 5. Jes. 41, 18.

eigi tignað mig með sláturfórnum þínum; eg hefi eigi mætt þig með mat-
fórnum né þreytt þig með reykelsi; 24 þú hefir ekki keypt ilmreyr fyrir
silfur mér til handa, og þú hefir ekki satt mig á feiti sláturfórna þinna;
heldur hefir þú mætt mig með syndum þínum og þreytt mig með mis-
gjörðum þínum. 25 Eg, eg einn afmái afbrot þín sjálfs mín vegna og
minnist ekki synda þinna. 26 Minn mig á; við skulum eigast lög við;
tel þú upp, svo að þú fáir réttlætt þig. 27 Hinn fyrsti forfaðir þinn
syndgaði og talsmenn þínir brutu á móti mér. 28 Þess vegna vanhelgaði
eg hina heilögu höfðingja, og ofurseldi Jakob bannfæringunni og Ísrael
háðunginni.

44 En heyr þú nú, Jakob, þjónn minn, og Ísrael, sem eg hefi
útvalið. 2 Svo segir Jahve, sá er þig hefir skapað og þig hefir
myndað frá móðurkviði, hann, sem hjálpar þér: Óttast þú eigi, þjónn
minn Jakob, og þú Jesjúrún, sem eg hefi útvalið. 3 Því að eg mun hella
vatni yfir hið þyrsta og árstraumum yfir þurlendið; eg mun úthella
anda mínum yfir niðja þína og blessan minni yfir afsprengi þitt; 4 þeir
skulu spretta upp, eins og gras milli vatna, eins og pílviðir á lækjar-
bökkum. 5 Einn mun segja: »Eg heyri Jahve«, annar mun kalla sig
nafni Jakobs, og enn annar rita á hönd sína »Helgaður Jahve« og
kenna sig við Ísrael.

6 Svo segir Jahve, konungur Ísraels og frelsari, Jahve hersveitanna:
Eg er hinn fyrsti, og eg er hinn síðasti, og enginn Guð er til nema eg.
7 Hver hefir spáð eins og eg — hann segi frá því og sanni mér það —
frá því er eg hóf hina örgömlu þjóð? og látum þá kunngjöra hið ó-
komna og það, sem verða mun! 8 Skelfist eigi og látið eigi hugfallast.
Hefi eg ekki þegar fyrir löngu sagt þér það og boðað það? Og þér
eruð vottar mínir. Er nokkur Guð til nema eg? Nei, ekkert annað
hellubjarg er til; eg veit af engu öðru. 9 Þeir, sem búa til goðalíkneski,
eru hver með öðrum hégóminn einber, og dýrindissmíðar þeirra eru að
engu liði; vottar slíkra guða sjá eigi og vita eigi, til þess að þeir verði
sér til skammar. 10 Hver hefir myndað guð og steypt líkneski, til þess
að það verði að engu liði? 11 Sjá, allir dýrkendur þess munu til skamm-
ar verða; og smiðirnir — þeir eru þó ekki nema menn — látum þá
alla safnast saman og ganga fram, þeir skulu skelfast og til skammar
verða hver með öðrum.

12 Járnsmiðurinn myndar egg á öxina, tekur hana fram við glóð,
og lagar hana með hömrunum; hann býr hana til með hinum
sterka armlegg sínum; en svelti hann, þá vanmegnast hann; fái hann
ekki vatn að drekka, lýist hann. 13 Trésmiðurinn strengir mæliþráð
sinn og markar fyrir með alnum, telgir tréð með hnífum og afmarkar
það með sirkli; og hann býr til úr því mannlíkan, fríðan mann, til þess að
búa í húsi. 14 Hann höggur sér sedrustré, tekur steineik og eik, og
velur um meðal skógartrjánna; hann gróðursetur furutré, og regnskúr-
irnar koma vexti í þau. 15 Og maðurinn hefir tréð til eldiviðar, hann
tekur nokkuð af því og vermir sig við, hann kveikir eld við það og
bakar brauð, en auk þess býr hann til guð úr því og fellur fram fyrir
honum; hann smíðar úr því skurðgoð og knékrýpur því. 16 Helmingn-
um af trénu brennir hann í eldi; við þann helminginn steikir hann
kjöt, etur steik og verður saddur; hann vermir sig og segir: »Æ, nú
hitnar mér, eg sé eldinn«; — 17 en úr afganginum býr hann til guð,
skurðgoð handa sér; hann knékrýpur því, fellur fram og gjörir bæn
sína til þess og segir: »Frelsaðu mig, því að þú ert minn guð!« 18 Þeir

---

25: kap. 44, 22. — 44, 1: kap. 41, 8. 2: 5 Mós. 32, 15. 3: Jóh. 7, 38 n. Jóel 3,
1 n. Post. 2, 17 n. 4: Sálm. 1, 3. 6: kap. 41, 4; 48, 12. Opinb. 1, 8. 7: kap. 41,
22 n. 8: kap. 43, 10. 9: kap. 41, 24. 11: kap. 45, 16. 12: kap. 40, 19; 41, 7.

hafa hvorki skyn né skilning; augu þeirra eru lokuð, svo að þeir sjá
ekki, og hjörtu þeirra, svo að þeir skynja ekki. 19 Og þeir hugleiða
það eigi, þeir hafa eigi vitsmuni og skilning til að hugsa með sér:
»Helmingnum af því brendi eg í eldi, eg bakaði brauð við glæðurnar,
steikti kjöt og át; og svo ætti eg að fara að búa til andstyggilegt líkneski
af því, sem afgangs er, og falla á kné fyrir trédrumbi!« 20 Þann
mann, er sækist eftir ösku, hefir táldregið hjarta leitt afvega, svo að
hann fær eigi frelsað sálu sína og sagt við sjálfan sig: »Er það ekki
svikatál, sem eg held á í hægri hendi minni?«

21 Minstu þess, Jakob, og þú Ísrael, því að þú ert þjónn minn;
eg hefi skapað þig til að vera þjón minn; þú, Ísrael, munt mér aldrei
úr minni líða! 22 Eg hefi feykt burt misgjörðum þínum eins og þoku,
og syndum þínum eins og skýi; hverf aftur til mín, því að eg frelsa
þig. 23 Fagnið, þér himnar, því að Jahve hefir því til vegar komið;
látið gleðilátum, þér undirdjúp jarðarinnar; hefjið fagnaðarsöng, þér
fjöll, skógurinn og öll tré, sem í honum eru; því að Jahve frelsar Jakob
og sýnir vegsemd sína á Ísrael.

24 Svo segir Jahve, frelsari þinn, sá er þig hefir myndað frá móðurkviði:
Eg, Jahve, sem alt hefi skapað, sem útþandi himininn aleinn
og útbreiddi jörðina hjálparlaust, 25 sá sem ónýtir tákn lygaranna og gjörir
spásagnamennina að fíflum, sem gjörir vitringana afturreka og þekking
þeirra að heimsku, 26 sem staðfestir orð þjóns síns og framkvæmir
ráð sendiboða sinna — eg er sá, sem segi um Jerúsalem: verði hún
aftur bygð! og um borgirnar í Júda: verði þær endurreistar! og rústir
þeirra reisi eg við; 27 eg er sá, sem segi við djúpið: þorna þú upp! og
ár þínar þurka eg upp; 28 eg er sá sem segi um Kýrus: hann er hirðir
minn; og hann skal framkvæma allan vilja minn og segja um Jerúsalem:
hún skal endurreist verða og musterið grundvallað af nýju!

45 Svo segir Jahve við sinn smurða, við Kýrus, sem eg held í
hægri höndina á, til þess að leggja að velli þjóðir fyrir augliti
hans og spretta belti af lendum konunganna, til þess að opna fyrir
honum dyrnar og til þess að borgarhliðin verði eigi lokuð: 2 Eg mun
ganga á undan þér og jafna hólana; eg mun brjóta eirhliðin og mölva
járnslárnar; 3 eg mun gefa þér hina huldu fjársjóðu og hina fólgnu
dýrgripi, svo að þú kannist við, að það er eg, Jahve, sem kalla þig
með nafni þínu, eg Ísraels Guð. 4 Vegna þjóns míns Jakobs og vegna
Ísraels, míns útvalda, kallaði eg þig með nafni þínu, nefndi þig sæmdarnafni,
þó að þú þektir mig ekki. 5 Eg er Jahve og enginn annar;
enginn Guð er til nema eg. Eg hertýgjaði þig, þó að þú þektir mig
ekki, 6 svo að menn skyldu kannast við það bæði í austri og vestri,
að enginn er til nema eg; eg er Jahve, og enginn annar, 7 sem tilbý
ljósið og framleiði myrkrið, sem veiti heill og veld óhamingju — eg,
Jahve, gjöri alt þetta. 8 Drjúpið, þér himnar, að ofan, og láti skýin
réttlæti niður streyma; jörðin opnist og láti hjálpræði fram spretta og
réttlæti blómgast jafnframt; eg, Jahve, kem því til vegar.

9 Vei þeim, sem þráttar við skapara sinn — sjálfur leirbrot innan
um önnur leirbrot jarðar! Hvort má leirinn segja við leirmyndarann:
»Hvað getur þú?« eða handaverk hans: »Hann hefir engar hendur«.
10 Vei þeim, sem segir við föður sinn: »Hvað munt þú fá getið!« eða
við konuna: »Hvað ætli þú getir fætt!« 11 Svo segir Jahve, hinn Heilagi
í Ísrael og sá er hann hefir myndað: Spyrjið mig um hið ókomna

---

22: kap. 43, 25. 23: kap. 49, 13; 55, 12. 24: kap. 45, 12. 28: 2 Kron. 36, 22. 23.
Esr. 1, 1 n. — 45, 1: kap. 44, 28. 3: kap. 43, 1. 5: kap. 44, 8. 6: Mal. 1, 11.
7: Am. 3, 6. 8: Sálm. 85, 12. Hós. 10, 12. 9: Róm. 9, 20.

og felið mér að annast sonu mína og verk handa minna! [12] Eg hefi
tilbúið jörðina og skapað mennina á henni; mínar hendur hafa þanið út
himininn og eg hefi kallað fram allan hans her. [13] Eg hefi vakið hann*
upp í réttlæti og eg mun greiða alla hans vegu; hann skal byggja upp
borg mína og gefa útlögum mínum heimfararleyfi, og það án endur-
gjalds og án fégjafa, segir Jahve hersveitanna.

[14] Svo segir Jahve: Auður Egiptalands og verzlunargróði Blálands
og Sebainga, hinna hávöxnu manna, skal ganga til þín og verða þín
eign; þeir skulu fylgja þér, í fjötrum skulu þeir koma; og þeir skulu
falla fram fyrir þér og grátbæna þig og segja: »Guð er hjá þér einum,
enginn annar er til, enginn annar Guð«. [15] Sannlega ert þú Guð, sem
hylur þig, Ísraels Guð, frelsari. [16] Þeir verða sér til skammar, já til
háðungar allir saman, þeir ganga allir sneyptir, skurðgoðasmiðirnir.
[17] En Ísrael frelsast fyrir Jahve eilífri frelsun; þér skuluð eigi verða til
skammar né til háðungar að eilífu.

[18] Því að svo segir Jahve, sá er himininn hefir skapað, — hann
einn er Guð, sá er jörðina hefir myndað og hana til búið; hann hefir
grundvallað hana, hann hefir eigi skapað hana til þess, að hún væri
auðn, heldur myndað hana svo, að hún væri byggileg —: Eg er Jahve
og enginn annar. [19] Eg hefi ekki talað í leynum, einhverstaðar í landi
myrkranna; eg hefi eigi sagt við Jakobsniðja: Leitið mín út í bláinn!
Eg, Jahve, tala það sem rétt er og kunngjöri sannmæli. [20] Safnist
saman og komið, nálægið yður, allir þér af heiðingjunum, sem undan
hafið komist: skynlausir eru þeir, sem burðast með trélíkneski sitt og
biðja til Guðs, er eigi getur hjálpað. [21] Gjörið kunnugt og segið til!
Já, ráðfæri þeir sig hver við annan: hver hefir boðað þetta frá önd-
verðu og kunngjört það fyrir löngu? Hefi eg, Jahve, ekki gjört það?
og enginn Guð er til nema eg; fyrir utan mig er enginn sannur Guð
og hjálpari til. [22] Snúið yður til mín og látið frelsast, þér gjörvöll
endimörk jarðarinnar, því að eg er Guð og enginn annar. [23] Eg hefi
svarið við sjálfan mig; af munni mínum er sannleikur út genginn, orð,
er eigi mun bregðast: fyrir mér skal sérhvert kné beygja sig, sérhver
tunga sverja mér trúnað. [24] Hjá Jahve einum, mun um mig sagt verða,
er réttlæti og vald. Allir fjendur hans skulu til hans koma og blygðast
sín. [25] Allir Ísraelsniðjar skulu réttlætast fyrir Jahve og miklast af
honum.

46 Bel er hokinn, Nebó er boginn; líkneski þeirra eru fengin
eykjum og gripum; goðalíkneskin, sem þér áður báruð um kring,
eru nú látin upp á þreyttan eyk, eins og önnur byrði. [2] Þeir eru bognir
og hoknir allir saman; þeir megna ekki að frelsa byrðina, og sjálfir
hljóta þeir að fara í útlegð.

[3] Hlýðið á mig, þér kynsmenn Jakobs, og allir þér, sem eftir eruð
af kyni Ísraels, þér sem eruð mér á herðar lagðir alt í frá móðurkviði
og eg hefi borið alt í frá móðurlífi! — [4] alt til elliára er eg hinn sami,
og eg vil bera yður, þar til er þér verðið gráir fyrir hærum; eg hefi
gjört yður, og eg skal bera yður; eg skal bera yður og frelsa. [5] Við
hvern viljið þér samlíkja mér og jafna mér? saman við hvern viljið
þér bera mig sem jafningja minn? [6] Þeir sem steypa gullinu úr sjóð-
num og vega silfrið á vogarskálum, leigja svo gullsmið til að smíða úr
því guð; síðan knékrjúpa þeir og falla fram. [7] Þeir lyfta honum á
axlir sér, bera hann og setja hann á sinn stað, og þar stendur hann
og víkur ekki úr stað; og þótt einhver ákalli hann, þá svarar hann

**12:** kap. 42, 5; 44, 24. **13:** * Þ. e. Kýrus. **14:** kap. 43, 3. **16:** kap. 42, 17. **19:** kap. 48, 16. **23:** Róm. 14, 11. Fil. 2, 10. — **46, 1:** kap. 45, 20. **2:** Jer. 48, 7. **3:** 5 Mós. 32, 11. **4:** Sálm. 71, 18. **5:** kap. 40, 18. **7:** kap. 45, 20.

ekki, frelsar hann eigi úr nauðum. [8] Minnist þessa og látið yður segjast,
leggið það á hjarta, þér trúrofar. [9] Minnist þess hins fyrra frá upphafi,
að eg er Guð og enginn annar, hinn sanni Guð og enginn minn líki,
[10] eg sem kunngjörði endalokin frá öndverðu og sagði fyrir fram það,
sem eigi var enn fram komið; sem segi: mín ráðsályktun stendur stöðug og
alt, sem mér vel líkar, framkvæmi eg; [11] eg, sem kalla örninn úr austurátt,
úr fjarlægu landi mann þann, er framkvæmir ráðsályktun mína; það
sem eg tala, það læt eg einnig fram koma; það sem eg áset mér, það
gjöri eg einnig. [12] Hlýðið á mig, þér harðsvíruðu, sem eruð fjarlægir
réttlætinu! [13] Eg nálægi mitt réttlæti; það er ekki langt í burtu, og
hjálp mín skal ekki dvelja; eg veiti hjálp í Zíon og vegsemd mína Ísrael.

47 Stíg niður og sezt í duftið, þú mærin Babeldóttir! Sezt þú á
jörðina hásætislaus, þú Kaldęadóttir! því þú munt eigi framar
kölluð verða hin lingerða og kveifarlega. [2] Tak kvörnina og mala mjöl;
bregð burt skýlu þinni, tak upp um þig klæðin, gjör beran fótlegg þinn
og vað yfir fljótin! [3] Ber verði blygðan þín og svívirða þín augsýnileg.
Eg vil hefna mín og hlífi engum, [4] segir lausnari vor, — Jahve hersveitanna
er nafn hans, hinn Heilagi í Ísrael. [5] Sit hljóð og gakk inn í myrkrið,
þú Kaldeadóttir, því þú munt eigi framar kölluð verða drotning konungaríkjanna.
[6] Eg var reiður lýð mínum og lét eiginlega eign mína
verða fyrir vansæmd og seldi hana í hendur þér. En þú sýndir þeim
enga miskunnsemi; jafnvel á gamalmennin lagðir þú þitt afarþunga ok.
[7] Og þú sagðir: »Eg skal vera drotning um aldur og æfi«, svo að þú
hugfestir þetta eigi og hugsaðir eigi um, hver endalokin mundu verða.
[8] En heyr nú þetta, þú hin sællífa, er situr andvaralaus og segir í hjarta
þínu: »Eg og engin önnur; í ekkjudómi skal eg aldrei sitja og eigi
reyna, hvað það er að vera barnalaus«. [9] En hvorttveggja þetta skal þér
að hendi bera skyndilega, á einum degi, að þú skalt bæði verða barnalaus
og ekkja; í fullum mæli mun það yfir þig koma, þrátt fyrir þína margvíslegu
töfra og þínar miklu særingar. [10] Þú þóttist örugg í vonzku
þinni og sagðir: »Enginn sér til mín«; vizka þín og kunnátta hefir
leitt þig afvega, svo að þú sagðir í hjarta þínu: »Eg og engin önnur!«
[11] Þess vegna skal ógæfa yfir þig koma, sem þú skalt ekki geta keypt
þig undan; ólán skal yfir þig dynja, er þú eigi fær afstýrt með fégjöfum;
skyndilega skal eyðing yfir þig koma, þegar þig varir minst. [12] Kom
þú nú með særingar þínar og með hina margvíslegu töfra þína, sem
þú hefir stundað með allri elju í frá barnæsku þinni; má vera, þú
getir eitthvað áunnið; má vera, þú fáir fælt það burt. [13] Þú ert orðin
þreytt á hinum mörgu fyrirætlunum þínum; lát því himinfræðingana
og stjörnuskoðarana koma og hjálpa þér, þá er á mánuði hverjum boða
þér, hvað yfir þig á að koma. [14] Sjá, þeir eru sem hálmleggir, eldurinn
eyðir þeim; þeir geta ekki bjargað lífi sjálfra sín úr loganum; því
það verður ekki glóð til að orna sér við, eða eldur til að sitja við.
[15] Svo munu þeir reynast þér, er þú hefir mæðst fyrir, þeir er keypt
hafa við þig frá æskuárum þínum: þeir þjóta í sína áttina hver, og
enginn verður til að hjálpa þér.

48 Heyrið þetta, þér Jakobsniðjar, þér sem nefndir eruð eftir
Ísrael og runnir eruð úr Júda lindum, þér sem sverjið við nafn
Jahve og tignið Ísraels Guð, þótt eigi sé í sannleika og réttlæti. [2] Því
að þeir kenna sig við hina helgu borg og leita trausts hjá Ísraels Guði;
nafn hans er Jahve hersveitanna. [3] Það sem nú er fram komið, hefi
eg kunngjört fyrir löngu, það er útgengið af mínum munni, og eg hefi

---

**13:** kap. 56, 1. — **47,2:** Dóm. 16, 21. **4:** kap. 43, 14. — **48, 2:** Mík. 3, 11.

gjört það heyrum kunnugt; skyndilega færði eg það til vegar og það
kom fram. 4 Af því að eg vissi, að þú ert þrjózkur og háls þinn seig-
ur sem járnseymi og enni þitt hart sem kopar, 5 fyrir því kunngjörði
eg þér það löngu fyrir og lét þig vita það áður en það kom fram, til
þess að þú skyldir ekki segja: »Goð mitt hefir komið því til leiðar, og
skurðgoð mitt og hið steypta líkneski mitt hefir ráðstafað því«. 6 Þú
hefir heyrt það, sjá, nú er það alt komið fram! Og þér, hljótið þér
ekki að játa það? Nú boða eg þér nýja hluti og hulda, sem þú ekk-
ert veizt um. 7 Þeir eru nú að skapast, en eigi fyr; fyr en í dag hefir
þú ekkert um þá heyrt, svo að þú skyldir ekki geta sagt: Sjá, eg vissi
það! 8 Þú hefir hvorki heyrt það né vitað það, né heldur hefir eyra
þitt verið opið fyrir löngu; því að eg vissi, að þú ert mjög ótrúr og
að þú hefir kallaður verið »trúrofi« frá móðurlífi. 9 Fyrir sakir nafns
míns sefa eg reiði mína og vegna lofs míns hefti eg hana þér í vil, svo
að eg uppræti þig eigi. 10 Sjá, eg hefi hreinsað þig, þó eigi sem silfur,
eg hefi reynt þig í bræðsluofni hörmungarinnar. 11 Mín vegna, sjálfs
mín vegna gjöri eg það — því að hversu mjög er nafn mitt vanhelgað
— og dýrð mína gef eg eigi öðrum.

12 Heyr mig, Jakob, og þú Ísrael, sem eg hefi kallað: eg er hann, eg er
hinn fyrsti, eg er einnig hinn síðasti. 13 Hönd mín hefir grundvallað jörð-
ina, og hægri hönd mín hefir þanið út himininn; þegar eg kalla á þær,
koma þær allar. 14 Safnist allir saman og heyrið: Hver á meðal þeirra
hefir kunngjört þetta: Sá, er Jahve elskar, skal framkvæma vilja hans
á Babel og vera armleggur hans meðal Kaldea? 15 Það er eg, það er
eg, sem hefi talað það, eg hefi og kallað hann; eg hefi leitt hann fram
og veitt honum sigurgengi. 16 Komið til mín og heyrið þetta: Frá upp-
hafi hefi eg eigi talað í leyndum; þegar kominn var sá tími, að það
skyldi verða, kom eg. Og nú hefir drottinn Jahve sent mig með sinn
anda. 17 Svo segir Jahve, frelsari þinn, hinn Heilagi í Ísrael: Eg
Jahve, Guð þinn, er sá, sem kenni þér að gjöra það sem
þér er gagnlegt, sem vísa þér þann veg, er þú skalt ganga. 18 Æ,
að þú vildir gefa gaum að boðorðum mínum, þá mundi heill þín verða
sem fljót og réttlæti þitt sem bylgjur sjávarins; 19 niðjar þínir mundu
þá verða sem fjörusandur og lífsafkvæmi þín sem sandkorn; nafn hans
mun aldrei afmáð verða og aldrei hverfa burt frá mínu augliti.

20 Gangið út úr Babel, skundið burt frá Kaldeum með fagnaðar-
ópi; boðið þetta og birtið það, útbreiðið það til endimarka jarðarinnar;
segið: Jahve hefir frelsað þjón sinn Jakob! 21 Og þá þyrsti ekki,
þegar hann leiddi þá um öræfin; hann lét vatn spretta upp úr kletti
handa þeim, og hann klauf klettinn, svo að vatnið vall þar upp. 22 Hin-
um óguðlegu, segir Jahve, er enginn friður búinn.

49 Heyrið mig, þér eylönd, og hyggið að, þér fjarlægar þjóðir!
Jahve hefir kallað mig alt í frá móðurlífi, nefnt nafn mitt frá
því eg var í kviði móður minnar. 2 Hann hefir gjört munn minn sem
beitt sverð og hulið mig í skugga handar sinnar; hann hefir gjört mig
að fágaðri ör og falið mig í örvamæli sínum: 3 Og hann sagði við
mig. Þú ert þjónn minn, Ísrael, sá er eg mun sýna á vegsemd mína.
4 En eg sagði: Eg hefi þreytt mig til einskis, eytt krafti mínum til ó-
nýtis og árangurslaust; samt sem áður, réttur minn er hjá Jahve og
laun mín hjá Guði mínum. 5 En nú segir Jahve, hann sem myndaði
mig alt í frá móðurlífi til að vera þjón sinn, til þess að eg sneri Jakob

4: 2 Mós. 32, 9. 10: 1 Pét. 1, 7. 11: kap. 42, 8. 12: kap. 41, 4. 16: kap. 45, 19.
19: 1 Mós. 22, 17. 20: kap. 52, 11. Jer. 50, 8; 51, 6. 45. 21: 2 Mós. 17, 6. 4 Mós.
20, 11. 5 Mós. 8, 15. 22: kap. 57, 21. — 49, 2: Opinb. 1, 16. Hebr. 4, 12. Jes.
51, 16. 3: kap. 44, 23.

aftur til hans, og til þess að Ísrael yrði safnað saman til hans. — og
eg er dýrmætur í augum Jahve og Guð minn varð minn styrkur —
6 nú segir hann: það er of lítið fyrir þig að vera þjónn minn, til þess
að endurreisa ættkvíslir Jakobs og leiða heim aftur þá, er varðveizt
hafa af Ísrael; fyrir því gjöri eg þig að ljósi fyrir þjóðirnar, svo að þú
sért mitt hjálpræði til endimarka jarðarinnar.
7 Svo segir Jahve, frelsari og heilagur Guð Ísraels, við þann, sem
af mönnum er fyrirlitinn, við þann, sem fólk hefir andstygð á, við þjón
harðstjóranna: Konungar munu sjá það og standa upp, þjóðhöfðingjar
munu sjá það og falla fram, vegna Jahve, sem reynist trúr, vegna hins
Heilaga í Ísrael, sem þig hefir útvalið. 8 Svo segir Jahve: Á tíma náð-
arinnar bænheyri eg þig, og á degi hjálpræðisins hjálpa eg þér; eg
varðveiti þig og gjöri þig að sáttmála fyrir lýðinn, til þess að reisa við
landið, til þess að úthluta erfðahlutum, sem komnir eru í auðn, 9 til
þess að segja hinum fjötruðu: »Gangið út« og þeim sem í myrkrunum
eru: »Komið fram í dagsbirtuna«. Fram með vegunum skulu þeir vera
á beit, og á öllum gróðurlausum hæðum skal vera beitiland fyrir þá.
10 Þá skal ekki hungra og ekki þyrsta, og eigi skal breiskjuloftið og
sólarhitinn vinna þeim mein, því að miskunnari þeirra vísar þeim veg
og leiðir þá að uppsprettulindum. 11 Og eg gjöri öll mín fjöll að vegi,
og brautir mínar skulu hækka. 12 Sjá, sumir koma langt að, sumir frá
norðri og vestri, aðrir frá Sínítalandi. 13 Lofsyngið, þér himnar, og
fagna þú jörð; hefjið gleðisöng, þér fjöll, því að Jahve veitir huggun
sínum lýð og auðsýnir miskunn sínum þjáðu.
14 En Zíon segir: Jahve hefir yfirgefið mig, drottinn hefir gleymt
mér! 15 Hvort fær kona gleymt brjóstbarni sínu, að hún miskunni eigi
lífsafkvæmi sínu? Og þó að þær gætu gleymt, þá gleymi eg þér samt
ekki. 16 Sjá, eg hefi rist þig á lófa mína, múrar þínir standa jafnan
fyrir augum mér. 17 Synir þínir koma með flýti, en þeir, sem brutu
þig niður og lögðu þig í rústir, víkja burt frá þér. 18 Hef upp augu
þín og litast um: þeir safnast allir saman og koma til þín. Svo sann-
arlega sem eg lifi, segir Jahve, skalt þú íklæðast þeim öllum sem skarti
og belta þig með þeim sem brúður. 19 Því að rústir þínar, eyðistaðir
þínir og umturnað land þitt — já, nú verður þú of þröng fyrir íbúana
og eyðendur þínir munu vera langt í burtu. 20 Enn munu börnin frá
árunum, er þú varst barnalaus, segja í eyru þér: Hér er of þröngt um
mig; færðu þig, svo að eg fái bústað! 21 Þá muntu segja í hjarta þínu:
Hver hefir alið mér þessi börn? Eg var barnlaus og óbyrja, útlæg og
brottrekin. Og hver hefir fóstrað þessi börn? Sjá, eg var ein eftir skilin;
hvernig stendur þá á börnum þessum? 22 Svo segir drottinn Jahve:
Sjá, eg mun banda hendi minni til heiðingjanna og reisa upp merki
mitt fyrir þjóðirnar, og munu þeir þá færa hingað sonu þína í fangi
sér, og dætur þínar bornar verða hingað á öxlinni. 23 Konungar skulu
verða barnfóstrar þínir og drotningar þeirra barnfóstrur þínar; þeir
munu falla til jarðar fram á ásjónur sínar fyrir þér og sleikja duft
fóta þinna. Þá munt þú komast að raun um, að eg er Jahve og að
þeir verða ekki til skammar, sem á mig vona. 24 Hvort mun herfangið
verða tekið af hinum sterka? og munu bandingjar ofbeldismannsins fá
komist undan? 25 Því að svo segir Jahve: Þó að unt væri að taka
bandingjana af hinum sterka, og herfang ofbeldismannsins gæti komist
undan, þá mun eg samt verja sök þína gegn sökunautum þínum, og
sonu þína mun eg frelsa. 26 Eg mun láta kúgara þína eta sitt eigið

**6:** kap. 42, 6. Post. 13, 47. **7:** kap. 53, 3. **8:** 2 Kor. 6, 2. Jes. 42, 6. **10:** Opinb. 7, 17. **12:** kap. 43, 6. **13:** kap. 44, 23. **18:** kap. 60, 4. **20:** kap. 54, 1 n. **23:** Sálm. 72, 9. Jes. 60, 16. Mík. 7, 17. Jes. 40, 31. **25:** Lúk. 11, 22.

hold, og þeir skulu verða druknir af sínu eigin blóði, eins og af vín-
berjalegi, og alt hold mun þá komast að raun um, að eg, Jahve, er
frelsari þinn og hinn voldugi Jakobs lausnari þinn.

50 Svo segir Jahve: Hvar er sú skilnaðarskrá móður yðar, er eg
hafi rekið hana burt með? eða hverjum af lánardrotnum mín-
um hefi eg selt yður? Sjá, sökum misgjörða yðar hafið þér seldir
verið og vegna afbrota yðar hefir móðir yðar verið burt rekin. 2 Hvers
vegna var enginn fyrir, þegar eg kom, hví gegndi enginn, þegar eg
kallaði? Er hönd mín þá svo stutt orðin, að hún geti eigi frelsað,
eða vantar mig mátt til að bjarga? Sjá, með hótun minni þurka eg
upp hafið, gjöri fljótin að eyðimörku, svo að fiskarnir í þeim úldna af
vatnsleysi og deyja af þorsta. 3 Eg færi himininn í svartan hjúp og
sveipa hann í sorgarbúning.

4 Drottinn Jahve hefir gefið mér lærisveina tungu, svo að eg hefði
vit á að styrkja hina mæddu með orðum mínum; hann vekur á hver-
jum morgni, á hverjum morgni vekur hann eyra mitt, svo að eg taki
eftir, eins og lærisveinar gjöra. 5 Drottinn Jahve opnaði eyra mitt og
eg þverskallaðist eigi, færðist ekki undan. 6 Eg bauð bak mitt þeim,
sem börðu mig, og kinnar mínar þeim, sem reyttu mig; eg byrgði eigi
ásjónu mína fyrir háðungum og hrákum. 7 Drottinn Jahve hjálpar mér,
fyrir því lét eg ekki háðungarnar á mér festa, fyrir því gjörði eg andlit
mitt að tinnusteini, því að eg veit, að eg verð ekki til skammar. 8 Ná-
lægur er sá, er mig réttlætir. Hver vill deila við mig? Við skulum
báðir ganga fram! Hver hefir sök að kæra á hendur mér? Komi
hann til mín! 9 Sjá, drottinn Jahve hjálpar mér; hver er sá, er geti
gjört mig sekan? Sjá, þeir munu allir detta sundur, eins og gamalt
fat; mölur skal eyða þeim.

10 Hver sá meðal yðar, sem óttast Jahve, hlýði raustu þjóns hans;
sá sem í myrkrunum gengur og enga skímu sér, hann treysti á nafn
Jahve og reiði sig á Guð sinn. 11 Sjá, allir þér, sem kveikið eld og
gyrðið yður eldlegum skeytum, farið þér í loga yðvars elds og í eld-
legu skeytin, sem þér hafið tendrað! Frá minni hendi kemur þetta
yfir yður; þér skuluð liggja í kvölum.

51 Hlýðið á mig, þér sem leggið stund á réttlæti, þér sem leitið
Jahve! Lítið á hellubjargið, sem þér eruð af höggnir, og á brunn-
holuna, sem þér eruð úr grafnir. 2 Lítið á Abraham, föður yðar, og á
Söru, sem ól yður. Því að einan kallaði eg hann, og eg blessaði hann
og jók kyn hans. 3 Því að Jahve huggar Zíon, huggar allar rústir
hennar; hann gjörir auðn hennar sem Eden og heiði hennar sem aldin-
garð Jahve. Fögnuður og gleði mun finnast í henni, þakkargjörð og
lofsöngur. 4 Hlýð þú á mig, þú lýður minn, hlusta á mig, þú þjóð
mín, því frá mér mun kenning út ganga og minn réttur sem ljós fyrir
þjóðirnar. 5 Skyndilega nálgast réttlæti mitt, hjálpræði mitt er á leið-
inni; armleggir mínir munu dæma þjóðirnar; fjarlægar landsálfur vænta
mín og bíða eftir mínum armlegg. 6 Hefjið augu yðar til himins og
lítið á jörðina hér neðra; því að himininn mun leysast sundur sem
reykur og jörðin fyrnast sem fat og þeir, sem á henni búa, deyja sem
mý; en mitt hjálpræði varir eilíflega og mínu réttlæti mun eigi linna.
7 Hlýðið á mig, þér sem þekkið réttlætið, þú lýður, sem ber lögmál
mitt í hjarta þínu: Óttist eigi spott manna og hræðist eigi smánaryrði

---

**50, 1:** 5 Mós. 24, 1. Jer. 3, 8. 2 Kong. 4, 1. Matt. 18, 25. **2:** 4 Mós. 11, 23. Jes. 59, 1. **3:** Opinb. 6, 12. **5:** Sálm. 40, 9. **6:** Matt. 26, 67. Lúk. 22, 63 n. **8:** Róm. 8, 33. 34. — **51, 2:** Esek. 33, 24. **3:** 1 Mós. 2, 8. **6:** Sálm. 102, 27. **7:** Sálm. 37, 31.

þeirra; 8 því að mölur mun eta þá eins og klæði, og maur eta þá eins
og ull; en réttlæti mitt varir eilíflega og hjálpræði mitt frá kyni til kyns.
9 Vakna þú, vakna þú, íklæð þig styrkleika, þú armleggur Jahve;
vakna þú, eins og fyr á tíðum, eins og í árdaga! Varst það eigi þú,
sem banaðir skrimslinu og lagðir í gegn drekann? 10 Varst það eigi
þú, sem þurkaðir upp hafið, vötn hins mikla djúps, sem gjörðir sjávar-
djúpin að vegi, svo að hinir endurleystu gætu komist yfir? 11 Hinir
endurkeyptu Jahve skulu aftur hverfa og koma með fögnuði til Zíonar,
og eilíf gleði skal leika yfir höfði þeim; fögnuður og gleði skal fylgja
þeim, en hrygð og andvarpan flýja. 12 Eg, eg er sá, sem hugga yður.
Hver ert þú, að þú skulir hrædd vera við mennina, sem eiga að deyja,
og mannanna börn, sem feld verða eins og grasið, 13 en gleymir Jahve,
skapara þínum, sem útþandi himininn og grundvallaði jörðina, og ótt-
ast stöðugt liðlangan daginn heift kúgarans? Þegar hann býr sig til
að gjöreyða, hvar er þá heift kúgarans? 14 Brátt skulu þeir, er fjötr-
aðir eru, leystir verða, og þeir skulu eigi deyja og fara í gröfina, né
heldur skal þá skorta brauð — 15 svo sannarlega sem eg er Jahve,
Guð þinn, sá er æsir hafið, svo að bylgjurnar gnýja; Jahve hersveit-
anna er nafn hans. 16 Og eg hefi lagt mín orð í munn þér og skýlt
þér undir skugga handar minnar, til þess að gróðursetja himininn og
grundvalla jörðina, og til þess að segja við Zíon: Þú ert minn lýður!
17 Hrestu þig upp, hrestu þig upp, rístu upp, Jerúsalem, þú sem
drukkið hefir reiðibikar Jahve, er hönd hans rétti að þér; vímubikar-
inn hefir þú drukkið í botn! 18 Af öllum þeim sonum, sem hún hafði
alið, var ekki nokkur einn, sem leiddi hana; af öllum þeim sonum,
sem hún hafði upp fætt, var enginn, sem tæki í hönd hennar. 19 Þetta
tvent henti þig — hver aumkar þig? — eyðing og umturnun, hungur
og sverð — hver huggar þig? 20 Synir þínir liðu í ómegin og lágu á
öllum strætamótum, eins og antilópur í veiðigröf, fullir af reiði Jahve,
af hirtingarorðum Guðs þíns. 21 Fyrir því heyr þú þetta, þú hin vesala,
þú sem drukkin ert, og þó ekki af víni: 22 Svo segir drottinn þinn,
Jahve, og Guð þinn, sem réttir hlut lýðs síns: Sjá, eg tek úr hendi
þinni vímubikarinn, skál reiði minnar; þú skalt ekki framar á henni
bergja; 23 eg fæ hana í hendur þeim, sem angra þig, þeim er sögðu
við þig: »Varpa þér niður, svo að vér getum gengið á þér!« og þú
varðst að gjöra hrygg þinn sem gólf og að götu fyrir vegfarendur.

52 Vakna þú, vakna þú, íklæð þig styrkleik þínum, Zíon; klæð
þig skartklæðum þínum, Jerúsalem, þú hin heilaga borg, því að
enginn óumskorinn eða óhreinn skal framar inn í þig ganga. 2 Hrist
af þér rykið, rís upp og sezt í sæti þitt, Jerúsalem! Losa þú af þér
hálsfjötra þína, þú hin hertekna, dóttirin Zíon! 3 Því að svo segir Jahve:
Þér voruð seldir fyrir ekkert, þér skuluð og án silfurs leystir verða.
4 Því að svo segir drottinn Jahve: Til Egiptalands fór lýður minn forð-
um, til þess að dveljast þar um hríð, og Assúr kúgaði hann heimildar-
laust. 5 Og nú, hvað hefi eg hér að gjöra, segir Jahve, þar sem lýður
minn hefir verið burt numinn fyrir ekkert? Yfirdrotnarar hans dramba,
segir Jahve, og stöðugt er nafn mitt smáð liðlangan daginn. 6 Fyrir
því skal lýður minn fá að þekkja nafn mitt, fá að reyna það á þeim
degi, að það er eg, sem segi: Sjá, hér er eg!
7 Hversu yndislegir eru á fjöllunum fætur fagnaðarboðans, sem
friðinn kunngjörir, gleðitíðindin flytur, hjálpræðið boðar og segir við

---

9: Sálm. 74, 13. 14; 89, 11. Jes. 30, 7. Esek. 29, 3 n. 10: 2 Mós. 14, 21. 11: kap. 35, 10. 12: Sálm. 118, 6. Jes. 40, 6. 15: Jer. 31, 35. 16: kap. 49, 2; 59, 21. 17: Jer. 25, 15. 19: kap. 47, 9. — 52, 1: kap. 51, 17. Opinb. 21, 27. 4: 1 Mós. 46, 6. 5: Esek. 36, 23. Róm. 2, 24. 7: Nah. 2, 1. Róm. 10, 15.

Zíon: Guð þinn er seztur að völdum! 8 Heyr varðmenn þína; þeir
hefja upp raustina allir í einu, þeir æpa fagnaðaróp, því að með eigin
augum sjá þeir Jahve hverfa aftur til Zíonar. 9 Hefjið gleðisöng, æpið
fagnaðaróp allar í einu, þér eyðirústir Jerúsalem, því að Jahve huggar
lýð sinn, leysir Jerúsalem. 10 Jahve hefir beran gjört heilagan armlegg
sinn í augsýn allra þjóða, og öll endimörk jarðarinnar skulu sjá hjálpræði Guðs vors. 11 Farið burt, farið burt, gangið út þaðan, snertið ekkert óhreint; gangið burt þaðan, hreinsið yður, þér skjaldsveinar Jahve!*
12 Því að eigi skuluð þér í flýti brott ganga né fara með skyndingu, því
að Jahve fer fyrir yður í fararbroddi og Guð Ísraels gengur aftastur í
flokki yðrum.

13 Sjá, þjónn minn mun giftusamur verða, hann mun verða mikill
og veglegur og mjög hátt upp hafinn. 14 Eins og margir urðu agndofa
af skelfingu yfir þér — svo afskræmd var ásýnd hans framar en nokkurs manns og mynd hans framar en nokkurs af mannanna sonum —,
15 eins mun hann vekja undrun margra þjóða; konungar munu afturlykja munni sínum fyrir honum, því að þeir munu sjá það, sem þeim
hefir aldrei verið frá sagt, og verða þess áskynja, er þeir hafa aldrei
heyrt.

53 Hver trúði því, sem oss var boðað, og hverjum varð armleggur Jahve opinber? 2 Hann rann upp eins og viðarteinungur
fyrir augliti hans og sem rótarkvistur úr þurri jörð. Hann var hvorki
fagur né glæsilegur, svo að oss gæfi á að líta, né álitlegur, svo að
oss fyndist til um hann. 3 Hann var fyrirlitinn, og menn forðuðust
hann, harmkvæla-maður og kunnugur þjáningum, líkur manni, er menn
byrgja fyrir andlit sín, fyrirlitinn, og vér mátum hann einskis; — 4 en
vorar þjáningar voru það, sem hann bar, og vor harmkvæli, er hann
á sig lagði; vér álitum hann refsaðan, sleginn af Guði og lítillættan,
5 en hann var særður vegna vorra synda og kraminn vegna vorra misgjörða; hegningin, sem vér höfðum til unnið, kom niður á honum, og
fyrir hans benjar urðum vér heilbrigðir. 6 Vér fórum allir villir vega
sem sauðir, stefndum hver sína leið, en Jahve lét misgjörð vor allra
koma niður á honum. 7 Hann var hrjáður, en hann lítillætti sig og
lauk eigi upp munni sínum, eins og lamb, sem leitt er til slátrunar,
og eins og sauður þegir fyrir þeim, er klippa hann; hann lauk eigi
upp munni sínum. 8 Með þrenging og dómi var hann burt numinn, og
hver af samtíðarmönnum hans hugsaði um það, þá er hann var hrifinn burt af landi lifenda: fyrir sakir syndar míns lýðs var hann lostinn til dauða? 9 Og menn bjuggu honum gröf meðal illræðismanna,
legstað meðal glæpamanna, þótt hann hefði eigi ranglæti framið og
svik væru ekki í munni hans. 10 En Jahve þóknaðist að kremja hann
með harmkvælum: ef hann fórnaði sjálfum sér í sektarfórn, skyldi
hann fá að líta afsprengi og lifa langa æfi og áform Jahve fyrir hans
hönd framgengt verða. 11 Vegna þeirra hörmunga, er sál hans þoldi,
mun hann sjá og seðjast af þekking sinni; hann, hinn réttláti, þjónn
minn, mun gjöra marga réttláta, og hann mun bera misgjörðir þeirra.
12 Fyrir því gef eg honum hina mörgu að hlutskifti, og hann mun öðlast
fjölmarga að herfangi, fyrir það, að hann gaf líf sitt í dauðann og var

---

**8:** kap. 62, 6. **9:** kap. 40, 1. **10:** Sálm. 98, 3. **11:** kap. 48, 20. 2 Kor. 6, 17.
* Eða: þér, sem berið ker Jahve. **12:** 2 Mós. 12, 11. **14:** kap. 53, 3. **15:** Róm.
15, 21. — **53, 1:** Jóh. 12, 38. Róm. 10, 16. **2:** kap. 11, 1; 52, 14. **3:** kap. 49, 7.
Sálm. 22, 7. Mark. 9, 12. **4:** Matt. 8, 17. **5:** 1 Pét. 2, 24. **6:** 1 Pét. 2, 25. **7:**
Matt. 26, 63. Mark. 14, 61. Post. 8, 32. 1 Pét. 2, 23. Jer. 11, 19. **9:** Matt. 27,
57. 60. 1 Pét. 2, 22. 1 Jóh. 3, 5. **11:** Róm. 5, 19. **12:** Mark. 15, 28. Lúk. 22, 37.

með illræðismönnum talinn, — hann sem bar syndir margra og bað
fyrir illræðismönnum.

54 Fagna, þú óbyrja, sem ekki hefir fætt! Hef upp gleðisöng,
lát við kveða fagnaðaróp, þú sem eigi hefir haft fæðingarhríðir!
Því að börn hinnar yfirgefnu munu fleiri verða en giftu konunnar, segir
Jahve. 2 Víkka þú út tjald þitt, og lát þá þenja út tjalddúka búðar
þinnar, meina þeim það ekki; gjör tjaldstög þín löng og rek fast hæl-
ana. 3 Því að þú munt útbreiðast til hægri og vinstri, og niðjar þínir
munu eignast lönd þjóðanna og byggja eyddar borgir. 4 Óttast eigi,
því að þú skalt eigi til skammar verða, lát eigi háðungina á þér festa,
því að þú skalt eigi þurfa að fyrirverða þig. Því að þú skalt gleyma
vanvirðu æsku þinnar og eigi framar minnast svívirðingar ekkjudóms
þíns. 5 Því að hann, sem skóp þig, er eiginmaður þinn; Jahve her-
sveitanna er nafn hans; og hinn Heilagi í Ísrael er frelsari þinn; Guð
gjörvallrar jarðarinnar heitir hann. 6 Því að Jahve kallar þig sem yfir-
gefna konu og harmþrungna, og æskunnar brúður — verður henni
hafnað? segir Guð þinn. 7 Skamma stund yfirgaf eg þig, en með mik-
illi miskunnsemi tek eg þig að mér. 8 Í ofurreiði minni byrgði eg auglit
mitt fyrir þér um stund, en með eilífri líkn miskunna eg þér, segir
endurlausnari þinn, Jahve. 9 Því að það fer eins fyrir mér með þetta
og með Nóaflóð: svo sem eg sór þá, að Nóaflóð skyldi ekki framar
ganga yfir jörðina, eins sver eg nú að reiðast þér ekki, né ávíta þig.
10 Því þótt fjöllin færist úr stað og hálsarnir riði, skal mín miskunn-
semi við þig ekki færast úr stað og minn friðarsáttmáli ekki raskast,
segir miskunnari þinn, Jahve.
11 Þú hin vesala, hrakta, huggunarlausa! sjá, eg legg rúbína sem
steina í bygging þína og hleð grunnmúra þína af safírsteinum, 12 og eg
gjöri múrtinda þína af jaspis og hlið þín af roðasteinum og allan
ummerkjagarð þinn af dýrindissteinum. 13 Og allir synir þínir eru
lærisveinar Jahve, og synir þínir njóta mikils friðar. 14 Fyrir réttlæti
munt þú stöðug standa; álít þig fjarlæga ofríki, því að þú þarft ekki
að óttast, og fjarlæga skelfingu, því að hún skal ekki koma nærri þér.
15 Ef nokkur áreitir þig, þá er það ekki að mínum vilja; hver, sem á-
reitir þig, skal falla fyrir þér. 16 Sjá, eg skapa smiðinn, sem blæs að
kolaeldinum og framleiðir vopnið til sinnar notkunar, og eg skapa
eyðandann, til þess að leggja í eyði. 17 Engin vopn, sem smíðuð verða
móti þér, skulu verða sigurvænleg, og allar tungur, sem upprísa gegn
þér til málaferla, skalt þú kveða niður. Þetta er hlutskifti þjóna Jahve
og það réttlæti, er þeir fá hjá mér, segir Jahve.

55 Heyrið, allir þér, sem þyrstir eruð, komið hingað til vatnsins,
og þér sem ekkert silfur eigið; komið, kaupið korn og etið!
Komið, kaupið korn án silfurs og endurgjaldslaust bæði vín og mjólk!
2 Hví reiðið þér silfur fyrir það, sem ekki er brauð, og gróða yðar fyrir
það, sem ekki er til saðnings. Hlýðið á mig, þá skuluð þér fá gott að eta
og sálir yðar gæða sér á feiti. 3 Hneigið eyru yðar og komið til mín, heyr-
ið, svo að sálir yðar megi lifna við! Og eg vil gjöra við yður eilífan sátt-
mála, Davíðs órjúfanlega náðarsáttmála. 4 Sjá, eg hefi gjört hann að vitni
fyrir þjóðirnar, að höfðingja og stjórnara þjóðanna. 5 Sjá, þú munt kalla
til þín þjóð, er þú þekkir ekki, og fólk, sem ekki þekkir þig, mun hraða sér

---

**54, 1:** Gal. 4, 27. **9:** 1 Mós. 8, 21; 9, 11. **10:** Esek. 34, 25; 37, 26. **11:** Opinb. 21, 19. **13:** Jer. 31, 34. Jóh. 6, 45. — **55, 1:** kap. 44, 3. Jóh. 7, 37. **3:** kap. 61, 8. Post. 13, 34.

til þín, sakir Jahve, Guðs þíns, og vegna hins Heilaga í Ísrael, af því
að hann hefir gjört þig vegsamlegan.
6 Leitið Jahve, meðan hann er að finna, kallið á hann, meðan
hann er nálægur! 7 Hinn óguðlegi láti af breytni sinni og illvirkinn af
vélráðum sínum og snúi sér til Jahve, þá mun hann miskunna honum,
til Guðs vors, því að hann fyrirgefur ríkulega. 8 Því að mínar hugsanir
eru ekki yðar hugsanir, og yðar vegir ekki mínir vegir, segir Jahve;
9 heldur svo miklu sem himininn er hærri en jörðin, svo miklu hærri
eru mínir vegir yðrum vegum og mínar hugsanir yðrum hugsunum.
10 Því eins og regn og snjór fellur af himni ofan og hverfur eigi þang-
að aftur fyr en það hefir vökvað jörðina, gjört hana frjósama og gró-
andi, og gefið sáðmanninum sæði og brauð þeim, er eta, 11 eins er því
farið með mitt orð, það er útgengur af mínum munni: það hverfur
ekki aftur til mín við svo búið, eigi fyr en það hefir framkvæmt það,
sem mér vel líkar, og komið því til vegar, er eg fól því að framkvæma.
12 Já, með gleði skuluð þér út fara, og í friði burt leiddir verða. Fjöll
og hálsar skulu hefja upp fagnaðarsöng fyrir yður, og öll tré merkur-
innar klappa lof í lófa. 13 Þar sem áður voru þyrnirunnar, mun kýp-
resviður vaxa, og þar sem áður var lyng, mun mýrtusviður vaxa; og
þetta mun verða Jahve til lofs og eilífs minningarmarks, sem aldrei
mun afmáð verða.

56 Svo segir Jahve: Varðveitið réttinn og gjörið það, sem rétt er,
því að hjálpræði mitt er í nánd og réttlæti mitt birtist bráðlega.
2 Sæll er sá maður, sem gjörir þetta, og það mannsbarn, sem heldur
fast við það: sá sem gætir þess að vanhelga ekki hvíldardaginn, og
varðveitir hönd sína frá því, að gjöra nokkuð ilt. 3 Og eigi má út-
lendingurinn, er gengið hefir Jahve á hönd, segja: Jahve mun skilja
mig frá lýð sínum! og eigi má geldingurinn segja: Eg er visið tré!
4 Því að svo segir Jahve: Geldingunum, sem halda hvíldardaga mína
og kjósa það, sem mér vel líkar, og halda fast við sáttmála minn, 5 þeim
vil eg gefa minningarmark og nafn í húsi mínu og á múrveggjum mín-
um, sem er betra en synir og dætur; eilíft nafn vil eg gefa þeim, það
er aldrei mun afmáð verða. 6 Og útlendinga, sem gengið hafa Jahve
á hönd, til þess að þjóna honum og til þess að elska nafn Jahve,
til þess að verða þjónar hans: alla þá, sem gæta þess að vanhelga
ekki hvíldardaginn og halda fast við minn sáttmála, 7 þá mun eg leiða
til míns heilaga fjalls og gleðja þá í bænahúsi mínu: brennifórnir þeirra
og sláturfórnir skulu vera mér þóknanlegar á altari mínu; því að hús
mitt skal nefnast bænahús fyrir allar þjóðir. 8 Drottinn Jahve segir:
Þegar eg safna saman hinum burtreknu af Ísrael, mun eg og safna
mörgum auk þeirra!

9 Safnist saman, öll dýr merkurinnar, komið til að eta, öll dýr
skógarins! 10 Varðmenn hans* eru allir blindir, vita ekki neitt, eru allir
hljóðlausir hundar, sem ekki geta gelt, þeir liggja í draummóki, þeim
þykir gott að lúra. 11 Og hundarnir eru gráðsoltnir, fá aldrei fylli sína,
— og hirðarnir sjálfir hafa ekki vit á að taka eftir, þeir fara hver
sinna ferða, líta allir á sinn eigin hag. 12 »Komið, eg ætla að sækja
vín, vér skulum drekka ósleitulega; og morgundagurinn skal verða sem
þessi, dýrlegur næsta mjög«.

---

6: Am. 5, 4. 12: Sálm. 98, 8. 13: kap. 41, 19. — 56, 1: kap. 46, 13. 2: kap. 58, 13.
3: kap. 14, 1. 7: Matt. 21, 13. Mark. 11, 17. Lúk. 19, 46. 8: Jóh. 10, 16. 10:
* Þ. e. Ísraels. 11: Jer. 6, 13. 12: kap. 22, 13.

57 Hinir réttlátu líða undir lok, og enginn leggur það á hjarta,
hinum guðhræddu er burt svift, og enginn veitir því athygli,
því að vegna spillingarinnar er hinum réttlátu burt svift, [2] þeir ganga
inn til friðar; þeir munu hvíla í legurúmum sínum, sem ganga beina
braut. [3] En komið þér hingað, þér seiðkonusynir, þú afsprengi hór-
karls og skækju! [4] Að hverjum skopist þér? framan í hvern eruð þér
að bretta yður og reka út úr yður tunguna? Eruð þér ekki syndar-
innar börn og lyginnar afsprengi? [5] Þér, sem brunnuð af girndarbruna
hjá eikitrjánum, undir hverju grænu tré, sem slátruðuð börnum í döl-
unum, niðri í klettagjánum. [6] Þú áttir hlutdeild í hnullungum dal-
anna; þeir, þeir voru hlutskifti þitt! þú útheltir drykkjarfórn einnig
handa þeim, færðir þeim matfórn — átti eg að una slíku? [7] Á háu og
gnæfandi fjalli settir þú hvílurúm þitt, þú fórst og upp þangað, til þess
að færa fórnir. [8] Á bak við hurð og dyrustafi settir þú minningarmark
þitt; því að fráhverf mér flettir þú ofan af hvílu þinni, steigst upp í
hana og rýmkaðir til í henni og gjörðir samning við þá; þér voru kær
hvílubrögð þeirra, þú sást blygðan þeirra. [9] Og þú fórst til konungs-
ins með olíu og hafðir með þér mikil smyrsl, og þú sendir sendiboða
þína langar leiðir og steigst niður alt til Heljar. [10] Þú varðst þreytt af
hinu langa ferðalagi þínu, en þó sagðir þú ekki: Eg gefst upp! Þú
fanst nýjan lífsþrótt í hendi þinni, fyrir því örmagnaðist þú ekki.
[11] Hvern hræddist og óttaðist þú þá, að þú skyldir bregða svo
trúnaði þínum, að þú skyldir ekki muna til mín, ekkert um mig hirða?
Er eigi svo: eg hefi þagað, og það frá eilífð, mig óttaðist þú því ekki?
[12] En eg skal gjöra réttlæti þitt kunnugt, og verkin þín — þau munu
þér að engu liði verða. [13] Lát þú þá, sem þú hefir saman safnað, bjarga
þér, er þú kallar á hjálp; vindurinn mun svifta þeim öllum í burt,
gusturinn taka þá; en sá, sem leitar hælis hjá mér, mun erfa landið
og eignast mitt heilaga fjall. [14] Og sagt mun verða: Leggið braut, leggið
braut, greiðið veginn, ryðjið hverjum ásteytingarsteini úr vegi þjóðar
minnar! [15] Því að svo segir hinn hái og háleiti, hann sem ríkir eilíf-
lega og heitir Heilagur: Eg bý á háum og helgum stað, en einnig hjá
þeim, sem hafa sundurkraminn og auðmjúkan anda, til þess að lífga anda
hinna auðmjúku og til þess að lífga hjörtu hinna sundurkrömdu. [16] Því
að eg þreyti ekki deilur eilíflega og reiðist ekki æfinlega, ella mundi and-
inn vanmegnast fyrir mér og sálirnar, sem eg hefi skapað. [17] Sökum hinn-
ar syndsamlegu ágirndar hans reiddist eg og laust hann, eg byrgði andlit
mitt og var reiður; þrjózkufullur hélt hann þá leið, er hann lysti. [18] Eg
sá vegu hans og eg vil lækna hann; eg vil leiða hann og veita honum
hugsvölun, öllum þeim sem hryggir eru hjá honum. [19] Skapandi ávöxt
varanna segir Jahve: Friður, friður fyrir fjarlæga og fyrir nálæga, eg lækna
hann! [20] En hinir óguðlegu eru sem ólgusjór, því að hann getur ekki
verið kyrr og bylgjur hans róta upp aur og leðju. [21] Hinum óguðlegu,
segir Guð minn, er enginn friður búinn.

58 Kalla þú af megni og drag ekki af! Hef upp raust þína sem
lúður og kunngjör lýð mínum misgjörð þeirra og húsi Jakobs
syndir þeirra. [2] Og þó leita þeir mín dag frá degi og girnast að þekkja
mína vegu; þeir heimta af mér réttláta dóma og girnast það, að Guð
komi til, eins og væru þeir þjóð, sem iðkar réttlæti og eigi víkur frá
skipunum Guðs síns. [3] »Hví föstum vér, og þú sér það ekki? hví þjá-
um vér oss, og þú skeytir því ekki?« Sjá, daginn sem þér fastið fáist

**57, 5:** 2 Kong. 16, 4. Esek. 16, 21. **11:** Sálm. 50, 21. **13:** kap. 56, 7. **14:** kap. 40, 3; 62, 10. **15:** Sálm. 113, 5 n. 34, 19; 138, 6. Lúk. 1, 49. **16:** Sálm. 103, 9. **19:** Hebr. 13, 15. Ef. 2, 17. **20:** Júd. 13. **21:** kap. 48, 22. — **58, 1:** Mík. 3, 8.

þér við störf yðar og þrælkið öll hjú yðar. [4] Sjá, þér fastið til þess að
vekja deilur og þrætur, og til þess að ljósta með ósvífnum hnefa, en
þér fastið eigi í dag til þess að láta rödd yðar heyrast upp í hæðirnar.
[5] Mun slíkt vera sú fasta, er mér líkar, sá dagur, er menn þjá sig?
Að hengja niður höfuðið sem sef og breiða undir sig sekk og ösku,
kallar þú slíkt föstu og dag velþóknunar fyrir Jahve. [6] Nei, sú fasta,
sem mér líkar, er að leysa fjötra rangsleitninnar, láta rakna bönd oks-
ins, gefa frjálsa hina hrjáðu og sundurbrjóta sérhvert ok; [7] það er, að
þú miðlir hinum hungruðu af brauði þínu, hýsir bágstadda, hælislausa
menn, — ef þú sér klæðlausan mann, að þú þá klæðir hann og firrist
eigi þann, sem er hold þitt og blóð. [8] Þá skal ljós þitt bruna fram
sem morgunroði og sár þitt gróa bráðlega; þá mun réttlæti þitt fara
fyrir þér, dýrð Jahve fylgja á eftir þér. [9] Þá munt þú kalla á Jahve,
og hann mun svara, þú munt hrópa á hjálp, og hann segja: Hér er
eg! Ef þú hættir allri undirokun, hæðnisbendingum og illmælum, [10] ef
þú réttir hinum hungraða brauð þitt og seður þann, sem bágt á, þá
mun ljós þitt renna upp í myrkrinu og niðdimman í kring um þig
verða sem hábjartur dagur; [11] þá mun Jahve stöðugt leiða þig og seðja
þig, þótt þú sért staddur á vatnslausum stöðum, og styrkja bein þín,
og þá munt þú verða sem vökvaður aldingarður og sem uppsprettulind,
er aldrei þrýtur. [12] Þá munu afkomendur þínir byggja upp hinar
fornu borgarrústir og þú munt reisa af nýju múrveggina, er legið hafa
við velli marga mannsaldra, og þá munt þú nefndur verða múrskarða-
fyllir, farbrauta-bætir. [13] Ef þú varast að vanhelga hvíldardaginn, var-
ast að gegna störfum þínum á helgum degi mínum, ef þú kallar hvíld-
ardaginn feginsdag, hinn helga dag Jahve heiðursdag og virðir hann
svo, að þú framkvæmir ekki fyrirætlanir þínar, annast ekki störf þín
né talar hégómaorð, [14] þá munt þú gleðjast yfir Jahve og þá mun eg
láta þig fram bruna á hæðum landsins og láta þig njóta arfleifðar Jak-
obs föður þíns; því að munnur Jahve hefir talað það.

**59** Sjá, hönd Jahve er eigi svo stutt, að hann geti ekki hjálpað, og
eyra hans er ekki svo þykt, að hann heyri ekki; [2] en það eru
misgjörðir yðar, sem skilnað hafa gjört milli yðar og Guðs yðar, og
syndir yðar, sem byrgt hafa auglit hans fyrir yður, svo að hann heyrir
ekki. [3] Því að hendur yðar eru blóði ataðar og fingur yðar misgjörð-
um; varir yðar tala lygi og tunga yðar fer með ilsku. [4] Enginn stefnir
fyrir dóm af því, að honum gangi réttlæti til, og enginn á í málaferl-
um sannleikans vegna; menn reiða sig á hégóma og tala lygi, þeir
ganga með ranglæti og ala illgjörðir. [5] Þeir klekja út hornormseggjum
og vefa köngullóarvefi; hverjum sem etur af eggjum þeirra er dauðinn
vís, og verði eitthvert þeirra troðið sundur, skríður úr því eiturormur.
[6] Vefnaður þeirra er ónýtur til klæða, og það sem þeir vinna, verður
eigi haft til skjóls: athafnir þeirra eru illvirki og ofbeldisverk liggja í
lófum þeirra. [7] Fætur þeirra eru skjótir til ills og fljótir til að úthella
saklausu blóði; ráðagjörðir þeirra eru skaðræðis-ráðagjörðir, eyðing og
tortíming er á vegum þeirra. [8] Veg friðarins þekkja þeir ekki og ekk-
ert réttlæti er á þeirra stigum; þeir hafa gjört vegu sína hlykkjótta,
hver sá, er þá gengur, hefir ekki af friði að segja. [9] Fyrir því er rétt-
urinn fjarlægur oss og réttlætið kemur ekki nálægt oss; vér væntum
ljóss, en það er myrkur, væntum dagsbirtu, en göngum í niðdimmu.
[10] Vér þreifum fyrir oss, eins og blindir menn með vegg, fálmum eins
og þeir, sem mist hafa sjónina; oss verður fótaskortur um hábjartan

---

7: Esek. 18, 7. Matt. 25, 35 n. 8: kap. 52, 12. 12: kap. 61, 4. 14: 5 Mós. 32, 13.
— 59, 1: 4 Mós. 11, 23. Jes. 50, 2. 3: kap. 1, 15. 4: Job 15, 35. Sálm. 7, 15.
6: Job 8, 14. 7: Orðskv. 1, 16. Róm. 3, 15 n. 10: 5 Mós. 28, 29.

daginn, eins og í rökkri; í blóma lífsins erum vér sem dauðir menn.
11 Vér rymjum allir sem birnir, kurrum eins og dúfur; vér væntum rétt-
ar, en hann fæst ekki, væntum hjálpræðis, en það er langt í burtu frá
oss. 12 Því að afbrot vor eru mörg frammi fyrir þér og syndir vorar
vitna í gegn oss; því að afbrot vor eru oss kunn, og misgjörðir vorar
þekkjum vér. 13 Vér höfum horfið frá Jahve og afneitað honum og
vikið burt frá Guði vorum; vér höfum látið oss ofríki og fráhvarf
um munn fara, vér höfum upphugsað og mælt fram af hjarta voru
lygaorð. 14 Og rétturinn er hrakinn á hæl og réttlætið stendur langt
í burtu; því að sannleikurinn hrasaði á strætunum og hreinskilnin
kemst ekki að. 15 Og sannleikurinn er horfinn, og sá sem firrist það,
sem ilt er, verður öðrum að herfangi. Og Jahve sá það og honum
mislikaði réttleysið. 16 Og hann sá að þar var enginn, og hann undr-
aðist að enginn vildi í skerast; en þá hjálpaði honum armleggur hans,
og réttlæti hans studdi hann. 17 Og hann íklæddist réttlætinu sem
panzara og setti hjálm hjálpræðisins á höfuð sér; hann klæddist klæð-
um hefndarinnar sem fati og hjúpaði sig vandlætinu eins og skikkju.
18 Eins og þeir hafa unnið til, svo mun hann gjalda: mótstöðumönn-
um sínum heift og óvinum sínum hefnd; fjarlægum landsálfum geldur
hann víti. 19 Og menn munu óttast nafn Jahve í frá niðurgöngu sólar
og dýrð hans í frá upprás sólar, því að hann brýzt fram eins og á í
gljúfrum, er andgustur Jahve knýr áfram. 20 En til Zíonar kemur hann
sem frelsari, til þeirra í Jakob, sem snúið hafa sér frá syndum, segir
Jahve. 21 Og þessi er sáttmálinn, sem eg gjöri við þá, segir Jahve:
Andi minn, sem er yfir þér, og orð mín, sem eg hefi lagt í munn þér,
þau skulu ekki víkja frá munni þínum, né frá munni niðja þinna, né
frá munni niðja niðja þinna, segir Jahve, héðan í frá og að eilífu.

60 Statt upp, skín þú, því að ljós þitt kemur og dýrð Jahve
rennur upp yfir þér! 2 Því sjá, myrkur grúfir yfir jörðinni og
sorti yfir þjóðunum; en yfir þér upp rennur Jahve, og dýrð hans birtist
yfir þér. 3 Heiðingjarnir stefna á ljós þitt og konungar á ljómann, sem
upp rennur yfir þér. 4 Hef upp augu þín og litast um: þeir safnast
allir saman og koma til þín; synir þínir koma af fjarlægum löndum
og dætur þínar eru bornar á mjöðminni. 5 Við þá sýn muntu gleðjast,
hjarta þitt mun titra og svella, því að auðlegð hafsins hverfur til þín
og fjárafli þjóðanna kemur undir þig. 6 Mergð úlfalda hylur þig, ungir
úlfaldar frá Midían og Efa; þeir koma allir frá Saba: gull og reykelsi
færa þeir, og þeir kunngjöra lof Jahve. 7 Allar hjarðir Kedars safnast
til þín, hrútar Nebajóts þjóna þér: þeir stíga upp á altari mitt mér
til þóknunar, og hús dýrðar minnar gjöri eg dýrlegt. 8 Hverjir eru
þessir, sem koma fljúgandi eins og ský og sem dúfur til búra
sinna? 9 Því að mín bíða eylöndin, og Tarsis-knerrir fara fremstir, til
þess að flytja sonu þína heim af fjarlægum löndum, og þeir hafa með
sér silfur sitt og gull sitt — vegna nafns Jahve, Guðs þíns, og vegna
hins Heilaga í Ísrael, af því að hann hefir gjört þig vegsamlega. 10 Út-
lendir menn munu hlaða upp múra þína, og konungar þeirra þjóna þér;
því að í reiði minni sló eg þig, en af náð minni miskunna eg þér.
11 Hlið þín munu ávalt opin standa, þeim er hvorki lokað dag né nótt,
til þess að menn geti fært þér fjárafla þjóðanna og konunga þeirra sem
bandingja. 12 Því að hver sú þjóð og hvert það konungsríki, sem eigi
vill lúta þér, skal undir lok líða og þær þjóðir munu gjöreyddar verða.
13 Prýði Líbanons mun til þín koma: kýpresviður, álmviður og buks-

**11:** kap. 38, 14. **16:** kap. 63, 5. **17:** Ef. 6, 14. 17. 1 Þess. 5, 8. **19:** kap. 30, 27. 28. **20:** Róm. 11, 26. 27. **21:** kap. 51, 16. — **60, 3:** kap. 42, 6; 49, 6. **4:** kap. 49, 18. **5:** Hagg. 2, 7. **6:** 1 Mós. 25, 4. Sálm. 72, 10. **11:** Opinb. 21, 24 n.

viður, hver með öðrum, til þess að prýða helgan stað minn og gjöra
vegsamlegan stað fóta minna. 14 Og synir þeirra, sem kúguðu þig,
munu koma til þín niðurlútir, og allir þeir, sem smánuðu þig, munu
fleygja sér flötum fyrir fætur þér; og þeir munu kalla þig borg Jahve,
Zíon hins Heilaga í Ísrael. 15 Í stað þess, að þú áður varst yfirgefin,
hötuð og enginn fór um hjá þér, gjöri eg þig að eilífri vegsemd, að
fögnuði margra kynslóða. 16 Og þú munt drekka mjólk þjóðanna og
sjúga brjóst konunganna, og þá skalt þú reyna það, að eg Jahve, er
frelsari þinn, og Jakobs voldugi lausnari þinn. 17 Eg mun færa þér
gull í stað eirs og silfur í stað járns, eir í stað trjáviðar og járn í stað
grjóts; eg gjöri friðinn að valdstjórn þinni og réttlætið að valdsmanni
þínum. 18 Eigi skal framar heyrast getið um ofríki í landi þínu, né
um tjón og tortíming innan landamerkja þinna; þú skalt kalla hjálp-
ræði múra þína og sigurfrægð hlið þín. 19 Þú skalt ekki framar hafa
sólina til að lýsa þér um daga, og tunglið skal ekki skína til að gefa
þér birtu; heldur skal Jahve vera þér eilíft ljós og Guð þinn vera þér
geislandi röðull. 20 Þá mun sól þín ekki framar ganga undir og tungl
þitt ekki minka, því að Jahve mun vera þér eilíft ljós og hörmungar-
dagar þínir skulu þá vera á enda. 21 Og lýður þinn — þeir eru allir
réttlátir, þeir munu eiga landið eilíflega: kvisturinn, sem eg hefi gróður-
sett, verk handa minna, er eg gjöri mig vegsamlegan með. 22 Hinn
minsti skal verða að þúsund og hinn lítilmótlegasti að voldugri þjóð.
Eg, Jahve, mun hraða því, þegar að því kemur.

61 Andi drottins, Jahve, er yfir mér, af því að Jahve hefir smurt
mig til að flytja nauðstöddum gleðilegan boðskap, og sent mig til
að græða þá, sem hafa sundurmarið hjarta, til að boða herteknum
frelsi og fjötruðum lausn, 2 til að boða náðarár Jahve og hefndardag
Guðs vors, til að hugga alla hrelda, 3 til að láta hinum hreldu í Zíon
í té, gefa þeim höfuðdjásn í stað ösku, fagnaðarolíu í stað hrygðar,
skartklæði í stað hugarvíls; og þeir munu kallaðir verða réttlætis-eikur,
plantan Jahve honum til vegsemdar. 4 Þeir munu byggja upp hinar
fornu rústir, reisa af nýju tóttir fyrri tíða, koma upp aftur eyddu borg-
unum, sem legið hafa við velli í marga mannsaldra. 5 Útlendingar
munu standa yfir hjörðum yðar og halda þeim til haga, og aðkomnir
menn vera akurmenn og víngarðsmenn hjá yður; 6 en sjálfir munuð
þér kallaðir verða prestar Jahve og nefndir verða þjónar Guðs vors;
þér munuð njóta fjárafla þjóðanna og stæra yður af auðlegð þeirra.
7 Fyrir þá smán, er þér þolduð, skuluð þér fá tvöfalt, og í stað háð-
ungar skulu þeir fagna yfir hlutskifti sínu; fyrir því skulu þeir eignast
tvöföld óðul í landi sínu, og eilíf gleði skal falla þeim í skaut. 8 Því
að eg, Jahve, elska réttlæti, en hata glæpsamlegt rán; eg geld þeim
laun þeirra með trúfesti og gjöri við þá eilífan sáttmála. 9 Og niðjar
þeirra munu kunnir verða meðal þjóðanna og afsprengi þeirra á meðal
þjóðflokkanna; allir, sem sjá þá, munu kannast við, að þeir eru sú
kynslóð, sem Jahve hefir blessað. 10 Eg gleðst yfir Jahve, sál mín
fagnar yfir Guði mínum, því að hann hefir klætt mig klæðum hjálp-
ræðisins, hann hefir sveipað mig í skikkju réttlætisins, eins og þegar
brúðgumi lætur á sig höfuðdjásn og brúður býr sig skarti sínu.
11 Því eins og jörðin lætur gróður sinn koma upp og eins og aldin-
garðurinn lætur frækornin upp spretta, svo mun drottinn Jahve láta
réttlæti og frægð upp spretta í augsýn allra þjóða.

---

**13:** kap. 35, 2. **15:** kap. 62, 4. **16:** kap. 49, 23. **18:** kap. 26, 1. **19:** Opinb. 21, 23; 22, 5. **21:** kap. 61, 3. — **61, 1:** Lúk. 4, 18 n. Jes. 11, 2. **3:** Sálm. 45, 8. Hebr. 1, 9. Jes. 60, 21. **4:** kap. 58, 12. **5:** kap. 14, 2. **6:** 1 Pét. 2, 9. **7:** kap. 40, 2. **8:** kap. 55, 3. **10:** Hab. 3, 18. Sak. 3, 4.

62 Sökum Zíonar get eg ekki þagað, og sökum Jerúsalem get eg
ekki kyrr verið, unz réttlæti hennar rennur upp sem ljómi og
hjálpræði hennar sem brennandi blys. 2 Þá skulu þjóðirnar sjá rétt-
læti þitt og allir konungar vegsemd þína, og þú munt nefnd verða nýju
nafni, er munnur Jahve mun ákveða. 3 Og þú munt verða prýðileg
kóróna í hendi Jahve og konunglegt höfuðdjásn í hendi Guðs þíns.
4 Þú munt ekki framar nefnd verða »Yfirgefin« og land þitt ekki framar
nefnt verða »Auðn«, heldur skalt þú kölluð verða »Yndið mitt« og land
þitt »Eiginkona«, því að Jahve ann þér og land þitt mun manni gefið
verða. 5 Því eins og ungur maður fær meyjar, eins munu synir þínir
eignast þig; og eins og brúðgumi gleðst yfir brúði, eins mun Guð
þinn gleðjast yfir þér.
6 Eg hefi skipað varðmenn yfir múra þína, Jerúsalem; þeir skulu
aldrei þegja, hvorki um daga né nætur. Þér sem minnið Jahve á,
unnið yður engrar hvíldar! 7 Ljáið honum engrar hvíldar, unz hann
reisir Jerúsalem og gjörir hana vegsamlega á jörðinni. 8 Jahve hefir
svarið við hægri hönd sína og við sinn máttuga armlegg: Eg mun
aldrei framar gefa óvinum þínum korn þitt að eta, og eigi skulu út-
lendir menn drekka aldinlög þinn, sem þú hefir erfiði fyrir haft;
9 heldur skulu þeir, sem hirt hafa kornið, eta það sjálfir og lofa Jahve
fyrir, og þeir sem safnað hafa aldinleginum, skulu drekka hann í for-
görðum helgidóms míns. 10 Gangið út, gangið út um borgarhliðin!
Greiðið götu lýðsins! Leggið, leggið braut! Ryðjið burt grjótinu!
Reisið merki fyrir þjóðirnar! 11 Sjá, Jahve gjörir það kunnugt til endi-
marka jarðarinnar! Segið dótturinni Zíon: Sjá, hjálpræði þitt kemur!
Sjá, endurgjald hans fylgir honum, og fengur hans fer á undan honum!
12 Og þeir munu kallaðir verða »hinn heilagi lýður«, »hinir endurleystu
Jahve«, og þú munt kölluð verða »hin fjölsótta«, »borgin, sem eigi
var yfirgefin«.

---

63 Hver er þessi, sem kemur frá Edóm, í hárauðum klæðum frá
Bozra? þessi hinn tigulega búni, sem gengur fram hnarreistur í
mikilleik máttar síns? — Það er eg, sá er mæli réttlæti og mátt hefi
til að frelsa. — 2 Hví er rauð skikkja þín, og klæði þín eins og þess,
er treður ber í vínþröng? — 3 Vínlagarþró hefi eg troðið, aleinn, af
þjóðunum hjálpaði mér enginn; eg fótum tróð þá í reiði minni, marði
þá sundur í heift minni; þá hraut lögur þeirra á klæði mín, og skikkju
mína ataði eg alla. 4 Því að hefndardagur var mér í hug, og lausnarár
mitt er komið. 5 Eg litaðist um, en enginn var til að hjálpa; mig
undraði að enginn skyldi aðstoða mig; en þá hjálpaði mér armleggur
minn og heift mín aðstoðaði mig. 6 Eg tróð þjóðirnar í reiði minni
og marði þær sundur í heift minni og lét löginn úr þeim renna á jörðina.

7 Eg vil víðfrægja hinar mildilegu velgjörðir Jahve, lof Jahve,
fyrir alt það, sem Jahve hefir við oss gjört, og hina miklu gæzku hans
við Ísraels hús, er hann hefir auðsýnt þeim af miskunn sinni og mikilli
mildi. 8 Því að hann sagði: Vissulega eru þeir minn lýður, börn, sem
ekki munu bregðast! Og hann varð þeim frelsari. 9 Ávalt þegar þeir
voru í nauðum staddir, kendi hann nauða, og engill auglitis hans frels-
aði þá; af elsku sinni og vægðarsemi endurleysti hann þá, hann tók
þá upp og bar þá alla daga hinna fyrri tíða. 10 En þeir gjörðust mót-

---

**62, 2:** Opinb. 2, 17. **4:** kap. 60, 15. **6:** kap. 52, 8. **7:** kap. 61, 11. **8:** kap. 65, 21. 22. **10:** kap. 57, 14. **11:** Sak. 9, 9. Jes. 40, 10. Matt. 21, 5. — **63, 1:** kap. 34, 6. **2:** Opinb. 19, 13. **4:** kap. 34, 8.

snúnir og hrygðu heilagan anda hans; gjörðist hann þá óvinur þeirra
og barðist sjálfur í móti þeim. 11 Þá mintist lýður hans hinna fyrri
tíða, þá er Móse var á dögum: Hvar er hann, sem leiddi þá upp úr
hafinu ásamt hirði hjarðar sinnar? Hvar er hann, sem lét heilagan
anda sinn búa mitt á meðal þeirra? 12 Hann, sem lét dýrðarsamlegan
armlegg sinn ganga Móse til hægri handar, hann sem klauf vötnin fyrir
þeim, til þess að afreka sér eilíft nafn, 13 hann sem lét þá ganga um
djúpin eins og hestur gengur um eyðimörku, og þeir hrösuðu ekki?
14 Eins og búféð, sem fer ofan í dalinn — færði andi Jahve þá til
hvíldar. Þannig hefir þú leitt lýð þinn, til þess að afreka þér dýrðar-
samlegt nafn.

15 Horf þú af himni ofan og lít niður frá hinum heilaga og dýrð-
arsamlega bústað þínum! Hvar er nú vandlæti þitt og máttarverk þín?
Þín viðkvæma elska og miskunnsemi við mig hefir dregið sig í hlé!
16 Sannlega ert þú faðir vor; því að Abraham þekkir oss ekki og Ísrael
kannast ekki við oss; þú, Jahve, ert faðir vor, »frelsari vor frá alda
öðli« er nafn þitt. 17 Hví lézt þú oss, Jahve, villast af vegum þínum,
hví lézt þú hjarta vort forherða sig, svo að það óttaðist þig ekki?
Hverf aftur fyrir sakir þjóna þinna, fyrir sakir ættkvísla arfleifðar þinn-
ar! 18 Um skamma stund hafa þeir tekið hið heilaga fjall þitt til eign-
ar, hafa óvinir vorir fótum troðið helgidóm þinn. 19 Vér erum orðnir
sem þeir, er þú um langan aldur hefir ekki drotnað yfir, og eins og
þeir, er aldrei hafa nefndir verið eftir nafni þínu.

64 Ó, að þú sundurrifir himininn og færir ofan, svo að fjöllin
nötruðu fyrir augliti þínu — eins og þegar eldur kveikir í þurru
limi eða þegar eldur kemur vatni til að vella, — til þess að gjöra óvin-
um þínum kunnugt nafn þitt, svo að þjóðirnar mættu skjálfa fyrir aug-
liti þínu, 2 er þú framkvæmdir hræðilega hluti, sem vér gátum eigi
vænzt eftir. Þú fórst ofan; fjöllin nötruðu fyrir augliti þínu. 3 Því að
frá alda öðli hefir enginn haft spurn af eða heyrt, né auga séð
nokkurn Guð nema þig, þann er gjöri slíkt fyrir þá, er á hann vona.
4 Þú kemur í móti þeim, er gjörir með gleði það, sem rétt er, — þeim
er minnast þín á vegum þínum. Sjá, þú reiddist, og vér urðum brot-
legir, — yfir trygðrofi voru, og vér urðum sakfallnir. 5 Og vér urðum
allir sem óhreinn maður, allar dygðir vorar sem saurgað klæði; vér
visnuðum allir sem laufblað, og misgjörðir vorar feyktu oss burt eins
og vindur. 6 Enginn ákallar nafn þitt, enginn herðir sig upp til þess að
halda fast við þig, því að þú hefir byrgt auglit þitt fyrir oss, og gefið
oss á vald misgjörðum vorum. 7 En nú, Jahve! þú ert faðir vor; vér
erum leirinn, og þú ert sá, er myndar oss, og handaverk þín erum vér
allir! 8 Reiðst eigi, Jahve, svo stórlega, og minstu eigi misgjörða vorra
eilíflega. Æ, lít þú á: vér erum allir þitt fólk. 9 Þínar heilögu borgir
eru orðnar að eyðimörk; Zíon er orðin að eyðimörk, Jerúsalem komin
í auðn. 10 Hið heilaga og veglega musteri vort, þar sem feður vorir
vegsömuðu þig, er brunnið upp til kaldra kola, og alt það, sem oss
var dýrmætt, er orðið að rústum. 11 Hvort fær þú, Jahve, leitt slíkt hjá
þér? getur þú þagað og þjáð oss svo stórlega?

65 Eg var fús að veita þeim áheyrn, sem eigi spurðu eftir mér,
eg gaf þeim kost á að finna mig, sem eigi leituðu mín; eg sagði:
»hér er eg, hér er eg« við þá þjóð, er eigi ákallaði nafn mitt. 2 Eg
hefi rétt út hendur mínar allan daginn í móti þrjózkum lýð, í móti

---

**10:** Ef. 4, 30. **11:** Sálm. 77, 21. **15:** 5 Mós. 26, 15. **16:** kap. 64, 7. — **64, 3:** 1 Kor. 2, 9. **7:** kap. 63, 16. Róm. 9, 20. 21. **10:** Sálm. 74, 7. 2 Kong. 25, 9. 2 Kron. 36, 19. — **65, 1:** Róm. 10, 20.

þeim, sem ganga á illum vegum, eftir eigin hugþótta sínum, [3] í
móti fólki, sem reitir mig stöðuglega til reiði upp í opin augun,
sem fórnar í lundunum og brennir reykelsi á tígulsteinunum, [4] sem
lætur fyrirberast í gröfunum og er um nætur í hellunum, etur svína-
kjöt og hefir viðbjóðslega súpu í ílátum sínum, [5] sem segir: Far þú
burt, kom ekki nærri mér; eg er heilagur fyrir þig*! — slíkir menn eru
reykur í nösum mér, eldur, sem brennur liðlangan daginn. [6] Sjá, það
stendur skrifað frammi fyrir mér: Eg mun ekki þagna fyr en eg hefi
goldið, já, eg mun gjalda þeim í skaut — [7] bæði fyrir misgjörðir yðar
og fyrir misgjörðir feðra yðar, segir Jahve, þeir sem brendu reykelsi á
fjöllunum og smánuðu mig á hæðunum! — eg vil fyrst mæla þeim í
skaut laun þeirra.

[8] Svo segir Jahve: Eins og menn segja, þegar lögur finst í vínberi:
Ónýt það eigi, því að blessun er í því! eins vil eg gjöra fyrir sakir
þjóna minna, svo að eg tortími þeim ekki öllum. [9] Eg vil láta afsprengi
æxlast út af Jakob og út af Júda erfingja að fjöllum mínum; og mínir
útvöldu skulu erfa það* og þjónar mínir búa þar. [10] Og Saron skal
verða að beitilandi fyrir hjarðir og Akor-dalur að nautastöðli fyrir þá
af þjóð minni, sem leita mín. [11] En þér, sem yfirgefið Jahve, sem
gleymið mínu heilaga fjalli, sem setjið borð fyrir heilladísina og hellið
á kryddvíni fyrir örlaganornina, — [12] yður ætla eg undir sverðið og
allir skuluð þér leggjast niður til slátrunar, af því að þér gegnduð ekki,
þegar eg kallaði, og heyrðuð ekki, þegar eg talaði, heldur aðhöfðust
það, sem ilt var í mínum augum, og höfðuð mætur á því, sem mér
mislíkaði.

[13] Fyrir því segir drottinn Jahve svo: Sjá, þjónar mínir munu eta,
en yður mun hungra; sjá, þjónar mínir munu drekka, en yður mun
þyrsta; sjá, þjónar mínir munu gleðjast, en þér munuð glúpna; [14] sjá,
þjónar mínir munu fagna af hjartans gleði, en þér munuð kveina af
hjartasorg og æpa af hugarkvöl. [15] Og þér munuð leifa mínum út-
völdu nafn yðar sem formæling: Drottinn Jahve deyði þig . . . .!* En
sína þjóna mun hann nefna öðru nafni, [16] svo að hver sá er óskar sér
blessunar í landinu, hann óskar sér blessunar í nafni hins trúfasta
Guðs, og hver sem eið vinnur í landinu, hann vinnur eið við hinn trú-
fasta Guð, af því að hinar fyrri þrautir eru þá gleymdar og af því að
þær eru huldar fyrir augum mínum. [17] Því sjá, eg skapa nýjan
himin og nýja jörð, og hins fyrra skal ekki minst verða og það skal
engum í hug koma. [18] Nei, gleðjist og fagnið æfinlega yfir því, sem
eg skapa, því sjá, eg gjöri Jerúsalem að fögnuði og fólkið í henni að
gleði. [19] Og eg vil fagna yfir Jerúsalem og gleðjast yfir fólki mínu, og
eigi skal framar heyrast þar gráthljóð eða kveinstafir. [20] Eigi skal þar
framar vera nokkurt ungbarn, er aðeins lifi fáa daga, né nokkurt gam-
almenni, sem ekki nái fullum aldri; því að sá er þar ungur maður,
sem deyr tíræður, og sá sem ekki nær tíræðisaldri, skal álítast bölvað-
ur. [21] Og þeir munu reisa hús og búa í þeim, og þeir munu planta
víngarða og eta ávöxtu þeirra. [22] Eigi munu þeir reisa og aðrir í búa,
eigi munu þeir planta og aðrir eta; því að aldur fólks míns mun vera
sem aldur trjánna, og mínir útvöldu skulu sjálfir njóta handaverka
sinna. [23] Eigi munu þeir erfiða til ónýtis og eigi börn geta til skamm-
lífis, því að þeir eru kynslóð manna, er Jahve hefir blessað, og niðjar
þeirra verða hjá þeim. [24] Áður en þeir kalla, mun eg svara, og áður

**3:** kap. 66, 17. **5:** * Þ. e. svo að þú mátt ekki snerta mig. **7:** 2 Mós. 20, 5. Jer. 16, 18. **9:** * Þ. e. landið. **10:** Jós. 7, 26. Hós. 2, 15. **12:** Orðskv. 1, 24 n. Jes. 65, 4. Jer. 7, 13. **13:** Sálm. 22, 27. **15:** * Þ. e. eins og þann og þann. Jer. 29, 22. Jes. 62, 2. **16:** Jer. 4, 2. **17:** kap. 66, 22. 2 Pét. 3, 13. Opinb. 21, 1. **19:** kap. 35, 10. **22:** 5 Mós. 28, 30. **23:** kap. 61, 9.

en þeir hafa orðinu slept, mun eg bænheyra. [25] Úlfur og lamb munu
vera saman á beit, og ljónið mun hey eta sem naut — en moldin skal
vera fæða höggormsins. Hvergi á mínu heilaga fjalli munu menn ilt
fremja eða skaða gjöra, segir Jahve.

66 Svo segir Jahve: Himininn er hásæti mitt og jörðin er fótskör
mín. Hvaða hús munuð þér geta reist mér, og hvar er sá stað-
ur, sem verið geti bústaður minn? [2] Því að hönd mín hefir gjört
alt þetta og þannig er það alt til orðið, segir Jahve. En þeir, sem eg
lít til, eru hinir auðmjúku og þeir er hafa sundurmarinn anda og skjálfa
fyrir orði mínu. [3] Sá, sem slátrar uxa, er ekki mætari en manndráp-
ari, sá sem fórnar sauð, er ekki mætari en sá sem hengir hund, sá
sem færir fórnargjöf, ekki mætari en sá sem ber fram svínablóð, sá
sem brennir reykelsi, ekki mætari en sá sem blessar skurðgoð. Eins
og þeir hafa valið sína vegu og eins og sál þeirra hefir mætur á hin-
um viðurstyggilegu goðum þeirra, [4] eins mun eg láta mér vel líka að
hrjá þá og láta yfir þá koma það, er þeir hræðast, af því að enginn
gegndi, þegar eg kallaði, og þeir heyrðu ekki, þegar eg talaði, heldur
aðhöfðust það, sem ilt var í mínum augum, og höfðu mætur á því,
sem mér mislíkaði.
[5] Heyrið orð Jahve, þér sem skjálfið fyrir orði hans! Bræður yðar
segja, þeir er hata yður og reka yður burt frá sér fyrir sakir nafns
míns: »Gjöri Jahve sig dýrlegan, svo að vér megum sjá gleði yðar«;
en þeir skulu til skammar verða. [6] Heyr gnýinn frá borginni, heyr
óminn frá musterinu; heyr, Jahve geldur óvinum sínum fyrir tilverknað
þeirra! [7] Hún fæðir, áður en hún kennir sín; hún er orðin léttari að
sveinbarni, áður en hún tekur jóðsóttina. [8] Hver hefir heyrt slíkt? Hver
hefir séð slíka hluti? Er nokkurt land í heiminn borið á einum degi,
eða fæðist nokkur þjóð alt í einu? því að óðara en Zíon hefir kent
sóttar, hefir hún alið börn sín. [9] Skyldi eg láta barnið komast í burð-
arliðinn og ekki láta það fæðast? segir Jahve; eða skyldi eg, sem læt
barnið fæðast, loka móðurkviðnum? segir Guð þinn.
[10] Gleðjist með Jerúsalem, og fagnið yfir henni, allir þér sem elskið
hana! kætist með henni, allir þér sem nú hryggist yfir henni, [11] svo að
þér megið sjúga og saddir verða við hugsvalandi brjóst hennar, svo að
þér megið teiga og gæða yður við dýrðargnótt hennar. [12] Því að svo
segir Jahve: Sjá, eg veiti velsæld til hennar eins og fljóti, og auðæfum
þjóðanna eins og bakkafullum læk, og þér skuluð sjúga. Þér skuluð
bornir verða á mjöðminni og yður skal hossað verða á hnjánum. [13] Eins
og móðir huggar son sinn, eins mun eg hugga yður; í Jerúsalem skul-
uð þér huggaðir verða. [14] Og þér munuð sjá það, og hjarta yðar mun
fagna og bein yðar þróast sem grængresi; þá mun hönd Jahve kunn
verða á þjónum hans, og þá mun hann láta óvini sína kenna á reiði
sinni. [15] Því sjá, Jahve kemur í eldi, og vagnar hans eru sem vind-
bylur, til þess að gjalda reiði sína í heift og hótun sína í eldslogum.
[16] Því að Jahve mun dóm heyja með eldi, og með sverði sínu yfir öllu
holdi, og þeir munu margir verða, er Jahve fellir. [17] Þeir sem helga
sig og hreinsa sig til þess að fara inn í lundana, bak við þann eina,
sem fyrir miðju er; sem eta svínakjöt, viðurstyggileg skriðdýr og mýs
— þeir skulu allir undir lok líða, segir Jahve. [18] En eg þekki athafnir
þeirra og hugsanir. Sá tími kemur, að eg mun saman safna öllum
þjóðum og tungum, og þær skulu koma og sjá mína dýrð. [19] Og eg
mun gjöra tákn á þeim og senda flóttamenn frá þeim til þjóðanna, til

---

25: kap. 11, 6 n. — 66, 1: 1 Kong. 8, 27. Matt. 5, 34. 35. Post. 7, 49; 17, 24. 2:
Sálm. 34, 19. Jes. 57, 15. 4: kap. 65, 12. 15: 2 Þess. 1, 8. 17: kap. 65, 3. 4.

Tarsis, Púl og Lúd, sem benda boga, til Túbal og Javan, til hinna
fjarlægu eylanda, sem ekki hafa neina fregn af mér og ekki hafa séð
dýrð mína, og þeir skulu kunngjöra dýrð mína meðal þjóðanna. [20] Og
þeir munu flytja alla bræður yðar heim frá öllum þjóðum sem fórnar-
gjöf Jahve til handa, á hestum og á vögnum, í burðarstólum, á múlum
og úlföldum, til míns heilaga fjalls, til Jerúsalem, segir Jahve, eins og
þegar Ísraelsmenn færa fórnargjafir í hreinum kerum til húss Jahve.
[21] Og af þeim mun eg einnig taka presta og Levíta, segir Jahve. [22] Því
að eins og hinn nýi himinn og hin nýja jörð, sem eg skapa, munu standa
stöðug fyrir mínu augliti, segir Jahve, eins mun afsprengi yðar og nafn
standa stöðugt. [23] Og á mánuði hverjum, tunglkomudaginn, og á viku
hverri, hvíldardaginn, skal alt hold koma, til þess að falla fram fyrir
mér, segir Jahve. [24] Og þeir munu ganga út og sjá hræ þeirra manna,
er rofið hafa trú við mig; því að ormur þeirra mun ekki deyja og eldur
þeirra ekki slokna, — og þeir munu viðurstygð vera öllu holdi.

---

# Jeremía.

1 Ræður Jeremía Hilkíasonar, er var einn af prestunum í Anatót í
Benjamínslandi; [2] en til hans kom orð Jahve á dögum Jósía Amóns-
sonar, konungs í Júda, á þrettánda ríkisári hans; [3] og það kom enn
fremur á dögum Jójakíms Jósíasonar, konungs í Júda, alt til ársloka
hins ellefta árs Zedekía Jósíasonar, konungs í Júda, alt til herleiðingar
Jerúsalembúa í fimta mánuðinum.

[4] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [5] Áður en eg mynd-
aði þig í móðurlífi, útvaldi eg þig, og áður en þú komst af móður-
kviði, helgaði eg þig; eg hefi ákvarðað þig til að vera spámann þjóð-
anna! [6] Þá sagði eg: Æ, drottinn Jahve! Sjá, eg kann ekki að tala,
því að eg er enn svo ungur. [7] En Jahve sagði við mig: Seg ekki: eg
er enn svo ungur! heldur skalt þú fara til allra, sem eg sendi þig til,
og tala alt það, er eg býð þér. [8] Þú skalt ekki óttast þá, því að eg er
með þér, til þess að frelsa þig! — segir Jahve. [9] Því næst rétti Jahve
út hönd sína og snart munn minn. Og Jahve sagði við mig: Sjá, eg
legg orð mín þér í munn; [10] sjá þú, eg set þig í dag yfir þjóðirnar og
yfir konungsríkin, til þess að uppræta og umturna, eyða og rífa niður,
byggja og gróðursetja!

[11] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: Hvað sér þú, Jere-
mía? Eg svaraði: Eg sé möndluviðargrein. [12] En Jahve sagði við mig:
Þú hefir séð rétt, því að eg vaki yfir orði mínu, til þess að fram-
kvæma það.

[13] Þá kom orð Jahve til mín annað sinn, svo hljóðandi: Hvað
sér þú? Eg svaraði: Eg sé sjóðandi pott, og snýr hann framhliðinni
að oss úr norðri. [14] Þá sagði Jahve við mig: Úr norðri mun ógæfan
koma sjóðandi yfir alla íbúa landsins. [15] Því sjá, eg kalla allar ætt-

---

**20:** kap. 49, 22. **21:** 1 Pét. 2, 9. **22:** kap. 65, 17. **23:** Sak. 14, 16. **24:** Mark. 9, 48. — **1, 1:** Jós. 21, 18. **3:** 2 Kong. 23, 34; 25, 8. 11. **8:** kap. 15, 20. Esek. 3, 9. **9:** Jes. 6, 7. **10:** kap. 18, 7; 31, 28. **14:** kap. 4, 6; 6, 22; 25, 9.

kvíslir ríkjanna í norðri — Jahve segir það —, til þess að þeir komi
og reisi hver og einn upp hásæti sitt úti fyrir hliðum Jerúsalem og
gegn öllum múrum hennar hringinn í kring og gegn öllum borgum í
Júda. 16 Og eg mun kveða upp dóma mína yfir þeim, vegna allrar
ilsku þeirra, að þeir hafa yfirgefið mig og fært öðrum guðum reykelsis-
fórnir og fallið fram fyrir handaverkum sínum. 17 En gyrð þú lendar
þínar, statt upp og tala til þeirra alt, sem eg býð þér. Vertu ekki
hræddur við þá, til þess að eg gjöri þig ekki hræddan frammi fyrir
þeim. 18 Sjá, eg gjöri þig í dag að rammbygðri borg og að járnsúlu
og að eirveggjum gegn öllu landinu, gegn Júdakonungunum, gegn höfð-
ingjum þess, gegn prestum þess og gegn öllum landslýðnum, — 19 og
þótt þeir berjist gegn þér, þá munu þeir eigi fá yfirstigið þig, því að
eg er með þér — Jahve segir það —, til þess að frelsa þig.

---

2 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Far og kunngjör
Jerúsalem þetta: Svo segir Jahve: Eg man eftir kærleika æsku
þinnar, elsku festartíma þíns, hversu þú fylgdir mér í eyðimörkinni, í
ófrjóu landi. 3 Ísrael var helgaður Jahve, frumgróði uppskeru hans;
allir þeir, sem vildu eta hann, urðu sekir; ógæfa kom yfir þá, — segir
Jahve. 4 Heyrið orð Jahve, Jakobs hús og allar þér ættkvíslir Ísraels
húss! 5 Svo segir Jahve: Hver rangindi hafa feður yðar fundið hjá mér,
að þeir hurfu frá mér og eltu fánýt goð og breyttu heimskulega, 6 og
sögðu ekki: Hvar er Jahve, sem flutti oss burt af Egiptalandi, sem
leiddi oss um eyðimörkina, um heiða- og gjótulandið, um þurra og
niðdimma landið, um landið, sem enginn fer um og enginn maður býr
í? 7 Og eg leiddi yður inn í aldingarðslandið, til þess að þér nytuð
ávaxta þess og gæða; en þegar þér voruð komnir þangað, saurguðuð
þér land mitt og gjörðuð óðal mitt að viðurstygð. 8 Prestarnir sögðu
ekki: Hvar er Jahve? og þeir, er við lögmálið fengust, þektu mig ekki,
og hirðarnir rufu trúnað við mig; og spámennirnir spáðu í nafni Baals
og eltu þá, sem ekki geta hjálpað. 9 Fyrir því mun eg enn þreyta mál
við yður — segir Jahve — og við sonasonu yðar mun eg þreyta mál;
10 því farið yfir til stranda Kitta og gangið úr skugga um og sendið til
Kedars og hyggið vandlega að og gangið úr skugga um, hvort slíkt
hafi nokkurn tíma við borið! 11 hvort nokkur þjóð hafi skift um guð
— og þeir eru ekki guðir. En mín þjóð hefir látið vegsemd sína fyrir
það, sem ekki getur hjálpað. 12 Furðið yður, himnar, á þessu og skelf-
ist og verið agndofa — segir Jahve. 13 Því að tvent ilt hefir þjóð mín
aðhafst: þeir hafa yfirgefið mig, uppsprettu hins lifandi vatns, til þess
að grafa sér brunna, brunna með sprungum, sem ekki halda vatni.

14 Er Ísrael þræll, eða er hann heimafætt þý? Hví er hann orðinn
að herfangi? 15 Ljón grenjuðu móti honum, hófu upp öskur sitt og
gjörðu land hans að auðn; borgir hans voru brendar, urðu mannauðar.
16 Nóf-menn og Tahpanes-menn reyttu á þér skallann. 17 Hefir þú ekki
bakað þér þetta með því að yfirgefa Jahve, Guð þinn, þá er hann
leiddi þig á veginum? 18 Og nú, hvað þarft þú að fara til Egiptalands,
til þess að drekka vatn úr Níl? Og hvað þarft þú að fara til Assýríu,
til þess að drekka vatn úr Evfrat? 19 Vonzka þín mun aga þig og frá-
hvarf þitt refsa þér; þá skalt þú fá að kenna á því og reyna það, hve
ilt og beiskt það er, að þú yfirgafst Jahve, Guð þinn, og hafðir ekki

---

**18:** kap. 15, 20. — **2, 3:** Jak. 1, 18. **5:** 2 Kong. 17, 15. **6:** 5 Mós. 32, 10. **9:**
2 Mós. 20, 5. **11:** Sálm. 106, 20. **13:** kap. 17, 13. Sálm. 36, 10. **14:** 2 Mós. 4, 22.
**15:** Jes. 5, 29. **17:** kap. 4, 18.

ótta fyrir mér, — drottinn, Jahve hersveitanna, segir það. [20] Því að
fyrir löngu hefir þú sundurbrotið ok þitt, slitið böndin og sagt: Eg vil
ekki þjóna! Því að á hverjum háum hól og undir hverju grænu tré
lagðist þú niður og hóraðist. [21] En eg hafði gróðursett þig sem gæða-
vínvið, eintómt úrvalssæði; hvernig gaztu breyzt fyrir mér í villivínviðar-
teinunga? [22] Já, þótt þú þvægir þér með lút og brúkaðir mikla sápu á
þig, þá verður samt misgjörð þín óhrein fyrir mér, — drottinn Jahve
segir það. [23] Hvernig getur þú sagt: Eg hefi ekki saurgað mig, eg hefi
ekki elt Baalana? Hygg að athæfi þínu í dalnum, sjá, hvað þú hefir
gjört, léttfætta úlfaldahryssa, sem hleypur til og frá. [24] Eins og villi-
asna, sem vön er eyðimörkinni, stendur hún á öndinni í girndarbruna
sínum, — hver fær aftrað losta hennar? Þeir, sem hennar leita, þurfa
engir að þreyta sig; þeir finna hana í mánuði hennar. [25] Varðveit þú
fót þinn, svo að skórinn fari ekki af honum, og háls þinn, svo að hann
verði ekki þurr! — En þú segir: Það er til einskis! Nei! því að eg
elska hina útlendu og þá vil eg elta. [26] Eins og þjófurinn má skamm-
ast sín, þegar hann er staðinn að verkinu, svo má Ísraels hús skamm-
ast sín: þeir, konungar þeirra, höfðingjar þeirra, prestar þeirra og spá-
menn þeirra, [27] þeir sem segja við trédrumb: þú ert faðir minn! og
við stein: þú hefir fætt mig! Því að þeir hafa snúið við mér bakinu,
en ekki andlitinu; en þegar þeir eru í nauðum staddir, þá hrópa þeir:
Rís upp og hjálpa oss! [28] Og hvar eru guðir þínir, sem þú hefir gjört
þér? Þeir verða að rísa upp, ef þeir geta hjálpað þér, þegar þú ert
í nauðum staddur! Því að guðir þínir, Júda, eru orðnir eins margir
og borgir þínar. [29] Hví þráttið þér við mig? Þér hafið allir rofið trúnað
við mig — segir Jahve. [30] Til einskis hefi eg slegið sonu yðar, aga
þýddust þér ekki; sverð yðar tortímdi spámönnum yðar, eins og eyð-
andi ljón. [31] Þú kynslóð, gefið þér gaum orði Jahve! Hefi eg verið
eyðimörk fyrir Ísrael eða niðdimt land? Hví segir þá þjóð mín: Vér
erum lausir, vér munum ekki koma aftur til þín! [32] Mun mær gleyma
skarti sínu, brúður belti sínu? Og þó hefir þjóð mín gleymt mér afar-
langan tíma. [33] Hversu haganlega fer þú að ráði þínu, til þess að leita
þér ástar! Til þess hefir þú jafnvel vanið þig á glæpa-atferli. [34] Jafn-
vel á faldi klæða þinna sést blóð saklausra aumingja; þú stóðst þá
eigi að innbroti, heldur var það vegna alls þessa. [35] Og þó segir þú:
Eg er saklaus; vissulega hefir reiði hans snúist frá mér. Sjá, nú dreg
eg þig fyrir dóm, af því að þú segir: Eg hefi ekki syndgað. [36] Hví
flýtir þú þér svo mjög burt, til þess að halda aðra leið? Vonir þínar
um Egiptaland munu og bregðast, eins og vonir þínar um Assúr brugð-
ust; [37] einnig þaðan munt þú koma, sláandi höndum saman yfir höfði
þér; því að Jahve hefir hafnað þeim, er þú treystir á, og þér mun
ekkert lánast með þá.

3 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: Þegar maður rekur
frá sér konu sína, og hún fer frá honum og giftist öðrum manni,
getur hann þá horfið til hennar aftur? Mundi landið ekki vanhelgast
af því? En þú hefir drýgt hór með mörgum friðlum og ættir þó að
snúa aftur til mín? — segir Jahve. [2] Renn augum þínum upp á skóg-
lausu hæðirnar og gæt að: hvar hefir þú eigi verið svívirt? Við vegina
situr þú um þá, eins og Arabi í eyðimörkinni, og vanhelgar landið
með lauslæti þínu og vonzku þinni. [3] Og þótt skúrunum væri haldið
aftur og ekkert vorregn kæmi, þá varst þú með hórusvip; þú vildir
ekki skammast þín. [4] En nú kallar þú til mín: Faðir minn! þú ert

**20:** Jes. 57, 5. **21:** Sálm. 80, 9 n. Jes. 5, 1 n. **23:** kap. 7, 31. **27:** Dóm. 10,7—10.
**28:** 5 Mós. 32, 37. 38. Dóm. 10, 14. Jer. 11, 13. **30:** kap. 5, 3. **34:** 2 Mós. 22, 2.
**37:** 2 Sam. 13, 19. — **3, 1:** 5 Mós. 24, 1—4.

unnusti æsku minnar! 5 Mun hann verða reiður eilíflega, alt af erfa
það? Sjá, þannig talar þú, en fremur ilt og getur fengið það af þér.
6 Og Jahve sagði við mig á dögum Jósía konungs: Hefir þú séð,
hvað hin fráhverfa, Ísrael, hefir aðhafst? Hún fór upp á hverja háa
hæð og inn undir hvert grænt tré og hóraðist þar. 7 Eg hugsaði raun-
ar: Eftir að hún hefir aðhafst alt þetta, mun hún snúa aftur til mín;
en hún sneri ekki aftur. Það sá hin ótrúa, systir hennar Júda; 8 og
þótt hún sæi, að einmitt vegna þess, að hin fráhverfa, Ísrael, hafði
drýgt hór, hafði eg rekið hana burt og gefið henni skilnaðarskrá, þá
óttaðist ekki hin ótrúa, systir hennar Júda, heldur fór og drýgði líka
hór; 9 og með hinu léttúðarfulla lauslæti sínu vanhelgaði hún landið og
drýgði hór með steini og trédrumbi. 10 En þrátt fyrir alt þetta hefir
hin ótrúa, systir hennar Júda, eigi snúið sér til mín af öllu hjarta,
heldur með hræsni — segir Jahve.
11 Og Jahve sagði við mig: Hin fráhverfa, Ísrael, er saklaus í sam-
anburði við hina ótrúu, Júda. 12 Far þú og kalla þessi orð í norður-
átt og seg: Hverf aftur, þú hin fráhverfa, Ísrael — segir Jahve —, eg
vil ekki lengur líta reiðulega til yðar, því að eg er miskunnsamur —
segir Jahve —, eg er ekki eilíflega reiður. 13 Kannastu aðeins við ávirðing
þína, að þú hefir rofið trúnað við Jahve, Guð þinn, og hlaupið ýmsar
leiðir til þess að gefa þig á vald þeim útlendu undir hverju grænu tré,
en minni raust hafið þér ekki hlýtt — segir Jahve.
14 Hverfið aftur, þér fráhorfnu synir — segir Jahve —, því að eg
er herra yðar. Og eg vil taka yður, einn úr hverri borg og tvo af
hverjum kynstofni, og flytja yður til Zíon; 15 og eg vil gefa yður hirða
eftir mínu hjarta, og þeir munu gæta yðar með greind og hyggindum.
16 Og þegar þér fjölgið og verðið frjósamir í landinu á þeim dögum —
segir Jahve —, þá munu menn eigi framar segja: Sáttmálsörk Jahve!
og hún mun engum í hug koma, og þeir munu ekki minnast hennar
né sakna hennar, né heldur munu menn framar búa aðra til; 17 þá
munu menn kalla Jerúsalem »hásæti Jahve« og allar þjóðir munu safn-
ast þangað vegna nafns Jahve og eigi framar fara eftir þrózku síns
vonda hjarta. 18 Á þeim dögum mun Júda hús ganga til Ísraels húss,
og þeir munu halda saman úr landinu norður frá inn í landið, sem eg
gaf feðrum yðar til eignar.
19 En eg hafði hugsað: Hversu hátt vil eg setja þig meðal barn-
anna og gefa þér unaðslegt land, hina dýrlegustu arfleifð meðal allra
þjóða! Og enn fremur hugsaði eg: þér skuluð nefna mig föður og eigi
láta af að fylgja mér. 20 En eins og kona verður ótrú elskhuga sínum,
eins urðuð þér ótrúir mér, Ísraels hús, — segir Jahve. 21 Hljóð heyrist
á skóglausu hæðunum: grátbiðjandi kvein Ísraelsmanna, af því að þeir
hafa breytt illa og gleymt Jahve, Guði sínum. 22 Hverfið aftur, þér frá-
horfnu synir; eg vil lækna fráhvarfssyndir yðar! — Hér erum vér, vér
komum til þín, því að þú ert Jahve, Guð vor. 23 Vissulega er hávaðinn
á hæðunum svikull. Vissulega er hjálp Ísraels hjá Jahve, Guði vorum.
24 Svívirðingin* hefir eytt afla feðra vorra alt frá æsku vorri, sauðum
þeirra og nautum, sonum þeirra og dætrum. 25 Vér viljum leggjast nið-
ur í smán vorri, og skömm vor hylji oss; því að á móti Jahve, Guði
vorum, höfum vér syndgað, bæði vér og feður vorir, frá æsku vorri og
alt fram á þennan dag, og höfum eigi hlýtt raustu Jahve, Guðs vors.
4 Þegar þú hverfur aftur, Ísrael — segir Jahve —, hverfur aftur til
mín og flytur viðurstygðir þínar burt frá augliti mínu og ert ekki
framar á sveimi, 2 þá munt þú sverja »svo sannarlega sem Jahve lifir«

---

5: Sálm. 103, 9. 6: kap. 2, 20. 8: 2 Kong. 17, 18. 11: Esek. 16, 51. 52. 14: Jes.
54, 5. 15: kap. 23, 4. 17: Jes. 2, 2 n. 23: Sálm. 3, 9. 24: * Þ. e. falsguðinn.

í sannleika, réttvísi og einlægni, og þjóðir munu óska sér hans bless-
unar og hrósa sér af honum.
[3] Já, svo segir Jahve við Júdamenn og við Jerúsalem: Takið nýtt
land til yrkingar og sáið ekki ofan í þyrna! [4] Umskerið yður fyrir Jahve
og takið burt yfirhúð hjarta yðvars, þér Júdamenn og Jerúsalembúar,
svo að heiftarreiði mín brjótist ekki út, eins og eldur, og brenni svo,
að eigi verði slökt, sakir vonzku verka yðvarra.

[5] Kunngjörið í Júda og boðið í Jerúsalem og segið: Þeytið lúður
í landinu! Kallið fullum rómi og segið: Safnist saman, og förum inn
í víggirtu borgirnar! [6] Reisið upp hermerki í áttina til Zíonar, flýið
undan, standið eigi við! Því að eg kem með ógæfu úr norðri og mikla
eyðing. [7] Ljón er risið upp úr runni sínum, þjóða-eyðir lagður af
stað, farinn að heiman, til þess að gjöra land þitt að auðn; borgir þínar
verða gjöreyddar, mannlausar. [8] Gyrðið yður því hærusekk, harmið og
kveinið, því að hin brennandi reiði Jahve hefir ekki snúið sér frá oss.
[9] En á þeim degi — segir Jahve — mun konungurinn og höfð-
ingjarnir standa ráðalausir, prestarnir verða agndofa og spámennirnir
skelfast.
[10] Þá mælti eg: Æ, drottinn Jahve! Vissulega hefir þú illa svikið
þessa þjóð og Jerúsalem, þá er þú sagðir: Yður mun heill hlotnast!
þar sem sverðið gengur nú mjög nærri þeim.
[11] Þá mun sagt verða um þessa þjóð og um Jerúsalem: Glóandi
vindur á skóglausum hæðum í eyðimörkinni er atferli þjóðar minnar
— sem hvorki verður notaður til að kasta úr eða hreinsa! [12] Ákafur
vindur kemur í móti mér frá þeim; en nú vil eg einnig kveða upp dóma
gegn þeim. [13] Sjá, eins og ský þýtur hann áfram og vagnar hans eru
eins og vindbylur; hestar hans eru fljótari en ernir. Vei oss, það er
úti um oss!
[14] Þvo ilskuna af hjarta þínu, Jerúsalem, til þess að þú frelsist;
hversu lengi eiga þínar syndsamlegu hugsanir að búa í brjósti þér?
[15] Því heyr, menn segja tíðindi frá Dan og boða ógæfu frá Efraímfjöll-
um. [16] Segið þjóðunum frá því, kallið á þær gegn Jerúsalem! Umsát-
ursmenn koma úr fjarlægu landi og hefja óp gegn Júdaborgum; [17] eins
og akurverðir sitja þeir hringinn í kring um hana, af því að hún hefir
þrjózkast í gegn mér, — segir Jahve. [18] Atferli þitt og gjörðir þínar
hafa bakað þér þetta; þetta hefir þú fyrir ilsku þína; já, beiskt er það,
það gengur mjög nærri þér.
[19] Iður mín! iður mín! Eg engist sundur og saman! Ó, veggir hjarta
míns! Hjartað berst ákaft í brjósti mér, eg get ekki þagað! Því að
önd mín heyrir lúðurhljóminn, bardagaópið. [20] Hrun á hrun ofan
er boðað, já alt landið er eytt; skyndilega eru tjöld mín eydd, tjalddúk-
ar mínir alt í einu. [21] Hversu lengi á eg að sjá gunnfána, hversu lengi á
eg að heyra lúðurhljóm? [22] Já, fíflsk er þjóð mín, mig þekkja þeir
ekki; heimskir synir eru þeir og vanhygnir eru þeir. Vitmenn eru þeir
ilt að fremja, en gott að gjöra kunna þeir ekki. [23] Eg leit á jörðina,
og sjá: hún var auð og tóm, og upp til himins, og ljós hans var slokn-
að. [24] Eg leit á fjöllin, og sjá: þau nötruðu, og allar hæðirnar, þær
bifuðust. [25] Eg litaðist um, og sjá, þar var enginn maður, og allir fugl-
ar himinsins voru flúnir. [26] Eg litaðist um og sjá: aldingarðurinn var
orðinn að eyðimörk og allar borgir hans gjöreyddar, af völdum Jahve,
af völdum hans brennandi reiði.

---

**4, 2:** 5 Mós. 6, 13. Jes. 65, 16. **3:** Hós. 10, 12. Matt. 13, 7. 22. **4:** 5 Mós. 10, 16. Jer. 21, 12. **5:** Hós. 5, 8. Jóel 2, 1. Jer. 8, 14. **7:** kap. 5, 6. **8:** kap. 6, 26. **13:** Jes. 5, 28. **14:** Jes. 1, 16. **17:** kap. 6, 3. **18:** kap. 2, 19. **22:** Jes. 1, 3. Róm. 16, 19. **23:** 1 Mós. 1, 2. **24:** Nah. 1, 5. **25:** Zef. 1, 2 n.

27 Því að svo segir Jahve: Auðn skal alt landið verða, en aleyðing
á þeim vil eg ekki gjöra. 28 Vegna þessa syrgir jörðin og himininn uppi
er dimmur, af því að eg hefi sagt það, og mig iðrar þess eigi, hefi á-
kveðið það og hætti ekki við það. 29 Fyrir harki riddaranna og bog-
mannanna er hver borg á flótta; menn skríða inn í runna og stíga
upp á kletta; allar borgir eru yfirgefnar og enginn maður býr framar í
þeim. 30 En þú, eyðingunni ofurseld, hvað ætlar þú að gjöra? Þótt þú
klæðist skarlati, þótt þú skreytir þig með gull-skarti, þótt þú smyrjir
augu þín blýlit, til einskis gjörir þú þig fagra; friðlarnir hafna þér,
þeir sitja um líf þitt. 31 Já, hljóð heyri eg, eins og í jóðsjúkri konu,
angistaróp, eins og í konu, sem er að ala fyrsta barnið, óp dótturinnar
Zíonar, sem stendur á öndinni af kvölum og breiðir út hendurnar: ó,
vei mér, því að örmagna hnígur sál mín fyrir morðingjum.
5 Gangið fram og aftur um stræti Jerúsalem, litist um og rann-
sakið og leitið á torgunum, hvort þér finnið nokkurn mann, hvort
þar sé nokkur, sem gjörir það sem rétt er og leitast við að sýna trú-
mensku, og mun eg fyrirgefa henni. 2 Og þótt þeir segi »svo sannar-
lega sem Jahve lifir«, sverja þeir engu að síður meinsæri. 3 En, Jahve,
líta ekki augu þín á trúfesti? Þú laust þá, en þeir kendu ekkert til;
þú eyddir þeim, en þeir vildu ekki taka aga. Þeir gjörðu andlit sín
harðari en stein, þeir vildu ekki snúa við. 4 En eg hugsaði: Það eru
aðeins hinir lítilmótlegu; þeir breyta heimskulega, af því að þeir þekkja
ekki veg Jahve, réttindi Guðs síns. 5 Eg ætla að fara til stórmennanna
og tala við þá; því að þeir þekkja veg Jahve, réttindi Guðs síns. En
einmitt þeir höfðu allir saman brotið sundur okið og slitið af sér bönd-
in. 6 Fyrir því drepur þá ljón úr skóginum, fyrir því eyðir þeim úlf-
urinn, sem hefst við á heiðunum, pardusdýrið situr um borgir þeirra,
svo að hver sá, er út úr þeim fer, verður rifinn sundur; því að afbrot
þeirra eru mörg, fráhvarfssyndir þeirra miklar. 7 Hví skyldi eg fyrir-
gefa þér? Börn þín hafa yfirgefið mig og svarið við þá, sem ekki eru
guðir, og þótt eg mettaði þá, tóku þeir fram hjá og þyrptust að hóru-
húsinu. 8 Eins og sællegir stóðhestar hlaupa þeir til og frá og hvía
hver að annars konu. 9 Ætti eg ekki að hegna slíkum mönnum? —segir
Jahve — eða hefna mín á annari eins þjóð og þessari?
10 Stígið upp á múra hennar og rífið niður, en gjörið þó ekki al-
eyðing; takið burt vínviðargreinar hennar, því að þær heyra ekki Jahve.
11 Því að Ísraels hús og Júda hús hafa breytt mjög sviksamlega gegn
mér — segir Jahve. 12 Þeir hafa afneitað Jahve og sagt: Það er ekki
hann, og engin ógæfa mun yfir oss koma, sverð og hungur munum
vér ekki sjá. 13 Spámennirnir munu verða að vindi, því að enginn
talar fyrir munn þeirra; fari svo fyrir þeim sjálfum!
14 Fyrir því mælir Jahve, Guð hersveitanna, svo: Af því að þér
hafið mælt slíkum orðum, þá gjöri eg orð mín í munni þínum að eldi
og þessa þjóð að eldiviði, til þess að hann eyði þeim. 15 Sjá, eg læt
þjóð koma yfir yður úr fjarlægu landi, Ísraels hús — segir Jahve —,
það er óbilug þjóð, það er æfargömul þjóð; tungu þeirrar þjóðar þekk-
ir þú ekki, og skilur ekki, hvað hún segir. 16 Örvamælir hennar er
sem opin gröf, allir eru þeir kappar. 17 Hún mun eta uppskeru þína
og neyzlukorn þitt; þeir munu eta sonu þína og dætur; hún mun eta
sauði þína og naut; hún mun eta víntré þín og fíkjutré; hún mun
brjóta niður með sverði hinar víggirtu borgir þínar, er þú reiðir þig á.
18 En þó mun eg ekki á þeim dögum — segir Jahve — gjöra aleyðing

**27:** kap. 5, 10. 18; 30, 11; 46, 28. **30:** 2 Kong. 9, 30. Esek. 23, 22 n. **31:** kap. 6, 24. — **5, 1:** 1 Mós. 18, 23 n. **3:** kap. 2, 30. **5:** Sálm. 2, 3. **6:** kap. 4, 7. Hós. 13, 7. **7:** 5 Mós. 32, 15. **9:** v. 29; kap. 9, 9. **10:** kap. 4, 27. **15:** 5 Mós. 28, 49. Jes. 33, 19. **18:** kap. 4, 27.

á yður. [19] En ef þér þá segið: Fyrir hvað gjörir Jahve, Guð vor, oss
alt þetta? þá skalt þú segja við þá: Eins og þér hafið yfirgefið mig og
þjónað öðrum guðum í yðar landi, svo skuluð þér verða annarra þrælar
í landi, sem ekki er yðar land.
[20] Kunngjörið það í húsi Jakobs og boðið það í Júda: [21] Heyr
þetta, þú heimski og skilningslausi lýður, þér sem hafið augu, en sjáið
ekki, þér sem hafið eyru, en heyrið ekki! [22] Mig viljið þér ekki óttast
— segir Jahve — eða skjálfa fyrir mínu augliti? fyrir mér, sem hefi
sett hafinu fjörusandinn að takmarki, ævarandi girðingu, sem það kemst
ekki yfir. Og þótt öldur þess komi æðandi, þá vinna þær ekki á, og
þótt þær gnýi, þá komast þær ekki yfir hana. [23] En lýður þessi er
þverúðarfullur og þrjózkur í hjarta; þeir hafa vikið af leið og horfið
burt, [24] en sögðu ekki í hjarta sínu: Óttumst Jahve, Guð vorn, sem
gefur regnið, haustregnið og vorregnið, í réttan tíma og viðheldur handa
oss ákveðnum uppskeruvikum. [25] Misgjörðir yðar hafa fært alt þetta
úr skorðum og syndir yðar hafa hrundið blessuninni burt frá yður.
[26] Því að meðal lýðs míns eru óguðlegir menn; þeir liggja í fyrirsát,
eins og þegar fuglarar húka; þeir leggja snörur, til þess að veiða menn.
[27] Eins og fuglabúr fult af fuglum, svo eru hús þeirra full af svikum;
á þann hátt eru þeir orðnir miklir og auðugir. [28] Þeir eru orðnir feitir,
það stirnir á þá. Þeir eru og fleytifullir af ilskutali; málefni munaðar-
leysingjans, það taka þeir ekki að sér, til þess að bera það fram til
sigurs, og þeir reka ekki réttar fátæklinganna. [29] Ætti eg ekki að hegna
slíkum mönnum? — segir Jahve — eða hefna mín á annari eins þjóð
og þessari? [30] Óttalegt og hryllilegt er það, sem við ber í landinu!
[31] Spámennirnir kenna lygar og prestarnir drotna eftir tilsögn þeirra og
þjóð minni þykir fara vel á því. En hvað ætlið þér að gjöra, þegar
að skuldadögunum kemur?
6 Flýið, Benjamínítar, út úr Jerúsalem og þeytið lúður í Tekóa og
reisið upp merki í Betkerem; því að ógæfa vofir yfir úr norðurátt
og mikil eyðing. [2] Hin fagra og fínláta — eg tortími dótturinni Zíon.
[3] Til hennar koma hirðar með hjarðir sínar, slá tjöldum hringinn í
kring um hana, hver beitir sitt svæði. [4] Vígið yður til bardaga móti
henni! Standið upp, og gjörum áhlaup um hádegið. Vei oss, því að
degi hallar og kveldskuggarnir lengjast. [5] Standið upp og gjörum á-
hlaup á næturþeli og rífum niður hallir hennar! [6] Því að svo segir
Jahve hersveitanna: Fellið tré hennar og hlaðið virkisvegg gegn Jerú-
salem. Það er borgin, sem hegna á. Undirokun ríkir alstaðar í henni.
[7] Því eins og vatnsþróin heldur vatninu fersku, þannig heldur hún ilsku
sinni ferskri. Ofbeldi og kúgun heyrist í henni; frammi fyrir augliti
mínu er stöðuglega þjáning og misþyrming. [8] Lát þér segjast, Jerú-
salem, til þess að sál mín slíti sig ekki frá þér, til þess að eg gjöri
þig ekki að auðn, að óbygðu landi. [9] Svo segir Jahve hersveitanna:
Menn munu gjöra nákvæma eftirleit á leifum Ísraels, eins og gjört er
á vínviði, með því að rétta æ af nýju höndina upp að vínviðargrein-
unum, eins og vínlestursmaðurinn gjörir.
[10] Við hvern á eg að tala og hvern á eg að gjöra varan við, svo að þeir
heyri? Sjá, eyra þeirra er óumskorið, svo að þeir geta ekki tekið eftir.
Já, orð Jahve er orðið þeim að háði, þeir hafa engar mætur á því.
[11] En eg er fullur af heiftarreiði Jahve; eg er orðinn uppgefinn að halda
henni niðri í mér. Heltu henni þá út yfir börnin á götunni og út yfir
allan unglingahópinn; því að karl sem kona munu hertekin verða,

---

**19:** kap. 16, 10 n. **21:** Jes. 6, 9. **22:** Job 38, 8. 11. **24:** 5 Mós. 11, 14. Post. 14, 17.
**25:** kap. 3, 3. **28:** Jes. 1, 23. Jer. 7, 6. **29:** v. 9. **30:** kap. 23, 14. — **6, 1:** kap.
1, 13 n. **3:** kap. 4, 17. **7:** Sálm. 55, 10. **10:** Post. 7, 51.

aldraðir jafnt sem háaldraðir. [12] En hús þeirra munu verða annarra
eign, akrar og konur hvað með öðru; því að eg rétti hönd mína út
gegn íbúum landsins — segir Jahve. [13] Því að bæði ungir og gamlir,
allir eru þeir fíknir í rangfenginn gróða, og bæði spámenn og prestar,
allir hafa þeir svik í frammi. [14] Þeir hyggjast að lækna áfall þjóðar
minnar með hægu móti, segjandi: Heill, heill! þar sem engin heill er.
[15] Þeir munu hljóta að skammast sín fyrir að hafa framið svívirðing!
En þeir skammast sín ekki og vita ekki hvað það er, að blygðast sín.
Fyrir því munu þeir falla meðal þeirra, sem falla; þegar minn tími
kemur að hegna þeim, munu þeir steypast, segir Jahve.
[16] Svo mælti Jahve: Nemið staðar við vegina og litist um og
spyrjið um gömlu göturnar, hver sé hamingjuleiðin, og farið hana,
svo að þér finnið sálum yðar hvíld. En þeir sögðu: Vér viljum ekki
fara hana. [17] Þá setti eg varðmenn gegn yður: Takið eftir lúðurhljóm-
inum! En þeir sögðu: Vér viljum ekki taka eftir honum. [18] Heyrið
því, þjóðir, og sjá þú, söfnuður, hvað í þeim býr. [19] Heyr það, jörð:
sjá, eg leiði ógæfu yfir þessa þjóð, ávöxinn af ráðabruggi þeirra; því
að orðum mínum hafa þeir engan gaum gefið og leiðbeining minni
hafa þeir hafnað. [20] Hvað skal mér reykelsi, sem kemur frá Saba, og
hinn dýri reyr úr fjarlægu landi? Brennifórnir yðar eru mér eigi
þóknanlegar og sláturfórnir yðar geðjast mér eigi. [21] Fyrir því segir
Jahve svo: Sjá, eg legg fótakefli fyrir þessa þjóð, til þess að um þau
hrasi bæði feður og synir, hver nábúinn farist með öðrum.
[22] Svo segir Jahve: Sjá, lýður kemur úr landi í norðurátt og mikil
þjóð rís upp á útkjálkum jarðar. [23] Þeir bera boga og skotspjót; þeir
eru grimmir og sýna enga miskunn; háreysti þeirra er sem hafgnýr, og
þeir ríða hestum, búnir sem hermenn til bardaga gegn þér, dóttir Zíon.
[24] Vér höfum fengið fregnir af honum; hendur vorar eru magnlausar,
angist hefir gripið oss, kvalir eins og jóðsjúka konu. [25] Farið ekki út
á bersvæði og gangið ekki um veginn, því að óvinurinn hefir sverð —
skelfing alt um kring. [26] Þjóð mín, gyrð þig hærusekk og velt þér í
ösku, stofna til sorgarhalds, eins og eftir einkason væri, beisklegs
harmakveins, því að skyndilega mun eyðandinn yfir oss koma.
[27] Eg hefi gjört þig að rannsakara hjá þjóð minni, til þess að þú
kynnir þér atferli þeirra og rannsakir það; [28] allir eru þeir svæsnir upp-
reistarmenn, rógberendur, tómur eir og járn, allir eru þeir spillingar-
menn. [29] Smiðjubelgurinn másaði, blýið átti að eyðast í eldinum; til
einskis hafa menn verið að bræða og bræða; hinir illu urðu ekki
skildir frá. [30] Ógilt silfur nefna menn þá, því að Jahve hefir felt þá
úr gildi.

---

7 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve, svo hljóðandi: [2] Nem
staðar við hlið musteris Jahve og boða þar þessi orð og seg: Heyr-
ið orð Jahve, allir Júdamenn, þér sem gangið inn um þetta hlið, til
þess að falla fram fyrir Jahve. [3] Svo segir Jahve hersveitanna, Guð Ís-
raels: Bætið breytni yðar og gjörðir; þá mun eg láta yður búa á þessum
stað. [4] Reiðið yður ekki á lygatal, er menn segja: Þetta er musteri Jahve,
musteri Jahve, musteri Jahve. [5] En ef þér bætið breytni yðar og gjörðir
alvarlega, ef þér iðkið réttlæti í þrætum manna á milli, [6] undirokið ekki
útlendinga, munaðarleysingja og ekkjur, og úthellið ekki saklausu blóði

---

**12:** kap. 8, 10 n. **13:** Jes. 56, 11. **14:** kap. 4, 10; 14, 13. Esek. 13, 10. Mík. 3, 5. **16:** Matt. 11, 29. **20:** Jes. 1, 11. Jer. 14, 12. Am. 5, 22. **22:** kap. 50, 41 n. **26:** kap. 4, 8. **27:** kap. 1, 18. **28:** kap. 5, 23. — **7, 2:** kap. 26, 2. **3:** kap. 18, 11; 26, 13. **5:** kap. 22, 3.

á þessum stað, og eltið ekki aðra guði — yður til tjóns, 7 þá vil eg
láta yður búa á þessum stað, í landinu, sem eg gaf feðrum yðar, frá
eilífð til eilífðar.
8 Sjá, þér reiðið yður á lygaræður, sem ekki eru til nokkurs gagns.
9 Er ekki svo: stela, myrða, drýgja hór, sverja meinsæri, færa Baal
reykelsisfórnir og elta aðra guði, er þér ekki þekkið? 10 Og síðan komið
þér og gangið fram fyrir mig í þessu húsi, sem kent er við nafn mitt,
og segið: Oss er borgið! til þess síðan af nýju að fremja allar þessar
svívirðingar. 11 Er þá hús þetta, sem kent er við nafn mitt, orðið að
ræningjabæli í augum yðar? Já, eg lít svo á — segir Jahve. 12 Farið
til bústaðar míns í Síló, þar sem eg forðum daga lét nafn mitt búa,
og sjáið, hvernig eg hefi farið með hann fyrir sakir ilsku lýðs míns
Ísraels. 13 Og þar eð þér nú hafið framið öll þessi verk — segir Jahve
— og eigi hlýtt, þótt eg hafi talað til yðar seint og snemma, og eigi
svarað, þótt eg hafi kallað á yður, 14 þá ætla eg að fara með húsið,
sem kent er við nafn mitt og þér treystið á, og staðinn, sem eg hefi
gefið yður og feðrum yðar, eins og eg fór með Síló, 15 og útskúfa yður
frá augliti mínu, eins og eg útskúfaði bræðrum yðar, öllum niðjum
Efraíms.
16 En þú skalt ekki biðja fyrir þessum lýð og ekki hefja þeirra
vegna grátbeiðni né fyrirbón, og legg ekki að mér, því að eg heyri þig
ekki. 17 Sér þú ekki hvað þeir hafast að í Júdaborgum og á strætum
Jerúsalem? 18 Börnin tína saman eldivið og feðurnir kveikja eldinn, en
konurnar hnoða deig, til þess að gjöra af fórnarkökur handa himna-
drotningunni og færa öðrum guðum dreypifórnir, til þess að skaprauna
mér. 19 En skaprauna þeir mér — segir Jahve —, hvort ekki miklu
fremur sjálfum sér, til þess að þeir verði sér herfilega til skammar?
20 Fyrir því segir drottinn Jahve svo: Reiði minni og heift mun úthelt
verða yfir þennan stað, yfir menn og skepnur, yfir tré merkurinnar og
yfir ávexti akurlendisins, — og hún skal brenna og eigi slokna.
21 Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Bætið brennifórnum
yðar við sláturfórnir yðar og etið kjöt. 22 Því að eg hefi ekkert talað
til feðra yðar né boðið þeim nokkuð, þá er eg leiddi þá burt af Egipta-
landi, um brennifórnir og sláturfórnir, 23 en þetta hefi eg boðið þeim:
Hlýðið minni raustu, þá skal eg vera yðar Guð og þér skuluð vera
mín þjóð, og gangið jafnan á þeim vegi, sem eg býð yður, til þess að
yður vegni vel. 24 En þeir heyrðu ekki og lögðu ekki við eyrun, en
fóru eftir vélráðum síns illa hjarta og sneru við mér bakinu, en ekki
andlitinu. 25 Frá þeim degi, er feður yðar fóru burt af Egiptalandi, og
fram á þennan dag hefi eg stöðugt dag eftir dag sent þjóna mína, spá-
mennina, til yðar, 26 en þeir heyrðu mig ekki og lögðu ekki við eyrun,
heldur gjörðust harðsvíraðir og breyttu enn ver en feður þeirra. 27 Og
þótt þú talir öll þessi orð til þeirra, munu þeir ekki hlýða á þig, og
þótt þú kallir til þeirra, munu þeir ekki svara þér. 28 Seg því við þá:
Þetta er þjóðin, sem eigi hlýðir raustu Jahve, Guðs síns, og engri um-
vöndun tekur; horfin er trúfestin, já, upprætt úr munni þeirra.

29 Sker af þér höfuðprýði þína og varpa henni frá þér og hef upp
harmakvein á skóglausu hæðunum; því að Jahve hefir hafnað og út-
skúfað þeirri kynslóð, sem hann reiddist. 30 Því að Júdamenn hafa
gjört það, sem ilt er í mínum augum — segir Jahve —, þeir hafa reist
upp viðurstygðir sínar í húsi því, sem kent er við nafn mitt, til

---

11: Jes. 56, 7. Matt. 21, 13. 12: 1 Sam. 4, 3. 11. 13: Orðskv. 1, 24 n. Jes. 65, 12.
15: 2 Kong. 17, 23. 16: kap. 11, 14; 14, 11. 18: kap. 44, 15 n. 23: 3 Mós. 26, 12.
28: kap. 16, 12. 30: 2 Kong. 21, 4. 5.

þess að saurga það, [31] og bygt Tófet-fórnarhæðir í Hinnomssonar-dal,
til þess að brenna sonu sína og dætur í eldi, sem eg hefi ekki boðið
og mér hefir ekki í hug komið. [32] Sjá, fyrir því munu þeir dagar koma
— segir Jahve —, að eigi mun framar verða talað um »Tófet« og
»Hinnomssonar-dal«, heldur um »Drápsdal«, og menn munu jarða í
Tófet vegna rúmleysis, [33] og lík þessa lýðs munu verða æti fyrir fugla
himinsins og dýr jarðarinnar, og enginn mun fæla þau burt. [34] Þá mun
eg láta öll ánægju- og gleðihljóð, öll fagnaðarlæti brúðguma og brúðar
hverfa burt úr Júdaborgum og af strætum Jerúsalem, því að landið
skal verða auðn.

8 Þá munu menn — segir Jahve — taka bein Júdakonunga og
bein Júdahöfðingja og bein prestanna og bein spámannanna og
bein Jerúsalembúa úr gröfum þeirra, [2] og breiða þau út á móti sólinni
og tunglinu og öllum her himinsins, er þeir elskuðu og þjónuðu og
eltu og gengu til frétta við og féllu fram fyrir; þeim verður ekki safn-
að saman og þau verða ekki grafin; þau skulu verða að áburði á akr-
inum. [3] Og allar leifarnar, þeir er eftir verða af þessari vondu kynslóð
á öllum þeim stöðum, þangað sem eg hefi rekið þá, munu heldur kjósa
dauða en líf — segir Jahve hersveitanna.

[4] Seg því við þá: Svo segir Jahve: Hvort falla menn og standa
ekki upp aftur? eða hverfa menn burt, án þess að hverfa aftur? [5] Hvers
vegna hefir þessi lýður horfið burt til ævarandi fráhvarfs? Þeir halda
fast við svikin og vilja ekki hverfa aftur. [6] Eg tók eftir og heyrði:
þeir tala ósannindi; enginn iðrast ilsku sinnar, svo að hann segi: Hvað
hefi eg gjört? Allir hafa þeir gjörst fráhverfir í rásinni, eins og hestur,
sem ryðst áfram í orustu. [7] Jafnvel storkurinn í loftinu þekkir sínar
ákveðnu tíðir, og turtildúfan og svalan og tranan gefa gætur að tíma
endurkomu sinnar, en lýður minn þekkir ekki rétt Jahve. [8] Hvernig
getið þér sagt: Vér erum vitrir og lögmál Jahve er hjá oss? Víst er
svo, en lygapenni fræðimannanna hefir breytt því í lygi. [9] Hinir
vitru verða til skammar, þeir skelfast og verða gripnir; sjá, þeir hafa
hafnað orði Jahve, hvaða vizku hafa þeir þá? [10] Fyrir því mun eg
selja konur þeirra öðrum á vald og sigurvegurunum lönd þeirra; því
að bæði ungir og gamlir, allir eru þeir fíknir í rangfenginn gróða, bæði
spámenn og prestar, allir hafa þeir svik í frammi; [11] þeir hyggjast að
lækna áfall þjóðar minnar með hægu móti, segjandi: Heill, heill! þar
sem engin heill er. [12] Þeir munu hljóta að skammast sín, fyrir að hafa
framið svívirðing! En þeir skammast sín ekki og vita ekki hvað það
er, að blygðast sín. Fyrir því munu þeir falla meðal þeirra, sem falla;
þegar minn tími kemur að hegna þeim, munu þeir steypast, segir Jahve.

[13] Eg vil hrífa þá burt — segir Jahve. Engin vínber eru á vín-
viðinum og engar fíkjur á fíkjutrénu, og laufið er fölnað. Vil eg því
selja þá þeim á vald, er þá munu uppeta. [14] »Til hvers sitjum vér hér
kyrrir? Safnist saman og höldum inn í víggirtu borgirnar og förumst
þar; því að Jahve, Guð vor, lætur oss farast og drykkjar oss með eit-
urvatni, af því að vér höfum syndgað á móti Jahve. [15] Menn vænta
hamingju, — en ekkert gott kemur; vænta lækningartíma — og sjá:
skelfing!« [16] Frá Dan heyrist frýsið í fákum hans og af hneggi hesta
hans nötrar alt landið, og þeir koma og eta upp landið og það, sem í
því er, borgina og íbúa hennar. [17] Sjá, eg sendi meðal yðar höggorma,
nöðrur, sem særingar vinna ekki á, og þeir skulu bíta yður — segir
Jahve.

---

**31:** 3 Mós. 18, 21. 5 Mós. 18, 10. 2 Kong. 23, 10. **34:** kap. 16, 9. Jes. 24, 8. —
**8, 7:** Jes. 1, 3. **9:** Job 5, 13. 1 Kor. 3, 19. **10:** kap. 6, 12 n. **13:** Matt. 21, 19.
**14:** kap. 4, 5; 9, 15; 23, 15. **15:** kap. 14, 19. **16:** kap. 4, 15. **17:** Sálm. 58, 5. 6.

[18] Ó hvað má hugsvala mér í harminum! Hjartað er sjúkt í mér.
[19] Heyr, kvein þjóðar minnar hljómar úr fjarlægu landi: Er Jahve ekki
í Zion? eða er konungur hennar ekki í henni? — »Hví egndu þeir mig
til reiði með skurðmyndum sínum, með fánýtum, útlendum goðum«.
— [20] Uppskeran er liðin, aldinskurðurinn á enda, en vér höfum eigi
hlotið hjálp.
[21] Ég er helsærður af helsári þjóðar minnar, eg geng í sorgarbún-
ingi, skelfing hefir gripið mig. [22] Eru þá engin smyrsl í Gíleað, eða
er þar enginn læknir? Hví er engin hyldgan komin á sár þjóðar minn-
9 ar? [1] Ó að höfuð mitt væri vatn og augu mín táralind, þá skyldi
eg gráta daga og nætur þá, er fallið hafa af þjóð minni.
[2] Ó að eg hefði sæluhús í eyðimörkinni, þá skyldi eg yfirgefa
þjóð mína og fara burt frá þeim, því að allir eru þeir hórdómsmenn,
flokkur svikara. [3] Þeir spenna tungu sína eins og boga sinn; með lygi,
en eigi með sannleika, hafa þeir náð völdum í landinu; því að frá
einni vonzkunni ganga þeir til annarrar, en mig þekkja þeir ekki —
segir Jahve. [4] Varið yður hver á öðrum og treystið engum bróður, því
að sérhver bróðir beitir undirferli og sérhver vinur gengur með róg.
[5] Þeir blekkja hver annan og sannleika tala þeir ekki; þeir venja tungu
sína á að tala lygi, kosta kapps um að gjöra rangt. [6] Þú býr mitt á
meðal svika; vegna svika vilja þeir ekki þekkja mig — segir Jahve.
[7] Fyrir því segir Jahve hersveitanna svo: Sjá, eg vil hreinsa þá
og reyna þá; því að hvernig ætti eg að fara öðruvísi að andspænis
ilsku þjóðar minnar? [8] Tunga þeirra er deyðandi ör; svik tala þeir;
með munninum tala þeir vingjarnlega við náunga sinn, en í hjarta
sínu sitja þeir á svikráðum við hann. [9] Ætti eg ekki að hegna slíkum
mönnum — segir Jahve — eða hefna mín á annari eins þjóð og þessari?
[10] Á fjöllunum vil eg hefja grát og harmakvein, og sorgarljóð á
beitilöndunum í öræfunum; því að þau eru sviðin, svo að enginn fer
þar um framar og menn heyra eigi framar baul hjarðanna: bæði fuglar
himinsins og villidýrin eru flúin, farin. [11] Og eg vil gjöra Jerúsalem
að grjóthrúgum, að sjakalabæli, og Júdaborgir vil eg gjöra að auðn, þar
sem enginn býr.
[12] Hver er svo vitur maður, að hann skilji þetta? og hver er sá, er
munnur Jahve hafi talað við, svo að hann megi kunngjöra, hvers
vegna landið er gjöreytt, sviðið eins og eyðimörk, sem enginn fer um?
[13] En Jahve sagði: Af því að þeir hafa yfirgefið lögmál mitt, sem eg
setti þeim, og ekki hlýtt minni raustu og ekki farið eftir henni, [14] held-
ur farið eftir þverúð hjarta síns og elt Baalana, er feður þeirra höfðu
kent þeim að dýrka, [15] þess vegna, — svo segir Jahve hersveitanna,
Ísraels Guð — vil eg gefa þeim, þessum lýð, malurt að eta og eitur-
vatn að drekka, [16] og tvístra þeim meðal þjóða, sem hvorki þeir né feður
þeirra hafa þekt, og senda sverðið á eftir þeim, þar til er eg hefi
gjöreytt þeim.
[17] Svo segir Jahve hersveitanna: Takið eftir og kallið til harm-
konur, að þær komi, og sendið til hinna vitru kvenna, að þær komi
[18] og hraði sér að hefja harmakvein yfir oss, til þess að augu vor
fljóti í tárum og vatnið streymi af hvörmunum. [19] Því að hátt harma-
kvein heyrist frá Zíon: Hversu erum vér eyðilagðir, mjög til skammar
orðnir; því að vér höfum orðið að yfirgefa landið, af því að þeir hafa
brotið niður bústaði vora. [20] Já, heyrið, þér konur, orð Jahve, og eyra
yðar nemi orð hans munns, og kennið dætrum yðar harmaljóð og hver

**22:** kap. 46, 11. — **9, 1:** kap. 13, 17; 14, 17. **4:** kap. 12, 6. Mík. 7, 5. **8:** Sálm. 28, 3. **9:** kap. 5, 9. 29. **10:** kap. 12, 4; 4, 25. **11:** kap. 10, 22. **12:** Hós. 14, 10. **14:** kap. 3, 17. **15:** kap. 8, 14. **16:** 3 Mós. 26, 33. 5 Mós. 28, 64. **17:** Am. 5, 16.

annarri sorgarkvæði! 21 Því að dauðinn er stiginn upp í glugga vora,
kominn inn í hallir vorar, til þess að afmá börnin af götunum, ung-
lingana af torgunum. 22 Og líkin af mönnunum liggja eins og hlöss á
velli og eins og kornbundin að baki kornskurðarmanninum, sem eng-
inn tekur saman.

23 Svo segir Jahve: Hinn vitri hrósi sér ekki af vizku sinni og
hinn sterki hrósi sér ekki af styrkleika sínum og hinn auðugi hrósi
sér ekki af auð sínum, 24 heldur hrósi hver sér af því, sá er vill hrósa
sér, að hann sé hygginn og þekki mig, að það er eg, Jahve, sem auð-
sýni miskunnsemi, rétt og réttlæti á jörðunni, því að á slíku hefi eg
velþóknun — segir Jahve.

25 Sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve — að eg mun hegna
öllum umskornum, sem þó eru óumskornir: 26 Egiptalandi, Júda, Edóm,
Ammónítum, Móab og öllum jaðarskornum, þeim er búa í eyðimörk-
inni, — því að allir heiðingjar eru óumskornir og alt Ísraels hús er
óumskorið á hjarta.

10 Heyrið orðið, sem Jahve talar til yðar, Ísraels hús! 2 Svo segir
Jahve: Venjið yður ekki á sið heiðingjanna og hræðist ekki
himintáknin, þótt heiðingjarnir hræðist þau. 3 Því að siðir þjóðanna
eru hégómi. Menn höggva tré í skógi og trésmiðurinn lagar það til
með öxinni; 4 hann prýðir það silfri og gulli, hann festir það með
nöglum og hömrum, svo að það riði ekki. 5 Skurðgoðin eru eins og
hræða í melónugarði og geta ekki talað; bera verður þau, því að gengið
geta þau ekki; óttist þau því ekki, því að þau geta ekki gjört mein,
en þau eru ekki heldur þess umkomin, að gjöra gott. 6 Enginn er
þinn líki, Jahve! Mikill ert þú og mikið er nafn þitt sakir máttar þíns.
7 Hver skyldi eigi óttast þig, konungur þjóðanna? Já, þú ert þess
maklegur, því að meðal allra spekinga þjóðanna og í öllu ríki þeirra
er enginn þinn líki. 8 Allir saman eru þeir óskynsamir og fávísir; fræðsla
hinna fánýtu guða — tré er það, 9 silfurplötur, fluttar frá Tarsis, og
gull frá Úfas, verk trésmiðsins og handa gullsmiðsins; klæðnaður þeirra
er gjörður af bláum og rauðum purpura, verk hagleiksmanna eru þeir
allir. 10 En Jahve er sannur Guð; hann er lifandi Guð og eilífur kon-
ungur; fyrir reiði hans nötrar jörðin og þjóðirnar fá eigi þolað gremi
hans, — 11 þannig skuluð þér mæla til þeirra: Þeir guðir, sem ekki
hafa skapað himin og jörð, munu hverfa af jörðunni og undan himn-
inum — 12 gremi hans, sem gjört hefir jörðina með krafti sínum,
skapað heiminn af speki sinni og þanið út himininn af hyggjuviti sínu.
13 Þegar hann þrumar, svarar vatnagnýr í himninum, og hann lætur
ský uppstíga frá endimörkum jarðar, hann gjörir leiftur til þess að
búa rás regninu og hleypir vindinum út úr forðabúrum hans. 14 Sér-
hver maður stendur undrandi og skilur þetta ekki; sérhver gullsmiður
hlýtur að skammast sín fyrir líkneski sitt, því að hin steyptu líkneski
hans eru tál og í þeim er enginn andi; 15 hégómi eru þau, háðungar-smíði;
þegar hegningartími þeirra kemur, er úti um þau. 16 En hlutdeild Jakobs
er ekki þeim lík, heldur er hann skapari alls, og Ísrael er hans eignar-
kynkvísl; Jahve hersveitanna er nafn hans.

17 Tak böggul þinn upp af jörðunni, þú sem situr umsetin. 18 Því
að svo segir Jahve: Sjá, eg mun burt snara íbúum landsins í þetta

---

22: kap. 8, 2. 24: 1 Kor. 1, 31. 2 Kor. 10, 17. 26: kap. 25, 23; 49, 32; 4, 4. —
10, 3: Jes. 40, 19 n. 44, 9. 4: Jes. 41, 7. 5: Sálm. 115, 5 n. Jes. 46, 7. 7: Opinb.
15, 4. 9: 1 Kong. 10, 22. 12: kap. 51, 15 n. 1 Mós. 1, 6 n. 13: Sálm. 135, 7.
16: 5 Mós. 32, 9. Sálm. 16, 5.

sinn og þrengja að þeim, til þess að þeir fái að kenna á því. [19] Vei
mér vegna sárs míns, áverki minn er ólæknandi. Og þó hugsaði eg:
Ef þetta er öll þjáningin, þá ber eg hana! [20] Tjald mitt er eyðilagt,
öll tjaldstög mín slitin; synir mínir eru frá mér farnir og eru ekki
framar til; enginn er sá til, er reisi aftur tjald mitt og festi aftur upp
tjalddúka mína. [21] Já, óskynsamir voru hirðarnir og Jahve leituðu
þeir ekki; fyrir því lánaðist þeim ekkert og allri hjörð þeirra var
tvístrað. [22] Heyr! hávaði! sjá, það færist nær, ógurlegt hark úr landinu
norður frá, til þess að gjöra Júdaborgir að auðn, að sjakalabæli.

[23] Eg veit, Jahve, að örlög mannsins eru ekki á hans valdi, né
það heldur á valdi gangandi manns að stýra skrefum sínum. [24] Refsa
mér því, Jahve, en þó í hófi, ekki í reiði þinni, til þess að þú gjörir
ekki út af við mig. [25] Úthell heift þinni yfir heiðnu þjóðirnar, sem
ekki þekkja þig, og yfir þær kynkvíslir, sem ekki ákalla nafn þitt;
því að þær hafa etið Jakob, já, þær hafa etið hann og svelgt hann upp,
og beitiland hans hafa þær eytt.

---

11 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve, svo hljóðandi: [2] Heyrið
orð þessa sáttmála og tala þau til Júdamanna og Jerúsalembúa,
— [3] og seg við þá: Svo segir Jahve, Ísraels Guð: Bölvaður sé sá mað-
ur, sem ekki hlýðir á orð þessa sáttmála, [4] þann er eg bauð feðrum
yðar að halda, þá er eg leiddi þá burt af Egiptalandi, út úr járn-
bræðsluofninum, segjandi: Hlýðið skipunum mínum og breytið eftir
þeim, með öllu svo sem eg býð yður; þá skuluð þér vera mín þjóð
og eg skal vera yðar Guð! — [5] til þess að eg fái haldið þann eið, er
eg sór feðrum yðar, að gefa þeim land, sem flýtur í mjólk og hunangi,
landið, sem þér eigið enn í dag. Og eg svaraði og sagði: Veri það
svo, Jahve! [6] Þá sagði Jahve við mig: Boða þú öll þessi orð í Júda-
borgum og á Jerúsalem-strætum og seg: Hlýðið á orð þessa sáttmála
og breytið eftir þeim. [7] Því að alvarlega hefi eg varað feður yðar við,
þegar eg leiddi þá út af Egiptalandi og alt fram á þennan dag, iðulega og
alvarlega, og sagt: Hlýðið skipun minni! [8] En þeir hlýddu ekki og
lögðu ekki við eyrun, heldur fóru hver og einn eftir þverúð síns vonda
hjarta, og fyrir því lét eg fram á þeim koma öll orð þessa sáttmála,
er eg hafði boðið þeim að halda, en þeir héldu ekki.

[9] Þá sagði Jahve við mig: Það er samsæri milli Júdamanna og
Jerúsalembúa; [10] þeir eru horfnir aftur til misgjörða forfeðra sinna,
sem eigi vildu hlýða orðum mínum, — og þeir elta aðra guði, til þess
að þjóna þeim; Ísraels hús og Júda hús hafa rofið minn sáttmála,
þann er eg gjörði við feður þeirra. [11] Fyrir því segir Jahve svo: Sjá,
eg leiði yfir þá ógæfu, er þeir ekki skulu fá undan komist, og er þeir
þá hrópa til mín, mun eg ekki heyra þá. [12] En fari Júdaborgir og
Jerúsalembúar og hrópi til þeirra guða, er þeir færa reykelsisfórnir,
þá munu þeir vissulega heldur ekki hjálpa þeim á ógæfutíma þeirra.
[13] Því að guðir þínir, Júda, eru orðnir eins margir og borgir þínar, og
þér hafið reist eins mörg ölturu, til þess að fórna Baal á reykelsis-
fórnum, eins og stræti eru í Jerúsalem. [14] En þú skalt ekki biðja fyrir
þessum lýð og ekki hefja þeirra vegna grátbeiðni né fyrirbón, því að
eg mun alls eigi heyra, þegar þeir kalla til mín á ógæfutíma þeirra.

[15] Hvert erindi á mín ástkæra í hús mitt? — að framkvæma hana,

---

**19:** kap. 14, 17. **20:** kap. 31, 15. **21:** kap. 23, 1. **22:** kap. 9, 11. **24:** Sálm. 6, 2; 38, 2. Jer. 30, 11. **25:** Sálm. 79, 6. 7. — **11, 3:** 5 Mós. 27, 26. Gal. 3, 10. **4:** 5 Mós. 4, 20. Jer. 7, 23. **5:** 2 Mós. 3, 8. **8:** kap. 7, 26. **11:** Mík. 3, 4. Orðskv. 1, 28. **12:** kap. 2, 28. **14:** kap. 7, 16.

fyrirætlanina? Munu bænahróp og heilagt fórnarkjöt nema ilsku þína
burt frá þér, svo að þú síðan megir fagna? 16 Fagurgrænt olíutré, prýtt
dýrlegum ávöxtum, nefndi Jahve þig; í hvínandi ofviðri kveikir hann
eld kring um það, og greinar þess brotna. 17 Jahve hersveitanna, sem
gróðursetti þig, hefir hótað þér illu, vegna ilsku Ísraels húss og Júda
húss, er þeir frömdu, til þess að egna mig til reiði, þá er þeir færðu
Baal reykelsisfórnir.

18 En Jahve hefir gjört mér það kunnugt og eg hefi fengið að vita
það; þá lézt þú mig sjá gjörðir þeirra. 19 Eg var sjálfur eins og vanið
lamb, sem leitt er til slátrunar, og vissi ekki, að þeir voru að brugga
ráð gegn mér: »Vér skulum eyða tréð í blóma þess og uppræta
hann af landi lifenda, svo að nafns hans verði ekki minst framar!«
20 En, Jahve hersveitanna, þú er réttlátlega dæmir og rannsakar nýrun
og hjartað, lát mig sjá hefnd þína á þeim, því að þér fel eg málefni mitt!
21 Fyrir því segir Jahve svo um Anatótmenn, þá er sitja um líf
þitt og segja: Þú skalt ekki spá í nafni Jahve, ella skalt þú deyja fyrir
hendi vorri. 22 Fyrir því mælir Jahve hersveitanna svo: Sjá, eg mun
refsa þeim; æskumennirnir skulu falla fyrir sverði, synir þeirra og dæt-
ur skulu deyja af hungri. 23 Og leifar munu þeim engar eftir verða,
því að eg leiði óhamingju yfir Anatótmenn árið sem þeim verður refsað.
12 Þú ert, Jahve, réttlátari en svo að eg megi þrátta við þig. Þó
verð eg að deila á þig. Hví lánast athæfi hinna óguðlegu, hví
eru allir þeir óhultir, er sviksamlega breyta? 2 Þú gróðursetur þá, og
þeir festa rætur, dafna og bera ávöxt. Þeir hafa þig ávalt á vör-
unum, en hjarta þeirra er langt frá þér. 3 En þú, Jahve, þekkir mig,
sér mig og þú hefir reynt hugarþel mitt til þín. Skil þá úr, eins og
sauði til slátrunar, og helgaðu þá drápsdeginum. 4 Hversu lengi á
landið að syrgja og jurtir vallarins alstaðar að skrælna? Sakir ilsku
þeirra, er í því búa, farast skepnur og fuglar, þar eð þeir segja: hann
sér eigi afdrif vor. 5 Ef þú mæðist af því að hlaupa með fótgangandi
mönnum, hvernig ætlar þú þá að þreyta kapphlaup við hesta? og ef
þú ert aðeins öruggur í friðuðu landi, hvernig ætlar þú þá að fara
að í kjarrinu á Jórdanbökkum? 6 Því að jafnvel bræður þínir og skyldu-
lið föður þíns — einnig þeir eru þér ótrúir, einnig þeir hafa kallað
fullum rómi á eftir þér; treystu þeim ekki, þótt þeir tali vinsamlega
til þín.

7 Yfirgefið hefi eg hús mitt, hafnað eign minni; eg hefi gefið það,
sem sál minni var kærast, óvinum hennar á vald. 8 Eign mín varð
mér eins og ljón í skógi; hún öskraði í móti mér; fyrir því hata eg
hana. 9 Er eign mín orðin mér eins og marglitur ránfugl? Ránfuglar
sækja að henni öllumegin. Komið, safnið saman öllum dýrum merk-
urinnar, komið með þau til að eta. 10 Margir hirðar hafa eytt víngarð
minn, fótum troðið óðal mitt, hafa gjört hið unaðslega óðal mitt að
eyðilegri heiði. 11 Menn hafa gjört það að auðn; í eyði drúpir það
fyrir mér; alt landið er í eyði lagt, af því að enginn leggur það á hjarta.
12 Eyðandi ræningjar hafa steypt sér yfir allar skóglausar hæðir í eyði-
mörkinni; því að Jahve á sverð, sem eyðir landið af enda og á; ekkert
hold er óhult. 13 Þeir sáðu hveiti, en uppskáru þyrna; þeir þreyttu sig,
en varð ekki gagn að. Verðið því til skammar fyrir afrakstur yðar,
vegna hinnar brennandi reiði Jahve.

---

**19:** Jes. 53, 7. **20:** Sálm. 7, 10. Jer. 17, 10; 20, 12. — **12, 1:** Job 21, 7. Sálm. 73, 3. **2:** Jes. 29, 13. **3:** Sálm. 139, 1 n. **4:** kap. 9, 10. **5:** kap. 49, 19; 50, 44. Sak. 11, 3. **9:** Jes. 56, 9. **10:** kap. 6, 3. **13:** 5 Mós. 28, 38. Hagg. 1, 6.

14 Svo segir Jahve um alla hina vondu nágranna mína, þá er á-
reitt hafa eignina, er eg gaf lýð mínum Ísrael. Sjá, eg slít þá upp úr
landi þeirra, og Júda hús vil eg upp slíta, svo að það sé eigi meðal
þeirra. 15 En eftir að eg hefi slitið þá upp, mun eg aftur miskunna
mig yfir þá og flytja þá heim aftur, hvern til síns óðals og hvern til
síns lands. 16 Og ef þeir þá læra siðu þjóðar minnar, svo að þeir sverja
við mitt nafn: Svo sannarlega sem Jahve lifir! eins og þeir hafa kent
þjóð minni að sverja við Baal, — þá skulu þeir þrífast meðal þjóðar
minnar; 17 en ef þeir heyra ekki, þá slít eg þá þjóð upp og tortími
henni — segir Jahve.

13 Svo mælti Jahve við mig: Far og kaup þér línbelti og legg
það um lendar þér, en lát það ekki koma í vatn. 2 Og eg keypti
beltið eftir orði Jahve og lagði um lendar mér. 3 Og orð Jahve kom til
mín annað sinn, svo hljóðandi: 4 Tak beltið, sem þú keyptir og um lendar
þínar er, og legg af stað og far austur að Evfrat og fel það þar í berg-
skoru. 5 Og eg fór og fal það hjá Evfrat, eins og Jahve hafði boðið mér.
6 En er all-langur tími var um liðinn, sagði Jahve við mig: Legg af stað
og far austur að Evfrat og tak þar beltið, sem eg bauð þér að fela þar.
7 Og eg fór austur að Evfrat, gróf og tók beltið á þeim stað, sem eg
hafði falið það; en sjá, beltið var orðið skemt, til einskis nýtt framar.
8 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 9 Svo segir Jahve:
Þannig vil eg skemma hroka Júda og hroka Jerúsalem, þann hinn
mikla. 10 Þessir vondu menn, sem ekki vilja hlýða orðum mínum, sem
fara eftir þverúð hjarta síns og elta aðra guði, til þess að þjóna þeim
og falla fram fyrir þeim — þeir skulu verða eins og þetta belti, sem
til einskis er nýtt framar. 11 Því að eins og beltið fellir sig að lendum
manns, eins hafði eg látið alt Ísraels hús og alt Júda hús fella sig að
mér — segir Jahve — til þess að það skyldi vera minn lýður og mér
til frægðar, lofstírs og prýði, en þeir hlýddu ekki.
12 Mæl því til þeirra þetta orð: Svo segir Jahve, Ísraels Guð:
Sérhver krukka verður fylt víni! En segi þeir þá við þig: Vitum vér
þá ekki, að sérhver krukka verður fylt víni? 13 þá seg við þá: Svo
segir Jahve: Sjá, eg fylli alla íbúa þessa lands og konungana, sem
sitja í hásæti Davíðs, og prestana og spámennina og alla Jerúsalem-
búa, svo að þeir verði druknir, 14 og mola þá sundur hvern við annan,
feður og sonu alla saman — segir Jahve —; eg tortími þeim hlífðar-
laust, án nokkurrar vægðar og miskunnar.
15 Heyrið og takið eftir! Verið ekki dramblátir, því að Jahve hefir
talað! 16 Gefið Jahve, Guði yðar, dýrðina, áður en dimmir, áður en
fætur yðar steyta á rökkurfjöllum; þá munuð þér vænta ljóss, en hann
mun breyta því í niðdimmu og gjöra það að svartamyrkri. 17 En ef
þér hlýðið því ekki, þá mun eg í leyni gráta vegna hrokans og sífelt
tárast, já augu mín munu fljóta í tárum, af því að hjörð Jahve verður
flutt burt hertekin. 18 Seg við konung og við konungsmóður: Setjist
lágt, því að fallin er af höfðum yðar dýrlega kórónan! 19 Borgir suður-
landsins eru lokaðar, og enginn opnar; Júdalýður verður burt fluttur
allur saman, burt fluttur með tölu. 20 Hef upp augu þín og sjá, þeir
koma að norðan! Hvar er hjörðin, sem þér var fengin, þínir ágætu
sauðir? 21 Hvað munt þú segja, þegar hann setur vini þína höfðingja
yfir þig — þú hefir sjálf kent þeim að vera á móti þér —? Munu
ekki hviður að þér koma, eins og að jóðsjúkri konu? 22 Og ef þú þá segir
í hjarta þínu: Hví ber mér slíkt að höndum? — sakir þinnar miklu

**16:** kap. 4, 2. — **13, 13:** Esek. 23, 33. **17:** kap. 9, 1; 14, 17. **18:** Harm. 5, 16. **22:**
v. 26. Nah. 3, 5.

misgjörðar er klæðafaldi þínum upp flett, hælar þínir með valdi berir
gjörðir. [23] Getur blámaður breytt hörundslit sínum eða pardusdýrið
flekkjum sínum? Þá munduð þér og megna að breyta vel, þér sem
vanist hafið að gjöra ilt. [24] Eg vil því tvístra þeim eins og hálmlegg-
jum, sem berast fyrir eyðimerkurvindi. [25] Þetta er hlutur þinn, af-
mældur skamtur þinn frá minni hendi — segir Jahve —, af því að
þú hefir gleymt mér og treystir á lygi. [26] Fyrir því kippi eg og klæða-
faldi þínum upp að framan, svo að blygðan þín verði ber. [27] Hórdóm
þinn og losta-hví, hið svívirðilega fúllífi þitt — á hæðunum úti á víða-
vangi hefi eg séð viðurstygðir þínar. Vei þér, Jerúsalem, þú munt ekki
hrein verða — hve langt mun enn þangað til?

---

14 Orð Jahve, sem kom til Jeremía út af þurkunum.
[2] Júda drúpir og þeir, sem sitja í borgarhliðum landsins, ör-
magnast; þeir sitja harmandi á jörðinni, og harmakvein Jerúsalem
stígur upp. [3] Tignarmenni þeirra senda undirmenn sína eftir vatni;
þeir koma að vatnsþrónum, en finna ekkert vatn; þeir snúa aftur
með tóm ílátin; þeir eru sneyptir og blygðast sín og hylja höfuð
sín. [4] Vegna akurlendisins, sem er agndofa af skelfingu, af því að
ekkert regn fellur í landinu, eru akurmennirnir sneypulegir og hylja
höfuð sín. [5] Já, jafnvel hindin í haganum ber og yfirgefur kálf-
inn, því að gróður er enginn; [6] og villiasnarnir standa á skóglausu hæð-
unum og taka öndina á lofti, eins og sjakalarnir; augu þeirra daprast,
því að engar jurtir eru til.
[7] Þegar misgjörðir vorar vitna í gegn oss, Jahve, þá lát til þín taka
vegna nafns þíns; því að fráhvarfssyndir vorar eru margar, gegn þér
höfum vér syndgað. [8] Ó Ísraels von, hjálpari hans á neyðartíma, hví
ert þú sem útlendingur í landinu og sem ferðamaður, er tjaldar til
einnar nætur? [9] Hví ert þú eins og skelkaður maður, eins og hetja,
sem ekki megnar að hjálpa? Og þó ert þú mitt á meðal vor, Jahve,
og vér erum nefndir eftir nafni þínu; yfirgef oss eigi!
[10] Svo segir Jahve um þennan lýð: Þannig var þeim ljúft að
reika um, þeir öftruðu ekki fótum sínum, — en Jahve hafði enga
þóknun á þeim; nú minnist hann misgjörðar þeirra og vitjar synda
þeirra.
[11] Og Jahve sagði við mig: Þú skalt eigi biðja þessum lýð góðs.
[12] Þegar þeir fasta, þá hlýði eg eigi á grátbeiðni þeirra, og þegar þeir
bera fram brennifórn og matfórn, þá hefi eg eigi þóknun á þeim, held-
ur vil eg gjöreyða þeim með sverði, hungri og drepsótt. [13] Þá sagði
eg: Æ, drottinn Jahve, sjá, spámennirnir segja við þá: Þér munuð
ekki sjá sverð, og hungri munuð þér ekki verða fyrir, heldur mun eg
láta yður hljóta stöðuga heill á þessum stað! [14] En Jahve sagði við
mig: Spámennirnir boða lygar í mínu nafni; eg hefi ekki sent þá og
eg hefi ekki skipað þeim og eg hefi ekki við þá talað; þeir boða yður
lognar sýnir, fánýtar spár og tál, sem þeir sjálfir hafa spunnið upp.
[15] Fyrir því segir Jahve svo — um spámennina, sem spá í mínu nafni
og segja, þótt eg hafi ekki sent þá: Hvorki mun sverð né hungur
ganga yfir þetta land! — fyrir sverði og hungri skulu þeir farast, þessir
spámenn. [16] En lýðurinn, sem þeir boða spár sínar, skal liggja dauð-
ur á Jerúsalem-strætum af hungri og fyrir sverði, og enginn jarða þá,
— þeir sjálfir, konur þeirra, synir þeirra og dætur þeirra — og eg vil
úthella vonzku þeirra yfir þá. [17] En þú skalt tala til þeirra þessi orð:
Augu mín skulu fljóta í tárum nótt og dag, og tárin eigi stöðvast, því

**24:** Sálm. 1, 4. — **14, 2:** Jes. 3, 26. Harm. 1, 4. **10:** Hós. 8, 13. **11:** kap. 7, 16.
**12:** kap. 6, 20. Jes. 1, 11 n. **13:** kap. 6, 14. **14:** kap. 23, 21.

að mærin, dóttir þjóðar minnar, hefir orðið fyrir ógurlegu áfalli, hefir
særð verið al-ólæknandi sári. [18] Gangi eg út á völlinn, þá liggja þar
þeir, er fallið hafa fyrir sverði, og gangi eg inn í borgina, þá sé eg þar
menn dána úr hungri. Já, spámenn og prestar fara til lands, sem þeir
þekkja ekki.
[19] Hefir þú þá hafnað Júda algjörlega, eða ert þú orðinn leiður á
Zíon? Hví hefir þú lostið oss svo, að vér verðum eigi læknaðir?
Menn vænta hamingju, en ekkert gott kemur, — vænta lækningartíma,
og sjá: skelfing! [20] Vér þekkjum, Jahve, yfirsjón vora, misgjörð feðra
vorra, að vér höfum syndgað gegn þér. [21] Fyrirlít eigi, vegna nafns
þíns, — óvirð eigi hásæti dýrðar þinnar, minstu sáttmála þíns við oss
og rjúf hann eigi. [22] Eru nokkurir regngjafar meðal hinna fánýtu guða
heiðingjanna, eða úthellir himininn skúrum sjálfkrafa? Ert það ekki
þú, Jahve, Guð vor, svo að vér verðum að vona á þig? Því að þú
hefir gjört alt þetta.
15 Þá sagði Jahve við mig: Þó að Móse og Samúel gengju fram
fyrir mig, mundi sál mín ekki hneigjast að þessum lýð framar;
rek þá frá augliti mínu, svo að þeir fari burt. [2] Og ef þeir segja við
þig: Hvert eigum vér að fara? þá seg við þá: Svo segir Jahve: til
drepsóttar sá, sem drepsótt er ætlaður; og til sverðs sá, sem sverði er
ætlaður; og til hungurs sá, sem hungri er ætlaður; og til herleiðing-
ar sá, sem til herleiðingar er ætlaður. [3] Eg býð ferns konar kyni
út í móti þeim — segir Jahve —: sverðinu, til þess að myrða þá,
hundunum, til þess að draga þá burt, fuglum himinsins og dýrum
jarðarinnar, til þess að eta þá og eyða þeim. [4] Eg gjöri þá að
grýlu fyrir öll konungsríki jarðar, sökum Manasse Hiskíasonar, Júda-
konungs, fyrir það sem hann aðhafðist í Jerúsalem. [5] Því að hver
mun kenna í brjósti um þig, Jerúsalem, og hver mun sýna þér hlut-
tekning og hver mun koma við, til þess að spyrja um, hvernig þér
líði? [6] Þú hefir útskúfað mér, segir Jahve, þú hörfaðir frá; fyrir því
rétti eg höndina út á móti þér og eyddi þig; eg er orðinn þreyttur á
að miskunna. [7] Fyrir því sáldraði eg þeim með varpkvísl við hlið
landsins, gjörði menn barnlausa, eyddi þjóð mína; frá sínum vondu
vegum sneru þeir ekki aftur. [8] Ekkjur þeirra urðu fleiri en sandkorn
á sjávarströnd. Eg leiddi yfir mæður unglinga þeirra eyðanda um há-
bjartan dag, lét skyndilega yfir þær koma angist og skelfing. [9] Sjö
barna móðirin mornaði og þornaði, hún gaf upp öndina. Sól hennar
gekk undir áður dagur var á enda, hún varð til smánar og fyrirvarð
sig. Og það, sem eftir er af þeim, ofursel eg sverðinu, þá er þeir flýja
fyrir óvinum sínum — segir Jahve.
[10] Vei mér, móðir mín, að þú skyldir fæða mig, mig sem allir
menn í landinu deila og þrátta við. Ekkert hefi eg öðrum lánað og
ekkert hafa aðrir lánað mér, og þó formæla þeir mér allir. [11] Jahve
sagði: Vissulega, eg mun frelsa þig; eg mun vissulega láta óvininn
grátbæna þig, þegar óhamingjuna og neyðina ber að höndum. [12] Verður
járn brotið sundur, járn að norðan, og eir?
[13] Eigur þínar og fjársjóðu ofursel eg að herfangi, ekki fyrir verð,
heldur fyrir allar syndir þínar, og það fyrir þær syndir, er þú hefir
drýgt í öllum héruðum þínum. [14] Og eg læt þig þjóna óvinum þínum
í landi, sem þú þekkir ekki; því að eldur er kviknaður í nösum mér;
gegn yður logar hann.
[15] Þú veizt það, Jahve, minstu mín og vitjaðu mín og hefn mín

**17:** kap. 13, 17. **19:** kap. 8, 15. **20:** Sálm. 106, 6. Dan. 9, 5. **22:** kap. 10, 13. — **15, 1:** 2 Mós. 32, 11 n. 1 Sam. 7, 9. Sálm. 99, 6. **2:** kap. 43, 11; 14, 12. **4:** 2 Kong. 21, 2—11; 23, 26; 24, 3. **6:** 5 Mós. 32, 15. **9:** Am. 8, 9. **10:** kap. 20, 14. **13:** kap. 17, 3 n. Sálm. 44, 13. **14:** 5 Mós. 32, 22.

á ofsóknurum mínum; hríf mig ekki burt í þolinmæði þinni við þá,
— mundu það, að eg þoli smán þín vegna. 16 Kæmu orð frá þér,
gleypti eg við þeim; og orð þín voru mér unun og fögnuður hjarta
míns, því að eg er nefndur eftir nafni þínu, Jahve, Guð hersveitanna.
17 Eg sat ekki í hóp hlæjandi manna, til þess að skemta mér; gripinn
af þinni hendi sat eg einsamall, af því að þú fyltir mig helgri reiði.
18 Hví er kvöl mín orðin ævarandi og sár mitt svo illkynjað, að það
verður ekki grætt? Þú ert mér sem svikull lækur, eins og vatn, sem
ekki er unt að reiða sig á. 19 Fyrir því segir Jahve svo: Ef þú lætur
af þessu víli þínu, mun eg aftur láta þig ganga fram fyrir mig — og ef
þú framleiðir aðeins dýrmæta hluti, en enga lélega, þá skalt þú aftur
vera mér munnur. Þeir skulu snúa við til þín, en þú skalt ekki snúa
við til þeirra. 20 Og eg gjöri þig gagnvart þessum lýð að rammbygðum
eirvegg, og þótt þeir berjist við þig, skulu þeir eigi fá yfirstigið þig,
því að eg er með þér, til þess að hjálpa þér og frelsa þig -- segir Jahve;
21 og eg frelsa þig undan valdi vondra manna og losa þig úr höndum
ofbeldismanna.

16 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Þú skalt ekki taka
þér konu, og þú skalt enga sonu né dætur eignast á þessum stað.
3 Því að svo segir Jahve um þá sonu og dætur, sem fæðast á þessum
stað, og um mæðurnar, sem börnin ala, og um feðurna, sem geta þau
í þessu landi: 4 Af banvænum sjúkdómum munu þau deyja; menn
munu eigi harma þau né jarða; þau munu verða að áburði á akrinum.
Fyrir sverði og hungri skulu þau farast og líkamir þeirra munu verða
fuglum himinsins og dýrum jarðarinnar að æti.

5 Já, svo segir Jahve: Þú skalt ekki ganga í sorgarhúsið og eigi
fara til þess að harma, né heldur sýna þeim hluttekning, því að eg
hefi tekið minn frið frá þessum lýð — segir Jahve — náðina og mis-
kunnsemina; 6 og stórir og smáir skulu deyja í þessu landi; þeir verða
ekki jarðaðir, og ekki munu menn harma þá, né þeirra vegna rista á
sig skinnsprettur, né gjöra sér skalla. 7 Og ekki munu menn brjóta
sorgarbrauð þeirra vegna, til huggunar eftir látinn mann, né láta þá
drekka huggunarbikar vegna föður síns og móður sinnar. 8 Eigi skalt
þú heldur ganga í veizluhús, til þess að setjast með þeim til að eta
og drekka. 9 Því að svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Sjá, eg
mun láta öll ánægju- og gleðihljóð, öll fagnaðarlæti brúðguma og
brúðar hverfa burt úr þessum stað fyrir augum yðar og á yðar dögum.

10 Þegar þú nú kunngjörir þessum lýð öll þessi orð og menn segja
við þig: Hvers vegna hefir Jahve hótað oss allri þessari miklu ógæfu,
og hver er misgjörð vor og hver er synd vor, sem vér höfum drýgt
gegn Jahve, Guði vorum? 11 þá seg við þá: Vegna þess að feður yðar
yfirgáfu mig — segir Jahve — og eltu aðra guði og þjónuðu þeim og
féllu fram fyrir þeim; en mig yfirgáfu þeir og héldu ekki lögmál mitt.
12 Og þér breytið enn ver en feður yðar, þar sem þér farið hver og
einn eftir þverúð síns vonda hjarta og hlýðið mér ekki. 13 Fyrir því
vil eg varpa yður burt úr þessu landi til þess lands, sem þér hafið
ekki þekt, hvorki þér né feður yðar, og þar skuluð þér þjóna öðrum
guðum dag og nótt, þar eð eg sýni yður enga miskunn.

14 Sjá, fyrir því munu þeir dagar koma — segir Jahve — að ekki
mun framar sagt verða: »Svo sannarlega sem Jahve lifir, sá er leiddi
Ísraelsmenn út af Egiptalandi«, 15 heldur: »Svo sannarlega sem Jahve
lifir, sá er leiddi Ísraelsmenn út úr landinu norður frá og úr öllum

---

**16:** Esek. 3, 1 n. **18:** Job 6, 15. **20:** kap. 1, 18 n. 1, 8. — **16, 4:** kap. 8, 2. **7:** Esek. 24, 17. **9:** kap. 7, 34. **10:** kap. 5, 19. **13:** 5 Mós. 4, 28; 28, 36. 64. **14:** kap. 23, 7. 8.

þeim löndum, þangað sem hann hafði rekið þá«. Og eg mun flytja
þá aftur til lands þeirra, sem eg gaf feðrum þeirra.
[16] Sjá, eg mun senda út marga fiskimenn — segir Jahve — og
þeir munu fiska þá, og eftir það mun eg senda marga veiðimenn, og
þeir munu veiða þá á hverju fjalli, á hverri hæð og í bergskorunum.
[17] Því að augu mín horfa á alla þeirra vegu; þeir eru ekki huldir fyrir
mér og misgjörð þeirra er eigi falin fyrir augum mér. [18] En fyrst vil
eg gjalda þeim tvöfalt misgjörð þeirra og synd, af því að þeir hafa
vanhelgað land mitt með hræi viðurstygða sinna og fylt óðal mitt
andstygðum sínum.
[19] Jahve, styrkur minn, vígi mitt og hæli mitt á neyðardegi, til
þín munu þjóðir koma frá endimörkum jarðar og segja: Lygar einar
hafa feður vorir hlotið að eign, fánýta guði, og enginn þeirra er að
neinu gagni. [20] Getur maðurinn gjört sér guði? — slíkt eru engir guðir!
[21] Fyrir því vil eg í þetta sinn láta þá kenna á — eg vil láta þá kenna
á hendi minni og styrkleika mínum, og þeir skulu viðurkenna, að nafn
mitt er Jahve.
17 Synd Júda er rituð með járnstíl, með demantsoddi, rist á spjöld
hjartna þeirra og á altarishorn þeirra, [2] eins og líka synir þeirra
minnast altara þeirra og aséra þeirra hjá grænu trjánum, á háu hæð-
unum. [3] Fjallið mitt á vellinum! eigur þínar, alla fjársjóðu þína ofur-
sel eg að herfangi, hæðir þínar vegna syndar, sem drýgð hefir verið í
öllum héruðum þínum. [4] Þá munt þú verða að sleppa hendinni af
óðali þínu, því er eg gaf þér, og eg mun láta þig þjóna óvinum þín-
um í landinu, sem þú þekkir ekki; því að eld hafið þér kveikt í nös-
um mér, sem loga mun eilíflega.
[5] Svo segir Jahve: Bölvaður er sá maður, sem reiðir sig á menn
og gjörir hold að armlegg sínum, en hjarta hans víkur frá Jahve.
[6] Hann er eins og einirunnur á saltsléttunni og hann lifir ekki það, að
neitt gott komi; hann býr á skrælnuðum stöðum í eyðimörkinni, á
óbyggilegu saltlendi. [7] Blessaður er sá maður, sem reiðir sig á Jahve
og lætur Jahve vera athvarf sitt. [8] Hann er sem tré, sem gróðursett er
við vatn og teygir rætur sínar út að læknum, sem hræðist ekki, þótt
hitinn komi, og er með sígrænu laufi, — sem jafnvel í þurka-ári er á-
hyggjulaust og lætur ekki af að bera ávöxt.
[9] Svikult er hjartað fremur öllu öðru og spilt er það; hver þekkir
það? [10] Eg, Jahve, er sá, sem rannsaka hjartað, prófa nýrun, og það
til þess að gjalda sérhverjum eftir breytni hans, eftir ávexti verka hans.
[11] Sá, sem aflar auðs og eigi með réttu, er eins og akurhæna, sem ligg-
ur á eggjum, er hún eigi hefir orpið; á miðri æfinni verður hann að
yfirgefa auðinn og við æfilokin stendur hann sem heimskingi.
[12] Hásæti dýrðarinnar, hátt upp hafið frá upphafi, staður helgi-
dóms vors, [13] þú von Ísraels — Jahve! allir þeir, sem yfirgefa þig,
skulu til skammar verða; já, þeir sem vikið hafa frá mér, verða skrif-
aðir í duftið, því að þeir hafa yfirgefið lind hins lifandi vatns, Jahve.
[14] Lækna mig, Jahve, að eg megi heill verða; hjálpa mér, svo að
mér verði hjálpað, því að þú ert minn lofstír. [15] Sjá, þeir segja við
mig: Hvar er orð Jahve? Rætist það þá! [16] Og þó hefi eg ekki skot-
ið mér undan því að vera hirðir eftir þinni bendingu, og óheilladags-
ins hefi eg ekki óskað — það veizt þú! Það, sem fram gengið hefir af
vörum mínum, liggur bert fyrir augliti þínu. [17] Vertu mér ekki skelf-
ing, þú athvarf mitt á ógæfunnar degi! [18] Lát ofsóknarmenn mína verða

**16:** Hab. 1, 14 n. **17:** kap. 32, 19. Sálm. 90, 8. — **17, 3:** kap. 15, 13 n. **4:** 5 Mós. 32, 22. **5:** Sálm. 146, 3. **7:** Sálm. 2, 12; 34, 9. **8:** Sálm. 1, 3. **10:** kap. 11, 20; 32, 19. **11:** Sálm. 39, 7. **13:** Lúk. 10, 20. Jer. 2, 13. **15:** Jes. 5, 19. 2 Pét. 3, 4. **17:** kap. 16, 19.

til skammar, en lát mig ekki verða til skammar; lát þá skelfast, en
lát mig ekki skelfast; lát ógæfudag koma yfir þá og sundurmola þá
tvöfaldri sundurmolan!

19 Svo mælti Jahve við mig: Far og nem staðar í þjóðhliðinu,
sem Júdakonungar ganga inn og út um, og í öllum hliðum Jerúsalem,
20 og seg við þá: Heyrið orð Jahve, þér Júdakonungar og allir Júda-
menn og allir Jerúsalembúar, þér sem gangið inn um hlið þessi! 21 Svo
segir Jahve: Gætið yðar — líf yðar liggur við -- og berið eigi byrðar á
hvíldardegi, svo að þér komið með þær inn um hlið Jerúsalem. 22 Berið
og engar byrðar út úr húsum yðar á hvíldardegi og vinnið ekkert verk,
svo að þér haldið hvíldardaginn heilagan, eins og eg hefi boðið feðrum
yðar. 23 En þeir hlýddu ekki og lögðu ekki við eyrun, heldur voru
harðsvíraðir, svo að þeir hlýddu ekki, né þýddust aga. 24 En ef þér
nú hlýðið mér — segir Jahve — svo að þér komið ekki með neinar
byrðar inn í hlið þessarar borgar á hvíldardegi, heldur haldið hvíldar-
daginn heilagan, svo að þér vinnið ekkert verk á honum, 25 þá munu
fara inn um hlið þessarar borgar konungar, sem sitja í hásæti Davíðs,
akandi í vögnum og ríðandi á hestum, þeir og höfðingjar þeirra, Júda-
menn og Jerúsalembúar, og borg þessi eilíflega bygð verða. 26 Og menn
munu koma úr Júdaborgum og úr umhverfi Jerúsalem og úr Benja-
mínslandi og af láglendinu og úr fjöllunum og úr suðurlandinu, þeir
er færa brennifórn og sláturfórn og matfórn og reykelsi og þeir er færa
þakkarfórn í musteri Jahve. 27 En ef þér hlýðið mér eigi, að halda
helgan hvíldardaginn og bera enga byrði og ganga eigi inn um hlið
Jerúsalem á hvíldardegi, þá mun eg leggja eld í hlið hennar, sem eyða
mun höllum Jerúsalem og eigi slöktur verða.

---

18 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve, svo hljóðandi: 2 Statt
upp og gakk ofan í hús leirkerasmiðsins; þar vil eg láta þig
heyra orð mín! 3 Og eg gekk ofan í hús leirkerasmiðsins og var hann
að verki sínu við kringlurnar; 4 og mistækist kerið, sem hann var að
búa til, þá bjó hann aftur til úr því annað ker, eins og leirkerasmiðin-
um leizt að gjöra.
5 Þá kom orð Jahve til mín, svo hljóðandi: 6 Get eg ekki farið
með yður, eins og þessi leirkerasmiður, þú Ísraels hús — segir Jahve —;
sjá, eins og leirinn í hendi leirkerasmiðsins, svo eruð þér í minni hendi,
Ísraels hús. 7 Stundum hóta eg þjóð og konungsríki að uppræta það,
umturna því og eyða því; 8 en snúi þjóðin, er eg hefi hótað þessu,
sér frá vonzku sinni, þá iðrar mig hins illa, er eg hugði að gjöra
henni. 9 En stundum heiti eg þjóð og konungsríki að byggja það og
gróðursetja það; 10 en ef það gjörir það, sem ilt er í mínum augum,
svo að það hlýðir ekki minni raustu, þá iðrar mig þess góða, er eg
hafði heitið að veita því. 11 Og seg þú nú við Júdamenn og Jerúsalem-
búa á þessa leið: Svo segir Jahve: Sjá, eg bý yður ógæfu og brugga
ráð gegn yður. Snúið yður hver og einn frá sinni vondu breytni og
temjið yður góða breytni og góð verk! 12 En þeir munu segja: Það er
til einskis! vér förum eftir vorum hugsunum og breytum hver og einn
eftir þverúð síns vonda hjarta. 13 Fyrir því segir Jahve svo: Spyrjið
meðal heiðingjanna, hvort nokkur hafi heyrt slíkt? Mjög hryllilega hluti
hefir mærin Ísrael í frammi haft. 14 Hvort hverfur þá af gnæfandi klettin-

---

18: Sálm. 35, 4; 40, 15. 16. 22: Nehem. 13, 15—17. 2 Mós. 20, 8. 5 Mós. 5, 12. 14.
24: Jes. 58, 13; 56, 2. 25: kap. 22, 4. — 18, 6: Jes. 45, 9. Róm. 9, 21. 7: kap.
1, 10. 8: kap. 26, 19. Jón. 3, 10. Esek. 18, 21. 11: kap. 7, 3. 13: kap. 2, 10.

um snjór Líbanons? Eða sígur þá uppvellandi vatnið niður, hið svala,
niðandi? 15 Því að þjóð mín hefir gleymt mér, fánýtum goðunum færa
þeir reykelsisfórnir; og þeir hafa leitt þá í hrösun á vegum þeirra,
gömlu götunum, svo að þeir ganga stigu, ólagðan veg, 16 svo að þeir
gjöra land sitt að skelfingu, að eilífu háði, svo að hver sá, er þar fer
um, skelfist og hristir höfuðið. 17 Eins og fyrir austanvindi mun eg
tvístra þeim fyrir óvinunum, eg mun sýna þeim bakið, en ekki and-
litið á þeirra glötunardegi.
18 Þá sögðu þeir: Komið, bruggum ráð gegn Jeremía; því að eigi
mun prestana skorta kenning, spekingana ráð, né spámennina opinber-
un, — komið, vér skulum drepa hann með tungunni og engan gaum
gefa orðum hans. 19 Gef mér því gaum, Jahve, og heyr tal andstæð-
inga minna. 20 Á þá að launa gott með illu, þar sem þeir hafa grafið
mér gröf? Minstu þess, hversu eg hefi staðið frammi fyrir þér, til
þess að tala máli þeirra, til þess að snúa þinni heiftarreiði frá þeim.
21 Ofursel því sonu þeirra hungrinu og fá þá sverðinu á vald, svo að
konur þeirra verði barnlausar og ekkjur, og menn þeirra farist af drep-
sótt og æskumenn þeirra falli fyrir sverði í bardaga. 22 Lát neyðar-
kvein heyrast úr húsum þeirra, þegar þú lætur morðflokka skyndilega
yfir þá koma; því að þeir hafa grafið gröf, til að veiða mig í, og lagt
snörur fyrir fætur mína. 23 En þú, Jahve, þekkir öll fjörráð þeirra
gegn mér; fyrirgef eigi misgjörð þeirra og afmá ekki synd þeirra fyrir
augliti þínu. Lát þá steypast fyrir þér; framkvæm það á þeim, þegar
reiði þín brýzt út.

19 Svo sagði Jahve: Far og kaup krús eftir leirkerasmið, tak
því næst með þér nokkura af helztu mönnum þjóðarinnar og
nokkura af helztu prestunum 2 og gakk út í Hinnomssonar-dal, sem er
fyrir utan Leirbrotahlið, og kunngjör þar þau orð, sem eg mun tala
til þín, 3 og seg: Heyrið orð Jahve, þér Júdakonungar og Jerúsalem-
búar! Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Sjá, eg mun leiða
ógæfu yfir þennan stað, svo að óma mun fyrir báðum eyrum
allra þeirra, er það heyra. 4 Af því að þeir yfirgáfu mig og óvirtu
þennan stað og færðu á honum reykelsisfórnir öðrum guðum, sem þeir
ekki þektu, hvorki þeir né feður þeirra né Júdakonungar, og fyltu
þennan stað blóði saklausra manna 5 og bygðu Baals-hæðir, til þess að
brenna sonu sína í eldi sem brennifórn Baal til handa, sem eg hefi
hvorki skipað né mælt svo fyrir og mér hefir aldrei til hugar komið;
6 sjá, fyrir því munu þeir dagar koma — segir Jahve — að þessi stað-
ur mun ekki framar nefndur verða »Tófet« og »Hinnomssonar-dalur«,
heldur »Drápsdalur«. 7 Þá mun eg tæma ráð Júda og Jerúsalem á
þessum stað og láta þá falla fyrir sverði, er þeir flýja undan óvinum
sínum, og fyrir hendi þeirra, er sitja um líf þeirra; en lík þeirra mun
eg gefa fuglum himinsins og dýrum jarðarinnar að æti, 8 og eg mun gjöra
þessa borg að skelfingu og háði: hver sá, er hér fer um, mun skelfast
og hæðast að öllum áföllunum, sem hún hefir orðið fyrir. 9 Og eg mun
láta þá eta hold sona sinna og hold dætra sinna, og þeir munu eta
hver annars hold í neyð þeirri og þrenging, er óvinir þeirra og þeir,
er sitja um líf þeirra, munu koma þeim í. 10 Og þú skalt brjóta krúsina
fyrir augum þeirra manna, sem með þér hafa farið, 11 og segja við þá:
Svo segir Jahve hersveitanna: Svo mun eg brjóta þessa þjóð og þessa
borg, eins og menn brjóta leirker, sem ekki verður gjört heilt aftur, og
í Tófet mun verða jarðað, með því að ekkert pláss er til að jarða í.

---

**15:** kap. 2, 32; 6, 16. **16:** kap. 19, 8. **20:** Sálm. 35, 12. — **19, 3:** 1 Sam. 3, 11.
2 Kong. 21, 12. **5:** kap. 7, 31 n. 32, 35. **7:** Jes. 19, 3. **8:** kap. 18, 16. **9:** 3 Mós.
26, 29. 5 Mós. 28, 53 n. Harm. 2, 20; 4, 10. **11:** kap. 7, 32.

12 Þannig mun eg fara með þennan stað — segir Jahve — og þá, er hér búa,
svo að eg gjöri þessa borg að Tófet; 13 þá skulu hús Jerúsalem og
hús Júdakonunga verða óhrein, eins og Tófet-staðurinn — öll þau hús,
þar sem menn hafa fært öllum himinsins her reykelsisfórnir á þökun-
um og öðrum guðum dreypifórnir.
14 En er Jeremía kom frá Tófet, þangað sem Jahve hafði sent
hann til þess að spá, nam hann staðar í forgarði musteris Jahve og
sagði við allan lýðinn: 15 Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð:
Sjá, eg leiði yfir þessa borg og allar borgir, er henni tilheyra, alla þá
ógæfu, er eg hefi hótað henni, af því að þeir hafa verið harðsvíraðir
og ekki hlýtt orðum mínum.

20 En er Pashúr prestur Immersson — en hann var yfirumsjónar-
maður í musteri Jahve — heyrði Jeremía boða þessi orð, 2 þá
laust Pashúr Jeremía spámann og setti hann í stokkinn, sem var í efra
Benjamínshliði, hjá musteri Jahve. 3 En daginn eftir losaði Pashúr
Jeremía úr stokknum. Þá sagði Jeremía við hann: Jahve kallar þig
ekki »Pashúr«, heldur »Skelfing alt um kring«. 4 Því að svo segir Jahve:
Sjá, eg gjöri þig að skelfingu fyrir sjálfan þig og fyrir alla vini þína,
og þeir skulu falla fyrir sverði óvina sinna og þú horfa upp á það, og
allan Júdalýð sel eg Babel-konungi á vald, og hann mun herleiða þá til
Babel og drepa þá með sverði. 5 Og eg framsel allan auð þessarar
borgar og allar eigur hennar og öll dýrindi hennar, og alla fjársjóðu
Júdakonunga sel eg óvinum þeirra á vald; þeir skulu ræna þeim, taka
þá og flytja þá til Babel. 6 En þú, Pashúr, og allir þeir, sem búa í
húsi þínu, skuluð herleiddir verða, og þú skalt komast til Babel og
þar skalt þú deyja og þar skalt þú greftraður verða, — þú og allir
vinir þínir, þeir er þú spáðir lygum.

7 Þú hefir talið svo um fyrir mér, Jahve, að eg lét sannfærast;
þú tókst mig tökum og barst hærra hlut; eg er orðinn að stöðugu at-
hlægi, allir gjöra gys að mér. 8 Já, í hvert sinn er eg tala, verð eg að
kvarta undan ofbeldi og kúgun; því að orð Jahve hefir orðið mér til
stöðugrar háðungar og spotts. 9 Og ef eg hugsaði: Eg skal ekki minn-
ast hans og eigi tala framar í hans nafni, þá var sem eldur brynni í
hjarta mínu, er byrgður væri inni í beinum mínum; eg reyndi að þola
það, en eg gat það ekki. 10 Já, eg hefi heyrt illyrði margra — skelfing alt
um kring: »Kærið hann!« og »Vér skulum kæra hann!« Jafnvel allir
þeir, sem eg hefi verið í vináttu við, vaka yfir því að eg hrasi: »Ef til
vill lætur hann ginnast, svo að vér fáum yfirstigið hann og hefnt vor á
honum«. 11 En Jahve er með mér eins og voldug hetja; fyrir því munu
ofsóknarmenn mínir steypast og engu áorka; þeir skulu verða herfilega
til skammar, af því að þeir hafa ekki farið viturlega að ráði sínu —
til eilífrar, ógleymanlegrar smánar. 12 Og Jahve hersveitanna, þú sem
prófar hinn réttláta, þú sem sér nýrun og hjartað, lát mig sjá hefnd
þína á þeim, því að þér fel eg málefni mitt. 13 Lofsyngið Jahve, veg-
samið Jahve, því að hann frelsar líf hins fátæka undan valdi illgjörða-
manna.
14 Bölvaður sé dagurinn, sem eg fæddist; dagurinn, sem móðir mín
ól mig, sé ekki blessaður! 15 Bölvaður sé maðurinn, sem flutti föður
mínum gleðitíðindin: Þér er fæddur sonur! og gladdi hann stórlega með
því. 16 Fyrir þeim manni fari eins og fyrir borgum, sem Jahve hefir
umturnað vægðarlaust, og hann heyri óp á morgnana og hergný um

**13:** kap. 32, 29; 44, 17 n. Zef. 1, 5. — **20, 1:** kap. 38, 1. **2:** kap. 37, 15. **9:** Job
32, 18. **10:** Sálm. 31, 14. **11:** kap. 1, 8; 17, 18. **12:** kap. 11, 20. **14:** kap. 15, 10.
Job 3, 1 n. **16:** 1 Mós. 19, 24. 25.

hádegið, 17 af því að hann lét mig ekki deyja í móðurlífi, svo að móðir
mín hefði orðið gröf mín og móðurlíf hennar hefði eilíflega verið þung-
að. 18 Hví kom eg af móðurlífi, til þess að þola strit og mæðu og til
þess að eyða æfinni í skömm?

---

21 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve, þegar Zedekía konungur
sendi þá Pashúr Malkíason og Zefanía prest Maasejason til hans
með þá orðsending: 2 Gakk til frétta við Jahve fyrir oss, því að Ne-
búkadrezar Babel-konungur herjar á oss, hvort Jahve muni við oss
gjöra samkvæmt öllum sínum dásemdarverkum, svo að hann fari burt
frá oss aftur. 3 Þá sagði Jeremía við þá: Segið svo Zedekía: 4 Svo
segir Jahve, Ísraels Guð: Sjá, eg sný við hervopnunum í höndum yðar,
sem þér berjist með við Babel-konung og við Kaldea, sem að yður
kreppa, fyrir utan borgarmúrinn og safna þeim saman inni í þessari
borg, 5 og eg berst sjálfur við yður með útréttri hendi og sterkum arm-
legg, og með reiði, heift og mikilli gremi; 6 og eg drep íbúa þessarar
borgar, bæði menn og skepnur: þeir skulu deyja af mikilli drepsótt.
7 En eftir það, segir Jahve, mun eg selja Zedekía Júdakonung og þjóna
hans og lýðinn, þá er eftir verða í þessari borg eftir drepsóttina, sverð-
ið og hungrið, í hendur Nebúkadrezars Babel-konungs og í hendur ó-
vina þeirra og í hendur þeirra, er sækjast eftir lífi þeirra, og hann skal
drepa þá með sverðseggjum hlífðarlaust, vægðarlaust og miskunnarlaust.
8 En við lýð þennan skalt þú segja: Svo segir Jahve: Sjá, eg legg
fyrir yður veg lífsins og veg dauðans. 9 Þeir sem verða kyrrir í
þessari borg, munu deyja fyrir sverði, af hungri og af drepsótt;
en þeir sem fara út og ganga á vald Kaldeum, sem að yður kreppa,
þeir munu lífi halda og hljóta líf sitt að herfangi. 10 Því að eg hefi
snúið andliti mínu gegn þessari borg, til óheilla og ekki til heilla —
segir Jahve; hún skal ofurseld verða Babel-konungi, og hann skal
brenna hana í eldi.

11 Og við hús Júdakonungs skalt þú segja: Heyrið orð Jahve,
Davíðs hús! 12 Svo segir Jahve: Haldið rétt að morgni dags og frelsið
hinn rænda af hendi kúgarans, til þess að heiftarreiði mín brjótist ekki
út, eins og eldur, og brenni, svo að enginn fái slökt — sakir illverka
yðar! 13 Sjá, eg skal finna þig, þú sem býr í dalnum, kletturinn á
sléttunni — segir Jahve —, yður sem segið: Hver skyldi koma ofan á
hendur oss og hver skyldi brjótast inn í bústaði vora? 14 Og eg skal
vitja yðar samkvæmt ávöxtum verka yðar — segir Jahve — og leggja
eld í skóg yðar, og hann skal eyða öllu, sem umhverfis hana er.
22 Svo mælti Jahve: Gakk þú ofan að höll Júdakonungs og flyt
þar þessi orð 2 og seg: Heyr orð Jahve, Júdakonungur, þú sem
situr í hásæti Davíðs, þú og þjónar þínir og lýður þinn, þeir sem ganga
inn um þessi hlið! 3 Svo segir Jahve: Iðkið rétt og réttlæti og frelsið
hinn rænda af hendi kúgarans. Undirokið ekki útlendinga, munaðar-
leysingja og ekkjur, og hafið ekki órétt í frammi, og úthellið ekki sak-
lausu blóði á þessum stað. 4 Því ef þér gjörið þetta, munu inn um
hlið þessa húss fara konungar, er sitja í hásæti Davíðs sem eftirmenn
hans, akandi í vögnum og ríðandi á hestum — hann sjálfur, þjónar
hans og lýður hans. 5 En ef þér hlýðið ekki þessum orðum, þá sver
eg við sjálfan mig — segir Jahve — að höll þessi skal verða að eyði-
rúst. 6 Því að svo segir Jahve um höll Júdakonungs: Þú ert mér sem

---

18: Job 3, 20. — 21, 5: 5 Mós. 29, 28. 8: 5 Mós. 30, 15. 19. 12: kap. 4, 4. —
22, 3: kap. 21, 12. 3 Mós. 19, 33. 4: kap. 17, 25.

Gíleað, sem Líbanonstindur. Vissulega vil eg gjöra þig að eyðimörk,
eins og óbygðar borgir, 7 og vígja spillvirkja í móti þér, hvern með sín
vopn, til þess að þeir höggvi þín ágætu sedrustré og varpi þeim á eld-
inn. 8 En margar þjóðir skulu ganga fram hjá þessari borg og menn
segja hver við annan: Hvers vegna hefir Jahve farið svo með þessa
miklu borg? 9 Og þá munu menn svara: Af því að þeir yfirgáfu sátt-
mála Jahve, Guðs síns, og féllu fram fyrir öðrum guðum og þjónuðu
þeim.

10 Grátið ekki þann, sem dauður er, og harmið hann ekki; grátið
miklu heldur þann, sem burt er farinn, því að hann mun aldrei koma
heim aftur og sjá ættland sitt. 11 Því að svo segir Jahve um Sallúm
Jósíason, Júdakonung, sem ríki tók eftir Jósía föður sinn og burt er
farinn úr þessum stað: Hann mun aldrei framar koma hingað aftur;
12 heldur mun hann deyja á þeim stað, þangað sem þeir hafa flutt hann
hertekinn, en þetta land mun hann aldrei framar líta.

13 Vei þeim, sem byggir hús sitt með ranglæti og veggsvalir sínar
með rangindum, sem lætur náunga sinn vinna fyrir ekki neitt og greiðir
honum ekki kaup hans, 14 sem segir: Eg vil reisa mér rúmgott hús og
loftgóðar svalir! og höggur sér glugga, þiljar með sedrusviði og málar
með menju! 15 Ert þú konungur, þótt þú keppir við aðra með húsa-
gjörð úr sedrusviði? Át ekki faðir þinn og drakk? en hann iðkaði rétt
og réttlæti; þá vegnaði honum vel. 16 Hann rak réttar hinna aumu og
fátæku; þá gekk alt vel. Er slíkt ekki að þekkja mig? — segir Jahve.
17 En augu þín og hjarta stefna eingöngu að eigin ávinning og að því
að úthella saklausu blóði og beita kúgun og undirokun. 18 Fyrir því
segir Jahve svo um Jójakím Jósíason, Júdakonung: Menn munu ekki
harma hann og segja: »Æ, bróðir minn!« og »Æ, systir!« — menn
munu ekki harma hann og segja: »Æ, herra!« og »Æ, vegsemd hans!«
19 Hann skal verða jarðaður eins og asni er jarðaður: dreginn burt og
varpað langt út fyrir hlið Jerúsalem.

20 Stíg þú upp á Líbanon og hljóða og lát raust þína gjalla í
Basan og hljóða þú frá Abarím, því að allir ástmenn þínir eru sundur-
molaðir. 21 Eg talaði við þig í velgengni þinni, en þú sagðir: Eg vil
ekki heyra! Þannig var breytni þín frá æsku, að þú hlýddir ekki
minni raustu. 22 Nú mun stormurinn hirða alla hirða þína, og ást-
menn þínir munu herleiddir verða; já, þá munt þú verða til skammar
og smánar vegna allrar vonzku þinnar. 23 Þú sem býr á Líbanon og
hreiðrar þig í sedrustrjám, hversu munt þú stynja, þegar hríðirnar
koma yfir þig, kvalir eins og yfir jóðsjúka konu.
24 Svo sannarlega sem eg lifi — segir Jahve — þótt Konja Jójakíms-
son, Júdakonungur, væri innsiglishringur á hægri hendi minni, þá mundi
eg rífa þig þaðan. 25 Og eg sel þig í hendur þeirra, sem sitja um líf þitt,
og í hendur þeirra, sem þú hræðist, og í hendur Nebúkadrezars Babel-
konungs og í hendur Kaldea; 26 og eg varpa þér og móður þinni, sem
ól þig, burt til annars lands, þar sem þið ekki eruð fædd, og þar
skuluð þið deyja; 27 en í landið, sem þeir þrá að komast til aftur,
þangað skulu þeir aldrei aftur komast.
28 Er þá þessi Konja fyrirlitlegt ílát, sem ekki er til annars en að
brjóta sundur, eða ker, sem engum manni geðjast að? Hví var honum
og niðjum hans þá kastað burt og varpað til lands, sem þeir ekki

---

**11:** 2 Kong. 23, 34. 2 Kron. 36, 4. Esek 19, 4. **13:** Hab. 2, 12. 3 Mós. 19, 13. 5 Mós. 24, 14 n. Jak. 5, 4. **18:** 1 Kong. 13, 30. Jer. 34, 5. **19:** kap. 36, 30. Jes. 14, 19. **20:** 5 Mós. 32, 49. **23:** v. 6. **25:** kap. 34, 20. **26:** 2 Kong. 24, 15.

þektu? [29] Ó land, land, land, heyr orð Jahve! [30] Svo segir Jahve:
Skrásetjið þennan mann barnlausan, mann, sem ekki mun verða lángefinn um dagana; því að engum af niðjum hans mun auðnast að
sitja í hásæti Davíðs og ríkja framar yfir Júda.

23 Vei hirðunum, sem eyða og tvístra gæzluhjörð minni! segir Jahve.
[2] Fyrir því segir Jahve, Ísraels Guð, svo um hirðana, sem
gæta þjóðar minnar: Þér hafið tvístrað sauðum mínum og sundrað
þeim og ekki litið eftir þeim; sjá, eg skal vitja vonzku verka yðar á
yður — segir Jahve. [3] En eg vil sjálfur safna leifum hjarðar minnar
saman úr öllum löndum, þangað sem eg hefi rekið þá, og leiða þá
aftur í haglendi þeirra, og þeir skulu frjóvast og fjölga; [4] og eg vil
setja hirða yfir þá, og þeir skulu gæta þeirra, og þeir skulu eigi framar
hræðast né skelfast og einskis þeirra skal saknað verða — segir Jahve.
[5] Sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve — að eg mun uppvekja Davíð réttan kvist, er ríkja skal sem konungur og breyta viturlega og iðka rétt og réttlæti í landinu. [6] Á hans dögum mun Júda
hólpinn verða og Ísrael búa óhultur, og þetta mun verða nafn hans,
það er menn nefna hann með: Jahve er vort réttlæti!
[7] Sjá, fyrir því munu þeir dagar koma — segir Jahve — að menn
munu eigi framar segja: Svo sannarlega sem Jahve lifir, sá er leiddi
Ísraelsmenn út af Egiptalandi! [8] heldur: Svo sannarlega sem Jahve lifir,
sá er leiddi og flutti heim niðja Ísraels húss úr landinu norður frá og
úr öllum þeim löndum, þangað sem eg hafði rekið þá, svo að þeir
mættu búa í landi sínu!

[9] Viðvíkjandi spámönnunum: Hjartað í brjósti mér er sundurmarið,
öll bein mín skjálfa; eg er eins og drukkinn maður, eins og maður,
sem vínið hefir bugað, vegna Jahve og vegna hans heilögu orða. [10] Því
að landið er fult af hórkörlum, — já, vegna bölvunarinnar syrgir landið,
eru beitilöndin í öræfunum skrælnuð —, og hlaup þeirra er vonzka og
styrkur þeirra ósannsögli; [11] því að bæði spámenn og prestar eru guðlausir, jafnvel í húsi mínu hefi eg rekið mig á vonzku þeirra — segir
Jahve. [12] Fyrir því mun vegur þeirra verða þeim eins og sleipir staðir
í myrkri; þeim skal verða hrundið, svo að þeir detti á honum; því að
eg leiði óhamingju yfir þá árið sem þeim verður refsað — segir Jahve.
[13] Hjá spámönnum Samaríu sá eg og hneykslanlegt athæfi: þeir spáðu
í nafni Baals og leiddu lýð minn Ísrael afvega. [14] En hjá spámönnum
Jerúsalem sá eg hryllilegt athæfi: þeir drýgja hór og fara með lygar
og styrkja illgjörðamennina, svo að enginn þeirra snýr sér frá illsku
sinni. Þeir eru allir orðnir mér eins og Sódóma, og íbúar hennar eins
og Gómorra. [15] Fyrir því segir Jahve hersveitanna svo um spámennina:
Sjá, eg vil gefa þeim malurt að eta og eiturvatn að drekka, því að frá
spámönnum Jerúsalem hefir guðleysi breiðst út um alt landið.
[16] Svo segir Jahve hersveitanna: Hlýðið ekki á orð spámannanna,
sem spá yður; þeir draga yður á tálar; þeir boða vitranir, sem þeir
sjálfir hafa spunnið upp, en ekki fengið frá Jahve. [17] Sífeldlega segja
þeir við þá, er mér hafa hafnað: Jahve hefir sagt: Yður mun heill
hlotnast! Og þótt þeir fari allir eftir þverúð hjarta síns, segja þeir:
Engin ógæfa mun yfir yður koma! [18] Já, sá sem stendur í ráði Jahve,
hann sér og heyrir orð hans. Sá, sem gefur gaum að orðum mínum,
kunngjörir þau!

---

**23, 1:** kap. 10, 21. Esek. 34, 2. **4:** kap. 3, 15. **5:** kap. 33, 15 n. Jes. 4, 2. **6:** Sak. 14, 11. **7:** kap. 16, 14. 15. **10:** kap. 12, 4. **12:** Sálm. 35, 6. Jer. 11, 23. **14:** Esek. 13, 22. Jes. 1, 10. **15:** kap. 9, 15. **17:** kap. 6, 14. **18:** v. 22.

19 Sjá, stormur Jahve brýst fram — reiði — og hvirfilbylur —
hann steypist yfir höfuð hinna óguðlegu. 20 Reiði Jahve léttir ekki fyr
en hann hefir framkvæmt og leitt til lykta fyriræltanir hjarta síns, —
síðar meir munuð þér skilja það greinilega. 21 Eg hefi ekki sent spá-
mennina — og þó hlupu þeir; eg hefi eigi talað til þeirra — og þó
spáðu þeir. 22 Hefðu þeir staðið í mínu ráði, þá mundu þeir kunn-
gjöra þjóð minni mín orð og snúa þeim frá þeirra vonda vegi og frá
þeirra vondu verkum.
23 Er eg þá aðeins Guð í nánd — segir Jahve — og ekki Guð í
fjarlægð? 24 Getur nokkur falið sig í fylgsnum, svo að eg sjái hann
ekki? — segir Jahve. Uppfylli eg ekki himin og jörð? — segir Jahve.
25 Eg heyri hvað spámennirnir segja, þeir sem boða lygar í mínu nafni;
þeir segja: Mig dreymdi, mig dreymdi! 26 Hversu lengi á þetta svo að
ganga? Ætla spámennirnir, þeir er boða lygar og flytja tál, er þeir
sjálfir hafa upp spunnið — 27 hvort hyggjast þeir að koma þjóð minni
með draumum sínum, er þeir segja hver öðrum, til að gleyma nafni
mínu, eins og feður þeirra gleymdu nafni mínu vegna Baals? 28 Sá
spámaður, sem hefir draum, segi hann draum, og sá, sem hefir mitt
orð, flytji hann mitt orð í sannleika. Hvað er sameiginlegt hálmstrái
og korni? — segir Jahve. 29 Er ekki orð mitt eins og eldur — segir
Jahve — og eins og hamar, sem sundurmolar klettana?
30 Sjá, þess vegna skal eg finna spámennina — segir Jahve —, sem
stela orðum mínum hver frá öðrum. 31 Eg skal finna spámennina —
segir Jahve —, sem taka til sinnar eigin tungu, til þess að umla guð-
mæli. 32 Eg skal finna spámennina, sem kunngjöra lygadrauma — segir
Jahve — og segja frá þeim og leiða þjóð mína afvega með lygum sínum
og gorti, og þó hefi eg ekki sent þá og ekkert umboð gefið þeim, og
þeir gjöra þessari þjóð alls ekkert gagn — segir Jahve.
33 Og þegar þessi lýður spyr þig, eða einhver spámaðurinn eða
einhver presturinn, og segir: Hver er byrði Jahve? þá skalt þú segja
við þá: Þér eruð byrðin og eg mun varpa yður af mér — segir Jahve.
34 En sá spámaður og sá prestur og sá lýður, sem talar um »byrði
Jahve« — slíks manns vil eg vitja og húss hans. 35 Svo skuluð þér
segja hver við annan og einn við annan: »Hverju hefir Jahve svarað?«
eða »Hvað hefir Jahve sagt?« 36 En »byrði Jahve« skuluð þér ekki
framar nefna, því að hverjum manni munu þau orð hans verða »byrði«,
þar sem þér hafið rangfært orð hins lifanda Guðs, Jahve hersveitanna,
vors Guðs. 37 Svo skulu menn segja við spámanninn: »Hverju hefir
Jahve svarað þér?« eða »Hvað hefir Jahve sagt?« 38 En ef þér talið
um »byrði« Jahve — fyrir því, svo segir Jahve: Af því að þér við-
hafið þetta orð »byrði Jahve«, þótt eg gjörði yður þá orðsending: Þér
skuluð ekki tala um »byrði Jahve«! — 39 sjá, fyrir því vil eg hefja yður
upp og varpa yður og borginni, sem eg gaf yður og feðrum yðar, burt
frá mínu augliti. 40 Og eg legg á yður eilífa smán og eilífa skömm,
sem aldrei mun gleymast.

24 Jahve lét mig sjá: tvær karfir fullar af fíkjum voru settar
fyrir framan musteri Jahve, eftir að Nebúkadrezar Babel-kon-
ungur hafði herleitt Jekonja Jójakímsson, Júdakonung, og Júdahöfðingja
og trésmiðina og járnsmiðina burt frá Jerúsalem og flutt þá til Babel.
2 Í annari körfinni voru mjög góðar fíkjur, líkar árfíkjum, en í hinni
körfinni voru mjög vondar fíkjur, sem voru svo vondar, að þær voru
óætar.

---

**19:** kap. 30, 23. **21:** kap. 14, 14. **24:** Am. 9, 2 n. Sálm. 139, 7 n. **40:** kap. 20, 11.
— **24, 1:** 2 Kong. 24, 14 n.

[3] Þá sagði Jahve við mig: Hvað sér þú, Jeremía? Og eg svaraði:
Fíkjur! Góðu fíkjurnar eru mjög góðar, en þær vondu eru mjög vondar,
já svo vondar, að þær eru óætar.
[4] Þá kom orð Jahve til mín, svo hljóðandi: [5] Svo segir Jahve,
Ísraels Guð: Eins og á þessar góðu fíkjur, svo lít eg á hina herleiddu
úr Júda, sem eg hefi sent héðan til Kaldealands, þeim til heilla. [6] Eg
beini augum mínum á þá þeim til heilla og flyt þá aftur inn í þetta
land, svo að eg megi byggja þá upp og ekki rífa þá niður aftur og
gróðursetja þá og ekki uppræta þá aftur. [7] Og eg gef þeim hjarta til
að þekkja mig, að eg er Jahve; og þeir skulu vera mín þjóð og eg
skal vera þeirra Guð, þegar þeir snúa sér til mín af öllu hjarta. [8] Og
eins og vondu fíkjurnar, sem eru svo vondar, að þær eru óætar — já,
svo segir Jahve — þannig vil eg fara með Zedekía Júdakonung og
höfðingja hans og leifarnar af Jerúsalem, þá sem eftir eru í þessu
landi og þá sem sezt hafa að í Egiptalandi, [9] eg mun gjöra þá að grýlu,
að andstygð öllum konungsríkjum jarðar, að háðung, orðskvið, spotti
og formæling á öllum þeim stöðum, þangað sem eg rek þá. [10] Og eg
sendi sverð, hungur og drepsótt í móti þeim, þar til er þeir eru gjöreyddir
úr landinu, sem eg gaf þeim og feðrum þeirra.

25 Orðið, sem kom til Jeremía um allan Júdalýð á fjórða ríkisári
Jójakíms Jósíasonar, Júdakonungs — það er fyrsta ríkisár Nebú-
kadrezars Babel-konungs —, [2] það er Jeremía spámaður talaði til alls
Júdalýðs og til allra Jerúsalembúa, segjandi:
[3] Frá þrettánda ríkisári Jósía Amónssonar, Júdakonungs, og fram á
þennan dag, nú í tuttugu og þrjú ár, hefir orð Jahve komið til mín og
eg hefi talað til yðar seint og snemma, en þér hafið ekki heyrt. [4] Og
Jahve hefir sent til yðar alla þjóna sína, spámennina, bæði seint og
snemma, en þér hafið ekki heyrt, né heldur lagt við eyrun, til þess að heyra.
[5] Léti eg segja yður: »Snúið yður, hver og einn frá sínum vonda vegi
og frá yðar vondu verkum, þá skuluð þér búa kyrrir í landinu, sem
Jahve gaf yður og feðrum yðar, frá eilífð til eilífðar. [6] En eltið ekki
aðra Guði, til þess að þjóna þeim og falla fram fyrir þeim, og egnið
mig ekki til reiði með handaverkum yðar, svo að eg láti yður ekkert
böl að höndum bera«, [7] þá hlýdduð þér ekki á mig -- segir Jahve —
til þess að egna mig til reiði með handaverkum yðar, yður sjálfum til
ills. [8] Fyrir því segir Jahve hersveitanna svo: Af því að þér hlýdduð
ekki orðum mínum, [9] þá vil eg láta sækja allar kynkvíslir norðursins
— segir Jahve — og Nebúkadrezar Babel-konung þjón minn og láta
þá brjótast inn yfir þetta land og inn á íbúa þess og inn á allar þessar
þjóðir hér umhverfis, og eg vil helga þá banni og gjöra þá að skelfing og
spotti og eilífri háðung, [10] og eg vil láta gjörsamlega hverfa meðal
þeirra öll ánægju- og gleðihljóð, öll fagnaðarlæti brúðguma og brúðar,
öll kvarnarhljóð og lampaljós. [11] Og alt þetta land skal verða að rúst,
að auðn, og þessar þjóðir skulu þjóna Babel-konungi í sjötíu ár. [12] En
þegar sjötíu ár eru liðin, mun eg refsa Babel-konungi og þessari þjóð
— segir Jahve — fyrir misgjörð þeirra, og landi Kaldea og gjöra það
að eilífri auðn. [13] Og eg mun láta fram koma á þessu landi öll þau
hótunarorð, er eg hefi talað gegn því, alt það sem ritað er í þessari
bók, það sem Jeremía hefir spáð um allar þjóðir. [14] Því að voldugar
þjóðir og miklir konungar munu og gjöra þá að þrælum, og eg mun
gjalda þeim eftir athæfi þeirra og eftir handaverkum þeirra.

**6:** kap. 31, 28. Am. 9, 15. **7:** kap. 31, 33 n. 32, 38 n. Esek. 11, 19 n. 36, 26 n.
**8:** kap. 29, 17 n. **10:** kap. 14, 12. — **25, 3:** kap. 1, 2. **4:** kap. 7, 13. **5:** kap. 18,
11. **6:** kap. 7, 6. **9:** kap. 27, 6. **10:** kap. 7, 34. Opinb. 18, 22. 23.

15 Því að svo sagði Jahve, Ísraels Guð, við mig: Tak við þessum
bikar reiðivínsins af hendi mér og lát allar þjóðirnar drekka af honum,
þær er eg sendi þig til, 16 svo að þær drekki og reiki og verði vit-
skertar af sverðinu, er eg sendi meðal þeirra. 17 Þá tók eg við bikarn-
um af hendi Jahve og lét allar þær þjóðir drekka, sem Jahve hafði
sent mig til: 18 Jerúsalem og Júdaborgir, konunga hennar og höfðingja,
til að gjöra þá að rúst, að skelfing, að spotti og formæling, eins og nú
er fram komið; 19 Faraó, Egiptalands konung, og þjóna hans og höfð-
ingja og alla þjóð hans og allan þjóðblending; 20 enn fremur alla konunga í
Úz-landi og alla konunga í Filistalandi, sem sé Askalon, Gaza, Ekron
og leifarnar af Asdód; 21 Edóm og Móab og Ammóníta; 22 og alla kon-
unga í Týrus og alla konunga í Zídon og konungana á ströndunum,
hinumegin hafsins; 23 Dedan og Tema og Bús og alla jaðarskorna,
24 og alla konunga Arabíu og alla konunga þjóðblendinganna, sem búa
í eyðimörkinni; 25 og alla konungana í Simrí og alla konungana í Elam
og alla konungana í Medíu; 26 og alla konungana norður frá, hvort sem
þeir búa nálægt hver öðrum eða langt hver frá öðrum, — í stuttu máli
öll konungsríki á jörðunni; en konungurinn í Sesak* skal drekka á
eftir þeim.
27 En þú skalt segja við þá: Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels
Guð: Drekkið, til þess að þér verðið druknir og spúið og dettið og
standið ekki upp aftur, af sverðinu, sem eg sendi meðal yðar. 28 En
færist þeir undan að taka við bikarnum af hendi þinni, til þess að
drekka, þá seg við þá: Svo segir Jahve hersveitanna: Drekka skul-
uð þér! 29 Því sjá, hjá borginni, sem nefnd er eftir nafni mínu, læt eg
ógæfuna fyrst ríða yfir, — og þér skylduð sleppa óhegndir? Þér skuluð
ekki sleppa óhegndir, því að sverði býð eg út gegn öllum íbúum jarð-
arinnar — segir Jahve hersveitanna.
30 En þú skalt kunngjöra þeim öll þessi orð og segja við þá:
Jahve öskrar af hæðum og lætur rödd sína gjalla frá sínum heilaga bú-
stað. Hann öskrar hátt út yfir haglendi sitt, hefur upp fagnaðaróp, eins
og þeir sem vínber troða, gegn öllum þeim, sem á jörðu búa. 31 Hávað-
inn berst út á enda jarðar, því að Jahve þreytir deilu við þjóðirnar.
Hann gengur í dóm við alt hold; hina óguðlegu ofurselur hann sverð-
inu! — segir Jahve. 32 Svo segir Jahve hersveitanna: Sjá, ógæfa fer
frá einni þjóð til annarrar og ákafur stormur rís á útjaðri jarðar; 33 og
þeir sem Jahve hefir felt, munu á þeim degi liggja dauðir frá einum
enda jarðarinnar til annars. Þeir munu eigi verða harmaðir, eigi safn-
að saman og eigi jarðaðir; þeir skulu verða að áburði á akrinum.
34 Æpið, hirðar, og kveinið og veltið yður í duftinu, þér leiðtogar hjarð-
arinnar! Því að yðar tími er kominn, að yður verði slátrað og yður
tvístrað, og þér skuluð detta niður eins og verðmætt ker. 35 Þá er
ekkert athvarf lengur fyrir hirðana og engin undankoma fyrir leiðtoga
hjarðarinnar.
36 Heyr kvein hirðanna og óp leiðtoga hjarðarinnar, af því að
Jahve eyðir haglendi þeirra, 37 og hin friðsælu beitilönd eru gjöreydd
orðin fyrir hinni brennandi reiði Jahve. 38 Hann hefir yfirgefið skóg-
arrunn sinn, eins og ljónið; já, að auðn varð land þeirra fyrir hinu víg-
freka sverði og fyrir hans brennandi reiði.

26 Í byrjun ríkisstjórnar Jójakíms Jósíasonar, Júdakonungs, kom
þetta orð frá Jahve: 2 Svo segir Jahve: Gakk í forgarð musteris
Jahve, og tala til allra þeirra manna úr Júdaborgum, sem komnir eru

15: kap. 51, 7. Opinb. 14, 10. 26: kap. 51, 41. Hab. 2, 16. * Þ. e. Babel. 27: v. 15 n. 29: kap. 49, 12. 1 Pét. 4, 17. 30: Jóel 3, 21. Am. 1, 2. Jes. 16, 9. 31: Jes. 66, 16. 33: kap. 8, 2; 16, 4.

til þess að falla fram í musteri Jahve, öll þau orð, sem eg hefi boðið
þér að tala til þeirra. Þú skalt ekki draga neitt orð undan. 3 Ef til
vill hlýða þeir og snúa sér, hver og einn frá sínum vonda vegi; mun
mig þá iðra þeirrar óhamingju, sem eg hygg að leiða yfir þá sakir
illra verka þeirra. 4 Og þú skalt segja þeim: Svo segir Jahve: Ef þér
hlýðið mér ekki, svo að þér breytið eftir lögmáli mínu, sem eg hefi
fyrir yður lagt, 5 svo að þér hlýðið orðum þjóna minna, spámannanna,
er eg hefi sent til yðar æ af nýju óaflátanlega, en þér hafið ekki hlýtt
þeim, 6 þá vil eg fara með þetta hús, eins og húsið í Síló og gjöra
þessa borg að formæling fyrir allar þjóðir jarðarinnar.
7 En er prestarnir og spámennirnir og allur lýðurinn heyrði Jeremía
flytja þessi orð í musteri Jahve 8 og Jeremía hafði lokið að tala alt það,
sem Jahve hafði boðið honum að tala til alls lýðsins, þá tóku prest-
arnir og spámennirnir og allur lýðurinn hann höndum og sögðu: Þú
skalt vissulega deyja! 9 Hví hefir þú spáð í nafni Jahve og sagt: Þetta
hús skal verða eins og húsið í Síló, og þessi borg skal í eyði lögð og
mannlaus verða! Og allur lýðurinn safnaðist gegn Jeremía í musteri
Jahve.
10 En er Júda-höfðingjar fréttu þetta, fóru þeir úr konungshöllinni
upp til musteris Jahve og settust úti fyrir Jahve-hliði hinu nýja. 11 Og
prestarnir og spámennirnir töluðu til höfðingjanna og alls lýðsins og
sögðu: Þessi maður er dauða sekur, því að hann hefir spáð gegn þess-
ari borg, eins og þér hafið heyrt með eigin eyrum. 12 En Jeremía mælti
til allra höfðingjanna og alls lýðsins á þessa leið: Jahve hefir sent mig
til þess að boða öll þessi orð, sem þér hafið heyrt, gegn þessu húsi og
þessari borg. 13 Og bætið nú framferði yðar og athafnir og hlýðið
raustu Jahve, Guðs yðar, svo að Jahve megi iðra þeirrar óhamingju,
er hann hefir hótað yður. 14 En að því er til sjálfs mín kemur, þá er
eg á yðar valdi; gjörið við mig það, sem yður þykir gott og rétt. 15 En
það skuluð þér vita, að ef þér deyðið mig, þá leiðið þér saklaust blóð
yfir yður og yfir þessa borg og yfir íbúa hennar, því að Jahve hefir
sannlega sent mig til yðar, til þess að flytja yður öll þessi orð. 16 Þá
sögðu höfðingjarnir og allur lýðurinn við prestana og spámennina:
Þessi maður er ekki dauða sekur, því að hann hefir talað til vor í
nafni Jahve, Guðs vors.
17 Þá gengu nokkurir af öldungum landsins fram og mæltu til alls
mannsafnaðarins á þessa leið: 18 Míka frá Móreset kom fram sem spá-
maður á dögum Hiskía Júdakonungs og mælti til alls Júdalýðs á þessa
leið: »Svo segir Jahve hersveitanna: Zíon mun plægð verða sem akur
og Jerúsalem mun verða að rústum og musterisfjallið að skógarhæð-
um«. 19 Hvort deyddi Hiskía Júdakonungur og allur Júdalýður hann?
Óttaðist hann ekki Jahve og blíðkaði Jahve, svo að Jahve iðraði þeirrar
óhamingju, er hann hafði hótað þeim? En vér erum rétt að því komnir
að baka oss mikla óhamingju.
20 Annar maður var og, sem spáði í nafni Jahve, Úría Semajason
frá Kirjat-Jearím; hann spáði og gegn þessari borg og þessu landi, al-
veg á sama hátt og Jeremía. 21 En er Jójakím konungur og allir kapp-
ar hans og allir höfðingjarnir spurðu orð hans, leitaðist konungur við
að láta drepa hann. En er Úría frétti það, varð hann hræddur, flýði
burt og fór til Egiptalands. 22 En Jójakím konungur gjörði menn til
Egiptalands, Elnatan Akbórsson og menn með honum. 23 Og þeir sóttu
Úría til Egiptalands og fóru með hann til Jójakíms konungs, og hann
lét drepa hann með sverði og kasta líkinu á grafir múgamanna.

---

**26, 3:** kap. 18, 8; 36, 3. **18:** kap. 7, 3; 18, 8. **15:** Matt. 27, 24. **18:** Mík. 3, 12.
**22:** kap. 36, 12. 25.

[24] En Ahíkam Safansson verndaði Jeremía, svo að hann var eigi
framseldur í hendur lýðsins til líf láts.

---

27 Í upphafi ríkisstjórnar Zedekía Jósíasonar, Júdakonungs, kom
þetta orð til Jeremía frá Jahve:
[2] Svo sagði Jahve við mig: Gjör þér bönd og ok og legg um háls
þér [3] og gjör konunginum í Edóm og konunginum í Móab og konungi
Ammóníta og konunginum í Týrus og konunginum í Zídon orðsending
með sendimönnunum, sem komnir eru til Jerúsalem til Zedekía Júdakon-
ungs, [4] og bjóð þeim að mæla svo til herra sinna: Svo sagði Jahve her-
sveitanna, Ísraels Guð: Svo skuluð þér segja við herra yðar: [5] Eg hefi
gjört jörðina og mennina og skepnurnar, sem á jörðinni eru, með mín-
um mikla mætti og útrétta armlegg og eg gef þetta þeim, er mér þókn-
ast. [6] Og nú gef eg öll þessi lönd á vald Nebúkadnezars Babel-kon-
ungs, þjóns míns; jafnvel dýr merkurinnar gef eg honum, til þess að
þau þjóni honum. [7] Og allar þjóðir skulu þjóna honum og syni hans
og sonarsyni hans, þar til er einnig tími hans lands kemur og voldug-
ar þjóðir og miklir konungar gjöra hann að þræl sínum. [8] Og sú þjóð
og það konungsríki, sem ekki vill þjóna honum, Nebúkadnezar Babel-
konungi, og ekki beygja háls sinn undir ok Babel-konungs — þeirrar
þjóðar mun eg vitja með sverði, hungri og drepsótt, segir Jahve, unz
eg hefi gjöreytt þeim fyrir hans hendi. [9] Og hlýðið ekki á spámenn
yðar né spásagnamenn, né drauma yðar, né á galdramenn yðar né
töframenn, þá er þeir mæla til yðar á þessa leið: Þér munuð ekki þjóna
Babel-konungi. [10] Því að þeir boða yður lygar, til þess að flæma yður
úr landi yðar, svo að eg reki yður burt og þér farist. [11] En þá þjóð,
sem beygir háls sinn undir ok Babel-konungs og þjónar honum, hana
vil eg láta vera kyrra í landi sínu — segir Jahve — til þess að hún
yrki það og byggi.
[12] Og við Zedekía Júdakonung talaði eg öldungis á sama hátt:
Sveigið háls yðar undir ok Babel-konungs og þjónið honum og þjóð
hans, þá munuð þér lífi halda. [13] Hví viljið þér, þú og þjóð þín, deyja
fyrir sverði, af hungri og drepsótt, eins og Jahve hefir hótað þeim
þjóðum, er eigi vilja þjóna Babel-konungi? [14] Hlýðið eigi á orð spá-
mannanna, er segja við yður: »Þér munuð eigi þjóna Babel-konungi!«
Því að þeir boða yður lygar. [15] Því að eg hefi ekki sent þá — segir
Jahve —, heldur spá þeir ranglega í mínu nafni, til þess að eg reki
yður burt og þér farist, ásamt spámönnunum, er yður hafa spáð.
[16] Við prestana og allan þennan lýð hefi eg og talað á þessa leið:
Svo segir Jahve: Hlýðið eigi á orð spámanna yðar, er spá yður og
segja: »Sjá, áhöldin úr musteri Jahve munu bráðlega verða flutt heim
aftur frá Babel!« — því að þeir boða yður lygar. [17] Hlýðið eigi á þá,
þjónið heldur Babel-konungi, þá munuð þér lífi halda! Hví á þessi
borg að verða að rúst? [18] En séu þeir spámenn og sé orð Jahve hjá
þeim, þá biðja þeir Jahve hersveitanna að áhöld þau, sem enn eru eftir í
musteri Jahve og í höll Júdakonungs og í Jerúsalem, fari eigi líka til
Babel. [19] Því að svo segir Jahve hersveitanna um súlurnar, um hafið og
um undirstöðupallana og um hin önnur áhöld, sem eftir eru í þessari
borg, [20] þau er Nebúkadnezar Babel-konungur ekki tók, þá er hann
herleiddi Jekonja Jójakímsson, Júdakonung, frá Jerúsalem til Babel, á-
samt öllum tignarmönnum Júda og Jerúsalem; [21] já, svo segir Jahve
hersveitanna, Ísraels Guð, um áhöldin, sem eftir eru í musteri Jahve

---

**24:** 2 Kong. 22, 12. — **27, 6:** kap. 28, 14. Dan. 2, 38. **7:** kap. 25, 12. **9:** kap. 14, 14. **13:** v. 8. **19:** 2 Kong. 25, 13. **20:** 2 Kong. 24, 14 n.

og höll Júdakonungs og í Jerúsalem: 22 Til Babel skulu þau flutt
verða og þar skulu þau vera, alt til þess dags, er eg vitja þeirra —
segir Jahve — og sæki þau og flyt þau aftur á þennan stað.

28 En þetta ár — í upphafi ríkisstjórnar Zedekía Júdakonungs,
fjórða árið, í fimta mánuðinum — sagði Hananja spámaður
Assúrsson frá Gíbeon við mig í musteri Jahve í viðurvist prestanna og
alls lýðsins: 2 Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Eg brýt sundur
ok Babel-konungs! 3 Áður en tvö ár eru liðin, flyt eg aftur á þennan
stað öll áhöldin úr musteri Jahve, þau er Nebúkadnezar Babel-konung-
ur tók á þessum stað og flutti til Babel. 4 Jekonja Jójakímsson, Júda-
konung, og alla hina herleiddu úr Júda, þá er komnir eru til Babel,
flyt eg og aftur á þennan stað — segir Jahve — því að eg brýt sundur
ok Babel-konungs!
5 Þá talaði Jeremía spámaður til Hananja spámanns í viðurvist
prestanna og alls lýðsins, sem stóð í musteri Jahve, 6 og Jeremía spá-
maður mælti: Verði svo! Jahve gjöri það! Jahve láti orð þín, er þú
hefir spáð, rætast, svo að hann flytji aftur frá Babel á þennan stað á-
höldin úr musteri Jahve og alla hina herleiddu! 7 En heyr þessi orð,
sem eg kunngjöri þér og öllum lýðnum: 8 Þeir spámenn, sem komið
hafa fram á undan mér og á undan þér frá aldaöðli, þeir spáðu vold-
ugum löndum og stórum konungsríkjum ófriði, óhamingju og drepsótt;
9 en sá spámaður, sem spáir heill, — ef orð spámannsins rætast, þá
þekkist á því sá spámaður, er Jahve hefir sannarlega sent.
10 Þá tók Hananja spámaður okið af hálsi Jeremía spámanns og
braut það sundur; 11 síðan mælti Hananja í viðurvist alls lýðsins á
þessa leið: Svo segir Jahve: Eins skal eg sundurbrjóta ok Nebúkad-
nezars Babel-konungs áður tvö ár eru liðin af hálsi allra þjóða! En
Jeremía spámaður fór leiðar sinnar.
12 En orð Jahve kom til Jeremía, eftir að Hananja spámaður hafði
sundurbrotið okið af hálsi Jeremía spámanns, svo hljóðandi: 13 Far og
seg við Hananja: Svo segir Jahve: Tré-ok hefir þú sundurbrotið, en eg
vil í þess stað gjöra járn-ok! 14 Því að svo segir Jahve hersveitanna,
Ísraels Guð: Járnok legg eg á háls allra þessara þjóða, til þess að þær
verði þegnskyldar Nebúkadnezar Babel-konungi og þjóni honum; já,
jafnvel dýr merkurinnar gef eg honum. 15 Þá sagði Jeremía spámaður
við Hananja spámann: Heyr þú, Hananja! Jahve hefir ekki sent þig,
og þó hefir þú gint lýð þennan til að reiða sig á lygar! 16 Fyrir því
segir Jahve svo: Sjá, eg kippi þér burt af jörðinni; á þessu ári skalt
þú deyja, því að þú hefir prédikað fráhvarf frá Jahve. 17 Og Hananja
spámaður dó þetta ár, í sjöunda mánuðinum.

29 Og þessi eru orð bréfsins, sem Jeremía spámaður sendi frá
Jerúsalem til öldunga hinna herleiddu og til prestanna og til
spámannanna og til alls lýðsins, sem Nebúkadnezar hafði herleitt frá
Jerúsalem til Babel, 2 (eftir að Jekonja konungur og konungsmóðir og
hirðmennirnir, höfðingjar Júda og Jerúsalem, og trésmiðirnir og járn-
smiðirnir voru farnir burt úr Jerúsalem), 3 með Elasa Safanssyni og
Gemaría Hilkíasyni, sem Zedekía Júdakonungur sendi til Nebúkad-
nezars Babel-konungs til Babel:
4 Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð, öllum hinum herleiddu,
þeim er eg herleiddi frá Jerúsalem til Babel: 5 Reisið hús og búið í
þeim, plantið garða og etið ávöxtu þeirra. 6 Takið yður konur og getið

---

**22:** Esr. 1, 7. — **28, 3:** kap. 27, 16. **10:** kap. 27, 2. **11:** v. 2. 3. **14:** kap. 27, 6.
**15:** kap. 29, 31 n. — **29, 2:** kap. 24, 1. 2 Kong. 24, 15 n. **5:** v. 28.

sonu og dætur, og takið sonum yðar konur og giftið dætur yðar, til
þess að þær megi fæða sonu og dætur og þér fjölgið þar, en fækkið
ekki. [7] Látið yður umhugað um heill borgarinnar, sem eg herleiddi
yður til, og biðjið til Jahve fyrir henni; því að heill hennar er heill
sjálfra yðar. [8] Því að svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Látið
eigi spámenn yðar, sem meðal yðar eru, né spásagnamenn yðar tæla
yður, og trúið ekki á drauma yðar, sem yður dreymir. [9] Því að þeir
spá yður ranglega í mínu nafni; eg hefi ekki sent þá! — segir Jahve.
[10] Því að svo segir Jahve: Þegar sjötíu ár eru umliðin fyrir Babel,
mun eg vitja yðar og efna við yður fyrirheit mitt, að flytja yður aftur
á þennan stað. [11] Því að eg þekki þær fyrirætlanir, sem eg hefi í
hyggju með yður — segir Jahve —, fyrirætlanir til heilla, en ekki til
óhamingju, að veita yður vonarríka framtíð. [12] Þá munuð þér ákalla
mig og fara og biðja til mín, og eg mun bænheyra yður. [13] Og þér
munuð leita mín og finna mig. Þegar þér leitið mín af öllu hjarta,
[14] vil eg láta yður finna mig — segir Jahve — og snúa við högum yðar
og safna yður saman frá öllum þjóðum og úr öllum þeim stöðum,
þangað sem eg hefi rekið yður — segir Jahve — og flytja yður aftur
á þann stað, þaðan sem eg herleiddi yður.
[15] En þegar þér segið: Jahve hefir vakið oss upp spámenn í Babel!
[16] Því að svo segir Jahve um konunginn, sem situr í hásæti Davíðs
og um allan lýðinn, sem býr í þessari borg, bræður yðar, sem ekki
voru herleiddir með yður, — [17] svo segir Jahve hersveitanna: Sjá, eg
sendi yfir þá sverð, hungur og drepsótt og gjöri þá eins og viðbjóðs-
legar fíkjur, sem eru svo vondar, að þær eru ekki ætar, [18] og eg elti
þá með sverði, hungri og drepsótt og gjöri þá að grýlu öllum konungs-
ríkjum jarðar, að formæling, að skelfing, að spotti og háðung meðal allra
þjóða, þangað sem eg rek þá, [19] fyrir það að þeir hlýddu ekki orðum
mínum — segir Jahve — er eg hefi óaflátanlega sent þjóna mína, spá-
mennina, með til þeirra, en þér heyrðuð ekki, — segir Jahve. [20] En
heyrið þér orð Jahve, allir þér hinir herleiddu, er eg hefi sent frá Jerú-
salem til Babel.
[21] Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð, um Ahab Kólajason
og um Zedekía Maasejason, sem boða yður lygar í mínu nafni: Sjá,
eg gef þá Nebúkadrezar Babel-konungi á vald og hann mun láta drepa
þá fyrir augum yðar. [22] Og þeir munu verða bölbænar-formáli fyrir
alla hina herleiddu úr Júda, sem eru í Babel, svo að menn kveði svo
að orði: »Jahve fari með þig eins og Zedekía og Ahab, sem Babel-
konungur steikti á eldi«. [23] Sökum þess að þeir frömdu óhæfuverk í
Ísrael og drýgðu hór með konum vina sinna og töluðu orð í mínu
nafni, er eg hafði þeim eigi um boðið, já eg þekki það sjálfur og er
vottur að því! — segir Jahve.
[24] En við Semaja frá Nehalam skalt þú segja á þessa leið: [25] Svo
segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Sökum þess að þú hefir sent
bréf í þínu eigin nafni til alls lýðsins, sem er í Jerúsalem, og til Zefanía
Maasejasonar prests og til allra prestanna, þess efnis: [26] Jahve hefir sett
þig prest í stað Jójada prests, til þess að þú hafir nákvæmar gætur í
musteri Jahve á öllum óðum mönnum og þeim, er spámannsæði er á,
og setjir þá í stokk og hálsjárn! [27] Hví hefir þú þá ekki ávítað Jer-
emía frá Anatót, sem spáir yður? [28] Því að þess vegna hefir hann
gjört oss svolátandi orðsending til Babel: Það verður langvint! Reisið
hús og búið í þeim og plantið garða og etið ávöxtu þeirra.

---

**8:** kap. 27, 9. 14. 16. **10:** kap. 25, 11—12. **13:** 5 Mós. 4, 29. **14:** kap. 30, 3. **17:** kap. 24, 10. **18:** kap. 24, 9. **23:** kap. 23, 14. **28:** v. 5.

[29] En Zefanía prestur las þetta bréf upphátt fyrir Jeremía spá-
manni. [30] Þá kom orð Jahve til Jeremía, svo hljóðandi: [31] Gjör öll-
um hinum herleiddu svo hljóðandi orðsending: Svo segir Jahve um
Semaja frá Nehalam: Sökum þess að Semaja hefir spáð yður án þess
að eg hafi sent hann og gint yður til þess að reiða yður á lygar, [32] fyrir
því segir Jahve svo: Sjá, eg mun hefna þess á Semaja frá Nehalam
og niðjum hans; hann skal ekki eiga neinn niðja, sem búi meðal
þessarar þjóðar, og hann skal ekki fá litið þau gæði, sem eg bý þjóð
minni — segir Jahve —, því að hann hefir prédikað fráhvarf frá Jahve.

30 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve, svo hljóðandi: [2] Svo
segir Jahve, Ísraels Guð: Skrifa þú öll þau orð, er eg hefi til
þín talað, í bók. [3] Því sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve —
að eg mun snúa við hag lýðs míns, Ísraels og Júda, segir Jahve, og
láta þá hverfa aftur til þess lands, sem eg gaf feðrum þeirra, og þeir
skulu taka það til eignar.
[4] En þessi eru orðin, sem Jahve talaði um Ísrael og Júda: [5] Já,
svo segir Jahve: Hræðsluóp heyrum vér, ótti er á ferðum, en engin
heill! [6] Spyrjið um og gætið að, hvort karlmaður ali barn? Hvers
vegna sé eg þá alla menn með hendur á lendum, líkt og jóðsjúk kona
væri, og hvers vegna eru öll andlit orðin nábleik? [7] Vei, mikill er sá
dagur, hann á ekki sinn líka og angistartími er það fyrir Jakob, en —
hann mun frelsast frá því. [8] Því að á þeim degi — segir Jahve her-
sveitanna — mun eg sundurbrjóta okið af hálsi þínum og slíta af þér
böndin, og útlendir menn skulu ekki lengur halda honum í þrældómi;
[9] heldur skulu þeir þjóna Jahve, Guði sínum, og Davíð, konungi sín-
um, er eg mun uppvekja þeim.
[10] En óttast þú ekki, þjónn minn Jakob — segir Jahve — og
hræðst þú ekki, Ísrael, því að eg frelsa þig úr fjarlægu landi og niðja
þína úr landinu, þar sem þeir eru herleiddir, til þess að Jakob hverfi
heim aftur og njóti hvíldar og búi óhultur, án þess nokkur hræði
hann. [11] Því að eg er með þér — segir Jahve — til þess að frelsa þig.
Því að eg vil gjöreyða öllum þeim þjóðum, sem eg hefi tvístrað þér á
meðal; þér einni vil eg ekki gjöreyða; heldur vil eg hirta þig í hófi;
en eg vil ekki láta þér með öllu óhegnt.
[12] Já, svo segir Jahve: Áverki þinn er illkynjaður, sár þitt ólækn-
andi. [13] Enginn tekur að sér málefni þitt, — við meininu er engin
lækning, enginn plástur til handa þér. [14] Allir ástmenn þínir hafa gleymt
þér, þeir spyrja ekki eftir þér, af því að eg hefi lostið þig, eins og ó-
vinur lýstur, með grimmilegri hirting, sakir fjölda misgjörða þinna,
sakir þess að syndir þínar eru margar. [15] Hví æpir þú af áverka þín-
um, af þinni ólæknandi kvöl? Sakir fjölda misgjörða þinna; sakir
þess að syndir þínar eru margar, hefi eg gjört þér þetta. [16] Fyrir því
skulu allir þeir, sem þig eta, etnir verða, og allir þeir, sem þér þröngva,
herleiddir verða; og þeir, sem rupla þig, skulu verða öðrum að herfangi,
og alla þá, sem þig ræna, mun eg framselja til ráns. [17] Því að eg skal
láta koma hyldgan á sár þín og lækna þig af áverkum þínum — segir
Jahve — af því að þeir kalla þig »hina brottreknu«, »Zíon, sem enginn
spyr eftir«. [18] Svo segir Jahve: Sjá, eg sný við högum Jakobs tjalda
og miskunna mig yfir bústaði hans, til þess að borgin verði aftur reist
á hæð sinni og aftur verði búið í höllinni á hennar vanastað. [19] Og
þaðan skal hljóma þakkargjörð og gleðihljóð, og eg læt þá fjölga og
eigi fækka, og eg gjöri þá vegsamlega, svo að þeir séu ekki lengur lít-

**30, 3:** kap. 29, 14. **6:** Jes. 13, 8. **7:** Jóel 2, 11. Zef. 1, 15. **8:** Nah. 1, 13. **9:** Hós. 3, 5. Esek. 34, 23; 37, 24. **10:** kap. 46, 27 n. **11:** kap. 10, 24. **12:** kap. 10, 19; 14, 17; 15, 18. **16:** Jes. 33, 1. **17:** kap. 8, 22; 33, 6.

ilsvirtir. [20] Og synir hans skulu vera mér sem áður, og söfnuður hans
skal vera grundvallaður frammi fyrir mér, en allra kúgara hans mun
eg vitja. [21] Og yfirbjóðandi hans mun frá honum koma og drotnari
hans fram ganga úr flokki hans. Og eg mun láta hann nálgast mig,
svo að hann komi til mín, — því að hver skyldi hætta lífi sínu í það
að koma til mín? — segir Jahve. [22] Og þá munuð þér vera mín þjóð,
og eg mun vera yðar Guð.
[23] Sjá, stormur Jahve brýzt fram — reiði — hvirfilbylur, hann
steypist yfir höfuð hinna óguðlegu. [24] Hinni brennandi reiði Jahve
linnir ekki, fyr en hann hefir framkvæmt fyrirætlanir hjarta síns og
komið þeim til vegar. Síðar meir munuð þér sannfærast um það.
31 Á þeim tíma mun eg — segir Jahve — vera Guð fyrir allar
ættkvíslir Ísraels, og þeir munu vera mín þjóð. [2] Svo segir Jahve:
Lýður þeirra manna, er undan sverðinu komust, fann náð í eyðimörk-
inni; far, til þess að útvega honum — Ísrael — hvíld! [3] Úr fjarlægð
birtist Jahve mér: já, með ævarandi elsku hefi eg elskað þig; fyrir því
hefi eg látið náð mína haldast við þig. [4] Enn vil eg endurreisa þig,
svo að þú verðir endurreist, mærin Ísrael; enn munt þú skreyta þig með
bumbum og ganga út í dansi fagnandi manna. [5] Þú munt enn planta
víngarða á Samaríufjöllum; þeir, sem hafa gróðursett þá, munu og hafa
nytjar þeirra. [6] Já, sá dagur mun koma, að varðmennirnir kalla á
Efraím-fjöllum: Standið upp, förum upp til Zíon, til Jahve, Guðs vors!
[7] Því að svo segir Jahve: Fagnið yfir Jakob með gleði og kætist
yfir öndvegisþjóð þjóðanna. Kunngjörið, vegsamið og segið: Frelsa,
Jahve, þjóð þína, leifarnar af Ísrael! [8] Sjá, eg flyt þá úr landinu norður
frá og safna þeim saman frá útkjálkum jarðar; á meðal þeirra eru
bæði blindir og lamir, bæði þungaðar og jóðsjúkar konur; í stórum
hóp hverfa þeir hingað aftur. [9] Þeir munu koma grátandi og auðmjúk-
lega biðjandi; eg mun fylgja þeim, leiða þá að vatnslækjum, um sléttan
veg, þar sem þeir eigi geta hrasað; því að eg er orðinn Ísrael faðir, og
Efraím er frumgetinn sonur minn.
[10] Heyrið orð Jahve, þér þjóðir, og kunngjörið það á fjarlægu ey-
junum og segið: Sá, sem tvístraði Ísrael, safnar honum saman og mun
gæta hans, eins og hirðir gætir hjarðar sinnar. [11] Því að Jahve frelsar
Jakob og leysir hann undan valdi þess, sem honum var yfirsterkari;
[12] og þeir skulu koma og fagna á Zíonhæð og streyma til gæða Jahve,
til kornsins, vínberjalagarins, olíunnar og ungu sauðanna og nautanna,
og sál þeirra skal verða eins og vökvaður aldingarður og þeir skulu
eigi framar vanmegnast. [13] Þá munu meyjarnar skemta sér við dans
og unglingar og gamalmenni saman, og eg mun breyta sorg þeirra í
gleði og hugga þá og gleðja eftir harma þeirra. [14] Og eg mun endur-
næra sál prestanna á feiti og lýður minn mun seðja sig á gæðum mín-
um — segir Jahve.
[15] Svo segir Jahve: Rödd heyrist í Rama, harmakvein, beiskur
grátur; Rakel grætur börnin sín; hún vill ekki huggast láta vegna barna
sinna, því að þau eru eigi framar lífs. [16] Svo segir Jahve: Halt raust
þinni frá gráti og augum þínum frá tárum, því að enn er til umbun
fyrir verk þitt — segir Jahve —: þeir skulu hverfa heim aftur úr landi
óvinanna. [17] Já, enn er von um framtíð þína — segir Jahve —: börnin
skulu hverfa heim aftur í átthaga sína. [18] Að sönnu heyri eg Efraím
kveina: Þú hefir hirt mig, og eg lét hirtast eins og óvaninn kálfur, —
lát mig snúa heim, þá skal eg snúa við, því að þú ert Jahve, Guð

---

**22:** kap. 24, 7; 31, 1. 33. **23:** kap. 23, 19 n. — **31, 1:** 2 Kor. 6, 16. **6:** Jes. 2, 3.
**7:** Am. 6, 1. **9:** kap. 50, 4. **12:** Jes. 35, 10; 58, 11. Hós. 3, 5. **13:** Jóh. 16, 20.
**15:** Matt. 2, 18. 1 Mós. 35, 19. **17:** kap. 29, 11. **18:** Harm 5, 21.

minn! [19] Því að eftir að eg hafði snúið mér frá þér, gjörðist eg iðrandi,
og eftir að eg vitkaðist, slæ eg á lærið; eg blygðast mín, já, eg er
sneyptur, því að eg ber skömm æsku minnar. [20] Er Efraím mér þá
svo dýrmætur sonur eða slíkt eftirlætisbarn, að þótt eg hafi oft hótað
honum, þá verð eg ávalt að minnast hans af nýju? Fyrir því kemst
hjarta mitt við vegna hans, eg hlýt að miskunna mig yfir hann —
segir Jahve.
[21] Reis þér vörður, set þér vegamerki, haf athygli á brautinni,
veginum, sem þú fórst, — hverf heim, mærin Ísrael, hverf heim til
þessara borga þinna! [22] Hversu lengi ætlar þú að reika fram og aftur,
þú hin fráhverfa dóttir? Því að Jahve skapar nýtt á jörðu: kvenmað-
urinn verndar karlmanninn.
[23] Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Enn munu menn
mæla þessum orðum í Júdalandi og í borgum þess, þá er eg hefi snúið
við högum þeirra: Jahve blessi þig, bústaður réttlætisins, heilaga fjall!
[24] Og Júda og allar borgir hans munu búa þar saman, akuryrkjumenn
og þeir, sem fara um með hjarðir; [25] því að eg drykkja hinar sárþyrstu
sálir og metta sérhverja örmagna sál. [26] Við þetta vaknaði eg og lit-
aðist um, og svefninn hafði verið mér þægilegur.
[27] Sjá, þeir dagar koma — segir Jahve — að eg sái Ísraels hús og
Júda hús með mannsáði og fénaðarsáði, [28] og eins og eg vakti yfir þeim,
til þess að uppræta og umturna, rífa niður og eyða og vinna þeim
mein, þannig mun eg og vaka yfir þeim, til þess að byggja og gróður-
setja — segir Jahve. [29] Á þeim dögum munu menn eigi framar segja:
Feðurnir átu súr vínber og tennur barnanna urðu sljóar! [30] Heldur
mun hver deyja fyrir eigin misgjörð; hver sá maður, er etur súr vín-
ber, hans tennur munu sljóar verða.
[31] Sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve — að eg mun gjöra
nýjan sáttmála við Ísraels hús og Júda hús, [32] ekki eins og þann sátt-
mála, er eg gjörði við feður þeirra, þá er eg tók í hönd þeirra, til þess
að leiða þá út af Egiptalandi, en þann sáttmála við mig hafa þeir rofið,
þótt eg væri herra þeirra — segir Jahve. [33] En í þessu skal sáttmálinn
fólginn vera, sá er eg gjöri við Ísraels hús eftir þetta — segir Jahve:
Eg legg lögmál mitt þeim í brjóst og rita það á hjörtu þeirra, og eg
skal vera þeirra Guð og þeir skulu vera mín þjóð. [34] Og þeir skulu
ekki framar kenna hver öðrum, né einn bróðirinn öðrum, og segja:
Lærið að þekkja Jahve! Því að þeir munu allir þekkja mig, bæði smáir
og stórir — segir Jahve —, því að eg mun fyrirgefa misgjörð þeirra
og ekki framar minnast syndar þeirra!
[35] Svo segi Jahve, sem sett hefir sólina til að lýsa um daga, nið-
urskipun tunglsins og stjarnanna til að lýsa um nætur, sá er æsir hafið,
svo að bylgjurnar gnýja — Jahve hersveitanna er nafn hans: [36] Svo
sannarlega sem þessar reglur munu aldrei breytast fyrir mér — segir
Jahve — svo sannarlega munu Ísraels niðjar ekki hætta að vera þjóð
fyrir mér alla daga. [37] Svo segir Jahve: Svo sannarlega sem himininn
hið efra verður eigi mældur né undirstöður jarðarinnar hið neðra rann-
sakaðar, svo sannarlega mun eg ekki hafna öllum Ísraels niðjum sakir
alls þess, er þeir hafa gjört — segir Jahve.
[38] Sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve — að borgin verður
endurreist Jahve til handa, frá Hananeel-turni alt að Hornhliðinu, [39] og
enn fremur skal mælisnúran ganga beint á Gareb-hæð og beygja þaðan
til Góa. [40] Og allur hræva- og öskudalurinn og allir vellirnir að Kíd-

**19:** Esek. 21, 12. Jer. 3, 25. **23:** Jes. 1, 26. Sak. 8, 3. **28:** kap. 24, 6; 1, 10. **29:** Esek. 18, 2. Harm. 5, 7. **30:** Esek. 18, 4. **31:** Hebr. 8, 8 n. **33:** Hebr. 10, 16. **34:** Jes. 54, 13. Jer. 33, 8. Post. 10, 43. Jes. 43, 25. **35:** 1 Mós. 1, 14 n. **36:** kap. 33, 25 n. **38:** Nehem. 3, 1. Sak. 14, 10.

ronlæk, alt austur að Hrossahliðs-horni, skulu vera helgaðir Jahve; eigi skal þar verða upprætt framar né rifið niður að eilífu!

32 Orðið, sem kom til Jeremía frá Jahve á tíunda ríkisári Zedekía
Júdakonungs, það er átjánda ríkisár Nebúkadrezars. [2] Þá sat
her Babelkonungs um Jerúsalem; en Jeremía spámaður var innilok-
aður í varðgarðinum, sem heyrir til hallar Júdakonungs. [3] En Zedekía
Júdakonungur hafði látið setja hann inn með þeim ummælum: Hví
spáir þú og segir: Svo segir Jahve: Sjá, eg sel þessa borg í hendur
Babel-konungi, að hann vinni hana, [4] og Zedekía Júdakonungur
mun ekki komast undan valdi Kaldea, heldur mun hann áreiðanlega
verða seldur á vald Babel-konungi, og hann mun tala við hann munni
til munns og sjá hann augliti til auglitis; [5] og til Babel mun hann flytja
Zedekía, og þar mun hann verða, unz eg vitja hans — segir Jahve.
Þegar þér berjist við Kaldea, munuð þér enga sigurför fara. [6] Og Jeremía
sagði: Orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [7] Sjá, Hanameel, sonur
Sallúms föðurbróður þíns, mun til þín koma og segja: Kaup þú akur
minn í Anatót, því að þú átt innlausnarréttinn að kaupa hann. [8] Og
Hanameel frændi minn kom til mín, eins og Jahve hafði fyrir sagt, í
varðgarðinn og sagði við mig: Kaup þú akur minn í Anatót, sem er í
Benjamínslandi, því að þú átt erfða- og innlausnarréttinn — kaup þú
hann! Þá sá eg, að það var orð frá Jahve, [9] keypti akurinn í Anatót
af Hanameel frænda mínum og vó honum út andvirðið, seytján sikla
silfurs. [10] Og eg skrifaði það á bréf og innsiglaði það og tók votta að og
vó silfrið á vog. [11] Síðan tók eg kaupbréfið, hið innsiglaða — boðið
og skilmálana — og hið opna, [12] og fékk kaupbréfið Barúk Neríasyni,
Mahasejasonar, í viðurvist Hanameels frænda míns og í viðurvist vott-
anna, er skrifað höfðu undir kaupbréfið, í viðurvist allra þeirra Júda-
manna, er sátu í varðgarðinum, [13] og lagði svo fyrir Barúk í viðurvist
þeirra: [14] Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Tak þessi bréf,
þetta innsiglaða kaupbréf og þetta opna kaupbréf, og legg þau í leir-
ker, til þess að þau varðveitist lengi. [15] Því að svo segir Jahve her-
sveitanna, Ísraels Guð: Enn skulu hús keypt verða og akrar og víngarðar í þessu landi. [16] Og er eg hafði fengið Barúk Neríasyni kaup-
bréfið, bað eg til Jahve á þessa leið: [17] Æ, drottinn Jahve, sjá, þú
hefir með þínum mikla mætti og útrétta armlegg gjört himin og jörð;
þér er enginn hlutur um megn! [18] Þú sem auðsýnir miskunn þúsund-
um og geldur misgjörð feðranna í skaut sonum þeirra eftir þá, — þú
mikli, voldugi Guð, er nefnist Jahve hersveitanna, [19] mikill í ráðum og
máttugur í athöfnum, þú hvers augu standa opin yfir öllum vegum mann-
anna barna, til þess að gjalda sérhverjum eftir breytni hans og eftir ávexti
verka hans, [20] þú sem hefir gjört tákn og undur á Egiptalandi og alt fram á
þennan dag, bæði á Ísrael og á öðrum mönnum, og afrekað þér mikið nafn
fram á þennan dag. [21] Og þú fluttir þjóð þína Ísrael af Egiptalandi með
táknum og undrum og með sterkri hendi og útréttum armlegg og mikilli
skelfingu [22] og gafst þeim þetta land, er þú sórst feðrum þeirra að gefa
þeim, land, sem flýtur í mjólk og hunangi. [23] En er þeir voru komnir
inn í það og höfðu tekið það til eignar, þá hlýddu þeir ekki þinni
raustu og breyttu ekki eftir lögmáli þínu, gjörðu ekki neitt af því, er
þú hafðir boðið þeim að gjöra; þá lézt þú alla þessa ógæfu þeim að
höndum bera. [24] Sjá, sóknarvirkin eru þegar komin að borginni, til
að vinna hana, og borgin er fyrir sakir sverðs, hungurs og drepsóttar
seld á vald Kaldea, sem á hana herja, og það, sem þú hótaðir, er fram

**32, 2:** kap. 37, 21; 38, 13. **3:** kap. 34, 2; 38, 3. **4:** kap. 34, 3; 52, 9 n. **7:** Rut 4, 3 n. **17:** 1 Mós. 18, 14. **18:** 2 Mós. 20, 5. 6; 34, 7. **19:** kap. 16, 17; 17, 10.

komið, og sjá, þú horfir á það. [25] Og þó sagðir þú við mig, drottinn Jahve: Kaup þér akurinn fyrir silfur og tak votta að! — þar sem þó borgin er seld á vald Kaldea.

[26] Þá kom orð Jahve til Jeremía, svo hljóðandi: [27] Sjá, eg er Jahve, Guð alls holds — er mér nokkur hlutur um megn? [28] Fyrir því segir Jahve svo: Sjá, eg sel þessa borg á vald Kaldea og á vald Nebúkadrezars Babel-konungs, að hann vinni hana, [29] og Kaldear, sem herja á þessa borg, munu brjótast inn í hana, og leggja eld í þessa borg og brenna hana — og húsin, þar sem þeir á þökunum færðu Baal reykelsisfórnir og færðu öðrum guðum dreypifórnir, til þess að egna mig til reiði.
[30] Því að Ísraelsmenn og Júdamenn hafa frá æsku sinni verið vanir að gjöra það eitt, sem mér mislíkaði; því að Ísraelsmenn hafa aðeins egnt mig til reiði með handaverkum sínum — segir Jahve; [31] já, þessi borg hefir verið mér tilefni til reiði og gremi frá þeim degi, er hún var reist, alt fram á þennan dag, svo að eg verð að taka hana burt frá augliti mínu, [32] sökum allrar ilsku Ísraelsmanna og Júdamanna, er þeir hafa í frammi haft, til þess að egna mig til reiði: þeir, konungar þeirra, höfðingjar þeirra, prestar þeirra og spámenn þeirra og Júdamenn og Jerúsalembúar. [33] Þeir sneru við mér bakinu, en ekki andlitinu, og þótt eg fræddi þá seint og snemma, þá hlýddu þeir ekki, svo að þeir tækju umvöndun. [34] Heldur reistu þeir viðurstygðir sínar upp í húsi því, sem kent er við nafn mitt, til þess að saurga það. [35] Þeir bygðu Baal fórnarhæðir í Hinnomssonardal, til þess að láta sonu sína og dætur ganga gegnum eldinn Mólok til handa, — sem eg hefi ekki boðið þeim og mér hefir ekki í hug komið, að þeir mundu fremja slíka svívirðing, til þess að tæla Júda til syndar.

[36] Og nú — fyrir því segir Jahve, Ísraels Guð, svo um þessa borg, er þér segið að seld sé fyrir sverð, hungur og drepsótt á vald Babelkonungs: [37] Sjá, eg safna þeim saman úr öllum þeim löndum, þangað sem eg hefi rekið þá í reiði minni og heift og í mikilli gremi, og læt þá snúa aftur hingað og búa hér óhulta. [38] Þá skulu þeir vera mín þjóð og eg skal vera þeirra Guð, [39] og eg vil gefa þeim eitt hjarta og eina breytni, svo að þeir óttist mig alla daga, þeim sjálfum til heilla og sonum þeirra eftir þá. [40] Og eg vil gjöra við þá eilífan sáttmála, að snúa aldrei frá þeim með velgjörðir mínar, og eg vil leggja ótta fyrir mér í hjörtu þeirra, til þess að þeir víki ekki frá mér. [41] Og það skal verða unun mín að gjöra vel við þá, og eg mun gróðursetja þá trúlega í þessu landi, af öllu hjarta og af allri sálu. [42] Því að svo segir Jahve: Eins og eg hefi leitt yfir þessa þjóð alla þessa miklu óhamingju, svo leiði eg og yfir þá alla þá hamingju, sem eg heiti þeim. [43] Og akrar munu aftur keyptir verða í þessu landi, sem þér segið um: Það er auðn, mannlaust og skepnulaust! Það er selt á vald Kaldea! [44] Akra munu menn kaupa fyrir silfur og skrifa kaupbréf og innsigla og taka votta að, bæði í Benjamínslandi og í umhverfi Jerúsalem og í Júdaborgum og í fjallborgunum og í borgunum á sléttlendinu og í borgunum í suðurlandinu, því að eg mun leiða heim aftur hina herleiddu menn þeirra — segir Jahve.

33 Og orð Jahve kom til Jeremía annað sinn, þá er hann enn var innilokaður í varðgarðinum, svo hljóðandi: [2] Svo segir Jahve, sá er framkvæmir það, Jahve, sá er upphugsar það, til þess að

**25:** v. 7. **27:** 4 Mós. 16, 22. **29:** kap. 19, 13. **32:** kap. 2, 26. **34:** kap. 7, 30. **35:** kap 7, 31. 3 Mós. 18, 21. **39:** Esek. 11, 19 n. **42:** kap. 31, 28. **43:** v. 15. — **33, 1:** kap. 32, 2.

mun hinn frái forða sér, né kappinn komast undan; norður frá, á
bökkum Evfrat-fljóts, hrasa þeir og falla. 7 Hver var það, sem belgdist
upp eins og Níl, hvers vötn komu æðandi eins og fljót? 8 Egiptaland
belgdist upp eins og Níl og vötn þess komu æðandi eins og fljót, og
það sagði: Eg vil stíga upp, þekja landið, eyða borgir og íbúa þeirra.
9 Komið, hestar, og æðið, vagnar, og kapparnir leggi af stað, Blálend-
ingar og Pút-menn, sem bera skjöld, og Lúdítar, sem benda boga!
10 En sá dagur er hefndardagur drotni, Jahve hersveitanna, að
hann hefni sín á mótstöðumönnum sínum. Þá mun sverðið eta og
seðjast og drekka sig drukkið af blóði þeirra; því að drottinn, Jahve
hersveitanna, heldur fórnarhátíð í landinu norður frá, við Evfrat-fljót.
11 Far upp til Gílead og sæk smyrsl, þú mærin, dóttirin Egiptaland!
Til einskis munt þú viðhafa mörg læknislyf, enginn plástur er til
handa þér! 12 Þjóðirnar fréttu smán þína, og jörðin er full af harma-
kveini þínu, því að einn kappinn hrasaði um annan, féllu báðir jafnsaman.

13 Orðið, sem Jahve talaði til Jeremía spámanns, um það að Ne-
búkadrezar Babel-konungur mundi vinna sigur á Egiptalandi.
14 Kunngjörið í Egiptalandi og boðið í Migdól, já boðið í Nóf og
Tahpanhes, segið: Gakk fram og gjör þig vígbúinn, því að sverðið hefir
þegar etið umhverfis þig! 15 Hví eru þínir sterku menn að velli lagð-
ir? Þeir fengu eigi staðist, því að Jahve kollvarpaði þeim; 16 hann lét marga
hrasa, og þeir féllu hver um annan þveran, svo að þeir sögðu: Á fætur,
og hverfum aftur til þjóðar vorrar, til ættlands vors, undan hinu víg-
freka sverði! 17 Þeir munu nefna Faraó, Egiptalands konung: »Tor-
tíming! — hann lét hinn hentuga tíma líða hjá«. 18 Svo sannarlega
sem eg lifi, segir konungurinn, — Jahve hersveitanna er nafn hans: Líkur
Tabor meðal fjallanna og líkur Karmel við sjóinn mun hann koma.
19 Gjör þér áhöld til brottfarar, þú sem þar býr, dóttirin Egiptaland;
því að Nóf mun verða að auðn og hún mun verða brend og verða
mannauð. 20 Egiptaland er mjög fögur kvíga, kleggjar úr norðri koma
yfir hana. 21 Jafnvel málaliðið, sem það hefir hjá sér, eins og alikálfa
— já, jafnvel það snýr við, flýr alt saman, fær eigi staðist.
Því að glötunardagur þeirra er yfir þá kominn, hegningartími
þeirra. 22 Rödd þess er orðin eins og þruskið í höggorminum, sem skríður
burt; því með herliði bruna þeir áfram og með öxum ryðjast þeir inn
á það, eins og viðarhöggsmenn. 23 Þeir höggva upp skóg þess — segir
Jahve — því að um hann verður ekki farið; því að þeir eru fleiri en
engisprettur og á þá verður engri tölu komið. 24 Dóttirin Egiptaland
varð til skammar, hún var seld á vald þjóð að norðan.
25 Jahve hersveitanna, Ísraels Guð, segir: Sjá, eg vitja Amóns frá
Nó og Faraós og þeirra, sem á hann treysta, 26 og sel þá á vald þeirra,
er sækjast eftir lífi þeirra, og á vald Nebúkadrezars Babel-konungs og
á vald þjóna hans. En eftir það skal það bygt vera, eins og fyrri á
dögum — segir Jahve.
27 En óttast þú ekki, þjónn minn Jakob, og hræðst þú ekki, Ísrael,
því að eg frelsa þig úr fjarlægu landi og niðja þína úr landinu, þar
sem þeir eru herleiddir, til þess að Jakob hverfi heim aftur og njóti
hvíldar og búi óhultur, án þess nokkur hræði hann. 28 Óttast þú ekki,
þjónn minn Jakob — segir Jahve — því að eg er með þér! Því að
eg vil gjöreyða öllum þeim þjóðum, er eg hefi rekið þig til; en þér vil
eg ekki gjöreyða, heldur vil eg hirta þig í hófi; en eg vil ekki láta þér
með öllu óhegnt.

8: kap. 47, 2. Jes. 8, 7 n. 10: Jes. 34, 5. 6. 16: kap. 50, 16. 18: kap. 48, 15. 25: Nah. 3, 8. Jer. 43, 12. 26: Esek. 29, 13 n. 27: kap. 30, 10 n. 28: kap. 10, 24.

47 Þetta birtist Jeremía spámanni sem orð Jahve um Filista,
áður en Faraó vann Gaza. [2] Svo segir Jahve: Sjá, vatn kemur
streymandi úr norðri og verður að á, sem flæðir yfir; það flóir yfir
landið og það, sem í því er, yfir borgir og íbúa þeirra, svo að menn
æpa hátt og allir íbúar landsins hljóða. [3] Vegna dynsins af hófastappi
hesta hans, vegna skröltsins í vögnum hans, glymsins í hjólum hans,
líta feðurnir ekki við til barna sinna, af því að hendur þeirra eru
orðnar lémagna, [4] vegna dagsins, sem kominn er til að eyða öllum
Filistum, til að uppræta fyrir Týrus og Zídon sérhvern hjálparmann,
sem enn er eftir. Því að Jahve mun eyða Filistum, leifum Kaftór-
strandar. [5] Gaza er orðin sköllótt, Askalon í eyði lögð; þér leifar
Enakíta, hversu lengi ætlið þér að rista á yður skinnsprettur? [6] Æ,
sverð Jahve, hve lengi ætlar þú að vera hvíldarlaust? Drag þig aftur
í slíðrir þínar, still þig og hljóðna! [7] Hvernig ætti það að hvílast, þar
sem Jahve hefir gefið því skipun? Til Askalon og til strandar hafsins,
— þangað hefir hann ætlað því för.

48 Um Móab. Svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð:
Vei yfir Nebó, því að hún er eydd, orðin til skammar, Kirjataím
er unnin; háborgin er orðin til skammar og skelfd. [2] Frægð Móabs er
farin. Í Hesbon brugga menn ill ráð gegn borginni: »Komið, vér skul-
um uppræta hana, svo að hún sé eigi framar þjóð!« Einnig þú,
Madmen, munt gjöreydd verða, sverðið eltir þig! [3] Neyðarkvein heyr-
ist frá Hórónaím: »Eyðing og ógurleg tortíming!« [4] Móab er í eyði
lagður; þeir láta neyðarkvein heyrast alt til Zóar; [5] því að grátandi
ganga þeir upp stíginn hjá Lúkít, já, í hlíðinni hjá Hórónaím heyra
menn neyðarkvein tortímingarinnar. [6] Flýið, forðið lífi yðar, og verðið
eins og einirunnur í eyðimörkinni! [7] Já, af því að þú reiddir þig á
káksmíðar þínar og fjársjóðu þína, verður þú og unnin, og Kamos
verður að fara í útlegð, prestar hans og höfðingjar hver með öðrum.
[8] Og eyðandinn kemur yfir hverja borg, engin borg kemst undan. Dal-
urinn ferst og sléttlendið eyðilegst, eins og Jahve hefir sagt. [9] Fáið
Móab vængi, því að á flugferð skal hann brott fara; og borgir hans
skulu verða að auðn og enginn í þeim búa. [10] Bölvaður sé sá, sem
slælega framkvæmir verk Jahve, og bölvaður sé sá, sem synjar sverði
sínu um blóð! [11] Móab hefir lifað í friði frá æsku og legið í náðum á
dreggjum sínum; honum hefir ekki verið helt úr einu kerinu í annað,
og aldrei hefir hann farið í útlegð; fyrir því hefir bragðið af honum
haldist og ilmurinn af honum eigi breyzt. [12] Fyrir því, sjá, þeir dagar
munu koma, segir Jahve, að eg sendi honum tæmendur, sem tæma
hann; þeir skulu hella úr kerum hans og mölva sundur krúsir hans.
[13] Þá mun Móab verða til skammar vegna Kamoss, eins og Ísraels hús
varð til skammar vegna Betel, er það treysti á. [14] Hvernig getið þér
sagt: Vér erum hetjur og öflugir hermenn? [15] Eyðandi Móabs og borga
hans kemur þegar, og úrval æskumanna hans hnígur niður til slátrun-
ar, segir konungurinn; Jahve hersveitanna er nafn hans. [16] Eyðilegging
Móabs er komin nærri og óhamingja hans hraðar sér mjög. [17] Vottið
honum hluttekning, allir þér nábúar hans, og allir þér, sem þekkið
nafn hans. Segið: Hvernig brotnaði stafurinn sterki, sprotinn dýrlegi!
[18] Stíg niður úr vegsemdinni og sezt í duftið, þú sem þar býr, dóttirin
Díbon; því að eyðandi Móabs kemur í móti þér, eyðir vígi þín.
[19] Gakk út á veginn og skygnst um, þú sem býr í Aróer, — spyr flótta-
manninn og þá konu, er undan hefir homist, seg: Hvað hefir til borið?

47, 1: Esek. 25, 15 n. Am. 1, 6 n. Zef. 2, 5 n. 2: kap. 46, 8. — 48, 1: Jes. 15—16.
7: 4 Mós. 21, 29. Jer. 49, 3. 11: Zef. 1, 12. 13: 1 Kong. 12, 29.

20 Móab varð til skammar, já skelfdist; hljóðið og kveinið! Kunn-
gjörið hjá Arnon, að Móab sé eyddur. 21 Já, dómur er genginn yfir
sléttu-landið, yfir Hólon og Jahza og Mefaat, 22 yfir Díbon, Nebó og
Bet-Díblataím, 23 yfir Kirjataím, Bet-Gamúl og Bet-Meon, 24 yfir Keríót,
Bozra og allar borgir Móabslands, fjær og nær. 25 Horn Móabs er af-
höggið og armur hans brotinn, — segir Jahve.
26 Gjörið hann drukkinn — því að gegn Jahve hefir hann miklast
—, til þess að Móab skelli ofan í spýju sína og verði líka að athlægi.
27 Eða var Ísrael þér eigi hlátursefni? Var hann gripinn með þjófum,
þar sem þú hristir höfuðið í hvert sinn sem þú talar um hann? 28 Fyr-
irlátið borgirnar og setjist að í klettaskorum, þér íbúar Móabs, og verið
eins og dúfan, sem hreiðrar sig hinumegin á gjárbarminum. 29 Heyrt
höfum vér um drambsemi Móabs — hann er mjög hrokafullur — um
hroka hans, drambsemi, ofmetnað og yfirlæti hans. 30 Já, eg þekki —
segir Jahve — ofsa hans: svo marklaus eru stóryrði hans, svo mark-
laust það, er þeir gjöra. 31 Fyrir því kveina eg yfir Móab og hljóða
yfir Móab öllum; yfir mönnunum frá Kír-Heres mun andvarpað verða.
32 Meir en grátið verður yfir Jaser, græt eg yfir þér, vínviður Síbma,
greinar þínar fóru yfir hafið, komust til Jaser; á sumargróða þinn og
vínberjatekju hefir eyðandinn ráðist. 33 Fögnuður og kæti er horfin úr
aldingörðunum og úr Móabslandi. Vínið læt eg þverra í vínþröngunum,
troðslumaðurinn mun eigi framar troða, fagnaðarópið er ekkert fagnaðaróp.
34 Frá hinni kveinandi Hesbon alt til Eleale, alt til Jahaz láta þeir raust sína
glymja, frá Zóar alt til Hórónaím, alt til Eglat-Selisía; því að einnig Nim-
rímvötn verða að öræfum. 35 Og eg eyði úr Móab — segir Jahve — sér-
hverjum þeim, sem stígur upp á fórnarhæð og færir guði sínum reyk-
elsi. 36 Fyrir því kveinar hjarta mitt yfir Móab eins og hljóðpípur og
hjarta mitt kveinar yfir mönnunum frá Kír-Heres eins og hljóðpípur;
fyrir því mistu þeir það, er þeir höfðu dregið saman. 37 Því að hvert
höfuð er sköllótt orðið og alt skegg afrakað; á öllum handleggjum
eru skinnsprettur og hærusekkur um mjaðmir. 38 Uppi á öllum þökum
í Móab og á torgunum heyrist ekki annað en harmakvein, því að eg
hefi brotið Móab eins og ker, sem engum manni geðjast að, — segir
Jahve. 39 Hversu er hann skelfdur! Hljóðið! Hversu hefir Móab snúið
baki við! Fyrirverð þig! Og Móab skal verða til athlægis og skelf-
ingar öllum nágrönnum sínum. 40 Því að svo segir Jahve: Sjá, hann
kemur fljúgandi eins og örn og breiðir vængi sína út yfir Móab; 41 borg-
irnar eru teknar og vígin unnin, og hjarta Móabs kappa mun á þeim
degi verða eins og hjarta konu, sem er í barnsnauð. 42 En Móab mun
afmáður verða, svo að hann verði eigi þjóð framar, því að hann hefir
miklast gegn Jahve. 43 Geigur, gröf og gildra koma yfir þig, Móabs-
búi — segir Jahve. 44 Sá, sem flýr undan geignum, fellur í gröfina,
og sá, sem kemst upp úr gröfinni, festist í gildrunni. Því að þetta leiði
eg yfir Móab árið, sem þeim verður hegnt — segir Jahve. 45 Í skugga
Hesbon nema flóttamenn staðar magnlausir, en eldur brýzt út úr Hesbon
og logi úr höll Síhons; hann eyðir þunnvanganum á Móab og hvirfl-
inum á hávaðamönnum. 46 Vei þér, Móab! Það er úti um lýð Kamoss!
Því að synir þínir munu verða fluttir burt til herleiðingar og dætur
þínar hernumdar. 47 En eg mun snúa við högum Móabs, þá er fram
líða stundir — segir Jahve. Hingað nær dómur Móabs.

25: Sálm. 75, 11. 26: kap. 25, 27. 27: kap. 2, 26. 29: Jes. 16, 6. 34: Jes. 15, 4 n. 36: Jes. 15, 7. 37: Jes. 15, 2 n. Jer. 47, 5. 38: kap. 22, 28. 40: kap. 49, 22. 43: Jes. 24, 17 n. 45: 4 Mós. 24, 17. 47: kap. 49, 39; 46, 26.

49 Um Ammóníta. Svo segir Jahve: Á þá Ísrael enga sonu,
eða á hann engan erfingja? Hví hefir Milkóm erft Gað og hví
hefir lýður hans sezt að í borgum hans? 2 Fyrir því, sjá, þeir dagar
munu koma — segir Jahve — að eg læt heróp heyrast til Rabba, borg-
ar Ammóníta, og hún skal verða að grjóthrúgu og dæturnar eyðast í
eldi, og þá skal Ísrael erfa aftur erfingja sína, segir Jahve.
3 Hljóða þú, Hesbon, yfir því að borgin er unnin! Kveinið Rabba-
dætur! Gyrðist hærusekk, harmið og reikið um innan fjárgirðinganna;
því að Milkóm verður að fara í útlegð, prestar hans og höfðingjar hverjir
með öðrum. 4 Hví stærir þú þig af dölunum, af frjósemi dals þíns,
fráhverfa dóttir, sem reiðir sig á fjársjóðu sína og segir: Hver skyldi
ráða á mig? 5 Sjá, eg læt skelfingu koma yfir þig — segir drottinn,
Jahve hersveitanna — úr öllum áttum í kring um þig; og þér skuluð
verða reknir brott, hver það sem horfir, og enginn safnar þeim saman,
er flýja. 6 En síðar meir mun eg leiða heim aftur hina herleiddu af
Ammónítum — segir Jahve.

7 Um Edóm. Svo segir Jahve hersveitanna: Er þá engin vizka fram-
ar í Teman? Eru góð ráð horfin hinum hygnu, er vizka þeirra þrotin?
8 Flýið, hverfið brott, felið yður djúpt niðri, þér íbúar Dedans! Því að
Esaús glötun læt eg yfir hann koma, þá er eg hegni honum. 9 Ef vín-
lestursmenn ráðast á þig, þá skilja þeir ekki neinn eftirtíning eftir; ef
þjófar koma að þér á náttarþeli, þá skemma þeir, þar til er þeim nægir.
10 En af því að eg sjálfur afhjúpa Esaú, gjöri ber fylgsni hans, svo að
hann getur ekki falið sig, þá verða niðjar hans unnir og frændþjóðir
hans og nábúar, og úti er um hann. 11 Yfirgef munaðarleysingja þína,
— eg mun halda lífinu í þeim, og ekkjur þínar mega reiða sig á mig!
12 Já, svo segir Jahve: Sjá, þeim sem eigi bar að drekka bikarinn,
þeir urðu að drekka hann — og þú ættir að sleppa óhegndur? Þú
munt ekki sleppa óhegndur, heldur skalt þú drekka. 13 Því að eg sver
við sjálfan mig — segir Jahve —, að Bozra skal verða að skelfing,
háðung, undrun og formæling, og allar borgir hennar skulu verða að
eilífum rústum. 14 Eg hefi fengið vitneskju frá Jahve og boðberi er
sendur meðal þjóðanna! Safnist saman og farið gegn honum og búist
til bardaga! 15 Því sjá, eg vil gjöra þig lítinn meðal þjóðanna, fyrirlit-
inn meðal mannanna. 16 Skelfing komi yfir þig! Á tálar hefir þig dreg-
ið hroki hjarta þíns, þú sem átt bygð í klettaskorum, situr á háa hnúkn-
um. Þó að þú bygðir hreiður þitt hátt, eins og örninn, þá steypi eg
þér þaðan niður — segir Jahve. 17 Og Edóm skal verða að skelfingu;
hver sem fer þar um mun skelfast og hæðast að öllum áföllunum, er
hann hefir orðið fyrir. 18 Eins og Sódómu og Gómorru og nágranna-
borgunum var umturnað, segir Jahve, svo skal og enginn maður búa
þar, né nokkurt mannsbarn hafast þar við. 19 Sjá, eins og ljón, sem
kemur út úr kjarrinu á Jórdanbökkum og stígur upp á sígrænt engið,
svo mun eg skyndilega reka hann burt þaðan, og hvern þann, sem út-
valinn er, mun eg setja yfir hana. Því að hver er minn líki? og hver
vill stefna mér? og hver er sá hirðir, er fái staðist fyrir mér? 20 Heyrið
því ráðsályktun Jahve, er hann hefir gjört viðvíkjandi Edóm, og þær
fyrirætlanir, er hann hefir í huga viðvíkjandi Teman-búum: Sannarlega
munu þeir draga þá burt — hina lítilmótlegustu úr hjörðinni. Sannar-
lega skal haglendi þeirra verða agndofa yfir þeim. 21 Af dyn falls þeirra
nötrar jörðin; neyðarkveinið — ómurinn af því heyrist við Rauðahafið.
22 Sjá, sem örn stígur hann upp og flýgur hingað og breiðir út vængi

**49, 1:** Esek. 21, 28 n. 25, 2 n. Am. 1, 13 n. 1 Kong. 11, 5. **3:** kap. 48, 7. **6:** kap. 48, 47. **7:** Esek. 25, 12 n. Am. 1, 11. Óbad. 1 n. **8:** v. 30; kap. 50, 31. **9:** Óbad. 5. **12:** kap. 25, 28. 29. **14:** Óbad. 1 n. **17:** kap. 50, 13. **19:** kap. 50, 44 n. 12, 5.

sína yfir Bozra, og hjarta Edóms kappa mun á þeim degi verða eins
og hjarta konu, sem er í barnsnauð.

23 Um Damaskus. Hamat og Arpad eru agndofa, því að þær
hafa spurt ill tíðindi; þær eru hræddar, fullar af óró, eins og hafið,
sem getur ekki verið kyrt. 24 Damaskus er orðin huglaus, hefir snúist
á flótta, og ótti hefir gripið hana; angist og kvalir hafa altekið hana,
eins og jóðsjúka konu. 25 Hví var hún ekki yfirgefin, hin vegsamaða
borg, ununar-borgin mín? 26 Fyrir því verða nú æskumenn hennar að
falla á torgunum og allir hermenn hennar að farast á þeim degi —
segir Jahve hersveitanna. 27 Og eg kveiki eld við múra Damaskus, til
þess að hann eyði höllum Benhadads.

28 Um Kedar og konungsríki Hazórs, er Nebúkadrezar Babel-
konungur vann. Svo segir Jahve: Standið upp, farið á móti Kedar og
herjið á austurbyggja. 29 Tjöld þeirra og sauði munu þeir taka, og
tjalddúka þeirra og öll áhöld og úlfalda þeirra munu þeir flytja burt
frá þeim; þá munu menn hrópa yfir þeim: Skelfing alt um kring!
30 Leggið á flótta, flýið sem hraðast, felið yður djúpt niðri, þér íbúar
Hazórs — segir Jahve; því að Nebúkadrezar Babel-konungur hefir gjört
ráðsályktun gegn yður og hefir í huga ráðagjörð gegn yður. 31 Af stað!
farið á móti meinlausri þjóð, sem býr örugg — segir Jahve —, og hvorki
hefir hurðir né slagbranda; þeir búa einir sér. 32 Úlfaldar þeirra skulu
verða að ránfeng og mergð nautahjarða þeirra að herfangi, og eg mun
dreifa þeim fyrir öllum vindum, þeim hinum jarðarskornu, og láta ó-
gæfu hvaðan æfa yfir þá koma — segir Jahve. 33 Og Hazór skal verða
að sjakalabæli, að auðn um eilífð; enginn maður mun framar búa þar
og ekkert mannsbarn hafast þar við.

34 Þetta birtist Jeremía spámanni sem orð Jahve um Elam í upp-
hafi ríkisstjórnar Zedekía Júdakonungs: 35 Svo segir Jahve hersveit-
anna: Sjá, eg brýt sundur boga Elamíta, meginstyrk þeirra. 36 Og eg
hleypi á Elamíta fjórum vindum úr fjórum áttum himins og tvístra
þeim fyrir öllum þessum vindum, og engin skal sú þjóð til vera, að
þangað komi ekki flóttamenn frá Elam. 37 Og eg læt Elamíta skelfast
fyrir óvinum þeirra og fyrir þeim, er sækjast eftir lífi þeirra, og leiði
yfir þá óhamingju, mína brennandi reiði — segir Jahve — og sendi
sverðið á eftir þeim, unz eg hefi gjöreytt þeim. 38 Og eg reisi hásæti mitt
í Elam og eyði þaðan konungi og höfðingjum — segir Jahve. 39 En
þá er fram líða stundir mun eg snúa við högum Elams — segir Jahve.

50 Orðið, sem Jahve talaði um Babel, um land Kaldea, fyrir
munn Jeremía spámanns.
2 Kunngjörið það meðal þjóðanna og boðið það og setjið upp
merki! Boðið það, dyljið það ekki! Segið: Babel er unnin, Bel orð-
inn til skammar, Meródak niðurbrotinn; líkneski hennar eru orðin til
skammar, skurðgoð hennar niðurbrotin. 3 Því að þjóð kemur á móti
henni úr norðurátt, — hún gjörir land hennar að auðn, svo að enginn
maður býr þar framar; bæði menn og skepnur flýja, fara burt.
4 Á þeim dögum og á þeim tíma — segir Jahve — munu Ísraels-
menn koma, ásamt Júdamönnum; grátandi munu þeir ganga og leita
Jahve, Guðs þeirra. 5 Eftir Zíon munu þeir spyrja, þangað stefna þeir;

---

**22:** kap. 48, 40. **23:** Jes. 17, 1 n. Am. 1, 3 n. **26:** kap. 50, 30. **28:** Jes. 21, 13 n.
**30:** v. 8. **33:** v. 18. **34:** kap. 25, 25. Jes. 21, 2. **39:** kap. 48, 47. — **50, 1:** Jes. 13,
14. **4:** kap. 3, 18; 31, 9.

þeir koma og ganga Jahve á hönd með eilífum sáttmála, sem ekki
mun gleymast.
[6] Þjóð mín var sem týndir sauðir; hirðar þeirra leiddu þá afvega,
tældu þá upp í fjöll; þeir reikuðu af hálsi á hæð, gleymdu bóli sínu.
[7] Allir, sem hittu þá, átu þá, og mótstöðumenn þeirra sögðu: Vér bök-
um oss enga sekt! — fyrir það að þeir syndguðu gegn Jahve, haglendi
réttlætisins og von feðra þeirra, Jahve.
[8] Flýið burt úr Babel og farið burt úr landi Kaldea og verið sem
hafrar á undan hjörðinni. [9] Því að sjá, eg læt upp rísa og móti Babel
fara safn mikilla þjóða frá norðlægum löndum, og þær munu skipa sér
móti henni; þaðan mun hún unnin verða. Örvar þeirra eru eins og
giftusöm hetja, er ekki hverfur aftur við svo búið. [10] Og Kaldea skal
verða að herfangi, allir, sem hana ræna, fá nægju sína — segir Jahve.
[11] Já gleðjist, já fagnið, þér ránsmenn eignar minnar, — já stökkvið eins
og þreskjandi kvíga og hvíið eins og stóðhestar. [12] Móðir yðar verður
mjög til skammar, hún, sem ól yður, má fyrirverða sig, — sjá, hin
síðasta meðal þjóðanna, eyðimörk, þurt land, heiði! [13] Vegna reiði
Jahve mun hún verða óbygð og verða algjörlega að auðn; hvern, sem
fer fram hjá Babel, mun hrylla við og hann mun hæðast að öllum
áföllunum, sem hún hefir orðið fyrir.
[14] Skipið yður niður kring um Babel, allir þér bogmenn! Skjótið
á hana, sparið ekki örvarnar; því að gegn Jahve hefir hún syndgað.
[15] Ljóstið upp ópi hringinn í kring um hana: Hún hefir gefist upp,
stoðir hennar eru fallnar, múrar hennar niður rifnir, því að það er
hefnd Jahve. Hefnið yðar á henni. Gjörið við hana eins og hún hefir
til gjört. [16] Afmáið í Babel sáðmanninn og þann, er sigðina ber um
uppskerutímann. Fyrir hinu vígfreka sverði munu þeir hver og einn
hverfa til sinnar þjóðar og flýja hver og einn til síns lands.
[17] Ísrael er sem burtflæmdur sauður, er ljón hafa elt: fyrst át
Assýríu-konungur hann og nú síðast hefir Nebúkadrezar Babel-kon-
ungur nagað bein hans. [18] Fyrir því segir Jahve hersveitanna, Ísraels
Guð, svo: Sjá, eg vitja Babel-konungs og lands hans, eins og eg vit-
jaði Assýríu-konungs, [19] og leiði Ísrael aftur heim í haglendi sitt, og
hann skal vera á beit á Karmel og í Basan og seðja hungur sitt á
Efraím-fjöllum og í Gílead. [20] Á þeim dögum og á þeim tíma — segir
Jahve — mun leitað verða að sekt Ísraels, en hún er ekki framar til,
og að syndum Júda, en þær finnast ekki; því að eg mun fyrirgefa þeim,
sem eg læt eftir verða.
[21] Móti Tvíuppreisnarlandi — far móti því og gegn íbúum Hegn-
ingarborgar; eyð þeim og helga þá banni — segir Jahve — og gjör
með öllu svo sem eg hefi fyrir þig lagt. [22] Heyr, stríð í landinu og
mikil eyðilegging! [23] Hversu er hamarinn, sem laust alla jörðina,
höggvinn af skafti og sundurbrotinn! Hversu er Babel orðin að skelf-
ingu meðal þjóðanna! [24] Eg lagði snöru fyrir þig og þú festist, Babel,
og vissir ekki af. Þú náðist og þú varst gripin, því að þú hafðir dirfst
að berjast gegn Jahve. [25] Jahve hefir lokið upp vopnabúri sínu og
tekið út vopn reiði sinnar, því að drottinn, Jahve hersveitanna, hefir
verk með höndum í landi Kaldea. [26] Komið móti henni úr öllum átt-
um, ljúkið upp hlöðum hennar, kastið henni eins og bundinum í bing
og helgið hana banni! Látið engar leifar af henni eftir verða! [27] Drepið
alla uxa hennar, — þeir skulu hníga niður til slátrunar. Vei þeim, því
að dagur þeirra er kominn, hegningartími þeirra. [28] Heyr, hér eru

---

8: kap. 51, 6. 45. Jes. 48, 20. 16: kap. 46, 16. Jes. 13, 14. 17: 2 Kong. 17, 6; 25,
1 n. 19: Mík. 7, 14. 20: kap. 31, 34.

menn, sem flúið hafa og komist undan frá Babel-landi, til þess að boða
í Zíon að Jahve, Guð vor, hefnir, hefnir fyrir musteri sitt.
[29] Bjóðið skyttum út gegn Babel, öllum þeim sem benda boga!
Setjið herbúðir alt í kring um hana! Látið engan komast undan!
Gjaldið henni eftir verkum hennar! Gjörið við hana að öllu svo sem
hún hefir til gjört; því að hún hefir ofmetnast gegn Jahve, gegn hin-
um Heilaga í Ísrael. [30] Fyrir því skulu æskumenn hennar falla á torg-
unum og allir hermenn hennar farast á þeim degi — segir Jahve.
[31] Sjá, eg ætla að finna þig, Drambsemi, segir drottinn, Jahve
hersveitanna —; því að dagur þinn er kominn, hegningartími þinn.
[32] Nú skal Drambsemi hrasa og falla, og enginn skal reisa hana á fætur,
og eg mun leggja eld í borgir hennar og hann skal eyða öllu því, sem
umhverfis hana er.
[33] Svo segir Jahve hersveitanna: Kúgaðir eru Ísraelsmenn og Júda-
menn allir saman, og allir þeir, er þá hafa herleitt, halda þeim föstum,
vilja ekki láta þá lausa. [34] En lausnari þeirra er sterkur, — Jahve her-
sveitanna heitir hann; hann mun reka mál þeirra með dugnaði, til
þess að hann speki jörðina, en óspeki Babel-búa. [35] Sverð komi yfir
Kaldea — segir Jahve — og yfir Babel-búa og yfir höfðingja hennar
og vitringa! [36] Sverð komi yfir þvaðrarana, svo að þeir standi eins og
afglapar! Sverð komi yfir kappa hennar, svo að þeir verði huglausir!
[37] Sverð komi yfir hesta hennar og vagna og yfir allan þjóðblendinginn,
sem í henni er, svo að þeir verði að konum! Sverð komi yfir fjár-
sjóðu hennar, svo að þeim verði rænt! [38] Sverð komi yfir vötn hennar,
svo að þau þorni! Því að skurðgoðaland er það, og þeir láta sem
vitfirringar með skelfingar-líkneskin. [39] Fyrir því munu urðarkettir búa
hjá sjökulum og strútsfuglar búa í henni; og hún skal ekki framar
bygð vera að eilífu, né þar verða búið frá kyni til kyns. [40] Eins og
Guð umturnaði Sódómu og Gómorru og nágrannaborgunum — segir
Jahve —, svo skal og enginn maður búa þar né nokkurt mannsbarn
hafast við í henni.
[41] Sjá, lýður kemur úr norðurátt og mikil þjóð og voldugir kon-
ungar rísa upp á útkjálkum jarðar. [42] Þeir bera boga og skotspjót;
þeir eru grimmir og sýna enga miskunn; háreysti þeirra er sem haf-
gnýr, og þeir ríða hestum, búnir sem hermenn til bardaga gegn þér,
dóttirin Babel. [43] Babel-konungur hefir fengið fregnir af þeim; hendur
hans eru magnlausar, angist hefir gripið hann, kvalir, eins og jóðsjúka
konu. [44] Sjá, eins og ljón, sem kemur út úr kjarrinu á Jórdanbökkum
og stígur upp á sígrænt engið, svo mun eg skyndilega reka þá burt
þaðan, og hvern þann, sem útvalinn er, mun eg setja yfir hana. Því
að hver er minn líki? og hver vill stefna mér? og hver er sá hirðir,
er fái staðist fyrir mér? [45] Heyrið því ráðsályktun Jahve, er hann hefir
gjört viðvíkjandi Babel, og þær fyrirætlanir, er hann hefir í huga við-
víkjandi landi Kaldea: Sannarlega munu þeir draga þá burt — hina
lítilmótlegustu úr hjörðinni. Sannarlega skal haglendið verða agndofa
yfir þeim. [46] Af ópinu: »Babel er unnin« nötrar jörðin, og neyðarkvein
heyrist meðal þjóðanna.
51 Svo segir Jahve: Sjá, eg vek hugmóð eyðanda nokkurs gegn
Babel og gegn íbúum Kaldeu [2] og sendi vinzara gegn Babel, að
þeir vinzi hana og tæmi land hennar. Þegar þeir umkringja hana á
óheilladegi, [3] skal enginn benda boga sinn né reigja sig í panzara sín-
um. Hlífið ekki æskumönnum hennar, helgið banni allan her hennar,
[4] svo að vegnir menn falli í landi Kaldea og sverði lagðir á strætum

**28:** kap. 51, 11. **30:** kap. 49, 26. **36:** Jes. 44, 25. **37:** kap. 51, 30. **39:** Jes. 13, 20. 21. **41:** kap. 6, 22 n. **44:** kap. 49, 19 n.

hennar. [5] Því að Ísrael og Júda er ekki yfirgefinn af Guði sínum,
Jahve hersveitanna, af því að land þeirra* er fult af sekt gegn hinum
Heilaga í Ísrael. [6] Flýið út úr Babel og hver og einn forði lífi sínu.
Látið eigi tortíma yður vegna misgjörða hennar; því að það er hefnd-
artími Jahve; hann endurgeldur henni eins og hún hefir til unnið.
[7] Babel var gullbikar í hendi Jahve, er gjörði alla jörðina drukna;
af víni hennar drukku þjóðirnar, fyrir því létu þjóðirnar sem þær væru
óðar. [8] Sviplega er Babel fallin og sundurmoluð; kveinið yfir henni!
Sækið smyrsl við kvölum hennar; má vera að hún verði læknuð.
[9] »Vér ætluðum að lækna Babel, en hún var ólæknandi; yfirgefið hana,
og förum hver til síns lands; því að refsidómur sá, er yfir hana gengur,
nær til himins og gnæfir við ský. [10] Jahve hefir leitt í ljós vort
réttláta málefni; komið, vér skulum kunngjöra í Zíon verk Jahve,
Guðs vors!«
[11] Fægið örvarnar, takið á yður skjölduna! Jahve hefir vakið
hugmóð Medíu-konunga; því að fyrirætlan hans er miðuð gegn Babel,
til þess að eyða hana; því að það er hefnd Jahve, hefnd fyrir musteri
hans. [12] Reisið merki gegn Babel-múrum! Aukið vörðinn! Skipið verði!
Setjið launsátur! Því að Jahve hefir ákveðið og framkvæmir það, er
hann hefir hótað Babel-búum. [13] Þú, sem býr við hið mikla vatnsfall,
auðug að fjársjóðum, — endadægur þitt er komið, alinin, þegar þig skal
af skera. [14] Jahve hersveitanna sver við sjálfan sig: Þótt eg hefði fylt þig
mönnum, eins og engisprettum, munu menn þó hefja siguróp yfir þér.
[15] Hann, sem gjört hefir jörðina með krafti sínum, skapað heim-
inn af speki sinni og þanið út himininn af hyggjuviti sínu, — [16] þegar
hann þrumar, svarar vatnagnýr í himninum, og hann lætur ský upp-
stíga frá endimörkum jarðar, hann gjörir leiftur til þess að búa rás
regninu og hleypir vindinum út úr forðabúrum hans. [17] Sérhver maður
stendur undrandi og skilur þetta ekki; sérhver gullsmiður hlýtur að
skammast sín fyrir líkneski sitt, því að hin steyptu líkneski hans eru
tál og í þeim er enginn andi; [18] hégómi eru þau, háðungar-smíði; þegar
hegningartími þeirra kemur, er úti um þau. [19] En hlutdeild Jakobs er
ekki þeim lík, heldur er hann skapari alls, og Ísrael er hans eignar-
kynkvísl; Jahve hersveitanna er nafn hans.
[20] Þú varst mér hamar, hervopn, til þess að eg gæti molað sundur
með þér þjóðir og eytt með þér konungsríki, [21] til þess að eg gæti
molað sundur með þér hesta og reiðmenn, til þess að eg gæti molað
sundur með þér vagna og þá, sem í þeim óku, [22] til þess að eg gæti
molað sundur með þér karla og konur, til þess að eg gæti molað
sundur með þér gamla og unga, til þess að eg gæti molað sundur
með þér æskumenn og meyjar, [23] til þess að eg gæti molað sundur
með þér hirða og hjarðir, til þess að eg gæti molað sundur með þér
akurmenn og sameyki þeirra, til þess að eg gæti molað sundur með
þér jarla og landstjóra! [24] En eg endurgeld Babel og öllum íbúum Kaldeu
alt það ilt, er þeir hafa gjört Zíon að yður áhorfandi — segir Jahve.
[25] Sjá, eg ætla að finna þig, þú Skaðræðisfjall — segir Jahve —
þú sem skaðræði vanst allri jörðinni, og eg útrétti hönd mína gegn
þér og velti þér ofan af hömrunum og gjöri þig að brendu fjalli; [26] úr
þér skulu menn ekki sækja hornsteina, né undirstöðusteina, heldur skalt
þú verða að eilífri auðn — segir Jahve.
[27] Reisið merki á jörðinni! Þeytið lúðurinn meðal þjóðanna! Vígið
þjóðir móti henni! Kallið móti henni konungsríki Ararats, Minní og

---

**51, 5:** * Þ. e. Kaldea. **6:** kap. 50, 8. **7:** kap. 25, 15 n. **8:** Jes. 21, 9. **9:** Opinb. 18, 5. **11:** kap. 50, 28. **13:** Opinb. 17, 1. **15:** kap. 10, 12—16. **20:** kap. 50, 23. **26:** kap. 25, 12.

Askenas! Skipið herforingja móti henni! Færið fram hesta, líka byrst-
um engisprettum! [28] Vígið þjóðir móti henni, konunga Medíu, jarla
hennar og landstjóra og alt land ríkis þeirra.
[29] Þá nötrar jörðin og bifast, því að fyrirætlanir Jahve gegn Babel
rætast, með því að hann gjörir Babel-land að auðn, svo að enginn býr
þar. [30] Kappar Babel hætta við að berjast, halda kyrru fyrir í virk-
junum, hreysti þeirra er þorrin, þeir eru orðnir að konum; menn hafa
lagt eld í híbýli hennar, slagbrandar hennar eru brotnir. [31] Hlaupa-
sveinn hleypur móti hlaupasveini og sendiboði móti sendiboða, til þess
að boða Babel-konungi að borg hans sé unnin öllumegin, [32] brýrnar
teknar, sefmýrarnar brendar í eldi og hermennirnir skelfdir.
[33] Já, svo segir Jahve hersveitanna, Ísraels Guð: Dóttirin Babel
líkist láfa á þeim tíma, þá er hann er troðinn; innan skamms kemur
og uppskerutími fyrir hana. [34] »Nebúkadrezar Babel-konungur hefir etið
oss, hefir eytt oss; hann gjörði úr oss tómt ílát, svalg oss eins og
dreki, kýldi vömb sína og rak oss burt úr unaðslandi voru!« [35] Það
ofbeldi og sú misþyrming, sem eg hefi orðið fyrir, komi yfir Babel —
segi Zíonbúar —, og blóð mitt yfir íbúa Kaldeu — segi Jerúsalem.
[36] Fyrir því segir Jahve svo: Sjá, og tek að mér málefni þitt og
hefni fyrir þig; eg þurka upp vatn hennar og læt uppsprettu hennar
þorna. [37] Og Babel skal verða að grjóthrúgu, að sjakalabæli, að skelfing
og háði, enginn skal þar búa. [38] Þeir öskra allir eins og ung ljón,
gnöllra eins og ljónshvolpar. [39] En þegar græðgihitinn er kominn í
þá, vil eg búa þeim veizlu og gjöra þá drukna, til þess að þeir verði
kátir; því næst skulu þeir sofna eilífum svefni og ekki vakna framar! —
segir Jahve. [40] Eg læt þá hníga sem lömb til slátrunar, sem hrúta á-
samt höfrum.
[41] Hversu varð Sesak unnin og tekin, hún er fræg var um víða
veröld! Hversu er Babel orðin að skelfingu meðal þjóðanna! [42] Sjór-
inn gekk yfir Babel, hún huldist gnýjandi bylgjum hans; [43] borgir henn-
ar urðu að auðn, að þurru landi og heiði; enginn maður mun
framar búa þar né nokkurt mannsbarn fara þar um. [44] Og eg
vitja Bels í Babel og tek út úr munni hans það, er hann hefir gleypt,
og eigi skulu þjóðir framar streyma til hans. Babel-múr hrynur einnig.
[45] Far út úr henni, lýður minn, og hver og einn forði lífi sínu undan
hinni brennandi reiði Jahve. [46] Látið ekki hugfallast og verðið ekki
hræddir við tíðindin, sem heyrast í landinu, og þegar þessi tíðindi koma
þetta árið og því næst önnur tíðindi annað árið, og ofbeldi er framið í
landinu og drotnari rís mót drotnara. [47] Fyrir því, sjá, þeir dagar koma,
að eg vitja skurðgoða Babel, og þá mun alt land hennar verða til
skammar og allir vegnir menn hennar falla inni í henni. [48] Þá mun
himinn og jörð og alt, sem í þeim er, hlakka yfir Babel; því að úr
norðri brjótast eyðendurnir inn yfir hana — segir Jahve. [49] Babel verð-
ur og að falla, þér Ísraels vegnu menn, eins og vegnir menn hafa orðið
að falla um alla jörðina vegna Babel. [50] Þér, sem undan sverðinu hafið
komist, haldið þér áfram, standið ekki við. Minnist Jahve í fjarlægð
og hafið Jerúsalem í huga. [51] Vér erum orðnir til skammar, því að
vér urðum varir við fyrirlitningu; blygðun hylur auglit vor, því að út-
lendir menn hafa brotist inn yfir helgidóma musteris Jahve. [52] Fyrir
því, sjá, þeir dagar munu koma — segir Jahve —, að eg vitja skurð-
goða hennar, og sverði lagðir menn skulu stynja í öllu landi hennar.
[53] Þó að Babel hefji sig til himins og þó að hún gjöri vígi sitt svo hátt,
að það verði ókleift, þá munu þó frá mér koma eyðendur yfir hana —

**30:** kap. 50, 37. **39:** v. 57. Jes. 21, 5. **41:** kap. 25, 26. **44:** kap. 50, 2. **46:** Matt. 24, 6. **48:** Opinb. 18, 20. **53:** Jes. 14, 13.

segir Jahve. 54 Heyr, neyðarkvein frá Babel og mikil eyðilegging úr landi
Kaldea! 55 Já, Jahve eyðir Babel og upprætir úr henni hinn mikla
hávaða; bylgjur þeirra gnýja eins og stór vötn; gjallandi kveður við óp
þeirra. 56 Því að eyðandi kemur yfir hana, yfir Babel, og kappar hennar
verða teknir höndum og bogar þeirra brotnir; því að Jahve er Guð
endurgjaldsins, hann borgar áreiðanlega. 57 En eg gjöri drukna höfð-
ingja hennar og vitringa, jarla hennar og landstjóra, og kappa hennar,
og þeir skulu sofna eilífum svefni og eigi vakna framar — segir kon-
ungurinn; Jahve hersveitanna er nafn hans. 58 Svo segir Jahve her-
sveitanna: Hinn víði Babel-múr skal rifinn verða til grunna og hin
háu borgarhlið hennar brend í eldi, — já, lýðir vinna fyrir gýg og
þjóðir leggja á sig erfiði fyrir eldinn!

59 Skipunin, sem Jeremía spámaður lagði fyrir Seraja Neríason,
Mahasejasonar, þá er hann fór í erindum Zedekía Júdakonungs til
Babel, á fjórða ári ríkisstjórnar hans; en Seraja var ferðamarskálkur.
60 En Jeremía skrifaði alla þá ógæfu, er koma mundi yfir Babel, í eina
bók — allar þessar ræður, sem ritaðar eru um Babel. 61 Og Jeremía
sagði við Seraja: Þá er þú kemur til Babel, þá sjá til, að þú lesir
upp öll þessi orð, 62 og seg: Jahve, þú hefir sjálfur hótað þessum stað
að afmá hann, svo að enginn byggi framar í honum, hvorki menn né
skepnur, því — að eilífri auðn skal hún verða. 63 Og þegar þú hefir
lesið bók þessa til enda, þá bind þú við hana stein og kasta þú henni
út í Evfrat, 64 og seg: Svo skal Babel sökkva og ekki rísa upp aftur,
vegna þeirrar ógæfu, er eg læt yfir hana koma!
Hingað ná orð Jeremía.

52 Zedekía var tuttugu og eins árs að aldri, þá er hann varð
konungur, og ellefu ár ríkti hann í Jerúsalem. En móðir hans
hét Hamútal Jeremíadóttir og var frá Líbna. 2 Og hann gjörði það
sem ilt var í augum Jahve, með öllu svo sem gjört hafði Jójakím.
3 Því að vegna reiði Jahve fór svo fyrir Jerúsalem og Júda, unz hann
hafði burtsnarað þeim frá augliti sínu. En Zedekía brá trúnaði við
Babel-konung.
4 Á níunda ríkisári hans, á tíunda degi hins tíunda mánaðar, kom
Nebúkadrezar Babel-konungur með allan sinn her til Jerúsalem, og
þeir settust um hana og reistu hervirki hringinn í kring um hana.
5 Varð borgin þannig í umsátri fram á ellefta ríkisár Zedekía konungs.
6 Í fjórða mánuðinum, á níunda degi mánaðarins, er hungrið tók að
sverfa að borginni og landslýður var orðinn vistalaus, 7 þá var brotið
skarð inn í borgina; og konungur og allir hermennirnir flýðu og fóru
út úr borginni um nóttina gegnum hliðið milli beggja múranna, sem
er hjá konungsgarðinum, þótt Kaldear umkringdu borgina, og héldu
leiðina til sléttlendisins. 8 En her Kaldea veitti konungi eftirför og náði
Zedekía á Jerikó-völlum, er allur her hans hafði tvístrast burt frá hon-
um. 9 Tóku þeir konung höndum og fluttu hann til Ribla í Hamat-
héraði til Babel-konungs; hann kvað upp dóm hans. 10 Lét Babel-kon-
ungur drepa sonu Zedekía fyrir augum hans; sömuleiðis lét hann drepa
alla höfðingja Júda í Ribla. 11 En Zedekía lét hann blinda og binda
eirfjötrum. Síðan lét Babel-konungur flytja hann til Babel og setja í
fangelsi og var hann þar til dauðadags.
12 En í fimta mánuði, á tíunda degi mánaðarins — það er á nít-
jánda ríkisári Nebúkadrezars Babel-konungs — kom Nebúsaradan líf-

**56:** Jes. 59, 18. **57:** v. 39. **58:** Hab. 2, 13. **62:** v. 26. **63:** Opinb. 18, 21. —
52, **1:** 2 Kong. 24, 18 n. **4:** kap. 39, 1 n. **10:** kap. 39, 6 n.

varðarforingi, vildarþjónn Babel-konungs, til Jerúsalem [13] og brendi
musteri Jahve og konungshöllina og öll hús í Jerúsalem, og öll hús
stórmennanna brendi hann í eldi. [14] En allur Kaldeaher, sá er var með
lífvarðarforingjanum, reif niður alla múrana umhverfis Jerúsalem.
[15] En leifar lýðsins — þá er eftir voru í borginni — og liðhlaupana,
þá er hlaupist höfðu í lið með Babel-konungi, og þá sem eftir voru af
iðnaðarmönnum, herleiddi Nebúsaradan lífvarðarforingi til Babel. [16] En
af almúga landsins lét Nebúsaradan lífvarðarforingi nokkura verða eftir
sem víngarðsmenn og akurkarla. [17] En eirsúlurnar, er voru hjá musteri
Jahve, og undirstöðupallana og eirhafið, er voru í musteri Jahve,
brutu Kaldear sundur og fluttu allan eirinn til Babel. [18] Og katlana,
eldspaðana, skarbítana, fórnarskálarnar, bollana og öll eiráhöldin,
er notuð voru við guðsþjónustuna, tóku þeir. [19] Þá tók og lífvarðarforinginn
katlana, eldpönnurnar, fórnarskálarnar, pottana, ljósastikurnar,
bollana, kerin — alt sem var af gulli og silfri; [20] súlurnar
tvær, hafið og undirstöðupallana, er Salómó konungur hafði gjöra látið
í musteri Jahve — eirinn úr öllum þessum áhöldum varð eigi veginn.
[21] En hvað súlurnar snertir, þá var önnur súlan átján álnir á hæð, og
tólf álna langan þráð þurfti til þess að ná utan um hana; en hún var
fjögra fingra þykk, hol að innan. [22] En ofan á henni var eirhöfuð, og
höfuðið var fimm álnir á hæð, og riðið net og granatepli voru umhverfis
höfuðið, alt af eiri, og eins var á hinni súlunni. [23] En granateplin
voru níutíu og sex, þau er út sneru; öll granateplin voru hundrað
á riðna netinu alt um kring.

[24] Og lífvarðarforinginn tók Seraja höfuðprest og Zefanía annan
prest og þröskuldsverðina þrjá. [25] Og úr borginni tók hann hirðmann
einn, er skipaður var yfir hermennina, og sjö menn af þeim, er daglega
litu auglit konungs, er fundust í borginni, og ritara hershöfðingjans,
þess er bauð út landslýðnum, og sextíu manns af sveitafólki, því er
fanst í borginni — [26] þá tók Nebúsaradan lífvarðarforingi og flutti þá
til Ribla til Babel-konungs. [27] En Babel-konungur lét drepa þá í Ribla
í Hamathéraði. Þannig var Júda herleiddur úr landi sínu.

[28] Þetta var mannfólkið, sem Nebúkadrezar herleiddi: sjöunda árið
þrjú þúsund tuttugu og þrjá Júða; [29] átjánda ríkisár Nebúkadresars átta
hundruð þrjátíu og tvær sálir úr Jerúsalem; [30] tuttugasta og þriðja ríkisár
Nebúkadrezars herleiddi Nebúsaradan lífvarðarforingi sjö hundruð
fjörutíu og fimm sálir af Júðum. Alls voru það fjögur þúsund og sex
hundruð sálir.

[31] Og á þrítugasta og sjöunda útlegðarári Jójakíns Júdakonungs, í
tólfta mánuðinum, tuttugasta og fimta dag mánaðarins, náðaði Evíl-Meródak
Babel-konungur, árið sem hann kom til ríkis, Jójakín Júdakonung
og tók hann út úr dýflissunni. [32] Og hann talaði vingjarnlega
við hann og setti stól hans ofar stólum hinna konunganna, sem hjá
honum voru í Babel. [33] Og hann fór úr bandingja-fötum sínum og
borðaði stöðuglega með honum, meðan hann lifði. [34] En uppeldi hans —
hið stöðuga uppeldi — var honum veitt af Babel-konungi, það er hann
þurfti á degi hverjum, alla æfi hans, alt þar til er hann dó.

---

17: kap. 27, 19 n. 20: 1 Kong. 7, 15 n. 23 n. 31: 2 Kong. 25, 27 n.

# Harmljóðin.

1 Æ, hversu einmana er nú borgin,
sú er áður var svo fjölbygð,
orðin eins og ekkja,
sú er voldug var meðal þjóðanna;
furstafrúin meðal héraðanna
orðin kvaðarkona.
2 Hún grætur sáran um nætur,
og tárin streyma ofan vanga hennar.
Enginn er sá, er huggi hana,
af öllum ástmönnum hennar.
Allir vinir hennar hafa brugðist henni,
þeir eru orðnir óvinir hennar.
3 Júda hefir flúið land fyrir eymd
og fyrir mikilli ánauð.
Hann býr meðal heiðingjanna,
finnur engan hvíldarstað.
Allir ofsækjendur hans náðu honum
í þrengslunum.
4 Vegirnir til Zíon syrgja,
af því að engir koma til hátíðahalds.
Öll hlið hennar eru eydd,
prestar hennar andvarpa;
meyjar hennar eru sorgbitnar
og sjálf er hún hrygg í hjarta.
5 Fjendur hennar eru orðnir ofan á,
óvinir hennar lifa ánægðir.
Því að Jahve hefir hrelt hana
vegna hennar mörgu synda;
börn hennar fóru burt herleidd
fyrir kúgaranum.
6 Þannig fór burt frá Zíon-borg
alt skraut hennar.
Höfðingjar hennar eru orðnir eins og hrútar,
sem ekkert haglendi finna,
og þeir fóru magnþrota burt
fyrir ofsóknaranum.

7 Jerúsalem minnist
eymdardaga sinna og mæðu,
þá er lýður hennar féll í hendur kúgarans
og enginn hjálpaði henni.
Kúgararnir horfðu á það,
hlógu að hrakförum hennar.
8 Jerúsalem hefir syndgað stórlega,
fyrir því varð hún að viðurstygð;
allir þeir, er dáðu hana, fyrirlíta hana,
af því að þeir hafa séð blygðan hennar,
og hún andvarpar sjálf
og snýr sér undan.

---

1, 5: 5 Mós. 28, 44.

9 Saurugleiki hennar loðir við klæðafald hennar,
hún hugsaði ekki um endalokin.
Hún féll undra-djúpt,
enginn verður til að hugga hana.
Lít, Jahve, á eymd mína,
því að óvinirnir hrósa sigri.
10 Kúgarinn rétti út hönd sína
eftir öllum dýrgripum hennar.
Já, hún sá, hversu heiðingjarnir
gengu inn í helgidóm hennar,
sem þú hefir um boðið: »Þeir skulu ekki koma
í söfnuð þinn«.
11 Allur lýður hennar andvarpar,
leitar sér viðurværis,
gefur dýrgripi sína fyrir matbjörg,
til þess að draga fram lífið.
Sjá þú, Jahve, og lít á,
hversu eg er fyrirlitin.

12 Komið til mín allir þér, sem um veginn farið,
sjáið og skoðið,
hvort til sé önnur eins kvöl og mín,
sú er mér hefir verið gjörð,
mér, sem Jahve hreldi
á degi sinnar brennandi reiði.
13 Af hæðum sendi hann eld
og lét hann fara niður í bein mín,
lagði net fyrir fætur mér,
rak mig aftur,
gjörði mig auða,
sífeldlega sjúka.
14 Ok synda minna er þungt orðið
fyrir hendi hans.
Þær eru bundnar saman, lagðar mér á háls;
hann hefir lamað þrótt minn.
Drottinn hefir selt mig í hendur þeirra,
er eg eigi fæ staðist í móti.
15 Drottinn hefir hafnað hetjum mínum,
öllum þeim, er í mér voru;
hann hefir boðað hátíð gegn mér,
til þess að knosa æskumenn mína.
Drottinn hefir troðið vínlagarþró
meynni Júda-dóttur.
16 Yfir þessu græt eg;
augu mín fljóta í tárum.
Því að huggarinn er langt í burtu frá mér,
sá er hresti sál mína.
Börn mín eru eyðilögð,
því að óvinirnir báru hærri hlut.

17 Zíon réttir út hendur sínar,
enginn verður til að hugga hana.
Jahve bauð út á móti Jakob
fjendum hans alt í kring.

---

10: 5 Mós. 23, 3. Nehem. 13, 1. Sálm. 79, 1. 15: Jes. 63, 3.

Jerúsalem er orðin
að viðurstygð meðal þeirra.
18 Jahve er réttlátur,
því að eg þrjózkaðist gegn boði hans.
Ó, heyrið það, allir lýðir,
og sjáið kvöl mína.
Meyjar mínar og yngismenn
fóru burt herleidd.
19 Eg kallaði á ástmenn mína,
þeir sviku mig.
Prestar mínir og öldungar
önduðust í borginni,
þá er þeir leituðu sér bjargar,
til þess að draga fram lífið.
20 Sjá, Jahve, hve eg er hrædd,
hve iður mín ólga.
Hjartað berst í brjósti mér,
því að eg var svo þverúðarfull.
Sverðið svifti mig börnunum úti fyrir,
drepsóttin í húsum inni.
21 Þeir heyrðu, hversu eg andvarpaði,
enginn varð til að hugga mig.
Allir óvinir mínir spurðu óhamingju mína,
glöddust, af því að þú hefir gjört þetta.
Þú lætur þann dag koma, er þú hefir boðað,
þá verða þeir jafningjar mínir.
22 Lát alla ilsku þeirra koma fyrir auglit þitt
og gjör við þá,
eins og þú hefir gjört við mig,
vegna allra synda minna.
Því að andvörp mín eru mörg
og hjarta mitt er sjúkt.

2 Æ, hversu hylur drottinn í reiði sinni
dótturina Zíon skýi.
Frá himni varpaði hann til jarðar
vegsemd Ísraels
og mintist ekki fótskarar sinnar
á degi reiði sinnar.
2 Vægðarlaust eyddi drottinn
öll beitilönd Jakobs,
reif niður í bræði sinni
vígi Júda-dóttur;
varpaði til jarðar, vanhelgaði
ríkið og höfðingja þess,
3 hjó af í brennandi reiði
öll horn Ísraels;
dró að sér hægri hönd sína
frammi fyrir óvinunum
og brendi Jakob eins og eldslogi,
sem eyðir öllu umhverfis.
4 Hann benti boga sinn eins og óvinur,
hægri hönd hans stóð föst eins og mótstöðumaður

---

19: v. 11. 20: 5 Mós. 32, 25. Esek. 7, 15. — 2, 1: 1 Kron. 28, 2.

og myrti alt, sem auganu var yndi
í tjaldi dótturinnar Zíon,
jós út heift sinni eins og eldi.
5 Drottinn kom fram sem óvinur,
eyddi Ísrael,
eyddi allar hallir hans,
umturnaði virkjum hans,
og hrúgaði upp í Júda-dóttur
hrygð og hármi.
6 Hann hefir rifið niður kofa sinn eins og garð,
umturnað hátíðastað sínum.
Jahve lét gleymast í Zíon
hátíðir og hvíldardaga
og útskúfaði í sinni ákōfu reiði
konungi og prestum.
7 Drottinn hefir hafnað altari sínu,
smáð helgidóm sinn,
ofurselt í óvina hendur
hallarmúra hennar;
þeir létu óp glymja í musteri Jahve
eins og á hátíðardegi.
8 Jahve hafði ásett sér að eyða
múr dótturinnar Zíon.
Hann útþandi mælivaðinn, aftraði eigi
hendi sinni að eyða
og steypti sorg yfir varnarvirki og múr;
þau harma bæði saman.
9 Hlið hennar eru sokkin í jörðu;
hann ónýtti og braut slagbranda hennar.
Konungur hennar og höfðingjar eru meðal heiðingjanna,
lögmálslausir;
spámenn hennar fá ekki heldur framar
vitranir frá Jahve.
10 Þeir sitja þegjandi á jörðunni,
öldungar dótturinnar Zíon,
þeir hafa ausið mold yfir höfuð sín,
gyrzt hærusekk;
höfuð létu hníga að jörðu
Jerúsalem-meyjar.

11 Augu mín daprast af gráti,
iður mín ólga,
hjarta mitt ætlar að springa
yfir tortíming dóttur þjóðar minnar,
er börn og brjóstmylkingar hníga magnþrota
á strætum borgarinnar.
12 Þau segja við mæður sínar:
Hvar er korn og vín?
er þau hníga magnþrota eins og dauðsærðir menn
á strætum borgarinnar,
er þau gefa upp öndina
í faðmi mæðra sinna.
13 Hvað á eg að taka til dæmis um þig, við hvað líkja þér,
þú dóttirin Jerúsalem?

---

7: Sálm. 74, 4. 9: Sálm. 74, 9. 11: kap. 1, 20; 4, 4.

Hverju á eg að jafna við þig, til að hugga þig,
þú mærin, dóttirin Zíon?
Já, sár þitt er stórt, eins og hafið;
hver gæti læknað þig?
14 Spámenn þínir birtu þér
tálsýnir og hégóma,
en drógu ekki skýluna af misgjörð þinni,
til þess að snúa við högum þínum,
heldur birtu þér spár
til táls og ginninga.
15 Yfir þér skeltu lófum saman
allir þeir, er um veginn fóru,
blístruðu og skóku höfuðið
yfir dótturinni Jerúsalem:
»Er þetta borgin, hin alfagra,
unun allrar jarðarinnar?«
16 Yfir þér glentu upp ginið
allir óvinir þínir,
blístruðu og nístu tönnum,
sögðu: »Vér höfum gjöreytt hana!
Já, eftir þessum degi höfum vér beðið;
vér höfum lifað hann, vér höfum séð hann«.
17 Jahve hefir framkvæmt það, er hann hafði ákveðið,
efnt orð sín,
þau er hann hefir boðið frá því forðum daga,
hefir rifið niður vægðarlaust
og látið óvinina fagna yfir þér,
hann hóf horn fjenda þinna.

18 Hrópa þú hátt til drottins,
þú mærin, dóttirin Zíon.
Lát tárin renna eins og læk
dag og nótt;
unn þér engrar hvíldar,
auga þitt láti ekki hlé á verða.
19 Á fætur! Kveina um nætur,
í byrjun hverrar næturvöku;
úthell hjarta þínu eins og vatni
frammi fyrir augliti drottins;
fórnaðu höndum til hans
fyrir lífi barna þinna,
sem hníga magnþrota af hungri
á öllum strætamótum.
20 Sjá, Jahve, og lít á,
hverjum þú hefir gjört slíkt!
Eiga konur að eta lífsafkvæmi sín,
börnin, sem þær bera á örmum?
Eiga myrtir að verða í helgidómi drottins
prestar og spámenn?
21 Vegnir liggja á strætunum
sveinar og öldungar.
Meyjar mínar og æskumenn
féllu fyrir sverði;

---

**17:** 3 Mós. 26, 14 n. 5 Mós. 28, 15 n. **19:** Sálm. 62, 9. **20:** kap. 4, 10. 5 Mós. 28, 53 n. Jer. 19, 9.

þú myrtir á degi reiði þinnar,
slátraðir vægðarlaust.
22 Þú stefnir eins og á hátíðardegi
skelfingum að mér úr öllum áttum.
Á reiði-degi Jahve var enginn,
er af kæmist og eftir yrði.
Þá sem eg hefi fóstrað og uppalið,
þá hefir óvinur minn afmáð.

3 Eg er maðurinn, sem eymd hefi reynt
undir sprota reiði hans.
2 Mig hefir hann rekið og fært
út í myrkur og niðdimmu.
3 Já, gegn mér snýr hann æ af nýju
hendi sinni allan daginn.
4 Hann hefir tálgað af mér hold mitt og hörund,
brotið sundur bein mín,
5 hlaðið hringinn í kring um mig
fári og mæðu,
6 hnept mig í myrkur,
eins og þá, sem dánir eru fyrir löngu.
7 Hann hefir girt fyrir mig, svo að eg kemst ekki út,
gjört fjötra mína þunga.
8 Þótt eg hrópi og kalli,
hnekkir hann bæn minni;
9 hann girti fyrir vegu mína með höggnum steinum,
gjörði stigu mína ófæra.
10 Hann var mér eins og björn, sem situr um bráð,
eins og ljón í launsátri.
11 Hann hefir leitt mig afleiðis og tætt mig sundur,
hann hefir látið mig eyddan;
12 hann hefir bent boga sinn og reist mig
að skotspæni fyrir örina,
13 hefir sent í nýru mín
sonu örvamælis síns.
14 Eg varð öllum þjóðum að athlægi,
þeim að háðkvæði liðlangan daginn.
15 Hann mettaði mig á beiskum jurtum,
drykkjaði mig á malurt
16 og lét tennur mínar myljast sundur á malarsteinum,
lét mig velta mér í ösku.
17 Þú sviftir sálu mína friði,
eg gleymdi því góða
18 og sagði: horfinn er lífskraftur minn,
von mín fjarri Jahve.

19 Minstu eymdar minnar og mæðu,
malurtarinnar og eitursins.
20 Sál mín hugsar stöðugt um þetta
og er döpur í brjósti mér.
21 Þetta vil eg hugfesta,
þess vegna vil eg vona
22 náð Jahve er ekki þrotin,
miskunn hans ekki á enda;

**3, 4:** Sálm. 51, 10. **6:** Sálm. 143, 3. **8:** Job 19, 7. Sálm. 22, 3. **12:** kap. 2, 4.
**14:** v. 63. Jer. 20, 7. Job 30, 9.

hlóð vegg, riðu þeir kalki á hann, — 11 seg þú kölkurunum: Hann skal
hrynja. Sjá, eg mun láta koma steypiregn, sem skolar honum burt;
haglsteinar skulu niður falla og stormbylur á skella. 12 Þá hrynur vegg-
urinn. Mun þá ekki verða við yður sagt: Hvar er nú kalkið, er þér
riðuð á vegginn? 13 Fyrir því segir drotinn Jahve svo: Í heift minni
skal eg láta stormbyl á skella, og dynjandi steypiregn skal á koma
vegna reiði minnar og haglsteinar vegna heiftar minnar til algjörðrar
tortímingar. 14 Eg skal brjóta niður vegginn, sem þér hafið kalkað, og
bylta honum til jarðar, svo að undirstaða hans komi í ljós; og hann
mun hrynja, og þér munuð verða á milli og tortímast og viðurkenna,
að eg er Jahve. 15 Og eg vil úthella allri reiði minni yfir vegginn og
yfir þá, sem riðu kalki á hann, og eg mun segja við yður: Horfinn
er veggurinn og horfnir eru þeir, sem riðu hann kalki, 16 spámenn Ísra-
els, sem spá fyrir Jerúsalem og þykjast sjá heillasýnir henni til handa,
þar sem þó engin heill er — segir drottinn Jahve.
17 En þú, manns-son, snú þú augliti þínu gegn dætrum þjóðar
þinnar, þeim er spá eftir eigin hugboði, og spá þú móti þeim 18 og seg:
Svo segir drottinn Jahve: Vei þeim, sem sauma bindi fyrir alla úlnliði
og búa til skýlur fyrir höfuð manna, hvers vaxtar sem er, til þess að
veiða sálir. Hvort ætlið þér að veiða sálir hjá þjóð minni og halda
lífinu í sálum yður til handa? 19 Þér vanhelgið mig hjá þjóð minni
fyrir nokkura hnefa af byggi og nokkura brauðbita, til þess að deyða
sálir, sem ekki eiga að deyja, og halda lífinu í sálum, sem ekki eiga
að lifa, með því að ljúga að þjóð minni, sem hlustar á lygar. 20 Fyrir
því segir drottinn Jahve svo: Sjá, eg skal hafa hendur á bindum yðar,
þeim er þér veiðið með sálir, og eg skal slíta þau af armleggjum yðar
og láta lausar sálir þær, er þér veiðið, sem væru þær fuglar. 21 Og eg
skal slíta sundur skýlur yðar og frelsa lýð minn úr yðar höndum, svo
að þeir séu ekki lengur veiðifang í yðar höndum, og þér skuluð við-
urkenna, að eg er Jahve. 22 Vegna þess að þér hrellið hjarta hins ráð-
vanda með lygum, þar sem eg vildi þó eigi hafa hrelt hann, og af því
að þér styrkið hendur hins óguðlega, til þess að hann snúi sér ekki
frá sinni vondu breytni og forði lífi sínu, 23 þess vegna skuluð þér ekki
framar sjá hégómasýnir og ekki framar fara með lygispádóma; eg vil
frelsa lýð minn af yðar höndum, og þér skuluð viðurkenna, að eg er
Jahve.

14 En til mín komu nokkurir af öldungum Ísraels og settust niður
frammi fyrir mér. 2 Þá kom orð Jahve til mín, svo hljóðandi:
3 Manns-son, þessir menn hafa skipað skurðgoðum sínum til hásætis í
hjarta sínu og sett ásteytingarstein misgjörðar sinnar upp fyrir framan
sig; ætti eg þá að láta þá ganga til frétta við mig? 4 Fyrir því tala þú
til þeirra og seg við þá: Svo segir drottinn Jahve: Hver sá af Ísra-
elsmönnum, sem skipar skurðgoðum sínum til hásætis í hjarta sínu og
setur ásteytingarstein misgjörðar sinnar upp fyrir framan sig og fer þó til
spámanns, honum skal eg, Jahve, sjálfur svör gefa, þrátt fyrir hans mörgu
skurðgoð, 5 til þess að taka um hjartað í Ísraelsmönnum, er gjörst hafa
mér ókunnugir fyrir öll skurðgoð sín. 6 Seg því við Ísraelsmenn: Svo
segir drottinn Jahve: Snúið við og snúið yður frá skurðgoðum yðar
og snúið augliti yðar burt frá öllum svívirðingum yðar. 7 Því að sér-
hver sá af Ísraelsmönnum og af útlendingum þeim, er dveljast meðal
Ísraelsmanna, er gjörist mér fráhverfur og skipar skurðgoðum sínum
til hásætis í hjarta sínu og setur ásteytingarstein misgjörðar sinnar upp
fyrir framan sig og fer þó til spámanns, til þess að láta hann spyrja

**19:** Mik. 3, 5. **22:** Jer. 23, 14. — **14, 1:** kap. 20, 1.

mig fyrir sig, honum skal eg, Jahve, sjálfur svör gefa. 8 Eg vil snúa
augliti mínu gegn slíkum manni og gjöra hann að tákni og orðtaki og
uppræta hann úr þjóð minni, til þess að þér viðurkennið, að eg er
Jahve. 9 En láti spámaðurinn tæla sig og flytji hann spámæli, þá hefi
eg, Jahve, tælt þann spámann, og eg mun rétta út hönd mína móti
honum og afmá hann úr þjóð minni Ísrael. 10 Og þeir skulu báðir
bera sekt sína: þeir skulu vera jafnsekir hvor um sig, sá er til frétta
gengur og spámaðurinn, 11 til þess að Ísraelsmenn villist ekki framar
frá mér og saurgi sig ekki framar á alls konar glæpum; heldur skulu
þeir vera mín þjóð, og eg skal vera þeirra Guð — segir drottinn Jahve.
12 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 13 Manns-son, ef
land syndgar móti mér, með því að bregða trúnaði, og eg rétti út hönd
mína gegn því og brýt sundur staf brauðsins fyrir því og sendi hung-
ur í það og eyði þar mönnum og fénaði, 14 og þótt í því væru þess-
ir þrír menn: Nói, Daníel og Job, þá mundu þeir þó aðeins fá
bjargað sjálfum sér fyrir ráðvendni sína — segir drottinn Jahve. 15 Ef
eg léti óarga dýr fara yfir landið og þau eyddu það að mönnum, svo
að það yrði auðn, sem enginn færi um vegna dýranna, 16 og þessir þrír
menn væru í því, — svo sannarlega sem eg lifi, segir drottinn Jahve,
skyldu þeir hvorki fá bjargað sonum né dætrum; þeir sjálfir mundu
aðeins fá bjargað sér; en landið skyldi verða auðn. 17 Eða ef eg léti
sverð geisa yfir þetta land og segði: Sverðið skal fara yfir landið! og
eyddi í því mönnum og skepnum, 18 og þessir þrír menn væru í því,
— svo sannarlega sem eg lifi, segir drottinn Jahve, hvorki mundu þeir
fá bjargað sonum né dætrum, heldur mundu þeir aðeins sjálfir fá
bjargað sér. 19 Eða ef eg sendi drepsótt inn í þetta land og jysi yfir
það blóðugri heift minni, til þess að eyða í því mönnum og skepnum,
20 og Nói, Daníel og Job væru í því, — svo sannarlega sem drottinn
Jahve lifir, skyldu þeir hvorki fá bjargað syni né dóttur; þeir mundu
aðeins fá bjargað sjálfum sér fyrir ráðvendni sína. 21 Þó segir drott-
inn Jahve svo: Jafnvel þótt eg sendi fjóra mína vondu refsidóma: sverð,
hungur, óarga dýr og drepsótt, yfir Jerúsalem, til þess að eyða í henni
mönnum og skepnum, 22 þá skal þó hópur eftir verða, sem af kemst,
þeir er fara út með sonu og dætur. Þeir munu koma út til yðar, og
þér munuð sjá breytni þeirra og gjörðir þeirra og huggast yfir ógæfu
þeirri, er eg hefi látið koma yfir Jerúsalem, yfir öllu því, er eg hefi
látið koma yfir hana. 23 Og þeir munu hugga yður, er þér sjáið breytni
þeirra og gjörðir þeirra, og þér munuð sjá, að eg hefi ekkert gjört án
orsaka af öllu því, er eg hefi í henni gjört — segir drottinn Jahve.

15 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Manns-son, hvað
hefir vínviðurinn fram yfir allan annan við, teinungurinn, sem er
á meðal skógartrjánna? 3 Verður af honum tekinn efniviður til smíða,
eða fæst úr honum snagi, til þess að hengja á alls konar verkfæri?
4 Nei, hann er hafður til eldsneytis; þegar eldurinn hefir brent báða
enda hans og sé miðjan sviðnuð, hvert gagn er þá að honum til efni-
viðar? 5 Meðan hann enn er heill, verður ekkert úr honum smíðað,
því síður að nú verði nokkuð úr honum gjört, þegar eldurinn hefir
brent hann og hann er sviðnaður. 6 Fyrir því segir drottinn Jahve
svo: Eins og vínviðinn meðal skógartrjánna, sem eg hefi ætlað til elds-
neytis, svo vil eg fara með Jerúsalembúa. 7 Og eg skal snúa augliti
mínu gegn þeim: þeir hafa komist úr eldinum, og eldurinn skal eyða
þeim, og þér skuluð viðurkenna, að eg er Jahve, þegar eg snÿ augliti

---

8: 5 Mós. 28, 37. 9: 1 Kong. 22, 20 n. 11: kap. 11, 20. 13: kap. 4, 16. 15:
3 Mós. 26, 22. 19: 3 Mós. 26, 25. — 15, 4: Jóh. 15, 6.

mínu gegn þeim. 8 Og eg gjöri landið að auðn, af því að þeir hafa
brugðið trúnaði við mig — segir drottinn Jahve.

16 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Manns-son, leið
Jerúsalem fyrir sjónir svívirðingar hennar 3 og seg: Svo segir
drottinn Jahve við Jerúsalem: Að uppruna og ætterni ert þú frá Kana-
anlandi; faðir þinn var Amóríti og móðir þín Hetíti. 4 Og það er að
segja af fæðing þinni, að þann dag, sem þú fæddist, var hvorki skorið
á naflastreng þinn, né þú lauguð í vatni, ekki núin með salti og ekki
reifum vafin. 5 Enginn rendi til þín meðaumkunarauga, til þess að
veita þér nokkurt eitt af þessu, til þess að aumkast yfir þig; heldur
var þér kastað út á víðavang — svo lítils var líf þitt metið daginn
sem þú fæddist. 6 Þá gekk eg fram á þig og sá þig vera að brölta í
blóði þínu og sagði við þig: Þú, sem liggur þarna í blóði þínu, halt
þú lífi! 9 Og eg laugaði þig í vatni, þvoði af þér blóðið og smurði þig
með olíu*. 7 Og þú óxt eins og grös vallarins, og þú stækkaðir og
varðst mikil vexti og hin fríðasta sýnum; brjóstin voru orðin stinn
og hár þitt óx mjög, en þó varstu ber og nakin. 8 Þá varð mér gengið
fram á þig og eg sá þig, og var þá þinn tími ástarinnar tími. Eg
breiddi yfir þig ábreiðu mína og huldi nekt þína, eg trúlofaðist þér og
gjörði við þig sáttmála — segir drottinn Jahve — og þú varðst mín.
10 Og eg færði þig í glitklæði og fékk þér skó af sækýr-skinni, faldaði
þér með hvítu líni og huldi þig silkiblæju. 11 Eg skreytti þig skarti,
spenti armbaugum um handleggi þína og festi um háls þinn. 12 Eg lét
á þig nefhring og eyrnagull og veglega kórónu á höfuð þér. 13 Þú varst
prýdd gulli og silfri, og klæðnaður þinn var úr hvítu líni, silki og
glitvefnaði. Þú neyttir hveitimjöls, hunangs og olíu, og þú varðst frá-
bærlega fríð og komst jafnvel í konunglega tign. 14 Og nú fór orð af
þér til heiðinna þjóða sökum fegurðar þinnar; því að hún var fullkomin
fyrir skart það, er eg hafði á þig látið, — segir drottinn Jahve. 15 En
þú reiddir þig á fegurð þína og hóraðist upp á frægð þína, og þú jóst
hórdómi þínum út yfir hvern, sem fram hjá gekk. 16 Og þú tókst
nokkuð af fötum þínum og gjörðir þér mislitar fórnarhæðir og þú
drýgðir hórdóm á þeim. 17 Og þú tókst skartgripina af gulli því og
silfri, er eg hafði gefið þér, og gjörðir þér karlmannslíkneski af og drýgðir
hórdóm með þeim. 18 Og þú tókst glitklæði þín og lagðir yfir þau,
og olíu mína og reykelsi settir þú fyrir þau. 19 Og brauð mitt, það er
eg hafði gefið þér, hveitimjölið, olíuna og hunangið, er eg hafði gefið
þér að eta, það settir þú fyrir þau til þægilegs fórnarilms — segir drott-
inn Jahve. 20 Og þú tókst sonu þína og dætur, sem þú hafðir alið
mér, og blótaðir þeim til fæðslu fyrir skurðgoðin. Var ekki hórdómur
þinn nógur, 21 þó að þú slátraðir ekki börnum mínum og gæfir þau
skurðgoðum, með því að brenna þau þeim til heiðurs. 22 Og í öllum
svívirðingum þínum og hórdómi mintist þú ekki bernskudaga þinna,
þá er þú varst ber og nakin og bröltir í blóði þínu. 23 Og ofan á alla
ilsku þína — vei, vei þér! segir drottinn Jahve —, 24 þá reistir þú þér
hörga og hlóðst þér upp blótstalla á öllum torgum. 25 Á öllum gatna-
mótum reistir þú þér blótstalla og ósæmdir fríðleik þinn og glentir
sundur fætur þína framan í hvern, sem fram hjá gekk. Og þú drýgðir enn
meiri hórdóm: 26 þú drýgðir hórdóm með Egiptum, hinum hreðurmiklu
nábúum þínum; og þú drýgðir enn meiri hórdóm, til þess að reita mig
til reiði. 27 Þá rétti eg út hönd mína á móti þér og minkaði skamt

16, 2: kap. 22, 2. 3: v. 45. 8: Jer. 2, 2. Rut. 3, 9. 2 Mós. 24, 7. 8. 9: * v. 9
flutt fram, þangað sem það upphaflega virðist hafa verið. 17: kap. 7, 20. 19:
Hós. 2, 8. 20: kap. 20, 26. 24: v. 39.

þinn og ofurseldi þig græðgi fjandkvenna þinna, dætra Filista, sem fyr-
irurðu sig fyrir saurlífisathæfi þitt. 28 Og þú drýgðir hórdóm með Assýríu-
mönnum, án þess að fá nægju þína; þú hóraðist með þeim og fékst
þó ekki nægju þína. 29 Og þú útbreiddir hóranir þínar til Kaldealands,
og enn nægði þér ekki. 30 Hversu brann hjarta þitt af girnd, segir
drottinn Jahve, er þú framdir alt þetta, sem erkihóra mundi fremja,
31 þá er þú reistir þér hörga á öllum gatnamótum og gjörðir þér blót-
stalla á öllum torgum; og þó varst þú ekki eins og skækja, að þú
hrúgaðir saman hvílutollum. 32 Hórkona tekur aðra menn undir bónda
sinn. 33 Öllum skækjum er vant að greiða gjald; en þú þar á móti
galtst öllum ástmönnum þínum kaup og gintir þá með gjöfum til að
koma til þín úr öllum áttum og fremja hórdóm með þér. 34 Saurlifn-
aður þinn var með öðrum hætti en annarra kvenna; menn hlupu ekki
eftir þér til fylgilags, heldur greiddir þú friðilslaun, en þér voru engin
laun goldin. Svo gagnstætt var þitt háttalag annarra kvenna. 35 Heyr
því orð Jahve, hóran þín! 36 Svo segir drottinn Jahve: Af því að fúl-
lífi þitt varð svo óstjórnlegt og blygðan þín var ber gjörð við saur-
lifnað þinn frammi fyrir friðlum þínum og frammi fyrir öllum hinum
andstyggilegu skurðgoðum þínum og vegna blóðs barna þinna, er þú
blótaðir þeim, — 37 fyrir því skal eg saman safna öllum friðlum þínum,
þeim er þú varst geðþekk, og það öllum þeim, er þú elskaðir, ásamt
öllum þeim, er þér geðjast ekki að; þeim skal eg safna saman að þér
úr öllum áttum og bera gjöra blygðan þína frammi fyrir þeim, svo að
þeir sjái blygðan þína eins og hún er. 38 Og eg mun láta sama dóm
yfir þig ganga sem yfir hórkonur og þær, sem úthella blóði, og eg mun
sýna þér heift og vandlæting. 39 Og eg mun selja þig þeim í hendur
og þeir munu rífa niður hörga þína og brjóta niður blótstalla þína og
færa þig af klæðum þínum og taka af þér skartgripi þína og skilja
þig eftir nakta og bera. 40 Og þeir munu gjöra að þér mannsöfnuð,
lemja þig grjóti og höggva þig sundur með sverðum sínum. 41 Og þeir
munu brenna hús þín í eldi og framkvæma refsingardóm á þér í aug-
sýn margra kvenna, og þannig mun eg gjöra enda á hórdómi þínum,
og þú munt eigi framar greiða nein friðilslaun. 42 Og eg mun svala
heift minni á þér, og vandlæting mín við þig skal hverfa, og eg mun
halda kyrru fyrir og ekki framar gremja geð mitt. 43 Af því að þú
mintist ekki bernskudaga þinna og reittir mig til reiði með öllu þessu, þá
skal eg líka láta athæfi þitt þér í koll koma — segir drottinn Jahve.
Því að hefir þú ekki og framið þennan glæp ofan á allar svívirðingar
þínar? 44 Sjá, hver sá, er málsháttu tíðkar, mun um þig hafa máls-
háttinn: mær er jafnan móður lík! 45 Þú ert dóttir móður þinnar, sem
rak burt bónda sinn og börn sín, og þú ert systir systra þinna, sem
ráku burt bændur sína og börn sín. Móðir yðar var Hetíti og faðir
yðar Amóríti. 46 Og eldri systir þín er Samaría og dætur hennar; hún
býr þér til vinstri handar; og yngri systir þín, sú er býr þér til hægri
handar, er Sódóma og dætur hennar. 47 Að vísu gekst þú ekki í fyrstu
á þeirra vegum og framdir ekki aðrar eins svívirðingar og þær, en
brátt gjörðist þú enn spiltari en þær í allri breytni þinni. 48 Svo sann-
arlega sem eg lifi, segir drottinn Jahve: Sódóma systir þín og dætur
hennar hafa ekki aðhafst slíkt sem þú og dætur þínar hafa aðhafst.
49 Sjá, synd Sódómu systur þinnar var ofdramb; hún og dætur hennar
höfðu gnótt matar og lifðu góðu lífi í makindum, en réttu þó ekki
hinum voluðu og fátæku hjálparhönd. 50 Þær urðu drambsfullar og
frömdu svívirðingar fyrir augum mér; þá svifti eg þeim í burt, er eg

28: kap. 23, 12. 37: kap. 23, 22. 10. 29. Opinb. 17, 16. 40: kap. 23, 46. 41: 2 Kong. 25, 9. 45: v. 3. 46: kap. 23, 4 n. 49: 1 Mós. 13, 13.

sá það. [51] Samaría hefir ekki drýgt helminginn af þínum syndum; þú
hefir framið miklu meiri svívirðingar en þær og þann veg sýnt með
öllum þeim svívirðingum, er þú hefir framið, að systur þínar eru betri
en þú. [52] Ber þú nú og sjálf smán þína, þú sem hefir flutt málsvörn
fyrir systur þínar með syndum þínum, er voru andstyggilegri en þeirra,
svo að þær eru hátíð hjá þér. Skammastu þín því og berðu smán
þína fyrir það, að þú hefir sýnt að systur þínar eru betri en þú. [53] Því
að eg mun snúa við högum þeirra, högum Sódómu og dætra hennar
og högum Samaríu og dætra hennar, og eg mun og snúa við högum
þínum meðal þeirra, [54] til þess að þú berir smán þína og skammist
þín fyrir alt það, sem þú hefir gjört og með því orðið þeim til hug-
fróunar. [55] Og systur þínar, Sódóma og dætur hennar, skulu aftur
komast í sitt fyrra gengi, og Samaría og dætur hennar skulu og aftur
komast í sitt fyrra gengi, og þú og dætur þínar skuluð aftur komast í
yðar fyrra gengi. [56] Og þó tókst þú ekki nafn Sódómu systur þinnar
þér í munn á þínum ofdrambsdögum, [57] þá er vonzka þín var enn ekki
ber orðin, eins og í þann tíð, er dætur Edóms smánuðu þig og allar
dætur Filista, sem óvirtu þig úr öllum áttum. [58] Fyrir saurlifnað þinn
og svívirðingar, fyrir þær hefir þú gjöld tekið — segir Jahve. [59] Því
að svo segir drottinn Jahve: Eg gjöri við þig, eins og þú hefir gjört,
þar sem þú hafðir eiðinn að engu og raufst sáttmálann. [60] En þó vil
eg minnast sáttmála míns, þess er eg við þig gjörði á dögum æsku
þinnar, og binda við þig eilífan sáttmála. [61] Þá munt þú minnast breytni
þinnar og blygðast þín, er eg tek eldri systur þínar og yngri og gef
þér þær svo sem dætur, en ekki vegna sáttmála þíns. [62] Og eg vil binda
við þig sáttmála, og þú skalt viðurkenna, að eg er Jahve, [63] til þess að
þú minnist þess og skammist þín og ljúkir eigi framar upp munni
þínum sakir blygðunar, er eg fyrirgef þér alt það, sem þú hefir gjört
— segir drottinn Jahve.

17 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [2] Manns-son, ber
upp gátu og seg Ísraelsmönnum líking [3] og mæl: Svo segir
drottinn Jahve: Örninn sá hinn mikli með stóru vængina og löngu
flugfjaðrirnar, með þykka og marglita fjaðurhaminn, fór upp á Líbanon
og tók toppinn af sedrustrénu. [4] Hann braut af efstu brumkvistuna og
flutti þá til verzlunarlandsins; í kaupmanna borg setti hann þá. [5] Síðan
tók hann af gróðri landsins og setti það í sáðland; hann setti það þar
sem nóg vatn var, eins og pílvið. [6] Og það óx og varð að vínvið, sem
breiddist út lágvaxinn, svo að greinar hans snerust aftur að honum og
rætur hans héldust undir honum. Og er það var orðið að vínviði,
fékk það kvistu og skaut greinum. [7] En það var annar mikill örn
með stóra vængi og mikinn fjaðurham, og sjá, vínviður þessi teygði
rætur sínar að honum og rétti greinar sínar í móti honum, til þess að
hann skyldi vökva hann, en ekki reitinn, sem hann var gróðursettur í; [8] og
þó var hann gróðursettur í góðri jörð, þar sem nóg vatn var, til þess
að skjóta greinum og bera ávöxtu og verða dýrlegur vínviður. [9] Seg:
Svo segir drottinn Jahve: Mun það vel gefast? Mun hinn örninn ekki
slíta upp rætur hans og afsníða ávöxtu hans, og öll hans nýsprotnu
blöð visna? Og eigi mun þurfa mikilla krafta að neyta eða mannafla
við að hafa, til þess að kippa honum upp með rótum. [10] Jæja —
gróðursettur er hann. En mun það vel gefast? Mun hann ekki
skrælna, þegar austanvindurinn fer að leika um hann — mun hann
ekki skrælna í reitnum, þar sem hann óx.
[11] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [12] Seg við hina þver-

51: Jer. 3, 11. 58: 5 Mós. 30, 3. Esek. 39, 25.

úðugu kynslóð: Skiljið þér eigi, hvað þetta á að þýða? Seg: Sjá,
Babel-konungur kom til Jerúsalem og tók konung hennar og höfðingja
og fór með þá heim til sín, til Babel. 13 Og hann tók einn af kon-
ungsættinni og gjörði sáttmála við hann og tók eið af honum, en leið-
toga landsins hafði hann flutt á burt, 14 til þess að konungsvaldið
skyldi vera lítið og eigi geta hafið sig aftur, til þess að hann skyldi
halda sáttmála þann, er hann hafði gengist undir, og sáttmálinn standa.
15 En hann hóf uppreisn gegn honum og gjörði sendimenn til Egipta-
lands eftir hestum og miklu liði. Mun það vel gefast? Mun sá, er
slíkt gjörir, klakklaust af komast? Mun sá, er rýfur sáttmála, klakklaust
af komast? 16 Svo sannarlega sem eg lifi, segir drottinn Jahve, í
aðseturstað þess konungs, er hóf hann til konungdóms, hvers sátt-
mála hann hefir rofið og að engu haft þann eið, er hann vann honum,
hjá honum skal hann deyja í Babel. 17 En Faraó mun ekki hjálpa hon-
um í stríðinu með miklum herafla og fjölmennu liði, þá er jarðhrygg-
jum verður hleypt upp og víggarðar hlaðnir, til þess að bana mörgum mönn-
um. 18 Því að hann hefir eiðinn að engu haft með því að rjúfa sáttmálann;
já, hann seldi til þess hönd sína og gjörði þó alt þetta; hann skal ekki
klakklaust af komast. 19 Fyrir því segir drottinn Jahve svo: Svo sannar-
lega sem eg lifi, eiðinn, sem hann hefir unnið mér, en þó að engu haft,
og sáttmálann, sem hann hefir gjört við mig, en þó rofið, mun eg láta hon-
um í koll koma. 20 Og eg mun kasta neti mínu yfir hann, og hann mun
veiddur verða í veiðarfæri mín, og eg mun flytja hann til Babel og ganga
þar í dóm við hann um trygðrofin, er hann hefir í frammi við mig haft.
21 Og alt úrvalalið hans meðal allra herflokka hans mun fyrir sverði falla,
og þeir, sem eftir verða, munu tvístrast í allar áttir og þér viðurkenna,
að eg, Jahve, hefi talað það.

22 Svo segir drottinn Jahve: Eg mun taka nokkuð af topplimi
hins hávaxna sedrustrés og setja það; af efstu brumkvistum þess mun
eg brjóta einn grannan og gróðursetja hann á háu og gnæfandi fjalli.
23 Á hæðarhnjúki Ísraels mun eg gróðursetja hann, og hann mun fá
greinar og bera ávöxtu og verða dýrlegur sedrusviður, og alls konar
vængjaðir fuglar munu undir honum búa; í forsælunni af greinum hans
munu þeir búa. 24 Og öll tré merkurinnar skulu sjá, að eg, Jahve,
niðurlægi hið háa tré og upphef hið lága, læt hið græna tré þorna og
hið þurra blómgast; eg, Jahve, hefi sagt það og gjört það.

18 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Hvað kemur til, að
þér hafið þetta orðtak um Ísraelsland: »Feðurnir átu súr vínber
og tennur barnanna urðu sljóar«? 3 Svo sannarlega sem eg lifi, segir
drottinn Jahve, skuluð þér ekki framar hafa þetta orðtak í Ísrael. 4 Sjá,
mínar eru sálirnar allar, sál föðurins - eins og sál sonarins — mínar
eru þær; sú sálin, sem syndgar, hún skal deyja. 5 Og hver sá maður,
sem er ráðvandur, og iðkar rétt og réttlæti, 6 sem etur ekki fórnarkjöt
á fjöllunum og hefur ekki augu sín til skurðgoða Ísraelsmanna, flekkar
ekki konu náunga síns og kemur ekki nærri konu meðan hún hefir
klæðaföll, 7 sem engan undirokar og skilar aftur skuldaveði sínu, tekur
ekki neitt frá öðrum með ofbeldi, sem gefur brauð sitt hungruðum
og skýlir nakinn mann klæðum, 8 sem lánar ekki fé gegn leigu og tekur
ekki vexti af lánsfé, sem heldur hendi sinni frá því, sem rangt er, og
dæmir rétt í deilumálum manna, 9 sem breytir eftir boðorðum mínum
og varðveitir skipanir mínar, með því að gjöra það sem rétt er, —
hann er ráðvandur og skal vissulega lifa, segir drottinn Jahve. 10 En

17, 12: 2 Kong. 24, 10. 15. 13: 2 Kong. 24, 17. 2 Kron. 36, 10 n. 15: 2 Kong. 24, 20. 20: kap. 12, 13. 23: Dan. 4, 12. Matt. 13, 32. 24: kap. 21, 26. — 18, 2: Jer. 31, 29. 6: 3 Mós. 18, 19. 7: Matt. 25, 35 n. Jes. 58, 7. 8: v. 13. Sálm. 15, 5.

eignist hann ofbeldisfullan son, sem úthellir blóði og fremur ranglæti,
11 sem ekki fetar í fótspor síns ráðvanda föður, heldur etur fórnarkjöt
á fjöllunum og flekkar konu náunga síns, 12 undirokar volaða og snauða,
tekur frá öðrum með ofbeldi, skilar ekki aftur veði og hefur augu sín
til skurðgoða, fremur svívirðingar, 13 lánar fé gegn leigu og tekur vexti
af lánsfé, ætti hann að halda lífi? Hann skal ekki lífi halda! Af því
að hann hefir framið allar þessar svívirðingar, skal hann vissulega
deyja; blóð hans komi yfir hann! 14 En eignist hann son, sem sér allar
þær syndir, sem faðir hans drýgði, og óttast og breytir ekki eftir þeim,
15 etur ekki fórnarkjöt á fjöllunum og hefur ekki augu sín til skurð-
goða Ísraelsmanna, flekkar ekki konu náunga síns 16 og undirokar engan,
tekur ekkert veð og tekur ekkert frá öðrum með ofbeldi, gefur brauð
sitt hungruðum og skýlir nakinn mann klæðum, 17 heldur hendi sinni
frá því, sem rangt er, tekur ekki vexti né fjárleigu, heldur skipanir
mínar og breytir eftir boðorðum mínum, sá skal ekki deyja sakir mis-
gjörða föður síns, heldur skal hann vissulega lífi halda. 18 Af því að
faðir hans hefir beitt kúgun og tekið frá öðrum með ofbeldi og gjört
það, sem ekki var gott, meðal þjóðar sinnar, þá hlýtur hann að deyja
fyrir misgjörð sína. 19 Og þá segið þér: Hví geldur sonurinn ekki
misgjörðar föður síns? þar sem þó sonurinn iðkaði rétt og réttlæti,
varðveitti öll boðorð mín og breytti eftir þeim; fyrir því skal hann
vissulega lífi halda. 20 Sá maður, sem syndgar, hann skal deyja. Sonur
skal eigi gjalda misgjörðar föður síns og faðir skal eigi gjalda mis-
gjörðar sonar síns. Ráðvendni hins ráðvanda skal koma niður á hon-
um og óguðleiki hins óguðlega skal koma niður á honum. 21 En
hverfi hinn óguðlegi frá öllum syndum sínum, sem hann hefir drýgt,
og haldi öll mín boðorð og iðki rétt og réttlæti, þá skal hann vissu-
lega lífi halda og ekki deyja. 22 Öll hans afbrot, sem hann hefir drýgt,
skulu honum þá eigi tilreiknuð verða; vegna ráðvendninnar, sem hann
hefir iðkað, skal hann lífi halda. 23 Ætli eg hafi þóknun á dauða hins
óguðlega, segir drottinn Jahve, og ekki miklu fremur á því, að hann
hverfi frá sinni illu breytni og haldi lífi? 24 En hverfi hinn ráðvandi
frá ráðvendni sinni og fremji það, sem rangt er, í líkingu við allar
þær svívirðingar, er hinn óguðlegi hefir framið, þá skal öll sú ráð-
vendni, er hann hefir iðkað, ekki til álita koma; fyrir það trygðrof,
sem hann hefir sýnt, og þá synd, sem hann hefir drýgt, — fyrir þær
skal hann deyja. 25 En er þér segið: Atferli drottins er ekki rétt! þá
heyrið, þér Ísraelsmenn: ætli það sé mitt atferli, sem ekki er rétt?
ætli það sé ekki fremur yðar atferli, sem ekki er rétt? 26 Ef ráð-
vandur maður hverfur frá ráðvendni sinni og gjörir það, sem rangt
er, þá hlýtur hann að deyja vegna þess; vegna glæps þess, er hann
hefir framið, hlýtur hann að deyja. 27 En þegar óguðlegur maður
hverfur frá óguðleik sínum, sem hann hefir í frammi haft, og iðkar rétt
og réttlæti, þá mun hann bjarga lífi sínu. 28 Því að hann sneri sér frá
öllum syndum sínum, er hann hafði framið; fyrir því mun hann vissu-
lega lífi halda og ekki deyja. 29 Og þegar Ísraelsmenn segja: Atferli
Jahve er ekki rétt! — ætli það sé atferli mitt, sem ekki er rétt, þér
Ísraelsmenn? ætli það sé ekki fremur atferli yðar, sem ekki er rétt?
30 Fyrir því mun eg dæma sérhvern yðar eftir breytni hans, þér Ísra-
elsmenn, segir drottinn Jahve. Snúið yður og látið af öllum syndum
yðar, til þess að þær verði yður ekki fótakefli til hrösunar. 31 Varpið
frá yður öllum syndum yðar, er þér hafið drýgt í gegn mér, og fáið yður
nýtt hjarta og nýjan anda; því að hvers vegna viljið þér deyja, Ísraels-

**20:** v. 4. 2 Kong. 14, 6. **23:** v. 32; kap. 33, 11. 2 Pét. 3, 9. **24:** kap. 3, 20; 33, 12. **25:** kap. 33, 17 n. **26:** kap. 33, 12. 13. **31:** kap. 11, 19.

menn? [32] Því að eg hefi eigi velþóknun á dauða nokkurs manns, segir
drottinn Jahve. Látið því af, svo að þér megið lifa.

19 Kyrja þú upp harmljóð yfir höfðingjum Ísraels [2] og seg: Hvílík
ljónynja var móðir þín meðal ljóna; hún lá meðal ungra ljóna,
ól upp ljónshvolpa sína. [3] Og hún kom upp einum af hvolpum sínum;
hann varð ungljón, og hann lærði að ná sér í bráð, hann át menn.
[4] Þá höfðu þjóðirnar útboð í móti honum; var hann veiddur í gröf
þeirra, og teymdu þeir hann á nasahring til Egiptalands. [5] En er hún
sá, að hún hafði breytt heimskulega, að von hennar var horfin, tók
hún annan af hvolpum sínum; gjörði hún hann að ungljóni. [6] Og
hann gekk meðal ljóna; hann varð ungljón, og hann lærði að ná sér í
bráð, hann át menn. [7] Og hann gjörði margar meðal þeirra að ekk-
jum og eyddi borgir þeirra, svo að landið lagðist í auðn og alt, sem í
því var, vegna öskurs hans. [8] Þá settu þjóðir sig móti honum,. úr
héruðunum umhverfis, og köstuðu neti sínu yfir hann; í gröf þeirra
varð hann veiddur. [9] Og þeir drógu hann á nasahring í búr og fluttu
hann til Babel-konungs og settu hann í dýflissu, til þess að rödd hans
heyrðist ekki framar á Ísraels fjöllum. [10] Móðir þín var eins og vín-
viður, sem gróðursettur var hjá vatni; hann varð ávaxtarsamur og fjöl-
greinóttur af vatnsgnóttinni. [11] Og ein af greinum hans varð veldis-
sproti, og hann óx hátt upp í milli þéttra greina og var frábær fyrir
hæðar sakir, með því að angar hans voru svo margir. [12] Þá var vín-
viðinum rykt upp í heift og varpað til jarðar, og austanvindurinn
skrældi ávöxt hans. Hin sterka grein hans var rifin af, og hún skræl-
naði; eldur eyddi henni. [13] Og nú er hann gróðursettur í eyðimörku,
í þurru og vatnslausu landi. [14] Og eldur brauzt út frá grein hans,
sem eyddi öngum hans, og engin sterk grein var framar á honum,
enginn veldissproti. Þetta eru harmljóð og urðu að harmljóðum.

20 En á sjöunda árinu, tíunda dag hins fimta mánaðar, komu
nokkurir af öldungum Ísraels, til þess að ganga til frétta við
Jahve, og settust niður frammi fyrir mér. [2] Þá kom orð Jahve til mín,
svo hljóðandi: Manns-son, tala þú til öldunga Ísraels og seg við þá:
Svo segir drottinn Jahve: [3] Þér eruð komnir til þess að ganga til frétta
við mig? Svo sannarlega sem eg lifi vil eg eigi láta yður ganga til
frétta við mig, segir drottinn Jahve. [4] En viljir þú dæma þá, viljir þú
dæma, manns-son, þá leið þeim fyrir sjónir svívirðingar feðra þeirra
[5] og seg við þá: Svo segir drottinn Jahve: Þann dag, er eg útvaldi
Ísrael, vann eg niðjum Jakobs húss eið og gjörði mig þeim kunnan
á Egiptalandi; þá vann eg þeim eið og sagði: Eg er Jahve, Guð yðar!
[6] Þann dag vann eg þeim eið að því, að leiða þá burt af Egiptalandi
til þess lands, er eg hafði kannað fyrir þá, er flyti í mjólk og hunangi,
— það er prýði meðal landanna. [7] Og eg sagði við þá: Sérhver yðar
varpi burt þeim viðurstygðum, er þér hafið fyrir augum, og saurgið
yður ekki á skurðgoðum Egiptalands. Eg er Jahve, Guð yðar. [8] En
þeir voru mér mótsnúnir og vildu eigi hlýða mér; þeir vörpuðu eigi
burt viðurstygðum þeim, er þeir höfðu fyrir augum, og þeir yfirgáfu
eigi skurðgoð Egiptalands. Þá hugði eg að úthella reiði minni yfir
þá, að svala heift minni á þeim í Egiptalandi. [9] En eg gjörði það
samt ekki, fyrir nafns míns sakir, svo að það skyldi eigi vanhelgað
verða í augum heiðingja þeirra, er þeir bjuggu meðal, því að í augsýn
þeirra hafði eg gjört mig þeim kunnan, til þess að flytja þá burt af

32: v. 23. — 19, 4: 2 Kong. 23, 33. 34. 10: Sálm. 80, 9 n. 14: kap. 17, 13 n. 2
Kong. 24, 20. — 20, 1: kap. 14, 1. 4: kap. 22, 2. 5: 2 Mós. 6, 7. 6: 2 Mós. 3, 8.

Egiptalandi. [10] Og eg flutti þá burt af Egiptalandi og leiddi þá inn í
eyðimörkina; [11] og eg gaf þeim setningar mínar og kunngjörði þeim
lög mín, þau er maðurinn skal halda, til þess að hann megi lifa.
[12] Eg gaf þeim og hvíldardaga mína, að þeir væru sambandstákn milli
mín og þeirra, til þess að menn skyldu viðurkenna, að eg, Jahve, er
sá, sem helgar þá. [13] En Ísraelsmenn voru mér mótsnúnir í eyðimörk-
inni; þeir breyttu eigi eftir setningum mínum og höfnuðu lögum mín-
um, þeim er maðurinn skal halda, til þess að hann megi lifa, og
hvíldardaga mína vanhelguðu þeir stórum. Þá hugði eg að úthella
reiði minni yfir þá í eyðimörkinni, til þess að gjöreyða þeim. [14] En
eg gjörði það samt ekki, fyrir nafns míns sakir, svo að það skyldi
eigi vanhelgað verða í augum heiðingja þeirra, er horft höfðu á að eg
flutti þá burt. [15] Þó sór eg þeim í eyðimörkinni, að eg skyldi ekki
leiða þá inn í landið, sem eg hafði gefið þeim og flýtur í mjólk og
hunangi, — það er prýði meðal landanna — [16] af því að þeir höfnuðu
lögum mínum og breyttu ekki eftir boðorðum mínum og vanhelguðu
hvíldardaga mína; því að hjarta þeirra elti skurðgoð þeirra. [17] En eg
kendi í brjósti um þá meir en svo að eg vildi tortíma þeim, og gjörði
því ekki út af við þá í eyðimörkinni. [18] Og eg sagði við sonu þeirra
í eyðimörkinni: Breytið ekki eftir siðvenjum feðra yðar og haldið eigi
lög þeirra og saurgið yður ekki á skurðgoðum þeirra. [19] Eg er Jahve,
Guð yðar, lifið eftir boðorðum mínum og haldið lög mín og breytið
eftir þeim. [20] Og haldið helga hvíldardaga mína, og séu þeir sam-
bandstákn milli mín og yðar, til þess að menn viðurkenni, að eg er
Jahve, Guð yðar. [21] En synirnir voru mér mótsnúnir: þeir lifðu ekki
eftir boðorðum mínum og héldu ekki lög mín, svo að þeir breyttu eftir
þeim, sem maðurinn þó á að halda, til þess að hann megi lifa; hvíld-
ardaga mína vanhelguðu þeir. Þá hugði eg að úthella reiði minni yfir
þá, að svala heift minni á þeim í eyðimörkinni. [22] En eg dró höndina
aftur að mér og gjörði það ekki, fyrir nafns míns sakir, svo að það
skyldi eigi vanhelgað verða í augum heiðingja þeirra, er horft höfðu á,
að eg flutti þá burt. [23] Þó sór eg þeim í eyðimörkinni, að eg skyldi
tvístra þeim meðal þjóðanna og dreifa þeim út um löndin, [24] af því að
þeir héldu ekki lög mín og höfnuðu boðorðum mínum og vanhelguðu
hvíldardaga mína og höfðu ekki augun af skurðgoðum feðra sinna.
[25] Eg gaf þeim þá og boðorð, sem ekki voru holl, og lög, er þeim eigi
voru til lífs lagin. [26] Eg lét þá saurga sig á fórnargjöfum sínum, á því
að brenna í eldi alla frumburði, til þess að þeim skyldi ofbjóða, svo
að þeir yrðu að kannast við, að eg er Jahve. [27] Tala þú þess vegna
til Ísraelsmanna, manns-son, og seg við þá: Svo segir drottinn Jahve:
Enn fremur hafa feður yðar smánað mig með þessu, að þeir rufu
trúnað við mig. [28] Þegar eg hafði flutt þá inn í landið, sem eg hafði
heitið þeim með eiði að gefa þeim, og þeir komu einhverstaðar auga
á háa hæð og þéttlaufgað tré, þá slátruðu þeir þar fórnum sínum og
báru þar fram hinar andstyggilegu gjafir sínar og létu þar þægilegan
ilm sinn upp stíga og dreyptu þar dreypifórnum sínum. [29] Þá sagði
eg við þá: Hvaða hæð er þetta, sem þér farið upp á? Fyrir því er
hún kölluð »hæð« alt til þessa dags.

[30] Seg því við Ísraelsmenn: Svo segir drottinn Jahve: Viljið þér
saurga yður á sama hátt og feður yðar og drýgja hór með viður-
styggðum þeirra? [31] Já, með því að bera fram fórnargjafir yðar, með
því að láta sonu yðar ganga gegnum eld, saurgið þér yður á öllum
skurðgoðum yðar alt til þessa dags, og eg ætti að láta yður ganga til

**11:** 3 Mós. *18*, 5. Róm. 10, 5. **12:** 2 Mós. 20, 8 n. 31, 13. 5 Mós. 5, 12. **13:** *kap.* 23, 38. **15:** 4 Mós. 14, 28—30. **23:** 5 Mós. 28, 64. **25:** Post. 7, 42. **26:** v. 31; kap. *16*, *21*. **31:** kap. 14, 3.

frétta við mig, þér Ísraelsmenn? Svo sannarlega sem eg lifi, segir
drottinn Jahve, vil eg ekki láta yður ganga til frétta við mig. [32] Ekki
skal það heldur verða, sem yður hefir til hugar komið; þér hugsið:
Vér viljum vera sem aðrar þjóðir, sem kynslóðir heiðnu landanna, og
tilbiðja stokka og steina. [33] Svo sannarlega sem eg lifi, segir drottinn
Jahve, skal eg ríkja yfir yður með sterkri hendi, útréttum armlegg og
fossandi heift. [34] Og eg mun flytja yður frá þjóðunum og safna yður
úr löndunum, þangað sem yður var tvístrað, með sterkri hendi, út-
réttum armlegg og fossandi heift, [35] og leiða yður inn í eyðimörkina
milli þjóðanna og ganga þar í dóm við yður augliti til auglitis. [36] Eins
og eg gekk í dóm við feður yðar í Egiptalands eyðimörk, svo mun eg
og ganga í dóm við yður, segir drottinn Jahve. [37] Og eg mun láta
yður renna fram hjá mér undir stafnum* og færa yður í sáttmálsfjötra.
[38] Og eg skil þá frá yður, er gjörðust mér mótsnúnir og rufu trúnað
við mig. Eg vil flytja þá burt úr því landi, þar sem þeir dvöldust sem
útlendingar, en inn í Ísraelsland skulu þeir ekki koma, svo að þér
viðurkennið, að eg er Jahve. [39] En þér, Ísraelsmenn, — svo segir drott-
inn Jahve: fari hver yðar og þjóni skurðgoðum sínum. En eftir þetta
skuluð þér vissulega hlýða á mig og eigi framar vanhelga mitt heilaga
nafn með fórnargjöfum yðar og skurðgoðum. [40] Því að á mínu heilaga fjalli,
á fjallhnjúki Ísraels, segir drottinn Jahve, munu allir Ísraelsmenn, eins
og þeir eru margir til, þjóna mér; þar mun eg taka þeim náðarsam-
lega og og þar mun eg girnast lyftifórnir yðar og frumgróðafórnir á-
samt öllu, sem þér helgið. [41] Eg mun taka yður náðarsamlega sem
þægilegum ilm, þegar eg flyt yður frá þjóðunum og safna yður úr
löndunum, þangað sem yður var tvístrað, og þá skal eg sýna mig
heilagan á yður í augsýn þjóðanna. [42] Og þá skuluð þér viðurkenna,
að eg er Jahve, er eg leiði yður inn í Ísraelsland, inn í landið, sem
eg sór að gefa feðrum yðar. [43] Þar munuð þér þá minnast breytni
yðar og allra verka yðar, er þér saurguðuð yður á, og yður mun bjóða
við sjálfum yður sökum allra þeirra illverka, er þér hafið framið. [44] Og
þér skuluð viðurkenna, að eg er Jahve, er eg fer svo með yður vegna
nafns míns, en fer ekki með yður eftir yðar vondu breytni og yðar
glæpsamlegu verkum, Ísraelsmenn, segir drottinn Jahve.

[45] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [46] Manns-son, horf
þú í suðurátt og lát orð þín streyma mót hádegisstað og spá móti skóg-
inum í suðurlandinu, [47] og seg við skóginn í suðurlandinu: Heyr orð
Jahve! Svo segir drottinn Jahve: Sjá, eg kveiki eld í þér, sem eyða
skal hverju grænu tré og hverjum þurrum viði, sem í þér er. Eldslog-
inn skal ekki slokna, og öll andlit skulu sviðna af honum frá suðri
til norðurs. [48] Og allir menn skulu sjá, að eg, Jahve, hefi kveikt hann;
hann skal ekki slokna. [49] Þá sagði eg: Æ, drottinn Jahve! Þeir segja
21 um mig: Talar hann ekki ávalt í ráðgátum? [1] Þá kom orð Jahve
til mín, svo hljóðandi: [2] Manns-son, snú þér í móti Jerúsalem
og lát orð þín streyma mót helgidóminum og spá gegn Ísraelslandi
[3] og seg við Ísraelsland: Svo segir Jahve: Sjá, eg skal finna þig og
mun draga sverð mitt úr slíðrum og afmá hjá þér ráðvanda og óguð-
lega. [4] Af því að eg ætla að afmá hjá þér ráðvanda og óguðlega, fyrir
því mun sverð mitt hlaupa úr slíðrum á alla menn frá suðri til norð-
urs. [5] Og allir menn skulu viðurkenna, að eg, Jahve, hefi dregið sverð
mitt úr slíðrum; það skal ekki framar þangað aftur hverfa. [6] En þú
manns-son, styn þungan; mjaðmir þínar engist saman, og styn af sárri

---

**36:** 4 Mós. 14, 21 n. **37:** * Þ. e. hirðisstafnum, sbr. Jer. 33, 13. 3 Mós. 27, 32. **40:**
Jes. 56, 7. **47:** kap. 21, 4.

kvöl í augsýn þeirra.
[7] Og er þeir þá segja við þig: Af hverju stynur
þú? þá seg: Yfir fregn nokkurri, sem svo er, að þegar hún kemur, mun
hvert hjarta bráðna, allar hendur verða lémagna, allur dugur dofna og
öll kné leysast sundur og verða að vatni. Sjá, hún kemur og hún
reynist sönn, segir drottinn Jahve.
[8] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi:
[9] Manns-son, spá og
seg: Svo segir drottinn: Seg: Sverð, sverð er hvest og fægt.
[10] Það er
hvest til þess að drepa menn unnvörpum, það er fægt til þess að það
bliki. Eða eigum vér að fagna? Sprotinn, sem ætlaður er syni mín-
um, virðir vettugi sérhvert tré.
[11] Og hann lét það burt til fægingar,
til þess að það yrði knefað. Það var hvest, sverðið, og það var fægt,
til þess að það yrði selt vegandanum í hendur.
[12] Hljóða þú og æp, manns-son, því að það er ætlað til höfuðs
þjóð minni, til höfuðs öllum höfðingjum Ísraels. Undir sverðið eru þeir
seldir, ásamt þjóð minni; fyrir því skalt þú slá á lær þitt.
[13] Því að
reynsla kemur, og hvað, ef jafnvel sprotinn, sem virðir vettugi, verður
eigi framar til? segir drottinn Jahve.
[14] En þú, manns-son, spá og
klappa lófum saman; og myrða skal sverð kappanna, sverð hinna vegnu,
sverð hins mikla manndráps, er svífur í kring um þá.
[15] Til þess að
hjörtu skjálfi og hinir föllnu verði margir við öll hlið þeirra. Eg læt
sverðið blika; já, það er gjört til þess að leiftra, hvest til þess að brytja.
[16] Sníð þú til hægri, bein þér til vinstri, hvort sem egg þinni er snúið.
[17] Þá skal eg og klappa lófum saman og svala heift minni; eg, Jahve,
hefi talað það.
[18] Þá kom orð Jahve til mín, svo hljóðandi:
[19] En þú, manns-son,
tak til tvo vegu, er sverð Babel-konungs skal fara; þeir skulu báðir
liggja frá sama landi. Og set leiðarvísi þar sem vegurinn hefst heim
að hvorri borg,
[20] til þess að sverðið komi yfir Rabba, höfuðborg Amm-
óníta, og yfir Júdaland og Jerúsalem í því miðju.
[21] Því að Babel-
konungur stendur á vegamótum, þar sem báðir vegirnir hefjast, til þess
að leita véfréttar; hann hristir örvarnar, spyr húsgoðin, skoðar lifrina.
[22] Í hægri hendi hans er hlutur Jerúsalem, að hann reisi víghrúta, opni
munninn með ópum, láti heróp gjalla, reisi víghrúta gegn hliðunum,
hleypi upp jarðhrygg, hlaði víggarða.
[23] Og þeim virðist það lygavé-
frétt; þeir hafa unnið hina helgustu eiða, — en hann minnir á mis-
gjörð þeirra, til þess að þeir verði teknir höndum.
[24] Fyrir því segir
drottinn Jahve svo: Með því að hann minti á misgjörð yðar, er trúrof
yðar varð opinbert, svo að syndir yðar urðu berar í öllu athæfi yðar,
— með því að hann minti á yður, skuluð þér verða teknir höndum
þeirra vegna.
[25] En þú, dauðadæmdi guðleysingi, höfðingi Ísraels, hvers
dagur er kominn, þá er tími endasektarinnar rennur upp.
[26] Svo segir
drottinn Jahve: Burt með höfuðdjásnið, niður með kórónuna! Þetta
skal ekki lengur vera svo. Upp með hið lága, niður með hið háa!
[27] Að rústum, rústum, rústum vil eg gjöra hana; þetta ríki skal ekki
heldur vera til, unz sá kemur, sem hefir réttinn og eg gef það.
[28] En þú, manns-son, spá þú og seg: Svo segir drottinn Jahve um
Ammóníta og smánan þeirra: og seg: Sverð, sverð er dregið úr slíðr-
um, fægt til að brytja niður, til þess að láta eldingar leiftra,
[29] en þér
boðuðu menn hégómasýnir og fluttu þér lygispádóma, til þess að setja
það á háls hinna dauðadæmdu guðleysingja, hverra dagur er kominn,
þá er tími endasektarinnar rennur upp.
[30] Slíðra það aftur. Eg skal
dæma þig á þeim stað, þar sem þú varst skapaður, í því landi, þar
sem þú ert upp runninn,
[31] og eg skal úthella yfir þig reiði minni og blása

---

**21, 10:** v. 13. **13:** v. 10. **21:** 1 Mós. 31, 19. **26:** kap. 17, 24. **27:** 1 Mós. 49, 10.
**28:** v. 9. 10.

á þig mínum heiftarloga og selja þig í hendur dýrslegra manna, glöt-
unarsmiða. 32 Eldsmatur skalt þú verða, blóð þitt skal vera inni í
landinu; þín skal eigi framar minst verða, því að eg, Jahve, hefi tal-
að það.

22 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Þú manns-son,
vilt þú dæma, vilt þú dæma hina blóðseku borg? Leið henni
þá fyrir sjónir allar svívirðingar hennar 3 og seg: Svo segir drottinn Jahve:
Ó borg, sem úthelti blóði innan borgarveggja sinna, til þess að tími
hennar kæmi, og gjörði sér skurðgoð, til þess að saurga sig. 4 Fyrir
blóðið, sem þú hefir úthelt, ert þú sek orðin, og fyrir skurðgoðin, sem
þú gjörðir, ert þú óhrein orðin; þú hefir flýtt fyrir degi þínum, og æfi-
lok þín eru komin. Þess vegna gjöri eg þig að háðung meðal þjóð-
anna og að athlægi allra landa. 5 Þeir sem eru nálægt þér og þeir sem
eru langt frá þér munu hæða þig, þú borg með flekkað mannorð, full
af róstum. 6 Sjá, höfðingjar Ísraels, sem í þér búa, úthella blóði, hver
sem betur getur. 7 Hjá þér eru faðir og móðir fyrirlitin, við útlend-
inga beita menn kúgun í þér, munaðarleysingja og ekkjur undiroka
menn hjá þér. 8 Þú fyrirlítur helgidóma mína og vanhelgar hvíldar-
daga mína. 9 Hjá þér eru bakmælgismenn, sem koma manndrápum til
leiðar, hjá þér eta menn fórnarkjöt á fjöllunum; menn fremja saurlífn-
að í þér miðri. 10 Hjá þér bera menn blygðan föður síns; hjá þér
nauðga menn konum, sem óhreinar eru vegna tíða. 11 Einn fremur
svívirðu með konu náunga síns, annar flekkar tengdadóttur sína með
saurlifnaði og enn annar nauðgar hjá þér systur sinni, dóttur föður
síns. 12 Menn þiggja mútur hjá þér, til þess að úthella blóði; þú hefir
tekið fjárleigu og vexti og haft af náunga þínum með ofríki, en mér
hefir þú gleymt, segir drottinn Jahve. 13 En sjá: eg slæ höndum sam-
an yfir því rangfengna fé, sem þú hefir dregið þér, og yfir blóðskuld
þeirri, sem í þér er. 14 Mun kjarkur þinn standast og hendur þínar
haldast styrkar, þegar þeir dagarnir koma, er eg tek þig fyrir? Eg,
Jahve, tala það og mun framkvæma það. 15 Og eg mun tvístra þér
meðal þjóðanna og dreifa þér út um löndin og gjörsamlega uppræta
óhreinleik þinn úr þér, 16 og þú skalt vanhelguð verða í augsýn heið-
ingjanna, og þá skalt þú viðurkenna, að eg er Jahve.
17 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 18 Manns-son, Ísraels-
menn eru orðir fyrir mér eins og sori. Þeir eru allir eins og eir og tin
og járn og blý í bræðsluofni; þeir eru orðnir sorasilfur. 19 Fyrir því segir
drottinn Jahve svo: Af því að þér eruð allir orðnir að sora, þá vil eg
safna yður saman í Jerúsalem. 20 Eins og silfur og eir og járn og blý
og tin er látið saman inn í bræðsluofn, til þess að blása eldi að því
og bræða það, þannig mun eg safna yður saman í reiði minni og
gremi, láta yður þar inn og bræða yður. 21 Og eg mun stefna yður
saman og blása að yður eldi gremi minnar, svo að þér skuluð bráðna
þar. 22 Eins og silfrið er brætt í bræðsluofninum, svo skuluð þér bráðna
í borginni og þá munuð þér viðurkenna, að eg, Jahve, hefi úthelt reiði
minni yfir yður.
23 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 24 Þú manns-son,
seg við hana: Þú ert eins og land, sem ekki rigndi á, sem eigi var
vökvað á degi reiðinnar, 25 en þjóðhöfðingjar þess voru í því sem öskr-
andi ljón, er rífur sundur bráð sína; mannslífum hafa þeir eytt, eignir
og dýrgripi hafa þeir tekið og fjölgað ekkjum í landinu. 26 Prestar
hennar hafa brjálað lögmáli mínu og vanhelgað helgidóma mína; þeir

---

**22, 2:** kap. 20, 4; 16, 2. **7:** 2 Mós. 20, 12; 22, 21. 22. **9:** 3 Mós. 19, 16. Esek. 18,
6. **10:** 3 Mós. 18, 7. 19. Esek. 18, 6. **11:** Jer. 5, 8. 3 Mós. 18, 15.

hafa engan mun gjört á því, sem heilagt er og óheilagt, og eigi frætt
menn um muninn á óhreinu og hreinu; og þeir hafa lokað augum
sínum fyrir hvíldardögum mínum, svo að eg vanhelgaðist meðal þeirra.
27 Yfirmenn hennar voru í henni eins og sundurrífandi vargar og hugs-
uðu ekki um annað en að úthella blóði og eyða mannslífum, til þess
að afla sér rangfengins gróða. 28 En spámenn hennar riðu á kalki fyrir
þá, með því að boða þeim hégómasýnir og flytja þeim lygispádóma
og segja: Svo segir drottinn Jahve! en þótt Jahve hafi ekki talað.
29 Landslýðurinn hefir haft kúgun og rán í frammi, þeir hafa undirokað
volaða og snauða og kúgað útlendinga án nokkurs réttar. 30 Og eg
leitaði að einhverjum meðal þeirra, er hlaða vildi garð eða skipa sér í
skarðið móti mér, landinu til varnar, til þess að eg legði það ekki í
eyði; en eg fann engan. 31 Þá úthelti eg reiði minni yfir þá, gjöreyddi
þeim með eldi gremi minnar; eg lét athæfi þeirra þeim í koll koma,
segir drottinn Jahve.

23 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 2 Manns-son, kon-
ur voru tvær, dætur sömu móður; 3 þær frömdu hórdóm á Egipta-
landi, þær hóruðust í æsku. Þar létu þær þukla um brjóst sér og þar
fóru menn höndum um meyjarbarm þeirra. 4 Hin eldri hét Ohola og
systir hennar Oholíba. Og eg eignaðist þær báðar, og þær ólu sonu
og dætur; og Ohola hét síðar Samaría og Oholíba Jerúsalem. 5 En
Ohola tók fram hjá mér og brann af girnd til friðla sinna, til Assýr-
inga, hinna nafntoguðu, 6 sem klæddir voru bláum purpura, jarlar og
landstjórar, alt saman fríðir æskumenn, riddarar ríðandi hestum. 7 Og
hún helgaði þeim hóranir sínar, öllum úrvalsmönnum Assýringa, og
hún saurgaði sig á skurðgoðum allra þeirra, er hún brann af girnd til.
8 Þó lét hún ekki af hórunum sínum frá Egiptalandi; því að þeir höfðu
legið með henni í ungdæmi hennar og farið höndum um meyjarbarm
hennar og helt yfir hana hóran sinni. 9 Fyrir því seldi eg hana í hendur
friðla sinna, í hendur Assýringa, er hún brann af girnd til. 10 Þeir
beruðu blygðan hennar, tóku burt sonu hennar og dætur og vógu hana
sjálfa með sverði, svo að hún varð öðrum konum til viðvörunar, og
framkvæmdu þannig refsingardóminn á henni.
11 En þótt systir hennar Oholíba sæi það, þá varð hún þó enn
frekari í lostanum og drýgði enn meiri saurlifnað en systir hennar.
12 Hún brann af girnd til Assýringa, nafntogaðra jarla og landstjóra,
sem voru frábærilega prúðbúnir, til riddara, sem riðu hestum, alt saman
fríðir æskumenn. 13 Og eg sá, hversu hún saurgaði sig; eitt og hið
sama var háttalag beggja þeirra systra. 14 En hún hélt áfram að drýgja
hórdóm, og er hún sá menn dregna á vegg, myndir af Kaldeum, málaða
með menju, 15 gyrta belti um lendarnar, með vefjarhöttu um höfuðin,
alla saman hina hermannlegustu, mynd af Babelmönnum, en ættland
þeirra er Kaldea, — 16 þá brann hún af girnd til þeirra, er hún leit þá
augum, og gjörði sendimenn til þeirra til Kaldeu. 17 Og Babelmenn
gengu inn til hennar, til ástasamlags við hana, og flekkuðu hana með
saurlifnaði sínum, og hún saurgaði sig á þeim; þá sneri sál hennar sér
frá þeim. 18 Og er hún framdi saurlifnað sinn berlega og beraði blygð-
an sína, þá sneri sál mín sér frá henni, eins og sál mín hafði snúið
sér frá systur hennar. 19 En hún varð enn frekari í hórdómi sínum,
með því að hún mintist æskudaga sinna, þá er hún framdi saurlifnað
á Egiptalandi. 20 Og hún brann af girnd til friðla þeirra, sem voru
eins hreðurmiklir og asnar og gusan úr þeim sem úr stóðhestum. 21 Og

---

**28:** kap. 13, 6. 10. **30:** kap. 13, 5. — **23, 3:** kap. 20, 5—8. **9:** 2 Kong. 17, 6. **10:**
kap. 16, 37. **11:** kap. 16, 47. **14:** kap. 16, 29.

aftur til Egiptalands. 14 Og Ísrael gleymdi skapara sínum og reisti sér
hallir og Júda bygði margar víggirtar borgir; en eg vil skjóta eldi í
borgir hans, og eldurinn skal eyða skrauthýsum hans.

9 Gleð þig ekki, Ísrael, svo að þú ráðir þér ekki fyrir kæti, eins
og heiðnu þjóðirnar, því að þú hefir tekið fram hjá Guði þínum;
þú hefir elskað hórgjald á öllum kornláfum. 2 En láfi og vínlagarþró
munu ekki vilja við þá kannast, og vínberjalögurinn mun bregðast þeim.
3 Þeir munu eigi búa kyrrir í landi Jahve, heldur mun Efraím verða að
fara aftur til Egiptalands, og þeir munu eta óhreina fæðu í Assúrlandi.
4 Þá munu þeir eigi færa Jahve neitt vín að dreypifórn og eigi bera
fram fyrir hann sláturfórnir sínar. Brauð þeirra mun verða eins og
sorgarbrauð; allir, sem eta það, munu óhreinir verða. Því að brauð
þeirra mun aðeins seðja hungur þeirra, en eigi koma í hús Jahve.
5 Hvað viljið þér gjöra á löghelgum og á hátíðardögum Jahve? 6 Því
sjá, þegar þeir eru komnir burt frá eyðingunni, mun Egiptaland saman
safna þeim, Memfis veita þeim legstað; silfurgersemar þeirra munu þistl-
arnir eignast — þyrnarnir í tjöldum þeirra. 7 Hegningartíminn kemur,
endurgjaldstíminn kemur; Ísrael mun fá að kenna á því.
»Spámaðurinn er fífl, andans maður óður« — af því að misgjörð
þín er svo mikil og ofsóknin svo mikil. 8 Efraím er á verði gegn Guði
mínum. Fyrir spámanninn er lögð fuglara-snara á öllum vegum hans,
hersporar í húsi Guðs hans. 9 Þeir hafa framið mikil óhæfuverk, eins
og forðum í Gíbeu; hann minnist misgjörðar þeirra, hann vitjar synda
þeirra.

10 Eg fann Ísrael eins og vínber á eyðimörku, sá feður yðar eins
og frumfíkju á fíkjutré, þá er það fyrst ber ávöxt. En er þeir komu
til Baal-Peór, helguðu þeir sig svívirðingunni og urðu andstyggilegir,
eins og sá, sem þeir elskuðu.
11 Fólksfjöldi Efraíms mun burt fljúga eins og fuglar, svo að kon-
ur skulu þar ekki framar fæða, ekki þungaðar vera og ekki getnað fá.
12 Og þótt þeir ali upp börn sín, þar til er þau verða fulltíða, þá skal
eg þó gjöra þá barnlausa, svo að mannskortur verði. Já, vei og sjálf-
um þeim, þegar eg vík frá þeim. 13 Efraím er, eins og eg lít hann alt
til Týrus, gróðursettur á engi, og Efraímítar verða að framselja morð-
ingjum sonu sína. 14 Gef þeim, Jahve, — hvað skaltu gefa? — gef þeim
ófrjósöm móðurlíf og mjólkurlaus brjóst.
15 Öll vonzka þeirra kom fram í Gilgal. Já, þar fékk eg hatur á
þeim. Vegna hins vonda athæfis þeirra vil eg reka þá burt úr húsi
mínu, eg vil eigi elska þá lengur; allir höfðingjar þeirra eru þver-
móðskufullir. 16 Efraím mun lostinn verða; rót þeirra skrælnar, þeir
munu engan ávöxt bera. Þótt þeir eignist sonu, mun eg deyða hin
elskuðu lífsafkvæmi þeirra. 17 Guð minn mun hafna þeim, því að þeir
hafa ekki hlýtt honum; og þeir munu fara landflótta meðal þjóðanna.

10 Ísrael var grózkumikill vínviður, sem bar ávöxt. Því meiri
sem ávextir hans urðu, því fleiri ölturu reisti hann; að sama
skapi sem velmegun landsins jókst, prýddu þeir merkissteinana. 2 Hjarta
þeirra var óheilt; fyrir því skulu þeir nú gjöld taka. Hann mun sjálf-
ur rífa niður ölturu þeirra, brjóta sundur merkissteina þeirra. 3 Já, þá
munu þeir segja: Vér höfum engan konung, því að vér höfum ekki
óttast Jahve; og konungurinn, hvað getur hann gjört fyrir oss? 4 Þeir

---

9, 3: Esek. 4, 13. 4: 5 Mós. 26, 14. Hós, 8, 13. 8: kap. 5, 1. 9: Dóm. 19, 15 n. 22.
10: 4 Mós. 25, 3. 13: Esek. 27, 3. 15: kap. 4, 15; 12, 10. 17: 5 Mós. 28, 65.

tala hégómaorð, sverja meinsæri, gjöra sáttmála, til þess að rétturinn
vaxi eins og eiturjurt upp úr plógförum á akri.
[5] Samaríu-búar munu verða kvíðandi út af kálfinum í Betaven;
já, lýður hans mun dapur verða út af honum og hofgoðar hans skelf-
ast hans vegna — vegna vegsemdar lýðsins, að hann fari burt frá hon-
um. [6] Jafnvel sjálfur hann mun fluttur verða til Assýríu sem gjöf handa
Þrasvaldi konungi; Efraím mun hljóta skömm af og Ísrael fyrirverða
sig fyrir ráðagjörð sína. [7] Samaría skal í eyði lögð verða; konungur
hennar skal verða sem tréflís á vatni. [8] Óheillahæðirnar skulu eyddar
verða, þar sem Ísrael syndgaði; þyrnar og þistlar skulu upp vaxa á
ölturum þeirra. Og þá munu þeir segja við fjöllin: Hyljið oss! og við
hálsana: Hrynjið yfir oss!
[9] Síðan á Gíbeu-dögum hefir þú syndgað, Ísrael! Þarna stóðu þeir!
Hvort mun stríðið gegn glæpamönnunum ná þeim í Gíbeu? [10] Nú vil
eg refsa þeim eftir vild minni; þjóðir skulu saman safnast móti þeim,
til þess að refsa þeim fyrir báðar misgjörðir þeirra. [11] En Efraím er
eins og vanin kvíga, sem ljúft er að þreskja. Að vísu hefi eg enn hlíft
hinum fagra hálsi hennar, en nú vil eg beita Efraím fyrir; Júda skal
plægja, Jakob herfa.
[12] Sáið niður velgjörðum, þá munuð þér uppskera góðleik; takið
yður nýtt land til yrkingar, þar eð tími er kominn til að leita Jahve,
til þess að hann komi og láti réttlæti rigna yður í skaut. [13] Þér hafið
plægt guðleysi, uppskorið ranglæti, etið ávöxtu lyginnar; því að þú
reiddir þig á vagna þína og á fjölda kappa þinna. [14] Því skal og her-
gnýr rísa gegn mönnum þínum og virki þín öll skulu eydd verða, eins
og þegar Salman eyddi Betarbel á ófriðartíma, þá er mæðurnar voru
rotaðar ásamt börnunum. [15] Eins mun hann með yður fara, Ísraels-
menn, sökum yðar miklu vonzku. Í dögun mun Ísraelskonungur af-
máður verða.

11 Þegar Ísrael var ungur, fékk eg ást á honum og frá Egiptalandi
kallaði eg sonu hans. [2] Þegar eg kallaði á þá, fóru þeir burt frá
mér. Þeir færðu Baölunum sláturfórnir og skurðgoðunum reykelsisfórnir.
[3] Eg kendi Efraím að ganga og tók þá á arma mér. En þeir urðu þess
ekki varir, að eg læknaði þá. [4] Með böndum, slíkum sem þeim er
menn nota, dró eg þá að mér, með taugum kærleikans, og fór að þeim
eins og sá, sem lyftir upp okinu á kjálkunum, og rétti þeim fæðu.
[5] Þeir skulu snúa aftur til Egiptalands og Assúr skal verða konungur
þeirra; því að þeir vilja ekki snúa sér. [6] Því skal og sverðið geisa í
borgum þeirra, og eyðileggja slagbranda þeirra og eyða virkjum þeirra.
[7] Lýður minn hefir stöðuga tilhneiging til þess að snúa við mér bakinu;
og þótt kallað sé til þeirra: Upp á við! þá hefur enginn sig upp.
[8] Hvernig ætti eg að sleppa hendi af þér, Efraím, ofurselja þig,
Ísrael? Ætti eg að fara með þig eins og Adma, útleika þig eins og
Zebóím! Hjartað kemst við í brjósti mér, eg kenni brennheitrar með-
aumkunar. [9] Eg vil ekki framkvæma heiftarreiði mína, ekki aftur eyði-
leggja Efraím. Því að eg er Guð, en ekki maður; eg bý á meðal yðar
sem heilagur Guð og kem ekki til yðar í bræði. [10] Þeir munu fylgja
Jahve, sem öskra mun eins og ljón; já, hann mun öskra og synir munu
koma skjálfandi úr vestri. [11] Þeir munu koma skjálfandi frá Egipta-
landi, eins og fuglar, og eins og dúfur frá Assúr-landi. Þá vil eg láta
þá búa í húsum sínum, segir Jahve.

---

**10, 4:** Am. 6, 12. **6:** kap. 5, 13. **8:** Lúk. 23, 30. Opinb. 6, 16. **12:** Jer. 4, 3. Jes. 45, 8. **13:** kap. 8, 7. — **11, 1:** Matt. 2, 15. **3:** 5 Mós. 1, 31. **6:** kap. 10, 6. **8:** 5 Mós. 29, 23. 1 Mós. 19, 24. 25. **9:** 4 Mós. 23, 19. **10:** kap. 3, 5.

12 Efraím hefir umkringt mig með lygi og Ísraels hús með svikum
og Júda er enn reikull gagnvart Guði og gagnvart hinum heilaga,
sem aldrei breytist. 2 Efraím sækist eftir vindi og eltir austangoluna;
á hverjum degi hrúga þeir upp lygum og ofbeldisverkum; þeir gjöra
sáttmála við Assúr og olía er flutt til Egiptalands. 3 En Jahve mun
ganga í dóm við Júda og hegna Jakob eftir breytni hans, endurgjalda
honum eftir verkum hans. 4 Í móðurkviði lék hann á bróður sinn og
sem fulltíða maður glímdi hann við Guð. 5 Hann glímdi við engil og
bar hærri hlut; hann grét og bað hann líknar. Hann fann hann í Betel
og þar talaði hann við hann. 6 Jahve, Guð hersveitanna, Jahve er nafn
hans. 7 En þú skalt hverfa aftur með hjálp Guðs þíns. Ástunda mis-
kunnsemi og réttlæti og vona stöðugt á Guð þinn. 8 Kanaan — röng vog
er í hendi hans, hann er gjarn á að hafa af öðrum með svikum. 9 Og
Efraím segir: Eg er auðugur orðinn, hefi aflað mér fjár. Við allan
gróða minn geta menn ekki fundið neina misgjörð, er sé synd. 10 En
eg, Jahve, er Guð þinn frá því á Egiptalandi — enn get eg látið þig búa
í tjöldum eins og á hátíðardögunum — 11 og eg hefi talað til spámann-
anna og eg hefi látið þá sjá margar sýnir og talað í líkingum fyrir munn
spámannanna. 12 Ef Gíleað er óguðlegt, þá skulu þeir að engu verða;
af því að þeir fórnuðu nautum í Gilgal, þá skulu og ölturu þeirra verða
eins og steinhrúgur hjá plógförum á akri.
13 Þegar Jakob flýði til Aram-lands, þá gjörðist Ísrael þjónn vegna
konu og vegna konu gætti hann hjarðar. 14 Fyrir spámann leiddi Jahve
Ísrael af Egiptalandi, og fyrir spámann varðveittist hann. 15 Efraím hefir
valdið sárri gremju; fyrir því mun drottinn hans láta blóðskuld hans
yfir hann koma og gjalda honum svívirðing hans.

13 Þegar Efraím talaði, sló ótta á menn; hann var höfðingi í Ísra-
el. En hann varð sekur fyrir Baals-dýrkunina og dó. 2 Og nú
halda þeir áfram að syndga; þeir hafa gjört sér steypt líkneski úr silfri
sínu, goðalíkneski eftir hugviti sínu — verk hagleiksmanna er það alt
saman. Og slíkt ávarpa þeir. Fórnandi menn kyssa kálfa. 3 Fyrir því
skulu þeir verða eins og ský að morgni dags og sem dögg, er snemma
hverfur, eins og sáðir, sem þyrlast burt af láfanum og sem reykur út
um ljóra. 4 En eg, Jahve, er Guð þinn frá því á Egiptalandi; annan
guð en mig þekkir þú ekki og enginn frelsari er til nema eg. 5 Það
var eg, sem hélt þér til haga í eyðimörkinni, í landi þurkanna. 6 En
því meira haglendi sem þeir fengu, því saddari átu þeir sig. En er
þeir voru saddir orðnir, metnaðist hjarta þeirra; þess vegna gleymdu
þeir mér. 7 Fyrir því er eg þeim eins og ljón, ligg í leyni við veginn
eins og pardusdýr, 8 ræðst á þá eins og birna, sem rænd er húnum
sínum, sundurríf brjóst þeirra. Þar skulu ung ljón eta þá, villidýrin
slíta þá sundur. 9 Það verður þér að tjóni, Ísrael, að þú ert á móti
mér, hjálpara þínum. 10 Hvar er nú konungur þinn, að hann frelsi þig,
og allir höfðingjar þínir, að þeir rétti hluta þinn? — þeir er þú sagðir
um: Gef mér konung og höfðingja! 11 Eg gef þér konung í reiði minni
og tek hann aftur í bræði minni.
12 Misgjörð Efraíms er saman bundin, synd hans vel geymd.
13 Kvalir jóðsjúkrar konu koma yfir hann; en hann er óvitur sonur;
þótt stundin sé komin, kemur hann ekki fram í burðarliðinn. 14 Ætti
eg að frelsa þá frá Heljar valdi, leysa þá frá dauða? Hvar eru drep-
sóttir þínar, dauði? hvar er sýki þín, Hel? Augu mín þekkja enga

---

**12, 4:** 1 Mós. 25, 26; 32, 24 n. **5:** 1 Mós. 35, 9 n. 28, 13. **6:** 2 Mós. 3, 15; 15, 3. **7:** kap. 14, 2. Jóel 2, 12. **12:** kap. 6, 8; 8, 11. **13:** 1 Mós. 28, 5; 29, 20. **14:** Sálm. 77, 21. — **13, 2:** 1 Kong. 19, 18. Job 31, 27. **3:** kap. 6, 4. Sálm. 1, 4. **4:** kap. 12, 10. 2 Mós. 20, 2. **6:** 5 Mós. 8, 11 n. 32, 15. **7:** kap. 5, 14. Jer. 5, 6. **10:** 1 Sam. 8, 5. **11:** 1 Sam. 8, 22. **12:** Job 14, 17. **13:** Jes. 13, 8. **14:** Jes. 25, 8. 1 Kor. 15, 54. 55.

meðaumkun. 15 Því þótt hann beri ávöxt meðal bræðranna, þá kemur
þó austanvindurinn, stormur Jahve, sem rís í eyðimörkinni, svo að
brunnar hans þorna og lindir hans þrjóta. Hann mun ræna fjársjóð
sinn öllum dýrmætum gersemum.
14 Samaría fær að gjalda þess, að hún hefir sett sig upp á móti
Guði sínum; fyrir sverði skulu þeir falla, ungbörnum þeirra skal
slegið verða niður við og þungaðar konur þeirra ristar verða á kvið.

2 Snú þú við, Ísrael, til Jahve, Guðs þíns; því að þú steyptist
fyrir misgjörð þína. 3 Takið orð með yður og hverfið aftur til Jahve.
Segið við hann: Fyrirgef með öllu misgjörð vora og ver góður, og vér
skulum greiða þér ávöxt vara vorra. 4 Assúr skal eigi framar hjálpa
oss, vér viljum eigi ríða hestum og eigi framar segja »Guð vor« við
verk handa vorra; því að hjá þér hlýtur hinn munaðarlausi líkn! 5 Eg
vil lækna fráhvarf þeirra, elska þá af frjálsum vilja, því að reiði mín
hefir snúið sér frá þeim. 6 Eg vil verða Ísrael sem döggin; hann skal
blómgast sem lilja og skjóta rótum sem Líbanonskógur. 7 Frjóangar
hans skulu breiðast út og toppskrúðið verða sem á olíutré og ilmur
hans verða sem Líbanonsilmur. 8 Þeir, sem búa í skugga hans, skulu
aftur rækta korn og blómgast eins og vínviður; hann skal verða eins
nafntogaður og vínið frá Líbanon. 9 Hvað á Efraím framar saman við
skurðgoðin að sælda? Eg hefi bænheyrt hann; eg lít til hans; eg er
sem laufgrænt kýprestré. Það mun í ljós koma, að ávextir þínir eru
frá mér komnir.

* * *

10 Hver er svo vitur, að hann skilji þetta, svo hygginn, að hann
sjái það? Já, vegir Jahve eru réttir. Hinir réttlátu ganga þá öruggir,
en hinir ranglátu hrasa á þeim.

---

# Jóel.

1 Orð Jahve, sem kom til Jóels Petúelssonar.
2 Heyrið þetta, þér öldungar, og hlustið, allir íbúar landsins! Hefir
slíkt nokkurn tíma til borið á yðar dögum eða á dögum feðra yðar?
3 Segið börnum yðar frá því og börn yðar sínum börnum og börn
þeirra komandi kynslóð. 4 Það sem nagarinn leifði, það át átvargurinn;
það sem átvargurinn leifði, upp át flysjarinn, og það sem flysjarinn
leifði, upp át jarðvargurinn. 5 Vaknið, þér ofdrykkjumenn, og grátið!
Kveinið allir þér, sem vín drekkið, yfir því að vínberjaleginum er kipt
burt frá munni yðar. 6 Því að voldug þjóð og ótöluleg hefir farið yfir
land mitt; tennur hennar eru sem ljónstennur og jaxlar hennar sem
dýrsins óarga. 7 Hún hefir eytt víntré mín og brotið fíkjutré mín; hún
hefir flegið allan börk af þeim og varpað þeim um koll; greinar þeirra
urðu hvítar. 8 Kveina þú eins og mær, sem klæðist sorgarbúningi
vegna unnusta æsku sinnar. 9 Matfórnir og dreypifórnir eru numdar
burt úr húsi Jahve; prestarnir, þjónar Jahve, eru hryggir. 10 Vellirnir

---

14, 1: 2 Kong. 15, 16. Am. 1, 13. 2: kap. 12, 7. 3: Hebr. 13, 15. 4: Sálm. 10, 14.
5: kap. 6, 1. 9: Jóh. 15, 1 n. — 1, 9: kap. 2, 14. 17.

eru eyddir, akurlendið drúpir, því að kornið er eytt, vínberjalögurinn
hefir brugðist og olían er þornuð. 11 Akurmennirnir eru sneyptir, vín-
yrkjumennirnir kveina, vegna hveitisins og byggsins, því að útséð er
um nokkura uppskeru af akrinum. 12 Vínviðurinn er uppskrælnaður,
fíkjutrén fölnuð, granateplatrén, pálmaviðurinn og apaldurinn, öll tré
merkurinnar eru uppþornuð; já, öll gleði er horfin frá mannanna
börnum. 13 Gyrðist hærusekk og harmið, þér prestar; kveinið, þér alt-
arisþjónar! Komið, verið á næturnar í hærusekk, þér þjónar Guðs
míns, því að matfórn og dreypifórn eru burtnumdar úr húsi Guðs yðar.
14 Stofnið til helgrar föstu, boðið hátíðarstefnu. Kallið saman öldung-
ana, alla íbúa landsins í húsi Jahve, Guðs yðar, og hrópið til Jahve.
15 Æ, sá dagur! Því að dagur Jahve er nálægur og hann kemur sem
eyðing frá hinum almátka. 16 Hefir ekki fæðan verið hrifin burt fyrir
augum vorum og er ekki gleði og fögnuður horfinn úr húsi Guðs vors.
17 Frækornin liggja skorpnuð undir moldarkökkunum, forðabúrin eru eydd,
kornhlöðurnar niðurrifnar, því að kornið er uppskrælnað. 18 Ó, hversu
skepnurnar stynja; nautahjarðirnar rása ærðar, af því að þær hafa
engan haga; sauðahjarðirnar þola og nauð. 19 Til þín, Jahve, kalla eg,
því að eldur hefir eytt hagaspildum eyðimerkurinnar og logi sviðið öll
tré merkurinnar. 20 Jafnvel dýr merkurinnar mæna til þín, því að
vatnslækirnir eru uppþornaðir og eldur hefir eytt hagaspildum eyði-
merkurinnar.

2 Þeytið lúðurinn í Zíon og æpið óp á mínu heilaga fjalli, svo að
allir íbúar landsins nötri. Því að dagur Jahve kemur, já, hann er
í nánd, 2 dagur myrkurs og dimmu, dagur skýþyknis og skýsorta. Eins
og morgunbjarmi breiðist yfir fjöllin mikil og voldug þjóð; hennar líki
hefir ekki verið frá eilífð og hennar líki mun ekki koma eftir hana alt
fram á ár ókominna alda. 3 Fyrir henni fer eyðandi eldur og eftir
henni logi brennandi. Þótt landið fram undan henni hafi verið eins
og Edensgarður, er það á bak henni sem eyðiöræfi; enginn hlutur
komst undan henni. 4 Ásýndum eru þeir sem hestar að sjá og þeir eru
fráir sem riddarar. 5 Eins og glamrandi vagnar stökkva þeir yfir fjalla-
hnjúkana, eins og snarkar í eldsloga, sem eyðir hálmleggjum, eins og
voldug þjóð, sem búin er til bardaga. 6 Fyrir henni skjálfa þjóðirnar,
öll andlit blikna. 7 Þeir hlaupa sem hetjur, stíga upp á borgarvegginn
sem hermenn; sérhver þeirra gengur sína leið og enginn riðlast á annars
braut. 8 Enginn þeirra þrengir öðrum, hver gengur sína braut; jafnvel
mót skotspjótum þeytast þeir áfram, án þess að stöðva ferð sína. 9 Þeir
ráðast inn í borgina, hlaupa á borgarvegginn, stíga upp í húsin, fara
inn um gluggana sem þjófar. 10 Fyrir henni nötrar jörðin, himnarnir
skjálfa; sól og tungl myrkvast og stjörnurnar missa birtu sína. 11 Og
Jahve lætur raust sína þruma fyrir öndverðu liði sínu. Því að herlið
hans er afarmikið, því að voldugur er sá, sem framkvæmir hans boð.
Já, mikill er dagur Jahve og mjög ógurlegur; hver getur afborið hann?
12 En snúið yður og nú til mín, segir Jahve, af öllu hjarta, með
föstum, gráti og kveini. 13 Sundurrífið hjörtu yðar, en ekki klæði yðar,
og hverfið aftur til Jahve, Guðs yðar, því að hann er líknsamur og
miskunnsamur, þolinmóður og gæzkuríkur og iðrast hins illa. 14 Hver
veit nema hann iðrist aftur og láti blessun eftir sig: matfórn og dreypi-
fórn handa Jahve, Guði yðar! 15 Þeytið lúðurinn í Zíon, stofnið til
helgrar föstu, boðið hátíðarstefnu. 16 Kveðjið saman lýðinn, helgið söfn-

---

**11:** Jer. 14, 4. **14:** kap. 2, 15 n. 2 Kron. 20, 3. **15:** kap. 2, 1. Esek. 30, 3. Zef. 1, 14. Jes. 13, 6. — **2, 1:** Hós. 5, 8. Jóel 1, 15. **2:** Am. 5, 18. 20. Zef. 1, 15. **9:** Jer. 9, 21. **10:** Jes. 13, 10. Esek. 32, 7. Matt. 24, 29. **11:** Mal. 3, 2. **12:** Hós. 12, 7. **13:** 2 Mós. 34, 6 n. Sálm. 86, 5. 15; 103, 8 n. Jón. 4, 2. **14:** Jón. 3, 9. Jóel 1, 9. 13. **15:** kap. 1, 14.

uðinn, stefnið saman gamalmennum, safnið saman börnum og brjóst-
mylkingum. Brúðguminn gangi út úr herbergi sínu og brúðurin út úr
brúðarsal sínum. [17] Milli forsals og altaris skulu prestarnir, þjónar
Jahve, gráta og segja: Þyrm þjóð þinni, Jahve, og lát eigi arfleifð þína
verða að spotti, svo að heiðingjarnir drotni yfir þeim. Hví skulu menn
segja meðal þjóðanna: Hvar er Guð þeirra?
[18] Þá varð Jahve vandlætissamur vegna lands síns og hann þyrmdi
lýð sínum. [19] Jahve tók til máls og sagði við lýð sinn: Sjá, eg sendi
yður korn, vínberjalög og olíu, svo að yður skal nægja til saðnings; og
eg vil eigi láta yður verða framar að spotti meðal heiðingjanna. [20] Og
óvininn, sem frá norðri kemur, mun eg reka langt burt frá yður og
stökkva honum út á auðnir og öræfi; skal fararbroddur hans lenda í
austurhafinu og halaflokkurinn í vesturhafinu; þar skal fýla og illur
daunn upp af honum stíga; því að hann hefir unnið stórvirki. [21] Óttast
eigi, land; fagna og gleðst; því að Jahve hefir unnið stórvirki. [22] Óttist
eigi, þér dýr merkurinnar; því að grashagar eyðimerkurinnar grænka,
því að trén bera ávöxt, fíkjutrén og víntrén gefa sinn gróða. [23] Og þér
Zíonbúar, fagnið og gleðjist í Jahve, Guði yðar, því að hann gefur yður
regn í réttum mæli og lætur skúrirnar ofan til yðar koma, haustregn
og vorregn, eins og áður. [24] Láfarnir verða fullir af korni, og vínberja-
lögurinn og olían flóa út af þrónum. [25] Eg bæti yður upp árin, er át-
vargurinn, flysjarinn, jarðvargurinn og nagarinn átu, — minn mikli
her, er eg sendi móti yður. [26] Þér skuluð eta og mettir verða og veg-
sama nafn Jahve, Guðs yðar, sem dásamlega hefir við yður gjört, og
þjóð mín skal aldrei að eilífu til skammar verða. [27] Og þér skuluð
viðurkenna, að eg er meðal Ísraels og að eg er Jahve, yðar Guð, og
enginn annar. Og þjóð mín skal aldrei að eilífu til skammar verða.
3 En síðar meir mun eg úthella anda mínum yfir alt hold; synir
yðar og dætur yðar munu spá, gamalmenni yðar mun drauma
dreyma, ungmenni yðar munu sjá sjónir. [2] Já, einnig yfir þræla og
ambáttir mun eg á þeim dögum úthella anda mínum. [3] Og eg mun
láta tákn verða á himni og á jörðu: blóð, eld og reykjarstróka. [4] Sólin
mun snúast í myrkur og tunglið í blóð, áður en hinn mikli og ógur-
legi dagur Jahve kemur. [5] Og hver, sem ákallar nafn Jahve, mun frels-
ast. Því að á Zíon-fjalli og í Jerúsalem mun frelsun verða, eins og
Jahve hefir sagt, og meðal flóttamannanna fyrir þá, sem Jahve kallar.
[6] Því að sjá, á þeim dögum og í þann tíð, er eg sný við högum
Júda og Jerúsalem, [7] vil eg saman safna öllum þjóðum og færa þær
ofan í Jósafatsdal* og ganga þar í dóm við þær, vegna lýðs míns og
arfleifðar minnar Ísraels, af því að þeir hafa dreift henni meðal heið-
ingjanna og skift sundur landi mínu; [8] og þeir köstuðu hlutum um lýð
minn og gáfu svein fyrir skækju og seldu mey fyrir vín og drukku.
[9] Og hvað viljið þér mér, Týrus og Sídon og öll héruð Filisteu! Ætlið
þér að gjalda mér það, sem yður hefir gjört verið, eða ætlið þér að
gjöra mér eitthvað? Afarskyndilega mun eg láta gjörðir yðar koma
sjálfum yður í koll. [10] Þér hafið rænt silfri mínu og gulli og flutt beztu
gersemar mínar í musteri yðar. [11] Júdamenn og Jerúsalembúa hafið
þér selt Íónum, til þess að flytja þá langt burt frá átthögum þeirra.
[12] Sjá, eg mun kalla þá frá þeim stað, þangað sem þér hafið selt þá,
og eg mun láta gjörðir yðar koma sjálfum yður í koll. [13] Og eg mun
selja sonu yðar og dætur Júdamönnum, og þeir munu selja þá Saba-
mönnum, fjarlægri þjóð, því að Jahve hefir sagt það.

---

17: kap. 1, 9. Sálm. 42, 4; 79, 10; 115, 2. 23: 5 Mós. 11, 14. 25: kap. 1, 4. —
3, 1: Esek. 39, 29. Sak. 12, 10. Post. 2, 16. 17; 10, 44. 4: kap. 2, 10. 11. Jes.
13, 10 n. Esek. 32, 7. 5: Róm. 10, 13. Óbad. 17. 7: * Jósafat merkir: Jahve dæmir.

[14] Boðið þetta meðal heiðingjanna: Búið yður í heilagt stríð!
Kveðjið upp kappana! Allir herfærir menn komi fram og fari í leið-
angur! [15] Smíðið sverð úr plógjárnum yðar og lensur úr sniðlum yðar!
Heilsuleysinginn hrópi: Eg er hetja! [16] Flýtið yður og komið, allar
þjóðir, sem umhverfis eruð, og safnist saman. Jahve, lát kappa þína
stíga niður þangað! [17] Hreyfing skal koma á þjóðirnar og þær skulu
halda upp í Jósafatsdal; því að þar mun eg sitja, til þess að dæma
allar þjóðirnar, sem umhverfis eru. [18] Bregðið sigðinni, því að kornið
er fullþroskað; komið og troðið, því að vínlagarþróin er full, það flóir
út af lagarkerunum, því að ilska þeirra er mikil. [19] Flokkarnir þyrp-
ast saman í dóms-dalnum; því að dagur Jahve er nálægur í dóms-
dalnum. [20] Sól og tungl eru myrk orðin og stjörnurnar hafa mist birtu
sína. [21] En Jahve öskrar frá Zíon og lætur raust sína gjalla frá Jerú-
salem, svo að himinn og jörð nötra; en Jahve er athvarf sínum lýð og
vígi Ísraelsmönnum. [22] Og þér skuluð viðurkenna að eg er Jahve, Guð
yðar, sem bý á Zíon, mínu heilaga fjalli. Og Jerúsalem skal vera hei-
lög og útlendingar skulu ekki framar inn í hana koma. [23] Á þeim degi
munu fjöllin löðra í vínberjalegi og hálsarnir fljóta í mjólk og allir
lækir í Júda renna vatnsfullir. Og lind mun fram spretta undan húsi
Jahve og vökva dal akasíutrjánna. [24] Egiptaland mun verða að öræf-
um og Edóm að óbygðri eyðimörk, sökum ofríkis við Júdamenn, af
því að þeir útheltu saklausu blóði í landi þeirra. [25] En Júda mun ei-
líflega bygt verða og Jerúsalem frá kyni til kyns. [26] Og eg mun láta
hefnt verða blóðs þeirra, sem eg hefi ekki enn hefnt, og Jahve mun
búa kyrr á Zíon.

---

# Amos.

1 Orð Amosar, sem var einn af fjárhirðunum í Tekóa, það er hon-
um vitraðist um Ísrael á dögum Ússía Júda-konungs og á dögum
Jeróbóams Jóassonar, Ísraels-konungs, tveimur árum fyrir jarðskjálft-
ann. [2] Og hann sagði:
Jahve öskrar frá Zíon og lætur raust sína gjalla frá Jerúsalem.
Þá munu hagar hjarðmannanna drúpa og Karmeltindur skrælna. [3] Svo
segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Damaskusborgar vil eg
eigi snúa aftur með það — af því að þeir þresktu Gíleað með þreski-
sleðum af járni. [4] Fyrir því mun eg senda eld á hús Hasaels og hann
mun eyða höllum Benhadads. [5] Eg mun brjóta slagbrand Damaskus
og útrýma íbúunum úr Glæpadal og þeim, er ber veldissprotann, frá
Yndishúsum, og Sýrlendingar skulu herleiddir verða til Kír, segir Jahve.
[6] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Gasa vil eg
eigi snúa aftur með það — af því að þeir herleiddu heil þorp, til þess
að selja í hendur Edómítum. [7] Fyrir því mun eg senda eld gegn múr
Gasa og hann mun eyða höllum hennar. [8] Eg mun útrýma íbúunum
úr Asdód og þeim, er ber veldissprotann, frá Askalon og því næst snúa

---

**15:** Jes. 2, 4. Mík. 4, 3. **18:** Opinb. 14, 15. 18. Matt. 13, 39. **19:** kap. 1, 15. **20:** kap. 2, 10. **21:** Am. 1, 2 n. Jer. 25, 30. **22:** Óbad. 17. Opinb. 21, 27. **23:** Am. 9, 13. Esek. 47, 1. — **1, 1:** kap. 7, 14. 2 Kron. 26, 1 n. 2 Kong. 14, 23 n. Sak. 14, 5. **2:** Jóel 3, 21. **3:** 2 Kong. 10, 32 n. **4:** Jer. 49, 27. 2 Kong. 13, 24.

hendi minni gegn Ekron, til þess að þeir, sem eftir eru af Filistum,
skuli undir lok líða, segir drottinn Jahve.
[9] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Týrusar vil
eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir seldu heil þorp í hendur
Edómítum og mintust ekki bræðra-sáttmálans. [10] Fyrir því mun eg
senda eld gegn múrum Týrusar og hann mun eyða höllum hennar.
[11] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Edómíta
vil eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir eltu bræðraþjóð sína með
sverði og kæfðu alla meðaumkun, svo að hatur þeirra sundurreif endalaust
og þeir geymdu stöðuglega heift sína. [12] Fyrir því mun eg senda
eld gegn Teman og hann mun eyða höllum Bozra.
[13] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Ammóníta
vil eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir ristu á kvið þungaðar
konurnar í Gíleað, til þess að færa út landamerki sín. [14] Fyrir því vil
eg kveikja eld í múrum Rabba og hann skal eyða höllum hennar, þegar
æpt verður heróp á orustudeginum, þegar stormurinn geisar á degi fellibyljanna.
[15] Og konungur þeirra verður að fara í útlegð með hinum,
hann og höfðingjar hans, segir Jahve.
2 Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Móabíta vil
eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir brendu bein Edómítakonungs
að kalki. [2] Fyrir því vil eg senda eld gegn Móab og hann mun
eyða höllum Kerijótborgar. Og Móabítar munu deyja í vopnagný, við
heróp og lúðurhljóm; [3] eg vil afmá stjórnandann meðal þeirra og deyða
alla höfðingja þeirra með honum, segir Jahve.
[4] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Júdamanna
vil eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir hafa hafnað lögmáli
Jahve og eigi haldið boðorð hans, heldur látið falsgoð sín villa sig,
þau er feður þeirra eltu. [5] Fyrir því vil eg senda eld gegn Júda og
hann mun eyða höllum Jerúsalem.
[6] Svo segir Jahve: Sökum þriggja, já fjögurra glæpa Ísraelsmanna
vil eg eigi snúa aftur með það — af því að þeir selja saklausan manninn
fyrir silfur og fátæklinginn fyrir eina ilskó, [7] þeir fíkjast í moldarkornin
á höfði hinna snauðu og hrinda aumingjunum í ógæfu; faðir
og sonur ganga til kvensniftar, til þess að vanhelga mitt heilaga nafn;
[8] þeir liggja á veðteknum klæðum hjá hverju altari og drekka sektarvín
í húsi Guðs síns. [9] Og þó ruddi eg Amórítum úr vegi þeirra, er
svo voru háir sem sedrustré og svo sterkir sem eikitré; eg eyddi ávöxtum
þeirra að ofanverðu og rótum þeirra að neðan. [10] Eg flutti yður
út af Egiptalandi og leiddi yður í fjörutíu ár í eyðimörkinni, til þess
að þér mættuð eignast land Amóríta. [11] Eg uppvakti spámenn meðal
sona yðar og Nasírea meðal æskumanna yðar. Er þetta eigi svo, Ísraelsmenn?
segir Jahve. [12] En þér gáfuð Nasíreunum vín að drekka og
bönnuðuð spámönnunum að spá! [13] Sjá, eg vil láta jörðina undir yður
riða, eins og vagn riðar, sem hlaðinn er kornkerfum. [14] Þá skal hinn
frái ekki hafa neitt hæli að flýja í og hinn sterki ekki fá neytt krafta
sinna og kappinn skal ekki forða mega fjörvi sínu. [15] Bogmaðurinn
skal eigi fá staðist, hinn frái eigi fá komist undan og riddarinn ekki
forða mega fjörvi sínu. [16] Og hinn hugdjarfasti meðal kappanna —
nakinn skal hann á þeim degi í burt flýja, segir Jahve.

3 Heyrið þetta orð, sem Jahve hefir talað gegn yður, þér Ísraelsmenn
— gegn öllum þeim kynstofni, sem eg leiddi út af Egipta-

---

**12:** Jes. 63, 1. Óbad. 9. **13:** Hós. 14, 1. Jer. 49, 1 n. — **2, 6:** kap. 8, 6. **8:** 2 Mós. 22, 26 n. **9:** Jós. 24, 8. 11 n. **10:** 5 Mós. 8, 2 n. **11:** 4 Mós. 6, 2 n. **12:** kap. 7, 12 n. Mik. 2, 6.

landi, svolátandi: [2] Yður eina læt eg mér ant um fremur öllum kyn-
stofnum jarðarinnar; þess vegna hegni eg yður fyrir allar misgjörðir
yðar. [3] Mega tveir menn verða samferða, nema þeir mæli sér mót?
[4] Mun ljónið öskra í skóginum, ef það hefir enga bráð? Mun ljóns-
hvolpurinn láta til sín heyra í bæli sínu, ef hann hefir engu náð? [5] Get-
ur fuglinn komið í gildruna á jörðinni, ef engin snara er þar fyrir hann?
Hrökkur gildran upp af jörðinni, nema eitthvað hafi í hana fengist?
[6] Verður lúðurinn svo þeyttur innan borgar, að fólkið flykkist ekki
saman í angist? Vill nokkur ógæfa svo til í borginni, að Jahve sé ekki
valdur að henni? [7] Nei, drottinn Jahve gjörir ekkert án þess að hann hafi
opinberað þjónum sínum, spámönnunum, ráðsályktun sína. [8] Hafi ljónið
öskrað — hver skyldi þá ekki óttast? Hafi drottinn Jahve talað — hver
skyldi þá ekki spá? [9] Kallið út yfir hallirnar í Asdód og hallirnar í
Egiptalandi og segið: Safnist saman upp á Samaríufjöll og lítið á hina
miklu ókyrð í borginni og ofbeldisverkin inni í henni. [10] Þeir kunna
ekki rétt að gjöra — segir Jahve —, þeir sem hrúga upp ofríki og kúgun
í höllum sínum. [11] Fyrir því segir drottinn Jahve svo: Fjandmenn munu
umkringja landið á alla vegu og rífa niður virki þín, og hallir þínar
munu rændar verða.

[12] Svo segir Jahve: Eins og hirðirinn bjargar tveimur fótum eða
snepli af eyra úr gini ljónsins, svo skulu Ísraelsmenn bjargast, þeir er
sitja í Samaríu í legubekkjarhorni og á hvílbeðjarhægindum. [13] Heyrið
og verið vottar að þessu gegn Jakobs húsi, segir drottinn Jahve, Guð
hersveitanna: [14] Þann dag, er eg hegni Ísraelsmönnum fyrir glæpi þeirra,
vil eg láta hegninguna koma niður á ölturunum í Betel, til þess að
altarishornin verði afhöggin og falli til jarðar. [15] Þá vil eg brjóta niður
vetrarhallirnar ásamt sumarhöllunum, og fílabeinshallirnar skulu farast
og mörg hús eyðileggjast, segir Jahve.

4 Heyrið þetta orð, þér Basans kvígur á Samaríufjalli, sem kúgið
hina snauðu, misþyrmið hinum fátæku, sem segið við menn yðar:
Dragið að, svo að vér megum drekka! [2] Drottinn Jahve hefir svarið
við heilagleik sinn: Sjá, þeir dagar munu yfir yður koma, að þér skuluð
verða burt færðar með önglum og hinar síðustu af yður með goggum.
[3] Þá munuð þér fara út um veggskörðin, hver beint sem horfir, og þér
munuð kasta burt skurðgoðum yðar, segir Jahve.

[4] Farið til Betel og syndgið, til Gilgal og syndgið enn þá meir!
Berið fram sláturfórnir yðar að morgni dags, á þriðja degi tíundir yð-
ar! [5] Brennið sýrð brauð í þakkarfórn, boðið til sjálfviljafórna, gjörið
þær heyrinkunnar! Því að það er yðar yndi, Ísraelsmanna, segir drott-
inn Jahve.

[6] Eg hefi og látið yður halda hreinum tönnum í öllum borgum
yðar og látið mat skorta í öllum bústöðum yðar; og þó hafið þér ekki
snúið yður til mín, segir Jahve.

[7] Eg synjaði yður um regn, þá er þrír mánuðir voru til uppskeru,
og eg lét rigna í einni borg, en ekki í annarri; ein akurspildan vökvað-
ist af regni, en önnur akurspilda, sem regnið vökvaði ekki, hún skræln-
aði. [8] Menn ráfuðu úr tveimur, þremur borgum til einnar borgar, til
að fá sér vatn að drekka, en fengu þó eigi slökt þorstann. Og þó hafið
þér ekki snúið yður til mín, segir Jahve.

[9] Eg refsaði yður með korndrepi og gulnan; eg eyddi aldin-
garða yðar og víngarða; engisprettur upp átu fíkjutré yðar og olíutré.
Og þó hafið þér ekki snúið yður til mín, segir Jahve.

[10] Eg sendi yður drepsótt eins og á Egiptalandi; eg deyddi æsku-

---

**3, 2:** Hós. 13, 5. **6:** Harm. 3, 37 n. Mík. 1, 12. **12:** kap. 6, 4. **14:** Hós. 10, 15.
— **4, 4:** Hós. 4, 15; 12, 12. **6:** Hagg. 2, 17. **9:** Hagg. 2, 17. Jóel 1, 4.

menn yðar með sverði; auk þess voru hestar yðar fluttir burt her-
numdir, og eg lét hrævadauninn úr herbúðum yðar leggja fyrir vit
yðar. Og þó hafið þér ekki snúið yður til mín, segir Jahve.
11 Eg olli umturnun meðal yðar, eins og þegar Guð umturnaði
Sódómu og Gómorru, og þér voruð eins og brandur úr báli dreginn.
Og þó hafið þér ekki snúið yður til mín, segir Jahve.
12 Fyrir því vil eg svo með þig fara, Ísrael: — af því að eg ætla
að fara svo með þig, þá ver viðbúinn að mæta Guði þínum, Ísrael!
13 Því sjá, hann er sá, sem myndað hefir fjöllin og skapað vindinn, sá
sem boðar mönnunum það, er hann hefir í hyggju, sá er gjörir myrk-
ur að morgunroða og gengur eftir hæðum jarðarinnar, — Jahve, Guð
hersveitanna er nafn hans.

5 Heyrið þetta orð, sem eg mæli yfir yður sem harmkvæði, þér
Ísraelsmenn!

2 Fallin er mærin Ísrael,
rís aldrei aftur;
flöt liggur hún á sínu eigin landi,
enginn reisir hana.

3 Því að svo segir drottinn Jahve: Sú borg, sem sendir frá sér þúsund
manns, mun hafa eftir hundrað, og sú, sem sendir frá sér hundrað,
mun hafa eftir tíu í Ísraelsríki. 4 Því að svo segir Jahve við Ísraels
hús: Leitið mín, til þess að þér megið lífi halda. 5 En leitið ekki til
Betel! Og til Gilgal skuluð þér ekki fara og yfir til Beerseba skuluð
þér ekki halda. Því að Gilgal skal fara í útlegð og Betel verða að auðn.
6 Leitið Jahve, til þess að þér megið lífi halda. Ella mun hann ráðast
á Jósefs hús eins og eldur, og eyða, án þess að nokkur sé í Betel, sem
slökkvi*, — 8 hann, sem skóp sjöstjörnuna og Óríon, sem gjörir nið-
myrkrið að björtum morgni og dag að dimmri nótt; sem kallaði á
vötn sjávarins og jós þeim yfir jörðina; Jahve er nafn hans. 9 Hann
lætur eyðing leiftra yfir hina sterku, og eyðing kemur yfir vígi. 7 Þeir,
sem umhverfa réttinum í malurt og varpa réttlætinu til jarðar, 10 þeir
hata þann, sem ver réttinn í borgarhliðinu, og hafa viðbjóð á þeim,
sem talar satt. 11 Þess vegna, sökum þess að þér fótum troðið hina snauðu
og takið af þeim gjafir í korni, þá skuluð þér að vísu byggja hús úr
högnu grjóti, en eigi búa í þeim, skuluð planta yndislega víngarða, en
ekki drekka vínið, sem úr þeim kemur. 12 Því að eg veit, að mis-
gjörðir yðar eru margar og syndir yðar miklar. Þér þröngvið hinum
saklausa, þiggið mútur og hallið rétti hinna fátæku í borgarhliðinu.
13 Fyrir því þegir hygginn maður á slíkri tíð, því að það er vond
tíð. 14 Leitið hins góða, en ekki hins illa, til þess að þér megið lífi
halda; og þá mun Jahve, Guð hersveitanna, vera með yður, eins og
þér hafið sagt. 15 Hatið hið illa og elskið hið góða; eflið réttinn í
borgarhliðinu. Má vera að Jahve, Guð hersveitanna, miskunni sig þá
yfir leifar Jósefs.
16 Fyrir því segir Jahve, Guð hersveitanna, drottinn, svo: Á öllum
torgum skal vera harmakvein, og á öllum strætum skal sagt verða:
Vei, vei! Og akurmennirnir skulu kalla þá, er kveina kunna, til sorg-
arathafnar og harmakveins; 17 og í öllum víngörðum skal vera harma-
kvein, þá er eg fer um land þitt, segir Jahve.

---

**13:** kap. 5, 8. — **5, 4:** 1 Kron. 28, 9. 2 Kron. 15, 2. **6:** Jes. 55, 6. * V. 7 fært aftur um tvö vers. **8:** Job 38, 31. Sálm. 104, 20. Am. 9, 6. 1 Mós. 6, 17. **7:** kap. 6, 12. **10:** Jes. 29, 21. **11:** Zef. 1, 13. 5 Mós. 28, 39. **15:** Sálm. 97, 10. Róm. 12, 9. Jóel 2, 13 n. **16:** Jer. 9, 17 n. **17:** 2 Mós. 12, 12.

[18] Vei þeim, sem óska þess, að dagur Jahve komi. Hvað skal
yður dagur Jahve? Hann er dimmur, en ekki bjartur — [19] eins og ef
maður flýði undan ljóni, en yrði á vegi fyrir bjarndýri, kæmist þó
heim og styddi hendi sinni við húsvegginn, en þá biti höggormur hann.
[20] Já, dimmur er dagur Jahve, en ekki bjartur, myrkur og án nokk-
urrar ljósglætu. [21] Eg hata, eg fyrirlít hátíðir yðar, og hefi enga unun
af hátíðasamkomum yðar. [22] Þótt þér færið mér brennifórnir, þá hefi
eg enga velþóknun á fórnargjöfum yðar, eg lít ekki við heillafórnum
af alikálfum yðar. [23] Burt frá mér með glamur ljóða þinna; og eg vil
ekki heyra hljóm harpna þinna. [24] Lát heldur réttinn vella fram sem
vatn og réttlætið sem sírennandi læk. [25] Færðuð þér mér, Ísraels hús,
sláturfórnir og matfórnir í fjörutíu ár á eyðimörkinni? [26] En þér skuluð
fá að bera Sikkút, konung yðar, og stjörnu Guðs yðar, Kevan, guða-
líkneski yðar, er þér hafið gjört yður, [27] og eg vil herleiða yður austur
fyrir Damaskus, segir Jahve — Guð hersveitanna er nafn hans.

6 Vei hinum andvaralausu á Zíon og hinum öruggu á Samaríu-
fjalli, aðalsmönnum hinnar ágætustu meðal þjóðanna, og þeim, er
Ísraels hús streymir til. [2] Farið til Kalne og litist um, og haldið þaðan
til Hamat hinnar miklu og farið ofan til Gat í Filisteu. Eruð þér betri
en þessi konungsríki, eða er land yðar stærra en land þeirra? [3] Þeir
ímynda sér, að hinn illi dagur sé hvergi nærri, og efla yfirdrotnun rang-
lætisins. [4] Þeir hvíla á legubekkjum af fílsbeini og liggja flatir á hvíl-
beðjum sínum. Þeir eta lömb af sauðahjörðinni og ungneyti úr ali-
stíunni. [5] Þeir raula undir með hörpunni, setja saman ljóð eins og
Davíð. [6] Þeir drekka vínið úr skálum og smyrja sig með úrvals-olíu —
en eyðing Jósefs rennur þeim ekki til rifja. [7] Fyrir því skulu þeir nú
herleiddir verða í fararbroddi hinna herleiddu, og þá skal fagnaðaróp
flatmagandi sælkeranna þagna. [8] Drottinn Jahve hefir svarið við sjálfan
sig, segir Jahve, Guð hersveitanna: Eg hefi viðbjóð á ofmetnaði Jakobs,
eg hata hallir hans og framsel borgina og alt, sem í henni er. [9] Og
ef tíu menn eru þá eftir í einu húsi, skulu þeir deyja; [10] og ef frændi
hans og líkbrennumaður tekur hann þá upp, til þess að bera beinin
út úr húsinu, og segir við þann, sem er í insta afkyma hússins: Er
nokkur eftir hjá þér? og hinn segir: Nei! þá mun hann segja: Þei, þei!
því að nafn Jahve má ekki nefna. [11] Því sjá, Jahve býður að slá,
skuli stóru húsin, þar til er þau hrynja, og litlu húsin, þar *til er þau*
rifna. [12] Hlaupa hestar yfir kletta, eða erja menn sjóinn með uxum,
úr því þér umhverfið réttinum í eitur og ávöxtum réttlætisins í malurt?
[13] Þér gleðjist yfir Lódebar, þér segið: Höfum vér ekki fyrir eigin ramm-
leik unnið Karnaím? [14] Já, sjá: gegn yður, Ísraelsmenn, segir Jahve,
Guð hersveitanna, mun eg hefja þjóð og hún skal kreppa að yður
þaðan frá, er leið liggur til Hamat, alt að læknum á sléttlendinu.

7 Drottinn Jahve lét þessa sýn bera fyrir mig: Það voru komnar
engisprettulirfur, þá er háin tók til að spretta, en flysjarar eftir
konungsslátt. [2] En er þær höfðu gjöretið grasið af jörðinni, sagði eg:
Drottinn Jahve, æ fyrirgef! Hversu má Jakob standast? Hann er svo
vesall! [3] Þá iðraði Jahve þessa. Það skal ekki verða! sagði Jahve.
[4] Drottinn Jahve lét þessa sýn bera fyrir mig: Drottinn Jahve kom,
til þess að hegna með eldi; og hann svalg hið mikla djúp og eyddi

18: Jóel 2, 2. 19: Jer. 48, 44. 21: Jes. 1, 11 n. Jer. 6, 20. 22: Sálm. 51, 18 n.
25: Post. 7, 42 n. — 6, 1: 2 Mós. 19, 5. 2: 1 Mós. 10, 10. 2 Kong. 18, 34. 3:
kap. 9, 10. Esek. 12, 27. 12: kap. 5, 7. Hós. 10, 4. 14: 2 Kong. 14, 25. — 7, 3:
2 Mós. 32, 14.

landið. 5 Þá sagði eg: Æ, drottinn Jahve, lát af! Hversu má Jakob
standast? Hann er svo vesall! 6 Þá iðraði Jahve þessa. Þetta skal ekki
heldur verða! sagði Jahve.
7 Hann lét þessa sýn bera fyrir mig: Sjá, drottinn stóð uppi á lóð-
réttum múrvegg og hélt á lóði. 8 Og Jahve sagði við mig: Hvað sér
þú, Amos? Eg svaraði: Lóð. Þá sagði drottinn: Sjá, eg mun lóð nota
mitt á meðal lýðs míns Ísraels; eg vil eigi lengur umbera hann. 9 Hæðir
ısaks skulu í eyði lagðar verða og helgidómar Ísraels eyddir verða og
eg vil rísa gegn Jeróbóams ætt með reiddu sverði.

10 Þá sendi Amazía prestur í Betel til Jeróbóams Ísraelskonungs
og lét segja: Amos kveikir uppreisn gegn þér mitt í Ísraelsríki; landið
fær eigi þolað öll orð hans. 11 Því að svo hefir Amos sagt: Jeróbóam
mun fyrir sverði falla og Ísrael mun herleiddur verða burt úr landi
sínu.
12 Síðan sagði Amazía við Amos: Haf þig á burt, vitranamaður,
flý til Júdalands! Afla þér þar viðurværis og spá þú þar! 13 En í Betel
mátt þú eigi framar koma fram sem spámaður, því að það er konung-
legur helgidómur og ríkismusteri. 14 Þá svaraði Amos og sagði við
Amazía: Eg er enginn spámaður og eg er ekki af spámannaflokki, held-
ur er eg hjarðmaður og rækta mórber. 15 En Jahve tók mig frá hjarð-
menskunni og Jahve sagði við mig: Far þú og spá þú hjá lýð mín-
um Ísrael. 16 Og heyr því orð Jahve: Þú segir: Þú mátt eigi spá gegn
Ísrael, né láta orð þín streyma yfir Ísaks niðja. 17 Fyrir því segir Jahve
svo: Konan þín skal verða skækja hér í borginni, og synir þínir og
dætur skulu fyrir sverði falla. Jörð þinni skal sundur skift verða með
mælivað, og þú sjálfur skalt deyja í óhreinu landi. Og Ísraelsmenn
skulu fara herleiddir af landi sínu.

8 Drottinn Jahve lét þessa sýn bera fyrir mig: Eg sá körf með
sumarávöxtum. 2 Þá sagði hann: Hvað sér þú, Amos? Eg svaraði:
Körf með sumarávöxtum. Þá sagði Jahve við mig: Endirinn er kom-
inn yfir lýð minn Ísrael; eg vil eigi lengur umbera hann. 3 Og must-
erissöngmeyjarnar skulu kveina á þeim degi, segir drottinn Jahve. Lík-
in eru mörg. Alstaðar fleygja menn þeim út í kyrþey!
4 Heyrið þetta, þér sem sundur merjið hina fátæku og ætlið að
gjöra út af við alla aumingja í landinu, — 5 sem segið: Hve nær mun
tunglkomuhátíðin líða, svo að vér megum selja korn, og hvíldardagur-
inn, svo að vér megum opna kornhlöðurnar? — sem minkið mælinn
og hækkið verðið og falsið svikavogina, 6 og kaupið hina snauðu fyrir
silfur og fátæklinginn fyrir eina ilskó, — sem segið: Vér seljum þeim
aðeins úrganginn úr korninu. 7 Jahve hefir svarið við vegsemd Jak-
obs: Aldrei skal eg gleyma öllu því, er þeir hafa gjört. 8 Hlaut ekki
jörðin að nötra af slíku og allir þeir, sem þar búa, að verða sorgbitnir,
svo að hún hófst upp alstaðar eins og Níl-fljótið og lækkaði eins og
fljótið á Egiptalandi? 9 Á þeim degi, segir drottinn Jahve, vil eg láta
sólina ganga til viðar um miðjan dag og senda myrkur yfir landið á
ljósum degi. 10 Eg vil snúa hátíðum yðar í sorg og öllum ljóðum yðar í
harmkvæði, klæða allar mjaðmir í sorgarbúning og gjöra öll höfuð
sköllótt. Eg læt það verða eins og sorg eftir einkason og endalok þess
sem beiskan dag. 11 Sjá, þeir dagar munu koma, segir drottinn Jahve,
að eg mun senda hungur inn í landið, ekki hungur eftir brauði né

---

**5:** 4 Mós. 11, 2. **8:** 2 Kong. 21, 13. **9:** 2 Kong. 15, 10. 12. **10:** Jer. 38, 4. **16:** Mík.
2, 6. — **8, 5:** Nehem. 13, 15. **6:** kap 2, 6. **7:** kap. 6, 8. **8:** kap. 9, 5. **10:** Jer.
6, 26. Sak. 12, 10.

þorsta eftir vatni, heldur eftir því að heyra orð Jahve, 12 svo að menn
skulu reika frá einu hafinu til annars og renna frá norðri til austurs,
til þess að leita eftir orði Jahve. En þeir skulu ekki finna það.
13 Á þeim degi skulu fríðar meyjar og æskumenn vanmegnast af
þorsta. 14 Þeir er sverja við vansæmd Samaríu og segja: »Svo sannarlega
sem Guð þinn lifir, Dan!« og »svo sannarlega sem Guð þinn
lifir, Beerseba!« — þeir skulu falla og ekki framar á fætur rísa.

9 Eg sá drottin standa við altarið, og hann sagði: Slá þú á
súluhöfuðið, svo að þröskuldarnir skjálfi; brjót þá sundur og kasta
í höfuð þeim öllum. Og síðustu leifar þeirra vil eg deyða með sverði;
enginn þeirra skal komast undan á flótta og enginn þeirra af bjargast.
2 Þótt þeir brjótist niður í undirheima, þá skal hönd mín sækja þá
þangað; þótt þeir stígi upp til himins, þá skal eg steypa þeim ofan
þaðan. 3 Þótt þeir feli sig á Karmeltindi, þá skal eg leita þá þar uppi
og sækja þá þangað; og þótt þeir vilji leynast fyrir augum mínum á
mararbotni, skal eg þar bjóða sjóorminum að bíta þá. 4 Og þótt þeir
fari á undan óvinum sínum í útlegð, skal eg þar bjóða sverðinu að
deyða þá, og eg vil beina augum mínum á þá, þeim til óhamingju, en
ekki til hamingju. 5 Og drottinn, Jahve hersveitanna, hann sem snertir
jörðina, svo að hún riðar og allir þeir, sem á henni búa, verða sorgbitnir,
svo að hún hefst upp alstaðar eins og Níl-fljótið og lækkar eins
og fljótið á Egiptalandi — 6 hann sem reist hefir á himnum sali sína og
grundvallað hvelfing sína á jörðinni, hann sem kallaði á vötn sjávarins
og jós þeim yfir jörðina — Jahve er nafn hans.
7 Eruð þér, Ísraelsmenn, mér mætari en Blálendingar? segir Jahve.
Hefi eg eigi flutt Ísrael af Egiptalandi og Filista frá Kaftór og Sýrlendinga
frá Kír?
8 Sjá, auga drottins Jahve hvílir á þessu glæpafulla konungsríki.
Eg skal afmá það af jörðunni, — og þó vil eg ekki með öllu afmá
Jakobs niðja, segir Jahve. 9 Nei, eg skal svo um bjóða, að Ísraels hús
verði hrist út á meðal allra þjóða, eins og korn er hrist í sáldi, án þess að
nokkur steinvala falli til jarðar. 10 Allir syndarar þjóðar minnar skulu
falla fyrir sverði, þeir sem segja: Ógæfan mun eigi ná oss né yfir
oss koma!
11 Á þeim degi mun eg endurreisa hina föllnu tjaldbúð Davíðs; eg
mun hlaða upp í veggskörðin og reisa hana úr rústum og gjöra hana
upp aftur, eins og hún var fyr meir, — 12 til þess að þeir nái undir
sig leifum Edóms og öllum þeim þjóðum, sem nafn mitt hefir verið
nefnt yfir, segir Jahve, sá er þessu mun til vegar koma. 13 Sjá, þeir
dagar munu koma, segir Jahve, að erjandinn skal ná kornskurðarmanninum
og víntroðslumaðurinn sáðmanninum. Þá munu fjöllin löðra
í vínberjalegi og hálsarnir verða í einu flóði. 14 Þá mun eg snúa við
högum lýðs míns Ísraels; þeir munu byggja upp hinar eyddu borgir
og búa í þeim, planta víngarða og drekka vín úr þeim, búa til aldingarða
og eta ávöxtu þeirra. 15 Og eg vil gróðursetja þá í landi þeirra,
svo að þeir skulu ekki framar upprættir verða úr landi sínu, því er eg
hefi gefið þeim — segir Jahve, Guð þinn.

---

**14:** 5 Mós. 9, 21. 1 Kong. 12, 29. Am. 5, 5. — **9, 2:** Sálm. 139, 8. **5:** kap. 8, 8.
**6:** Sálm. 104, 3. Am. 5, 8. **7:** Jer. 47, 4. **10:** kap. 6, 3. **11:** Post. 15, 16. **12:**
Post. 15, 17. 18. **13:** 3 Mós. 26, 3 n. Jóel 3, 23. **14:** Jes. 61, 4.

# Óbadía.

1 Vitrun Óbadía. Svo segir drottinn Jahve um Edóm:
Vér höfum fengið vitneskju frá Jahve og boðberi er sendur meðal
þjóðanna: Af stað! Vér skulum halda af stað, til þess að herja á
hann? 2 Sjá, eg vil gjöra þig lítinn meðal þjóðanna, þú munt verða
mjög fyrirlitinn. 3 Hroki hjarta þíns hefir dregið þig á tálar, þú sem
átt bygð í klettaskorum og situr í hæðum uppi, sem segir í hjarta þínu:
Hver getur steypt mér niður til jarðar! 4 Þótt þú sætir hátt, eins og
örninn, og bygðir hreiður þitt meðal stjarnanna, þá steypi eg þér þaðan
niður, segir Jahve. 5 Ef þjófar koma að þér eða ræningjar á náttar-
þeli — hversu ert þú í eyði lagður —, stela þeir þá ekki, þar til er
þeim nægir? Ef vínlestursmenn ráðast á þig, skilja þeir þá ekki eftir
neinn eftirtíning? 6 En hversu vandlega hefir verið leitað hjá Esaú og
leitaðir uppi fólgnir dýrgripir hans. 7 Allir sambandsmenn þínir reka
þig út á landamærin; þeir, sem lifðu í friði við þig, draga þig á tálar,
bera þig ofurliði; þeir, sem átu brauð þitt, leggja fyrir þig snörur, sem
eigi er unt að sjá. 8 Já, á þeim degi, segir Jahve, mun eg afmá vitra
menn í Edóm og hyggindin á Esaú-fjöllum. 9 Kappar þínir, Teman,
skulu skelfast, til þess að hver maður verði upprættur af Esaú-fjöll-
um í manndrápunum.
10 Sökum ofríkis þess, er þú hefir sýnt bróður þínum Jakob, skal
smán hylja þig, og þú skalt að eilífu upprættur verða. 11 Þann dag, er
þú stóðst andspænis honum, þann dag, er aðkomnir menn fluttu burt
fjárafla hans hertekinn og útlendingar brutust inn um borgarhlið hans
og urpu hlutkesti um Jerúsalem, varst og þú sem einn af þeim. 12 Horf
eigi með ánægju á dag bróður þíns, á ógæfudag hans, og gleð þig eigi
yfir Júda-sonum á eyðingardegi þeirra og lát þér eigi stóryrði um
munn fara á neyðardegi þeirra. 13 Ryðst ekki inn um hlið þjóðar
minnar á glötunardegi þeirra, horf ekki þú líka með ánægju á óham-
ingju hennar á glötunardegi hennar og rétt þú ekki út höndina eftir
fjárafla hennar á glötunardegi hennar. 14 Nem eigi staðar á vegamót-
um, til þess að drepa niður flóttamenn hennar, og framsel eigi menn
hennar, þá er undan komast, á degi neyðarinnar. 15 Því að dagur
Jahve er nálægur fyrir allar þjóðir; eins og þú hefir öðrum gjört, eins
skal þér gjört verða; gjörðir þínar skulu þér í koll koma. 16 Því að
eins og þér hafið drukkið á mínu heilaga fjalli, svo skulu allar þjóð-
irnar drekka stöðuglega; þær skulu drekka og sötra, og verða eins og
þær aldrei hefðu til verið. 17 En á Zíonfjalli skal frelsun verða, og
það skal heilagt vera, og Jakobs niðjar skulu fá aftur eignir sínar. 18 Og
Jakobs hús mun verða að eldi og Jósefs hús að loga og Esaú hús að
hálmi, og þeir munu kveikja í þeim og eyða þeim, svo að ekkert skal
eftir verða af Esaú-niðjum; því að Jahve hefir talað það. 19 Sunnlendingar
skulu taka Esú-fjöll til eignar og Sléttumenn Filisteu. Þeir munu og
taka Efraímsland og Samaríuland til eignar, og Benjamín Gíleað. 20 Þeir
af Ísraelsmönnum, er teknir hafa verið í vígi þessu og fluttir burt her-
numdir, munu taka það til eignar, sem Kanaanítar eiga, alt til Zarpat,
og þeir, sem fluttir hafa verið burt hernumdir frá Jerúsalem, þeir sem

---

1, 1: Jer. 49, 14 n. 3: 4 Mós. 24, 21. 7: Sálm. 41, 10. 8: Jes. 29, 14. Jer. 49, 7. 12: Mík. 4, 11. 15: Jóel 1, 15. Jer. 50, 29. Hab. 2, 8. 16: Jer. 25, 15 n. 17: Jóel 3, 5. 18: Jes 10, 17. 20: 1 Kong. 17, 9.

eru í Sefarad, munu taka til eignar borgir Suðurlandsins. [21] Og frelsendur munu fara upp til Zíonfjalls, til þess að dæma Esaú-fjöll, og Jahve mun hljóta konungsvaldið.

---

# Jónas.

1 Og orð Jahve kom til Jónasar Amittaísonar, svo hljóðandi: [2] Legg
af stað og far til Níníve, hinnar miklu borgar, og prédika móti
henni, því að vonzka þeirra er upp stigin fyrir auglit mitt. [3] En Jónas
lagði af stað í því skyni, að flýja til Tarsis, burt frá augliti Jahve, og
fór hann niður til Jaffa; þar hitti hann skip, er ætlaði til Tarsis. Greiddi
hann fargjald og steig á skip, í því skyni að fara með þeim til Tarsis,
burt frá augliti Jahve. [4] Þá varpaði Jahve miklum stormi á sjóinn, og
gjörði þá svo mikið ofviðri á hafinu, að við sjálft lá, að skipið mundi
brotna. [5] Skipverjar urðu hræddir og hét hver á sinn guð. Og þeir
köstuðu reiða skipsins í sjóinn, til þess að létta á skipinu. En Jónas
hafði gengið ofan í neðsta rúm í skipinu, lá þar og svaf vært. [6] Þá
gekk stýrimaður til hans og sagði við hann: Hvað kemur til, að þú
sefur? Statt upp og ákalla guð þinn. Vera má að sá guð minnist
vor, svo að vér förumst eigi. [7] Nú sögðu skipverjar hver við annan:
Komið, vér skulum kasta hlutum, svo að vér fáum að vita, hverjum
það er að kenna, að þessi ógæfa er yfir oss komin. Þeir köstuðu síðan
hlutum, og kom upp hlutur Jónasar. [8] Þá sögðu þeir við hann: Seg
oss, hver er atvinna þín og hvaðan kemur þú? Hvert er föðurland
þitt og hverrar þjóðar ertu? [9] Hann sagði við þá: Eg er Hebrei og
dýrka Jahve, Guð himinsins, þann er gjört hefir hafið og þurlendið.
[10] Þá urðu mennirnir mjög óttaslegnir og sögðu við hann: Hvað hefir
þú gjört! Mennirnir vissu sem sé, að hann var að flýja burt frá aug-
liti Jahve, því að hann hafði sagt þeim frá því. [11] Því næst sögðu þeir
við hann: Hvað eigum vér að gjöra við þig, til þess að hafið kyrrist
fyrir oss? því að sjórinn æstist æ meir og meir. [12] Þá sagði hann við
þá: Takið mig og kastið mér í sjóinn, mun þá hafið kyrt verða fyrir
yður; því að eg veit, að fyrir mína skuld er þessi mikli stormur yfir
yður kominn.
[13] Þá lögðust skipverjar á árar og reyndu að komast aftur til
lands, en gátu það ekki, því að sjórinn æstist æ meir og meir.
[14] Þá kölluðu þeir til Jahve og sögðu: Æ, Jahve! lát oss eigi farast,
þótt vér glötum lífi þessa manns, og lát oss ekki gjalda þess, svo sem
vér hefðum fyrirkomið saklausum manni; því að þú, Jahve, hefir gjört
það, sem þér þóknaðist. [15] Þeir tóku nú Jónas og köstuðu honum í
sjóinn; varð hafið þá kyrt og sjávarólguna lægði. [16] En skipverjar ótt-
uðust Jahve harla mjög, færðu Jahve sláturfórn og gjörðu heit.
2 Þá sendi Jahve stórfisk, til þess að svelgja Jónas. Og Jónas var
í kviði fiskjarins þrjá daga og þrjár nætur. [2] Og Jónas bað til
Jahve, Guðs síns, í kviði fiskjarins [3] og sagði:

Eg kallaði til Jahve í neyð minni
og hann svaraði mér;

21: Sak. 14, 9. — 1, 1: 2 Kong. 14, 25. 3: Jós. 19, 46. 4: Sálm. 107, 25. — 2, 1: Matt. 12, 40; 16, 4. Lúk. 11, 29. 3: Sálm. 120, 1. Harm. 3, 55. 56.

frá skauti Heljar hrópaði eg,
og þú heyrðir raust mína.
4 Þú varpaðir mér í djúpið, út í mitt hafið,
svo að straumurinn umkringdi mig;
allir boðar þínir og bylgjur gengu yfir mig.
5 Eg hugsaði: Eg er burtrekinn frá augum þínum.
Mun eg nokkurn tíma framar líta þitt heilaga musteri?
6 Vötnin luktu um mig og ætluðu að sálga mér;
hyldýpið umkringdi mig;
höfði mínu var faldað með marhálmi.
7 Eg steig niður að grundvöllum fjallanna;
slagbrandar jarðarinnar voru lokaðir á eftir mér að eilífu.
Þá færðir þú líf mitt upp úr gröfinni,
Jahve, Guð minn!
8 Þegar sál mín örmagnaðist í mér, þá mintist eg Jahve,
og bæn mín kom til þín, í þitt heilaga musteri.
9 Þeir, sem dýrka fánýt falsgoð,
þeir hafna hjálpræði sínu.
10 En eg vil færa þér fórnir með lofgjörðarsöng;
eg vil greiða það, er eg hefi heitið;
hjálpin kemur frá Jahve.

11 En Jahve bauð fiskinum að spúa Jónasi upp á þurt land.
3 Og orð Jahve kom til Jónasar annað sinn, svo hljóðandi: 2 Legg
af stað og far til Níníve, hinnar miklu borgar, og flyt henni þann
boðskap, er eg býð þér. 3 Þá lagði Jónas af stað og fór til Níníve,
eins og Jahve hafði boðið honum; en Níníve var geysimikil borg —
þrjár dagleiðir á lengd. 4 Og Jónas hóf göngu sína inn í borgina eina
dagleið, prédikaði og sagði: Að fjörutíu dögum liðnum skal Níníve
verða í eyði lögð. 5 En Nínívemenn trúðu Guði og boðuðu föstu og
klæddust hærusekk, bæði ungir og gamlir. 6 Og er þetta barst til kon-
ungsins í Níníve, þá stóð hann upp úr hásæti sínu, lagði af sér skikkju
sína, huldi sig hærusekk og settist í ösku. 7 Og hann lét gjöra heyrin-
kunna í Níníve svolátandi skipun: Samkvæmt boði konungs og vildar-
manna hans er svo fyrir mælt: Hvorki menn né skepnur, hvorki naut
né sauðir skulu nokkurs neyta; þeir skulu hvorki á gras ganga né
vatn drekka. 8 Heldur skulu þeir hylja sig hærusekk — bæði menn og
skepnur — og hrópa til Guðs ákaflega og láta hver og einn af sinni
vondu breytni og af þeim rangindum, er þeir hafa um hönd haft.
9 Hver veit nema Guði kunni að snúast hugur og hann láti sig iðra
þessa og láti af sinni brennandi reiði, svo að vér förumst ekki.
10 En er Guð sá gjörðir þeirra, að þeir létu af illri breytni sinni,
þá iðraðist Guð þeirrar ógæfu, er hann hafði hótað að láta yfir þá
koma, og lét hana ekki fram koma.
4 Jónasi mislíkaði þetta mjög og hann varð reiður. 2 Og hann
bað til Jahve og sagði: Æ, Jahve! Kemur nú ekki að því, sem eg
hugsaði, meðan eg enn var heima í mínu landi? Þess vegna ætlaði eg
áður fyr að flýja til Tarsis, því að eg vissi að þú ert líknsamur og
miskunnsamur Guð, þolinmóður og gæzkuríkur og óhótrækinn. 3 Tak
nú, Jahve, önd mína frá mér, því að mér er betra að deyja en lifa.
4 En Jahve sagði: Er það rétt gjört af þér að reiðast svo?
5 Því næst fór Jónas út úr borginni og bjóst um fyrir austan
borgina. Þar gjörði hann sér laufskála og settist undir hann í for-

**4:** Sálm. 42, 8. **5:** Sálm. 31, 23. **7:** Sálm. 103, 4. **10:** Sálm. 50, 14. — **3, 2:** kap. 1, 2. **5:** Matt. 12, 41. Lúk. 11, 32. **8:** Jer. 18, 11. **9:** Jóel 2, 14. **10:** Jer. 18, 8. — **4, 2:** 2 Mós. 34, 6 n. Jóel 2, 13. **3:** 1 Kong. 19, 4. **4:** v. 9.

sælunni og beið þess að hann sæi, hvernig borginni reiddi af. 6 Þá lét
Jahve Guð rísínusrunn upp spretta yfir Jónas, til þess að bera skugga
á höfuð hans og til þess að hafa af honum óhuginn, og varð Jónas
stórlega feginn rísínusrunninum.
7 En næsta dag, þegar morgunroðinn var á loft kominn, sendi
Guð orm, sem stakk rísínusrunninn, svo að hann visnaði. 8 Og er sól
var upp komin, sendi Guð brennheitan austanvind, og skein sólin svo
heitt á höfuð Jónasi, að hann örmagnaðist. Þá óskaði hann sér dauða
og sagði: Mér er betra að deyja en lifa! 9 Þá sagði Guð við Jónas:
Er það rétt gjört af þér að reiðast svo vegna rísínusrunnsins? Hann
svaraði: Það er rétt að eg reiðist til dauða! 10 En Jahve sagði: Þig
tekur sárt til rísínusrunnsins, sem þú hefir ekkert fyrir haft og ekki
upp klakið, sem óx á einni nóttu og hvarf á einni nóttu. 11 Og mig
skyldi ekki taka sárt til Níníve, hinnar miklu borgar, þar sem eru
meira en hundrað og tuttugu þúsundir manna, er ekki þekkja hægri
hönd sína frá hinni vinstri, og fjöldi af skepnum?

---

# Míka.

1 Orð Jahve, sem kom til Míka frá Móreset á dögum Jótams, Akasar
og Hiskía, Júda-konunga, það er honum vitraðist um Samaríu og
Jerúsalem.
2 Heyrið, allir lýðir! Hlusta þú, jörð, og alt sem á þér er! Og
drottinn Jahve veri vottur gegn yður, drottinn frá sínu heilaga musteri.
3 Því sjá, Jahve mun út fara frá bústað sínum, mun ofan stíga og ganga
eftir hæðum jarðarinnar. 4 Fjöllin munu bráðna undan honum og
dalirnir klofna sem vax fyrir eldi, sem vatn, er steypist ofan bratta
hlíð. 5 Og alt þetta sakir misgjörðar Jakobs og sakir syndar Ísraels
húss. Hver er þá misgjörð Jakobs? Er það ekki Samaría? Og hver
er synd Júda? Er það ekki Jerúsalem? 6 Eg gjöri því Samaríu að
grjótrúst á víðavangi, að gróðurekru undir víngarða, og velti steinum
hennar ofan í dalinn og læt sjást í beran grundvöllinn. 7 Öll skurð-
goð hennar skulu sundur brotin verða og allar helgigjafir hennar í eldi
brendar, og öll guðalíkneski hennar vil eg framselja til eyðingar; því
að hún hefir dregið þær saman úr hórgjöldum og að hórgjöldum skulu
þær aftur verða.
8 Vegna þess vil eg harma og kveina, ganga berfættur og skikkju-
laus, telja mér harmatölur eins og sjakalarnir og halda sorgarkvein eins
og strútsfuglarnir. 9 Því að ólæknandi eru sár hennar; já, það kemur
alt til Júda, nær alt að hliðum þjóðar minnar, alt að Jerúsalem. 10 Segið
ekki frá því í Gat; grátið ekki hátt! Veltið yður í duftinu í Betleafra!
11 Gangið fram smánarlega naktir, þér íbúar Safír! Íbúarnir í Zaanan
voga sér ekki út; harmakveinið í Bet-Haezel aftrar yður frá að stað-
næmast þar. 12 Því að íbúar Marót eru kvíðandi um sinn hag; já, ó-
gæfa stígur niður frá Jahve alt að hliðum Jerúsalem.

---

8: Sálm. 121, 6. 9: v. 4. — 1, 1: Jer. 26, 18. Jes. 1, 1. Hós. 1, 1. 2: Jes. 1, 2.
Sálm. 11, 4. 3: Jes. 26, 21. Am. 4, 13. 4: Am. 9, 5. Sálm. 97, 5. 7: Hós. 2,
5. 12. 10: 2 Sam. 1, 20. 12: Am. 3, 6.

13 Beitið gæðingum fyrir vagnana, þér íbúar Lakís! Það var höf-
uðsynd dótturinnar Zíon; já, hjá yður fundust misgjörðir Ísraels. 14 Fyrir
því verður þú að segja skilið við Móreset-Gat. Húsin í Aksíb reynast Ís-
raels konungum svikul. 15 Enn læt eg sigurvegarann yfir yður koma,
þér íbúar Maresa; tignarmenni Ísraels munu komast alt til Adúllam.
16 Raka hár þitt og skegg vegna þinna ástfólgnu barna, gjör skalla þinn
breiðan sem á gammi, því að þau verða að fara hernumin burt frá þér.
2 Vei þeim, sem hugsa upp rangindi og hafa ilt með höndum í
hvílurúmum sínum og framkvæma það, þegar ljómar af degi, jafn-
skjótt og þeir megna. 2 Langi þá til að eignast akra, þá ræna þeir
þeim; eða hús, þá taka þeir þau burt. Þeir beita ofríki gegn húsbónd-
anum og húsi hans, gegn manninum og óðali hans. 3 Fyrir því segir
Jahve svo: Sjá, eg bý yfir óhamingju, sem eg mun senda þessari kyn-
slóð og þér skuluð ekki fá af yður hrundið né gengið hnarreistir undir;
því að það munu verða vondir tímar. 4 Á þeim degi munu menn háð-
kvæði um yður kveða og hefja harmatölur á þessa leið: Vér erum
gjörsamlega eyðilagðir; landeign þjóðar minnar er úthlutað með mæli-
þræði, og enginn fær mér hana aftur. Ökrum vorum er skift milli
þeirra, er oss hafa hertekið! 5 Fyrir því skalt þú engan hafa, er dragi
mæliþráð yfir landskika í söfnuði Jahve. 6 »Prédikið ekki«, svo prédika
þeir. »Menn eiga ekki að prédika um slíkt! Skömmunum linnir ekki!«
7 Hvílíkt tal, Jakobs hús! Er Jahve óþolinmóður, eða eru gjörðir hans
slíkar? Eru ekki orð hans gæzkurík við þá, sem breyta ráðvandlega?
8 En þjóð mín hefir nú þegar lengi risið upp á móti mér sem óvinur.
Utan af kyrtlinum dragið þér yfirhöfnina af þeim, sem ugglausir fara
um veginn, sem fráhverfir eru stríði. 9 Konur þjóðar minnar rekið þér
út úr húsunum, sem hafa verið yndi þeirra, rænið börn þeirra prýði
minni að eilífu. 10 Af stað og burt með yður! Því að hér er ekki sama-
staður fyrir yður vegna saurgunarinnar, sem veldur tjóni, og það ó-
læknandi tjóni. 11 Ef einhver, sem færi með hégóma og lygar, hræsn-
aði fyrir þér og segði: Eg skal spá þér víni og áfengum drykk — það
væri spámaður fyrir þessa þjóð. 12 Safna, já safna vil eg, Jakob, öll-
um þínum, færa saman leifar Ísraels eins og sauðfé í rétt, eins og hjörð
í haga, og þar skal verða kliður mikill af mannmergðinni. 13 Forustu-
sauðurinn fer fyrir þeim, þeir ryðjast fram, fara í gegnum hliðið og
halda út um það, og konungur þeirra fer fyrir þeim og Jahve er í
broddi fylkingar þeirra.
3 Og eg sagði: Heyrið, þér höfðingjar Jakobs og stjórnendur Ísraels
húss! Er það ekki yðar að vita, hvað rétt er? 2 En þeir hata hið
góða og elska hið illa, flá skinnið af mönnum og holdið af beinum
þeirra. 3 Þeir eta hold þjóðar minnar; þeir flá skinnið af þeim og brjóta
bein þeirra, hluta þau sundur eins og steik í potti, eins og kjöt á
suðupönnu.
4 Þá munu þeir hrópa til Jahve, en hann mun ekki svara þeim,
og hann mun byrgja auglit sitt fyrir þeim, þegar sá tími kemur, af því
að þeir hafa ill verk í frammi haft.
5 Svo mælir Jahve til spámannanna, sem leitt hafa þjóð mína af-
vega, þeirra er boða hamingju meðan þeir hafa nokkuð tanna milli,
en segja þeim stríð á hendur, er ekki stingur neinu upp í þá. 6 Fyrir
því skal sú nótt koma, að þér sjáið engar sýnir, og það myrkur, að
þér skuluð engu spá; sólin skal ganga undir fyrir spámönnunum og
dagurinn myrkvast fyrir þeim. 7 Þeir, sem sjá sjónir, skulu þá blygð-

---

**13:** Jós. 15, 39. **14:** Jós. 15, 44. **15:** Jós. 15, 44. 35. 1 Sam. 22, 1. — **2, 1:** Sálm. 36, 5. **2:** Jes. 5, 8. **6:** Jes. 30, 10. Am. 2, 12. **10:** 3 Mós. 18, 25. — **3, 3:** Sálm. 14, 4. **4:** Orðskv. 1, 28. Jes. 1, 15. **5:** Jer. 6, 14. Esek. 13, 10.

ast sín og spásagnamennirnir fyrirverða sig; þeir munu allir hylja kamp
sinn, því að ekkert svar kemur frá Guði. 8 Eg þar á móti er fullur af
krafti, af anda Jahve, og af rétti og styrkleika, til þess að boða Jakob
misgjörð hans og Ísrael synd hans. 9 Heyrið þetta, þér höfðingjar
Jakobs húss og þér stjórnendur Ísraels húss, þér sem hafið viðbjóð á
réttvísinni og gjörið alt bogið, sem beint er, 10 þér sem byggið Zíon með
manndrápum og Jerúsalem með glæpum. 11 Höfðingjar hennar dæma
fyrir mútur og prestar hennar veita fræðslu fyrir kaup; spámenn henn-
ar spá fyrir peninga og reiða sig í því efni á Jahve og segja: Er ekki
Jahve vor á meðal? Engin ógæfa kemur yfir oss! 12 Fyrir því skal
Zíon plægð verða að akri yðar vegna og Jerúsalem verða að rúst og
musterisfjallið að skógarhæðum.

4 Og það skal verða á hinum síðustu dögum, að fjall það, er hús
Jahve stendur á, mun grundvallað verða á fjallatindi og gnæfa upp
yfir hæðirnar, og þangað munu lýðirnir streyma. 2 Og margar þjóðir
munu búast til ferðar og segja: Komið, förum upp á fjall Jahve og til
húss Jakobs Guðs, svo að hann kenni oss sína vegu og vér megum
ganga á hans stigum; því að frá Zíon mun kenning út ganga og orð
Jahve frá Jerúsalem. 3 Og hann mun dæma meðal margra lýða og
skera úr málum voldugra þjóða langt í burtu. Og þær munu smíða
plógjárn úr sverðum sínum og sniðla úr spjótum sínum. Engin þjóð
skal sverð reiða að annarri þjóð, og ekki skulu þær temja sér hernað
framar. 4 Hver mun búa undir sínu víntré og undir sínu fíkjutré, og
enginn hræða þá. Því að munnur Jahve hersveitanna hefir talað það.
5 Því að allar þjóðirnar ganga hver í nafni síns guðs, en vér göngum í
nafni Jahve, Guðs vors, æ og æfinlega.

6 Á þeim degi, segir Jahve, vil eg saman safna því halta og smala
saman því tvístraða og þeim, er eg hefi tjón unnið; 7 og eg vil gjöra
hið halta að nýjum kynstofni og hið burtflæmda að voldugri þjóð. Og
Jahve sjálfur mun verða konungur yfir þeim á Zíonfjalli héðan í frá og
að eilífu. 8 En þú, hjarðarturn, hæð dótturinnar Zíon, til þín mun
koma og aftur til þín hverfa hið forna veldi, konungdómur dótturinnar
Jerúsalem. 9 Nú, hví hljóðar þú svo hástöfum? Hefir þú engan kon-
ung, eða er ráðgjafi þinn horfinn, úr því að kvalir grípa þig eins og
jóðsjúka konu? 10 Fá þú hríðir og hljóða þú, dóttirin Zíon, eins og
jóðsjúk kona. Því að nú verður þú að fara út úr borginni og búa á
víðavangi og fara alla leið til Babel. Þar munt þú frelsuð verða, þar
mun Jahve leysa þig undan valdi óvina þinna.

11 En nú hafa margar þjóðir safnast í móti þér, þær er segja:
Verði hún vanhelguð, svo að vér megum horfa hlakkandi á Zíon!
12 En þær þekkja ekki hugsanir Jahve og skilja ekki ráðsályktun hans,
að hann hefir safnað þeim saman eins og kerfum á kornláfa. 13 Rís
upp og þresk, dóttirin Zíon, því að eg gjöri þér horn af járni og klaufir
af eiri, svo að þú skalt sundur merja margar þjóðir. Og þú munt helga
Jahve ránfeng þeirra og fjárafla þeirra honum, sem er drottinn allrar
jarðarinnar.

14 Gjör nú skinnsprettur á hold þitt. Hervirki hefir hann gjört í
móti oss. Með sprotanum munu þeir ljósta dómara Ísraels á kinnina.

5 Og þú, Betlehem Efrata, þótt þú sért einna minst af héraðsborg-
unum í Júda, þá skal þó frá þér koma sá, er vera skal drotnari í
Ísrael, og ætterni hans vera frá umliðinni öld, frá fortíðar dögum. 2 Fyrir

---

7: 3 Mós. 13, 45. 10: Hab. 2, 12. 11: Zef. 3, 3 n. Esek. 22, 25–27. 12: Jer. 26, 18. — 4, 1: Jes. 2, 2 n. 3: Jóel 3, 15. 4: 1 Kong. 4, 25. Jes. 1, 20. 5: Sak. 10, 12. 6: Zef. 3, 19. 7: Dan. 7, 14. Lúk. 1, 33 n. 9: Jer. 8, 19. 11: Óbad. 12. 13: 3 Mós. 27, 28. — 5, 1: Jes. 9, 6. Matt. 2, 6. Jóh. 7, 42.

því mun hann framselja þá til þess tíma, er sú hefir fætt, er fæða skal;
en þá munu leifar ættbræðra hans hverfa aftur til Ísraelsmanna. [3] Þá
mun hann standa og halda þeim til haga í krafti Jahve, í hinu tignar-
lega nafni Jahve, Guðs síns, og þeir skulu óhultir búa; því að þá skal
hann mikill vera til endimarka jarðar. [4] Og þessi mun friðurinn vera:
Brjótist Assýringar inn í land vort og stígi þeir fæti á ættjörð vora, þá
munum vér senda í móti þeim sjö hirða og átta þjóðhöfðingja; [5] og þeir
munu herja land Assýringa með sverði og land Nimrods með brugðn-
um brandi. Og þannig mun hann frelsa oss frá Assýringum, er þeir
brjótast inn í land vort og stíga fæti á fold vora.
[6] Og leifar Jakobs meðal heiðingjanna, mitt á meðal margra þjóða,
munu vera sem dögg frá Jahve, sem regndropar á grasi, þeir er bíða
ekki eftir neinum og vænta ekki neins af mannanna börnum. [7] Og leifar
Jakobs meðal heiðingjanna, mitt á meðal margra þjóða, munu vera
sem ljón meðal skógardýra, sem ljónshvolpur í sauðahjörð, sá er niður
treður þar sem hann veður yfir og sundur rífur, án þess að nokkur fái
bjargað. [8] Armleggur þinn mun hrósa sigri yfir mótstöðumönnum þín-
um og allir óvinir þínir munu afmáðir verða. [9] Á þeim degi, segir
Jahve, vil eg eyða öllum þeim hestum, sem þú átt í landinu, og gjöra
að engu hervagna þína, [10] eg vil eyða borgum lands þíns og rífa niður
öll virki þín, [11] eg vil eyða öllum töfrum hjá þér, og spásagnamenn
skulu eigi framar hjá þér vera. [12] Eg vil eyða skurðmyndum þínum
og merkissteinum, þeim er hjá þér eru, og þú skalt ekki framar falla
fram fyrir verkum handa þinna. [13] Eg vil brjóta niður asérur þínar
og eyðileggja guðalíkneski þín, [14] og eg vil með reiði og gremi hefnast
á þjóðunum, er eigi hafa hlýðnast.

6 Heyrið, hvað Jahve segir: Statt upp og sæk sök fyrir fjöllunum,
svo að hæðirnar megi heyra raust þína. [2] Heyrið kærumál Jahve,
þér fjöll, og hlýðið á, þér undirstöður jarðarinnar; því að Jahve hefir
mál að kæra við þjóð sína og gengur í dóm við Ísrael. [3] »Þjóð mín,
hvað hefi eg gjört þér og með hverju hefi eg þreytt þig? Vitna þú í
gegn mér! [4] Eg leiddi þig þó út af Egiptalandi og frelsaði þig úr þræla-
húsinu og sendi þér Móse, Aron og Mirjam til forystu. [5] Þjóð mín,
minst þú þess, hvað Balak Móabskonungur hafði í hyggju og hverju
Bíleam Beórsson svaraði honum; minst þú þess, er gjörðist á leiðinni
frá Sittím til Gilgal, til þess að þú kannist við velgjörðir Jahve«. [6] »Með
hvað á eg að koma fram fyrir Jahve, beygja mig fyrir Guði á hæðum?
Á eg að koma fram fyrir hann með brennifórnir, með ársgamla kálfa?
[7] Hefir Jahve þóknun á þúsundum hrúta, á tíþúsundum olíulækja? Á
eg að fórna frumgetnum syni mínum fyrir misgjörð mína, ávexti kviðar
míns sem syndafórn sálar minnar?« [8] Hann hefir sagt þér, maður,
hvað gott sé! Og hvað heimtar Jahve annað af þér en að gjöra rétt,
ástunda kærleika og fram ganga í lítillæti fyrir Guði þínum?

[9] Heyr, Jahve kallar til borgarinnar — og það er vizka að óttast
nafn hans —; heyrið, kynstofn og saman kominn borgarlýður! [10] Á eg
að láta sem eg sjái ekki, í húsi hins óguðlega, rangfengin auðæfi og
oflitla efu, sem bölvun er lýst yfir? [11] Á eg að láta honum óhegnt,
þótt hann hafi ranga vog og svikna vogarsteina í sjóði sínum? [12] Rík-
ismenn hennar eru fullir af ofríki, íbúar hennar tala lygar og tungan
fer með svik í munni þeirra. [13] Því tek eg og að ljósta þig, að eyða

**3:** Sálm. 72, 8. **4:** Jes. 9, 6. Ef. 2, 14. **5:** 1 Mós. 10, 8 n. **12:** Sak. 13, 2. — **6, 4:** Sálm. 77, 21. 2 Mós. 15, 20. **5:** 4 Mós. 22, 5 n. 25, 1. Jós. 4, 19; 5, 9 n. **8:** 5 Mós. 10, 12.

vegna synda þinna. [14] Þú skalt eta, en þó ekki saddur verða,
heldur skal hungrið haldast við í þér. Þótt þú takir eitthvað frá, þá
skalt þú eigi fá bjargað því; og það, sem þú bjargar, skal eg ofurselja
sverðinu. [15] Þótt þú sáir, skalt þú ekkert uppskera. Þótt þú troðir
olíuberin, skalt þú eigi smyrja þig með olíu, og þótt þú fáir vínberja-
löginn, skalt þú ekki vínið drekka. [16] Þú hefir haldið setningum Omrí
og öllu athæfi Akabs húss; og þér hafið breytt eftir háttum þeirra, til
þess að eg gjöri hana að auðn og láti íbúa hennar verða að spotti —
já, þér skuluð bera háð þjóðanna.

7 Vei mér, því að það hefir farið fyrir mér eins og þegar ávöxtum
er safnað, eins og við eftirtíning vínberjatekju: ekkert vínber eftir,
til að eta, engin árfíkja, er mig langaði í. [2] Guðhræddir menn eru
horfnir úr landinu og ráðvandir eru ekki til meðal mannanna; þeir sitja
allir um að fremja morð og reyna að veiða hver annan í net. [3] Til
ills eru báðar hendur fram réttar, til þess að gjöra það rækilega. Höfð-
inginn heimtar og dómarinn dæmir gegn endurgjaldi. Og stórmennið
er bermált um það, sem hjarta hans girnist, og þannig flækja þeir það.
[4] Hinn bezti meðal þeirra er sem þyrnir og hinn ráðvandasti verri en
þyrnigerði. Dagurinn, sem varðmenn þínir hafa talað um, hegningar-
dagur þinn kemur; þá verða þeir úrræðalausir. [5] Trúið eigi kunningja
yðar, treystið eigi vini; gæt dyra munns þíns fyrir henni, sem hvílir í
faðmi þínum. [6] Því að sonurinn fyrirlítur föður sinn, dóttirin setur sig
upp á móti móður sinni, tengdadóttirin á móti tengdamóður sinni:
heimilismennirnir eru óvinir húsbónda síns.
[7] Eg vil mæna til Jahve, bíða eftir Guði hjálpræðis míns! Guð
minn mun heyra mig! [8] Hlakka eigi yfir mér, fjandkona mín; því þótt
eg sé fallin, rís eg aftur á fætur; þótt eg sitji í myrkri, þá er Jahve
mitt ljós. [9] Reiði Jahve vil eg þola, — því að eg hefi syndgað á móti
honum — þar til er hann sækir sök mína og lætur mig ná rétti mín-
um. Hann mun leiða mig út til ljóssins; eg mun horfa ánægð á rétt-
læti hans. [10] Fjandkona mín mun sjá það, og smán mun hylja hana,
hún, sem nú segir við mig: Hvar er Jahve, Guð þinn? Augu mín
munu horfa hlakkandi á hana; þá mun hún verða troðin niður eins
og saur á strætum. [11] Sá dagur kemur, að múrar þínir verða endur-
reistir; þann dag munu landamerki þín færast mikið út. [12] Á þeim
degi munu menn koma til þín frá Assýríu alt til Egiptalands og frá
Egiptalandi alt til Fljótsins, frá hafi til hafs og frá fjalli til fjalls. [13] En
jörðin mun verða að auðn vegna íbúa hennar, sökum ávaxtarins af
gjörðum þeirra. [14] Gæt þú þjóðar þinnar með staf þínum, sauða arf-
leifðar þinnar, þeirra sem byggja einir sér kjarrskóginn innan um ald-
ingarðana. Lát þá ganga í Basan-haglendi og í Gileað eins og forðum
daga. [15] Lát hana sjá undur, eins og þegar þú fórst af Egiptalandi.
[16] Heiðingjarnir skulu sjá það og verða til skammar, þrátt fyrir allan
styrkleika sinn; þeir munu leggja höndina á munninn, eyru þeirra munu
verða heyrnarlaus. [17] Þeir munu sleikja duft eins og höggormur, eins
og kvikindi, sem skríða á jörðunni; skjálfandi skulu þeir koma fram
úr fylgsnum sínum, líta hræddir til Jahve, Guðs vors, og óttast þig.
[18] Hver er slíkur guð sem þú, sá er fyrirgefur leifum arfleifðar sinnar
misgjörð þeirra og umber fráhvarf þeirra, — sem eigi heldur fast við
reiði sína eilíflega, heldur hefir unun af að vera miskunnsamur? [19] Hann

**14:** Hós. 4, 10. **15:** 5 Mós. 28, 38 n. **16:** 1 Kong. 16, 25. 30. — **7, 2:** Sálm. 12, 2.
**4:** Jes. 22, 5. **5:** Sálm. 55, 14. Jer. 9, 4. **6:** Matt. 10, 21. 35. 36. Lúk. 12, 53.
**10:** Jóel 2, 17. **12:** Jes. 19, 18—25. **14:** kap. 5, 3. Jer. 50, 19. **15:** Jes. 11, 16.
**16:** Jes. 52, 15. **17:** Sálm. 72, 9. Jes. 49, 23. Sálm. 18, 46. **18:** 2 Mós. 34, 6. 7.
Sálm. 103, 8 n. Jóel 2, 13.

mun aftur miskunna oss, troða niður misgjörðir vorar. Já, þú munt varpa öllum syndum vorum í djúp hafsins. [20] Þú munt auðsýna Jakob þá trúfesti, Abraham þá miskunnsemi, er þú sórst feðrum vorum forðum daga.

# Nahúm.

1 Spádómur um Níníve. Bókin um vitrun Nahúms Elkósíta.
[2] Jahve er vandlætissamur Guð og hefnari; Jahve er hefnari og fullur gremi. Jahve hefnir sín á mótstöðumönnum sínum og er langrækinn við óvini sína. [3] Jahve er seinn til reiði og mikill að krafti, en óhegnt lætur hann ekki. Jahve brunar áfram í fellibyljum og stormviðri og skýin eru rykið undir fótum hans. [4] Hann hastar á sjóinn og þurkar hann upp og hann lætur öll fljót þorna. Þá fölnar Basan og Karmel, þá fölnar jurtagróðurinn á Líbanon. [5] Fjöllin skjálfa fyrir honum og hálsarnir renna sundur; jörðin gengur skykkjum fyrir honum, heimskringlan og allir, sem á henni búa. [6] Hver fær staðist gremi hans og hver fær afborið hans brennandi reiði? Heift hans úthellist eins og eldur og björgin bresta sundur fyrir honum. [7] Jahve er góður, athvarf á degi neyðarinnar, og hann þekkir þá, sem treysta honum. [8] En með yfirgeisandi vatnsflóði mun hann gjörsamlega afmá þá, er gegn honum rísa, og myrkur mun ofsækja óvini hans. [9] Hvað bruggið þér gegn Jahve? Hann eyðir svo, að af tekur — þrengingin mun ekki koma tvisvar. [10] Þótt þeir væru samflæktir sem þyrnar og votir sem vín þeirra, þá munu þeir upp brendir verða sem skrafþurrir hálmleggir. [11] Frá þér út gekk sá, er hafði ilt í huga gegn Jahve, sá er hafði skaðsemdar-áform með höndum. [12] Svo segir Jahve: Þótt þeir komi allir með tölu og afarfjölmennir, þá skulu þeir alt að einu afmáðir verða og farast. Hafi eg auðmýkt þig, þá mun eg ekki auðmýkja þig framar. [13] Og nú vil eg brjóta ok hans af þér og slíta bönd þín. [14] En um þig mun Jahve skipa svo fyrir: Ekkert afkvæmi skal framar koma út af nafni þínu. Eg vil eyða skurðmyndunum og steyptu líkneskjunum úr hofi guðs þíns, eg vil búa þér gröf, því að þú ert léttvægur fundinn.

2 Sjá á fjöllunum fætur fagnaðarboðans, þess er friðinn kunngjörir. Hald hátíðir þínar, Júda, gjald heit þín, því að eyðandinn skal ekki framar um hjá þér fara — hann er með öllu afmáður. [2] Ófriðarmaðurinn fer í móti þér: Gæt vígisins! Horf njósnaraugum út á veginn, styrk lendarnar, safna öllum styrkleika þínum. [3] Því að Jahve reisir aftur við tign Jakobs, eins og tign Ísraels, því að ræningjar hafa rænt þá og skemt gróðurkvistu þeirra. [4] Skildir kappa hans eru rauðlitaðir, hermennirnir klæddir skarlatsklæðum; vagnarnir glóa af stáli þann dag, er hann útbýr þá, og lensunum verður sveiflað. [5] Vagnarnir geisa á strætunum, þeytast um torgin; þeir eru til að sjá sem blys, þeir þjóta áfram sem eldingar. [6] Hann heitir þá á tignarmenn sína:

1, 2: 2 Mós. 20, 5. 3: 2 Mós. 34, 7. 4: Sálm. 106, 9. 5: Jer. 4, 24. 7: Sálm. 1, 6. 2 Tím. 2, 19. 11: 2 Kong. 18, 13 n. 13: Jes. 9, 4; 10, 27. 14: Dan. 5, 27. — 2, 1: Jes. 52, 7. Róm. 10, 15. 5: kap. 3, 2.

þeir hrasa á göngu sinni; þeir flýta sér að múr hennar — en þegar er
vígþak reist. 7 Hliðunum við fljótið er lokið upp og konungshöllin
kemst í uppnám. 8 Og drotningin verður flett klæðum og flutt burt,
og þernur hennar munu andvarpa, líkast því sem dúfur kurri, og berja
sér á brjóst. 9 Nínive hefir verið sem vatnstjörn frá upphafi vega sinna.
En þeir flýja. »Standið við, standið við!« — en enginn lítur við.
10 Rænið silfri, rænið gulli! því að hér er óþrjótandi forði — ógrynni
af alls konar dýrum munum. 11 Auðn, gjörauðn og aleyðing — hug-
laus hjörtu, riðandi kné og skjálfti í öllum mjöðmum, og allra andlit
blikna. 12 Hvar er nú bæli ljónanna, átthagar ungljónanna, þar sem
ljónið gekk og ljónynjan og ljónshvolpurinn, án þess að nokkur stygði þau?
13 Ljónið reif sundur, þar til er ungar þess höfðu fengið nægju sína,
og drap niður handa ljónynjum sínum; hann fylti hella sína bráð og
bæli sín ránfeng. 14 Sjá, eg rís í gegn þér — segir Jahve hersveitanna
— og læt vagna þína bálast upp í reyk, og sverðið skal eta ungljón þín.
Og eg eyði herfangi þínu af jörðunni og raust sendiboða þinna skal
ekki framar heyrast.

3 Vei hinni blóðseku borg, sem öll er full af lygum og ofríki og
aldrei hættir að ræna. 2 Heyr, svipusmellir! Heyr, hjólaskrölt,
rennandi hestar og skokkandi vagnar, 3 fram geisandi riddarar, blikandi
sverð og leiftrandi spjót! Fjöldi valfallinna manna og aragrúi af líkum;
mannabúkarnir eru óteljandi, þeir hrasa um búkana. 4 Vegna hins
mikla lauslætis skækjunnar, hinnar fögru og fjölkunnugu, sem vélaði
þjóðir með lauslæti sínu og kynstofna með töfrum sínum. 5 Sjá, eg rís
í gegn þér — segir Jahve hersveitanna — og eg vil bregða klæðafaldi
þínum upp að framan og sýna þjóðunum nekt þína og konungsríkjun-
um blygðan þína. 6 Eg skal kasta á þig saur og svívirða þig og láta
þig verða öðrum að varnaðarvíti, 7 svo að allir, sem sjá þig, skulu
flýja frá þér og segja: Nínive er í eyði lögð! Hver mun aumka hana?
Hvar á eg að leita þeirra, sem vilji hugga þig? 8 Ert þú betri en Nó-
Ammon, sem lá við Nílkvíslarnar, umkringd af vötnum, sem hafði
fljót að varnarvirki, fljót að múrvegg? 9 Blálendingar voru styrkur
hennar og óteljandi Egiptar; Pút-menn og Libýumenn voru hjálparlið
þitt. 10 Og þó varð hún að fara í útlegð, fara burt hernumin; ungbörn
hennar voru og rotuð til dauðs á öllum strætamótum. Hlutum var
kastað um hina göfugustu menn í borginni og öll stórmenni hennar
voru fjötrum reyrð. 11 Einnig þú skalt drukkin verða og þér sortna
fyrir augum; þú skalt og leita hælis fyrir óvinunum. 12 Öll varnarvirki
þín eru sem fíkjutré með árfíkjum; séu þau skekin, falla fíkjurnar þeim
í munn, sem þær vill eta. 13 Sjá, hermenn þínir eru orðnir að konum
— landshliðum þínum hefir verið lokið upp fyrir óvinum þínum, eldur
eyðir slagbröndum þínum. 14 Aus vatn, til þess að hafa meðan á um-
sátinni stendur! Umbæt varnarvirki þín! Gakk út í deigulmóinn og
troð leirinn, gríp til tiglmótanna! 15 Þar skal eldurinn eyða þér, sverðið
uppræta þig; hann skal eyða þér eins og grasvargar, og það þótt þú
fjölgir eins og grasvargar, þótt þú fjölgir eins og átvargar. 16 Kaup-
menn þínir eru fleiri en stjörnurnar á himninum; en grasvargarnir skifta
hömum og fljúga burt. 17 Höfðingjar þínir eru eins og átvargar, her-
foringjar þínir eins og sægur af engisprettum, er liggja á akurgerðun-
um þegar kalt er; þegar sólin kemur upp, fljúga þær burt, enginn veit
hvað af þeim verður. 18 Hirðar þínir blunda, Assýríu-konungur, tignar-

**11:** Jes. 13, 7; 21, 3. Jóel 2, 6. — **3, 1:** Esek. 24, 9. Hab. 2, 12. **2:** kap. 2, 5.
**4:** Opinb. 17, 1. **5:** Jer. 13, 22. 26. Jes. 47, 3. **8:** Jer. 46, 25. **13:** Jes. 19, 16.
Jer. 51, 30. **15:** Jóel 1, 4.

menn þínir sofa; menn þínir eru á víð og dreif um fjöllin, og enginn
safnar þeim saman. [19] Engin svíun fæst við meini þínu, sár þitt er ó-
læknandi. Allir þeir, sem heyra fregnina um þig, klappa lof í lófa;
því að hver er sá, að eigi hafi vonzka þín gengið yfir hann án afláts?

---

# Habakúk.

1 Spádómur, sem opinberaður var Habakúk spámanni.
[2] Hversu lengi hefi eg kallað, Jahve, og þú heyrir ekki; hversu lengi
hefi eg hrópað til þín: »Ofríki!« og þú hjálpar ekki! [3] Hví lætur þú
mig sjá rangindi, hví horfir þú upp á rangsleitni? Eyðing og ofríki
standa fyrir augum mér; af því koma þrætur og deilur rísa upp. [4] Fyrir
því verður lögmálið magnlaust og fyrir því kemur rétturinn aldrei
fram. Því að hinir óguðlegu umkringja hina réttlátu; fyrir því kemur
rétturinn fram rangsnúinn. [5] Lítið upp, þér hinir sviksömu, og litist um!
Fallið í stafi og undrist! Því að hann framkvæmir verk á yðar dögum
— þér munduð ekki trúa því, ef sagt væri frá því. [6] Því sjá, eg reisi
upp Kaldea, hina harðgjöru og ofsafullu þjóð, sem fer um víða veröld
til þess að leggja undir sig bústaði, sem hún ekki á. [7] Ægileg og hræði-
leg er hún; frá henni sjálfri út gengur réttur hennar og tign. [8] Hestar
hennar eru frárri en pardusdýr og skjótari en úlfar að kveldi dags;
riddarar hennar þeysa áfram og riddarar hennar koma langt að; þeir
fljúga áfram eins og örn, sem hraðar sér að æti. [9] Allir koma þeir til
þess að fremja ofbeldisverk, brjótast beint áfram og raka saman her-
teknum mönnum eins og sandi. [10] Og hann — hann gjörir gys að
konungum, og höfðingjar eru honum að hlátri. Hann hlær að öllum
virkjum; hann hrúgar upp mold og vinnur þau. [11] Þá fær hann nýjan
kraft og brýzt inn og gjörist brotlegur, hann, sem trúir á mátt sinn og
megin. [12] Ert þú, Jahve, ekki Guð minn frá öndverðu, minn Heilagi,
sem aldrei deyr? Jahve, þú hefir falið honum að framkvæma dóm;
bjargið mitt, þú hefir sett hann til að refsa. [13] Augu þín eru of hrein
til þess að líta hið illa og þú getur ekki horft upp á rangsleitni. Hví
horfir þú á svikarana, hví þegir þú, þegar hinn óguðlegi uppsvelgir
þann, sem honum er réttlátari? [14] Og þannig hefir þú látið mennina
verða eins og fiska sjávarins, eins og skriðkvikindin, sem engan drotn-
ara hafa. [15] Hann dró þá alla upp á öngli sínum, hrífur þá í net sitt
og safnar þeim í vörpu sína. Fyrir því gleðst hann og fagnar; [16] fyrir
því færir hann neti sínu sláturfórn og vörpu sinni reykelsisfórn. Því
að þau afla honum ríkulegs hlutskiftis og ríflegs matar. [17] Fyrir því
bregður hann sverði sínu án afláts, til þess að drepa þjóðir vægðarlaust.

2 Eg ætla að nema staðar á varðbergi mínu og ganga út á virkis-
vegginn og skygnast um, til þess að sjá, hvað hann talar við mig
og hverju hann svarar umkvartan minni.
[2] Þá svaraði Jahve mér og sagði: Skrifa þú vitrunina upp og
letra svo skýrt á spjöldin, að lesa megi viðstöðulaust. [3] Því að enn
hefir vitrunin sinn ákveðna tíma, en hún skundar að takmarkinu og

---

**18:** Sálm. 76, 6 n. **19:** Zef. 2, 15. — **1, 5:** Post. 13, 41. **13:** Jer. 12, 1. — **2, 1:**
Jes. 21, 8. **2:** Jes. 8, 1.

bregzt ekki. Þótt hún dragist, þá vænt hennar; því að hún mun vissu-
lega fram koma og ekki undan líða. 4 Sjá, hinn hrokafulli ber eigi i
brjósti sér ráðvanda sál; en hinn réttláti mun lífi halda fyrir trúfesti
sína. 5 Vei ræningjanum, manninum, sem girnist og eigi verður sadd-
ur, sem glennir sundur gin sitt, eins og Hel, og er óseðjandi eins og
dauðinn, sem safnaði til sín öllum þjóðum og dró að sér alla lýði.
6 Munu eigi allir þessir kveða um hann háðkvæði og níð, — gátur um
hann? Menn munu segja: Vei þeim, sem rakar saman annarra fé —
— hversu lengi? — og hleður á sig pantteknum munum. 7 Munu eigi
lánsalar þínir skyndilega upp rísa og þeir vakna, er að þér munu
þrengja? Þá munt þú verða herfang þeirra. 8 Því að eins og þú hefir
rænt margar þjóðir, svo munu nú allar hinar þjóðirnar ræna þig, fyrir
manndrápin og fyrir ofríkið, sem landið hefir beitt verið, borgin og allir
íbúar hennar. 9 Vei þeim, sem sækist eftir illum ávinningi fyrir hús
sitt, til þess að geta bygt hreiður sitt hátt uppi, til þess að geta bjarg-
að sér undan hendi ógæfunnar. 10 Þú tókst upp það ráð, sem varð
húsi þínu til smánar, að afmá margar þjóðir, og bakaðir sjálfum þér
sekt. 11 Því að steinarnir munu hrópa út úr múrveggnum og sperrur
úr grindinni svara þeim. 12 Vei þeim, sem reisir stað með mann-
drápum og grundvallar borg með glæpum. 13 Kemur slíkt ekki frá
Jahve hersveitanna? Þjóðir vinna fyrir eldinn og þjóðflokkar þreyta
sig fyrir ekki neitt! 14 Því að jörðin mun verða full af þekking á dýrð
Jahve, eins og djúp sjávarins vötnum hulið. 15 Vei þeim, sem gefur
vini sínum að drekka úr skál heiftar sinnar, og gjörir þá jafnvel drukna,
til þess að sjá blygðan þeirra. 16 Þú hefir mettað þig á smán, en ekki
á heiðri. Drekk þú nú einnig og reika! Bikarinn í hægri hendi Jahve
kemur nú til þín og vansi ofan á vegsemd þína. 17 Því að ofríkið, sem
haft hefir verið í frammi við Líbanon, skal á þér bitna og dýradrápið
hræða þig, fyrir manndrápin og fyrir ofríkið, sem landið hefir beitt
verið, borgin og allir íbúar hennar. 18 Hvað gagnar skurðmynd, að
smiðurinn sker hana út, eða steypt líkneski og lygafræðari, að smið-
urinn treystir á það, svo að hann býr til mállausa guði? 19 Vei þeim,
sem segir við trédrumb: Vakna þú! Rís upp! — við dumban steininn.
Mun hann geta frætt? Nei, þótt hann sé búinn gulli og silfri, þá er þó
enginn andi í honum. 20 En Jahve er í sínu heilaga musteri — öll
jörðin veri hljóð fyrir honum!

3 Bæn Habakúks spámanns. Með strengjaleik.
2 Jahve, eg hefi heyrt boðskap þinn, eg er hræddur.
Jahve, endurnýja verk þitt áður en mörg ár líða,
lát það verða kunnugt áður en mörg ár líða.
Minst þú miskunnar í reiðinni.
3 Guð kemur frá Teman
og hinn Heilagi frá Paran-fjöllum. Sela.
Tign hans þekur himininn,
og af dýrð hans er jörðin full.
4 Ljómi birtist eins og sólarljós,
geislar stafa út frá hendi hans,
og þar er hjúpurinn um mátt hans.
5 Drepsóttin fer á undan honum
og sýkin fetar í fótspor hans.

---

**3:** Hebr. 10, 37. **4:** Róm. 1, 17. Gal. 3, 11. Hebr. 10, 38. **5:** Jes. 5, 14. Orðskv. 27, 20. **12:** Mík. 3, 10. **13:** Jer. 51, 58. **14:** Jes. 11, 9. **15:** Nah. 3, 5. **16:** Jer. 25, 15. 26. **17:** Jer. 22, 23. **18:** Sálm. 115, 5. 1 Kor. 12, 2. **19:** Jer. 10, 3 n. **20:** Sálm. 11, 4. Zef. 1, 7. Sak. 2, 17. — **3, 3:** 5 Mós. 33, 2.

6 Hann gengur fram og jörðin nötrar,
hann lítur upp og þjóðirnar hrökkva við.
Þá molast hin öldnu fjöll sundur,
þá sökkva hinar eilífu hæðir niður;
hann gengur sama veginn og forðum daga.
7 Eg sé tjöld Kúsans í nauðum stödd;
tjalddúkarnir í Midíanslandi bifast til og frá.
8 Er Jahve reiður fljótunum,
eða beinist bræði þín að fljótunum?
Eða beinist heift þín að hafinu,
úr því þú ekur með hesta þína, á sigurvagni þínum?
9 Ber og nakinn er bogi þinn;
þú fyllir örvamæli þinn skeytum,
þú klýfur vatnsföll, svo að land kemur fram.
10 Fjöllin sjá þig og skjálfa,
steypiregn dynur yfir;
hafdjúpið lætur raust sína drynja,
réttir hendur sínar hátt upp.
11 Sól og tungl bíða kyr í híbýlum sínum,
fyrir ljósi þinna þjótandi örfa,
fyrir ljóma þíns leiftrandi spjóts.
12 Í gremi fetar þú yfir jörðina,
í reiði þreskir þú þjóðirnar.
13 Þú fer að heiman til þess að frelsa þjóð þína,
til þess að hjálpa þínum smurða.
Þú brýtur niður mæninn á húsi hins óguðlega,
gjörir grundvöllinn beran upp að hálsi.
14 Þú rekur lensur gegnum höfuðið á herforingjum hans,
er geysast fram til að tvístra mér;
fagnaðaróp þeirra glymja,
eins og þeir ætluðu að uppeta hina voluðu í leyni.
15 Þú fer yfir hafið með hesta þína,
yfir svelg mikilla vatna.
16 Þegar eg heyrði það, titraði hjarta mitt;
varir mínar skulfu við fregnina.
Hrollur kom í bein mín
og eg varð skjálfandi á fótum,
að eg yrði að bíða hörmungadagsins,
unz hann rennur upp þeirri þjóð, er á oss ræðst.
17 Þótt fíkjutréð blómgist ekki
og víntrén beri engan ávöxt,
þótt gróði olíutrésins bregðist
og akurlöndin gefi enga fæðu,
þótt sauðfé hverfi úr réttinni
og engin naut verði eftir í nautahúsunum —
18 þá skal eg þó gleðjast í Jahve,
fagna yfir Guði hjálpræðis míns.
19 Jahve drottinn er styrkur minn!
Hann gjörir fætur mína sem hindanna
og lætur mig ganga eftir hæðunum.
Til helgisöngs með strengjaleik.

**15:** Sálm. 77, 20. **16:** v. 2. **18:** Jóel 2, 23. Lúk. 1, 47. **19:** 2 Sam. 22, 34. Sálm. 18, 34.

# Zefanía.

1 Orð Jahve, sem kom til Zefanía Kúsísonar, Gedaljasonar, Amaría-
sonar, Hiskíasonar, á dögum Jósía Amónssonar, Júda-konungs.
2 Eg vil gjörsópa öllu burt af jörðunni — segir Jahve. 3 Eg vil
sópa burt mönnum og skepnum, eg vil sópa burt fuglum himinsins og
fiskum sjávarins, hneykslunum ásamt hinum óguðlegu, og eg vil afmá
mennina af jörðunni — segir Jahve. 4 Og eg mun útrétta hönd mína
gegn Júda og gegn öllum Jerúsalembúum og afmá nafn Baals af þess-
um stað, nafn hofgoðanna ásamt prestunum, 5 svo og þá, er á þökun-
um falla fram fyrir her himinsins, og þá sem falla fram fyrir Jahve,
en sverja um leið við Milkóm, 6 svo og þá, sem gjörst hafa Jahve frá-
hverfir og eigi leita Jahve né spyrja eftir honum.
7 Verið hljóðir fyrir drotni Jahve! Því að nálægur er dagur Jahve;
já, Jahve hefir efnt til fórnar, hann hefir þegar vígt gesti sína.
8 Á fórnardegi Jahve mun eg vitja höfðingjanna og konungsson-
anna, svo og allra þeirra, er klæðast útlenzkum klæðnaði. 9 Þann dag
vitja eg allra, sem stökkva yfir þröskuldinn, þeirra er fylla hús drott-
ins síns með ofbeldi og svikum. 10 Á þeim degi, segir Jahve, mun
heyrast neyðaróp frá Fiskhliðinu, kveinan úr öðru borgarhverfi og
ógurlegt harmakvein frá hæðunum. 11 Kveinið, þér sem búið í Mortél-
inu, því að allur kaupmannalýðurinn er eyddur, afmáðir allir þeir, er
silfur vega.
12 Í þann tíma mun eg rannsaka Jerúsalem með skriðljósum og
vitja þeirra manna, sem liggja á dreggjum sínum, þeirra er segja í
hjarta sínu: »Jahve gjörir hvorki gott né ilt«. 13 Þá munu fjármunir
þeirra verða að herfangi og hús þeirra að auðn; þeir munu byggja hús,
en ekki búa í þeim, planta víngarða, en ekki drekka vínið, sem úr
þeim kemur. 14 Hinn mikli dagur Jahve er nálægur; hann er nálægur
og hraðar sér mjög. Heyr! dagur Jahve! Beisklega kveinar þá kapp-
inn. 15 Sá dagur er dagur reiði, dagur neyðar og þrengingar, dagur
eyðingar og umturnunar, dagur myrkurs og niðdimmu, dagur skýþyknis
og skýsorta, 16 dagur lúðra og herblásturs — gegn víggirtu borgunum
og háu múrtindunum. 17 Þá mun eg hræða mennina, svo að þeir ráfi
eins og blindir menn, af því að þeir hafa syndgað gegn Jahve, og blóði
þeirra skal úthelt verða sem dufti og innýflum þeirra sem saur. 18 Hvorki
silfur þeirra né gull fær frelsað þá á reiðidegi Jahve, heldur skal alt
landið eyðast fyrir eldi vandlætingar hans. Því að tortíming, já bráða
eyðing býr hann öllum þeim, sem á jörðunni búa.

2 Beyg þig og læg þig, þú þjóð, sem eigi blygðast þín, 2 áður en þér
verðið eins og fjúkandi sáðir, áður en hin brennandi reiði Jahve
kemur yfir yður, áður en reiðidagur Jahve kemur yfir yður. 3 Leitið
Jahve, allir þér hinir auðmjúku í landinu, þér sem breytið eftir hans
boðorðum. Ástundið réttlæti, ástundið auðmýkt; vera má að þér verðið
faldir á reiðidegi Jahve. 4 Því að Gasa mun verða yfirgefin og Aska-
lon verða að auðn. Asdód-búar munu burt reknir verða um hábjartan
dag og Ekron í eyði lögð. 5 Vei yður, þér sem búið með fram sjávar-

---

**1, 1:** 2 Kong. 22, 1 n. Jer. 1, 2. **3:** Hós. 4, 3. **4:** 2 Kong. 23, 5. **5:** Jer. 19, 13; 49, 1. **7:** Hab. 2, 20. Jes. 34, 6. Esek. 39, 17. **10:** 2 Kong. 22, 14. **11:** Hós. 12, 8. **12:** Jer. 48, 11. Sálm. 94, 7. **13:** Mík. 6, 15. Am. 5, 11. **14:** v. 7. Jóel 1, 15. Esek. 30, 3. **15:** Jóel 2, 2. 10. **18:** Orðskv. 11, 4. Esek. 7, 19. — **2, 5:** 1 Sam. 30, 14. Jer. 47, 1 n.

síðunni, þú Kreta þjóð! Orð Jahve beinist gegn yður, Kanaan, land
Filista! Já, eg mun eyða þig, svo að þar skal enginn búa. [6] Og Kreta
skal verða að beitilandi fyrir hjarðmenn og að fjárbyrgjum fyrir sauðfé.
[7] Þá mun sjávarsíðan falla til þeirra, sem eftir verða af Júda húsi; þar
skulu þeir vera á beit; í húsum Askalon skulu þeir leggjast fyrir að
kveldi. Því að Jahve, Guð þeirra, mun vitja þeirra og snúa við hög-
um þeirra. [8] Eg hefi heyrt svívirðingar Móabs og smánaryrði Ammón-
íta, er þeir svívirtu með þjóð mína og höfðu hroka í frammi við
land þeirra. [9] Fyrir því skal, svo sannarlega sem eg lifi — segir Jahve
hersveitanna, Guð Ísraels, — fara fyrir Móab eins og fyrir Sódómu,
og fyrir Ammónítum eins og fyrir Gómorru; þeir skulu verða að
gróðrarreit fyrir netlur, að saltgröf og að óbygðri auðn til eilífrar tíðar.
Leifar lýðs míns skulu ræna þá og eftirleifar þjóðar minnar erfa þá.
[10] Þetta skal þá henda fyrir drambsemi þeirra, að þeir hafa svívirt
þjóð Jahve hersveitanna og haft hroka í frammi við hana. [11] Ógurlegur
mun Jahve verða þeim, því að hann lætur alla guði jarðarinnar dragast
upp, svo að öll eylönd heiðingjanna dýrki hann, hver maður á sínum
stað. [12] Einnig þér, Blálendingar, munuð falla fyrir sverði mínu. [13] Og
hann mun rétta út hönd sína gegn norðri og afmá Assúr. Og hann
mun leggja Níníve í eyði, gjöra hana þurra sem eyðimörk; [14] mitt í
henni skulu hjarðir liggja, alls konar dýr hópum saman; pelíkanar og
stjörnuhegrar munu eiga náttból á súlnahöfðum hennar. Heyr kliðinn
í gluggatóttunum! Rofhrúgur á þröskuldunum, því að sedrusviðarþilin
hafa verið rifin burt! [15] Er þetta glaummikla borgin, er sat andvara-
laus og sagði í hjarta sínu: Eg og engin önnur? Hversu er hún orðin
að auðn, að bæli fyrir villidýr; hver sá, er þar fer um, blístrar og
hristir hönd sína hæðnislega.

3 Vei hinni þverúðarfullu og saurguðu, hinni ofríkisfullu borg!
[2] Hún hlýðir engri áminningu, hún tekur engri hirtingu; hún treystir
ekki Jahve og nálægir sig ekki Guði sínum. [3] Höfðingjarnir í henni
eru sem öskrandi ljón, dómendur hennar sem úlfar að kveldi, þeir leifa
ekkert til morguns. [4] Spámenn hennar eru léttúðarmenn, svikaseggir;
prestar hennar vanhelga hið heilaga, misbjóða lögmálinu. [5] En Jahve
er réttlátur í henni, hann gjörir ekkert rangt; á morgni hverjum leiðir
hann réttlæti sitt í ljós, það bregzt ekki — en hinn rangláti kann ekki
að skammast sín. [6] Eg hefi afmáð þjóðir, múrtindar þeirra voru brotn-
ir niður; eg hefi lagt stræti þeirra í eyði, svo að enginn var þar á ferð;
borgir þeirra voru eyddar, urðu mannlausar, svo að þar bjó enginn.
[7] Eg sagði: »Óttast þú mig aðeins, tak hirtingu!« þá skal bústaður
hennar ekki afmáður verða, eftir alt, sem eg hefi fyrirskipað gegn henni;
en þeir hafa verið því kostgæfari í því, að láta allar gjörðir sínar
vera illverk.

[8] Bíðið mín þess vegna — segir Jahve —, þess dags, er eg rís upp
sem vottur; því að það er mitt ásett ráð að safna saman þjóðum og
stefna saman konungsríkjum, til þess að úthella yfir þá heift minni,
allri minni brennandi reiði; því að fyrir eldi vandlætingar minnar skal
alt landið verða eytt. [9] Já, þá mun eg gefa þjóðunum nýjar, hreinar
varir, svo að þær ákalli allar nafn Jahve, þjóni honum einhuga.
[10] Handan frá Blálands fljótum munu þeir færa mér sláturfórnir, flytja
mér matfórnir. [11] Á þeim degi þarft þú eigi að skammast þín fyrir
öll illverk þín, þau er þú syndgaðir með gegn mér; því að þá mun eg
ryðja burt frá þér þeim, er ofkætast drambsamlega í þér, og þú munt

---

**7:** kap. 3, 20. **14:** Jes. 13, 21 n. 34, 11. **15:** Jes. 47, 8. Nah. 3, 19. — **3, 3:** Esek. 22, 27. **4:** Jer. 23, 11. Esek. 22, 26. **5:** Hós. 6, 5. **8:** kap. 1, 18. **9:** Jes. 6, 5.

ekki framar ofmetnast á mínu heilaga fjalli. [12] Og eg mun láta í þér
eftir verða auðmjúkan og lítilmótlegan lýð; þeir munu leita sér hælis í
nafni Jahve. [13] Leifar Ísraels munu engin rangindi fremja, né heldur
tala lygar, og í munni þeirra mun ekki finnast sviksöm tunga; já,
þeir munu vera á beit og leggjast, án þess að nokkur styggi þá.
[14] Fagna þú, dóttirin Zíon, látið gleðilátum, þér Ísraelsmenn!
Ver kát og gleð þig af öllu hjarta, dóttirin Jerúsalem! [15] Jahve hefir
afmáð refsidóma þína, rýmt burt óvini þínum. Konungur Ísraels, Jahve,
er hjá þér; þú munt eigi framar á neinu illu kenna. [16] Á þeim degi
mun sagt verða við Jerúsalem: Óttast ekki, Zíon, lát ekki hugfallast!
[17] Jahve, Guð þinn, er hjá þér, hetjan, er sigur veitir. Hann kætist yfir
þér með fögnuði, hann þegir í kærleika sínum, hann fagnar yfir þér
með gleðisöng. [18] Eg saman safna þeim, sem hryggir eru út af hátíð-
arsamkomunni; frá þér voru þeir, smán hvílir á þeim. [19] Sjá, á þeim
tíma skal eg eiga erindi við þá, er þig þjáðu. Þá skal eg frelsa hið
halta og smala saman því tvístraða; og eg skal gjöra þá fræga og
nafnkunna á allri jörðunni. [20] Á þeim tíma skal eg leiða yður heim,
og það á þeim tíma, er eg smala yður saman. Því að eg skal gjöra
yður nafnkunna og fræga meðal allra þjóða jarðarinnar, þá er eg sný
við högum yðar í augsýn yðar, segir Jahve.

---

# Haggaí.

1 Á öðru ríkisári Daríusar konungs, hinn fyrsta dag hins sjötta
mánaðar, kom orð Jahve fyrir munn Haggaí spámanns til Serú-
babels Sealtíelssonar, landstjóra í Júda, og til Jósúa Józadakssonar
æðsta prests, svo hljóðandi: [2] Svo segir Jahve hersveitanna: Þessi lýður
segir: Enn er ekki tími kominn til að endurreisa hús Jahve. [3] Þá kom orð
Jahve fyrir munn Haggaí spámanns, svo hljóðandi: [4] Er þá tími fyrir
yður að búa í þiljuðum húsum, meðan þetta hús liggur í rústum?
[5] Og nú, svo segir Jahve hersveitanna: Takið eftir, hvernig fyrir yður
fer! [6] Þér sáið miklu, en safnið litlu, etið, en verðið eigi saddir,
drekkið, en fáið eigi nægju yðar, klæðið yður, en verðið þó ekki
varmir, og sá sem vinnur fyrir kaupi, vinnur fyrir því í götótta pyngju.
[7] Svo segir Jahve hersveitanna: Takið eftir, hvernig fyrir yður fer!
[8] Farið upp í fjöllin, sækið við og reisið musterið, þá mun eg hafa
velþóknun á því og gjöra mig vegsamlegan! segir Jahve. [9] Þér búist
við miklu, en fáið lítið í aðra hönd; og þó þér flytjið það heim, þá
blæs eg það burt. Hvers vegna? segir Jahve hersveitanna — vegna
húss míns, af því að það liggur í rústum, meðan sérhver yðar flýtir
sér með sitt hús. [10] Fyrir því heldur himininn uppi yfir yður aftur
dögginni og fyrir því heldur jörðin aftur gróðri sínum. [11] Eg kallaði
þurk yfir landið og yfir fjöllin, yfir kornið, vínberjalöginn og olíuna og
yfir það, sem jörðin af sér gefur, yfir menn og skepnur og yfir allan
handafla.
[12] Þá hlýddi Serúbabel Sealtíelsson og Jósúa Józadaksson æðsti
prestur og alt það, er eftir var orðið lýðsins, röddu Jahve, Guðs þeirra,

---

14: Sak. 9, 9. 18: Harm. 1, 4. 19: Mík. 4, 6. 20: kap. 2, 7. — 1, 1: Sak. 1, 1.
Esr. 5, 1. 4: 2 Sam. 7, 2. 6: Hós. 4, 10. Mík. 6, 15. 8: kap. 2, 9. 11: kap. 2, 17.

og orðum Haggaí spámanns, þeim er Jahve, Guð þeirra, hafði sent
hann með, og lýðurinn óttaðist Jahve. [13] Þá sagði Haggaí, sendiboði
Jahve, við lýðinn, samkvæmt boðskap Jahve: Eg er með yður! segir
Jahve. [14] Og Jahve vakti hug Serúbabels Sealtíelssonar, landstjóra í
Júda, og hug Jósúa Józadakssonar æðsta prests og hug alls þess, er
eftir var orðið lýðsins, svo að þeir komu og hófu að byggja hús Jahve
hersveitanna, Guðs þeirra, [15] á tuttugasta og fjórða degi hins sjötta
mánaðar, á öðru ríkisári Daríusar konungs.

2 Á tuttugasta og fyrsta degi hins sjöunda mánaðar talaði Jahve
fyrir munn Haggaí spámanns á þessa leið: [2] Mæl þú til Serúbabels
Sealtíelssonar, landstjóra í Júda, og til Jósúa Józadakssonar æðsta
prests og til þess, er eftir er orðið lýðsins, á þessa leið: [3] Hver er sá af
yður eftir orðinn, er séð hefir þetta hús í sinni fyrri vegsemd? og hversu
virðist yður það nú? er það ekki einskisvert í yðar augum? [4] En ver
samt hughraustur, Serúbabel, segir Jahve, og ver hughraustur, Jósúa
Józadaksson æðsti prestur, og ver hughraustur, allur landslýður, segir
Jahve, og haldið áfram verkinu, því að eg er með yður, segir Jahve
hersveitanna, [5] samkvæmt heiti því, er eg gjörði við yður, þá er þér
fóruð af Egiptalandi, og andi minn dvelur meðal yðar. Óttist ekki.
[6] Því að svo segir Jahve hersveitanna: Eftir skamma hríð mun eg hræra
himin og jörð, haf og þurlendi; [7] eg mun hræra allar þjóðir, svo að
gersemar allra þjóða skulu hingað koma, og eg mun fylla hús þetta
dýrð, segir Jahve hersveitanna. [8] Mitt er silfrið, mitt er gullið, segir
Jahve hersveitanna. [9] Hin síðari dýrð þessa musteris mun meiri verða
en hin fyrri var, segir Jahve hersveitanna, og eg mun veita heill á
þessum stað, segir Jahve hersveitanna.

[10] Á tuttugasta og fjórða degi hins níunda mánaðar, á öðru ríkis-
ári Daríusar, talaði Jahve fyrir munn Haggaí spámanns á þessa leið:
[11] Svo segir Jahve hersveitanna: Leitaðu fræðslu prestanna um þetta:
[12] Setjum, að maður beri heilagt kjöt í kyrtilskauti sínu og snerti síðan
brauð, einhvern rétt matar, vín, olíu eða eitthvað annað matarkyns með
kyrtilskauti sínu, verður það þá heilagt af því? Prestarnir svöruðu og
sögðu: Nei! [13] Þá spurði Haggaí: Ef maður, sem orðinn er óhreinn,
af því að hann hefir snortið lík, kemur við eitthvað af þessu, verður
það þá óhreint? Prestarnir svöruðu og sögðu: Já, það verður óhreint.
[14] Þá tók Haggaí til máls og sagði: Eins er um þennan lýð og þessa
þjóð í mínum augum, segir Jahve, svo og um alt verk, er þeir vinna,
og það sem þeir færa mér þar að fórn, það er óhreint. [15] Og rennið
nú huganum frá þessum degi aftur í tímann, áður en steinn var lagður
á stein ofan í musteri Jahve. [16] Hvernig leið yður þá? Kæmi maður
að kornbing, sem gjöra skyldi tuttugu skeppur, þá urðu þær tíu; kæmi
maður að vínþröng og ætlaði að ausa fimtíu könnur úr þrónni, þá
urðu þar ekki nema tuttugu. [17] Eg hefi refsað yður með korndrepi og
gulnan og hagli yfir öll handaverk yðar, og þó snúið þér yður ekki til
mín! segir Jahve. [18] Rennið nú huganum frá þessum degi lengra aftur
í tímann, frá hinum tuttugasta og fjórða degi hins níunda mánaðar,
frá þeim degi er lagður var grundvöllur að musteri Jahve. Rennið
huganum yfir, [19] hvort enn sé korn í forðabúrinu og hvort víntrén og
fíkjutrén og granateplatrén og olíutrén beri ekki enn ávöxt. Frá þess-
um degi vil eg blessun gefa!

---

**13:** kap. 2, 4. — **2, 3:** Esr. 3, 12. **4:** kap. 1, 13. **6:** v. 21. Hebr. 12, 26. **13:**
4 Mós. 19, 11. **15:** kap. 1, 5 n. **17:** 5 Mós. 28, 22. Am. 4, 6 n. **18:** v. 10. Esr.
3, 10.

[20] Og orð Jahve kom til Haggaí annað sinn hinn tuttugasta og
fjórða sama mánaðar, svo hljóðandi: [21] Mæl til Serúbabels, landstjóra í
Júda, á þessa leið: Eg mun hræra himin og jörð; [22] eg kollvarpa veld-
isstólum konungsríkjanna og eyðilegg vald hinna heiðnu konungsríkja.
Eg kollvarpa vögnum og þeim, sem í þeim aka, og hestarnir skulu
hníga dauðir og þeir, sem á þeim sitja, hver fyrir annars sverði. [23] Á
þeim degi, segir Jahve hersveitanna, tek eg þig, Serúbabel Sealtíelsson,
þjónn minn, og fer með þig eins og innsiglishring; því að þig hefi eg
útvalið, segir Jahve hersveitanna.

---

# Sakaría.

1 Á áttunda mánuði annars ríkisárs Daríusar kom orð Jahve til
Sakaría spámanns Berekíasonar, Iddósonar, svo hljóðandi: [2] Jahve
var stórreiður feðrum yðar. [3] Seg því við þá: Svo segir Jahve her-
sveitanna: Snúið yður til mín, segir Jahve hersveitanna, þá mun eg
snúa mér til yðar, segir Jahve hersveitanna. [4] Verið ekki eins og feður
yðar, sem hinir fyrri spámennámintu með svofeldum orðum: Svo
segir Jahve hersveitanna: Snúið yður frá yðar vondu breytni og frá
yðar vondu verkum! — en þeir hlýddu ekki og gáfu engan gaum að
mér, segir Jahve. [5] Feður yðar — hvar eru þeir? og spámennirnir —
geta þeir lifað eilíflega? [6] En orð mín og ályktanir, þau er eg bauð
þjónum mínum, spámönnunum, að kunngjöra, hafa þau ekki náð feðr-
um yðar, svo að þeir sneru við og sögðu: Eins og Jahve hersveit-
anna hafði ásett sér að gjöra við oss eftir breytni vorri og verkum
vorum, svo hefir hann við oss gjört.

[7] Á tuttugasta og fjórða degi hins ellefta mánaðar, það er mánað-
arins sebat, á öðru ríkisári Daríusar, kom orð Jahve til Sakaría spá-
manns Berekíasonar, Iddósonar, svo hljóðandi:
[8] Eg sá sýn á náttarþeli: mann ríðandi á rauðum hesti, og hafði
hann staðnæmst meðal mýrtustrjánna, sem eru í dalverpinu; að baki
honum voru rauðir, jarpir og hvítir hestar. [9] Og er eg spurði: Hverjir
eru þessir, herra minn? svaraði engillinn mér, sá er við mig talaði:
Eg skal sýna þér, hverjir þeir eru. [10] Þá tók maðurinn, sem staðnæmst
hafði meðal mýrtustrjánna, til máls og sagði: Þessir eru þeir, sem
Jahve hefir sent til þess að fara um jörðina. [11] Þá svöruðu þeir engli
Jahve, er staðnæmst hafði meðal mýrtustrjánna, og sögðu: Vér höfum
farið um jörðina, og sjá, öll jörðin er í ró og kyrð. [12] Þá svaraði eng-
ill Jahve og sagði: Jahve hersveitanna, hversu lengi á því fram að fara,
að þú miskunnir þig ekki yfir Jerúsalem og Júdaborgir, er þú hefir nú
reiður verið í sjötíu ár? [13] Þá svaraði Jahve englinum, er við mig tal-
aði, blíðum orðum og huggunarríkum, [14] og engillinn, sem við mig tal-
aði, sagði við mig: Kunngjör og seg: Svo segir Jahve hersveitanna:
Eg brenn af mikilli vandlæting vegna Jerúsalem og Zíonar [15] og eg er
stórreiður hinum andvaralausu heiðingjum, sem juku á bölið, þá er eg

---

**20:** v. 10. **21:** v. 6 n. **23:** Jer. 22, 24. — **1, 1:** Hagg. 1, 1. **3:** Mal. 3, 7. **4:** Jes. 31, 6. **12:** Sálm. 102, 14. Jer. 25, 11; 29, 10. Sak. 7, 5. **14:** kap. 8, 2. **15:** Jes. 47, 6.

var lítið eitt reiður. 16 Fyrir því segir Jahve svo: Eg sný mér aftur
að Jerúsalem með miskunnsemi; hús mitt skal verða endurreist í henni,
segir Jahve hersveitanna, og mælivaður skal þaninn verða yfir Jerúsal-
em. 17 Kunngjör enn fremur og seg: Svo segir Jahve hersveitanna:
Enn skulu borgir mínar fljóta í gæðum, og enn mun Jahve hugga Zíon
og enn útvelja Jerúsalem.

2 Og eg hóf upp augu mín og sá, hvar fjögur horn voru. 2 Þá
spurði eg engilinn, sem við mig talaði: Hvað merkja þessi? Hann
svaraði mér: Þetta eru hornin, sem tvístrað hafa Júda, Ísrael og Jerú-
salem. 3 Því næst lét Jahve mig sjá fjóra smiði, 4 og er eg spurði:
Hvað ætla þessir að gjöra? svaraði hann á þessa leið: Þetta eru horn-
in, sem tvístruðu Júda svo, að enginn bar höfuð hátt; en þessir eru
komnir til þess að skelfa þau, til þess að varpa niður hornum þeirra
þjóða, er hófu horn gegn Júdalandi, til þess að tvístra því.
5 Og eg hóf upp augu mín og sá, hvar maður var; hann hélt á
mæliþræði í hendi sér. 6 Þá spurði eg: Hvert ætlar þú? Hann svar-
aði mér: Að mæla Jerúsalem, til þess að sjá, hve löng og hve breið
hún er. 7 Þá gekk engillinn, er við mig talaði, alt í einu fram, og
annar engill gekk fram á móti honum; 8 við hann sagði hann: Hlaup
þú og tala þú svo til þessa unga manns: Jerúsalem skal liggja opin
og ógirt sökum þess fjölda manna og skepna, sem í henni verða, 9 og
eg sjálfur skal vera eins og eldveggur kring um hana, segir Jahve, og
eg skal sýna mig dýrlegan í henni.
10 Upp, upp, flýið úr norðurlandinu, segir Jahve, því að eg hefi
tvístrað yður í allar áttir, segir Jahve. 11 Upp, forðið yður til Zíonar,
þér sem búið í Babelborg! 12 Því að svo hefir Jahve hersveitanna sagt;
vegna heiðurs síns hefir hann sent mig til þjóðanna, sem rændu yður;
því að hver sá, er snertir yður, snertir augastein hans. 13 Því sjá, eg
mun veifa hendi minni yfir þeim, og þá skulu þeir verða þjónum sín-
um að herfangi og þér viðurkenna, að Jahve hersveitanna hefir sent mig.
14 Fagna þú og gleð þig, dóttirin Zíon! Því sjá, eg kem og vil
búa mitt í þér, segir Jahve. 15 Á þeim degi munu margar þjóðir ganga
Jahve á hönd og verða hans lýður og búa mitt á meðal þín, og þú
munt viðurkenna, að Jahve hersveitanna hefir sent mig til þín. 16 Þá
mun Jahve taka Júda til eignar sem arfleifð sína í hinu heilaga landi
og enn útvelja Jerúsalem. 17 Alt hold veri hljótt fyrir Jahve! Því að
hann er risinn upp frá sínum heilaga bústað.

3 Því næst lét hann mig sjá Jósúa æðsta prest, þar sem hann stóð
frammi fyrir engli Jahve og Satan honum til hægri handar, til þess
að ákæra hann. 2 En Jahve mælti til Satans: Jahve ávíti þig, Satan!
Jahve, sem útvalið hefir Jerúsalem, ávíti þig! Er ekki þessi eins og
brandur úr báli dreginn? 3 En Jósúa var í óhreinum klæðum, þar er
hann stóð frammi fyrir englinum. 4 Þá tók engillinn til máls og mælti
til þeirra, er stóðu frammi fyrir honum: Færið hann úr hinum ó-
hreinu klæðum! Síðan sagði hann við hann: Sjá, eg hefi burtnumið
misgjörð þína frá þér og læt nú færa þig í skrúðklæði. 5 Enn fremur
sagði hann: Látið hreinan ennidúk um höfuð hans! Þá létu þeir
hreinan ennidúk um höfuð hans og færðu hann í klæðin, en engill
Jahve stóð hjá.
6 Og engill Jahve vitnaði fyrir Jósúa og sagði: 7 Svo segir Jahve

---

**16:** kap. 8, 3. — **2, 6:** kap. 1, 16. **9:** kap. 9, 8. **11:** Jes. 48, 20. **12:** Sálm. 17, 8.
**13:** kap. 4, 9; 6, 15. **14:** Jes. 12, 6. Zef. 3, 14 n. **16:** kap. 1, 17. **17:** Hab. 2, 20. —
**3, 1:** Esr. 3, 2. **2:** Júd. 9. Sak. 1, 17. Am. 4, 11. **4:** Jes. 6, 7; 61, 10.

hersveitanna: Ef þú gengur á mínum vegum og varðveitir boðorð mín,
þá skalt þú og stjórna húsi mínu og gæta forgarða minna, og eg heimila
þér gang meðal þessara þjóna minna. [8] Heyr, Jósúa æðsti prestur, þú
og félagar þínir, sem sitja frammi fyrir þér, eru fyrirboðar þess, að eg
læt þjón minn Kvist koma. [9] Því sjá, steinninn, sem eg hefi lagt frammi
fyrir Jósúa — sjö augu á einum steini — sjá, eg gref á hann letur
hans, segir Jahve hersveitanna, og tek burt á einum degi misgjörð
þessa lands. [10] Á þeim degi, segir Jahve hersveitanna, munuð þér bjóða
hver öðrum inn undir víntré og fíkjutré.

4 Þá vakti engillinn, er við mig talaði, mig aftur, eins og þegar
maður er vakinn af svefni, [2] og sagði við mig: Hvað sér þú? Eg
svaraði: Eg sé ljósastiku, og er öll af gulli; ofan á henni er olíuskál
og á henni eru sjö lampar og sjö pípur fyrir lampana. [3] Og hjá ljósa-
stikunni standa tvö olíutré, annað hægramegin við olíuskálina, hitt
vinstramegin. [4] Þá tók eg til máls og sagði við engilinn, sem við mig
talaði: Hvað merkir þetta, herra minn? [5] Og engillinn, sem við mig
talaði, svaraði og sagði við mig: Veiztu ekki, hvað þetta merkir? Eg
svaraði: Nei, herra minn! [6] Þá tók hann til máls og sagði við mig:
Þetta eru orð Jahve til Serúbabels: Ekki með valdi né krafti, heldur
fyrir anda minn! segir Jahve hersveitanna. [7] Hver ert þú, stóra fjall?
Fyrir Serúbabel skalt þú verða að sléttu; og hann mun færa út horn-
steininn og þá munu kveða við fagnaðaróp: Dýrlegur, dýrlegur er
hann!

[8] Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: [9] Hendur Serúbabels
hafa lagt grundvöll þessa húss; hendur hans munu og fullgjöra það;
og þá skaltu viðurkenna, að Jahve hersveitanna hefir sent mig til yðar.
[10] Því að allir þeir, sem lítilsvirða þessa litlu byrjun, munu horfa fagn-
andi á blýlóðið í hendi Serúbabels. Þessir sjö eru augu Jahve, sem
líta yfir gjörvalla jörðina.

[11] Þá tók eg til máls og sagði við hann: Hvað merkja þessi tvö
olíutré, hægra og vinstramegin ljósastikunnar? [12] Og eg tók annað
sinn til máls og sagði við hann: Hvað merkja þær tvær olíuviðar-
greinar, sem eru við hliðina á þeim tveimur gullpípum, sem láta gullið
streyma út úr sér? [13] Þá sagði hann við mig: Veiztu ekki, hvað þær
merkja? Eg svaraði: Nei, herra minn! [14] Þá sagði hann: Það eru
þeir tveir smurðu, er standa frammi fyrir drotni gjörvallrar jarðarinnar.

5 Eg hóf aftur upp augu mín og sá bókrollu, sem var á flugi.
[2] Þá sagði hann við mig: Hvað sér þú? Eg svaraði: Eg sé bók-
rollu á flugi, tuttugu álna langa og tíu álna breiða. [3] Þá sagði hann
við mig: Þetta er bölvunin, sem út gengur yfir gjörvalt landið; því að
sérhverjum, sem stelur, verður samkvæmt henni sópað héðan, og sér-
hverjum, sem meinsæri fremur, verður samkvæmt henni sópað héðan.
[4] Eg hefi látið hana út ganga, segir Jahve hersveitanna, til þess að
hún komi inn í hús þjófsins og inn í hús þess, sem meinsæri fremur
við nafn mitt, og staðnæmist inni í húsi hans og eyði því bæði að
viðum og veggjum.

[5] Þessu næst gekk fram engillinn, er við mig talaði, og sagði við
mig: Hef upp augu þín og sjá, hvað þar kemur fram! [6] Eg sagði:
Hvað er þetta? Þá sagði hann: Þetta er efan, sem út gengur. Þá
sagði hann: Þetta er misgjörð þeirra í öllu landinu. [7] Þá lyftist alt í
einu upp kringlótt blýlok og sat þar kona ein niðri í efunni. [8] Þá

---

8: kap. 6, 12. Jer. 23, 5. Jes. 11, 1; 42, 1. **9:** kap. 4, 10. Opinb. 5, 6. **10:** 1 Kong. 4, 25. — **4, 2:** Opinb. 1, 12. **10:** Hagg. 2, 3. 2 Kron. 16, 9. Sak. 3, 9. **14:** Opinb 11, 4. — **5, 1:** Esek. 2, 9 n.

sagði hann: Þetta er Vonzkan! kastaði henni ofan í efuna og kastaði
blýlokinu ofan yfir opið. 9 Síðan hóf eg upp augu mín og sá alt í
einu tvær konur koma fram, og stóð vindur undir vængi þeim — því
að þær höfðu vængi sem storksvængi – og hófu þær efuna upp milli
jarðar og himins. 10 Þá sagði eg við engilinn, sem við mig talaði:
Hvert fara þær með efuna? 11 Hann svaraði mér: Þær ætla að reisa
henni hús í Sínearlandi, og þegar það er búið, þá setja þær hana þar
á sinn stað.

6 Eg hóf aftur upp augu mín og sá, hvar fjórir vagnar komu út
á milli tveggja fjalla, en fjöllin voru eirfjöll. 2 Fyrir fyrsta vagn-
inum voru rauðir hestar, fyrir öðrum vagninum svartir hestar; 3 fyrir
þriðja vagninum voru hvítir hestar og fyrir fjórða vagninum rauð-
skjóttir hestar. 4 Þá tók eg til máls og sagði við engilinn, er við mig
talaði: Hvað merkir þetta, herra minn? 5 Engillinn svaraði og sagði
við mig: Þetta eru þeir fjórir vindar himinsins; þeir hafa gengið fyrir
drottin gjörvallrar jarðarinnar og eru nú að fara af stað. 6 Vagninn með
svörtu hestunum fyrir var að fara til landsins norður frá og hinir hvítu
fóru á eftir þeim; en hinir skjóttu fóru til landsins suður frá. 7 Og
hinir rauðu fóru út; og með því að þeir æsktu að fara, til þess að
fara um jörðina, sagði hann: Farið! Farið um jörðina! Og þeir fóru
um jörðina. 8 Þá kallaði hann á mig og sagði við mig: Sjá, þeir sem
fara til landsins norður frá, svala reiði minni við landið norður frá.

9 Og orð Jahve kom til mín, svo hljóðandi: 10 Tak þú við gjöfum
hinna herleiddu af hendi Heldaí, Tobía og Jedaja, og far þú sjálfur þann
sama dag og gakk þú inn í hús Jósía Zefaníasonar, en þangað eru
þeir komnir frá Babel. 11 Þar skalt þú taka silfur og gull og búa til
kórónur og setja á höfuð Serúbabels og á höfuð Jósúa Józadakssonar
æðsta prests. 12 Og þú skalt mæla þannig til þeirra: Svo segir Jahve
hersveitanna: Sjá, maður, sem heitir Kvistur — af hans rótum mun
spretta, og hann mun byggja musteri Jahve. 13 Hann mun byggja
musteri Jahve og hann mun tign hljóta, svo að hann mun sitja og
drotna í hásæti sínu, og prestur mun vera honum til hægri handar
og friðarþel mun vera milli þeirra beggja. 14 En kórónurnar skulu vera
þeim Helem, Tobía, Jedaja og Hen Zefaníasyni til minningar í musteri
Jahve. 15 Og þeir, sem búa í fjarlægð, munu koma til að byggja must-
eri Jahve, og þá munuð þér viðurkenna, að Jahve hersveitanna hefir
sent mig til yðar, og ef þér hlýðið röddu Jahve, Guðs yðar, þá
mun . . . . .

7 Á fjórða ríkisári Daríusar konungs kom orð Jahve til Sakaría;
á fjórða degi hins níunda mánaðar, í kislevmánuði, 2 sendi skyldu-
lið Elsarezers og Regem-Melek og menn hans, til þess að blíðka Jahve,
3 með svolátandi fyrirspurn til prestanna, sem eru við hús Jahve her-
sveitanna, og til spámannanna: Á eg að gráta og fasta í fimta mán-
uðinum, eins og eg hefi gjört nú í mörg undanfarin ár?
4 Þá kom orð Jahve hersveitanna til mín, svo hljóðandi: 5 Tala
þú til alls landslýðsins og til prestanna á þessa leið: Þar sem
þér hafið fastað og kveinað í fimta og sjöunda mánuðinum nú
í sjötíu ár, hvort var það þá mín vegna að þér föstuðuð? 6 Og
þegar þér etið og þegar þér drekkið, eruð það þá ekki þér,
sem etið, og eruð það ekki þér, sem drekkið? 7 Eru þetta ekki

**11:** 1 Mós. 11, 2. — **6, 2:** Opinb. 6, 2 n. **7:** kap. 1, 10. **12:** kap. 3, 8. **13:** Sálm.
110, 1. 4. **14:** v. 10. — **7, 5:** kap. 8, 19. Jes. 58, 5. 2 Kong. 25, 25. Sak. 1, 12.

þau orð, er Jahve lét kunngjöra fyrir munn hinna fyrri spámanna, þá
er Jerúsalem var bygð og naut friðar, ásamt borgunum umhverfis hana,
og þá er suðurlandið og sléttlendið voru bygð? [8] Þá kom orð Jahve
til Sakaría, svo hljóðandi: [9] Svo segir Jahve hersveitanna: »Dæmið rétta
dóma og auðsýnið hver öðrum kærleika og miskunnsemi. [10] Veitið ekki
ágang ekkjum og munaðarleysingjum, útlendingum né fátækum mönn-
um, og enginn yðar hugsi öðrum ilt í hjarta sínu«. [11] En þeir vildu
ekki gefa því gaum og þverskölluðust; þeir gjörðu eyru sín dauf, til
þess að þeir skyldu ekki heyra, [12] og þeir gjörðu hjörtu sín að demanti,
til þess að þeir skyldu ekki heyra fræðsluna og orðin, sem Jahve her-
sveitanna sendi fyrir anda sinn, fyrir munn hinna fyrri spámanna, og
það kom mikil reiði frá Jahve hersveitanna. [13] Og eins og hann kall-
aði, en þeir heyrðu ekki, svo skulu þeir nú — sagði Jahve hersveit-
anna — kalla, en eg ekki heyra. [14] Og eg feyki þeim burt meðal allra
þjóða, er þeir eigi hafa þekt, og landið skal verða að auðn, þá er þeir
eru burt farnir, svo að enginn fer þar um á leið fram eða aftur. Þannig
gjörðu þeir unaðslegt land að auðn.

8 Og orð Jahve hersveitanna kom til mín, svo hljóðandi: [2] Svo
segir Jahve hersveitanna: Eg er gagntekinn af vandlætisfullri elsku
til Zíonar og er upptendraður af mikilli reiði hennar vegna.

[3] Svo segir Jahve: Eg er á afturleið til Zíonar og mun taka mér
bólfestu í Jerúsalem miðri; og Jerúsalem mun nefnd verða borgin trú-
fasta og fjall Jahve hersveitanna fjallið helga.

[4] Svo segir Jahve hersveitanna: Enn munu gamlir menn og gamlar
konur sitja á torgum Jerúsalem og hvert þeirra hafa staf í hendi sér
fyrir elli sakir. [5] Og torg borgarinnar munu full vera af drengjum og
stúlkum, sem leika sér þar á torgunum.

[6] Svo segir Jahve hersveitanna: Þótt það sé furðuverk í augum
þeirra, sem eftir verða af þessum lýð á þeim dögum, — hvort mun
það og vera furðuverk í mínum augum? segir Jahve hersveitanna.

[7] Svo segir Jahve hersveitanna: Sjá, eg mun frelsa lýð minn úr
landi sólarupprásarinnar og úr landi sólsetursins, [8] og eg mun flytja þá
heim og þeir skulu búa í Jerúsalem miðri, og þeir skulu vera minn
lýður og eg skal vera þeirra Guð í trúfesti og réttlæti.

[9] Svo segir Jahve hersveitanna: Verið hughraustir, þér sem á
þessum dögum heyrið þessi orð af munni spámannanna, sem uppi voru
þá er undirstöðusteinninn var lagður, til þess að endurreisa hús Jahve
hersveitanna, musterið. [10] Því að fyrir þann tíma varð enginn arður
af erfiði mannanna og enginn arður af vinnu skepnanna; og enginn
var óhultur fyrir óvinum, hvort heldur hann gekk út eða kom heim;
og eg hleypti öllum mönnum upp, hverjum á móti öðrum. [11] En nú
stend eg öðruvísi gagnvart leifum þessa lýðs en í fyrri daga, segir Jahve
hersveitanna; [12] því að sáðkorn þeirra verða ósködduð. Víntréð ber
sinn ávöxt og jörðin ber sinn gróða; himininn veitir dögg sína og eg
læt leifar þessa lýðs taka alt þetta til eignar. [13] Og eins og þér, Júda
hús og Ísraels hús, hafið verið hafðir að formæling meðal þjóðanna,
eins vil eg nú svo hjálpa yður, að þér verðið hafðir að blessunarósk-
um. Óttist ekki, verið hughraustir.

[14] Því að svo segir Jahve hersveitanna: Eins og eg ásetti mér að
gjöra yður ilt, þá er feður yðar reittu mig til reiði, segir Jahve her-
sveitanna, og lét mig ekki iðra þess, [15] eins hefi eg nú aftur ásett mér
á þessum dögum að gjöra vel við Jerúsalem og Júda hús. Óttist ekki.

**10:** 2 Mós. 22, 21. 22. Sak. 8, 17. **11:** Neh. 9, 29. **13:** Orðskv. 1, 27. 28. Jes. 1, 15. Jer. 11, 11. — **8, 2:** kap. 1, 14. **3:** kap. 1, 16. Jes. 1, 26. **6:** 1 Mós. 18, 14. **10:** Hagg. 1, 6.

[16] Þetta er það, sem yður ber að gjöra: talið sannleika hver við annan
og dæmið ráðvandlega og eftir óskertum rétti í hliðum yðar. [17] Enginn
yðar hugsi öðrum ilt í hjarta sínu og hafið ekki mætur á lyga-svar-
dögum. Því að alt slíkt hata eg, segir Jahve.
[18] Og orð Jahve hersveitanna kom til mín, svo hljóðandi: [19] Svo
segir Jahve hersveitanna: Fastan í hinum fjórða mánuði, fastan í hin-
um fimta mánuði, fastan í hinum sjöunda mánuði og fastan í hinum
tíunda mánuði mun verða Júda húsi til fagnaðar og gleði og að un-
aðslegum hátíðardögum; en elskið sannleik og frið.
[20] Svo segir Jahve hersveitanna: Enn munu koma heilar þjóðir
og íbúar margra borga. [21] Íbúar einnar borgar munu fara til annarrar
og segja: Vér skulum fara til þess að blíðka Jahve og til þess að
leita Jahve hersveitanna! Eg fer líka! [22] Og þannig munu fjölmennir
þjóðflokkar og voldugar þjóðir koma til þess að leita Jahve hersveit-
anna í Jerúsalem og til þess að blíðka Jahve.
[23] Svo segir Jahve hersveitanna: Á þeim dögum munu tíu menn
af þjóðum ýmissa tungna taka í kyrtilskaut eins Júða og segja: Vér
viljum fara með yður; því að vér höfum heyrt, að Guð sé með yður.

---

9 Spádómur.
Orð Jahve beinist gegn Hadrak-landi og það kemur niður í
Damaskus, — því að Jahve hefir gætur á mönnunum og á öllum ætt-
kvíslum Ísraels. [2] Sömuleiðis í Hamat, sem þar liggur hjá, í Týrus og
Zídon; því að þær eru vitrar mjög. [3] Týrus reisti sér vígi og hrúgaði
saman silfri eins og mold og skíragulli eins og saur á strætum. [4] Sjá,
drottinn skal gjöra hana að öreiga og steypa varnarvirki hennar í sjó-
inn, og sjálf mun hún eydd verða af eldi. [5] Askalon skal sjá það og
hræðast, og Gasa engjast sundur og saman; sömuleiðis Ekron, því að
von hennar er orðin til skammar. Konungurinn mun hverfa frá Gasa
og Askalon mun verða óbygð. [6] Og skríll mun búa í Asdód, og eg
gjöri enda á ofdrambi Filista; [7] og eg tek blóðið burt úr munni þeirra
og viðurstygðirnar undan tönnum þeirra. Þá verða þeir og leifðir Guði
vorum; þeir munu verða eins og ætthöfðingjar í Júda og Ekronmenn
eins og Jebúsítar. [8] Eg sezt kring um hús mitt sem varðlið gegn þeim,
sem um fara og aftur snúa. Enginn kúgari skal framar vaða yfir þá;
því að nú hefi eg séð með eigin augum. [9] Fagna þú mjög, dóttirin
Zíon, lát gleðilátum, dóttirin Jerúsalem! Sjá, konungur þinn kemur til
þín; réttlátur er hann og sigursæll; lítillátur og ríður asna, ungum
ösnufola. [10] Hann útrýmir hervögnum úr Efraím og hestum úr Jerú-
salem. Öllum herbogum mun og útrýmt verða, og hann mun veita
þjóðunum frið með úrskurðum sínum. Veldi hans mun ná frá hafi til
hafs og frá Fljótinu til endimarka jarðarinnar. [11] Og vegna blóðs sátt-
mála þíns læt eg og bandingja þína lausa úr hinni vatnslausu gryfju.
[12] Snúið aftur til hins trausta vígisins, þér bandingjar, sem væntið
lausnar. Einnig í dag er gjört heyrinkunnugt: Eg endurgeld þér tvö-
falt. [13] Því að eg hefi bent Júda eins og boga, fylt Efraím eins og örva-
mæli, og eg vek sonu þína, Zíon, í móti sonum Javans og gjöri þig
eins og sverð í hendi kappa. [14] Jahve mun birtast uppi yfir þeim og
örvar hans út fara sem eldingar. Drottinn Jahve mun þeyta lúðurinn
og ganga fram í sunnanstormunum. [15] Jahve hersveitanna mun halda

---

**16:** kap. 7, 9. Sálm. 15, 1. 2. Ef. 4, 25. **17:** kap. 7, 10; 5, 4. **19:** Jer. 39, 2. Sak. 7, 5. 2 Kong. 25, 1. **21:** Jes. 2, 3. — **9, 2:** Jes. 23, 1 n. Esek. 28, 3 n. **9:** Matt. 21, 5. Jóh. 12, 15. **10:** Sálm. 72, 7. 8. **11:** 2 Mós. 24, 8. 1 Mós. 37, 24. Jer. 38, 6. **12:** Jes. 61, 7.

hlífiskildi yfir þeim; og þeir munu sigra þá og fótum troða þá eins og
slöngusteina. Og þeir munu drekka blóð þeirra eins og vín og verða
fullir eins og fórnarskálar, dreyrstoknir sem altarishorn. 16 Jahve, Guð
þeirra, mun veita þeim sigur á þeim degi sem hjörð síns lýðs; því að
þeir eru gimsteinar í höfuðdjásni, sem gnæfa glitrandi á landi sínu.
17 Já, hversu mikil eru gæði þess og hversu dýrleg fegurð þess! Korn
lætur æskumenn upp renna og vínberjalögur meyjar.

10 Biðjið Jahve um regn. Hann veitir vorregn og haustregn á
réttum tíma; helliskúrir og steypiregn gefur hann þeim, hverri
jurt vallarins. 2 Því að húsgoðin veittu fánýt svör og spásagnamenn-
irnir sáu falssýnir. Þeir kunngjöra aðeins hégómlega drauma og veita
einkisverða huggun. Fyrir því héldu þeir áfram eins og hjörð, eru nú
nauðulega staddir, af því að enginn er hirðirinn. 3 Gegn hirðunum er
reiði mín upptendruð og forustusauðanna skal eg vitja. Því að Jahve
hersveitanna hefir litið til hjarðar sinnar, Júda húss, og gjört þá að
skrauthesti sínum í stríðinu. 4 Frá þeim kemur hornsteinninn, frá þeim
kemur tjaldhællinn, frá þeim kemur herboginn, frá þeim koma allir
saman hershöfðingjarnir. 5 Þeir munu í stríðinu verða eins og hetjur,
sem troða niður saurinn á strætunum, og þeir munu berjast vasklega,
því að Jahve er með þeim, svo að þeir verða til skammar, sem hest-
unum ríða. 6 Eg gjöri Júda hús sterkt og Jósefs húsi veiti eg hjálp.
Eg leiði þá aftur heim, því að eg aumkast yfir þá, og þeir skulu vera
eins og eg hefði aldrei útskúfað þeim. Því að eg er Jahve, Guð þeirra,
og eg vil bænheyra þá. 7 Þá munu Efraímsmenn verða eins og hetjur
og hjarta þeirra gleðjast eins og af víni. Börn þeirra munu sjá það
og gleðjast, hjarta þeirra skal fagna yfir Jahve. 8 Eg vil blístra á þá
og safna þeim saman, því að eg hefi leyst þá, og þeir skulu verða eins
fjölmennir og þeir forðum voru. 9 Eg sái þeim út meðal þjóðanna; en
í fjarlægum löndum munu þeir minnast mín og uppala þar börn sín
og snúa síðan heim. 10 Eg mun leiða þá heim aftur frá Egiptalandi
og safna þeim saman frá Assýríu. Eg leiði þá inn í Gileaðland og inn
á Líbanon, og skorta mun landrými fyrir þá. 11 Þeir fara yfir Egipta-
lands-haf, og hann lýstur hið bárótta haf og allir álar Nílfljótsins þorna.
Hroki Assúrs skal niður steypast og veldissprotinn víkja frá Egiptalandi.
12 Eg vil gjöra þá sterka í Jahve og af hans nafni skulu þeir hrósa sér,
segir Jahve.

11 Upp lúk dyrum þínum, Líbanon, til þess að eldur geti eytt
sedrustrjám þínum. 2 Kveina þú, kýprestré, yfir því að sedrustréð
er fallið; kveinið þér, Basans eikur, yfir því að hinn þykki skógurinn
liggur við velli. 3 Heyr, hversu hirðarnir kveina, af því að prýði þeirra
er eyðilögð; heyr, hversu ungljónin öskra, af því að vegsemd Jórdanar
er eydd.

4 Svo sagði Jahve, Guð minn: Hald til haga skurðarsauðunum,
5 er kaupendur þeirra slátra, án þess að taka gjöld fyrir, og seljendur
þeirra segja: Lofaður sé Jahve, nú er eg orðinn ríkur! og hirðar þeirra
vægja þeim ekki. 6 Því að nú vil eg ekki framar vægja íbúum lands-
ins, segir Jahve. Heldur framsel eg nú sjálfur mennina, hvern í hendur
hirði sínum og í hendur konungi sínum; þeir munu eyða landið og
eg mun engan frelsa undan valdi þeirra.

7 Þá hélt eg til haga skurðarsauðunum fyrir fjárkaupmennina og
tók eg mér tvo stafi; kallaði eg annan þeirra Hylli og hinn Samein-
ing. Gætti eg nú fjárins 8 og afmáði þrjá hirða á einum mánuði;

---

**10, 1:** Sálm. 135, 7. **2:** 1 Mós. 31, 19. **4:** Jes. 22, 23. **9:** 5 Mós. 30, 1 n. **10:** Jes. 49, 19 n. **11:** Jes. 11, 15. **12:** Mík. 4, 5. — **11, 3:** Jer. 25, 36; 12, 5. **7:** v. 14.

varð eg leiður á þeim og þeir höfðu einnig óbeit á mér. 9 Þá sagði eg:
Eg vil ekki gæta yðar; deyi það, sem deyja vill, farist það, sem farast
vill, og það, sem þá verður eftir, eti hvað annað upp. 10 Síðan tók eg
staf minn Hylli og braut í sundur, til þess að bregða þeim sáttmála,
sem eg hafði gjört við allar þjóðir. 11 En er honum var brugðið á
þeim degi, þá könnuðust fjárkaupmennirnir við, þeir er gáfu mér gaum,
að þetta var orð Jahve. 12 Þá sagði eg við þá: Ef yður þóknast, þá
greiðið mér kaup mitt, en að öðrum kosti látið það vera! Þá vógu
þeir mér þrjátíu sikla silfurs í kaup mitt. 13 En Jahve sagði við mig:
Kasta þú því í fjárhirzluna, hinu dýra verðinu, er þú varst metinn af
þeim! Og eg tók þá þrjátíu sikla silfurs og kastaði þeim í fjárhirzl-
una í musteri Jahve. 14 Síðan braut eg sundur hinn stafinn, Samein-
ing, til þess að bregða upp bræðralaginu milli Júda og Ísrael.
15 Því næst sagði Jahve við mig: Tak þér enn verkfæri heimsks
hirðis; 16 því að sjá, eg ætla sjálfur að láta hirði rísa upp í landinu,
sem vitjar ekki þess, sem er að farast, leitar ekki þess, sem vilst hefir,
græðir ekki hið limlesta, annast ekki hið heilbrigða, heldur etur kjötið
af feitu skepnunum og rífur klaufirnar af þeim. 17 Vei hinum ónýta
hirði, sem yfirgefur sauðina. Glötun komi yfir armlegg hans og yfir
hægra auga hans! Armleggur hans visni gjörsamlega og hægra auga
hans verði steinblint.

12 Spádómur. Orð Jahve um Ísrael, guðmæli Jahve, sem útþandi
himininn, grundvallaði jörðina og myndaði andann í brjósti manns-
ins. 2 Sjá, eg gjöri Jerúsalem að vímuskál fyrir allar þjóðirnar, sem
umhverfis hana eru; jafnvel Júda mun vera með í umsátinni um Jerú-
salem. 3 Á þeim degi mun eg gjöra Jerúsalem að aflraunasteini fyrir
allar þjóðir; hver sá, er hefur hann upp, mun hrufla sig til blóðs, og
allar þjóðir jarðarinnar munu safnast gegn henni. 4 Á þeim degi, segir
Jahve, mun eg slá felmt á alla hesta og vitfirring á þá, sem ríða þeim.
Á Júda húsi vil eg hafa vakandi auga, en slá alla hesta þjóðanna með
blindu. 5 Þá munu ætthöfðingjar Júda segja með sjálfum sér: Styrkur
er Jerúsalembúum í Jahve hersveitanna, Guði sínum. 6 Á þeim degi mun
eg gjöra ætthöfðingja Júda eins og glóðarker í viðarkesti og sem brenn-
andi blys í kerfum, og þeir munu eyða til hægri og til vinstri öllum þjóð-
um umhverfis, en Jerúsalem mun verða kyr á sínum stað, eins og áður.
7 Fyrst mun Jahve frelsa tjöld Júda, til þess að frægð Davíðs húss og
frægð Jerúsalembúa verði ekki meiri en Júda.
8 Á þeim degi mun Jahve halda hlífiskildi yfir Jerúsalembúum,
og hinn máttfarni meðal þeirra mun á þeim degi vera eins og Davíð
og Davíðs hús eins og Guð, eins og engill Jahve á undan þeim. 9 Og
á þeim degi mun eg leitast við að eyða öllum þjóðunum, er fóru í móti
Jerúsalem. 10 En yfir Davíðs hús og yfir Jerúsalembúa úthelli eg likn-
ar- og bænaranda, og þeir munu líta til hans, sem þeir lögðu í gegn,
og harma hann eins og menn harma lát einkasonar, og syrgja hann
eins og menn syrgja frumgetinn son. 11 Á þeim degi mun eins mikið
harmakvein verða í Jerúsalem eins og Hadadrimmon-harmakveinið í
Megiddó-dal. 12 Landið mun kveina, hver kynþáttur fyrir sig: kynþátt-
ur Davíðs húss fyrir sig og konur þeirra fyrir sig; kynþáttur Natans
húss fyrir sig og konur þeirra fyrir sig; 13 kynþáttur Leví húss fyrir sig
og konur þeirra fyrir sig; kynþáttur Símeíta fyrir sig og konur þeirra
fyrir sig, 14 og eins allir hinir kynþættirnir, sem eftir eru, hver kynþátt-
ur fyrir sig og konur þeirra fyrir sig.

**12:** 2 Mós. 21, 32. Matt. 26, 15. **13:** Matt. 27, 9. 10. **16:** Esek. 34; 2 n. — **12, 1:**
Jes. 42, 5. **2:** Jes. 51, 17 n. **10:** Jóh. 19, 37. Opinb. 1, 7. Jer. 6, 26. Am. 8, 10.
**11:** 2 Kron. 35, 22 n. **12:** 2 Sam. 5, 14. Lúk. 3, 31. **13:** 4 Mós. 3, 18.

13 Á þeim degi mun Davíðs húsi og Jerúsalembúum standa opin
lind til að þvo af sér syndir og saurugleik; [2] og á þeim degi, segir
Jahve hersveitanna, mun eg afmá nöfn skurðgoðanna úr landinu, svo
að þeirra skal eigi framar minst verða; og sömuleiðis vil eg reka burt
úr landinu spámennina og óhreinleikans anda. [3] En ef nokkur kemur
enn fram sem spámaður, þá munu faðir hans og móðir, hans eigin for-
eldrar, segja við hann: Þú skalt eigi lífi halda, því að þú hefir talað
lygi í nafni Jahve. Og faðir hans og móðir, hans eigin foreldrar, munu
leggja hann í gegn, þá er hann kemur fram sem spámaður. [4] Á þeim
degi munu allir spámenn skammast sín fyrir sýnir sínar, þá er þeir
eru að spá, og þeir skulu eigi klæðast loðfeldum, til þess að blekkja
aðra; [5] heldur mun hver þeirra segja: Eg er enginn spámaður, eg er
akurkarl, því á akuryrkju hefi eg lagt stund frá barnæsku. [6] Og segi
einhver við hann: Hvaða ör eru þetta á brjósti þínu? þá mun hann
svara: Það er eftir högg, sem eg fékk í húsi ástvina minna.

[7] Hef þig á loft, sverð, gegn hirði mínum og gegn manninum, sem
mér er svo nákominn! segir Jahve hersveitanna. Slá þú hirðinn, þá
mun hjörðin tvístrast, og eg mun snúa hendi minni til hinna smáu.
[8] Og svo skal fara í gjörvöllu landinu, segir Jahve, að tveir hlutir lands-
fólksins skulu upprættir verða og gefa upp öndina, en þriðjungur þess
eftir verða. [9] En þennan þriðjung læt eg í eld og bræði þá, eins og
silfur er brætt, og hreinsa þá, eins og gull er hreinsað. Hann mun á-
kalla nafn mitt, og eg mun bænheyra hann og eg mun segja: Þetta er
minn lýður! og hann mun segja: Jahve, Guð minn!
14 Sjá, sá dagur kemur frá Jahve, að herfangi þínu verður skift
mitt í sjálfri þér. [2] Og eg mun safna öllum þjóðunum til hern-
aðar móti Jerúsalem, og borgin mun verða tekin, húsin rænt, konurn-
ar smánaðar; og helmingur borgarmanna mun verða herleiddur, en hinn
lýðurinn mun ekki upprættur verða úr borginni. [3] Og Jahve mun út
fara og berjast við þessar þjóðir, eins og þegar hann barðist forðum á
orustudeginum. [4] Fætur hans munu á þeim degi standa á Olíufjallinu,
sem er austanvert við Jerúsalem, og Olíufjallið mun klofna um þvert
frá austri til vesturs, og þar mun verða geysivíður dalur, því að annar
hluti fjallsins mun undan síga til norðurs, en hinn til suðurs. [5] En
þér munuð flýja í fjalldal minn — því að fjalldalurinn nær til Azal —,
og þér munuð flýja, eins og þér flýðuð undan landskjálftanum á dög-
um Ússía Júdakonungs. En Jahve, Guð minn, mun koma og allir
heilagir með honum.
[6] Á þeim degi mun hvorki verða hiti, kuldi né frost, [7] og það mun
verða óslitinn dagur — hann er Jahve kunnur —, hvorki dagur né
nótt, og jafnvel um kveldtíma mun vera bjart. [8] Á þeim degi munu lif-
andi vötn út fljóta frá Jerúsalem og mun annar helmingur þeirra falla
í austurhafið, en hinn helmingurinn í vesturhafið; skal það verða bæði
sumar og vetur. [9] Jahve mun þá vera konungur yfir öllu landinu; á
þeim degi mun Jahve vera einn og nafn hans eitt. [10] Alt landið frá
Geba til Rimmon, fyrir sunnan Jerúsalem, mun verða að einni sléttu;
en hún mun standa háreist og óhögguð á stöðvum sínum, frá Benja-
mínshliði þangað að er fyrra hliðið var, alt að hornhliðinu, og frá
Hananeel-turni til konungs-vínþrónna. [11] Menn munu búa í henni, og
bannfæring skal eigi framar til vera, og Jerúsalem skal óhult standa.
[12] Og þetta mun verða plágan, sem Jahve mun láta ganga yfir

13, 1: Esek. 36, 25. 2: Mík. 5, 12. 3: 5 Mós. 13, 5 n. 4: 2 Kong. 1, 8. 7: Matt. 26, 31. Mark. 14, 27. 9: Mal. 3, 3. — 14, 5: Am. 1, 1. 8: Esek. 47, 1. Jóel 3, 23. Opinb. 22, 1. 9: Ef. 4, 5. 10: Jer. 31, 38. Neh. 3, 1. 11: Opinb. 22, 3.

allar þær þjóðir, sem fóru herför gegn Jerúsalem: hann mun láta hold
þeirra upp þorna, meðan þeir enn standa á fótum; augu þeirra munu
hjaðna í augnatóttunum og tungan visna í munninum. [13] Á þeim degi
mun mikill felmtur frá Jahve koma yfir þá, og þeir munu þrífa hver í
höndina á öðrum og hver höndin vera uppi á móti annarri. [14] Jafnvel
Júda mun berjast gegn Jerúsalem. Þá mun auð allra þjóðanna, sem
umhverfis eru, safnað verða saman: gulli, silfri og klæðum hrönnum
saman. [15] Og alveg sama plágan mun koma yfir hesta, múla, úlfalda,
asna og yfir höfuð yfir allar þær skepnur, sem verða munu í þeim
herbúðum.

[16] En allir þeir, sem eftir verða af öllum þeim þjóðum, sem farið
hafa móti Jerúsalem, munu á hverju ári fara upp þangað, til þess að
falla fram fyrir konunginum, Jahve hersveitanna, og til að halda lauf-
skálahátíðina. [17] En þeir menn af kynkvíslum jarðarinnar, sem ekki
fara upp til Jerúsalem, til þess að falla fram fyrir konunginum, Jahve
hersveitanna, yfir þá mun engin regnskúr koma. [18] Og ef kynkvísl
Egiptalands fer eigi upp þangað og kemur ekki, þá mun sama plágan
koma yfir þá sem Jahve lætur koma yfir þær þjóðir, er eigi fara upp
þangað til að halda laufskálahátíðina. [19] Þetta mun verða hegning
Egipta og hegning allra þeirra þjóða, sem eigi fara upp þangað, til
þess að halda laufskálahátíðina.

[20] Á þeim degi skal standa á bjöllum hestanna: »Helgaður Jahve«,
og katlarnir í húsi Jahve munu verða eins stórir og fórnarskálarnar
fyrir altarinu. [21] Og sérhver ketill í Jerúsalem og í Júda mun helgað-
ur vera Jahve hersveitanna, og allir þeir, sem fórnfæra vilja, munu
koma og taka einhvern þeirra og sjóða í, og á þeim degi mun enginn
mangari framar vera í húsi Jahve hersveitanna.

# Malakí.

1 Spádómur. Orð Jahve til Ísraels fyrir munn Malakí.

[2] Eg elska yður, segir Jahve. Og ef þér spyrjið: »Með hverju
hefir þú sýnt á oss kærleika þinn?« þá svarar Jahve: Er ekki Esaú
bróðir Jakobs? en eg elskaði Jakob, [3] og Esaú hataði eg, svo að eg
gjörði fjallbygðir hans að auðn og fékk eyðimerkur-sjakölunum arfleifð
hans til eignar. [4] Ef Edómítar segja: Vér höfum að vísu orðið fyrir
eyðingu, en vér munum byggja upp aftur rofin! þá segir Jahve
hersveitanna svo: Byggi þeir, en eg mun rífa niður, svo að menn
munu kalla þá »Glæpaland« og »lýðinn, sem Jahve er eilíflega reiður«.
[5] Þér munuð sjá það með eigin augum og þér munuð segja: Mikill er
Jahve langt út yfir landamæri Ísraels.

[6] Sonurinn skal heiðra föður sinn og þrællinn húsbónda sinn. En
sé eg nú faðir, hvar er þá heiðurinn, sem mér ber, og sé eg húsbóndi,
hvar er þá lotningin, sem mér ber? segir Jahve hersveitanna við yður,
þér prestar, sem óvirðið nafn mitt. Þér spyrjið: Með hverju óvirðum
vér nafn þitt? [7] Þér berið fram óhreina fæðu á altari mitt. Og enn

15: v. 12. 16: 3 Mós. 23, 34 n. 20: 2 Mós. 28, 36. 21: Jóel 3, 22. — 1, 2: Róm.
9, 13. 8: Jes. 34, 13. Jer. 49, 10. 17. 18. 6: 2 Mós. 20, 12.

getið þér spurt: Með hverju ósæmum vér þig? þar sem þér þó
segið: Borð Jahve er lítils metandi! 8 Og þegar þér færið fram
blinda skepnu til fórnar, þá kallið þér það ekki saka, og þegar
þér færið fram halta eða sjúka skepnu, þá kallið þér það ekki saka.
Fær landstjóra þínum það, — vit hvort honum geðjast þá vel að þér
eða hvort hann tekur þér vel! segir Jahve hersveitanna. 9 Og nú, blíðkið
Guð, til þess að hann sýni oss líknsemi. Yður er um þetta að kenna;
getur hann þá tekið nokkurum yðar vel? segir Jahve hersveitanna.
10 Sæmra væri að einhver yðar lokaði dyrunum, svo að þér
tendruðuð ekki eld til ónýtis á altari mínu. Eg hefi enga velþóknun á
yður, segir Jahve hersveitanna, og eg girnist enga fórnargjöf af yðar
hendi. 11 Því að frá upprás sólar alt til niðurgöngu hennar er nafn
mitt mikið meðal þjóðanna og alstaðar er nafni mínu fórnað reykelsi
og hreinni matfórn; því að nafn mitt er mikið meðal þjóðanna, segir
Jahve hersveitanna. 12 En þér vanhelgið það, með því að þér segið:
Borð drottins er óhreint, og það, sem af því fellur oss til fæðslu, er
einskisvert. 13 Og þér segið: Sjá, hvílík fyrirhöfn! og fyrirlítið það,
segir Jahve hersveitanna, og þér færið fram það sem rænt er og það
sem halt er og það sem sjúkt er og færið það í fórn; ætti eg að girnast
slíkt af yðar hendi? segir Jahve. 14 Bölvaðir veri þeir svikarar, er eiga
hvatan fénað í hjörð sinni og gjöra heit, en fórna síðan drotni gölluðu
berfé! Því að eg er mikill konungur, segir Jahve hersveitanna, og
menn óttast nafn mitt meðal heiðingjanna.

2 Og nú út gengur þessi viðvörun til yðar, þér prestar: 2 Ef þér
hlýðið ekki og látið yður ekki um það hugað, að gefa nafni mínu
dýrðina, segir Jahve hersveitanna, þá sendi eg yfir yður bölvunina og
sný blessunum yðar í bölvun, já eg hefi þegar snúið þeim í bölvun, af
því að þér látið yður ekki um það hugað. 3 Sjá, eg högg af yður
arminn og strái saur framan í yður, saurnum frá hátíðafórnunum, og
varpa yður út til hans. 4 Og þér munuð viðurkenna, að eg hefi sent
yður þessa viðvörun, til þess að sáttmáli minn við Leví mætti haldast,
segir Jahve hersveitanna. 5 Sáttmáli minn var við hann, líf og ham-
ingju veitti eg honum, lotningarfullan ótta, svo að hann óttaðist mig
og bæri mikla lotningu fyrir nafni mínu. 6 Sönn fræðsla var í munni
hans og rangindi fundust ekki á vörum hans; í friði og ráðvendni gekk
hann með mér og mörgum aftraði hann frá misgjörðum. 7 Því að varir
prestsins eiga að varðveita þekkingu, og fræðslu leita menn af munni
hans; því að hann er sendiboði Jahve hersveitanna. 8 En þér hafið
vikið af veginum og leitt marga í hrösun með fræðslu yðar; þér hafið
spilt sáttmála Leví, segir Jahve hersveitanna. 9 Fyrir því hefi eg og komið
yður í fyrirlitningu og óvirðingu hjá gjörvöllum lýðnum, af því að þér
gætið ekki minna vega og eruð hlutdrægir við fræðsluna.

10 Eigum vér ekki allir hinn sama föður? Hefir ekki einn Guð
skapað oss? Hvers vegna breytum vér þá sviksamlega hver við annan
og vanhelgum sáttmála feðra vorra? 11 Júda hefir gjörst trúrofi og sví-
virðingar viðgangast í Ísrael og í Jerúsalem; því að Júda hefir van-
helgað helgidóm Jahve, sem hann elskar, og gengið að eiga þær konur,
sem trúa á útlenda guði. 12 Jahve afmái fyrir þeim manni, er slíkt
gjörir, kæranda og verjanda úr tjöldum Jakobs og þann er framber
fórnargjafir fyrir Jahve hersveitanna.
13 Í öðru lagi gjörið þér þetta: Þér hyljið altari Jahve með tár-
um, með gráti og andvörpunum, þar sem eigi getur framar komið til

8: 3 Mós. 22, 20 n. 10: Jes. 1, 13. 14: 3 Mós. 22, 18 n. Sálm. 47, 3. — 2, 2: 5
Mós. 28, 15 n. 3: 2 Mós. 29, 14. 7: Hagg. 1, 13. 9: 1 Sam. 2, 30. 5 Mós. 1, 17.
10: Ef. 4, 6. 11: Esr. 9, 1 n.

mála að hann líti vingjarnlega á fórnirnar né taki á móti velþókn-
anlegum gjöfum af yðar hendi. [14] Þér segið: Hvers vegna? Af því
að Jahve var vottur að sáttmálsgjörðinni milli þín og konu æsku þinn-
ar, er þú hefir nú brugðið trúnaði við, enda þótt hún væri förunautur
þinn og eiginkona þín eftir gjörðu sáttmáli. [15] Hefir ekki einn og hinn
sami gefið oss lífið og viðhaldið því? Og hvað heimtar sá hinn eini?
Guðs sæði! Gætið yðar því í huga yðar, og bregð eigi trúnaði við
eiginkonu æsku þinnar. [16] Því að eg hata hjónaskilnað, segir Jahve,
Ísraels Guð, og þann sem hylur klæði sín glæpum, segir Jahve her-
sveitanna. Gætið yðar því í huga yðar og bregðið aldrei trúnaði.

[17] Þér hafið mætt Jahve með orðum yðar og þér segið: Með hverju
mæðum vér hann? Með því, að þér segið: Sérhver, sem ilt gjörir, er
góður í augum Jahve, og um slíka þykir honum vænt; eða hvar er sá
3 Guð, sem dæmir? [1] Sjá, eg sendi sendiboða minn og hann mun
greiða veginn fyrir mér; og bráðlega mun hann koma til musteris
síns, sá drottinn er þér leitið, og engill sáttmálans, sá er þér þráið; sjá,
hann kemur, segir Jahve hersveitanna. [2] En hver má afbera þann dag,
er hann kemur? og hver fær staðist, þegar hann birtist? Því að hann
er sem eldur málmbræðslumannsins og sem lútarsalt þvottamannanna.
[3] Og hann mun sitja og bræða og hreinsa silfrið, og hann mun hreinsa
Levítana og gjöra þá skíra sem gull og silfur, til þess að Jahve hafi
aftur þá menn, er bera fram fórnir á þann hátt, sem rétt er, [4] og þá
munu fórnir Júdamanna og Jerúsalembúa geðjast Jahve eins og forð-
um daga og eins og á löngu liðnum árum. [5] En eg mun nálægja mig
yður til að halda dóm og mun skyndilega fram ganga sem vitni í gegn
töframönnum, hórdómsmönnum og meinsærismönnum og í gegn þeim,
sem hafa af daglaunamönnum, ekkjum og munaðarleysingjum og halla
rétti útlendinga, en óttast mig ekki, segir Jahve hersveitanna.
[6] Því að eg, Jahve, hefi ekki breytt mér, og þér, Jakobssynir, eruð
samir við yður. [7] Alt í frá dögum feðra yðar hafið þér vikið frá setn-
ingum mínum og ekki gætt þeirra. Snúið yður til mín, þá mun eg
snúa mér til yðar, segir Jahve hersveitanna. En þér spyrjið: Að hverju
leyti eigum vér að snúa oss? [8] Á maðurinn að pretta Guð, úr því að
þér prettið mig? Þér spyrjið: Í hverju höfum vér prettað þig? Í tí-
und og lyftifórnum. [9] Mikil bölvun hvílir yfir yður, af því að þér
prettið mig, öll þjóðin. [10] Færið alla tíundina í forðabúrið, til þess að
fæðsla sé til í húsi mínu, og reynið mig einu sinni á þennan hátt, segir
Jahve hersveitanna, hvort eg lýk ekki upp fyrir yður flóðgáttum him-
insins og úthelli yfir yður yfirgnæfanlegri blessun. [11] Og eg mun hasta á
átvarginn fyrir yður, til þess að hann spilli ekki fyrir yður gróðri
jarðarinnar og víntréð á akrinum verði yður ekki ávaxtarlaust, segir
Jahve hersveitanna. [12] Þá munu allar þjóðir telja yður sæla, því að
þér munuð vera dýrindisland, segir Jahve hersveitanna.
[13] Hörð eru ummæli yðar um mig, segir Jahve. Og þér spyrjið:
Hvað höfum vér þá sagt vor í milli um þig? [14] Þér segið: Það er
til einskis að þjóna Guði, eða hvaða ávinning höfum vér af því haft,
að vér varðveittum boðorð hans og gengum í sorgarbúningi fyrir
augliti Jahve hersveitanna? [15] Fyrir því teljum vér nú hina hrokafullu
sæla; þeir þrifust eigi aðeins vel, þá er þeir höfðu guðleysi í frammi,
heldur freistuðu þeir og Guðs, og sluppu óhegndir.
[16] Slíkt mæla þeir hver við annan, sem óttast Jahve, og Jahve

---

**3, 1:** kap. 4, 5. Matt. 11, 10. Mark. 1, 2. Lúk. 7, 27. Jes. 40, 3 n. **2:** Jóel 2, 11.
**3:** Sak. 13, 9. **5:** 5 Mós. 24, 14. 17. **6:** 4 Mós. 23, 19. **7:** Sak. 1, 3. **13:** kap. 2, 17.
**15:** kap. 4, 1.

gefur gætur að því og heyrir það, og frammi fyrir augliti hans er rituð
minnisbók fyrir þá, sem óttast Jahve og virða hans nafn. 17 Og þeir
skulu vera mín eign, segir Jahve hersveitanna, á þeim degi, sem eg
hefst handa, og eg mun vægja þeim, eins og maður vægir syni sínum,
sem þjónar honum. 18 Þá munuð þér aftur sjá þann mismun, sem er
á milli réttláts manns og óguðlegs, á milli þess, sem Guði þjónar og
4 hins, sem ekki þjónar honum. 1 Því sjá, dagurinn kemur, brenn-
andi sem ofn; og allir hrokafullir og allir þeir, er guðleysi fremja,
munu þá vera sem hálmleggir, og dagurinn, sem kemur, mun kveikja
í þeim, segir Jahve hersveitanna, svo að hvorki verði eftir af þeim rót
né kvistur. 2 En yfir yður, sem óttist nafn mitt, mun réttlætissólin upp
renna með græðslu undir vængjum sínum, og þér munuð út koma og
leika yður eins og kálfar, sem út er hleypt úr stíu, 3 og þér munuð
sundur troða hina óguðlegu, því að þeir munu verða aska undir iljum
yðar, á þeim degi, er eg hefst handa, segir Jahve hersveitanna.
4 Munið eftir lögmáli Móse þjóns míns, þess er eg á Hóreb fól
setninga og ákvæði fyrir allan Ísrael. 5 Sjá, eg sendi yður Elía spá-
mann áður en hinn mikli og ógurlegi dagur Jahve kemur; 6 hann mun
sætta feður við sonu og sonu við feður, til þess að eg komi ekki og
ljósti landið banni.

---

**17:** kap. 4, 3. — **4, 1:** kap. 3, 15. **2:** kap. 3, 16. Lúk. 1, 78. **3:** kap. 3, 17. **4:** 2 Mós. 20, 1 n. **5:** kap. 3, 1. Matt. 11, 14; 17, 12 n. Mark. 9, 11 n. Lúk. 1, 17. **6:** Lúk. 1, 17.

